# ÍSLENZKAR

# ÞJÓÐSÖGUR OG ÆFINTÝRI

SAFNAÐ HEFIR

JÓN ÁRNASON

ANNAÐ BINDI

LEIPZIG

AÐ FORLAGI J. C. HINRICHS'S BOKAVERZLUNAR

1864

# EPTIRMÁLI.

Í formála fyrsta bindis af þjóðsögum þessum (I, XXXI—II) er þess vænst, að við enda annars bindis muni verða samin nafnaskrá allra þeirra manna, sem sýnt hafa safni þessu þá góðvild, að rita sögur í það, eður á aðra lund eru heimildarmenn að sögnum eður munnmælum. En, því miður, hefir höfundi safnsins, sökum langvaranda krankleika, ekki verið auðið að semja sjálfum nafnaskrá þessa, sem hann þó hafði í hyggju. En með því nú, að ekki mátti lengur dragast úr hömlu að lykja bindi þetta, nè heldur var hitt gjörlegt að láta óefnt það sem lofað var, þá hefi eg orðið sjálfur að semja nafnaskrá þessa; vil eg því biðja menn, að kenna þessu um, ef hún reynist vanrituð eður miður úr garði gjör, en við mætti búast, ef höfundurinn sjálfur hefði samið hana. það ber ekki ósjaldan við í sögum þessum, að vísað er til hèraða á Íslandi, en ekki manna, sem sögurnar sè frá. Aðrar sögur eru almennar, og ganga um allt land og hefir höfundurinn ekki borið neinn einstakan mann fyrir þeim; kann því mart að vera vantalið, því mèr var ekki unnt að vita, frá hverjum þessar sögur voru, en veit þó, að ekki hafa sögurnar skrifað sig sjálfar. Sumar sögur eru úr safni Árna Magnússonar, og hefir Guðbrandur Vigfússon safnað þeim; sumar eru teknar úr ymsum öðrum handritum sem mèr eru sum ókunn. þar á móti er það með ráði gjört, að eg tilfæri ekki sèra Magnús heitinn Grímsson í nafnaskrá þessari; hann er rètttalinn einn af höfundum safnsins, og er hans getið í formálanum, og hvern hluta hann hefir átt að sögum þessum. Eg hefi og með vilja sleppt þeim herra Jóni Sigurðssyni, Guðbrandi Vigfússyni og svo sjálfum mèr. þess er getið í formálanum hvern hluta við allir saman eigum í safni þessu; þarmeð hefir og höfundurinn svo vandlega getið hvers eina sem tekið er úr bók minni: Isländische Volkssagen, að það var óþarfi að telja það upp aptur.

München, 31. December 1863.

**Konrad Maurer.**

# NAFNASKRÁ.

# YFIRLIT ANNARS BINDIS.

# 5. FLOKKUR.

## HELGISÖGUR.

Hèr verður að minnast nokkurra sagna, sem eru að því leyti einkennilegar, að þær lúta að kirkjulegum hugmyndum og hafa kristilegan blæ á sèr. Það er eins hèr og annarstaðar, að ekki verða allar sögur, sem þó í nokkru virðast skyldar þessu efni, teknar í þenna flokk, heldur látnar fylgja næsta flokki á eptir, og enn nokkrar öðrum flokkum, eins og ekki fáar djöflasögur og púka eru komnar á undan í galdrasögum. En hèr þykir rèttast, að setja þær helgisögur, sem einkenna bezt þenna flokk frá öðrum munnmæla sögum veraldlegs efnis, eða þeim, sem úr heiðni eru teknar. Þessar sögur gjöra ýmist guð eða Krist að umtals efni, eða kölska, eða þá helga menn; aðrar hljóða um paradís og helvíti, eða einstaka refsidóma guðs; loksins verður að minnast nokkuð þeirrar hjátrúar, sem hèr hefir haldizt í ýmsum greinum, síðan í páfadómi. Með þessum hætti er þá sögunum skipað í þenna flokk.

### 1. GREIN.

#### GUÐ OG KÖLSKI.

**a)** Nokkrar sögur gjöra að umtalsefni guðlegan mátt, speki og gæzku og á hinn bóginn vanmætti djöfulsins, ófimleik hans og illgirni. Í þessum sögum er þráfaldlega hæðst að því, að allar tilraunir misheppnast. Í sumum slíkum sögnum kemur sánkti Pètur fyrir, eins og hann væri sjálfur drottinn, af því það hefir þókt eiga bezt við, að láta hann, sem var æðstur allra helgra manna, hafa svo virðulegt hlutverk, en þótt það liggi við sjálft, að hann komi stundum nokkuð kátlega fram. Í sumum sögum er sánkti Pètur nokkurs konar miðliður milli drottins og djöfulsins, vanmáttugri en drottinn, en máttugri en djöfullinn.

**Lausnarinn og lóurnar.** (Almenn sögn nyrðra.) Einu sinni var Kristur að mynda fugla af leiri með öðrum börnum Gyðínga á sabbatsdegi. Þegar börnin höfðu verið að þessari iðju um hríð, bar þar að einn af Sadúseum; hann var aldraður og siðavandur mjög, og átaldi börnin fyrir þetta athæfi þeirra á sjálfum sabbatsdeginum. Hann lèt sèr þó ekki nægja ákúrurnar einar, heldur gekk hann að leirfuglunum, og braut þá alla fyrir börnunum. Þegar Kristur sá, hvað verða vildi, brá hann hendi sinni yfir allar fugla-

myndirnar, sem hann hafði búið til, og flugu þeir þegar upp lifandi. En það eru lóurnar, og því er kvak þeirra „dýrrin“ eða „dýrrindí“, að þær sýngja drottni sínum dýrð og lof fyrir lausnina frá ómildri hendi Sadúseans. Ef maður heyrir til lóunnar þetta fyrst á vorin: „Dýrrin, dýrrin“, veit það á gott; en heyri maður fyrst til hennar: „Óhú, óhú“, mun motdrægt verða.

**Flautir.** (Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.) Frá því er sagt, að einu sinni hafi Kristur komið til fátækrar ekkju, sem ekki átti sèr aðra björg, en eina mjólkurgeit. Hún bað hann því blessaðan að drýgja nú björg sína. Hann kendi henni þá að búa til þyril og flautir. Svona er sagt að flautirnar sè til komnar, og hafa þær jafnan verið taldar fátækra manna fæða. — Enn þó flautir þyki ekki góður matur til undirstöðu, á alt að einu að vera meira manneldi í þeim, en skyrinu, og er sú saga til þess, að einu sinni voru tveir menn samferða í fannfergishríð á vetrardag. Hafði annar þeirra lifað mestmegnis á skyri og mjólk, en hinn á flautum. Þegar þeir höfðu haldið á fram um stund í snjónum og ófærðinni, fór að smádraga máttinn úr þeim, sem á skyrinu hafði lifað, og seinast gafst hann upp með öllu. Tók hinn hann þá á herðar sèr, „og svo bar hann flautabelgur hann skyrbelg“ til bygða.

**Það var harla gott.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 190. bls., eptir Boga sýslumanni Thorarensen.) Þegar guð drottinn hafði skapað himin og jörð, virti hann það fyrir sèr og sá, að það var harla gott. En kölski var ekki á því; honum sveið það hversu fagur heimurinn væri. Hann tók það ráð í reiði sinni, ad hann meig á móti sólinni, og ætlaði að myrkva með því þenna dýrðar depil sköpunarverksins. En ekki varð nú af því samt, því úr migu kölska myndaðist Mývatn á Norðurlandi; enda þykir það jafnan ljótt stöðuvatn, og þó mývargurinn, er vatnið dregur án efa nafn af, enn verri, og er hann sannkallað kvalræði fyrir menn og málleysíngja umhverfis vatnið.[1]

**Snemma beygist krókurinn, sem verða vill.** (Almenn sögn nyrðra.) Ekki var guð fyrr búinn að skapa manninn, en djöfullinn fèkk öfund á honum og vildi reyna að gera honum mein. Kölski leggur þá krók á hala sinn, hittir guð almáttugan og biður hann að gefa sèr misjöfnurnar framan af öllum fíngrunum mannsins, svo að allir fíngurnir verði jafn lángir. Guð hèt honum því, að hann mætti eignast misjöfnur þessar, ef fíngurnir yrði ekki allir jafn lángir, þegar höndin er krept. En vara má sá sig að missa ekki framkögglana, ef ekki verða allir jafnir, þegar í lófan koma. Þegar kölski sá, að hann mundi lítið græða á þessu loforði drottins, bað hann drottinn aptur um saurindi þau, sem maðurinn legði af sèr, þegar hann

---

1. Sbr. IV. flokks 1. grein „Mýflugan“. (I. Bindi, 626—27. bls.)

geingi á jörð. Drottinn leyfði honum það með því móti að maðurinn líti ekki aptur fyrir sig, þegar hann er búinn að ganga erinda sinna. En svo er sagt, að það verði flestum, að líta aptur. Þegar kölski sá, að hann mundi hvorugt fá af þessu, bað hann guð um neglur þær, sem menn skera af sèr, eða klippa. Guð hèt honum þeim, ef öll nöglin væri skorin af í einu og ekki hlutuð sundur á eptir, en væri hún skorin af í þrem hlutum, skyldi kölski ekkert af þeim hafa. Þess vegna sker hver maður af sèr neglur í þremur eða fleiri hlutum; því annars hirðir kölski neglurnar, ef þær eru skornar á í einu lagi og ekki skipt sundur, og eykur sèr saman úr þeim skæði, þángað til hann fær sèr í skó, sem nokkrum sinnum hefir borið við.[1]

**„Skrattinn fór að skapa mann“.** (Almenn sögn, sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 190. bls.) Djöfullinn vildi ekki verða minni en guð, fór til og ætlaði að skapa mann. En sú tilraun fórst honum ekki höndulega; því í staðinn fyrir að skapa mann, varð kötturinn úr því, og þó vantaði á hann skinnið. Sánkti Pètur aumkvaðist þá yfir þessa sköpun, og skapaði skinnið á köttinn, sem hèr segir:

„Skrattinn fór að skapa mann,
skinnlaus köttur varð úr því;
helgi Pètur hjálpa vann,
húðina færði dýrið í“.[2]

Enda er skinnið hið eina, sem þykir nýtandi af kettinum.

**Rauðmaginn, grásleppan og marglyttan.** (Eptir sögn manna í Borgarfirði.) Einu sinni gekk Jesús Kristur með sjó fram og sánkti Pètur með honum. Kristur hrækti í sjóinn, og af því varð rauðmaginn. Þá hrækti og sánkti Pètur í sjóinn, og af því varð grásleppan, og þykir hvorttveggja gott átu, og rauðmaginn jafnvel herramanns-matur. Djöfullinn gekk í hámóti á eptir þeim með sjónum, og sá, hvað fram fór. Hann vildi þá ekki verða minnstur, og hrækti líka í sjóinn, en úr þeim hráka varð marglyttan, og er hún til einkis nýt.

**Ísan.** (Eptir sögn manna í Borgarfirði.) Einu sinni ætlaði djöfullinn að veiða fisk úr sjó. Þreifaði hann þá fyrir sèr, og varð fyrir honum ísa. Hann tók undir eyruggana, og sèr þar síðan svarta bletti á ísunni; það eru fíngraför djöfsa. Ísan tók þá viðbragð mikið, og rann úr klóm kölska, og

1. Sbr. Snorra-Eddu um skipið Naglfara og skó Viðars.
2. Aðrir (norðlendingar) hafa vísuna þannig:
„Skrattinn fór að skapa mann
skríngilega með hár og skinn,
andanum kom hann ekki í hann
úr því varð þá kötturinn.“

er þar svört rákin eptir á ísunni, sem klær hans strukust um báðu megin á hliðunum.

**b)** Sumar sagnir gjöra kölska einn að umtalsefni, þar sem hann hendir gaman að illu athæfi manna og óguðlegu, og verður það þá ósjaldan niðurstaðan í slíkum sögum, að kölski sækir þar eign sína að leikslokum; því „sínum er fjandinn verstur“.

**Púkinn á kirkjubitanum.** (Eptir Sigurð málara Guðmundsson.) Einu sinni var prestur; en ekki er þess getið, hvar hann hafi verið. Hann messaði einn sunnudag, sem optar, og fór alt í sniðum hjá honum, eins og vant var, og bar ekki neitt á neinu, fyrr en eptir það að hann var kominn upp í stólinn, og farinn að flytja ræðuna, að þá var einn maður í framkirkjunni, sem skellihló undir ræðunni. Ekki var þessu neinn gaumur gefinn, hvorki af presti nè öðrum að sinni, enda bar ekki svo til, nema í þetta eina skipti. Prestur lauk svo ræðu sinni, fór úr stól og fyrir altari eptir messuna og gjörði öll prestsverk, sem vera bar, og gekk að lokinni embættisgjörð úr kirkju.

Þegar úti var, fór prestur að spyrjast fyrir um mann þann, er gjört hafði hneykslið í söfnuðinum um messutímann, og var honum sagt, hver verið hafði. Lèt þá prestur kalla manninn fyrir sig, og spurði hann, hvort honum hefði þókt það svo hlægilegt, sem hann hefði farið með í dag í stólnum, að hann hefði ekki getað varizt hlátri, og hneyksla með því söfnuðinn, eða hvað honum hefði til þess geingið. Maðurinn kvað því fjærri fara, að sèr hefði dottið í hug að hlægja að kenníngu prestsins. „En eg sá nokkuð“, segir hann, „sem þèr hafið líklega ekki sèð, prestur góður, og trauðlega nokkur annar af söfnuðinum“. „Hvað var það?“ segir prestur. „Þegar þèr, prestur minn, voruð nýkominn upp í stólinn“, segir maðurinn, „fóru tvær kerlíngar, sem sátu kvennmannamegin í krókbekknum að rífast, og jós þar hvor yfir aðra óbóta skömmum. Í því bili varð mèr litið upp á kirkjubitann, sá eg þá, að þar var kominn púki. Hann hafði í annari krumlu skorpna skinnbót, en í hinni hèlt hann á hrosslegg. Púkinn lagði kollhúfurnar við hverju fúkyrði, er úr kerlíngunum fór, og hleraði grant að, og ritaði jafnóðum með hrossleggnum á skóbótina, alt sem þær sögðu, meðan hún endist til. En þar kom um síðir, að skóbótin varð of lítil; varð fjanda þá eigi ráðafátt, því hann fer þá til og teygir hana, tekur í hana með tönnunum öðru megin en með krumlunum hinu megin, og endist hún honum þá enn um hríð. Heldur hann þó á fram í óða kappi, uns skóbótin er útskrifuð. Gjörir hann þá enn sem fyrr, að hann teygir bótina, og fer svo aptur að skrifa. Geingur þetta svo koll af kolli, að púkinn teygir bótina á alla vegu, í hvert sinn, sem rúmið þrýtur á henni. Loksins kemur þó þar að, að hann er búinn að rita bótina í æsar, og þenja hana svo, að öll teygja er úr henni. En með því bæði að kerlíngar

lètu enn dæluna gánga, og púki vildi fyrir eingan mun missa af fúkyrðum þeirra, fer hann en til og teygir alt sem hann má. En í því hann tekur sem fastast í með tönnunum, rifnar skóbótin, og við það hrýtur púkinn aptur á bak ofan af kirkjubitanum, og hefði líklega skollið kylliflatur niður í kirkjugólfið, hefði hann ekki, um leið, og hann rauk ofan, fest klónum í kirkjubitanum. Og þá varð mèr það, prestur góður, að eg hló, og bið eg nú bæði yður og söfnuðinn auðmjúklega fyrirgefníngar á því, ef hneyksli hefir af mèr orðið.“

Presturinn fann, að manninum var vorkun, að honum hefði þetta á orðið, og setti honum hægar skriptir til aðvörunar fyrir aðra; en prestur kvaðst vitja, að kerlíngar þessar ættu annað erindi næst til kirkju, en skemta skrattanum með skammyrðum í kirkjunni.

**Brytinn í Skálholti.** (Eptir handriti sèra Benedikts þórðarsonar á Brjánslæk.) Eitt sinn var biskup einn í Skálholti, er mjög var harður við bryta sína og ónærgætinn. Var það því bæði, að þeir undu illa hjá honum, og fóru með ósæmd frá honum. Margir óskuðu biskupi íls fyrir hörku hans, og báðu fjandann koma til hans í sinn stað, og þar að kom, að biskup vantaði bryta, og var í ráðaleysi, að fá hann. Kom þá til hans maður, roskinlegur, rauðhærður og riðvaxinn, og bauð honum þjónustu sína, og að verða bryti hans. Biskup þiggur þetta því fúslegar, sem hann var vandara viðkominn, og þessi maður áskyldi ekkert um kaupgjaldið, og kvað slíkt mega bíða þess, að hann færi burt frá honum. Ekki gjörði hann biskupi neina grein fyrir ætt sinni og uppruna, eða hvaðan hann væri að kominn; kvað hann það eingu varða; hitt væri á að líta, hvernig hann reyndist. Tekur hann nú við búsforráðum og fannst það svo, að biskupi líkar vel og er nú kyrt nokkra stund. Gamall bóndi var í sókninni, málkunnugur biskupi, og fær í forneskju. Varð brátt mjög stirt milli bónda þessa og bryta. Einu sinni kemur bóndi að máli við biskup og segist vera hræddur um, að bryti hans muni ekki verða honum nein heilla þúfa að lokunum. Spyr hann biskup að, því hann vandi aldrei um það við hann, að hann komi aldrei í kirkju fyrr en eptir guðspjallið, og fari jafnan úr kirkjunni, áður blessað sè yfir söfnuðinn. Biskup sagðist ekki hafa tekið eptir þessu. En þegar honum reyndist það satt, sem bóndi sagði, gjörir hann bryta áminníngar um það, en hann brást reiður við og sagði, að svo hefði hann mörgu að sinna, að sèr hentaði ekki að vera leingi í kirkju. Kveðst hann sjálfur vilja því ráða, hvað leingi hann sitji í kirkju, að öðrum kosti muni hann á burt fara. Við þetta sefast biskup, og er nú bryti hjá honum í 6 ár, að ekkert bar til tíðinda annað en það, að bryti var þá hverjum manni orðinn hvumleiður, nema biskupi einum; og lá þó við, að biskupi þækti nóg um ofstopa hans og ójöfnuð. Páskadags nótt um lágnætti kemur gamli bóndinn, sem áður átti tal við biskup um bryta hans, heim að

Skálholti; fer hann hljóðlega undir kirkjugarðinn. Sèr hann að 3 menn eru í kring um kirkjuna, og er bryti einn þeirra. Hann sèr, að þeir eru að slá böndum og sigum um kirkjuna og yfir hana, og hefir brytinn alla forsögn þess, og þykist bóndi vita, að hinir sèu þjónar hans. Báðir voru þeir ljótir og illmannlegir. En þegar þeir voru búnir að vefja böndum um kirkjuna, eins og þeim líkaði, heyrir hann, að bryti segir þeim, að á morgun, þegar hann komi út úr kirkjunni, skuli þeir vera sinn við hverja hlið hennar, og taka í sigin, en hann ætli að vera við dyrnar og halda þar bandinu, og muni þeir þá fá sökt kirkjunni með öllum þeim, sem inn í henni sèu. Þegar bóndi sá viðbúnað þeirra, og varð áskynja um fyrirætlun þeirra, dregur hann sig burt frá garðinum, og kemst í staðinn, og þángað, sem biskup hvíldi; vekur hann biskup, og segir honum, hvar komið sè. Biskupi varð bilt við, en bóndi kvað nú ekki ráðleysi duga. Nú skuli hann vaka það eptir sè nætur, og búa sig undir að stíga sjálfur í stólinn, og draga þá ekki af. „En eg", mælti bóndi, „ætla að sitja í krókbekknum, og ef svo ólíklega fer, að bryta verði nokkur töf að mèr, þegar hann ætlar út, þá skuluð þèr gæta þess, og hefja þegar upp blessunina á stólnum, og mun þá duga með guðs hjálp". Biskup gjörir nú, sem bóndi gaf ráð til, og þegar að því kemur, að samhríngt er til messu, geingur bóndi að kirkjunni, tekur vasahníf sinn, og ristir hèr og hvar krossstrik á kirkjuna. Einginn vissi, hvað hann gjörði með það, nema hann sjálfur; var hann að skera böndin, sem bryti flèttaði um hana um nóttina. Biskup stè í stólinn, og bryti kom í kirkju að loknu guðspjalli; var hann gustmikill, og ófrýnilegur, og brá honum mjög, er hann sá og heyrði, að biskup var í stólnum. Þetta sèr biskup og herðir nú ræðu sína eptir því, sem andinn inngaf honum. Ekkert mannsbarn var í kirkjunni, sem ekki táraðist við ræðu hans, en bryti varð ýmist fölur sem nár, eða svartur sem sót, og er á ræðuna leið, stekkur hann upp og ætlar út. Bóndi stendur upp og þokar sèr fyrir hurðina; segir honum liggi ekki á, og hann skuli nú til hátíðabrigðis bíða eptir blessaninni. Bryti æstist við, og ætlar að ryðja bónda frá hurðinni, en þess var einginn kostur. Biskup sèr hvar komið er, og fer að blessa með upplyptum höndum; fór bryti þá að síga niður í gólfið, en bóndi hafði í barmi sínum Davíðs saltara, tekur hann og slær á haus honum. Var það jafnsnemma, að biskup lauk blessaninni á stólnum, og haus bryta hvarf undan saltarahöggum karlsins niður í gólfið. Hóf biskup þá fagra þakklætis ræðu fyrir svo augljóst frelsi sitt og safnaðarins frá vígvèlum og umsátri hins vonda, og varð síðan bezti maður við bryta sína.

**Bakkastaður.** (Eptir Jón bónda Sigurðsson í Njarðvík í Múlasýslu.) Það er mælt, að Brú á Jökuldal hafi staðið í miðri sveit í fyrndinni, áður bygðin lagðist í eyði á Brúardölum. Höll átti að hafa verið innsti bærinn, næst jöklum, þó eru ekki fleiri bæir nefndir, en tvennir Hríngbotnar og Fossnes.

Öll þessi bygð átti kirkjusókn að Bakkastað; sá bær var fram og yfir frá Brú fyrir handan ána; þar sjást bæarrústir enn þá, og vottar fyrir kirkjugarði.

það bar við eina jólanótt á Bakkastað, að presturinn og alt fólkið, sem kirkjuna sókti, tók til að dansa í kirkjugarðinum, hèlzt í hendur með saung og hávaða miklum og ýmsum illum látum, alt í kring um kirkjuna. Móðir prestsins var inni í bænum, og vissi ekki, hvað fram fór úti. En þegar hún heyrði, hvað um var að vera, fór hún út, og bað son sinn fyrir alla muni að hætta þessum leik. Hann gaf því eingan gaum. Í annað sinn fór hún út, og bað hann með mörgum orðum að gá að sèr, og minti hann á tímann, sem yfirstóð. Hann sinti því ekki heldur. Í þriðja sinn fór hún út; sá hún þá, hvar maður stóð;[1] hann hèlt í hrínginn í kirkjuhurðinni, og var að raula þetta fyrir munni sèr með dimmri rödd:

„Held eg mèr í hurðarhríng,
hver sem það vill lasta;
[hèr[2] hafa kappar kveðið[3] í kring,[4]
kemur til kasta[5]
kemur til minna kasta.“

þegar hèr var komið sögunni, var komið að miðri nótt. Móðir prestsins varð hrædd við sýn þessa, og sá að sonur hennar var ær orðinn og fólkið alt. Tók hún þá reiðhest prestsins út úr húsi, lagði upp á Fljótsdalsheiði, og kom að Valþjófstað fyrir dag, og bað prestinn bregðast skjótt við, koma með sèr, og reyna að hjálpa fólkinu. Prestur brást við í skyndi og fór með henni, og komu þau í dögun að Bakkastað. Sáu þau þá, að utarlega í kirkjugarðinum hafði jörðin sprúngið sundur og fólkið sokkið þar niður. En presturinn og meðhjálparinn voru hálfir komnir í jörð niður, þegar þau komu, og varð þeim bjargað. Leingi heyrðist ómurinn af gleðilátum fólksins niðri í jörðinni. Eptir þetta lagðist Bakkastaður í eyði. En það segja kunnugir menn, að kirkjugarðurinn sjáist enn þá, og í honum utarlega sè pyttur einn furðu djúpur.

**Dansinn í Hruna.** (Eptir handritum sèra Jóns Norðmanns og Jóhanns Briems, prófasts í Hruna o. fl.) Einu sinni til forna var prestur í Hruna í Árnessýslu, sem mjög var gefinn fyrir skemtanir og gleðskap. það var ávalt vani þessa prests, þegar fólkið var komið til kirkju á jólanóttina, að hann embættaði

1. Dr. Maurer hefir heyrt einhverstaðar hèr á landi, að það hafi átt að þekkjast á fótunum á þessum karli að það var kölski.

2. Aðrir hafa: „nú“.

3. Frá [hafa aðrir þannig: „þegar alt er komið“, og aðrir svo: „Ekki er enn þá komið“.

4. Aðrir hafa: „hríng“.

5. Aðrir sleppa 4. hendíngunni og hafa fimtu hendínguna eina í staðinn, sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 191. bls.

ekki fyrri part næturinnar, heldur hafði dansferð mikla í kirkjunni með sóknarfólkinu, drykkju og spil og aðrar ósæmilegar skemtanir lángt fram á nótt. Presturinn átti gamla móður, sem Una[1] hèt; henni var mjög móti skapi þetta athæfi sonar síns, og fann opt að því við hann. En hann hirti ekkert um það, og hèlt teknum hætti í mörg ár. Eina jólanótt var prestur leingur að þessum dansleik, en venja var; fór þá móðir hans, sem bæði var forspá og skygn, út í kirkju og bað son sinn hætta leiknum og taka til messu. En prestur segir, að enn sè nægur tími til þess, og segir: „Einn hríng enn, móðir mín.“ Móðir hans fór svo inn aptur úr kirkjunni. Þetta geingur í þrjár reisur, að Una fer út til sonar síns og biður hann að gá að guði, og hætta heldur við svo búið, en ver búið. En hann svarar ávalt hinu sama og fyrri. En þegar hún geingur fram kirkju-gólfið frá syni sínum í þriðja sinn, heyrir hún, að þetta er kveðið og nam vísuna:

„[Hátt lætur í Hruna<br>
hirðar þángað bruna;[2]<br>
svo skal dansinn duna,<br>
að dreingir [megi það[3] muna.<br>
Enn er hún Una,<br>
og enn er hún Una.“[4]

Þegar Una kemur út úr kirkjunni, sèr hún mann fyrir utan dyrnar; hún þekti hann ekki, en illa leizt henni á hann, og þókti víst, að hann hefði kveðið vísuna. Unu brá mjög illa við þetta alt saman, og þykist nú sjá, að hèr muni komið í óefni, og þetta muni vera djöfullinn sjálfur. Tekur hún þá reiðhest sonar síns, og ríður í skyndi til næsta prests, biður hann koma og reyna að ráða bót á þessu vankvæði, og frelsa son sinn úr þeirri hættu, sem honum sè búin. Prestur sá fer þegar með henni, og hefir með sèr marga menn; því tíðafólk var ekki farið frá honum. En þegar þeir koma að Hruna, var kirkjan og kirkjugarðurinn sokkinn með fólkinu í, en þeir heyrðu ýlfur og gaul niðri í jörðinni. Enn sjást rök til þess, að hús hafi staðið uppi á Hrunanum, en svo heitir hæð ein, er bærinn dregur nafn af, sem stendur undir henni. En eptir þetta segir sagan, að kirkjan hafi verið flutt niður fyrir Hrunann, þángað sem hún er nú, enda er sagt, að aldrei hafi verið dansað síðan á jólanótt í Hrunakirkju.

**Skipamál.** (Eptir handriti Jóhanns Briems, prófasts í Hruna.) Stundum heyrist marra í skipinu, þó logn sè og þau standi í naustum. Það er mál

---

1. Aðrir segja, að prestskonan hafi heitið Una.
2. Fyrir 2 fyrstu hendíngarnar frá [hafa aðrir þessar:
„Fögur eru hljóð í Hruna,<br>
höldar mega við una.“
3. Frá [hafa aðrir þannig: „fái að.“
4. Aðrir hafa hèr einnig vísuna, sem kölski kvað á Bakkastað: „Held eg mèr í hurðarhríng.“

skipanna, sem fáum er gefið að skilja. Einu sinni var maður, sem skildi skipamál.[1] Hann kom að sjó, þarsem tvö skip stóðu, og heyrir hann, að annað skipið segir: „Leingi höfum við nú saman verið, en á morgun verðum við að skilja.“ „Það skal aldrei verða, að við skiljum“, sagði hitt skipið, „höfum við nú verið saman 30 ár, og erum við orðin gömul; en ef annað ferst, þá skulum við farast bæði.“ „Það mun þó ekki verða. Gott veður í kvöld, en annað veður mun verða á morgun, og mun einginn róa, nema formaður þinn, en eg mun eptir verða, og öll skip önnur. En þú munt fara, og aldrei aptur koma; munum við eigi standa hèr saman optar.“ „Það skal ekki verða, og mun eg ekki fram gánga.“ „Þú munt þó verða að gánga fram, og er þessi nótt hin síðasta, sem við verðum saman.“ „Aldrei skal eg fram gánga, ef þú fer ekki.“ „Það mun þó verða.“ „Ekki nema andskotinn sjálfur komi til.“ Eptir þetta töluðu skipin svo hljótt, að heyrandinn í holtinu nær heyrði ekki hljóðskraf þeirra.

Morguninn eptir var veður ískyggilegt mjög, og sýndist eingum ráð að róa, nema einum formanni og skipshöfn hans. Geingu þeir til sjávar og margir fleiri, sem ekki varð úr að reru. „Skinnklæðin ykkar í Jesú nafni“, segir formaður, sem títt er. Hásetar hans gjöra svo. „Setjum fram skipið í Jesú nafni“, sagði formaður, eins og vant var. Þeir taka til, en skipið gekk ekki fram. Heitir þá formaður á sjómenn aðra, er þar voru staddir, að duga þeim, en það kom fyrir ekki. Þá heitir hann á alla, sem við voru, að setja fram skipið, og gekk þá maður undir manns hönd, og kallar nú formaður: ;„Setjum fram skipið“, með sama formála sem áður. En skipið gekk ekki að heldur. Þá kallar formaður hátt: „Setið fram skipið í andskotans nafni.“ Hljóp þá skipið fram, og svo hart, að ekki varð við ráðið, og á sjó út. Höfðu skiphaldsmenn nóg að vinna; síðan var róið, en ekki hefir sèzt til þess skips síðan, og ekki spurzt til nokkurs, sem á því var.

**„Malaðu hvorki malt nè salt.“** (Eptir sögn húsfrú Margrètar Höskuldsdóttur í Reykjavík.) Einu sinni var ríkismaður. Hann átti eitthvert mesta höfuðból, sem hann sat á sjálfur. Hann átti konu og með henni tvo syni upp komna, og kvongaða, þegar þessi saga gerðist. Annar þeirra var auðsæll, sem faðir hans, og átti fjögur börn; en hinn var fátækur, og lifði mest á því, sem hann fèkk úr föðurgarði. Þegar faðir þeirra dó, fóru bræðurnir að skipta með sèr arfi. En svo fóru leikar með skiptin, að auðmaðurinn hrepti höfuðbólið og nálega allar eigur aðrar; því honum þókti bróðir sinn vera búinn að taka út arf sinn í bitum og sopum á undan. Eptir það settist ríki bróðirinn á höfuðbólið, og kom bróðir hans opt heim úr hjáleigunni, að

---

1. Um líkt skipamál er getið í Flóamanna sögu kap. 26. Þar tala saman skipin Vinagautur og Stjakanhöfði.

hitta hann, og bað hann, sem foreldra sína áður, um það, sem hann vanhagaði um í þann og þann svipinn. Optast lèt bróðir hans eitthvað af hendi rakna við hann, en jafnan með illu, og treindi svo í honum lífið og konu hans. Einu sinni slátraði ríki bróðirinn ógnarvænum uxa; þá hugsaði hinn sèr til hreifíngs, að nú skyldi hann biðja bróður sinn um bita. Kona hans latti hann þess og sagði, að hann mundi ekki fá hjá honum annað en ónotin ein. Hann sagðist ekkert gefa um það, og fór svo heim, hvað sem hún sagði, þegar nýbúið var að lima sundur uxann, og limirnir lágu á borðum á blóðvellinum. Ríki bróðirinn var á vakki þar í kríng, þegar hinn kemur. Fátæki bróðirinn biður hann að gefa sèr ket í eina súpu, því nú hafi hann nóg fyrir framan hendurnar, og eigi hægt með það. Ríki bróðirinn snýst illa við því og segir, að hann gefi honum ekkert, það komi ekki til mála með það; hann hafi ekki ætlað að láta uxann sinn skella í skoltinum á hónum. Hinn er þó þángað til að nauta við hann, að hann tekur annað uxalærið, fleygir því í hann og segir: „Farðu til fjandans með lærið að tarna". Hinn tekur lærið, og fer með það heim. Þegar konan hans sá það, varð hún glöð við og skildi þó sízt í, því bróðir hans var svona stórtækur, og ætlaði að fara sem fyrst að koma því í pottinn. Maður hennar bað hana að bíða svo lítið við; hann broðir sinn hefði ekki gefið sèr það, heldur hefði hann skipað sèr að fara með það til fjandans, og lángaði sig ekki til að stela því úr sjálfs síns hendi frá skrattanum, og biður hana að fá sèr nesti og nýa skó, því hann ætlaði undir eins á stað með það til kölska. Konan bað hann að vera ekki að heimskunni þeirri arna; hann bróðir hans hafi vissulega gefið honum lærið, þó hann hafi tekið svona til orða, af því honum hafi runnið í skap af nauðinu úr honum. Bóndi segir, að hún megi leggja það út, eins og hún vilji, en hann ætli sèr að fara með lærið, eins og fyrir sig hafi verið lagt. Býr hún svo mann sinn, sem bezt hún gat. Eptir það fer hann og geingur leingi leingi, en veit ekki, hvert hann á að halda, til að hitta kölska. Loksins mætir honum maður á vegi og spyr hann, hvað hann sè að fara með nautslærið að tarna á bakinu. Hinn segist eiga að fara með það til fjandans. Ókunnugi maðurinn spyr, hvort hann viti, hvar kölski haldi sig. Hinn segir nei, og bað hann í öllum bænum að vísa sèr þángað, ef honum væri kunnug leiðin. Hinn ókunnugi sagði, að sèr væri sú leið reyndar ókunnug, en þó skyldi hann leggja það til með honum, að fá honum hnoða, sem hann skyldi halda í endann á, og mundi það renna á undan honum, þángað til hann kæmi að hól einum, þar skyldi hann ljósta á sprota, sem hann fèkk honum; mundi þá hóllinn opnast, og skyldi hann snara lærinu í gapið, sem yrði á hólnum; en vara mætti hann sig, að vera ekki mjög nærri gapinu. Þá mundi hann sjá koma upp í gapið tvær kvarnir, aðra hvíta, en hina svarta, og skyldi hann taka þá hvítu, en skipta sèr ekkert af hinni, svo skyldi hann taka hnoðað og láta það renna á undan sèr, eins og áður, og halda

heimleiðis með kvörnina. Fátæki bróðirinn þakkar manni þessum tillögur sínar, kveður hann og heldur svo á fram. Nú fór alt, eins og maðurinn hafði sagt honum fyrir: hann finnur hólinn, opnar hann með sprotanum, fleygir uxalærinu og segir: „Taktu við, fjandi; hann bróðir minn sendir þèr lærið að tarna". Koma þá upp kvarnirnar, og nær hann þeirri hvítu, og heldur á stað á eptir hnoðanu þángað, sem hann hafði áður mætt manninum, og var hann þar enn fyrir. Fátæki bróðirinn heilsar honum og spyr, hvað hann eigi að gera við kvörnina. Hinn segir, að hann skuli búa til utan um vænan og rúmgóðan kvarnarstokk, og koma henni vel fyrir á hentugum stað, og muni hún mala af sjálfsdáðum alt, sem hann mæli fyrir, og þurfi hann ekki annað en hafa þenna formála:

„Malaðu hvorki malt nè salt,
og malaðu í drottins nafni."

Eptir það skildu þeir, og þakkaði fátæki bróðirinn hinum innilega tillögur hans[1] við sig. Svo kemur hann heim, og segir konu sinni alt af sínum ferðum; fer hann svo til og smíðar vænan kvarnarstokk, mesta búmanns-þíng, og setur til kvörnina; malar hún alt, sem hann mælir fyrir, matvæli og allar nauðsynjar þeirra hjóna, svo þau hafa alls nægtir. Einu sinni hugsar bóndi með sèr, að gaman væri nú að eiga skildíngaráð, þó þau þurfi þeirra ekki við, þar sem þau hafi nóg af öllu. Hann mælir þá svo fyrir, að kvörnin mali gull, og hefir allan sama formála, sem áður er sagt. Kvörnin tók til að mala, og malaði eintómt gull. Þetta bragð lèk hann hvað eptir annað, svo hann varð á skömmum tíma vellauðugur maður af gulli. Þá segir hann við konu sína, að sèr leiki hugur á að vita, hvað mikið gull þau eigi. Það segir hún sèr þyki óþarfi; þeim sè nóg, að þau eigi miklar nægtir af því, sem öðru. Bóndi var þó ekki í rónni með það, fyrr en hann fann ráð til að vita þetta, og var það með því móti að mæla gullið í mælikeri. En af því þau áttu ekkert mælikerið sjálf, brá hann sèr heim til bróður síns, og bað hann að ljá sèr mæliker. Bróðir hans segir konu sinni að ljá honum það. Hún tekur mælikerið, en hugsar með sèr, hvað það muni geta verið, sem hann ætli að mæla; tekur hún þá hvoðu og lætur renna í laggirnar á kerinu, og fær svo mági sínum. Hann fer og mælir gullmèlið, og þegar hann er búinn að því, skilar hann mælikerinu aptur. Mágkona hans fer að gá að kerinu, þegar hann er farinn, og sèr, að gullsandur er fastur í öllum löggunum á því; geingur hún svo með það til manns síns, sýnir honum og segir, að bróðir hans mæli gull, þar sem þau mæli korn. Hann segist og hafa tekið eptir því, að bróðir sinn hafi aldrei beðið sig neins núna leingi, síðan hann hafi feingið hjá sèr uxalærið, og eitthvað muni þau hafa í hjáleigunni, því þau sèu orðin sælleg og farin að færa út kvíarnar. Húsmóðirinn biður mann sinn að

---

1. Þessi maður var eingill.

grennslast eptir, hvernig á þessu standi, því ekki sè einleikið með þessa velsæld mágs síns. Ríki bróðirinn fer nú á stað, því honum var ant um að vita, hvernig bróðir sinn hefði komizt að þessum auði. Þegar þeir finnast, spyr heimabóndinn hann, hvað hann hafi verið að mæla, og segir hinn honum satt frá því. Ríki bróðirinn spyr, hvernig á þessu standi. Hinn segir, að kölski hafi gefið sèr kvörn, sem mali alt, sem nöfnum tjái að nefna eptir formálanum, sem hann segir honum einnig frá, fyrir það að hann hafi fært honum uxalærið, sem hann hafi sent sig með til hans fyrir nokkru. Heimabóndinn kannaðist ekki við, að hann hefði nokkurn tíma sent bróður sinn til fjandans, heldur hefði hann gefið honum lærið. „Nei, nei“, segir hinn; „þú skipaðir mèr að fara með það til fjandans, og það gerði eg; fyrir það gaf hann mèr kvörnina, og síðan hefi eg hvorki verið kominn upp á þig nè aðra.“ Eptir það skildu þeir, og gekk bóndi heim, heldur hugsandi, og sagði konu sinni frá öllu. Þau öfunduðu nú hjáleigubóndann af kvörninni, og voru leingi að velta því fyrir sèr, hvernig þau ættu að fara að því að fá hana; loksins datt þeim í hug að bjóða hjáleigubóndanum alla aleigu sína fyrir hana; skyldu þau svo kaupa sèr skip og fara úr landi með kvörnina. Heimabóndi fer nú og falar kvörnina af bróður sínum. En hann var tregur til þess. Bróðir hans býður honum þá alla aleigu sína og höfuðbólið með. Hinn sagði, að sèr væri ekkert ant um að fá höfuðbólið, því hann gæti keypt sèr jafngóða jörð, nær sem hann vildi; en af því bróðir sinn legði svo sterkar fölur á kvörnina, og hann þæktist nógu auðugur undir, vildi hann gera bróður sínum það til geðs, að láta hann fá hann fyrir aleigu hans. Gera þeir svo kaupin, og flytur hjáleigubóndinn heim og sezt þar að öllu, sem bróðir hans átti, eins og það var. En hinn bróðirinn kaupir sèr skip, stígur þar á með konu og börn, og hefir ekkert með sèr nema kvörnina, og þóktist þó hafa vel veitt. Þegar þau eru komin nokkuð frá landi, ætlar hann að láta kvörnina mala handa þeim nauðsynjar þeirra, og hafði upp formálann:

„Malaðu hvorki malt nè salt,
og malaðu í drottins nafni“.

En kvörnin stóð, hvernig sem hann fór að, og hvað sem hann sagði. Reiddist hann þá kvörninni og sagði í bræði sinni:

„Malaðu bæði malt og salt,
og malaðu í djöfuls nafni“.

Tók þá kvörnin til, og malaði bæði malt og salt, svo að skipið varð drekkhlaðið, og af því eingin ráð voru til að stöðva kvörnina, lauk svo, að skipið sökk með öllu saman og hefir aldrei sèzt neitt eptir af því.[1] En haft er það eptir kölska, að hann hafi orðið feginn eigendaskiptum kvarnarinnar; því þar hafi hann feingið sex sálir fyrir eina. En það er frá

1. Sbr. frásögn Snorra-Eddu um kvörnina Grotta í Hafnar útgáfunni, I, 376—392. bls.

fyrra kvarnar eigandanum að segja, að hann hafði jafnan nógan auð, eptir að hann slepti kvörninni, fór þá að hugsa fram í veginn fyrir sig og sálu sinni, tók tvö munaðarlaus fósturbörn, mannaði þau vel, og arfleiddi að öllu sínu eptir sinn dag og konu sinnar, og voru þau hjón mestu lánsmenn síðan alla æfi.

**c)** Annað veifið leitast djöfullinn við, að tæla menn á vald sitt með ýmsum veiðibrellum; bregður hann sèr þá stundum í ljóssins eingils líki, eða hann sætir því lagi, að gjöra samnínga við menn, sem eiga í einhverjum kröggum, og skuldbindur hann sig þá til að hjálpa þeim, en heimtar af þeim í staðinn sálir þeirra eða sjálfa þá til þjónustu sinnar eptir ákveðinn tíma. Stundum gjörir hann veðmála við menn og menn við hann, sem eru öllum sömu skilmálum bundnir; en mjög eru þær sögur fáar hèrlendar, að kölski hafi ekki orðið undir í þeim skiptum, verið prettaður um kaupið og orðið sèr til skammar.[1]

**Kölski kvongast.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Einu sinni bjuggu mæðgur tvær saman; voru þær vel efnaðar og hin ýngri konan kvennkostur góður; urðu margir til þess að biðja hennar, en hún tók eingum og hugðu því margir, að hún ætlaði að lifa í einlífi og þjóna guði, enda var stúlkan guðhrædd mjög. Þetta kom kölska mjög illa, svo hann brá sèr í úngs manns líki, og beiddi stúlkunnar; ætlaði hann svo smátt og smátt ad lokka hana á sitt vald. Gat hann gjört sig svo ráðvendnislegan, að stúlkan tók honum og fóru festar fram, og síðan giptust þau. En þegar kölski átti að fara að hátta hjá stúlkunni, var hún svo hrein og flekklaus, að hann gat ekki þolað að koma nálægt henni; sló hann því þá við, að hann þyrfti að láta gjöra sèr kerlaug, ef honum ætti að verða vært, og var það gjört. Sat hann í kerlauginni alla nóttina. Daginn eptir reikaði hann út, og var að hugsa um, hvernig hann ætti að koma sèr úr þessari klípu. Hitti hann þá mann á förnum vegi og keypti því við manninn, að hann skyldi gánga að eiga konuna í sinn stað. Brá kölski því gjörvi yfir manninn, er hann hafði sjálfur haft. En maðurinn lofaði því aptur, að láta hann hafa hið elzta barn sitt, þegar það væri 7 vetra og skilja það eptir á sama stað, og þá stóðu þeir á. Síðan fór hann til konunnar; hugði hún hann vera mann sinn, tók honum vel og urðu samfarir þeirra góðar. Þau áttu son einn barna og unnu honum mikið. En er pilturinn var kominn á 7 ár, tók föður hans að setja hljóðan mjög. Kona hans gekk á hann, því hann væri svo hryggur, og sagði hann henni þá upp alla sögu. Þessa sagðist hún hafa verið ofleingi leynd, en setti þó þar ráð til, er dugðu. Þann dag, sem pilturinn varð fullra 7 ára, fór faðir hans

---

1. Sjá ýmsar sögur sama efnis af Sæmundi fróða, Kálfi Árnasyni, og Hálfdáni í Felli, auk þeirra sem hèr koma.

með hann á þann stað, er hann hafði skilið við kölska, gjörði þar hríng um og vígði það svið með helgum saung, var hjá syni sínum til kvölds, og sagði honum, að hvað sem hann sæi um nóttina, skyldi hann ekki fara út fyrir hrínginn, nema fyrir þann, sem rètti honum hönd sína inn fyrir hrínginn í Jesú nafni. Þegar faðir piltsins var farinn, sá hann fyrst hina og þessa kunníngja sína, sem vildu ginna hann til sín með ýmislegu sælgæti; því næst sá hann foreldra sína, sem buðu honum bæði með blíðu og stríðu að koma til sín. Þar eptir sá hann börn, sem voru að leika sèr að ýmsu, og bjóða honum til sín. En pilturinn var stöðugur, því einginn vildi verða til að rètta honum höndina í Jesú nafni inn fyrir hrínginn. Því næst sá hann glæríngar, loga, hræðilegar kynjamyndir og undursjónir, er hèldust alt til dags; varð pilturinn þá mjög hræddur, en hèlzt þó við. Strax í dögun vitjuðu foreldrar hans um hann, og rèttu honum höndina inn fyrir hrínginn, en kölski varð af kaupinu.

**Sveitardreingurinn.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Einu sinni var biskup í Skálholti; hann átti son og dóttur, sem bæði voru efnileg og fríð sýnum. Á næsta bæ við Skálholt var sveitardreingur. Hann kom opt heim í Skálholt, til að fá sèr mat, því hann var svángur stundum. Þess er getið, að hann hafi verið vel gáfaður og námgjarn. Svo er sagt, að dreingur þessi feingi mikla ást á biskupsdóttur og harmaði það mjög, að hann mundi ekki geta feingið hana fyrir konu, en bar þó harm sinn í hljóði. Einu sinni var hann einn á gángi úti á víðavángi og grèt. Þá kemur til hans maður og spyr, af hverju hann gráti. Dreingur vill ekki segja honum það. Komumaður kveðst þá geta sagt honum það; segir hann, að hann gráti, af því að hann geti ekki feingið dóttur biskupsins. Dreingur kvað svo vera mundi. „Viltu þá“, segir komumaður, „að eg hjálpi þèr til að ná í dóttur biskups með þeim skilmála, að þú verðir minn maður?“ Að þessu vill dreingurinn gánga. Ráðleggur þá komumaður, að hann skuli koma sèr í fjósið í Skálholti, og skuli hann þá styrkja hann, en að 20 árum liðnum segist hann vilja fá hann til sín. Nú skilja þeir, og verður sveitardreingur fjósamaður í Skálholti eptir þetta. Um þessar mundir voru skólapiltar í Skálholti. Þegar þeir voru yfir heyrðir, þá hlýddi fjósadreingur opt á lestur þeirra og andsvör og mundi svo mikið af því, að undrum þókti gegna. Þeim kom einkar vel á samt, syni biskups og fjósadreing, og fyrir bænastað biskupssonar við föður hans varð það, að biskup lèt kenna fjósadreing skólalærdóm. Gekk honum vel í skóla og síðan fór hann utan á háskóla erlendis, og varð þar námsmaður mikill. Eptir það fór hann í Skálholt, þegar hann kom frá útlöndum og varð biskupi hjálpsamur í ýmsum greinum. Kom svo, að hann bað biskupsdóttur og fèkk hennar, en var nú í Skálholti fyrst um sinn. Það er mælt, að þessi maður biskupsdóttur fari nú að hugsa um, hverju hann hafi lofað manninum um árið, og

sem hann grunar nú, að hafi verið kölski; og olli skilmáli sá, er þeir gjörðu, honum þúnglyndis. Mörgum sýnist hann vera þúnglyndur, en eingin veit, af hverju það er. Þegar ekki eru nema fá ár eptir af tímanum, sem ákveðinn var, að hann ætti að fara til mannsins, þá legst hann veikur. Kona hans geingur á hann með, hvað að honum gángi, en hann vill ekki segja henni það, fyrr en eptir lánga nauð. Fá þau nú bæði þúngsinni af þessu. Líður nú að þeim tíma, sem hann væntir, að kölski muni sækja sig, og eru fáir dagar eptir. Fer þá kona hans til biskupsins og segir honum frá, hvernig ástatt sè. Verður biskupi mikið um þetta. Þó gefur hann teingdasyni sínum það ráð, að þann dag, sem hann voni eptir kölska, skuli hann fara fyrir altarið í kirkjunni, færa sig í skrúðann og halda á kaleiknum fullum með víni. Síðan býr biskup til 3 hríngi umhverfis altarið. Biskup segir honum, að hvaða menn eða mannsmyndir, sem beri fyrir hann í kirkjunni, skuli hann eingum gegna, og bjóða öllum að súpa á kaleiknum. Nú kemur dagurinn, sem maður biskupsdóttur vonast eptir kölska, þá geingur hann í kirkju og fer eins að, og biskup hafði ráðlagt honum, fer í skrúðann og heldur á kaleiknum með víninu. Þegar lítil stund er liðin, kemur sonur biskups í kirkjuna og biður hann að koma til sín, en teingdasonur biskups segist skuli gjöra það, ef hann súpi á kaleiknum. Það segist hann ekki geta. Síðan kemur biskup og biður hann koma til sín. „Ef þú sýpur á kaleiknum, skal eg koma“, segir teingdasonur biskups. En hann neitar því. Þar næst kemur kona hans í kirkjunna og biður hann mjög innilega að koma til sín. „Það skal eg gjöra“, segir teingdasonur biskups, „ef þú kemur og bergir af kaleiknum“. En hún færðist undan því. Nú kemur kölski sjálfur og segir, að hann skuli nú koma til sín, því nú sè tíminn kominn. „Það skal eg gjöra“, segir teingdasonur biskups, „ef þú kemur og bergir af þessum kaleik“. „Það get eg ekki“, segir kölski. „Eg mana þig nú að koma“, segir teingdasonur biskups, „og ef þú nú ekki kemur og sýpur af kaleiknum, þá skaltu aldrei hafa mig, hvorki í þessu nè öðru lífi“. Nú herðir kölski sig, fer innar eptir kirkjunni og stekkur yfir yzta hrínginn, en treystist ekki að fara leingra og hrekkur fram aptur. Teingdasonur biskups lætur þá kölska lofa því að vitja sín aldrei meir og við það fer kölski úr kirkjunni. Þá kemur biskup í kirkjuna og bergir af kaleiknum. Síðan gánga þeir úr kirkjunni, og finnur teingdasonur biskups konu sína og verður nú fagnaðarfundur með þeim. Unnu þau síðan hvort öðru hugástum. Og lýkur svo sögu þessari.

**Seint fyllist sálin prestanna.** (Eptir frásögn Þórarins stúdents Jónssonar frá Skriðu klaustri.) Einu sinni var úngur maður og efnilegur; hann lagði ástarhug á stúlku eina og bað hennar; en hún aftók um ráðahag við hann. Af því varð maðurinn mjög ángraður, og fór opt einförum. Einu sinni var hann einn úti á víðavánga að rölta eitthvað; veit hann þá ekki af því, fyrr

en maður kemur til hans, og heilsar honum. Biðillinn tekur kveðju hans dauflega, enda þykist hann ekki þekkja manninn. Komumaðurinn er altilegur við hann, og segist vita, að það liggi illa á honum, og út af hverju það sè, og segist skuli sjá svo um, að stúlkan, sem ekki hafi viljað taka honum, sæki ekki minna eptir honum, en hann eptir henni, ef hann vilji heita sèr því, að verða vinnumaður sinn að ári liðnu. Maðurinn tekur þessu boði þakksamlega, og ráða þeir nú þetta með sèr. Eptir það skilja þeir, og fer biðillinn heim. Litlu seinna finnur hann stúlkuna við kirkju, og er hún þá orðin öll önnur við hann, en áður, og sækir mjög eptir honum. Maðurinn fer þá heldur undan, og hugsar, að þetta sè hrekkur af henni. En bráðum kemst hann að því, að henni er full alvara. Verður það nú úr, að hann fær stúlkunnar og á hana, og voru samfarir þeirra góðar. Nú fer að líða á árið, frá því hann hitti þann, sem hafði stutt hann til konumálanna, og fer nú bóndi að fá hugsýki af því, hver þetta hafi verið. Þegar mánuður var eptir til krossmessu, fer hann á fund prestsins síns, og segir honum upp alla sögu, og biður hann ráða. Prestur segir, að hann hafi of seint sagt sèr þetta, því þar hafi hann átt kaup við kölska sjálfan, er hann átti við þenna ókunnuga mann. Fer þá algjörlega að fara um bónda, og biður prest því ákafar ásjár. Prestur varð vel við því, og safnar þegar að sèr múg og margmenni, lætur þá alla taka til starfa og grafa innan stóran hól, og bera alla moldina burtu; síðast lætur hann gjöra kringlótt gat lítið upp úr miðjunni á hólnum. Þegar því var lokið, er komið að krossmessu. Tekur prestur þá sál, og úr henni báða botna, en setur krossmark í annan endann, og festir sálina í gatinu á hólinn, svo hún stendur þar upp sem strompur, en krossmarkið er í neðri enda sálarinnar. Síðan segir hann við bónda, að hann skuli bíða kaupanauts síns uppi á hólnum, og setja honum þá kosti, að hann fylli sálina með peninga, öllum að meinfángalausu, áður en hann fari að þjóna honum; ella sè hann af kaupinu. Síðan skilur prestur við bónda, og fer hann að öllu, sem prestur hafði fyrir mælt. Nokkru síðar kemur kaupanautur hans, og er hann nokkuð úfnari, en í fyrra skiptið. Bóndi segir við hann, að sèr hafi láðzt eptir seinast, að biðja hann bónar, sem sè lítilsverð fyrir hann, en sèr ríði á svo miklu, að hann geti ekki farið til hans ellegar. Kölski spyr, hvað það sè, og segir hann að það sè að fylla sálina þá arna með silfurpenínga öllum að meinfángalausu. Kölski lítur til hennar og segir, að það sè ekki meira en mannsverk, fer burtu og kemur aptur eptir litla stund með mikla drögu og tekur úr sjávarselta. Siðan lætur hann úr drögunni í sálina, en hún er jafntóm eptir sem áður. Fer hann þá í annað sinn og kemur aptur með aðra drögu miklu stærri, og steypir í sálina; en hún fyllist ekki að heldur. Svo fer hann í þriðja sinn, og kemur upp með drögu, og er hún mest þeirra; þeim penıngum hellir hann og í sálina, og fer það alt á sömu leið. Þá fer hann hið fjórða skipti, og sækir enn drögu; sú var meiri en allar

hinar; steypir hann þeim peníngum einnig í sálina, en ekkert hækkar í henni. Verður kölski þá hvumsa við og segir, í því hann yfirgefur manninn: „Seint fyllist sálin prestanna". Maðurinn varð, sem von var, alls hugar feginn lausn sinni frá vistarráðunum hjá kölska, og af því hann þóktist eiga þar presti bezt upp að unna, skipti hann jafnt á milli þeirra peníngunum, og vitjaði kölski hvorki þeirra nè mannsins eptir það, en maðurinn varð auðmaður alla æfi, og skorti aldrei fè, nè heldur prestinn.

**Niðursetu-kerlíngin.** (Eptir handriti þorvarðar Ólafssonar.) það var einu sinni kerlíng á bæ; hún var þar niðurseta. Var hún svo óánægð með þenna samastað, að hún gat ekki annað, en verið að útmála það með sjálfri sèr, hvað vondur hann væri. Eitt kvöld ber svo til, að kerlíng er ein í bænum, en alt fólk úti að gegna skepnum. þetta var um vetrartíð og var frost mikið. þegar nú kerlíng er að mögla með sjálfri sèr, kemur til hennar maður mikill vexti. „Mikið áttu bágt, kerlíngar tetur", segir hann. „það verður ekki sagt frá því, eins og það er", segir hún. „Hèr eru allir vondir við mig, eg fæ lítið og vont að èta, mèr er alt af kalt, og alt af er eg lasin", segir kerlíng. „þetta er ljótt að heyra", segir komumaður, „og vildi eg geta bætt úr mæðu þinni". „Eg vil nú bjóða þèr að fara til mín", segir hann, „því eg aumkast yfir þig, en óvíða muntu fá betri samastað, en þann, sem hjá mèr er, ef þú vilt til mín fara." „Mikill ágætismaður ertu", segir kerlíng, „eg vil fegin fara til þín, en eg á svo bágt, að eg get ekkert geingið". „það gjörir ekkert", segir hann, „því það er hægt að halda á þèr á bakinu". „Mikill dánumaður er þetta", segir hún, „og mikill kraptamaður má hann vera, en svo er mál með vexti", bætir hún við, „að eg get ekkert farið, nema því að eins, að eg hafi með mèr koppinn minn, hann má eg ekki missa". „það er nú hægast", segir hann, „að halda á honum í hendinni". það verður svo úr, að komumaður laumast úr bænum, svo einginn veit, með kerlíngu á bakinu og koppinn í hendinni. Hann geingur vel og leingi; kuldi var mikill og spyr nú kerlíng, hvort hann sè nú ekki senn kominn heim. „Nú er eg senn kominn", segir hann. Enn þá geingur hann lángan veg yfir holt og hæðir, og spyr kerlíng hann í annað sinn, hvort hann sè ekki senn kominn heim. „Mjög er nú stutt eptir", segir hann. Nú kólnar kerlíngu, svo hún sèr ei annað fyrir, en að hún muni deya úr kulda, kallar hárri röddu og biður guð að bjarga sèr úr þessum kvölum. En í því hún mælti þessi orð, sèr hún, að jörðin opnast, og að maðurinn, sem bar hana, sekkur þar í jörð niður, en hún situr á þessum ógurlega gjáarbarmi og sèr hann sökkva með koppinn í hendinni. þá kallar hún upp og mælti: „Og bölvaður, og fór með koppinn minn". það er sagt, að kerlíng kæmist til bæar, er þar var skamt frá, og segði þar frá óförum sínum.

**Túnið á Tindum.** (Almenn sögn, bezt sagði Jón prestur þórðarson á Auðkúlu.) Eitt sinn bjó sá bóndi á Tindum í Svínavatnshrepp í Húnavatnssýslu, sem Árni hèt þorleifsson. Hann var búhöldur góður og þókti fremur fjölkunnugur.

Eitt sumar var það, að tún spruttu mjög illa vegna kulda og hafísa. Lèt þá Árni bóndi tún sitt standa óslegið leingi fram eptir, svo að það sprytti sem bezt. Allir aðrir slógu tún sín um sömu mundir og vant var. þegar þeir voru búnir að hirða tún, var Árni ekki farinn að hugsa til að slá Tindatún. Nokkru eptir þetta bað hann kölska að slá fyrir sig túnið á einni nóttu. Kölski spurði, til hvers væri að vinna. Bóndi bað hann sjálfan kjósa sèr laun fyrir. Kölski kvaðst þá vilja fá hann sjálfan í staðinn, en aðrir segja barn það, er kona Árna geingi með. Árni játti því, ef hann slæi túnið á einni nóttu, og væri búinn að því, áður en hann kæmi á fætur um morguninn. Tinda-túni var svo varið, að það var ákaflega grýtt og seinunnið, en þó tók tóptarbrot eitt út yfir, sem var neðarlega í túnjaðrinum og hèt Gnýpu-tópt, en til forna kvað þar hafa verið bænhús; þar varð ekki slegið svo eitt ljáfar, að ekki kæmi í stein. Nokkru síðar býr Árni bóndi út mörg orf, og bindur í þau deingda ljái, og um kvöldið sama segir hann heimafólki sínu að liggja kyrru og hreifa sig ekkert út um nóttina. Fólkið gjörði eins og hann bað, nema kerlíng ein. Hana lángaði til að vita, hverju fram færi úti, fór á fætur og gægðist út um rifu á bæardyra-hurðinni; sá hún þá púka á hverri þúfu, en varð jafnskjótt sjónlaus á því auganu, er hún horfði út með, og vitskert upp frá því. Um morguninn, þegar bóndi kom út, var kölski búinn að slá alt túnið, nema tóptarbrotið niður í túninu. þar var hann að hjakka og var orðið heldur bitlítið hjá honum; var hann þá að raula, þegar Árni kom til hans, þessa vísu:

„Grjót er nóg í Gnýputópt
glymur járn í steinum
þó túnið sè á Tindum mjótt,
tefur það fyrir einum.“

þá var hann búinn að slá alt, nema tvær þúfur innan í tóptinni; á aðra þeirra hafði Árni lagt biflíuna, en á hina Davíðs saltara, og sneiddi kölski hjá þeim. Kvað Árni hann þá vera af kaupinu, og bað hann aldrei aptur koma.

Gnýputópt ber enn þetta nafn og sèr nú móta til hennar fyrir neðan túnið á Tindum, og er mýrarsund fyrir neðan hana; en auðsèð er, að túngarðurinn hefir áður legið fyrir utan tóptinu og hún þá verið inni í túninu.

**Kolbeinn og kölski.** (Eptir sögnum að vestan, sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 192. bls.) Einu sinni er sagt, að kölski hafi veðjað við mann þann, er Kolbeinn hèt og nokkrir ætla að hafi verið Kolbeinn Jöklaskáld. Skyldu þeir báðir sitja hvor hjá öðrum á þúfubjargi undir Jökli þegar brim geingi þar hæðst og kveðast á, þannig, að kölski gerði fyrri hluta næturinnar fyrri

helmíng vísnanna, en Kolbeinn skyldi botna hjá honum. En seinni hluta nætur skyldi kölski botna hjá Kolbeini, en hann kveða fyrri hluta vísnanna, og var það skilið undir samníngi þessum, að hvor þeirra, sem ekki gæti botnað vísu hins, skyldi steypast ofan af bjarginu og vera þaðan í frá í valdi hins. Þeir tóku sig svo til og settust út á bjarg eina nótt, er túngl óð í skýum. Kveðast nú á, sem ætlað var, fyrri hluta nætur, og verður einginn stanz á Kolbeini að botna vísur kölska. Svo tekur Kolbeinn við og kveður upphöfin seinni hluta næturinnar, og geingur kölska allvel að slá botninn í hjá honum, uns Kolbeinn tekur hníf upp úr vasa sínum og heldur honum fyrir framan glyrnurnar á kölska svo eggin bar við túnglið og segir um leið:

„Horfðu í[1] þessa egg egg
undir þetta túngl túngl."

Þá varð kölska orðfall, því hann fann ekkert orð íslenzkt, sem yrði rímað í móti túngl og segir því í vandræðum sínum: „Það er ekki skáldskapur að tarna, Kolbeinn." En Kolbeinn botnar þegar vísuna og segir:

„Eg steypi þèr þá með legg legg
[lið sem hrærir úngl-úngl."[2]

En þegar kölski heyrði þetta, beið hann ekki boðanna og steyptist ofan fyrir bjargið í eina brimölduna, þar sem hún brotnaði og bauð ekki Kolbeini til kappkvæða eptir þetta.

**Alexander Magnus.** (Sèra Skúli Gíslason eptir frásögn Páls Ólafssonar.) Svo er sagt, að kóngur nokkur, er Alexander Magnus hèt, hafi gert samníng við djöfulinn, að ef hann lèti sig vinna allan heiminn, mætti hann eiga sig. Kóngur þessi lagði mikinn hluta heimsins á 12 árum, kom hann loks til Babýlonar; var hann þá orðinn svo drambsamur, að hann kallaði sig guðs son, og lèt tilbiðja sig; ekki drakk hann nema dýrasta vín af gullbikar, og er þá mælt, að djöfullinn hafi drepið hann þannig, að honum lèt sýnast hann drekka vín úr gullskál, en reyndar var það eitur úr hófi af reiðhesti kóngs, er dauður var og hann hafði viljað láta tilbiðja.

**Jóhann Fást.** (Sèra Skúli Gíslason eptir frásögn Páls Ólafssonar.) Maður hèt Jóhann Fást úti í Þýzkalandi; hann gjörði samníng við djöfulinn, að hann mætti að lokum eiga sig, ef hann lèti sig hafa alla þá hluti, er hann heimtaði af honum; heimtaði Jóhann af djöflinum hinar kostulegustu kræsíngar og ymsa kjörgripi; einnig lèt hann kölska smíða sèr höll af gleri að búa í og flytja þángað hina fegurstu konu, er var jafnfríð sem Helena hin fagra. Þó gabbaði djöfullinn Jóhann opt með missyníngum; þannig var hin fagra mey reyndar ekki annað en hrossmjöðm. Seinast lokaði Jóhann

1. „Sjáðu" hafa aðrir.
2. Frá [hafa aðrir svo: „sem liðurinn hrærir úln-, úln."

sig stöðugt inni í glersalnum, og saung djöfullinn hann að lyktum út um skráargatið og fundust þar þrír blóðdropar eptir.

**Rósamunda.** (Eptir konsúlsfrú R. Smith í Reykjavík.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu. Þau áttu sèr einn son, og greinir ekki frá nafni hans. Hann ólst upp, sem aðrir kóngssynir, að honum voru kendar allar íþróttir og reistur kastali og ekkert tilsparað, sem hafa þurfði, enda þókti hann afbragð annara manna. Í þessu sama ríki var höfðíngi einn, sem átti dóttur, undur fríða; hún hèt Rósamunda. Þó hún væri væn og kurteis, þókti sá ókostur við hana, að henni varð ekkert kent, hvorki til munns nè handa; svo var hún tornæm og ólægin; en orðlögð var hún um alt fyrir fríðleika sakir. Kóngssonur sá hana einu sinni, og varð þegar fánginn af fegurð hennar, og hún ekki síður af listum hans og atgjörvi. Kóngsson kemur eptir það að máli við föður sinn, og segist vilja biðja sèr konu; kóngur spyr, hvar hann horfi á um það mál. Kóngsson segir honum, að hann vilji einga konu eiga nema Rósamundu. Faðir hans biður hann að nefna það aldrei, því hún sè bæði heimsk og fákunnandi, sem sögur fari af, og það sæmi ekki, að velja sèr þá konu fyrir drottníngarefni, auk þess, sem hún sè af ógöfugri ættum komin, en hann. Kóngsson vildi ekki deila við föður sinn um þetta, en gat þó aldrei hugsað af Rósamundu, og varð eptir þetta mjög þúnglyndur, fór einförum og sinti lítið glaðværðum. Einu sinni var hann einn á reiki út um merkur og skóga, og var að hugsa um sinn hag áhyggjufullur. Kemur þá til hans lágur maður rauðskeggjaður, og spyr hann, því hann, kóngssonurinn, sè þar einn á reiki, og sè það ekki samboðið tign hans og verðleikum, eða hvað að honum gángi. Kóngsson sagði, að hann mundi lítið bæta úr skák fyrir sèr, þó hann segði honum raunir sínar. Komumaður sagði, að hann vissi þó ekki nema hann gæti bætt úr því, sem honum þækti; „og til þess að sýna þèr, að eg er ekki alls ófróður um hagi þína“, segir hann, „veit eg, að þú ert harmsfullur, af því að þú færð ekki að eiga Rósamundu hina fríðu fyrir föður þínum, vegna þess að hún er tornæm til munns og handa.“ Kóngsson sagði það satt vera, og bað hann í öllum bænum að hjálpa sèr, fyrst hann væri svo fróðlega að þessu kominn. Tók þá komumaður upp hjá sèr járntein lítinn, og segir, að kóngsson skuli fá Rósamundu teininn, og skuli hún, þegar hún læri eitthvað til munnsins, leggja hann á túnguna á sèr, en þegar hún vilji nema eitthvert handbragð, skuli hún hafa teininn milli fíngranna, og muni hún á svipstundu nema hvorttveggja, og kunna síðan. Kóngsson spyr, hvað hann vilji hafa fyrir þetta; hinn segir, að þetta sè svo lítill greiði, að ekki taki því, að setja upp á það, enda muni hann koma til Rósamundu eptir 3 ár, og eigi hún þá að fá sèr aptur teininn, og segja sèr, hvað hann heiti; ef hún geti það muni hún muna eins eptir sem áður, alt sem hún hafi lært, þó hún skili sèr teininum, en ef hún

getur það ekki, mun eg sækja hana sjálfa með teininum að 3 árum liðnum, og er hún þá mín eptir það, en nafn mitt er Rigdín-Rigdón. Kóngsson þakkar honum mikillega þessar tillögur sínar, og kveður hann síðan. Geingur hann svo heimleiðis miklu lèttari í skapi, og hugfestir nafn mannsins. Eptir þetta fær kóngsson því framgeingt hjá föður sínum og móður, að þau lofa honum að sækja Rósamundu, og reyna að láta kenna henni kvennlegar listir, en með því skilyrði, að ef hún geti ekkert numið, skuli hann ekki hugsa á eiginorð við hana. Þetta gera þau nú statt og stöðugt, og fer svo kóngsson eptir Rósamundu með fríðu föruneyti, flytur hana heim til kóngshirðar, fær henni teininn og segir henni, hvernig hún skuli neyta hans. En af fögnuðinum yfir því, að hann var búinn að fá hana heim til hirðarinnar, gleymir hann alveg nafni mannsins, sem hann hafði hitt á skóginum. Eru nú Rósamundu feingnir kennarar og konur, sem hún átti að nema af til munns og handa, og þarf ekki að orðlengja það, að henni var alt í augum uppi, hvort sem var til bókarinnar eða handanna. Nú leið til þess, er komið var á þriðja árið, og gat kóngsson ekki munað nafnið á manninum með nokkru móti; varð hann af því áhyggjufullur meir en áður, ef hann yrði nú að sjá á bak unnustu sinni, sem var orðin eins vel að sèr, og hún var fríð til. Í þessu ráðaleysi er hann einn á gángi út í skógi, og kemur fram í eitt rjóður; þar var hóll í rjóðrinu. Hann heyrir hlátra mikla og mælgi í hólnum, og skilur, að þar eru einhverjir að telja upp, hvað margar sálir þeir hafi svikið. Nú fer að fara um kóngsson, því hann ímyndar sèr, að það hafi líklega verið einn af þessum piltum, sem hann hafi hitt á skóginum forðum. Hlustar hann nú enn til orðalags þeirra, og þykist þó staddur milli heims og helju, þar sem hann var kominn. Loksins heyrir hann, að þessar stökur eru mæltar fram í hólnum:

,,Menn, sem að mig kalla ref,
marga orsök eg til þess hef:
einga vægð öndum eg gef,
út þegar skuld mína kref.
 Um geing eg, alt eins og ljón,
allmargra blindað hef sjón;
mein geri eg mönnum og tjón;
mitt nafn er Rigdín-Rigdón."

Þegar kóngsson heyrir nafnið í seinni vísunni, kannast hann við, að það er sama nafnið, sem hann hafði gleymt, og verið leingst hugsandi út af að undanförnu. Hann skrifar nú nafnið hjá sèr, og geingur heim hress í huga. Síðan lætur hann gera glerskáp svo stóran, að Rósamunda gat staðið í honum, og skrifa allstaðar á hann „Rigdín-Rigdón", svo ekki varð neinstaðar litið á skápinn, utan eða innan, svo að nafnið blasti ekki við. Þegar dagurinn kom, sem maðurinn hafði gert ráð fyrir að koma og sækja

teininn, að 3 árum liðnum, lèt kóngsson Rósamundu fara í skápinn og hafa hjá sèr teininn, og sagði henni að fá hann þeim, sem til hennar kæmi og segja um leið „Rigdín-Rigdón", en ekki mætti hún fara út úr skápnum, nè láta sèr hugfallast, hvað sem fyrir kæmi, en muna eptir nafninu, sem hann þessvegna hefði látið skrifa á skápinn. Eptir það fer kóngsson burt úr herberginu og læsir því. Þegar nokkur tími var liðinn, veit Rósamunda ekki fyrri til, en hún sèr mann koma í herbergið inn að læstum dyrum. Hann geingur rakleiðis að skápnum og biður hana að koma út úr honum. En hún lèt sem hún heyrði það, rèttir að honum teininn og segir: „Taktu við, Rigdín-Rigdón". Við það sökk þessi gestur niður um gólfið, þar sem hann stóð, þegar hann heyrði nafn sitt. Eptir þetta hèlt kóngsson brúðkaup sitt til Rósamundu, og settust þau svo að ríkjum með kóngi og drottníngu föður kóngssonar. Rósamunda þókti fyrirtaksdrottníng um flesta hluti; mundi hún alt það, sem hún hafði numið með aðstoð teinsins, þó ekki væri betri að honum nauturinn, sem allir ætluðu að hefði verið kölski sjálfur.

**d)** Það hefir verið trú hèr á landi, að hinn vondi væri mjög nærgaungull við úngbörn, og dæmi eru til þess, að djöfullinn hafi „vitjað nafns", meðan börn voru í móðurkviði. Þess vegna var það siður til forna, að særa djöfulinn frá barninu, þegar það var skírt. Hèr set eg þá að lyktum tvær sögur, þessu til sönnunar, þó hin fyrri sè allúng.

**Satan vitjar nafns.** (Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 193. bls. og sögu-sögn að norðan.) Um lok 18. aldar bjó sá bóndi í Húnavatnssýslu, sem Ketill hèt. Meðan kona hans var þúnguð, dreymdi hana, að Satan kæmi til sín, og beiddi sig, að láta barnið, sem hún geingi með, heita í höfuðið á sèr. Af því það er allmenn trú, að það verði barninu fyrir einhverju góðu, ef maður verður við tilmælum þess, sem vitjar nafns til konu, ætluðu hjónin að láta barnið heita Satan. En presturinn, sem skírði barnið, vildi ekki skíra það því nafni, og skírði því piltinn Natan. Þegar Natan Ketilssyni óx fiskur um hrygg, voru honum margir hlutir vel gefnir, því bæði var hann vel hagmæltur, og heppinn skottulæknir, en miður þókti hann vandaður til orðs og æðis. Hvorki nenti hann að vinna sèr brauð, nè heldur hafði hann erft auð, þó skorti hann aldrei peninga, og eptir honum er það haft, að aldrei mundi sèr fèfátt verða, meðan hann lifði. Af þessu ætluðu menn, að hann hefði gert samníng við kölska um að veita sèr fè nóg, hvernig og til hvers sem hann eyddi því, enda kallar Espólín hann flángrara, flysjúng, ónytjúng og hinn slægasta, og bregður honum við lygar, brögð og óráðvendni.[1] Einu sinni átti Jón sýslumaður Espólín að halda próf yfir Natan. Játaði og játaði þessi slúngni bragðarefur alt athæfi

1. Árb. Esp. XII, 143, 145, 150 og 161—2. bls.

sitt fyrir sýslumanni, þegar þeir töluðust við í einrúmi, en neitaði því aptur öllu saman með einstöku blygðunarleysi, þegar sýslumaður sat yfir máli Natans með samdómendum sínum. Prófið varð því árángurslítið; en þegar sýslumaður varð að láta Natan lausan úr varðhaldinu, er sagt hann hafi tekið í handlegg hans af heljarafli sínu, og nálega kramið hann sundur og mælt þessa vísu fram um leið:

„Kvelji þig alskyns kynja skæð
kvöl og Datan glatan;
brenni þèr sinar blóð og æð,
bölvaður Natan, Satan“.

Upp frá því er sagt, að gæfu Natans hafi farið að halla, og árið 1828 var þessi nafn-arfi djöfulsins myrtur af einum samlags þjóni sínum og 2 vinnukonum.

**„Abi male spirite.“** (Tekið eptir sögn Búa sál. prófasts Jónssonar á Prestsbakka.) Einu sinni átti pokaprestur nokkur að skíra barn. Það var í þá tíð, sem siður var að særa hinn óhreina anda út af barninu, og það á latínu. Þá segir prestur:

„Abi male spirite“.[1]

En kölski sat úti í einu kirkjuhorninu, gellur við og segir:

„Pessime grammatice.“[2]

Þá segir prestur:

„Abi male spiritu“.[3]

Þá segir kölski:

„Laugstu fyrr, og laugstu nú“.[4]

Þá segir prestur:

„Abi male spiritus“.[5]

Þá segir kölski, og fór burtu um leið:

„Sic debuisti dicere prius“.[6]

Þar sem Dr. Maurer hefir snúið þessari sögu á þýzku, hefir hann sett aðra sögu til samanburðar, sem geingur á Þýzkalandi um samskonar prestlega athöfn, og er hún hèr um bil svona: Klerkurinn byrjar særínguna þannig: „Exi tu ex hoc corpo“. Djöfullinn svarar: „Nolvo“. Þá spyr prestur: „Cur tu nolvis?“ Djöfullinn svarar: „Quia tu male linguis“. Þá segir prestur: „Hoc est aliud rem“, og fór með það burtu.

---

1. Burt með þig, illur andur, nú.
2. Afleitur bögubosi ert þú.
3. Burt með þig, illur anda, nú.
4. Laugstu fyrr, og laugstú nú.
5. Burt með þig, illur andi, nú.
6. Svo áttir fyrr að segja þú.

## 2. GREIN.

### HELGIR MENN.

Um jómfrú Maríu, sem í sannleika var höfð fyrir afguð á miðöldunum hèr á landi, eins og annarstaðar, eru svo fáar sem eingar sögur, er gánga í munnmælum að undantekinni þessari um Rjúpuna.[1] Einu sinni boðaði María mey alla fuglana á fund sinn. Þegar þeir komu þángað, skipaði hún þeim að vaða bál. Fuglarnir vissu, að hún var himna drottníng og mikils megnandi. Þeir þorðu því ekki annað en hlýða boði hennar og banni og stukku þegar allir út í eldinn og í gegnum hann, nema rjúpan. En er þeir komu í gegnum eldinn, voru allir fæturnir á þeim fiðurlausir og sviðnir inn áð skinni, og svo hafa þeir verið síðan alt til þessa dags, og hlutu þeir það af því að vaða bálið fyrir Maríu. En ekki fór betur fyrir rjúpunni, sem var sú eina fuglategund, sem þrjóskaðizt við að vaða eldinn; því María reiddist henni og lagði það á hana, að hún skyldi verða allra fugla meinlausust og varnarlausust, en undir eins svo ofsókt, að hún ætti sèr ávalt ótta vonir, nema á hvítasunnu, og skyldi fálkinn, sem fyrir öndverðu átti að hafa verið bróðir hennar, æfinlega ofsækja hana og drepa og lifa af holdi hennar. En þó lagði María mey rjúpunni þá líkn, að hún skyldi mega skipta litum eptir árstímunum og verða alhvít á vetrum, en mógrá á sumrum, svo fálkinn gæti því síður deilt hana frá snjónum á veturna og frá lýngmóunum á sumrum. Þetta hefir ekki úr skorðum skeikað, nè heldur hitt, að fálkinn ofsæki hana drepi og èti, og kennir hann þess ekki, fyrr en hann kemur að hjartanu í rjúpunni, að hún er systir hans, enda setur þá að honum svo mikla sorg í hvert sinn, er hann hefir drepið rjúpu, og ètið hana til hjartans, að hann vælir ámátlega leingi eptir. En aptur eru nokkur grasanöfn, samsett af nafni hennar,[2] og fuglsnafnið Máríatla. Lýsíng Maríu er á þessa leið. María, móðir drottins vors Jesú Krists, var að persónunni, sem eptir fylgir: Hún var í allan máta rèttvísleg og alvarleg; var ei margtölug, heldur talaði fátt og um það eitt, sem þörf gjörðist; gat gjarnan hlýtt öðru fólki, lèt og gjarnan tala við sig. Var meðal-há að vexti, ágæt og velskikkuð, var virðíngasöm við hvern mann, djarfmælt og einörð, að segja hverjum manni satt, án hláturs og annara ósæmilegra athafna. Hún var nokkuð dökkleit í andliti, hafði fagurt hár, einarðlega og skarpa sjón með gulum hríng um sjáaldrið, ekki hvikuleygð, dökkvar augnabrýr, kringlótt enni, nokkuð lángt nef, rauðar varir, hverjar, þá hún talaði, hrærðust mátulega, lángleit nokkuð í andliti, að meðalhófi lángar hendur og fíngur; hafði ekki neitt yfirlæti í sínum gángi, eður líkamans hegðan eður viðmóti, heldur hèlt sig ein-

---

1. Eptir norðlenzkum sögnum bæði frá Skúla presti eptir Pál Ólafsson og öðrum.

2. t. d. Maríugrös, Maríukjarni, Maríulumma, Maríustakkur (sbr. Grasafræði), Maríuvöndur.

faldlega, so ekkert lauslætis-viðmót sást á henni. Skrifað er hún hafi 63 ár hèr á jörðu lifað, og andazt úr sótt í húsi Jóhannis guðspjallamanns, hvert eð lá nærri fjallinu Zíon, í náveru margra postulanna, og hafi grafin verið í Getsemane.[1] — Af nafni sánkti Pèturs eru samsett nokkur nöfn í náttúrusögunni,[2] en fáar eru sögur um hann, auk þeirra, sem fyrr eru nefndar, nema þær, sem lúta að fiskidrætti, og er ein þetta, sem hèr á helzt við: Sem sánkti Pètur prèdikaði við þann stóra sjó, uppspurði hann þann fiski-Júða, hvers líki ekki hafði fundizt til fiskidráttar. Og eptir því hann vildi með eingu móti við trú taka, fór postulinn til fundir við þenna fiskikarl, og vannst ekki á hann í fyrstu. Hann sagðist og miklu betri fiskimaður vera en Pètur hefði nokkurn tíma verið; og þó hann hefði fiska veitt, þá skyldi hann aldrei sig veiða. St. Pètur sagðist þó þar þó kominn til að reyna við hann um þetta. Og það verður um síðir, að fiskikarl skyldi trú taka, ef St. Pètur kynni að vinna hann í fiskidrætti. Og sem þeir komu á sjó og reyndu, vann karl. Þá leysti St. Pètur af aungul sinn, og hnýtti hnút á enda taumsins og dró svo fiska. Karlinn gjörði eins og dró líka svo. Þá leysti St. Pètur af hnútinn og dró sem áður. En sem fiskikarl vildi þar eptir breyta, kom hann eingum fiski upp. Svo var hann til trúarinnar unninn.[3]

**Austurvegs-vitríngar.** (Eptir Hamrendabók.) Sá fyrsti hèt Caspar kóngur. Hann átti einn aldingarð nærri herbergi sínu. Þar var trè, sem spáð hafði verið fyrir, að það skyldi standa, þángað til Kristur fæddist. Var það svo gamalt, að því nær voru rotnir allir kvistirnir af því. En á þeirri nótt, sem Kristur fæddist, blómgaðist trèð, og sat þar á fugl, og sagði í saung sínum, að frelsarinn væri fæddur. Annar kóngur hèt Melchior. Í hans garði var fugl, er hèt strás.[4] Og á þeirri nóttu, er vor herra var borinn, varp hann á móti sinni náttúru tveimur eggjum, klakti báðum eggjunum út, og var í öðru lamb, en í öðru leon, og þýddu meistarar það svo, að lausnarinn væri borinn. Þriðji kóngur hèt Balthasar. Í hans návist varð ein kona lèttari að sveinbarni, og strax er það var fætt, talaði það og sagði, að heimsins frelsari væri fæddur, „og til merkis á eg að lifa 33 daga, eins og hann árin“.

Um aðra helga menn á dögum postulanna eru mèr eingar sögur kunnar.

Aðrir helgir menn, en þeir, sem kunnir eru úr biflíunni, og sögur hafa farið af, eru eins og líklegt er, helzt innlendir á Íslandi; þó hefi eg

1. Þessi lýsíng er tekin eptir bók, sem Jóhannes Jónsson í Elínarhöfða á Akranesi lèði mèr.

2. Pètursbudda, Pèturskofa, Pèturskóngur, Pèturssóley, Pètursurt, Pètursmold.

3. Eptir Tydsfordryf Jóns Guðmundssonar lærða.

4. Þannig handritið; á, ef til vill, að vera strúss.

hvorki heyrt neinar alþýðusögur um Jón biskup helga Ögmundsson, nè heldur um þorlák biskup helga, nema þær, sem áður er getið;[1] en aptur á móti hafa því fleiri sögur farið af Guðmundi góða Arasyni, sem var biskup á Hólum frá 1203—1237, enn þótt hann hafi aldrei komizt í helgra manna tölu. Af Guðmundi eru til þrjár bóksögur prentaðar;[2] hin fyrsta drepur á viðureign Guðmundar við óvættina Selkollu;[3] en hinar tvær segja greinilega frá öllum þeim atburðum,[4] og er þetta inntak úr.[5] Meybarn fæddist á Eyum í Strandasýslu; en með því eingin kirkja var nær en á Stað i Steingrímsfirði, var feinginn karlmaður og kona til að fara þángað með barnið til skírnar. Á leiðinni leggja þau af sèr barnið, og gamna sèr þar saman. En þegar þau ætla að taka barnið aptur, er það dautt og illilegt og skilja þau það eptir. Bráðum fór að bera á því, að vondur andi hafði notað þetta tækifæri og farið í barnslíkamann, og var hann síðan á kreiki í konulíki, og stundum með selshöfði; af því var hún kölluð Selkolla, og þó ekki minna af því sagt, hvernig Guðmundur biskup fyrirkom henni loksins eptir lánga mæðu og fyrirhöfn. Munnmælasögur gánga enn um Selkollu og segir þar, meðal annars, að hún hafi einu sinni orðið á vegi fyrir smalamanni einum og gefið sig á tal við hann. Þegar hann spurði hana, hvort hún væri ekki hrædd við sig, svaraði hún skorinort: „Eg hræðumst öngvan, nema hann skitu-Gvend.“ Ekki kveður minna að atgjörðum Guðmundar biskups, þar sem hann vígir vötn og brunna, og getur hin elzta Guðmundarsaga þess, að vatn það, er hann vígir, hafi verið heilnæmt,[6] slökkur eld hverju vatni betur,[7] og haft marga aðra kynja krapta,[8] varnað húngri[9] og reymleikum eða óvætta-gángi,[10] stórár og jafn vel sjór lægði sig fyrir Guðmundi og vígslum hans,[11] en veiði kom í sumar fyrir bænastað hans,[12] og svo þókti María meyju vígslur hans ágætar, að hún lýsti því yfir, að einginn annar prestur kynni að vígja vatn jafn vel og hann.[13] Miðsaga Guðmundar og hin síðasta (eptir Arngrím ábóta), getur um samræðu hans og þóris erkibiskups í þrándheimi, um vatnsvígslu

1. Jóns Ögmundssonar er getið í sumum sögunum af Sæmundi fróða á undan III, 3, en þorláks í Bjargvígslum I, 3.
2. Biskupasögur (Kh. 1858) I, 406—558 og 559—618 bls. og II, 7 ff.
3. S. st. 63. kap. 502. bls.
4. S. st. 34—35. kap. 604—608. bls.
5. Um þenna atburð hefir Einarr Gilsson ort Selkolluvisur, Bisk. s. II, 82. bls.
6. Guðmundarsaga, I, 455, 460, 466, 534—5. bls.; sbr. II, 610—11 og 618. bls.
7. S. st. II, 598. bls., sbr. II, 609. bls.
8. S. st. I, 461.
9. S. st. II, 597 og 611. bls.
10. S. st. II, 598. bls.
11. S. st. I, 467, 469. og 484. bls.
12. S. st. II, 593—4 og 595. bls.
13. S. st. I, 437.—8. bls.

Guðmundar, og lýsir það sèr af viðtali þeirra, að vígslur hans hafa verið misjafnlega álitnar, meðan hann lifði, en að erkibiskup, sem í fyrstu þókti þær ísjárverðar, áleit þær að lyktum ekkert áhorfsmál, og leyfði þær.[1] Í þessum fornsögum af Guðmundi er einkum og allopt talað um brunnvatn, sem hann vígði, og gjörði vatnið fjölnýtt til margra hluta,[2] og hefir minníngin um þær vígslur haldizt bezt við til þessa. Það var hvorttveggja, að Guðmundur biskup fór víða um land, enda eru Gvendarbrunnar allstaðar á Íslandi, sem draga nafn sitt af því, að Guðmundur hafi vígt þá; þessir brunnar frjósa aldrei á vetrum, og þorna aldrei á sumrum, og vatnið í þeim er talið hollara og betra en alt annað vatn. Fleira er kent við Guðmund biskup, en brunnarnir. Þannig heitir Gvendarfoss hjá Tröllatúngu, og drukknar þar einginn maður. Sama er að segja um Fróðastaðavað í Hvítá í Borgarfirði eptir að biskup vígði það, sem hèr segir. Þegar Guðmundur biskup fór yfir Hvítá í Borgarfirði, drukknaði einn af mönnum hans í ánni. Vígði hann þá vaðið og mælti svo fyrir, að eingum manni skyldi þar framar berast á. Vaðið er enn á ánni, og þykir jafnan hið farsælasta vað. Er það hjá Fróðastöðum, næsta bæ fyrir framan Síðumúla í Hvítársíðu, og heitir Fróðastaðavað. Ekki vita menn til, að neinn maður hafi drukknað á vaði þessu, síðan það var vígt, og hefir þó margur farið þar voðalega yfir.[3] Eggert Ólafsson nefnir Gvendarlaug í Tálknafirði, og að hann hafi vígt Dalsvatn hjá Sauðlauksdal.[4] Viðureignar Guðmundar við bergbúa, þar sem hann vígði fuglaberg, eins og Þorlákur biskup helgi, er áður getið[5]. Tvær jurtir eru kendar við Guðmund biskup, Gvendarber og Gvendargrös, öðru nafni fjörugrös.[6]

Sem sýnishorn af útlendu æfintýri, sem einhvern tíma hefir verið snúið á íslenzku, er hèr:

**Eitt æfintýr af hinum heilaga Wítus.** (Eptir Hamrendabók.) Á dögum Diocletiani og Maximiani heiðíngja kónga gjörði heilagur sveinn Wítus margar jarteiknir í landi því, er Lybía heitir, og var hann á bænum opt nætur og daga og snèri mörgum til trúar og veitti þurfendum marga nauðsynlega hluti og ölmusugæði; en Wítus var auðugur að aurum, göfugur að kyni og kallaði á guð og mælti: „Drottinn Jesús Kristur gjör þú mèr miskun þræli þínum, og rek þú mig ei frá boðorðum þínum og skil þú mig ei frá samlagi rèttlátra“. En er Wítus bað guð af hjarta sínu, kom rödd af himni yfir hann og sagði: „Heyrð er bæn þín og mun veitast, sem

1. Guðmundarsaga II, 575—8. og 583 bls. Sbr. Egg. Ólafssonar ferðabók §. 553, 382. bls.
2. S. st. I, 450, 457, 462 og II 595—6, 606, 608—9, 612 og 616. bls.
3. Eptir sögn Hvítsíðínga í Borgarfirði.
4. Ferðabók Eggerts 385. bls.; sbr. 382. bls.
5. Sjá I, 3, Bjargvígslur, Hornbjarg, Drángey, Tröllið í Skrúðnum.
6. Sjá Eggerts ferðabók 942. bls. og Mohr 248. bls.

þú baðst um“. En faðir hans var grimmur maður og heiðinn, og vildi láta son sinn blóta. En Wítus svaraði honum: „Eingan kalla eg annan guð, en föður vors drottins Jesú, og sem er einn sannur guð og eilífur, sá, er skildi ljós frá myrkri; kallaði hann ljós, og varð dagur, kallaði hann myrkur og varð nótt, honum sjálfum þjóna eg, kóngi engla, þeim er skóp himin og jörð og alt annað, sem þar er á milli“. Og er þetta heyrði faðir hans, lèt hann festa son sinn á trè og berja og svarar: „Hver kendi þèr þetta að mæla? ef þetta heyrir kóngur, muntu deyja“. Wítus mælti: „það er þú heyrðir mig mæla faðir, Kristur kendi mèr það, svo eg em hans þræll“. þá kallaði Hilar á Modestum fóstra sveinsins og mælti: „Gæt þú að sveinninn mæli ei optar slíka hluti“. Wítus segir: „þetta er mèr hunángi sætara, svo sem sálmaskáldið segir: „Sætari eru munni mínum þín orð drottinn, en hunáng brjósti mínu, betri eru mèr lög þíns munns, en mikill fjöldi gulls og silfurs“. þá sýndist Wítus engill standa og mælti: „Eg er þèr sendur af guði, að eg varðveiti þig til lífláts, og þekkar eru guði bænir þínar“. En Hilar grèt son sinn svo sem dauðan, og vildi teygja hann með blíðindum til blóta. Wítus mælti: „Hverjum goðum viltu að eg blóti?“ Hilar mælti: „Veiztu ei dauðleg goð vera? Óðinn, þór, Frygg og Freya, er kóngar gánga að göfga.“ Wítus mælti: „Aldrei heyrði eg svo mörg goð nefnd, en kenni eg föður drottins vors Jesú Krists, guð lifanda, hans flekklaust blóð, það burttók heimsins syndir, og frelsaði oss með sínum dauða“: Hilar mælti: „Veit eg þann, er þú kallar Krist, og var krossfestur af mönnum“. Wítus mælti: „Hans krossfestíng er lausn synda vorra er á hann trúum, en ei má skilja frá ást hans“. En Wítus vann mörg kraptaverk, græddi sjúka, og rak djöfla út frá öðrum mönnum. En er það spurði Walerianus jarl, heimti hann til móts við sig föður sveinsins og mælti við hann: „Heyri eg að sonur þinn fyrirlítur goð vor, en göfgar Krist, þann er var krossfestur á Gyðíngalandi, af því lát þú hann híngað senda“. En er Wítus var leiddur fyrir dómstól jarls, mælti jarl við hann: „því blótar þú eigi, eða veiztu eigi, að kóngar buðu að kvelja þig mörgum píslum og alla þá er Krist göfga?“ Heilagur Wítus mælti: „Eigi mun eg hneigja háls minn fyrir skurgoðum, nè steinum lúta, því að eg hefi drottinn þann önd mín þjónar“. En er þetta heyrði faðir hans, þá mælti hann: „Gángið híngað vinir mínir, og grátið með mèr, því eg sè son minn fyrirfarast“. Wítus mælti: „Eigi fyrirferst eg, heldur kjöri eg mèr að gánga í sveit rèttlátra“. Valerianus mælti: „Nú þegar lèti eg þig staungum berja, ef ei væri vináttu föður þíns, af því lút þú að mèr og blóta goðum mínum“. Wítus mælti: „Sagði eg þèr nú um sinn, jarl, Kristum göfga eg, son guðs“. þá reiddist Walerianus og lèt festa Wítus á trè og berja, og sá fyrstur rètti hendur sínar að berja sveininn, þá visnuðu hans hendur, og hann kallaði: „Vesæll em eg, að eg glataði höndum mínum og kveljist eg í sótt.“ þá var þángað kallaður faðir sveinsins, og mælti Walerianus við hann: „Sè eg son

þinn fjölkunnugan vera". Wítus segir: „Eigi em eg fjölkunnugur, heldur em eg þræll Krists, þess er mèr kennir boðorð sín, og er eg fyltur af hans anda, þess er dauða lífgaði, og gekk þurrum fótum um sjóinn, en ef goð yðar mega nokkuð, þá gjöri þau heila hönd þessa manns". Jarl mælti: „Gjör það, er þú mæltir". Wítus segir: „Í nafni drottins Jesú mun eg gjöra það", og er hann kallaði á nafn Jesú gjörði hann heila hönd hans. Þá sendi jarl til föður hans og mælti við hann: „Bilt þú um fyrir syni þínum, að hann láti að oss og blóti goðum vorum". Þá leiddi faðir hans hann inn í hús og sýndi honum krásir og fögur auðæfi og lèt leiða fyrir hann vænar meyar og fríðar, og ætlaði að teygja hann með blíðindum þessa heims frá trú Krists. Wítus leit til himins og mælti: „Eigi fyrirlítur guð lítillátt hjarta". En klefi sá, er Wítus var íluktur, var innan gulli gjör og gimsteinum. Þá fèll Wítus á knè og mælti: „Guð Abrahams, Ísaacs og Jacobs miskuna þú mèr og styrk mig með krapti þínum, að eigi megi illgjarn dreki fremja vilja sinn, og gegn þræli þínum, að ei þurfi heiðnar þjóðir að spyrja: „Hvar er guð?" Þá kom ljós mikið í hús það, er Wítus var í luktur, og ilmur dýrðlegur, svo menn þóktust aldrei hafa slíkan fyr kent. Þá mælti Hilar: „Guð vor munu vera komin". En er hann leit í klefann í gegnum gluggann sá hann 7 engla standa hjá sveininum og styrkja hann, en er hann sèr þetta, varð hann blindur og kallaði dárlegri röddu og mælti: „Vesæll em eg, að eg glataði ljósi augna minna". En Wítus bað fyrir föður sínum og mælti: „Drottinn Jesús, sem getinn ert af heilögum ánda, skil þú mig eigi frá föður mínum, heldur leið hann til heilagrar hallar þinnar"; þá varð mikill hryggleiki allra hinna, og fóru þessi tíðindi um borgina. Þá kom Walerianus jarl þángað, og spurði með hverjum atburðum Hilar hefði blindur orðið. Hilar svarar: „Þá eg sá í klefann sonar míns, sá eg þar eldleg goð, og mátti eg ei standast við lit þeirra". Walerianus mælti: „Goð vor munu græða þig"; þá var Hilar leiddur til Þórs hofs að ráði Walerianusar jarls og hèt Þór miklum gáfum og mælti: „Þór guð, ef þú gjörir mig heilan þá mun eg færa þèr gullhyrndan uxa". En Þór svaf, og veitti honum einga hjálp, heldur stundi hann eður æpti af ofurverkjum, en sæli sveinn Wítus fèll á knè og bað til guðs og mælti: „Þú guð, er leystir Tobbiam og græddir Job af sárum, gjör þú nú miskun þína við föður minn, ef hann vill að þèr lúta". Þá var leiddur blindur faðir til sonar, og fèll til fóta honum og mælti: „Gjör þú mig sonur heilan og gjör miskun við mig". Wítus mælti: „Viltu heill verða?" Hann svarar: „Víst vil eg". Wítus mælti: „Mátti ei Þór og Óðinn, Frygg og Freya gjöra þig heilan?" Hilar svarar: „Hversu máttu þeir þetta gjöra?" Wítus mælti: „Veit eg hjarta þitt er harðnað í öllu, en fyrir hjáverandi lýð mun eg gjöra þèr miskun í nafni drottins vors Jesú Kristi, svo lýðurinn viti hann er guð". En er Wítus gjörði krossmark fyrir augum föður síns, fèll hreistur af augum honum og varð hann heill, kallaði og mælti: „Þakkir gjöri eg

goðum mínum, er mig gjörðu heilan“. Wítus brosti og mælti: „Þú óvinur Krists, Kristur gjörði þig heilan, en ei goð þín“. En er Hilar vildi bana syni sínum, þá vitraðist engill guðs Modestum fóstra sveinsins og sagði: „Far þú niður til sjávar, og munuð þið finna þar skip, er guð mun senda yður, og mun eg fara yður til annars lands“. Modestus mælti: „Ei kunnum við leið til sjávar“. Engillinn mælti: „Eg mun leiða yður til annars lands“. Þá var Wítus 7 vetra gamall. En er þeir komu til sjávar, fundu þeir skip það, er drottinn sendi þeim. Engillinn freistaði sveinsins og mælti: „Til hvers hèraðs viljið þèr fara?“ Wítus svarar: „Þángað, sem drottinn vill oss senda“. Engillinn mælti: „Hvar er skipleigan?“ Wítus svarar: „Krists þrælar erum vær, hann mun gjalda þèr verðkaupið“. En er þeir stigu á skip, voru þeir þegar staddir á öðru landi, og sáu ei til skipsins; en þeir komu að á þeirri er Ciler heitir, og hvíldust undir trè nokkru. En Wítus gjörði margar jarteiknir, og sögðu djöflar til hans, er mæltu fyrir munn óðra manna, og kom margur líður til hans og tóku margir trú er sáu jarteiknir hans, og kendi hann þeim guðs orð. En sonur Diocletiani var kvalinn af djöfli og kallaði óhreinn andi úr munni hans og mælti: „Eigi mun eg útfara, nema Wítus komi“. Kóngur mælti: „Hvar munum vèr finna hann?“ Óhreinn andi sagði: „Hjá á þeirri er Ciler heitir munuð þèr finna hann“. Þá sendi kóngur menn vopnaða, að þeir kölluðu heilagan Wítus á hans fund. Riddararnir fóru og fundu Wítus standandi á bæn, og mæltu þeir við hann: „Ertu Wítus?“ En hann sagði: „Eg em hann“. Riddararnir mæltu: „Kóngur sendi oss eptir þèr“. Wítus mælti: „Hvað þarf kóngur svo lítils sveins?“ Riddararnir mæltu: „Sonur hans er kvalinn af djöfli“. Wítus mælti: „Förum vèr þá“. En er þeir voru komnir í Rómaborg, þá lèt Díocletianus leiða sveininn fyrir dómstól sinn, en Wítus var vænn að áliti, og var guðsmiskunarþokki sèn á honum. Diocletianus mælti: „Ertu Wítus?“ en hann þagði. Þá spurði kóngur Modestum, en Modestus var gamall, og kunni hann engu að ansa. Þá mælti Wítus við kóng: „Við hvern mælir þú hinn eldri eður yngri? þar fyrir svara eg þèr ei, að þú áttir fyrri að spyrja hann eldri“. Kóngur mælti: „Hvort styggist þú í gegn oss?“ Wítus mælti: „Eigi styggist eg, heldur erum vèr einfaldir sem dúfa, því lærifaðir vor er góður og einfaldur í sínu eðli“. En óhreinn andi kallaði úr sveininum og mælti: „Wítus því kvelur þú mig fyrir tímann?“ Kóngur mælti: „Máttu heilan gjöra son minn?“ Wítus mælti: „Eigi má eg, heldur Jesús Kristur, sonur guðs lifanda“. Þá gekk Wítus til sonar kóngs, og lagði hendur yfir hann og mælti: „Far þú út óhreinn andi frá skepnu guðs“. Þá varð fjandinn hræddur, flýði og drap marga menn; þá hræddist allur lýður. Þá varð Díocletianus hræddur, svo hann fèll í óvit, en er hann rèttist við, mælti hann við Wítus: „Lát þú að mèr og blóta goðum mínum, og mun eg gefa þèr mikið eður helmíng eignar minnar og ríkis míns, og göfga þig gulli og silfri og dýrðlegum klæðum“. Wítus

mælti: „Ríki þitt og fè fari með þèr, það er mèr ei nytsamlegt, því eg hefi með mèr guð lifanda, en ef eg er staðfastur í ást hans, mun hann skrýða mig ódauðlegum skrúða, þeim er drottinn mun mèr gefa“. Kóngur mælti: Gef þú heilt ráð öndu þinni, og blóta goðum mínum, að eigi kveljist þú í píslum“. Wítus mælti: „þess fýsumst eg að koma til þeirrar dýrðar og sannrar náðar, er drottinn hèt vinum sínum“. þá lèt kóngur setja Wítus og Modestum í járn, selja þá í myrkvastofu, svo að einginn kæmi að vitja þeirra að færa þeim drykk nè fæðu. Og er þeir voru komnir í myrkvastofu kom ljós mikið af himnum og fylti upp myrkvastofuna, svo varðhaldsmenn undruðust, en Wítus kallaði hárri röddu á guð og mælti: „Hygg þú að hjálp vorri drottinn og skunda að leysa oss, svo sem þú leystir 3 sveina úr brennanda ofni“. þá varð landskjálfti mikill og vitraðist engill guðs Wítus og mælti: „Rís þú upp Wítus“; þá bráðnaði af honum festin, sem væri í eldi, og súngu lof guði og mæltu: „Lofaður sè guð Ísraels, sem frelsaði og gjörði lausn þjóðar sinnar“. En er myrkvastofuvörður heyrði þetta, og sá þessa hluti, rann hann til kóngshallar, kallaði mikilli röddu og mælti: „Fyrirfarast mun borgin, og eru menn í háska staddir“. Kóngur mælti: „Hvað er nú orðið?“ Myrkvastofuvörðurinn mælti: „Ljós mikið er yfir þeim mönnum, er þú seldir oss til varðveizlu, ilmur dýrðlegur er með þeim manni, svo mannkyn má ei í gegn standa“. Díócletianus mælti: „Dýrt skal selja andir þeirra, og mun eg þá sjá, hvort Kristur þeirra megi leysa þá úr höndum (oss)“. En er þeir voru leiddir til dýragarðs og stóðu þar, þá mælti Wítus við Modestum: „Hræðst þú ei dauðann, því nú nálgast dýrð okkar“. En þar stóð hjá 2000 karla og ótal konur og börn. þá mælti kóngur: „Hvar þykist þú nú kominn vera?“ Wítus mælt: „Til dýragarðs sè eg mig leiddan vera“. Kóngur mælti: „Vertu heilráður öndu þinni og blóta goð mín“. Wítus mælti: „Sè þèr aldrei vel, óvinum skæður, vargur og svikari, ef mælt væri við hund, mundi hann skammast sín, en eg hefi með mèr Krist þann, er eg þjóna“. þá reiddist kóngur og lèt kynda ofn brennandi, og hella ofan í vellandi biki, viðsmjöri og blýi. þjónar gjörðu sem þeim var boðið, og köstuðu heilögum Wíto í ofninn. Kóngur mælti: „Nú mun eg reyna, hvort guð þinn mun leysa þig úr höndum mínum“. En er Wítus var kastað í ofninn gjörði hann krossmark fyrir sèr; saung guði lof í miðjum ofninum, og mælti: „þú drottinn! er leiddir sonu Israels að Egyptalandi fyrir þènara þína Moses og Aaron og leystir úr ánauðum, gjör þú miskun þína við oss fyrir nafn þitt“. þá mælti Wítus við kóng: „Hvar eru nú píslir þínar? þakkir gjöri eg þèr að þú lætur gjöra mèr laug“. þá tók allur lýður að kalla og mælti: „Aldrei sáum vèr slíkar jarteiknir, og mikill er guð sveina þessara“. þá gekk Vítus óskaddaður úr ofninum, og eigi var flekkur á líkama hans, heldur var hans hold hvítt sem snjór. þá mælti Wítus við kóng: „Far þú með djöfli föður þínum“. þá fylltist kóngur reiði og lèt hlaupa að þeim hið

óarga dýr, er hver mann hræddist, er þess rödd heyrði. „Mun nú,“ sagði kóngur, „fjölkýngi þín mega við dýri þessu?“ Wítus segir: „Skilur þú það ei hinn heimski að Kristur er með mèr?“ Þá gjörði Wítus krossmark móti dýrinu og stè fyrir kverkar þess og það kom og fèll til fóta honum. Þá mælti Wítus við kóng: „Þessir hlutir gjalda veg guði, en ei mèr“. Þá mælti kóngur við Wítum: „Er svo römm fjölkýngi þín, að þú mátt stöðva eld og dýr?“ Wítus mælti: „Eigi em eg fjölkunnugur, en þessir hlutir gjalda veg guði, en þú kennir eigi skapara þinn, en þú mundir hjálpast ef þú vildir kenna hann“. Kóngur mælti: „Trú á hann og alt kyn þitt“. Wítus mælti: „Vel mælir þú kóngur, og æskir þú mèr sannrar blessunar“. Þá tóku 5000 manna trú, er þeir sáu þessar jarteiknir. Þá lèt kóngur festa þá báða í stagl; en er þeir voru kvaldir mjög í stagli, mælti Wítus: „Drottinn minn Jesús, leys þú oss nú“. Þá gjörðist landskjálfti mikill og fèllu mörg hof skurgoða, og margir menn, er í þeim voru. Þá hræddist kóngur og flýði og mælti: „Vesæll er eg, að eg er yfirstiginn af svo litlum smásveini“. Þá kom guðs engill og leysti þá úr stagli, og setti þá niður hjá á þeirri, hvar þeir höfðu fyr hvíldir tekið undir trè nokkru; þá bað Wítus til guðs og mælti: „Dróttinn Jesús Kristur, sonur guðs lifanda, meðtak þú andir vorar, og fyll í góðum hlutum vilja þíns, þá er gjöra minníng píslar minnar, og leið þú þá til dýrðar þinnar, bjóð þú, drottinn, að í þessum stað, er líkamir vorir hvíla, verði aldrei að mýi mein“ (því að í þeim stað hafði verið svo mikið mý, að mönnum þókti ekki byggjandi). En er Wítus lauk bæn sinni, kom rödd af himni svo mælandi: „Wítus, þjón minn, gef eg alt það, sem þú baðst og framar mun veitast, en þú baðst“; og sofnuðu þeir í friði guðs, og voru sèðar andir þeirra í dúfulíkíng snjóhvítri og sólu bjartari. Þeir heyrðu englarödd mælandi þessi orð: „Rètt er gjörð gata rèttlátra og brautstigur heilagra“. En ernir tveir stórir komu og varðveittu líkami þeirra, svo eingin kvikindi þorðu nærri þeirra líkömum að koma. Og er haldin minníng þeirra 9 nóttum fyrir Jónsmessudag Baptistæ, guði til lofs og dýrðar um allar aldir veraldarinnar. Amen.

## 3. GREIN.

### PARADÍS OG HELVÍTI.

Undir Eyafjöllum, skamt frá bænum á Seljalandi, hátt uppi í snarbröttu klettabelti er hellir æði stór, og er alt erfitt að klifrast þángað upp; hann heitir Paradísarhellir. Í þeim helli eru fornar rúnaristíngar. Dr.

Maurer las úr nokkrum þeirra.[1] En þótt hellir þessi sè alkunnur og nokkrum sinnum í hann farið, er mönnum alt að einu ókunnugt um, af hverju hann hafi feingið nafn sitt. Í bæarfellinu hjá Hítardal er enn fremur hellir, sem Paradís[2] heitir, og annar, sem kallaður er Víti. En ekki tókst Dr. Maurer heldur að fá neina sögu, sem lægi til þeirra heita. Auk Vítishellis í Hítardal eru eldgígir tveir hjá Kröflu og heitir hvortveggja Víti, og lýsir Eggert Ólafsson[3] svo öðrum þeirra, sem þeir Bjarni Pálsson komu að, að hann líti út eins og afarstór ketill með bláleitri vatnsleðju í, eins og hálfþykkur grautur. Gígbarmarnir eru 5 faðma háir niður að vatninu og leggur þar æ upp af reyk svo þykkan og svartan, að ekki sèr til vatnsins í gígnum, nema þegar hvast er, og reykinn svipar til. Eggert telur það og líklegast að gígum þessum hafi verið gefið nafnið af sömu trú, sem Ítalir hafi á dalnum Solfatara, að þar niðri sè annaðhvort hreinsunareldurinn eða helvíti. Ekki hefir Jónasi heitnum Hallgrímssyni heldur litizt hóti betur á gíg þenna, þar sem hann kveður[4]:

„Bar mig á brenndum auri
breiðar um funa-leiðir
blakkur að Vítis-bakka
blæs þar og nösum hvæsir.
Hvar mun um heiminn fara
halur yfir fjöll og dali
sá, er framkominn sjái
sól að verra bóli.

Hrollir hugur við polli
heitum í blárri veitu —
Krafla með kynja afli
klauf fjall og rauf hjalla;
grimm eru í djúpi dimmu
dauða-org, þaðan er rauðir
logar yfir landið bljúga
leiddu hraunið seydda.“

Það er enn náskylt þessu máli, og þó skyldara fyrra atriðinu um Paradís, að til er sá staður hèr á landi, sem Ódáinsakur heitir; er það

---

1. Rúnirnar úr Paradísarhellir eru útgefnar í Antiquitt. American., Havniæ 1837 tab. XII., sbr. 382. og 395.—396. bls.; en Dr. Maurer þykir það ekki líkjast rúnunum í Paradísarhellir.

2. Paradís heitir og vík ein eða skipalagi á Hornströndum. Sbr. Ferðabók Ólav. 180 og 186. bls. Hvammur hjá bænum á Skarði á Skarðsströnd heitir og Paradís, og enn víðar.

3. Ferðabók Eggerts og Bjarna 726. bls., sbr. Kvæði Eggerts, 90. bls., 24. vísu með athugasemd.

4. Ljóðmæli Jónasar Hallgrímssonar Kh. 1847, 161. bls.

grösugur slèttur og fagur flötur í dal þeim milli Hèðinsfjarðar og Ólafsfjarðar í Eyafjarðarsýslu, sem Sírdalur heitir. Flötur þessi heitir svo, af því það var trú manna, að þar yxi grös og jurtir, sem verðu mann dauða. Olavíus, sem fór hèr um lönd á seinni hluta fyrri aldar, kom í Ódáinsakur og hefir hann skoðað og skýrt frá grösum þeim, sem þar vaxa, og telur sum þeirra jafn sjaldsèn hèr á landi, sem annarstaðar, en efast þó um, að þau hafi þá nátturu, að leingja líf manna.[1] Að lyktum skal hèr getið nokkurra sagna, sem lúta að ástandinu annars heims.

**Leiðslan og sjónirnar.** (Eptir „Islenzkum æfintýrum“ 132.—136. bls., sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss., 198.—201. bls. og „Kvæða og rímnasafni“ Nr. I, 4.) Það er upphaf þessarar sögu, að einu sinni var prestur fyrir vestan. Hann var bæði ágjarn og ránglátur, dramblátur[2] og sèrlundaður. Meðal annars tók hann upp á því, að hann embættaði eigi síður á rúmhelgum en helgum dögum, og kallaði jafnvel helgidagsbrot, að koma til kirkju á helgum dögum. Einu sinni um vetur bar svo við, að komið var með barn til skírnar til prestsins; en veður var slæmt og ílt útlit. Þeir, sem með barnið komu, báru upp erindi sitt við prest; en hann ávítaði þá harðlega, eins og vandi hans var til, og sagði, að þeir hefðu átt að gefa sèr vitneskju um þetta áður, neitaði að skíra barnið, og rak þá í burtu. En svo tókst til, að bæði barnið og þeir, sem með það fóru, urðu úti á heimleiðinni. Prestur gjörði sèr einga samvizku af þessu, og hèlt sama vana um framferði sitt, sem áður. Næsta sumar eptir þetta gjörði prestur boð um sóknina, að hann hefði ásett sèr að messa næstkomandi fimtudag, en það var um hásláttinn. Sóknarmenn sögðu eingir já til þess, en einginn þorði heldur að neita því. Þegar fimtudagur kom, bjóst prestur við embætti; en þegar honum þókti sóknarfólkinu seinka, rauk hann út í kirkju, og fór að gánga þar um gólf. En þegar hann hafði verið þar um stund, kom til hans maður ókendur, og ætlaði að heilsa presti; prestur tók ekki kveðju hans, en spyr hann þó, hvort hann hafi ekki sèð fólkið koma. Komumaður spurði, hvaða fólk hann ætti við. „Kirkjufólkið“, segir prestur. Þá segir komumaður: „Því átti fólk að koma í dag, þar sem nú er rúmhelgur dagur? Það er einkis dæmi; því nú eru allir við heyannir, enda mun einginn koma.“ Prestur mælti: „Hvað vilt þú hèr um tala? fólk má vel koma til kirkju, fyrst eg hefi boðað það“. Komumaður sagði. „Þetta kalla eg undarlega háttsemi, enda muntu kynlegur í fleiru, prestur minn, og ólíkur öðrum mönnum, og fleira mun hèr undarlegt finnast, ef að er gáð.“ Prestur varð mjög hastur við þetta, og spurði, hvað honum

---

1. Ferðabók Ólavii 288. bls. sbr. Almenn landaskipunarfræði. Fyrra parts önnur deild 258. bls.

2. Fyrirsögn sögu þessarar í „Kvæða og rímnasafninu“ er: „Ein merkileg frásaga af einum mjög dramblátum presti“.

þækti þar svo undarlegt. Maðurinn sagði: „Sýnt get eg þèr það, og skulum við báðir útgánga". þeir gjöra nú svo; þegar þeir komu út fyrir kirkjudyrnar, sá prestur þar ker mikið og aflángt og fult á barma; var blóð öðru megin í kerinu, en mjólk hinu megin, og blandaðist ekki saman. þetta undraði prest, svo hann gekk að kerinu, rak hendina ofan í það og vildi hræra saman hvorutveggja; en það blandaðist ekki að heldur. þá mælti prestur: „Víst er þetta undarlegt." Maðurinn svaraði: „Víst er svo; en fleira er þó líkt þessu." Prestur spurði þá komumann, hvað þetta þýddi; en komumaður sagði, hann skyldi seinna vita það. þeir geingu nú út úr kirkjugarðinum, og þángað til fyrir þeim verður stöðuvatn. þar sjá þeir 3 fugla synda á; voru tveir þeirra fullorðnir, en einn úngi. þessi úngi hefur sig þegar til flugs, er þeir prestur komu að vatninu, og sezt í hárið á prestinum og kroppar fast. Prestur ætlar að losa fuglinn úr hári sèr, en gat ekki. Biður hann þá förunaut sinn að hjálpa sèr. En hann sagðist ekki mega það að svo stöddu. Halda þeir nú á fram og koma að á einni mikilli; fèll hún niður af háum fossi; undir honum stóð maður. Sá gein undir bununni og gleipti í sig ána, en vatnið rann aptur út um bak hans allan, eins og njarðarvött. þetta þókti presti kynleg sjón. því næst komu þeir að annari á; hún fèll og fram af háu bjargi, og stóð þar einnig maður undir og drakk í sig ána; en hvergi sá prestur vatnið renna aptur frá manninum. Ekki fèkk prestur að vita, hvað þetta þýddi. Enn geingu þeir leingra, og komu í haglendi fagurt og grösugt. þá sá prestur sauði tvo, bæði ljóta og magra; þeir voru svo gishærðir, að telja mátti hárin á þeim. Annað veifið rifu þeir grasið í sig með græðgi, eins og soltnir vargar, en hinn dintinn hlupu þeir saman og börðust, og vildu reka hvor annan burtu úr haglendinu. Presti þókti þetta undarlegt og spurði förunaut sinn, hvort sauðirnir hefðu leingi geingið í þessu hagkvisti; hinn kvaðst ætla, að svo væri. þessu næst komu þeir á hrjóstruga heiði og graslitla; var þar varla annað en grjót og sandur. þar sá prestur enn tvo sauði. þeir lágu hvor hjá öðrum, eins og bræður, og voru feitir og fallegir, eins og þeir hefðu geingið í bezta haglendi. þeir voru að jórtra og beygðu saman höfuðin, og svo virtist, sem hvorugur mætti af öðrum sjá. Enn geingu þeir leingra fram, og sá þá prestur höll svo mikla og fagra, að aldrei hafði hann áður slíkt sèð. Umhverfis höllina voru grænir vellir, og ángaði lyktin af blómunum í móti þeim. þar voru alls konar saungfuglar, og súngu þeir mjög yndislega. Í höllinni sjálfri heyrði glaum og gleði, saung og hljóðfæraslátt. Alt var þar svo unaðlegt og fagurt, að ekkert mátti inndælla hugsast. Prestur segir þá við förunaut sinn: „Nú ætla eg ekki að fara leingra; lofaðu mèr að vera hèr." „Nei, hèr máttu ekki vera," segir aðkomumaður; „þèr er ætlaður annar staður." Geingu þeir þá enn nokkra stund. þá sèr prestur hús eitt. það var að öllu gagnstætt hinu fyrra; ódaun lagði þar á móti

3*

þeim, og alt var þar andstyggilegt og ljótt. Einnig voru þar fuglar, ef fugla skyldi kalla; þeir emjuðu og veinuðu í sífellu. þegar prestur heyrði það, greip hann bæði ótti og leiðindi, og biður hann förunaut sinn að fara þaðan sem skjótast í burtu aptur. þá segir aðkomumaður: „Nei, hèr skaltu vera; þetta er sá staður, sem þú og allir illir menn eiga að vera á." „Æ," segir prestur, „lofaðu mèr burtu hèðan, og kendu mèr ráð til þess, að þetta verði ekki minn bústaður." „það skal eg gjöra," segir aðkomumaður; „en vita skaltu, að þetta er kvalastaður vondra manna, og lítið sýnishorn af helvíti, sem þú hefir unnið til með lángvinnum vonzkuverkum, og getur þú umflúið þann stað, með því að bæta ráð þitt, og iðrast illgjörða þinna." Prestur lofaði þá bót og betran. Snèru þeir nú aptur, og komu að hinu fagra húsi. „þetta er sá staður, sem búinn er góðum mönnum og guðhræddum," segir aðkomumaður, „og inndæli þessa staðar er lítill forsmekkur eilífrar gleði guðs barna, sem þú hefir hafnað með syndum þínum og löstum." Síðan koma þeir til sauðanna hinna spöku og sællegu. „þessir sauðir þýða fátæklíngana, sem lifa ánægðir af því, sem drottinn úthlutar þeim, og æðrast eigi, þó ekki sjái þeir alt fyrir augum sèr, sem hafa þarf, en lifa í ástúðlegri sambúð, hver við annan." þá komu þeir til hinna ljótu sauða og óværu. Aðkomumaður mælti: „þessir sauðir þýða ríkismennina, sem sýnast hafa alls nægtir, en eru þó aldrei ánægðir og þrífast aldrei, af því þeir fíkjast æ eptir meiru; en ósamlyndi sauðanna merkir úlfbúð þá og fjandskap, sem auðmennirnir ala hver til annars." þessu næst komu þeir að ánni, þar sem maðurinn gleipti hana alla í sig undir fossinum. þá mælti aðkomumaður: „þessi á merkir illgirnis-syndina, sem börn þessa heims drekka í sig, og vilja aldrei aptur sleppa, og deya svo í syndum sínum, svo að fyrr yfirgefur syndin þá, en þeir hana." Nú halda þeir þángað, sem áin rann ofan í manninn, og allstaðar út um hann aptur. „þessi á merkir breyskleika-syndina," segir förunautur prests, „sem jafnan yfirstigur guðsbörn, en sem þeir óðar reka burt úr hjarta sínu."[1] Eptir það komu þeir að vatninu, sem fuglarnir 3 sátu á. þá segir aðkomumaður: „þessir stóru fuglar tveir merkja menn þá tvo, sem þú rakst frá húsi þínu um vetur, út í illviðri með óskírða barnið." því næst komu þeir að kerinu við kirkjudyrnar, og var það enn óbreytt og óblandað. þá segir aðkomumaður: „Hèr sèr þú blóð það, er þú hefir sogið út af þeim fátæku, og það, er þú hefir tekið af þeim ríku. það getur aldrei blandazt saman, og máttu nú bæta þeim fátæku, og

---

1. Æfintýrin fara skemmra yfir þýðínguna; þar stendur: þessu næst koma þeir að fossunum. þá segir aðkomumaður: „Hèr sèr þú dæmi þess er drekkur í sig ránglætið, sem vatn, en lætur það ei festa rætur hjá sèr; en hinn maðurinn er dæmi þess, sem drekkur í sig ránglætið, eins og vatn, og elur það æ með sèr."

gjöra meiri jöfnuð á því, er þú tekur af fátækum og ríkum.“ [1] — Nú var ferð þeirra lokið. Geingu þeir þá inn í kirkjuna, og biður prestur förunaut sinn, að losa fuglinn úr hári sínu. „Það skal eg gjöra“, segir hann; „en þú skalt vita, að það er hefndarandi barns þess, er þú synjaðir skírnar, og skaltu nú skíra það“. Losar svo aðkomumaður fuglinn úr hári prests, en prestur skírði; eptir það flaug fuglinn burtu og hvarf. Síðan fèll prestur á knè og baðst fyrir. Þegar hann hafði lokið bænagjörð sinni, geingu þeir báðir út úr kirkjunni, hann og förunautur hans, og hvarf hann presti sjónum í kirkjugarðinum. Prestur gekk þá heim til bæar; en þá mætti honum annar prestur. Sá heilsar honum og spyr, hver hann sè. Gamli presturinn segir honum það, og spyr, hvernig á honum standi. Hann segist hafa þjónað þar, síðan presturinn hefði horfið þaðan hèrna um árið, „og eru það nú 7 ár“, [2] segir hann. Gamli presturinn varð mjög undrunarfullur við þetta, og sá nú, að eingill guðs hafði leitt, og að hann hafði verið í leiðslunni í 7 ár. Lèt hann sèr sjónirnar að kenníngu verða, bætti ráð sitt og gekk í klaustur, það sem eptir var æfinnar, og lýkur svo þessari sögu.

**Gullsikillinn**. (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar og frásögn Páls Olafssonar.) Einu sinni var maður nokkur, er var mjög ágjarn og sveifst ekki neins, þar að auki var hann svo nízkur, að hann gjörði eingum manni gott. Prestur hans gjörði honum einatt áminníngar, og leiddi honum opt fyrir sjónir, hvar lenda mundi fyrir honum. Þegar presturinn frètti lát hans, fèkk honum það svo míkillar áhyggju, að það stóð honum fyrir svefni; því hann efaðist um velferð hans. Um nóttina dreymdi prest, að hann sæi í loptinu yfir bæ hins andaða metaskál míkla; voru einglar við aðra metaskálina, og lögðu á hana góðverk þess, sem látinn var; en hins vegar stóðu árar, og lögðu á sína metaskál öll illverk hans. Voru þau bæði mörg og þúng; en á móti kom ekki nema brauðbiti, er maurapúkinn hafði eitt sinn gefið fátækum og húngruðum manni af meðaumkun. Tóku þá árarnir að hælast um; en einglarnir sögðu: „Bíðum atkvæðis dómarans.“ Eptir það var kyrð mikil; sá prestur þá, hvar gullsikill fèll af himni í skálina hjá brauðbitanum, og varð sú skálin þá míklu þýngri, og snautuðu árarnir þá burtu; en einglarnir hófu siguróp, og við það vaknaði prestur. Þóktist hann vita, að gullsikillinn táknaði verðskuldun Krists, og varð honum rórra eptir.

---

1. Þessa þýðíng hefir „Kvæða og rímnasafnið Nr. I. 4. þannig: „Hèr máttu sjá ölmusugjafir fátækra og ríkra. Hinir snauðu gefa af blóðsveita sínum, en auðmennirnir af alls nægtum, og því getur það ekki samblandazt, eða orðið að einu“.

2. Í „Kvæða og rímnasafninu“ stendur: 9 ár.

**Komdu aptur, ef þú villist.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar og almennri sögn í Húnavatnssýslu.) Einu sinni var bóndi einn norður í Miðfirði, sem úthýsti öllum, er til hans komu, hvernig sem á stóð; bóndi þessi hèt Bjarni. Einhvern tíma kom snauður maður til hans í byl, og beiddist gistíngar, en var úthýst. Fannst beiníngamaðurinn nokkru seinna dauður, skamt frá garði bónda, og hafði hann orðið úti í bylnum. En bóndinn fann það sèr til málsbótar, að hann hefði sagt hinum snauða: „komdu aptur, ef þú villist,“ og er þetta síðan haft að orðtaki. Þá var sá prestur á Melstað, sem Bjarni[1] hèt, og gjörði hann bónda áminníngu, og lauk orðum sínum þannig: „Eins og þú lokar dyrum húss þíns fyrir nauðstöddum bræðrum, eins mun guð loka dyrum himnaríkis fyrir þinni aumu sál.“ Þá svaraði bóndi: „Á, haldið þèr það, nafni? eg sè ekki í það, eg loka samt.“

Þó blærinn á þeim tveim sögum, sem hèr koma næst á eptir, sè svipaður kýmnisögum, þykir alt um það betur hlýða eptir efninu að láta þær standa hèr, en síðar.

**Syndapokarnir.** (Íslenzk æfintýri 136—138. bls. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 201—202.) Einu sinni var prestur mjög vandlætíngasamur. Hann kendi mönnum hart, og sagði tilheyrendum sínum hræsnislaust til syndanna. Í sókninni bjó kona ein gömul. Hún kom sjaldan sem aldrei til kirkju, og átaldi prestur hana opt fyrir það, og kvað hún mundi naumast fá inngaungu í himnaríki, ef hún vanrækti svo mjög kirkjuna. Kerlíng hirti ei um það. Leið svo nokkur tími. Einu sinni sýkist kerlíng. Lætur hún þá sækja prest, og biður hann að þjónusta sig, því hún segist vera mjög ángruð orðin af illgjörðum mannanna. Prestur bregður við skjótt, og finnur sjúklínginn. Ætlar hann nú að fara að telja um fyrir kerlíngu, því hann sá, að hún var mjög ángruð. Kerlíng segir, að hann skuli fyrst heyra, hvað sig ángri mest. Prestur játti því og hlustar nú vandlega á sögu syndarans. Kerlíng segir þá: „Mig dreymdi fyrir skömmu, að eg þóktist koma til himnaríkis. Þar barði eg að dyrum, því mèr var kalt, og vildi eg komast í húsaskjólið. Þar kom maður til dyra, og hafði stóra lyklakyppu í hendinni. Eg spurði hann að heiti. Hann sagðist heita Pètur. Kannaðist eg þá við manninn og bað hann að lofa mèr inn. Pètur segir „nei, hèr áttu ekki að vera.“ „Æ lof mèr inn“, sagði eg, „mèr er svo ógnarlega kalt; lof mèr rètt inn fyrir hurðina.“ „Nei það er af og frá,“ segir Pètur. Eg sá að þar var ógnar stór skemma á hlaðinu, og bað eg þá Pètur að lofa mèr þar inn. Það sagði hann eg skyldi fá og lauk nú upp skemmunni. Þá varð eg fegin, og hljóp inn, en Pètur stóð í dyrunum. En þegar eg kom inn, sá eg þar ógnarlega stóra

---

1. Eptir síðabótina er að eins talinn einn prestur á Melstað, sem Bjarni hafi heitið, og var Pètursson; hann var þar frá 1760—1790.

hlaða af pokum, stórum og smáum. þeir voru allir fullir af einhverju, og bundið fyrir opin. þar voru líka sjóvetlíngar, og þeir voru líka fullir sumir, en ekki nema í þumlunum á sumum. Eg spurði Pètur, hvað í þessum pokum væri. Hann segir það sè syndir mannanna. „Má eg ekki fá að sjá pokann prestsins míns," segi eg, „hann er víst ekki stór." „Nokkuð svona," segir Pètur, „skoðaðu, hann er þarna," og um leið benti hann mèr á ógnarlega stóran sekk. þá gekk öldúngis yfir mig, því það var lángstærsti sekkurinn. „Hvaða ósköp," segi eg „en hvar er pokinn minn þá; hann held eg sè ekkert smásmíði." „Eg læt það vera," segir Pètur, og bendir mèr á einn sjóvetlínginn, sem ofur lítið var í þumlinum. Nú gekk hreint yfir mig, og fór út. Skeldi þá Pètur aptur skemmuhurðinni, og hrökk eg upp við það. þetta er nú það, sem ángrar mig," segir kerlíng, „og því lèt eg sækja yður, að eg vildi segja yður frá þessu." Presti fór nú ekki að finnast til, og hafði sig á burt hið skjótasta.

**„Sálin hans Jóns míns."** (Matthías Jochumsson skrásetti.) Einu sinni bjuggu saman karl og kerlíng; var karlinn heldur ódæll og illa þokkaður og þar að auk latur og ónýtur á heimili sínu; líkaði kerlíngu hans það mjög illa, og ámælti hún honum optlega, og kvað hann eigi duga til annars en sóa því út, er hún dragi að, því sjálf var hún síúðrandi og hafði alla króka í frammi til þess að afla þess er þurfti, og kunni jafnan að koma ár sinni fyrir borð, við hvern sem um var að eiga. En þótt þeim kæmi eigi vel saman í sumu, unni þó kerlíng karli sínum mikið, og lèt hann ekkert skorta. Fór nú svo fram leingi. En eitt sinn tók karl sótt og var þúngt haldinn. Kerlíng vakti yfir honum; og er draga tók af karli kemur henni til hugar, að eigi muni hann svo vel búinn undir dauða sinn, að eigi sè vafamál hvort hann nái inngaungu í himnaríki. Hún hugsar því með sèr, að það sè ráðlegast hún reyni sjálf að koma sál bónda síns á framfæri. Hún tók þá skjóðu og hèlt henni fyrir vitin á karli, og er hann gefur upp öndina, fer hún í skjóðuna, en kerlíng bindur þegar fyrir. Síðan fer hún til himna og hefir skjóðuna í svuntu sinni, kemur að hliðum himnaríkis og drepur á dyr. þá kom sánkti Pètur út og spyr, hvað erindi hennar sè. „Sælir nú," segir kerlíng, „eg kom híngað með sálina hans Jóns míns; þèr hafið líklega heyrt hans getið; ætla eg nú að biðja yður að koma honum hèrna inn." „Jájá", segir Pètur; „en því er ver, að það get eg ekki; reyndar hef eg heyrt getið um hann Jón þinn, en aldrei að góðu." þá mælti kerlíng: „það hèlt eg ekki sánkti Pètur, að þú værir svona harðbrjóstaður, og búinn ertu nú að gleyma, hvernig fór fyrir þèr forðum, þegar þú afneitaðir meistara þínum." Pètur fór við það inn og læsti; en kerlíng stóð stynjandi úti fyrir. En er lítil stund er liðin, drepur hún aptur á dyrnar, og þá kemur sánkti Páll út. Hún heilsar honum og

spyr hann að heiti; en hann segir til sín. Hún biður hann þá fyrir sálina hans Jóns síns; en hann kvaðst eigi vilja vita af henni að segja, og kvað Jón hennar eingrar náðar verðan. Þá reiddist kerlíng og mælti: „Þèr má það, Páll; eg vænti þú hafir verið verðari fyrir náðina, þegar þú forðum varst að ofsækja guð og góða menn. Eg held það sè bezt, að eg hætti að biðja þig.“ Páll læsir nú sem skjótast. En er kerlíng ber í 3. sinn að dyrum, kemur María mey út. „Sælar verið þèr, heillin góð“, segir kerlíng, „eg vona þèr lofið honum Jóni mínum inn, þótt hann Pètur og hann Páll vili eigi lofa það.“ „Því er miður, góðin mín“, segir María, „eg þori það ekki, af því hann var þvílíkt ótæti, hann Jón þinn.“ „Og eg skal ekki lá þèr það,“ segir kerlíng, „eg hèlt samt þú vissir það, að aðrir gæti verið breyskir, eins og þú; eða manstu það nú ekki, að þú áttir eitt barnið og gazt ekki feðrað það?“ María vildi ekki heyra meira, heldur læsti sem skjótast. Í fjórða sinn knýr kerlíng á dyrnar. Þá kom út Kristur sjálfur, og spyr, hvað hún sè að fara. Hún mælti þá auðmjúk: „Eg ætlaði að biðja þig, lausnari minn góður, að lofa vesalíngs sálinni þeirri arna inn fyrir dyrnar.“ Kristur svaraði: „Það er hann Jón — nei kona; hann trúði ekki á mig.“ Í sama bili er hann að láta hurðina aptur, en kerla var þá eigi sein á sèr, heldur snaraði hún skjóðunni með sálinni í inn hjá honum, svo hún fauk lángt inn í himnaríkishöll, en hurðin skall í lás. Lètti þá steini af hjarta kerlíngar, er Jón var eigi að síður kominn í himnaríki, og fór hún við það glöð heim aptur, og kunnum vèr eigi meira frá henni að segja, nè heldur hvernig sál Jóns reiddi af eptir það.

---

## 4. GREIN.

### REFSIDÓMAR GUÐS.

Nokkuð öðruvísi er þeim sögum varið og alvarlegra efnis en hinar í þessum flokki, sem sýna það, að illar athafnir manna eigi að mæta refsíngu guðs. Í sjálfu sèr verður ekki beinlínis sagt, að þær sè kristilegs efnis, þar sem mjög svipaðar hugmyndir koma fram í heiðni hjá Germönum og þaðan eru komnir hinir svo nefndu guðsdómar í þreingri merkíngu orðsins. Alt að einu er blærinn á slíkum sögum, eins og þær gánga nú í munnmælum, þegar á alt er litið, að meira eða minna leyti kirkjulegur eða siðferðislegur, en alls ekki hið gagnstæða, og skal þeirra sagna því hèr getið, að svo miklu leyti, sem þeirra er ekki áður getið við ýms tækifæri.

**Vegurinn austan undir Tindastól.** [1] (Eptir sögnum úr Skagafirði.) Vestanvert við Skagafjörð er stórt fjall og afarhátt; það heitir Tindastóll, en að fornu Eilífsfjall. Geingur það alt í sjó fram, og skilur Laxárdal hinn ytra og Reykjaströnd. Fyrr um voru ferðir alltíðar milli sveita þessara, og fóru menn þá jafnan með sjó fram; því það hefir verið skemmstur vegur, sem sjá má af afstöðu fyrnefndra bygðarlaga, en undirlendi eða fjörumál var þá allstaðar nokkurt undir Stólnum. Að vísu hafa þá þó verið til fleiri leiðir, sem enn eru tíðkaðar, og liggur ein þeirra út Laxárdalsheiði. Einhverju sinni bar svo við, að hval rak á Reykjafjöru[2], norðan undir Tindastól; var þá gerður mannsöfnuður á Reykjaströnd til hvalskurðar. Þegar Laxdælir fréttu hvalrekann og skurðinn, gjörðu þeir og mannsöfnuð og gekkst mest fyrir því presturinn í Hvammi og djákninn, því þeir vildu eigna Hvamms kirkju allan reka á því sviði, og fóru á fund Reykstrendínga, er voru að hvalskurðinum. Slóst þar í illdeilur með þeim, er hvorirtveggja þóktust eiga hvalinn, en hvorugir vildu vægja fyrir hinum. Þó kom svo fyrir umtölur góðgjarnra manna, að Laxdælir skyldu mega sanna með eiði, ef þeir treystust, að þeir ætti land það, er hvalurinn var á rekinn, og skyldu þá Reykstrendir ekkert af honum hafa. Geingu Laxdælir svo að hvalnum, og unnu eiða að því, að sú jörð, er þeir, stæðu á, væri Hvammskirkju eign á Laxárdal; enda var svo, að jörð sú er var í skóm þeirra, var Hvammskirkju eign, en sú jörð, er var undir skóm þeirra, var eign Reykja á Reykjaströnd; því þeir höfðu rist grassvörð fyrir íleppa í skó sína í Hvammskirkju landi, aðrir segja í kirkjugarðinum í Hvammi, áður þeir fóru norðan.

Þegar þeir höfðu unnið eiðinn, lètu Reykstrendir rekann af hendi, og fóru heim síðan; því þeir hugðu alt falslaust af hinna hendi; en Laxdælir tóku til skurðar. En er þeir höfðu skamma stund skorið hvalinn, fèll skriða úr Stólnum yfir þá og hvalinn, svo þeir týndust þar allir, nema dreingur einn, sem ekki hafði unnið eiðinn; hann komst að eins undan að flytja Laxdælum tíðindin, sem gerzt höfðu í för hans[3]. En skriðan huldi ekki einúngis hvalinn og mennina, heldur tók hún gjörsamlega af veginn, er verið hafði alt til þess norðan undir Tindastól; sú skriða heitir síðan Hvalurð. Það er sögn manna, að hvítklæddur maður hafi sèzt uppi á fjallinu, áður en skriðan losnaði, hafi hann átt að hafa sprota í hendi, og lostið honum á fjallið, þar sem skriðan tók sig upp.

---

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 203—204. bls.

2. Aðrir segja á Sævarlandsfjöru, og að deilan hafi verið einúngis milli prestsins í Hvammi og bóndans á Sævarlandi, eða Reykjum.

3. Í sögu þeirri, sem Páll prestur Jónsson í Hvammi hefir skrásett „eptir gömlum manni á Skaga", segir, að djákninn hafi komizt undan í það sinn, og farið heimleiðis inn Reykjaströnd og út Laxárdalsheiði, en farizt í polli nokkrum mjög djúpum nálægt miðja vega milli Hvamms og Skíðastaða; þar heitir síðan Djáknapollur.

**Skíðastaðir.** (Almenn sögn í Vatnsdal. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 204—205. bls.) Skíðastaðir hefir bær heitið; hann var næsti bær fyrir sunnan Öxl, undir Vatnsdalsfjalli vestanverðu í Húnavatnssýslu; því bæði var það, að Hnausar munu ekki hafa verið bygðir í það mund, sem Skíðastaðir voru bygðir með því nafni, enda standa Hnausar spölkorn frá fjallinu fyrir vestan það. Á Skíðastöðum bjó í fornöld flugríkur bóndi; hann hafði mörg hjú, og hèlt þeim fast að vinnu vetur og sumar. Hann átti mikið eingi og gott, og lá það þar, sem nú er Vatnsdalsflóð, í útsuður frá bænum. Svo gekk bóndi hart að hjúum sínum með vinnu á sumrum, að hann lèt aldrei nokkra griðkonu vera heima til eldhússtarfa, svo það var skylduskattur þeirra, að hafa alla stórelda, sem hafa þurfti alla vikuna, á helgum dögum, og leyfði þeim hvorki að sækja tíðir, nè sinna lestrum. Einn sunnudag árla sást af bænum að vestanverðu í Þínginu og í Vatnsdal utarlega, að maður í hvítum klæðum (eingill) gekk norður eptir Vatnsdalsfjalli; hann hafði sprota í hendi, og nam staðar upp undan Skíðastöðum, og laust þar sprotanum á fjallið. En jafnskjótt spratt þar upp afarstór skriða úr fjallinu, og varð æ stærri, því leingra sem hún veltist ofan eptir, og fèll hún yfir allan bæinn á Skíðastöðum, svo ekkert mannsbarn komst með lífi undan, nema ein stúlka.

Þessi stúlka hafði verið leingi á Skíðastöðum, þó henni þækti þar ekki góður bæarbragur, en einkum guðleysi bónda; var hún bæði góðlynd og viljug til allra verka, því hafði hún hylli húsbænda sinna og samlagsþjóna. Hún hafði og optast orðið fyrir því, að vera í eldhúsinu á helgum, en ekki hafði hún átt neinni þóknun annari að mæta fyrir það, en að hún mátti þá ráða skófnapottinum. Veturinn áður, en skriðan fèll á bæinn, hafði verið mjög harður, svo þá fèllu bæði menn og fènaður af húngri alment. Skíðastaða bóndi skarst undan öllu liðsinni við sveitúnga sína, er á hann skoruðu fyrir sjálfa sig eða fènað sinn, og rak margan nauðleitamann burtu með harðri hendi, án þess að buga neinu góðu að nokkrum þeirra. Ekki voru heldur veitíngar svo miklar við heimilisfólk á Skíðastöðum, þó nóg væri til að það væri aflögufært; en þó gekk stúlka þessi mjög nærri sèr, til að geta hyglað þeim, sem þar komu aumastir, og varði hún til þess bæði af mat sínum, og skófum þeim, sem til fèllu. Þenna sama vetur svarf svo að flestum skepnum, sem úti áttu að vera, að þær lágu dauðar hrönnum saman; því það var leingi, að ekki fèkk titlíngur í nefi sínu. Flokkuðust þá, sem optar, er svo ber undir, hrafnar mjög heim að bæum, og höfðu það eitt til viðurlífis, er þeir tíndu úr ýmsu sorpi, er út var snarað. Stúlka þessi hin sama gjörði sèr far um, að snara sem mestu, hún gat, út úr eldhúsinu; því hún var svo brjóstgóð, að hún vildi og gjarnan geta treint lífið í hröfnunum, ef hún mætti. Þetta tókst henni líka, og varð einn hrafninn af því svo elskur að henni, að hann elti hana nálega hvar sem hún fór utan bæar, og um vorið og sumarið eptir

kom hann snemma á hverjum morgni heim að Skíðastöðum, til að fá sèr árbita hjá stúlkunni; því hún geymdi honum ávalt eitthvað, og henti hið mesta gaman að honum. Þenna sunnudagsmorgun, sem fyrr var frá sagt, hafði stúlka þessi farið mjög snemma á fætur, og eldað graut, og var hún að keppast við að vera búin, að skafa pottinn, áður en krummi kæmi, til að geta gefið honum skófirnar. Þetta tókst og; því þegar hún heyrði til krumma úti, var hún að ljúka við pottinn. Hún geingur út með skófirnar í ausu, og setur á hlaðið, þar sem hún var vön að gefa honum; en hann vappar í kríng um ausuna, og flýgur spottakorn út á túnið. Stúlkan fer á eptir honum með ausuna; en alt fer á sömu leið; hann vill ekki þiggja af henni skófirnar, og flýgur spotta og spotta, og sezt niður á milli; en stúlkan fylgir alt af, og veit ekki, hvernig þessu víkur við. Geingur þessi eltíngaleikur, þángað til krummi er búinn að teygja hana með þessu móti á eptir sèr lángt suður fyrir tún, og stúlkan var farin að hugsa um, að gánga ekki leingur eptir honum. En í sama bili heyrir hún drunur í fjallinu undan skriðunni og vatnsflóðinu, sem henni fylgdi, og sèr, að hún er komin yfir bæinn.[1] Lofar hún þá guð fyrir lausn sína, sem hefði sent sèr hrafninn til frelsis.

En skriðan nam ekki staðar, þó hún tæki bæinn, eða kefði; hún hèlt á fram yfir þveran dalinn og ána, sem eptir honum rann, og nam staðar loksins vestur í Vatnsdalshólum, vestanmegin dalsins. Stíflaðist þá Vatnsdalsá, og varð af því vatn mikið fyrir sunnan skriðuna, sem er þar enn, og kallað Vatnsdalsflóð. Varð undir því vatni alt eingið frá Skíðastöðum og fleirum bæum í Vatnsdal, og hefir það aldrei komið upp síðan. Hólaröð sú, er geingur yfir þveran dalinn, fyrir norðan Vatnsendann, heitir Skriðuhólar; því þeir mynduðust af skriðunni. Þegar Vatnsdalsá hafði staðið þannig stífluð um hálft missiri, vann vatnsmegnið á skriðunni, og brauzt þar fram í gegnum hana, er hún var lægst, austanvert í dalnum, skamt fyrir neðan túnið á bæ þeim, er nú heitir á Bjarnastöðum, og menn ætla, að hafi verið bygður, þar sem Skíðastaðir stóðu áður.[2] Yfir þetta vatnsfall er farið í Skriðuhólum, og heitir vaðið Skriðuvað. Þó vatnið hefði á þessum stað rutt sèr farveg, líklega þar, sem hinn forni farvegur Vatnsdalsár hefir verið, gat það ekki að heldur haldið honum, þegar leingra dró norður með Vatnsdalsfjalli, því þar var skriðan þykkari, svo að vatnsfall þetta beygir vestur á við fyrir sunnan og vestan Hnausa,

---

1. Skíðastaðir eyddust af skriðu 1545, og urðu þar undir 13 menn. Sbr. Eggerts Ólafssonar Ferðabók, 627—628. bls. Uno von Troil Bref rörande en resa til Island 1772, bls. 39. Almenn Landaskipunarfræði I, 2. deild, 246. bls.

2. Bjarnastaðir eyddust enn að nýu 8. October 1720 af annari skriðu, sem tók af bæinn, og urðu þar undir 6 menn. Þá segir Olavius að Vatnsdalsflóð hafi myndazt (Ferðabók hans 206. bls.). En sú sögn er miklu ólíklegri og lítið getur Eggert þeirrar skriðu, og segir, að hin fyrri hafi verið stærri (Ferðabók hans 627—628. bls.).

og rennur nú út þíngið vestanvert, (svo heitir bygðin fyrir utan Skriðuhóla) og út í Húnavatn. En áður hefir Vatnsdalsá runnið út þíngið austanvert, með Vatnsdalsfjalli, milli þess og Hnausa, og beygst vestur á við miklu utar, og runnið þó, eins og nú, í Húnavatn. Sá farvegur árinnar sèst enn, þó hann sè nú víða vaxinn sefi, og heitir hann enn í dag Árfar. Nú heita Kvíslar eða Kvísl, sem rennur úr Vatnsdalsflóði, en ekki Vatnsdalsá. Menn segja, að ekki hafi verið fyrr bygður bær í Hnausum, en eptir að skriða þessi var fallin, og gróinn upp aptur, enda er í Hnausatúni, og um hverfis það að austanverðu hið sama jarðlag með öllu, og grasfall, eins og þar, sem grasvegur er í Skriðuhólum. Upp undan Bjarnastöðum, eða lítið utar, er stórt skarð í eggjunum á Vatnsdalsfjalli; þar ætla menn, að skriðan hafi tekið sig fyrst upp, sem tók af Skíðastaði, og heitir það enn Skriðuskarð.

**Flyðrurnar í Hafnarfjalli.** (Tekið eptir sögn kand. Halldórs Guðmundssonar frá Ferjukoti í Borgarfirði.) Einu sinni var bóndi einn á Rauðanesi í Borgarhrepp við Borgarfjörð vestanverðan. Einu sinni reri hann til fiskjar út á Borgarfjörð á páskadaginn sjálfan, því hart var í ári og skorti hann mat. Hann fèkk á bátinn tvær flyðrur og einn þorsk. Varð honum aflinn að góðum notum, og bar nú ekkert til tíðinda.

Árið eptir á páskadaginn reyndi hann hið sama. Þá áraði vel, og eingin nauðsyn rak hann þá til þess, því ekki var hart í búi hjá honum. Hann fèkk þá enn tvær flyðrur og einn þorsk. En þegar hann ætlaði að fara heim til sín með aflann, hvarf hann og varð að klettum í Hafnarfjalli. Klettar þessir standa í miðjum skriðum í Hafnarfjalli vestanverðu, og eru tilsýndar af firðinum mjög líkir tveimur flyðrum og einum þorski, og er önnur flyðran stærri, en hin.

Þær eru nærri því samhliða. Þorskurinn er austastur, og lítið eitt hærra uppi í fjallinu, en flyðrurnar. Eingir klettar eru þar í fjallinu líkir þessum. En efst er klettabelti á fjallinu fyrir ofan allar skriður.

**Mannabeina-vatn.** (Tekið eptir sögn skagfirzkra skólapilta 1845). Uppi á heiðunum fram og vestur af Skagafirði liggja hinar svo kölluðu Ásgeirstúngur. Í túngum þessum er býsna stórt vatn, sem heitir Mannabeinavatn. Sagan segir að eitt haust hafi Skagfirðíngar farið í gaungur á þessar heiðar, og tjölduðu þeir að kvöldi dags í flá þeirri, sem nú er vatnið; þá var þar mosaflá, en ekkert vatn. Þeir voru ölvaðir mjög, og höfðu ílt orðbragð; gjörðu gys að guði og öllum guðlegum hlutum, nema einn, sem var frá Mælifelli í Skagafirði. Hafði presturinn á Mælifelli, húsbóndi mannsins, tekið honum vara fyrir kvöldi þessu, og beðið hann að vera þá stiltan, og gætinn í orðum. Þegar maðurinn heyrði nú þetta illa orðbragð fèlaga sinna, fór honum ekki að lítast á, tók hest sinn og reið heim að Mælifelli.

Skamt frá flánni, sem gángnamennirnir áðu í, rann kvísl, sem hèt Strángakvísl; hún er jökulvatn. Um nóttina kom jökulhlaup í kvíslina, svo hún flóði upp í flána, sem Skagfirðíngarnir lágu í, og fylti hana að mestu. Fórust þar mennirnir allir í tjaldinu. Myndaðist þar þá vatn, og fundust síðar við það mannabein, og þess vegna er það kallað Mannabeinavatn alt af síðan.

**Guð lætur ekki að sèr hæða.** (Eptir handriti sèra Benedikts þórðarsonar á Brjánslæk.) A vortíma (milli 1820 — 25) bar svo við, að formenn nokkrir á Siglunesi nyrðra, voru, þegar lángt var liðið á vorvertíð þeirra, á gángi millum búða niður á tánganum, að tala um aflabrögð sín um vorið. Fannst það á mörgum, að þeim þóktu hlutir sínir með minna móti orðnir, einkum einum, sem hèt Jón, og var Bjarnason; hann átti heima í Hrísey. Undanfarin ár hafði hann aflað með þeim beztu, en nú aðeins feingið meðal hlut. Hann kvað svo að orði: „að guð hefði sèð til að skamta sèr í vor." Orð þessi mælti hann með halfkæríngs hæðnissvip og málfæri, og einskonar óviðfeldnu kuldabrosi. Piltur einn úngur stóð við búðarvegg þar sem mennirnir geingu fram hjá, og gáfu þeir honum eingan gaum, en hann heyrði tal þeirra og atkvæði Jóns, og reis honum hugur við að heyra það. Skömmu síðar komu vertíðarlokin. Fór þá hver heim til sín; eins gjörði og Jón. En strax og hann var heim kominn, tók hann svo mikið gigtarmein í mjöðminni, að hann lagðist í rúmið, og lá leingi nær dauðvona. Mjöðmin og lærið holgróf alt með beini. Hann fèkk góða læknis hjálp. Varið eptir kom sami pilturinn í Hrísey á bæ Jóns, og lá hann þá enn í rúminu, að eins málhress, en mjög torkennilegur, og svo lá hann það sumar. Loks komst Jón til heilsu, en lifði þó við örkumsl; mjöðmina og lærið dró saman og hnýtti, svo fóturinn þeim megin varð mikið styttri, en hinn, og varð Jón því að hökta við hækju, ef hann vildi eitthvað fara. Mun hann og síðar ekki hafa verið formaður við hákalla veiðar á Siglunesi. þókti piltinum, sem hèr hefði það sannast, „að guð lætur ekki að sèr hæða."

**Súlnasker og skerpresturinn.** Sker eitt liggur í suður útsuður af Vestmannaeyum, hèr um bil 2 vikur sjávar; er það ýmist kallað Súlnasker, Almenníngssker, eða Skerið. Súlnasker heitir það, af því þar er mikið af súlu, Almenníngssker, af því allar jarðir á eyunni hafa jafnan rètt til ínytja þess, og Skerið, og jafnvel stundum „Skerið góða," er nokkurs konar gælunafn. Skerið á það og skilið, að því sè sómi sýndur, því Vestmanneyíngar fá þaðan á ári hverju hèr um bil 4 — 5000 fýla og 4 — 500 súlna, þar er og helzta eggjatekja eyabúa[1]. Skerið sjálft stendur

1. Hver fýll er virtur á 4 sk. og hver súla á 16 sk., og gefur þannig skerið af sèr í beztu árum alt að 290 rdl. í fugli, auk eggjanna.

á fjórum bergstöplum upp úr sjónum svo hátt, að róa má undir það, ef gott er í sjóinn. Í skerið er farið einu sinni á ári til fugla, og verður að velja til þess góðan veðurdag, því bæði er brimsamt við það og sjálf uppgángan í skerið einhver hin hættumesta og örðugasta. Sá dagur, sem farið er í skerið, er nokkurskonar hátíðisdagur fyrir eyabúa; þá fara vanalega heldri menn á skipi sèr, til að skemta sèr og horfa á hina, sem í skerið gánga eptir fuglinum. Er þá einatt kátt á hjalla, því þá liggur vel á öllum, ef vel veiðist og einginn slasast.

Skerið hallast töluvert til útsuðurs, og segir sagan til drögin til þess þannig. Fyrst framan af kom eingum manni til hugar, að reyna að fara upp í skerið, því eingum þókti það fært nema fuglinum fljúgandi. Loksins gerðu þó tveir hugaðir menn tilraun til þess, og tókst það vel, þó glæfraför væri. Sá þeirra, sem fyrri komst upp á skerið, sagði: „Hèr er eg þá kominn fyrir guðs náð"; en hinn síðari: „Hèr er eg kominn, hvort guð vill, eða ekki". Við þessi orð brá svo, að skerið snaraðist á hliðina, og hristi guðleysíngjann af sèr út í hyldýpið, og týndist hann þar. En stórvaxinn maður kom fram og greip í hinn manninn og studdi hann, svo hann skyldi ekki fara sömu för. Upp frá þeim degi hefir skerið hallast, en stórvaxni maðurinn var skerpresturinn, sem bæði hjálpaði manninum niður, og einnig að leggja veg upp á skerið, sem leingi var farinn eptir það, en nú er með öllu aflagður, og nýr vegur fundinn. Framan af var það í mæli, að skerpresturinn kæmi fram á skerið og bandaði á móti eyabúum, ef þeir vildu leggja þar að, og alt eins gaf hann þeim bendíngu um að leggja til eyanna aptur, ef hann vissi fyrir ílt veður. En ef þeir sintu ekki þessum bendíngum hans, hlektist þeim æfinlega eitthvað á, löskuðu skipið, eða maður slasaðist af þeim og annað því um líkt. Stundum bar það og við, að þó ílt væri við skerið, benti hann þeim að leggja að því alt að einu, enda var þess þá víst að vænta, að sjór og vindur gekk til bötnunar, þegar svo vildi til. Fyrir þetta voru eyabúar skerprestinum jafnan þakklátir, og enn í dag helzt það við, að hver sá, sem í fyrsta sinn kemur upp á skerið, leggur fáeina skildínga í steinþró eina, sem er uppi á skerinu. Á það að vera gjöf til skerprestsins, og alt af eru skildíngarnir horfnir, þegar komið er í skerið í næsta sinn. Auk þessa, sem nú er sagt af skerprestinum, er hann bezti prestur bæði fyrir altari og í stól, og flytur ómeingaða kenníngu, annars gæti hann ekki verið eins góður vinur Ofanleitis[1]-prestsins, eins og hann er. Skerprestur heimsækir Ofanleitis-prest einu sinni á ári; kemur hann þá róandi tveim árum á steinnökkva að Ofanleiti á gamlárskvöld, og tekur Ofanleitis-prestur við honum báðum höndum, leiðir hann til stofu og setur fyrir hann kaffi, brennivín, hángiket og ýmsar kræsíngar. Þegar sker-

1. Ofanleiti heitir annað prestsetrið á Vestmannaeyum.

presturinn fer aptur frá Ofanleiti, fylgir heimapresturinn honum til skips um miðnættið ofan í „Víkina", þar sem skerprestur lendir nökkva sínum, og hjálpar honum til að setja á flot, sem Jón skáldi segir í Vestmannaeyabrag:

. . . . . . . . . . . . . . . . . .
„Prestur skers um ránarreiti
rær opt upp að Ofanleiti
nóttina fyrir nýárið.
Það er líka satt að segja,
sóknar prestur Vestmanneya
höklabúkla hýrt tók við:
stofuna til staupa benti,
steinnökkvann í „Vík", sem lenti
setti á flot um svartnættið."

Á seinni árum hefir þó ekki orðið vart við skerprest, og eru því líkur til, að hann sè annaðhvort dáinn, eða þá orðinn svo hrumur af elli að hann sè ekki ferðafær, þó það hafi hvorki frettzt, að brauðið sè veitt öðrum, eða gamli presturinn sè búinn að taka sèr kapellán[1].

**Gyðíngurinn gángandi.** (Eptir handriti, sem Jóhannes Jónsson í Elinarhöfða á Akranesi átti 1859, og sögnum í Borgarfirði). Það var Gyðíngur einn, sem hèt Assverus. Hann var, eins og fleiri, staddur við krossfestíngu drottins vors Jesú Christi, og hrópaði með öðrum þessi orð fyrir Pilato: „Krossfestu hann, en gef Barabam lausan." Þessi Gyðíngur er sagt að hafi aldrei komizt inn í borgina Jerusalem, eptir að drottinn var krossfestur, nè heldur fundið eptir það konu sína eða börn, en ávalt síðan verið á gángi, og lifi hann alt til þessa dags, hann hafi og sèzt í ýmsum stöðum, og þar á meðal í Hamborg 1599, og dvalið þar nokkurn hluta vetrarins. Á Íslandi hefir hann einnig sèzt, en mjög er það sjaldan. Af þessu ferðalagi er hann kallaður „Gyðíngurinn gángandi"; því ávalt er hann gángandi, og er hann nú geinginn upp að knjám. Hann hefir staf í hendi og mal einn lítinn um öxl. Söguskrifarinn segir þessi rök til gaungu Gyðíngsins: „Paulus, lærifaðir heilagrar skriptar og biskup í Danzig, kjörinn þar til af hertoga Adolp(h)o, hefir sagt mèr og öðrum stúdentum, að í æsku sinni, þegar hann var í skóla og til náms settur í Guttenborg, hafi hann eitt sinn um veturinn 1542 ferðast til Hamborgar á fund foreldra sinna, og næsta dag eptir hafi hann geingið til kirkju að embættisgjörð, og hafi hann þá sèð einn mann [næst prèdikunarstólnum[2], furðanlega stóran með síðu hári á herðar

1. Kandid. Stefán Thordersen hefir safnað þessum sögnum um Súlnasker og skerprestinn, meðan hann var sýslumaður í Vestmannaeyum 1860—61.

2. Munnmælasagan segir, að Gyðíngstetrið eigi að standa við kirkjudyrastafinn, og fara frá kirkjunni, undir eins og prestur kemur ofan úr stól.

niður, bólginn á fótum. Hann hafi hlýtt prèdikuninni með miklu athygli, og aldrei hafi hann frá henni hvarflað, og í hvert sinn sem Jesús hafi verið nefndur, hafi hann beygt knè sín, barið sèr á brjóst og andvarpað þúnglega. Eingin föt hafi hann haft þann vetrartíma, sem hann var í Hamborg, nema eina hökulsokka, og hempu á knè niður, og kápu síða, og hann hafi verið álits, sem hann væri fimtugur að aldri, eða því nær. Af því Paulus segist hafa undrazt vöxt hans, klæðaburð og athöfn, segist hann hafa grennslazt eptir hjá öðrum, hver þessi maður væri, eða hvernig hans efnum væri varið, og hafi sèr verið sagt, að þessi maður hefði dvalið þar nokkrar vikur fyrgreindan vetur og látið á sèr heyra, að hann væri fæddur í Jerúsalem og uppalinn á Gyðíngalandi, hèti Assverus, og hefði sjálfur persónulega verið við Christi krossfestíngu; en frá þeim tíma, og alt þar til þá var komið, hafi hann farið um mörg lönd og kóngaríki, einnig til Tyrkjanna, að sanna sögu þessa. Þar með kunni hann og að gjöra glögga grein á því, sem hvorki guðspjallamennirnir nè sagnameistararnir neitt um skrifa, lútandi að því, sem við hefði borið, þegar Christur var fángaður og hafður fyrir Pilatum, og síðast krossfestur, svo og marga þá atburði, sem orðið höfðu í löndum og lýðastjórnum í austurálfu heims, nokkrum hundruð árum eptir Christi pínu, svo og um postulana, hvar hver hefði verið, prèdikað og kent, og hvernig þeir hefðu síðast verið líflátnir. Þessi Paulus undraðist þetta næsta mjög, og leitaði því færis, að ná Gyðíng þenna tali, og þegar honum tókst það um síðir, hefir Gyðíngurinn sagt honum alt þetta, opinberað og auglýst, að á þeim tíma, sem Jesús kendi hèr og prèdikaði, hafi hann búið í Jerúsalem, og verið einn af óvinum og ofsóknarmönnum Jesú Christi, og haldið hann fyrir einn villumann og forráðara, því hann hefði ei betur vitað, og svo hefði sèr kent verið af Phariseum og skriptlærðum, og því lagt hið mesta kapp á það, að þessi falsari væri af dögum ráðinn. Hann sagðist hafa veitt þeim aðstoð til að fánga Jesúm, og leiða hann til prestahöfðíngjanna, og hafi hann áklagað hann fyrir Pilatusi, einnig yfir honum hrópað: „Krossfestu hann, krossfestu hann; en gef oss Barabam lausan“, og styrkt til alls þessa með öðrum, alt til þess hann var til dauða dæmdur. Þegar dómurinn var uppsagður, sagðist hann hafa geingið með skyndi heim til sín, þar sem leiða átti drottinn um strætið út til aftökustaðarins, og sagðist hafa auglýst fólki sínu dómstitilinn uppsagðan, og skipað því að koma fram í dyrnar, til að skoða þenna Christum, en sett sjálfur lítið barn á handlegg sèr, og verið fyrir utan dyrnar, svo það sæi einnig Jesum. Þegar herrann Jesús var leiddur þar fram hjá, og hann bar sitt þúnga krosstrè, hafi hann nokkuð staldrað við, og stutt sig við dyrnar á húsi Gyðíngsins, þá kvaðst hann til vandlætíngar og með meiri alvöru, dómsherrunum til vilja, herranum Jesu hafa þaðan burthrundið með harðúð, og frekara frávísað, en sagt hann skyldi burt þaðan og í gálgann, sem honum um til heyrði. Þá hefði herrann starað á sig fast-

lega og mælt til sín þessum orðum: „Eg vil hvílast, en þú skalt gánga[1].“ Þá sagðist Gyðíngurinn hafa þegar í stað sett af sèr barnið, og hvorki komið nè getað verið í þeim húsum framar, heldur geingið út þaðan, og fylgt þeim eptir, sem fóru með Jesú, hann hafi bæði heyrt og sèð, hvernig herrann var krossfestur. En þegar alt var fullkomnað, hafi sèr verið ómögulegt að komast inn í borgina aptur, og þaðan í frá hvorki sèð konu sína nè börn, en farið burtu í fjarlæg lönd, og svo hvert af öðru, og síðan ávalt um runnið, alt til þess þá var komið. Þegar hann hefði komið aptur til Júðalands og Jerúsalem, eptir mörg hundruð ár, hafi þar alt verið umturnað, niðurbrotið og foreytt, svo hann hafi eigi þekt þar neitt. En hvað guð áformi með sig framvegis, eða því hann láti sig svo leingi hjara í þessu lífi, það viti hann ekki. Í dagfari sínu og umgeingni var hann fáorður og kyrlátur, ræddi ekkert nauðsynjalaust, og ekkert án þess á hann væri yrt. Þegar hann var boðinn til máltíðar, neytti hann með hófsemi, át lítið og drakk. Þegar menn sæmdu hann gjöfum, meðtók hann þær lítillátlega, en þáði ekki meira, en tveggja eða þriggja skildínga virði, og útbýtti þeim innan skamms meðal fátækra, svo mælandi, að hann þyrfti þess ei við, því guð mundi ala önn fyrir sèr. Allan þann tíma sem hann var í Hamborg, hafði einginn sèð hann hlægja nè brosa. Hann kunni túngu hvers lands, sem hann í kom; þegar hann var í Hamborg, talaði hann þýzku, sem hann væri þar barnfæddur. Forbænir og blót mátti hann ekki heyra; og þegar hann heyrði menn blóta eða sverja við guðs nafn, sagði hann með gremju og reiðisvip: „Þú, aumur maður, áttu svo að brúka nafn guðs og pínu og dauða hans sonar? Já hefðir þú heyrt og sèð, eins og eg, hversu þúng og ervið herranum Jesú var hans pína, þá mundir þú ekki tala svona herfilega.“

Þetta hefir sá heiðurlegi doctor Paulus mèr og öðrum útþýtt, og margir það sannindi sagt. Það er og sagt, að þessi Gyðíngur hafi haft svo þykt iljaskinn, að menn hafi mælt það þrjá þumlúnga á þykt, og svo hart, sem horn. Hann sást í Danzig 1599.

**Ein sönn historia**[2] um það straff og plágur, sem þeir 12 kynþættir Júða hljóta að hafa af guði vegna saklausrar pínu Jesú Christi, sem oss

1. Munnmælasögnin segir, að Jesús hafi sagt við hann, að upp frá þeirri stundu skyldi hann alt af vera á ferð, og hrekjast um allan heim. Hann skyldi svo gánga til dómsdags, og aldrei njóta hvíldar nema þá stund, sem prestur væri í stól á messudögum, ef hann gæti hitt svo á, að vera þá í kirkju; en ekki er sagt hann megi bíða, ef ekki er tekið til, þegar hann kemur í kirkju. Þetta er mismunurinn á útlendu og innlendu sögusögninni um Gyðínginn; því eptir hinni útlendu sögu virðist hann mega dvelja tímum saman í sama stað, en alls ekki eptir hinni íslenzku. En báðar hafa látið orð Krists verða að áhrínsorðum á honum.

2. Tekin eptir handriti Jóhannesar Jónssonar í Elinarhöfða.

leyst hefir fyrir eilífan dauða, so sem það er staðfest í guðsorði: „Með þeim mælir, sem þèr mælið öðrum út, skal yður inn aptur mælt verða.“

Einn víðfrægur medicus til Mantria (Mantua?) í Vallandi, hver fæddur var einn Júði, en hefir þó snúizt til kristilegrar trúar, hann skrifar furðanlega þarum, hversu að hver Júði í sínum 12 kynþáttum Ísraelssona, sem hafi verið orðsök, með ráð og dáð, til þeirrar beisku pínu og dauða vors herra Jesú Christi, hann sami hefir fengið undarlegt straff, bölvanir og plágur. Fyrnefndur medicus, fyrir sína persónu, segir og meðkennir, að hann sè af ætt Gað, og að hann hafi haft á sínu höfði 15 nabbabólur, hverjar árlega sig opnuðu 25. Martii, svo þar hafi runnið blóð ofan um andlitið með miklum sviða. En hann kvaðst eptir margra manna ráðum og fortölum sig auðmýkt hafa og gefið sig til kynníngar vors herra Jesú Christi með sannri iðran, og þar uppá tekið skírn og kristinn orðið, og þá hafi slíkar plágur af honum liðið, svo hann hafi aldrei slíkrar neyðar kent. Þessi medicus, með því hann hafði til Placontia stúderað, og í þeirri samkundu verið, og sèð þær 12 Ísraels kynkvíslir, so sem þær eru í Gamla Testamentinu, einkum í Genesis 34. útþrykkilega hver við aðra uppteiknaðar, og þá vissa plágu og bölvanir, sem sèr hver kynþáttur hafði á sèrhverjum tíma, þvílíkt hefir hann opinberað því fólki til Mantria og öðrum kunníngjum, svo sem eptirfylgir.

I. Kynþáttur Rúben. Þeir Júðar eru af kyni Rúben, sem herrann Jesúm Christum hafa fángað í grasgarðinum, og þar ofan á sjálfir með ofsa og ílsku saklausan hrakt og slegið. Þeir hafa vegna slíkrar illgjörðar þrjár plágur og bölvanir á sínum kynþætti: 1° að allur þeirra gróði visnaði fyrir þeim í 10 daga, 2° hvað þeir sá og planta, það hefir engan ávöxt nè framgáng, 3° þegar þeir deya, vex ekki neitt gras á þeirra leiðum, þar þeir eru grafnir.

II. Kynþáttur Símeon. Þeir Júðar eru af kyni Símeon, sem herrann Christum á krossinn negldu; þeir hafa vegna slíkrar syndar til straffs árlega á höndum og fótum eina blöðru, hvar út af rennur blóð og vatn frá morgni til kvelds þann 25. Martii.

III. Kynþáttur Leví. Þeir Júðar skulu hafa verið af kyni Leví, sem herrann Christum hræktu og slógu í sína ásjónu, þeir sömu hljóta í sínum kynþætti þá plágu og bölvanir að bera, sem er, þeir geta aldrei á jörð hrækt, eður leingra, en fram fyrir sitt skegg.

IV. Kynþáttur Júða. Þeir Gyðíngar af kyni Júða voru þeir, sem herrann Christum forrèðu; þeir hafa það til straffs, hvert ár verða forráðnar

af þeim til dauða 30 persónur með sèrlegum svikum, svo ótrúir eru þeir hver öðrum í sínum kynþætti.

V. Kynþáttur Zebúlon. Þeir Júðar skulu verið hafa af kyni Zebúlon, sem köstuðu hlut um kyrtilinn herrans Christi. Sá kynþáttur hefir árlega þá plágu þann 25. Martii í sínum munni til kvölds, að þeir útspýja því öllu er í magann geingur.

VI. Kynþáttur Ísaskar. Þeir Júðar af kyni Ísaskar, hverjir herrann Christum við stólpann bundu, og hans heilaga líkama strýktu og særðu með mörgum hundrað benjum, vegna slíkrar syndar fær þessi kynþáttur árlega óteljandi rispur á sinn líkama, hvar út blóð flýtur frá morgni til kvölds þann 25. Martii.

VII. Kynþáttur Dan. Þeir Júðar segir að verið hafi af kyni Dan, sem hrópuðu og kölluðu: „Jesu blóð komi yfir oss og börn vor.“ Þessir hafa það straff á sínum kynþætti, að á hverjum mánuði finna þeir á sínum líkama stórlegar plágur og verki, svo þeir kunna ekki yfir 4 vikur að dylja, nè umbera vegna ólyktar, nema þeir smyrji sinn líkama með kristins manns blóði.

VIII. Kynþáttur Gað. Þeir Júðar af kyni Gað, sem herrann Christum þyrni kórónuðu til spotts og á höfuðið þreingdu með 15 hvössum broddum, hverjir inngeingu í höfuðið alt til heilans, þeir hafa vegna slíkrar syndar til straffs og bölvunar það, að hver og einn fær daglega í höfuðið 15 nabbabólur, af hverjum með stórum verkjum ofan um alt andlitið blóð fellur frá morgni til kvölds þann 25. Martii.

IX. Kynþáttur Assers. Þeir Gyðíngar af kyni Assers, sem vorn herra Jesúm Christum reirðu og börðu hans heilaga líkama, og hafa það fyrir þá synd, að þeirra hægri handleggur er þverhandar styttri, en sá vinstri.

X. Kynþáttur Neptalim. Þeir Júðar skulu verið hafa af kyni Neptalim, sem lètu börn sín syni og dætur inn í eitt svínahús, þegar þeir aðrir Júðar þess kynþáttar leiddu herrann Jesúm úr höfðíngjans húsi, en sem þeir höfðu hann fram hjá því húsi með spotti og hlátri, hófu þeirra börn upp að hrýna, sem svín, so sem skyldu þau svínum formæla; þá spurðu þeir herrann Christum að og sögðu til hans: „Spá þú oss Christe, hvað er í þessum svínastalli?“ En Christur andsvaraði og sagði: „Það eru yðar börn, synir og dætur.“ Þá sögðu þeir Júðar allir saman: „Það eru lygar, þar eru svín inni.“ Þá svaraði herrann aptur: „Skulu það svín vera, sem þèr segið, þá sèu það svín.“ Þá urðu öll þeirra börn þar inni svín. Soddan straff hafa þeir allir fyrir þá synd í kynþætti Neptalim, að þeir hafa stirða rödd eptir svína tegund, og þeir lykta sem svín fyrir vitum allra manna.

XI. Kynþáttur Jósephs. *þeir Gyðíngar af kynþætti Jósephs*, sem naglana smíðuðu, með hverjum hann var á krossinn negldur; á meðal þessa kynþáttar er sagt að verið hafi ein kvinna að nafni Beatrix, sem uppþenkti og gaf það ráð, að naglarnir skyldu smíðast oddlausir og sljóvir, so *herrann* Christur skyldi þar af hafa meiri *pínu* og sárindi. Vegna slíkrar illgirni hafa allar kvinnur í þeim kynþætti þá plágu, að þegar þær eru komnar yfir 33 ár síns aldurs, verður hverja nótt í svefni fullur þeira munnur af möðkum.

XII. Kynþáttur Benjamín. þeir Júðar af kyni Benjamín, sem herrann Christum á krossinum með ediki og galli drykkjuðu með einum njarðarvetti, fyrir þá synd hafa þeir það straff að þeir kunna ekki í lopt upp að líta, þar fyrir verða þeir í sínum munni plágaðir af slefju og þorsta, svo að þegar þeir vilja tala, hrýtur útúr þeim slefa, ur þeirra munni, og verða sem smáormar.

þessar eru þær plágur þeirra tólf kynþátta, hverjar þó eru litlar hjá þeim, sem yfir þá mun koma eilíflega, nema þeir sanna iðran gjöri, og snúist til rèttrar trúar á Jesúm Christum.

**Ólufar-bylur.** (Dr. Maurers Isl. Volkssagen 205.—206.) Að nokkru leyti má hèr heimfærast sögn sú, sem er um Ólöfu Loptsdóttur á Skarði, húsfrú Bjarnar riddara þorleifssonar.[1] Enskir sjómenn drápu mann hennar, og hafði hún hefnt hans grimmilega. Óluf var kölluð hin ríka að kenníngarnafni, bæði sökum auðæfa hennar og höfðínglega vaxtarlags; þar með var hún guðhrædd kona, eða að minnsta kosti kirkjurækin. þegar hún lá banaleguna á Skarði, bað hún til guðs, að hann sýndi mönnum eitthvert merki um vald hennar og ráðvendni, þegar hún skildi við. Er þá sagt, að svo mikill felli-bylur hafi komið (1484), að hann hafi ekki einúngis tekið yfir alt Ísland, heldur og náð til Noregs og Einglands, og að í þeim stormi hafi farizt um 50 skip við Einglands strendur. þessi stormur var kallaður Ólufar-bylur eptir henni.

**Lángi-dómur** eða **Stóri-dómur.** (Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 206. bls.) það er eptirtektavert, hvernig kýmnisögur hafa getað myndazt jafn vel af alvarlegustu hugmyndum um hefnd fyrir alt það ílt, sem maður aðhefst. Á alþíngi 1564 var samin dómssamþykt sú, sem hèt Lángidómur eða Stóridómur, er lagði óhemjulega harðar refsíngar við hverja eina holdlega yfirsjón (lauslæti). það er sagt, að allir þeir, sem samþykt þessa sömdu hafi orðið sekir á heimleiðinni af þíngi í þetta sinn fyrir nokkurt lauslætis brot, svo að þeir hafi orðið hinir fyrstu, sem hegnt var

---

1. Árb. Esp. II, 69—70. og 105. bls., sbr. Annála Björns á Skarðsá I, 58. bls.

eptir þeirra eigin samþykt. Einn þeirra, sem átti mjög lángt heim, er sagt að hafi lagzt með vinnukonu sinni, undir eins og hann var heim kominn, hafi þá kona hans komið að honum, og sagt við hann góðlátlega: „À hefir þèr legið núna, Bjarni minn.“ það er athugandi, að einginn af þeim 24 mönnum, sem samið hafa Stóradóm, og taldir eru upp framan við hann, er nefndur Bjarni.[1]

---

## 5. GREIN.

### HJÁTRÚ ÚR PÁPISKU.

Hjá Arnarbæli í Ölfusi heitir á einum stað Kerlíngagaung, og úti á Selvogsheiði heita Kvennagaunguhólar; til beggja þessara staða fóru konur þær, sem ekki treystust að fara krossför alla leið til Kaldaðarness, þær úr Ölfusi í Kerlíngagaung, en þær úr Selvogi í Kvennagaunguhóla, af því frá báðum þessum stöðum mátti sjá Kaldaðarnes fyrir austan Ölfusá, þar sem krossinn var, sem mest helgi og trú var höfð á í páfadómi. En því sóktu menn eptir að sjá krossinn, að því var trúað, að menn feingju af því lækníng meina sinna.[2] Í þjórsárdal fyrir ofan Stóranúp heitir enn Krosssteinn. þángað fóru menn og krossfarir í páfadómi, og ekki eru meira en 40—50 ár síðan, að það tíðkaðist, að ferðamenn, sem þar fóru um, lögðu blóm á stein þenna, gras, hrís eða bein, o. s. frv. En nú er öllum slíkum hègiljum hætt. Annað mál er með himnabrèfið, sem Kristur átti að hafa skrifað sjálfur og látið Mikkael[3] höfuðeingil birta á þýzkalandi. Ein saga er það, að þegar búið var að lesa það og skrifa það, hafi það horfið. En inngángur brèfsins mótmælir þeirri sögn. Afskriptir af þessu brèfi hafa þókt allmerkilegar á Íslandi, og sumir segja, að gamlar konur beri þær enn á sèr, og trúi þær því, að það verji sig öllum voða. Brèfið hljóðar þannig:

**Himna-brèf.** Útskript af brèfi því, sem drottinn Jesús hefir oss opinberað fyrir höfuðeingilinn Michael, og hann sjálfur skrifað hefir í staðnum Michaelsborg, ekki lángt frá Fríborg. þar hèkk eitt brèf; en hvar á það hèkk vissi einginn. það var skrifað með forgyltum bókstöfum.

---

1. Sbr. Magnús Ketilsson, Kongelige Forordninger II, 31.—32. bls. og Lovsamling for Island I, 84.—85. bls.

2. Um trúnað þann, sem lagður var á kross þenna, má sjá Árb. Esp. IV, 25.—26. og 125. bls. og Safn til sögu Íslands I, 87 og 88.

3. Dr. Maurer hefir heyrt, að það hafi átt að vera Gabríel eingill, sem birti brèfið. Isl. Volkss. 207. bls.; en í 4 afskriptum, sem eg hefi af brèfinu, er tilnefndur Mikkael.

[Hver eptir því brèfi vill skrifa, til þess hneigir það sig niður[1]. Ef nokkur til þess seilist, og eptir því grípur, frá þeim sömu líður það upp og flýr í burtu.

Ó börn, sjáið þetta brèf, og vel athugið, sem fyrir eingilinn Michael er befalað og útsent. Hver sem nú vill erviði á sunnudögum fremja fyrir góz og penínga, sá er forbannaður. Þar fyrirbið eg yður, sem vera viljið guðs börn, að þèr um sunnudaga ekkert erviði fremjið í mínu nafni, hvorki líkamlega, nè með auðæfanna ágirnd. Baktalið ekki hver annan með yðar túngu, útsvallið ekki yðar ríkdómi ónytsamlega, fyrir syndir og ljótan lifnað og vondan. Svíkið ekki hina fátæku, föðurlausu og móðurlausu, nè yðar náúnga. Útgefið ekki falskan vitnisburð, heldur talið sannleikann hver við annann, og verið sem bræður innbyrðis. En hver eð ei hefir þessa trú, sá sami er fordæmdur, og hans sál blífur fortöpuð að eilífu. Og hver sem þessu brèfi ekki trúir, sá er öldúngis glötunar sonur, og hefir hvorki lukku nè blessunar að vænta. Og eg segi yður, bræður, að þetta brèf hefi eg sjálfur, Jesús Kristur með minni eigin guðdómshendi skrifað, og útgánga látið, og hver hèr móti segir, sá er yfirgefinn, og skal ekki hafa hjálp af mèr að eilífu. Og hver, sem þetta brèf hefir og opinberar það ekki, hann er forbannaður af kristilegri kirkju, eður guðs söfnuði, og yfirgefinn af minni almættis hendi. — Þetta brèf skal hver eptir öðrum skrifa, og þó þèr hafið drýgt svo margar syndir, sem sandur á sjáfargrunni, og lauf á trjánum, gras á jörðu, stjörnur á himni, og dropar í regni, þá skulu þær yður verða fyrirgefnar að eilífu. En hver sem þessu brèfi ekki trúir, hann skal deya og hans börn eilíflega. Ó hó, snúið aptur til mín, annars hljótið þèr að pínast í helvíti. Eg mun spyrja yður á þeim síðasta degi, og munuð þèr þá ekki kunna að svara mèr einu orði á móti þúsund, og það sökum yðar synda og afbrota. En hver sem þetta brèf í húsi hefir, eður hjá sèr, eður á sèr ber, hann skulu hvorki skruggur, reiðarþrumur nè óveðrátta slá; hann skal verða vel forsvaraður fyrir eldi og vatni, og hjálplegur verða. Sömuleiðis hver helzt sem þetta brèf ber á sèr, hann skal fá gleðilega velgeingni í þessum heimi, og að síðustu eilíft líf. Ó börn, haldið mín boð, sem eg hefi fyrir minn eingil Michael sent og opinberað. Eg sá sann Jesús með minni eigin hendi skrifað hefi við Míkilborg, ei lángt frá Frýborg.

---

1. Frà [er tekið eptir handriti, sem Kristján Björnsson í Hrafnhólum hefir átt; en hèðan og út brèfið er tekið eptir galdrakverinu á skinni á stiftsbókasafninu í Reykjavík. Um gullbrèfið sjá Symbolæ ad geogr. med. ævi edd. Werlauff. 1821. 56. bls.; ennfremur Kyrjalaxsögu. Sjá ennfremur Leiðarvísan Brands skálds v. 6—12 (Fjögur gömul kvæði útg. af Sveinbirni Egilssyni 1844 bls. V. 58—60.

Og var sent þetta brèf til Kaupmannahafnar þann fyrsta dag mánaðarins Janúarí, sem vèr köllum vorn nýársdag. Það skrifaðist anno Christi 1648.[1]

Enn fara munnmælum ekki allfáar pápiskar bænir og vers á Íslandi, auk þeirra sem áður eru prentaðar í kirkjusögu landsins eptir Finn biskup.[2] Um sumar af þessum bænum vita menn með vissu, að þær hafa verið lesnar og álitnar af fáfróðum múgamönnum, og helzt kvennfólki, sem guðrækilegar morgun- og kvöld-bænir, og eru það jafnvel enn í dag, meir en 300 árum eptir siðabótina, og með því móti hafa skilríkir og skynsamir menn numið þær og skrásett, að þeir hafa heyrt þær hafðar um hönd í guðrækilegum tilgángi. Bænirnar, sem eru nálega allar með hendíngum að meira eða minna leyti, eru flestallar stýlaðar til helgra manna, Maríu og postulanna o. s. frv., og krossins helga, en miklu minna minnzt á persónur guðdómsins, og heilags anda ekki getið nema á einum stað. Sumum þessum bænum og versum svipar mjög til særínga, og í sumum koma fyrir svo afbökuð orð eða orðskripi, að ekki er auðið úr að ráða.

1. Niðurraðan trúarinnar. (Hist. eccl. Isl. II, 282. bls.)

Bið þú föðurinn,
bjóð þú syninum
af móðurlegum
myndugleika;
því honum þú eflaust
yfir drottnar.
Skynsemi og rèttvísi
skilja til báðar,
að móðirin
sè mög æðri.
Fyrir því bið þú
föður himnanna
auðmýkt með
og undirgefni,
en skipaðu syni
af skarpleiks valdi.

2. Kirkjugaungu-bæn. (S. st. 383. bls.)

Stíg eg í kirkju
með kristins manns fótum;
holl sè mèr kirkja,
hollur sè mèr prestur,

1. Fyrir þessa síðustu grein hefir handritið frá Hrafnhólum: „þetta skeði á því ári, þá datum skrifaðist anno 1647.“ Hvort árið sem er, er það alt það fyrsta, að brèfið gæti verið komið híngað út 1648, eins og Espólín segir.

2. Historia ecclesiastica Islandiæ. II, 381.—384. bls.

holl sè mèr messubók og hver bók,
sem guð drottinn minn jók.
Leit eg utar í kirkju,
leit eg innar í kirkju,
leit eg alt í kríng um mig.

Sá eg, hvar guð drottinn minn sat á dómstóli sínum, og hafði í hendi þá helgu bæn, pater noster, og mælti þessum orðum, að þar skyldi einginn

í vítis eldi brenna
nè kvalanna kenna,
hver sem sýngi þessa bæn
með sjö dögum öllum.
Vaki vörður minn,
sofi (ei) augu mín,
renni hugur minn
til almáttugs guðs míns. Amen.

3. Messu-upphaf. (Eptir Guðnýu Snorradóttur.) [1]

Situr á tignartróns
og heingir dirðildúk;
þar kemur rindilkindin syndagrú.
Ræður og stángar ríkur herra,
sánkti Pètur og María
á dauðastundurinn. [2]

4. Maríu vögguljóð. (Hist. eccl. Isl., II, 381. bls.)

Sof þú, eg unni þèr;
allir helgir þjóni þèr:
Pètur og Páll á Rómi
hjálpi [þèr á [3] dómi

---

1. Guðný var dóttir sèra Snorra á Húsafelli; hún varð mjög gömul og lifði leingi í einhýsi, lángt frá öðrum mönnum, og þókti ekki við alþýðu skap. Þórður bóndi Árnason á Bjarnastöðum í Hvítársíðu hefir skrifað upp eptir henni þessa bæn og aðrar, sem hèr koma á eptir.

2. Sèra Jón Norðmann kallar þetta: „Gamalt sálmsvers,“ og hefir það þannig:

„Situr á tignartróni,
og heingir dirðildú,
þángað kemur rindilkind
með sitt syndagrú,
Pètur, María
og dauðastundurinn.“

3. Frá [hafa aðrir þannig: „oss guð í.“

og[1] sú hin midasta[2] mær,
sem[3] marga bæn af[4] guði fær.
Sancta[5] María sè þèr holl,
sú[6] er betri en rautt[7] gull.
Hvar sem þú reikar [á landi,[8]
signi þig og svæfi[9]
sjálfur guð og heilagur andi.

5. Vöggukvæði. (Eptir Guðnýu Snorradóttur.)

Sofðu nú sælin,
og sofðu nú vel.
Sofðu, eins og Kordíá,
undir vængjum Máríá.
Krossinn helgi lýsi þèr
með öllum sínum ljósum,
hvers helgidóm vèr hrósum.
Dilli þèr nú Drúþíus og Pálma
sýngi yfir þèr serimón og sálm[a].

6. Vögguljóð. (Hist. eccl. Isl. II, 381. bls.)

Þig svæfi guð og guðs móðir
tíu einglar og tólf postular,
Thómas hinn trausti og tveir aðrir,
Magnús og Marteinn;
þig svæfi drottinn.

7. Kvöld og morgunvers til sællar Maríu meyar. (Hist. eccl. Isl. II, 381. bls.)

Bið eg María bjargi mèr
burt úr öllum nauðum
annars heims og einnin hèr,
ástmær guðs, eg treysti þèr;
bið þú fyrir mèr bæði lífs og dauðum.

---

1. „en", aðrir.
2. „milda", aðrir.
3. Aðrir sleppa þessu orði: „sem."
4. „hjá", aðrir.
5. „Sánkti", aðrir.
6. „hún", aðrir.
7. „rauða," aðrir.
8. Frá [hafa aðrir þannig: „um landið".
9. Á undan síðasta vísuorði bæta aðrir þessu inni: „geymi þíu og gæti."

8. Morgunbæn. (Eptir handriti þórðar Árnasonar á Bjarnastöðum.)

Geing eg út fyrir dyr,
geing eg inn fyrir dyr,
geing eg aldrei einsömul;
fylgja mèr einn, tveir, þrír
fjórir, fimm guðs einglar.[1]

Og nú sný eg mèr sólarsinnis frá helvíti til himnaríkis. Amen.

9. Kvöldbæn. (Eptir sama handriti.)

Grá, Grá, Grazíá,
Mortá, Lipur hnoss,
minn varnarskjöldur veri hèr
Pètur og Páll á miðri mèr
og Marteinn til fóta.
Sýng eg sjö sálma[2]
sinn í átt hverja.
Ljósið hans hið lánga
lýsi mèr í Paradís að gánga.

10. Kvöldvers. (Úr Strandasýslu.)[3]

1.

Nú leggst eg í sængina mína,
sem drottinn minn sæll í gröf sína.
Liggur minn búkur ber,
blessaður guð á höfði mèr,
einglar hans á fótum mèr,
og Pètur og Páll á miðri mèr,
allir heilagir utan með og amen.

2.

Kominn er eg í kúruna mína,
kann mig eingin þar snerta pína.
Og nú sendu einglana þína
alt í kríng um kúruna mína.[4]

---

1. Sbr. kreddu þrándar í Götu, Færeyínga saga. Kh. 1832, 56. kap., 257. bls.
2. S. st., 258. bls.
3. Eg veit ekki, hver skrifað hefir upp þetta vers, en neðan við stóð: „Guðrún, sem er ráðkona hjá Gísla á þorpum (í Kirkjubólshrepp og Strandasýslu), var eitt sinn á grasafjalli með fleiri stúlkum. En þegar þær lögðust til svefns, fór ein stúlkan að lesa bænir sínar í hálfum hljóðum; en Guðrún var vakandi og heyrði hana lesa þetta vers og Nr. 18.“
4. þetta vers held eg sè uppskrifað í Borgarfirði.

11. Kvöldbæn (dyrabæn.) (Hist. eccl. Isl. II, 383. - 4. bls.)

1.

Geymdu dyrnar, drottinn minn
dásamlegur fyrir krossinn þinn,
glugga, húsin, gólf og skúm,
guðs á meðan stendur húm.
Guð gefi hèr rúm heilögum anda,
svo óhreinn andi kunni oss ekki að granda,
og árar hans fái hèr ekkert rúm.

Guð geymi dyr og Crux lok, María mey í innidyrum, en Michael eingilll út í frá. Brjóti einginn upp búmanns dyr.

Út Gurgur, (Karkur)
inn Jesús,
út Gassagull,
inn guðs eingill,
út Ragerist,[1]
inn Jesú Christ,
út Valedictus,[2]
inn Benedictus.

Við gefum oss alla á guðsvald og góða nótt.[3]

2.

Önnur dyrabæn. (Eptir handriti sèra Finns þorsteinssonar á þaunglabakka.)

Hvað viltu hrella mig,
hundspottið leiða.
Herrann minn hreki þig
í helvítið breiða.[4]
Fals refur fá þú skamm,
farðu ekki inn í mín hús;

---

1. Dr. Maurer hefir getið þess til, að hèr eigi að standa „Antichrist" fyrir Ragerist (Isl. Volkss. 209. bls.)

2. Sami heldur, að hèr eigi að standa „Maledictus" fyrir Valedictus.

3. Eptir handriti einu, sem eg ætla að sè komið til mín úr Borgarfirði, er þessi bæn þannig: „Kristur geymi dura krúsa með lási. María á umbúning dura, Kristur
„á alt, hvað inni er.
Út Gassagúll,
inn guðs eingill,
út Fructus,
inn Benedictus. Ámen."

En Dr. Maurer hefir þetta niðurlag haft þannig eptir Sigríði Einarsdóttur í Hergilsey (Isl. Volkss. 208. bls.): „Út frugtus, inn guðs eingill, út grasagúll, inn Benedicts ámen."

4. Hèr skal stappa niður fótum.

haf þig í burtu hèðan,
því hèr stendur Jesús.

12. Bæn, þá maður klæðist. (Eptir handriti hins sama.)

Kristur, ljáðu mèr kyrtil þinn,
María, ljáðu mèr möttul þinn,
sánkti Pètur, ljáðu mèr sjóhettuna þína.
Pèturs klöpp,
klöpp, klöpp,
þá hefi eg nóg,
þá hefi eg nóg.
Geing eg út og inn,
ber eg koppinn minn.
Fylgja mèr frægir
fjórir guðs einglar.
Hefi eg staf í hendi mèr; það sè og veri að eilífu. Ámen.

13. Eitt bænarkorn, þá maður þvær sèr. (Eptir handriti hins sama.)

Þvæ eg mèr í dögg og í dagleiði; þvæ eg frá mèr fjandmenn mína og óvini mína. Renni reiði þeirra. Ber eg blíðskap minn, drottinn minn, á milli brúna mèr. Verði mèr svo hver maður feginn, sem mig í dag með augum lítur, eins og Máría mín, guðs móðir, varð honum syni sínum, þá hún fann hann á friðarhellunni, fyrir austan ána Jórdán. Àin Mará, Grasá, Plená. Domíne-ste-kúm, Benidiktatum, fructus, Herbus benidictus.[1]

14. Bæn móti kveisu. (Hist. eccl. Isl. II, 382. bls.)

Kristur sat fyrir kirkjudyrum;
kyndil hafði í hendi
barnið það blessaða,
bók í annari
„Hvað syrgir þú, son minn?“
sagði sæl María.
„Eg er sár og sjúkur,“
sagði guð drottinn minn.

---

1. Ur þessari bæn hefi eg feingið þessar druslur að vestan:
„Heil og sæl Margrèta mín;
hver er faðir að börnum þín?
Nefndi eg það í fyrragær
fyrir austan ána Þjórsá.“
Ber eg blíðskap minn milli brúna mèr. Verði mèr svo hver maður feginn, sem með augum sjá og eyrum heyra, eins og hún sánkti Máría mín fyrir austan ána Þjórsá.

Eg skal lækna þèr beinkveisu, steinkveisu, fótakveisu, handakveisu, iðrakveisu, heilakveisu og þá allra römustu reginkveisu.“ Hann varð laus af kránkleika sínum. Hver þessa bæn hefir að varðveita, frelsast mun af allri kveisu.

15. Bæn móti hiksta. (Eptir sömu bók, 382. bls.)

Kristur í brjósti mèr,
burt fari hiksti;
fyrri var eg í huga guð
en hiksti.

Guð friði þess manns sál, sem dó af hiksta. Hver, sem í einu andartæki les þessa bæn níu sinnum, mun laus verða við allan hiksta.

16. Draumur sancti Pèturs. (Að draumur ráðist vel; eptir sömu bók, 383. bls.)

(Pètur segir:) Draum dreymdi mig, drottinn guð minn: eg þóktist sjá þig, drottinn drottnanna og kóng kónganna; vaknaði eg við, og var það svo. „Hver sem segir þinn draum fyrr en sinn,“ sagði herrann Kristur, „hann skal alltíð ráðast til betri vegar“.

17. Krossvers. (Eptir Guðnýu Snorradóttur.)

Kross í kross
datt ofan fyrir foss;
rak hann upp á eyrinni,
sè hann með öllum oss. Ámen.

18. Kvöldjátníng. (Úr Strandasýslu.)[1]

Eg hef lifað í aumum heim,
eins og versta tóa;
blessaður, sem býtir sem,
brjótt' ekk' í mèr lóa.

19. Ákall. (Alment.)

Drottinn minn dýri,
dragðu mig upp úr mýri,
legðu mig upp á steininn,
og brjótt' ekk' í mèr beinin.

20. Ein gömul bæn. (Tekin eptir minni úr handriti, sem bókmenta fèlagið á nú.)

Velkominn sèrtu sunnudags herra.
Þú ert mönnum mætastur,
sjálfum Kristi kærastur.

---

1. Sama heimild og við Nr. 10.

Þú munt bera vort boð
fyrir voldugan guð,
undir eið og gullstýl.
Þar kom inn einn sannkristinn mann,
sánkti Jóhannes heitir hann.
Settu þig niður, sánkti Jóhannes,
og skoðaðu mínar undir.
Hver hefir liðið neyð og stríð
fyrir allan kristinn lýð,
fyrir konu og fyrir mey,
fyrir svein og fyrir mann?
Hver sem þetta versið lesa kann,
níu nóttum, áður maður deyr,
sá er frí við alla vítis neyð.
Dýrt er drottins orðið um aldir alda. Amen.

21. Bæn. (Eptir Guðnýu Snorradóttur.)[1]

Krossa eg mig og signi mig í bak, krossa mig og signi mig í fyrir með því heilaga sigurmerki, sem St. Barbára merkti sig á sjálfa kyndilmessu drottins síns Máríu sinnar. Sittu hjá mèr, María hin sæla; signdu mig með vinstri hendi, verndaðu mig með hægri hendi fyrir honum illa Lússímund, og honum Loðin Ásbjarnarsyni, og fyrir apturgaungunni við Þrándarholtsstekk, og útburðinum í Andrèsarmýri.[2] Varðveittu minn andardrátt, sem Elítómasar og hins stóra Abistors og Córí. St. Þorlákur standi í mínum andyrum, og sýngi mèr sjö sinnum Paternoster. Svo súngu María og Pètrónell[3] á sinn upprisudag. Ámín. Ámín.

Hver þessa bæn les þrisvar á dag,
honum mun gánga alt í hag.

22. Maríu reisuvers. (Hist. eccl. Isl. II, 381. bls.)

Móðir Jesú veri með oss,
mildur guð og helgi kross;

1. Fylgt handriti Þórðar á Bjarnastöðum (sjá neðanmálsgrein við Nr. 3) í öllu því, sem eptir Guðnýu er haft; sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 209.—210. bls.

2. Dr. Maurer segir, Isl. Volkss. 210. bls., eptir sèra Magnúsi Grímssyni, að Guðný Snorradóttir hafi leingi haldið sig í kofa einum hjá Þrándarholti í Flókadal og Borgarfjarðarsýslu, þar sem Landnáma segir, að Ketill blundur hafi búið; en nú er sá bær í eyði. En aðrir segja, að Guðný hafi haft hreysi sitt, þar sem heitir Ambattarhóll í Varmalækjarlandi, og er þaðan skamt að Þrándarholti, en Andrèsarmýri er sunnan til við Þrándarholt. Þykir því líkast, að Guðný hafi sjálf bætt þeim orðum, sem að þessum örnefnum lúta, inn í bænina.

3. Messudagur Petronellu er 31. Maím.

aldafaðir, eingla lið,
allir helgir búi frið;
fríðir spámenn, frúr og postular
fyrir oss bið.

### 23. Ferðabæn.

(Tekin eptir handriti, sem sèra Vernharður þorkelsson í Reykholti átti 1856.)

Í þínu nafni, Dominus, Deus Zebaoht, ferðast eg á leið mína, og signi mig í kross í nafni allra heilagra, svo og með innsigli þessara kónga nafns merkja, Jaspars, Balthasars og Melkiors, Austurvegsvitrínga, í von leiðtogunar einnar stjörnu, sem þeim dýra Dromedariam á nóttu níðsvartri,

Fældust einga
fèndur myrkva;
fær svo leið mína
á farveg rèttan
frá slysum, óföllum
og illum dauða.
Hræðist mig djöfull
og heljar árar;
allir þeir flýi
og undan renni,
fyrir Krists benjar
og kónga nöfn þessi.
þoka ei mæði
nè þaulvíndur;
standi mökkur,
sem múrveggur,
mèr að báðum hliðum;
en leið lýsist
og liðug braut standi,
sem hafið rauða
hrökk fyrir Móises staf.
Straumæðar allar
standi í skorðum,
skelfíng eingin
svo skaða kunni.
Brynja eg mig
með bæn þessari
fyrir óvinum öllum
og illviðra gýgjum.
Renni þær allar
í rásir bjargbúa,

og af leið mig
aungvar hreki.
Eg fæ farveg slèttan
fram og aptur,
fyrir þessa bæn
og þrjá konúnga.
En sè sá nokkur
óvina minna,
er mèr ílt hugsi
á leið minni,
að mèr mæta skuli
af mann kynngi,
galdraklemmu
og glettum öllum,
augna myrkurs
og illþoku hjaldurs,
úða dökka mistur
og Morgána,
flugneista flas
og frostskruggum, —
þá sendi eg það aptur
í sekk þeirra og skrokk,
svo sjálfa umkríngi
þeirra útþanin snara,
fyrir Krists benjar
og krapt bænar þessarar,
og útlesin orð, sem standi svo
stöðug, sem orð Davíðs kóngs
og postulans Pèturs,
þá Ananías
og Sefíram

heitorður
til heljar leiddi,
einnin Krists,
þá eikin visnaði,
upp frá því aldrei
ávöxt bera kunni.

Nú signi eg mig í kross
í nafni Krists
og kónga þriggja,
er eg í fyrstu
og áður nefndi.

Ljáðu mèr, María, ljósstjörnu þína á leið mína, að hún lýsi fótum mínum á friðarveginn. Enda eg svo þessa mína auðmjúka bæn, í vissri von um hentuga bænheyrslu.

Amen. Amen, það sè já,
samsýngjum halelújá.

---

þessa bæn höfðu þeir gömlu lesið í hljóði, þegar þeir byrjuðu ferð sína, og hafði þeim jafnan vel geingið bæði til og frá.

### 24. Sigurfræði, sem lesast skulu á móti reiði.

(Eptir kveri af Vestfjörðum.)

Sigurfræði vil eg sýngja og tala;
þau skulu mèr til sigurs og frelsis vera:
Signi eg mig af bræði,
signi eg mig og mín klæði,
signi eg mig fram að gá,
signi eg mig upp að stá.
Sigur sè mèr í höndum,
sigur sè mèr í fótum,
sigur sè mèr í öllum liðamótum.
Bak mitt af járni,
fætur mínir af stáli,
höfuð mitt af hörðum hellusteini,
hendur mínar harðar í greipum.

Einginn maður verði mèr svo sterkur, megn eða reiður, að mèr megi skaða gjöra eða mein.

# 6. FLOKKUR.

## VIÐBURÐASÖGUR.

Að einu leyti mega allar sögur heita viðburðasögur, því allar segja þær frá því, sem sagt er að við hafi borið. Í þreingri merkíngu verða þær sögur að hafa rètt til að heita viðburðasögur, sem nánar koma við það, sem í raun rèttri hefir viðborið, og þar sem alt tillit til yfirnáttúrlegra krapta eða anda annaðhvort hverfur með öllu, eða þá að mestu leyti. Það er einginn hægðarleikur, þegar á alt er litið, að aðgreina nákvæmlega þær sögur, sem heyra undir þenna flokk frá öðrum sagnategundum, eða frá sönnum sögum í orðsins eiginlegu merkíngu; en einkum verður þetta torvelt, að því er snertir íslenzkar þjóðsögur. Hin eldri sagnarit eru upphaflega tekin að miklu leyti eptir munnmælasögnum, og þetta veldur því, að þó efni þeirra sè í öllum aðalatriðunum áreiðanlegt, hefir það þó mjög munnmælalegan blæ á sèr í allri frásögn smáatvikanna. Það getur opt hitzt svo á, að frá þeim atvikum sè sagt, og það í sönnum sögum um menn, er einginn efi er á að hafi verið til, sem alls ekki má taka trúanleg, og aptur á hinn bóginn er það efa undirorpið, hvort ætla megi á það, að sá eða sá, sem nefndur er hafi verið uppi á þeim tíma, sem til er tekinn. Að þessu leyti er það sèr í lagi örðugt að ákveða, hvað sè sögulegur og áreiðanlegur sannleiki yfir höfuð að tala, og einmitt þessvegna er ekki ávalt auðið, að aðgreina hinar sönnu sagnir í þeirri merkíngu, sem nú var getið frá hinum ósönnu. Íslendíngar hafa alment og iðulega alt til þessa haft um hönd fornsögur sínar, til þess að geta að minnsta kosti komizt að því, sem snertir hvers eins eigin hèrað. Efni fornsaganna verður því smátt og smátt aptur að munnmælum, og álit einstakra manna, sem hafa orð á sèr fyrir þekkíng sína á fornfræðum, þýðíng þeirra á einstöku stöðum, skoðun þeirra á örnefnum, sem nefnd eru í sögunum, getur einmitt orðið föst við heilt hèrað gegnum margar kynkvíslir. Af þessu er það opt og tíðum mjög torvelt að ákveða með vissu, hvað munnmæli sèu í raun rèttri, og hvað sè orðið að munnmælum, vegna þess að menn hafi lesið það eða þýtt úr fornsögum.

Nokkrar sagnir heyra undir kirkjusöguna; annar kaflinn snertir meir eða minna veraldlega viðburði á söguöldinni, sem byrjar, þegar Norðmenn fundu fyrst landið, á seinni hluta níundu aldar, og nær til enda 13. aldar eða byrjunar 14. aldar. Hinn þriðji greinin hlýðir uppá seinni tímana, eða segir frá þeim viðburðum, sem ekki verður með vissu ákveðið,

hverjum tíma hlýða. Þetta síðara verður optast ofan á, þar sem viðburðirnir, sem sögurnar fara af, eru efnislitlir, en loða þó í minninu af sèrstökum kríngumstæðum. Og vegna þessa verða þessar seinni alda sögur varla öðru vísi flokkaðar, en eptir atriðum þeim, sem sögurnar sjálfar skýra frá.

## 1. GREIN.

### KIRKJUSÖGUR.

Kirkjurnar eru góðar frásagnar, eins og við er að búast. Það er hvorttveggja, að Íslendíngar hafa laungum þókt kirkjurækir og trúrækir, og það ekki einúngis mennskir menn, heldur einnig bæði álfarnir, eins og víða er á vikið að framan, og eins jafnvel dvergarnir, sem þegar skal sýnt; enda hafa Íslendíngar látið það ásannast með ýmsu móti, að þeir hafa virt kirkjur sínar, bæði með áheitum, og öðru; því þegar menn voru í einhverjum vanda staddir eða nauðum, hètu menn tíðum á kirkjur. Þetta var einkum siður á fyrri öldum, þegar menn voru annaðhvort í lífsháska, eða í einhverjum þeim kröggum, sem þeir treystust ekki til að komast úr af eigin ramleik, og var það þá æfinlega segin saga, að þegar menn höfðu fest heitið, þá feingu menn bót á böli sínu. Þetta var að vísu á fyrri öldum helzt, og á þenna hátt er sagt, að ekki allfáar kirkna-eignir sèu undir komnar; en þó er þessi siður ekki enn alveg lagður fyrir óðal, því árin 1856—60 hafa Strandarkirkju í Selvogi gefið 117 rdl., enda hefir sú kirkja verið talin einhver hin feingsælasta með slíkt fè bæði að fornu og nýu, og þókt góð til áheita.[1]

**Reyðarártindur.** (Eptir sögusögn Lónverja 1847. M. Gr.) Reyðarártindur heitir fjallstindur einn hár í Austurlóni í Skaptafellssýslu. Einu sinni gekk maður nokkur upp á tind þenna og fann þar rauðan trèbút, sem hafði legið þar síðan Nóaflóð. Hann tók flís af trènu. Gjörði þá á hann veður hvast og ílt, svo hann efaðist um, að hann mundi komast heim aptur. Þá hèt hann á Stafafellskirkju, að gefa henni trèflísina, ef hann kæmist heim. Gekk honum vel úr því. En trèflísin er enn í kirkjuhurðinni á Stafafelli í Lóni.

**Hagabræður og bóndadóttir frá Túngu.** (Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns og sögnum vestra.) Staðarkirkja á Ölduhrygg á margar jarðir og ítök, þó ekki sèu mèr kunnar sagnir um það, hvernig slíkt hefir lagzt undir þá kirkju fremur en aðrar. Eitt af ítökum þessum er varphólmi einn í Hagavatni, sem svo er nefnt, nálægt jörðinni Haga. Sú er saga

1. Sjá kvæði um Selvogskirkju eptir Sèra Jón Vestmann.

til þess, að Staðarkirkja eignaðist hólmann, að í Haga bjuggu einu sinni bræður tveir, og segja sumir, að þeir hafi hlaðið hólmann í vatninu, þó aðrir segi, að hann sè tilbúinn af náttúrunni. Af því varp var snemma gott í hólma þessum, vildu þeir bræður búa til annan hólmann til, og fluttu því einn vetur grjót mikið til þess út á vatnið, meðan ís lá á því. En um vorið, þegar ísinn leysti og grjótið sökk, sáu þeir, að meira grjót vantaði, til að fullgera hólmann. Fóru þeir þá enn til og fluttu grjót út þángað á skipi, en týndust báðir í vatninu og fundust ekki. Hèt svo móðir þeirra á Staðarkirkju að gefa henni varphólmann, ef synir hennar fyndust. Litlu síðar rak þá upp báða við túnið í Haga, og þannig eignaðist kirkjan varphólmann í Hagavatni.

Ein af Staðarkirkjujörðum heitir Túnga, og komst hún á þann hátt, sem hèr segir, undir kirkjuna. Einu sinni var ríkur bóndi eða prestur á Stað. Hann lèt slátra feitum uxa fyrir jólin og sjóða hann upp úr skinni. Ríkur bóndi og velmetinn var þá í Túngu; hann átti dóttur eina. Hún gekk heim að Stað, þegar búið var að sjóða uxann, stal bríngukollinum, og bar á burt með sèr. Hún var elt og náð skamt frá Stað. En til þess að þessi blettur yrði ekki á ættinni, vann faðir hennar það til að gefa kirkjunni á Stað jörðina Túngu.

**Dvergasteinn.** (Eptir frásögn kandid. Eiríks Magnússonar.) Prestsetrið á Seyðisfirði var í fyrndinni vestan eða sunnanfjarðar; en ekki greinir frá því, hvað það hafi þá heitið. Í grend við það var stór steinn, og trúðu menn því fult og fast, að í honum byggju dvergar, og því var hann kallaður Dvergasteinn. Þegar framliðu tímar, þókti staðurinn og kirkjan óhaganlega sett þeim megin fjarðarins, og var því hvorttveggja flutt þángað sem þau eru nú, hinu megin við fjörðinn. Steinninn stóri varð eptir, eins og nærri má geta. En þegar kirkjusmíðinni var lokið að mestu, varð mönnum starsýnt á að sjá hús koma siglandi handan yfir fjörðinn, og stefna beint þángað, sem kirkjan stóð. Heldur það á fram, uns það kennir grunns, og nemur þá staðar í fjörunni. Urðu menn þess þá vísari, að Dvergasteinn var þar kominn með íbúum sínum, dvergunum. Kunnu þeir ekki við sig, eptir að kirkjan var flutt, og drógu sig því á eptir henni. En til ævarandi minníngar um guðrækni dverganna var prestsetrið kallað Dvergasteinn.

**Klukknahelgi.** En menn hafa ekki einúngis haft miklar mætur á kirkjunum sjálfum í heild sinni, heldur og á ýmsum hlutum, sem í kirkjum eru hafðir, en þó einkum á klukkum, því þær hafa bæði þókt eitthvert valdasta verkfærið til að fæla burtu tröll og drauga, og verja menn fyrir áleitni þeirra, sem áður eru talin nóg dæmi til, og einnig hefur því verið trúað, að guð mundi láta klukkur hríngja á efsta degi, til að kalla hina framliðnu til dómsins, og fæla með þeim djöflana niður í helvíti. Til þess lítur þessi staka:

„Fagur er saungur í himnahöll
þar heilagir einglar sýngja;
skjálfa mun þá veröldin öll,
þá dóm klukkurnar hríngja.“ [1]

Um klukkur eru mèr kunnar þessar sögur.

**Klukkusandur.** (Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 213. bls.) Það er kunnugt af fornum sögum, að maður sá, sem Örlygur hèt Hrappsson,[2] norskur að kyni, hafði tekið við trú á Suðureyum, og fór svo út híngað kristinn. Eitt meðal annara áhalda, sem að kristni lutu, og hann flutti út með sèr, var járnklukka, og er sú sögn ein um hana, að hún hafi fallið útbyrðis, áður en þeir Örlygur urðu landfastir við Kjalarnes, en fundizt aptur í þarabrúki í Sandvík, þar sem þeir tóku land.[3] Þar heitir enn í dag Klukkusandur á Kjalarnesi, sem klukkan fannst fyrst rekin á land; þó finnst þess örnefnis ekki getið í fornsögum.

**Bamba.** Sèra Jón Steingrímsson prófastur í Skaptafellssýslu, sem var fæddur 1728, getur þess í æfisögu sinni, að móður afa-systir sín, Guðný Stefánsdóttir, sem kunni margar trölla og drauga og apturgaungu frásögur, hafi einnig sagt frá því hversu ágætar klukkna hríngíngar væru, til að fæla burtu slíkan fans. Hún hafði og sèð klukku þá, sem fannst í jörðu, fyrir framan Hof í Skagafjarðardölum, og kerald hvolft yfir. Er sagt, að þar hafi áður átt að vera klaustur, en eyzt í stóru plágunni 1404. Á klukkunni stóðu þessi orð:

„Vox mea est b a m b a,[4]
possum depellere Sathan,“

það þýðir:

„Mitt hljóð er b a m b a
burt rek eg Sathan.“

**Líkabaung.** (Eptir sögn Sigurðar málara Guðmundssonar.) Í Hólakirkju í Hjaltadal hángir enn, að sagt er, klukkan L í k a b a u n g. Um þá klukku er það sögn nyrðra, að hún hafi farið að hríngja af sjálfs dáðum, þegar lík Jóns biskups Arasonar og sona hans voru flutt norður frá Skálholti. Er sagt, að hún hafi farið að hríngja, þegar líkfylgdin kom á Vatnsskarði, þar sem fyrst sèr ofan í Skagafjörð, og hætt síðan; í annað sinn hríngdi hún,

---

1. Úr æfisögu Jóns prófasts Steingrímssonar.

2. Landn., I, 12. kap., 42—44. bls. Fms: I, 119. kap., 242—4. bls. Kjalnesíngasaga 1. og 18. kap. Flateyarbók, 1, 264. bls.

3. sjá Ln: 6. neðanmálsgrein á 44. bls. í Kh. útgáfunni 1843.

4. Finns biskups Historia eccl. Isl. I, 174. bls. hefir: b a m b a n. Þar er og getið um klukkna vígslur og helgi.

þegar líkfylgdin kom á Hríshála, þar sem fyrst sèr heim að Hólum, upp eptir endilaungum Hjaltadal, og í þriðja sinn, þegar líkin komu að túngarðinum á Hólum. Hèlt hún þá leingst á fram, þángað til líkin voru borin í kirkjuna, og það með svo miklum undrum, að hún rifnaði. Er þetta talið nokkurs konar tákn, og vottur þess, hversu illa jafnvel dauðir hlutir á Norðurlandi hafi unað aftöku Jóns biskups. Espólín getur þess ekki, (en hins getur hann) að Líkabaung hafi hríngt sèr af sjálfs dáðum, þó hann tali um hríngíngar, bæði þegar líkfylgdin fór fram hjá kirkjum í Hóla biskupsdæmi, og eins frá því fyrst sást til hennar frá Hólum, en hins getur hann, sem einskonar kraptaverks meðal annara fleiri, að Hèraðvötnin í Skagafirði hafi verið í leysíngu um það leyti, sem líkfylgdin kom að þeim; hafi hún komizt yfir þau á ísbrú einni, en þegar þeir voru komnir yfir, sem líkin fluttu, ræki af spaungina.[1]

Endrum og sinnum hefir að framan verið minnzt á einstöku biskupa bæði í Skálholti og á Hólum, en ekki á nein viðskipti þeirra, enda er svo að sjá eptir munnmælasögum, sem þau hafi verið lítil, að því einu undan teknu, að þeim hafi farið brèf á milli;[2] er það eina munnmælasagan, sem mèr er kunn, um viðskipti biskupanna, sem hèr kemur.

**Takmörk biskupsdæmanna á Íslandi.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 213—214. bls. eptir R. M. Olsen á þíngeyrum.) Um það eru sannar sögur, að fyrst var hèr á landi eitt biskupsdæmi, og ekkert ákveðið, hvar biskupsstóllinn skyldi vera, en skömmu síðar varð Skálholt biskupssetur; hinn biskupsstóllinn, sem var á Hólum, var ekki stofnaður fyrr en 1106 fyrir bænastað Norðlendínga, með því þeim þókti örðugt, að ná til biskups yfir svo lánga leið suður á Skálholt. En munnmælin hafa notað sèr það, að annað biskupsdæmið náði yfir þrjá fjórðúnga landsins, en hitt ekki nema yfir einn, til að búa til úr þessum ójöfnuði eptirfylgjandi sögu. Biskuparnir í Skálholti og á Hólum gátu ekki orðið allskostar á eitt sáttir um takmörkin á biskupsdæmum sínum, en settu þó Biskupsvörðu, sem er milli þíngeyarsýslu og Norðurmúlasýslu fyrir takmark á þá hliðina, að norðan og austan leingst, og komu sèr svo saman um, að þeir skyldu ríða þaðan báðir, Hólabiskup fyrir norðan land, en Skálholtsbiskup fyrir sunnan, hrínginn í kríng, og þar sem þeir mættust, skyldi takmarkið vera á hina hliðina milli biskupsdæmanna. Eptir það reið Skálholtsbiskup dag og nótt, sem mest hann mátti, og hestarnir gátu farið, og kom loksins dauðmóður (lafmóður) þángað sem mótin eru. En aptur er það frá Hólabiskupi að segja, að hann fór hægt yfir landið og tók ekki væst upp á sig, enda var hann álúraður og sællegur, þegar hann mætti embættis-

1. Árb. IV, 77—78. bls.
2. sjá seinna í Útilegumannasögum.

bróður sínum. Þeir hittust við suðurendann á Hrútafirði, og því hafa takmörk biskupsdæmanna verið haldin eptir þeim firði miðjum jafnan síðan. Þess ber að geta, að frá því landið var frjálst, hafa takmörk Norðlendínga og Vestfirðíngafjórðúngs, og alt eins biskupsdæmanna, geingið eptir endilaungum Hrútafirði.

Um klaustrin, sem voru hèr á landi fyrir siðaskiptin, hafa haldizt við nokkrar sagnir fram á þenna dag; en flestar eru þær mjög ósögulegar, og loða mestmegnis við örnefni, sem kend hafa verið við múnkana eða nunnurnar (systurnar). Sumar þessar sögur benda og á ólifnað, sem annaðhvort hefir í raun rèttri viðgeingizt í klaustrunum, eða ímyndunin hefir smíðað, að ætti sèr þar stað, og til þess að slíkar sögur kæmu því betur við, bregður þeirri skoðun fyrir í sumum sögnum, að sama klaustrið hafi bæði verið múnkaklaustur og nunnuklaustur.

**Flateyarklaustur.** (Eptir sögn Flateyínga og Dr. Maurers Isl. Volkss. 214. bls.) Klaustur þetta var stofnað 1172, en flutt þaðan 12 árum síðar og að Helgafelli fyrir sunnan Breiðafjörð.[1] Af þessu klaustri eru nálega þær einar menjar eptir á Flatey, að þar eru kallaðir Klausturhólar, skamt fyrir utan Innstabæ á eynni, þar sem klaustrið stóð. Skamt frá hólum þessum er stór steinn, og dæld ofan í dálítil; úr þessari dæld er sagt, að múnkarnir[2] úr klaustrinu hafi þvegið sèr; en lítil líkindi eru til þess, því dældin er svo lítil og ómerkileg.

**Helgafellsklaustur.** (Eptir sögnum að vestan og Dr. Maurers Isl. Volkss. 214. bls.) Klaustrið var flutt frá Flatey og að Helgafelli, eins og fyrr var sagt 1184, og var múnkaklaustur. Klaustrið og bærinn dregur nafn af fellinu, sem þar er hjá, og sem landnámsmaðurinn Þórólfur mostrarskegg kallaði Helgafell.[3] Bærinn stendur sunnan í fellinu, og nær túnið ofan að vatni einu, sem kallað er Helgafellsvatn. Suður frá bænum á Helgafelli er skarð nokkurt í háls einn, sem Múnkaskarð heitir. Þaðan sèr seinast Helgafell, þegar frá bænum er riðið í þá áttina. En sú saga er til þess, að einu sinni hafi gripdeildarfullir fjandmenn ráðizt á klaustrið, og hafi þá múnkur einn, sem flúði undan þeim, en gat ekki komizt leingra sökum istru og offitu, en í þetta skarð, orðið þar til. En önnur sögn er það, að þegar klaustrið var lagt niður á Helgafelli um siðaskiptin, hafi múnkarnir, sem reknir voru úr klaustrinu, farið þessa leið burtu, en litið aptur úr

1. Finns Hist. eccl. Isl. IV, 65. bls.
2. Í þjóðsögum Dr. Maurers 214. bls. segir, að nunnurnar úr klaustrinu hafi átt að þvo sèr þar, og sýnir það, að sagnirnar blanda saman múnkaklaustri og nunnuklaustri, því að í Flatey var múnkaklaustur, eins og seinna á Helgafelli, en ekki nunnuklaustur.
3. Landn: 2, 12. kap. 97. bls.

skarði þessu heim til staðarins og klaustursins, og bannfært hvorttveggja með súngnum sálmum, og því heiti skarðið Múnkaskarð. Um Helgafellsvatn er það sögn, að úngbarnabein hafi stundum rekið upp úr því. Sagt er, að þau bein sèu svo undir komin, að múnkarnir í klaustrinu hafi átt börn við nunnunum,[1] og borið þau út í vatnið, til þess að ekki bæri á barneignum þeirra. Sæmundur Hólm, sem var prestur að Helgafelli frá 1789—1819 († 5. Apríl. 1821), synti einu sinni í vatninu, og sagði, að þar væri alt krökt af úngbarnabeinum.

**Kirkjubæarklaustur.** (Eptir sögn Jóns alþíngismanns Guðmundssonar, húsfrú Hólmfríðar Þorvaldsdóttur og neðannefndum bókum.) Klaustur þetta er austur á Síðu í Skaptafellssýslu. Landnáma getur þess, að þar hafi búið papar, þ. e. kristnir menn, áður en Ísland bygðist af Norðmönnum. Svo mikil helgi var þegar í landnámstíð á þessum stað, að því var trúað, að þar mættu ekki heiðnir menn búa. Enda vildi svo vel til, að Ketill fíflski, sem nam þar land og tók sèr bólfestu í Kirkjubæ, var maður kristinn. En eptir Ketil andaðan vildi heiðinn maður, sem Hildir hèt, færa þángað bygð sína, og trúði því ekki, að þar mætti ekki heiðinn maður búa. Þegar hann var kominn að túngarðinum, varð hann bráðkvaddur og liggur í Hildishaugi;[2] hann er austur frá Kirkjubæ og nú mjög blásinn, og hefir hann sèzt frá klaustrinu, þaðan sem það var áður; þar heita nú „fornu garðar." Í Kirkjubæ var sett nunnuklaustur 1186.[3] Þaðan eru þessar sagnir um:

**Systurnar á Kirkjubæ.** (Sama heimild.) Fyrir ofan Kirkjubæ er fjallshlíð fögur og grasi vaxin upp undir eggjar, og eggjarnar víða manngeingar, þó bratt sè. Uppi á fjalli þessu er graslendi mikið og fagurt umhverfis stöðuvatn eitt, sem kallað er „Systravatn," af því nunnur 2 frá klaustrinu áttu að hafa lagt þángað leiðir sínar, annaðhvort báðar saman eða sín í hvoru lagi. Það er sagt, að gullkambur óvenju-fallegur var rèttur upp úr vatninu, og fór önnur fyrst að reyna að vaða eptir honum; en vatnið varð henni of djúpt og fórst hún í því. Hina er sagt að einnig

---

1. Hèr er enn ruglað saman múnkaklaustri og nunnuklaustri, og hvorttveggja látið vera á sama stað.

2. Grafið hefir verið í haug þenna á þessari öld, og fundizt bæði járn nokkurt, er menn ætla að hafi verið spjótblað, og þar með sást móta fyrir járnvafníngi, sem fèll í sundur af ryði, þegar við það var komið, og gizka menn á, að spjótskaptið hafi verið járnvafið; enn fannst þar bæði flatt járn, nokkuð bjúgt í lögun, líkast hjálmbarði, og leirbrot nokkur, og þykir það benda til þess, að krukkur hafi verið í haugnum. Þeir sem grófu í hauginn, skiptu spjótblaðinu sundur á milli sín, og höfðu sitt brotið hvor í hnífgrèlu.

3. Finns biskups Jónssonar Hist. eccles. Isl. IV, 78 bls.

hafi lángað til að eignast kambinn, en ekki sèð nein ráð til þess. Loksins kom hún auga á steingráan hest hjá vatninu, og ræður það af að taka hann og ríða honum; en hann var svo stórvaxinn, að hún komst ekki á bak honum, fyrr en hann lækkaði sig allan að framan, eða lagði sig á knèn. Reið hún honum svo út í vatnið, og hefir ekkert af þessu sèzt síðan, nunnan, hesturinn, nè kamburinn. Af þessu er vatnið kallað „Systravatn." — Meðan Agatha Helgadóttir var abbadís á Kirkjubæarklaustri, urðu þar ýmsir hlutir undarlegir. 1336 heyrðust lángan tíma sumarsins stunur miklar í svefnhússgólfi og borðstofugólfi á Kirkjubæ; en ekki fannst, þó að væri leitað. Árið sama og Agatha dó 1343, kom út Jón Sigurðsson austur í Reyðarfirði með biskupsvígslu, og byrjaði þaðan vísitazíu sína vestur um land sunnan megin, og kom í þeirri ferð sinni að Kirkjubæ.[1] Var þar þá brend systir ein, sem Katrín hèt, fyrir guðleysi og fleiri þúngar sakir, sem á hana voru bornar og sannaðar; fyrst sú, að hún hefði brèflega veðdregið sig djöflinum, annað það, að hún hefði misfarið með Krists líkama (vígt brauð), og snarað aptur um náðhússdyr, það hið þriðja, að hún hefði lagzt með mörgum leikmanni, og var það því dæmt, að hana skyldi brenna kvika. Sumir segja, að það hafi verið 2 systur, sem þá hafi verið brendar, hin fyrir það, að hún hafi hallmælt páfanum, eða ekki þókt tala nógu virðulega um hann, og því hafi hún verið brend með Katrínu. Skaptá rennur rètt hjá Kirkjubæ, og stendur einstakur steindrángur þvernyptur upp fyrir vestan hana,[2] og er að eins einstígi upp á hann einu megin. Efst á honum er slètt flöt lítil, og tvær þúfur á flotinni, og segja menn, að þær þúfur sèu leiði þeirra systra, og þar hafi þær brendar verið, og sè önnur þúfan sígræn, en hin grænki aldrei, en á henni vex þyrnir. Af þessu er dránguriun kallaður „Systrastapi." — Meðan nunnuklaustrið var í Kirkjubæ, var því samtíða múnkaklaustur á Þykkvabæ í Álptaveri, og er ekki leingra á milli en $1\frac{1}{4}$ mílu vegar, þegar beint er farið; en á milli Síðunnar og Álptaversins rennur Skaptá, sem kunnugt er. Á ánni var brú í fornöld, og lá sú kvöð á Kirkjubæarklaustri að viðhalda henni, og því var rekafjara lögð til klaustursins, sem enn heitir Brúarfjara. Seinna á öldum braut brúna af; en þar sem hún hafði verið á ánni heitir enn Brúarhlað, og er þar nú almenníngsvað á Skaptá. Það er sagt, að opt hafi ábótinn og múnkarnir úr Þykkvabæ farið í Kirkjubæ að hitta abbadísina og systurnar, og var

---

1. Espólín segir, að þegar Jón biskup hafi komið í Kirkjubæ, hafi Agatha andazt. Isl. Árb. I, 77. bls.

2. Jón prófastur fróði Haldórsson (í „Skrifi um ábóta, príóra, og abbadísir á Islandi"). Finnur biskup (í Hist. eccl. Isl. IV, 78—79. bls.) og Jón Espólín (í Isl. Árb.), sem þessi frásögn er mestmegnis tekin eptir, segja, að stapinn standi upp úr Skaptá, og má vera að svo hafi verið til forna; því bæði minkaði áin og breytti farveg sínum eptir eldgánginn í Skaptárjökli 1783, og fellur nú öll fyrir austan hann.

það hægt í högum, meðan brúin var á Skaptá. En á þeirri leið fyrir sunnan eða vestan ána, heitir Saunghóll; þaðan sèr fyrst heim að Kirkjubæ, þegar sú leið er farin. þegar múnkarnir komu á þenna hól, hófu þeir allajafna upp saung svo mikinn, að heyrðist heim að klaustrinu, og af því dregur hóllinn nafn enn í dag. þegar saungurinn heyrðist heim að Kirkjubæ, lèt abbadísin hríngja klukkum, en gekk sjálf með öllum systrunum í móti ábótanum og múnkunum niður að Skaptá; það eru nú sandgígar eintómir, og heitir það svæði „Glennarar.“ [1] Mikið var jafnan um dýrðir í Kirkjubæ, þegar þykkbæíngar voru þar komnir, og aldrei þókti systrunum jafngóð æfi sín, sem þá. En snemma lagðist sá orðrómur á, að múnkarnir vendu þángað komur sínar, meir en góðu hófi gegndi, til að fífla systurnar. þessi lifnaður keyrði svo úr hófi, að abbadísin og systurnar vissu þetta nálega hver með annari, og eru enn um það nokkrar sagnir. Einu sinni er sagt, að ábótinn frá þykkvabæ hafi verið nótt í Kirkjubæ, sem optar. Morguninn eptir komu systurnar inn í kompu abbadísarinnar, og ætluðu að fara að klæða hana. Leituðu þær þá að nærklæðum hennar undir höfðalaginu, og fundu þar brókina ábótans, en hvergi niðurhlut abbadísarinnar. þær þektu brókina, og spurðu, hvernig á þessu stæði, en þá er haft eptir abbadísinni, að hún hafi átt að segja: „Allar erum vèr brótlegar,“ og svo er bætt við: „kvað abbadís; hafði brók ábota undir höfðinu.“ Öðru sinni var bæði ábótinn og múnkur einn eða fleiri með honum nætur sakir í Kirkjubæ. það greinir nú ekki frá því fyrst um sinn, hvar ábótinn svaf um nóttina; en þess er getið, að abbadísin fór á hnotskóg með ljós um miðja nótt, til að líta eptir lifnaði systranna. Kom hún þá í kompu einni að múnki og nunnu, sem sænguðu saman. Abbadísin ætlaði að fara að ávíta nunnuna; en nunnunni varð litið á höfuðbúníng abbadísar, og segir: „Hvað hafið þèr á höfðinu móðir góð?“ Varð þá abbadísin þess vör, að hún hafði tekið brókina ábótans í misgripum, og skautað sèr með henni í staðinn fyrir skuplu, svo hún mýkti málin, og sagði, um leið og hún gekk burtu: „Allar erum vèr syndugar, systur.“

**Sesseljuvarða.** (Eptir sögn þorsteins bónda Jakobssonar á Húsafelli.) Skamt fyrir utan Húsafell, út með hlíðinni, er varða ein, og er hún þó nú líkari dys en vörðu. Hún heitir Sesseljuvarða af því, að abbadís eða nunna frá Skálholti, sem Sesselja hèt, lèt hlaða hana. Svo bar til, að hún fór þar vestur og upp í Borgarfjörð, að líta eptir kirkjum og öðru fleiru. En þegar hún kom þar að, sem varða þessi er nú, sá hún fyrst kirkjuna á Húsafelli, og bauð að hlaða þar vörðuna; enda stendur það heima, að

1. Menn ætla, að nafnið sè dregið af því, að þær systur hafi orðið stórstígar (glent sig), þegar þær gerðu slíkar processíur í móti múnkunum; annars hefir þar verið fagurt skemtigaungusvið frá klaustrinu niður að ánni, meðan þar var óblásin jörð.

maður sèr þaðan fyrst kirkjugarðinn á Húsafelli. Reið Sesselja síðan heim, og gaf Húsafellskirkju vík eina við Arnarvatn hið mikla norður á heiðum, og fylgir sú vík jörðinni Húsafelli enn í dag.

**Marteinslaugar.** (Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 215. bls.) Fáein atvik eru það enn, sem hafa borið við um það leyti, sem siðabótin var að komast á hèr í landi, og einstöku örnefni draga þar af nafn. Svo eru til dæmis Marteinslaugar hjá Haukadal í Biskupstúngum, sem eiga að vera einkar heilnæmar, ef maður baðar sig í þeim. Sagt er, að Marteinn biskup Einarsson hafi baðað sig þar fyrstur manna veturinn, sem hann sat í Haukadal 1556—57 næstan eptir, að hann hafði lagt niður biskupsstörfin.[1] Þó segja aðrir, að laugar þessar dragi nafn af því, að þær væri í pápisku helgaðar Marteini frá Tours, sem var kallaður helgur maður, og var mjög dýrkaður eins hèr á landi og annarstaðar.[2]

**Kapelluhraun.** (Eptir sögnum í Gullbríngusýslu.) Í Gullbríngusýslu er hraun eitt mikið, milli Hafnarfjarðar, og Vatnsleysustrandar, og heitir nokkur hluti þess Kapelluhraun, og dregur nafn af Kapellu, sem í því stendur. Hún er að norðan verðu við veginn, hlaðin upp af hellugrjóti í lögun eins og borg. Dyrnar hafa snúið móti suðri, en nú eru þær fullar af mold og mosa. Kapellan er og hærri að norðan, en sunnan. Sagt er, að í kapellunni sè grafinn einn af umboðsmönnum þeim, sem áður voru á Bessastöðum. Var honum gert umsátur þarna í hrauninu, drepinn þar og grafinn.

---

## 2. GREIN.

### FRÁ FORNMÖNNUM.

Hèr þykir eiga bezt við, að geta menja þeirra, sem enn eru til í munnmælum frá hinni fornu söguöld, og sem að einu leyti loða við einstöku menn, sem eru meir eða minna kunnugir úr fornum sögum, en að hinu leytinu annaðhvort skýra frá öðru, eða segja öðruvisi frá því, sem áður er í sögur fært. Allmargar slíkar sögur mættu og kalla örnefnasögur, því þær skýra frá því, hvernig ýms örnefni eru uppkomin, sem menn ætla að sèu frá landnámstímum, eða þá að minnsta kosti mjög snemma uppkomin, þó ekki fari bóksögur af.

---

1. Finns biskups Hist. eccl. Isl. III, 295—297.
2. Sjá ferðabók Eggerts. 889. bls.

**Hrafna-Flóki.** Það er sagt um Flóka Vilgerðarson í Landnámu, hinn 3. af Norðmönnum, er fyrstur fann Ísland (hèr um bil 865), að því sem menn hafa nú sögur af, að hann hafi haft með sèr hrafna 3, til að vísa sèr leið út híngað, sem hann hafði blótað til þess í Noregi.[1] Af þessu var hann kallaður Hrafna-Flóki. Um hann er sú sögn enn, að hann hafi verið svo mikill vexti, að hann hafi stigið í einu spori yfir Þorskafjörð þveran; heita þar Flókavellir, er hann stökk af, en Flókavallagnýpa, er hann steig á hinu megin fjarðarins.[2]

**Íngólfur Arnarson.** Hann reisti fyrstur manna bygð hèr á landi að staðaldri; sagt er, að Íngólfsfjall í Ölfusi dragi nafn af honum. Á því fjalli er sagt að hann sè heygður; eru þar til að sjá af öðrum fjöllum hólar tveir, og heitir annar Íngólfshaugur, en í hinum er sagt að hundur hans liggi; sá hóllinn er allur lægri og minni fyrirferðar. Þenna legstað er sagt að Íngólfur hafi kosið sèr, svo að hann gæti því betur sèð þaðan yfir hið fyrsta landnám sitt.[3] — Einu sinni er sagt að Ölfusmenn og Grafníngsmenn hafi tekið sig saman um að grafa í Íngólfshaug; komu þeir þá ofan á kistu eina mikla; þeir grófu niður með henni á alla vegu, og komu böndum undir hana. Síðan hófu þeir hana á lopt, og þegar hún var komin á hálfa leið, sagði einn þeirra: „Nú tekst, ef guð vill." Eptir það hófu þeir kistuna enn hærra upp, þángað til hún var komin hálf upp á grafarbakkann, og þeir voru farnir að hafa hendur á henni, þá sagði annar: „Nú tekst, hvort guð vill, eða ekki." En í því hann slepti orðinn, slapp kistan úr höndum þeim niður í hauginn og þyrlaðist alt það, sem þeir höfðu mokað upp úr gryfjunni, ofan í hana aptur á augnabragði. Við það hættu þeir að grafa í Íngólfshaug; ekki hafa heldur verið gjörðar fleiri tilraunir til þess síðan. Önnur sögn er það, sem og geingur í Árnessýslu, að konu eina þúngaða í Ölfusi dreymdi eina nótt, að maður kæmi til hennar í svefni og biðja hana að lofa sèr að vera. Hún spurði hann að nafni; hann sagðist heita Íngólfur og vera fyrsti landnámsmaður á Íslandi. Ekki er þess getið, að þeim færi fleira á milli í það sinn. Eptir þetta kom sami maður opt til konunnar, meðan hún gekk með þúnga sinn, og beiddi hana að lofa sèr að vera og þess með, að hún skyldi láta heita eptir sèr son þann, sem hún geingi með. „Skaltu," segir hann, „ala hann, þángað til hann er 12 vetra, á sauðaketi einu og nýmjólk, bæði kinda, kúa og einkum kapla; ef þú bregður ekki út af þessu, mun eg gefa syni þínum með nafni fè það alt, sem er í kistu

---

1. Ln. (Kh. 1843.) I, 2. kap., 28.—29. bls.
2. Dr. Maurers Isl. Volkss. 216. bls. eptir sèra Ólafi Johnsen.
3. Almenn sögn í Árnessýslu, sbr. Islendínga sögur I. bindi. Kh. 1843, Islendíngabók 1. kap., 4. bls. og Ln. I, 7. kap., 36.—37. bls. Ferðabók Eggerts og Bjarna, 859. bls.

minni. Skal hann leita hennar uppi hjá haug mínum, þegar hann er 12 vetra, og mun hann geta lokið henni upp, ef ekki er brugðið út af í neinu með uppeldi hans þángað til.“ Konan hèt þessu, og kom þá Íngólfur ekki til hennar framar. Eptir það ól hún sveinbarn, og lèt kalla Íngólf eptir landnámsmanninum, sem vitjað hafði nafns til hennar. Ól hún svo upp svein þenna, sem næst hún gat komizt fyrirsögn draummannsins, þángað til hann var 12 vetra; var hann þá bæði mikill og efnilegur eptir aldri. Hann gekk síðan upp á Íngólfsfjall að leita fjárins. Þegar hann kom að Íngólfshaugi, sá hann stóra kistu standa þar, og lykil í skránni. Hann fór til og ætlaði að ljúka henni upp, en gat ekki snúið lyklinum nema til hálfs; sneri hann þá heim aptur í það sinn. Þegar hann hafði náð meiri þroska, fór hann aptur upp á Íngólfsfjall og að hauginum. En þá var kistan horfin, og hefir aldrei orðið vart við hana síðan. En þótt Íngólfur ýngri bæri ekki gæfu til að fá fèð með nafni, er sagt, að hann hafi verið í mörgu lánsmaður.[1]

**Sviði og Vífill.** Eitt með dýpstu fiskimiðum á Faxaflóa er nefnt Svið. Er þángað sóktur sjór af öllum Innesjum, sem að flóanum liggja, Akranesi, Seltjarnarnesi, Álptanesi, Hafnarfirði, Hraunum og jafnvel af Vatnsleysuströnd. Sviðið hefir jafnan verið eitthvert fiskisælasta djúpmið á flóa þessum, og er til þess saga sú, sem nú skal greina.

Sviðholt er bær nefndur; hann stendur hèr um bil á miðju Álptanesi. Það er talin landnámsjörð, þó hennar sè ekki getið í Landnámu. Þar bygði sá maður fyrst, er Sviði hèt, og kallaði bæinn eptir sèr Sviðholt. Bær heitir Vífilstaðir og er landnámsjörð; þar gaf Íngólfur Arnarson í Reykjavík Vífil húskarli sínum bústað;[2] en Vífill gaf bænum aptur nafn af sèr, og bjó þar síðan. Vífilstaðir er efstur bær og austastur upp með Garðahrauni að norðan, og leingst frá sjó af öllum bæum í Garðasókn á Álptanesi, og hèr um bil hálfa aðra mílu frá Sviðholti. Það er mælt, að þeir Vífill og Sviði hafi róið saman tveir einir á áttæríngi, og hafi Vífill, þó hann ætti margfalt leingri skipgötu, en Sviði, sem bjó á sjávarbakkanum að kalla, ávalt farið heim og heiman í hvert sinn, sem þeir rèru. Sumir segja, að Sviði hafi verið formaðurinn, en aðrir að Vífill hafi verið það, og þykir mega marka það af því, sem nú skal greina, að Vífill hafi verið formaður. Lángt fyrir ofan Vífilstaði er fell eitt, sem Vífilfell heitir, og liggur þjóðvegur ofan fyrir norðan það, þegar farið er Hellisskarð að austan eða Lágaskarð; en rètt vestan undir fellinu liggur Ólafsskarðsvegurinn á þjóðveginn. Vífilfell er hæst af fjöllum þeim, sem verða á

1. Svo sagði mèr Jónas verzlunarfulltrúi Jonassen í Reykjavík eptir sögusögn í Árnessýslu.

2. Ln. I, 8. kap., 37.—38. bls.

vinstri hönd, þegar riðið er yfir Hellisheiði suður í Reykjavík, og dregst það mjög að sèr ofan. Þó það sè snögt um leingri vegur upp að felli þessu frá Vífilstöðum, en til sjávar, gekk Vífill alt um það á hverjum morgni upp á fellið, til að gá til veðurs, áður en hann fór að róa, og rèri ekki, ef hann sá nokkra skýská á lopti af fellinu, og tók því fellið nafn af honum. En ef honum leizt róðrarlega á loptslag, gekk hann til skips og rèri með Sviða, og þykir þetta benda til þess, að Vífill hafi álitið það skyldu sína, sem formaður, að gá að útliti lopts, áður en róið væri.

Einhverju sinni kom þeim lagsmönnum, Vífil og Sviða, ásamt um, að þeir skyldu búa til mið, þar sem þeir yrðu bezt fiskvarir. Er þá sagt, að Sviði hafi kastað heiman að frá sèr lánglegg einum, og kom hann niður fjórar vikur sjávar frá landi, og heitir þar nú Sviðsbrúnin vestri. Vífill kastaði og öðrum lánglegg heiman að frá sèr, og kom hann niður viku sjávar grynnra, eða nær landi; dró hann af því ekki eins lángt út, og Sviði, að vegamunur er svo mikill milli Sviðholts og Vífilstaða á landi. Þar heitir nú Sviðsbrún (hin grynnri), sem leggur Vífils kom niður. Var þannig vika sjávar milli leggjanna, eins lángt og nú er talið að Sviðið nái yfir frá austri til vesturs. Alt svæðið milli leggjanna kölluðu þeir Svið, og mæltu svo um, að þar skyldi jafnan fiskvært verða, ef ekki væri dauður sjór í Faxaflóa. Á þenna hátt mynduðust Sviðsbrúnirnar, sem nú er sagt; en áður jafndýpkaði einlægt út frá landinu, og munar það miklu, hversu grynnra er á Sviðinu öllu austur og vestur jafnt, en í Djúpinu fyrir innan Sviðið eða austan það; því þar er venjulegast 30 til 40 faðma djúp, þar sem djúpið er á Sviðinu í beinni stefnu vestur ekki meira en 20 faðma. En því er hèr um bil jafndýpi á Sviðinu miðsreitis austur og vestur, þó dýpra sè, bæði þegar dregur suður og norður eptir því, að Sviða þókti ílt að eiga við misdýpið milli Sviðsbrúnanna, og kastaði því út sjóvetlíng sínum, og fylti hann út í bitið milli brúnanna, svo allstaðar varð jafndjúpt að kalla á öllu Sviðinu. Það segja og sumir menn, að Sviði hafi átt að kasta út kefli með þeim fyrirmælum, að þar skyldi aldrei fiskilaust verða, er keflið fyndist. En keflið fannst nokkru síðar vestur á Sviði, þar sem það er grynnst, og ætla menn það hafi borið þar yfir, sem þumallinn á vetlíng Sviða var undir á mararbotni; þar heitir nú Mið á Sviðinu, og er þar að eins 15 faðma djúp, og þykja fyrirmæli Sviða hafa rætzt á því miði til þessa. Af því Sviðið ber nafn af Sviða, en ekki Vífil, halda sumir, að hann hafi verið formaðurinn.

Þeir Vífill og Sviði rèru jafnan á þetta mið, er þeim þókti sjóveður, og lágu þá úti, ef þeir feingu ekki upp á áttæríuginn með dægri, og fóru aldrei þángað fýluferð.[1]

---

1. Tekið eptir norðlenzkum manni, sem róið hafði yfir 20 vertíðir á Innesjum.

**Úlfljótur**. Hann hafði fyrst lög út híngað úr Noregi (hèr um bil 930); er hann talinn fyrsti löggjafi Íslands. Af honum er sagt að Úlfljótsvatn í Grafníngi dragi nafn, en svo heitir bæði stöðuvatn lítið og bær hjá því, skamt fyrir sunnan Þíngvallavatn, þar sem Ulfljótur hafi átt að búa á, þó Landnáma segi, að hann hafi búið alla götu austur í Lóni.[1]

**Öxará.** Það er sagt, að Öxará verði að víni eina stund á ári hverju. Svo bar við, að prestar tveir vöktu á Þíngvöllum á gamlársnótt. Annar þeirra var úngur maður, og var hann að búa til ræðu til nýársdagsins. Hinn presturinn var gamall, og sat hann hjá hinum ýngra til skemtunar honum. Um miðnættið þyrsti hinn únga prest ákaflega; hljóp hann þá með flösku út í Öxará, og tók á hana vatn úr ánni. En þegar hann kom heim, og fór að skoða vatnið, sá hann, að það var á því vínlitur. Hann saup á flöskunni, og fann, að það var allrabezta vín á henni. Drukku nú báðir prestarnir úr flöskunni, og settu hana svo í gluggann hjá sèr. Að litlum tíma liðnum taka þeir aptur flöskuna, og ætla nú að gjöra sèr gott af víndropanum, sem eptir var á henni. En þá var hreint og tært vatn á flöskunni. Þeir undruðust þetta mjög, og töluðu margt um atburð þenna. Hinn ýngri prestur hèt að reyna hvernig vatnið yrði í ánni um sama leyti næsta ár. Leið nú að næstu gamlársnótt. Voru þá prestarnir aptur báðir á fótum. Um miðnættið fer úngi presturinn, eins og fyrr, og sækir á flösku í ána. Þegar hann kom heim, sýndist honum blóðlitur á því, sem í flöskunni var. Hann sýpur á, og finnur, að nú er blóð í flöskunni. Setur hann þá flöskuna af sèr, en tekur hana bráðum aptur. Var þá vatn á flöskunni, en ekkert blóð. Þeir ræddu margt um þetta prestarnir, og þykjast nú enn síður skilja í breytíngum árinnar. En sú var trú manna, að þegar Öxará yrði að blóði, þá vissi það á blóðsúthellíngu á alþíngi. Er það og sagt, að svo fór í þetta sinn, að á næsta alþíngi varð bardagi og mannfall mikið.[2]

**Þrasaborgir**. Efst uppi á Língdalsheiði standa hólar nokkrir háir mjög og hallar heiðinni út frá þeim á alla vegu. Hólar þessir heita: Þrasaborgir, og er mælt, að þeir, sem land áttu að heiðinni, hafi barizt þar á fleti þeim, er liggur vestan undir hólunum, og Stríðsflötur heitir. Þar voru þeir bóndinn frá Efra-Apavatni, Klausturhólum, Búrfelli og Efri-Brú og unnu þeir sigur á bændunum frá Neðra-Apavatni, Björk, Neðri-Brú og Kaldárhöfða. Nú eiga hinir síðartöldu bæir ekkert land að Þrasaborgum, heldur hinir, og á það að hafa haldizt frá þeim tíma, sem þessi bardagi var.[3]

---

1. Dr. Maurers Isl. Volkss. 216. bls. eptir sèra Símoni Bech á Þíngvöllum, sbr. Islendíngabók 2. og 3. kap., 5.—6. bls. og Ln. I, 10. kap., 40 bls., IV, 7. kap., 257. bls.
2. Eptir sögn gamallar konu í Borgarfirði. M. G.
3. Eptir handriti Jóns prests Þórðarsonar á Auðkúlu.

**Api á Apavatni.** Í ofanverðri Grímsnessveit í Árnessýslu er bær sá, er heitir á Apavatni, og stendur hann hjá samnefndu vatni. Bæði vatnið og bærinn draga nafn sitt af fornmanni nokkrum, sem Api hèt. Bæirnir eru reyndar tveir, og heita Efra og Neðra-Apavatn. Norður undan Neðra-Apavatni standa hólar þrír niður við vatnið, og heitir hinn hæsti Aphóll (Apahóll). Api er heygður í hóli þessum, en skip hans er í hinum syðsta og hundur hans í hinum nyrðsta. — Þegar Api bjó á Apavatni, var galdramaður einn við Þíngvallavatn; hann seiddi allan fiskinn úr Apavatni upp í Þíngvallavatn. Þetta líkaði ekki Apa, og seiddi á móti; en silúngurinn sneri allur móti Þíngvallavatni, og rann nú á sporðinn til baka. Af þessu segja menn að allur silúngur í Apavatni komi upp á sporðinn. Þar er enn silúngsveiði.[1]

**Goðhóll.** Í túninu á Klausturhólum, prestssetri í Grímsnes-sveit í Árnessýslu, er hóll einn eigi hár, en mikill um sig. Hóll þessi heitir Goðhóll (Goðahóll), og er sagt, að í heiðni hafi þar staðið hof á hólnum. Kunnugur maður hefir sagt, að tópt hafi sèzt á hólnum, svo sem 30 fet á leingð en 10 á breidd. Nú er búið að slètta hólinn, og sèst eigi til tóptarinnar. — Vestan undir hólnum er leiði eitt; það snýr norður og suður; það er nokkuð hærra og leingra en leiði eru vanalega. Það er sagt, að það sè leiði Gríms þess, er í landnámatíð fèll undir Hallkellshólum,[2] sem nú heita Seiðishólar.

**Brytinn í Skálholti.** Olafur er maður nefndur; hann var bryti í Skálholti. Hann varð einu sinni fyrir reiði ráðskonunnar, og stefndi hún honum burt af staðnum með fjölkynngi sinni. Ólafur hljóp þá suður um heiði, og kastaði öllum lyklum staðarins í fell það, er síðan er kallað Lyklafell, og stendur á takmörkum Árness- og Gullbríngu-sýslu. — Ólafur sneri þá aptur, er hann var laus orðinn við lyklana, og fór um skarð það, sem við hann er kent, og Ólafsskarð heitir. Hèlt hann ferðinni austur í Skaptafells-sýslu, og fannst dauður hjá Brytalækjum, en þeir renna í Hálsá, sem fellur vestanvert við Skaptártúngur, og út í Kúðafljót.[3]

**Þrasi Þórólfsson og Loðmundur.** Þrasi bjó í Eystri-Skógum, sumir segja á Þrasastöðum, skamt austur frá Skógafossi;[4] Skógar eru nú austastur bær í Rángárvallasýslu. Þá bjó Loðmundur í Sólheimum, næsta bæ fyrir austan Sólheimasand, og voru þeir því nágrannar. Þeir Þrasi

1. Eptir sama.
2. Ln. Kh. 1843, 315. bls. Sagan er tekin eptir handriti sèra Jóns Þórðarsonar.
3. Eptir sama handriti.
4. Dr. Maurers Isl. Volkss. 216.—217. bls. eptir sögn sèra Kjartans Jónssonar og sèra Jóns sál. Þorleifssonar.

og Loðmundur voru báðir fjölkunnugir mjög. Á sú fèll milli landa þeirra er Fulilækur hèt, en síðan Jökulsá á Sólheimasandi. Þessari á veittu þeir hver á annars land, sem Landnáma segir;[1] því hvorugur vildi hafa hana nærri sèr. Af þessum veitíngum og vatnagángi varð sandur graslaus, sem Sólheimasandur heitir, og sèr þar enn marga farvegi, sem áin hefir runnið um í það og það skiptið. Loksins sáu þeir nágrannarnir landauðn þá, sem af þessu varð. Svo hagar til, að austan megin Jökulsár geingur háls einn í Sólheimaheiði frá fjallinu fram með ánni, og heitir hann Loðmundarsæti; en vestan megin árinnar þar á móts við í neðanverðu Skógafjalli, er kallaður Þrasaháls. Fellur svo áin úr gljúfrum milli þessara hálsa fram á sandinn. Á þessum stöðvum segja menn, að þeir Þrasi og Loðmundur hafi hafst við, meðan þeir veittust vötnum á, enda segir bæði Landnáma[2] og munnmælin, að þeir hafi sæzt þar við gljúfrin á það, að áin skyldi þaðan í frá renna þar um sandinn, sem styzt væri til sjávar, og það varð. En svo þykir, sem allajafna sè öfugstreymi í á þessari, og falli önnur bára að neðan, andstreymis, þegar hin fellur að ofan, forstreymis, og segir sagan, að sú ónáttúra árinnar sè komin af viðureign þeirra Þrasa og Loðmundar. — Frá því hefir enn verið sagt um Þrasa, að hann hafi komið kistu sinni fullri af gulli og gersemum undir Skógafoss, og að fyrr meir hafi sèzt á annan kistugaflinn út undan fossinum. Vísu kunna menn enn, sem einhvern tíma hefir verið kveðin um þetta, og er hún þannig:

„Þrasa-kista auðug er,
undir fossi Skóga,
hver, sem þángað fyrstur fer,
[finnur auðlegð[3] nóga.“

Svo er sagt, að einhverju sinni hafi verið 3 menn í Skógum, og hafi þeir verið synir Amunda Þormóðssonar, lögrèttumanns (1639—1671 eða leingur). Þeir ætluðu að ná Þrasa-kistu undan fossinum. Varð þeim þá litið heim til bæarins, og sýndist þeim hann standa í björtu báli, og sneru við það heim; en þar var reyndar einginn voði á ferðum. Seinna fóru þeir aptur, og ætluðu að ná kistunni, og lètu eingar missýníngar tæla sig. Komust þeir þá svo lángt, að þeir gátu krækt í hríng, sem var í kistugaflinum, sem á sást. En þegar þeir ætluðu að draga að sèr kistuna, kiptist hríngurinn úr gaflinum, og höfðu þeir svo ekki meira af kistunni. Sagt er, að sá hríngur sè nú í kirkjuhurðinni í Skógum.[4]

---

1. Ln. IV, 5. kap., 250.—251. bls.
2. Ln. 251. bls.
3. Frá [hafa aðrir svo: „fíflsku hefir o. s. frv.“
4. Tekið eptir sögnum undan Eyafjöllum, mest eptir handriti Einars Sighvatssonar á Skála.

**Herjólfur og Vilborg.** (Eptir sèra Brynjólfi Jónssyni í Vestmannaeyum.) Sagan segir, að í fyrndinni hafi maður nokkur, að nafni Herjólfur, búið i dal þeim á Vestmannaeyum,[1] sem síðan er nefndur Herjólfsdalur. Er dalur sá á 3 vegu umkríngdur háum fjöllum, og veit móti haflandsuðri, vestan til á Heimaeyunni, sem svo er kölluð; bær Herjólfs stóð í dalnum vestanverðum, undir háu og snarbröttu hamrafjalli. Hann var sá eini af eyarbúum, er hafði gott vatnsból nærri bæ sínum, og komu því margir þángað, til að beiðast vatns; en hann vildi eingum unna vatns, nema við verði. Sagt er, að Herjólfur hafi átt dóttur eina, er Vilborg hèt, og var hún að skapferli ólík föður sínum, og þókti henni hann harðdrægur, er hann seldi nábúum sínum vatnið. Stalst hún því til þess opt á nóttum, þegar karl vissi ei af, að gefa mönnum vatn. Einhverju sinni bar svo við, að Vilborg sat úti nálægt bænum, og var að gjöra sèr skó. Kom þá hrafn til hennar og tók annan skóinn, og fór burtu með hann. Henni þókti fyrir að missa skó sinn, stóð upp og fór á eptir hrafninum. En er hún var komin spölkorn frá bænum, fèll skriða undra mikil niður úr fjallinu, og yfir bæ Herjólfs, sem þá var í bænum og varð undir skriðunni. En Vilborg átti hrafninum líf sitt að þakka; en það, sem bar til þess, var það, að hún margsinnis hafði vikið hrafninum góðu, og voru þeir því orðnir henni svo handgeingnir. Síðan segir sagan, að Vilborg hafi reist bæ, þar sem nú heitir á Vilborgarstöðum, og mælt svo fyrir, að tjörn ein, sem nú er suður undan bænum, skyldi „Vilpa" heita, og skyldi eingum verða meint af vatni úr „Vilpu," þó það væri ekki sem fallegast útlits og er hún alment vatnsból frá bæum þeim, er næst henni liggja. Það er og sögn manna, að vestan til í Vilborgarstaðatúni sè Vilborg grafin, og er þar enn í dag kallað Borguleiði. Í Herjólfsdal við ofanverða grjóthrúguna, sem fèll á bæinn, er enn tær vatnslind, sem aldrei þrýtur, þó alstaðar annarsstaðar verði vatnsskortur. Skamt frá hrúgunni er og tjörn, og liggur að henni austanverðri vatnsrás, er útlítur að sèu mannaverk á, og sèr í mynni hennar, þar sem hún rennur út í tjörnina.

**Völvuleiði hjá Fjalli.** Sólheimaþíng er yzta brauðið í Vestri-Skaptafells-sýslu. Prestssetrið þar heitir á Felli. Í hlíðunum fyrir austan bæinn er leiði eitt, sem kallað er Völvu-leiði. Það snýr í norður og suður. Er svo mælt, að valan hafi búið á Felli, og mælt svo fyrir, áður hún dó, að sig skyldi þar grafa, sem fyrst skyni sól á morgna og síðast á kvöldi, og var hún því grafin í hlíð þessari. Hún sagði og, að eigi skyldi slá leiði sitt á sumrum, og mundi sá ílt af hljóta, sem það gjörði. En það sagði hún, að vel mundi þeim vegna, er eigi slægi leiði sitt, og ákvað, að bóndinn á Fjalli skyldi æ greiða 60 fiska til fátækra

1. Sbr. Ln. V, 2. kap., 280. bls., 11. neðanmálsgrein.

á ári hverju, auk þess er honum bæri með rèttu. Þessi siður hèlzt við enn í dag.[1]

**Goðatindur.** Fyrir ofan Hof í Álptafirði er ákaflega há fjallsgnýpa, sem heitir Goðatindur. Uppi á tindinum á að hafa verið hof eitt mikið, og því var bærinn kallaður Hof. Þar sjást nú steinar ferhyrndir, og þykir ei ólíklegt, að þeir hafi verið í húsvegg eða hleðslu. Það var eitt í helgisiðum þeirra, sem hofið sóktu, að þeir áttu að gánga upp á tindinn berfættir.[2]

**Berufjörður.** Berufjörður dregur nafn af Beru, sem bjó í Berufirði. Bera var auðug af gángandi fè, og sjást enn kvíatóptir hennar í túninu á Berufirði; tóptin er fjórðúngur úr dagsláttu, og er kölluð Berukví. Sóti hèt bóndi Beru. Einu sinni fóru þau að heimboði upp í Breiðdal; en á heimleiðinni viltust þau á fjallinu, og margt manna með þeim. Veður var svo ílt, að allir förunautar þeirra dóu á hjalla þeim, sem síðan er kallaður Mannabeinahjalli. Þau hèldu nú á fram tvö ein hjónin, og urðu loks aðskila á fjallinu. Sóti komst rètt á móts við bæinn í Berufirði, og þrammaði þar fram af fjallinu, sem heitir Sótabotnsbrún. Af því beið hann bana, og er þar dys hans í Sótabotni. Bera lèt hest sinn og hund ráða förinni, eptir það hún var ein orðin, og vissi hún eigi fyrr, en hesturinn fór inn í hesthúsið í Berufirði. Var þá svo mikil ferð á hestinum, að hún skall aptur af honum og rotaðist. Hún er heygð í Beruhóli, en sá hóll stendur fram undan bænum í Berufirði.[3]

**Herjólfur**[4] og **Gunnhildur.** (Eptir handriti Jóns Bjarnasonar í Breiðuvík og Magnúsar Einarssonar á Klippstað í Múlasýslu.) Svo er mælt, að fyrr um hafi tvö systskin verið; hèt pilturinn Herjólfur, og er Herjólfsvík við hann kend; en stúlkan hèt Gunnhildur, og er Gunnhildardalur við hana kendur. Þau áttu kafla úr Húsavíkur landi, það er að segja allan Gunnhildardal ofan í á og alla Herjólfsvík. Eitt sinn töluðu þau það með sèr, að þau skyldu fara að búa og kom þeim ásamt um að skipta milli sín því, er þau áttu saman; hlaut hann þá Herjólfsvíkina, en hún dalinn. Fjölgaði fè þeirra óðum og gekk fè hennar á land hans; mislíkaði honum það mjög og beiddi systur sína að gæta fjár síns betur, og kvaðst hann ekki vilja mæta ágángi af fè hennar. En Gunnhildur svaraði illu um, og sagði,

---

1. Eptir sögn Mýrdælínga. M. G.
2. Eptir sögn Álptfirðínga 1847. M. Gr.
3. Eptir sögn Austfirðínga. M. G.
4. Maður gæti ímyndað sèr, að þetta væri Herjólfur Þorgeirsson, sem Landnáma getur um, IV, 3. kap. 244—5. bls., enn þótt hún segi, að hann hafi numið Breiðdal III, 13. kap. 209. bls. 5. neðanmálsgr. og IV, 7. kap. 254. bls.

að hann skyldi gæta síns eigin fjár betur, svo það gjörði sèr ekki ágáng. Heittist hann þá við systur sína, en hún kvaðst ekki mundi hræðast stóryrði hans; en hana grunaði, hvað hann ætlaði sèr, og flutti því þegar alt úr bæ sínum um kvöldið ofan undir hól einn, sem er niður með Gunnhildará, og er hann nú kallaður Illífarhóll. Um nóttina hleypti Herjólfur skriðu ofan úr fjallinu og á bæ hennar, og sèst enn hlaupið fyrir neðan Gunnhildará. En hún lèt sèr ekki bilt við verða, heldur hleypti á hann skriðu úr fjallinu, sem er fyrir ofan Herjólfsvík, og liggur hann þar undir með alt sitt. En hún flutti ofan á Gunnhildarsel, og bjó þar til elli.

**Kórekur á Kórekstöðum.** (Eptir handriti Jóns Sigurðssonar í Njarðvík í Múlasýslu.) Kórekur bjó á Kórekstöðum í Útmannasveit. Eptir fundinn í Njarðvík, þar sem þeir Ketill þrymur og þiðrandi fèllu,[1] sókti Kórekur karl syni sína óvíga í Njarðvík. Fyrir utan bæinn á Kórekstöðum spölkorn er stakur klettur með stuðlabergi umhverfis, það er kallað Kórekstaðavígi. Kletturinn er hár, og sagt, að ekki hafi orðið komizt upp á hann, nema að sunnanverðu. Í þessu vígi er sagt að Kórekur hafi varizt óvinum sínum, en fallið þar að lokunum, og þar sè hann heygður. Merki sjást til þess enn, að einhver hefir verið heygður uppi á klettinum, og hefir verið girt um hauginn. Í minni sögumannsins hefir verið grafið í hauginn, og ekkert fundizt, nema ryðfrakki af vopni, en svo var það ryðgað, að ekki sást, hvernig það hafði verið lagað.

**Böðvar í Böðvarsdal.** (Eptir handriti Jóns Sigurðssonar í Njarðvík í Múlasýslu.) Landnáma getur þess, að Lýtíngur Arnbjarnarson hafi numið Vopnafjarðarströnd alla ena eystri, Böðvarsdal og Fagradal,[2] en ekki hver hafi búið í Böðvarsdal. Þar segja munnmæli, að Böðvar hafi búið, og sè þáttur af honum, sem nú er týndur. Þegar Böðvar fór að eldast, sókti hann surtarbrand út í lönd, og bygði þar af haug mikinn, lángt inn frá bænum í Böðvarsdal, og er hann kallaður Böðvarshaugur. Haugur þessi er hár og mikill og aflángur. Sagt er, að tjörn hafi verið sunnan undir haugnum; flutti Böðvar þángað skip sitt, og bygði hauginn yfir það. Síðan gekk Böðvar lifandi í hauginn með tveimur dætrum sínum. Tvo næstu vetur eptir sókti hann jólaveizlu heim í Böðvarsdal. Var veizlustofan bygð út frá bænum á túninu, altjölduð og borið á borð vín og vistir. Einginn dirfðist að sitja þar jólaveizlu með þeim Böðvari; því það hafði hann bannað. Hin þriðju jól kom hann að sækja veizluna; en þó ætluðu menn, að Böðvar mundi þá dáinn og apturgeinginn, því maður leyndist

---

1. Sjá þátt af Gunnari þiðrandabana, aptan við Laxdælu, Hafniæ, 1826, 370—372. bls.
2. Landn. IV, 2. kap. 241. bls.

undir stofutjaldinu, og sýndist Böðvar ógurlegur. Eptir það kom Böðvar ekki. Reynt hefir verið bæði að fornu og nýu að brjóta Böðvarshaug, en ekki hafa menn auðgazt af því. Fyrst var brotið gat á annan endann á honum; var þar fyrir skipsstafn, og lá silfurbúin öxi í skutnum. Maður einn ætlaði að þrífa öxina, en þá var höggvin af honum höndin; maðurinn þreif hana þá með hinni hendinni, og var svo hætt við haugbrotið í það sinn. Pètur hèt vinnumaður, sem var í Böðvarsdal laungu seinna, kallaður hökulángi. Hann var hugmaður mikill, og ásetti sèr fastlega að brjóta hauginn. En nóttina áður, en hann ætlaði til þess, kom Böðvar til hans í svefni með reidda öxi, og lèt ófriðlega; sagðist hann mundi færa öxina í höfuð Pètri, ef hann hætti ekki fyrirætlun sinni.

**Narfastaðir.** (*Eptir frásögn sèra Jóns Jakobssonar í Ásum.*) Á Narfastöðum í Melasveit hefir sá maður búið í fornöld, sem Narfi hèt, og dregur bærinn nafn af honum. Suðaustur frá bænum í túninu heitir Narfaleiði; þar á Narfi að vera heygður. Eingin sjást þar ummerki til haugs, nema að hellusteinn ákaflega mikill er þar, eins og hann sè reistur upp á rönd, framan í hólbarði. Sunnar í túninu heitir Gullþúfa, og hefir tvisvar verið grafið í hana; en í báðum sinnum sýndist þeim, sem grófu, bærinn standa í ljósum loga, og hlupu því til að bjarga; en bærinn var óhaggaður, þegar að var komið. Austur frá Gullþúfu er enn í túninu á Narfastöðum hóll hár nokkuð. Hann heitir Skiphóll; þar er sagt að Narfi hafi komið fyrir skipi sínu. Þegar stappað er uppi á Skiphól, tekur undir í honum af tómahljóði, eins og hann væri holur innan.

**Geirmundur heljarskinn.** Hann er kallaður göfgastur allra landnámsmanna á Íslandi. Hjá Skarði á Skarðsströnd er kelda ein mjög djúp, sem heitir Andarkelda; þar er sagt að Geirmundur hafi látið í fè mikið.[1] Margar sögur eru um það á seinni tímum, að tilraunir hafi verið gjörðar að ná fènu; en allar hafa þær mistekizt, eins og vant er. Enn fremur er það í mæli, að Geirmundur hafi látið belti sitt og hníf upp á Dránginn milli Skarðs og Grafa, en hann er svo snarbrattur hamrastapi, að vart er þar nokkrum manni fært, upp að komast, til að ná gripum þessum.[2] Sèra Friðrik segir svo í sóknalýsíngu sinni, að Herdís kona Geirmundar[3] sè grafin undir Illþurkudys á Skarðinu og við hana sè kent Harísargil sem fellur ofan hjá Illvita milli Barms og Hvarfsdals, og sè það sögn manna, að Herdís hafi falið fè í Harísargili líkt og Geirmundur í Andakeldu.

**Steinólfur lági.** Hann var landnámsmaður, og bjó í Fagradal ytri á Steinólfshjalla.[4] Þar sjást enn miklar túngarða rústir og er stór bugur á garðinum

1. Ln., II, 20. kap., 125. bls.
2. Dr. Maurers Isl. Volkss. 217. bls., eptir Guðbrandi Vigfússyni.
3. Hún er í Landn. nefnd Herríður, en Herdís í Melabók.
4. Ln. II, 21. kap., 126. bls. — Gull-þóris-saga (Leipzig 1858) kap. I, 43–44. bls.

á einum stað, og er sú saga til þess að þræll einn er Bolli hèt hafi átt að girða túnið fyrir Steinólf, en gjört þenna hlykk á garðinum, svo að túnið yrði ekki eins stórt, og hægra væri að slá það; fyrir þetta einræði sitt er sagt að Steinólfur hafi drepið þrælinn; stendur dys hans í túninu skamt frá og heitir Bolladys.[1]

**Hallsteinn goði, son Þórólfs mostrarskeggs.** Fornsögur geta þess um hann, að hann hafi herjað á Skotlandi, haft þaðan með sèr þræla, og látið þá vinna að saltgjörð á Svefneyum.[2] Einhverjar fleiri sèrstakar sögur hafa orðið að fara af honum í fornöld, sem nú eru týndar, þar sem hann er kallaður blátt áfram „Hallsteinn goði af Hallsteinsnesi, sem þrælana átti";[3] en af hverju hann er kendur við þræla þessa finnst hvergi í fornum sögum. Í munnmælum er það haft, að hann hafi einu sinni komið að þrælunum sofandi í eyunum, og hafi hann þá orðið svo reiður, að hann hafi látið heingja þá milli kletta tveggja norðan til á eyunum, og þar af dragi Svefneyar nafn sitt.[4] En klettarnir, þar sem þrælarnir voru heingdir, heita síðan Gálgi.

**Gull-Þórir.** Um hann fara enn ýmsar sögur á Vesturlandi. Það er sagt, að hann hafi barizt við Ísfirðínga á Hvanneyri í Djúpadal; af þeim fundi dregur Ísfirðíngagil og Breiðfirðínganes síðan nafn sitt, því þeir, sem fallið höfðu af Breiðfirðíngum, voru grafnir (heygðir) á nesinu, og hafa þar fundizt ýmsar fornmenjar síðan, þegar þar hefir verið grafið. Á þessum fundi er mælt að báðar hendur hafi verið höggnar af Gull-Þóri, og hafi hann þá steypzt í foss einn í dalnum, sem síðan heitir Gull-Þórisfoss. Sumt af auðæfum sínum hafði Þórir með sèr í fossinn, en sumu hafði hann áður komið fyrir í Gull-Þóris-keldu hinu meginn fjarðarins.[5] Þó fer nokkuð tvennum sögum um þetta, því aðrir segja, að Þórir hafi ekki látizt af þessum fundi, heldur öðrum. Ísfirðíngar höfðu feingið mann til að njósna, hvernig þeir gætu bezt komizt að Þóri, og njósnarmaðurinn hafði sagt þeim, að Þórir geingi opt aleinn yfir hjalla nokkurn í Djúpadal að fossinum. Þar gjörðu Ísfirðíngar honum fyrirsátur, og voru þeir saman 30. Þórir var þar við annan mann; en alt um það varðist hann þeim leingi. En loksins, þegar sár bárust á Þóri, og höggnar voru af honum báðar hendur, tók hann upp hellu mikla og þúnga, og undan

---

1. Dr. Maurers Isl. Volkss. 217. bls. eptir Guðbrandi Vigfússyni og Jóni Eggertssyni.
2. Ln. II, 23. kap., 130.—131. bls.
3. Eyrbyggja saga (Kh. 1787.) kap. XLVIII., 254. bls.
4. Dr. Maurers Isl. Volkss. 218. bls. eptir sèra Eiríki Kúld.
5. Dr. Maurers Isl. Volkss. 218. bls. eptir sèra Ólafi Johnsen.

henni kistur tvær, stakk handleggsstúfunum í hríngana, sem voru í kistulokunum, og steyptist svo með þær ofan í fossinn. [1]

**Einar skálaglam.** Frá því er sagt í fornum sögum, að Einar druknaði á Breiðafirði, og ráku töfraskálir þær, sem Hákon jarl gaf honum til liðs við sig, og Einar var síðan kendur við, í eyum þeim, sem draga nafn af þeim, og heita Skáleyar. Þar sem hann druknaði heitir Einarsboði; milli Hrappseyar og Purkeyjar; þar sem skjöld hans rak upp, heitir Skjaldey og Feldarhólmur, þar sem feld hans rak. [2] Feldarhólmur, Skjaldey, og Skáley heita og eyar nærri Hrappsey, og segja menn nú, að þær dragi nafn af gripum Einars. [3]

**Brunaberg.** Í Bárðar sögu Snæfellsáss [4] er sagt, að Skrukka móðir Kolbjarnar dó fyrir steini þeim, sem Snati,. hundur Gests Bárðarsonar hratt á hana. En þegar Hrútfirðíngar og Miðfirðíngar voru einu sinni í gaungum, tjölduðu þeir eitt kvöldið undir Rauðsgilshæðum, hjá steini þeim, er Skrukka hlaut bana af. Gángnamönnum var kalt mjög um kvöldið, og hituðu sèr með því, að róta upp moldinni kríng um steininn. Þeir fundu þar þá bein Skrukku, og þóktu heldur stórkostleg. Þeir vildu færa beinin til kirkju, en náðu þeim með eingu móti upp, þegar þeir ætluðu burt með þau. Stúnuðu þeir nú við þau fyrst leingi, en síðast tóku þeir það ráð, að þeir brendu beinin upp til ösku. Síðan er bergið kallað Brunaberg. [5]

**Mókolls-haugur.** Upp af Steinadal í Kollafirði í Strandasýslu gánga nokkrir smádalir. Einn þeirra heitir Mókollsdalur. Efst í dalnum er Mókolls-haugur ákaflega stór og snarbrattur á allar hliðar; þar er sagt að Mókollur eða Kollur, einn hinna fyrstu landnámsmanna sè hauglagður með öllu fè sínu. Mun það vera alt sami maður, sem Landnáma kallar Kolla, er „nam Kollafjörð, og Skriðnisenni, og bjó undir Felli meðan hann

---

1. Dr. Maurers Isl. Volkss. 218.—219. bls., eptir Sumarliða gullsmið Sumarliðasyni á Kollabúðum. Enn þótt niðurlagið vanti í öll handrit af Gullþórissögu, og því einnig í útgáfu Dr. Maurers af henni í Leipzig 1858, hefir hann þó getið sèr til í formálanum fyrir henni á 35. bls. af því, sem í sögunni stendur (Cap. III. 48. bls. og XIX. Cap., 79. bls.), að eptir þeirri sögu muni Þórir ekki hafa geingið í fossinn, heldur í fjöll, og lagzt þar, eins og ormur, á gull sitt. Síðan hefir Guðbrandur Vigfússon getað lesið niðurlag sögunnar að mestu í Nr. 561 í safni Árna Magnússonar, sem Gullþórissaga er prentuð eptir þar sem varla sèst í fyrsta áliti votta fyrir staf, og kemur þar fram, að getgáta Dr. Maurers er alsendis rètt, og segir þar, að Þórir hafi geingið í fjallið fyrir ofan eða utan Hlíð í Þorskafirði, sem líklega er sama og Flókavallagnípa.

2. Fms. XI, 42. kap., 128—129. bls., 49. kap, 158. bls., Ln. II, 11. kap., 95. bls.

3. Dr. Maurers Isl. Volkss. 219. bls. eptir Guðbrandi Vigfússyni.

4. Kh.: 1860. 16. kap. 35. bls.

5. Eptir blaði frá sèra Magnúsi Grímssyni.

lifði."[1] Það er sagt að Mókollur hafi viljað láta heygja sig, þar sem hvorki klukknahljómurinn frá kirkjunni, sem þar er næst (Fellskirkja), raskaði ró sinni, nè heldur að sól feingi skinið á haug sinn; en við hinu síðara hefir þó ekki orðið sèð með öllu, því sól skín á hauginn nokkurn tíma sumarsins.[2]

**Illþurka.** Á innanverðu Skarðinu milli Skarðs og Búðardals þar sem vötnum hallar, er dys og varða, sem heitir Illþurka, og eiga allir, sem í fyrsta sinni ríða þar hjá, að taka stein af hestbaki og kasta í dysina. Undir dysinni er sagt að sè galdrakona eður völva; hún vildi ekki láta grafa sig að kirkju, heldur þar sem hvorki heyrðist klukkna hljóð frá Búðardal nè Skarði; frá Illþurku ber og leiti á milli og kirkjunnar í Búðardal.

**Borgarvirki** og **Víga-Barði.** Skamt frá bænum Stóruborg í Vesturhópi er hamraklettur hár og mikill um sig á hæð nokkurri, eða ási fyrir vestan Víðidalsá; hamar þessi er kallaður Borg eins og bærinn, eða þó heldur Borgarvirki. Að norðan og vestanverðu er virkishamarinn ekki minna en 10 faðma á hæð, myndaður af náttúrunni af eintómu fimmstrendu stuðlabergi; að sunnanverðu hefir virkið verið miklu lægra af náttúrunnar völdum, en þar hafa fornmenn hlaðið girðínguna af svo miklum stórgrýtisbjörgum, að varla mundu 5 eða 6 menn hreifa þau úr stað, og á sama hátt er austurhlið virkisins hlaðin, og hefir þar verið geingið í það, þó dyrnar sèu nú mjög fallnar. Virkið er 200 faðma ummáls og einkar víðsýnt af því, eins og það sèst lángt að. Innan er virkið dalverpi lítið og grasi vaxið, og uppsprettu lind í, og sjást þar enn ummerki lítilla húsakofa. Af því einginn þykist vita með vissu, hver þetta virki hefir hlaðið, þar sem mannaverk eru á því, hafa þeir, sem um það hafa ritað,[3] getið sèr til, að það mundi annaðhvort hafa gjört Finnbogi rammi, meðan hann bjó á Borg, til varnar sèr fyrir ófriði Vatnsdæla, þó hvorki sè þess getið í Vatnsdælu nè Finnbogasögu, eða þá Barði Guðmundsson frá Ásbjarnarnesi, til varnar sèr og fèlögum sínum fyrir Borgfirðíngum eptir heiðarvígin, og vantar því máli einúngis til sönnunar of meinlega aptan af Heiðarvígasögu, sem hvergi fæst nú fullkomin, því munnmælin hafa að fornu og nýu, að minnsta kosti frá dögum Páls Vídalíns og alt til þessa dags, hiklaust eignað Barða, sem alment er kallaður Víga-Barði, og

---

1. Ln. II, 32. kap., 159. bls.

2. O. Olavii Reise igjennem de nordvestlige, nordlige og nordostlige Kanter af Island. Kh. 1780., 154—155. bls.

3. Páll Vídalín í Fornyrðum lögbókar, Rvík, 1854, 625—626. bls. Eggert Ólafsson í Ferðabók sinni, 736—737. bls. Uno von Troil: Brev rörande en Resa til Island 1772. Stockholm 1777, 189—190. bls. Almenn landaskipunarfræði. Fyrra parts önnur deild, 247—248. bls.

fèlögum hans, Borgarvirki, og fullherma, að það hafi staðið og eigi að standa í henni.

Eptir það þeir Víga-Barði höfðu hefnt Halls bróður hans á Borgfirðíngum, segja munnmælin, lèt Barði búa til virki þetta, af því hann bjóst við, að Borgfirðíngar mundu leita norður til hefnda eptir mannskaða þann, sem þeir höfðu beðið fyrir Norðlendíngum í heiðarvígum. Barði lèt ekki að eins gjöra virkið, heldur setti hann menn á tveim stöðum, annan á Þóreyarnúpi, ef Borgfirðíngar færu Tvídægru, en hinn á Rauðanúpi, ef þeir kynnu að fara Arnarvatnsheiði, annaðhvort ofan í Víðidal eða Vatnsdal. Skyldu njósnarmenn þessir kynda vita, ef þeir yrðu varir Borgfirðínga. Barði var nærgætur um þetta; því Borgfirðíngar komu, en ekki er getið, hvora leiðina þeir fóru að sunnan. Fór þá Barði í virkið og menn hans, en Borgfirðíngar settust um það og sóktu að nokkrum sinnum, en varð ekki ágeingt. Ætluðu þeir þá að svelta virkismenn inni, og segir þá ein sögnin, að þeir Barði hafi haft nógar vistir, og hinir hafi snúið frá við svo búið eptir hálfan mánuð.[1] Aðrir segja svo frá, og gekk sú sögusögn einnig á dögum Páls Vídalíns, að svo hafi þreingt að mat virkismanna, áður Borgfirðíngar hurfu frá umsátrinu, að allar vistir voru uppgeingnar, nema eitt mörsiður. En seinasta sinnið, sem Borgfirðíngar sóktu að, hafi einhver af virkismönnum kastað mörsiðrinu ásamt grjóti út í flokk Borgfirðínga, virkinu til varnar. Hafi þá Borgfirðíngar ráðið af því, að gnógt vista væri í virkinu, og því horfið frá.[2] En nú geingur sú sögusögn nyrðra, að Víga-Barði hafi einu sinni orðið þess áskynja, að Borgfirðíngar voru að þínga um það fyrir utan virkið, að virkismennina mundi bráðum þrjóta vistir. Hafi Barði þá kallað á bryta sinn, og beðið hann að sýna sèr, hversu mikinn forða þeir ættu eptir. Kom þá brytinn með mörsiðrið og sagði það væri eitt eptir af matvælum þeirra. Barði hjó mörsiðrið sundur í miðju, og fleygði báðum stykkjunum út af virkinu í þraung Borgfirðínga, þar sem þeir voru að ræða um vistaskortinn. En við þetta bragð Barða er sagt þeir hafi snúið svo búnir suður aptur, og ætlað, að virkismenn hefðu matarnægtir miklar.[3] Báðum þessum frásögnum fylgir málshátturinn: „að kasta út mörsiðrinu.“

**Þórdís spákona.** „Kona hèt Þórdís, ok illa lynd; hún bjó at Spákonufelli á Skagaströnd,“ segir Kórmaks saga.[4] Þessu er munnmæla

1. P. Vídalín ber fyrir þessu Guðbrand Arngrímsson, (lærða?) sem hafi sagt, að þetta stæði í Heiðarvígasögu; sjá Fornyrði lögbókar, 625. bls.

2. S. st. 625—626. bls. og ber Páll Vídalín 2 menn fyrir þessari sögusögu, og hafi annar þeirra sagt, að þetta ætti að standa í Heiðarvígasögu, sem er rángt.

3. Þetta sagði mèr Magnús Pálsson, sem nú er á Auðkulu, og sagði hann það einnig standa í sömu sögu, sem hann sagðist hafa lesið sjálfur, en veit nú ekkert, hvað af er orðið.

4. Kórmaks saga (Havniæ, 1832) IX. kap., 76. bls.

sögnin um Þórdísi samsaga. Þórdís var bæði mikils verð, og margs kunnandi, forvitra og framsyn, og var tekin til að gera um stór mál, sem Vatnsdæla segir,[1] og ráðrík í hèraði, svo hún vildi nálega ein öllu ráða norðan af Skagatá og inn að Laxá ytri, og var þar fyrir öllum hèraðsmönnum, svo eingum dugði að sitja eða standa öðruvísi, en Þórdís vildi; svo var ríki hennar mikið. Þetta má ráða af því, að hún gaf ýmsum kirkjum eptir sinn dag hlut í rekum bæði hvalrekum og viðrekum í fyrnefndu takmarki, og heitir sá hlutur enn Spákonuarfur í máldögum kirknanna á Höskuldsstöðum, Holtastöðum og Márstöðum, því þar hafa þá setið vinir hennar;[2] því eins og Þórdís var ráðrík og grálynd við suma, eins var hún vinur vina sinna, svo sem var Þorkell krafla í Vatnsdal, þegar hún liðsinti honum í eptirmálinu eptir Glæði,[3] Þorvarður Eysteinsson úr Fljótum, sem hún efldi til hólmgaungu í móti Kórmaki,[4] og Þorvaldur viðförli Koðransson frá Gilljá, fóstri hennar.[5] Aptur átti hún nóga óvildarmenn, svo sem Kórmakur, er spilti öllum töfrabrögðum hennar, þegar hún ætlaði að veita honum lið, ekki síður en Þorvarði, en hann bar ekki gæfu til að þiggja.[6] Þó er sagt, að henni hafi ekki farizt jafnilla við neinn, sem prestinn á Hofi, og lèt hún Hofskirkju gjalda hans í því, að hún gaf henni einga reka eptir sig; á því sú kirkja eingan reka nema fyrir sínu landi, og „hvalvætt“ eða „skurð í hval hverjum, sem kemur millum Fossár og Deildarhamars,“ en ekki er það Spákonuarfur. Þegar Þórdís var á dögum er sagt, að prestur sá hafi verið á Hofi, sem Eiríkur hèt; hann var ekki blár innan, en þó ekki mjög kendur við galdur. Hann átti grákollótta á eina, sem hann hafði miklar mætur á, þó er þess ekki getið, að hún hafi alið lömb, og aldrei var hún mjólkuð í kvíum. Hún gekk sjálfala, hvar sem hún vildi, og leið eingum að taka sig nema presti; hann gekk að henni, hvar sem var, og kom hún stundum til hans eða elti hann, þar sem hann var á ferð. Svo hagar til, að kippkorn fyrir ofan bæinn á Spákonufelli er fjall mikið og hátt, og dregst nokkuð að sèr ofan, en efst á því eru vegghamrar, og sýnist eingri skepnu þar fært upp að komast; norðan í því heita Leyníngsdalir eða Leynidalir, eitt af miðunum á Sporðagrunni.[7] Í þeim dölum eða lægðum er einna bezt beitiland í fjallinu, svo ofarlega sem þeir eru þó; er þar bæði víðir nógur og reyniviðarhríslur nokkrar. Það er nú svo sem auðvitað, að Þórdís spákona þóktist ein eiga öll ráð á fjalli þessu og nytjum þess, og

---

1. Sjá Fornsögur (Leipzig 1860), 73—74. bls.; sbr. Ln. 183. bls.
2. t. d. Blót-Már á Márstöðum, Fornsögur 87—89. bls., Fms. II, 7—9. bls.
3. Fornsögur 73—74. bls.
4. Kórmaks saga XXII. kap., 204, 216—218, 220. bls.
5. Sjá Biskupasögur, I, Kh. 1858, 35—36. bls.
6. Kórmakssaga, XXII. kap., 204—210. bls.
7. Sbr. söguna af Þorbirni kólku.

hafði hún mestu mætur á því, og kallaði það eptir sèr, eins og bæ sinn Spákonufell, en nú er það kölluð Spákonufellsborg; þar ætlaði hún sèr að bera beinin. Hún var vön að gánga á hverjum degi upp í fellið upp undir hamrana að vestanverðu, þaðan sem hún gat sèð yfir bæ sinn og alla Skagaströndina út á Skóga og inn til dala og yfir til Hornstranda yfir þveran Húnaflóa. Þar sat hún laungum, og greiddi hár sitt með gullkambi. Af því grákolla sèra Eiríks á Hofi gekk sjálfala og hirðislaus, sem fyrr var sagt, ýmist í túninu á Hofi eða hvar annarstaðar, sem henni þókti bezt, og fór ekkert að því, hver landið átti, sem hún gekk í, en optast er sagt hún kæmi heim á kvöldin til prestsins, og strauk hann henni þá, og gerði gælur við hana. Grákolla rann af þessu víða um beitilönd bæði í byggðinni og á fjöllinn, til að leita sèr að hagkvisti, þar sem bezt væri, og fór svo á endanum, að hún komst inn í Leyníngsdali norðan í Spákonufellsborg; rann hún þángað síðan á hverjum morgni en kom heim aptur á kvöldin. Ekki leið lángt um, frá því að Grákolla fór að venja gaungur sínar inn í dali þessa, að Þórdís yrði hennar vör, og stuggaði hún kollu jafnan burt úr dölunum, þegar hún kom upp í fellið á daginn. En það tjáði ekki, því kolla var þrá, sem sauðfè er gjarnt til, og kom aptur og aptur, þó hún væri rekin burtu um sinn. Eitthvert sinn eptir þetta vandaði Þórdís um þetta við prest, og sagði honum að láta taka grákollu úr landeign sinni, svo að hún gerði sèr ekki átroðníng og beitarusla í fellinu, þar sem bezt væri, og sagði hann hefði nóg land handa henni og sínum fènaði, og að hann þyrfti ekki að ásælast sig. Af því sèra Eiríkur þóktist fyrr hafa kent kaldlyndis Þórdísar, og illvilja til sín í mörgum greinum, tók hann lítið undir þessa umkvörtun hennar, og sagði, að grákolla sín mundi þann einn usla gjöra í landi hennar, að henni mundi ekki verða mein að, þó ein kind kroppaði þar öðru hverju. Þegar Þórdís heyrði þessi svör af presti, bað hún hann sjálfan ábyrgjast kollu sína, ef hann bætti ekki úr hirðuleysi því, sem á henni hefði verið um hríð. Við það skildu þau talið. Eptir þetta fór hinu sama fram um stund, að grákolla sókti í Leyníngsdali, þó prestur vildi varna henni þess, en kom alt af sjálfkrafa heim á kvöldin, sem fyrri. Nú leið og beið, þángað til eitt kvöld, að kolla kom ekki heim, og leið svo nóttin og fram á dag daginn eptir, að hún kom ekki. Sèra Eirík grunar, að nú sè ekki alt með feldi um hag grákollu, og lætur hann nú leita hennar inn í Leyníngsdali. Þar fannst kolla dauð; hafði Þórdís hryggbrotið hana með stóru bjargi, sem hún hafði fleygt norður af hömrunum á Spákonufellsborg ofan í dalina og kolla orðið þar undir. Leitarmenn fóru heim við þetta og sögðu presti, hvernig komið var. Presti fèkk þetta svo mikillar áhyggju, að hann hafði mist grákollu, að hann lagðist í rúmið um stund, og sinti lítið öðrum mönnum. Nokkru seinna kallar hann til sín smalamann sinn, því honum trúði hann bezt, og fær honum vetlíng sinn, og biður

hann fara með hann suður á Spákonufellsborg, og sæta því lagi, að láta hann falla vestur af fjallseggjunum, svo að hann komi á bak þórdísi, þegar hún sè sezt þar að greiða hár sitt, og skila um leið til hennar, að þetta sè þóknun frá Hofsprestinum til þórdísar fyrir hana grákollu. Smalinn fór, sem prestur bauð honum, og framkvæmdi erindið. En þegar hann lèt vetlínginn falla, kom hann lítið eitt við eggjarnar á fjallinu, og varð af því skruðníngur nokkur. þá sá smalinn, að þórdís leit upp fyrir sig, þar sem hún sat undir hamrabeltinu, og var að greiða hár sitt, og sveiflaði því frá sèr, til að sjá, hvað um væri að vera, og sá hann þá í augu henni, en við það leið yfir hann á bjargsbrúninni, og lá hann í ómegi leingi dags. En þegar hann raknaði við, sá hann, að þórdís lá dauð undir hömrunum; hafði vetlíngur prestsins orðið að þúngum kletti á leiðinni niður og hryggbrotið hana. Við það fór smalinn heim, og sagði presti alt af sínum förum. Við þær frèttir varð prestur alheill og reis úr rekkju. En Skagstrendíngar lofuðu lausn sína frá ágángi og yfirráðum þórdísar, en vissu þó ógjörla, hverjum þeir áttu að þakka hana. það er sagt um þórdísi, að hana hafi grunað, að hún mundi eiga skamt eptir, þegar hún var búin að drepa grákollu; hafi hún því tekið kistu sína eina, sem allar gersemar hennar og auðæfi voru geymd í, farið með hana upp í Spákonufellsborg, og sett hana þar á klettahyllu framan í hömrunum með lykilinn í skránni, og sagt, að sú kona skyldi eignast kistuna, og öll þau auðæfi, sem í henni væri, sem væri svo uppalin, að hún væri hvorki skírð í nafni heilagrar þrenníngar, nè nokkur góður guðstitill kendur, og mundu þá gripirnir liggja lausir fyrir henni, og hún eiga hægt með að ljúka kistunni upp. En öllum öðrum skyldi sýnast kistan klettur einn og bergsnagi fram úr, þar sem lykillinn væri, og svo lítur hún út enn í dag. Eingin kona hefir heldur, enn sem komið er, orðið rík af kjörgripunum úr kistu þórdísar spákonu.[1]

**Þröm.** Kona var í fyrndinni, er þröm hèt. Hún bjó á þröm, fremsta bæ í Blöndudal, og var bærinn nefndur eptir henni. þá var það vani, að binda strokkinn á herðar smalanum, og bar hann strokkinn, meðan hann smalaði, og átti þá að vera strokkað, er heim kom. þröm þókti smali sinn vera seinn í ferðum, og gekk hún eitt sinn að leita hans. Hún fann hann hjá tjörn einni, fyrir vestan þrístiklu, sem er vatn á Auðkúluheiði. Kæfði hún þar smalann, og heygði í hól einum skamt frá. Er þar síðan kölluð Smalatjörn og Smalahóll. þröm er heygð í hól einum skamt frá bænum þröm, og er þar kallaður þramarhaugur.[2]

---

1. þessa sögu heyrði eg úngur, heldur á 6. en 7. árinu; en maður sá, sem mèr sagði, dó, þegar eg var á 7. ári. Eingan hefi eg síðan getað hitt, sem kunnað hafi söguna, og sannast því hèr, „að lítið er betra en ekki.“

2. Eptir handriti sèra Jóns þórðarsonar á Auðkúlu.

**Blákápa.** Hún bjó á Barði í Fljótum, og átti sel fram á Lá(g)heiði. Hún hlóð garð yfir þvert Barðið, og sèst enn til hans. Á þeim garði gekk hún yfir á Holtshyrnu á hverju máli, og fram fjallasöðla fram á Lá(g)-heiði; mun sá vegur vera full hálf þíngmannaleið. Sagt er að Blákápa hafi heingt lykla sína á klettasnös í Hestfjallinu í Hèðinsfirði, en belti sitt og silfurbúníng á Holtshyrnu, og má sá að frjálsu eiga, sem náð getur, og geingur aptur á bak Blákápugarð yfir þvert Barðið norður á Holtshyrnu.[1]

**Sagnir úr Njálu.**[2] Sagnir þessar eru ýmist missagnir eða viðaukar við bóksöguna. Það orðtak er enn haft eptir Njáli, að hann hafi átt að segja: „Af lángviðrum og lagaleysi mun land vort eyðast“.[3] Það er og sagt eptir Sæunni kerlíngu á Bergþórshvoli, að hún hafi sagt um arfa-sátuna, sem henni var klaksárast til:[4]

„Uggir mig það arfasáta,
að úr þèr muni rjúka.“

Hvortveggja orðtækin eru síðan höfð fyrir máltæki. Á Bergþórshvoli, þar sem gamli Njáll bjó, sèr enn Flosahól og Flosalág, þar sem þeir Flosi bundu hesta sína, áður en þeir rèðust heim að bænum; þá sèr og enn Káragerði, þar sem Kári hljóp yfir, þegar hann komst út úr brennunni, og Káratjörn, þar sem hann slökti eldinn í hári sínu og klæðum.[5] Þegar Flosi reið frá Njálsbrennu, er sagt að hann hafi leynzt í Þríhyrníngi, og haft hesta sína uppi í dal þeim á fjallinu, sem við hann er kendur síðan, og kallaður Flosadalur. Sjálfur hafðist hann við í helli þeim, sem er í fjallinu útnorðanverðu, og síðan heitir Flosahellir. Sá hellir sèst enn og er þvernýpt bjarg bæði ofan og neðan að honum, og eigi fært að, nema í sígi. Í helli þessum lèt Flosi verða eptir gullkistu eina. Mælti hann svo fyrir, að sá einn skyldi hafa not fjár þessa, sem hèti eptir sèr, en einginn annar. Einn bóndi hefir reynt að ná fènu. Komst hann í hellinn, fann þar kistu, og stóð lykillinn í skránni. Bóndi lauk þá upp kistunni, og hugsaði sèr nú til hreifíngs. En hann sá ekkert fèmætt í henni, en full var hún af grávíði-laufum. Bóndi reiddist, og hugðist ekki optar mundi þángað fara, og láta Flosa svo gabba sig eins hættulegan veg. Hann tók þó fullan sjóvetlíng með sèr af laufinu til sýnis. En þegar hann kom

---

1. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns á Barði.

2. Svo kalla menn optast söguna af Njáli Þorgeirssyni og sonum hans, eins „Grettlu“ Grettissögu eða söguna af Gretti Ásmundssyni, og „Eglu“ söguna af Agli Skallagrímssyni.

3. Sbr. Njálu, LXXI. kap. 106. bls.: „þvíat með logvm skal land byggia en með ólogvm eyþa.“ Þó segja aðrir, að greinin se úr Kruggsspá, og er það rèttara sagt.

4. Sbr. Njálu (Kh. 1772), 125. og 130. kap.

5. Dr. Maurers Isl. Volkss. 220. bls. eptir húsfrú Katrínu á Bergþórshvoli og dóttur hennar. Sbr. Njálu 129—130. kap.

ofan á jafnslèttu, leit hann í vetlínginn, og sá nú, að hann var fullur af silfri. Sá hann nú, að hèr voru brögð í tafli, og þorði ekki að fara upp aptur í hellinn, því hann hugsaði, að vættur sú, sem sèr hefði gjört sjónhverfínguna, mundi þá beita öðrum brögðum, og þókti honum ekki færilegt, að hætta sèr þannig optar. Aldrei fór hann síðan í hellinn, og einginn hefir þángað annar farið.[1] Á hinum forna þíngstað Íslendínga á þíngvöllum eru tvær gjár, sín hvoru megin við lögberg, sem liggja nærri saman til beggja enda; heitir hin eystri þeirra Nikulásargjá, en hin vestri Flosagjá. Er sú saga til þess, að þegar bardaginn varð á alþíngi 1012 af eptirmálinu um Njálsbrennu, er sagt, að Flosi hafi frelsað líf sitt með því móti, að hann tefldi á tvær hættur, og stökk vestur yfir gjána út af lögbergi til að forða sèr; er það hlaup talið átta faðmar, en miklu lægri er þó vestri gjábarmurinn en hinn eystri, sem hann stökk af. Frá hvorugum þessum atburði greinir Njála neitt, sem þó lýsir gjörla bardaganum.[2] Í Laugarnesi, skamt fyrir innan Reykjavík, er leiði Hallgerðar Höskuldsdóttur lángbrókar, konu Gunnars á Hlíðarenda. Það er sagt, að hún hafi beðið þess, að hún væri grafin þar, af því hún hefði átt að sjá það fyrir, að þar mundi síðar verða reist kirkja, en aðrir segja: settur biskupsstóll; ekki er það satt, að leiði hennar sè jafngrænt vetur og sumar, þó sögur segi svo, en seinna fölnar þar gras á haustin, en annarstaðar á Laugarnestúnum. Þó Njála geti ekki um legstað Lángbrókar, er ekkert ólíklegt, að sögnin sè sönn; því það er kunnugt, að Glúmur Ólafsson miðmaður Hallgerðar átti í sameiníngu við Þórarinn bróður sinn bæði Varmalæk í Andakíl, Laugarnes og Eingey, og urðu þeir á það sáttir, að meðan þeir lifðu báðir, skyldi Glúmur hafa Varmalæk, en Þórarinn Laugarnes, en þó áskildi Þórarinn sèr, ef hann lifði leingur, Varmalæk. Það er og ljóst, að hann flutti sig þángað eptir fall Glúms, en Hallgerður aptur að Laugarnesi.[3] Eptir það giptist hún í þriðja sinn Gunnari, og voru samfarir þeirra, sem kunnugt er af Njálu. Eingar munnmælasagnir eru mèr kunnar frá þeim tíma um hana, nema að hún hafi átt að svara Gunnari, er hann beiddi hana um lokka tvo úr hári hennar í bogastreing sinn,[4] á þessa leið:

„Illa man eg þèr þá kinnhestinn forðum,
er þú slóst mig undir Hlíðarenda borðum."

Eptir víg Gunnars fór Hallgerður til Þorgerðar dóttur sinnar að Grjótá og þar var hún að minnsta kosti 5 árum síðar 998, er hún hrakyrti

---

1. Þessi saga er hèr rituð eins og hún var sögð sèra M. Grímssyni austur í Fljótshlíð 1847.

2. Njála, 146. kap. Dr. Maurers Isl. Volkss. eptir sèra Símoni Bech og frásögn Bjarnar Bjarnarsonar í Kollafirði.

3. s. st. 13—14. og 17. kap.

4. s. st. 78. kap.

Njál og sonu hans.[1] Eptir fall þráins er ekkert ólíklegt, að hún hafi farið aptur að Laugarnesi, látist þar, og verið þar grafin að ósk sinni; er þar kallað Hallgerðarleiði suðaustur frá bæ þeim, sem stendur suður og upp frá biskupsstofunni á Laugarnestúni. En ekki er líklegt, að atriðið um biskupsstólinn í Laugarnesi, ef það á að fylgja sögunni, geti verið eldra, en síðan hann var settur þar árið 1825. það munu og vera munnmæli, en ekki tekið eptir handritum Njálu, að Hallgerður hafi átt að segja, eptir að hún tók kristna trú: „það hlægir mig, að Gunnar dó í heiðni (eða: maður heiðinn), en eg er kona kristin“.[2]

**Sagnir úr Grettlu.** Einna flestar sagnir hafa verið af Gretti sterka Asmundssyni, sem enn gánga í munnmælum. það er of lángt upp að telja öll þau örnefni, sem við hann eru kend, t. d. gljúfur og hæðir eða steinar, sem hann skal hafa sett á hlóðir híngað og þángað. Stundum fara sögur þessar af sama efni, sem frá er skýrt í sögu hans, en stundum eru þær um annað. Enn sèst t. d. Spjótsmýri milli Reykja og þórodds-staða í Hrútafirði, þar sem Grettir misti spjótsodd sinn, þegar hann drap þorbjörn öxnamegn.[3] Grettislaugar heita hjá Reykhólum á Reykjanesi, þar sem hann gekk í bað; þar er og nærri Grettishlaup, þar sem hann átti að hafa stokkið á milli tveggja hóla, sem enn heita Hellishólar,[4] og er það giskalángt hlaup. Grettisvarða og Grettishjalli heitir hjá Vatns-firði, þar sem Grettir dvaldi um hríð, og Grettistángi í Selvatni, þar sem hann var handtekinn;[5] og er sagt, að hjallinn hafi verið bústaður Grettis, en varðan hafi verið hlaðin af einhverjum, til að vísa leið þángað.[6] Grettisbæli heitir hellirinn í Fagraskógarfjalli, þar sem hann hafðist leingi við, og Grettishlaup við Hafíjarðará, þar sem hann náði Gísla þorsteinssyni, gortaranum mikla, eptir lángan eltíngaleik og afhýddi hann.[7] Enn sèr og stað þann hjá Sandhaugum í Bárðardal, þar sem Grettir átti við tröllkonuna, og heitir hann Grettisstöðvar, og þar sem hann óð með hús-móður sína um hávetur yfir Eyadalsá í vatnagángi og með jakaburði, til jólatíða.[8] Í Goðafossi, sem er ákaflega stór og í dalnum sama, sèr enn

1. st. st. 92. kap.

2. Eptir Dr. Maurers Isl. Volkss. 220—221. bls. og almennum sögum á Suðurlandi.

3. Grettissaga (Kh. 1853), 48—49. kap., 109—111. bls.

4. s. st. 50. kap., 114. bls.

5. s. st. 52. kap., 118.—121. bls.

6. Sèra Jón Yngvaldsson, sem var um tíma, fyrir 40 árum, í Vatnsfirði, hefir sagt, að varðan væri hlaðin á bergklöpp á hjallanum, 6—8 álna ummáls að neðan, en dragist að sèr á allavega upp eptir, sè hún kringlótt utan, 4 álna á hæð, og skál eða hvilft ofan í, rúmlega álnar djúp, og hafi sagt verið, að Grettir hefði átt að leita sèr vígis í vörðu þessari einhvern tíma.

7. Grettissaga, 58—59. kap., 132—136. bls.

8. s. st. 64—65. kap., 149—151. bls.

helli inn undir vatninu, sem Grettir seig í og vann bergrisann.[1] Á Drángey sèst enn Grettiskofi, þar sem þessi ránsmaður hafðist við og fèll, og Hæríngshlaup útsunnanvert á eynni, þar sem Hæríngur norski steypti sèr ofan fyrir, sem var manna brattgeingastur, og ætlaði að koma óvörum að þeim Gretti, sem alstaðar átti ofsóknum að mæta.[2] — Stundum víkja munnmælasögurnar meir frá bóksögunni. Grettissaga getur reyndar nokkurra steina ákaflega stórra, sem Grettir hafi reynt afl sitt á, tekið upp, látið undir þá aðra steina, og sett þá þar ofan á; er það kallað að setja, eða hefja stein á hlóðir. Einn þeirra er á Sleðaási á Kaldadalsvegi fyrir ofan Þíngvallasveit, annar á Hrútafjarðarhálsi, og hinn þriðji í Hítardal; eru þeir hver um sig kallaðir Grettishaf.[3] Nú á dögum má víða sjá líka steina að stærð þessum, sem fyrr var getið, og eru þeir allir kallaðir einu nafni Grettistak, sem þýðir sama og Grettishaf. — Alt eins fara ýmsar sögur af því, að Grettir hafi geingið í háfjöll og dránga, sem síðan bera menjar hans að einhverju leyti. Austanvert við Vatnsdalsfjall geingur dalur til suðurs; hann er örmjór, og heitir Sauðadalur. Austan megin þess dals er fjall, sem kallað er einu nafni Svínadalsfjall. Nyrsti tindur þess heitir Reykjanybba, og dregur hann nafn af bænum Reykjum á Reykjabraut, er stendur skamt fyrir norðan og neðan Nybbuna, svo að segja undir fjallinu. Reykjanybba dregst mjög að sèr ofan, og er alllík að lögun Baulu í Mýrasýslu og Keili á Suðurlandi í Gullbríngusýslu. Mestur hluti af Reykjanybbu er eintómt smágrjót, og efri hlutinn að norðanverðu alþakinn hvítum og gulleitum sandi og tekur hann yfir allan efri og nyrðri hluta Nybbunnar. Sandur þessi hinn hvíti er kallaður Grettisskyrta. En því heitir sandblettur þessi svo, að þá er Grettir fór eitt sinn í Reykjalaug, er sagt að hann hafi ekki farið af skyrtu sinni; en er hann kom úr lauginni, hafi hann geingið upp á Reykjanybbu, og breytt skyrtuna til þerris á hana norðanverða; hafi þá sandurinn breytt lit sínum og tekið skyrtulitinn, og orðið hvítur alstaðar þar, sem skyrtan náði yfir. Önnur Grettisskyrta er til í Skagafirði í Staðarfjöllum. Þar er sagt, að Grettir hafi breytt skyrtu sína á fjallás einn, hvort sem það hefir átt að vera, eptir að hann fór í Reykjaströnd,[4] eða við annan atburð. Síðan er fjallás þessi gulhvítur ofan og niður eptir austurhlíðinni, og segja kunnugir menn, að blettur þessi á fjallinu líti út, til að sjá, eins og skyrta, sem heingd væri á stag eða þvottaás, blakti fyrir vindi. Fjallið heitir síðan Grettisskyrta.[5] Hjá Steinsstöðum í Öxnadal er tindur einn

---

1. s. st. 65—66. kap., 152—154. bls.
2. Grettissaga 78. kap., 171—172. bls.
3. s. st. 16, 30. og 59. kap., 31, 71. og 135. bls.
4. Sbr. Grettlu, 77. kap., 170. bls.
5. almenn sögn í Húnavatnssýslu og Skagafjarðarsýslu.

hár mjög, sem Drángur heitir.[1] Sagt er að Grettir hafi einu sinni klifrast efst upp á Dránginn, og heingt þar til sannindamerkis hníf sinn og belti, og sagt, að hvorttveggja skyldi sá eignast, sem sækti það. En til þess hefir einginn orðið um, því eingum þykir þar fært upp að komast.[2] Undir Eyafjöllum er hamragljúfur eitt sem Grettisskarð heitir; það liggur úr óbyggðum og veit móti sjó og Suðurlandi, en ókunnugt er mönnum, hver rök liggi til örnefnis þessa.[3] — Frá því er sagt í Grettissögu, að Grettir rændi einu sinni 4 sauðum, meðan hann hafðist við í Fagraskógarfjalli; en þegar hann sá, að bændur veittu sèr eptirför, og hann mundi ekki draga undan þeim, tók hann sauðina, og krækti saman tvo og tvo á hornunum, lagði á öxl sèr, og gekk síðan í hægðum sínum upp fjallið,[4] svo snarbratt sem það er, upp í bæli sitt. Um þenna atburð gánga ýmsar missagnir, sem sín segir hvað um staðinn, sem Grettir hafi borið sauðina yfir. Milli Skoradals og Svínadals í Borgarfirði er fjallgarður allhár og brattur, sem Dragi heitir; þar segja sumir, að þessi atburður hafi orðið, og að Grettir hafi sagt, þegar hann fór að þreytast undan byrðinni og af hlaupunum, en var þó kominn upp á fjallið: „Lítið er það, sem gángandi manninn dregur ekki.“ Er það síðan haft fyrir orðtak, og segja menn, að fjallið hafi af þessu feingið nafn sitt.[5] En Norðlendíngar segja, að þessi atburður hafi orðið á Sandi, sem nú skal getið. Grettishæð heitir norðarlega á Stórasandi, og er mælt, að Þorbjörn aungull hafi dysjað höfuð Grettis í hæðinni. Skamt þar fyrir neðan er klettagljúfur, og er það að mestu vatnslaust, þegar snjóar eru leystir, það heitir Grettishlaup.[6] Einu sinni hafði skessa elt Gretti að gljúfrinu, og ætlað að taka af honum fjóra hrúta, sem hann hafði náð. Hann krækti þá hrútana saman á hornunum, heingdi svo yfir axlir sèr í bak og fyrir, og stökk síðan yfir, en gat naumast stöðvað sig á bakkanum hinu megin. „Vel stokkið“, mælti tröllkonan, „ef maðurinn hefði verið óhræddur.“ „Lítið er það, sem gángandi manninn dregur ekki“, sagði Grettir; „en stöktu betur; þú ert laus og óhrædd.“ Hún rann þá eptir, en gat ekki stöðvað sig á barminum; náði hún í víðirunna, og hèkk svo fram af; þó ætlaði hún að vega sig upp. En

1. Sèra Magnús Grímsson kallar tindinn Grettisnýpu og ber fyrir því sögn Öxndælínga sumarið 1847.

2. Dr. Maurers Isl. Volkss. 222—223. bls. eptir Stefáni alþíngismanni Jónssyni á Steinsstöðum.

3. Dr. Maurers Isl. Volkss. 223. bls. eptir sèra Kjartani Jónssyni.

4. Grettissaga, 59. kap., 134. bls.

5. Harðarsaga Grímkelssonar (í Isl. sögum. II, Kh. 1847), 23. kap., 87. bls. segir öðruvísi frá því, hvernig Draga-nafnið er tilkomið.

6. „minnir mig“, segir sèra Skúli Gíslason, sem þessi sögn er frá eptir Einari Bjarnasyni á Mælifelli.

Grettir gekk þá að og hjó á hríslurnar, svo tröllkonan steyptist í gljúfrið, og varð það hennar bani.[1]

---

## 3. GREIN.

### SAGNIR FRÁ SEINNI ÖLDUM.

Það eru ekki að eins til sagnir um fornöldina, heldur jafnvel enn fleiri og fjölkynjaðri frá seinni öldum, og lítur það svo út, sem munnmælin hafi öllu heldur gert sèr hina seinni viðburði að yrkisefni, en hina fyrri, enn þótt þeir eigi ekki nándar nærri að styðjast við jafnmerk og ágæt sagnarit, eða að minnsta kosti ekki eins alkunn, og fornaldarritin eru nú orðin. Stundum hafa vísur og ljóðmæli, sem ort hafa verið um viðburðina sjálfa, viðhaldið minníngu þeirra, alt eins og vísurnar í fornöld voru álitnar hin óvaltasta undirstaða bóksaganna.[2] Stundum loðir sögnin við einhverjar menjar eða mannvirki, eða þá við einhverja sèrstaklega venju. En allra optast eru það þó örnefnin, sem halda uppi minníng viðburðanna enn þótt þeir sèu í sjálfu sèr lítilsverðir. Í slíkum tilfellum er opt örðugt að segja, hvort munnmælin hafi í raun rèttri nokkurn viðburð við að styðjast, eða hvort þau hafi ekki öllu heldur verið búin til, til þess að gera venjuna eða menjarnar sjálfar merkilegar, ef nafnið hefir virzt þýðíngar mikið í sjálfu sèr. Viðburðir þeir, sem munnmælin halda helzt á lopt, eru alls ekki merkis viðburðir úr sögunni, heldur miklu fremur þesskonar atvik, sem eru sèrstaklegs eðlis, en eru þó eingu að síður áhrifsmikil og merkileg að sínu leyti. Þýðíng sú, sem munnmælin leggja í þessa viðburði, snertir þannig ekki gjörvalt landið, heldur að eins einstök hèruð, einstaka bæi, og einstakar ættir; um þetta alt láta þjóðsögurnar sèr ant, og ekki síður um blæinn á hinum einstöku atriðum.

a) Víða hefir haldizt vel við minníngin um miklar landplágur, drepsóttir, dýrtíð og óár, sem komið hafa yfir ýms hèruð, og alt eins um jarðelda og vatna umbrot. Þannig er sagt,[3] að Náhlíð, hèrað eitt vestur í Dölum, dragi nafn af mannfelli þeim, sem þar varð í Svarta-dauða, eins er Sóttarhellir á afrètt Fljótshlíðarmanna, frá þeim tíma, og frásagan um Galdramennina í Vestmannaeyum, og er beggja hinna síðast nefndu áður

---

1. Húnvetníngar hafa sögu um, að þessi atburður hafi átt að vera við Blöndugil, þar sem hún rennur í 7—8 faðma breiðum stokki milli klappa fyrir ofan bygð, og heiti þar Grettishlaup, er Grettir stökk yfir ána milli klappanna með tvo sauði krækta saman.

2. Konúnga-sögur af Snorra Sturlusyni. Holmiæ, 1816. I, 4. bls.

3. Eptir sèra Guðmundi Einarssyni á Kvennabrekku.

getið.[1] Eins eru ekki fáar sögur af eldgángi og, auðnum þeim, sem vatnsflóð hafa ollað hèr á landi, híngað og þángað, og eru þessi dæmi þar til ásamt öðrum.

**Svarti-dauði.** Um það bil sem Svarti-dauði tók að geysa, var það siður bónda á einum bæ, að hann las á hverjum morgni vetur, sumar, vor og haust. Eitt sinn var verið að taka saman hey, því rigníngarlega leit út. Vildi nú bóndi fara heim að lesa, en sumir löttu þessa, og sögðu það væri nær að bjarga heyinu. Varð það þó úr, að bóndi fór heim með fólki sínu og las. Um daginn sáust tveir ofurlitlir skýhnoðrar; færðust þeir nær og stækkuðu, og urðu loksins að karlmanni og kvennmanni, sem riðu gráum hestum. Þau riðu fyrir ofan garð hjá bónda; þá segir hún: „Skal hèr heim?" „Nei", segir hann, „það var oss ekki boðið." Nú dundi Svarti-dauði yfir, en á þenna bæ kom hann aldrei, og lifði þar alt fólk af.[2]

**Kaupángur.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 224—225. bls.) Svo heitir nú bær einn í Eyafirði, en sagt er, að hann hafi áður heitið Bíldsá,[3] og hafi hann verið nefndur Kaupángur, af því að hann hafi verið seldur við gjafverði í húngursári. Þessi saga, sem á svo vel við bæarnafnið, og sem þess vegna kynni í sjálfu sèr að virðast grunsöm, stendur þó alls ekki ein á blaði, því enn eru til margar fleiri sögur um sama óár þar í bygðarlaginu.

**Grund í Eyafirði.** (Sama heimild 225. bls.) Grund hefir alla jafna þókt eitthvert hið mesta höfuðból í því hèraði. Sagt er að hún hafi verið seld í sama óárinu, og Bíldsá, og það fyrir ekki meira, en einn sauðarbóg, og sannaðist þar, að neyð er einginn kaupmaður. Enda er sagt, að hinn fyrri eigandi Grundar hafi einhvern tíma síðar riðið þar hjá, dæst við og mælt þessa vísu fyrir munni sèr:

„Þar um eg þenkja má
þegar eg ríð þar hjá
góð ertu Grund að sjá:
guð veit, hver hana á."

**Ærsíða og Hryggur.** (Eptir sögnum nyrðra og syðra.) Margar eru slíkar sögur fleiri um jarðir, sem sagt er, að hafi verið seldar fyrir eitt einasta stykki af kindum og svo frv. og verið síðan kendar við stykkin, sem fyrir

---

1. Sjá 185. bls. og 321—323. bls. í I. Bindinu.
2. *Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.*
3. Ln. III, 12. kap. 207. bls.

þær feingust, þannig er t. a. m. Ægisíða í Húnavatnssýslu og í Rángárvallasýslu, og eigi þeir bæir síðan að heita rèttu nafni Ærsíða. Eins er með Hrygg í Flóa, að sagt er að fyrir þá jörð hafi verið gefinn uxahryggur í harðindis ári.

**Sveinn lögmaður í dúlar búníngi.** (Eptir handriti frá sèra Eiríki Kúld á Helgafelli.) Á dögum Sveins lögmanns, Sölvasonar á Múnkaþverá, var hallæri mikið og mannfækkun, svo margir bæir eyddust, en fólkið flæktist víða, einkum vestur, og settu menn sig þar niður. Voru þetta afleiðíngar af fjársýkinni, og jarðeldunum, og öskufallinu. Um þessar mundir bjuggu hjón ein á næsta bæ við Múnkaþverá. Þau höfðu nóg af öllu, og þurftu ekki að líða skort á neinu, en mjög voru þau harðbrjósta, og því meir, sem harðindin uxu, því meir óx einnig miskunarleysi þeirra, og var þar eingum fátækum hjálpar að leita. Þegar einhver fátækur kom og beiddi að lofa sèr að vera, vísuðu þau honum að Múnkaþverá; sögðu þau, að lögmanns fjandinn væri nógu ríkur; en þegar ríkismenn og höfðíngjar komu til þessara hjóna, skorti ekkert. Buðu þau aldrei neinum, sem þau hèldu að ekki gæti boðið þeim aptur. Einu sinni á áliðnum degi, bar svo við, að karl einn, ílla til fara, kom á bæ þenna; hafði hann ofan fletta mórauða hettu, eins og þá var siður til, og vondan hattgarm þar ofan yfir; hann var í götóttri og stagbættri úlpu, og mátti heita svo, að í hann skini beran. Karl þessi guðaði í dyrunum; kom þá stúlka fram, sem karlinum leizt vel á; spurði karlinn hana, hvort hann mundi ekki fá að vera þar um nóttina; sagði stúlkan, að það væri óvíst, því honum mundi líklega verða vísað til Múnkaþverár, eins og öðrum; en karlinn sagðist ekki mundi komast þángað, því hann væri bæði kaldur og svángur og mundi hann örmagnast á leiðinni; sagði hann, að ekki væri það heldur víst, að Sveinn lofaði sèr að vera; mundi hann verða leiður á fátæka fólkinu, eins og aðrir; fór karlinn þá að skjálfa ákaflega og bað stúlkuna um fram alt, að fara til hjónanna og leggja til með sèr, að hann feingi að vera. Fór þá stúlkan inn, en kom fram litlu seinna og sagði, að hann kynni að fá að standa inni; fór hann þá með stúlkunni inn á baðstofugólfið; pallskák var öðru megin í baðstofunni, eins og þá var siður. Þar var rúmflet vinnukonunnar, og bauð hún honum að setjast þar. Einginn talaði orð við hann; leið svo rökkrið. En loksins, þegar búið var að kveykja, kom konan ofan á gólfið; spurði hún þá karlinn að, hvort það væri ekki skemtilegra fyrir hann, að halda á einhverju; þeir vildu fá að jeta og drekka, en nentu þó ekkert að gera; spurði hún hann, hvort hann gæti ekki hnuðlað neðan við sokk; karlinn sagðist skyldi reyna það. Fèkk hún honum þá þurra neðanprjónínga; spurði karlinn, hvort ekki væri betra að væta þá, en hún sagðist halda, að hann væri ekki of góður til þess sjálfur, og vísaði honum á þvæliker og gekk svo í burtu. Tók þá

vinnukonan sokkana, og vatt þá upp fyrir karlinn; fór hann þá að þæfa. Að laungum tíma liðnum, kom konan, að skoða þófið, og hafði það eingum framförum tekið; varð hún þá mjög reið og gaf honum mörg hrakyrði. Loksins, þegar háttatími var kominn, var honum vísað að liggja á reiðíngstorfu á pallskákinni móti stúlkunni, og lítið eitt af flautum var honum gefið til næríngar. En þegar háttað var, kom stúlkan til hans, að hlynna að honum; lèði hún honum þá koddann sinn og hempu sína ofan á sig, og það, sem henni var skamtað, gaf hún honum. Undir eins og dagur kom, fór karlinn á stað, og vissu menn ekkert, hvað af honum varð. En snemma þenna dag kom lögmaðurinn ríðandi; gekk þá bóndi út að fagna honum, bauð hann honum í skemmu sína, og veitti honum ágæta vel. Fóru þeir nú að tala um harðindin, og hvað bágt væri að haldast við vegna fátæklínganna; sagði þá bóndinn, að einn djöfullinn hefði verið hjá sèr í nótt, en hann hefði farið snemma á stað um morguninn. Síðan gerir lögmaður boð eptir vinnukonu, og þakkar henni fyrir alla aðhjúkrun fyrir farandi nótt; sagði hann, að hún væri of góð að vera hjá þvílíkum húsbændum, og skyldi hún koma með sèr, því sig lángaði til að launa henni góðsemi hennar. Síðan gerir hann húsbændum hennar harða áminníngu, og svo brá þeim við það, að þau gerðu jafnan gott fátækum eptir það. Stúlkan fór heim með honum, og gipti hann hana vel.

**Staung og Steinarsstaðir.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 225. bls. eptir Oddi á Hamarsheiði.) Fleiri landplágur eru það, en óárin, sem mönnum hafa orðið minnisstæð, og eru það ekki sízt eldgosin, eins og vonlegt er, sem ollað hafa svo miklum landauðnum á Íslandi. — Í Fossárdal eyddu t. d. Rauðukambar í einu gosi heil mörgum bæum, sem aldrei hafa bygzt aptur, og eru tveir þeirra nefndir í þessari vísu:

„Þá er Haukur bjó í Staung
var leiðin ekki laung
þaðan til Steinarsstaða.“

**Kirkjustaður undir Hekluhrauni.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Breiðabólstað.) Einhvern tíma geingu skólapiltar nokkrir frá Skálholti heim til sín um jólin, að fjallabaki austur á Síðu og í Skaptártúngu. Þeir fóru hinn sama veg suður aptur í góðu veðri. En þegar þeir komu vestur í Hekluhraun, hvarf einn þeirra snögglega, svo að þeir vissu ekkert, hvað af honum varð. Leituðu þeir hans leingi, en fundu ekki, og hurfu frá við svo búið, og ætluðu, að hann hefði farizt í einhverri hraungjánni. Var það og rètt til gefið, að hann fèll í hraungjá eina, og hrapaði leingi, sem í gljúfri, datt seinast hátt fall og kom niður á graslendi. Þegar hann hafði svo geingið þar um stund, fann hann, að hann var kominn á slegna

jörð. Um síðir kom hann að bæarhúsum, sem stigur lá að, þaðan rakti hann annan stig og kom þá að kirkju; síðan gekk hann heim aptur til bæarins, og var hann ólæstur. Hann gekk inn og til baðstofu, og fann þar fyrir sèr uppbúið rúm, lagðist upp í það, og sofnaði skjótt, því hann var bæði þreyttur og þrekaður eptir fallið. Hann dreymdi þá, að aldraður maður kæmi til sín, og segði sèr, að hèr væri kirkjustaður í sókn þeirri, sem af hefði farið í næsta Heklugosi á undan, og hefði hraunið lukzt yfir húsin, alt heimilis fólkið hefði dáið, en hann einn lifað eptir, grafið fólkið og jarðsungið, því hann hefði verið prestur þar í sókninni. „þegar þú vaknar," mælti hann, „skaltu leita eldfæra undir höfðalagi þínu, en kerti finnur þú á hyllu þar uppi yfir, muntu þá bráðum finna mig dauðan; bið eg þig að jarða mig að kirkju minni á rèttan hátt, og lesa þá ræðu yfir mèr, sem þú munt finna. Vistir munu þèr nægja hèr til hálfs þriðja árs." Eptir það vaknaði maðurinn, og fann eldfærin og kertið, þar sem honum var tilvísað; sá hann þá, að borð stóð skamt frá rúminu; sat þar maður við á stól, og hallaðist örendur fram á borðið, og lá ræðan á borðinu fyrir framan hann. Maðurinn fór nú að öllu, eins og fyrir hann var lagt; síðan fór hann að byggja stöpul með þrepum í upp að gjá þeirri, sem hann hafði fallið niður um; var hann leingi að því, þángað til að hann gat lagt stiga af stöplinum upp í gjána, og klifrazt upp. Fór hann svo til bygða og fèkk sèr mannhjálp og festar, til að síga niður og ná því undan hrauninu, sem fèmætt var.

**Hornafjarðarfljót.** (þessi saga er hèr eins og hún var sögð M. Grímssyni í Hornafirðinum 1847.) Hornafjarðarfljót koma úr Heiðnabergsjökli. Falla þau niður miðjan Hornafjörð, og eyddu þar bæi marga, þegar þau hlupu fram úr jöklinum. — þar var áður fögur sveit og þèttbýli mikið, sem nú eru fljótin. Jökullinn hljóp um nótt, þegar alt fólk var í svefni. Fórust þar allir og varð eingu bjargað, hvorki mönnum nè skepnum. Sópuðu fljótin gjörsamlega öllu burtu, bæum og húsum og því sem í var, og fylgdi þar grassvörðurinn með. þurkaðist þannig sveitin öll af, og þókti það mikil sjón og ógurleg um morguninn, þegar menn sáu vegsummerki.

þrem árum síðar var smali á ferð niður við ósinn á fljótinu. Hundur hans nam staðar við þúfu eina á sandinum. Smalinn ætlaði að halda á fram, en rakkinn flaðraði upp um hann og hljóp ýmist að þúfunni og rótaði í henni snuddandi, eða að smalamanni. Smalinn gekk þá að þúfunni og vildi vita, hvað um væri að vera. Heyrði hann þá hundsgelt niðri í þúfunni. Reif hann þá til og fann þar stúlku eina og hund hjá henni. Hún hafði verið þar síðan hlaupið varð, og hafði húsið, sem hún var í, haldið sèr, en sandorpið. Hafði hún fundið þar í nægan mat handa sèr og hundinum. Smalinn fór heim með fundinn, og þókti atburðurinn merkilegur, og þykir svo enn í dag.

**b)** En optar eru það önnur slys, sem munnmælasögurnar segja frá. Þannig er til talsverður hópur af sögum, sem gera barnamissi að umtalsefni, og eiga þær margar hverjar örnefni við að styðjast. Barnaborgir heita hraunhólar tveir í Hnappadalssýslu. Sagt er, að þeir dragi nafn af því, að einu sinni hafi tvö börn frá næsta bæ vilzt þángað, og dáið í þessari óttalegu auðn.[1]

**Barnafell.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 225—226. bls. eptir Bergþóri á Ljósavatni.) Barnafell er kallað í Bárðardal; það fell er ekki lángt frá hinum mikla og fagra Goðafossi í Skjálfandafljóti. Undir fellinu er annar foss, sem dregur nafn af því, og heitir Barnafellsfoss. Einu sinni voru börn að leika sèr með tunnu uppi á fellinu, fóru inn í hana, og komu á hana veltu af vangá. En tunnan valt ofan eptir hlíðinni, sem er bæði grasi vaxin og snarbrött, ofan í fossinn, og drukknuðu börnin þar. Af þessu dregur fossinn síðan nafn, og fellið einnig, en áður hèt það Miðfell.

**Barnafoss.** (Eptir vanalegri sögn manna í Borgarfirði.) Það er sagt, að eptir það að Músa-Bölverkur í Hraunsási veitti Hvítá í gegn um ásinn, hafi verið steinbogi á ánni sjálfgjörður. Einu sinni laungu seinna bjó kona ein gömul í Hraunsási; hún var fróð og forn í skapi. Hún átti tvo syni stálpaða. Einn sunnudag fór hún og alt heimafólk hennar til kirkju upp að Gilsbakka, því þángað átti þá Hraunsás kirkjusókn. Var einginn eptir heima á bænum, nema sveinarnir, synir kerlíngar. Móðir þeirra tók þeim vara fyrir að fara nokkurt fet frá bænum, á meðan hún væri í burtu. En þegar fólkið var farið, reikuðu sveinarnir upp á ásinn, og rèðust í að fara á eptir kirkjufólkinu, því þeir sáu til þess í hópum fyrir handan ána. Þeir geingu nú að steinboganum, en hann var mjór, og hátt nokkuð frá vatninu; en foss var undir boganum. Sveinarnir tóku þá höndum saman og leiddust út á bogann. En þegar þeir komu út á hann, varð þeim litið niður fyrir sig í iðuna, og þá sundlaði þá, svo þeir duttu út af boganum ofan í ána. Þegar fólkið kom heim, fundust sveinarnir hvergi. Móðir þeirra lèt leita þeirra, en það kom fyrir ekki. Frètti hún þá, hvernig á stóð; því einhver hafði sèð til sveinanna, en orðið of seinn til að hjálpa þeim. Reiddist þá gamla konan og lèt höggva steinbogann af ánni, með þeim ummælum, að þar skyldi einginn framar lífs yfir komast, og hafa þau álög haldizt. Fossinn er síðan kallaður Barnafoss. Móðir sveinanna hèt að gefa þeirri kirkju jörð sína Norðurreyki, sem þar ætti sókn að Hvítá, sem líkin ræki á land, en þeirri kirkju, sem þau yrðu grafin við skyldi hún gefa Hraunsás og Húsafell í legkaup. Nokkru síðar rak lík sveinanna á land hjá Norðurreykjum, en það var í Reykholtssókn.

---

1. Dr. Maurers Isl. Volkss. 225. bls. eptir Kristjáni Sigurðssyni í Hítardal.

Sveinarnir voru jarðaðir í Reykholti, og fèkk því Reykholtskirkja allar jarðirnar, og á hún þær enn í dag.

**Nikulásargjá.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 227. bls. eptir sèra Símoni á þíngvöllum.) Þjóðsögurnar geta og þess, ef menn fyrir fara sèr sjálfir, og einkum, ef það eru heldri menn, og af sèrstaklegum orsökum. Þannig heitir Nikulásargjá gjá sú, sem liggur austanvert við Lögberg á hinum forna þíngstað Íslendínga á þíngvöllum, og eru þau drög til þess, að Nikulás sýslumaður Magnússon í Rángárvallasýslu skal hafa steypt sèr í hana, af því hann óttaðist, að hann mundi falla á mannorðsmáli, sem hann átti í um það leyti. Þessi viðburður er sagt að hafi orðið 1742.[1]

c) Þá eru ræníngjasögur alltíðar á Íslandi, sem von er á, þar sem þeir hafa svo opt gert hèr óskunda. Áður er vikið á rán Tyrkja frá Algier á norðurlandi, í Selvogi, og í Vestmannaeyum,[2] og sagt er að Grímseyíngar kunni enn ýmsar sögur um rán þeirra hèr, og til skamms tíma hefir það verið venja þar, að prestar hafi á tilteknum dögum prèdikað móti Tyrkjum.[3] Spanska nöf heitir bergsnös ein milli Ytri-Laxár og Blöndu á Refasveit í Húnavatnssýslu. Þar er sagt að Íslendíngar hafi barizt við sjóræníngja frá Spáni, og felt þá; skamt þaðan er hóll ein, sem þeir voru dysjaðir í sem fallið höfðu.[4] En munnmælin hafa ekki að eins búið til sögur um útlenda ræníngja, heldur og um innlenda, og er það því skiljanlegra, sem háttalag þeirra virðist nú fyrst á seinni öldum hafa á sèr einskonar undarlegan blæ, og hálfvegis skreytilegan. Hèr eru nokkrar þeirra.

**Gaukshöfði.** (Sèra Skúli Gíslason eptir sögnum í Gnúpverjahrepp og Dr. Maurers Isl. Volkss. 228. bls. eptir Oddi á Hamarsheiði.) Gaukshöfðavað heitir efsta vaðið á Þjórsá niðri í bygð; það er í Þjórsárdal, og dregur nafn af höfða nokkrum við ána, liggja sumstaðar klettar að höfðanum, en sumstaðar brattar brekkur. Höfðinn dregur aptur nafn af manni þeim, sem Gaukur hèt; hafði hann orðið sekur, og átti sèr bæli og vígi í höfðanum, þar sem klettarnir eru mestir, og rèðst þaðan á menn til rána. Seinast komust þó ferðamenn, sem hann hafði ráðizt á, milli hans og bælisins og var hann veginn þar á sandinum fyrir framan höfðann og dysjaður síðan. Fyrir nokkrum árum fèll jarðfall fram úr hlíðinni, og fundust þar mannsbein og leifar af sverði, og hefir sèð stað beinanna til þessa, og hafa sumir látið mikið yfir stærð þeirra.

1. Esp. Árb. IX. 148. bls. og Eptirmæli 18. aldar 8° 648. bls.
2. Sjá þáttinn af Hálfdáni í Felli, Eiríki á Vogsósum, og um reyniviðinn.
3. Dr. Maurers Isl. Volkss. 227. bls. eptir sèra Jóni Austmann.
4. Dr. Maurers Isl. Volkss. 227. bls. eptir sèra Birni Þorlákssyni á Höskuldsstöðum.

**Sölfahellir.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 228. bls. eptir Bergþóri á Ljósavatni.) Hjá Goðafossi í Bárðardal er Sölfahellir og ber mjög lítið á honum. Í þeim helli er sagt, að útlægur ræníngi hafi haldið sig lánga tíma, sem Sölfi hèt, án þess menn yrðu þess vísari, hvar hann hefðist við. Einu sinni var hann svo grunnhygginn, að hann breiddi klæði sín til þerris fyrir framan hellinn. En af því hvít línklæðin blöstu við í glaða sólskininu, þeim megin úr dalnum, sem gagnvart liggur hellinum, komst það upp, hvar hann var niðurkominn. Var honum þá veitt aðför og hann drepinn.

**Rútshellir.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 228. eptir húsfrú Kristinu á Krossi, sèra Kjartani í Skógum og enn fleiri Eyfellíngum.) Rútshellir er hjá Hrútafelli undir Eyafjöllum, og er hann bæði víður og stór. Hellir þessi er gerður af mannahöndum og hvelfdur að ofan. Gaung eru út úr honum að vestanverðu, eða á vinstri hönd, þegar inn er komið og liggur þar annar hellir þvert yfir hinn að ofan, og lopt á milli sjálfgert úr berginu. Í þessum helli er sagt, að Rútur hafi leingi hafzt við; segja sumir, að hann hafi verið sekur ránsmaður, aðrir að hann hafi verið sveitarhöfðíngi og farið ílla með yfirráð sín, og enn aðrir, að hann hafi verið tröll og illur viðureignar. Þó lopthellirinn væri ágætt vígi, rèðust hèraðsmenn þar að honum óvörum og drápu hann, með því að þeir gerðu gat á hellisgólfið undir rúmi hans, og lögðu hann þar upp um; en aðrir segja, að þeir hafi lagt hann að utan í gegnum gat, sem þeir hafi gert á hellinn, því á víðum velli þorðu þeir ekki að veita honum atgaungu. En svo voru þeir hræddir við hann dauðan, að einn þeirra, sem Björn hèt, flúði upp í Bjarnarfell, og ber það nafn hans síðan, en annar fór enn leingra um í óbygðir.

**Þjófahellir.** (Austan úr Mýrdal.) Þar sem þjóðvegurinn liggur austur úr Heiðardal og austur úr Vatnsársundum, er skamt fyrir ofan veginn hellir, sem heitir Þjófahellir; hann kvað vera ákaflega stór, þó nú sè að mestu gróið fyrir dyrnar. Svo er sagt, að í fyrndinni hafi bóndi búið á Litlu-Heiði, sem er hjáleiga frá prestssetrinu Heiði. Þessi bóndi hèlt únga og efnilega vinnukonu. Eitthvert kvöld nálægt jólaföstubyrjun í fögru veðri og túnglsskini fór hún að taka inn þvott í vökulokin. Hún kom ekki inn um nóttina; en daginn eptir var hennar leitað og fannst hún hvergi, og þó leingur væri leitað, fannst hún hvorki, nè spurðist til hennar. En þegar 3 ár voru liðin, var það eitt kvöld, nálægt í sama mund, er hún hafði horfið, að svo vildi til, að fólk var á gángi á Litlu-Heiði að gefa mjólkurkúm eptir vöku; kom þá áður nefnd vinnukona inn í bæinn og var með öndina í hálsinum og uppgefin af gaungu, og undir eins sást til fjögra manna, sem allir stefndu heim að Litlu-Heiði, en með

því að fólk var á gángi, þá sneru þeir aptur við túngarðinn. Fólkið varð aldeilis hissa, að hún, sem allir ætluðu fyrir laungu dauða, skyldi nú koma eins snögglega, eins og hún fór, og spurðu hana, hvar hún hefði dvalið í 3 ár. Hún sagði: „Þegar eg var að taka saman þvottinn, kom að mèr maður mikill vexti; hann greip mig strax upp, en í sama vetfángi stakk hann upp í mig vetlíngi sínum, og því gat eg hvorki hljóðað nè kallað um hjálp. Þessi maður bar mig austur frá bænum og þá sá eg, að mennirnir voru 4. Þeir skiptust til að bera mig og heldu beina leið austur í Vatnsársund og námu loks staðar sunnanmegin í sundunum. Þar var hellir mikill. Þar fóru þeir inn með mig, kveyktu þar ljós, buðu mèr mat, og bjuggu um mig í tómum gæruskinnum, því ekki var annað til. Í fleti þessu lètu þeir mig liggja á milli sín, og munu þeir leingi ekki hafa sofið allir í senn. Eigi skorti mig gott atlæti, og mat mátti eg hafa nógan, og var það kjöt og silúngur, því annað var ekki til. Svo gættu þeir mín nákvæmlega, að þegar þeir fóru til aðdrátta, var jafnan einn þeirra heima, til að gæta mín, svo mèr var ómögulegt að strjúka frá þeim. Þannig lifði eg hjá þeim í 3 ár. Mig tóku þeir einúngis til að þjóna sèr, og ekki vildu þeir láta neitt að mèr gánga, svo eg sá ekkert annað ráð, en að láta ekki á öðru bera, en eg væri allvel ánægð, svo upp á síðkastið voru þeir farnir að trúa mèr nokkurn veginn. Það var siður þeirra, að vera lítið á gángi á daginn, en á nóttunni fóru þeir opt til veiða. Lítið var fèmætt í hellinum og ekkert fè höfðu þeir, en tóku í þess stað öðruhverju kindur að skera úr ýmsum áttum, en silúngsveiði stunduðu þeir, þegar kostur var. Nú í haust var það fyrst, að þeir voru farnir að fara allir til aðdrátta, þó því að eins, að þeir færu ekki leingra en svo, að þeir sæju til mín, ef eg færi. Loks bar svo til, að þeir fóru allir til silúngsveiða, veiddu vel, en komu gagndrepa, svo ekki var þur þráður á þeim; hafði eg þá heitan mat á reiðum höndum; varð þeim því mjög vært, og sofnuðu allir; fór eg þá, eins og vant var, að þvo föt þeirra, því ekki var fatnaður til skipta. Eg þvoði og vatt föt þeirra og lèt þau til þeirra, því þeir vildu ætíð hafa þau við höndina. En í þetta sinn sneri eg um annari erminni á skyrtum og úlpum þeirra og annari buxna skálminni, og með því ekki var mjög dimt, en þeir í værum svefni, þá áræddi eg að fara burt; flýtti eg mèr þá, sem mest eg gat. En þegar eg var komin varla á miðja leið, heyrði eg kallað á eptir mèr, að eg skyldi bíða; þekti eg þá málróm þeirra, varð mjög hrædd og hljóp, sem eg orkaði, en þó dró saman. En það vildi svo vel til, að hèr var opinn bærinn, þegar eg kom að honum, enda voru þeir þá komnir að túngarði. En með því þeir hafa orðið þess varir, að fólk var á ferli, mun þeim hafa þókt ráð að snúa aptur.“ Með þessu móti komst vinnukonan heim aptur, en bóndi sagði strax grönnum sínum þessa sögu, og barst þetta á svipstundu um bygðina; tóku hèraðsmenn þá það ráð, að þeir söfnuðu fjöl-

menni, riðu að Litlu-Heiði og töluðu við bónda og vinnukonu hans, og spurðu hana, hvernig ástatt væri í hellinum, og hvort þjófarnir væru vopnaðir. Hún kvað vopn þeirra að vísu ekki vera góð, en hvorki mundu þá bresta karlmennsku nè áræði, og þar að auki mundu þeir geta varið svo hellisdyrnar, að þá sakaði ekki, því þær væru litlar og lágar, en dimt inn að sjá; en þeir væru optast inni á daginn, en væru þeir úti, mundu þeir ekki hætta til fundar við aðkomandi, nema þeir treystu sèr, og fáir mundu líka taka þá á hlaupi, því þeir væru fóthvatir. Talaðist þá svo til, að stúlkan skyldi fara með þeim, og skyldi hún gánga fyrir hellisdyrnar, en hinir þá vera viðbúnir ef þjófarnir leituðu út. Sumir segja, að vinnukonan gæfi þetta ráð; því allir bjuggust við, að þeir mundu fyrir hvern mun sækja eptir konunni, ef þeir yrðu ei við mannfjölda varir. Þeir riðu síðan austur í sund og voru flestir vopnaðir, skipuðu sèr þar, sem þeim þótti vænst, út frá dyrunum, en konuna lètu þeir gánga til dyra og staðnæmast þar. Þetta fór, eins og menn ætluðu. Þjófarnir komu þegar út allir, og segja sumir svo frá, að þeir hafi verið lagðir til bana jafnótt, og þeir komu út; en aðrir segja, að þeir hafi allir verið handteknir og teknir af með öðru móti, og verður ekki sagt, hvort sannara er. En hellirinn er síðan kallaður Þjófahellir.

Það er sagt, að á Litlu-Heiði hafi laungu seinna búið bóndi, sem átti dóttur, sem komin var yfir tvítugt, þegar bóndinn misti konu sína, en tók dóttur sína fyrir bústýru. Þegar dóttir hans var eitt sinn að sjóða kjöt í stórum potti til jólanna, var hún að því fram á nótt í mesta dimmviðri. En svo stóð á, að eldhúsið var beint innar frá bæardyrum, en milli eldhúss og bæardyra var öðru megin búr, en hinu megin skáli, sem var loptlaus og tómur, og var hann einúngis hafður til að fleygja einu og öðru í við tækifæri. Regn var mikið um kvöldið. En þegar stúlkan var búin að sjóða, bar hún kjötið fram í búr; henni varð litið inn í skálann, og sá hún að þar stóð maður miklu meiri, en aðrir menn, að vexti; hann hafði alklæðnað og vetlínga á höndum, og studdist fram á bita, sem í skálanum var; henni virtist maður þessi skjálfa og nötra af kulda og vera alvatur. Svo stórvaxinn virtist henni hann, að hann studdist á fram á skálabitann, sem þó var velmanngeingt undir. Hún varð ákaflega hrædd, en sagði þó við manninn, sem stóð þegjandi: „Þèr er nær að fara inn í eldhús, þar er fullur pottur af heitu soði, og er þèr nær að drekka það, en skjálfa þarna í kulda“, og í sama bili stökk hún út og í annað hús, þar sem fólkið var, en skelti aptur bænum, og var ekki um þetta vitjað, fyrr en um morguninn. Þá var maðurinn horfinn, og tómur soðpotturinn, en eingu spilt. En aldrei varð vart við þennan mann fyrr, nè síðar.

**Kolbeinshellir.** (Eptir sögnum úr Hornafirði.) Neðan til við eða neðst í stórgrýtisurð þeirri, sem Kolbeinsurð heitir, og auðsjáanlega hefir hrapað

úr fjallskarði nokkru fyrir ofan Horn í Hornafirði, standa 3 björg allstór, lítið fyrir ofan jafnslèttu. Efsta bjargið er stærst, og hlífir það fyrir grjótflugi úr fjallinu hinum tveimur, sem neðar standa með svo mjóu millibili, að þar er að eins manngeingt á milli, en björgin beggja megin eru vísarlega 3 faðma há á hæstu brúnir. Eystra bjargið af tveimur hinum neðri er hèr um bil ferhyrnt í lögun, og undir því er Kolbeinshellir. Bjargið stendur á urðargrjóti, sem sokkið er í jörð undan þúnganum; er nú þó víða holt út undan því, svo vindar blása þar inn af ýmsum áttum. Dyr voru áður beint fram undan hellinum heldur lágar, því bergið var brostið að framan, og lafði hellubrún ein leingra niður yfir dyrunum, svo að hærra var inni undir bergið. Þessi hella losnaði gjörsamlega við bergið fyrir hèr um bil 30 árum, og rann niður fyrir hellismunnann, en þó er glenna milli hennar og bjargsins að vestanverðu svo stór, að sauður getur að eins smogið þar í gegnum, og maður í snöggum klæðum smeygt sèr þar um og út. En hellan er fyrir víst 4 faðma eða meir bæði á hæð og breidd. Meðan hellirinn hèlt sèr, hefir hann verið 10 til 12 álna á leingd og lítið mjórri, en tæplega yfir 3 álnir á hæð. Líkast þykir, að hann hafi þó með fyrstu verið miklu minni, en hellisbúinn hafi stækkað hann og víkkað. Stórgrýti er hvervetna út undir í hellinum, og ætla menn, að hellisbúinn hafi hlaðið því þar sèr til skjóls og hlúð svo að sèr, að vind og kulda legði þar ekki inn. Enn þótt þetta sè nú mjög af sèr geingið, hagar alt að einu svo til, að þar er heldur skýlt í flestum veðrum, en útsýni gott frá hellinum bæði til sjávar og mannaferða að austan og sunnan, enda hefir þar verið allgott vígi og hellisbúinn ekki auðsóktur.

Sagt er, að Kolbeinn sá, sem í hellinum bjó, og hann er viðkendur, hafi, áður en hann kom að Horni, búið í urð, sem við hann er og kend, fyrir innan Hvalnes í Lóni, en ekki nema lítinn tíma. Einginn veit með vissu, hvaðan Kolbeinn hefir þángað komið. Um það leyti sem Kolbeinn var á Horni, var þar bænhús, og messaði presturinn frá Bjarnanesi í því, og jafnvel vegfarandi prestar, sem ráða má af Hornafjarðarför sèra Stepháns Ólafssonar í Vallanesi. Helzt var þar messað, þegar vermenn lágu þar við, og eins þegar heimilisfólk var til sakramentis. Kolbeinn hafði ekki vopn, nema atgeir einn, og skildi hann aldrei við sig, hvar sem hann fór, eða var staddur. Opt kom hann til bænhússins á Horni, þegar þar var messað og sat á bænhússþörskuldinum með atgeirinn, eptir að allir voru inn komnir. Nú vildi einu sinni svo til, að Páll Jónsson (minnir mig), sem bjó á Firði, og var lángafi Haldórs, sem þar byr nú (1860), hafði einhverra orsaka vegna þurft að sæta messugjörð að Horni ásamt fleiru fólki sínu. Þegar Páll kom þángað, var Kolbeinn seztur á þröskuldinu; stóð hann þá upp, og hleypti Páli og mönnum hans inn, og settist svo niður aptur. Af þessu, sem nú var sagt um Pál, mun mega

ætlast á, að Kolbeinn hafi ekki fyrr verið í Kolbeinshellir, en um byrjun 18. aldar. Frá athöfn Kolbeins er það sagt, að hann hafi einatt róið, því skömm er sjávargata frá hellinum til hafnarinnar; gekk hann að einhverju skipinu, sem var verið að ýta, og settist í framstafninn með atgeirinn, og dró þar fisk. Aldrei fór hann undir ár, nema ef slæmt var í sjóinn, þá rak hann upp báða andófsmennina aptur eptir skipinu, en settist sjálfur á andófsþóptuna, og reri þar tveim árum, og þókti formönnum þá jafnan skerpast gángurinn, þegar Kolbeinn var kominn undir árar. Þegar að landi kom, tók hann jafnan þann hlut, sem honum leizt beztur, enda aflaði það skipið ávalt bezt, sem hann var á. Kolbeinn gekk daglega á fjörur eða reka, austur og suður, og tók af rekunum það, sem hann gat bjargað og hagnýtt sèr, og af því ætla menn, að hann hafi haft einna bezta atvinnu; en ef meira var rekið en svo, að Kolbeinn gæti einn hagnýtt sèr, gerði hann bóndann á Horni varan við, svo ekkert spiltist. Af ránum Kolbeins og gripdeildum er það eitt sagt, að hann hafi á hverju hausti komið heim að fjárrèttinni á Horni, tekið þaðan bezta sauðinn og haldið á honum austur í helli sinn. Einnig er sagt, að honum hafi verið förult, þegar hann sá sèr færi, að skoða um nesti sjómanna í verskálunum. Er þá sagt þeir hafi stundum veitt honum aðför að hellinum, en unnu ekkert á. Einu sinni sóktu þeir svo hart að Kolbeini fyrir þessar tiltektir hans, að hann flýði undan þeim upp á hellisbjargið, því upp á það má komast á einum stað. En þá var hann úr allri hættu; því þó hundrað manns hefði sókt hann þar, mundi hann hafa farið ómeiddur frá þeim, þar sem þeir höfðu ekki skotvopn. Heldur fór það í vöxt, að Kolbeinn varð djarftækari til nestis manna í verskálunum, en því fremur sátu þeir og um hann, og treystust þó aldrei til að leggja að honum, enn þótt hann væri inni í skálunum, því jafnan hafði hann atgeirinn með sèr, hvort sem hann var inni eða úti. Einu sinni voru allir sjómennirnir niðri í höfn, en Kolbeinn var á meðan að rusla í verskálunum, og þar á meðal fór hann í skála Hoffellsmanna, en þá brá svo við, að hann skildi atgeirinn eptir úti, meðan hann gekk inn. Vermennirnir nýttu sèr þetta tækifæri, því þeir sáu alt til ferða Kolbeins úr höfninni, gátu læðzt heim að skálanum, náð atgeirnum og lögðu hann með honum í skálanum. Sagt er, að Kolbeinn hafi beðið þá, meðan hann var að deya, að koma sèr dauðum í kristinna manna reit. En þeir svikust um það, og fluttu hann fyrst suður í Miðsker, og dysjuðu hann þar. Miðsker er kallað hraun eitt á miðjum Hornsfjörum, fullkomna mílu vegar frá Kolbeinshelli. En Kolbeinn ásókti þá og ónáðaði eptir það, svo að þeir tóku hann upp aptur, og fluttu hann austur fjörur, og inn á dys undir Almannaskarði, og geingu þar frá honum. En Kolbeinn lá ekki kyr að heldur, svo þeir urðu enn nauðugir viljugir að taka hann upp; fluttu þeir hann þá að Bjarnanesi og grófu hann sunnan megin við kirkjugarðinn, niðri í vondu

fenu, og lögðu þar yfir stóran stein. Síðan hefir ekki krælað á Kolbeini.

**Hellirinn Fúsaból.** (Austan úr Mýrdal.) Austan í Reynisfjalli er hellir, sem kallaður er Fúsaból; hann er víður mjög að framanverðu, svo að neðan af slèttu sèst inn í botn á honum, nema hvað í hellinn kastar skugga. Hann mjókkar eða þreyngist, eptir því sem innar dregur. Innst við gaflinn eru lagðir steinar í röð, sem afmarka mátulegt meðalmannsrúm, bæði að vídd og leingd. Þetta er í landi jarðar þeirrar, er Vík heitir í Dyrhólahrepp í Skaptafellssýslu. Svo er sagt, að í fyrndinni hafi maður nokkur, er Vigfús hèt, átt barn við systur sinni, og eptir að hann var dæmdur til lífláts, hafi hann sloppið. Aðra systur Vigfúsar átti bóndinn í fyrnefndri Vík. Þángað komst Vigfús og hitti leynilega systur sína; en hún treystist ekki að halda hann á laun, og því talaðist þeim svo til, að hann skyldi finna sèr fylgsni nokkurt, en hún skyldi veita honum mat með þeim hætti, að hún setti matinn við ákveðinn glugga (sjálfsagt skjáglugga), áður en hún háttaði á hverju kveldi, en hann skyldi vitja matarins á nóttunni. Síðan hèlt Vigfús sig í fyrnefndum helli og vitjaði matarins á nóttunni, en eingum kom í hug að leita hans á þessum stað, því öllum þykir, sem þeir sjái inn í botn á fyrnefndum helli neðan af alfaravegi, sem þar liggur neðan undir, og þó hellirinn sè í búfjárhögum, hagar sjaldan svo til, að smalamenn þurfi að koma inn í hann, en vel má leynast þar, svo ekki beri á, fyrr en inn er komið. Nú leyndist Vigfús með þessum hætti nokkuð á annað ár. En þegar þessi tími var liðinn, komst bóndinn að þessu, og gekk hann þá harðlega á konu sína að segja sèr til, hvar bróðir hennar hèldi sig. En hún kveðst ekki vita nè vilja segja. En þegar bóndinn varð einskis vísari með þessu móti, kvaðst hann mundu hitta ráð, sem dygði, og litlu síðar kom hann hárbeittum ljá fyrir innanvert við gluggann þannig, að eggin var rètt fyrir hendinni á Vigfúsi, þegar hann tók matinn. Þegar bóndinn tók þetta til bragðs, var snjór á allri jörð. Nú fór, eins og bóndinn ætlaðist til. Vigfús kom á gluggann um nóttina, tók matinn, eins og vant var, en skarst svo á hendinni, að hann gat ei stöðvað, fór þó í helli sinn og lagðist þar niður. En að morgni fór bóndi að hyggja að, hvers hann yrði vís, og sá hann þá strax við gluggann blóð mikið, og rakti síðan blóðferilinn ásamt förunum alt inn í hellinn, sem þó er lángur vegur frá bænum; var Vigfús þá kominn að bana af blóðrás, og er þess ekki getið, hvort þeir áttust nokkuð við. Það er sögn sumra manna, að eptir þetta hafi systir Vigfúsar sagt skilið við bónda sinn. En það er haft fyrir satt, að af þessum atburði sè fyrnefndur hellir nefndur Fúsaból.

**Álfheiðarskora.** (Austan úr Mýrdal.) Það er kunnugt, að í Vatnsársundum er selsátur úr Reynishverfi; var þar verið í hellum. Einn

selhellirinn heitir Vömb; í honum er hola ein, sem Álfheiðarskora er kölluð, hún þreyngist eptir því sem innar kemur og einginn veit, hvað lángt hún nær, því hún verður fljótt þreyngri, en svo, að hún verði smogin af stærri skepnu, en hundi eða ketti. Svo er sagt, að eitthvert sinn skyldi kona ein gæta sels, en alt fólk annað fór heim til bæa. Þegar kona þessi var á gángi úti, sèr hún, hvar kemur maður, furðu mikill vexti, og geingur við staung. Hann stefnir til seljanna; verður þá konan hrædd, fer inn í selið og felur sig í áður nefndri bjargskoru. Maðurinn hafði veður af konunni, kemur inn í selið og leitar vandlega, en finnur ekki; fer hann síðan út, og laungu síðar, þegar konan ætlaði, hann væri allur í burtu, fer hún út úr selinu, en þá var maðurinn skamt frá selinu; varð þá konan dauðhrædd, fer inn aptur og treður sèr svo lángt inn í fyrrnefnda skoru, sem hún mögulega getur, og þegar hún hefir geingið frá sèr, kemur hinn mikli maður inn í selið. En þar hann var mikill vexti, og þar að auki dimt í skorunni, varð hann ekki var við konuna, en hafði þó grun af, að hún væri þar; tekur hann því það ráð, að hann stendur fyrir utan skoruna og pjakkar með staunginni inn í skoruna og segir við sjálfan sig, að fyrst hún vilji ei koma til sín með góðu, þá skuli hann gánga af henni dauðri, þarna sem hún er komin. Þetta geingur leingi, en þó kom broddurinn aldrei beinlínis í hana, svo að skaði yrði að. Þegar þetta hafði leingi geingið, fór maðurinn loks í burt úr selinu, en áður hann fór út spilti hann öllu, smáu og stóru, sem í selinu var. En konan þorði nú ekki að hreifa sig, og lá hún þarna kyr, þar til selfólkið kom að heiman; var þá hinn mikli maður allur í burt, og varð ekki vart við hann síðan. En konan var orðin stirð mjög og voru 18 stúngur á fatinu hennar, en hana sakaði lítið eða ekki. Af þessum atburði er sagt, að Álfheiðarskora taki nafnið.

**d)** Eins og von er til, hafa munnmælin ekki síður gert mannsmorðin að yrkisefni, en ránin, en þó einkum, þegar þau hafa verið framin með svo mikilli frekju og ásvífni, að það hefir eins mikið hrifið á ímyndunar aflið, eins og morðin sjálf.

**Grundar-Helga, Örn og Eyvindur.** Þegar Svartidauði geysaði hèr yfir land, gjöreyddust heilar sveitir, en sumstaðar varð fólk eptir, og yfirvaldalaust. Þegar fólkið tók aptur að fjölga, bjuggu systkin þrjú í Eyafirði. Hèt eitt Helga; hún bjó á Grund, en bræður hennar voru þeir Örn á Yxnafelli og Eyvindur á Eyvindarstöðum. Þau systkin höfðu sveitarráð. Helga hafði giptzt auðugum manni, er Þórður hèt. Þau áttu son, er sumir kalla Ásbjörn hinn fagra. Hann fór úngur utan. Helga hafði öll ráð yfir bónda sínum. Síðan andaðist Þórður; en þegar Ásbjörn frètti það, býr hann ferð sína út híngað, og byrjaði vel. Þegar hann kom við Lánganes,

gjörði storm mikinn, og hrakti hann vestur með landinu og kom loks inn á Breiðafjörð, og braut skip sitt við Látrabjarg, en bjargaðist af sundi við sjötta mann. Síðan feingu þeir sèr hesta og riðu vestan til Eyafjarðar, og til Grundar, og gisti hjá móður sinni um nóttina. Åsbjörn segir henni, að hann sè þar kominn, til að heimta föðurarf sinn. Helgu þókti ílt að missa af fènu, en sá, að hún mundi eigi fá því haldið. Hún hafði látið gjöra skála mikinn norður af bæardyrunum. Hann var ramgjör mjög; gluggar voru tveir á veggnum niðri en dimt uppi um skálann. Þar bjó Helga þeim hvílu, og lèt síðan húskarla sína vega að þeim sofandi um nóttina. Åsbjörn vaknaði við og þreif stokk frá rekkjunni, og varðist með honum, uns hann fèkk steins-högg á höndina, svo niður fèll stokkurinn; stökk hann þá upp á bita 4 álna hátt hlaup, og síðan hljóp hann bita af bita; en þeir eltu hann og hjuggu í ristar honum, svo hann fèll niður, og fèll hann þar og þeir allir; hafði hann þá feingið 23 sár. Það er mælt, að Åsbjörn hafi verið 18 vetra, er hann var veginn á Grund. Hann bar af hverjum manni fegurð, kurteisi og allar íþróttir. Helga lèt síðan heygja þá þar að fornum sið, er síðan heitir Danski-hóll.[1]

Örn, bróðir Helgu var skrautmenni mikið, og allra manna fríðastur, og vel viti borinn. Eyvindur var svartur yfirlits og myrkur í skapi, og illmenni mikið, var hann af því mjög kær Helgu. Eitt sinn falaði Helga land að Birni bónda í Samkomugerði, en hann vildi fyrir eingan mun selja; er þá mælt, að hún hafi feingið Eyvind til þess, að koma honum fyrir, en kastaði eign sinni á landið, og annað fè hans. Eitt sinn voru þeir bræður að heimboði á Grund. Ræðir þá Helga við þá, að hún vill láta grafa sig í hól[2] þeim, er stæði upp undan bænum á Grund, með öllu lausafè sínu, og kveðst vilja, að þeir lètu heygja sig þar, er hún gæti sèð til þeirra, ef hún færi upp á hólinn. Þetta binda þau fastmælum. Helga lifði leingst þeirra systkina; lèt hún heygja Örn í Arnarhól,[3] og Eyvind í Eyvindarhól,[4] sem svo hafa síðan heitið. Þegar Helga tók að eldast, lèt hún hola innan hól þann, er hún hafði talað um, og skreyta innan á ýmsan hátt. Hún lèt búa þar stofu mikla og setja þar stól í. Síðan andaðist hún og var sett á stólinn, sem hún hafði fyrirmælt, og

---

1. Danski-höll stendur fyrir sunnan og ofan bæinn á Grund í túninu. Hann er lágur og hnöttóttur, en þó dreginn til endanna nokkuð. Allur er hann vaxinn grasi.

2. Helguhóll stendur allskamt frá Grund, upp undan bænum, að norðan við gil eitt, er bæarlækurinn rennur um. Hann er hár nokkuð og toppmyndaður. Uppi á honum stóð steinn, eigi allítill, er fyrir skömmu hefir verið velt niður.

3. Arnarhóll er á slèttu nokkurri fram við ána, suður og ofan undan Yxnafellskoti, og yfir undan Samkomugerði. Hvergi er á honum steinn, er teljandi sè. Hann er í lögun sem hvolft væri skipi.

4. Eyvindarhóll er suður og uppundan Eyvindarstöðum í Sölvadal vestanverðum. Hann er ekki stór, og í lögun sem upprökuð hrúga.

var haugurinn síðan byrgður. Sumir segja, að Kollur bóndi á Æsustöðum væri bróðir Helgu, en eigi Örn á Yxnafelli. Kollur er heygður á Æsustaðatúngum fram af Sölvadal að vestan.

**Ólöf ríka á Skarði.** Á Skarði á Skarðsströnd eru til örnefni frá síðari öldum en þó helzt frá tíð Ólöfar ríku Loptsdóttur og Björns Þorleifssonar, er vóru uppi á 15. öld. Fyrir handan ána gegnt bænum lèt Ólöf gjöra skála, og setti þar hina ensku menn sem hún hafði tekið fangna í hefnd eptir Björn bónda sinn sem Enskir drápu í Rifi; hèlt hún þá sem þræla og lèt þá hlaða garð kríngum alt túnið á Skarði; síðan heitir þar á Manheimum. Suma af þeim er sagt hún hafi látið höggva á Axarhóli milli Reynikeldu og Kross. Ólöf var auðkona; í túninu á Skarði heita Smjördalshólar; þar hafði Ólöf smjörskemmur sínar, og sjást enn rústir þeirra.

**Jón Murti.** (þessi saga er hèr tekin eptir vanalegri sögn manna í Borgarfirði. M. G.) Einu sinni í fyrndinni bjó ríkur bóndi í Síðumúla í Hvítársíðu. Hann átti dóttur eina afbragðs væna og fríða. Margir urðu til að biðja hennar, þar á meðal bóndinn á Sleggjulæk í Stafholtstúngum og bóndasonurinn á Fróðastöðum. Lauk svo, að bóndasonurinn á Fróðastöðum varð hlutskarpari, og var honum föstnuð konan. Síðan var brúðkaupsdagur ákveðinn og fjölmenni boðið til veizlunnar. Sleggjulækjarbóndanum sveið þetta mjög sárt, og fèkk hann mann einn, sem boðinn var til veizlunnar í Síðumúla, til þess að vega brúðgumann. Sá er nefndur Jón, sem til þessa varð. Jón var maður hraustur og djarfur. Hann fór nú til boðsins, eins og aðrir, og lèt á eingu bera. Leið svo að kveldi, og stóðu menn upp frá borðum. Skuggsýnt var við stofudyrnar, og stóð Jón þar og beið þess, að brúðguminn kæmi út. En þegar hann kom, lagði Jón hann í gegn með sveðju, sem hann hafði haft hjá sèr. Fèll þá brúðguminn dauður niður og flaut í blóði sínu. Jón tók þegar á rás, og var honum veitt eptirför. Hljóp hann þvert niður völlinn og ofan að Hvítá og þar að henni, sem hún fellur í gegn um ás einn millum hamra tveggja. Eigi hikaði hann þar við, heldur stökk hann yfir á klettunum, og eru nú 16 álnir danskar á milli þeirra. Er þar straumur mikill í þreyngslinu og kalla menn það Kláffoss. Syðri hamarinn er miklu lægri, en hinn nyrðri, og hefir það lètt Jóni hlaupið. En það er frá boðsmönnum að segja, að einginn þeirra treystist til að stökkva yfir ána á eptir Jóni, eða leita hans framar um nóttina; því þá var skuggsýnt orðið. Daginn eptir hófu þeir leitina að nýu, en fundu þó ekki Jón. Hann var alveg sloppinn úr höndum þeirra, og ætluðu menn síðan, að hann mundi hafa komizt í skip og farið utan. En eptir víg þetta var hann ætíð kallaður Jón Murti.[1]

---

1. það er einginn hægðarleikur að segja, hver þessi Jón murti hafi verið, því svo

En það er frá brúðgumanum að segja, að hann dó þegar í höndum boðsmanna þeirra, sem yfir honum stumruðu. Var hann síðan grafinn við kirkjuna í Síðumúla. Er þar enn til sýnis legsteinn hans, og liggur hann beint fram undan kirkjudyrum. Hann er rúm hálf þriðja alin á leingd, ávalur fyrir báða enda, og íflatur að ofan. Einhver högg eru í þá hlið á steininum, sem upp snýr, og á það að vera mannsmynd ofan að brjóstum, og sárið með blóðlækjunum. Ekkert letur er, nè lítur út fyrir að hafa nokkurn tíma verið á steininum.

Þegar þetta varð, segja menn, að hver hafi verið vestur á mel þeim fyrir utan túnið á Síðumúla, sem heitir Stuttimelur. Þar eru nú gráleitar hellur, en einginn hver. Kom það af því, að hin blóðstorknu klæði brúðgumans voru þvegin í hvernum, og flutti hann sig þá, kom upp snöggvast, eða hvíldi sig í laugunum í Síðumúla, en hvarf þaðan aptur, og er nú hinn meiri hverinn á Hurðarbaki fyrir sunnan Hvítá. En það er almenn trú, að ef saklauss manns blóð er þvegið í hver eða laug, þá flytji það sig þegar á burtu.

**Sagan af Axlar-Birni og Sveini skotta.** [1] Pètur hèt maður, ættaður úr Hraunhrepp á Mýrum; hann kvongaðist í Breiðuvík á Snæfellsnesi öndverðlega á dögum Guðbrandar biskups. Pètur átti tvö börn með konu sinni, er hèr var komið, son og dóttur; hètu þau Magnús og Sigríður. Eptir þetta varð kona Pèturs með barni; er þá sagt, að henni setti fáleika mikinn með þeim hætti, að henni fannst hún gæti ekki komizt af, nema hún bergði mannsblóði. Við þessa ílaungun átti hún leingi að berjast, án þess nokkur vissi, en loksins getur hún ekki leynt henni fyrir manni sínum. Af því samfarir þeirra hjóna voru góðar, og Pètur mátti ekkert móti henni láta, sem hann gat veitt henni, vökvaði hann sèr blóð á fæti, og lèt hana bergja. Þegar þessi ílaungun var stilt, barst konu

eru þeir margir hèr á landi, og þegar í Sturlúngu. Einnig getur manns eins, sem kallaður er Jón murti Nikulásson bæði í „Íslenzkum annálum" (Hafniæ, 1847) 290. bls. og í Árbókum Espólíns I, 87. bls., og vo hann mann 1357, en Espólín getur eingra kríngumstæða að því morði, nema að Jón hafi aldrei orðið sektaður. Enn er einn maður nefndur Jón murti Eggertsson lögmanns, og segja bæði Björn á Skarðsá í „Annálum" sínum I, 246. bls. og Espólín í Árbókum sínum, V, 11. bls., að hann hafi unnið víg í Síðumúla, og drepið þar Jón Grímsson frá Kalmannstúngu undir borði við drykkju. Sá Jón murti fór eptir það utan, og kom ekki út aptur. Viðurnefnið „murti" þýðir lítill, stuttur, en á trauðlega skylt við morð, eða að myrða, eða að murka (sbr. að murka úr einum lífið), sem munnmælin virðast vilja leggja í það. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 229—230. bls.

1. Axlar-Bjarnarsaga er hèr tekin því nær orðrètt eptir handriti sèra Sveins Nielssonar á Staðastað, sem hann hefir skrifað „eptir gömlum manni og greindum, innlendum", og einstökum sögnum öðrum bæði frá Húnvetníngum, sèra Jóni Norðmann á Barði og Þorvarði Ólafssyni, nú á Kalastöðum. Um Svein skotta hefi eg tekið eptir handriti Gísla Konráðssonar; sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 230—235. bls.

þessari í drauma ýms óhæfa, sem ekki er á orði hafandi, og gat hún þess *við vinnukonu sína, að hún væri hrædd um, að barn það, sem hún geingi* með, mundi verða frábrugðið í ýmsu öðrum mönnum, og gott ef það yrði ekki einhver óskapaskepna. Nú leið og beið, til þess hún varð lèttari; fer það alt með feldi, og fæðir hún sveinbarn; var það nefnt Björn, vóx hann svo og vel dafnaði. Pètur hafði áður verið vinnumaður hjá Ormi þorleifssyni ríka á Knerri; en því var hann kallaður Ormur ríki, að hann átti allar jarðir í Breiðuvík, út að Sleggjubeinu; hann hafði og bygt Pètri Húsanes, og var vel til þeirra hjóna, þó hann þækti svo harðdrægur í viðskiptum við aðra, að um hann var sagt:

„Einginn er verri,
en Ormur á Knerri."

þegar þeir bræður, Magnús og Björn, voru 6 og 5 vetra, reið Ormur einu sinni á reka, og sá þá bræður leika sèr á rifi einu, og áttust heldur ílt við, og var Björn harðleiknari. Ormur reið þá um í Húsanesi, og býðst til að taka Magnús á fóstur; því hart var í ári. En móðir þeirra biður hann að taka heldur Björn; því hann sè óstýrilátur, og þó mannsefni og voni hún, að hjá Ormi verði heldur maður úr honum. Ormur lætur þá tilleiðast, og fer Björn með honum heim að Knerri. Björn leggur þar vináttulag við únglíngsmann, fjósamann Orms, og höfðust þeir nálega við nætur og daga í fjósinu; það var mikið hús og í 30 naut. Björn tók fljótum þroska, eptir að hann kom til Orms; en dulur þókti hann í skapi og harðlyndur. Ormur átti launson, sem Guðmundur hèt; var hann á aldur við Björn, og snemma mikill fyrir sèr, sem faðir hans, og harðgjör, hann tamdi sèr glímur og aðrar íþróttir, sem þá var þó ekki alltítt, en við vinnu var hann lítið hafður; vel fèll á með þeim Birni og honum. Kirkja var þá sem nú á Knerri, og var Ormur vandur að því, að heimilisfólk hans rækti vel tíðir. það bar til einu sinni, að Björn svaf um messutíma inni í rúmi, móti vilja og vitund Orms. Dreymdi hann þá, að ókunnugur maður kom til hans, og hèlt á diski með keti á, skornu í bita, og býður Birni. Björn þáði bitana, og át 18, og þókti hver öðrum lostætari, en við hinn 19. varð honum óglatt og ílt, og hættir við svo búið. Ókunnugi maðurinn segir þá: „Vel gerðir þú, að þú þáðir mat minn; en nú vil eg leggja meira til við þig; far þú á morgun, svo einginn viti af, upp á Axlarhyrnu, þar muntu sjá 2 einkennilega steina, nokkuð stóra; lyptu upp minna steininum lítið eitt, og það, sem þú finnur norðan undir honum, skaltu eiga, og nota vel; fylgir því sú náttúra, að þú munt verða nafnkunnur maður."[1] Eptir það hvarf draummaðurinn, en Björn

1. Ein missögn er það, að Björn dreymdi einu sinni, að hann æti 19 mannaketsbita, en misti þann 20. út úr sèr. Hann var þá við slátt, og sagði manni drauminn. Maðurinn þýddi svo drauminn, að Björn mundi drepa 19 menn, en sá 20. sleppa. „þú

vaknaði, og fýsti mjög að leita þess, sem honum var til vísað. Daginn eptir var Björn snemma á fótum, fór upp á Hyrnuna og finnur steinana; undir minna steininum var öxi, ekki mikil, en allbiturlegt vopn. Þegar hann tók hana upp, kom í hann vígahugur Snýr hann nú þaðan og ofan í fiskiver á Frambúðum; hefir hann öxina hulda í klæðum, og lætur eingan sjá, og huldi hana í hraungjótu; síðan rær hann þar með sjómönnum um daginn. Spyr hann svo skipverja sína að, hvað þeir mundu vilja gefa sèr fyrir það, sem hann hefði fundið nýlega undir steini uppi á Axlarhyrnu. Þeir sögðu, að það mundi hafa verið ómerkilegt. En um kvöldið, þegar þeir voru lentir, hleypur Björn frá skipi, en kemur bráðum aptur; hefir hann þá í hendi sèr öxi, og þegar hann kemur til skipverja, reiðir hann hana á lopt með vígahug, og segir með kuldahlátri: „Hver af ykkur vill nú eiga náttstað undir þessari?“ Þeim varð heldur bylt við, og vildi einginn til þess verða. Einn af skipverjum, gamall maður og hygginn, sagði við lagsmenn sína, en gegndi Birni eingu: „Takið öxina af honum; því þetta er óhappa-verkfæri.“ Björn beið þá ekki boðanna, og fór sína leið heim að Knerri. Skömmu síðar hvarf fjósamaður á Knerri, lagsmaður Bjarnar, og fannst hann hvergi. Vinnukona var á Knerri, sem Steinunn hèt; hún þjónaði Birni og giptist honum. Um þetta leyti dó Ormur ríki, en Guðmundur, sonur hans, bjó eptir hann á Knerri, og varð brátt ríkur í hèraði. Hann bygði Birni, fóstbróður sínum, Axlarland. Bærinn í Öxl hafði áður staðið fyrir utan hólana, en Björn færði hann, með leyfi Guðmundar, ofan og heim fyrir þá; þar reisti Björn bú með Steinunni konu sinni, sem verið hafði þjónusta hans á Knerri; þeim farnaðist vel; fátt hafði hann hjúa, en hèlt þau vel. Það þókti mönnum furðu gegna, hversu marga hesta Björn átti, og fór þá suma að gruna, að þeir mundu misjafnlega feingnir, og sá kvittur kom upp, að hann myrti menn til fjár. Eitt sinn sendi ríkur maður nokkur, sem Björn hèt, tvo vinnumenn sína vestur undir Jökul til róðra, og fól nafna sínum í Öxl þá til umsjónar. En þegar þeir komu að Öxl og Björn sá, að þeir voru vel útbúnir, og höfðu væna hesta, bauð hann þeim með sèr út í fjós. Þar var myrkt, en þó sèr annar þeirra glampa á eitthvað í hendinni á Birni; ber hann honum þá þegar kveðju húsbónda síns. Þegar Björn vissi, hvaðan þeir voru, tók hann þeim vel, veitti þeim bezta beina, og útvegaði þeim góð skiprúm á Stapa. En það grunaði þá lagsmenn, að öðruvísi mundi hafa farið, ef Björn hefði ekki nógu snemma vitað, hvaðan þeir voru. Sagt hefir það verið, að gestur einn norðlenzkur gisti hjá

skalt þá verða sá fyrsti,“ segir Björn og drap hann. Öðru sinni dreymdi hann, að kæmi til sín maður og spyrði, hvort hann vildi ekki eiga axarkjaggið, sem lægi uppi á Hyrnunni. Þegar Björn vaknaði, hugsaði hann eptir þessu, gekk upp á Hyrnu, fann öxi, gekk heim með hana og reyndi hana á því, að hann hjó í sundur hvolpafulla tík. Með þessari öxi myrti hann síðan mennina. Eptir handriti sèra Jóns Norðmanns.

Birni, og var honum um kvöldið vísað til rúms frammi í skálahúsi í bænum. Þegar hann var lagztur fyrir, varð honum ekki svefnsamt, og fór ofan. Varð honum það þá fyrir, að hann þreifaði undir rúmið, og fann þar mann dauðan. Við það varð honum ákaflega bylt, en tók þó það ráð, að hann lagði hinn dauða upp í rúmið, og breiddi rúmfötin yfir; en sjálfur lagðist hann undir rúmið, þar sem dauði maðurinn lá áður. Þegar eptir var þriðjúngur nætur hèr um bil, komu þau Björn og kona hans í skálann. Hafði Björn öxi í hendi og lagði í gegnum þann, sem í rúminu lá; því hann ætlaði, að það væri gesturinn, og skyldi hann ekki frá tíðindum segja. Kona Bjarnar segir: „Því eru svo lítil eða eingin fjörbrot hans?" Björn svarar: „Í honum krimti; dæstur var hann; en ósleitulega tillagt, kerlíng." Við það fóru þau til baðstofu. En þegar lýsti af degi, forðaði gesturinn sèr úr bænum og komst við það heill undan. Þó miklar dylgjur væru um framferði Bjarnar, þorði einginn að kveða upp úr með það fyrir ríki Guðmundar Ormssonar, en þó fór vinátta þeirra Bjarnar heldur að kólna um þessar mundir, og eru ekki orsakir tilgreindar, nema ef vera skyldi sú, að einu sinni reið Guðmundur að heiman til Garða í Staðarsveit, og hafði tvo hesta til reiðar. Seint um kvöldið kom hann við í Öxl heim í leið, og bað að gefa sèr að drekka. Björn bauð honum inn; en það þáði Guðmundur ekki. Kom þá kona Bjarnar út með blöndukönnu og rèttir Guðmundi á hestbak. En þegar hann ætlar að fara að drekka, kemur Björn út í stórri úlpu; sèr Guðmundur, að skaptendi stendur niður undan úlpunni, fleygir hann þá blöndukönnunni og ríður af stað. Í því bregður Björn öxinni undan úlpunni, og heggur til Guðmundar, en misti hans og særir hestinn miklu sári, svo Guðmundur komst ekki heim á honum, og tók þá hinn ósára. Daginn eptir fór kona Bjarnar út að Knerri, og bað Guðmund fyrirgefníngar á tilræði þessu. Guðmundur hèt henni góðu um það, en sagði, að upp mundi komast ódæði Bjarnar, þótt hann þegði.

Miðvikudaginn í páskaviku sama árið komu systkin tvö að Öxl; hlákuveður var og orðið framorðið; beiddust þau gistíngar, og var það fúslega veitt. Voru dregin af þeim vosklæði, og feingin önnur föt þur. Síðan var þeim borinn matur. Kerlíng sat þar í baðstofunni, og svæfði barn; sagt er að hún hafi viljað vara systkinin við hættu þeirri, sem yfir heim vofði, og raulaði fyrir munni sèr gamla vísu í hvert sinn, sem kona Bjarnar fór fram. Vísan er svo, og þó höfð á ýmsa leið:[1]

| | | |
|---|---|---|
| Gisti einginn hjá Gunnbirni,<br>sem klæðin hefir góð;<br>ekur hann þeim í Ígultjörn,[2] | eða svo: | Gisti sá einginn hjá Gunnbirni,<br>sem góð hefir klæði,<br>og dillidó; |

---

1. Eg hefi orðið var við fyrir víst 7 breytíngar af vísu þessari. Sbr. Grönlands hist. Mindesmærker. *I*, 112—116. bls.

2. Á líklega að vera „Iglutjörn", sem kvað vera skamt frá Öxl.

rennur blóð
eptir slóð,
og dilla eg þèr jóð.

svíkur hann sína gestina,
sem úlfurinn sauðina,
og korriró.

þegar þau systkin voru búin að borða, fór stúlkan[1] fram. En litlu síðar heyrði bróðir hennar hljóð, og varð honum bylt við. Hleypur hann þá út og inn í fjárhús. Björn kom þegar á eptir; hleypur pilturinn þá upp í garðann, og þaðan inn í heytópt, sem var áföst við húsið, og komst þar út, því torfið var þitt. Björn kom enn á hæla honum, en misti sjónar á honum í myrkrinu; komst svo pilturinn í hraunið, og faldist í gjótu skamt frá bænum, meðan Björn leitaði. Síðan fór pilturinn úr gjótunni og komst um nóttina ofan að Hraunlöndum. Bóndinn á Hraunlöndum fylgdi honum út að Hellnum, til Íngimundar hreppstjóra í Brekkubæ, sem bæði var ríkur maður og harðfeingur. Á páskadaginn snemma tekur Íngimundur tvo karska menn með sèr, og ríður heim að Knerri. Fátt var með þeim Guðmundi á Knerri og honum; hafði Guðmundur, þó ríkur væri og harðfeingur, orðið undir bæði í átökum og viðskiptum við Íngimund. þenna páskadag skein sól í heiði, og stóðu menn úti í góða veðrinu, þar var og kominn Björn frá Öxl, og er mælt hann hafi sagt við þá, sem næstir honum stóðu: „Nú eru sólarlitlir dagar, bræður.“[2] Brátt geingur Íngimundur að Birni, og spyr, hvaðan honum komi hetta[3] sú, sem hann

1. þessi frásögn fer næst því, sem Espólín segir í Árbókunum, V, 84—85. bls., að stúlkan hafi verið drepin, en pilturinn komizt undan, en mismunar nokkuð frá því, sem stendur í Nr. 13 af „Islendíngi“ 1. ár einnig „eptir sögnum og munnmælum á Snæfellsnesi 1852“; en til þeirrar sagnar svipar meir munnmælum þeim um dráp piltsins og frelsun stúlkunnar, sem geingu í Húnavatnssýslu um 1830. Eptir þeim er sagan svo, að Björn hafi myrt piltinn, en stúlkan komizt undan í fjósrángalann,*) og falið sig þar um stund upp á skammbita, meðan Björn kannaði rángalann, og pjakkaði með broddstaf um alt rángalaræfrið. Fèkk hún af því 2 eða 3 stýngi í útlimina, en hafði áður troðið upp í sig hálsklút sínum, svo að Björn heyrði hana hvorki draga andann, nè hljóða, þó hún kendi sársaukans. þegar hann fann hana ekki í rángalanum, fór hann í bæinn eptir ljósi; en hún hljóp á meðan inn í fjósið og þar út. En í því hún var að láta aptur fjósið, sá hún, að ljós var borið í innri enda rángalans úr bænum. Hún fleygði þá aptur fjóshurðinni, og hljóp beint af augum, sem fætur toguðu, og Björn á eptir. Stefndi hún niður til tjarnar einnar (Íglutjörn), sem þar var nærri, og af því frosið hafði um kvöldið, frá því þau systkin komu að Öxl, svo hundtyllíngur var orðinn að eins á tjörninni, hljóp stúlkan í dauðans ofboði út á hana, eins og beinast horfði við, og varð með því móti fljótari, en Björn, og gat komizt í hraunið. En Björn varð að krækja í kríng um tjörnina, og misti við það sjónar á stúlkunni. Var það talin mildi guðs, að hún komst lifs yfir tjörnina nýskænda og gat forðað sèr, til að koma upp ódáðum Bjarnar.

2. Allar aðrar sagnir, sem eg hefi heyrt, hafa „piltar“, en ekki „bræður.“

3. Fyrir norðan var sagt, að Björn hefði haft hatt á höfði við Knararkirkju í þetta sinn, og að stúlkan, sem slapp áður úr höndum Bjarnar, hafi fyrst geingið að honum og sagt: „Of fallega skartar hatturinn hans bróður míns á hausnum á þèr í dag, bölvaður fanturinn“, og hafi aðrir þá komið til og tekið Björn.

*) Hèr líkist sögn þessi aptur því, sem Espólín segir. Arb. V, 84.

hafði á höfði, hneppir síðan frá honum hempunni, sem hann var í yztri fata, og spyr, hvaðan hann hafi feingið silfurhnepta peysu og bol, sem Björn hafði. Björn segir, að slíkar spurníngar sèu heldur kynlegar, og muni hann eingu þar til annsa. Íngimundur sagðist og ekki þess við þurfa, kallaði á fylgdarmenn sína, og bað þá líta á föt þessi á Birni, og bera um, hvort vinnumaður sinn Sigurður, sem farið hafði frá Íngimundi fyrir tveimur árum, og hafði horfið, svo einginn vissi, hvað af varð, hefði ekki átt þessi föt, og verið í þeim, þegar hann fór frá Íngimundi, og sönnuðu þeir það. Kvaddi þá Íngimundur Guðmund Ormsson, til að taka Björn höndum sem illræðismann; en Guðmundur neitaði því. Íngimundur tók svo Björn höndum, og lýsti hann banamann Sigurðar og stúlkunnar, sem áður er getið, og flytur út á Arnarstapa til Jóns lögmanns. Síðan var Steinunn, kona Bjarnar, sókt og sett í varðhald á Stapa. Meðkendi Björn þá, fyrir lögmanni, að hann hefði drepið og myrt 18 menn alls, og þeirra fyrstan fjósamanninn á Knerri, og væri hann dysjaður þar undir flórnum, en hina 17 hefði hann fólgið í Íglutjörn og bundið steina við líkin, og hefði kona sín verið í vitorði og aðbeiníngu með sèr. Þau Björn og Steinunn voru bæði dæmd til dauða á Laugarbrekku-þíngi 1596. Skyldi fyrst beinbrjóta Björn á öllum útlimum og síðan afhöfða; en lífláti Steinunnar var frestað, því hún var þúnguð. Úngur maður, sem Ólafur hèt og var náskyldur Birni, var feinginn til að beinbrjóta hann og höggva; voru leggirnir brotnir með trèsleggju og haft lint undir, svo kvölin yrði því meiri. Björn varð karlmannlega við dauða sínum og pintíngum, viknaði hvorki nè kveinkaði sèr. Einu sinni, meðan bein hans voru brotin, sagði hann: „Sjaldan brotnar vel bein á huldu, Ólafur frændi.“ Þegar allir útlimir Bjarnar voru brotnir, sagði kona hans við aðra þá, sem við voru staddir: „Heldur tekur nú að saxast á limina hans Björns míns.“ [1] Gegndi þá Björn til og sagði: „Einn er þó enn eptir, og væri hann betur af“, og var hann þá höggvinn. Dys Bjarnar sèst enn í dag hjá túninu á Laugarbrekku, á Laugarholti, sem kallað er, þar sem kirkjuvegir skiptast frá Laugarbrekku að Hellnum og Stapa. Er dysin úr grjóti og orðin grasi vaxin að neðan og kölluð Axlar-Bjarnardys.

Það er frá Steinunni að segja, konu Bjarnar, að hún fór norður að Skottastöðum í Svartárdal, og ól þar son, sem kallaður var Sveinn skotti. Þegar Steinunn var orðin lèttari, segja sumir, að hún hafi verið tekin af, án þess hún viknaði. Sveinn fór víða um land, eptir að hann komst á legg, bæði stelandi og strjúkandi, gat börn víða og þókti djarftækur til kvenna; nálega var hann kunnur að illu einu, en einginn var hann

1. Aðrir bæta því við, að hún hafi um leið klappað á lífið á sèr og sagt: „Þessi mun hefna.“ Þó er þess ekki getið, að Sveinn skotti, sem hún gekk þá með, hafi hefnt föður síns.

hugmaður eða þrekmaður. Bæði var hann hýddur norður í þíngeyarsýslu fyrir stuld og aðra óknytti, og aptur á alþíngi 1646 var honum dæmd hýðíng fyrir sömu sakir, svo mikil sem hann mætti af bera, og þar með skyldi hann missa annað eyrað. Eptir það hèlt Sveinn sig á Vestfjörðum, og lagði lag sitt við Jón nokkurn, sem kallaður var Sýuson; hann tamdi sèr galdur og aðra illmennsku. þeir kumpánar stálu fè manna af afrèttum og höfðust annað ílt að. Sagt er að Sveinn næmi galdur að Jóni, og veðsetti sig djöflinum, til þess að einginn fjötur gæti haldið sèr, og treysti Sveinn þeim samníngi síðan. Einu sinni kom Sveinn á bæ um messutíma, og var alt fólk við kirkju, nema börn, hið elzta 12 eða 13 vetra. Sveinn stakk upp búrið, og fylti þar poka sinn af því, sem honum þókti lostætast. Síðan kom hann til barnanna, nefndi sig rèttu nafni fyrir þeim, og gaf þeim bita úr pokanum sínum. Sögðu þá börnin við hann: „Guð drýgi í pokanum þínum, Sveinn minn.“ Sveinn svaraði: „Hann þarf þess ekki; eg get það sjálfur.“ Loksins var Sveinn handtekinn, þegar hann vildi nauðga konu bóndans í Rauðsdal á Barðaströnd, en bóndi var ekki heima. Lèt hún binda Svein með reifalinda sínum, og hèlt hann Sveini, af því hann hafði gleymt að taka fram um reifalinda í samníngnum (contractinum) við kölska. Var Sveinn svo dæmdur og heingður í Rauðuskörðum 1648. Tveim árum síðar var Jón Sýuson dæmdur líflaus á alþíngi og skyldi afhöfða hann. Er sagt, að böðullinn yrði að höggva 30 sinnum á háls Jóni, áður höfuðið færi af, því svo var, sem höggvið væri í stein, og veðraðist öxin öll upp í eggina. Í öðrum skó Jóns fannst eikarspjald, en í hinum höfuðskel af manni með hárinu á, hvorttveggja ritað rúnastöfum; þetta olli því, að öxin beit ekki. Eptir aftökuna gekk Jón aptur, þángað til þíngmenn tóku skrokkinn og brendu til kaldra kola. — Sveinn átti son eptir sig, sem Gísli hèt, og var kallaður hrókur, og þókti þar renta fylgja nafni. Hann var bæði þjófur og annað ílt að honum; hann var seinast heingdur í Dyrhólum.[1] Sagt er, að Sveinn ætti dóttur eina, sem var í Dalshúsum hjá Sauðlauksdal, og var notuð til þess að halda á barni bónda. En þegar hún hafði ekki lag á að hugga barnið, sagði hún við það: „Væri eg sem afi minn, væri gott að stínga gat á maga og hleypa út vindi.“ þegar bóndi heyrði þetta orðalag til hennar, rak hann hana burtu. Leingi þókti reymt eptir, þar um kríng sem Skotti var heingdur, og trúað var því, að það væri af völdum hans, að sèra Guðbrandur Sigurðsson frá Brjánslæk varð úti í Rauðuskörðum 132 árum síðar.

**Frá Hamra-Settu.** (Eptir Jón bónda Sigurðsson í Njarðvík í Múlasýslu.) Í tíð þorvarðar Bjarnarsonar í Njarðvík bjó sú kona á Gilsárvelli í Borgarfirði, er Sesselja hèt, og var Loptsdóttir. Hún var gipt manni þeim, er

1. Sjá Espólíns Árbækur, VI, 126.

Steingrímur hèt Maður einn var á bæ þeirra, sem hún hèlt við, og svo varð mikið um það, að þau myrtu Steingrím bónda. Eptir það struku þau í helli einn þar uppi í fjallinu, sem síðan er kallaður Sesselju-hellir og Sesselju-hamrar. Í þessum helli voru þau saman nokkur ár. Veiðivatn var í hellinum, og lifðu þau á því. Ekki er þess getið, að þau hafi lagzt á fè manna. Meðan þau voru í hellinum, áttu þau börn saman og drektu þeim í vatninu, og fór þessu svo fram, uns fylgimaður hennar dó. Þá hèlzt Sesselja ekki við í hellinum fyrir lángsemi, og fór þaðan. Hún sagði, að hver, sem fyrstur hefði þrek til að gánga í helli sinn, hann skyldi eiga það, sem heingi uppi yfir rúminu sínu. En ekki er þess getið, að nokkur hafi síðan í hann komið. Nú er hrapað grjót fyrir hann, svo ekki verður í hann komizt. Eptir þetta leyndist hún eitt ár í Dyrfjöllum; þau liggja innan við Njarðvík. Þetta sama haust vantaði Þorvarð bónda 18 sauði gamla. Það var eitt sinn snemma vetrar í Njarðvík, að fólk sat alt inni í baðstofu um kvöldvöku. Vissi það þá ekki fyrri til, en þrekleg kona gekk inn að pallstokknum, kastaði vaðmálsstránga upp á pallinn, og sagði: „Þá hefir hver nokkuð sauða sinna, Þorvarður bóndi, þá hann hefir ullina;“ en voðin var 18 álnir. Hèldu menn, að bóndi hefði vitað af henni í fjallinu, og gefið henni sauðina.

Árinu eptir þetta bar það við á Eiðum fyrir jólaföstu eitt kvöld síðla þá sýslumaður og fólk hans var alt við verk sitt inni, að sýslumaður hafðist upp úr eins manns hljóði og sagði: „Hefði eins staðið á fyrir mèr nú, og henni Hamra-Settu, þá skyldi eg hafa tekið reiðhestinn hèrna úr húsinu, og ketið úr troginu, sem soðið var í dag, og sett fram í klefann; reyna svo að komast suður í Skálholt fyrir jólin, og þar í kirkjuna, og ná þar að halda um altarishornið.“ Einginn vissi, hvernig á þessu stóð. En um morguninn var hesturinn horfinn úr húsinu, og ketið úr troginu. En um vorið, þegar frèttist að sunnan, var þess getið, að um eða rètt fyrir jólin, þegar biskup kom í kirkjuna, hefði þar staðið velvaxin kona við altarishornið, haldið um það og beðið sèr griða og friðar; þetta var Sesselja. Hún fór aptur austur til átthaga sinna, giptist þar og bjó leingi eptir þetta, og þókti fyrirtakskona að rausn og vænleik. Nafn hennar bera niðjar hennar í Austfjörðum enn þá.

**c)** Það eru þó ekki einúngis slys og mannsmorð, sem munnmælin gera sèr að umtalsefni, heldur taka þau tíðum þá atburði, sem í eðli sínu eru saklausir og meinlausir. Hèr og hvar hefir minníngin um l e i k i viðhaldizt, sem haldnir hafa verið til forna á ýmsum stöðum. Eitt af þessum menjum er Meyasæti á Hofmannafleti fyrir ofan Þíngvelli; þar er sagt að konur hafi setið, og horft á leikina, sem haldnir voru á fletinum.[1]

1. Sbr. Ármannssögu, 10. kap. og athugasemdir Guðbrands Vigfússonar um hana í Nýum Fèlagsritum 1859, 135. bls.

Kvennabrekka heitir bær vestur í Dölum, sem dregur nafn af hæð einni, þar nærri, sem konur hafi átt að sitja á, og sjá leiki þá, sem þar voru haldnir.[1] Alt eins fara sögur af miklum reiðmönnum og hestum þeirra, og sjóferðamönnum, og skal hèr getið fárra dæma til þessa.

**Skúlaskeið.**[2] (Dr. Maurers Isl. Volkss. 235. bls. eptir Pètri Sigurðssyni á Mosfelli.) Maður hèt Skúli; hann var dæmdur líflaus á alþíngi, en gat flúið þaðan. Elti hann þá mikill sægur af fjandmönnum hans; en hesturinn hans var svo góður, að hann varð lángt á undan þeim öllum. Hann reið upp Hofmannaflöt og Tröllaháls, til Hallbjarnarvarða, og norður á Kaldadal. Þar nam hann litla stund staðar, helti víni af ferðapelanum sínum í steinþró, og kallaði þeim hæðnisorðum til þeirra, sem eltu hann að hann vildi launa þeim með þessu svo fjölmenna fylgd. Síðan hleypti hann klárnum með flugaferð á einhvern hinn illgrýttasta óveg, sem verið hefir á landinu, og þorði einginn hinna að fara þar á eptir honum. Af því dregur þessi vegur nafn, og heitir enn í dag Skúlaskeið. Þegar Skúli kom heim til sín, fèll hesturinn dauður niður af þreytu og mæði; gerði hann hestinum það þá til virðíngar, að hann hèlt erfisdrykkju eptir hann, og lèt taka gröf að klárnum og grafa hann.

**Daði í Snóksdal.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 236. bls. eptir sèra Guðmundi Einarssyni, og handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Daði Guðmundsson í Snóksdal var svo frægur af framgaungu sinni móti Jóni biskupi Arasyni og þeim feðgum um það bil, sem siðabótin var að komast á hèr á landi, að hvert barn á Íslandi kannast við hann. Það er sagt, að hann hafi átt brúnan hest, sem var hesta beztur á sinni tíð. Hann átti einnig skip, sem hann lèt menn sína róa á undir Jökli. Eitt haust var formaður hans heima í Dölum með skipið og alla hásetana. Segir þá Daði eitt kvöld, þegar hann snæðir: „Nú borða Jöklamenn slóg í kvöld.“ Þetta heyrir formaður hans, og tekur það svo, sem Daði sè orðinn leiður á heimaveru hans. Daginn eptir er norðan rok og blindbylur. Þá kallar formaður háseta sína og siglir af stað; var kafald og rok svo mikið, að skipverjar sáu aldrei árarlángt frá skipinu. Á leiðinni undir Jökul heita Bollaleiðir. Loksins siglir skipið hjá skeri einu, þá mælti formaður: „Þekkið þið þángið á honum Bolla, piltar?“ svo var hann kunnugur og viss að rata. Nú siglir hann undir Jökul á Hellissand og kemur þar um kvöldið. En þegar hann lendir, kemur þar Daði í Snóksdal ofan í kleifarnar á Brún sínum, því hann hafði orðið hræddur um skipið, og reið því af stað, undireins og skipið fór. Það vita menn mesta reið á einum hesti, að ríða á 10 stundum frá Snóksdal og undir Snæfellsjökul. Öðru sinni gerðu mótstöðumenn

---

1. Dr. Maurer eptir sèra Guðmundi Einarssyni á Kvennabrekku.
2. sbr. Dúfunefskeið í Landn. III, 8. kap. 194. bls.

Daða honum fyrirsátur, og streingdu þrjá streingi, hvern fyrir ofan annan, þvert yfir götuna, þar sem leið Daða lá um í náttmyrkri; gerðu þeir það til þess, að missa því síður af honum. Þegar Daði kom að streingjunum, brá hann sverði, og hjó þegar sundur efsta streinginn, en Brúnn stökk með hann yfir miðstreinginn og þann lægsta; á þenna hátt slapp Daði úr höndum fjandmanna sinna.

**Árni Oddsson.** (Eptir Árbókum Espólíns og allmennri sögusögn.) Árni var sonur Odds biskups Einarssonar í Skálholti. Hann hafði mannast vel bæði innanlands og utan, og verið 3 vetur í Kaupmannahöfn, og var þá settur yfir skóla í Skálholti tvítugur að aldri (1612), sem Espólín segir. Eptir það tók hann að stunda lögvísi, er honum kom að haldi, bæði áður en hann varð lögmaður og eptir. 1606 varð maður sá höfuðsmaður hèr á landi, er alþýða hefir leingi kallað „Herlegdáð," en raunar hèt hann Herluff Daae. Hann átti í brösum við marga landshöfðíngja, og ekki sízt við Odd Skálholtsbiskup. Ófrægði Herlegdáð biskup mjög erlendis, og afflutti mál hans fyrir konúngi; taldi það einkum, að biskup vígði suma ólærða til presta, er hvorki hefðu lært í latínuskóla, nè kynnu latínu, fyrir vensla sakir, vináttu eða fjár. En Oddi biskupi tókst að hnekkja þessum áburði. Þó var mikið tilhæfi í því eins og hinu, að biskup veitti treglega fátækra manna börnum viðtöku í Skálholtsskóla, nema með þeim væri lögð jörð, eða jarðarpartur, og varð höfuðsmaður stundum að skerast í, að slíkir menn feingi viðtöku afarkostulaust. Aptur á móti átti biskup gildar sakir á höfuðsmanninum, fyrst það er höfuðsmaður hafði leyft hjónaband þrímenníngum án konúngs vitundar, en móti biskups ráði; það annað, er höfuðsmaður virðist hafa byrlað honum ólyfjan, svo að hann lá eptir 2 eða 3 sólarhrínga. Margt var það og fleira, er þeim brauzt í milli höfuðsmanni og biskupi.

Í þessum deilum sendi biskup Árna son sinn utan 1617, til að standa fyrir sínum málum þar, móti Herlegdáð, og kom hann svo fram málum sínum við konúng, að hann sendi umboðsmenn sína út híngað sumarið eptir, til að dæma þessi mál og önnur.

Meðan Árni dvaldi í Kaupmannahöfn veturinn eptir, bar svo við, að hann gekk fyrir opinn glugga á höll þeirri, er konúngur var í og átti þá einmitt tal við Herlegdáð. Árni verður þess skjótt áskynja og staldrar við. Heyrir hann þá, að konúngur spyr Herlegdáð, hversu margir skattar sèu af Íslandi. Herlegdáð svarar: „70." Þá gat Árni ekki á sèr setið og gall við: „Nú lýgur Herlegdáð að konúnginum, því skattarnir eru ekki að eins 70, heldur 7 sinnum 70, aðrir segja 70 sinnum 70." Herlegdáð varð bylt við mjög, er hann var gjörður að ósannindamanni frammi fyrir kóngi, og bað kóng um að láta prófa málið næsta sumar og því hèt kóngur. Síðan stefndi Herlegdáð Árna til alþíngis næsta sumar.

Snemma sumarið eptir (1618) komu út híngað erindisrekar konúngs, til að álíta mál höfuðsmanns og biskups og svo annara manna. En Árni kom ekki, hvorki til að færa fram varnir fyrir föður sinn nè sig móti höfuðsmanni. Var svo riðið til alþíngis, að eingar spurnir komu af Árna, en hitt þókti sannspurt, að öll Íslandsför væri út komin, sem híngað áttu að fara það sumar. Byrjaði svo þíngið, að Oddur biskup var með böggum hildar, bæði af burtuveru sonar síns og af því, að hann sá, að öll mál mundu falla á þá feðga, er öll gögn vantaði og Árni hafði með sèr. Leið nú til þess að mál þeirra biskups og höfuðsmanns áttu að koma í dóm. Var þá kallað tvívegis í lögrèttu á Árna með stundarmillibili. En Herlegdáð þóktist nú hafa mál þeirra feðga mjög í vasa sínum, og ámeðan leið ámilli hins fyrsta og annars kallsins, hreitti hann spelnisorðum að biskupi, hvað Árni sonur hans væri nú að sýsla. Biskup lèt, sem hann yrði þess ekki var. Var þá kallað í annað sinn á Árna. En er það kall var afliðið, bað biskup hina konúnglegu erindisreka að gefa sèr litla hvíld, á meðan hann brygði sèr frá, og var honum leyft það. Síðan gekk Oddur biskup upp á Almannagjáarbarm, að lítast um, ef hann mætti sjá eitthvað sèr til hugarhægðar.

En það er frá Árna að segja, að hann dvaldi í Kaupmannahöfn veturinn 1617—18, sem fyrr segir. Hann hugsaði þann tíma eingaungu um mál föður síns og sín, að undirbúa þau til alþíngis sumarið eptir, en ekkert um það að taka sèr far út híngað. Herlegdáð hugsaði minna um málatilbúnað, en um útkomu sína og Árna, en um sína á hvern hátt, því hann rèð sèr sjálfum far á herskipi því, er hinir konúnglegu erindisrekar komu út á, en á hinn bóginn lagði hann blátt bann fyrir suma skipara, að þeir flyttu Árna um Íslandshaf, en bar fè á suma, til þess að gjöra það ekki. Um vorið, er Íslenzk kaupför lètu frá Kaupmannahöfn, gekk Árni á milli allra farráðenda, fyrst þeirra er áttu að fara í sunnlendíngafjórðúng og síðan hinna, er annarsstaðar áttu verzlunar viðskipti við Ísland, en fèkk hvergi far, því eingir þorðu að taka við honum fyrir ráðríki Herlegdáðs. Sat svo Árni eptir af öllum Islandsförum með sárt ennið, sem geta má nærri. Þegar ekki var nema vika eptir til alþíngis um sumarið, var Árni einu sinni að gánga með ströndinni fyrir utan Kaupmannahöfn, segja sumir, að hann hafi átt þar góðan vin, gamlan að aldri, hafi Árni farið til hans mjög dapur í bragði og beðið hann að flytja sig um Íslandshaf. En karli hafi þókt úr vöndu að ráða, en sagzt þó mundi treysta á fremsta með það, hafi hann þá dregið fram skúffu eina litla úr skáp sínum, borið hana til sjáfar og flutt Árna á henni til Íslands, og komið út í Vopnafirði, er 2 dagar voru til alþíngis. En hinna sögn er öllu trúlegri, sem segja, að Árni hafi, er hann reikaði með ströndinni, sem fyrr segir, sèð mann á báti skamt frá landi; hafi hann kallað til mannsins og beðið hann að flytja sig um Íslandshaf, því líf sitt og virðíng

föður síns væri í veði, ef hann væri ekki kominn þar í ákveðinn tíma. Maðurinn hèt honum farinu, og stè Árni þegar á ferjuna. Dregur farmaður þá upp segl og siglir um hríð raðbyri. Þegar stund var liðin, spyr formaður Árna, hvort nóg gángi. Árni kvað því fjarri fara. Herti þá farmaður enn skriðinn á skútunni til muna og fór því fram um stund. Eptir það spyr formaður Árna í annað sinn, hvort honum þyki skriðurinn nógur. Árni sagði: „Betur má, ef duga skal.“ Herti formaður þá enn skriðinn, svo Árna þókti skútan nálega flytja kerlíngar. Þá spyr formaður hann hið þriðja sinn, hvort Árna þækti skútan gánga nóg. Árni sagði: „Þetta nægir, ef guð vill.“ Segir síðan ekki af ferðum þeirra, fyrr en þeir taka land í Vopnafirði tveim dögum fyrir alþíng. Ekki er þess getið, hvað Árni hafi gefið flutníngsmanni fyrir farið, nè heldur hvernig þeir skildu. En undir eins og Árni varð landfastur, keypti hann sèr tvo úrvalshesta margalda, og reið þeim þann dag allan; hafði hann spreingt annan þeirra, en gjört hinn uppgefinn, er hann kom að einhverjum bæ á Jökuldal. Hann falaði þar hesta, er sèr dygðu að ríða á 3 dægrum skemmstu leið hvíldarlaust til alþíngis. Var honum vísað til hests á einum bæ þar í dalnum, er honum mundi duga einhesta, ef hann feingi að eins að drekka. Árni fær sèr þann hest, og er þess ekki getið, hvað hann hafi fyrir hann gefið. Sá hestur var brúnn að lit, mjór sem þveingur og sívalur. Árni tekur hestinn og ríður honum alt þar til hann kemur að Brú; það er efstur bær á Jökuldal, og síðastur, er farinn er fjallavegur og Spreingisandur suður. Árni kemur þar á kvíabólið, er verið er að mjalta eptirmjölt. Hann biður að gefa sèr að drekka. Konan var í kvíunum og sókti honum heim rjóma, en kom um leið með eitthvað í svuntu sinni. Meðan Árni var að drekka, segir konan: „Eg vænti þig lángi í sopann þinn líka Brúnn minn.“ Síðan hellir hún saman eptirmjöltinni í eina fötu, sem tók yfir fjórðúng, geingur að hestinum og setur hana fyrir hann. En Brúnn kumraði við henni og hætti ekki fyrr, en hann hafði lokið úr fötunni. Á meðan hann var að drekka, var konan alt af að klappa Brún og andvarpa yfir honum. Árna þókti hún víkja kunnuglega að hestinum og spurði hana, hvernig á því stæði; en hún kvaðst hafa alið hann upp í búrinu hjá sèr og látið hann nauðug burtu og hún hèldi hann reyndist mannbær. Síðan þakkaði Árni konunni greiðann og stè á bak, en í því tók konan smèrsköku úr svuntu sinni og stakk upp í klárinn og mælti: „Það er ekki fyrsta damlan, sem þú færð Brúnn.“ Árni kvaddi vel konuna, en hún árnaði bæði honum og hestinum alls góðs. Eptir það lagði Árni á hinn leingsta fjallveg, sem til er á Íslandi um sólarlag, er tæp 3 dægur voru til þess er alþíng skyldi byrja.

Nú er þar til að taka, sem fyrr var frá horfið, að Oddur biskup kemur upp á Almannagjáarbarm og svipast þar um með sveinum sínum í ýmsar áttir, er leiðir lágu að til alþíngis. Þegar þeir höfðu verið þar

um hríð, varð biskupi litið upp með Ármannsfelli, og sèr, að þar gýs upp jórreykur, er fer svo ótt yfir, að biskupssveinum þókti undrum sæta. Þá segir biskup, er hann hafði sèð á reykmökkinn um stund: „Væri Árna sonar míns von hèr á landi, þá segði eg, að hann væri þarna á ferð.“ Eptir það gekk biskup til lögrèttu. Var þá kallað nafn Árna í þriðja sinn, er biskup var kominn aptur. En það stóðst á endum, að Árni var kominn svo tímanlega, að hann mátti nema hljóðið, er kallað var, gegndi þegar af hestbaki og sagði: „Hèr er Árni Oddsson kominn fyrir guðs náð, en ekki þína Herlegdáð.“ Stè Árni þegar af baki hesti sínum, er þá var sem eitt moldarstykki hèlað á að sjá og stóð reykjarstrokan úr nösum hans. Biskupssveinar hirtu Brún, en Árni gekk til föður síns og mintist við hann og gekk síðan til dóma, eins og hann stóð. Færði hann þar fram svo ágæta vörn í málum föður síns og sínu, að hinir konúnglegu erindisrekar dæmdu Herlegdáð með smán frá höfuðsmanns embættinu og í stórsektir til konúngs, en þá Odd biskup og Árna sýkna saka. Vóx af þessu vegur Árna og virðíng svo mjög, að hann varð síðan lögmaður sunnan og austan á Íslandi. En það er sögn manna um Brún, að aldrei hafi betri eða traustari hestur borið há á Íslandi, en hann.

**Hvanndalabræður og Jón stólpi.** (Heimildanna verður smámsaman getið neðanmáls.) Margar sögur hafa verið til um hraknínga á sjó á Íslandi, bæði að fornu og nýu, og hefir sumum þeirra verið snúið í ljóð,[1] en sumir hafa geingið í munnmælum, og ekki verið kveðið um.[2] En flestar slíkar sögur eru um hraknínga, sem menn hafa orðið fyrir nauðugir, svo öðru máli sýnist vera að skipta um þær ferðir, sem menn hafa tekizt fúsir á hendur, en komizt fyrir það í nauðir, og frelsast þó úr þeim bæði fyrir tilstilli forsjónarinnar, og eigin snjallræði. Þess leiðis eru sögur þær, sem geingið hafa af hinum svo nefndu Hvanndalabræðrum eptir því, sem sèra Jón Einarsson hefir frá sagt[3] og Espólín[4] eptir honum. Sagt er að Kolbeinsey liggi 12 vikur sjávar í norður frá Grímsey, en 18 vikur norður af Íslandi (frá Eyafjarðar mynni) og er hún kölluð „Mevenklint“ í sjóbrèfum farmanna. Á dögum Guðbrands biskups bjó sá maður á Hvanndölum, sem Tómas hèt; hans synir voru þeir svo kölluðu Hvann-

---

1. t. d. Grímseyar vísur eptir sèra Guðmund Erlendsson, sem þar var prestur 1631—34 († 1669). Ríma af hrakníngi Sigurðar Steindórssonar yfir Breiðafjörð 1743, gerð af Vigfúsi Helgasyni. Sjóhrakníngssálmur Erlendar á Holtastöðum, kveðnir af sèra Jóni sál. Hjaltalín.

2. sbr. þáttinn af Hálfdáni í Felli, sögu af þorbirni Kólku, og enn fleiri.

3. Hann kvað 50 árum seinna „Vísur um hrakníngsferð Hvanndala-Bjarna til Kolbeinseyar.“

4. Árb. V, 35. bls.

dalabræður. Hèt hinn elzti Bjarni, en hinir Jón og Einar. Bjarni hafði átta um tvítugt, en hinir voru fyrir innan tvítugt, þegar þessi saga gerðist hèr um bil 1580. Allir voru þeir bræður atgervismenn miklir að afli og orku, og mestu ofurhugar; þeir voru vanir vosi og sjóferðum og aflamenn miklir, og þóktu giptusamir laungum. Af því þeir þóktu beztu sjómenn fyrir norðan á þeim dögum, fèkk Guðbrandur biskup þá til að leita að Kolbeinsey, og gaf þeim til þess mikið fè. Þeir bræður fóru 3 saman á áttæríngi, og var Bjarni formaðurinn; hann valdi gott veður til ferðarinnar, og höfðu þeir með sèr vistir og aðrar nauðsynjar. Þeir lögðu á stað á nóni í hagstæðum byr og höfðu hálfnað Grímseyarsund um sólarlag. Kom þá á fyrir þeim austan súld og svæla með dimmviðrisþoku, svo varla sá út fyrir keipana, rak þá svo vestur í haf í tvö dægur, því einginn kostur var að halda stefnunni norður, svo var veðurofsinn mikill með stórsjó og steypiregni. Sneru þeir þá undan og hèldu til lands og náðu lendíngu á Hrauni í Fljótum eptir 2 sólarhrínga. Þó svona tækist til í þetta sinn, lögðu þeir bræður aptur á stað og hreptu enn austanvind mikinn og dimmviðri. Þegar þeir höfðu siglt tvö dægur sókti þá Jón og Bjarna svo mikill svefn, að þeir gátu ekki haldið sèr upp. Tóku þeir þá það til ráðs, að þeir bundu seglið fast, og lögðust fyrir, en Einar var við stjórn, að eins hálf vakandi. Um þetta leyti lètti nokkuð af dimmviðrinu, svo að sást til sólar, og var hún komin í vestur, en til austurs var að sjá eitthvað hvítt, og ætlaði Einar, að það mundi vera hafskip. En brátt sá hann, að þetta var hæsta bjargið á Kolbeinsey sjálfri, og var það alhvítt af bjargfílíng, sem sæi á fífubýng. Vakti þá Einar bræður sína með því, að þeir væru komnir undir eyna. Þeir bræður ruku á fætur og trèfeldu, tóku til ára og drógu sig upp í eyarvarið, þó veðrið væri um mikið, en þeir voru svo röskir menn, að þeir reru viku sjávar á eyktinni. Komust þeir svo að skeri nokkru við eyna, og sópuðu þar saman fugli með báðum höndum, svo var hann mikill og spakur. Síðan rendu þeir vöðum undir eynni; en ekki urðu þeir fiskvarir að því skapi, sem fuglinn var mikill. Lögðu þeir svo að landi í vík einni, köstuðu stjóra og bundu þar við skipið, en sú yfirsjón varð þeim, að þeir festu ekki landfestina, svo að brimsúgurinn tók hana út fyrir þeim. Af því veðrið var mikið, fór skipið þegar að reka undan eynni, og urðu þeir að horfa á það, þar sem þeir stóðu allslausir uppi í fjörunni. Var það ekki að undra, þó þeir kæmust við af ástandi sínu, þar sem ekkert var sýnna, en opinn dauðinn fyrir. Bjarni var syndur og lagðist hann tvisvar eptir skipinu; en bæði vegna ofveðurs og brims, sem hleypti þá í, ætlaði hann varla að ná landi; en skipið rak æ leingra undan með öllu, sem þeir höfðu sèr til lífsbjargar, mat og drykk og fatnaði þeirra. Í þessum hörmúngum reikuðu þeir ráðþrota upp frá flæðarmálinu; varð þeim það eitt til úrræða, að þeir fèllu á knè á klettunum, og báðu guð grátandi hjálpar og miskunar. Síðan

ráfuðu þeir upp á eyna og töluðu ekki orð frá munni. Þá gaf guð það, að sjó og vind kyrði, svo að það kom fyrst logn og þar næst hægur vindur á útnorðan, svo að skipinu sveif aptur að eynni. Óttuðust þeir þá, þó djúpt væri, að skipið kynni að steyta á skeri, þar sem þeir næðu ekki til, en það varð þó ekki. Þeir bræður höfðu haft haldfæri með sèr úr skipinu, og röktu það niður í stóran hríng, bundu stein í endann á því, og köstuðu honum útí skipið. Vildi þeim það til lífs og bjargar, að steinninn festist undir stafnlokinu á skipinu, svo að þeir gátu dregið það að sèr, og má nærri geta, hversu óumræðilegur fögnuður það muni hafa verið fyrir þá. Bjuggu þeir svo betur um skipið eptir, en áður, og tóku síðan fugl (lángvíur) og egg í bezta næði og blíðviðri. Þeir vaðbáru eyna og var hún 400 faðma á leingd, en á breidd og hæð 60 faðma. Ferns konar grjót var á eynni, og hún öll með hólum og gjám, full af grjóti, og eingin grastó í milli. Alls voru þeir 7 dægur við eyna, höfðu þeir þá náð 800 af fugli, ógrynni af eggjum og nokkru af fiski. Frá Kolbeinsey var landið alt horfið sjónum, nema einar 3 þúfur, en það voru hæstu fjöll á landi. Þegar þeir fóru frá eynni, feingu þeir hagstæðan byr, farnaðist alt vel og tóku land á Siglunesi á Maríumessu. Foreldrar þeirra þóktust hafa heimt þá úr helju og urðu allshugar fegnir komu þeirra. Þessi för Hvanndalabræðra hefir síðan verið að minnum höfð.[1]

Olavíus getur þess í ferðabók sinni,[2] að fyrr meir hafi verið farið til Kolbeinseyar á vorin á áttæríngum eptir dún og sel og fugli. Voru selir þar svo spakir, að taka mátti með höndum. Jón hèt maður, kallaður stólpi, og var bóndi í Grímsey; Olavíus segir að hann hafi seinastur farið til Kólbeinseyar. Viðurnefni sitt fèkk hann af því, að hann reisti upp staung 20 álna lánga, áður en hann fór á stað úr Grímsey, og festi á hana hvíta vaðmálsveifu, til þess að geta ratað heim aptur.

f) Stundum virðist það vafasamt, hvort maður eigi að álíta þá eða þá sögu viðburðasögu; því svo lítur út, sem í sumum þeirra liggi að eins hugmyndaleikur, sem klæði einhvern siðalærdóm í sögulegan hjúp. En annað veifið sýnist liggja við sjálft, að slíkar sögur sèu tröllasögur, galdrasögur, kýmnisögur og þar fram eptir, svo að varla er auðið að fá þeim fast sæti í flokkaskipuninni. Af því einhver hreystibrögð liggja í flestum þessum sögum, sýnist ekki fjarstætt að kalla þær afreksmannasögur.

**Hólamannahögg.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 237. bls. eptir sèra Skúla Gíslasyni.) Vestfirðíngar og Sunnlendíngar hafa jafnan álitið Norðlendínga dugandis-

1. Espólín segir, að þeir bræður hafi farið 3 ferðir til Kolbeinseyar, tvær fyrst, er þeim hafi borizt á í, en hina þriðju seinast, og hafi þeim þá farnast vel, en í vísum sèra Jóns, sem Espólín segist þó hafa sögu sína eptir, eru ekki taldar nema 2 ferðir þeirra.

2. sjá 323. bls.

menn og skjóta til úrræða, en þó jafnframt gortara og oflátúnga, hvað sem þeir hafa til þess.[1] Til þessa lítur saga sú, sem hèr kemur, hvort sem hún er sönn eða mynduð. Tólf menn frá Hólum ætluðu einu sinni suður á land til sjóróðra. En feingu moldöskubyl á Tvídægru, svo þeir urðu þar allir úti nema einn. Hann komst hálf dauður af þreytu og helkalinn til næsta bæar. Bóndinn á bænum, sem Hólamenn höfðu árinu áður hætt og misboðið, erfði það við manninn, og í staðinn fyrir að veita honum, svo illa ásigkomnum, sem hann var, góðan beina, sagði hann með miskunarlausri hæðni: „Nú eru Hólamanna klakksekkir farnir að lèttast.“ Þá svaraði hinn, þó hann væri kominn í opinn dauðann: „En fyrir það lèttast ekki Hólamanna högg,“ og rak bónda um leið aleflis kjaptshögg. En svo var maðurinn kalinn, að handleggurinn fèll af honum við höggið, og hann datt sjálfur dauður niður í sömu sporum.

**Þorbjörn kólka.**[2] (Eptir frásögn Magnúsar Pálssonar, nú á Auðkúlu 1860 og sèra Þórðar Árnasonar á Mosfelli; sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 238—240. bls.) Þorbjörn kólka er talinn með landnámsmönnum. „Hann nam Kolkumýrar, og bjó þar meðan hann lifði.“[3] Um Þorbjörn hafa verið nokkrar sagnir nyrðra, og eru þessar helztar. Kólkumýrar kalla menn nú suður á Kúluheiði og Kólkuhól, og er hvorttveggja dregið af viðurnefni Þorbjarnar. Þorbjörn átti sumsè að hafa haft þar aðalaðsetur sitt suður á heiðinni sumar og vetur, og veitt á vetrum silúng í Friðmundarvötnum á Kúluheiði. En haust og vor lá hann út við sjó í verstöð þeirri, sem Hafnabúðir heita á Skaga. Draga búðirnar nafn af bænum Höfnum, sem þar á alt land undir verbúðunum; en frá Höfnum er laung sjávargata ofan á Hafnabúðir. Þorbjörn kólka fèkk sèr búðarstæði hjá Hafnarbónda á nesi einu háu, og er þaðan víðsýnt; síðan er það kallað Kólkunes; búð Þorbjarnar var og kölluð Kólka, og svo heitir húsmannsbýli það, sem enn er á Kólkunesi, og liggur undir Hafnir. Tjörn ein er og á Hafnabúðum, hjá nesinu, og er hún kölluð Kólkutjörn; þángað sækja sjómenn alt neyzluvatn. Austan og norðanvert við nesið skerst inn vík; fyrir botninum á henni er slèttur sandur og gott á land að leggja. Í þeirri vík er lendíngin á Hafnabúðum. Rauf ein er milli klettanna á Kólkunesi, vestan halt við víkina, og kölluð Kólkuker; þar er sagt að Þorbjörn hafi kastað af afla sínum. Alltítt var að menn úr sveitum gerðu sig út til sjóróðra

1. Þetta kemur og heim við það, sem segir í gamalli dómabók, að það sè gamalla manna mál, að svo sè háttað fólki í fjórðúngunum á Íslandi, að fyrir vestan sèu vísindamenn, fyrir norðan hofmenn, fyrir austan búmenn, og fyrir sunnan mángarar og kaupmenn.

2. Ávalt er sagt fyrir norðan: kólka, en ekki kolka.

3. Landn. III, 5. kap. 184. bls.

á Hafnabúðum, haust og vor, því þar var jafnan aflasælt, þá sem nú; enda má sjá þar mörg búðastæði forn. þángað fór og þorbjörn kólka, sem fyrr segir. Ekki átti hann við aðra vermenn svo getið sè; en vel fèll á með Hafnabónda og honum. þorbjörn var hinn mesti sjósóknari og reri einn áttæríngi, aðrir segja steinnökkva, leingra í haf, en flestir hafa farið þá eða síðan. Einn góðan veðurdag var það, að menn reru alskipa frá Hafnabúðum, þeir reru og báðir þorbjörn og bóndinn í Höfnum með skipverjum sínum. Olbogi heitir dýpsta fiskimið, sem róið er á úr veiðistöðu þessari, og er það fullar 3 vikur undan landi. þángað reru allir þenna dag; því veður var fagurt og blítt, og ólíkt til innan áttar. þorbjörn reri lángt úr öllum fiskimiðum, eins og hann var vanur. Leið svo fram um hádegi, að menn sátu að fiskidrætti, og hèlzt enn blíðviðrið, en eptir það fór að draga upp skýbólstra á innfjöllin, leið þá og ekki á laungu, áður skinnaköst fóru að koma á sjóinn, og þyrla upp moldrokum hèr og hvar úr fjöllunum, því af Olboga vatnar yfir alt láglendi. Hvesti þá svo óðum, að um miðmundabil var komið særok á landsunnan, og er það rètt um hnífilinn í land af Olboga, enda voru þá allir farnir að leita til lands, nema Hafnamenn; þeir keipuðu einskipa eptir á Olboga.

Litlu síðar sèr Hafnabóndi til þorbjarnar, og þykir honum vera mikill skriður á skipi hans, og þorbjörn róa heldur knálega. þegar hann kemur á bug við Hafnabónda, heldur hann upp árum og mælti: „Hvort hyggja Hafnamenn að keipa til kvölds?“ „Eigi er svo varið“ mælti bóndi. „Hitt er heldur, að vèr treystumst ekki að leggja móti andviðrinu.“ Lèt þá þorbjörn ferju sinni svífa nær Hafnamönnum, og kastaði til þeirra færisenda sínum, og bað þá að lafa á honum. En þeir brugðu endanum utanum allar þópturnar, og tók svo þorbjörn aptur til ára. Herti þá veðrið því meir, sem á daginn leið. Rèttir nú þorbjörn fyrst annan fótinn og þókti Hafnamönnum þá ærinn skriður á skipinu. Hèldu þeir svo á fram inn á mið það, sem Vatnaslóð heitir, og er það mæld vika sjávar norðan af Olboga. þókti þá þorbirni enn seint sækjast róðurinn, svo hann rèttir nú báða fætur sína og sagði: „Betur má ef duga skal, því mörg verður ekkja á Hafnabúðum í kvöld.“ Reri hann þá bakföllum og svo sterklega, að skip Hafnamanna var því nær alt í sjó, og stóðu þeir allir í austri. Voru þeir þá svo þrekaðir bæði af sjóvolkinu og austrinum, þegar að landi kom, að þeir gátu ekki bjargað skipi sínu undan sjó; bar svo þorbjörn einn bæði skipin upp í naust. þá mælti Hafnabóndi: „Til hverra launa lítur þú, þorbjörn, fyrir það, að þú hefir bjargað lífi voru?“ „Alls ekki hefi eg að því hugað,“ segir þorbjörn, „og mun eg ekki mútur-taka á afli mínu; en sannast er að sárna tekur í lófum;“ og strauk þá um leið. Bóndi þakkar honum lífgjöfina, og skildu þeir þorbjörn að því sinni, og gekk bóndi heim til Hafna. Annan dag eptir kom bóndi til þorbjarnar, færði honum 30 álnir vaðmáls og bað hann hafa í vetlínga.

„Laklega var dregið“ sagði Þorbjörn, „því nú vantar í alla þumlana.“ Bætti bóndi honum þá enn til 10 álnum, og er ekki annars getið, en að Þorbirni hafi þá vel líkað. Þorbjörn varð sannspár að því, sem hann hafði sagt fyrir um skipreikann; því öll skip týndust í veðrinu, sem róið höfðu af Hafnabúðum um morguninn, nema þau tvö, sem hann reri í land.

Þegar Þorbjörn kólka gerðist gamall, og ekki fær til sjóróðra leingur fór hann með skip sitt (nökkvann) vestur fyrir Kólkunes, og hvolfdi því þar, hèr um bil 20 faðma frá landi og óð síðan sjálfur til lands, og er þar þó fimm faðma djúp í sundinu milli skers og lands. Það er síðan kallað Kólkusker; það er á að geta 20 faðma lángt og 10 faðma breitt, en dregst nokkuð að sèr til beggja enda, hæst og breiðast er það um miðjuna, og ekki með öllu ólíkt því, sem skip væri á hvolfi. Þegar Þorbjörn hafði hvolft skipi sínu, er sagt hann hafi sagt það fyrir, að þegar bænahúsið í Höfnum væri felt af fyrir fult og alt, mundi sá maður búa á Kólkunesi, sem bæri gæfu til að hvolfa upp skipinu og mundi það verða honum eins happasælt, eins og það hefði verið sèr. Þorbjörn hafði til beitu fóhorn og flyðrugarnir, mannaket í miðjum bug, og mús á oddi. Hann sagði, að þegar kippa skyldi, skyldi kippa um fet og þverfet (það er leingd og breidd skipsins). Þegar hann var kominn í land frá skipinu, segja menn, að hann hafi kveðið vísu, til að vísa mönnum á fiskimið það, sem hann var vanur að róa á, og Sporðagrunn heitir; vísan er þannig:

„Mið veit eg mörg:<br>
Matklett á Björg,<br>
Beri neðri nöf<br>
í naglfara röf,<br>
hirði eg[1] ei, þó Kaldbak kali,<br>
Kyrpíngsfjall[2] í Leynidali.[3]<br>
Komi þar einginn kolmúlugur úr kafi,<br>
þá[4] mun ördeyða á öllu norður hafi.“[5]

---

1. kynjar, aðrir.
2. Kipríngsfjall og Kyrkíngsfjall, aðrir.
3. Leyníngsdali, aðrir.
4. kallast, aðrir.
5. 3—4 vísuorð er tekið eptir Hjalmari Jónssyni. Útskýríng vísunnar eptir Dannebrogsmann Björn Ólsen: „Matklettur er örnefni á heiðinni (Skagaheiði) upp undan Selnesi, sem er innsti bær á Skaga austan til. Björg eru Kètubjörg; þar sem þau eru hæst, er þúfa á þeim, og þar yfir á Matklettur að bera. Kyrpíngsfjall kallast fjallbúngan fyrir ofan bæinn Tjörn í Nesjum; það heitir og Tjarnarfall; á það að bera í Leynidali, sem liggja upp undir klettum þeim, sem eru ofan til norðan í Spákonufellsborg. Kaldbak er fjall fyrir ofan bæinn Síðu og Vatnahverfi í Refasveit. Á það að vaka vestan til við taglið á Spákonufellsborg. Á þessu miði fann eg 12 faðma djúp, en hafði þó heyrt, að þar ætti að finnast 6 faðma djúp. Einginn veit eg til að hafi róið á þetta mið, síðan eg fór af Skaga.“

**Piltabúðir.** (Eptir Magnúsi Pálssyni, nú á Auðkúlu, 1860.) Mitt á milli Hafnabúða og Tjarnar er tángi fram í sjóinn, sem kallaður er Rifið. Þar voru í fyrri tíð búðir og sjómenn margir; en mitt á milli Rifsins og Hafnabúða stóðu Piltabúðir. Þángað völdust jafnan vöskustu menn og klæddu sig aldrei skinnklæðum, og kölluðu það lítilmennsku, að „skríða undir sauðarnárum.“ Rifsmönnum lèk öfund á sjómönnum í Piltabúðum og áttust þeir opt ílt við, en að lokum fóru Rifsmenn á Piltabúðir einn góðan veðurdag, er Piltar voru ekki heima, og söguðu allar árar næstum í sundur undir skautnum, og negldu svo skautana yfir aptur. Daginn eptir reru Piltar og gjörði stinníngs kalda um daginn og óveður af landi. Komu þeir eigi að um kvöldið og spurðist eigi til þeirra framar. Þar, sem Piltabúðir voru, sjást nú stórar grjóthrúgur, og steinar svo stórir, að eingir menn nú á tímum mundu geta við þá feingzt.

**Björn skafinn.** (Eptir Jón bónda Sigurðsson í Njarðvík í Múlasýslu.) Björn er maður nefndur Jónsson, kallaður skafinn. Foreldrar hans fluttust að vestan til Austfjarða seint á dögum Stefáns biskups. Það var um vortíma. En á Reykjaheiði varð móðir hans lèttari og fæddi hann þar. En fyrir því að ekki var vatn að fá, til að lauga í sveininn, var barnið skafið með hnífi; var hann því kallaður síðan Björn skafinn. Hann ólst upp í Austfjörðum, og var afburðamaður að afli og vexti. Þegar hann var fullþroska, gjörðist hann forráðamaður húsfrú Margrètar Þorvarðsdóttur á Eiðum, er kölluð var hin ríka. Hún átti dóttur eina barna, er Margrèt hèt. Maður hennar er sagt að hafi heitið Bjarni, sem fyrir ráðríki hennar hljóp frá henni, og komst í duggu, er lá á Suðurfjörðum. En mörgum árum þar eptir kom hann út á duggu á Loðmundarfjörð, og kastaði fram stöku þessari:

„Heilsi þið fyrir mig húsfreyunni
heim til Eiða;
mörgum gjörir hún manni greiða;
margt má gott af frúnni leiða.“

Þess er getið eitthvert sinn, að Björn skafinn lá á Eiðabjargi í Borgarfirði, og var þar formaður fyrir skipi Margrètar húsfreyu. En seint um sumarið reið hún ofan eptir, að líta eptir aflabrögðum, og þókti lítið hafa fiskazt, og kvað sljóflega sóktan sjó. Hann kvað fisk svo lítinn, að aldrei feingist meira en einn í áróðri. „Sèu tuttugu áróðrarnir“ sagði hún, „fást tuttugu fiskar.“ Um morguninn eptir við tal þeirra var gott veður; var því Björn árla uppi til sjóróðurs. Hún sagðist ætla með, sèr til skemtunar. Hann kvað sèr það vel líka. En þegar leið á daginn, gekk í útnyrðíng snarpan. Margrèt húsfrú var óvön við vosbúð og kulda, og því bað hún Björn að róa í land. Hann kvað nei við og sagði: „Í tuttugu áróðrum fást tuttugu fiskar, bezt er að færa við þolið.“ Veðrið varð æ meira og

meira, og sjór farinn að rjúka; en Björn reri á alt að einu. Þessu fór hann fram, þángað til Margrèt var komin nær dauða en lífi. Bað hún hann þá, hvað sem kosta ætti, að flytja sig í land. Hann kvað ekki fullsetið enn; en þó skyldi hann gjöra það, ef hún lofaði með eiði að gefa sèr Margrètu dóttur sína; og gjörði hún það. Eptir það fèkk Björn Margrètar ýngri.

Margrèt húsfrú var auðug mjög bæði að föstu og lausu. Hún átti Húsavík og Njarðvík, og bauð dóttur sinni hvora jörðina sem hún vildi. Hún kvaðst heldur vilja Njarðvík; því þar kæmi fleiri. Reisti Björn þar svo bú og bjó til elli. Þau áttu marga sonu, sem allir voru afarmenni að afli og atgjörvi, og hèlzt það leingi við í þeirri ætt. Miklar sögur geingu frá sonum Bjarnar skafins, einkum Þorvarði, sem bjó eptir föður sinn í Njarðvík, og Jóni, er drap óvættinn Nadda. Hann var og með Erlendi sýslumanni Bjarnarsyni, er hann tók dugguna ensku. Jón hèt og annar son Bjarnar skafins, kallaður Áttærings-Jón. Hann var svo afburðamikill, að hann hèlt einn til sævar áttæríngi, en fórst seinast á vog þeim, fyrir utan Höfn í Borgarfirði, sem heitir síðan Áttæríngsvogur. Steingrímur var einn, sonarsonur hans. Er það fært í frásögur um afl hans, að þegar hann hefði komið af duggunum á sumrin, hefði hann leikið sèr að því, að grípa handfylli sína upp úr harðvellinu; en hann kvaðst aldrei hafa komið í harðvellið, nema því fremsta af fíngrunum. Hann rotaði og einu sinni rostúng með járnkall.

**Torfi í Klofa.** (Eptir Jóni Egilssyni, Jóni Espólín og munnmælum af Landi.) Torfi er maður nefndur, og var Jónsson, Ólafssonar, Loptssonar hins ríka á Möðruvöllum. Hann átti Helgu Guðnadóttur frá Kirkjubóli í Lángadal, skilgetna systur Bjarnar bónda Guðnasonar í Ögri. Torfi var auðmaður mikill, því var hann kallaður ríki Torfi; hann var afburðamaður til krapta; því var hann kallaður sterki Torfi. Hann bjó í Klofa á Landi í Rángárvallasýslu, því var hann ýmist kallaður Klofa-Torfi, eða Torfi í Klofa. Hann hafði Rángárvallasýslu og Árnessýslu báðar til forráða, frá hèr um bil 1490, en Árnessýslu eina frá því Jón Ólafsson faðir hans dó hèr um bil 1480.[1] Hann var hèraðshöfðíngi, og yfirgángsmaður mikill, og deildi einatt illdeilum við stórhöfðíngja sem nú mun sagt verða.

**Deilur Torfa og Stefáns biskups.** Meðan Magnús Eyólfsson, mókolls, sat að stóli í Skálholti (1477—1490), fór alt fram með honum og Torfa meinlauslega, en annað hljóð kom í strokkinn, er Stefán Jónsson varð þar biskup; því þeir Torfi eldu einatt grátt silfur saman. Var sú orsök til þess, að um þær mundir var siðleysi mikið hèr í landi, en sú

1. Ártölin eru tekin eptir „Sýslumannatali" Steingríms biskups, og Boga stúdents á Staðarfelli, og ber þar báðum saman.

landsvenja þá, að biskupar dæmdu öll kvennamál, og lögðu fèsektir þúngar á afbrotamenn þeim til fjörlausnar eða undanþágu skripta og kárína, ef auðmenn áttu í hlut, og leystu þá síðan; þessu undu margir allilla. Stefán biskup var siðavandur, og gekk ríkt eptir um slíkar sektir; þókti hann af því harður og refsíngasamur. Þeir, sem feingu því við komið, stukku því undan biskupi, og flýðu á náðir Torfa, er þá var mestur hèraðshöfðíngi sunnanlands, og lèt sjaldan hlut sinn liggja, við hverja sem um var að eiga. Torfi tók og alla á ásjá sína, sem hann mátti, svo biskup kom hvorki rètti nè refsíngu yfir þá, og geingu þessir afbrotamenn óleystir og ókvittir við biskup. Var af því öllu saman megn óvild með biskupi og honum.

Það var einn vetur, er Þjórsá lá öll fjalls og fjöru á milli, að Torfi bjóst að heiman, og hafði með sèr 30 manna; ætlaði hann að fara að Stefáni biskupi í Skálholti, og taka hann höndum, er staðarmenn voru flestir komnir til vers suður við sjó. Riðu þeir Torfi þá út að Nautavaði á Þjórsá, gegnt Þjórsárholti, fyrir neðan ferjustaðinn á Hrosshyl. En er þeir komu að ánni, sýndist þeim auður áll eptir henni miðri. Sneru þeir þar því frá, og riðu með henni alt ófan í Holt, að bæ þeim, er heitir í Kaldárholti. Þar sneru þeir aptur við svo búið, af því þeir þóktust ekki sjá fyrir enda álsins, svo ekki varð af aðför Torfa við biskup í það sinn. En Þjórsá var riðin á ísi þann sama dag bæði fyrir og eptir, og þókti því Torfa hafa hèr glapnast sýn, og hafa farið litla sæmdarför.

Torfi undi og stórilla við þessa för sína, og þókti biskup í meira lagi brögðóttur, er hann hafði vilt svo herfilega sjónir fyrir sèr. Bjóst hann því að hefna sín, nær sem færi gæfist. Það var eitt sumar, að Torfi reið að heiman með flokk manna, og kom í Skálholt, svo að fámenni var heima á staðnum. En er menn sáu ferð Torfa, bauð biskup að loka öllum dyrum. Torfi gekk fyrst til kirkju, og þaðan ofan að norður-dyrum, drap stórt högg á dyrnar, og spurði, hvort skolli væri inni. Biskupssveinn, sá er Loptur hèt, hljóp herklæddur til dyra, og mælti:

„Inni er skolli og ekki hræddur;
bíddu þess, að hann er klæddur-

með leyfi að segja, dèls hórusonurinn, hver sem þú ert.“ Torfi svaraði: „Ertu þar Stráka-Loptur? þessu mundir þú ekki ansa, ef þú þæktist ekki yfir fleiru búa, en eg veit af.“ Varð þá enn ekki af tíðindum heldur í þessari aðför Torfa, og reið hann heim með förunautum sínum við lítinn orðstýr. Enn þótt Torfi sæi, að biskup hefði bæði skiptin orðið sèr giptudrýgri, lèt hann alt um það ekki af áreitni við biskup, þó hèr sè ekki greint frá atvikum.

**Torfi fer að Lènharði fógeta.** Meðan Torfi hèlt Árnessýslu, var fógeti sá á Bessastöðum, sem Lènharður hèt. Hann var illur maður og

ódæll og veitti mikinn yfirgang. Hann fór austur í sýslu Torfa með ránum, settist á Arnarbæli í Ölfusi, og heitaðist um að drepa Torfa. En Torfi fór að honum úti á Hrauni í Ölfusi, og tók hann af lífi. það tiltæki Torfa lèt biskup sèr vel líka, og bað hann hafa það verk unnið manna heppnastan. Gekk þó Torfi til skripta við biskup, en lauk honum litlar fèsektir. þó var ekki þelalaust með þeim.

**Jarðhús Torfa.** Torfi átti eigi að eins í styrjöldum við þá, sem nú var getið, heldur og aðra mikla fleiri, er hann gat búizt við, að gerðu sèr heimsókn, er minnst varði. þess vegna hafði hann auk fjölmennis þess, er hann hèlt jafnan, sterkar gætur á, að fjandmenn kæmi ekki flatt upp á sig. Hann átti sterkan og rambygðan húsabæ í Klofa. En það þókti honum ekki heldur einhlítt; hann lèt því grafa leynigáng eða gjöra jarðhús undir bænum, og lá það suður og austur undir túninu öllu. Var geingið í annan enda jarðhússins í svefnherbergi Torfa. En hinn jarðhússmunninn segja sumir að lægi út fyrir austan túnið í Klofa, en aðrir, að hann væri í hesthúsi Torfa austur á Klofatúni. Hvort sem er um það, var jarðhús þetta ekki smuga ein eða rángali undir jörðunni, heldur sterklega uppgerður gángur með stoðum og bitum, svo ekki þurfti að óttast fyrir, að það fèlli niður. Ekki var heldur dimt í húsinu; því Torfi hafði látið gjöra glugga á því með nokkru millibili, og hagað svo til, að undir hverjum glugga miðjum væri biti. Á þessa bita lèt hann breiða sauðargærur blautar, bæði til þess, að það liti út líkara jarðgryfju, ef komið væri að í myrkri, og svo til þess, að óvinir hans, ef þeir kynnu að álpast þar ofan í, gætu ekki náð neinsstaðar handfesti, nema í gærurnar. En svo var hátt undir bitana, að það var einskis manns meðfæri, að komast upp á þá af gólfi, svo þeir sem niður duttu, gátu ekki komizt úr jarðhúsinu, fyrr en Torfi lèt annaðhvort drepa þá, eða gaf þeim líf ella. þó var jafnframt annar aðaltilgángur Torfa með jarðhús þetta; þángað ætlaði hann að flýa sjálfur, ef ófrið bæri að á náttarþeli, eða hastarlega, en svo að hann gæti náð til húskarla sinna, er hann lèt jafnan vera í starfi, þegar hann hèlt kyrru fyrir, og því er það að sumir segja, að jarðhúsmunninn lægi út fyrir austan túnið, að þaðan átti hann skamt að komast í hraunið fyrir austan Klofa, og leynast þar. En hinir hafa það og til síns máls sem segja, að uppgángur úr jarðhúsinu hafi verið í hesthúsinu austur á túninu, að þar gat hann hlaupið á hest, og komizt svo undan.

Vèr kunnum hvorki að segja frá því, hversu marga menn Torfi hefir látið taka í jarðhúsi þessu, nè heldur, hvað opt hann hafi þurft sjálfur á því að halda, til að forða þar lífi sínu; en hitt er hèr um bil áreiðanlegt, að jarðhúsið hefir verið til; því ekki eru yfir 50 ár síðan, að austurbærinn í Klofa var tekinn, og var þá grafið upp grjót úr bæarstæðinu. En við það fundust staurar, sem stóðu upp á endan í bæarstæðinu með nokkru

millibili, ákaflega gildir og lángir, ef þeir hefðu tollað saman fyrir fúa. Hafa menn það fyrir satt, að þessir staurar hafi verið stoðirnar í jarðhúsi Torfa, er alt var þá sígið saman, sem von var, eptir meir en 300 ár.

**Bygð í Torfajökli.** það er mælt, að plágan seinni hafi komið út híngað með enskum kaupmönnum í Hafnarfjörð; hafi þeir haft klæði að selja ásamt öðrum varníngi. En er þeir röktu sundur einn klæðastrángann, hafi rokið þar úr gufa bláleit. þeir Jón prestur Egilsson og Jón sýslumaður Espólín eptir honum, segja, „að mönnum hafi þókt, sem fugl kæmi úr klæði bláu,“ og setja útkomu plágunnar árið 1493. Eptir það dreifðist hin bláa gufumóða skjótt út, og fylgdi henni sótt mikil og mannskæð hvervetna þar sem hana bar yfir. Mannfallið byrjaði um alþíng og geysaði fram á haust til þess, er veður kólnaði. Urðu svo snögg umskipti með sótt þessari, að komið var að konum, þar sem þær sátu dauðar undir kúm á stöðlum við mjólkur fötuna, og við keröld í búrum. þetta sumar eyddust bæir mjög um alt Suðurland, og því nær vestur að Gilsfirði, og víða lifðu ekki fleiri eptir, en 2 eða 3 menn, og sumstaðar úngbörn, er sugu mæður sínar dauðar, er til var komið. Tíðum voru grafnir 3 og 4 á dag við kirkjur, og þó 6 eða 7 fylgdu líkum til grafar, komu ekki aptur fleiri, en 3 eða 4; hinir dóu á leiðinni til eða frá, eða fóru og sjálfir í þær grafir, er þeir tóku að öðrum.

þegar þetta var tíðinda, var Torfi Jónsson í Klofa orðinn hèraðshöfðíngi í Árnessýslu og Rángárvallasýslu. En er hann frètti, að drepsótt þessi var komin austur yfir Hellisheiði, austur í Ölfus, tók hann upp búslóð sína, og fór burtu frá Klofa með alt, er hann mátti með komast, og þurfti nauðsynlega, og fór með það og hyski sitt alt upp á Landmannaafrètt. Sunnan til í þeim afrètti er jökull einstakur, og veit annar endi í austur en hinn í vestur. Hann er í fult austur af Heklu, eða lítinn mun sunnar. þángað stefndi Torfi með skuldalið sitt og flutnínga. Hann hèlt austur með jöklinum norðanverðum, þángað til hann kom að kvísl þeirri, er Námskvísl heitir. Hún rennur úr jöklinum norður í Túngnaá. Með kvísl þessari var frjóvsamt land og fagurt, og lá gras í legu. Torfi hèlt upp með kvíslinni, og eptir gili því, er hún fèll úr, og heitir það nú Jökulgil; þar fór grasið að þverra, og verða grýtt með kvíslinni. Töluðu þá húskarlar Torfa um, að þeir vildu láta fyrirberast í graslendinu niður með kvíslinni, því þar þókti þeim allbyggilegt, og trauðla mundi Torfi bóndi fá sèr fegri og kostabetri bústað, þó hann færi leingra með þá upp í svarta gilið, sem þá luktist nálega af hömrum yfir höfðum þeirra. Torfi varð áskynja um mögl húskarla sinna, og bað þá láta sig einráðan, því fyrri hefði hann sèð fyrir þeirra kost en nú, svo dugað hefði. Eptir það hèldu þeir inn eptir gilinu, og er þeir höfðu farið um hríð, sáu þeir, að úr suðri kom aptur birta á móti þeim; opnaðist þá

gilið aptur, og komu þeir fram í víðan dal og fagran, er þeim virtist liggja eptir endilaungum jöklinum frá austri til vestur, svo hvergi var skarð að sjá, nema þar, sem þeir komu inn í hann frá norðri, og kvíslin rann út. Svo lángt, sem þeir eygðu umhverfis dal þenna efst, var ekki annað að sjá, en jökulinn og heiðan himininn. En þegar jöklinum slepti að neðan, tóku við hlíðar skógi vaxnar, alt ofan undir láglendið, en þar sem skógurinn hætti, voru slèttar grundir jafnfagrar, og þær voru grösugar. „Hèr skulum vèr láta fyrirberast um hríð,“ sagði Torfi, „og mun móðan bláa verða mannskæð, ef hún vinnur oss mein í dal þessum.“ Eptir það lèt Torfi taka til bæargjörðar, og var þess ekki lángt að bíða, að þar reis upp veglegur bær; enda átti Torfi mörgum á að skipa. Um sumarið lèt Torfi húskarla sína yrkja dalinn öllum venjulegum sumaryrkjum í sveit, og stóð þar búhagur hans með hinum mesta blóma; því landskosti vantaði ekki, og þóktust eingir þeirra, er með honum voru, hafa sèð slíka. Þótt Torfi lèti menn sína varast allar samgaungur milli dalsins og bygðarinnar, á Land eða Rángárvöllum, til þess, að sóttin kæmi því síður í dalinn, lèt hann eigi að síður tvo menn, er hann trúði bezt, fara í hverjum hálfum mánuði fram á fjallabrúnirnar, þaðan sem þeir sáu til bygðarinnar, til að vita, hvað gufumóðunni bláu liði. En svo liðu lángir tímar; að jafnan komu þeir með þau ógeðstíðindi, að móðan lægi yfir bygðinni, og tæki upp í miðjar fjallahlíðar umhverfis bygðina, og væri að sjá yfir hana, sem bláleitt haf, en einga sæu þeir mannaferð um hèruðin. Þó kom þar um síðir, að sendimenn þessir báru Torfa þau tíðindi, að móðan væri horfin; en nokkra stund dvaldi Torfi eptir það í dalnum, þángað til honum þókti komið fyrir alla von, að sóttin mundi haldast leingur í sveitum þeim, sem hann hafði spurn af. Tók hann sig þá upp, og flutti sig aptur í bygðina, og reisti að nýu bú í Klofa, og varð hvorki honum, nè neinum af hans mein að drepsóttinni.

Ekki er þess getið, hversu leingi Torfi hafi verið í jöklinum, er síðan dregur nafn af honum, og er kallaður Torfajökull. Það er sagt, að þegar Torfi fór að flytja aptur úr jöklinum til bygða, hafi nokkur af hjúum hans ekki viljað fara úr dalnum, hafi hann og látið það eptir þeim, og gefið þeim húsabæ sinn, eins og hann stóð. Síðan hefir það verið haft fyrir satt alt til skamms tíma, að í Torfajökli væru útilegumenn, og hafi ferðamenn, er farið hafi fjallabaksveg austur í Skaptafellssýslu af Rángárvöllum, sunnan undir Torfajökli, þókzt kenna reykjareym af jöklinum með norðan átt, líkan því, er skógarviði væri kynt. Það var og trú manna, að þessir útilegumenn yllu illum heimtum á sauðfè af afrèttum, er ósjaldan hafa að borið. En fyrir fáum árum er það staðreynt, að eitthvað veldur annað illum heimtum, en útilegumennirnir í Torfajökli. Því Landmenn tóku sig til, og könnuðu jökulgilið, og komust svo lángt inn í gilið, að þeir sáu að dalurinn var allur orðinn fullur af jökli, og

óbyggilegur, og því allsendis ólíkur því, sem sagan segir, að hann hafi verið á dögum Torfa.

**Að gjalda Torfalögin.** Eins og Torfi var uppivöðslusamur og ófyrirleitinn, ef hann átti við stórmenni, og hlutsamur í sýslum þeim, sem hann hèlt af konúngi, eins var hann mikill búsýslumaður heima fyrir og heldur ágeingur, og kendu sveitúngar hans og nágrannar helzt á því. Eptir það, að Torfi hafði flutt bygð sína aptur úr jöklinum að Klofa, fann hann það í mörgu, hversu landkostir voru miklu lakari í Klofa, en í jökuldalnum, en einkum brá honum við vetrarbeitina, því einginn skógur er nærri Klofa. Eins og nú er bygðum skipað á Landi, stendur Klofi ofan til í sveitinni, og er þaðan laung bæarleið út að Skarði. Sá bær stendur undir fjalli, sem Skarðsfjall heitir, og er megin hluti fjallsins fyrir norðan bæinn. Þegar fjallinu sleppur að norðan, liggja hálsar úr því enn leingra til norðurs; þeir heita Skarðshálsar, og er ekki nema kippkorn frá hálsaendunum norður að Þjórsá. Hálsar þessir hafa í fyrri daga verið allir skógi vaxnir; sem enn má sjá vott til þar víða í jarðföllum og giljum, þó nú sè þar allur skógur eyddur fyrir laungu bæði af manna völdum og náttúrunnar. Til þess, að geta notað skógarlandið á hálsunum til vetrarbeitar, þar sem þeir liggja svo hátt, að aldrei hefir tekið fyrir beit í þeim, lèt Torfi bóndi hlaða geysi-háan og breiðan garð frá Klofa og alt norður í Skarðshálsa, yfir Klofaland, Merkurland og Skarðsland, til að reka á honum sauði sína, sem sumir segja, að hafi verið 600, en aðrir 900 að tölu. Garður þessi lá yfir alt einar lágheiðar, þar sem ýmist skiptast á hólar eða dældir. En ef snjóavetur er, fyllast allar dældirnar, svo ókleyft verður fyrir fè að komast af einum hólnum á annan, er jafnan standa upp úr. Af því garðurinn var hið mesta mannvirki, fóru margir lángt að, til að sjá hann, auk þess, sem leið flestra upp-Landsbúa lá þar yfir til kirkju að Skarði. En svo var ríki Torfa mikið, að eingum leiðst að sjá garðinn, eða fara yfir hann, nema hann stýngi 3 hnausa, og legði í garðinn, og voru þær álögur kallaðar „Torfalög,“ og er sagt, að þaðan sè dregið orðtæki það, sem enn er haft, er sá, er eingan hlut á að máli, grípur í að gjöra það, sem honum er ekki skylt að vinna, en vinnur þó ekki meir að öllu verkinu, en Torfi lagði á þá, er sjá vildu sauðagarð hans, eða svo að eins, „að maður leysi hendur sínur.“ Fyrir garði þessum sèr enn deili bæði sunnantil í Merkurheiði og norðantil í Skarðsheiði, og liggur hann í beina stefnu norður á Skarðshálsa. Í hrauninu milli heiðanna sèst hann ekki; því þar hefir hann blásið af eða brunnið, eins og annar jarðvegur, sem þar var til forna.

**Ófall Torfa á alþingi.** Það var eitt sinn á alþíngi, er Torfi gekk til lögrèttu að mæla lögskil í björtu veðri og heiðskíru, að alt í einu sáu

menn draga upp svartan hnoðra lítinn norður yfir Skjaldbreið. En sem hnoðrinn færðist nær, sýndist mönnum hann vera í fuglslíki og stefna á þíngvöll. þegar fuglslíki þetta kom yfir völlinn, steyptist það yfir Torfa. En honum brá svo við, að hann rak upp ógurlegt hljóð, og varð of sterkur, svo að margir urðu að halda honum, og tókst það um síðir, að koma honum í bönd. þar með var augnaráð hans svo ofboðslegt með ópi og ýlfran, að öllum stóð ógn af hvorutveggja, enda þókti þetta ekki einleikið. Urðu þá til góðgjarnir menn með vinum Torfa, að biðja Stefán biskup að líkna honum og bæta mein hans. Biskup lèt þá tilleiðast fyrir bænastað þeirra og nauðsyn Torfa, þótt biskupi þækti hann ekki slíks frá sèr maklegur, gekk hann þó þángað sem Torfi lá með öllum kennilýð, og hvolfdi stakksermi sinni yfir höfuð honum, fèll á knè og allir með honum til bænar. Við lestur og saungva biskups og klerka hans sefuðust kvalir Torfa, svo að honum smábatnaði síðan. Eptir þetta batnaði mikið vinfeingi Torfa og biskups; en þó greri aldrei um heilt með þeim. Dýrkeypt varð og konu Torfa kirkjuleg hans í Skálholti, því Stefáni þókti hann varla kirkjugræfur; en þar hafði Torfi kjörið sèr leg í lifanda lífi. Hann dó skömmu eptir aldamótin 1500.

**Jón Teitsson á Hafgrímsstöðum.** (Sögn úr Lángadal.) það er upphaf þessarar sögu, að Teitur er maður nefndur; hann bjó á Starrastöðum í Skagafirði. Hann var móðurbróðir Teits þorleifssonar, er átti í deilum við Gottskálk biskup á Hólum. Teitur var hið mesta mikilmenni, spakur í lund, dulur og forspár; ekki var hann ríkur maður, þó átti hann jörðina Starrastaði og allgott bú, er hann stundaði vel. Hann átti konu þá, er Ragnhildur hèt, og var hún vestfirzk að ætt. Son áttu þau einn barna, er Jón hèt; var hann snemma mikill og sterkur, og dulur í skapi, sem faðir hans. Einginn var hann gleðimaður, en brosti að eins, þá aðrir hlógu, og það strax í æsku; kvað hann allómannlegt að skríkja sem óvitar. Hann óx upp með föður sínum, þar til hann var 14 vetra gamall; var hann þá eins sterkur og hraustustu menn í Skagafirði á þeim tíma. Um haustið þetta sama ár sendi faðir hans hann með nábúum sínum út í Fljót til skreiðar kaupa og skyldu þeir standa fyrir kaupum Teits vegna. Lítt gatst bændum að því að hafa Jón í ferð sinni, þókti þeim hann ofúngur og óáreiðanlegur í lángferð að haustdegi, en þó fór hann og sagði faðir hans, að ef hann yrði eptir af þeim, mætti hann sjá sjálfur fyrir ráði sínu. Jón reið bleikum hesti allvænum, er faðir hans var vanur að ríða og í reiðtýgjum föður síns; voru þau mjög vönduð, einkum beizlið, það var mjög vel búið og hinn bezti gripur; höfðu margir falað það að bónda, en hann ekki af hendi látið. Nú hèldu þeir af stað og gekk þeim ferðin vel út í Fljótin; var þar þá gott til fiskifánga og keyptu skreið, sem þeir máttu með komast og snèru síðan heimleiðis;

gjörði þá veður ílt með frosti og fjúki miklu. Jón var jafnan á undan og teymdi Bleik; gjörðist færð mjög slæm og ílt yfirferðar. Þeir komu að Kolbeinsdalsá síðla dags; var hún þá ófær og stóð full með krap, lítt saman frosið. Vildu þá förunautar Jóns snúa frá og fara að Óslandi og bíða þar, til þess betur legði. Jón vildi það ei og kallaði slíkt ragmennsku, og kvaðst skyldi bera þeim bleyðiorð á bak, ef þeir vildu ekki halda áfram ferðinni, og snýr til árinnar. Vildi þá einn taka hesta hans, en Jón stóð á móti og urðu sviptíngar nokkrar, og rak Jón þann niður fall mikið og skildu við það. Sneru þeir þá frá og kváðu strákfýlu þeirri maklegt að drepa sig, fyrst hann vildi það. Nú bindur Jón klyfjar við klakka og ríður síðan út í ána og teymir alla hestana. Bleikur óð mjög sterklega og braut ísinn. En er Jón var kominn uppúr ánni, sèr hann, að snarað er af aptasta hestinum og hann flæktur í gjörðunum. Óð hann þá út til hestsins og tók honum þá krapið í axlir, en straumlítið var. Loksins gat hann borgið öllu til lands, og var það hið mesta þrekvirki. Á meðan hann var að þessu starfi, skall á stórhríð með ofsaveðri og hörkufrosti, svo alt gaddfraus, samt brauzt Jón af stað og tók sèr stefnu eptir veðurstöðu. Var þá einnig orðið dimt af nótt og hið mesta níðmyrkur af hvorutveggja, hríðinni og nætur myrkrinu, svo eptir öllu varð að þreifa. Þegar hann hafði farið um stund, varð fyrir honum kofi nokkur hurðarlaus og hálfur með fönn; rèð hann þó af að láta þar fyrirberast, tók ofan klyfjar sínar og bar fyrir dyrnar, batt saman hestana, fór síðan inn og byrgði vandlega; gróf hann sig þar í fönn, til að þýða sig, var þó mjög þrekaður og máttfarinn og sofnaði fast og svaf, til þess dagur var. En er hann vaknaði, sá hann opnar dyrnar; stóð hann þá upp og gekk út. Veður var nokkru bjartara, en frost mikið. Sá Jón, að burtu voru klyfjar nokkrar og Bleikur með reiðtýgjum og beizli og hestarnir allir sundurlausir. Jón sá bæ allskamt á burtu og var það Brimnes. Þar bjó sá bóndi, er Tumás hèt, ódreingur mesti og illa þokkaður; hafði hann opt rænt og stolið af ferðamönnum. Jón gekk til bæarins og var hurð aptur, varð honum reikað kríng um bæinn og hitti hann á bæarbaki kofa nokkurn; var þar hurð fyrir og lokuð að innan. Í því heyrir hann, að hestur hneggjar þar inni; setti hann þá fótinn á hurðina svo hart, að (hún brotnaði);[1] sá hann þar inni Bleik föður síns með beizli, en hnakk í stalli. Dyr voru með öðrum stafni í hliðvegg hússins og var dimt innar í húsinu. En þegar minnst varir, sèr hann ríða að sèr viðar rót mikla innan úr myrkrinu; brá Jón sèr undan, en höggið nam staðar í gólfi og laut maður eptir. Jón hljóp á hann sem hvatast, en hann tók á móti, og urðu sviptíngar allharðar. En þó Jón væri mjög stirður og freðinn, lauk svo þeirra viðskiptum, að heimamaður fèll; lèt þá Jón knè

1. Þessi orð í ( ) vantar í handritið.

fylgja kviði og lèk við hann sem harðlegast. Bað þá heimamaður sèr griða og var það bóndi. En Jón kvað hann því að eins skyldi grið hafa, ef hann skilaði aptur skreið sinni, ef stolið hefði, og lèti sig fá alt, sem hann þyrfti fyrir sig og hesta sína. Lofaði bóndi því, og lèt Jón hann þá upp standa; var hann mjög meiddur og brotinn annar handleggur hans. Þar í húsinu hafði hann fólgið klyfjar Jóns og voru þær byrgðar með viðum. Fóru þeir síðan til bæarins og leiddi bóndi Jón til baðstofu, en kvaðst mundi senda eptir hestum hans. Ekki sá Jón manna inni, utan konu bónda og son þeirra hálfvaxinn. Honum var vísað til sætis. Mjög þókti honum kona bónda illileg. Innan stundar gekk húsfreya fram og kallar á son sinn. Litlu síðar heyrir Jón hundagey ákaft; hleypur hann þá út og sèr, hvar bóndason snarast frá húsum með beizli sitt og ætlar að grafa það í fönn, en konan sigar í hesta hans sem á kafast. Jón hljóp eptir stráknum, þreif af honum beizlið og laust hann með því, svo hann lá í óviti. Kom þá bóndi að og bað sèr og hyski sínu vægðar, lèt síðan sækja hesta Jóns og gaf þeim nóg fóður, alt eins var Jóni veittur góður beini. Dvaldi Jón þar um daginn og nóttina eptir. Skilaði þá konan öllum klæðum hans vel þurum. Eptir viðureign þeirra Jóns lagðist bóndi í rekkju og var leingi hrumur, en minna bar á illmennsku hans eptir þetta. Jón hèlt nú af stað og segir ekki af ferðum hans, fyrr en hann kom heim til föður síns og þókti ferð hans hin frægasta. Eptir þetta gjörði ótíð mikla, svo þeir förunautar Jóns komu ekki fyrr, en að mánuði liðnum, og höfðu þeir etið og selt mikið af skreið sinni.

Þegar Jón var 16 vetra, fýsti hann mjög að fara suður til sjóróðra, eins og þá var títt í Skagafirði, einkum frá Hólum. En mjög voru Hólamenn í þá tíð ódælir og illgjarnir og oflátar miklir. Þenna vetur voru snjóalög mikil og sífeld illviðri, og treystust fáir til suðurferða, nema Hólamenn. Jón kom að máli við föður sinn og kvaðst vilja suður. Bóndi latti heldur, en þó varð svo að vera, sem Jón vildi, og bjóst hann til ferðar; var það um sama tímabil, sem Hólamenn fóru af stað. Teitur fylgdi syni sínum að Víðimýri. Jón var svo búinn, að hann var í litklæðum silfurbneptum, en yzt klæða var hann í hempu sauðsvartri, og tók hún á knè. Hann hafði falað beizli föður síns, og gaf hann honum það, en kvað sèr ekki óvart koma, þó fleiri girntust að eiga. Þegar þeir feðgar komu að Víðimýri, voru Hólamenn þar fyrir; voru þeir mjög skrautbúnir og gemsmiklir. Þeir voru 18 saman og hèt sá Ásgautur, er fyrir þeim var, norzkur að kyni. Illur var hann og ódæll. Teitur bað þá taka við syni sínum til samfylgdar. En þeir kváðu þann sauðmórauða kotúngsson skamma upp flokk sinn, en þó mætti hann dratta með, ef hann vildi. Þegar þeir feðgar skildu, sagði Teitur Jóni að vera þeim aldrei samnátta á bæum og jafnan skyldi hann á eptir fara, þá mundi hann fyrstur aptur koma, annars ekki, og lofaði Jón því. Jón fór nú með Hólamönnum, sem

leiðir lágu vestur Vatnsskarð og svo yfir Húnavatnsþíng; fóru Hólamenn mjög illa með ráði sínu, tóku hey af bændum, og hvað þeir þóktust með þurfa, en lètu á móti koma svívirðu og ódreingskap. Aldrei var Jón þeim samnátta, en um daga var hann í flokki þeirra, og þó ætíð á eptir. Alstaðar borgaði hann vel næturgreiðann. Þegar þeir fóru yfir Miðfjarðarháls var á stór kafald og dimma, hittu þeir þar smalamann frá Auðunarstöðum í Víðidal og stóð hann yfir fè. Þeir heimtuðu af honum fylgd yfir hálsinn, en hann neitaði, og kvaðst ekki yfirgefa fè sitt. Þreif þá Ásgautur til hans, og laust honum niður við svell, svo heilinn lá úti. Eptir það komu þeir í Miðfjörð. Þar tóku þeir hús og hey, en ráku út hesta, sem inni voru. Jón gisti í koti þar skamt frá. Um morguninn hitti hann að vanda fèlaga sína, og voru þeir þá ferðbúnir. Varð þá Ásgauti litið á beizli Jóns, og kvað hann skyldi strax selja sèr, því ekki hæfði honum, svo rögum og ámátlegum að eiga slíkan grip. Jón fór undan með hægð, og spurði hann, hverju hann vildi borga. Þreif þá Ásgautur í rófu á hundi einum, er þar var, og kastaði á nasir Jóni, og var það mikið högg og fèll blóð um hann allan. Hljóp þá Jón undir hann, og áttust þeir við skamma stund, áður Ásgautur fèll og kom hryggurinn á stein og annar lærleggur hans gekk úr mjöðm. Vildu þá fèlagar Ásgauts hefna, en Jón var þá svo reiður og ógurlegur, að þeim stóð ótti af og þorði einginn að honum. Ásgautur var fluttur til bæar, lagðist hann og dó litlu síðar. Síðan hèldu þeir af stað og komu um kvöldið að Stað við Hrútafjörð. Þar var þeim feingin kirkjan að sofa í og lètu þeir nú sem verst, og frömdu ýmsar svívirður og árnuðu allir þeim ílls: Morguninn eptir var dimt og drífa mikil, og var þeim sagt, að Holtavörðuheiði væri ófær og höfðu nokkrir vermenn þar úr fjörðunum áður farið vestur Haukadalsskarð og Bröttubrekku til Borgarfjarðar, en þó bjuggust þeir á stað. Jón hafði þessa nótt verið á bæ skamt þar frá, og kynt sig vel, sem fyrr. Vildi bóndi ekki hann færi um morguninn, en Jón lèt ekki letjast og bað bóndi vel fyrir honum. Hitti Jón Hólamenn og fór með þeim. Höfðu þeir ílt auga á honum, en þorðu þó ekki að ráða til hans. Þegar þeir komu upp á skarðið, skall á blindhríð með stórviðri og fannkomu. Þeir tóku nú stefnu eptir veðurstöðu og voru hinir áköfustu. Jón var á eptir, sem vant var og teymdi báða hesta sína; gekk nú þannig um stund, þar til alt í einu, að Jón sá þá hverfa, og var hann þá kominn á fjallsbrún eina og höfðu þeir farið þar fram á snjóheingju, og hún svo hlaupið niður undan þúnganum af mönnunum og hestunum öllum, og fórust þeir þar allir, því þar voru þverhnýptir klettar og heingiflug ofan; er þar síðan kallaður Bani, og' er hann í fjallinu fyrir norðan Haukadalsskarð, þar neðanundir er urð stór og hafa nú fyrir skömmu sèzt þar hestabein allmikil. Jón snýr nú til baka og komst suður af fjallinu og ofan á skarðið; var þá veður nokkru bjartara, en mjög hvast; komst hann

að einhverjum bæ í Haukadal um kvöldið. Þar eptir gjörði veður svo ílt og fannkomur, að ekkert varð komizt og gekk það í mánuð eða leingur. Var Jón allan þann tíma kyr í Haukadal. Eptir það hjarnaði og batnaði veðurátta; var þá um seinan að fara suður, en þó vildi Jón ekki heim snúa; rèðu Haukdælir honum þá að fara vestur, og það gjörði hann; segir ekki af ferðum hans, fyrr en hann kom vestur undir Jökul.

Þorsteinn er maður nefndur; hann bjó í Skjaldartröð við Hellna. Hann var hinn mesti sjógarpur, og hafði aldrei fleiri, en 3 eða 4 menn á, en reri þó jafnan áttæríngi. Hann var happamaður hinn mesti og reri ætíð fyrstur úr þeirri veiðistöðu, og sat laungum að fiski, þó öðrum þækti ófært; talinn var hann manna ríkastur í því bygðarlagi. Konu átti hann, og var hún svo hraust, að hún tók af hlóðum vættarketil, fullan með sjófáng og varð lítið fyrir, en stilt var hún og hið mesta vegskvendi í þeirri sveit. Ekki getur um nafn hennar. Þau áttu dóttur, er Guðrún hèt; var hún fríð sýnum, vitur og kurteys, og hinn bezti kvennkostur. Það bar opt við, að Þorstein vantaði háseta, því fáir treystust til að þola sjósókn hans, og var svo í þetta skipti. Fór því Jón þángað og rèðst hjá bónda, og líkaði bónda vel við hann, þótt óvanur væri. Það var þá siður vestra þar að halda bændaglímur á sumardag fyrsta; kom þá saman fjölmenni mikið og margt hraustra dreingja. Þeir báðu Jón að glíma; var hann tregur til, en lèt þó tilleiðast. Einginn var Jón glímumaður, en fáir stóðust afl hans og fóru svo leikar, að hann feldi flesta, er hann reyndi við. Vel var húsfreya til Jóns og leizt henni hann mannvænlegur. Það var eitthvert sinn, að hún bauð honum til glímu í gamni, og lauk svo, að hún kom honum á annað knèð, og kvað hún hann varla kvennsterkan heita mega. Vel aflaði Jón um veturinn. Um vorið bjóst hann norður, og báðu þau hjón hann aptur koma og eins dóttir þeirra. Þau voru mjög svo jafnaldra og höfðu opt setið tvö ein á tali. Hèlt Jón nú heimleiðis.

Nú er frá því að segja, að Gottskálk biskup frèttir ófarir manna sinna og viðureign þeirra Jóns og Ásgauts. Þykir honum Jón hafa valdið dauða hans, og vill hafa bætur fyrir; sendi því 2 klerka og fleiri menn til Teits bónda á Starrastöðum og bauð honum að láta lausafè sitt í manngjöld, en jörðina Starrastaði undir Mælifellskirkju til lausnar Jóni, syni sínum. Ekki jáði Teitur kostum þessum, og var honum þá stefnt á biskupsfund og skyldi hann koma að Geldíngaholti á ákveðnum degi. Síðan fóru biskupsmenn heim. Nú kom Jón að vestan og varð faðir hans honum feginn, og sagði honum frá tiltektum biskups. Jóni líkaði stórilla. En það þóktust þeir feðgar sjá, að ekki mundi duga aðgjörðalaust. Á Starrastöðum var útiskemma rammgjör með öflugri skrá. Var það nú ráð þeirra feðga, að Teitur skyldi leggjast í rekkju þar inni. En Jón tókst á hendur búsforráð. Hann fèkk til vistar með sèr 2 menn, þá

hraustustu úr Túngusveit. Líður nú að stefnudegi. Ekki kom Teitur á fundinn, og frètti biskup þar sjúkdóm hans; bjóst hann þá fram að Starrastöðum, til að semja gjörðina, og þeir 8 saman. Þegar þeir voru skamt frá garði, sá Jó : til ferða þeirra; lèt hann þá tjalda skemmuna, en fylgdarmenn Jóns og faðir hans fóru á bak við tjöldin. En í rekkju bónda lètu þeir fork einn mikinn og huldu hann klæðum. Biskup ríður á bæinn, og er Jón úti staddur og er dapur í bragði. Biskup spyr að bónda. En Jón segir hann í skemmunni. Fara þeir nú þángað, og geingur biskup inn og 1 eða 2 menn með honum. Þá geingur Jón inn og rekur aptur hurðina og læsir rammlega. Hlupu þá hinir undan tjöldunum og tóku biskup. Ekki er sagt frá viðureign þeirra, og ekki vita menn um samnínga þá, er þar urðu, en það ætla menn, að fyrir þessar sakir hafi Starrastaðir síðar lagzt til Mælifellskirkju. En biskup reið heim til Hóla og áreitti þá feðga aldrei síðan, og var meint, að hann hefði orðið að vinna þeim trúnaðareið, áður þeir sleptu honum.

Næsta vor eptir þetta fór Jón vestur og reri hjá Þorsteini í Skjaldartröð. Bar nú ekki til tíðinda, þar til Jón var 18 eða 19 vetra. Fór hann þá enn vestur og 2 aðrir sveitúngar hans með honum. Segir ekki af ferðum þeirra, fyrr en þeir komu vestur í Haukadal; voru þar miklar umræður um rán og gripdeildir svo nefndra Gunnarsstaðabræðra. Þeir voru þar 3 og bjuggu allir á Gunnarsstöðum; rændu þeir opt ferðamenn og sýndu hvívetna hinn mesta ójafnað og illmennsku og fóru mjög vesnandi. Þeir Jón hèldu nú áfram ferð sinni, en þegar þeir komu vestur yfir Saursstaðaháls, bað Jón förunauta sína geyma hrossa sinna og áhalda og finna sig næsta dag á Hólmlátri. Síðan yfirgaf hann þá og stefndi til Gunnarsstaða. Hann bar lángsekk mikinn um öxl og í skjóður tómar. Þegar Jón nálgaðist bæinn, fylti hann skjóður sínar með steina, lèt í lángsekk sinn og bjó vel um. Þetta var síðla dags. Geingur nú Jón til bæarins og drap á dyr. Kom þar út maður mjög illmannlegur. Jón bað hann að gefa sèr að drekka. Fór hinn þá inn og kom aptur með freðinn drykk, og drakk Jón lítið. Í því bili kom út annar, og var sá hinum illmannlegri. Þeir spurðu Jón að ferðum. En hann kvaðst sendur af biskupi á Hólum; litu þá heimamenn hvor til annars, og var auðsèð, að þeir glöddust við, en mannvonzkan stóð sem afmáluð í andliti þeirra. Þreif þá annar til sekksins á baki Jóns, og kvað hann bera mikið. Jón sagði það vera. Ekki var honum gistíng boðin. Jón spyr að heiðinni (því bær þessi stendur undir Rauðamelsheiði), og lèzt ókunnugur. Þeir kváðu heiðina góða yfirferðar og örstutta, ef rètt væri farið. Buðu þeir að fylgja honum upp á heiðina, og þáði Jón það. Hèldu þeir nú af stað, 3 saman, og var Jón á eptir með byrði sína. Þegar komið var undir heiðina, nema þeir staðar hjá vatni nokkru; var það illa lagt og vakir á. Tók þá annar þeirra upp flösku og bauð Jóni að súpa á. Jón kvað það

sið á Hólum, að sá, sem öðrum byði, drykki fyrst. Saup þá heimamaður á flöskunni. En á meðan sèr Jón, að hinn tekur hníf stóran úr ermi sinni. Jón hafði staf mjög sterkan; var hann ærið þúngur og klökugur; laust hann honum með afli á höfuð þess, er hnífnum náði, og fèll hann við og lá í óviti, en með hinni hendinni sló hann á flösku botninn við munn hins, svo flaskan brotnaði, og stóðu brotin í andliti hans; lèk hann þá nú allilla, og skildi svo við þá, að annar var nær bana, og gat hinn naumlegast fært hann heim um nóttina; lá hann leingi eptir og dó síðan. Bar lítt á illmensku hinna þar eptir. Jón snèri nú að Hólmlátri og var þar um nóttina. Daginn eptir komu förunautar hans og hèldu þeir nú áfram ferð sinni vestur, sem ætlað var. Jón var í Skjaldartröð, sem vant var; var hann nú orðinn svo sterkur, að einginn þurfti við hann að reyna vestur þar, en mjög var hann spakur og fór vel með ráði sínu; var þó mikið mannval undir Jökli í þá daga. Eitthvert sinn um veturinn lá Þorsteinn á miðum, en allir aðrir voru í land komnir; hafði Þorsteinn nú hlaðið mjög skip sitt af fiski. Gjörði þá ofsaveður af landi. Lèt nú Þorsteinn taka til ára; voru þeir 4 saman og sóktu knálega róðurinn. En að stundu liðinni fóru hásetar mjög að þreytast og gátu naumlega haldið við. Fór þá Jón einn á annað borðið og gekk síðan vel; náðu þeir landi með heilu og höldnu og báru faung sín af skipi. En svo hafði geingið nærri hinum 2 hásetum Þorsteins, að þeir lágu eptir; varð Jón mjög frægur af þessu og þókti afbragðsmaður. Jón fèkk þenna vetur lestar hlut eða meira og fór norður um vorið, sem vant var. Snemma um sumarið fór hann vestur, og hinir 2 fèlagar hans, að sækja skreið sína, og höfðu marga hesta. Í þeirri ferð bað Jón Guðrúnar Þorsteinsdóttur, og var það mál auðsókt. Giptust þau strax, og var brúðkaup þeirra haldið í Skjaldartröð. Eptir brúðkaupið fór Jón norður með konu sína og greiddi Þorsteinn ríkmannlega af hendi heimanmund dóttur sinnar í gripum og peníngum. Vorið eptir reisti hann bú á Hafgrímsstöðum í Túngusveit, og er sagt, að hann keypti jörðina. Græddist honum skjótt fè mikið, og varð hann hinn bezti bóndi. Jafnan fór hann vestur á sumrum til fiskikaupa.

Það var eitthvert sinn laungu síðar, að Jóni bárust þær fregnir, að móðurfrændi hans á Vestfjörðum væri dáinn, og átti hann að taka allan arf eptir hann. Bjóst hann þá til ferðar, og var það síðla vetrar. Gekk honum vel vestur, og seldi hann þar mikið lausafè, dautt og lifandi, því hann vildi það eitt með sèr hafa, er hann gæti borið. Tók hann þar gripi marga og mikið af peníngum. Síðan bjóst Jón heimleiðis; var þá slæm veðurátta, en hann ókunnur leiðum öllum og víða mjög strjálbygt, þó vildi hann alls ekki fylgdar beiðast. Fer hann nú af stað, og er hann hafði geingið eina dagleið, kom hann að koti einu við sjó; það var öðru megin fjarðar nokkurs, sem var lítt bygður eða mjög strjálbygður. Þetta var síðla dags og var á drífa mikil. Jón bar byrði mikla af gripum og

peníngum og var þreyttur orðinn; rèð því af að beiðast gistíngar. Barði hann þar að dyrum, kom þar út karl nokkur; var hann ærið stór og mikilfeinglegur, svo Jón þóktist ekki annan slíkan sèð hafa. Jón spyr til vegar, en karl kvaðst mundi vísa honum veg að morgni, því nú væri ófært veður og dagur að þrotum kominn, og bauð honum næturgistíngu. Jón þektist það, og leiðir bóndi hann til baðstofu, og bauð að geyma tösku hans. Ekki vildi Jón það, og kvað þar í skó sína, sem hann þyrfti að brúka. Ekki sá Jón þar manna, utan húsfreyu; sat hún og spann toga. Jón heilsaði henni, og tók hún því stutt. Illa leizt Jóni á þau bæði og þókti uggleg gistíngin. Jóni var vísað til sætis í öðrum baðstofu enda. Ekki var honum veittur beini, en bóndi var ræðinn mjög og var hinn kátasti við komumann; spurði hann margs um ferðir hans, en Jón sagði honum sem var og kvaðst hafa verið að sækja arf eptir frænda sinn. Bóndi þreif upp tösku Jóns og kvað það ærna byrði. Þar eptir settist bóndi á tal við húsfreyu, en ekki heyrði Jón, hvað þau skröfuðu saman, nema eitt sinn sagði hún: „Grafa hann.“ Eptir það hættu þau talinu. Síðan biður húsfreya Jón koma með sèr og vísar hún honum til rekkju í framhýsi nokkru; var þar flet með stokki og töturlega umbúið. Húsfreya bauð að taka við skóm hans og klæðum. En hann kvaðst sofa mundi, þó ekki færi hann af klæðum, því hann hefði ekki sofið hin næstu dægur, sakir umsvifa. Varpar hann sèr nú í fletið og lætur sekk sinn þar hjá sèr; læzt hann strax sofna og hraut mikið. Geingur þá húsfreya burt. Nokkru síðar heyrir hann geingið um bæinn; snýr hann sèr þá til veggjar og hraut sem fastast. Heyrir hann þá, að lokið er upp dyrunum og farið hljóðlega, og í því er lagt til hans með skálm mikilli. Kom lagið í herðarblaðið, og varð svöðusár. Snarast Jón þá úr rúminu og sèr þar bónda, og vildi leggja til Jóns í annað sinn. Jón hljóp þá undir hann, en bóndi kastar skálminni og tekur á móti, og verður þar harður aðgángur, og finnst Jóni sig skorta afl við bónda, og ekki þykist hann í slíka raun komið hafa; gekk nú alt upp, er fyrir var og sókti bóndi í ákafa, en Jón varðist föllum af megni. Og er Jón sá sèr bezt færi, hljóp hann í fáng bónda svo sterklega, að hann fèll á bak aptur, og varð þröskuldurinn undir hrygg hans. Neytti nú Jón fallsins, hvað hann kunni og lèt knè fylgja kviði; gekk þá sundur hryggur bónda á þröskuldinum. Var þá húsfreya komin og lagði til Jóns með knífi. Jón bar af sèr lagið með hendinni og skeindist hann lítið; tók hann þá til hennar, og dró til baðstofu og batt rammlega. Þar brann ljós inni. Jón fór nú fram aptur og dró karl úr dyrum hússins; æpti hann þá ógurlega. Sókti Jón nú sekk sinn, og fór aptur til baðstofu og snæddi nesti sitt. Þar var Jón um nóttina og svaf í rekkju hjóna. Morguninn eptir var veður bjart. Býst Jón þá til ferðar og byrgir áður bæinn vandlega; snýr hann þá leið sinni þángað, sem sýslumaður bjó, og var það hálf dagleið frá koti þessu.

Sagði Jón honum frá ferðum sínum og sýndi áverka. Daginn eptir bjóst sýslumaður þángað með nokkra menn; komu þeir að kotinu; var þá bóndi dauður í dyrum, en húsfreya lá í böndum. Könnuðu þeir þar hús öll og fundu mikið af peníngum og mörgu fèmætu. Þar sá sýslumaður skálmina og hnífinn, hvorttveggja blóðugt. Þar fundu þeir klæði nokkur af útlendum skipbrotsmönnum og fleira þess háttar. Hafði þar fyrir laungu síðan strandað skip og ætluðu menn, að bóndi mundi hafa myrt eitthvað af skipsmönnum og stolið svo gózi þeirra. 2 ferðamenn hafði hann líka drepið og stolið af þeim peníngum. Tók sýslumaður alt góz, er þar var, og flutti heim til sín ásamt húsfreyu. En að skilnaði gaf hann Jóni peninga mikla og skildu þeir með vináttu. Hèlt nú Jón heim aptur og segir ekki af ferðum hans fyrr en hann kom heim að Hafgrímsstöðum. Settist hann nú um kyrt í búi sínu og varð mesti ríkismaður og sveitarhöfðíngi og bjó þar til dauðadags. Þau Guðrún unnust vel og áttu margt barna. Einn sonur hans hèt Jón, annar Teitur og hinn þriðji Þorsteinn. Allir voru þeir mikilmenni, sem þeir áttu kyn til, og eru margir merkir menn frá Jóni komnir um Skagafjörð og víðar. Vitum vèr nú ekki meira frá Jóni að segja, enda eru flestar sagnir óljósar frá þeim tímum, og fátt ritað, nema það litla ágrip af hinum helztu viðburðum sögu vorrar, sem finnst í annálum.[1]

**Jón Guttormsson.** (Eptir Jón bónda Sigurðsson í Njarðvík í Múlasýslu.) Guttormur hèt maður; hann bjó á Brú á Jökuldal; hann var þriðji eða fjórði maður frá Þorsteini jökli, er lifði um pláguna, og flýði undan drepsótt þeirri með alt hyski sitt á Dýngju í Arnardal, inn og vestur á Brúaröræfum, og var þar, þángað til bláa pestmóðan, sem lá yfir sveitunum, dróst af; þá flutti hann aptur að Brú, og bjó þar til elli. Til hans telja Jökuldælíngar kyn sitt.

Guttormur átti börn nokkur; eitt þeirra var Jón, og er hans helzt við getið. Hann var bráðþroska, og var mesti atgjörvismaður að afli og áræði. Þegar hann var fullþroska, geymdi hann fjár föður síns inn á Brúardölum, og var þar einn alla vetur. Þess er getið eitt sinn, að hann gekk út að Brú, og var heima næturlángt. Spurði þá faðir hans hann að, hvort hann yrði aldrei var við reymleika þar inn frá; því orð lèk á því áður, og alt fram að þessari öld, að reymt væri á Brúardölum. Jón kvað nei við; hann sagðist ekki kalla það reymleika, að einu sinni, þegar hann hefði verið lagztur út af eitt kvöld, hefði hann ekki vitað fyrr

---

1. Saga þessi er rituð eptir Hans bónda Natanssyni á Hvammi í Lángadal, og sagði honum Daði fróði Níelsson, en honum sagði Gunnlaugur prestur á Stað við Hrútafjörð, en hann kvaðst numið hafa af Oddleifi á Rauðamel, er síðar bjó að Sauðafelli og var þar hreppstjóri. Hann var sögufróður maður, að því sem frá var sagt.

af, en eitthvað hefði komið að rúmstokknum, og fleygzt upp fyrir sig í einu vetfángi. „Hvernig var það að skapnaði," sagði karl? „Eg vissi það ekki" sagði Jón; „mèr fannst það eins og böggull, og var kalt og loðið." „Hvað varð þèr" sagði karl? „Ekki neitt" kvað Jón, „nema eg sagði: æ, þèr er kalt, veslíngur. Viltu ekki eg vermi þig? Svo rauk það burtu úr rúminu, og bar ekki á því eptir það." Nokkrum tíma eptir þetta um veturinn kom Jón út að Brú, og bað systur sína að koma inn eptir með sèr, og vera hjá sèr um tíma. En áður en hann fór frá Brú, fór hann í smiðju og bjó til sleddu mikla. Eptir það fóru þau systkin inn eptir. Fyrsta kvöldið, sem þau voru bæði saman í skála Jóns, heyrðu þau dunur miklar úti. Jón sagðist ætla út, að vita, hvað um væri að vera, en bað hana að muna sig um það, að hreifa sig ekki út, hvað sem á geingi. „Verði eg ekki kominn í dögun á morgun, þarftu ekki að vænta mín, og máttu þá fara heim." Síðan tók hann sveðjuna og hljóp út. Þegar hann var út farinn, heyrði hún aðgáng mikinn við skálann, og heyrðist henni hann vera að fjarlægjast, eptir því sem leið á nóttina, uns hún heyrði ekkert. En undir daginn kom Jón þjakaður mjög og víða marinn; lá hann í þrjár nætur eptir. Ekki kom hann aptur með vopn sitt; en laungum tíma síðar fannst stór sveðja lángt inn á Öræfum. Eptir þrjár nætur liðnar tók Jón að hressast, og sagði systur sinni, að nú þyrfti hann hennar ekki leingur, og skyldi hún heim fara; það mundi ekki bera á reymleika þessum framar.

Jón var ófyrirlátsamur mjög og ofurhugi. Björn sýslumaðar Pètursson á Bustarfelli og hann eltu tíðum grátt silfur. Sú var orsök til þess, að þegar Jón var orðinn gamall, tók hann fram hjá konu sinni, en vildi ekki gjalda hórsektina, hvernig sem sýslumaður herti að honum. Þess er getið eitthvert sinn, er Jón var kominn að fótum fram, og til sonar síns að Brekku í Fljótsdal, Sèra Eiríks, er þjónaði Hallormsstað, meðan hann lifði, að Björn sýslumaður kom ofan úr Dal að Brekku. Var Eiríkur prestur ekki heima. Bað þá sýslumaður segja Jóni, að hann vildi finna hann út. Jön stumraði ofan og út, heilsaði sýslumanni og spurði, hvað hann vildi sèr. Hann sagði: „Fyrir þann skuld, karl, fylgdu mèr á leið hèrna út fyrir." „Eg er nú varla í færum til þess," sagði Jón; „en þó gildir mig einu, þó eg skjökti með þèr hèrna út fyrir bæinn." Fóru þeir svo leiðar sinnar, og bar ekki til tíðinda. Leiti bar af fyrir utan Brekku; en fyrir utan það leiti var skógur mikill. Þegar kom út fyrir leitið, í hvarf frá bænum, talaði Björn til fylgdarmanna sinna, sem eptir venju voru 4 eða 5 valdir að burðum: „Fyrir þann skuld, takið þið nú þrælinn, og gángið næst lífi hans." Þegar Jón heyrði þetta, hljóp hann að einni skógareikinni, reif hana upp með rótum, og barði á báðar hendur með klumbunni, svo bani var búinn, hverjum sem fyrir hefði orðið. Einginn af mönnum Bjarnar þorði nærri að gánga, hvernig sem hann frýði þeim

hugar; kallaði hann þá liddur og ragmenni, að þora ekki að ráða að karlskrattanum. Þetta gekk leingi dags, að Jón varðist, uns hann tók að mæðast. Þá varð Birni litið inn á leitið og sá, hvar maður kom með mikilli ferð. Sýslumanni brá svo við sýn þessa, að hann sagði til manna sinna: „Hættið þið, fyrir þann skuld; því nú kemur djöfullinn.“ Þetta var Eiríkur prestur, sonur Jóns; hafði hann komið heim, meðan á þessu stóð, og grunað, hvað um væri að vera. Þeir Björn sýslumaður bundu ekki leingi skóbönd sín, og hèldu undan leið sína í mesta snatri. En Jón komst heim, nærri yfirkominn af mæði, og var leingi vesall eptir. Ekki er þess getið, að fundum hans og Bjarnar hafi borið síðan saman. Jón varð gamall maður, og andaðist hjá Eiríki presti, syni sínum.

**Eiríkur í Bót.** (Eptir Jón bónda Sigurðsson í Njarðvík í Múlasýslu.) Eiríkur hèt maður, og var Hallsson; hann bjó í Bót í Hróarstúngu. Faðir hans var Hallur prestur Högnason, er þjónaði Kirkjubæ næst Ólafi prófasti Einarssyni. Móðir Eiríks var Sezelja Einarsdóttir, Sigurðssonar, prófasts í Heydölum. Bróðir Eiríks var Guttormur, er Tyrkjar tóku.

Eiríkur var afarmenni að afli og atgjörvi, ófyrirlátsamur, meðallagi góðgjarn, og svolalegur við drykk; því hann var drykkjumaður mikill. Hann fèkk þeirrar konu, er Guðríður hèt, dóttir Guttorms á Brú, og átti við henni 13 börn; voru tvær dætur hans, Kristín og Hróðný, þeirra nafnkendastar. Kristín giptist Sigfúsi presti Tómassyni í Hofteigi, eins og Oddur biskup sagði fyrir.[1] En Hróðnýar fèkk Ásmundur frá Straumi Ólafsson prests, Guðmundssonar skálds frá Sauðanesi. Menn hafa í frásögum, hvernig Eiríkur tók Ásmundi eitt sinn, þegar hann kom að Bót, eptir að hann komst á hugi við Hróðnýu. Ásmundur kom þar síðla dags; var Eiríkur lèttur í máli við hann, og bar ekkert til tíðinda. Um kvöldið var Ásmundi borinn matur og fylgt til rúms, fyrir framan húsdyr Eiríks. En þegar allir voru komnir í svefn, fór Ásmundur á fætur, fór mjög hljóðlega, tíndi saman alla aska og diska, er hann gat fundið, og gekk frá þessu öllu milli fata í rúmi sínu. Þegar nokkuð var liðið á nótt, vöknuðu menn við brauk mikið, en vissu ekki, hverju gegndi. Um morguninn, þá bjart var orðið af degi, spurði Eiríkur, hvort Ásmundur væri vaknaður. Menn sögðu, að hann svæfi. Hann kvað bezt að lofa manninum að sofa. Það þókti mönnum kynlegt, að um morguninn, þegar átti að fara að skamta fólkinu, fundust hvorki askar nè diskar, og eins hitt, að Ásmundur skyldi ekki vakna. Var þá farið að huga að í rúminu; þar voru þá askar og diskar allir í molum. Grunaði menn þá, hver verk það mundi hafa unnið; því menn vissu, að Eiríkur bar þúngan hug til Ásmundar, fyrir því að dóttir hans var farin að gildna undir beltið. Eptir þetta varð

1. Sbr. Ófreskisgáfur í Fórspám, III, 1. 408 bls.

Hróðný lèttari, og fæddi piltbarn. Þegar Ásmundur frètti það út að Straumi, þá sendi hann henni á sængina sauðarfall soðið og fjögra potta kút með brennivín, sem hún skyldi gefa karli, föður sínum, þegar hún stigi af sæng. Hróðný gjörði svo; þá hafðist upp brún á Eiríki og sagði: „Gjörðu svo hálfu optar, Hróka mín.“ Ekki er þess getið, að hann hafi sýnt Ásmundi glettingar eptir þetta. Fèkk svo Ásmundur Hróðnýar. Þeirra son var Ólafur prestur á Kirkjubæ, faðir Bjarnar í Böðvarsdal, föður Bjarnar, föður Guðnýar, móður Magnúsar, sem þar býr nú. Voru þeir feðgar atgjörvismenn miklir, og þóktu fyrirtaks-bændur að rausn og vænleik.

Eiríkur bjó síðast á Rángá. Þegar hjarn var á vetrum, reið hann á Hèraðssanda, og ók til sín trjám, sem honum sýndist, að fornspurðum eigendum, og svaraði ófögrum orðum, ef að var fundið. Hann var refaveiðamaður mikill, svo hann dró fyrir þá í kríng um Fljótsdalshèrað, reið með dröguna inn með austurfjöllum og út norðan megin. Hann var hagmæltur og kastaði fram stökum við tækifæri. Þessar hefi eg heyrt eptir hann:

Mjög er drukkinn mögur Halls,
maðurinn álna snauður.
Hvar mun vera klárinn karls,
kallaður Gamli-Rauður?

Ef eg gleymi, og sè það satt,
siðanna góðum fremdum,
þá skal bíta, og hafa við hratt,
höfuð af öllum skemdum.

Geldur ekki grimmur hèr
gull nè fè í skattinn;
hákarlinn má þèna þèr;
þú ert eins og skrattinn.

Margir kenna mig við Hall
menn í þánka glaðir,
þegar þeir segja: „þar er hann karl
þrettán barna faðir.“

Guði sè lof, mig líður hann enn,
lifi' eg á sjötugs aldri,
hèr er kominn að hjala við menn,
hamurinn fylgir baldri.

Þorvaldur prestur Stefánsson kvað þetta eptir hann látinn:

Allvaldur Eirík hvildi,
af eldri mönnum heldri;
þann gildar gáfur falda
en gjöldin loks margföldu
alda guðs hátíð heldur
með höldum þeim útvöldu.
Skáld þar gott við skildi;
skuld þá allir guldu.

Spáði með spökum óði,
spjaður af eingum maður,
að ei elli næði,
áður en gekk til náða.
Guði treysti góðum
og gæða vænti af hæðum;
háði herkinn stríðið,
með heiður í Kristó deyði.

Túnga tregar dreinginn,
tánginn hèraðs lángur;
hans úngu börn í býnginn
bángin sèr niður stánga.
Kóngur allvaldra eingla
ángrið þeim bæti stránga.
Slýngvari' við fjölnis feinginn
fángar ei maður Rángá.

**Sigurður Islandströll.** Sigurður þessi var Vigfússon. Fyrst, eptir að hann kom úr siglíngu, var hann skólameistari á Hólum (1724—1742), en seinna varð hann sýslumaður í Dalasýslu (1746—1753); bjó hann þá í Stóra-Skógi og dó þar 1753. Hann var afburðamaður á afl og vöxt, og því var hann kallaður Íslandströll. Það er haft eitt meðal annars til merkis um krapta Sigurðar, að þegar smiðjan á Hólum brann einu sinni, en í henni var eirketill mikill, sem kallaður var Grettisketill, af því hann átti að hafa verið tekinn úr Drángey eptir dráp Grettis, og þekjan var fallin niður öðru megin, fór Sigurður upp á vegginn, og greip til ketilhöldunnar annari hendi, og kipti katlinum undan þekjunni upp á vegginn. En þegar að var gáð, var hálf önnur tunna af steinkolum í katlinum.[1] Eitt sinn fór Sigurður kynnisferð frá Hólum norður Hjaltadalsheiði til Schevíngs klausturhaldara á Möðruvöllum. Þegar hann fór þaðan, fylgdi Schevíng honum aptur undir heiðina. Þeir fóru þar af baki við stein einn mikinn; þá segir Sigurður: „Saa god (það var máltæki hans) loptar þú ekki þessum steini." Schevíng segir: „Það er ekki víst, þú getir það heldur." „Þú reynir fyrst," segir Sigurður. Schevíng gerði svo, og tókst honum að lypta steininum. Varð þá Sigurði bylt við, því það ætlaði hann að Schevíng mundi ekki geta, þó sterkur væri. Hleypur hann þá að, og þrífur til steinsins af öllu afli; en steinninn varð lèttari í höndum hans, en hann ætlaði, svo hann rak hann upp í ennið á sèr, og spreingdi þar fyrir.[2]

Ein sögn er það um Sigurð, að þegar hann var nýkominn úr siglíngu, átti hann eitt sinn leið yfir Tvídægru; það var um sumartíma. Með honum var dreingur einn úngur og óharðnaður. Sigurður hafði sverð við hlið, eins og venja var fyrirmanna á þeirri tíð. Þegar hann sókti á heiðina, komu að honum 3 stigamenn, allir vopnaðir með lagvopnum, og lètu ófriðlega. Þegar þeir nálguðust, fór Sigurður af baki og bjó sig til að verjast þeim. Dreingurinn, sem með honum var, skalf af hræðslu, og skipaði Sigurður honum upp undir kápu sína, upp á herðar sèr, og lætur

1. Skúli prestur Gíslason eptir frásögn Einars Bjarnasonar.
2. Sami eptir frásögn Jóns prófasts Konráðssonar á Mælifelli.

hann krækja höndunum fram fyrir axlirnar á sèr undir kápunni; skipar hann honum að halda sèr fast, svo hann detti ekki, þó hann hreifi sig. Dreingur gerir nú svo, sem fyrir hann var lagt, og veit ekkert, hvað gerist; en það heyrir hann, að fátt verður um kveðjur með Sigurði og stigamönnum, og það þykist hann skynja, að þeir veita honum aðför. Finnur dreingurinn það, að Sigurður tekur þrívegis snögg viðbrögð, og segir honum síðan að skríða niður undan kápunni. Sá dreingur þá, að stigamennirnir liggja þar allir í dauðateygjunum, og fossar blóðið úr þeim öllum á sama stað hjá viðbeininu. Reif svo Sigurður þar upp mosa, sem stigamennirnir voru fallnir og huldi með hræ þeirra, og fór svo leiðar sinnar. Sigurður hafði lært að skilmast erlendis, og kom sú list bæði honum og fylgdarmanni hans að góðu liði í þetta sinn. Það ætla menn, að Sigurður hafi verið grafinn fram undan kirkjudyrum á Kvennabrekku í Dölum, og er það til marks um það, að árið 1846, þegar mislínga-sóttin gekk, var þar jarðað lík á sama stað, því leiðið var sokkið og sást ekki, fannst þar kista með látúnsplötu á lokinu, og voru höggnir á hana stafirnir S. V. Þá var prestur á Kvennabrekku sèra Benedíkt Þórðarson, sem nú er á Brjánslæk, og sem saga þessi er tekin eptir; hann mældi hliðfjöl eina úr kistunni, og var hún á efri brún 3½ alin dönsk að leingd.

**Hrólfur sterki.** (Handrit sèra Skúla Gíslasonar eptir Einari Bjarnasyni á Mælifelli.) Hrólfur Bjarnason, hinn sterki, hèt maður í Skagafirði, og er ættleggur mikill frá honum kominn, og kallaður Hrólfs-ætt. Auk annara barna átti Hrólfur 2 Bjarna fyrir sonu; var annar kallaður verri Bjarni, en hinn betri Bjarni. Eitt sinn varð verri Bjarni eitthvað sakfallinn hjá Dönum, og höfðu þeir hann í haldi hjá sèr á Bessastöðum vor eitt; en aðrir segja, að þeir gerðu það af glettíngum einum saman við Hrólf, til að vita, hvernig honum brygði við. Þegar Hrólfur kom suður í skreiðaferð um sumarið, frètti hann, hvar komið var, og bjóst þá að ná syni sínum, og spurði sig fyrir, hvar hann væri haldinn. En þegar hann kom heim á grandann milli Brekku og Lambhúsa, tryltist hann, gekk berserksgáng og hljóðaði. Þegar hann kom heim að Bessastöðum, braut hann þar upp hverja hurð, og gekk rakleiðis þángað, sem Bjarni var, og bar hann burt undir hendi sèr; en Danir sýndu einga mótvörn. Aðrir segja, að þeir hafi orðið svo hræddir, að þeir hafi slept Bjarna lausum, og látið hann undir eins verða fyrir föður sínum

**Gestaraun.** (Sèra Skúli Gíslason eptir Einari Bjarnasyni.) Prestur einn bjó mörg ár í Hvammi í Norðurárdal, sem Jón hèt. Hann var hraustmenni mikið. Hann átti blöndukönnu eina mikla með tveimur handarhöldum, og var það vani hans, þegar vermenn komu þángað á vetrum, og báðu að gefa sèr að drekka, að hann bar þeim könnuna fulla með

drykk, og hèlt annari hendi í annað handarhaldið, en rètti hitt að komumönnum. En einginn kom sá að Hvammi, sem gæti tekið öðruvísi við könnunni en svo, að hann skyti hinni hendinni undir botninn. Fèkk kannan svo nafn af þessu, og var kölluð Gestaraun. Einu sinni kom úngur maður að Hvammi norðan úr Skagafirði með öðrum vermönnum; hann tók við könnunni af presti, lypti lokinu frá, hèlt henni fyrir sèr, meðan hann stóð og drakk úr henni, með annari hendi, og rètti hana svo aptur presti. Eingir hinna lèku þetta eptir honum. Prestur spurði þenna mann, hversu gamall hann væri; en hann sagðist vera 18 vetra. Prestur horfði leingi á eptir honum, og sagði síðan með döpru bragði: „Þarna fara hraust bein í sjóinn.“ Gekk það eptir, því pilturinn drukknaði syðra á vertíðinni.

**Hafnarbræður.** (Eptir sögnum úr Múlasýslu[1] og Húnavatnssýslu.) Bræður tveir voru í Múlasýslu, hèt annar Jón, en hinn Hjörleifur. Þeir voru Árnasynir frá Höfn í Borgarfirði, Gíslasonar. Þeir ólust upp í Höfn hjá föður sínum, og voru þá þegar kallaðir Hafnarbræður; því sögur hafa verið farnar að gánga af gjörvuleik þeirra, meðan þeir voru í föðurgarði. En þær sögur frá uppvaxtar árum þeirra eru mönnum mjög úr minni liðnar, nema ef vera skyldi sú, að það var vani þeirra í úngdæminu, að þeir tóku sèr á morgnana lýsisskel úr hákarlalifrarköggum föður síns og supu. Þessari venju hèldu þeir fram eptir æfinni, og juku smásaman sopann, alt að hálfri mörk. Einkum höfðu þeir þenna sið, þegar þeir reru á sjó, og neyttu þeir lýsisins eins lostugt, og nýmjólk væri; ætla menn, að þeir hafi feingið krapta sína og þol af því, enda voru þeir kallaðir Jón sterki og Hjörleifur sterki.[2] Enn þótt þeir bræður bæru af öðrum samtíðamönnum orku og burði, voru þeir alt um það frábitnir því, að þykjast öðrum meiri. Í framgaungu og klæðaburði þóktu þeir heldur seinfara og sèrlegir. Þeir voru gjarnast á dökkleitum stuttbuxum, og sortulitaðri eða sauðsvartri mussu, sem náði niður fyrir mjaðmirnar, og flèttíngslindi bundinn um mittið; þann linda kallaði Hjörleifur svarðreipi. Þeir höfðu bláleita kollhúfu á höfði; heima fyrir geingu þeir tíðast snöggklæddir, á koti (bol) utan yfir nærpeysu, og stúngu höndunum í barminn, undir kothlýrana við handkrykana. Hjörleifur var ætíð gángandi, og gekk við stóran staf bæði sumar og vetur, og var í fjaðrabroddur (atgeirsstafur); hann óð og allar ár. Á vöxt voru þeir með hærri mönnum, um og undir 3 álnir, og þrekvaxnir þar eptir, svo ekki hafa þeir, sem sáu Hjörleif beran, sèð annan þykkvari undir hönd eða þrýstnari, enda er sagt, að

---

1. Eptir stúdent Páli Pálssyni og Páli sýslumanni Melsted, sem báðir sáu þá bræður, en opt Hjörleif, sem virðist hafa verið mannblendnari, en Jón bróðir hans.
2. Espólíns Arbækur Islands, XI, 44. og 111. bls.

hann væri 60 þumlúngar ummáls um herðarnar. Ekki segja menn alment, að þeir hafi verið vel limaðir, en þó hafði Hjörleifur smáa hönd og mjúka, enda er hann talinn fimleiksmaður og mjúkur, bezti smiður og fríður ásýndar. Fálátir voru þeir bræður og hverndagsgæfir; en illa reiddist Hjörleifur, ef í hann fauk. Kom þá á hann nokkurs konar berserksgángur, en hætti opt við að verða nokkuð eptir sig, þegar af honum rann móðurinn. Seinmæltir voru þeir, og þó einkum Hjörleifur, sem auk þess var nokkuð einkennilegur i máli. Hann þúaði hvern mann, og talaði hreinna og betra mál, en aðrir; hann var og fróður maður og minnugur. Ànslegir þóktu þeir í orðatiltækjum, en opt smáskrítnir og fyndnir. Hjörleifur hafði t. d. ýms fögur orðtök og málshætti á hraðbergi; því varð honum að orði, þegar hann heyrði lát Dr. Gísla Brynjólfssonar:

„Silfurkerin sökkva í sjó,
en soðbollarnir fljóta.“

Ráðvandir voru þeir og dagfarsgóðir, hóglátir og óáleitnir við aðra, hreinskilnir og óásælnir í viðskiptum. Því var það opt, þegar þeir fluttu lýsi sitt í kaupstað, að þeir horfðu ekki í að leggja hálfan og heilan kút ofan á hverja lýsistunnu.

Þeir Hafnarbræður þóktu sterkastir menn á austurlandi, og þó viðar væri leitað, um þær mundir sem þeir voru uppi; en þó bar Jón af Hjörleifi, að því sem sögur segja. Það er talið með aflraunum þeirra, að þeir hafi, hvor um sig, borið sína brennivínstunnuna undir hvorri hendi; en það hafði Jón um fram bróður sinn, að hann hèlt jafnframt á brennivíns kvartèli í tönnunum. Þeir bræður reru jafnan saman, að minnsta kosti meðan þeir voru í föðurgarði, fyrir hákarl; ekki voru á skipi nema þeir tveir og einn maður til, því svo mikill munur var þeirra bræðra, að þá gekk rètt, þegar Jón reri einn á annað borðið, en Hjörleifur og þriðji maðurinn á hitt, ef ekki slóst í kappróður. Einhverju sinni, þegar þeir bræður voru á sjó við 3 mann, hreptu þeir landspyrnuveður, og feingu barníng þúngan. Hjörleifi þykir þá bróðir sinn linræður, og lítið gánga; fyrtist hann því, og tekur nokkur áratog í svo miklum jötunmóði, að hann snýr á Jón. Jón finnur fljótt, hvaðan á sig stendur veðrið, færist þá einnig í ásmegin, og rèttir svo af sèr, að hann snýr á hina, og segir um leið: „Taktu betur í árinni, Hjörleifur.“ Þessi sömu ummæli hefir Jón í hvert sinn, sem sveif á þá Hjörleif, en linar ekki á róðrinum að heldur. Fór þá svo, að Hjörleifur og borðsmaður hans gátu ekki að gert; því þegar fram í sókti, og móðurinn rann af Hjörleifi, linaðist hann upp, og borðsmaður hans þreyttist einnig, svo að þeir fèllu báðir fyrir ofurborð. Þegar svo var komið, hendir Jón sína ár á hvort borð, og rær einn, slíkt sem aftekur, uns hann nær lendíngu; enda hafði hann þá tekið svo nærri sèr, að blóð gekk upp úr honum á eptir. Jón var og brjóstveikur, en Hjörleifur aptur hinn heilsuhraustasti. Það er haft eptir Hjörleifi, þegar

til rætt varð um mannskap þeirra bræðra, að hann hefði ýmist sagt: „Jón er sterkari, heldur en eg; en eg er þolnari,“ eða: „Eg er ekki sterkur, en Jón, bróðir minn er sterkur,“ og eins hitt, að hann hefði aldrei sèð Jóni verða aflfátt. Í öðru sinni voru þeir bræður í hákarlalegu, en ekki er getið þriðja mannsins með þeim í það sinn. Þeir komu í hákarl, og drógu hann undir borð. En annaðhvort höfðu þeir mist ífæruna, eða gleymt henni í landi, svo að þeir gátu ekki unnið hákarlinn, og sleit hann sig af þeim. En af því hann flæmdist lítið eitt ofansjávar nærri skipinu, náði Hjörleifur í sporðinn á honum, og kom honum undir handkryka sinn, og hèlt honum þar; bað hann svo Jón að róa í land, og það gerði hann, en Hjörleifur hèlt hákarlinum á sporðinum alla leið. Húnvetníngar segja, að þeir bræður hafi róið tveir einir á áttæríngi í hákarlalegur; en þegar þeir hafi komið að og feingið nokkuð, hafi Jón sagt við Hjörleif; „Hvort viltu heldur bjarga bröndunni eða bátnum?“ En Hjörleifur kaus heldur að setja, og bar skipið á stöfnum upp í naust, en Jón kipti hákörlunum, hvort sem þeir voru einn eða fleiri, á þurt og gerði til. Eitt haust fóru þeir bræður með nokkra hesta undir reiðíngi suður í Reyðarfjarðarkaupstað, sem þá var. Rak þá niður snjóa mikla, og urðu þeir að skilja þar eptir hestana, og fara gángandi heim; það eru 3 dagleiðir og yfir tvo fjallgarða að fara. En til þess að koma ekki alsendis tómhentir heim, hèldu þeir á sinni matartunnunni hvor, og var ófærð í mesta lagi. Einhverju sinni voru þeir bræður staddir í kaupstað, og varð Hjörleifi sundurorða við annan mann. Maður þessi var fyrir innan hjá kaupmanninum, en Hjörleifur fyrir utan, og gat svo ekki náð til hans. Verður hann þá reiður og tekur upp á því að berja húsið utan með drumb, sem fyrir honum varð, svo allir, sem inni voru, urðu lafhræddir. Síðan fer hann og sækir hákarlaskálm ofan í skip sitt, sem lá á utborða við annað skip, er og var á floti fram undan fjörunni. Hleypur nú Hjörleifur ofan að sjó, en nennir ekki að gánga yfir skipið, sem nær var landi, og hendir sig því yfir það þvert, út á sitt skip, og kemur standandi á þóptuna, grípur hákarlaskálmina og heldur með hana í land. Meðan á þessu stóð, náði kaupmaðurinn í Jón, bróður hans, og biður hann í öllum bænum, að stilla Hjörleif og blíðka hann á einhvern hátt. Jón bregður þá fljótt við og verður í flasinu á Hjörleifi, þegar hann kemur upp undir búðirnar, vaðandi með skálmina. Jón segir þá: „Hvað ætlarðu að gera við hákarlaskálmina þá arna, bróðir?“ Hjörleifur svarar: „Eg ætla ad drepa hann . . . . . . . með henni.“ Jón segir: „Fáðu mèr hana, bróðir; eg skal drepa hann.“ Hjörleifur fær honum skálmina og segir: „Eg trúi þèr manna bezt til þess, bróðir.“ Jón tók við skálminni, og fór með hana, eins og honum þókti bezt henta. Önnur sögn er það um Hjörleif, að einu sinni, þegar þeir bræður voru staddir í kaupstað, hafi honum þókt fyrir við kaupmanninn, af því hann hefði reiknað eitthvað af Hjörleifi;

en Hjörleifur vildi hafa hrein viðskipti af öðrum, eins og hann var sjálfur viðskiptagóður. En þegar kaupmaður vildi ekki rètta skakkann, reiddist Hjörleifur svo, að hann ætlaði að fella kaupmannsbúðina, með því að hleypa stórtrè undir stokkinn, svo við því var búið, að hann mundi hefja húsið á lopt, ef Jón hefði ekki komið að í sama bili, tekið Hjörleif og haldið honum, svo hann gat ekkert ílt af sèr gert. Enn eru þessi dæmi um það, að Hjörleifur reiddist illa, ef hann reiddist. Maður hèt Þorsteinn; hann var skjólstæðíngur Hjörleifs, og bjó í hjáleigu frá Snotrunesi. Hann var heldur lítill vexti og ekki sterkur, en bráður í skapi. Hann reiddist Hjörleifi einu sinni, svo að hann þreif varreku, og ætlaði að berja Hjörleif með, eða barði hann. Þá fauk í Hjörleif, svo hann greip Þorstein, brá honum á lopt og kastaði honum lángt frá sèr, svo Þorstein lá í óviti, og hèlt Hjörleifur fyrst, að hann hefði drepið hann; en þó raknaði Þorsteinn úr rotinu. Það var enn, að maður nokkur, sem Stefán hèt, kastaði illum orðum á Hjörleif í viðurvist margra manna, og meðal annara var þar viðstaddur sýslumaðurinn, sem þá var í Múlasýslu, amtmaður Páll Melsted. Hjörleifur þoldi leingi illyrði Stefáns, þángað til menn tóku eptir því, að Hjörleifur sprettur upp og fölnar í framan, hleypur þángað, sem stafur hans stendur, mundar hann og segir: „Viltu eg sendi þèr sendíngu?“ Gekk þá sýslumaður á milli og bað Hjörleif að gæta sín, og vinna ekki slys. „Eg skal gera það fyrir þín orð, Páll,“ sagði Hjörleifur.

Áður en hætt er við þá bræður báða saman, verður að segja hèr eina sögu um aflraunir þeirra, sem gekk í Húnavatnssýslu fyrir hèr um bil 30 árum. Þeir bræður áttu einhvern tíma kaup við lausakaupmann nokkurn, eða þó heldur hollenzkan duggara. Spurði Hjörleifur þá eptir haldfærum, og voru honum sýnd nokkur. Hann reyndi þau milli handa sèr, og dró þau sundur, sem hægast, og sagði, að þetta væri ónýt vara, sem ekki þyldi handafl manns. Skipsforíngjanum þókti Hjörleifur bæði spilla fyrir sèr færunum og gera sèr skömm með þessu, og sagðist skyldi hugsa til hans að ári, að koma með færisspotta handa honum, sem hann mundi ekki leika sèr að slíta milli handanna. Sumarið eptir kom sama skipið, og fóru þeir bræður út í það; spurði Hjörleifur þá skipsforíngjann, hvort hann hefði munað eptir færunum. Hinn sagði svo vera og lèt færa Hjörleifi 3 línur; ein þeirra var gul, önnur blá og hin þriðja rauð. Hjörleifur reyndi fyrst gulu línuna, en gat ekki slitið hana, fyrr en hann brá henni um herðar sèr. Þar næst tók hann bláu línuna, bregður henni eins um herðar sèr, og getur þó ekki slitið hana; en hann teygði hana um faðm, og rètti hana svo að Jóni. Jón tók við og sleit hana við hnè sèr. Síðan tekur Jón rauðu línuna og reynir eins á hana, og geingur ekki; þá bregður hann henni um herðar sèr hvað eptir annað, því hún tognaði einlægt. Loksins rykkir hann henni sundur; hafði hún þá tognað um 3 faðma. Er sagt, að þeim hafi sýnzt, sem hjá stóðu, sem eldneistar

hrykkju úr endunum, þegar línan slitnaði. Við þetta þykknaði í skipsforíngjanum, en þorði þó ekki að láta á því bera; því honum þókti, sem hèr væri við tröll að eiga, en ekki mennska menn.[1] Enn er það haft til marks um afl Jóns, að einu sinni var hann staddur, þar sem kaupfar hafði brotnað, og reyndi afl sitt, að dæmi Orms Stórólfssonar,[2] á siglutrènu úr skipinu. 24 menn tóku trèð á lopt, því færri munu ekki hafa getað loptað því, og lögðu það um þvert bak á Jóni; brá hann svo handleggjunum aptur fyrir það, hèlt því föstu á spjaldhryggnum, gekk með það 3 faðma og slepti því síðan. Haft er það eptir honum, að þetta hafi verið mesta aflraunin sín, og það með, að hann hefði aldrei orðið jafngóður eptir.

Nú segir af aflraunum Hjörleifs eins. Þegar sèra Hjörleifur Þorsteinsson var prestur á Desjarmýri (1790—1800), en Hjörleifur Arnason bjó á Snotrunesi, átti prestur griðúng gamlan og heldur manneygðan. Það var einn laugardag á eingjaslætti, að prestur var einn heima, en alt fólk annað á eingjum; blásandi þerrir var úti, og allar dyr settar upp á gátt, til að viðra húsin og þurka. Þegar leið fram um nón, heyrði prestur inn í hús sitt hark frammi í bænum, fer ofan og skygnist um; eru þá kýrnar komnar heim og boli inn í búr. Prestur geingur þángað, og ætlar að reka nautið út; en boli bregðst illa við, og fer undir prest, stimpast þeir þar um stund, þángað til hann kemur þó bola út, því hann var fílefldur maður; en þó var hann svo yfirkominn af mæði, að hann gekk til rúms, og lagði sig fyrir. Um kvöldið, þegar eingjafólk kom heim, lætur prestur smalamann sinn fara út að Nesi, og gerir Hjörleifi orð, að drepa fyrir sig griðúnginn, svo hann ynni eingum tjón. Hjörleifur var ekki heima, þegar sendimaður kom. En í bíti morguninn eptir er geingið í bæinn á Desjarmýri og til baðstofu; er þar kominn Hjörleifur sterki, og hefir hákarlaskálm í hendinni og segir: „Hvar er nú kálfurinn?“ Honum var vísað til hesthúss; þar hafði nautið verið látið inn, og borið grjót á hurðina. Hjörleifur snarar út úr bænum, og fer til hússins. En vinnukonur prests komu með trog á eptir. Hjörleifur veltir frá grjótinu, og opnar húsið; en boli þýtur út og undir Hjörleif. Hann tekur mannlega á móti, og skiptir það eingum togum, að boli fellur og Hjörleifur sezt ofan á hann, og sker hann þar ofan í hesthússvarpann. Þegar prestur nokkur (ef til vill sèra Hjörleifur) flutti sig frá Desjarmýri, lèt hann járnarusl og ýmislegt annað í stóra eikarkistu. Við þetta varð kistan svo þúng, að prestur sá eingin tök á að koma henni til skips. Svo stóð á, að Hjörleifur sterki var þar aðkomandi, og heyrir, að prestur er að fárast

1. Það má sjá á þessari sögu, að fjarlægðin hefir ýkt hana, ekki síður en tímaleingðin aðrar sögur.

2. Fms. III, 228. bls. og Flateyarbók, I, 532. bls.

um þetta. Þá segir Hjörleifur: „Ætli það megi ekki bera kistuskollann?“ Þeir, sem viðstaddir voru, segja, að það taki eingu tali, hún sè ómeðfærileg. Hann segist halda, að það muni mega, og biður þá að fá sèr reipi. Þeir gera svo. Hjörleifur slær reipunum utan um kistuna, bregður töglunum upp á aðra öxlina, og leggur svo á stað með hana á bakinu. Tveir menn urðu honum samferða, og talaði hann við þá á leiðinni út um alla heima og geima. Hann bar kistuna, án þess að hafa axlaskipti, viðlíka lángan veg, og frá Reykjavík inn að Laugarnesi, og lagði hana orðalaust af sèr á þeim stað, sem hún átti að komast á. Seinna lèt prestur vega upp úr kistunni, og vógst það þá 72 fjórðúngar.[1] Espólín hefir talið tvær aflraunir Hjörleifs; önnur var sú, að hann hóf um seilíngu stafn á skipi, sem annar maður óvalinn, og þó afstyrmislaus, mátti ekki láta vatna. Þetta skip hafði Guðmundur sýslumaður Pètursson í Krossavík látið smíða, og ætlað til flutnínga; það var ákaflega stórt og viðamikið; var farin á því ein flutníngsferð, en þókti svo þúngt og ómeðfæriligt, að formaðurinn afsagði að fara með það optar. Var það sett upp í Vopnafirði og hvolfdi þar síðan leingi. Hjörleifur gekk að skipinu, tók undir báða framkinnúngana, og hèlt því svo hátt, að hann sá standandi inn í skipið, og lagði það síðan niður sem hægast. Annað var það, að Hjörleifur bar á baki sèr á túni 100 faðma stein þann, er vóg nær 9 vættum.[2] Einhverjar sagnir hafa verið fleiri um stein þenna í Múlasýslu, en einginn hefir getið um vigt á honum nema Espólín. Nokkrir segja, að það hafi átt að vera hlóðarsteinn eða stóarsteinn, sem Hjörleifur sókti út í tún, og má vera, að það sè alt sami steinninn, sem Espólín talar um. Einhvern tíma voru þeir feðgar, Hjörleifur og Árni sonur hans, staddir í kaupstað. Brá Árni sèr þá til að halda upp (frá skipi) á nokkrum mjölhálftunnum, og bar jafnan sína undir hvorri hendi. Þá mætir Hjörleifur honum og segir: „Svona fór eg með mjöltunnurnar, dreingur minn, þegar eg var á þínum aldri.“ Árni svarar: „Það er eins víst, að það mætti bæta nokkru við.“ Árni líktist föður sínum að vexti og mannskap, en dó óharðnaður um tvítugs aldur. Það segja Múlasýslumenn, að þeir bræður Jón og Hjörleifur hafi mjög tamið sèr á ýngri árum að stökkva bæði lángt og hátt, og verið svo leiknir í því, að þeim hafi veitt hægt að lètta sèr yfir áttæríngsskip á jafnslèttu, og þegar Hjörleifur hafði 7 um sextugt, stökk hann enn hæð sína í lopt upp (1818), enda telja Múlasýslumenn hann fremri bróður sínum að fimleikum. Hann sagði og sjálfur frá því, að hann hefði opt á ýngri árum sínum, þegar skipi var hægt róið með landi, geingið eptir borðstokkum fram á hnífil, snúið þar við, og geingið svo eptir hinum

1. Eptir því hefir Jónas heitinn Hallgrímsson ekki ýkt um þúnga kistunnar, sem hann getur í sögunni „að tyggja upp á dönsku,“ sjá Fjölni, 9. ár 36. bls.

2. Espólíns Árbækur, XII, 186. bls.

borðstokknum aptur á eptri hnífil.[1] Hjörleifur dó á Snotrunesi 1831, en Jón lifði leingur.

**Gunnar Eyfirðíngapóstur.** (Eptir handriti sèra Benedikts þórðarsonar á Brjánslæk.) Gunnar Eyfirðíngapóstur var gaungumaður svo lèttur að afbragð þókti; fór hann því allar vetrarferðir sínar gángandi og bar töskuna. Einu sinni um vetrartíma var hann einn á ferð suður Tvídægru. Veður var gott og gángfæri greiðlegt. Nálægt miðri heiðinni sèr Gunnar mann einn mikinn til hliðar við sig; stefnir hann í veg fyrir Gunnar, og hittast þeir brátt. Sèr Gunnar þegar, að það muni útilegumaður vera, og stendur honum nokkur kali af honum. Maðurinn læzt vilja fylgjast með Gunnari og snýr á leið með honum. Vill Gunnar, að hann gángi á undan sèr, en það vill hinn ekki og gekk á eptir Gunnari. Gunnar herðir þá gaunguna, sem mest hann má, og hinn á eptir. Fara þeir leingi þannig, að fjallabúinn fylgir Gunnari, en nær honum þó ekki. Koma þeir loks að gili einu, er lá þvert fyrir þeim. þeim megin í gilinu, sem fjær þeim horfði, var þar í heingjuskafl einn og harðfenni. Gunnar hikar ekki, og rennur hann upp skaflinn og kemst upp; snarar hann þar niður töskunni, og bjó sig til varnar; var þar hið bezta vígi. þegar fjallbúinn sèr viðbúnað og ætlun Gunnars, hættir hann við að hlaupa upp skaflinn og segir: „Ætíð eruð þið eins fótfimir Norðlíngar.“ Sneri hann á burt við svo búið. þegar Gunnar sèr það, tekur hann tösku sína, heldur leiðar sinnar með ákafa, og kemst suður fyrir heiðina til bygða um kvöldið. Sagði hann svo frá að ef hann hefði ekki hitt heingjuna, þá mundi hann ekki hafa komizt undan.

Öðru sinni, þegar Gunnar var á ferð, gisti hann á Melum í Hrútafirði, og ætlaði að morgni suður Holtavörðuheiði; var hann einn á ferð, því einginn treysti sèr, að fylgja honum. Um kvöldið á Melum kemur kvennmaður inn til hans; hún var borgfirzk, og hèt þuríður. Eingin deili þekkir Gunnar á henni. Biður hún hann, að lofa sèr að fylgjast með honum yfir heiðina, en Gunnar afsegir það með öllu, því ekki vilji hann, segir hann, hafa tafir af henni. Hún kveðst ekki ætlast til þess, að hann bíði sín, en með honum kveðst hún fara, hvað sem hann segi. Gunnar fer á fætur fyrir dag, tekur tösku sína og hleypur út. þegar hann kemur fram í bæardyrnar, er stúlkan þar, búin til ferðar, og kvaðst bíða hans. Gunnar svarar henni eingu, en snarast út hjá henni, og hleypur suður túnið, og upp til heiðarinnar; sèr hann, að stúlkan kemur á eptir; fer hann nú sem hraðast, og ætlar, að stúlkan muni sjá sitt óvænna, og snúa aptur. Heldur hann nú á fram, þángað til hann kemur að Hæðarsteini, þar sezt hann niður, því hann var mjög móður. En þegar hann hafði

1. Sbr. Flateyarbók, I, 464. bls.

setið litla stund, kemur stúlka hans. Þegar hann sèr hana, stendur hann upp, og hleypur á stað, og stekkur leingi svo, að hvorki dregur sundur nè saman með þeim. Gunnar var orðinn mjög móður, og settist því niður að hvíla sig. Kemur þá stúlkan til hans og spyr hann, hvort hann ætli ekki að halda á fram. Síðan fylgjast þau leingi, og eru nú bráðum komin ofan undir bygð; býður hún honum þá, að bera fyrir hann töskuna, en hann vill það ekki. En þegar þau eru því nær komin ofan að bygð, fer hún að gánga á undan honum, og nær bæ fyrr en hann, og getur þess þar, að hún hafi orðið póstinum samferða yfir heiðina, og sè hann skamt á eptir sèr. Þegar Gunnar nær bæ þessum, beiðist hann þar gistíngar því hann treysti sèr ekki að halda leingra. Stúlkan stóð litla stund við á þessum bæ, en fór svo til gistíngar á annan bæ. Aldrei kvaðst Gunnar hafa komizt í slíka gángraun. Þegar hann var orðinn gamall, hætti hann póstgaungum, og lifði eptir það nokkur ár, en svo voru fætur hans orðnir máttvana, að hann stóð á knjám við slátt.

# 7. FLOKKUR.

## ÚTILEGUMANNASÖGUR.

Í VI. flokks 3. grein e— lið var þess þegar getið, hversu gjarnt Íslendíngum væri að búa til ræníngjasögur; en næst þessum ræníngjasögum, gánga hinar svo nefndu útilegumannasögur, og hafa jafnvel nokkrar af þeim laumazt óvart inn í stafliðinn f í næstu grein á undan. Útilegumannasögur eru, ef til vill, tíðastar allra munnmælasagna á Íslandi, og jafnvel tíðari, en æfintýri, sem þeim svipar svo mjög til, og eru því útilegumannasögur rètt kjörinn miðliður milli viðburðasagna og æfintýra. Í fyrndinni var skóggángur sú hegníng, sem lögð var við öll hin meiri afbrot; skóggángsmenn eða útlagar áttu ekki nema um tvo kosti að velja, með því þeir voru óalandi, og óferjandi og rètt dræpir, nálega hvar sem þeir hittust, annaðhvort að flýa land eða fara í óbygðir og hafast þar við á fiskiveiðum, dýra eða fuglaveiðum, eða og með ránum, þángað til þeir urðu loksins yfirstignir af ofsóknarmönnum sínum,[1] eða vógust á sjálfir, og unnu það til sýknu sèr.[2] Seinna á öldum var að vísu skóggángur eða útlegð afnumin í þessum skilníngi, en þó var það ekki sjaldgæft, að stórbrotamenn leituðu sèr undanfæris til óbygða til að komast hjá fjársektum eða hegníngu fyrir athafnir sínar, og urðu svo að hafa þar ofan af fyrir sèr á sama hátt, sem hinir alseku skógarmenn höfðu áður gert. S k ó g a r m a ð u r er elzta orðatiltæki um slíka menn hèr á landi og kemur það víða fyrir í Grágás um óælamenn (rètt dræpa), þar næst er ú t l æ g u r (að l e g g j a s t ú t, vera í ú t i l e g u) og virðist það helzt haft um þann, sem fer farflótta frá ættjörð sinni til annara landa,[3] án þess þó að hafa unnið sèr til óhelgi. En snemma hefir íll merkíng komið í orðið ú t i l e g a (en sjálfsagt eru af sama stofni dregin ú t l a g i og ú t i l e g u m a ð u r), þar sem Járnsíða setur ú t i l e g u í flokk með þýfsku,[4] og Vatnsdæla setur saman ú t i l e g u m e n n og r á n s m e n n.[5] Á báðum þessum stöðum eru útilegumenn orðnir þjófar, enda eru þeir nú á dögum opt nefndir öðru nafni f j a l l a þ j ó f a r. Skógarmennirnir og útlagarnir eru því

---

1. Sjá eitt af mörgum dæmum í Vopnfirðínga sögu. Kh. 1848, 4. bls.
2. Viðbætir við Landnámu. Kh. 1843, 323. bls.
3. Fms. X, 385 og 394. bls.
4. Járnsíða, mannhelgi 6. kap. og Jónsbók, mannhelgi 2. kap.
5. Vatnsdæla (Leipzig 1860), 41. kap. 65. bls., en ekki er að marka Akureyrar útgáfuna af Vatnsdælu 1858.

undirstaðan til trúar þeirrar hèr á landi, ekki að eins, að útilegumenn hafi verið til í fornöld, heldur og að þeir sèu enn til í óbygðum, eða þá að minnsta kosti sumstaðar. En þeir staðir, sem menn hafa ætlað, að bygðir útilegumanna væri mestar í, eru þessir: í Ódáðahrauni, Köldukvíslarbotnum, í kríng um Stórasjó, í Torfajökli, eða jökulkrók hjá Torfajökli, í Síðujökli (Vatnajökli), í Mýrdalsjökli, í Arnarfellsjökli, bak við Arnarfell hið mikla,[1] í Tjarnardölum (þjófadölum), á Auðkúluheiði, og vestur með endilaungum Lángajökli (Baldjökli) að norðan, vestur undir Flosaskarð, og í þórisdal í Geitlandsjökli, eða Valdadal, og dregið af nafni Skuggavalda,[2] Skegg-Ávalda, Skeggjavalda,[3] og hefir Jón Guðmundsson lærði gert hann að nokkurs konar forkólfi allra útilegumanna, og bjargvætti, sem að minnsta kosti Valdadalsbúar hafi síðan heitið á, til að fela bygð sína, sem segir í Áradalsbrag Jóns, því svo virðist Jón hafa kallað þenna dal.[4]

a) þessi trú hefir verið mjög almenn hèr á landi, og er naumlega enn útkulnuð með öllu, að útilegumenn væru til, og er það ekki að eins alþýðumanna trú, heldur einnig skynugra manna skoðun og greindra. því verður ekki heldur neitað, að nokkrar líkur eru til þessa, t. d. þar sem örnefni eru gefin eptir þeim mönnum, sem sagt er að verið hafi í útilegu, og annað íllar heimtur á haustin.[5] Einu sinni átti sèra Jón sal. Hjaltalín tal um íllar heimtur við Arnes fjallaþjóf, og komst að því hjá honum, að útilegumenn yllu óskaplegum fjárhvörfum; þar með gat Arnes þess, að fjárhvörf frá bygðamönnum yrðu aldrei meiri, en eptir harða vetur, af því útilegumenn gjörfeldu þá alt fè sitt, og yrðu þeir að bæta sèr það, með því að stela því meira í skarðið.[6] Víst er um það, að ekki er

1. þar á að vera dalur i jöklinum, svo ekki sèst, fyrr en að er komið. þar er sagt að bræður tveir hafi legið úti. Jón nokkur Eyólfsson frá Ásólfstöðum var einu sinni á ferð hjá Arnarfelli, og rèðust þeir bræður báðir á hann. Hann drap annan þeirra, en hinn flýði undan og dó seinna af sárum. Svo hefir Oddur á Hamarsheiði sagt eptir Fjalla-Eyvindi, sem átti að hafa þekt til þeirra bræðra. Dr. Maurers Isl. Volkss. 244. bls.

2. Ármannssaga 11. kap. Akureyri 1858, 31—34. bls.

3. Sbr. Fornsögur. Leipzig 1860, 75 og 195. bls.

4. Sbr. Ferðabók Eggerts Olafssonar, 87. bls. og Ný fèlagsrit 20. ár, 199—200. bls. Ekki hefi eg heyrt Eyvindarkofaver talið stöðugt aðsetur útilegumanna, þó Eyvindur hýrðist þar æði leingi, sbr. „Islendíng“ annað ár 12. bls.

5. það er haft eptir ólygnum manni, að á meðan fèð hafði ekki týnt hèr tölunni, núna fyrir 3 eða 4 árum af fjárkláða og felli, þá muni hafa vantað hèr á landi af fjallgeingnu fè árlega um 30—40,000 að tölu, auk þess, sem ræflar fundust af eða beinagrindur. það er auðvitað, að mikið hafi farizt af því fè, þar sem eingar mannaleiðir liggja um í háfjöllum og ógaungum, ómælt mun og tóan hirða, og fjölda margt af því má ætla að sauðaþjófar úr bygð hafi á samvizkunni. En hvað sem þessu líður, verður það ávalt óskiljanlegt, að svo margt fè skuli farast árlega, ef alt væri heilt í óbygðum, annað en nú var talið.

6. Á þessu lítur svo út, að ekki hafi aðrir útilegumenn, en Áradalsbúar átt því láni

mönnum enn grunlaust um, að það sè útilegumönnum að kenna, ef fè hverfur, svo furðu gegni, og má vera, að sögur þær sem enn gánga manna á milli um slíka viðburði, ali þá trú hjá almenníngi. Nú koma þá sögurnar, fyrst þær, sem sýna, að örnefni eru kend við útilegumenn í óbygðum, og þar á eptir um ýmsa viðureign þeirra við bygðamenn, og viðskipti. Færri af þessum fyrstu sögum eru mjög ótrúlegar eða skreyttar.

**Oddkell.** (Skúli prestur Gíslason eptir almennri sögn í Eystrahrepp; Dr. Maurers Isl. Volkss. 243. bls.) Oddkell sá, er Oddkelsver er kent við,[1] er mælt að hafi lagzt út með systur sinni, er hann átti barn með, og að hann hafi drepið börn þau, er þau áttu í útlegðinni, og drekt þeim í Oddkelsós, framan undir Oddkelsöldu. En sagt er að sveinar biskupsins í Skálholti hafi fundið hann, þegar þeir á vísitazíuferð biskups lágu í Tjarnarverum við Sóleyarhöfðavað. Sáu þeir reyk inn í verinu undir Oddkelsöldu. Hann sagðist hafa fundið fè fyrir þar í verinu og eingu hafa stolið, en þó drápu biskupssveinar hann. Aðrir segja, að ferðamenn nokkrir, sem hann hafi viljað ræna, hafi drepið hann, og dysjað þar í verinu. Öll fyrnefnd örnefni eru kend við Oddkel þenna.

**Þórir** og **Skúmur.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 243—244. bls. eptir Oddi Jónssyni á Hamarsheiði.) Þórir var og útilegumaður; hann hafðist við á Þóristúngum, millum Köldukvíslar og Túngnaár, og lifði af veiði í Fiskivötnum. Af hans nafni eru dregin þessi örnefni: fjallið Þóristindur, lækurinn Þórisós, Þórisvatn, og svæðið, sem kallað er Þóristúngur, þó það komi ekki heim við þá sögusögn, sem segir, að Þórisvatn dragi nafn af Þóri, syni Þórálfs þess, sem Ármannssaga[2] getur um að hafi tryllzt. Skúmur var enn nefndur útilegumaður. Hann hafðist við í Skúmstúngum, milli lækja tveggja fyrir vestan Þjórsá, og dregur svæðið nafn af honum.[3]

**Úlfsvatn.** (Eptir handriti sèra Jóns Þórðarsonar á Auðkúlu.) Fram af Skagafjarðardölum er veiðivatn, sem Úlfsvatn heitir, og er nafnið svo undir komið, sem hèr segir. Einhverju sinni bjó ríkur bóndi á Mælifellsá; hann átti son, sem Guðmundur hèt, efnilegasti maður að öllu, sterkur og glíminn. Hann var opt í gaungum (fjárleitum) og var gángnaforíngi, eða fjallkóngur, sem Rángvellíngar kalla. Einhverju sinni fór Guðmundur í

---

að fagna, að fè það, sem þeir skæru á haustin og ætu á veturna, lifnaði upp aptur á vorin, ef þeir hèldu saman beinum þess og brytu þau ekki, sjá 3. söguna úr Áradalsbragnum á eptir.

1. Sbr. Ný Fèlagsrit 8. ár, Lýsíng á Spreingisandi, 61. bls.
2. 10. kap. í Ármannssögu.
3. Sbr. Ný Fèl. r. 8. ár 56. bls.

eptirleit með fleiri mönnum, og varð hann þá einn með dreing í leitinni, og komu að Úlfsvatni; þar sáu þeir tvö lömb og fóru að eltast við þau. Vatnið var lagt, og sáu þeir, að maður lá úti á vatninu, og var að veiða; þeir Guðmundur nálguðust vatnið, stendur þá veiðimaðurinn upp, tekur öxi, sem hjá honum lá, og rennir sèr fótskriðu, þángað sem Guðmundur er. Þegar dreingurinn sèr þetta, tekur hann til fótanna, en Guðmundur bíður mannsins. Þegar ókunni maðurinn kemur svo nær, leggur hann til Guðmundar með öxinni; en Guðmundur veik sèr undan. Varð útilegumanninum þá laus öxin, og nær Guðmundur henni, og rennir sèr fótskriðu út á vatnið og útilegumaðurinn á eptir. Fara þeir svo um hríð, þángað til Guðmundur sá sèr færi, snýr sèr við og heggur útilegumanninn banahögg. Þegar hann fèkk lagið, kallar hann hátt á Brand, Þorgils og Ólaf. Síðan hèlt Guðmundur til sinna manna og segir þeim frá atburðinum. Fóru þeir þá fjölmennir til vatnsins, og var hinn látni þá horfinn; sáu þeir, að hann hafði verið sóktur, og röktu blóðferilinn upp af vatninu. Eptir þetta var Guðmundur heima og fór ekki í gaungur, því uggvænt þókti, að útilegumenn mundu sitja um hann. Einhverju sinni var það seint á sumri á Mælifellsá, að smalinn varð veikur, var einginn til að smala nema Guðmundur. Hèlt hann þá á stað, en finnur hvergi fèð; heldur hann þá fram á heiðar, en finnur eigi að heldur. Gerir þá á hann þoku mikla, svo hann veit ekkert, hvað hann fer, en þó heldur hann á fram, þángað til hann sèr fjárhnapp stóran og mann hjá fènu. Útilegumaðurinn rèðst þegar á Guðmund, og glíma þeir leingi, þángað til Guðmundur fellir hann. Biður þá útilegumaður sèr griða, og segist skuli launa honum það góðu. Guðmundur spyr, hver hann sè og hvar hann eigi heima. Útilegumaður sagðist heita Ólafur, og vera bróðir þess, sem hann hefði drepið á vatninu, en hann hefði heitið Úlfur. „Við erum 6 bræður, og er eg þeirra ýngstur og minnstur. Faðir minn býr í bæ hèr skamt í burtu, og hefir hann hylt þig híngað, því hann vill launa þèr sonardrápið; hefir hann látið gera gröf á hlaðinu, og ætlar hann þèr að gista í henni. Við eigum systur eina, sem Sigríður heitir, henni ann faðir okkar mest; hún má veita þèr bezt lið, ef hún vill lèttann á leggja. Brandur bróðir minn er hèr nálægt, og rèðir þú niðurlögum hans, svo þú yrðir lífgjafi okkar beggja, mundi hún leggja þèr það lið, sem hún getur.“ Eptir þetta lætur Guðmundur Ólaf uppstanda, og heldur á fram, þángað til hann finnur Brand; glíma þeir, og getur Guðmundur komið honum undir. Biður þá Brandur griða og heitir honum liðveizlu, og segir honum frá því sama, sem Ólafur hafði sagt honum áður. Lætur Guðmundur hann þá uppstanda, heldur svo til bæarins og hittir Sigríði úti; ber hann henni kveðju frá bræðrum hennar, og það með, að þeir biðja hana að hjálpa lífgjafa þeirra. Sigríður leiðir hann þá í fjósloptið, og gefur honum vín að drekka, svo Guðmundur hrestist mikið. Segir Sigríður

honum þá frá gryfjunni á hlaðinu, og kennir honum það ráð, að láta hrekjast fyrir föður sínum að gryfjunni, þegar þeir eigist við; en þegar þeir komi á gryfjubarminn, skuli hann stökkva yfir, en láta föður sinn falla ofan í, en drepa hann þó ekki. Nú segir hún að faðir sinn sofi, en muni bráðum vakna og vita af komu hans, skuli hann því gánga framan að bænum og berja á dyr. Guðmundur gjörir svo; en þegar karl heyrir höggin, rís hann úr rekju og segir, að nú sè þó loksins Guðmundur kominn, og skuli hann fá að reyna á karlmennskuna. Hleypur bóndi svo út og verður ekki af kveðjum með þeim Guðmundi, heldur hlaupa þeir þegar saman, og verður þar harður aðgángur. Guðmundur finnur það fljótt, að hann hefir ekki meir en hálft afl við karlinn, og verst þess vegna, en sækir ekki. Vill karl koma honum að gryfjunni, og lætur Guðmundur berast þángað; en þegar þar kemur, stekkur Guðmundur yfir um, en steypir karlinum á höfuðið ofan í. Í þessu kemur Sigríður að og bræðurnir tveir, sem Guðmundur hafði glímt við áður, og biðja hann að gefa föður sínum líf, og heitir hann því, ef þau geri sèr ekkert mein þaðan í frá, og lofaði karl því hátíðlega. Er karl þá dreginn upp, og þakkar hann Guðmundi lífgjöfina, og býður honum inn, en segist þó ekki vita, hvernig eldri synir sínir kunni að eira þessum málalokum, þegar þeir komi heim. Síðan er Guðmundi veittur beini, en lokaður um kvöldið inni í skála. Komu svo eldri bræðurnir heim, og spyrja, hvort Guðmundur gisti í gröfinni. Karl segir þeim, eins og farið hafði, en þeir verða óðir við það og ætla að brjóta upp skálahurðina. Karl geingur þá fyrir hurðina, og segir, að þeir verði þá fyrst að vinna á sèr, ef þeir vilji verða griðníðíngar og drepa Guðmund. Sefuðust þeir þá, og geingu til rekkju. Um morguninn sýndi karl þeim Guðmund, og bauð þeim að leggja ekkert til hans. Guðmundur dvaldi þar um veturinn; honum leizt vel á Sigríði, því hún var fríð kona sýnum, og þar hjá svo faunguleg og burða mikil, að hún hafði við öllum bræðrum sínum; Guðmundi og henni kom vel ásamt. Um vorið fýsti Guðmund í sveit aptur, og vildi Sigríður þá fylgjast með honum, enda var hún þá með barni, karlinn latti hana þess og ekki, svo Guðmundur fór með hana með sèr, og lèttir ekki fyrri, en hann kemur að Mælifellsá, og urðu allir honum fegnir, og þóktust hafa heimt hann úr helju. Gekk hann svo að eiga Sigríði; bjuggu þau leingi á Mælifellsá, og þókti hún fyrirtakskona að skörúngskap. Bræðrum hennar þókti dauflegt í óbygðum eptir burtför hennar og dauða föður síns, og fluttu því einnig bygð sína í sveit. Urðu þeir sumir bændur í Skagafirði, og þóktu allir miklir menn fyrir sèr.

**Jón og Nikulás.** (Eptir Dr. J. Hjaltalín og Dr. Maurers Isl. Volkss. 248. bls.) Jón hèt maður, sem nú er nýdáinn; hann bjó síðast í Bræðratúngu í Biskupstúngum í Árnessýslu, og var bæði velmetinn og áreiðanlegur. Hann

bjó áður í Þjórsárholti í Eystrahrepp, og var vanur að fara inn á afrètti á sumrin með öðrum manni, sem hèt Nikulás, til að drepa álptir og grafa hvannarætur. Einu sinni voru þeir burtu fullar 3 vikur, og komu þá heim ílla útleiknir, með hestana dauðmóða og staðuppgefna, Jón með stórt sár á herðarblaðinu, og Nikulás enn sárari, og alblóðugur, og gott, ef sú ferð dró hann ekki til dauða; en Jón varð læknaður,[1] og lifði þángað til 1860, að eg ætla. Hvorugur þeirra fèlaga vildi neitt segja frá því, sem fyrir þá hafði snúizt, þó bæði prestur Jóns, sèra Björn Jónsson, og Dr. Hjaltalín geingju á hann um það: þó sagði Jón presti svo mikið, að víst mundu útilegumenn vera til í dölunum hjá Köldukvísl, og bar ekki á móti því, að hann hefði einhvern tíma sèð þá. Dr. Hjaltalín sagði hann ekki að eins hið sama, og presti, að útilegumenn væru til, heldur bauðst hann til að sýna honum þá, ef hann væri ekki með fleiri með sèr, en þriðja mann og hundinn sinn, og vildi hlýða sèr í öllu. Menn þóktust fulltrúa um það, að Jón og Nikulás hefðu komizt í klærnar á útilegumönnum, og orðið að lofa þeim launúng.

Það var fyrir 13 eða 14 árum, að menn voru í fjárleitum annaðhvort á Holtamanna eða Landmanna afrètt; þar var með einum flokki leitarmanna únglíngspiltur frá Guttormshaga í Holtum. Þegar leitarmennirnir byrjuðu gaunguna um morguninn, fólu þeir piltinum, að fylgja hestum þeirra um daginn og fara með þá í tiltekinn stað. Þegar hann var nýskilinn við þá, mætti honum maður; hann var í mórauðri prjón-úlpu, og gekk við atgeirsstaf með stórum fjaðrabroddi. Piltinum stóð geigur af manni þessum, enda lèt hann ófriðlega, og sagðist mundi drepa hann, ef hann hefði tíma til þess, og hann óttaðist ekki hina leitarmennina að því. Fleygði hann piltinum af baki og hvarf síðan; en pilturinn varð dauðhræddur, og ekki mönnum sinnandi leingi á eptir.[2]

Það er eptir sýslumanni Kristjáni Kristjánssyni, að maður nokkur í Skaptafellssýslu hafi einu sinni sèð 6 menn í flokki inni hjá Fiskivötnum, og var það auðsèð, að þeir gátu ekki verið bygðamenn; hann rakti og förin eptir þá, og lágu þau upp til fjalla, en ekki fram til bygða.

**Símon á Hóli.** (Eptir Dr. J. Hjaltalín, sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 245. bls.) Meðan Dr. Hjaltalín var í skóla, var hann vanur að gista hjá Símoni á Hóli í Hörðudal, bæði haust og vor, þegar hann fór í skóla og úr. Einu sinni, þegar hann kom að Hóli, hitti hann svo á, að allir heimamenn voru venju fremur uppvægir, en vopn og verjur lágu híngað og þángað

---

1. Dr. Hjaltalín skoðaði árið eptir sárið aptan á öxlinni á Jóni, sem þóktist hafa feingið það af því, að hann hefði dottið af baki á hvassbrýndan stein.

2. Svo sagði mèr Jónas verzlunarfulltrúi Jónassen í Reykjavík.

um húsin. Þegar hann spurði, hvernig á þessu stæði, sagði bóndi honum, sem var bæði greindur maður og gætinn, upp alla sögu, sem hèr segir: Fáum dögum áður höfðu börn Símonar mætt fjárrekstri, sem voru í á að geta 2 til 300 fjár; því þau höfðu farið leingra upp til óbygða, en vant var, af því þau voru að leita að nokkrum kindum, sem vantaði. Tveir menn voru með fènu, og höfðu lánga stafi í höndum, og bönduðu stöfunum ógnandi að börnunum, þegar þau komu nærri þeim. Við það hlupu börnin heim, og sögðu frá því, sem fyrir þau hafði borið. Urðu þá til 16 menn í sveitinni, sem tóku sig saman um að elta rekstrarmennina vopnaðir, því menn þóktust vita með vissu, að fèð mundi alt stolið, sem þeir ráku. Þar sem graslaust var, var hægt að rekja ferilinn eptir reksturinn, og þá sást, að fjórir menn höfðu fylgt rekstrinum. Var þeim svo veitt eptirför suður og austur hjá Baulu og alt austur í Baldjökul, því þángað lágu slóðirnar. Var þá komin nótt, þegar þángað var komið, svo menn urðu að hverfa þaðan heim aptur, af því það þókti ekki ráðlegt, að hætta sèr í náttmyrkri á jökulinn, þar sem menn þóktust geta búizt við, að hitta fyrir útilegumenn.

**Tómasar-saga.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Það var seint á 18. öld, að maður sá bjó á Ytra-Vallholti í Vallhólmi, sem Jón hèt og var Gíslason. Það var merkur maður og sannorður. Hann var uppalinn á Refstöðum í Húnaþíngi; reri hann um tvítugs aldur vestur undir Jökli við Hellna. Þar kyntist Jón við karl einn, sem var fremur hjárænulegur og mjög gjarn á að vera í einveru, og var það ætlan manna, að þessi karl mundi vera fróður. Jón var námfús, og kom að finna karl, hann hèt Tómas. Það var þá einhverju sinni, að Jón spurði karl, hvort hann áliti, að útilegumenn mundu enn þá vera til, fyrir utan Fjalla-Eyvind, sem öllum var kunnugt um að lá úti. Karl sagði að það mundi ekki vera fjærri, að fleiri væri til, en Eyvindur, og sagði honum sögu þessa til sanninda, að faðir sinn hafi búið á bæ þeim, sem Steinadalur hèti upp undir Fagraskógarfjalli, og bjó Tómas þar eptir föður sinn þegar á únga aldri, þegar hann hafði 7 um tvítugt. Það var vani Tómasar að bæla fè sitt á túninu á haustin. Eitt haust var það, að hann vaknaði um birtíngu og sá, að snjór var kominn á gluggann: hljóp hann þá út, tók klofakerlíngu, sem kölluð var, og sem hann var vanur að gánga við. Fór hann nú til fjárins, því stygð hafði komið að því, og taldi það, og vantaði þá 12 sauði. Sá Tómas þá slóð sauðanna og manns, og var líkast því, sem sá maður hefði geingið á loðskóm. Tík ein rann með Tómasi. Rakti hann nú slóðina. En um hádegisbil sá hann mann reka sauðina. Bar þá svo til, að hann rak þá á dálitla hæð eða háls; komst Tómas fram fyrir hálsinn hinu megin, og kom á móti þeim, sem rak sauðina, hann sendir nú tíkina á móti sauðunum, og rak hún þá sömu slóð til baka.

Gekk þá komumaður móti Tómasi og reiddi upp stóran staf, sem hann gekk við, en Tómas hljóp undir höggið. Glímdu þeir nú lángan tíma og fór komumaður að mæðast, og sýndist Tómasi hann vera orðinn gamall. Tómas varð þess var, að hann mundi hafa hníf í ermi sinni, og sókti hann jafnan á að ná honum, en Tómas varnaði honum þess. Sagði Tómas svo frá, að hann hefði gert þrjár atrennur að sèr, og þær svo ákaflegar, að hann froðufeldi, en þó lauk svo um síðir, að hann fèll, en ekki vildi Tómas segja frá, hvernig hann hefði unnið á honum, en kvaðst hafa geingið til Kolbeinsstaða, og skilið stafinn þar eptir, og sagði hann Jóni, að stafurinn væri þar enn, og hefði einginn lýst eptir honum. Tómas sagði, að þegar komumaður hefði verið fallinn, hefði hann hljóðað ákaflega, eins og hann vildi láta einhvern heyra til sín. Tómas sagði frá þessum viðburði, svo yfir 20 manns tóku sig saman og fóru að vitja um hræið; fundu þeir traðk og blóð í traðkinu, en ekki líkið, en 5 eða 6 manna spor lágu út úr traðkinu, og slóð eptir eitthvað, sem dregið hefði verið, líkast hrossbá. Svo sagði Tómas frá, að maður sá, sem hann átti við, hefði verið á skinnfötum; en svo var Tómas þjakaður eptir viðureignina við hann, að hann lá í hálfan mánuð, því nær rúmfastur. Það var gáta manna að þessir útilegumenn væru austan af fjöllum.

**Drepinn útilegumaður.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Það var litlu eptir reykjar-eða eldharðindin, sem háfust 1783, að þrír menn úr Biskupstúngum riðu norður á fjöll í eptirleit um haust. Það voru bændur tveir, Jón og Nikulás, og únglíngur einn, sem hèt Bjarni og var Sveinsson. Jón var orðinn gamall og vanur eptirreiðum; hafði hann verið hraustmenni og harðgjör. Þeir riðu alt norður undir Jökla, sáu þeir þá 4 menn á reið, og stefndu að þeim. Jón bað fèlaga sína að snúa aptur, sem fljótast. Það var mjög leitótt, þar sem þeir riðu; sveitamenn höfðu 2 hesta hver, vel fljóta, og riðu þeir hart mjög. En eptir nokkra stund sjá þeir mann einn hleypa eptir þeim; hann reið vindóttum hesti og hafði birkilurk í hendi. Sá Jón, að hann mundi vilja finna þá og fór af baki. Þegar útilegumaður kom til þeirra, stökk hann af hesti sínum og laust á hönd Nikulási með lurkinum, og varð hún máttlaus, en Jón hljóp undir hann, og varð Jón bráðum yfirsterkari, því Bjarni sló hapti um fætur útilegumanns, en Jón skipaði honum að skera á hásinar honum; orgaði útilegumaður þá afarhátt, og hótaði að gánga aptur og drepa Jón, ef hann dræpi sig. Jón svaraði eingu, en greip hníf úr ermi sinni og skar hann á háls, og vann allhroðalega að, því hinn brauzt ákaflega um á meðan, og furðaði Bjarna, hve hraustlega hann lá ofan á honum. Á meðan ætlaði Bjarni að taka hest útilegumanns, en hann hljóp sama veg aptur með hneggi og náði Bjarni honum ekki. Jón setti höfuð útilegumanns við þjó honum, og kvaðst ætla, að nú mundi hann ekki gánga aptur. Maður

þessi var á skinnbol og sneri loðnan inn; tók Jón af honum stóran hníf og bað förunauta sína, að halda sem fljótast undan, því ekki væri ólíklegt, að hinir mundi elta þá, sagði hann, að leitin mundu hafa tafið fyrir þeim. Riðu þeir þá sem ákafast og alt til bygða. Svo hefir Bjarni sagt frá, að ekkert hefði hann sèð Jóni bregða við starf þetta, lèk og orð á því, að hann mundi hafa drepið fleiri útilegumenn í eptirleitum, en ríkt lagði hann á við Bjarna að hann segði þetta eingum. En Bjarni sagði þessa sögu, þegar hann var orðinn gamall, kunníngja sínum.

**Smalamaðurinn.** (Austan úr Mýrdal.) Í fyrndinni bjó ábóti á þykkvabæjarklaustri í Álptaveri; hann var ríkur af gángandi fènaði, einkum sauðfè; hann hèlt smalamann, er Árni hèt. Árni var hinn fránskasti maður, hugaður vel, og lèt sèr ekki alt í augum vaxa; hann var þar að auki hinn mesti smiður. Eitthvert sinn bar svo til, að alt kvífè ábótans hvarf, svo smalamaður fann það hvergi; hafði hann þó leitað, hvar sem honum kom til hugar. þetta var snemma sumars, og var nótt farið lítið að dimma. Ábóta þókti mikið fjárhvarfið, en ásakaði þó lítið smalamanninn. Smalamaður tók þá til að smíða sèr staung, 5 álna lánga, síðan fór hann í smiðju og smíðaði brodd mikinn; það var fjaðrabroddur, (eða tvíeggjaður broddur) mjög beittur, og svo lángur, að hann tók hálfa alin niður úr staunginni. Í efri endann setti hann einnig tvíeggjaðan flein, jafnlángan broddinum og mjög biturlegan. Síðan skrúfaði hann hólk með knappi á efri enda ofan yfir fleininn, svo ekki var annað að sjá, en heilt væri. Ábótinn spurði, hvað þetta skyldi. Árni kvaðst enn ætla að gjöra tilraun að leita fjárins, en sagði sig svo dreymt hafa, að betra væri að vera ekki staflaus. Næstu nótt hvarf smalamaður að heiman, og stefndi til fjalla. Á leið hans var sandur mikill og á sandinum hitti hann fjárbraut mikla og spor tveggja manna, og þóktu honum þau í stærra lagi. Braut þessi lá til útnorðurs. þetta þókti honum undarlegt, en rakti þó brautina, alt upp undir Mýrdals-eða Kötlu-jökulinn. það þóktist hann vita, að fèð hefði verið rekið á jökulinn; tók hann því það ráð að gánga upp á jökul, en þar gat hann ekki haldið brautinni; því gekk hann á fram, þar til jökullinn hækkaði; sá hann þá til fjalla þeirra, er Huldufjöll heita; þau eru sunnan og austanvert í Mýrdalsjökli. þángað stefnir hann, og þegar hann kemur að fjöllum þessum, sèr hann, að þetta er dalur nokkuð stór, fjállsbrýrnar lítið eitt hærri, en jökullinn, en dalur djúpur á milli og skógi vaxnar hlíðar upp frá alt í kríng, en einstígi eitt, og þó þraungt, var upp úr dal þessum. Hann geingur að einstíginu og litast þar um; sèr hann þá bæ niðri á slèttunni og eitthvað af gripum, en uppi við einstígið sèr hann alt fè sitt í einum hóp, en þar hjá sofa 2 menn, sinn hvoru megin við uppgánginn. Hann lætur sèr ekki bylt verða, heldur skrúfar hann hólkinn ofan af staung sinni, geingur síðan ofan ein-

stígið, og rekur upp fè sitt; gekk það fljótt, því fèð vildi halda í áttina, er það var nýkomið. En þegar hann var kominn skamt austur á jökulinn, sèr hann, hvar 2 menn koma hlaupandi á eptir sèr. Þeir hafa axir í höndum og láta ófriðlega; ætla þeir þegar að ráðast á Árna, en hann varð milli þeirra, og hefir ekki annað tilræði, en það, að hann rekur fleininn í gegnum annan, en broddinn í gegnum hinn. Síðan rekur hann fèð af jöklinum, og geingur það vel, því fèð vill fara til átthaga sinna. Ekki varð hann var við aðra eptirför. En Árni komst heim klaklaust með fèð, sagði frá ferð sinni og þókti mönnum mikils um vert. Ábótinn launaði Árna vel þessa ferð, og þókti hann síðan hinn mesti hreystimaður. Nú ætla menn, að þessi dalur sè nær því fullur af sandi, vatni og jökli, og ekki líkur því, sem áður kann að hafa verið.

**Upp mínir 6 í Jesú nafni.** (Eptir handriti sèra Skúla Gíslasonar á Storanúpi.) Eitt haust fóru 6 menn í eptirleit. Var fyrirmaður ferðarinnar hraustmenni og fullhugi mikill. Þegar þeir voru komnir í fjarlægustu leitir, hreptu þeir byl, svo þeir viltust og vissu ekki, hvar þeir fóru. Eptir lángan tíma fundu þeir, að halla tók undan fæti. Komu þeir þá í dalverpi eitt, og fundu þvínæst bæ fyrir sèr; börðu þeir að dyrum. Karl einn kom til dyra, ljótur mjög og illilegur. Kvað hann það nýlundu, að menn sæktu til bygða sinna, og forvitnuðust um þær, og leit hann óhýru auga til gesta. Foríngi þeirra varð fyrir svörum. Sagði hann, hvernig á stóð um ferðir þeirra. Brauzt hann inn og þeir fèlagar hans með honum, án þess karl gjörði að leyfa það eða banna. Þegar þeir höfðu setið um stund, var þeim borið ket á skálum, og gjörði það kona ein úngleg, en döpur mjög. Stóð karl á meðan í skáladyrum. Hún sagði í hálfum hljóðum: „Borðið þið við þann barminn, sem frá ykkur snýr.“ Þeir þóktust sjá, að við þann barminn var sauðakjöt, en mannakjöt við hinn. Síðan bar stúlkan af borði, og dró af þeim vosklæði. Sagði hún þá enn í hálfum hljóðum: „Verið þið varir um ykkur, farið ekki af nærklæðum og sofið ekki.“ Um nóttina var túnglsskin. Svaf forsprakki eptirleitarmanna í rúmi, sem skugga bar á, og sagði hann lagsmönnum sínum, að þeir skyldu ekki bæra á sèr, hvað sem á geingi, fyrr en hann kallaði til þeirra. Stundarkorni eptir að þeir voru lagztir niður, kemur karl inn. Gekk hann að rúmi eins, þreifaði á brjósti hans og sagði: „Magurt brjóst, þreklaust.“ Þannig tók hann á þeim öllum og tautaði líkt fyrir munni sèr. Seinast kom hann að rúmi forsprakkans, og þegar hann tók á honum, mælti hann: „Feitt brjóst, hugmikið.“ Síðan brá hann sèr út í horn, og greip þar öxi, og sneri að rúmi foríngjans. Sá hann, hvað verða vildi og vatt sèr ofan úr rúminu, en karl hjó í rúmið og misti hans. Greip maðurinn þá öxina og náði henni af karli. Karl æpti þá og mælti: „Upp mínir 12 í andskotans nafni.“ Maðurinn færði þá

öxina í höfuð karls, svo í heila stóð, og hann fèll og mælti: „Upp mínir 6 í Jesú nafni.“ Þá opnaðist hurð í gólfi niðri og kom upp mannshöfuð, en hinn hjó það af. Banaði hann þeim þar öllum 12 í kjallaradyrunum. Síðan fundu þeir kvennmann þann, er hafði þjónað þeim til sængur um kvöldið. Var hún bóndadóttir úr Eyafirði, er karl hafði stolið, og vildi neyða til að eiga elzta son sinn. En henni stóð stuggur af þeim, mest fyrir þá sök, að þeir drápu alla, er viltust til þeirra og átu þá. Mikið fundu þeir þar fèmætt, og margt sauðfè var í dalnum. Rèðist það af, að foríngi eptirleitarmanna varð eptir við annan mann, stúlkunni til skemtunar, og til að gæta fjárins, að það fèlli ekki um veturinn fyrir það, að það væri óhirt. Hinir eptirleitarmenn fóru heim. Um vorið flutti maðurinn stúlkuna norður, og átti hana síðan að ráði föður hennar. Flutti hann síðan alt það, er í afdalnum var, norður, og reisti stórt bú, og bjó þar vel og leingi.

**Jón á Sauðá.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Jón hèt maður og var Einarsson; hann bjó að Sauðá, og var karlmenni mikið, og kallaður fullkominn tveggja manna maki. Var Jón þessi og Jón sterki Þorsteinsson á Hryggjum kallaðir sterkastir menn í Skagafirði á sínum tímum. Einu sinni, þegar Jón var rúmt tvítugur, lá hann með grasafólki fram í Tjarnardölum eða Þjófadölum. Einginn karlmaður var í förinni, nema Jón þessi frá Sauðá og únglíngspiltur, sem hèt Jón og var Jónsson, ýmist kallaður Jón stutti, Staðar-eða Vatnshlíðar-Jón; og hefir hann sagt frá sögu þessari, því ekkert vildi Jón Einarsson tala um það. Margt kvennfólk var með þeim nöfnum. Í einni gaungunni var þoka mikil á, kom þá maður nokkur til einnar af grasakonunum, sem var ein; hann var þreklegur mjög. Hann spurði, hvaðan fólk það væri, sem hún var með. Hún segir, eins og var, að það væri úr Skagafirði; spyr hann enn fremur, hve margir karlmenn sèu með þeim, en hún sagði, að það væri að eins einn og únglíngur, sem ætti að gæta hestanna. Síðan spyr hún hann, hvaðan hann væri; en hann kvaðst vera úr Biskupstúngum; skilja þau síðan. Gat stúlkan um þetta, þegar fólkið var komið í tjaldið; sagði þá Jón Einarsson, að þessi maður mundi hafa logið að henni, hvaðan hann væri, því eingin tjöld væru þar nálægt, hvorki að sunnan eða austan, til grasa; var svo að sjá, sem honum þækti þetta grunsamt, en þó talaði hann fátt um það. Litlu síðar fer Jón litli til hrossa, og þegar hann kemur aptur, segir hann, að sig vanti 3 beztu hestana, og einn frá folaldsmeri, sem hann aldrei hefði yfirgefið. Jón Einarsson kvað hann ekki mannlausan farið hafa, fór þegar á stað með sveininum og kvaðst vilja sjá, hvað dyggilega hann hefði aðgætt. En þegar þeir komu til hrossana, sá Jón að sveinninn hafði sagt satt. Tók Jón þá tvo hesta, sinn handa hvorum. Ríða þeir nú leingi. Loksins sjá þeir för eptir þrjá hesta í moldarflagi einu.

Ríða þeir nú sem ákafast í þá átt, sem förin lágu í, en ekki leið á laungu, þángað til þeir sáu 2 menn ríðandi, sem teymdu lausan hest. Þekti Jón þar hesta sína; kallar hann þá hátt, og heimti, að þjófar þessir skiluðu aptur hestunum. Stöldruðu þeir þá við, og báðu hann sækja þá, ef hann þyrði og hefði þrek til. Jón hafði járnbúna svipu, mjög þúnga í hendinni, en í því að þeir allir fóru af baki, óð Jón að þeim, og sló svipunni af öllu afli í höfuðið á öðrum þeirra, svo hann svimaði og rauk út af í aungvit, en hinn rèðst móti Jóni; glímdu þeir all sterklega og leingi var óvíst, hvor þeirra mundi vinna á hinum; þó gat Jón Einarsson felt hann að lokunum, og kyrkti hann þá þegar, og brauzt hann þá ákaflega um á meðan, en þann, sem lá í aungvitinu, skar Jón, og var hann þá svo reiður, þegar hann hafði lokið þessum starfa, að hann æskti sèr að mega fara þannig með fleiri þjófa og illræðismenn. Síðan dysjaði hann þá í moldarflagi einu, en bannaði sveininum harðlega, að geta um þetta við nokkurn mann, og það efndi Jón stutti, og sagði eingum frá því, fyrr en að Sauðár-Jóni látnum; var enda áður farið að tala um það.

**Gunnsteinstaða-Sigurður.** (Eptir handriti Gísla Konráðssonar.) Bræður tveir voru suður á Miðnesi, sem hètu Jón og Sigurður; þeir voru auðugir af peníngum, og voru kaupamenn norður í Húnaþíngi, Sigurður á Gunnsteinstöðum í Lángadal, en Jón á Eyvindarstöðum í Blöndudal. Sigurður hèt son bónda á Gunnsteinstöðum, sem þá var 18 vetra, og bað faðir hans Sigurð kaupamann að taka son sinn suður með sèr um haustið, að kenna honum sjó. Fóru þeir bræður nú suður og Gunnsteinstaða-Sigurður með þeim. Tjölduðu þeir í efsta áfángastað fyrir sunnan Sand. Um morguninn, þegar þeir ráku hesta sína saman, og ætluðu að leggja á þá, kom maður að þeim, sem reið brúnum hesti; hann var mjög þreklegur, í skinnfötum og reið við hornkjálkabeizli, og í hornístöðum. Varð ekki af kveðjum, heldur stökk hann af baki, brá bandi í silana á 12 fjórðúnga smjörböggum og varpaði þeim á hestinn fyrir framan sig mjög lèttilega og mælti: „Eg vona að þið gerið ekki gángskör að svo litlu.“ Þegar þeir bræður sáu ofdirfsku hans, þrifu þeir til hans og vildu ekki láta hann ræna sig, þar sem hann var ekki nema einn, en þeir tveir, og voru þeir bræður einnig álitnir mikilmenni. En ekki leið á laungu, áður en hann kom þeim báðum undir og fór mjög óþyrmilega með þá. Meðan á þessu stóð, hafði Gunnsteinstaða-Sigurður staðið hjá, og horft á; sá hann að útilegumaðurinn mundi þegar drepa þá, ef hann ekki veitti þeim lið; greip hann þá klaufhamar undan klyfberaboga, en húfan var dottinn af aðkomumanni; Sigurður tvíhendir nú hamarinn í höfuð honum, svo hann gekk inn í höfuðið, og var hinn þegar dauður. Dysjuðu þeir hann þar skamt frá, og tóku hest hans, og var Brúnn öllum hestum stærri og sterklegri, sem þeir höfðu sèð; hèldu þeir síðan á fram ferð sinni suður.

þeir bræður voru kvæntir og áttu eingin börn, en sökum þess, að þeir þóktust eiga Gunnsteinstaða-Sigurði líf sitt að launa, arfleiddu þeir hann að öllu sínu fè, og varð hann auðugur mjög.

**Þorsteinn á Pund og Gestur.** (Dr. Maurers Isl. Volkss. 248. bls.) Það hefir ekki sjaldan borið við, að þess hafi orðið vart, að útilegumenn hafi farið í kaupstaði, og er það líklegt, að þeir þurfi ekki síður að byrgja sig að nauðsynjum, en bygðamenn. Fyrir 12 eða 14 árum kom maður einn í Reykjavík til kaupmanns, sem nú er dáinn, og nefndi sig „Þorsteinn á Pund.“ Hann vildi einga aðra vöru, en salt og korn, og eingin kaup eiga við kaupmanninn, nema á náttar þeli. Þegar menn fóru að skoða hesta hans, kom það upp, að þeir voru járnaðir með hornskeifum. Þóktust menn þá gánga úr skugga um, að þetta væri útilegumaður. Um sama leyti hèr um bil kom sá maður á Eyrarbakka til Guðmundar Thorgrimsens, sem kallaði sig Gest; hann þóktist vera austan úr Landssveit, en bærinn, sem hann lèzt búa á, er ekki til í þeirri sveit. Þessi maður þókti óframfærinn og undarlegur í háttum sínum, og vildi ekki segja, hvar hann væri vanur að hafa kaupskap; þó spurði hann um allra algeingusti hluti, til hvers þeir væru hafðir, t. d. fataboltar. Hann var skeggjaður mjög, í sauðmórauðri mussu, og gamlan hatt slæman á höfði. Hann lagði inn hjá kaupmanninum mikið af ull og tólg, en tók út aptur óvenjulega mikið af járni og salti, og nokkuð lítið af brauði. Síðan hvarf hann úr búðinni, án þess menn tækju eptir. Fór kaupmaðurinn þá að líta eptir reikníngi hans, og sá, að nærri var um útteknar vörur og innlátnar, svo að ekki munaði meir en einum fimm mörkum, sem hann hafði of tekið út. Það ætla menn að verið hafi sami maðurinn, sem kom með 2 öðrum að Austurnesi við Þjórsá í ofsaveðri, svo ekki var ferjutækt. Hann bað þó bóndann, að flytja þá kumpána yfir ána, en hann afsakaði sig, og sagði, að ófært væri að flytja í því veðri; en gekk þó með honum að farángri þeirra fèlaga. Þegar þessi maður hitti fèlaga sína, skipar hann þeim að leggja aptur á hestana og láta upp. Það sá bóndi, að þessi maður hafði lánga staung, og bætti þó við hana með því að skrúfa neðan í hana lángan járnbrodd, fór svo á undan, og hinir á eptir með lestina, og lagði í Þjórsá á vaðleysu, þar sem hún slær sèr mest út fyrir ofan ferjustaðinn, og reyndi á undan með staunginni. Það sá bóndi seinast til ferða þeirra, að þeir komust með alt sitt heilu og höldnu yfir ána. Ofan til í Landssveit varð enn vart við 3 menn um sama leyti, sem lágu þar í áfánga við mórautt prjóntjald, og hèldu þeir norður á afrètt, þegar þeir lögðu upp, eptir því sem förin lágu.[1]

---

1. Tvö síðustu atriðin um ferðalag þeirra Gests hefir Jónas Jonassen verzlunarfulltrúi í Reykjavík sagt; hann var þá innanbúðarmaður á Eyrarbakka, þegar Gestur verzlaði þar.

**Pètur í Krossavík[1] og útilegumennirnir.** (Eptir sögnum í Hornafirði.) Það er sagt, að Pètur sýslumaður Þorsteinsson, hafi einu sinni farið kaupstaðarferð til Akureyar, af því honum hafi þókt betri verzlun þar, en á Vopnafirði. Lest hans hafði farið á undan, en hann varð sjálfur ekki tilbúinn, fyrr en dægri síðar. Lagði hann þá einn saman eða fylgdarmannslaus á Mývatnsöræfi. Gerði svo á hann þoku, og reið hann í henni býsna leingi, þángað til hann viltist af rèttri leið; en um sama leyti lètti af þokunni, svo hann varð brátt afviltur, og komst á rètta leið aptur. Eptir það sèr hann hvar tveir menn koma ríðandi í fluginu, sunnan og vestan af öræfunum, annar á skjóttum, en hinn á brúnum, og var sá, sem Skjóna reið, lángt á undan, því hann var miklu vakrari. Þeir stefndu beint á sýslumann, og þykist hann sjá, að þetta muni vera útilegumenn eða fjallabúar. Sèr hann nú, að sèr muni ekki duga að ríða undan þeim fremra, því Skjóna bar fljótt yfir. Fer sýslumaður því af baki, leysir upp reiðpoka sinn, og tekur upp úr honum þriggja pela flösku af brennivíni; er sagt, að hún hafi verið sterk og þúng og þykt gler í henni. Pètur drekkur ofan í hana hálfa, og heldur svo á henni í hendinni. Nú ber hinn fyrri manninn bráðum að, og fer hann þegar af baki, svo hvorugur hefir orð af öðrum, og ætlar að ráðast á Pètur; en hann rekur flöskuna af alefli utan á vánga aðkomumannsins upp við gagnaugað, svo hann rauk út af í rot, flaskan fór í mola. Hleypur svo Pètur á hest sinn, og fer leiðar sinnar, en gáir ekki að taka Skjóna. Bráðum sèr hann, að hinn kemur þángað, sem lagsmaður hans lá fallinn; fer hann þar af baki Brún sínum og á bak Skjóna, og eltir svo Pètur. Sýslumaður sèr, að sèr muni þá ekki duga að ríða undan, heldur en áður, svo hann fer af baki við lækjarfarveg einn, og velur sèr þar nokkra steina. Þegar hinn kemur, hleypur hann af baki, og vill ráðast á Pètur; en hann lætur einn steininn fjúka, og handleggsbrýtur aðkomumann með honum. Síðan gánga þeir saman og glíma, og hafði Pètur sagt svo síðar, að þar hefði hann sèð sitt óvænna, að eiga við þenna mann einhentan, en þó var Pètur talinn tveggja maka maður að burðum. Þó fór svo um síðir, að hann kom fjallabúanum undir, og fóru svo leikar, að hann stóð ekki upp aptur. Að svo búnu litast Pètur nú um, og sèr, að sá er raknaður úr rotinu, sem hann hafði slegið með flöskunni; en hann kominn á fætur og ætlar að fara að taka brún. Tekur Pètur þá Skjóna og ríður honum, en rekur hestinn sinn, og dregur þá skjótt í sundur, þángað til gjörsamlega skilur með þeim. Fer sýslumaður leiðar sinnar og veit ekkert um hinn meira. Eptir þetta er sagt að hafi liðið nokkur ár, þá er sagt að Pètur hafi verið staddur í búð einni á Akureyri í kaupstaðarferð og sèð þar mann einn,

---

1. Rèttara muni á Ketilstöðum, en Guðmundur sýslumaður sonur hans bjó á Krossavík.

sem var að taka út, með hríng á kinninni, því líkastan sem hann væri eptir flöskubotn. Pètur þekkir manninn þegar og segir: „Ertu hèrna, kunníngi.“ Hinn gegndi því eingu, en gekk út í snatri. Pètur staldraði dálítið við í búðinni, og spurði kaupmanninn um þessan mann, og fer svo út að grennslast eptir honum betur. Er hans þá leitað um allan kaupstaðinn, og fannst hann hvergi; en sjö hestar fundust þar, sem einginn kannaðist við, og vörur inn lagðar í kaupstaðnum, sem því svaraði að þær væru ofan af sjö hestum, og er sagt, að Pètur hafi tekið út á þær í sinn reikníng.

**Glímu - Oddur á Hlíðarenda.** (Eptir sögn skólapilta að austan, 1845 M. G. Dr. Maurers Isl. Volkss. 246—7. bls.) Leingi hafa menn haft þá trú, að í Ódáðahrauni væru útilegumenn, og skal hèr koma saga þessu máli til sönnunar.

Landþíngisskrifari Sigurður Sigurðsson (1743 — 64, † 1780) bjó á Hlíðarenda í Fljótshlíð. Hann var maður auðugur að fè, og átti margar jarðir norður í Eyafjarðarsýslu. Hann hafði alið upp pilt, sem Oddur hèt. Hann var bráðþroska og efnilegur. Hann var þá um tvítugt, þegar þessi saga gjörðist. Einu sinni þurfti Sigurður að senda norður, og lèt hann Odd fara. Oddur hafði þrjá hesta alda til ferðarinnar. Þetta var um Jónsmessu. Sigurður sagði honum, að fara vestur á Kaldadalsveg, og þar norður; því á Spreingisandi mundi vera ill færð, og óvegað. Oddur lèzt mundi gjöra svo, sem hann lagði fyrir, og fór síðan á stað. En þegar hann var kominn vestur í Eystrahrepp, tók hann það ráð, að fara Spreingisand; því honum þókti sá vegur liggja beinna við. Segir nú ekki af ferðum hans, fyrr en hann kemur suður á fjöllin aptur. Hefir hann þá Ódáðahraun á vinstri hönd, en Arnarfellsjökul á hægri. Var þá veður gott, og færð hin bezta. En þegar hann var kominn suður á miðjan Spreingisand, sèr hann hvar kemur maður ríðandi á brúnum hesti austan úr hrauninu, og stefnir á hann. Oddur hægir nú á sèr, og þykist sjá, að þetta muni vera útilegumaður. Kemur nú maðurinn að honum, og var hann á sauðsvörtum prjónfötum, með mórauða kollhúfu, eða hettu, á höfðinu. Aðkomumaður hleypur undir eins af hestinum, og ræðst á Odd, og ætlar að hrinda honum af baki. Oddur stökkur af hestinum, og takast þeir nú á, og glíma. Verða þar sviptíngar harðar, en að lyktum getur Oddur þó felt hinn ókunna mann. Hraunbúi biður hann, að gefa sèr líf, en Oddur kvaðst ekki þora það; því hann sè hræddur um, að hann muni það illa launa. Tekur hann þá stein og fótbrýtur hann, og dregur hann svo á þúfu eina á sandinum. Hann tók hestinn brúna, og fór síðan leiðar sinnar. Þegar hann kom heim, spurðu menn hann tíðinda, og hvar hann hefði feingið brúna hestinn. Oddur sagði, að eingin tíðindi hefðu gjörzt í sinni ferð, en hestinn hefði hann keypt fyrir norðan.

Þegar Oddur var kominn yfir sextugt, fór hann til Þorleifs bónda Nikulássonar á Háamúla í Fljótshlíð. Þorleifur átti dóttur Sigurðar landþíngisskrifara; Þorleifur dó 1805. Var Oddur þá búinn að missa konu sína. Reið hann á sumrum til alþíngis með Þorleifi, og fóru þeir opt að loknu þínginu ofan í Reykjavík. Einu sinni, sem optar, voru þeir í Reykjavík eptir þíngið, og höfðu hesta sína geymda í Kópavogi. Einn góðan veðurdag fór Oddur að vitja hestanna. Voru þá tjöld mörg í Fossvogi, og var Oddur að gánga á milli þeirra og skemta sèr. Kemur hann þá þar að, sem þrír menn sitja á grastó vestan í Kópavogshálsi. Þeir höfðu hesta sína hjá sèr, og höfðu ekki sprett af, eins og aðrir. Oddur heilsar mönnum þessum, og sèr, að einn þeirra er ellilegur, og hefir bæklaðan fót. Oddur segir, að hann hafi einhvern tíma meitt sig illa í fætinum. Hann segir það satt vera. Rísa þá ferðamennirnir upp, og taka hesta sína. Oddur fer og leiðar sinnar. Þegar Oddur fór austur, fann hann einhvern gamlan kunníngja sinn. Töluðu þeir margt saman, og þá sagði Oddur frá öllum þessum atburðum, og það með, að þetta hefði verið sami maðurinn, sem sat í Fossvogi og hann glímdi við á sandinum forðum. Eptir það var hann kallaður Glímu-Oddur. Hann andaðist ári síðar á Háamúla í Fljótshlíð.

**Jón bóndi og útilegumaðurinn.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Bóndi nokkur bjó eitt sinn á bæ norður í Skagafirði, er Jón hèt; fremur var hann fátækur og einginn búsýslumaður, en mikið hneigður til ferðalaga. Hann var kraptamaður mikill, og ekki minni, en tveggja maki til allrar karlmennsku. Það var eitt haust, að hann var feinginn með brèf og sendíngar suður í Reykjavík. Hann geingur suður fjöll og yfir Arnarvatnsheiði. Þegar hann kemur suður á miðja heiðina, sèr hann tvo menn á stóru vatni vera að veiða silúng í vök. Með Jóni var rakki og rennur rakkinn á undan honum og til mannanna; grípur þá annar maðurinn hundinn og slær honum niður við stein og drapst hann þar. Nú grunar Jón, hvað vera muni, og á hverju hann sjálfur muni eiga von. Þegar hann á lítinn veg eptir til veiðimanna, þá segir annar: „Eigum við ekki að slátra honum líka?“ „Það er sjálfsagt,“ segir hinn. Jón sèr, að annar maðurinn er gamall, en annar úngur. Hinn gamli maður tekur Jón fángbrögðum, en hinn hleypur aptan að honum. Jón hafði broddstaf með stórum broddi. Hann setur broddinn í brjóst hins gamla manns og innúr brjóstinu, svo að hann fellur dauður til jarðar. Þá snýr hann sèr sem hraðast að hinum únga manni og glíma þeir leingi. Jón finnur, að hann er karlmenni mikið, og er nú í óvissu um, að hann muni koma honum niður. Þó verður það eptir lánga glímu, að Jón kemur honum í vökina og nú sezt hann hjá vökinni. Hann tekur eptir því, að hann muni ekki dauður vera, því hann sèr öðruhvoru á höfuð hans í vökinni og hverfur

jafnskjótt aptur. Hann grunar því, að útilegumaður muni vera syndur og geta einhvern veginn haldið lífi sínu niðri í vatninu. Þegar Jón hefir setið þarna góðan tíma og kastað mæði, stendur hann upp, tekur annan skóinn af hinum gamla manni og lætur hjá sèr og fer síðan leiðar sinnar suður. Hann aflýkur erindi sínu og geingur síðan norður aptur og fer sama veg. Einskis verður hann var á leiðinni, nema hann sèr, að líkami hins gamla manns er burtu frá vatninu á heiðinni. Hann geingur heim og getur um við eingan mann, hvað fyrir sig hafi borið. Þess er getið, að hið næsta vor fer Jón bóndi lestaferð suður, hefir með sèr kaupstaðarvöru og ætlar að verzla fyrir sunnan. Hann kemur í Reykjavík og fer þar í vörubúð eina. Þar sèr hann mann þann hinn únga, er hann hafði glímt við á vatninu, sem áður er getið. Hann sèr, að maður þessi er að taka út kaupstaðarvöru og hraðar sèr og er þegar búinn. Jón mælti til hans: „Við sjáumst þá hèrna núna, lagsmaður.“ Maðurinn jánkar því. Kaupstaðarmenn spyrja Jón, hvort hann þekki mann þenna, en hann svarar því fáu, segist þó einhvern tíma hafa sèð hann. Hinn ókunni maður biður Jón að finna sig afsíðis, og það gjörir hann. Þá mælti hann: „Illa skildirðu við mig seinast, þegar þú drapst föður minn, en skildir við mig dauðvona í vökinni, enda var þèr vorkun, því þú áttir líf þitt að verja. En hefirðu sagt nokkrum frá viðskiptum okkar?“ Jón kvað nei við því. „Nú er það bón mín,“ mælti hinn ókunni maður, „að þú segir eingum manni frá fundum okkar, og gef eg þèr nú 8 spesíur og grjónatunnu þá, sem þarna er, til þess eg megi því fremur reiða mig á trúmennsku þína, og þar að auki verðurðu að koma á Arnarvatnsheiði í haust rèttri viku fyrir vetur á sömu stöðvar, sem við fundumst áður á, og munum við þá hittast þar.“ „Mèr er minna um að lofa því,“ mælti Jón, „því þú munt þá ætla að hefna föður þíns og drepa mig.“ „Ekki er það ætlun mín,“ mælti hinn ókunni maður, „en eg vil vara þig við því, að komi eg ekki næsta dag við þann, sem við nú ákveðum, þá þarftu ekki að bíða mín leingur.“ Jón lofar honum loksins að koma, og nú skilja þeir. Fer nú Jón bóndi norður og heim. Eptir heimkomu Jóns bónda kemur kona hans eitt sinn að máli við hann, og segir: „Það undrar mig bóndi, hvað vara sú er mikil, sem þú kemur með að sunnan; skil eg ekki hvað því veldur og vona eg, að þú hafir ekki nú gjört það, sem þú hefir ekki gjört fyrr, að auka vöru þína með óleyfilegu móti.“ „Öll er varan frjáls,“ mælti bóndi, „og þess vegna máttu skamta hana og borða með ánægju.“ Hættu þau svo tali þessu. Nú líður sumarið og kemur fram á haust. Jón bóndi biður nú konu sína um nesti og nýa skó, kveðst hann ætla suður á fjall að taka hvannarætur. Hún ræður honum frá þeirri ferð, en það gagnar ekki, og fer hann af stað, hefir 2 hesta til reiðar og ríður suður á fjöll, kemur á hinn tiltekna stað á ákveðnum degi. Hann bíður þar allan daginn og alla nóttina og hinn næsta dag

fram undir miðaptan. Þá sèr hann, að maður kemur ríðandi og hefir 2 hesta til reiðar og ríður mikinn. Hann þekkir þar útilegumanninn, sem hann beið eptir, og nú heilsast þeir. „Nú bið eg þig þeirrar bónar,“ mælti útilegumaður, „að koma með mèr heim til mín.“ „Þá muntu láta drepa mig,“ segir Jón. „Það ætla eg ekki að láta gjöra,“ segir útilegumaður. Það talast svo til á millum þeirra, að Jón fer með útilegumanni og ríða þeir nú austur fjöll. Þeir ríða alla nóttina og allan hinn næsta dag og um kvöldið koma þeir í dalverpi nokkurt; þar er bær og stíga þeir af baki við bæinn. Útilegumaður leiðir Jón inn og í afvikið hús, og fer síðan út og læsir. Að stundarkorni liðnu kemur inn til hans stúlka; hún ber honum mat og er vel á borð borið. Hún vísar honum á rúm að hátta í og tekur í hann. Hann tekur til sín sokkana, þegar hún hafði tekið í hann. Þá mælti hún: „Þeir áttu að vera kyrrir;“ annað orð talaði hún ekki. Nú vakir hann fram eptir nóttunni, en sofnar þó og sefur þángað til albjart er orðið. Þá klæðir hann sig og síðan kemur stúlkan og færir honum bæði mat og vín, en jafnsnart fer hún út aptur og læsir. Nú líður laung stund og kemur einginn til hans. Þá geingur hann út og litast um. Síðan geingur hann inn aptur og litast um í bænum, hann finnur baðstofu, þar sitja 3 kvennmenn, stúlkan, sem hafði borið honum matinn, fullorðin stúlka og gömul kona. Hann tekur eptir því, að þegar hin gamla kona sèr hann, þá sortnar hún í andliti. Jón bóndi mælti þá: „Hèr er þögult fólk, en þó svipmikið;“ en einginn svarar. Síðan kveður hann og geingur út. Hann geingur upp fyrir bæinn, þar heyrir hann högg mikil. Hann kemur þar að smiðju; þar eru 3 menn að reka járn, einn af þeim var sá maður, sem hafði sókt hann á heiðina. Únglíngsmaður rak járnið. Jón mælti til hans: „Linlega er rekið.“ Únglíngsmaðurinn sendir á hann sleggjuna og mælti: „Láttu mig sjá þú gjörir það betur.“ Jón bóndi tekur sleggjuna á lopti og rekur járnið og þókti hinum þá þreklega á vera slegið. Ætlar þá hinn úngi maður að ráðast á Jón, en sá útilegumannanna, sem Jón þekti, tók hann þá höndum, og aptraði því, og varð svo að vera, sem hann vildi. Hann tekur Jón bónda afsíðis og mælti til hans: „Nú muntu vilja fara að halda heim, gef eg þèr nú að skilnaði 80 spesíur og þar að auki mun eg senda þèr litla sendíngu fyrir jólin. Munum við nú ekki sjást aptur, og bið eg þig að muna mig um það, að segja eingum til okkar hèr. Menn þessir, sem þú hefir sèð hèr, eru bræður mínir og þar að auki á eg hèr móður og 2 systur. Nú læt eg yngra bróður minn fylgja þèr og vildi eg, að þú talaðir ekki við hann að fyrra bragði, en gegndir því, sem hann yrðir á þig.“ Þeir kveðjast nú í vinsemd og þakkar Jón honum rausnarlega gjöf. Taka þeir nú ferð heimleiðis, Jón og hinn úngi maður, og er ekki af ferðum þeirra sagt, fyrr en þeir komu á Arnarvatnsheiði. Hinn úngi maður mælti aldrei orð til Jóns, meðan þeir voru á leiðinni, en í því þeir

kvöddust, mælti hann: „Eg vona þú reynist bróður mínum trúr í því, sem hann bað þig, og þenna gráa hest, sem eg ríð, áttu að eiga.“ Jón þakkar hönum gjöfina, heitir honum að segja eingum frá þeim eða viðskiptum þeirra, og nú skilja þeir. Ríður nú Jón heim. Er nú ekkert til frásagnar, þángað til á þorláksmessukvöld fyrir jól, þá stendur Jón bóndi einn yfir fè sínu í dalverpi nokkru lángt frá bænum. Hann heyrir þá hóað fyrir ofan sig í fjallinu og sèr, hvar maður rekur 5 sauði á undan sèr. Maður þessi veifar hattinum og snýr aptur upp á fjallið, en sauðirnir renna til Jóns bónda og er einn á undan með skúf. Jón tekur sauðinn og skoðar, finnur hann þá, að í skúfnum er brèf frá útilegumanni, kunníngja hans, og þess þar getið, að hann gefi honum sauði þessa. Síðan er sauðunum slátrað og voru þeir frábærir að vænleik bæði á hold og mör. Eptir því tóku menn, að búhagur Jóns bónda fór að rèttast eptir það, en aldrei sagði hann frá sögu þessari, meðan hann lifði. Svo er sagt, að þegar Jón bóndi var dáinn, þá fyndu menn söguna eptir hann, og að blaðið, sem hún var rituð á, væri hjá skónum, sem hann tók af útilegumanninum. Endar svo saga þessi.

**Illugi á Aðalbóli.** (Eptir sögn norðlenzkra skólapilta, 1845 M. G.) Bjarni sýslumaður Halldórsson á þíngeyrum sendi einn vetur menn nokkra, hvern eptir annan, suður á land. En þeir komu eingir til skila, og var haldið, að þeir hefðu komizt í hendur útilegumanna. Illugi hèt maður. Hann bjó á Aðalbóli í Miðfirði. Bjarni fèkk nú Illuga; því hann var maður hraustur og ákafur, og sendi hann suður. Segir ekki af ferðum Illuga, fyrr en hann kom norður á Tvídægru aptur. þá var veður kalt, og frost mikið. Illugi gekk beint norður heiðina; því öll vötn voru á ís. Á einu vatninu sèr hann mann sitja við vök, og vera að veiða silúng. Illuga verður bylt við, og heldur, að hèr muni sá vera, sem týnt hafi hinum fyrri sendimönnum. Tekur hann þá á rás, og hleypur upp með vökinni, en þegar hinn sèr það, sprettur hann á fætur, og hleypur á eptir honum. Sèr Illugi, að hann muni þegar draga sig uppi. Hættir hann þá hlaupunum, og bíður mannsins. Ber hann skjótt að, og verður ekki af kveðjum. Taka þeir þegar saman, og finnur Illugi, að sig skortir afl við mann þenna. Hugsar hann ekki um annað, en verja sig falli, og það tókst honum. En maðurinn færði leikinn að vökinni, og finnur Illugi, að hann vill færa sig í hana. Stökkur þá Illugi yfir vökina, og fellur maðurinn í hana, en heldur annari hendi í úlpu Illuga. Tekur hann þá hníf undan ermi sinni, og ristir um þvert brjóst Illuga. Illugi verður óður við sárs-aukann, og spyrnir fæti við manninum, svo hann fèll niður í vökina alveg. Hleypur nú Illugi slíkt sem af tekur, og kemst um nóttina heim að Aðalbóli. Brýtur hann upp bæinn, og hleypur inn. Út fer hann þegar aptur, og hleypur, sem óður væri út að þíngeyrum. þar brýtur hann

upp, og hleypur inn í svefnherbergi sýslumanns. Vaknar þá Bjarni, og verður bylt við að sjá Illuga þar alblóðugan. Tekur hann við honum, og lætur græða hann. Sagði nú Illugi frá ferðum sínum, og þókti öllum merkileg sagan.

**Oddur Hóla-ráðsmaður.** (Eptir handriti Jóns alþíngismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.) Frá því er sagt, að svo bar til á Hólum í Hjaltadal, að þar skorti skreið til búsins einn vetur; þá var þar ráðsmaður sá, er Oddur hèt, hinn gildlegasti og hraustasti maður. Kallar biskup hann fyrir sig, og átelur hann harðlega fyrir forsjáleysi hans, að draga ekki nóga skreið að staðnum; var þá og ekki skreið að fá nokkurstaðar á Norðurlandi. Lætur þá biskup járna hesta allmarga og búast til ferða suður á land til skreiðarkaupa, og skyldi Oddur ráðsmaður vera foríngi ferðarinnar. Honum mislíkaði mjög átölur biskups, þó hann hefði ekki orð um, og þókti jafnt hafa verið lagt til búsins af skreið, og vant var, svo ekki væri sèr um að kenna, þó skreiðarlaust yrði, heldur matseljum; vill hann fyrir hvern mun fara einn suður, og segir ekkert gagn í fjölmenni; telur biskup það hið mesta óráð, en lætur hann þó ráða. Oddur átti hund stóran og mikinn, og svo spakan, að hann hafði mannsvit. Lèt hann hundinn fara með sèr, og segir ekki af ferðum hans suður. Gánga honum vel skreiðarkaupin, og leggur hann norður aptur á fjöll að ákveðnum tíma. En er hann var skamt kominn á fjöllin, geingur að með hríð og dimmviðri; líður ekki á laungu, áður Oddur villist, og veit ekki, hvar hann fer; heldur hann svo á fram nokkra stund, til þess hann finnur, að hann er kominn í dal einn djúpan; fer hann eptir honum um hríð, og verður fyrir honum á ein allmikil; var þá hríðinni að mestu upplètt, en dimt orðið af nótt. Fer hann yfir um ána, og er hann hefir skamt farið frá henni, verður fyrir honum kotbær lítill; hann drepur að dyrum, og kemur út maður mikill vexti og hinn illmannlegasti. Oddur heilsar heimamanni, og spyr, hvort hann rèði þar húsinu. Heimamaður játti því; biður Oddur um nætur gistíng, og að hann megi beita þar hestum sínum. Segir bóndi það heimilt. Það sèr Oddur, að seppa er ekki um bónda; setur hann eyrun og lítur grimmlega til hans. Oddur gefur sig ekki að því, en sprettir af hestunum og heptir þá skamt frá bænum; kallar hann síðan á seppa sinn, og vill hafa hann heim með sèr. En seppi vill hvergi fara; liggur hann fram á lappir sínar hjá hestunum, og er urrandi. Oddur geingur heim, og stendur bóndi í dyrum; býður hann Oddi inn með sèr, og þekkist hann það. Leiðir bóndi Odd til baðstofu, og er þar níðamyrkur. Var Oddi vísað til sætis á rúmi undir baðstofu hliðinni, en bóndi sezt á rúm þar skamt frá. Einginn beini var Oddi veitt, og ekki dregin af honum vosklæði; enda varð hann ekki var fleiri manna, en bónda. Bóndi var skrafhreifur, og spurði margs úr bygðum, og svo um

ferðir Odds, og hverra erinda hann færi. Leysti Oddur vel úr öllu. En er þeir höfðu skrafað um hríð, heyrir Oddur, að dregur af máli bónda, eins og hann syfjaði, og loksins heyrir Oddur, að hann sofnar og hrýtur hátt. Í þessari svipan kemur glampi í baðstofuna, svo Oddur sèr gjörla um hana alla. Sèr hann þá, að upp yfir rúmi því, er hann sat á, hèkk hella ein ákaflega mikil; á því, sem niður vissi hellunnar, var röð ein hvöss, en úr henni að ofanverðu lá streingur og yfir að rúmi því, er bóndi sat á. Sá Oddur, að bóndi hafði streinginn í valdi sínu; það sá hann og, að ef hellan dytti niður, mundi hún drepa hvern þann, sem á rúminu sæti. Fer honum nú ekki að lítast á gistínguna, og ætlar, að bezt muni, að hafa sig burt, meðan bóndi sefur. Læðist hann nú út, og er þá komið bjart veður; vitjar hann um farángur sinn, og sèr hann þá vegs ummerki, að seppi hefir rekið hestana alla heim að, og bitið af þeim höptin. Hefir þá Oddur hraðar hendur, leggur á hestana, og lætur upp böggur sínar; en er því var lokið, hleypur hundurinn í hestana, og rekur þá sömu leið og þeir komu. En er komið var yfir um ána, verður Oddi litið aptur, og sèr, hvar bóndi kemur og hefir skálm bjarta og mikla í hendi, og er hann kemur að ánni, sendir hann skálminni yfir um hana, og stefnir hún á Odd miðjan. Oddur veik sèr undan, og kom skálmin í skreiðarklyf eina; þá mælti bóndi: „Mikill gæfumaður ertu, að þú hefir nú undan komizt; skaltu vita, að þú ert af mínum völdum híngað kominn, og ætlaði eg að drepa þig, en eg skil, að þú hefir ekki verið einn í leiknum, og mundirðu aldrei hafa undan komizt með þitt eindæmi. Taktu nú skálmina þá hina miklu, og hafðu með þèr heim til Hóla, til minníngar um fund okkar. Mæli eg svo um, að aldrei verði fisklaust á Hólum, meðan skálmin er þar.“ Eptir það sneri bóndi heim, og varð ekki af kveðjum. En Oddur tók upp skálmina, og hafði með sèr. Hèlt hann á fram leiðar sinnar, og rèði hundurinn mestu um ferðina. Segir ekki af ferðinni, fyrr en Oddur kom heim til Hóla. Tók biskup honum vel, og spyr eptir ferðum hans; en Oddur lèt fátt yfir. Biskup segir sig gruna þó, að hann muni hafa komizt í lífsháska, „og þarftu ekki að dyljast þess fyrir mèr, því trauðla mundir þú hafa komizt úr þeim vanda, ef eg hefði hvergi verið nærri.“ Segir þá Oddur frá hið sanna, og sýnir skálmina til jarteikna; er svo mælt, að sú skálm sè enn til á Hólum, enda er þess ekki getið, að þar hafi orðið fisklaust síðan.

**Guðmundur og Þorsteinn.** (Eptir handriti Jóns prests Þórðarsonar á Auðkúlu.) Guðmundur hèt maður, prestsson á Glæsibæ; hann þókti fyrirtak allra úngra manna í Eyafirði, bæði fyrir sterkleika og liðugleika sakir. Þorsteinn hèt stallbróðir hans, sonur fátæks bónda þar í grend; hann gekk næst Guðmundi að öllum íþróttum. Það var einn vetur, þegar allir vermenn voru farnir á stað suður, að Þorsteinn kom að máli við Guðmund,

og spurði hann, hvort hann vildi ekki ráðast með sèr til suðurferðar, þó seint væri orðið; skyldu þeir fara beint suður fjöll og vita, hvort þeir kæmust ekki jafnsnemma suður, og aðrir. Guðmundur vakti máls á þessu við föður sinn, og var hann því móthverfur með fyrsta, en gaf þó loksins samþykki sitt til ferðarinnar. Hèldu þeir stallbræður síðan á stað, og fóru beinustu leið suður fjöll. En þegar þeir komu suður undir jökla, gerði á þá þoku mikla, viltust þeir þá, og vissu ekki, hvað þeir fóru. Síðan skall á stórhríð með ofsa miklum; en þó hèldu þeir á fram, til að halda á sèr hita. Vissu þeir þá ekki fyrri, en þeir ráku sig á bæ; var hann velhúsaður og skipulega bygður; geingu þeir að dyrum og börðu. Ekki leið á laungu, áður til dyra væri geingið, og kom þar út aldraður maður á dökkum slopp; en þegar hann sèr komumenn, skellir hann aptur hurðinni og lokar Guðmundur stekkur á hurðina og klýfur hana, og heldur inn á eptir karlinum og þorsteinn með honum. Koma þeir inn í baðstofu, og var þar ekki annað fólk, en karlinn og kona hans. Karl sat við borð og var að skrifa, en kerlíng sat við tóvinnu. þeir Guðmundur settu sig þar niður á flet eitt, og var ekkert á þá yrt. Að góðum tíma liðnum koma tveir menn inn, sterklegir og stórvaxnir, og sögðu: „Sæll veri faðir góður.“ „Hvað voru lömbin mörg,“ spurði gamli maðurinn; þeir svöruðu: „Liðugt hundrað.“ „Eitthvað hefir þá vantað,“ segir hann. Nokkru síðar komu inn 2 menn aðrir, enn stærri og þreklegri, og heilsuðu föður sínum, eins og hinir fyrri. „Hvað voru ærnar margar,“ spurði gamli maðurinn; þeir svöruðu: „Tvö hundruð.“ „Eitthvað hefir þá vantað,“ segir hann. þessu næst koma enn inn 2 menn; þeir ávörpuðu hinn gamla mann og sögðu: „Sæll veri húsbóndi góður.“ „Hvað voru sauðirnir margir,“ spurði hann; þeir sögðu: „þrjú hundruð.“ „Eitthvað hefir þá vantað,“ segir hann. þeir Guðmundur voru svángir mjög og illa til reika, og þegar einginn ávarpaði þá, spyr þorsteinn, hvort það sè ekki siður hèr, eins og á öðrum bæum, að draga vosklæði af ferðamönnum, og veita þeim beina. Honum var eingu svarað; en litlu seinna gekk konan fram, og var þeim þá fært fult trog af hángiketi, og eins hverjum hinna tveggja. þeir þorsteinn urðu mjög fegnir mat sínum, en þó luku þeir ekki nærri úr troginu, en það gerðu allir hinir. Síðan var borið inn fult trog af súru skyri, og sett fyrir þá þorstein; en þeir þökkuðu fyrir, og sögðust nú mettir. „Svona eru skræfurnar úr sveitinni,“ segir hinn gamli maður; „það geingur einginn matur í þá, og því verða þeir aldrei að manni.“ Hvorir hinna tvímennínganna sleiktu innan súrskyrstrogin. þegar þeir höfðu neytt, segir hinn gamli maður, að nú skuli þeir leita sèr nokkurrar skemtunar, og skuli sveitamenn glíma við dreingi sína. Guðmundur sagðist ekki mundi hafa skorazt undan því, hefði hann verið óþreyttur, en nú væri hann ekki vel við því búinn vegna þreytu og vosbúðar. „Svo þókti mèr,“ segir hinn gamli maður, „þegar þú klaufst bæar-

hurðina í kvöld, sem þú þæktist ekki örmagna, og skal ykkur ekki duga að mælast undan glímunni.“ Síðan var geingið fram í skála einn mikinn, og skipar gamli maðurinn ýngri sonum sínum fyrst í móti sveitarmönnum. Glímdu þeir leingi, áður sveitarmenn feldu þá. Þá eggjar hinn gamli maður eldri syni sína, og biður þá hefna hinna ýngri. Hlaupa þeir þá að sveitarmönnum með mikilli reiði, og taka heldur ómjúkt á þeim; en af því þeir Guðmundur voru liðugri, gátu þeir varizt þeim, og loksins kom svo, að Þorsteinn gat ráðið niðurlögum þess, sem hann glímdi við, en Guðmundur feldi sinn hnèskít. Skipaði þá karl að hætta leiknum, og hèt sveitarmönnum, að þeim skyldi ekkert mein verða gert; var þeim skipað til hvílu, og lágu þeir gegnt þeim hjónum. Það sá Guðmundur um kvöldið, að karlsson sá, sem hann hafði felt hnèskítinn, leit mjög illilega til þeirra, og grunaði, að honum mundi búa ílt í skapi, og hafði því andvara á sèr um nóttina. Enda var það svo, að um miðnætti heyrir Guðmundur, að einn þeirra bræðra fer fram úr baðstofunni; læðist Guðmundur fram á eptir honum, og verður þess áskynja, að hann tekur öxi ofan af skálaveggnum, og sýngur við í henni. Læðist þá Guðmundur inn aptur og vekur fèlaga sinn, og lætur hann fara ofan úr rúminu. Rètt á eptir kemur heimamaður inn, og leggur öxinni ofan í rúmið, og ætlar, að Guðmundur skuli verða fyrir. En í sama vetfángi hleypur Guðmundur á hann, og rekur hann niður fall mikið; vaknar þá karlinn og spyr, hvað ágángi. Guðmundur segir honum hit sanna. Karl bað hann þyrma syni sínum, og sagðist skyldi launa honum það góðu. Lèt Guðmundur þá karlsson lausan, og drattaðist hann í rúm sitt. Þeir Guðmundur voru þar síðan hríðarfastir í 4 daga, og gerði einginn þeim mein. En á 5. degi stytti upp hríðinni, og sagði karl, að þá væri ferðaveður, vísaði þeim á veginn suður, og sagði, að ef þeir sæu nokkuð kvikt í skarðinu suður undan bænum, skyldu þeir gánga upp á hól einn, sem væri í skarðinu, og mundi hann sjá þá. Eptir það þökkuðu þeir karli góðar viðtökur og kvöddu hann. Geingu þeir svo upp í skarðið, og sáu þar 2 menn, sem stóðu yfir fè, og suður í skarðinu alt að 20 bæum. Þegar fjármennirnir sáu til ferða þeirra, hlupu þeir sem skjótast heim til bæanna. Grunaði þá Guðmund, að hèr mundi búa ílt undir, og geingu þeir fèlagar því upp á hólinn, sem karl hafði vísað þeim á. En það var jafnsnemma, að þeir sáu karl koma, og 80 manns komu hlaupandi að þeim frá bæunum. Þegar karl kom, sagði hann, að sig hefði grunað þetta, að þeir mundu verða hèr einhvers varir, en bað þá vera óhrædda, því hann sagðist vera sýslumaður þessara manna, og mundu þeir ekki rjúfa boð sitt nè bann. Þegar flokkurinn var kominn að þeim, ávarpaði karl þá blíðlega, og bað þá að lofa mönnum þessum að fara leiðar sinnar, og gera þeim eingan farartálma, því þeir væru hinir vöskustu menn, sem hann hefði hitt úr sveit. Útilegumennirnir sögðu brotin lög á sèr, þar sem sýslumaður hefði sjálfur hýst sveita-

menn í fjórar nætur, og leyfði þeim síðan að fara ótálmuðum burtu aptur; mundu þeir segja til heimkynna sinna, og væri það ílt, ef yfirvald þeirra stofnaði þeim í slíkan háska. Karl sagðist mundi sjá svo til, að þeim yrði eingin hætta búin af þessum mönnum. Lèt hann þá sveitamenn sverja sèr eiða að því, að þeir skyldu eingum segja til heimkynna sinna, og unnu þeir eiðana fúsir. Lögðu þá útilegumennirnir á burt, og hver heim til sín. En áður en karl skildi við þá Guðmund, bað hann þá að selja sèr fisk þann, sem þeir öfluðu að vetrinum, því sèr væri farið að leiðast hángiketið; bað hann þá að flytja fiskinn í vertíðarlokin upp á Hofmannaflöt, sagðist hann mundi verða þar fyrir, og klyfja hesta þeirra aptur með ull og tólg. Þeir játuðu þessu og skildust með blíðu. Síðan hèldu þeir fèlagar leiðar sinnar, og bar ekki fleira til tíðinda; komu þeir suður á undan öllum öðrum Norðlíngum, feingu góð skiprúm og öfluðu vel. Um vorið fluttu þeir fisk sinn á 8 hestum upp á Hofmannaflöt, og var þar karl fyrir með jafnmarga hesta, klyfjaða með ull og tólg, og höfðu svo vöruskipti, eins og ákveðið var. Varð þeim fèlögum þetta hinn mesti gróðavegur; í átta ár samfleytt höfðu þeir þessi viðskipti við karlinn, en níunda árið kom hann ekki. Ímynduðu þeir sèr þá, að hann mundi vera dauður; voru þeir þá orðnir sterkríkir menn, byrjuðu búskap og farnaðist vel. Þeir þóktu fyrirtaksbændur í Eyafirði, og hèldu vináttu sinni til dauðadags.

**Kaupamennirnir.** (Norðan úr Eyafirði.) Tveir menn voru einhverju sinni á Suðurnesjum; þeir voru vanir að fara í kaupavinnu norður í sveitir. Eitt sumar fóru þeir sem optar, en þegar þeir voru komnir norður á heiðarnar, kom á þá þoka mikil; viltust þeir nú brátt, en hèldu þó á fram leingi, þar til þeir komu í dal nokkurn, er þeir þektu ekki; 2 bæi sáu þeir í dalnum, sinn hvorumegin ár, sem rann eptir dalnum; fóru þeir nú heim að öðrum bænum og börðu þar að dyrum. Karl kom til dyra; þeir heilsa honum. Hann tekur því vel. Hann spyr þá frètta og hvert þeir væru að fara. Þeir sögðu honum það ljósasta af því. Hann sagði, að þeir mundu koma of seint í kaupavinnuna, af því þeir væru komnir lángt afvega, og bauð þeim að vera þar í dalnum, og sagðist skyldu taka annan þeirra, en ráðlagði hinum að fara yfir á hinn bæinn. Þeir þáðu þetta og valdi karlinn annan þeirra til sín, en hinn fór nú yfir á hinn bæinn; voru þeir þar um sumarið og sáu hvor til annars. Ekki er þess getið, hvað margt fólk hafi verið þar, eða hvort þeir hafi fundizt um sumarið. Seinasta heyskapardaginn snemma morguns kom karlinn til kaupamanns síns, og segir, að mál muni að gjalda honum kaupið, og biður hann gánga með sèr út; segir karlinn, að nú sè verið að gjalda fèlaga hans kaupið í hlaðbrekkunni á hinum bænum. Sýndist honum vera verið að skera hann á háls; fer karlinn í skemmu eina og kaupamaðurinn á eptir; var þar trog og hnífur í. Tekur karlinn kaupamanninn og leggur hann niður við trogið.

En hann gat ekki neitt. Síðan bar karlinn hnífinn að barka hans, en hikaði þó og leit í augu hans og sagði: „Þú hræðist ekki dauða þinn.“ Kaupamaðurinn mælti: Eg á einu sinni að deya, og er mèr sama, hvort það kemur að nú, eða síðar.“ Þá slepti karlinn honum, og fór kaupamaðurinn að búa sig af stað. Karlinn sagði: „Eg mun nú mega enda það, er eg hèt að gjalda þèr kaupið, en ekki lízt mèr svo á hryssur þínar, að þær muni mikið bera, en eg á brúnan klár, er eg skal ljá þèr.“ Síðan batt hann bagga af smjöri allmikla og lætur upp á hest sinn og segir kaupamanninum, að hann skuli ekki taka baggana af honum, þegar hann ái á leiðinni, „og mun hann þola,“ sagði hann. Síðan gaf hann kaupamanninum ýmislegt uppá hestinn, er hann hafði sjálfur, nesti til ferðarinnar og annað, sem ekki er getið. Síðan bjóst kaupamaðurinn til ferðar. Þá mælti karlinn til hans: „Þegar þú kemur heim, skaltu sleppa hesti mínum, og mun hann rata heim aptur. Gott þækti mèr, að þú kæmir híngað í dalinn aptur að sumri, og værir hèr í kaupavinnu hjá mèr, og bið eg þig að gefa mèr að smakka fisk, ef þú kemur aptur; skal hestur minn verða kominn þángað, sem þú sleppir honum og skaltu flytja á honum fiskinn híngað.“ Kaupamaðurinn þakkaði karlinum fyrir alt þetta, og lofaði honum að koma aptur. Síðan skildu þeir með mestu vináttu. Fór kaupamaðurinn heim til sín og breytti, eins og karlinn sagði honum. Aldrei vissi hann neitt meira um fèlaga sinn. Þegar hann kom heim, tók hann ofan af hesti karlsins og sýndist honum hann ekki vera lúinn. Síðan slepti hann hestinum og vó baggana, og var hvor þeirra 24 fjórðúngar.[1] Eingum sagði hann af ferðum sínum. Nú safnaði hann fiski, þángað til hann hafði feingið 6 vættir. En um sumarið, er hann vildi af stað fara, var hesturinn karlsnautur kominn undir vallargarðinn. Tók hann nú hestinn og lèt á hann baggana og fór svo af stað, og tók ekki ofan af honum á leiðinni; kom hann nú í dalinn og fann karlinn; varð þar fagnaðarfundur og þókti karli vænt um fiskinn; var kaupamaðurinn þar um sumarið. En um haustið borgaði karlinn honum fiskinn og galt honum eins mikið kaup, og hið fyrra sumarið, lèði honum hestinn og fór alt, sem áður hafði farið. Eptir þetta fór hann á hverju ári í dalinn til karlsins í kaupavinnu, á meðan hann vildi ferðast, og fór jafnan eins, að hann færði honum fiskinn og karlinn galt honum kaupið, eins mikið og áður er sagt. Og lýkur hèr svo frá þeim að segja.

**Frásögur úr Áradals-bragnum.**[2] (Eptir handriti austan úr Hornafirði.)
1. Saga. Í Biskupstúngum geingu menn á fjall um haust. Kom þar þá í

---

1. Það þykir meðal-kaupamanns kaup í sveit, að fá 16 fjórðúnga smèrs fyrir átta vikna vinnu; betri verkmenn hafa þó feingið 20 fjórðúnga, og hinir beztu 24; eptir þessu hafa vinnulaunin verið tvígild við það, sem nú er bezt goldið.

2. Eptir Jón Guðmundsson lærða, sbr. inngánginn hèr að framan.

safninu sauður einn, hvítkollóttur, sem einginn kannaðist við. Hann var svo stór, að stærstu sauðir aðrir geingu undir kviðinn á honum. Síðan var fjallsafnið rekið í rèttina og stóri sauðurinn með; allir furðuðu sig á stærð hans, en um mark er ekki getið á honum. Hèr á við þetta erindi (21.) í bragnum:

„Maður kom fram og mælti snjalt,
so mátti heyra fólkið alt:
„þekki eg þig, og það er óvalt,
þú ert nú einn hjá lýðum."
Forða hríðum, forða mèr við hríðum."

Sagt er, að maðurinn hafi komið á rèttargarðinn, og ekki talað orð til nokkurs manns, en að eins þetta til sauðsins: „Og þú ert hèr, Kollur Kollsson, versta skítseiðið úr Áradal. Eg átti von á þèr í okkar góða dal, og skipa eg þèr, að koma nú þángað með mèr aptur." Lagði maðurinn þá staunginni á bak sauðnum. En Koll brá svo við, að hann stökk upp úr rèttinni, og rann undan manninum. Fóru svo báðir leiðar sinnar, og höfðu menn ekki meira af þeim að segja.[1]

2. Saga byrjar svo í bragnum (40. erindi):

„Steinku-Varði, stauta mann
í stóra Borgarfirði vann;
í draumi þóktist dratta hann
dals í fögrum hlíðum.
Forða hríðum, forða mèr við hríðum."

Svo þóktist hann gánga í leiðslu þessari, þángað til hann kom að húsabæ einum; hann sá dyr opnar og geingur inn. Er þá fólk að gánga þar um beina og bera mat í stofu. Hann geingur í stofuna og er þar fólki skipað á báða bekki. Hann þykist sjá, hver húsbóndinn er, geingur fyrir hann og kveður hann að sið kristinna manna með orðatiltækjum, sem þar við eiga, og heillaóskum. En þegar húsbóndinn heyrir guð nefndan, skiptir hann litum, og biður Varða að hafa ekki þetta orðtak í sínum híbýlum, því hann hafi annan átrúnað. Segist hann hafa vitjað hans að gamni sínu, og skuli hann setjast og fara að borða. Varði hlýddi því, sezt niður og tekur til matar, og var þar mest slátur á borðum; fær hann sèr þá til orða um þór og Óðin og annan fornan átrúnað. Við það hófst upp brúnin á bónda og öllum, sem inni voru. Var þar svo mikill glaumur og gleði í stofunni, að Varði þóktist aldrei hafa setið aðra eins veizlu. Leið svo dagurinn og var þá staðið upp undan borðum. þakkar Varði nú bónda að heiðnum sið allar veitíngar og velgjörðir við sig. Bóndi tók því vel, og var hinn glaðasti við hann, og segist ætla að gefa honum veturgamlan

1. þessi sögn er auðsjáanlega tekin eptir 20.—21. erindi í bragnum, þó frásögnin sè þar nokkuð öðru vísi, en hèr.

sauð til sannindamerkis, að hann hafi heimsókt sig, og muni hann verða um haustið í næstu sauðarètt þar við, sem Varði eigi heima. Varði þakkar honum velvild hans til sín, og spyr að marki á sauðnum. Bóndi segir honum það, og er það eins og (55.) erindið hljóðar:

„Netnálina nú skal tjá
og níu bita eyranu á,
hángandi fjöður og hófurinn hjá
er heiðursmark hjá lýðum.
F. h., f. m. v. h."

Eptir það vaknar Varði af leiðslu sinni, og er hann þá heima í Borgarfirði. Líður nú að hausti, og kemur sauðurinn fyrir í rèttunum með þessu marki. Furðar þá alla á vænleik hans, og veit einginn, hver muni eiga. Varði segir þá frá vitrun sinni, og sannar með því sauðinn sína eign. Síðan sker hann sauðinn, og var í honum hálf vætt mörs, og fallið að því skapi og þó ekki lakara.[1]

3. Saga. Stúlka var í einu bygðarlagi, eg man ekki hverju; mig minnir hún væri smalastúlka, segir söguskrifarinn. Hún viltist í þoku, og gekk leingi, þángað til fyrir henni varð gil. Hún gekk upp með gilinu. Á þessum gangi var hún í 3 dægur, þar til nokkuð lètti upp þokunni niður við gilið. Sèr hún þá, að hún er komin í þraungan dal, og heldur á fram, þángað til hún sèr 2 húsabæi, sinn hvoru megin árinnar, sem rann eptir dalnum. Geingur hún svo að þeim bænum, sem fyrir henni var, og í því hún kemur að húsadyrum, geingur þar út stúlka. Aðkomustúlkan heilsar henni, og taka þær tal með sèr; segir hún hinni villu sína, og biður hana ásjár. Heimastúlkan segir: „Þú varst ekki með öllu lánlaus, að hitta fyrir þenna bæinn, því (úr 28. er.):

„Þú hefðir feingið vakk og vei
hjá verri dalsins lýðum."

Leiðir hún svo bygðastúlkuna með sèr í klefa einn, öðru megin bæardyra. Þetta herbergi var fult af ull, og segir heimastúlkan henni, að hún verði að láta þar fyrir berast, því hún vilji ekki, að aðrir heimamenn sjái hana, og segist hún ein hafa umgaungu um klefa þenna; því móðir sín láti sig hafa allan veg og vanda af ullarvinnu á heimilinu. „En nú er svo áliðið sumar," segir hún, „að þèr er ekki leggjandi hèðan til bygða." Geingur stúlkan svo í burtu og kemur aptur með mat handa henni, og staðráða þær nú með sèr, að bygðastúlkan sè þar um veturinn og vinni ullarvinnu eptir fyrirsögn hinnar. En heimastúlkan sat þar einatt hjá henni, og lèt hana ekkert bresta. Hún sagði henni, að hún hefði beðið móður sína að

---

1. Þessi sögu er tekin eptir 40.–61. erindi í bragnum, og er hún reyndar þriðja fràsagan í bragnum, því sú um stúlkuna, sem næst kemur hèr á eptir, nær frá 25.—39. erindis.

skamta sèr tvöfalt meiri mat í vetur en áður, og skyldi hún aptur á móti vinna við tvær; hún sagði henni og ýmsa háttsemi og um bæarbrag á heimilinu. En það eitt heyrði hún þar til annara manna, sem þessi erindi (32. og 33.) segja:

Fyrst á morgna, er fólk upp stóð,
fögur heyrði hún súngin ljóð:
„Sè oss til ljúfskaps lukkan góð
lagin með blóma blíðum.“ F. hr., f. m. v. hr.
„Skegg-Ávaldi, skjól vort blítt,
skygðu nú yfir landið þitt,
svo aldrei verði hèraðið hitt
heims af bygða-lýðum.“ F. hr., f. m. v. hr.

Bygðastúlkan sá þar stórar hrúgur af sauðabeinum, og sagði hin henni, að það væri trú þar, að ef ekkert sauðarbein væri brotið nè fargað, en öllum haldið saman og látin í hrúguna, þá stæði alt það fè upp lifandi að vordögum, sem skorið væri á haustin og jetið á vetrin, svo sem hèr segir (í. 35. er.):

„Ei skal brjóta bein úr sauð,
so bændur missi ei allan auð,
dugir það vel fyrir daglegt brauð,
þó drepið sè opt og tíðum.“ F. hr., f. m. v. hr.

Nú leið veturinn, svo að aldrei kom þar snjór. Dalstúlkan sagði hinni, að helzt mundi reynandi fyrir hana að komast í burtu, svo einginn vissi, á sumardaginn fyrsta, því þá væri altjend haldin veizla, til að fagna sumrinu. Á sumardagsmorguninn fyrsta heyrir bygðastúlkan í bítið mikla saungva,[1] og verður vör við ýms hátíðabrigði; fer hún þá og býst til ferðar, og fylgir hin stúlkan henni úr garði, og segir henni að þræða með gilinu jafnt og þètt, þángað til hún sjái til bygða. Skilja þær svo, og þakkar bygðastúlkan hinni allar velgjörðir við sig um veturinn. Heldur hún eptir tilvísun stúlkunnar, og kemst klaklaust til mannabygða.

4. Saga. Einu sinni var kaupamaður, sem varð of seinna til að ná í kaupavinnu í sveit, svo að hvar sem hann leitaði á um sumarvinnu, voru kaupamenn hvervetna ráðnir áður. Maðurinn varð óglaður af þessu, og reið einförum upp úr Hvítársíðu til fjalla, og veit ekki sjálfur, hvert hann ætlar. Slær nú yfir hann svartaþoku, svo hann veit ekkert af, fyrr en maður kemur til hans ríðandi, sem hann þekti ekki; sá spyr kaupamanninn, hvernig á högum hans standi, og því hann sè hèr einn á ferð, lángt frá öllum mannabygðum. Kaupamaður segir honum alt hið sama af sínum förum, og að hann viti ekki sjálfur, hvað hann ætli fyrir sèr. Komumaður segir: „Fyrst svona er ástatt fyrir þèr, viltu þá ekki slá til og vera kaupa-

---

1. Efni þeirra saungva er það, sem Jón hefir komið fyrir 32. og 33. erindi á undan. Og byrja aðrir svo 32. erindið: „Fyrsta morgun (s. sumars) fólk upp stóð.“ En eg fylgi handritinu að austan.

maður hjá mèr í sumar?" Þessu boði tekur hinn með þökkum, án þess að spyrja, hvar hann ætti heima. Ríður komumaður svo á undan, en kaupamaðurinn á eptir. Hèldu þeir á fram leingi vel, þángað til þeir komu í dal einn þraungan; þar var lètt upp þokunni með árgilinu, sem gekk eptir miðjum dalnum, en hún beltaði fjöllin beggja vegna, og þókti kaupamanni þar fagurt um að litast. Síðan koma þeir að velbygðum húsabæ, og segir sá, sem fyrir fór, að þetta sè bærinn sinn. Nú bar ekkert til tíðinda um sumarið, annað en að kaupamaður var þar og vann, og undi vel hag sínum. En um haustið, þegar að því leið, að hann færi í burtu, kallar húsbóndinn hann fyrir sig, þakkar honum góða þjónustu, og segist nú ætla að greiða honum kaupið; fyrst vegur hann honum 4 vættir af smèri, og segir að hann þurfi þess, þar sem hann eigi að liggja við sjó til vordaga, þar næst fær hann honum 4 húðarskinn, og segir að skófrekt muni á fjörugrjótinu við sjóróðrana. Fjórar voðir fèkk hann honum, en ekki er sagt, hvað stórar þær hafi verið. Loksins segist hann muni fá honum átta sauði veturgamla, og með þetta verði hann að gera sig ánægðan. Kaupamaður þakkar bónda, sem bezt hann kunni, öll útlátin, en segist vera ráðalaus að flytja þetta alt, af því hann hafi ekki annan hest, en þann sem hann ríði. Bóndinn segist skuli ljá honum gráan klár, eins og (79.) erindið vísar til:

„Ljá skal eg þèr lipran klár,
en lösturinn finnst, að hann er grár,
ber hann ekki á bakinu sár,
nè bilar í nokkrum stríðum."
F. hr., f. m. v. hr.

Segir hann, að kaupamaður megi óhræddur leggja þetta á hann, að hann beri það; en þess skuli hann gæta, að þegar hann komi þar á veginn fram til bygða, sem hann tiltekur, þar standi við götuna gamalt krossmark, það segist hann búast við að Gráni fælist, nema kaupamaður beygi svo lángt af leið, að klárinn sjái það ekki. Kaupamaður lofar honum því, og býst svo til ferða. Gráni er tekinn og lagður á hann reiðíngur og látið á hann kaupið, en kaupamaðurinn ríður sínum hesti; sauðirnir renna götuna á undan, eins og þeir væru alvanir rekstri. Húsbóndinn fylgir kaupamanni á leið og segir honum til vegar. Eptir það kveðjast þeir og skilja, og fer hvor þeirra sína leið. Kaupamanni geingur ferðin vel, þángað til hann kemur þar nálægt, sem krossmarkið stóð; þá sigrar hann svo mikill svefn, að hann gleymir að víkja af götunni. Veit hann þá ekki fyrri til, en Gráni kippir í tauminn, fælist og hættir ekki fyrri en hann setur af sèr klyfjarnar, og vill svo illa til með þær, að þær lentu báðar í bleytufeni. En Gráni komst aptur á götuna, fór sína leið og hafði kaupamaðurinn ekki meira af honum. Sagt er að kaupamaðurinn hafi náð annari klyfinni, og getað komið henni til bygða; öllum sauðunum hèlt hann, og

skar þá, þegar hann kom heim, og voru 4 fjórðúngar mörs í hverjum þeirra. Þókti öllum þetta vera gott kaup, þó hann misti það, sem í fenið fór[1]. Enda svo allar þær Áradalsfrásagnir, sem í bragnum eru.

b) Auk þeirra margvíslegu viðskipta, sem nú hefir verið getið um stund, milli útilegumanna og bygðamanna, eru enn allmargar sögur af því, að fjallabúar hafi numið til sín og rænt ekki einúngis konum úr bygð, heldur og karlmönnum. Kemur það þá bersýnilega fram, að margir fjallabúar eru fjölkunnugir, svo að þeir ýmist gera mönnum veiki, svefnhöfga og drauma, eða þeir villa þá til sín; þokur og hríðarbylji hafa þeir og í hendi sinni til þess, sem þeir vilja, og fleiri töfrabrögð eru þeim eignuð. Konur þær, sem fjallabúar hafa náð á sitt vald, sitja þeir jafnaðarlega uppi með, annaðhvort með ljúfu samþykki kvennanna sjálfra, svo að þær una vel hag sínum í óbygðum, eða þá, ef þær frelsast um stund frá fjallabúum fyrir tilstilli þeirra manna í fjallabygðunum, sem áður hafa komizt á vald hinna sömu útilegumanna, að þeir vinna það til að fara í sveit, til að ná þar sömu konunni aptur, og gánga svo að eiga hana, og ileingjast eptir það í bygðum. En þó hefir einnig opt borið út af þessu, þegar bygðamenn hafa verið svo vaskir, að þeir hafa annaðhvort strádrepið illþýðið, eða átt ráð á lífi þess, og hafa þeir hinir sömu þá geingið að eiga þær konur, sem þeir hafa frelsað. En sjaldnast hefir það borið við, að stúlkur hafi af sjálfsdáðum komizt úr höndum útilegumanna, og jafnsjaldgæft er það, að þær hafi frelsað þaðan karlmenn. Í ekki fáum af þessum sögum koma fyrir heil og reglubundin sveitafèlög í óbygðum, eins og áður er getið,[2] og skipaðir yfir þau sýslumenn og sumstaðar prestar, og helgihöld höfð, eins og í sveitum, og þessir hættir útilegumanna gera sögurnar um þá svo líkar álfasögum, eins og við er að búast, þar sem mönnum er hèr um bil jafn kunnugt um háttalag hvorra tveggja. Frásögnin á sumum þessum sögum er talsvert skreyttari, en í hinum fyrri, og víða svipar þeim til æfintýra.

**Sagan af Bjarna Sveinssyni og Salvöru systur hans.** (Tekin eptir munnlegri sögn norðlenzkra skólapilta 1845 M. G. Dr. Maurers Isl. Volkss. 264—9. bls.)

---

1. Þessi sögn er tekin eptir 62.—89. erindi í bragnum, sem endar með 90. erindinu. Jón Guðmundsson hefir nefnt kvæðið Áradals-brag, og segir hann í því frá Ávalda skegg (sjá Fms. II, 1.—9. bls. sbr. Vatnsdælu 44. og 45. kap.), fóstbróður Óttars, föður Hallfreðar vandræðaskálds, þó hann hafi gert þá Óttar og Ávalda bræður. Jón lætur Ávalda hafa verið einrænan mann og hafa gefið sig við fjölkynngi, tekið sig frá öðrum mönnum, farið að búa í þessum dal (Áradal), orðið þar landvættur, og verið kallaður Skegg-Ávaldi eða Skeggjávaldi. Síðan segir hann frá því, er Grettir kom í Þórisdal (Grettla 61. kap.), svo eptir því er Áradalur og Þórisdalur alt hið sama. Eptir það koma sögurnar í bragnum, sem hèr eru að framan.

2. Sjá söguna á undan af Guðmundi og Þorsteini.

Maður hèt Sveinn. Hann var bóndi norður í Skagafirði. Kvæntur var hann, en ekki er þess getið, hvað kona hans hèt. Sveinn var maður vel efnaður. Hann átti tvö börn, sem sagan nefnir. Hèt sonur hans Bjarni, en Salvör dóttir. Þau voru tvíburar, og unnust mjög. Þau voru þá um tvítugt, þegar þessi saga gjörðist. Eitt vor um Jónsmessu fóru margir Skagfirðíngar á grasafjall. Sveinn bóndi ætlaði líka að láta Bjarna son sinn fara. En þegar Salvör heyrði það, vildi hún og fara. Foreldrar hennar vildu það ekki, en lètu þó til leiðast fyrir þrábeiðni hennar. Áttu nú bæði systkinin að fara á grasafjallið. En nóttina áður en þau fóru, dreymdi Sveinn bónda, að hann þóktist eiga fugla tvo hvíta, og þókti honum mjög vænt um fuglana. Þóktist hann þá missa kvennfuglinn og sakna hans mikið. Sveinn rèð svo draum sinn, að hann mundi bráðum missa dóttur sína, og fèkk það honum mikillar áhyggju. Vildi hann nú ekki, að hún færi á grasafjallið, en hún linti ekki, fyrr en hann lèt það eptir henni. Fóru þau nú systkinin, og segir ekki af ferðum þeirra. Geingu þau hinn fyrsta dag, og tíndu grös, eins og aðrir. En um nóttina varð Salvöru snögglega ílt, og gat hún ekki farið með fólkinu. Varð þá Bjarni eptir hjá systur sinni heima í tjaldinu. Liðu svo þrír dagar, að Salvöru þýngdi alt af, og var Bjarni hjá henni. En hinn fjórða daginn fèkk hann annan mann, til að vera hjá systur sinni, og gekk einsamall frá tjaldinu. Þegar hann hafði tekið grös í tínupoka sinn, settist hann undir stein einn mikinn, og studdi hönd undir kinn. Var hann að hugsa um sýki systur sinnar, og var mjög hugsjúkur og áhyggjufullur. En þegar hann hafði litla stund setið, heyrir hann dyn mikinn. Litast hann þá um, og sèr hvar koma tveir menn ríðandi. Þeir riðu mikinn, og stefndu að Bjarna. Reið annar þeirra rauðum hesti, og var hann á rauðum klæðum. Hinn var dökk-klæddur, og reið brúnum (svörtum) hesti. Þeir stíga af baki við steininn, og heilsa Bjarna með nafni. Spurði þá rauðklæddi maðurinn, hvað að honum geingi. Bjarni vildi ekki segja það. Hinn rauðklæddi maður segir, að hann muni ei hafa verra af því, þó hann segi sèr frá því. Bjarni segir honum þá frá veikindum systur sinnar. Segir hann, að nú ætli samferðamennirnir að fara heim, „og má eg þá verða hèr einn eptir hjá systur minni,“ segir hann, „og veit eg ekki, nær hún kann að deya í höndum mínum.“ „Bágt áttu, Bjarni,“ segir rauðklæddi maðurinn, „og vorkenni eg þèr þetta. En viltu nú ekki gefa mèr hana systur þína?“ „Nei,“ segir Bjarni, „eg má það ekki. Eg veit eingin deili á þèr, og ekki veit eg, hvaðan þú ert. Eða hvaðan ertu?“ „Þig varðar ekki um það,“ segir hinn. Tekur hann þá upp hjá sèr gullroðna silfurdós með steini í lokinu, og segir: „Viltu ekki selja mèr hana systur þína fyrir dósirnar þær arna?“ „Nei,“ segir Bjarni, „eg gef þèr hana aldrei, hvað sem þú býður.“ „Jæja,“ segir maðurinn, „þigðu samt af mèr dósirnar til minníngar um, að þú hafir fundið ókunnugan mann á fjöllun-

um.“ Tekur Bjarni þá við dósunum, og þakkar manninum gjöfina. Kveðja þá aðkomumennirnir Bjarna, og ríða burtu, en hann fer heim að tjaldi. Um morguninn fara samferðamenn Bjarna heim, og er hann þá einn eptir hjá systur sinni, og þorði ekki að sofna; því hann var hræddur um, að hinir ókunnugu menn kynnu að stela Salvöru frá sèr. Vakir nú Bjarni þann dag allan, en um nóttina sækir mjög svefn á hann; leggur hann sig þá niður hjá systur sinni. Spennir hann þá greipar utan um hana, og ætlar, að hún skuli ekki verða svo burtu numin, að hann verði þess ekki var. Sofnar Bjarni fast. En þegar hann vaknar, er systir hans öll á burt. Verður hann nú ángraður mjög, og leitar þann dag allan, en finnur hana ekki. Tekur hann sig þá upp, og ríður heim um nóttina, og segir tíðindin. „þetta grunaði mig snemma,“ segir Sveinn, „dregur æ nokkuð til þess, sem verða vill.“ Var þá safnað saman mönnum, og leitað vandlega, en Salvör fannst ekki að heldur. þókti öllum þetta mikill skaði; því stúlkan var efnileg, og hvers manns hugljúfi.

Líður nú þángað til Bjarni er þrítugur orðinn. Var hann þá kvongaður, og farinn að búa. Eitt haust vantaði sauðamann hans fèð allt, og leitaði hann þess þrjá daga, en fann ekki. Segir þá Bjarni konu sinni að búa til handa sèr vikunesti, og skó góða; því hann kvaðst ætla að leita kinda sinna. Foreldrar Bjarna lifðu þá enn, og báðu þau hann, að fara ekki. En hann sagði, að þau skyldu vera óhrædd, og vona ekki eptir sèr, fyrr en að viku liðinni. Eptir það fór hann, og gekk nú samfleytt í þrjú dægur. Kom hann þá að hellisskúta einum; þar lagði hann sig fyrir að sofa. þegar hann vaknaði, var komin á niðamyrkursþoka. Samt hèlt hann á stað, og viltist hann nú skjótt, og vissi ekki hvert hann fór. Gekk hann þá leingi, þángað til hann kom á endanum í dal einn allstóran. þá var liðið á dag. þokulaust var niðri í dalnum. þegar hann kom ofan í dalinn, sá hann þar bæ mikinn og reisulegan. þángað fór hann. þar sèr hann karla og konur við heyskap á eingi fyrir utan túnið. Geingur hann þar að, sem konurnar eru; þær voru þrjár, og var ein þeirra tígulegri, en hinar. Hann heilsar þeim, og spyr, hvort hann muni fá að vera þar um nóttina. þær segja allar já, og fer ein þeirra með honum heim að bænum. það var úng stúlka, ofur lagleg. það var eins og Bjarna sýndist hún lík systur sinni, sem hann hafði mist á grasafjallinu forðum. Rifjaðist þá allur sá atburður upp fyrir honum, og varð hann ángraður með sjálfum sèr, en lèt þó stúlkuna ekki verða vara við það. Koma þau nú heim, og leiðir stúlkan Bjarna í bæinn. Voru þar stór hús og falleg. Koma þau nú í herbergi eitt rúmgott og vel vandað. þar fær stúlkan honum stól, og biður hann bíða sín. Hleypur hún þá út, en kemur að vörmu spori inn aptur, og setur mat og vín á borðið fyrir Bjarna. Snæðir hann síðan, en að því búnu, biður stúlkan hann gánga til hvílu. Fylgir hún honum inn í hús eitt lítið, og er þar sæng upp búin. Háttar nú Bjarni, og

dregur stúlkan af honum vosklæði, býður honum síðan góðar nætur, og geingur burtu. Hugsar nú Bjarni um, hvar hann muni vera, og hvernig á því muni standa, að þessi stúlka skyldi ryfja svo upp fyrir sèr harma sína, og skilur ekki í því. Út frá þessum hugsunum sofnar hann, en vaknar við það, að hann heyrir saung uppi yfir sèr. Heyrir hann þá, að á loptinu uppi yfir rúminu hans er verið að lesa, eins og títt er í sveitum. Súngu þar margir, karlar og konur, og bar þó ein rödd af öllum hinum. Þessi rödd vakti algjörlega upp harma Bjarna; því þar þóktist hann þekkja hljóð Salvarar systur sinnar. Var hann nú nokkra stund að hugsa um þetta, en síðan sofnaði hann aptur, og vissi ekki, fyrr en litla stúlkan, sem hafði þjónað honum til sængur um kvöldið, vakti hann. Kom hún þá með góð klæði, og bað hann fara í þau; því hún sagði, að hann mundi verða þar um daginn, sem var sunnudagur. Fer svo stúlkan út. En á meðan Bjarni var að klæða sig, kom inn til hans piltur dálítill. Hann var á grænum klæðiskjól, og að öllu vel búinn. Sveinninn heilsar Bjarna, og er mjög ræðinn við hann. „Hvað ertu að fara?“ segir pilturinn. „Eg er að svipast eptir kindum,“ segir Bjarni. „Ekki hefi eg orðið var við þær hèrna í dalnum,“ segir pilturinn. „Þú verður kyr hjá okkur í dag; því hann faðir minn ætlar að messa,“ segir hann. Í þessu kemur stúlkan inn, og segir: „Sveinn, vertu ekki að neinu bulli við manninn.“ Ber hún þá á borð fyrir Bjarna. En þegar hann var búinn að borða, fer hún út. Sèr hann þá fjölda fólks vera að koma. Tekur nú pilturinn í hönd honum, og leiðir hann út í kirkjuna, og vísar honum til sætis. Litast Bjarni þá um, og þekkir rauðklædda manninn við hliðina á sèr, sem komið hafði til hans á fjöllunum. En það sá hann var presturinn, sem þá var á dökku klæðunum. Margir voru í kirkjunni, og voru flestir karlmennirnir illilegir og stórir. Sumir þeirra voru í sauðsvörtum prjónafötum. Tekur þá Bjarni upp dósirnar góðu, og býður sessunaut sínum í nefið, og þáði hann það. Í framkirkjunni sèr Bjarni konu eina tígulega búna, og þóktist hann þar þekkja Salvöru systur sína. Þau horfðu hvort á annað, og var eins og hún ýmist brosti eða grèti, þegar hún sá hann. Þóktist nú Bjarni sjá, hvernig í öllu lægi, og að hann væri kominn til systur sinnar. Leið nú messan, og fór embættisgjörðin ágætlega fram. Eptir blessan tekur pilturinn í hönd Bjarna, og leiðir hann út. En þegar þeir komu út fyrir dyrnar, situr þar karl gamall og illilegur. Hann bregður fæti fyrir Bjarna svo hann dettur. Hleypur þá pilturinn inn í kirkjuna að rauðklædda manninum, og sækir hann. Rauðklæddi maðurinn tekur þá til karlsins og dustaði hann til, en pilturinn leiðir Bjarna í bæinn. Að litlum tíma liðnum koma þeir þar, rauðklæddi og bláklæddi maðurinn. Þeir heilsa Bjarna vingjarnlega, og spyrja, hvort hann þekki sig. Hann sagði svo vera, og varð nú heldur fár við; því margt rifjaðist nú upp fyrir honum. En í þessu kemur inn konan, sem hann sá í kirk-

junni, og hèlt, að væri systir sín. Hún hljóp í faðminn á Bjarna, og segir: „Í faðmlögum vorum við í móðurlífi, grátandi var eg tekin úr faðmi þínum, bróðir, en nú kem eg hlæandi í hann aptur.“ Heilsast þau nú, og verður þar hinn mesti fagnaðarfundur. Sagði hann henni þá alt, sem við hafði borið í Skagafirði, síðan hún hvarf. Þá segir rauðklæddi maðurinn: „Eg tók systur þína, Bjarni, úr faðmi þínum forðum, og gipti hana þessum dökkklædda manni. Hann er sonur minn, og prestur okkar dalbúa, en eg er hèr sýslumaður. Nú tók eg fè þitt, og vilti þig híngað, svo þið gætuð fundizt, systkinin, og sagt hvort öðru sögu ykkar, síðan þið skilduð. Á morgun skal eg fylgja þèr, og fá þèr fè þitt, en vertu hèr í nótt, og talaðu við systur þína.“ Bjarni gjörir nú þetta.

Um morguninn fer Bjarni, og kveður systur sína með mörgum tárum. Rauðklæddi maðurinn fylgdi honum, og ráku þeir fèð með sèr. Bláklæddi maðurinn var og með þeim, og fylgdu þeir honum ofan undir bygð. Þar skilja þeir, og mæltu til vináttu hvorir af öðrum. Segist þá dökkklæddi maðurinn ætla að senda eptir Bjarna að vori, og skuli hann vera ferðbúinn um fardagana; „skaltu svo búa hjá oss í dalnum.“ — Kemur nú Bjarni heim, og segir foreldrum sínum og konu ferðasögu sína og fyrirætlan, en biður þau leyna því. Líður nú að fardögum; þá koma þrír menn með hesta til Bjarna. Fór hann um nóttina með alt sitt bú, karl og kerlíngu, konu og börn. Komu þau í dalinn, og varð þar fagnaðarfundur. Þar bjó Bjarni leingi. En þegar hann var gamall orðinn, fór hann aptur til Skagafjarðar. Sagði hann þá þessa sögu, og dó síðan í góðri elli.

**Grasafjalls - ferðin.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Einu sinni var bóndi á bæ; hann átti 2 börn, sonur hans hèt Bjarni, en dóttir hans Margrèt. Honum þókti mikið vænt um þessi börn sín, en þó einkum um dóttur sína, því hún var bæði falleg stúlka, efnileg og eptirlát föður sínum. Börn þessi voru um tvítugs aldur, er saga þessi gjörðist, og faðir þeirra ekkjumaður. Það var venja bónda að láta fara á grasafjall, og ætlaði hann enn eitt vor að gjöra hið sama. Talar hann nú við börn sín, að hann þurfi að láta fara á grasafjall, en hann hafi nú slæmar fólks ástæður og eingan til að láta fara. Börnin bjóðast þá til að fara. Hann tekur því dauflega, en segist þó halda, að hann megi til, það verði eigi umflúið, sem fram eigi að koma. Kvöldið áður en þau eiga að fara, fær bóndi þeim 2 ljós og segir þeim að kveykja á þeim um nóttina. Þegar þau kveykja, deyr strax annað ljósið og þegar bóndi veit það, segir hann, að þetta hafi sig grunað, hann geti ekki almennilega hamlað þeim að fara, þó illa leggist það í sig. Nú fara systkinin á grasafjall og tjalda. Næsta dag er þoka og grasa þau þá ekki vel og fara stutt frá tjaldinu. Um nóttina verður Margrèt lasin og versnar henni meir og meir, svo að um

morguninn er hún orðin mállaus og rænulaus. Þegar líður á daginn, sèr Bjarni, að 2 menn koma ríðandi að tjaldinu. Er annar á rauðum kjól með gyltu belti um sig, en hinn á dökkum kufli með svarðreipi. Þeir stíga af hestum sínum við tjaldið. Hinn rauðklæddi maður mælti til Bjarna: „Komdu sæll Bjarni minn.“ Bjarni tekur því dauflega, því nú lá illa á honum. Hinn rauðklæddi maður talar við hann um ýmsa hluti. Síðan tekur hann dósir úr vasa sínum og tekur í nefið, fær Bjarna dósirnar og spyr, hvort hann vilji ekki eiga þær. Bjarni segir sig lángi ekkert til þess, og fær honum dósirnar aptur, en sèr þó, að þær eru afbragðs fallegar. Hinn rauðklæddi maður segir við Bjarna: „Nú er þèr óhætt að vitja um hana systur þína, því nú er hún dáin.“ Síðan fara hinir ókunnu menn í burtu, en Bjarni inn í tjaldið og er þá systir hans dáin. Við þetta verður hann hryggur mjög, sækir nú hesta og reiðir hana heim; verður þá harmur mikill fyrir föður hans og heimafólki. Nú líða mörg ár og ber ekkert til tíðinda. Einu sinni vantar bónda alt fè sitt. Bjarni leitar víða, en finnur ekki. Hann hugsar sèr nú að gjöra lánga leit, fær sèr nesti og nýa skó, og geingur á fjöll upp; geingur hann leingi, þángað til þoka mikil dreifir sèr yfir fjöllin, svo hann villist og veit ekkert, hvert hann fer. Loksins sèr hann mann, sem rekur stóran fjárhóp; lètti þá þokunni lítið eitt frá, svo hann sèr fyrir sèr dal einn, mikinn og fagran. Í dal þessum er bygð mikil og margir bæir, en þó ber einn bærinn af öllum. Bjarni geingur þá í dalinn og að þessum stóra bæ. Þar kemur stúlka til dyra. Hann biður hana skila til húsráðanda, að hann biðjist húsa; kemur stúlkan jafnskjótt aptur með þau orð, að hann fái að vera; fylgir stúlkan Bjarna í bæinn og í afsíðis herbergi, og fer síðan út. Hann undrar það, að stúlka þessi er svo ógnarlega lík Margrèti, systur hans, og það svo, að þetta vekur upp fyrir honum ángursamar tilfinníngar og liggur honum við að gráta. Um kvöldið kemur sama stúlkan til hans, færir honum mat, lætur hann hátta og tekur vosklæði hans. Sefur hann þarna um nóttina að mestu leyti óhræddur. Um morguninn færir stúlkan honum mat og önnur föt, segir, að hans föt hafi verið vot, enda fái hann ekki að fara í dag, því nú sè sunnudagur og ætli faðir sinn að messa. Eptir þetta kemur til hans maður á rauðum kjól. Hann segir: „Komdu sæll Bjarni minn,“ og spyr, hvort hann vilji koma með sèr í kirkju. Bjarni er því ekki fráleitur. Fara þeir nú í kirkju, og er margt fólk við kirkjuna og fer messan vel fram. Þegar messan er nýbyrjuð, kemur kona í kirkjuna, hún heldur á barni, og leiðir annað við hlið sèr, en stúlkan geingur með henni, sem Bjarni hafði áður sèð. Nú undrar hann, hvað kona þessi er lík systur hans; sýnist honum enda hún vera það, þó honum þyki ótrúlegt. Nú líður messan og fer prestur með honum inn í bæ. Hann spyr þá Bjarna, hvað hann sè að fara. Hann segist leita að fè föður síns. Hann spyr, hvort hann þekki sig. Ekki kveðst Bjarni

vera viss um það. Hann spyr, hvort hann hafi ekki einu sinni farið á grasafjall? „Já,“ segir Bjarni, og kvaðst ekki geta á það minnzt. Prestur tekur upp dósir og sýnir honum, og spyr hvort hann þekki þessar dósir. Bjarni segir: „Já.“ Prestur kvaðst nú vera sá sami maður, sem komið hefði til hans á grasafjallinu. „Er það mèr að kenna,“ segir hann, „að þú ert híngað kominn, eg vilti þig híngað í þokunni. Þegar systir þín var hjá þèr á grasafjallinu, þá náði eg henni, en lèt þèr sýnast, að hún væri dauð, og skal eg nú sýna þèr hana til sanninda merkis.“ Kom þá systir Bjarna til hans með börn sín, heilsar bróður sínum og kveðst lifa hèr góðu lífi, og sè prestur þessi maður sinn, sem sè mjög góður við sig. Bjarni ætlar leingi ekki að trúa, en getur þó ekki neitað, að þetta sè systir sín. Þau faðma hvort annað, en Bjarni grætur gleðitárum. Hèr er nú fè föður þíns,“ mælti prestur, „og er það mèr að kenna, að það er komið híngað. Vil eg, að þú farir nú með fèð og segir föður þínum frá þessum tíðindum, og vilji hann sjá dóttur sína, þá komdu með honum híngað, vil eg veita honum þá gleði í elli sinni, að hann fái að sjá dóttur sína og vita, hvernig henni líður.“ Fer nú Bjarni með fèð heim og segir föður sínum frá öllu. En hann getur ekki trúað sögunni í fyrstu; er nú ekki annars getið, en að bóndi og sonur hans flytja með alt sitt í dalinn, og að þar verður fagnaðarfundur mikill. Fær Bjarni systur prestsins fyrir konu og fer að búa í dalnum. Er svo sagt, að fólk þetta lifir alt góðu lífi í dalnum til elli og kann eg ekki þessa sögu leingri.

**Brúðarhvarfið.** (Tekið eptir sögu manns austan úr Biskupstúngum. M. G.) Einu sinni bjó ókvæntur maður í Torfastaðakoti í Biskupstúngum, sem Jón hèt; hann var vel efnaður að gángandi fè. Þegar sagan gjörðist, ætlaði hann að fara að eiga stúlku, sem hjá honum var; það var um haust, skömmu eptir rèttir. Var búið að lýsa allar lýsíngar, og bóndi búinn að tiltaka veizludaginn, og farinn að bjóða. Nú kom seinasti dagurinn, sem hann ætlaði að bjóða fólki til veizlunnar. Stúlkan ætlaði um daginn að þvo þvott í læk skamt frá bænum, og urðu þau samferða að læknum. Tók hún til þvottarins, þegar hann skildi við hana. Leið nú að kvöldi, og kom þá bóndi heim aptur. Gekk hann hjá læknum, og sá að sumt af þvottinum var óþvegið á bakkanum, og sumt hálfþvegið, en sumt lá niðri í læknum. Hugsaði hann að stúlkunni hefði orðið ílt, og farið heim. Fór hann þá heim að bænum, og spurði eptir henni, en hún hafði ekki komið þar, og einginn vissi neitt um hana. Nú fór bónda ekki að lítast á, og leitaði hann brúðarefnis síns með miklum mannsöfnuði víða og leingi. En hún fannst hvergi nokkurstaðar. Var svo leitinni hætt, og fèll umtal manna um atburð þenna smátt og smátt niður, og allar þær getgátur, sem gjörðar höfðu verið um hvarf brúðarefnisins.

Leið nú og beið veturinn og næsta sumar til hausts, svo að ekkert frèttist um stúlkuna. En þá hvarf einu sinni alt fullorðna fèð bóndans í Torfastaðakoti. Þókti það kynlegt. Leitar nú bóndi fjárins, og finnur ekki. Fær hann sèr þá mann til að leita með sèr. Þeir búa sig út með nesti og nýa skó, og leita nú upp til jökla. Fara þeir víða um fjöll og firnindi og finna einga skepnu. Geingu þeir þá upp á Lángajökul, og norður eptir honum, til þess að hafa sem mest víðsýni. En þegar þeir voru vel komnir upp á jökulinn, skall á þá svartaþoka og bilur, svo þeir viltust, og vissu ekki, hvert þeir fóru. Geingu þeir svo leingi eitthvað út í bláinn, þángað til loksins, að þeir fundu halla undan fæti. Hvetja þeir þá sporið, og koma loks niður í dal einn, og ofan í hann fóru þeir. Þar var þokulaust. Sáu þeir þá, að þetta var seint mjög á degi. Bæ sáu þeir í dalnum; þángað geingu þeir og drápu á dyr. Kom þar kona til dyra. Þeir heilsuðu henni og spurðu, hvort þeir mundu fá að vera þar um nóttina. Hún sagði, að það mundu þeir fá. Þeir spurðu hvað bærinn hèti og hvert þeir væru komnir; því þeir sögðust ekki vita það, af því þeir hefðu verið að villast allan daginn. Hún spurði aptur, hvað þeir hèldu um það, hvar þeir væru. Þeir sögðu, að það yrði að vera einhverstaðar fyrir norðan, þó þeim þækti það kynlegt, að þeir væru komnir svo lángt á svo stuttum tíma. Konan sagði þeim, að koma þá inn í bæinn; þeir mundu seinna fá að vita, hvert þeir væru komnir. Leiðir hún þá nú inn í baðstofu, og inn í afþiljað hús í öðrum endanum. Fór hún þá burtu frá þeim, en að vörmu spori kemur þar inn stúlka um tvítugsaldur, fríð og fjörleg, með kertaljós í hendinni. Þeir heilsa henni, og tekur hún því vel. Síðan dregur hún af þeim vosklæðin, og tekur öll föt frá þeim, sokka og skó og hvað eina. En þegar þeir sjá, að hún ætlar burtu með fötin, biðja þeir hana, að gjöra það ekki; því þeir voru ekki alls kostar óhræddir um, að sèr væri hèr hættulaust. Hún sagði, að sèr hefði verið skipað þetta, og fór hún svo með öll föt þeirra, skildi eptir ljósið, en skeldi húshurðinni í lás á eptir sèr. Voru þeir nú kyrrir inni í húsinu fjárleitarmennirnir, og þó smeykir mjög um sig. Að litlum tíma liðnum heyra þeir barið á dyr. Sáu þeir í gegn um boru á húshurðinni, að konan, sem áður bauð þeim inn, gekk með ljós til dyranna. Kom hún fljótt inn aptur og með henni karlmaður. Staðnæmdust þau fyrir framan húsdyrnar, og fór hann að skafa af sèr. „Fannstu öll lömbur?“ spyr hún. „Já,“ segir hann. „Gott er það,“ segir hún, og geingur burtu. Að litlum tíma liðnum heyrist aptur barið. Fer sama kona með ljós til dyranna, og kemur aptur og karlmaður með henni. Þau staðnæmast við húsdyrnar, og fer hann að skafa af sèr. „Fannstu allar ærnar?“ spyr hún. „Já,“ segir hann. „Það er gott,“ segir hún, og fer svo burtu. Að litlum tíma liðnum er enn barið; fer sama kona með ljós til dyranna, og kemur enn með henni karlmaður. Þau staðnæmast við húsdyrnar, og fer hann

að skafa af sèr. „Fannstu alla sauðina?“ spyr hún. „Já,“ segir hann. „Það er gott,“ segir hún, og fer burtu. — Að litlum tíma liðnum heyrist enn barið. Konan geingur til dyranna, sem fyrr, með ljós, og kemur enn karlmaður með henni. Fór hann að skafa af sèr fyrir framan húsdyrnar. Þá spyr konan hann lágt að einhverju, og heyrðist þeim kompánum ekki betur en hún segði: „Fannstu alt ókunnuga fèð?“ „Já,“ sagði hann í hálfum hljóðum. „Það er gott,“ segir hún og fer burtu. — Að litlum tíma liðnum er enn barið. Konan fer, sem fyrr, með ljós til dyranna, og nú kemur inn með henni maður kjólklæddur. Af honum fór hún sjálf að skafa á sama stað og hinir höfðu skafið af sèr. Hann spyr hana, hvort nokkrir hafi komið þar í dag. Hún segir það vera. „Voru tekin öll fötin þrælanna frá þeim, og skór og sokkar?“ segir hann. „Já,“ segir hún. „Vel er það,“ segir hann. Fara þau svo burtu. En við þetta seinasta samtal konunnar og kjólmannsins fór ferðamönnunum heldur en ekki að hitna fyrir alvöru um hjartaræturnar. Töldu þeir nú víst, að hyski þetta væri að taka saman ráð sín, hvernig það skyldi drepa sig. En að lítilli stund liðinni var húshurðinni lokið upp, og kom stúlkan inn, sem í þá hafði tekið, og færði þeim heita og feita sauðaketssúpu að borða. Síðan fór hún út, og skeldi hurðinni í lás á eptir sèr. Borðuðu þeir þá eptir lyst sinni, svo hræddir sem þeir voru. Og með því þeir voru þreyttir, sofnuðu þeir bráðum eptir máltíðina, og vöknuðu við, að verið var að lesa húslestur. Hresstust þeir þá heldur í huga, þegar þeir heyrðu það, og væntu að sèr mundi þá síður vera neinn háski búinn. Leið svo nóttin, að ekkert bar til tíðinda.

Morguninn eptir snemma kom stúlkan inn til þeirra. Hafði hún með sèr þur og hrein föt, önnur en sjálfra þeirra, og bað þá fara í þau, því hún sagði, að þeir ættu að vera þar kyrrir um daginn. Fór hún svo út aptur. En þegar þeir voru nýklæddir kom hún enn inn og bar þeim kalt sauðaket, til að borða, og fór síðan út. Á meðan þeir voru að snæða, kom konan sú um kvöldið inn til þeirra. Fór hún þá að spyrja þá, hvaðan þeir væru. Þeir sögðu henni það. Hún spurði þá ýmsra frètta úr Tungunum, en þeir leystu úr öllu eptir mætti. Þá spyr hún þá, hvort þeir þekki Jón bónda á Torfastaðakoti, hvort hann hafi mist brúðarefni sitt í fyrra, hvað menn hafi hugsað um það, og hvernig honum líði. Leystu þeir úr öllu þessu, og Jón sagði til sín, hver hann væri. Þá segir konan honum, að hún sè hið horfna brúðarefni hans. „Þegar eg var að þvo við lækinn forðum, kom þar ríðandi maður, tók mig og flutti mig híngað. Er hann hèr sýslumaður í dalnum, og var nýbúinn að missa konu sína, svo hann tók mig og átti mig. Er hann nú ekki heima í dag, því hann er að taka próf í slæmu og flóknu þjófnaðarmáli í dalnum, og hefir hann verið í því 2 dagana næstu á undan. En hann vill tala við þig,“ segir hún við Jón, „og því vill hann að þú sèrt hèr kyr í dag. Hann vill

sumsè bæta þèr brúðarránið, og gefa þèr dóttur sína, en það er stúlkan, sem þjónaði þèr til sængur í gærkveldi. Og til þess, að koma þèr híngað til viðtals, heillaði hann fè þitt til sín, og svo sjálfan þig á eptir, og mun þèr verða afhent sauðfè þitt, þegar þú ferð á stað.“ — Glaðnaði nú yfir þeim Jóni, og voru þeir kyrrir um daginn í góðu yfirlæti, og skemtu sèr sem bezt þeir gátu. Um kvöldið kom sýslumaður heim aptur, en hafði þó ekki tal af gestum sínum, fyrr en um morguninn eptir. Og hvort sem þeir töluðu margt eða fátt, þá samdist þó alt svo með þeim Jóni, eins og konan hafði áður sagt honum. Sagði sýslumaður, að Jón skyldi koma til sín um vorið eptir stúlkunni, og hafa sama mann með sèr, eða vera einsamall ella. Skyldi hann þá hafa með sèr svo marga áburðarhesta, sem hann vildi; því hann skyldi fá á þá hjá sèr; því fè væri honum til einkis að fá hjá sèr undir sumarið; það mundi undir eins strjúka og aldrei tolla. — Þegar þeir Jón fóru, fèkk sýslumaður honum alt sauðfè sitt með tölu, og fylgdi honum svo lángt á leið, sem hann þurfti. — Vorið eptir fór Jón, og sami maður með honum, og höfðu með sèr 12 hesta reiðíngaða. Sókti hann þá heitmey sína, og lèt sýslumaður alls konar matvöru á hestana, fullklyfja. Þegar Jón kom heim aptur að Torfastaðakoti, gekk hann að eiga sýslumannsdótturina, og bjuggu þau til elli í Torfastaðakoti, og unnust vel. Er frá þeim kominn mikill ættlegur, þó niðjar þeirra sèu hèr ekki nefndir.

En eptir því, sem næst varð komizt var útilegumannabygð sú, sem Jón sókti í konu sína, Hvinverjadalir, eða Þjófadalir í Lángjökli norðanverðum. Og lýkur hèr sögu þessari.

**Ólafur á Aðalbóli.** (Skagfirzk sögn.) Einar hèt maður, og var Magnússon; bjó hann að Stóranúpi í Miðfjarðardölum. Ekki er getið um, að hann væri kvæntur. Dóttur átti hann eina barna, er Sigríður hèt. Ólafur hèt vinnumaður hans og smali; var hann úngur að aldri, og eins bóndadóttir. Hafði hann alizt upp með bónda ásamt henni. Var hann snemma mikill og sterkur og að öllu hinn gjörvulegasti maður. Bóndadóttir var mjög fögur álitum og vel að sèr um alt. Svo er mælt, að Ólafur legði ástarhug á Sigríði, því þeim kom ærið vel saman, og unnust þau mikið. Lofaði hvort þeirra öðru eiginorði. Kvaðst hann einga konu eiga skyldi aðra, en hana. En hún kvað vant fyrir að sjá, að þau gætu notizt: „En skuli eg verða nokkrum manni gefin, kýs eg þig einn, en eingan ella.“ Bundu þau þetta fastmælum, og fór það þó mjög leynt. Vissi einginn þeirra fyrirætlun, nema þau 2. Einar bóndi var mjög ríkur af gángandi fè; átti hann líka nokkrar jarðir þar í sveitinni. Þurfti hann mjög mikillar og dyggrar fjárgeymslu við. Fór Ólafur opt að fè bónda. Gjörði bóndi út fólk á grasafjall, og aflaði þannig matfánga á hverju vori. Var hann búsýslumaður mikill. Skorti hann hvorki útsjón, nè góð faung.

Eitt vor fór vinnufólk Einars bónda á grasafjall, eins og þá var títt. Fór bóndadóttir með; var hún þá 18 vetra. Fór það á fjall það, er Tvídægra heitir. Liðu svo tímar, þar til bóndadóttir tekur kránkleika eður þýngd nokkra, svo hún getur ekki fylgt fólkinu og liggur í tjaldi sínu. Gánga þá allir frá henni til grasatekju, og er skamt var komið frá tjaldinu, gjörir þoku mikla með fýlu og myrkri. Hèlzt það alt til kvölds. Birti þá nokkuð, og kom fólk ekki heim, fyrr en um morguninn eptir. En er það kom í tjaldið, var Sigríður horfin. Vissi einginn, hvað hún hafði farið. Var það helzt til getandi, að hún væri farin í gaungu, þegar henni var batnað. En með því fólk sigraði svefn og þreyta, lagði það sig til svefns, og svaf til kvölds. En er það vaknaði, var ekki Sigríður komin. Þókti öllum það furðu gegna, og var hennar leita farið, og fannst hún hvergi. Leituðu menn árángurslaust 3 daga. Fór nú fólk heim af fjallinu og sögðu bónda frá. Við þessa tíðindasögn varð Einar mjög hryggur og auðsær harmur á öllum. Voru nú feingnir menn, ekki færri, en 30. Fóru þeir á fjall upp, og leituðu hennar viku fulla, og fundu ekki. Var Ólafur með þeim, og þókti allílt að missa konu efni sitt. Varð nú svo að vera, og var kyrt um hríð. Var Ólafi þetta svo mikill harmur, að hann gat varla borið; vildi hann þá burt fara, en bóndi kvaðst ekki mega án hans vera. Var hann vinnumaður og ráðsmaður eptir það hjá Einari bónda 17 ár. Hugði hann aldrei að kvongast þaðan frá. Var hann bæði trúvirkur og mikilvirkur.

Það bar til á einu hausti, að Einari bónda var vant 70 geldínga. Var þeirra víða leitað og urðu ekki fundnir. Leið svo haustið undir veturnætur. Bauð Ólafur bónda að fara í leitina. Var bóndi alltregur til að samþykkja slíkt. En Ólafur kvaðst fara mundi. Bóndi fèkk honum hálfsmánaðar nesti og þrenna nýa leðurskó, því hann vildi ekki með hesta fara, og ekki vildi hann menn með sèr. Bjó hann sig að öðru leyti út sem bezt. Fór hann síðan á fjall upp. Geingur hann nú í 3 daga í góðu veðri; er hann þá kominn að Lángajökli. Leitar hann víða og finnur ekki. Fer hann nú, þar til þykknar lopt og gjörir logndrífu kafald. Fer þá Ólafur villur mjög, og geingur mjög leingi, þar til hann kemur í dalverpi nokkurt. Veit hann nú ekki, hvar hann muni vera. Geingur hann eptir dalnum, og finnur til þreytu og mæði; geingur hann samt, þar til hann finnur fyrir sèr kletta nokkra og því næst bæ einn; er túngarður svo hár, að hann kemst hvergi yfir, þar til hann finnur hlið á garðinum. Þar geingur hann inn. Kemur hann þá að fjárhúsum. Og því næst sèr hann mikinn húsabæ; var bærinn svo háreistur, að hann komst ekki á glugga. Þá barði hann að dyrum. Kemur stúlka til dyra. Hann biður gistíngar, og fer hún inn aptur. Kemur aptur að vörmu spori og kvað gistíng til reiðu. Leiðir hún hann í stofu, og dregur af honum vosklæði. Síðan veitir hún honum beina. Háttar hann ofan í gott rúm og sofnaði

fast. En vaknar aptur við saung og lestur. Eptir lestur heyrir hann, að maður kemur í húsið og heilsar sýslumanni, og spurði, nær hann ætlaði að skera sveitarsauðina; kvað hann sèr leiðast að standa yfir þeim, þar þeir ekki gætu borið sig eptir, eins og hinar kindurnar; væru þeir táplausir með öllu. Þá svarar hinn virðulegi maður, að þeir mundu senn verða skornir, eða fargað með einhverjum hætti. Hættu þeir nú talinu. En Ólafur sofnar aptur og vaknar ekki, fyrr en daginn eptir í seinna lagi. Var þá bóndi kominn á fætur, og veit Ólafur ekki fyrr til, en maður kemur inn tígulegur á rauðum skarlatskyrtli, eða kjól; heilsar hann Ólafi glaðlega og býður góðan daginn. Kemur þá stúlkan inn til þeirra og færir Ólafi þur skóklæði. Fer þá Ólafur á fætur. Spyr hinn virðulegi maður Ólaf að ferðum hans, nafni og ætt. Segir Ólafur honum hið sanna, og kvaðst leita að geldíngum Einars bónda. Spyr bóndi Ólaf, hvort hann sè ógiptur. Hann kvað það satt vera. Bóndi spyr, hversu gamall hann væri. Ólafur kvaðst hafa sex um þrítugt. Bóndi kvað sig undra, að hann væri konulaus, svo gjörvulegur maður, sem hann væri. Hinn kvað vera orsök til þess. Bóndi spyr að orsökum. Segir Ólafur honum alla söguna um hvarf unnustu sinnar og að hann hefði ekki í hyggju að kvongast framar. Bóndi kvað það misráðið, og kvað menn opt kvænast, þó að í fyrstu mislukkaðist; mundi ekki hjálpa að uppgefast við svo búið. „Vil eg“ segir hann „gefa þèr dóttur mína, og er hún hèr. Mun hún ekki vera í neinu minni fyrir sèr, en Sigríður, móðir hennar; vil eg þèr nú kunnugt gjöra, að eg hefi valdið hvarfi hennar, og er hún nú mín kona, og getur þú ekki feingið hana; og er dóttir hennar og mín eingu síður. Líka hefi eg valdið hvarfi sauða þeirra, er þú leitar að, til að ná þèr híngað til mín. Vil eg nú gefa þèr dóttur mína, svo þú verðir ekki vanhaldinn af giptumálunum. Skal eg gjöra þig svo vel úr garði, að þú verðir vel ánægður að skilnaði. Er eg hèr sveitarhöfðíngi. Eru hèr í dalnum 18 bæir og einn prestur mjög gamall; er hann mjög margvís. Messar hann á hverjum helgum degi og verða þá margir að koma til kirkju. Þefar hann þá af hverjum manni, og finnur það á lyktinni, hvort nokkur maður hefir komið í dal þenna. Svo er hann fjölkunnugur. Má nú einginn sjá þig, nema við. Eg á einn mann í hrossaleit og skal hann fara til messu á næst komandi helgi.“ Síðan býður hann Ólafi til borðs með sèr, og þáði hann það. Kemur hann þá í hús bóndans og þekkir hann þá Sigríði, vinkonu sína gömlu, og töluðust þau við öll saman. Er Ólafur þar um kyrt um daginn; var þá gott og bjart veður. Leiðir höfðínginn hann þá á hæð eina, og sýnir honum um allan dalinn, og þykir Ólafi það fagurt land og fallegar byggíngar. Fer svo, að Ólafur þiggur þenna ráðakost, og er honum heitið konunni. Hèt hún Sigríður í höfuðið móður sinni. Daginn eptir er gott veður. Lætur bóndi söðla 2 hesta, annan fyrir sig, en annan fyrir Ólaf. Ríða þeir nú báðir á stað, þar til þeir

koma að einum fjárhóp; er þar maður fyrir. Þekkir Olafur þar geldínga Einars bónda. Fer smalamaður á stað með sauðina og rekur á undan þeim til bygða. Fara þeir, þar til þeir koma að einum helli. Þar stíga þeir af baki og hvílast. Taka þeir þá til matar. Segir þá bóndi við Ólaf: „Nú veizt þú, hvað þú átt að fara, þar þú þekkir þig, og munum við hèr skilja. Þegar þú kemur heim, færir þú hverjum sitt. Í vetur mun bóndinn deya á Aðalbóli, og mun þeirri jörð sagt lausri. En þú skalt fá þessa jörð hjá húsbónda þínum til byggíngar, og mun það auðsókt. Þú skalt taka 2 vinnukonur, 2 vinnumenn og 1 smaladreing, og flytja þángað búslóð þína á rèttum tíma. Síðan skaltu koma á tilteknum degi og láta eingan fylgja þèr, nema smaladreing þinn, því hann er grannvitur. Vertu með 7 hesta undir reiðíngi. Færð þú þá hjá mèr heimanmundinn með konunni, og það sem þú þarft til bús. Ólafur kvað svo vera skyldi. Síðan skildu þeir. Fer Ólafur leiðar sinnar, þar til hann kom til bygða; var honum þar vel fagnað, og þóktust vinir hans hann úr helju heimt hafa. Kvaðst hann hafa fundið fèð til og frá um heiðina. Leið nú á veturinn, þar til bóndinn á Aðalbóli sýktist og dó, en ekkja hans treystist ekki að vera við búskap og sagði lausri jörðinni.

Það var einn dag, að Ólafur kom að máli við Einar, húsbónda sinn, og biður hann að leigja sèr Aðalból, því hann vilji nú kvænast og búa. Einar mælti: „Hvernig má það vera, að þú getir búið og eiga ekki meira lausafè, en til er?“ Ólafur kvaðst mundi sjá þar fyrir. Einar mælti: „Þá muntu vilja fara frá mèr.“ Olafur kvað svo vera „og vildi eg biðja þig, að þú beindir að með mèr og kæmir öllu vel í lag, sem mig á brestur, að laga til búskapar fyrir mig.“ Einar kvað svo vera skyldi. Fèkk Einar honum nú byggíngarbrèf. Breytir nú Ólafur háttum sínum að öllu, eins og fjallbúinn hafði honum áður kent. Um vorið flutti hann á jörðina með 2 vinnukonur, 2 vinnumenn og smalamann. Síðan bað hann Einar á Stóranúpi að lána sèr 7 hesta með reiðíngi og reipum. Var það auðfeingið. Fór Ólafur með smalamann sinn, var hann mjög huglítill og grannvitur. Fann hann við hellinn á ákveðnum stað fjallbúann með konuefni sitt. Var þar margt fólk samankomið, og varð smalamaður ákaflega hræddur og þorði ekki nærri að koma. Tekur Ólafur reiðíng af hestum sínum þar spottakorn frá, og fól smalamaður sig þar í reiðíngi hans. En Ólafur fann fjallbúa, og varð hinn mesti fagnaðarfundur. Greiddi fjallbúi mund dóttur sinnar í gángandi fè og góðum gripum. Fèkk þar Ólafur 100 ær og 80 gemlínga, 10 hross með reiðíngi og reipum, 2 reiðhesta, hina mestu gripi. Flutti hann þaðan klyfjar á 20 hestum; var það mest ket, smèr, tólg, skyr, ull og búsgögn og fleira. En áður þeir skildu, mælti fjallbúi: „Nú verðum við að skilja verr, en vera skyldi, þar sem eg get ekki sèð, að þèr komi meira að gagni í þetta sinn. En áður þú ferð í kaupstað í sumar, þá kemur þú híngað og sækir ullarhár. Skaltu

fara með 7 hross undir reiðíngi. Ekki heldur skaltu kvænast, fyrr en í haust, og er hèr skírnarattest konuefnis þíns og kúabóluattest. þetta hvorttveggja skaltu geyma vandlega. En ef sóknarprestur ykkar vill ekki gefa ykkur saman, sem mig grunar, þá skaltu fara til prófastsins og fá honum brèf frá mèr; mun hann þá viljugur gefa ykkur í hjónaband, því hann er skólabróðir minn. En fyrir því, að mig henti slys nokkuð, varð eg að fara í útlegð. Í haust skaltu híngað koma og sækja til mín nokkra geldínga, til að skera. Getur þú selt þá geldíngana, sem þú þarft ekki við, þar þú getur ekki höndlað þá hjá þèr. Hèr eru 80 ríkisdalir í peníngum, sem þú getur feingið fyrir 3 kýr. Svo vona eg þú sèrt búfær í bráð." Eptir það skildu þeir með miklum kærleikum. Segir ekki af ferðum Ólafs, fyrr en hann kemur heim með konuefni sitt. Kvað hann hana vera austan að. En smalamaður hans sagði ekki frá, hvert hann hefði farið, annað en, að hann hefði sèð margt fólk og feingið feitt ket að jeta. Nú tekur Sigríður við öllum búráðum, og fer henni það vel úr hendi; var hún hin ástaverðasta kona, og vel að sèr um alt, sem móðir hennar. Fyrir túnaslátt fór Ólafur í hellinn og fann þar fjallbúa; varð þar fagnaðarfundur. Tók hann hjá honum þar ull á 7 hesta, og flytur til bygða. Lagði hann ullina í kaupstaðinn og gjörði undarlega mikinn reikníng. Fór hann að öllu, eins og honum var ráð til gefið. Ekki vildi prestur gefa þau í hjónaband. Fór Ólafur þá til prófasts og fær honum brèfið. þegar prófastur hafði lesið, brosti hann og tók hans máli vel. Gaf prófastur þau saman, eptir að hann hafði yfirheyrt hana. Reyndist hún vel uppfrædd í sínum kristindómi. Var það veglegt brullaup. Eptir það fer hann að finna teingdaföður sinn, og var það við hellinn. Fagnaði teingdafaðir hans honum vel, og fèkk honum 80 sauði gamla, og bað hann slátra þeim sem fljótast. Fer Ólafur svo heim, og slátrar geldíngum sínum. Situr hann nú í búi sínu lánga stund; var það mikið bú og rausnarlegt. Græddi hann mikið fè og varð mjög ríkur. Opt fundust þeir mágar við hellinn, og er ekki getið viðskipta þeirra þaðan í frá. Ólafur bóndi á Aðalbóli og Sigríður kona hans áttu mörg börn, og er mikill ættbogi frá þeim kominn á Vesturlandi.

Og endar svo þessi frásaga.

**Prestsdæturnar og útilegumennirnir.** (Eptir handriti þorvarðar Ólafssonar.) Einu sinni var prestur fyrir norðan; hann átti 3 börn; hètu dætur hans Sigríður og Helga, en um nafn sonar hans er ekki getið. Sigríður var efnilegust af börnunum; var hún bæði falleg og vel að sèr. Sonur prestsins reri á suðurlandi á vetrum á tveggja manna fari hjá formanni, sem var ókvæntur. það bar til einn sunnudagsmorgun, þegar sonur prestsins reri fyrir sunnan, að hann lá vakandi í rúminu hjá formanni sínum. Segir þá formaður meðal annars, að sig lángi nú til að fara að gipta sig,

en hèr sè eingin stúlka, sem sèr finnist, að sig lángi til að eiga. „Ef þú kemur norður,“ segir prestssonur, „þá skal eg útvega þèr Sigríði systur mína;“ „er það efnileg stúlka,“ segir hann, „og fremri, en Helga systir mín.“ Talast þá svo til millum þeirra, að formaður fer norður um vorið með prestssyni í kaupavinnu. Prestssonur útvegar honum kaupavinnu að nokkru hjá föður sínum, en að nokkru á næsta bæ. Nú taka menn eptir því, að Sigríður gefur sig lítið að formanni, en þó biður hann hennar og fær þá hreint afsvar. Síðan ber hann bónorð sitt upp við föður hennar og tekur hann því mjög fjarri. Samt sem áður fylgir prestssonur máli þessu svo fast, að Sigríður er látin fara suður um haustið með formanni. Prestssonur fylgir þeim suður á fjöll, og skilur þar við þau. Nú halda þau leið sína suður á fjöllin. Einn dag kemur á þau þoka mikil og svo dimm, að þau sjá varla hvort annað. Formaður hverfur Sigríði í þokunni, en þó sýnist henni alt af vera maður á undan sèr. Loksins snýr maður þessi til hennar, tekur hana af baki og ber hana inn í bæ, og þar inn í herbergi. Þar er ekkert í herberginu, nema uppbúið rúm og eitt borð. Því næst geingur maður þessi út og nú situr Sigríður þarna ein. Þegar líður undir kvöld, kemur til hennar stúlka; hún færir henni mat, lætur hana hátta í rúminu og tekur öll fötin hennar. Nú sofnast Sigríði ekki vel, og fyrst þegar líður á nótt, rennur á hana mók. Samt vaknar hún skjótt, og er þá maður fyrir framan hana í rúminu. Henni verður mikið um og hryndir honum fram úr rúminu, og fer hann þá út. Þá sýnast henni allskonar ofsjónir, svo hún verður hrædd. Kemur þá dreingur inn til hennar og segir, að það sè von, að hún sè hrædd, fær henni bók og segir, að hún skuli leggja hana á brjóstið. Hún gjörir þetta, og hverfa þá ofsjónirnar. „Gáðu að því,“ segir dreingurinn, „vertu ekki slæm við hann bróður minn“ og fer hann síðan út. Um morguninn kemur stúlkan með matinn og færir henni fötin. Þarna er nú Sigríður samt ein allan daginn. Um kvöldið kemur stúlkan með mat handa henni og tekur fötin, eins og fyrri, en aldrei talar hún orð við Sigríði. Um nóttina sofnar hún, en þegar hún vaknar aptur, er maður fyrir framan hana, og hefir lagt aðra höndina yfir um hana. Hún sprettur upp, en maðurinn heldur nokkuð svo fast. Þá fer hún í vasa sinn, nær hnífi og ætlar að reka í hann. Þá fer hann úr rúminu og út. Nú sýnast henni allskonar ljótar myndir; en þegar hún leggur bókina á brjóstið, hverfa þær. Kemur þá dreingurinn til hennar og segir, að henni liggi lífið á, að vera ekki slæm við bróður sinn. Nú líður af nóttin og næsta dag veitir stúlkan henni allan sama viðurgjörníng, og hina dagana, ber henni mat og tekur föt hennar að kvöldi. Þriðju nóttina sofnar Sigríður, og sefur nú leingi, en þegar hún vaknar, liggur maður fyrir framan hana og sefur hún svo alla nóttina, að hún skiptir sèr ekki af því. Um morguninn kemur til hennar maður á rauðum kjól. Hann mælti til Sigríðar: „Það er mèr að kenna, að þú ert híngað komin;

er það ætlun mín að hafa þig fyrir konu. Hèr er nú ekki annað fólk, en móðir mín og sytskin mín 2, sem þú hefir sèð, og heitir bróðir minn Þórður. Í dal þessum er bygð mikil og er eg sýslumaður þeirra dalbúa.“ Síðan leiðir hann Sigríði í annað hús og er ekkert í húsinu, nema borð eitt lítið. Þar dregur hann út skúffu undan borðinu, og er hún full með fíngurgull. Hann tekur eitt fíngurgullið og dregur á hönd henni, og leiðir hana síðan í hús það, sem hún áður var í. Nú er ekkert frá sagt um samfarir þeirra, nema þau lifa í bæ þessum, eins og hjón og fellur Sigríði allvel þar að vera; og fannst henni mikill munur á því, eptir að hún setti upp hrínginn. Eitt sinn segir útilegumaður við Sigríði, hvort hún vilji ekki sjá, hvernig ástatt sè hjá foreldrum hennar, og vill hún það. Hann leiðir hana þá í afvikið hús, þar er brunnur. Hann fær henni gler og segir henni að halda því yfir brunninum. Þá sèr hún heimili föður síns og fólk alt og hvernig ástatt er heima. Meðal annars sá hún formanninn að sunnan vera að draga Helgu systur sína á hárinu. Við þetta varð Sigríður óglöð mjög. Einu sinni tekur Sigríður eptir því, að Þórður er ekki heima nokkra daga. Bregður henni þá við, að einn dag kemur hann með Helgu systur hennar; hafði Þórður farið í bygð og getað náð henni; verður nú með þeim systrum mikill fagnaðarfundur. Sigríður frèttir nú, að formaðurinn hafði snúið aptur um árið, þegar þau feingu þokuna, og fèkk Helgu systur hennar fyrir konu; og voru samfarir þeirra hinar verstu. Nú lángar Sigríði mjög til að finna foreldra sína, og leyfir maður hennar það. Hann segir henni, að hún skuli gefa þeim kost á, annað hvort að fara híngað í dalinn, eða þá að hann skuli styrkja þau þar heima. Nú fer Sigríður heim, og fer Þórður með henni. Hún kemst til foreldra sinna, og fagna þeir henni með mikilli blíðu, því þeir vissu ekki annað, en að hún mundi vera fyrir laungu dáin. Sigríður segir þeim nú af högum sínum og öllu, eins og til hafði borið, síðan getur hún um kosti þá, sem maður sinn bjóði þeim, og kjósa þau þá heldur að fara í dalinn til Sigríðar. Að því búnu fara þau í dalinn með henni og með alt sitt. Fèkk Þórður Helgu prestsdóttur, en systir útilegumannsins fèkk prestssoninn, þann sem áður er um getið. Tók fólk þetta sèr alt bólfestu í dalnum og varð dalur þessi seinna að bygð og urðu þá ekki leingur búendir dalsins útilegumenn. Er svo sagt, að þeim dalbúum liði vel til elli og búnaðist vel.

**Sigríður Eyafjarðarsól.** (Eptir sögu gamallar konu í Eyafirði.) Það er upphaf sögu þessarar, að í Möðrufelli í Eyafirði bjuggu eitt sinn rík hjón, og er ekki getið um nöfn þeirra; ekki varð þeim barna auðið, utan einnar dóttur, er hèt Sigríður. Hún var allra kvenna fríðust, og var þessvegna kölluð Eyafjarðarsól. Hún var eins dygðug, eins og hún var fríð. Þegar hún var vaxin orðin, komu lærðir menn og ólærðir að biðja hennar sèr til handa. En faðir hennar var staðfast á móti öllum bónorðum, enda

þótt hún sjálf hefði viljað taka einhverjum þeirra, er báðu hennar. Á þeim tíðum var siður að messa á jólanætur, og keptu allir við að fara til kirkju, en samt vildi einginn vera einn heima á neinum bæ. Einn vetur í Möðrufelli var vinnufólk að tala um, hver mundi vilja verða heima á jólanóttina. En eitt sinn þegar það er að metast á um þetta, kom Sigríður þar að, og spurði, hvað það vildi gefa sèr til að vera heima, svo allir mættu fara til kirkju. Allir svöruðu í einu hljóði, að ef nokkuð væri til í eigu sinni, sem hún vildi eiga, þá skyldi það vera henni falt. Kvaðst hún þá hafa verið að gera að gamni sínu við það og vildi ei þiggja neitt af neinum, en sagðist samt mundi verða heima, ef það svo vildi. Allir hèldu, að hún mundi ei fá það fyrir föður sínum. En hún kvaðst ætla að spyrja föður sinn að því, og það gjörði hún. Hún segir honum, að hana lángi til að vera heima fyrir fólkið, því hún haldi, að sig saki það ekki. Faðir hennar tekur því illa og kvað það undarlegt, að hún skildi vilja vera heima, en fara ekki með þeim, sem vandi hennar var til. Hann segir sig gruni, að fyrir henni liggi einhver ógæfa, fyrst hún hafi svo sterka laungun til að vera heima. Hún kvað nei við, og sagði sig mundi ekki saka, það væri hún viss um. Karlinn lætur þá þetta eptir henni, fyrst hún vilji hafa það svo. Segir hann hjúum sínum, að þau megi fara, því hún ætli að vera heima. Fólkið verður fegið mjög. Nú líður fram til jóla og aðfángadagur kemur. Fólkið fer nú að búa sig með mesta fögnuði; var fagurt veður, auð jörð með frosti, en túnglsljósslaust. Þegar fólkið var búið, segir bóndi því að kveðja Sigríði, en sjálfur kveðst hann ætla að kveðja hana síðast, og búa sjálfur um bæinn og skilja við. Hún fer nú fram með fólkinu, og kveður það hana. En faðir hennar segir við hana, að hún skuli gá að því, að lofa eingum manni inn í nótt, þó þess verði leitað, og ekki fara á fund neins manns, og tekur henni sterkan vara fyrir því, að hún skuli eingan gaum gefa að, þótt barið verði að dyrum, eða guðað á glugga. Kveður hann hana nú og segist vona, að eingin lifandi vera komist inn í bæinn, nema honum sè lokið upp. Fer nú fólkið af stað, en hún fer inn aptur og fer að búa sig. Að því búnu kveykir hún kertaljós, tekur bók og fer að lesa í henni í svefnherbergi foreldra sinna. Líður nú fram til miðnættis, að hún verður einskis vör. Þá er alt í einu barið að dyrum, og er hún samt kyr inni, sem áður. Er þá barið aptur, og fer à sömu leið. Enn er barið í þriðja sinn og miklu stórkostlegar, en fyrr, svo nálega þókti sem bærinn mundi molazt hafa, hefði hann ei verið rammgjör. Hún gegnir ei að heldur. Líður nú dálítil stund. Þá heyrir hún, að geingið er upp á bæinn og eptir honum, að glugganum, er var yfir henni. Hún heyrir kallað á glugganum, og heilsað uppá hana og tekur hún kveðjunni. Hún lítur út í gluggann. En dimt var úti, þó gat hún sèð andlit mannsins og þókti henni það svo fagurt, að slíkt hafði hún aldrei sèð á æfi sinni. Hann

biður hana að finna sig út. Hún segist hvorki geta það, nè mega. Hann biður hana því betur, og segir, að það skuli ekki tefja hana leingi. Hún segir, að það sè sama, hún gjöri það ekki, segir hún, að hann geti lokið erindi sínu á glugganum. Það segist hann ekki geta; kveðst hann þurfa að ná fundi hennar, því hann þurfi að fá að drekka. Hún segist geta ráðið úr því, því ausa sè á bæarveggnum og lækur renni hjá bænum, og geti hann feingið þar að drekka og hafi hún ekki ráð á öðrum svaladrykk. Hann segist ekki geta drukkið helblátt vatnið. Þá segist hún ekki geta bjargað honum við. Hann segist þá verða að fara svo búinn frá henni, en það kveðst vilja segja henni, að einhvern tíma kunni henni að verða eins heitt um hjartaræturnar, eins og sèr sè nú. „Það fer sem auðið er,“ segir hún. Síðan fer hann sinn veg, og verður hún einskis vör framar um nóttina. Nú kemur fólkið heim um morguninn. Óðar en karlinn er búinn að heilsa henni, spyr hann hana áhyggjufullur, hvort hún hafi einskis orðið vör um nóttina. Hún kveður nei við. Hann segir, að hún þurfi ekki að segja sèr neitt um það, segist hann vita það vel og sjá það á henni; geingur hann þá svo fast á hana, að hún verður að segja honum upp alla söguna. Hann spyr hana, hvort hún hafi ekki lokið upp fyrir honum. Hún neitar því. Hann kveður hana hafa gjört vel í því. Ekki segist hún vita það, en það muni síðar sannast hversu holt sèr verði, að hún hlýddi boði hans. Er nú ekki meira um þetta talað.

Nú líður fram til næstu jóla, og verður nú tilrætt um það milli fólksins, hver nú muni vilja vera heima. Sigríður segist vera til með að verða heima aptur fyrir það, sem fyrr; og er það ráðum ráðið, að hún verði heima næstu jólanótt. Nú kemur aðfángadagskvöld, og er sama veður, sem áður, en túnglsljós og björt nótt. En þenna dag verður móður hennar svo snögglega ílt, að hún treystist ei til að fara, og segir Sigríður, að fleiri muni verða heima, en ætlað var í fyrstu, því faðir sinn muni varla fara. Nú býr fólkið sig til kirkjunnar og fer af stað. En foreldrar Sigríðar og hún eru eptir. Karlinn lokur nú sjálfur bænum og býr um hann, sem fyrr, og fer nú að lesa. Þegar hann er búinn að því og líður fram að miðnætti, þá er barið ógurlega að dyrum. Sigríður spyr þá föður sinn, hvort hún eigi ekki að fara til dyra. Karl kveður nei við; kveðst hann sjálfur vilja mæta komendum, því þeir vilji finna sig á undan henni. Nú fer karlinn út, og er svo leingi í burtu, að þeim mæðgum er farið að leiðast. Sigríður segir því við móður sína, hvort hún eigi ekki að vitja um föður sinn. En móðir hennar segir, að hún skuli enn bíða við, því ekki væri betra, að hún færi og kæmi aldrei aptur, ef óvættur hefði grandað föður hennar, og leið enn nokkur tími. Þá ætlar Sigríður fram, en í því kemur karlinn inn og er á honum æði mikið. Skipar hann Sigríði að búa sig hið skjótasta, því nú sè sá kominn, er hann hafi geymt hana leingst. Hún kemur hvorki fyrir sig orði nè eiði, en spyr þó, hver

það sè og hvert hún eigi að fara. Hann segir hún fái að vita það seinna, hún þurfi einúngis að flýta sèr, því hann vilji ekki bíða. Móðir hennar spyr, hvernig á þessu standi, og i hvaða hendur hann ætli að láta hana; segir hún, að þetta sè undarlegt af honum. Karlinn segir, að þær skuli ekkert hugsa um það. Nú fer hún að búa sig, og segir hann hún skuli nú kveðja móður sína. Hún gjörir það, og má nærri geta, með hvaða skaplyndi þær hafa skilið. Segir móðir hennar, að þótt von hefði verið á, að sèr mundi batna, geti það eingan veginn orðið, fyrst að þetta hafi komið upp á. Nú fylgir karlinn henni út. Þegar hún kemur út, sèr hún standa 3 menn á hlaðinu, og voru þeir líkari tröllum, en mennskum mönnum og einn þó stærstur og ljótastur, og að því skapi illilegur, svo Sigríði stóð megn ótti af. Voru þar á hlaðinu 4 hestar og var einn af þeim reiðhestur Sigríðar með söðli hennar á. Síðan kemur hinn ljótasti af mönnum þessum og keyrir hana upp í söðulinn. Nú kveðja þeir karlinn með mestu virtum, einkanlega þessi eini. Sigríður kveður hann líka. Nú ríða þeir af stað, og fer hinn ljótasti á undan, er henni virtist vera biðillinn, og ríða þeir fram fjörð og svo upp á fjöll, og veit hún nú ekkert, hvað þeir fara framar. Ekki tala þeir neitt við hana, og ekki talast þeir heldur við sín á milli; fer hana nú að syfja, svo hún riðar til í söðlinum. Svona hèldu þeir á fram, að henni virtist í 3 dægur, uns þeir komu að einstígi síðla dags. Þá fara þeir allir af baki. Geingur þessi eini að henni og þrífur hana úr söðlinum, og segir henni, stuttur í svari, að hún verði að gánga hèr ofan. Nú teyma þeir hestana, en hún geingur á eptir ofan einstígi þetta; var það svo bratt, að hún varð að styðja sig við lendina á hesti sínum, er aptastur gekk. Þegar þeir voru komnir ofan, sèr hún þetta er djúpur dalur, er þeir eru komnir í, og fara þeir nú allir á bak aptur, og kastar þessi sami maður henni óþyrmilega upp í söðulinn, en talar ekkert við hana. Þeir ríða nú fram dalinn; var hann grasi vaxinn og blóðrauður upp á fjalla tinda. Á ein rann eptir dalnum. Eingin sèr hún þar mannaverk, en hefði hún verið í góðu skapi, þá hefði henni fundizt ánægjusamur og fagur dalurinn. Þeir ríða nú þegjandi fram dalinn. Sèr hún þá mikinn hrossahóp með allavega litum hestum og á ýmsum aldri. Þá kallar þessi eini til hennar og spyr, hvort hún vildi ekki eiga þann, er þetta ætti. Hún segir: „Betra er yndi, en auður.“ Nú ríða þeir leingra. Þá sèr hún uxaflokk mikinn; eingu síður var hann, en hestarnir og voru nautin á ýmsum aldri. Hann kallar þá til hennar sömu orð og fyrr, en hún svarar hinu sama. Því næst sèr hún afarmikinn fjárhóp, svo furðu gegnir; sýndist henni það fleira, en alt fè úr Eyafirði, þótt komið væri í einn hóp. Hann kallar þá til hennar sömu orð, en hún svarar hinu sama. Enn ríða þeir um stund. Þá sèr hún mikinn bæ og reisulegan; sýndist henni hann vel og traustlega smíðaður. Ekki sá hún fleiri bæi. Koma þeir nú að túngarði

miklum, var hlið á honum og tröð heim; túnið var slètt og vaxið ýmsum fögrum grösum. Þeir ríða heim á hlaðið, og sèr hún þar litla, en snotra kirkju, og þykir henni það meira vert, en alt hitt. Þeir fara nú af baki, og tekur hinn sami maður hana úr söðlinum og segir við hana: „Hvers viltu óska?“ Hún svarar: „Gánga í kirkju.“ Hann mælti: „Þá verður þú að gánga með mèr.“ Tekur hann þá lykilinn upp hjá sèr og lýkur upp kirkjunni og segir henni að fara inn; skuli hún koma aptur heim á hlaðið, þegar hún sè búin að vera í kirkjunni eins leingi, og hún vilji. Síðan geingur hún inn í innsta sætið og sezt þar niður. En er hún hefir gjört bæn sína, sofnar hún út af, og dreymir hana þá, að bláklædd kona komi upp úr kórgólfinu, gángi fram í kórdyrnar og segi: „Þú ert þá komin híngað, Sigríður Eyafjarðar sól. Faðir þinn hefir ekki geymt þig til ónýtis. Þessi maður hefir gipt sig 2 konum, og er eg hin seinni, og hefir hann ráðið okkur báðum bana. Kemur það til af því, að þeir eru 3 bræður og eru allir í álögum.[1] En fyrsta kvöldið, sem hann ætlaði að hátta hjá okkur, bar hann upp fyrir okkur spurníngar, en við gátum ekki svarað þeim, og því rak hann okkur í gegn. En nú veit eg, hverju við hefðum átt að svara, og vil eg því segja þèr það, því vel get eg unt þèr leingri sambúðar við hann, en okkur varð auðið.“ Segir hún henni þá spurníngarnar þrisvar og lætur hana hafa orðin eptir sèr og biður hana að muna sig um að taka vel eptir þeim og muna þær, því henni megi ekki verða orðfall, og verði hún að svara hverri spurníngu, þegar hann sè búinn að bera hana upp, og ekki láta hugfallast, þótt henni sýnist hann vera í versta hams. Þykist hún hafa þessi orð þrisvar eptir henni. En að því búnu hrekkur hún upp, og sýnist henni, að hún sjái á eptir konunni. Hún man orðin og hefir hún þau nú upp aptur og aptur með sjálfri sèr. Geingur hún nú út úr kirkjunni og heim á hlaðið. Þar stendur fríð stúlka í bæardyrum. Hún heilsar Sigríði og leiðir hana inn; segist hún vera systir bræðranna og er hún skemtileg í tali. Hún sýnir henni nú alt uppi og niðri í bænum og finnst henni mikið um þá reglusemi og fegurð, sem þar var á öllu; auður var þar og ákaflega mikill, en ekki sèr hún fleira fólk, en þá bræður og stúlkuna, systur þeirra. Nú leið hálfur mánuður. Þá segir stúlkan henni, að nú standi til brúðkaup þeirra, og fagnar Sigríður lítt þeirri frètt. Nú kemur brúðkaupsdagurinn og er nú búizt við með mestu viðhöfn. Þar kemur prestur og nokkurt fólk annað; eru þau nú gefin saman og svo haldin veizla, og er nóg af öllu, bæði vínfaungum og öðru. En að veizlunni endaðri fer hver maður sem skjótast á burt, en bræðurnir eru orðnir svíndrukknir, svo að þeir vita ekki sitt rjúkandi ráð, og láta þeir nú svo illa, sem verstu tröll. Hús eitt lítið var út úr baðstofunni, og hèldu þeir sig þar, er þeir voru í

1. Hèr vantar hvernig á álögunum stendur og hver á þá hafi lagt.

þessum ham; eru þeir nú að svalli þessu fram á nótt. Þá segir stúlkan til Sigríðar, að ekki dugi að fresta því, að gánga til hvílu. Fylgir hún þá Sigríði í lítið afhús, er ætlað var fyrir svefnhús hjónanna, og var allsnoturt, og eru þær nú báðar í döprum hug. Stúlkan segir Sigríði að hátta fyrst, hann muni koma bráðum. Sigríður háttar nú. En þegar lítil stund er liðin, snarast þeir bræður fram, og fara hver í sinn stað, en brúðguminn kemur inn og sezt á rúmstokkinn hjá Sigríði, mjög illúðlegur og ber upp fyrir henni spurníngarnar[1], og um leið lezt hann vera að þreifa eptir einhverju niður með rúmstókknum. En óðar en hann hafði slept spurníngunum, hafði hún svarað honum hinu rètta, er konan hafði sagt henni. En í þessu fellur hann á gólfið í ómegin, og er þá orðinn hinn fríðasti maður. Eins fór með bræður hans. Kom þá fjöldi fólks að stumra yfir honum og hinum tveimur. Nú þykir Sigríði taka að vænkast ráðið, og sýnist henni hann gánga næst þeim að fegurð, er forðum kom á gluggann á jólanóttina. Nú raknar hann við og háttar hjá henni og er hann og bræður hans nú stiltir og viðkunnanlegir menn. Takast nú með þeim Sigríði góðar ástir. Um morguninn þegar hún kemur á fætur, fer hún út að skoða sig um; sèr hún þá bæi og fólk beggja vegna í dalnum og nóg af körlum og konum á heimilinu. Sigríður er nú í góðu yfirlæti; hefir hún nóg af öllu og má ráða öllu, er hún vill, því maður hennar var henni mjög eptirlátur. Að ári liðnu eignast þau eina dóttur, er Sigríður hèt, í höfuð móður sinni. Þegar stúlkan óx upp, var hún eptirmynd móður sinnar að sjón og hegðun allri. Dalbúar voru vanir að fara í kaupstað á hverju sumri allir saman og voru ekki skemur í burtu, en 3 vikur. Maður Sigríðar býður henni að fara í kaupstað sèr til skemtunar, en hún kveðst ekki vilja það, og það því síður, sem hún væri nýbúin að eignast barn, er hún þyrfti að annast. Hann fer nú í kaupstað. En þegar hann kemur aptur, fær Sigríður með honum brèf frá föður sínum, þess efnis, að móðir hennar sè sáluð, og megi hún vitja arfs í Eyafjörð. Hún skrifar föður sínum næsta sumar, er maður hennar fór í kaupstað, að hann skuli skipta arfi sínum milli fátækra í Eyafirði, því hún hafi nógan auð. Nú er þess að geta, að á 3 sumri er stúlkan, dóttir Sigríðar, var þriggja ára, var það einn góðan veðurdag, að binda átti hey af eingjum hjá Sigríði, þá var einginn heima, nema Sigríður og barnið. Þá er barið að dyrum. Hún kemur til dyra og barnið með henni. Hún sèr, að maður, fríður sýnum og tígulega búinn stendur fyrir dyrum og hjá honum fallegur hestur með söðli. Hann geingur til hennar, heilsar henni og biður um að drekka. Hún tekur vel kveðju hans, fer inn, sækir mjólk og færir honum. Hann drekkur, og fær henni askinn. Hún fer inn og sækir í hann aptur. En þegar hún

---

1. Hèr vantar, hverjar spurníngarnar voru, og svör hennar. Sumir segja, að spurníngarnar hafi verið 3, aptur segja aðrir, að hún hafi einúngis verið 1.

kemur út, er hann allur á burt og barnið líka, því það hafði verið á hlaðinu á meðan, að leika sèr. Henni verður bylt við þetta, og þykir undarlegt, að hún skuli hvergi sjá veður nè reyk eptir af honum; og þykir henni hann ótrúlega fljótt horfið hafa. Hún leitar samt úti og inni og kallar á barnið, en það kom fyrir ekki. Í þessu kemur dreingur einn heim með heyferð. Hún kallar til hans og segir honum að taka ofan sáturnar í flughasti, taka einhvern fljótasta hestinn og ríða til manns síns og segja honum, að sèr liggi lífið á að finna hann. Dreingur gjörir þetta. Bóndi kom þegar heim og sagði Sigríður honum frá hvarfi barnsins og varð honum mikið um, en stilti sig þó vegna konu sinnar. Var nú fólkið kallað frá heybindíngunni. Fèkk hann svo alla úr dalnum, til að leita; var leitað í 3 daga í allar áttir og kom fyrir ekki. Lagðist nú Sigríður í rekkju og lá nokkra stund; töldu allir hana af. Bóndi hughreysti hana, sem hann kunni. Eptir missiri fór Sigríður á fætur aptur, en var þó jafnaðarlega föl og dauf. Líða nú fram tímar. Hann býður henni að fara með sèr í kaupstað, en hún kvaðst ekki hafa neina ánægju af því. Nú líða svo 12 ár, að ekkert ber til tíðinda. Þá ber það við eitt sumar, að þeir bræður búa sig í kaupstað. Þá vekur Sigríður máls á því, að sig lángi til að fara fremur venju, og heldur hún það ekki vera einleikið. Bóndi hennar verður þessu feginn, og vonar, að henni muni gleymast missirinn, og tekur vel undir þetta. Lætur hann söðla bezta hestinn sinn handa henni. Fara nú allir af stað í kaupstaðinn, og er ekki getið ferða þeirra, uns þeir koma í hann; þeir taka af nálægt kaupstaðnum, því kvöld var komið. Um morguninn segir hann Sigríði, konu sinni, að koma með sèr til búðar kaupmanns og sjá sig um, því þar sè margt að sjá. Segist hann hafa alla sína verzlun við einn kaupmann og sèu hèr þó fleiri kaupmenn. En er hann var með hana á leiðinni til búðarinnar, gjörði svo mikla skúr, að hann fór með hana inn í hús eitt. Þar sat inni kaupmaður og var að skrifa. Þau hjón heilsa honum, en hann tekur vel kveðju þeirra. Þar voru ekki fleiri í stofunni, en kaupmaður. Maður Sigríðar biður kaupmann að lofa konu sinni að sitja þar inni, meðan skúrin gángi af. Kaupmaður segir það velkomið, tekur stól og setur öðru megin við borðið, er hann sat við, og bauð henni að sitja þar. Fjallabúi fer svo út aptur, en Sigríður sítur þar eptir. Kaupmaður sat og skrifaði. Eingu orði varpaði hann á Sigríði, en það sèr hún, að hann gefur henni smátt og smátt auga; þykir henni, sem hún hafi sèð einhvern tíma sama svipinn. Loks ávarpar kaupmaður hana, og spyr, hvort hún hafi aldrei komið þar í kaupstað fyrr. Hún neitaði því. Hann kvað sèr þykja undarlegt, að hún skyldi aldrei hafa komið með manni sínum, og segir, að hann sè sèr alkunnugur. Hún segir, að sig hafi aldrei lángað til þess, og hafi sèr þó staðið það til boða. En núna hafi sèr dottið í hug að fara einu sinni. Hann segir, að það hafi verið vel farið, að henni hafi dottið í hug að fara núna. Kaupmaður

hættir nú að skrifa, og spyr hana enn fremur, hvort þau hjón eigi ekki nein börn. Hún kvað nei við og brá lit. Hann tekur eptir því, brosir við og segist ekki trúa, að hún segi sèr satt. Hún segir, að hann ráði, hverju hann trúi, en ekkert barn eigi þau nú. Hann segist þá vera ríkari, en hún, því hann eigi únga stúlku, en sè þó ógiptur, og kveðst hann vilja sýna henni hana til skemtunar. Hann stendur þá upp og geingur í hliður herbergi, er var út úr stofunni; er hann litla stund í burtu og kemur aptur með stúlku, er Sigríður ímyndaði sèr, að væri á 15. eða 16. ári. Hún heilsar stúlkunni og sèr, að hún er fríð og efnileg og mjög skrautbúin. Kaupmaður segir, að þetta sè stúlkan, er hann hafi getið um við hana. Sigríður hefir eigi augun af stúlkunni og virðir hana vel fyrir sèr. Kaupmaður sezt nú niður aptur, og sèr, að Sigríður gjörist litverp í andliti. Síðan spyr hann Sigríði, hvort hún sè ekki ættuð úr Eyafirði. Hún kvað svo vera. Hann spyr, hvort hún hafi ekki verið í Möðrufelli. Hún játar því, og segir, að foreldrar sínir hafi búið þar. Hann spyr, hvort hún muni ekki eptir, að hún hafi verið heima eina jólanótt. Hún segist muna það. Hann spyr, hvort hún muni eptir því, að maður hafi talað við hana gegnum glugga. Það segist hún einnig muna. Hann spyr, hvort hún muni, hvað þau hafi þá talast við. Hún játar því. Hann spyr, hvort hún haldi ekki, að það sè komið fram, er maðurinn hafi síðast sagt til hennar. Að vísu segist hún halda, að það sè komið fram. Kaupmaður segist nú ekki geta verið að dyljast leingur fyrir henni, og mælti: „Eg er nú hinn sami maður, er þá talaði við þig, og meðkenni eg það nú fyrir þèr, að hefðirðu þá lokið upp fyrir mèr, þá hefði eg haft þig áburt með mèr. En þegar mèr mistókst það, kom í mig glettni, og hefi eg valdið hvarfi dóttur þinnar, og eru nú 12 ár síðan, en þá var hún 3 ára, og er þetta hún, sem hèr er nú hjá mèr, og hefi eg farið með hana, eins og dóttur mína; hefi eg látið kenna henni allar kvennlegar listir og uppfrætt hana eptir efnum. En tilgángur minn með því að taka stúlkuna var, að hafa ímynd þína, er eg unni svo mjög, fyrir augunum. Nú hefi eg meðgeingið alt fyrir þèr, en nú er undir þèr, eða ykkur hjónum, komið, hvort mèr heppnast áform mitt. Eg viðurkenni, að eg hef reitt þig til reiði, en þó vil eg biðja ykkur um stúlkuna til eignar.“ Sigríður segir það satt vera, að hún hefði ekki getað uppfrætt hana eða mentað eins vel, en ekki segist hún vera einráð um gjaforðið. Kaupmaður segist ekki bera neinn kvíðboga fyrir manni hennar, því þeir sèu góðir kunníngjar. Í því kemur dreingur einn framan úr húsinu, og gjörir Sigríður boð með honum, að hún vilji finna mann sinn, og kemur hann að vörmu spori. Sigríður segir honum þá upp alla söguna, og verður þar mikill fagnaðarfundur. Þá hefir kaupmaður upp bónorð sitt við bæði hjónin, því hann segir, að stúlkan sjálf sè viljug. Faðir stúlkunnar segist ekkert hafa á móti því, ef það sè vilji móður hennar og sömuleiðis stúlkan sjálf. Gáfu

þær þegar jáyrði sitt, og fastnaði kaupmaður stúlkuna. Að því búnu segir kaupmaður við hjónin, að stúlkan megi fara heim með þeim, fyrst hann sè viss um, að einginn taki hana frá sèr, og megi hún vera hjá þeim 3 ár þeim til ánægju; kveðst hann ekki vera svo bráðlátur, að hann kæri sig um að eiga hana, fyrr en hún sè orðin 18 vetra. Er þá stúlkan spurð að því, hvort hún vilji heim fara með foreldrum sínum. En hún segist ekki geta það, því hún geti ekki sèð af honum einn einasta dag. Foreldrar hennar segja henni, að hún skuli ekki leggja það á sig, því þau viti, að hún elski hann fyrir alla meðferð hans á henni; segjast þau vera vel ánægð með, að vita af henni þar, og hafi þau leingur verið án hennar, og varð hún kyr. Þegar hjónin höfðu lokið erindum sínum, hèldu þau heimleiðis. Að 3 árum liðnum fór Sigríður með manni sínum aptur í kaupstað, og hèlt þá kaupmaður brúðkaup sitt með mestu viðhöfn. Er ei annars getið, en að kaupmaður og kona hans lifðu vel og farsællega til ellidaga. En Sigríður fór heim með manni sínum. En fór hvert sumar eptir þetta í kaupstað, að finna dóttur sína. Sigríður og maður hennar lifðu til ellidaga í dalnum. Og lúkum vèr svo sögunni af Sigríði Eyafjarðarsól.[1]

**Sagan af Ólöfu bóndadóttur.** (Eptir handriti Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.) Þess er getið, að fyrr meir hafi verið prestur nokkur í Eyafirði, kvæntur og átti nokkur börn. Hann tók til fósturs fátæka bóndadóttir í sveit sinni, er Ólöf hèt, og var hún hin fríðasta mær og kurteisasta. Unni prestur henni ekki minna, en sínum börnum, og lèt kenna henni hannyrðir og fleira, er kvennmann mátti prýða. Ólöf var orðin fúlltíða, þegar saga þessi gjörðist. Presturinn, fóstri hennar, sókti um brauð nokkurt á Austurlandi um þessar mundir, og fèkk það; tók hann sig því upp snemma sumars til ferða austur með alt fólk sitt, konu og börn; er svo sagt, að hann hafi ætlað hina skemmstu leið, og liggur hún fyrir framan Bárðardal, austur í gegnum Ódáðahraun og svo til Möðrudals. Segir ekki af ferðum prestsins, fyrr en hann lagði upp frá efsta bæ í Bárðardal, og er þá næsti áfangi í miðju Ódáðahrauni. Kom prestur þar að kvöldi með föruneyti sitt, og slær niður tjaldi; en er hann hafði dvalið þar litla hríð, komu úr hrauninu 9 menn, alvopnaðir; verður þar ekki af kveðjum, því komumenn sækja þegar að presti og föruneyti hans. Verða þar skjót umskipti; því prestur og hans menn voru vopnlausir; drepa komumenn það alt saman, nema Ólöfu; hana taka þeir, og hafa með sèr

1. Eg hefi feingið aðra sögu af Sigríði Eyafjarðarsól, sem er nokkuð áþekk þessari, og er það álfafólk, sem hèr eru útilegumenn, og sannar það eitt með öðru, hversu hætt mönnum er við, að blanda saman álfasögum og útilegumannasögum.

til skála síns, sem þar var skamt í burtu; verður nú Ólöf þess vísari að þetta eru útilegumenn, og lifa einúngis á ránum og þjófnaði; þykist hún nú mjög illa komin, og fær þó ei að gjört. Ekki gjörðu þeir henni neitt mein, og vildu heldur gjöra henni æfina sem skemtilegasta; sögðust þeir mundu, þegar vetraði og þeir settist að, varpa hlutkesti um, hver hennar skyldi njóta, en matreiða skyldi hún handa þeim öllum og þjóna þeim. Að einum þeirra geðjaðist henni bezt; var hann ýngstur þeirra og góðmannlegastur. Líður nú sumarið alt til þess, að hálfur mánuður er til gángna; þá búast skálabúar á braut, og gjöra ráð fyrir að verða viku í burtu; skyldi þá draga að til vetrarins fè úr afrèttum. En nokkrum dögum áður, en þeir fara, tekur hinn ýngsti þeirra sótt og leggst veikur; er honum nokkuð í apturbata, þegar þeir fara, en þó ekki svo, að hann geti farið með þeim; er svo ráð fyrir gjört, að hann komi á eptir þeim, ef honum fer batnandi. Fara nú skálabúar; en er þeir eru komnir á burt, talar hinn úngi maður til Ólafar á þessa leið: „Von þykir mèr, þú þykist illa komin hèr með oss, og skyldi eg fyrir laungu hafa verið búinn að hjálpa þèr á burt, ef eg hefði sèð nokkurn veg til þess; skaltu vita, að eg var í fyrstu tekinn af þessum skálabúum, og er eg bóndason úr Mjófadal; hefi eg verið hèr í 2 ár, og aldrei feingið færi á að komast hèðan; hafa þeir mig með sèr til rána og þjófnaðar, en þó altènd nauðugan. Gjörði eg mèr upp veiki þessa, til þess að geta talað við þig í tómi, og að við gætum tekið ráð okkar saman; vil eg nú, að þú reynir til að komast í burtu, meðan skálabúar eru ekki heima, þó það sè áhætta mikil; skaltu með öllu fara, eins og eg gef nú ráð til. Eg mun nú leggja af stað á morgun eptir skálabúum, eins og þeir hafa fyrir mælt; svo skulu líða tveir dagar, og skaltu þá vera albúin til ferðar, þegar þú kemur út úr skálanum muntu sjá hest brúnskjóttan; hann skaltu taka, og leggja við hann beizli, og á hann reiðtýgi þau, er þú finnur hèr í skálanum; þenna hest á eg, og er hann allra hesta beztur og fljótastur; er einginn annar hestur í eign vorri skálabúa; þessum hesti stígur þú á bak, og lætur hann ráða ferðinni, en ekki skaltu slá hann, nema líf þitt liggi við; það skaltu og varast, að fara ekki fyrri á stað, en eg segi þèr. Fari nú svo, að þú komist klaklaust til bygða, vil eg þú stuðlir til þess, að eytt sè þessum óaldarflokki. En það er ekki svo auðvelt; því skálabúar eru næsta varir um sig; er ekki að hugsa til þess á þessu hausti og ekki fyrri en á öðru hausti; þegar við förum í gaungur, þá er það vani skálabúa, að þeir liggja í dæld nokkuri við Skjálfandafljót nótt þá, er menn alment fara í fyrstu gaungur; er þar auðvelt að ráðast að skálabúum; en þyki þèr nú nokkurs vert um þessi ráð mín, og geti þau komið þèr að haldi, þá sjáðu um, að manni þeim, sem liggur ystur skálabúa verði gefið líf. Farðu nú að öllu, eins og eg hefi gefið þèr ráð til, og breyttu í eingu út af, mun þá hamíngjan fylgja þèr.“ Ólöf þakkaði skálabúa tillögur sínar, og kveðst mundi

hlýða ráðum hans. Fer hann nú leiðar sinnar, en hún situr eptir óþolinmóð; leiðist henni nú meir en nokkru sinni fyrr, og finnst næsti dagurinn leingri en heilt ár; kemur svo annar dagurinn, og getur hún ekki að sèr gjört, nema fer og leitar að Skjóna. Finnur hún hann skamt frá skálanum, og með því henni þykir óskiljanlegt, það geti gjört nokkuð til, þó hún fari deginum fyrri, en henni var sagt, þá leggur hún af stað, og segir ekki af ferðum hennar, fyrr en hún er komin á miðja leið, þá heyrir hún alt í einu hóað ekki lángt frá sèr, og þekkir á hljóðinu, að þetta muni vera einn skálabúi; þetta var líka orð og að sönnu; hafði einn þeirra orðið var við för hennar og þekti hestinn, sem hún reið; hrópaði hann því sem skjótast á fèlaga sína. Leið og ekki á laungu, að þeir eru allir komnir saman og svo nærri henni, að ekki var nema lítill spölur á milli. Fóru þeir svo hart, sem fugl flýgi, og þó Skjóni færi hart, sèr hún þó, að þeir muni bráðum ná sèr. Hún ræður því það af, að hún slær hann, og tók hann þá á sig kast mikið, svo hún var nærri hrokkin af baki. Fer hann nú hálfu harðara en fyrr, og skildi fljótt með henni og skálabúum. Segir ekki af ferðum hennar, fyrr en hún kemur að Mjófadal. Var þá faðir hins únga manns enn á lífi, og segir hún honum alla sögu af ferðum sínum, og hvar sonur hans er niður kominn, og svo hver ráð hann hefir álagt, til að vinna skálabúa. Líður nú af veturinn næsti og svo sumarið; taka sveitamennn sig saman um að ráða skálabúa af dögum á ákveðnum tíma og skyldi Ólöf vera formaður ferðarinnar. Er ekki að orðleingja það, að skálabúar voru allir drepnir, nema sá, er yztur lá í dældinni, og var það hinn úngi maður, bóndasonurinn úr Mjófadal. Fór hann heim til föður síns; en með því hann þókti svo leingi hafa verið hluttakandi í illvirkjum skálabúa, var hann á alþíngi dæmdur líflaus, og til konúngs náðar; skyldi hann sigla næsta haust með Akureyrar skipi; hörmuðu margir forlög bóndasonar, því að hann var vænsti maður, og ekki sízt Ólöf; því menn höfðu það fyrir satt, að þeim væri vel saman. En áður bóndasonur stè á skip, veik hann til Ólafar, og bað hana að giptast ekki í 5 ár, ef hún frètti ekkert til sín. Hún gegndi því eingu, og skildu þau við það.

Líða svo fram nokkrir tímar, og hafðist Ólöf við hjá fólki sínu í Eyafirði; gerðust ýmsir úngir menn og mikilhæfir til að biðja hennar; því hún þókti afbragð kvenna þar um sveitir. En hún synjaði öllum ráðahags við sig, og kvaðst hafa heitið því, að giptast aldrei á æfi sinni; var þetta kent einþykkni hennar og þúnglyndi, er hún mundi hafa feingið hjá skálabúum; vöndust menn því af kvonbónum við hana, Liðu svo þessi 5 ár, að ekkert bar til tíðinda. Á hinu 6. sumri kom skip af hafi við Eyafjörð; var á því úngur maður, fríður sýnum og hinn gjörvulegasti, og talaði íslenzku. Var hann sendur af konúngi og skipaður valdsmaður í Vaðlaþíngi, því sá, sem áður hafði verið, var þá dauður; gjörðist hann brátt vinsæll, og hugþekkur landsmönnum. En er hann hafði skamt eitt verið,

vildi hann reisa bú, og fá sèr bústýru, og jafnvel konuefni. Vísuðu allir honum til Ólafar; því hún væri beztur kvennkostur þar um sveitir; en sögðu þó, hvert vandhæfi á var, að hún vildi ekki giptast. Sýslumaður kvaðst þó mundi hætta til bónorðs við hana, og freista, hvernig færi. Ríður hann brátt á fund hennar, og vekur máls á um bónorðið; en hún tók því fjarri. En fyrir áleitni sýslumanns og aðbeiníng góðra manna lætur hún þó um síðir til leiðast. Er þá við brúðkaupi búizt, og mörgu stórmenni til boðið. En að brúðkaupinu stendur sýslumaður upp, og mælti: „Það vil eg öllum kunnugt gjöra, að eg er hinn sami bóndasonur úr Mjófadal, sem tekinn var hjá útilegumönnunum í Ódáðahrauni, og dæmdur til konúngs náðar; þegar konúngur heyrði sögu mína, og alla málavexti, sannfærðist hann um sakleysi mitt, og ekki einasta náðaði mig, heldur styrkti mig til lærdóms og mentunar; hefi eg á þessum árum numið svo mikið í lögum og landsrètti, að eg gat feingið sýslu þessa. Gleður það mig, að kona sú, er situr hèr við hlið mèr, er sú hin sama, sem gaf mèr forðum líf, þegar skálabúar voru drepnir, og gefst mèr nú tækifæri til að launa dygð hennar og staðfestu.“ — Allir undruðust sögu sýslumanns; því menn höfdu haldið bóndason fyrir laungu dauðan. Ólöf hafði verið mjög döpur og áhyggjufull; en nú snerist deyfð hennar í gleði, og varð hún mjög fegin, að hitta hèr aptur vin sinn og lífgjafa, bóndason. Lyktaði svo veizlan; en þau reistu bú á góðri og fagurri jörð í Eyafirði, og lifðu glöð og ánægð til ellidaga.

**Prestsdóttirin úr Þíngeyarsýslu.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Það var einu sinni prestur austur í Þíngeyarsýslu; hann var giptur og átti 2 börn, son og dóttur. Þau voru nálægt 16 ára aldri, þegar sagan gjörðist. Prestur sækir um prestakall á suðurlandi og fær það. Hann byrjar að flytja sig næsta vor og fer suður Spreingisand. Allan flutníng sinn lætur hann fara á undan sèr, en sjálfur fer hann á eptir með konu og börn og hefur einn vinnumann sinn með sèr. Þegar prestur er kominn nokkuð suður á Sandinu, sèr hann, hvar 10 útilegumenn koma hlaupandi að sèr ofan úr jöklinum. Þeir ráðast á prest og fólk hans með ofbeldi og drepa það alt saman, nema dóttur prestsins, svo að vörn eða bæn kom fyrir ekki. Fyrirliði útilegumannanna kveðst ekki geta drepið dóttur prestsins, því hún væri svo falleg. Únglíngspiltur, sem með þeim var, gall þá við og sagði, að það mundi verða ógæfa þeirra, ef hún væri látin lifa. En þó varð svo að vera, sem fyrirliðinn vildi, og báru þeir hana til skiptis til hesta sinna, sem bundnir voru uppi undir jöklinum. Þá stíga þeir á bak og reiðir fyrirliðinn stúlkuna. Þeir ríða leingi, þángað til þeir koma í fallegan dal. Þeir ríða í dalinn og eptir honum, þángað til þeir koma að skála nokkrum; hann var heimili þeirra. Stúlkan er látin í skálann, og er fyrirliðinn og allir góðir við hana, nema þessi

únglíngspiltur, sem áður er getið, hann er henni ávalt slæmur og vill jafnvel láta drepa hana. Nú líður fram undir haust; þá fara útilegumenn að tala um að safna sèr fè, áðuren farið sè að leita í sveitum. Fyrirliði útilegumanna þorir eingan að láta vera heima, til að annast prestsdóttur, nema únglíngspiltinn, en er þó hálfhræddur um, að hann muni drepa hana. Hann var hræddur um hana fyrir hinum, því þeir voru góðir við hana. Það varð þó út úr, að únglíngspilturinn varð heima. Þegar mennirnir eru farnir í burtu, kemur únglíngspilturinn til prestsdóttur, og er nú glaður og góður. Hann segist hafa gjört þetta af góðu að vera henni slæmur. Hann segist vera prestsson úr sveit og þessir menn hafi drepið föður sinn á Spreingisandi, en fyrirliðinn hafi ekki viljað drepa sig, heldur haft sig híngað og látið sig þjóna honum. „Nú skaltu,“ segir hann, „kvarta undan mèr, þegar þeir koma heim, og segja, að eg hafi verið þèr slæmur. Eins ætla eg að segja, að mèr hafi mjög leiðzt hjá þèr, meðan þeir voru burtu. Eg gjöri þetta af því eg ætla að reyna að koma þèr í burtu, en eg get það ekki næsta ár og skulum við því ætíð láta okkur koma illu saman, þegar þeir eru heima.“ Nú koma útilegumenn heim og þau kvarta hvort undan öðru við þá. Líður nú fram að næsta hausti, svo að ekkert ber til tíðinda. Þá fara útilegumenn í fjárleitir og segir fyrirliðinn, að únglíngspilturinn skuli vera hjá prestsdóttur, en einginn annar. Piltinum er það þvernauðugt. Þegar þeir eru komnir í burtu, fara þau að tala saman og fer vel tal þeirra. „Eg ætla nú að segja þèr,“ segir hann, „hvernig þú átt að komast í burtu. Þú verður að vera hèr næsta ár og þá ætla eg í fjallleitir að haustinu. Þú hefir nú lykla að hirzlum öllum hèr í bænum, nema að einni kistu, í henni eru peníngar geymdir. Nú afhendi eg þèr tösku þessa. Í hana skaltu láta penínga úr kistunni, sem eg skal sjá um, að þú skalt fá lykilinn að. Fyrirliðinn á hest góðan, sem hann ljær eingum; hann er nýtaminn. Sá hestur mun verða heima, þegar við erum farnir í leitir; hann skaltu söðla og binda töskuna aptan við söðulinn, fara honum síðan á bak og keyra eitt högg; mun hann þá halda þángað, sem þú munt helzt óska. Fari svo, að leitarmenn sjái til þín, sem vel getur orðið, skaltu slá hann annað högg, og mun þá einginn þeirra hestur fá náð honum, en minn hestur mun þó næst fá komizt. Skyldi það heppnast, að þú komizt undan, þá minnstu þess, að eg hafði fremur öðrum reynt að hjálpa þèr.“ Nú koma útilegumenn heim og kvartar nú prestsdóttir mjög undan hinum únga manni, og hann á sama hátt undan henni; segist hann nú ekki fleiri haust muni verða heima, þá aðrir fari í leitir, heldur muni hann fara líka, hvað sem hver segi. Líður nú fram til næsta hausts, svo að ekki ber til tíðinda. Þá fara útilegumenn að búast í fjárleitir og segir fyrirliðinn hinum únga manni enn að vera heima, en hann kveður þvert nei við og prestsdóttir neitar því líka, segist hún vel geta ein verið þenna tíma, hann verði ekki

lángur. Það verður útúr, að útilegumenn fara allir, en prestsdóttir verður ein heima. Þá fer hún eins að öllu, og únglíngspilturinn hafði ráðlagt og stígur á bak með töskuna fyrir aptan og keyrir hestinn eitt högg. Þá rennur hann af stað sem hvatlegast. Að lítilli stundu liðinni sèr hún, hvar allir útilegumenn ríða að henni. Hún heyrir, að hinn úngi maður kallar og segir, að svona hafi henni verið varið, nú ætli hún að svíkja þá og segja til þeirra og verði þeir nú líklegast drepnir. Þeir ríða nú sem mest þeir geta, og verður únglíngspilturinn fljótastur og hefir nærri náð henni, þegar leiti bar á milli þeirra og hinna mannanna. Þá slær hann á hestinn prestsdóttur, svo hann hleypur ákaflega. En hún hafði gleymt því af hræðslu. Hinn úngi maður hvetur þá að ríða eptir henni og það gjöra þeir, þángað til þeir gánga af öllum hestum sínum dauðum. Þá fara þeir eptir henni á fæti, en hún ríður undan og það alla leið niður í bygð, þar kemur hún að höfuðbóli einu og býr þar sýslumaður. Prestsdóttir segir honum þegar frá óförum sínum og að útilegumenn sèu hèr á hælum sèr. Sýslumaður lætur taka hesta og elta þá sem skjótast. Þeir náðust fljótt, og eru nú settir í varðhald. Sýslumaður rannsakar nú mál þeirra og dæmir alla til dauða og lætur drepa þá, nema hinn únga mann, því prestsdóttir beiddi fyrir hann. Sýslumaður dæmdi hann útlægan, og þegar hann ætlaði utan, kom hann að máli við prestsdóttur og bað hana að gleyma sér ekki, og ef svo væri, að sèr auðnaðist að koma til landsins aptur, kvaðst hann mundi vitja hennar. Hún fèkk honum peníngatösku þá, er áður er getið, fulla af peníngum og skildu síðan. Nú liðu mörg ár. Margir beiddu prestsdóttur æðri og lægri stèttar menn, en hún neitaði öllum. Sýslumaður kvað þetta óráð fyrir hana, að neita svo mörgum vænum manni, en hún lèt sèr ekki segjast. Nokkru síðar kemur til sýslumanns útlendur maður; hann var efnilegur og lærður vel. Hann biður sýslumann veturvistar, því hann átti eingan verustað vísan og fær hann það. Hann fellir ástarhug til prestsdóttur og biður hennar, en hún gefur honum afsvar. Hann talar um þetta við sýslumann og biður hann liðveizlu. Sýslumaður segir það muni koma að litlu haldi, hún muni eingan ætla að eiga, hún hafi tekið það fyrir sig. Einhverju sinni kemur sýslumaður að máli við prestsdóttur, og eggjar hana mjög að eiga mann þenna, en hún færist undan. Kveðst þá sýslumaður muni taka af henni ráðin, og skuli hún þá eiga hann, svo miklu skuli hann ráða. Þorir hún þá ekki annað, en að gjöra, sem sýslumaður vill; lofast þau nú og er ákveðinn brúðkaupsdagur. Brúðkaupið fór vel fram, en þó er brúðurin döpur mjög. Um kvöldið fylgir sýslumaður brúðhjónum til svefnherbergis, og fær brúðurin þá hvert yfirliðið á fætur öðru. Fellur sýslumanni það þúngt og ángrast með sjálfum sèr yfir því að hafa þraungvað prestsdóttur til að giptast. En brúðgumi lèt vel yfir og kvað slíkt mundi lagast með tímanum. Nú hátta þau samt. Maðurinn vill nú láta

vel að konu sinni, en það tjáir ekki og snýr hún þá við honum bakinu og mælti til hans þúngum orðum. Þá segir hann: „Illa ætlarðu að launa mèr keyrishöggið forðum." Og sagði hann henni þá, að hann væri sami maður, sem hefði hjálpað henni frá útilegumönnunum, og það svo kunnuglega, að hún trúði þegar. „Hefi eg nú," segir hann, „varið peníngunum, sem þú fèkkst mèr, til að afla mèr andlegrar fræði í útlöndum." Sorg brúðarinnar snerist þá í innilega gleði, og segir hún honum, að því hafi hún verið svona hrygg, að hún hafi ekki þekt hann. „Ætlaði eg eingan að eiga, ef eg feingi þig ekki," segir hún, „og hefi eg mörgum neitað þín vegna." Næsta morgun kemur sýslumaður og spyr, hvernig brúðurinni líði og lætur hún vel yfir. Nú segja þau sýslumanni upp alla sögu, og hvers vegna prestsdóttir hafi áður verið svo ángurvær, en nú svo glöð. En honum þykir mikils um vert. Hinn útlendi maður fær brauð þar nálægt og flytur þángað; sækir hann alt, sem fèmætt var í útilegumannakofanum, og flytur heim. Þar bjuggu þau hjón vel og leingi síðan, og unnu hvort öðru hugástum, og kann eg ekki þessa sögu leingri.

**Halla bóndadóttir.** (Eptír sögn norðlenzkra skólapilta, 1845. M. G. Dr. Maurers Isl. Volkss. 254 — 58. bls.) Einu sinni fóru margir Skagfirðíngar á grasafjall. Voru þar bæði karlar og konur, og lágu þeir við tjald suður á heiðinni. Ein af stúlkunum hèt Halla. Hún var dóttir bónda eins í Skagafirði, fríð stúlka sýnum og á tvítugs aldri. Svo bar við, að hana syfjaði mjög í einni gaungunni, og lagði hún sig fyrir á rúst nokkurri, en fólkið var þar í kríng. Bað hún eina af grasafjallsstúlkunum að vekja sig bráðum aptur. Halla sofnaði skjótt, en þoka var mikil. Þegar hún vaknaði, sá hún eingan mann; varð hún þá hrædd og ætlaði að hlaupa til grasafólksins, en fór í alt aðra átt. Fór hún svo leingi. Kemur þá að henni maður ríðandi. Hann var mikill vexti og þreklegur. Hann spyr hana, því hún sè ein. Hún segir, að þeir, sem hún sè með, sè skamt þaðan: „Eða sástu ekki fólk á leið þinni?" „Jú," segir maðurinn, „það er skamt hèðan, og er eg að leita að hestum, sem struku frá mèr; því eg er hèr líka á grasafjalli. „Viltu ekki," segir hann, „að eg fylgi þèr til fólksins?" „Jú, það vil eg," segir Halla. „Seztu þá á bak fyrir aptan mig," segir aðkomumaður. Halla vildi það ekki; því henni stóð stuggur af manninum. Gekk hún svo með honum stundarkorn. Sagði hann þá, að hún skyldi koma á bak hjá sèr, svo þau yrðu fljótari. Halla lèt þá til leiðast, og settist á bak hjá manninum. Hleypti hann þá hestinum og reið slíkt sem af tók. En þegar lángur tími var liðinn, segir Halla, að sèr þyki æði lángt til fólksins. Maðurinn segir, að það fari nú að styttast. Lèt hún hann þá ráða; því hún sá, að hèr var ekki til góðs að gjöra. Riðu þau svo, þángað til þau komu í dal einn, ekki alllítinn. Þar sá Halla bæi marga, og þó einn mestan. Þángað hèldu þau. Þegar þau komu í hlaðið,

stigu þau af baki, og geingu inn. Var þar margt manna fyrir, og þar á meðal sá hún menn tvo únga og vígamannlega. Segir þá maðurinn, sem hafði tekið hana, við þá: „Takið nú við meyunni, og geymið hana ekki verr, en eg hefi aflað hennar.“ þeir tóku þá við Höllu og feingu hana stúlkum tveimur únglegum. þær voru glaðar og kátar, og vildu gjöra Höllu alt til skemtunar, en hún undi sèr illa, og neytti hvorki svefns nè matar. Stúlkur þessar höfðu sterkar gætur á Höllu, og lètu hana sofa á milli sín. Halla sá konu eina gamla á bænum, og skipti hún sèr af eingu, sem fram fór. Um sumarið gekk Halla að heyvinnu með hinum stúlkunum, og leið svo fram á slattinn. Einn góðan veðurdag lá hey mikið flatt hjá dalbúum, og voru allir önnum kafnir í að hirða og binda heyið. þá kemur gamla konan að máli við Höllu og segir: „þú unir þèr illa, stúlka mín, og er það von. Skal eg nú kenna þèr ráð til að komast í burtu. þú skalt vita, að þú ert komin í Ódáðahraun, og eru hèr sjö dalir í hrauninu. Er þessi dalurinn mestur og fjölbygðastur, og liggur nær því í miðju hinna dalanna. þessir þrír karlmenn, sem þú hefir sèð hèr, og eru meiri öllum hinum, ætla nú innan fárra daga að halda brúðkaup sitt, og eiga yður, þig og stúlkurnar, sem hafa gætt þín í sumar. Veðjuðu dalbúar um, að eingin stúlka væri jafn fríð þèr í Ódáðahrauni, og ræntu þèr svo. Er þèr nú vorkunn þó þú unir illa hjá útilegumönnum, og hefi eg sjálf reynt það, að verða að skilja við alla mína, því eg er líka rænt úr sveit. Nú uni eg mèr allvel, og mun eg líka eiga skamt eptir æfi minnar. En eg ætla nú að kenna þèr ráð, til að komast í burtu. Skaltu í kvöld gánga til hvílu á undan öllum öðrum, og látast undir eins sofna. En þegar allir eru háttaðir, skaltu reyna að fara á fætur, og þá mun eg hafa til nesti og skó handa þèr, og segja þèr til vegar.“ Slíta þær nú talið, og þókti Höllu vænt um þetta. Keptist hún við um daginn, og var hin kátasta. Um kvöldið fór Halla heim á undan öllum, og gekk til hvílu, og lèzt hún sofa þegar fólkið kom heim. Hèldu menn, að hún væri lúin orðin, og því hefði hún geingið svo snemma til hvílu. Stúlkurnar háttuðu hjá henni og sofnuðu fast. En þegar allir voru sofnaðir, rís Halla upp og klæðir sig. Finnur hún þá kerlíngu, og hefir hún þar nesti og nýa skó og fær Höllu. þá segir kerlíng: „Nú skaltu gánga hèr austur dalinn, og upp hjá felli því, sem þú sèr við dalbotninn. þú skalt fara að sunnanverðu við fellið, og þar muntu finna fyrir þèr götuslóða. þá skaltu gánga, og mun þá verða fyrir þèr jarðfall mikið, og þar kemur þú á breiðan veg ruddan. þann veg skaltu fara þángað til þú kemur í bygð. Að jarðfallinu muntu verða komin um sólaruppkomu, og skaltu þar fela þig á morgun; því þú skalt vita það, að leitað mun þín verða, og ef þú finnst ekki, munu dalbúar berjast um veð sitt; því þá hafa þeir þig ekki sjálfa, og vita svo ekki, hver unnið hefir. Far þú nú heil og sæl, dóttir góð,“ segir kerlíng; „far þú varlega og flý hið skjótasta.“ Halla þakkar henni

ráð sín og skildu þær með tárum. Fer þá Halla á stað eptir leiðsögu kerlíngar, en kerlíng fer inn aptur í bæinn.

Er það nú af Höllu að segja, að alt fer eins og kerlíng hafði sagt henni. Kemur hún á slóðana hjá fellinu og svo að jarðfallinu. Er þá sól á lopt komin, og fer Halla niður í jarðfallið, og leggst undir skúta einn við bakkann. Að lítilli stundu liðinni heyrir hún dyn mikinn og mannamál. Sèr hún þá fjölda manna ríða niður með jarðfallinu. Þeir fóru geyst, og voru að tala um Höllu. Sögðu sumir, að hún hefði líklega hlaupið suður í hraunið og drepið sig. Líður svo dagurinn. Um kvöldið koma þeir aptur. Stígur þá einn þeirra af baki við jarðfallið, þar sem Halla lá. Það var únglegur maður og ekki ólaglegur. Hann segir: „Hèr mun Halla vera,“ og hleypur yfir jarðfallið og skyggnist undir bakkann. Verður þá Halla hræddari en frá megi segja, en liggur þó kyr. Maðurinn hleypur aptur yfir jarðfallið og segir: „Ekki er Halla hèr.“ Ríða þeir síðan burtu, en Halla rís upp, og hefir sig til ferðar. Geingur hún þá brautina, eins og kerlíng hafði sagt henni, og fer nú það, sem hún má, uns hún kemur til bygða. Kemur hún þá að prestssetri einu. Hún finnur prest, og biður hann að taka við sèr. Segir hún honum upp alla sína raunasögu. Tók prestur við henni fúslega, og var Halla þar um veturinn. Sumarið eptir rèðst hún til ársvistar hjá presti. Prestur hèlt og aðra vinnukonu, og voru þær mjög saman, Halla og hún. Um sumarið komu menn tveir til prestsins, og báðu hann að taka sig í kaupavinnu. Prestur gjörði það. Annar þessara manna var hniginn mjög á efra aldur, og var ljótur og illilegur mjög. Hinn þar á móti var úngur maður að aldri og fríður sýnum. Hann hèt Björn. Það var siður um sumarið, að vinnukonur prests báru kaupamönnum litlaskattinn til skipta. Einu sinni þegar Halla fór með matinn til þeirra, segir gamli maðurinn: „Gott væri að skera, gaman væri að rista.“ Þá segir Björn: „Þegi þú, eða eg drep þig.“ Halla varð hrædd þegar hún heyrði þetta, og fór heim. Sagði hún presti frá orðum kaupamanna, og kvaðst ekki þora að vera þar, meðan þeir væru þar. Prestur sagði, að hægt væri að ráða bót á því, „og skal eg hafa á þèr kvennaskipti.“ Kom hann þá Höllu til næsta bæar í kvennaskiptum. Þar stóð svo á, að Halla átti að mjólka ærnar með annari stúlku, en klettur hár var í túninu milli kvíanna og bæarins, svo þær sáust ekki heiman að. Einu sinni bar svo við að vinnukonan hin fór heim af kvíunum með fyrirmjöltina, en Halla var að hreyta eptir. Gjörði þá regnskúr, svo vinnukonan kom ekki aptur. En þegar Halla fór heim, fór hún undir klettinn, og ætlaði að standa þar af sèr skúrina. Kemur þá að henni kaupamaðurinn Björn, og heilsar henni. Hún tekur kveðju hans, en verður þó ákaflega hrædd. Björn segir, að hann var sá, sem hljóp yfir jarðfallið forðum, „og sá eg þig, en vildi ekki segja til þín. Karlinn, sem með mèr er, vildi drepa þig, því hann misti son sinn í bardaganum, sem varð milli

dalbúa út af fríðleika þínum. Skal eg nú verja þig fyrir honum, en þó með þeim kosti, að þú launir mèr nú þagmælskuna, þegar eg sá þig í jarðfallinu, og heitir mèr trygðum.“ Halla þorði ekki annað, en gjöra vilja Bjarnar. Síðan skildu þau. En opt fundust þau síðan eptir þetta um sumarið. Þegar úti var slátturinn, fóru kaupamennirnir burtu, og Halla til prestsins. Um veturinn kemur Björn til prests, og biður hann að útvega sèr jörð í sveitinni, og bústýru; því hann kveðst vilja vera þar. Halla hafði sagt presti, hvernig farið hafði um sumarið, og það með, að hún var með barni af Bjarnar völdum. Segir þá prestur við Björn, hvort hann sè ekki ánægður, ef hann geti feingið Höllu fyrir bústýru. Björn játti því, og var það nú af ráðið, að Björn skyldi fá Höllu um vorið, og taka þar jörð í sveitinni. En um veturinn átti hann að láta foreldra Höllu vita það alt, hvað um hana var orðið, og vita, hvernig þeim liði. Björn fór því næst í burtu, og norður í Skagafjörð. Sagði hann foreldrum Höllu alla hennar hrakníngssögu, og svo, hvar hún þá væri niður komin. Fèkk hann þá leyfi foreldra Höllu til að eiga hana. Um vorið kom hann austur aptur. Tók hann þá Höllu til sín, og átti hana, og settist að búi þar í sveitinni. Um haustið sókti hann mikinn fjölda sauða inn í Ódáðahraun, en um vorið hafði hann komið þaðan með ógrynni ásauðar. Hann átti tvo sonu við konu sinni, og voru þeir ójafnaðarmenn miklir og ódælir.

**Smalastúlkan frá Ábæ.** (Eyfirzk sögn.) Á Ábæ eða Árbæ í Skagafjarðardölum bjuggu eitt sinn hjón, er voru barnlaus; höfðu þau tekið til fósturs stúlku eina; þókti þeim vænt um hana. Óx hún upp og þókti vænt kvennmannsefni. Hún gaf sig til að smala á sumrum; leysti hún það vel af hendi. Eitt sumar geingu þokur miklar, og vantaði margt af fè eitt kvöld og sumt hafði vantað nokkra daga. Ekki var annað fólk á bænum, en hjónin, vinnumaður og stúlkan. Hún hafði að undanförnu til einkis leitað. Nú býr hún sig á stað með nesti og nýa skó, því nú kvaðst hún mundi reyna að finna ærnar, ef það væri unt. Geingur hún síðan af stað og upp á fjöll og fram til jökla; villist hún um síðir í þokunni og veit ekki, hvert hún skal halda, geingur þó á fram, þar til hún kemur á eina dalsbrún. Hún geingur ofan í dalinn og birti þá þokan. Geingur hún að á, er rann ofan dalinn og ofan með henni, þar til hún sèr bæi, og var dalur þessi bygður. Hún geingur að þeim bænum, er henni virtist reisulegastur. Ber að dyrum; kom þar út úngur maður fríður, og heilsaði stúlkan honum. Hann tekur því. Hún biður hann skila til húsbændanna, að hún beiðist næturgistíngar. Hann geingur inn og kemur að lítilli stundu, og segir hún fái að vera. Hann fylgir henni inn í baðstofu, og sá hún þar margt fólk. Hún heilsar því; var henni síðan feingið sæti. Hinn úngi maður, er til dyranna kom, hóf þá tal við meyuna, og sagði henni, að í dal þessum væru 6 bæir og 52 menn og væri faðir sinn yfirmaður

í málum þeirra og framfylgdi rèttindum meðal þeirra. Nú frètti hann, hvert erindi hún hefði þángað. Hún sagði, sem var. Þá mælti hann: „Ei þurfti eg um slíkt að frètta og vissi eg erindi þitt, og er þèr það að segja, að eg hefi valdið villu þinni híngað, því eg hefi laungum sèð þig, þótt ekki hafir þú sèð mig; hefir þú mèr jafnan vel geðjazt, og hefi eg fyrir laungu kosið þig mèr til konu. Vildi eg nú vita, hvernig þú svarar slíku máli, ef eg leitaði þess við sjálfa þig. En fè þitt er hèr, og vantar ekkert af því.“ Hún tók þessu þúnglega, en barði því þó mest við, að fósturforeldrar sínir vissu ekkert, hvað um sig hefði orðið. Hann mælti: „Sè eg ráð til þess. Mun eg skrifa brèf og festa það milli hornanna á einni ánni, og láta menn reka þær til bygða þinna.“ Hann gjörir þetta, en ekki var hún ánægð að heldur, en þorði þó ekki að láta á bera. Hjón voru á bænum, er numin höfðu verið úr bygð. Undu þau sèr illa, vildu strjúka, en gátu ekki. Höfðu þau þó gert í því skyni leynigaung úr bænum alt upp á fjall; var það hið mesta þrekvirki. Meyan komst í kunníngskap við þau; kendu þau í brjósti um hana, og vildu gjarnan hjálpa henni, en ekki var gott um það. Sögðu, ef hún slyppi, mundi það kosta allra þeirra líf, er í dalnum bygðu, og það hefði sèr hamlað frá að strjúka. Nú var hún þar hálfan mánuð, og var vöktuð, svo hún ekki stryki. Hjónin höfðu vísað henni á gaungin og tókst henni eina nótt að komast leynilega í þau; gekk hún þá, sem hún mátti mest, þar til hún komst upp úr gaungunum. Síðan gekk hún leiðar sinnar. Ekki vissi hún, hvert halda skyldi, komst þó um síðir ofan í Eyafjörð að austan við ána, kom þar að bæ einum og dvaldi þar. Sumarið eptir komu þar 2 kaupamenn rètt fyrir sláttinn og buðu kaupavinnu. Bóndi vildi annan, en ekki annan. En þeir vildu báðir á einum bæ vera. Hann tók því báða aðra hvora viku. Þóktist stúlkan þekkja únga manninn, er við hana talaði, og forðaðist því einveru. Þó kom það fyrir einn morgun, að gestir margir voru þar komnir, og hlaut hún að mjalta fèð ein. Varla var hún byrjuð að mjalta, er kaupamennirnir komu báðir á kvíarnar og fóru að tala við stúlkuna. Þá mælti ýngri maðurinn: „Hvað margar ær hefir þú að mjalta?“ Hún mælti: „52.“ Hann spyr, hvers sá væri maklegur, sem banaði þeim öllum. Hún kveðst það ógjörla vita. Þá mælti hann: „Hvers væri sá maklegur, sem ollað hefði bana 52 mönnum?“ „Ei mun eg það segja þurfa,“ sagði hún. Vildi þá sá eldri drepa hana, en hinn varnaði og geingu þeir síðan burt. Leið nú svo um hríð, að ekki bar til tíðinda, þar til bóndi fór í kaupstað, og voru ei eptir heima, utan stúlkan og 2 vinnukonur. Þá voru þar og báðir kaupamennirnir. Voru þeir að slá, en þær að raka, þoka var svört um kvöldið. Geingu vinnukonurnar heim til málaverka, en stúlkan var eptir að raka. Hèldu þær, að aldrei mundu þeir sjá hana í þokunni. En er þær eru heim komnar, koma báðir kaupamennirnir til hennar. Stúlkan tekur á rás, því hún varð dauð hrædd, og

ofan að ánni og ætlaði í dauðans ósköpum að fleygja sèr í hana, en ýngri maðurinn náði henni framan í bakkanum, og sagði, að ekki þyrfti hún að tortýna sjálfri sèr, því hann ætlaði ekki að gjöra henni mein. Nú tekur hann hana tali, og býður henni tvo kosti, að eiga sig, en fyrsta barnið, sem hann ætti með henni, kvaðst hann mundi deyða, annar var sá, að hann dræpi hana þar í stað. Hún kaus heldur þann fyrri. Síðan skilja þeir við hana og fara að slá, en hún að raka. Bar ekki framar til tíðinda um sumarið, þar til þeir bjuggust til brottferða. Þá mælti sá ýngri: „Eins vil eg biðja þig bóndi, að þú útvegir mèr væna bújörð hèr í grend og alt, er til bús þarf. En einn mun eg koma; á eg lofaða stúlkuna, er hjá þèr er.“ Hann lofar þessu. Skilja þeir nú og hèldu kaupamennirnir sinn veg þaðan. Bóndi útvegaði um veturinn bújörðina og alt, er þar til þurfti, og er voraði, kom maðurinn aptur og var nú einn. Giptist hann um vorið; var gjört brúðkaup mikið, og boðið Ábæar hjónunum; höfðu þau lítið til hennar frètt, nema það sem brèfið sagði; varð þar fagnaðarfundur. Eptir þetta afstaðið fluttu þau á jörðina og fóru að búa. Bóndi sagðist ekki hafa mátt koma með hinn kaupamanninn, því hann hefði jafnan viljað fyrirkoma henni, og kom hann honum suðaustur á land. Ekki leið lángt, þar til hún ól meybarn. Tók bóndi það þegar og fór í burtu með og vissi einginn, hvað hann gjörði af því. Þau áttu fleiri börn, er lifðu; voru þau efnileg. Liðu nú 6 ár. Eitt sinn býst bóndi að heiman og sagðist mundi burtu vera viku. En eingum sagði hann, hvert hann ætlaði. Á tilteknum tíma kom hann heim aptur og var þá með stálpaða stúlku, ekki minni, en 9 vetra börn eru jafnast að vexti. Færði hann það konu sinni og kvað þetta vera dóttur þeirra; því hann hefði ætlað sèr að reyna hana, en ekki fremja það grimdarverk að myrða afkvæmi sitt. Varð konan fegin að sjá dóttur sína lifandi svo efnilega. Eptir þetta bjuggu þau í friði og unnust hugástum til ellidaga.

**Ólafur og Helga.** (Eptir sögn gamallar konu í Borgarfirði. M. G. Dr. Maurers Isl. Volkss. 258—64. bls.) Maður er nefndur Sigurður, góður bóndi og vel þokkaður. Hann átti efnilega og væna dóttir, sem hèt Helga. Ólafur hèt vinnumaður hans, úngur maður og efnilegur, og vel að sèr um alla hluti. Hann var prestsson, og var þá faðir hans hniginn mjög á efra aldur, þegar þessi saga gjörðist. Ólafur fèkk skjótt góðan þokka á bóndadóttur, og það orð lèk á, að það væri vingott milli þeirra. Þókti mönnum það vel til fallið, og vildi bóndi að þau ættust; því hann elskaði þau bæði innilega. Svo bar til eitt sumar, að alt geldfè bónda hvarf, og var þess leingi leitað, en fannst ekki. Sumarið eptir týndust ær bónda, og fór á sömu leið, að þær fundust ekki, þó leitað væri. Þókti Ólafi það skaði mikill; því hann var einstaklega húsbóndahollur og duglegasti maður.

Gjörðu menn sèr ýmsar gátur um, hvernig á þessu stæði, en bóndi fèkkst lítið um það. Leið svo nokkra stund, að ekki bar neitt til tíðinda.

Um veturnæturnar bar svo til eitt kvöld, að bóndadóttir fór út að gæta að þvotti, og kom ekki inn aptur. þegar menn fór að leingja eptir henni, var farið að vitja um hana. Sást hún þá hvergi. Síðan var leitað, og safnað til mönnum, og þrátt fyrir það fannst hún þó ekki. þetta fèkk mjög á alla, en þó mest á Ólaf. Hann lagðist í rekkju af sorg, og neytti hvorki svefns nè matar. Eina nótt, þegar sætur svefn hafði runnið í brjóst honum, dreymdi hann, að honum þókti faðir sinn koma til sín og segja: „Mikið ertu huglaus og ístöðulítill, og ekki er það karlmannlegt, að leggjast ráðalaus í rúmið, þó eitthvað gángi á móti. Eða heldurðu, að guð muni ekki geta greitt úr bágindum þínum, þó óvænlega sýnist á horfast? Rístu upp, taktu þèr nesti og nýa skó, og haltu einatt í suður, og hættu ekki, fyrr èn þú kemur að kringlóttum hól með lýngbrekkum umhverfis. þar er lækur við hólinn; yfir hann skaltu fara, og þá muntu komast á götustíg, sem þú skalt gánga. Reiddu þig einúngis á guð, og láttu hvorki vegaleingd nè ófærð snúa þèr aptur." þegar Ólafur vaknaði, reis hann skjótt á fætur og klæddi sig. Bað hann að fá sèr nesti og þrenna leðurskó nýa. Bóndi spurði, hvert hann ætlaði, en Ólafur lèzt ekki vita það svo gjörla. Bóndi segir honum bezt að vera heima, og sagðist mundi deya, ef hann misti hann líka, þar sem hann væri nú orðin sína eina gleði og ellistoð. Ólafur bað hann að bera sig vel og örvænta ekki. Síðan fór hann á stað, og kvaddi bónda grátandi. Hann fór eptir ávísan draumsins, og gekk einatt í suður. Svona hèlt hann á fram dag og nótt um holt og heiðar, og þókti honum vegurinn ógreiðfær; gjörðist hann nú gaungumóður mjög. Loksins kom hann að hólnum, sem draumurinn hafði til tekið. Fór hann þá yfir lækinn, og komst á götustíginn. Hrestist hann þá í huga, og hèlt enn á fram leingi. En þegar hann hafði nokkurn tíma geingið enn á fram, heyrði hann skamt frá sèr hóað, og það fremur karlmannlega. þá var mjög áliðið dag. Hann gekk á hljóðið, og sèr hvar maður mikill vexti og þreklegur rekur lambahóp stóran. Sá hafði öxi reidda um öxl, og var í mórendri vaðmálsúlpu, með hött síðan á höfði. Ólafur geingur að honum, og kastar á hann kveðju. Hinn tekur því heldur stutt, og spyr, hvað hann sè að fara. Ólafur segist vera að leita að sauðum. „Heldurðu að þeir sèu hèrna?" segir úlpumaðurinn. „En þú þarft ekki að ljúga að mèr," segir hann, „því eg veit bæði hvað þú heitir, og að hverju þú leitar. þú leitar að Helgu bóndadóttur, en ekki sauðum, og skaltu vita það víst, að hún er ekki lángt hèðan geymd, og færðu hana aldrei framar. Eg vil því ráða þèr til að fara sem skjótast heim aptur, eða eg neyðist til, að láta öxina ríða í höfuð þèr, þó eg sè ekki vanur að vega menn." „það er lítil frægð fyrir þig," segir Ólafur, „að níðast á mèr, vopnlausum manni og ferðlúnum,

og væri það jafnara að við glímdum og reyndum svo með okkur.“ Úlpumaður sagði og að svo skyldi vera, og snaraði frá sèr öxinni. Tóku þeir síðan glímutökum og geingust að heldur sterklega. Bárust þeir víða og leingi um völlinn, og fann Olafur, að hèr var við ærinn aflsmun að eiga. Sókti hann því ekki fast á, heldur varði sig einúngis, þángað til úlpumaðurinn fór að mæðast; neytti þá Ólafur þess, að hann var glímnari, og feldi hann á hælkrók. Þá sagði úlpumaður, að það væri lítil frægð fyrir hann, að fella sig, fimmtán ára gamlan únglíng. Ólafur sagðist nú samt mundi nota sèr fallið, og vildi draga úlpumann þángað, sem öxin lá. Ulpumaður spurði, hvað hann ætlaði. Ólafur kvaðst nú mundi neyðast til að vinna á honum, „þó eg geti líklega sagt það með eins sönnu um mig, og þú áðan, að eg sè ekki vanur að vega menn,“ segir hann. Úlpumaður sagði, að hann skyldi ekki drepa sig, og kvaðst geta orðið honum að miklu liði. Ólafur lèt þá til leiðast; því honum leizt ekki ódreingilega á manninn. Hann reisti hann þá á fætur, og lèt hann vinna sèr hollustueið. Ólafur bað hann segja sèr, hvar hann ætti heima, og hver hann væri. Úlpumaður segist eiga heima skamt þaðan, og vera útilegumaður. „Eg heiti Kári,“ segir hann, „og á eg gamlan föður og móður. Tvo bræður á eg, og eru þeir miklu eldri og sterkari, en eg, og hin mestu tröll. Annar þeirra sókti Helgu, og ætlar að eiga hana, en hún vill ekki þýðast hann og unir sèr illa. Er hún höfð í varðhaldi, og sitja systur mínar opt hjá henni til að hugga hana, og alt er gjört til að gleðja hana, sem verður. En það er alt til einkis. Hún neytir hvorki svefns nè matar, og er orðin náföl af harmi og sorg. Faðir minn er svo framsýnn, að hann vissi alt um ferðir þínar, og þegar eg fór til lambanna í dag, fèkk hann mèr þessa öxi, og sagði mèr, að rjóða hana í blóði þínu; því hann sagði, að þú mundir koma til mín. Eg er því öldúngis víss um, að þèr er bráður bani búinn, ef faðir minn eða bræður fá færi á þèr. Eg vil því ráða þèr til, að liggja nú hèr í lambhúsinu í nótt, og skal eg færa þèr nógan mat heiman að.“ Ólafur segist vilja fara heim með honum, og sjá bræður hans, hvað svo sem það kostaði. Kári segir, að hann skuli þá ráða, „og skal þá eitt gánga yfir okkur báða.“ Síðan gánga þeir ofan í dalverpi nokkurt. Sá Ólafur þar kotbæ í dalnum, og ekki stóran. Þángað fóru þeir, og sá Ólafur þar gamlan mann úti. Hann var tröllslegur mjög og illúðlegur. Það þóktist hann vita að væri faðir Kára. Ólafur kastaði kveðju á hann, en karlinn lèt eins og hann heyrði það ekki, og leit illu auga til hans og Kára. Kári leiddi Ólaf með sèr inn í bæinn. Voru þar lág og laung gaung og níðamyrkur. Þeir komu síðan inn í baðstofu. Þar sá Ólafur stúlkur tvær úngar og fríðar. Honum leizt vel á þær, og undraðist, hvað vænlegar þær voru, þar sem faðir þeirra var svo ljótur. Í öðrum enda baðstofunnar sá hann afhús dálítið. Þar sat gömul kerlíng, heldur ófrýnileg. Kári vísaði Ólafi til sætis, og

settist sjálfur hjá honum. Lèt hann þá sækja mat og gefa honum. Nú kemur gamli karlinn inn, og geingur hann inn í afhúsið til kerlíngarinnar. Skömmu síðar heyrði Ólafur hark mikið í gaungunum og skóhljóð. Þar næst sèr hann tvo menn koma inn í baðstofuna. Það voru bræður Kára, og voru þeir honum mjög ólíkir. Líktust þeir meira tröllum, en mennskum mönnum. Þeir gánga inn í húsið til karls og kerlíngar, og lètu eins og þeir sæu ekki Ólaf, en litu reiðulega til Kára. Ólafur heyrði að þeir töluðust eitthvað við í hálfum hljóðum inni afhúsinu. Ekki talaði Ólafur orð við nokkurn mann, og ekki yrti heldur neinn á hann. Kári sat líka einatt þegjandi hjá honum.

Þegar þeir höfðu setið svona nokkra stund, kemur karlinn fram á pallinn, og segir: „Ætl' það sè ekki komið mál til að fara að hátta?" Tekur þá Kári í hönd Ólafi, og leiðir hann fram gaungin og inn í skála, og segir, þar eigi hann að sofa. Síðan geingur hann burtu. Myrkur var í skálanum, og heldur óskemtilegt, og fannst Ólafi ekki til að gista þar. Nú kemur inn stúlka og dregur vosklæði af Ólafi. Ekki töluðu þau neitt saman. En þegar hún var að þerra fætur hans, fannst honum tár drjúpa á ristar sèr, og um leið og hún fór út, sagði hún ofur lágt: „Vertu var um þig." En þegar hún var nýskeð farin út, kemur Kári, og segist vilja vera þar hjá Ólafi um nóttina. „Það þykir mèr ekki ráðlegt," segir Ólafur, „því það getur orðið báðum okkur til tjóns." Kári sá, að það var satt, og biður hann vera varan um sig og fara í fötin aptur. Hann leggur öxi fyrir framan Ólaf í rúmið og segir: „Þessi mun veita þèr trúa fylgd, þó alt annað bregðist, ef þèr liggur á." Síðan geingur Kári burt, en Ólafur rís upp, og klæðist skjótt. Hann tekur ábreiðuna ofan af rúminu, og vefur henni um handleggi sèr og brjóst. Síðan leggst hann niður, og hefir höndina á axarskaptinu, en lætur hana þó ekki sjást. Þegar hann hafði skamma stund legið svona, heyrir hann mannamál og skóhljóð fyrir framan skáladyrnar. Læzt hann þá sofa, og hrýtur nú mikið. Því næst opnast hurðin, og gamli karlinn kemur inn með stórt sax í hendinni. Annar eldri bróðirinn var með honum, og bar ljós í annari hendi, en hníf í hinni. Þeir nema staðar á gólfinu, og litast um. Þá segir karlinn: „Hann sefur," og í sama bili veður hann að rúminu, og ætlar að kippa Ólafi fram á stokkinn. En Ólafur brá við skjótt, og hjó af honum höfuðið með öxinni. Þá kemur sonurinn, og ætlar að hefna föður síns. En Ólafur lèt skamt í milli verða, áður hann hjó hann banahögg. Í þessu bili kemur hinn eldri bróðirinn inn í skálann, og var þá fremur ófrýnilegur. Ólafur ætlaði nú að vega að honum, en hann var vopnlaus. Snarar hann þá frá sèr öxinni; því hann vildi ekki níðast á vopnlausum manni. Tóku þeir þá fángbrögðum, og glímdu heldur sterklega. Urðu þá sviptíngar miklar, og var eins og skálinn ætlaði að ríða niður. Fann Ólafur það skjótt, að hèr var við æði mikinn aflsmun að eiga, enda varð hann að

lokunum undir. Ætlaði þá hinn að draga hann að öxinni og drepa hann. En í því bili kemur Kári inn í skálann, og sèr, hvar komið er. Tekur hann þá í bróður sinn, og segir hann skuli hætta þessu. „Á eg þèr ekki svo mikið gott að launa," segir hann, „þar sem þú hefir viljað gjöra mig að hinum versta manni." Þorði hann þá ekki annað, en sleppa Ólafi á fætur, og sverja honum hollustueið. Þakkar þá Ólafur Kára liðveizlu, og segir, að hann hafi höggið æði nærri honum, „þar sem eg hefi nú drepið bæði föður þinn og bróður." Kári segir, að hann hafi orðið að verja hendur sínar, og skuli þeir ekki á það minnast framar. Leiðir Kári þá Ólaf þángað, sem Helga var. Ætlaði þá Ólafur varla að þekkja hana. Hún lá á bæn, og flutu harmatárin niður eptir fölnuðum kinnum hennar. En þessi tár snerust nú fagnaðar og gleði tár. Hún hafði verið kvennmaðurinn, sem þjónaði honum til sængur um kvöldið. En gamli karlinn hafði staðið í skáladyrunum til að heyra, hvort þau töluðu nokkuð saman. Hann hafði með þessu móti viljað svala grimd sinni, og særa hjarta hinnar sorgbitnu meyar.

Ólafur dvaldi nú þarna í kotinu nokkra daga í góðu yfirlæti. Síðan fór hann heim, og tók með sèr, auk Helgu, Kára og báðar systur hans. Vildi þá bróðir Kára ekki vera einn eptir með kerlínguna, og fór hann með hana með þeim. Ráku þeir sauðfè alt úr dalnum til bygða, og tóku það með sèr, sem fèmætt var í kotinu, en brendu síðan bæinn til ösku. Á ferðinni bar ekkert til tíðinda, og komust þau öll með heilu og höldnu heim til Sigurðar bónda. Varð þar mikill fagnaðarfundur, og var slegið upp gleðiveizlu.

Sat Ólafur um veturinn með fèlögum sínum hjá Sigurði bónda. En um vorið gekk hann að eiga Helgu bóndadóttur. Tók hann þá jörð, og reisti bú, og varð gildur bóndi. Hann gipti báðar systur Kára, og fèkk honum konu. Bróðir Kára kvæntist líka og settist að búi. Voru þeir æ mestu vinir, Kári og Ólafur, og lifðu leingi, og nutu góðrar elli, og almenníngs virðíngar.

**Einar á Brúnastöðum.** (Eyfirzk sögn.) Í Túngusveit í Skagafirði, á bæ þeim, er Brúnastaðir heita, var eitt sinn, sem optar, vinnumaður, sem Einar hèt; vænn maður og vel að sèr um margt og mæltu það sumir, að hann væri margvís. Hann hafði róið suður marga vetur fyrir húsbónda sinn. Jafnan fór hann einn manna, og kom ekki sú hríð, að hann viltist. Einn vetur, sem optar, gjörði hríð á hann á fjöllum, og brást honum að rata, svo hann viltist af rèttri leið. Hann hafði verið vanur að fara fjöll, því sú leið er styttri. Einar hèlt á fram ferð sinni, eitthvað út í óvissuna, geingur hann, svo dægrum skipti. Loksins kemur hann í dalverpi eitt, hittir fyrir sèr bæ, ber þar að dyrum. Stúlka kom til dyra úng og fríð. Einar heilsar henni. Hún tekur því. Það sá

Einar, að stúlkan var mjög hnuggin. Hann biður hana skila inn til húsbænda, að hann beiðist gistíngar. Þá fèllu tár á kinnar hennar, og mælti hún á þessa leið: „Bið ekki þessa, maður, og reyn heldur að fá þèr annað fylgsni yfir nóttina, því ef þú ert hèr, muntu ekki heill burtu fara.“ Einar kvaðst ekki hræðast það, og bað hana skila erindi sínu. Hún fór nauðug inn, kemur brátt aptur og segir honum sè leyft inn að gánga. Einar fór inn með henni og bar mal sinn með sèr. Í baðstofu var alt þegjandi, myrkur var þar, því dimt var orðið. Einar heilsar, og tóku undir karl og kerlíng. Nú er kveykt, og sèr Einar pall; er þar karl með kerlíngu sína uppi á. Á gólfinu var steinn mikill flatur ofan, og ker í hann miðjan. Einar hafði ritblý og skrifar staf í kerið og geingur síðan upp á pallinn og sezt þar niður. Ekki var við hann mælt. Stúlkan settist við vinnu sína, og var mjög óglöð. Einar spyr, hvort konan ætli ekki að gefa sèr neitt að borða. Hún gegndi litlu, en gekk fram. Sækir hún mat. Borðar nú Einar, og var ekki hræddur neitt. Sýndist honum þó hjónin gefa sèr ílt auga. Nokkru eptir að Einar hafði lokið máltíð sinni, segir karl, að bezt muni vera að ljúka störfum sínum, geingur síðan fram og kerlíng á eptir. Fór þá stúlkan að gráta. Brátt koma þau aptur; er þá karl að hvetja hníf eða sax, en kerlíng heldur á stórri skál, geingur að steininum og setur hana þar, ætlar að skorða hana í kerinu, en getur ekki. Karl fer þá til með henni og fer á sömu leið. Einar býðst nú til að festa skálina og geingur til þeirra. Skrifar staf í skálina. Þá festist skálin við steininn og þau bæði við skálina; brjótast þau um fast, en kom fyrir ekki. Eptir þetta sezt Einar í sæti sitt. Biður hann stúlkuna að fara og sjóða handa sèr hángið sauðaket, því það mundi þar til vera, þyrfti hún ekki að óttast húsbændur sína framar. Hún gjörir nú eptir skipun hans, og sauð ketið, og færir honum fult trog. Hann fer nú að borða og biður hana gjöra eins; borðuðu þau bæði nægju sína. Síðan háttar hann í rúmi hjónanna og svaf vel um nóttina. Daginn eptir var komið bjart veður. Býst nú Einar að fara leið sína. Hann spyr stúlkuna, hvaðan hún sè. Hún leysti úr því; höfðu illmenni þessi stolið henni úr bygðinni (óvíst hvaða bygð) og haft hana hjá sèr í 7 ár; höfðu þau drepið 9 ferðamenn og tekið það, sem þeir höfðu meðferðis.

Einar fèkk sèr öxi og höggur höfuð af þeim báðum og brendi þau síðan. Hann tók alla penínga, er þar voru og stúlkuna. Sneri síðan heimleiðis norður aptur; varð ekki meira af róðrum hans í það sinn. Kom hann heim að Brúnastöðum, og var þar um veturinn, það eptir var. Um vorið giptist hann stúlkunni, fèkk sèr jörð og fór að búa. Hann sókti í dalinn alt, er að gagni var í kotinu. Bjó síðan til elli með konu sinni.

**Hestadreingurinn í Skálholti.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar á Móum.) Brynjólfur biskup, er var í Skálholti, var talinn maður

fjölkunnugur. Einhverju sinni kom að Skálholti piltur nokkur, er hafði heyrt getið um kunnáttu biskups, gjörir boð fyrir hann og nær fundi hans. Erindi dreingsins er þá ekki annað, en að biðja biskup að kenna sèr galdur. „Hvað ætli þú lærir galdur,“ segir biskup, „þú ert ekki óþvílíkur.“ Dreingur segir, að ekki dugi ófreistað. Biskup segir hann megi fá að vera þá nótt, ef hann vilji, en í fjósinu verði hann að vera, og tekur dreingur það alt með þökkum. Um kvöldið fer dreingur í fjósið. En skömmu eptir komu hans þángað sèr hann, að það glórir í eitthvað frammi á flórnum. Dreingur er að virða það fyrir sèr og mælir fyrir munni sèr: „Skrítið er þetta.“ Það, sem glórir í, færist einlægt nær og nær, en dreingur dáist að, hvað skrítið það sè, en líkast virtíst honum það vera mannsstrjúpa. Þegar þetta er komið nærri, tekur dreingur upp moðtuggu og ætlar að fleygja í það, en þá hverfur það. Eptir þetta fer dreingur að leggja sig til svefns, og sefur vært um nóttina. Um morguninn finnur hann biskup að máli. Biskup spyr, hvernig hann hafi sofið, og lætur dreingur vel yfir. Biskup segir honum þá, að hann megi vera hjá sèr um veturinn, ef hann vilji. Dreingur tekur því með þökkum. Um vorið kemur biskup einhverju sinni að máli við dreinginn, og segir honum, að hann sè nú búinn að læra nóg, svo hann megi fara burt, ef hann vilji. En dreingur kveðst miklu fremur kjósa að mega vera smala- og hesta-dreingur hjá biskupi, og það fær hann líka fúslega. Þegar dreingur hafði verið enn þá eitt ár í Skálholti, kemur biskup að máli við hann, og segir, að hann muni gæfumaður verða, ef hann geti ráðið af dögum útilegumenn nokkra, er liggi á fjöllum uppi og grandi mönnum. Þeir hafi ekki alls fyrir laungu stolið einhverri helztu bóndadótturinni þar úr sókninni og hafi ekki síðan spurzt til hennar. Um vorið sendir biskup 2 vinnumenn sína norður Öræfaveg og fer dreingurinn með þeim í því skyni, að hann snúist við hesta í áfángastöðum, beizli þá og hjálpi til eptir megni. Þeir halda leið sína í 2 daga, og er dreingur hinn liðugasti. En að morgni sefur dreingur, þegar þeir ætluðu að leggja upp, og geta þeir ekki vakið hann, eða komið honum á fætur. Þeir tala harðlega til hans og hóta honum hörðu, en það stoðar ekki. Vinnumennirnir leggja nú upp og halda af stað, en gefa þó gætur að, hvort dreingur fari ekki að hreifa sig. Þeir sjá það einúngis, að dreingur stendur upp og leggst undir eins aptur milli þúfna. En er vinnumennirnir voru komnir úr augsýn, stendur piltur upp og býst til ferðar. Heldur hann þá þvert úr vegi; fer hann þá sakir kunnáttu sinnar beina leið að urðarholu einni og guðar þar. Það líður laung stund, að einginn gegnir, svo hann guðar aptur og aptur. Loksins kemur út laglegur kvennmaður. Hann heilsar henni og tekur hún kveðju hans. „Það er ekki mjög heimamannlegt hèrna,“ segir dreingur, „eg hefi leingi staðið hèr, og verið að guða, en einginn hefir gegnt.“ „Eg vildi óska,“ segir stúlkan, „að þú legðir sem fljótast af stað aptur, því eg óttast, að þú

munir annars verða drepinn.“ „Ekki held eg, að eg hræðist það,“ segir dreingur, og biður stúlkuna að gánga inn, svo hann komist á eptir henni. Hún geingur síðan inn og hann kemur á hælana á henni. Gánga þau nokkuð laung gaung og koma síðan inn í baðstofu kofa. Þar situr karl og kerlíng á rúmi. Hann kastar upp á þau kveðju. En þau gegna ekki og líta heldur óhýru auga til hans. Hann sèr, að rúm er fyrir gafli og tekur hann þar sæti óboðið. Fyrir neðan stokkinn sèr hann, að er nokkuð stór steinn og laut ofan í hann. Hann fæst ekki neitt um þetta. Allir þegja, og stúlkan er til og frá Loksins segja þau karl og kerlíng, að stúlkan skuli koma með matinn, til að borða. Að vörmu spori kemur hún með kettrog; virðist honum ketið vera tvenns konar, bæði manna og sauðaket. Karl og kerlíng fara að snæða, og gefa stúlkunni bita með af sauðaketinu. Þegar máltíðinni er lokið, geingur karl og kerlíng fram; eru þau nokkra stund frammi, en koma síðan, karlinn með hníf í hendi, en kerlíng með skál, og lætur hún skálina í steininn, sem áður er getið. Dreingur lætur sèr ekki bilt við verða, heldur fer að dáðst að, hve haganlega þessu sè fyrir komið. En þau gömlu geta aldrei komið skálinni fyrir, eins og þeim líkar, og eru leingi að stríða við það. Þau eru eins og dæmd við þetta, og þegar það hefir leingi geingið, fer dreingur fram, sækir eldivið og ber hann utan um þessi gömlu hjón, leggur síðan eld í og brennir þau þar. Þegar kalt var orðið í þessum kolum, fer pilturinn og stúlkan að leita innan um kofana og finna þá bæði perínga og aðra gripi, sem teknir höfðu verið af ferðamönnum, er karl hafði náð í. Þetta alt bera þau út úr greninu og leggja svo eld í kofana. Nú fer dreingur heim í Skálholt með fjármunina og stúlkuna; var hún bóndadóttir sú, er stolið hafði verið þar úr sókninni. Dreingur segir biskupi alt hvernig farið hafði, en biskup lætur í ljósi, að þetta sè upphaf gæfu hans. Stúlkan gjörir þá grein fyrir því, hvers vegna hún hafi haldið lífi hjá karli og kerlíngu, að þar eð þau hafi verið farin að eldast, þá hafi kerlíng orðið fegin að hafa sig til snúnínga heima við. Eptir þetta koma vinnumennirnir úr ferðinni, og ásaka dreing harðlega fyrir óþægð sína. En biskup segir, að hann sè kominn, og sè hann ekki vítaverður. Síðan eru dreingurinn og stúlkan í Skálholti, þángað til þau giptast; feingu þau þá góða jörð hjá biskupi, bjuggu vel og leingi og voru jafnan talin gæfumenn.

**Biskups fóstri frá Skálholti.** (Sögn úr Njarðvíkum syðra.) Það er upphaf sögu þessarar, að í Skálholti var biskup. Er ei getið nafns hans. Voru þá margir piltar í skóla þar. Voru þeir heldur gáskafullir og auk þess að stunda lærdóm þann, er kendur var í skólanum, lögðu þeir sig eptir að nema ýmislegt kukl. Svo er mælt, að biskup fóstraði únglíng einn. Er ei getið nafns hans. Hann var mjög kær biskupi. Hnýstist hann

mjög eptir breytni skólapilta, og sagði fóstra sínum jafnan, er þeir höfðust eitthvað ósæmilegt að. Komust piltar brátt að þessu, og lögðu óþokka á hann. Gekk þetta svo. Einn vetur höfðu piltar mikinn hug á að fyrirkoma dreing þessum. En gátu ekki sökum ótta við biskup, komið neitt til leiðar ætlun sinni í því efni, og leið svo veturinn. En þegar piltar komu næsta haust saman í skólann, vantaði einn, sem von hafði verið á, að koma mundi; var hann úr Hjaltadal. Tóku nú piltar það ráð, að þeir buðu fyrr umgetnum fóstursyni biskups ærið gjald, til þess að fara norður, og verða vís, hverju sætti, að pilturinn væri ekki kominn. Lögðu þeir ríkt á við dreinginn að fara ekki annan veg, en fjöll, þá hann færi norður. Og með því að dreingur girntist fèð, sem var í boði, hèt hann að fara, ef fóstri sinn lofaði það. Kom hann síðan að máli við fóstra sinn. En hann latti hann fararinnar. Kom þó svo, að biskup leyfir honum að fara. Beiddi þá dreingur fóstra sinn að sjá um, að hann næði því fè, er honum hefði lofað verið. Bjó þá biskup ferð fóstra síns, sem bezt var kostur á. En lèt hann þó fara gángandi. Var hann þá 18 vetra, er hann byrjaði ferð sína. Hèlt hann svo norður og stefndi fjöll, og þar sem honum var sagt, að skemmst væri af færum vegum. Og þegar hann hafði geingið leingi, kom á hann illviðri með miklum snjógángi. Viltist hann þá von bráðara, en hèlt þó á fram, þar til um síðir, að hann hitti kotbæ fyrir sèr. Barði hann þar að dyrum. Var það eptir lánga bið, að upp var lokið. Kom þar út karl einn ófrýnilegur. Bað komumaður hann gistíngar. En bóndi kvaðst ekki mundi synja honum þess. Fóru þeir þá inn og bar bóndi grjót að hurðu. Stóð komumaður þá í dyrum á meðan. En þegar bóndi hafði lokið starfa þeim, fór hann inn og komumaður á eptir. Voru laung gaung, og fór bóndi fyrr. En þegar komumanni fóru að leiðast gaungin, nam hann staðar, en bóndi hèlt á fram. Leið svo lángur tími, að einginn vitjaði komumanns, kallaði hann þá upp og kvað óríflega tekið gestum, þar eð hvorki feingist ljós, til að verka snjó af fötum, nè hnífur til þess, en hann gat ekki vegna frosts í fötum sínum náð vasahníf sínum, og þar með, að einginn byði sèr ferðlúnum sæti, eða neinskonar hægindi, sem ferðamenn þyrftu við. Þegar hann hafði þetta mælt, verður hann þess var, að geingið er fram hjá honum, og litlu síðar kemur gömul kona að framan með ljós í hendi. Sèr þá komumaður, að hann hefir staðið við baðstofudyr. Litast hann þá um, og sèr, að boðstofan er lítil og ekki fólk í henni, nema bóndi sá, er til dyra kom, og kerlíngin, er ljósið bar og únglegur kvennmaður einn, sem honum virtist ekki með glöðu bragði. Karl sat á fleti einu. Ímyndaði hann sèr, að karl og kerlíng mundu húsráðendur vera. Voru þau bæði mjög illileg. Þegar komumaður hafði lánga stund staðið, sá hann, að karl og kerlíng töluðu eitthvað hljótt sín á milli. Kveykir síðan kerlíng annað ljós, og fara þau með það fram. En þegar þau eru fram farin, fer komumaður á flet hjóna, og fer að verka snjó af

fötum sínum. Síðan fer hann að hátta þar. En kvennmaður sá, er fyrr var getið, segir honum, að hann skuli ekki hátta í rúm hjóna, því þar muni íll af leiða, og segir honum að vera vörum um sig. En hann kvað hana það eingu skipta. Háttaði hann síðan. En þegar hann var nýháttaður, komu þau inn karl og kerlíng. Bar karl öxi mikla í annari hendi, en brýni í hinni. En kerlíng hèlt á ljósinu í annari hendi, en trèskál í hinni. Tveir steinar voru á baðstofu gólfi; var annar svo lagaður, að laut var í hann. Fór kerlíng að koma fyrir skálinni í laut þá, er í steininn var, en bóndi settist á minni steininn, og tók að brýna öxina. Voru þau að þeim starfa, meðan hann vakti. Síðan sofnaði hann, og svaf til morguns. En þegar hann vaknaði, voru þau karl og kerlíng að sama starfa. Fer komumaður þá á fætur og gekk út að sjá til veðurs, og var ekki birt upp hríðin. Gekk hann síðan inn, og bauð húsráðendum góðan dag. Tóku þau því. Síðan segir komumaður við bónda, að sèr þyki líklegt, að honum sè farið að leiðast axarbrýnslan, og býður honum að hvíla hann, þar eð hann þykist vita, að bóndi muni ætla að hafa verkfæri það, til að beina komumanni með; kvaðst hann heldur vilja, að vel biti, svo fyrr tæki af. Þáði bóndi boðna þjónustu. Tók þá ferðamaður að brýna. Og þegar hann hafði brýnt um hríð, gekk hann að karli og sagði, að bíta mundi nokkuð skár, og kveðst reyna vilja. Heggur hann síðan á háls karli, svo af tók höfuðið. Slíka þjónustu veitti hann kerlíngu. Tók hann síðan líkami þeirra beggja og brendi til ösku. Sá komumaður, að stúlkan var mjög hrædd, þegar hún sá aðfarirnar. Spurði hann hana, hvort hún væri dóttir þeirra nýlatnu hjóna. En hún kvað það ekki vera. Sagði hún, að fyrir þremur árum hefði hún ásamt öðru fólki úr Skagafirði farið á grasafjall og hefði hún í þoku villzt frá því, hefði þá karl þessi fundið sig og flutt sig til bæar síns. Hefði hann sagt, að hún skyldi að kerlíngu látinni verða kona hans, og á þeim þremur árum hefði karl opt falað blíðu atlot sín, þó til einskis. Kvaðst hún vera dóttir prests að Mælifelli. Sagði hún, að karl hefði rænt og stolið af ferðamönnum, en myrt tvo, sem hún til vissi. Spurði hún, hver hann væri og hvernig stæði á ferðum hans. Sagði hann henni hið sanna frá ferðum sínum og heimkynnum. Síðan gjörir hann henni kosti þá að fara með sèr í mjög óvissri lífsvon, þar hann vissi ekki, hvert halda skyldi, og þar á ofan í verstu illviðrum, og hann þóktist fyrir víst vita, að hann væri talsvert viltur af þeim vegi, sem hann hefði ætlað að fara, eða að öðrum kosti dvelja þar í bæ þeim, sem þau voru í. En hún kvaðst heldur vilja með honum fara, þó að hún vissi, að hún samdægurs hlyti að deya úti, sakir þreytu eða illviðra. Sagðist hún ekki heldur neitt vita, hvert halda skyldi. Voru þau þar eptir þrjá daga, og bjuggust eptir því sem faung voru á til fararinnar. Bjuggu þau til tjald úr rúmfatnaði, en tjaldtrè úr einhverjum spýtum. Lögðu síðan af stað. Og eptir lánga mæðu komust þau á rètta leið, að þeim virtist,

og þegar leingra kom, þekti hún stöðvar þær, sem hinn vondi karl hafði tekið hana á, þá er hún viltist frá samferðafólki sínu, eins og áður er frá sagt. Er ekki getið, að þau hafi mætt illviðrum og ekki getið ferða þeirra, fyrr en þau komu norður til Skagafjarðar. Gisti hún þá á Starrastöðum. En hann hèlt til Mælifells um kvöld það hið sama, er þau komu ofan til Skagafjarðar. Beiddist hann þar gistíngar og var það þegar til reiðu. Var honum veittur þar hinn bezti beini. En um kvöldið kemur prestur upp á baðstofulopt, þar sem bæði gesturinn og vinnufólk sat að verki sínu. Heilsaði komumaður presti, og tók hann því. Ekki spurði prestur komumann neinna tíðinda, þó að hann vissi, hve lángt hann var að kominn, og ekki talaði prestur orð, en fór síðan ofan aptur. Tók þá komumaður til orða. Kvað hann prest þann undarlegan, þar eð hann spyrði ei tíðinda af ferðum lángferðamanna, eða úr fjarlægum hèruðum. Kvað hann prest heldur fúllyndan, og aldrei kvaðst hann hafa sèð eins dauflátan prest. Þókti vinnufólki hann tala fremur óvirðulega til prests, og sagði, að orsök til þúngsinnis prests væri sú, að hann hefði fyrir þremur árum síðan mist dóttur sína þannig, að hún hefði farið með öðru fólki á grasafjall og týnzt þar, svo einginn hefði til hennar vitað síðan. Hefði prestur þaðan af aldrei tekið gleði sína. Komumaður kvaðst eingin orsök hafa verið í hvarfi hennar, og væri slíkt ómannlegt að láta saklausa gjalda. Fer síðan komumaður til rúms þess, er honum var til vísað. Var hann árla á fótum um morguninn eptir. Vill hann þá hafa tal af presti. En honum var sagt, að ofsnemt væri að vekja hann. Kvað hann það lítt henta ferðamönnum að bíða lángt á dag fram. Sagði fólk, að hann skyldi ekki fara burt, fyrr en hann hefði þegið góðgjörðir. Gegndi hann því lítið, en fór ofan að Starrastöðum. Sókti hann stúlku sína, og fóru þau upp til Mælifells. Lèt hann hana fara þar inn í hesthúskofa, og gekk síðan til bæar. Var þá prestur kominn á fætur. Gekk þá komumaður til prests og bauð honum góðan dag, og þakkaði honum góðan beina. Spyr hann þá prest, hvort hann vilji heldur launa fund þann, er hann fundið hafi, eða gefa. Þegir prestur litla stund, en svarar síðan: „Það eitt munt þú, hèr alls ókunnur maður, hafa fundið, að mèr mun ekki stór missir í vera, og máttu eiga það.“ Sækir þá komumaður stúlkuna út, og fer með hana til föður hennar. Verður ekki útskýrt, hver fagnaðarfundur varð með þeim. En þegar prestur var búinn að fagna dóttur sinni, segir hann henni um tal þeirra, sitt og komumanns. Og segir hún, að það var vilji sinn, að eiga hann fremur öllum öðrum, því hann hafi með sínum dæmafáa dugnaði frelsað líf sitt úr þeirri miklu hættu, sem hún hefði í verið, og hèr er að framan frá sagt. Og þó prestur þekti ekki mann þenna, gaf hann góðfúslega eptir, að ráð þau tækjust. Var komumaður þar viku. Fór síðan leiðar sinnar út til Hjaltadals og afhenti brèf þau, er hann var sendur með, og þegar hann hafði tekið við brèfi suður aptur, fór hann fram til Mælifells og var þar enn viku um kyrt, og bjóst síðan

til heimferðar. Sagði þá prestur, að hann yrði á næsta vori að koma norður og vitja meyarmálanna. Fer hann nú leiðar sinnar, og segir ekki af ferðum hans, fyrr en hann kemur suður á fjöll. Koma þá á hann hin mestu illviðri. Veit hann þá ekki, hvað hann fer, þar til loks hann hittir fyrir sèr bæ einn. Ber hann þar að dyrum, og er fljótt upp lokið. Kemur maður til dyra, og er sá við aldur. Komumaður biður hann gistíngar. Kveðst fyrir verandi ekki vera vanur að úthýsa, og segir undrum gegna, að hann skyldi vera svo heppinn að ná húsaskjóli í svo vondu veðri. Fara þeir síðan inn. Lætur bóndi aptur og ber grjót að hurðu, og var hann bæði hraðvirkur og hraustleggur í handatiltektum. Gánga þeir síðan inn gaung. Segir bóndi, að þar í dyrum sè hross, sem hann eigi. Fer hann þá inn gaungin, þar til hann sèr til annarar handar sèr ljósglóru. Lítur hann þar í kofa, hvar kerlíng situr við eld. Var pottur á hlóðum, en kerlíng kynti. Lítur hann á hlóðasteini hjá kerlíngu mannshönd eina. Gaf hann sig ekki að því og gekk nokkuð leingra eptir bónda. Þá verður hann þess var, að hestur stendur í gaungunum. Biður hann þá bónda um ljós. Gjörir bóndi það. Þegar komumaður sèr hestinn, segir hann: „Þú ert þá þarna Skólaskjóni.“ En þegar hann var búinn að sleppa orðinu, segir hann: „Eg held það sè þó ekki hann.“ Bóndi spyr, hvort hann þykist kenna hest þann. En hann neitar því. Hafa þeir síðan nokkur orð um hestinn. Vilja þeir þá skoða, hvort hann sè geltur; voru báðir að þukla eptir því, sinn hvoru megin hestsins. Fer þá komumaður yfir bak hestinum og ofan yfir bónda, og urðu allharðar sviptíngar þeirra. En svo lauk, að bóndi fèll. Lèt þá komumaður knè fylgja kviði, og hætti ei fyrr við, en bóndi var dauður. Snaraðist komumaður þá að kerlíngu, sem hafði áður komið að viðskiptum þeirra, en þorði ekki fyrir ógnunum komumanns að veita manni sínum. Veitti hann henni einnig bana, sem manni hennar, brendi þau síðan til ösku, og litast síðan um í kotinu; finnur hann þá fatnað, sem hann þekti, að átt hafði skólapiltur sá úr Hjaltadal, er átti að koma um haustið í Skálholtsskóla. Fann hann þar líka bækur og reiðtýgi, og þekti sömuleiðis hestinn. Dvaldi hann þar 3 daga. Fór síðan leiðar sinnar. Hafði hann með sèr hestinn og allar færur hins dauða skólapilts, og gekk honum ferðin greiðlega. Kemur hann til Skálholts, og fagnar biskup vel fóstra sínum, og þykist hann úr helju heimt hafa. Segir hann biskupi hið ljósasta af ferðum sínum. En fyrir piltum gat hann ekki um meyarmálin. Þókti þeim ekki betur, að hann kom aptur, og reingdu þeir mjög, hann hefði fjöll farið. Vann hann þeim þá eið, að svo hefði verið, sem hann sagði. Vildu þeir tregðast við að greiða hið lofaða fè. En með aðgángi biskups hlutu þeir að láta það. Síðan beiddi hann biskup að menta sig um veturinn eptir faungum, og það gjörði hann. Síðan um vorið gjörði biskup hann vel frá sèr, og fór hann norður til Mælifells. Var þá prestur búinn að losa

Starrastaði handa honum. Setti hann þar bú, og var prestur búinn að ráða honum hjón og yrkja jörðina eptir þörfum. Var hann það sumar ógiptur, en um haustið gekk hann að eiga dóttur prests. Gjörði prestur vel við hann. Varð hann síðan með merkustu bændum í Skagafirði, metinn af öllum, er hann þektu, hinn ötulasti í öllum mannraunum; mesti bjargvættur sveitarinnar var hann álitinn og fjölvís og kom hvervetna fram, þar sem betur gegndi. Unnust þau hjón til ellidaga, en ekki er getið barna þeirra. Og endar svo þessi frásaga.

**Biskupsdóttirin í Skálholti.** (Eptir handriti þorvarðar Ólafssonar.) það var einu sinni biskup í Skálholti; hann átti dóttur, sem Sigríður hèt. Faðir hennar unni henni mjög, enda var hún fríð sýnum og ágætlega að sèr í öllum kvennlegum listum. Beiddu hennar margir menn, en hún tók eingum. Einu sinni var hún á gángi um vortíma úti, lángt nokkuð frá bænum. þá veit hún ekki fyrr til, en til hennar ríða 12 menn. Einn af þeim tekur hana og lætur hana á bak fyrir aptan sig, og ríða þeir svo allir á burtu lángan veg, þángað til þeir koma að einum kofa, þar stíga þeir af baki. Sá, sem hafði reitt Sigríði, fer nú með hana í kofa þenna og segir við hana: „Hèr áttu nú að vera, þú ert komin fram í fjöll, og ef þú leitast við að strjúka, muntu verða drepin. Einnig verður þú að elda handa okkur og þjóna okkur, en líki okkur það ekki, máttu búast við hörðum hárborða.“ Hún tekur nú til starfa og geingur alt vel. Nú líður að hausti og fara kofabúar að tala um að fá sèr sveitafè til slátrunar. þá er Sigríður eitt kvöld með ljós frammi í bæardyrum. Nú víkur sögunni til biskups; hann hafði leingi látið leita að dóttur sinni og eitt kvöld er hann sjálfur á gángi lángt í burtu og sèr hann þá áleingdar ljós það, sem dóttir hans heldur á, en vissi þó ekki, hvaða ljós það var. Hann heldur þá á fram og geingur á ljósið og kemst til dóttur sinnar. Hún fagnar vel föður sínum og segir, að hann skuli forða sèr sem fljótast, því einn maður sè hèr svo göldróttur, að hann viti af honum. En á morgun fari hèr allir í burtu, og þá þækti sèr vænt um, ef hann gæti komið og talað við sig. Sigríður fer nú að hátta, en biskup fer í burtu. Nú vakna kofamenn snemma næsta morgun og fara af stað. Að lítilli stundu liðinni kemur biskup og finnur dóttur sína. „Nú eru fá ráð fyrir hendi,“ segir hún. „Að 3 kvöldi hèr frá skaltu samt koma híngað með menn,“ segir hún; „munu þá heimamenn hèr hafa geingið víða um fjöll og verða því óvarir um sig. þeir munu þá fara úr fötum, en ekki endrarnær og skal eg þá sjá um, að þeir verði ekki fljótir að klæða sig.“ Hún sýnir honum rúm og segir honum, að þann mann verði hann fyrst að drepa, sem í því sofi, því annars fari illa, hann sè galdramaður mikill og viti margt, og það muni hann vita, að þau sèu nú að tala saman.

Biskup fer nú burt. Kofamenn koma með fè heim að kvöldi og sá af þeim, sem göldróttur var, tekur nú Sigríði fyrir, atyrðir hana og lemur drjúgum; segist vita vel, að hún hafi talað við föður sinn í dag, hún hafi svik í huga og gjöri hún þetta optar, skuli hún drepin verða. Kofabúar sækja enn fè næsta dag. Þriðja daginn sækja þeir fè og koma að kvöldi; hafa þeir feingið í alt 12 hundruð fjár; var hundrað ætlað handa manni. Þeir eru þreyttir mjög, hátta nú og fara úr öllum fötum. Sigríður ber fram föt þeirra, snýr um annari erminni á hverri skyrtu og annari skálminni á hverjum nærbuxum, og fer svo með fötin inn aptur. Nú er að segja frá biskupi, að þetta sama kvöld kemur hann með menn sína. Hann fer að kofamönnum í rúmunum; þeir verða seinir í fötin, og geta biskupsmenn drepið þá alla, nema galdramanninn; hann slapp undan. Þegar Sigríður veit það, líður yfir hana hvað eptir annað. Hún raknar samt við, og faðir hennar hughreystir hana og segir, að henni muni verða óhætt, meðan hann lifi. Nú heldur biskup, menn hans og dóttir heim í Skálholt. Hann tók það, sem fèmætt var í kofanum, og skipti því meðal fátækra, nema fjallafènu, af því fèkk hver, er hann átti. Sigríður var nú í Skálholti með föður sínum, en það sáu menn, að opt lá illa á henni, og hèldu menn, að hún óttaðist galdramanninn, og þess biður hún föður sinn, að taka eingan mann til veturvistar, nema því að eins, að hún viti af. Nú líða mörg ár; margir menn biðja Sigríðar, en hún tekur eingum og segist aldrei ætla að giptast. Eitt haust kemur maður nokkur velbúinn í Skálholt; hann var íslenzkur, en kom þó utan lands frá. Hann átti fjármuni mikla, er hann hafði með sèr, og biður biskup veturvistar. Biskup gjörir það, og ljær honum geymsluhús. Þegar nokkur tími er liðinn af vetrinum, leggst maður þessi veikur og liggur leingi og hætt og getur einginn læknað hann. Loksins gefur biskup sig á tal við hann, spyr, hvað að honum gángi, og hvort hann muni ekki geta hjálpað honum. Maðurinn segir, að helzt muni hann geta hjálpað sèr af öllum. Biskup spyr, með hverju móti. „Mig lángar til að eiga dóttur þína,“ segir maðurinn, „og fái eg von um það, mun mèr bráðum batna.“ Biskup lofar honum góðu um þetta. Nú fer manninum að batna. Biskup kemur að máli við dóttur sína um að eiga mann þenna, en hún tekur því mikið fjarri. Hann segir, að þetta sè fásinna af henni að neita svona hverjum manni, „ekki lifi eg altaf hjá þèr,“ segir hann, „og þegar eg dey, þá ertu aðstoðarlaus eptir.“ Hún tekur þessu mjög dauflega og segist eingan mann vilja eiga, og sízt þenna. Biskup kveðst nú ekki leingur líða henni þetta, segist muni taka af henni ráðin, og skuli hún eiga þenna mann. Biskup segir manninum, að bruðkaup þeirra skuli bráðum verða, því mál þetta skuli gánga fyrir sig. Maðurinn kveðst nú vilja haga sèr í þessu á nokkurn annan veg, en venjulegt sè, kveðst vilja byggja sèr hús og í því vilji hann sofa hjá konu

sinni fyrstu nóttina. Hann byggir nú sjálfur hús bæði mikið og fagurt. Að því búnu gjörir biskup bæði góða og fjölmenna veizlu og er brúðurin döpur mjög og grætur opt. Þó skipta menn sèr ekki af því, og líður svo veizlan. Þá fylgir biskup hjónunum í hið nýa hús. Þar er rúm uppbúið og skipar bóndi konu sinni að fara að hátta. Þau hátta þar, en biskup geingur heim og læsir húsinu. Þá mælir bóndi þúngum orðum til konu sinnar. „Eg er nú sá maður," segir hann, „sem þú ætlaðir að láta drepa í bænum á fjöllunum forðum. Þú drapst alla lagsmenn mína og ætlaðir ekki að láta mig sleppa. Það er því að maklegleikum, þó eg nú kvelji úr þèr lífið, enda skal eg gjöra það." Hún leggur hönd um háls honum og biður hann að gefa sèr líf, en hann kvað nei við því; „skal eg nú reka þig í gegn með 11 heitum járnfleinum," segir hann, „og þeim 12 skal eg stínga í gegnum hjartað, fyrir þá sök að þú ætlaðir að drepa mig." Þá mælti hún: „Fyrst eg fæ ekki að lifa, þá lofaðu mèr að biðjast fyrir, áður en eg dey." Þegar hún er að biðjast fyrir, opnast húsveggurinn hjá rúminu og þar hleypur hún út og í myrkrið. Hún heyrir, að maður hennar kemur á eptir með miklum hljóðum, og loksins leggst hún undir holan bakka. Hann leitar, en finnur ekki. Snemma um morguninn kemur biskup í húsið og finnur manninn; segir hann biskupi, að hún hafi horfið frá sèr í nótt og fjallaþjófar hafi líklegast stolið henni. Biskup trúir því, verður ángurvær mjög og grætur sáran safnar hann þá mönnum og leitar sjálfur. Bráðum finnur biskup dóttur sína, og segir hún honum alla málavexti. Þegar allir eru heim komnir, lætur biskup taka manninn, og pína úr honum lífið með sama móti, og hann ætlaði að gjöra konu sinni. Eptir það giptist Sigríður vænum manni, fór það alt vel og þókti hún jafnan merkileg og væn kona.

**Nítján útilegumenn.** (Eptir sögn gamallar konu í Reykjavík.) Á Vestfjörðum var það, eins og annarstaðar, siður, að alt fólk á hverjum bæ fór til helgra tíða á jólanóttina, en venja var þó, að einhver væri heima að gæta búsins. Á einum bæ þar var það orðið að venju, að á jólanóttina, meðan fólkið var við kirkju, var sá, er heima var, drepinn og bærinn rændur mörgu, bæði mat og öðrum fjármunum. Þetta hafði viðgeingizt margar jólanætur, hverja eptir aðra, en aldrei ella, og einginn vissi, hvað til kom.

Nú fèkkst einginn til að vera heima um jólanóttina, og hver þóktist hólpinn, er hjá því slapp. Einu sinni, sem optar, líður að jólum, og nú vill einginn vera heima, þángað til bóndadóttir býðst til þess. Bóndi vildi ekki, að dóttir sín væri heima, því hann hugsaði, að eins færi fyrir henni og öðrum, er heima hefðu verið hinar næturnar, og heimilisfólkið vildi ekki sjá af henni; en þó fór svo, að hún varð ein heima. Þegar fólkið var farið, bjó bóndadóttir vel um allar dyr, lokaði þeim og læsti, svo nú

gat eingin skepna inn komizt, nema skriðið væri inn um rennu, sem lá út úr eldhúsinu. Við rennu þessa sezt bóndadóttir, og bíður nú átekta. Skömmu síðar heyrir hún hark mikið úti, hávaða og mannamál. Það var geingið að dyrunum, en alt var lokað og læst; nú er komið að rennunni, sem bóndadóttir sat við, með stóra öxi. Síðan heyrir hún, að einhver kemur skríðandi á maganum inn um rennuna, og þegar hann er kominn með höfuðið svo lángt, að það er komið inn í eldhúsið alveg, þá heggur bóndadóttir hausinn af honum með öxinni, en dregur búkinn alveg inn á eldhúsgólf. Síðan heyrir hún, að annar kemur á eptir, og fær hann sömu útreið, og á þessu geingur, þángað til 18 eru komnir. En í því hinn átjándi rekur höfuðið inn, kallar hann upp: „Við erum sviknir.“ En hann gat ekki snúið aptur, því bæði var rennan þraung, og bóndadóttir fljót, að höggva höfuðið af. Nú líður og bíður, þángað til fólkið kemur heim; þá tekur bóndadóttir á móti því heil heilsu og hugró, eins og ekkert hefði ískorizt. Fólkið furðaði á þessu, og segir hún þá frá öllu, en bætir því við, að hún sè hrædd um, að einn hafi orðið eptir af útilegumönnum þessum, sem ekki hafi komið af því, að hinn átjándi kallaði. Eptir þetta vita menn ekkert af þessu að segja. Margir komu að biðja bóndadóttur, því hún var kvennkostur góður og vel að sèr, en hún neitaði öllum, og segir ávalt, að einn muni hafa orðið eptir við rennuna forðum. Einu sinni kastar útlent skip mjög glæsilegt, akkerum í grend við bæinn, og forínginn á skipinu var mikið stórmenni, voldugur og ríkur. Hann kom opt til bónda, sem þókti það vera heiður fyrir sig; og leið ekki á laungu áður en hann biður bóndadóttur. Bóndi tók því vel, sem von var, en bóndadóttir vill ekki taka honum. Eptir fortölum föður síns játar hún honum loksins, og eru þau þá gefin saman og mikil og vegleg veizla haldin hjá bónda, því hann var ríkur og hafði vel hýst. Síðan eiga hjónin að sofa saman uppi á lopti, þar sem einginn annar maður var, og foríngi skipsins lèt flytja upp í svefnherbergi sitt stóra kistu jarnslegna. Þegar allur umgángur er úti, segir hann við bóndadóttur, að nú skuli hann launa henni fyrir lagsmenn sína forðum við rennuna, lýkur upp kistunni, tekur þar upp járnteina, fer út með þá og ofan til að hita i eldi, en á meðan býr hann svo um hurðina, að bóndadóttir kemst ekki út. Bóndadóttir sèr, hvað verða muni, þrífur sæng úr rúminu, brýtur gluggann, sveiflar um sig sænginni og fleygir sèr út. Mjög var hátt ofan úr glugganum, og handleggsbrotnaði hún, er hún kemur niður. Hún hleypur á gluggann til föður síns og segir honum að taka fantinn. Bóndi ríkur upp til handa og fóta, kallar húskarla sína með sèr, og hitta þeir hann í stiganum með sjóðheita járnteina. Bóndi tekur hann þar og bindur. Síðan er hann píndur til sagna og að því búnu var hann drepinn. En bóndadottir giptist skömmu síðar aptur vænum manni og lifði vel og leingi með honum.

**Stúlkan frá Galtalæk.** (Eptir handriti séra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Einu sinni námu útilegumenn kvennmann frá Galtalæk í Landsveit. Fluttu þeir hana svo einn dag, að bundið var fyrir augu henni. Daginn eptir sá hún þó til Heklu, og þóktist hún vita á afstöðunni, að hún væri flutt inn með Köldukvísl. Að þremur dögum liðnum komu þeir heim til sín. Útilegumennirnir voru 14 saman. Var einn elztur og hafði hann ráð fyrir hinum, og var prestur þeirra. Menn þessir voru sumir strokumenn úr sveit, en sumir alveg fjallamenn. Þeir gjörðu stúlkunni kost á því, að eiga hvern þeirra, sem hún vildi; en hún hafnaði því, og neyddi þá heldur einginn hana, en þeir hèldu henni hjá sèr, til að matreiða fyrir sig og þjóna sèr. Höfðu þeir áður stolið 2 stúlkum, er báðar voru dauðar. Fjórða hvert ár fóru þeir í kaupstað, og þá var hinn gamli maður vanur að fara heiman, en annars ekki. Reið hann gráskjóttum hesti miklum og fljótum; voru þá ætið 2 eða 4 heima. Aðra ferð fóru þeir á hausti hverju eptir slátursfè, var þriggja daga ferð þángað. Brugðust þar aldrei hagar, en bústað sinn höfðu þeir á öðrum stað, svo þeir fyndust síður. Aldrei festi stúlkan yndi hjá þeim, og leitaði hinn gamli maður þó allra bragða við að stytta henni stundir. Beiddi hann hana að eira þar, meðan hann lifði, og kvaðst skyldi leggja það undir, að hún yrði flutt til bygða, að sèr látnum. Stúlkan var nú þarna hjá þeim í 12 ár. Þókti henni hinn gamli maður fara að gjörast lánglífur. Eitt haust var veður gott og fagurt mjög. Fór þá hinn gamli maður með hinum sèr til skemtunar og reið Grána sínum. Skildu þeir stúlkuna eina eptir, því þeir grunuðu hana ekki um nein svik. Voru þeir fulla viku í ferðinni, og komu heim þrekaðir og þreyttir mjög. Meðan þeir voru burtu, dró stúlkan að við mikinn, og bar hann heim á hlað. En er þeir voru háttaðir og sofnaðir, bar hún gaungin full af við, og fyrir alla glugga kesti mikla; sló síðan eldi í alt saman og gekk þar ekki frá, fyrr en kviknað var í og tók að loga. Þá gekk hún að húsi því, er Gráni var í, lagði við hann og teymdi hann út, og settist á bak, en gat ekki komið honum úr sporunum, fyrr en hún tók hatt og yfirhöfn hins gamla manns. Í því hún fór, reið hún fram hjá loganum. Brutust þá 2 menn út úr eldinum. Datt annar þegar dauður niður, en annar komst svo sem 2 eða 3 faðma út úr loganum, og hneig þar niður; var það hinn gamli maður. Kom hann þá auga á stúlkuna og horfði grátandi eptir henni, þar sem hún fór á Grána. Lètti hún ekki ferð sinni fyrri en hún kom til átthaga sinna. En illa mæltist fyrir verk hennar. Var hún hvergi vel látin, og var gæfulítil til dánardægurs.

**Sagan af Ketilríði bóndadóttur.** (Eyfirzk sögn.) Í fyrndinni bjó bóndi í dal einum á austurlandi í Suðurmúlasýslu, er Grímur hèt. Kona hans hèt Þorkatla, en dóttir Ketilríður, og áttu þau ei annað barna. Dalur þessi var albygður. Það bar til eitt haust, að menn heimtu sauðfè

venju framar illa; voru gjörfir út menn til eptirleita um öræfi, en kom fyrir ekki. Föður Ketilríðar vantaði mest, og nálega allar geldur kindur. Hann og aðrir kunnu þessu stórilla, en feingu ei aðgjört. Snemma vetrar kom Ketilríður að máli við föður sinn á þessa leið: „Eg vildi faðir, að þú gæfir mèr orðlof til að ferðast um óbygðir og leita fjár þíns. Er mèr grunur sá, að ei muni eg til einskis fara, ef þitt leyfi feingist hèr til." Grímur mælti og brosti: „Fyrri vissi eg það dóttir, að þú ber karlmannshug í konubrjósti, en ekki þykir mèr ferð þessi mjög fýsileg. Kann vera, að tröll, vættir, eða stigamenn haldi sig í óbygðunum, sitji fyrir þèr og taki þig; yrði það þinn bani, eða að minnsta kosti slyppir þú aldrei úr höndum þeirra." Ketilríður mælti: „Meira mun orð á gjört um slíkt, en aðhæfa sè fyrir, og hræðist eg það alls ekki." Hún neyddi föður sinn, þar til hann gaf henni leyfi til fararinnar. Segir hann, að smalapiltur skuli fylgja henni. Hún lèt það svo vera. Býr sig nú með vistir og skó, því hún bjóst við að gánga ekki allstutt. Kvaddi hún foreldra sína og hèlt á stað með piltinum. En lèt hann snúa heim aptur, er þau voru komin úr augsýn. Fór hann nauðugur og sagði Grími, að hún vildi ekki fylgd hans. Fèkk það bónda ógleði, því hann varð hræddur um dóttur sína, að feigð mundi hana kallað hafa. Ketilríður geingur leingi um óbygðir. Loks fór að dimma veður, gjörði drífu mikla og sá lítið. Tók hún þá að villast, gekk hún svo leingi, að hún veit ei hvert, uns hún finnur undir fótum sèr egg eða fjallsbrún. Hèr geingur hún ofan og mundi þó flestum þykja ófært sökum kletta og harðfennis. Eptir lánga þraut komst hún ofan á slèttlendi; var hríðin svo svört, að ekkert sást frá sèr. Hún hèlt þetta vera dal; rann eptir honum á með ísbrúm. Hún hafði stutt geingið ofan með ánni, er hún hittir sauðahús mikið. Sèr hún mann við dyrnar og fjölda fjár. Ei þókti henni maðurinn illilegur. Hún heilsar honum, en hann tók því stutt. Hèr þekkir Ketilríður fè föður síns og hinna dalbúanna. Maðurinn hleypir inn fènu og Ketilríður hjálpar honum til. Spyr hann síðan að nafni, og hvar hún sè komin. Hann kveðst Þorsteinn heita, en dalinn nefndi hann ekki, og sagði hann lítt bygðan, og ekki væri þar, nema einn bæ. Ketilríður kvaðst mundi beiðast þar húsa um nóttina. Hann kvað það óráð, ef hún vildi lifa; „eru hèr eingum grið gefin, er gistínga beiðist, en þó mun eg svo til sjá, að þig saki ekki, ef þú vilt mèr heim fylgja. Veit eg erindi þitt og vildi eg gjarnan, að þú færir góða för." Gánga þau nú heim og inn í bæardyr; rótar hann þar til í horni einu, tekur upp hlemm; er þar undir jarðhús lítið. Þar lætur hann Ketilríði koma í og sagði henni að láta ekki til sín heyra, hvað sem ágeingi og hún heyrði, ella yrði það hennar bani. Byrgði hann síðan jarðhúsið og gekk burt. Nokkru síðar heyrir hún brauk mikið og mannamál; heyrði hún, að ekki mundu þeir færri, en 6 og voru að leita og spyrja eptir gestinum. Hún heyrði Þorstein neita,

að nokkur hefði þar komið. Ketilríður varð óttaslegin af ógángi þessum, því brothljóð var í hverju trè og skalf jarðhúsið af fótasparkinu. Síðan þagnaði það og var þá alt hljótt. Ketilríður sofnar nú skjótt, því bæði var hún syfjuð og þreytt. Um morguninn snemma vakti Þorsteinn Ketilríði, biður hana koma með sèr; var hún þá ekki sein að standa á fætur. Fór hann með henni til sauðahússins og greiddi henni fè föður hennar og hinna í dalnum, fylgdi henni síðan úr dalnum; var þá veður bjart. Þorsteinn mælti til Ketilríðar að skilnaði: „Nú mun eg ljá þèr hund minn til fylgdar heim til þín, og mun hann þèr á við góðan mann til fjárrekstra. Skilja mun hann við þig heima hjá vallargarði. En þess bið eg þig, að þú safnir mönnum, er þú ert heim komin, og eigir þá vísa, ef á þarf að halda. En ei skaltu híngað með þá vitja, nema eg sendi þèr Sörla minn (svo hèt hundurinn), og mun eg þá liðsþurfi. Þess vil eg líka biðja þig, að eigi giptist þú, fyrr en þú veizt, hvað um mig verður." Að svo mæltu skildust þau. Hèlt Ketilríður heim og rak Sörli fèð alt að vallargarði föður hennar.

Ketilríður gekk nú heim og urðu foreldrar hennar stórglaðir, því þau þóktust heimta hana úr helju. Spurðu þau hana frètta. Hún sagði af hið ljósasta. Nú feingu menn aptur fè sitt. Lofuðu þeir Ketilríði. Kváðu hana mikinn dugnað og hugrekki sýnt hafa. Hún fór brátt að safna liði og fèkk 24 vaska menn úr sveitinni. Sá hèt Ketill, er fyrir þeim skyldi vera. Leið nú fram á veturinn. Eina nótt dreymir Ketilríði Þorstein biðja sig um liðveizlu. Vaknar hún snemma morguns og klæðist, geingur út; stendur þá Sörli við bæardyr og flaðrar upp um Ketilríði. Brá hún skjótt við, sendi eptir þeim mönnum, er hún hafði til feingið að veita henni lið. Gekk skjótt búníngurinn; var Sörli í broddi fylkíngar. Komu þau í dalinn og alt til bæarins; var það seint á degi. Eiginn maður var úti. Ketilríður talar við menn sína: „Bíðið mín á húsabaki. Mun eg fyrst ein inn gánga, en bregðið við skjótt ef eg kalla." Þeir játa því. Geingur hún í bæinn og í baðstofu; var þar pallur. Settist Ketilríður þar niður þegjandi. Sèr hún karl og kerlíngu og 6 pilta. Alt var það illmannlegt á svip. Kerlíng talar nú til Ketilríðar, og spyr, ef hún vilji mat; gat til hún mundi svaung. Ketilríður þáði boðið. Sækir kerlíng þá fram kjötfat og fær Ketilríði. Hún tók við, en leizt ei vel á, er hún skoðaði, því mannakjöt var á fatinu. Kveðst hún óvön slíkri fæðu og bað kerlíngu útvega sèr aðra betri. Kemur þá gamla konan með sauðakjöt. En þá sèr Ketilríður, að karl tekur hníf og fer að hvetja. Segir hann við pilta sína bezt muni að drepa Ketilríði sem skjótast og biður þá taka hana. Þeir standa upp. Hún biður þá lofa sèr að sýngja andlátsbæn sína, því hún væri kristin. Karl var einginn trúmaður og vill það ekki. Sonum hans var forvitni á að heyra bænina, því slíkt höfðu þeir aldrei heyrt, og fèkk hún því leyfi hèr til. Hún bað þá fara með sig út á

bæardyra þröskuld, því guð mundi ei vilja sækja sálu sína inn í bæ þeirra. Karl vildi þetta ekki, en synir hans ráða, og fara nú með hana fram á þröskuldinn, en karl kemur á eptir með hnífinn. Fór nú Ketilríður að biðja á þessa leið:

„Keta, Keta, Keta mín
kom þú hèr með sveina þín,
og sæktu híngað sálu mín."

Brugðu þeir Ketill við skjótt, hlaupa til dyra með vopnum sínum. Sleptu þá piltarnir Ketilríði og vildu forða sèr, en máttu ekki. Drápu þeir alt illþýði þetta, og brendu síðan. Fóru þeir nú að leita að Þorsteini. Vísaði Sörli þeim á hann í húsi einu læstu; sat hann á stóli með bundnar hendur við stólbrúðirnar. Fætur hafði hann að knjám í vatnskeri. Fat stóð fyrir honum með sauðakjöti reyktu, en ekki gat hann til þess náð. Var hann leystur og hrestur við. Sagði hann þeim, hvaðan hann var. Hafði illþýðið stolið honum úr bygð, því hann var góður fjármaður. Var nú bærinn brendur. Fluttu þeir alt í burt, er þess var vert; var þar ógrynni auðæfa og eignaðist Þorsteinn og Ketilríður það alt. Fóru þau heim til bygða með fjárhlut sinn, og launuðu vel liðsmönnum sínum ferðina. Eptir þetta biður Þorsteinn Ketilríðar, og svaraði Grímur því máli vel. Giptust þau síðan og bjuggu á bæ Gríms eptir hann látinn. Unnust þau hugástum til elli, og voru hin ríkustu hjón í þá daga.

c) Þó að sú skoðun hafi ríkt hjá almenníngi, eins og vèr þegar höfum sèð í undanfarandi atriði, að fjallabúar væru að öllum jafnaði stórvaxnari og þar eptir miklu sterkari, en bygðamenn, eins og einnig fènaður þeirra, hestar og sauðfè er álitinn miklu stórvaxnari og betri, en sveitamanna, eða þó að þeim sè látið svipa til tröllanna í því, að þeir jeti ekki að eins sjálfir mannaket, heldur beri það fyrir gesti sína, hefir þetta þó hvorugt hamlað bygðamönnum frá að flýa í óbygðir. En upp á því hafa þeir helzt tekið fyrir misferla og meina sakir, sumir hafa, ef til vill, átt að ala þar allan aldur sinn, en sumir komizt þaðan aptur, samkvæmt því almennings áliti sem hèr hefir verið, að hver sá, sem hefði verið 20 ár í útlegð, væri alfrjáls maður að þeim tíma liðnum, hvað sem hann hefði unnið sèr til óhelgi með fyrsta, sem mun vera dregið af dæminu um Gretti,[1] og þar á eptir af dæmi Fjalla-Eyvindar. Það er ekki sagt mjög sjaldgæft, að bygðamenn hafi tekið dætur fjallabúa fyrir konur, og búið síðan með þeim í sveit; en hitt er miklu sjaldgæfara, að menn hafi farið í þeim vændum sjálfráðir í óbygðir og íleingzt þar. Enda eru útilegumenn sagðir illir viðtakna og tortryggi bygðamenn, nema þeim þyki því meira í manninn varið, eða bygðamaður ráði algjört niðurlögum þeirra,

1. Grettissaga, 78. kap. Kh. 1853, 173. bls.

og neyði þannig fjallbúa til að taka við sèr, og fá því áorkað við fèlagsmenn sína, að þeir megi fara og vera friðhelgir í óbygðum.

**Fjalla-Eyvindur.**[1] Eyvindur var Jónsson og Margrètar; þau bjuggu í Hlíð í Hrunamannahrepp í Árnessýslu; fleiri voru börn þeirra hjóna, en ekki koma þau við þessa sögu, nema Eyvindur og Jón, bróðir hans eða hálfbróðir, faðir Gríms stúdents, sem er nýdáinn áttræður, og hafði búið allan sinn búskap á sömu jörð, Skipholti, eptir föður sinn. Ógjörla vita menn, nær Eyvindur er fæddur, en líklegt er, að hann hafi fæðzt öndverðlega á 18. öld. Eyvindur ólst upp hjá foreldrum sínum í Hlíð, og dvaldist í hreppnum, til þess hann var orðinn fulltíðamaður. Eptir það fór hann að Traðarholti í Flóa, og varð þar fyrirvinna. Sagt er, að hann hafi ekki orðið þar mosavaxinn, og orðið að fara þaðan aptur fyrir þjófnaðar-óknytti, og fylgdi sá ókostur honum jafnan síðan. Í fyrstu er sagt hann hafi hnuplað osti úr poka frá förukerlíngu, og verið þá staddur í Oddgeirshólum, en hún hafi lagt það á hann, að hann skyldi aldrei verða óstelandi upp frá því; hafi þá annaðhvort Eyvindur eða þeir, sem að honum stóðu, viljað kaupa af kerlíngunni, að taka ummæli sín aptur. Hafði hún þá sagt, að það gæti hún ekki, því ummæli yrðu ekki aptur tekin; en þá bót skyldi hún leggja í máli, að hann kæmist aldrei undir manna hendur, og þókti hvorttveggja rætast á honum ávalt síðan. Þegar Eyvindur fór frá Traðarholti, segja það bæði Árnesíngar og Vestfirðíngar, að hann hafi farið vestur á vestfirði, og komizt þar að búhokri með ekkju þeirri, sem Halla hèt, og börnum hennar, og búið þar, sumir segja á einbýlisjörð til fjalla, en aðrir á Hrafnfjarðareyri í Jökulfjörðum og Grunnavíkursókn, og átt allgott bú, og segja þó sumir, að sèra Snorri Björnsson hafi gefið þau Eyvind og Höllu saman, þegar hann var prestur á Stað í Aðalvík (1741—57). Höllu þókti í mörgum hlutum illa farið; bæði var hún harðlynd, hafði ílt orð á sèr og þókti blendin í trú, svo að hún sókti nálega ekki kirkju, eða hún stóð fyrir utan kirkjudyr, meðan messa var flutt. Henni er svo lýst að skapnaði og háttum á alþíngi 1765, að hún væri „lág og fattvaxin, mjög dimmlítuð í andliti og höndum, skoleygð og brúnaþúng, opinmynt, lángleit, og mjög svipill og ógeðsleg, dökk á hár, smáhent og grannhent, brúkaði mikið tóbak.“ Aptur þókti Eyvindi margt vel gefið, blíðlyndi, og glaðlyndi, og leikfimi, svo að hann var sundmaður góður og glímumaður, manna fráastur á fæti og bráttgeingastur, kunni svo vel handahlaup, að hann dró undan fljótustu hestum, og kom honum það opt að góðu gagni, þegar hann þurfti að forða lífi sínu og honum var veitt eptirför; slýngur var hann og úrræðagóður. En svo er honum lýst á Öxarárþíngi 1765: „Hann er grannvaxinn, með stærri

---

1. Heimildanna verður getið við enda sögunnar.

mönnum, útlimastór, nær glóbjartur á hár, sem er með liðum að neðan, bólugrafinn, toginleitur, nokkuð þykka riefri en neðri vör, mjúkmáll og geðþýður, hirtinn og hreinlátur, reykir mikið tóbak, hæglátur í umgeingni, blíðmæltur og góður vinnumaður, hagur á trè og járn, lítt lesandi, óskrifandi, raular opt fyrir munni sèr rímu-erindi, optast afbakað."

Ekki er auðið að sjá, hversu leingi þau Eyvindur hafi búið búi sínu á vestfjörðum, áður en þau struku í óbygðir, nè heldur fyrir hverjar sakir þau struku, því sinn segir hvað um það, og þó ber flestum saman í því, að Eyvindur hafi goldið þar góðmennsku sinnar, eða klækja konu sinnar, sem Vestfirðíngar segja. En þeir segja svo frá, að Halla hafi lagt lag sitt við ótíndan þjóf, heldur Arnes en Abraham, og eptir að þau höfðu drekt pilti nokkrum, sem var hjá hjónunum, niður um ís á Hrafnsfirði, hafi þau strokið burtu frá börnum sínum úngum. Vildi þá Halla brenna bæinn, en Eyvindur ekki, og fórst það illvirki svo fyrir. Dóttir þeirra ein, sem Ólöf hèt, hljóp til næsta bæar, og sagði frá, hvernig komið var, og því varð börnunum bjargað, en þau Eyvindur hlupu á fjöll með ýmsa búshluti og áhöld, og ólu eptir það aldur sinn í útlegð um 20 ár, og fluttu bygð sína æ leingra austur og norður eptir landinu í óbygðum, og skal hèr nú segja fátt eitt frá þeim bústöðum þeirra.

Eptir að þau Eyvindur lögðust út, varð þeirra fyrst vart á Hveravöllum, fyrir vestan Kjalveg á Auðkúluafrètt. Gerði Eyvindur þar skála og hlóð upp einn hverinn, sem sèzt hafa merki til fram á vora daga; í hvernum suðu þau mat sinn. Þar var með þeim Arnes, útileguþjófur, sem fyrr var nefndur. Á þessum stöðvum hèldu þau sig, þegar þeir fèlagar stálu eina haustnótt vistum og ýmsu öðru úr skemmu eða útihúsi frá Magnúsi bónda í Gilhaga í Skagafjarðardölum. Var þeim veitt eptirför, en náðust ekki, og sást ekkert eptir af þeim, nema einhverjar menjar þess, að þeir hefðu áð lángt frá bygð. Í öðru sinni ætluðu þeir fèlagar að ræna ferðamenn, sem fóru með skreiðalest norður Kjöl; var það fulltíðamaður og únglíngspiltur. Maðurinn varð svo hræddur, að hann skalf, og sýndi einga mótvörn; en pilturinn greip klaufhamar, sló á kinn Arnesi, og kjálkabraut hann; bar Arnes það merki síðan til dauðadags. Síðan sló pilturinn til Eyvindar, en hann sneri undan og þeir Arnes báðir, en hinir komust heilir til bygða. Meðan þeir fèlagar voru á Hveravöllum, sendi Eyvindur Arnes einu sinni ofan í Skagafjarðardali, að ná sauðum til matar. Arnes fór og kom að beitarhúsi seinni hluta nætur. Hann var þrekvaxinn, meðalmaður á hæð og heldur íbyggilegur, sterkur að afli og áræðinn, og hafði í þetta sinn öxi í hendi. Þegar Arnes er kominn að Sauðahúsinu, ber þar að smalann i sama bili; hann var mikill vexti og hafði varreku í hendi. Arnes vildi komast í húsið, en smalinn varð fyrri, komst fyrir dyrnar, og varði Arnesi inngaungu. Sóktust þeir þar um stund; en svo lauk, að smalinn sló öxina úr höndum Arnesi, og dró hana að sèr. Þegar Arnes var orðinn

vopnlaus, sneri hann undan, og kom slyppur heim til Eyvindar aptur. Það er frá Norðlíngum að segja, að þeim þykir illur gestur kominn á heiðarnar, þar sem Eyvindur er, fóru þeir því að honum, og gerðu forða hans upptækan, en það voru 50 sauðarföll, og var þeim svo haganlega fyrir komið í hrískesti einum, að annað lagið var af keti, en annað af hrísi. Norðlíngar tóku föllin og alt, sem þeir fundu þar fèmætt fleira, en eyddu hreysið til grunna. Þeir Eyvindur og Arnes sluppu undan, hinn fyrnefndi á handahlaupum, en Halla náðist, og var flutt til bygða. Þá var og með Eyvindi Abraham þjófur; honum náðu Norðlíngar og heingdu hann á gálga á Hveravöllum; því kvað Samson skáld í háðvísu um mann einn, að sál hans mundi fara:

„Abrahams í opið skaut
upp' á Hveravöllum.“

Veturinn næsta eptir áttu þeir Eyvindur mjög örðugt uppdráttar, og lifðu mest á rjúpnaveiðum. Litlu síðar er sagt að Halla hafi komið til þeirra aptur, og fluttu þau þá bygð sína suður og austur í Arnarfellsmúla, við Þjórsárdrög undir Arnarfellsjökli. Þar gerðu þau sèr hreysi, og er sagt, að þau hafi hafzt þar við 4 eða 5 vetur. Ekki fór betur að fyrir þeim Eyvindi á þessum stöðvum, þegar fram í sókti, en áður á Hveravöllum; því eitt sumar fóru tveir menn úr Ytrahrepp inn á afrètt til álptadráps og grasa. Hittu þeir Eyvind þar á slángri og þektu hann, enn þótt hann lygi til nafns síns. Ekki fundu bygðamenn bústað Eyvindar í það sinn. Það sumar stálu þeir fèlagar af Hreppamanna afrètt svo miklu fè skömmu fyrir fjallsafn, að um haustið þókti bændum ekki einleikið, hversu illa heimtist, og var því farið í eptirleit. Innst á afrèttum komu þeir á fjárslóð mikla; hafði fèð verið rekið austur sanda með Arnarfellsjökli, og röktu þeir slóðirnar alt að hreysi Eyvindar. Urðu þjófarnir þá naumt fyrir; því þeir voru að lesa húslestur, þegar bygðamenn komu að þeim. Eyvindur varð þá skjótur til bragðs, greip pott þeirra og ýms áhöld önnur, og sökti niður í fen eitt, svo hinir fundu ekki, og öll sluppu hjúin úr höndum bygðamanna upp á jökulinn. Sveitamenn lètu greipar sópa um híbýli Eyvindar, og fannst þeim mikið um, hversu haglega ýms búsáhöld voru tilbúin; þar tóku þeir körfur, sem Eyvindur hafði riðið af tágum með svo mikilli list, að þær voru vatnsheldar. Þeir fundu þar og viðarköst stóran og 80 sauðarföll í, og eins vel frá geingið, eins og fyrr er sagt um köstinn á Hveravöllum. Það, sem eptirleitarmenn gátu ekki flutt með sèr til bygða, lögðu þeir eld í og brendu upp til kaldra kola.

Það er ekki líklegt, þó sumir segi svo frá, að þau Eyvindur hafi látið fyrirberast á Hveravöllum þenna vetur næsta eptir; því kunnugt mátti honum vera, hvernig var að vera þar allslaus. Hitt er trúlegra, að hann hafi þá, sem stundum endrarnær, leitað hælis hjá Jóni bróður sínum í Skipholti, og ætla flestir, að þau Halla bæði hafi verið geymd þar í skreiða-

skemmu um veturinn. Grun höfðu menn á því, að Jón bóndi flytti miklu meiri ull í kaupstað, en líkindi voru til, að hann ætti af fè sínu, og eins hitt, að hann hafði einga gángskör gert að því, að leita að feitum hesti, sem honum hvarf um þetta leyti. Þegar Eyvindur for aptur til fjalla eptir þenna vetur, ætla menn, að bróðir hans hafi byrgt hann að nauðsynlegum búsáhöldum, og settist Eyvindur þá að í Eyvindarveri eða Eyvindarkofaveri, norður undir Spreingisandi, vestanvert við veginn, fyrir austan Þjórsá, en móts við Arnarfellsver. En áður en leingra er komið frá hinum fyrri stöðvum Eyvindar, verður að segja hèr þá sögu, að einhverju sinni, meðan hann var á Hveravöllum eða undir Arnarfelli, er sagt að hann hafi farið að kynna sèr leiðir um fjöll og jökla; fór hann þá um Lánga-jökul og varð fyrir honum dalur í jöklinum grasi vaxinn. Ofarlega í dalnum sá hann, hvar maður fór, og rak fjárhóp á undan sèr. Eyvindur gekk til hans og heilsaði honum. Hinn tók kveðju hans og heldur þurlega. Eyvindur spurði, hvert hann ætlaði. Hinn sagðist reka heim búsmala til mjalta. Eyvindi leizt maðurinn illmannlegur, brá þó á glens við hann, og bauð honum til glímu, og tók hinn því ekki fjarri. Glímdu þeir svo um stund, og fann Eyvindur það, að hann mundi ekki hafa afl við hann; þó fóru svo leikar, að Eyvindur feldi dalbúann. Smalinn stóð skjótt upp aptur og sagði: „Ekki mundir þú fella bróður minn svo fljótt, ef þið ættust við.“ Eptir það geingu þeir heim undir bæinn, og ráku fèð á stöðul. Kom þá kona frá bænum, og bar skjólur á handlegg sèr. Smalinn kvíaði svo fèð, en konan fór að mjólka. Eyvindur heilsaði konunni, og tók hún ekki kveðju hans, meðan smalinn var á kvíabólinu; en þegar hann var geinginn heim, bað Eyvindur hana að gefa sèr mjólk að drekka. Hún tók þá tóma skjólu, mjólkaði í hana eina ána og rètti honum. Eyvindur tók við, drakk lyst sína, þakkaði stúlkunni fyrir, og sagðist hafa feingið nægju sína af ærnytinni. Stúlkan tók þá undir við hann, og sagði honum, að bóndi væri heima og tveir bræður smalans, og ef þeir næðu honum, mundi hann ekki fleiri ferðir fara. Meðan þau töluðust við, var Eyvindur að laga skó sinn á kvíaveggnum; en í því varð honum litið við, og sá, hvar þrír menn komu hlaupandi frá bænum og stefndu til kvíanna. Eyvindur bíður þá ekki boðanna, tekur til fótanna, og hleypur á brekkuna þvert upp úr dalnum. Þegar hann var kominn upp á dalbrúnina, eru hinir komnir nærri honum; sèr hann þá, að skamt er orðið í milli, og svo búið muni ekki duga. Brá hann nú fyrir sig handahlaupum, og dró lángt undan. Þegar dalbúar sjá það, veita tveir þeirra honum eptirför á handahlaupum, en hinn þriðji sneri aptur; gat Eyvindur þess til, að það mundi hafa verið karlinn, faðir þeirra bræðra. Nú eltu þessir tveir Eyvind, en hann dró æ leingra undan þeim eptir jöklinum, þángað til fyrir honum varð jökulsprúnga. Þar stökk Eyvindur yfir, með því um lífið var að tefla. Var hann þá ákaflega móður, svo hann fleygði sèr niður hinu megin sprúngunnar,

meðan hann kastaði mæðinni. Þegar hinir komu að sprúngunni, þorðu þeir ekki að hlaupa yfir hana, enda mun þeim hafa litizt Eyvindur til alls búinn hinu megin. Þar skildi með þeim, og báðu hvorugir vel fyrir öðrum. Ekki er þess getið, að Eyvindur hafi endrarnær komizt í jafnmikla hættu, sem nú var sagt, þó hann ætti rjár við aðra útilegumenn, og þess sè getið, að hann hafi geingið í sveit með þeim, en jafnan var hann gerður rækur frá þeim fyrir hvinnsku sakir.

Nú er þar til að taka, sem Eyvindur settist að í Eyvindarveri inn af Holtamanna afrètti í Rángárvallasýslu, norður undir Spreingisandi. Þar gerði Eyvindur sèr skála, og sèr enn merki til vestanvert við Spreingisandsveg. Skálatóptin er mjög fallin í sjálfa sig, en uppsprettu vatn rennur út undan henni á þrjá vegu, og er vatnsrásin, sem til útnorðurs rennur, full af hrossbeinum, sem auðsjáanlega hafa verið höggvin í spað, og nokkuð af fuglabeinum. Kindabein hafa og fundizt þar. Á þessum stöðvum er sagt að þau Eyvindur hafi alið leingst aldur sinn í útlegðinni. Annað hreysi er og sagt að Eyvindur hafi átt fyrir austan Þjórsá; þar er og kendur við hann Eyvindarsandur. Eitt af því, sem flestum sögnum fer um í sögu Eyvindar, er það, hvort hann hafi náðzt, eða þá hvað opt af bygðamönnum. Sumir segja, að hann hafi aldrei náðst, og forðað sèr jafnan á handahlaupum, en Halla hafi op náðzt, einkum þegar hún var vanfær, og hafi hún jafnan sloppið aptur, þegar hún varð lèttari: Aðrir segja, að Eyvindur hafi opt náðzt, en þó ætið sloppið aptur[1]. Þannig getur þess í Árbókum, að Björn sterki fór með annan mann, og hitti þau Eyvind; tók Björn Eyvind og batt hann; en Halla fèkkst á meðan við fylgdarmann hans, kom honum undir og ætlaði að bita hann á barkann. Björn kom að í því, og tók Höllu; voru þau síðan flutt milli sýslumanna[2]. En aptur ætla menn að þau Eyvindur hafi sloppið, og komizt á sömu stöðvar. Sagt er, að Eyvindur væri hinn mesti aflamaður, og viðaði vel að á sumrum, en þó varð stundum vorljótt hjá honum. Einu sinni meðan Eyvindur var í hreysinu undir Spreingisandi, voru þau komin í opin dauðann af bjargarleysi og húngri, því þau höfðu lítið haft til viðurværis nálega í viku. Á páskadagsmorguninn, því þetta var vikuna fyrir páska, sagðist Eyvindur

---

1. Einu sinni, þegar þau hjónin náðust og Arnes með þeim, er sagt, að þau hafi öll verið dæmd í tugthúsið í Reykjavík, hafi þau þó sloppið Eyvindur og Halla, en Arnes var fluttur suður og var í tugthúsinu um hríð, og var hafður þar í miklum metum hjá hinum sakamönnunum, og jafnvel hjá yfirmönnunum sjálfum. Arnes var dylgjafullur og dulur, og hafði það í skopi, að helsíngjar flygju af landi burt á vetrum, en vildi þó ekki segja, hvar þeir hefðust við. Seinna komst Arnes úr tugthúsinu og varð niðursetníngur, og dó þannig í Eingey 7. September 1805, og hafði þá einn um nírætt. En hvenær þeir Eyvindur og Arnes hafi slitið fèlag sitt, eða hvernig það hafi atvikazt, kunnum vèr ekkert frá að segja.

2. Árbækur Espólíns, XI, 10. bls.

ætla að lesa húslesturinn í Vídalíns postillu, og verða þá heldur húngurmorða að því búnu, en að ólesnu; en Halla sagði sig gilti einu hvort væri; þau mundu lítið seðjast á lestrinum. Fór svo Eyvindur að lesa. En þegar hann hafði lokið lestrinum sjálfum, og var kominn aptur í mitt faðir-vor, heyrðu þau, að rjálað var við kofahurðina. Þegar Eyvindur var búinn að lesa, fór hann til dyra og lauk upp; sá hann þá eldishest sílspikaðan standa undir kofaveggnum. Eyvindur tók hestinn og drap, og lifðu þau á honum, þángað til annað fèkkst; en fyrst í stað er sagt þau hafi jetið hann hráan, því þau væru þá eldiviðarlaus. En svo stóð á hesti þessum, að Einar bóndi Brynjólfsson á Barkarstöðum í Fljótshlíð hafði keypt hann, sumir segja árinu áður, en áðrir fyrir mörgum árum, norðan úr Bárðardal eða Eyafirði, og hafði stríðalið hann um veturinn. En á laugardaginn fyrir páska var hestinum hleypt út, til að vatna honum, og lofað að leika sèr; kom þá að honum strok, svo honum varð ekki náð; en förin röktu menn eptir hann norður í óbygðir, og þannig komst klárinn á vald Eyvindar. Þenna sama vetur er sagt að Eyvind dreymdi fyrir því, að hann mundi finnast, svo að hann færði hreysi sitt nokkru austar, og er það sagt, að það hafi orðið honum til ógæfu; því hefði hann verið kyr á sama stað, mundi hann ekki hafa fundizt. Einar Brynjólfsson átti miklar eignir norður í Þíngeyarsýslu, fór hann því opt norður að heimta landskuldir og annast ábúð á þeim. Þá hafði Spreingisandur ekki verið farinn fjölda mörg ár, og var talinn ófær. En sumarið eptir að Einar hafði mist reiðhestinn sinn, dettur það í hann að ríða norður Spreingisand. Kom þá Einar Eyvindi mjög á óvart, og hittu þeir Einar hann við húsagerð. Gafst Eyvindur þá upp með góðu, og var bundinn, en Halla varðist þeim með pálnum, og náðist þó í bönd að lyktum. Þar þekti Einar í hreysi Eyvindar hána af reiðhesti sínum. Síðan flutti Einar og fèlagar hans þau Eyvind norður að Reykjahlíð við Mývatn. Þar voru þau höfð í haldi nokkra stund, og þókti öllum gott að skipta við Eyvind, en alt lakara við Höllu; því hún var harðleikin við börn og vesalmenni. Það var einn sunnudag um sumarið, sem messað var í Reykjahlíð, en kirkjan stendur nokkuð frá bænum, umgirt af hrauni á alla vegu, að Eyvindur beiddist að mega hlýða messu, því hann virtist trúrækinn, en Halla sinti því ekkert, og var honum leyft það. Eyvindur settist í krókbekk, og ætluðu menn, að ekki þyrfti að gæta hans um messutímann; en annars gættu hans venjulega 2 menn. En meðan prestur tónaði guðspjallið, og allir höfðu auga á honum, en einginn á Eyvindi, hvarf hann úr kirkjunni, og var ekki gáð að leita hans, fyrr en messugjörð var úti. En þá var skollin á níðmyrkurs-þoka, svo varla sá manna skil. Þessi þoka stóð í dagstæða viku. Síðan kalla Mývetníngar hverja níðmyrkurs-þoku Eyvindar-þoku. Leingi var leitað að Eyvindi, og kom fyrir ekki; en svo sagði hann sjálfur frá síðar, að hann hefði falið sig í hraunkambi þeim, sem næstur er kirkjunni, á meðan leitin var

áköfust. Það datt eingum í hug, og leituðu menn lángt yfir skamt. Veturinn næsta, eptir að Eyvindur hvarf frá Reykjahlíð, hafðist hann við í Herðubreiðarlindum eða Herðubreiðartúngum, og sèr þar enn merki til hreysins. Það er grjótbyrgi, hlaðið meðfram gjávegg, rífan faðm á leingd hèr um bil, og hálfan faðm á breidd. Hrosshrygg hafði hann fyrir mæniás í kofanum, og var dregin tág eptir endilaungu mænuholinu, til að halda honum saman, síðan var þakið yfir með melju. Í dyrunum var hella, svo vel feld, að eins var, og heflað væri. Vatnslind bunaði fram úr berginu, sem hreysið var hlaðið við, og fèll niður rètt hjá fleti hreysisbúans. Svo haglega var búið um vatnsból þetta, að ekki þurfti annað en seilast úr rúmfletinu, lypta upp hellu, sem faldi lindina, og sökkva ílátinu í. Sprekaköstur stór var við hreysið, og ætla menn, að Eyvindur hafi geymt í honum vetrarforða sinn. Er svo haft eptir Eyvindi, að þann vetur hafi hann átt einna vestan í útlegð sinni; því ekki var annað á að lifa, en hrátt hrossaket og hvannarætur, sem nóg er af í Herðubreiðarlindum. Er svo sagt, að Eyvindur hafi stolið 7 eða 9 hrossum af austurfjöllum um haustið, en sauðfè var hvergi að fá í nánd. Eingin merki sjást til þess, að Eyvindur hafi eldað við hreysið. Eptir hvarf Eyvindar var Halla flutt vestur á sveitir. En um veturinn að áliðnu kom hann einn sunnudag ofan að Vogum við Mývatn. Fólk var þaðan alt við messu, nema ein kerlíng, og bað hann hana um mat og skó; því hann lèzt vera lángferðamaður og vera orðinn skólaus, en bauðst til að lesa lesturinn fyrir kerlíngu í staðinn. Kerlíngu grunaði ekkert, og veitti honum það, sem hann mæ̈ldist til. Þegar Eyvindur var búinn að lesa, spurði hann vandlega eptir Höllu, og hvað um hana hefði orðið, svo og um Eyvind, og hverjum getum væri leitt um hvarf hans. En kerlíng leysti úr öllu, sem hún vissi bezt. Eptir það fór Eyvindur burtu, áður en fólk kom frá kirkju. Er þá sagt, að hann færi vestur á eptir Höllu, og næði henni aptur til sín, og ætla menn, að þau hafi þá haldið til um stund á Jökuldals-óbygðum. Þar eru nefnd Eyvindarfjöll, og er sagt, að þau sèu kend við hann[1]. Fjalla-Eyvindur hafðist við um hríð á Fljótsdalsheiði, og lagðist á fè Fljótsdælínga. Tóku þá Fljótsdælíngar sig til og ætluðu að flæma Eyvind burtu; eltu þeir hann á hestum, en hann brá á handahlaup, og dró hvorki sundur nè saman. Festust hestar bygðamanna í keldu einni, sem er hèr um bil á miðri heiðinni, og þar skildi með þeim Eyvindi og bygðamönnum. Kelda þessi hefir síðan verið kölluð Eyvindarkelda, og er hún næsta ill yfirferðar. Þegar Eyvindur var þar eystra, segir sagan, að smalann á Brú á Jökuldal hafi einu sinni vantað af kvífènu nokkrar ær; fór hann því og leitaði lángt fram á öræfi. Kom hann þá að gili einu, og gekk með því um stund,

1. Það er þó ekki satt, eptir því sem kunnugir menn úr Múlasýslu hafa sagt, því þau eru kend við Eyvind þann, sem Hrafnkell Freysgoði drap í skarðinu milli fjallanna.

þángað til hann sá kofa niður í gilinu, og konu úti, sem mjaltaði ær í kvíum. Hundur var með smalamanni, og gelti; við það leit konan upp. Varð þá smalamaður hræddur, og hljóp, sem fætur toguðu til bygða. Brugðu bændur skjótt við, og fóru saman fjölmennir, þángað sem þeim var tilvísað; þeir fundu gilið, og sáu þar merki til mannavistar; en gilbóndinn var þá allur á burtu.

Eptir að Eyvindur komst aptur til bygða, er það haft eptir honum, að hvergi hafi sèr vegnað betur í útlegðinni, en á meðan hann var í Eyvindarveri (þjórsárverum); því auk þess sem hann tók fè af afrèttum, hafði hann þar mikið álptadráp og gæsa, og hljóp þær uppi, meðan þær voru sárar, og gat þar að auki hagnýtt sèr silúngsveiði, sem sögð er óþrjótandi í Fiskivötnum, þó þau sèu æði lángt burtu. þó sagði Eyvindur, að frostvindar væru stundum svo harðir á Spreingisandi, að þar væri ekki líft úti fullröskum manni og vel klæddum. því er trúlegra, að hann hafi sagt, að hann vildi eingum svo illa, að hann gæti óskað honum æfi sinnar, en hitt, sem einnig er haft eptir honum, að hann ætti ekki svo argan óvin, að hann vildi vísa honum á vestur-öræfi; en á austur-öræfi vildi hann vin sínum vísa. Haft er það og eptir þeim Eyvindi og Höllu, að þau hafi átt börn saman í útlegðinni, og að hún sæi fyrir þeim öllum; en Eyvindur hafði ekki getað komið þar nærri, á meðan Halla var að farga þeim. Mest hafði honum þókt fyrir að missa eitt barnið; það var stúlka, komin á annað ár. Höfðu þau ætlað að láta hana lifa, en þá komu bygðamenn snögglega að þeim, svo þau urðu að forða sèr, og gátu ekki komið barninu með sèr, en Halla hafði að eins ráðrúm, til að fleygja því fram af björgum. Almenn sögn er það, að þau Eyvindur hafi verið um 20 vetur í útlegð, og orðið þá friðhelg aptur, og segja Grunnvíkíngar, að þau hafi komizt aptur að sömu jörðinni (Hrafnfjarðareyri), sem þau struku frá á vestfjörðum, og þar hafi þau dáið, og sèu grafin í mýri einni nálægt bænum. þar var sèra Torfa Magnússyni, sem var prestur á Stað í Grunnavík (1822—41), sýnt leiði þeirra margupphlaðið.[1] þó ber ekki

---

1. Vissara mun að trúa því, sem Íslendíngur segir um legstað þeirra Eyvindar og Höllu í Staðar kirkjugarði í Grunnavík. En svo eg geri nokkra grein fyrir heimildum Eyvindarsögu, þá er þess að geta, að eg hraflaði saman í vetur öllum þeim sögnum, sem eg gat þá náð í um Eyvind, fyrst og fremst frá Skúla presti Gíslasyni og sèra Benedikt á Brjánslæk og eptir fjórum handritum, sem sýslumaður Páll Melsteð lèði mèr í því skyni. Við þetta bætti herra Melsteð síðan nokkrum sögnum, sem hann kunni, og prentaði svo alt saman í 20—22. Nr. Íslendíngs, og því eru þar til færðar svo margar missagnir um Eyvind, að nálega sagði sinn frá með hverju móti mörgum atriðum. Síðan hefir ekki til muna bætzt við sögu Eyvindar, nema frásagnir þíngeyínga, eptir að hann var fluttur norður að Reykjahlíð. Hèr eru nálega eingar missagnir teknar, en fylgt sögnum Skúla prests, sem bæði er kunnugur fyrir norðan og austan og Spreingisandsvegi, frásögn sèra Torfa Magnússonar, nú á Kirkjubóli í Isafjarðarsýslu, í handriti sèra

öllum saman um það, að Halla hafi dáið á Hrafnfjarðareyri, því sú er sögn um hana á suðurlandi, að þegar hún gafst upp seinast, eða náðist, hafi hún verið orðin svo farin, að ekki hafi þókt fært að halda henni í tugthúsinu; hafi hún því feingið að hafast við á koti einu uppi í Mosfellssveit. Þar var hún nokkurn hluta sumarsins. En um haustið var einhvern dag glaða sólskin og blíða með hægri kælu; sat Halla þá úti undir bæarvegg og sagði: „Fagurt er á fjöllunum núna.“ Nóttina eptir hvarf hún, og fannst hvergi. Nokkrum árum seinna fannst konu-lík uppi í Heinglafjöllum (Árnesíngar segja upp undir Skjaldbreið, enda hafi Halla átt heima á einhverjum bæ í Grafníngi eða Þíngvallasveit), og tveir sauðarræflar hjá, sem hún hafði krækt á hornunum undir styttuband sitt. Ætluðu menn, að það væri lík Höllu, og hefði hún ætlað að strjúka á fjöll, en orðið þarna til, með því veður hafði spillzt rètt á eptir, að hún hvarf.

Af handbragði Eyvindar er helzt getið pálblaðs og rekuvars, sem Þíngeyíngar fundu eptir næstliðin aldamót í vatnsrás einni hjá hreysi hans í Eyvindarveri; fluttu þeir hvorttveggja heim með sèr norður, og höfðu til sýnis, og þókti afbragðsvel frá því geingið. Hinn þriðji hlutur eptir hann var karfa ein, sem til var í Odda á Rángárvöllum á dögum Gísla prófasts Þórarinssonar, og höfð handa börnum, til að láta þau læra að gánga í, og þókti snillilega riðin.

**Systkinin í Ódáðahrauni.** (Heimildin er aptan við söguna.) Alla jafna hefir það þókt skemmsta leið úr Sunnlendíngafjórðúngi til Austfjarða um hásumar, að ríða upp úr Hreppum og yfir Þjórsá á Soleyarhöfðavaði. Rètt fyrir innan þann höfða, austanvert við ána, er Þúfuver; dregur það nafn af hól nokkrum, sem geingur fram í verið, niður af Spreingisandi, og heitir Biskupsþúfa; hafði þar til forna verið áfángastaður Skálholtsbiskupa, þegar þeir fóru visítazíuferðir norður í Múlasýslur.[1] Þó heldur Jón prófastur fróði, að þeir hafi ekki farið Vatnajökulsveg, sem svo er nefndur, heldur riðið fyrst norður Spreingisand og síðan austur um Ódáðahraun til Möðrudals á fjalli. Þenna veg hafði Oddur biskup Einarsson riðið nokkrum sinnum í Austfjarðavísitazíur, og fèkk sèr jafnan leiðsögumann hinn sama yfir hraunið að austan, og skyldi hann mæta biskupi við

---

Benedikts á Brjánslæk, og handriti Jóns alþíngismanns Sigurðssonar á Gautlöndum í Þíngeyarsýslu, að svo miklu leyti sem þessar frásagnir ná til. En skylt fannst mèr, að fylgja heldur munnmælum, en sannri sögu, um legstað þeirra Eyvindar, og alt eins að taka upp missögnina um afdrif Höllu, eins og hún er sögð á suðurlandi, úr því hèr er um munnmælasögu að ræða.

1. Þar er og enn vanalegur áfángastaður, áður en lagt er á Spreingisand. Þángað segja sumir, að Barna-Þórður, sem þegar verður nefndur, hafi átt að koma til móts við Odd biskup, og þar hafi hann átt að kveða vísuna.

Kiðagil, fyrir norðan Spreingisand á tilteknum degi. Var til þess nefndur gamall bóndi fèlítill, kallaður Barna-þórður. Á efri árum Odds biskups, er hann fór þessa leið, ætlaði hann enn til fylgðar þorðar yfir hraunið; en fyrir einhverja orsök bar út af því, að biskup kom ekki í Kiðagil á tilsettum tíma. þórður kom á ákveðnum degi, en gat ekki beðið þar leingur en daginn sökum matleysis, eg setti upp ljóst merki við þornað moldflag eða tjarnarstæði, að hann hefði þángað komið, og ritaði með stafnum sínum vísu þessa á moldarflagið:

„Biskups hefi eg beðið með raun,
og bitið lítinn kost;
áður eg lagði á Ódáðahraun,
át eg þurran ost.“

Skömmu eptir burtför þórðar kom biskup og menn hans, lásu vísuna og sáu, að ekki var upp á hans fylgd að ætla. Voru biskupssveinar í þá daga aungvir auðkvisar; þókti þeim lángt að krækja norður til Mývatna, og að ríða þaðan austur til Möðrudals, telja því biskupinn á að leggja yfir hraunið, kváðust gjarnan vilja treysta á fremsta með það, með hans tilsjá og eptirtekt, að við honum ránka muni. Ræðst það af fyrir þeirra umtölur, að lagt var á hraunið, en biskup segir og sýnir leiðarstefnuna. Sagt er, að þetta hraun sè öræfisvíðátta, en víða grasi vaxið, með aungvum merkilegum kennileitum, en vegaleingd yfir hraunið beinleiðis svarar áfánga. þegar þeir voru komnir austur í hraunið, sló yfir þoku, svo þeir vissu ekki, hvað þeir fóru eða stefndu. Fóru þeir svo leingi villir vegar, þángað til þeir þóktust finna reykjarlygt; riðu þeir nú eptir henni, þángað til fyrir þeim verður lítill kotbær, nokkurt fólk, karlmenn og konur, og nokkur malnyta. Biskup hafði þar náttstað og lèt tjalda, bannaði mönnum sínum að grennslast freklega um háttu þessa fólks, og lèt suma vaka um nóttina. þar var biskupi veittur góður greiði, og var honum sjálfum jafnvel borinn mjöður og útlendur drykkur. Var þetta fólk hvorki ómennilegt nè heldur búnaður þess. Daginn eptir fylgdi bóndi biskupi á rètta leið yfir hraunið og Jökulsá slysalaust; riðu þeir báðir undan allan daginn, og vissi einginn þeirra samtal. Að skilnaði gaf bóndi biskupi vænan hest, er síðan var kallaður biskups-gráni. Biskup bannaði mönnum sínum að segja margt frá þessu, en sú var ætlun þeirra, að þetta væri ekki illvirkjar, heldur sakamenn, sem ratað hefðu í misferli fyrir kvennamál, en flúið í Ódáðahraun, til að komast hjá hegníngu.

Annar maður á fyrri öldum, sem optast fór þenna veg, var Bjarni sýslumaður Oddsson á Bustarfelli, og reið hann þessa leið opt til alþíngis, og seinastur, svo menn viti (1736). Menn þóktust hafa það til marks um, að þá væri bygð í hrauni þessu, að Bjarni tók þar jafnan áfánga eða jafnvel náttstað, reið einmana frá fylgdarmönnum sínum og kom aptur til

þeirra öldrukkinn, og það þó menn vissu einga von slíks drykkjar hjá honum.[1]

**Vísitazíuferð Skálholtsbiskups.** (Eptir handriti séra Skúla Gíslasonar á Stóranúpi.) Einu sinni var biskup einn frá Skálholti í vísitazíuferð norður í Múlasýslu. Kom þoka á hann á fjöllum uppi, svo hann vissi ekki, hvar hann fór; reið hann sjálfur leingi á undan. Kom hann seinast í dalverpi nokkurt. Varð þar bær fyrir honum, snoturlega bygður. Þar drápu þeir að dyrum, kom gamall maður til dyra. Þóktist biskup vita, að hann væri húsbóndinn, og beiddist gistingar fyrir sig og menn sína. Bóndi svarar nokkuð fálega, að þeir mættu spretta af og heimilt væri þeim, að gánga til baðstofu. Þeir gjörðu nú svo. Í baðstofunni sáu þeir gamla konu og únga stúlku. Torfhnausar 12 voru í baðstofunni, og gæruskinn breidd yfir, og var biskupi og sveinum hans vísað þar til sætis, og stóð það heima, að sætin voru mátulega mörg. En karl og kerlíng og hin únga stúlka sátu á þverpalli. Allir þögðu, enda hafði biskup boðið sveinum sínum að hafa hægt um sig. Eptir litla stund geingu konurnar ofan. Báru þær nýtt ket á borð fyrir biskup og menn hans í trèskálum, og síðan heita sauðamjólk í öðrum trèskálum og trèsleifar fylgdu með. Þetta var um mittsumar, en þó var mjólkin svo þykk, sem sauðaþykkni á hausti. Alt var haglega smíðað, hreint og þokkalegt. Þegar stúlkan bar af borði, sagði hún í hálfum hljóðum við biskup, að öllu mundi óhætt, ef einginn sýndi tortryggni, og einginn brygði sèr við neitt. Um kvöldið var biskupi og sveinum hans fylgt til sængur fram í skála. Voru þar 12 rúm upp búin með breiddum gæruskinnum, þófar undir höfðum, og feldir undir og ofan á; voru rúm þessi bæði mjúk og hlý og rúmgóð. Svaf biskup í hinu innsta rúminu og sveinar hans úti frá honum, hver í sínu rúmi. Lagði biskup fyrir þá í kyrþei, að þeir skyldu vera stiltir og ekki bregða sèr við neitt. Litlu síðar heyrðu þeir undirgáng og mannamál, og skömmu seinna kom karl inn með ljós í annari hendi, en kníf í annari. Brá hann ljósinu að andliti hvers eins, og otaði að þeim knífnum og eins að biskupi. Síðan gekk hann út, og heyrðu þeir, að hann sagði: „Trúa má þeim, annars

---

1. Jón prófastur fróði Haldórsson, sem báðar þessar frásagnir eru teknar eptir, segir svo um heimild sína fyrir komu Odds biskups til útilegumanna í Ódáðahrauni: „Sögu þessa heyrða eg af mínum sæla föður á æskuárum mínum, og so af sèra Helga, presti á Húsafelli, og so merkum manni; hermdu þeir hana báðir eptir sèra Grími á Húsafelli Jónssyni, föður sèra Helga sem (þ. e. sèra Grímur) í þessari ferð var sveinn og fylgjari Odds biskups.“ Báðar þessar sögur, Fjalla-Eyvindar og þessi, hafa, ef til vill, mest alið þá trú, að útilegumenn væru til; því þeir, sem eingum útilegumannasögum hafa viljað trúa, hafa þó trúað þessari sögu í Biskupasögum Jóns Haldórssonar, og sannast á þeim: „Trúa munda ek, . . . ef Njáll segði.“ Af þessari sögu er aptur mynduð næsta saga á eptir: Vísitazíuferð Skálholtsbiskups.

hefðu þeir ráðizt á mig einan.“ Morguninn eptir sáu þeir 12 menn hjá karli. Voru þeir miðaldra að sjá, og þaðan af ýngri, allir liðmannlegir og hver öðrum líkir. Karl var nú miklu kátari, en daginn áður. Var fjúkslidda og dimmviðri, svo hann bauð biskupi að vera um kyrt og þektist hann það. Um daginn spurði karl biskup að ýmsu, og þar á meðal, hve nær hann hefði verið á fjölmennustu alþíngi. Biskup mælti: „Síðan eru nú meir en 40 ár, var eg þá 18 vetra gamall piltur, og stóð svo á, að af átti að taka 2 systkin úr Miðfirði, er átt höfðu barn saman. En þegar þau voru dæmd, og lesinn var upp dómurinn, þustu margir til að heyra hann. En maðurinn sá færi á að beizla brúnan hest, er hann átti, hljóp honum á bak, setti systur sína að baki sèr og reið af stað, en varðmenn og margir aðrir gripu einnig til hesta sinna, og riðu eptir honum. Eltu þeir hann 3 daga, svo leiti bar stundum milli, yfir hraun, klúngur og kletta. Sáu þeir það seinast til, að hann hleypti á sund út á vatn mikið, og sýndist hraunklettur vera hins vegar. Hvarf hann þar upp undir, en einginn þorði að ríða á eptir, og ekki sá fyrir enda vatnsins.“ Daginn eptir fór biskup af stað; fylgdi þá hinn gamli maður biskupi á veg, og sagði honum, að hann hèti Magnús, og væri maður sá, er hann hefði sèð á alþíngi, og flúið hefði með systur sína. Kvaðst hann hafa staðnæmzt í þessu dalverpi, og fundið þar fè fyrir og búið að því, væri hin gamla kona systir sín, en hin únga stúlka og þeir 12 menn börn þeirra. Sagðist hann vera valdur að því, að biskup væri kominn á sinn fund, því nú mundu þau systkin deya í vetur, og vildi hann biðja biskup, að ráðstafa börnum þeirra; því annars mundu þau tryllast og verða heiðin þar á fjöllum uppi. Biskup lofaði þessu og lèt flytja fjölskylduna til bygða næsta ár á eptir. Sá hann með ýmsu móti fyrir ráði þeirra bræðra, og gipti systur þeirra, en lík þeirra systkina voru flutt í Skálholt og jörðuð þar.

**Sagan af Hallgrími Guðmundssyni.** (Eptir handriti Jóns alþíngismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.) Saga þessi byrjar á bræðrum tveim; hèt annar Jón, en hinn Guðmundur; þeir voru bændasynir, miklir fyrir sèr, og hinir mestu atgjörvismenn; þeir höfðu framazt utanlands og innan, og numið margt, er til nytsemda horfði fyrir þá og stètt þeirra; þar á meðal höfðu þeir numið smíðar, og voru þeir taldir hinir mestu þjóðhagasmiðir. Svo var kært með þeim bræðrum, að þeir höfðu heitið því, að skilja aldrei, meðan þeir lifðu. Þegar þeim þókti tími til kominn að staðfesta ráð sitt, kvonguðust þeir báðir í einu, og reistu bú báðir á sömu jörðinni, og þó hún væri hin mesta kostajörð, var það með naumindum, að hún gæti borið þá bræður, því þeir voru hinir mestu uppgángs og gróða menn.

Þeim bræðrum varð báðum barna auðið; eignaðist Guðmundur son þann, er var nefndur Hallgrímur, en Jón dóttur, er Sigríður hèt. Voru börn þessi bæði hin efnilegustu, og er þess einkum getið um Hallgrím,

að hann væri afbragð úngra manna í þann tíma; var hann og til menta settur, og nam hann auk annars smíðar að föður sínum, svo hann varð hinn mesti þjóðhagasmiður þegar á únga aldri. Liðu svo fram nokkrir tímar, til þess Guðmundur bóndi tók sótt þá, er hann leiddi til bana, og með því Hallgrímur, sonur hans, var þá enn ekki frumvaxta, tók Jón bóndi við jörðinni og búráðum öllum, en Hallgrímur var hjá honum öllum þeim stundum, er hann vildi. Liðu svo fram lángir tímar, og varð Hallgrímur hinn mesti afbragðsmaður á vöxt og vænleik og alt atgjörvi.

Það var eitt kvöld á áliðnum vetri hjá Jóni bónda, að tilrætt var um, hvort nokkrir menn mundu þá hafast við á fjöllum uppi, eða í óbygðum, eins og svo opt hafði áður átt sèr stað; var það, eins og vant er, að sumir ætluðu, að svo mundi vera, en sumir mæltu á móti. Var Hallgrímur bóndason einna frekastur að mótmæla því, að útilegumenn væru til, og sagði, að þeir, sem teldu mönnum trú um slíkt, færu með hindurvitni og hègiljur einar. Jón bóndi lagði fátt til, en sagði þó, að þar mundi einhverju sinni koma, að Hallgrímur feingi að gánga úr skugga um, hvort útilegumenn væru til, eða ekki. Hallgrímur lèt sèr fátt um finnast, og fèll svo tal þetta niður; leið svo af veturinn til vors, að ekki bar til tíðinda. Einn góðan veðurdag kemur Hallgrímur að máli við Jón bónda, frænda sinn, og segir sig fýsi að forvitnast í sumar um það, hvort nokkuð sè tilhæft í því, er hann hefði látið á sèr heyra í vetur, að menn mundu enn vera til og hafast við á fjöllum uppi; „hefi eg haft viðbúnað til þessa í vetur, ráðið mèr 4 menn röskva til fylgdar, og útvegað hesta, og hvað sem hafa þarf til ferðarinnar". Jón bóndi svarar: „Letja vil eg þig, frændi, fararinnar, því þó þú sèrt mikill maður og hamíngjusamlegur, uggir mig þú fáir þig fullreyndan á ferðinni; er gæfuraun mikil að fást við fjallabúa." Hallgrímur segir, að ekki tjái að letja sig; fyrst hann hafi ráðið förina, hljóti hún fram að gánga, þótt hann viti vísan bana sinn. Er þar fljótast af að segja, að för Hallgríms og þeirra fèlaga er búin sem hraðast, og með hinum beztu faungum, er til voru; voru þeir allir vel búnir að vopnum og klæðum, og hèldu af stað úr bygð á mánudag. Hèldu þeir svo á fram í 5 daga, og könnuðu fjöll og óbygðir, án þess að verða við nokkuð varir. Á 6. degi komu þeir í dalsdrag nokkurt; voru þar hagar góðir, og áðu þeir þar hestum sínum; hèldu þeir eptir draginu nokkra stund, til þess fyrir þeim verður fjárbreiða mikil, og því næst kenna þeir reykjarþef. Vita þeir þá með vissu, að þeir eiga skamt til mannabygða; enda leið ekki á laungu, þángað til þeir sjá bæ mikinn og reisulegan standa í dal þeim, er þeir höfðu farið eptir um hríð; sjá þeir, að umhverfis bæinn er virki mikið; halda þeir nú á fram, og stefna á bæinn. En þegar þeir eiga allskamt til hans, sjá þeir, að maður geingur frá bænum, lýkur upp virkinu, og skilur það eptir opið; stefnir hann á þá fèlaga, og sjá þeir, að maðurinn er únglegur og hvatlegur og hinn vígamannlegasti. Hann hafði

atgeir mikinn í hendi. Þegar þeir mættust verður ekki af kveðjum; því heimamaður leggur þegar atgeirinum í gegnum einn fèlaga Hallgríms, og dettur hann þegar dauður niður. Þegar Hallgrímur sèr þetta, snarast hann af baki, og að heimamanni, og ráðast þeir á allsterklega; finnur Hallgrímur það, að heimamaður er ramur að afli; en þó lýkur svo, að hann fellir heimamann; lætur hann þá knè fylgja kviði, og ætlar, að hann skuli ekki verða fleirum mönnum sínum að skaða. En þegar svona var komið, ræður heimamaður það af að biðja um líf; segist Hallgrímur muni gjöra það, ef hann heiti sèr því, að reynast sèr trúr, og veita sèr liðveizlu. Heimamaður mælti: „Því mun eg heita, er eg mun enda, að eg mun þèr trúr reynast; en ekki má eg þèr lið veita, því eg veit, að þú ætlar að heimsækja föður minn, sem hèr ræður fyrir. Annars ræð eg þèr, að snúa aptur við svo búið; því þó þú sèrt gildlegur maður, og hafir unnið mig, er ekki líklegt þú berir gæfu til að stíga yfir föður minn; því hann er hið mesta afarmenni, og þó nú hniginn á efra aldur.“ Hallgrímur kvaðst mundi hætta til funda við dalbúa, og mundi auðna ráða skiptum þeirra; „en seg mèr, hversu faðir þinn er margmennur fyrir“. „Hann er við 3. mann heima, og er annar þeirra bjartur á hár og hörund, og hinn vænsti maður; en hinn svartur og illilegur; fari svo, að þú eigir ráð á lífi þessara manna, ræð eg þèr að drepa sem skjótast hinn svarthærða mann, því hann mun þèr illa gefast, en hinum skaltu líf gefa, einnig föður mínum; því hann mun þèr það góðu launa.“ Lèt þá Hallgrímur dalbúann uppstanda, og fór hann á fram leiðar sinnar, en þeir fèlagar hèldu til bæarins. Stóð úng kona og fögur í dyrum og heilsar komumönnum; þeir taka kveðju hennar, og biður Hallgrímur hana að útvega sèr og mönnum sínum að drekka. Hún geingur inn, og kemur fljótt aptur með drukkinn; spyr hún komumenn að nafni, og hvaðan þeir sèu. En þeir segja til hið sanna. „Ráða vil eg yður,“ segir konan, „að hafa yður sem skjótast á burt; því hèr munuð þèr ekki sagðir velkomnir“; heyrir þá Hallgrímur, að sagt er innar í bænum, að ekki muni þeir komast með öllu klaklaust á burt aptur. Í þessu bili kemur út maður; hann var bæði hár og digur, og hinn gildmannlegasti að sjá, og þó nokkuð ellilegur. Einn hestur þeirra fèlaga stóð fyrir dyrum, þegar bóndi kom út, og bregður hann undir hann lófanum, og snarar honum fram af hlaðinu. Á eptir hinum míkla manni geingu út tveir menn, annar bjartur og fríður sýnum, en hinn svartur og illilegur. Veit Hallgrímur, að það er sá maður, er honum var tilvísað að ráða af dögum, og vill hann fyrir hvern mun vinna það verk sem fyrst; leggur hann því í gegnum hann atgeirnum, er hann hafði að vopni, og dettur hann dauður. En í sömu svípan ræðst hinn mikli maður á Hallgrím, og fleygir hann atgeirnum, en tekur á móti; verða þar hinar hörðustu sviptíngar, og finnur Hallgrímur, að hann hefir ekki hálft afl við dalbúa, kreisti hann hold hans frá beini, og lá Hallgrími við falli; en með því

hann var úngur og liðugur, en dalbúinn hniginn á efra aldur, mæðist hann fyrri, og fór svo að lyktum, að hann fellur fyrir Hallgrími. Kemur honum þá í hug, hvers hinn úngi maður hafði beðið hann, og býður dalbúa líf, ef hann vilji lofa því, að reynast sèr trúr. Þakkar dalbúi lífgjöfina, og kveðst mundi heita honum því, er hann mundi enda, að hann mundi ekki svíkja hann; „ertú sá fyrsti maður, sem mèr hefir á knè komið.“ Í sama byli kemur að hinn bjarthærði maður, hafði hann þá unnið á fèlögum Hallgríms, og ætlar nú að vega að honum hið skjótasta. En dalbúinn bannar honum það, og segir þá sátta; reisir nú Hallgrímur hann á fætur, og býður bóndi honum inn með sèr, og segir honum muni mál á hjúkrun. Var Hallgrímur mjög lerkaður af aðgángi dalbúans og víða meiddur. Skipar hann hinni úngu konu að vinna Hallgrími allan beina, og hjúkra honum sem bezt, og er honum matur borinn og síðan til sængur leiddur; og með því Hallgrímur var lúinn og þrekaður, sofnaði hann skjótt og sefur af til morguns. Var það sunnudagur, og er bóndi snemma á fótum og alt heimafólk. Var nú maður sá heim kominn, er Hallgrímur hafði fyrst feingizt við í dalnum. Ekki sá Hallgrímur fleira fólk á bænum, en bónda, gamlan kvennmann, er hann hèlt að væri kona hans, hinn bjarthærða mann, konuna úngu, er þjónaði honum til rúms, og hinn únga mann, er áður var getið; voru þau systkin og börn hjóna. Þess varð Hallgrímur var, að á sunnudaginn komu fáir menn á bæinn, og að framfór einhvers konar guðsþjónustugjörð í afviknu þar til gjörðu húsi, og var bóndi presturinn.

Hallgrímur hressist nú skjótt undir umsjón bóndadóttur; því hún var hinn bezti læknir, og þykir honum furðu skemtilegt í dalnum, enda er bóndi og alt heimafólk glaðvært, og gjörir honum alt til skemtunar. Líður svo alt að mánuði, að Hallgrímur leitar ekki til burtferða, og að ekkert ber til tíðinda. Það var einn dag, að bóndi kemur að máli við Hallgrím og segir: „Þú hefir nú dvalið hèr um hríð, og hugnast mèr vel þitt framferði; þú ert maður vel að þèr gjör og óhnýsinn; hefir þú ekki forvitnast um hagi vora dalbúa. Nú með því eg býst við, þú viljir leita átthaga þinna, þá ætla eg að segja þèr það, sem drifið hefir á daga mína, og með hverjum atburðum eg er kominn í þenna dal; því það skaltu vita, að eg er ekki hèr borinn og barnfæddur.“ Hallgrímur segist það gjarnan vilja, og byrjar bóndi sögu sína á þessa leið:

„Nafn mitt er Eiríkur, og er eg prestsson af Vesturlandi; við vorum tveir bræður, og hèt hinn Guðmundur; systir áttum við og, er Helga hèt; við bræður vorum til menta settir, og látnir í skóla; áttum við að verða prestar, ef auðnan vildi svo vera láta, og þóktum við gildlegir menn á þeim dögum; var eg talinn fyrir okkur bræðrum. Liðu svo fram tímar, að ekkert bar á rekana[1] til þess eitt haust, að við bræður áttum eptir

1. Það mun vera sama og sagt væri: ekkert til tíðinda.

venjunni að fara í Skálholtsskóla, þá vill bróðir minn hvergi fara, og kemur alt fyrir eitt, hvort sem hans er leitað með blíðu eða stríðu, að hann situr við sinn keip. Aflar þetta föður okkar hinnar mestu áhyggju. Eitt sinn tek eg bróður minn á einmæli, og bið hann segja mèr, hverjar sèu orsakir þessarar fyrirtektar hans. Færist hann undan með fyrstu, en þó fór svo, að hann segir mèr hið sanna; hafði hann feingið óleyfilega ást til systur okkar, og þau hvort til annars, og var hún orðin barnshafandi eptir hann; segist hann nú eingin ráð sjá til að umflýa dauða þeirra beggja, nema ef hann áræddi að strjúka með hana til óbygða, og væru það þó neyðarúrræði; bað hann mig með mörgum fögrum orðum, að vera sèr nú liðsintur, og hjálpa uppá þau í þessu basli; og með því mèr var einkar kært til þeirra systkina minna, og rann mjög til rifja bágindi þeirra, þá hèt eg bróður mínum minni liðveizlu, og lofaði jafnvel að strjúka með honum, ef þess væri kostur. En það, sem mèr þókti lakast í þessu efni, var, að eg átti unnustu, sem mèr var kærari en alt annað, og fann eg skjótt, að mèr mundi með öllu ómögulegt að skilja við hana; eg rèð því af að finna hana sem fyrst, og segja henni alla sögu; sagðist hún gjarnan vilja lifa og deya með mèr, hvað sem á dagana drifi. Var því ferðin ráðin, og bjuggum við á laun um alla dýrgripi okkar og það, er við vildum helzt með okkur hafa, og komum því öllu á afvikinn stað í veg fyrir okkur. Lögðum við svo á stað á ákveðinni nóttu, svo eingir urðu við varir, og hèldum sem hraðast á fram til fjalla. En er við vorum komin í efstu afrètti, tók veður að versna, og dreif niður snjó, svo ekki var fært að halda leingur á fram; rèðum við því af að setjast að í helli einum og búast þar til vetursetu. Gjörðum við það eptir faungum, og drógum að, það er hafa þurfti, og hægt var að fá; en er þessu var lokið komu bjartviðri og stöðug tíð; rèðum við bræður það því af, að gánga á fjöll, og leita að hagkvæmari aðseturstað og tryggari, en hellirinn var; því hann var of nærri bygðum, og ekki gott heimkynni. Skildum við nú við konurnar í hellinum, en bjuggumst með svo mikið nesti, sem við gátum með komizt á fjöllin. En er við höfðum skamt farið, tók veður að versna, og gjörði á kafald með dimmviðri; var það í marga daga, að við vissum ekki, hvar við fórum, og þraut okkur bæði nesti og skó. Það var eitt sinn að áliðnum degi, að heldur hallaði undan fæti; fundum við, að við geingum ofan grasi vaxna fjallshlíð; og er við höfðum geingið um hríð, verður fyrir okkur kotbær lítill; drápum við að dyrum, og kemur út maður stór vexti, og ekki illmannlegur; við heilsum honum, og beiðumst næturgistíngar. En hann tekur því líklega, og segir næturgistíng heimila; leiðir hann okkur til baðstofu; eru dregin af okkur vosklæði og veittur góður beini. Spyrjum við manninn að nafni, og kveðst hann Grímur heita, og vera þar húsráðandi. Ekki var þar margt manna fyrir; sofum svo af þessa nótt; en að morgni býður bóndi okkur þar að

vera, meðan við aflýumst; segir hann að ekki sè ráðlegt að leita í burtu, fyrr en tíð batnaði. Tókum við þessu boði bónda feginsamlega, og vorum hjá honum nokkra daga vel haldnir. Þess urðum við varir, að menn komu stöku sinnum á bæinn, og vorum við þá ætíð faldir í framhýsi; en er sá tími kom, að okkur þókti mál að leita á burtu, köllum við bónda á einmæli, og segjum honum, hvernig á högum okkar standi, og biðjum hann bygðarleyfis og ásjár. En hann mælti: „Það veit ekki svo við, að eg geti veitt ykkur nokkra ásjá; hèr er annar maður í dalnum, sem einn ræður öllu; hann á þrjá sonu við konu sinni, og er það alt hið mesta illþýði. Var hann hèr fyrir í dalnum, þegar eg kom, og hefi eg því að eins feingið að vera hèr, að eg hefi látið hann einn öllu ráða, og er það vís bani minn ef það kemst upp, að eg hafi hýst ykkur.“ Þegar við heyrðum þetta, sögðumst við mundum hætta á að finna dalbúa, og vita, hvernig hann tæki okkur. En Grímur bóndi taldi það hina mestu áhættu; „en þó eruð þið sjálfráðir,“ segir hann. Vísar hann okkur þá á leið til bæar dalbúans, og snýr svo heim aptur. Sáum við skjótt bæinn, og var bygt um hann virki mikið og ramgjört; var þar á hlið, og læst ramlega, svo hvergi varð inn komizt; rèðst eg þá upp á vegginn og gat komizt það með aðbeiníng bróður míns, en dró hann síðan upp, og hlupum við þegar að bænum. Stóð bóndi í dyrum, og sýndist okkur hann mjög illilegur og hinn tröllslegasti; og er hann varð okkar var rèðst hann þegar út á móti okkur; varð ekki af kveðjum, en við sóktum þegar að karli hið snarplegasta. Fór svo að lyktum, að við geingum af honum dauðum; en rètt í sömu svipan kemur kerlíng að með sonu þeirra þrjá, og sækja þau að okkur í ákafa, varð það hin snarpasta hríð, og urðum við vandlega að gæta okkar fyrir aðgángi þeirra. En svo fór að lyktum, að við urðum þeim öllum að bana, enda vorum við þá bæði þreyttir og móðir. Nú leituðum við innar í bæinn, til að vita, hvers við yrðum varir; en er við komum innar, heyrðum við barnsgrát; geingum við á hljóðið og komum loks í baðstofu; lá þar sveinbarn grátandi í vöggu; við könnuðum bæinn og fundum þar mikið fè; hèldum við síðan aptur til Gríms bónda, og höfðum dreinginn með okkur. Sögðum við honum, hvar komið var, og kváðumst nú vilja leita kvenna okkar, og mundum við halda híngað í dalinn; þóktumst við rètt komnir að eigum dalbúans; en ef við kæmum ekki aptur, gáfum við Grími bónda alt það fè, og fólum honum dreinginn til uppfósturs. Hèldum við nú leiðar okkar, og bar ekkert á rekana, fyrri en við komum í hellinn; urðu konurnar okkur harla fegnar, því þær þóktust okkur úr helju heimt hafa; sögðum við þeim, hvar nú var komið ráði okkar, og hvar við hygðum til aðsetur-staðar. Lètu þær sèr þetta vel líka. Er þar fljótast af að segja, að þegar veður leyfði, lögðum við af stað úr hellinum, og náðum með heilu og höldnu í dalinn. Settist eg að á bæ dalbúans þess, er við drápum,

með unnustu mína og systir okkar og tók við búi öllu; en bróðir minn var hjá Grími bónda. Vildi eg ekki, að þau systkinin væru saman, og lètu þau sèr það vel líka. Varð systir mín bráðum lèttari að sveinbarni, eptir það hún kom í dalinn, og er það hinn bjarthærði maður; en dreing þann, er eptir lifði af illþýði dalbúans, ól eg upp, og var það hinn svarthærði maður, sem þú drapst, er þú komst hèr fyrst; bæði systkin mín eru nú dauð fyrir nokkrum árum, og hefi eg grafið þau hèr í dalnum. Nú hefi eg sagt þèr sögu mína, og kýs eg mèr til launa, að þú farir með son minn til bygða, og útvegir honum sæmilegt kvonfáng, því slíks er ekki kostur hèr í dalnum. Fyrir dóttur mína ætla eg ekki að biðja; því mig grunar, hún hafi komið sèr svo við þig, að hennar bænir megi sèr mest hjá þèr.“ Hallgrímur mælti; „Gjarnan vil eg gjöra það, er þú beiðir, og geturðu rètt í vonirnar, að dóttir þín er sú kona, er eg mundi mèr helzt kjósa; vil eg nú vita, hverju þú mundir svara, ef eg færi þeirra mála á leit við þig.“ Bóndi mælti: „Ekki mun eg draga þig á svarinu, og mun dóttur minni ekki auðið að fá vænni mann, en þig; en ekki er þess að vænta, að hún fari hèðan úr dalnum, meðan eg lifi, og hlýturðu því að flytja þig híngað; en hvað þú gjörir, þegar eg er dauður, ertu sjálfráður um.“ Hallgrímur kvað þetta mundi ekki fyrir kaupi standa, „og vil eg nú sem fyrst vitja átthaga minna, svo eg geti komizt híngað á þessu hausti, og vil eg, að Jón sonur þinn fari með mèr, og hefi eg helzt hug á að biðja honum til handa einkadóttir Jóns, föðurbróður míns.“ Bóndi kvað sèr þetta vel líka. Er nú ferð þeirra Jóns og Hallgríms búin, sem bezt að faung eru á, og segir ekki af þeim, fyrr en þeir koma til Jóns bónda. Fagnaði hann vel Hallgrími frænda sínum, og þóktist hann úr helju heimt hafa. Sagði Hallgrímur frá ferðum sínum, og þókti hann mikið hafa vaxið við þrekvirki þau, er hann hafði unnið; hefir þá upp bónorð fyrir hönd Jóns dalbúa til frændkonu sinnar, og var því ekki tekið í fyrstu; en fyrir aðfylgi Hallgríms og þess annars, að mörgum leizt vel á manninn, vannst það þó um síðir. Var þá ferð þeirra fèlaga búin aptur í dalinn; því þeir vildu ekki dvelja leingi. Höfðu þeir með sèr konuna og mikinn fjárhlut í lausafè; gekk þeim ferðin vel í dalinn, og settust þau nú um kyrt næsta vetur. En að vori var prestur sóktur í bygðir, til að gefa hin úngu brúðhjón saman. Tók Hallgrímur þar á eptir við búráðum í dalnum, og hafði þau, meðan teingdafaðir hans lifði, og er þess eigi getið, hvað leingi það var. En að honum látnum, hèlt hann aptur í bygð, en Jón tók við búráðum í dalnum. Var þá föðurbróðir Hallgríms dauður, og tók hann við jörð þeirri, er hann hafði búið á, og þeir faðir hans, og bjó hann þar til ellidaga; þókti hann æ hinn mesti maður.

**Suðurferða-Ásmundur.** (Eptir sögn norðlenzkra skólapilta, 1845. M. G. Dr. Maurers Isl. Volkss. 249—54.) Ásmundur hèt maður. Hann var skagfirzkur

að ætt. Röskur var hann og atorkumaður mikill, og þá um tvítugsaldur, þegar þessi saga gjörðist. Ásmundur fór á hverjum vetri suður til sjóróðra, og voru jafnan sömu menn með honum. Af þessu var hann kallaður Suðurferða-Ásmundur. Einn vetur fór Ásmundur suður sem optar, og voru fèlagar hans með honum. Þeir voru um nótt á Melum í Hrútafirði, og ætluðu um morguninn að leggja upp á heiðina. En um nóttina tók Ásmundur sótt mikla, og biðu lagsmenn hans eptir honum um daginn. Ásmundur sagði, að þeir skyldu fara leiðar sinnar, en hann mundi koma á eptir. Síðan fóru þeir, en Ásmundur varð eptir. Daginn eptir var Ásmundur orðinn albata, og hèlt hann þá á stað. Veður var gott. En þegar hann kom suður á miðja heiði, gjörði hríð mikla, og sá Ásmundur ekki, hvað hann fór. Viltist hann þá, og þegar hann sá það, tók hann af hestum sínum baggana, og gróf sig í fönn, og hafði baggana fyrir snjóhúsdyrunum. Hestana batt hann á streing. Síðan fór Ásmundur inn í snjóhúsið, og hafði gat á því undan vindi, svo hann gæti sèð til veðurs. Tók hann þá nesti sitt, og fór að borða. En þegar hann var nýfarinn að borða, kom mórauður hundur að gatinu á snjóhúsinu, og reif sig inn. Rakkinn var ýgldur mjög og grimmlegur, og versnaði þó einatt við hvern bita, sem Ásmundur át. Ásmundi fór ekki að verða um hundinn, og tekur upp hjá sèr stóreflis-sauðarlánglegg, og gefur honum. Rakkinn tók við leggnum, og hljóp undir eins út með hann. En að litlum tíma liðnum kemur mikill maður vexti og ellilegur að snjóhúsdyrunum. Hann ávarpar Ásmund, og þakkar honum fyrir hvolpinn sinn. „Eða ertú ekki Suðurferða-Ásmundur?" segir aðkomandinn. „Svo er það kallað," segir Ásmundur. „Nú býð eg þèr tvo kosti," segir aðkomandinn, „annaðhvort að fylgjast með mèr, eða hríðinni lèttir ekki fyr en þú ert dauður. Því þú skalt vita það, að eg er valdur að þessari hríð, og eg rèð því, að þú sýktist; því eg vildi finna þig, af því eg þekki eingan hraustari mann í sveit." Ásmundi leizt nú ekki á blikuna, og sá, að sèr var nauðugur einn kostur. Sagðist hann þá heldur vilja fara með honum, en láta þar líf sitt í skaflinum. „Kom þú þá," segir karlinn. Ásmundur tók sig nú upp, og var þá lètt upp hríðinni, og komið gott veður. Fer karlinn fyrir, en Ásmundur á eptir með hestana. Ekki vissi Asmundur hvað hann fór, svo var hann viltur orðinn. Þegar þeir höfðu leingi haldið á fram, varð fyrir þeim dalverpi. Á rann eptir miðjum dalnum, og furðaði Ásmund á því, að öðru megin árinnar var rauð jörð, en hinu megin alhvít af snjó. Sinn bæ sá hann hvoru megin árinnar. Fara þeir heim að þeim bænum, sem var í snjóugu hlíðinni. Karl tók hestana, lèt þá inn og gaf þeim. Síðan leiðir hann Ásmund í bæinn, og inn í baðstofu. Þar sá Ásmundur kerlíngu gamla, og únga stúlku dáfallega. Ekki sá hann fleira fólk. Hann heilsar þeim, og því næst vísar karlinn honum til sætis. En að litlum tíma liðnum fara þau fram, karlinn og stúlkan. Var þá

Ásmundur einn eptir og kerlíngin. Kerlíngin var einatt að tauta við sjálfa sig: „Aumt er að vera tóbakslaus.“ Ásmundur tekur þá tóbaksbita úr veski sínu, og kastar til kerlíngar. Tók hún við því, og varð fegin. Nú koma þau inn, karlinn og stúlkan, og bar hún Ásmundi mat. Ásmundur borðaði, og var karlinn einatt að tala við hann á meðan, og var hinn kátasti. Þegar Ásmundur hafði matazt, fór stúlkan burtu aptur og karlinn með henni. Hugsaði nú Ásmundur, að þau mundu vera að taka saman ráð sín til þess að drepa sig. Bráðum kemur karlinn aptur, og biður Ásmund að gánga til hvílu. Hann var fús á það, og leiðir karlinn hann fram í skála. Þar var sæng uppbúin. Býður karlinn honum góðar nætur, og geingur burtu, en stúlkan dregur vosklæði af Ásmundi. Ætlar hún að taka sokka hans og skó, og fara burtu með það, en Ásmundur biður hana, að gjöra það ekki; því hann óttaðist, að þar mundu búa svik undir. Stúlkan segir, að það sè óhætt; því honum muni ekki verða gjört þar neitt mein. Fer hún svo, og býður Ásmundi góðar nætur með kossi. Ásmundi þókti þetta undarlegar aðfarir í útilegumannahúsum, og var ekki frútt um, að honum þækti koss stúlkunnar undarlega góður. Sofnar hann skjótt, og vaknar við það, að karlinn stendur þar hjá honum. Var þá dagur kominn. Karlinn býður honum góðan dag, og segist nú undir eins ætla að biðja hann þess, sem hann hafi sókt hann til að gjöra. „Svo stendur á,“ segir karlinn, „að fyrir 20 árum var eg í sveit; barnaði eg þá systur mína, flúði eg síðan, og fór híngað. Er það systir mín, hin gamla kona, sem þú sást í gærkvöldi, en barn það, sem við áttum, er stúlka sú, sem þjónaði þèr til sængur. Þegar eg kom hèr, voru hèr fyrir útilegumenn, sem bjuggu í bæ þeim, sem þú hefir sèð í gærkvöldi hinu megin árinnar í dalnum. Þeir voru tveir, og búa enn í bænum. Voru þeir jafnan fèndur mínir, en eg hefi alt af getað varizt fyrir þeim, þángað til núna. Nú get eg það ekki leingur; bera þeir mig ofurliða nú orðið, og láta allan snjó, sem í dalinn kemur, falla mín megin árinnar. Hefir það verið vani minn, að beita sauðfè mínu yfir ána í þeirra land, en nú er eg ekki orðinn maður til þess. Eg ætla því að biðja þig undir eins núna í dag, að fara með sauði mína yfir ána, og standa þar yfir þeim. Eg veit, að þú ert maður hraustur, enda mun ekki af veita; því koma munu þeir báðir, fèndur mínir, og ætla, að eg sè með fènu. Þú skalt hafa hundinn minn mórauða með þèr, og mun hann duga þèr vel.“ Rís nú Ásmundur úr rekkju, og fer með sauðina, en karl fèkk honum kufl sinn, til að hafa yfir sèr, og öxi, til að verja sig með. Þegar Ásmundur er kominn yfir ána, hlaupa þeir báðir, útilegumennirnir, á móti honum, og segja: „Feigur er hann nú;“ því þeir hugsuðu, að karlinn væri með sauðum sínum. En þegar þeir koma nær Ásmundi, segja þeir: „Annar er það, en við ætluðum.“ Runnu þeir þá til Ásmundar, og rèðust á hann. Ásmundur sigar Móra á annan þeirra, en ræðst sjálfur móti

hinum. Rífur Móri þann á hol, sem hann átti við, og hleypur síðan móti hinum; vinna þeir á honum báðir, Ásmundur og rakkinn. Er nú Ásmundur hjá sauðunum til kvölds, þá fer hann heim, og finnur karlinn. Hann tekur vel móti Ásmundi, og þakkar honum innilega fyrir dagsverkið. Sagðist hann hafa sèð til hans, þegar hann hefði verið að drepa þá, útilegumennina. Daginn eptir fara þeir báðir, Ásmundur og karlinn yfir um ána til bæarins. Voru þar húsakynni góð og rúmleg. Eingan mann fundu þeir þar, en fè mikið. Könnuðu þeir nú bæinn allan. Verður þá fyrir þeim hurð, sem þeir gátu ekki lokið upp. Ásmundur hleypur þá á hana, og brýtur hana upp. Var þetta þá afhús eitt lítið, og sjá þeir þar konu eina, fríða og fallega. Hún var bundin á hárinu við stólpa, og mjög bleik og mögur orðin. Ásmundur leysir hana, og spyr, hvaðan hún sè. Hún segist vera bóndadóttir úr Eyafirði, og hefðu þeir rænt sèr, útilegumennirnir. Sagði hún, að þeir hefðu verið að neyða sig til að eiga annanhvorn þeirra. En af því hún hefði ekki viljað það, hefðu þeir bundið sig hèr, og ætlað, að láta sig svo viðurkennast. Ásmundur segir henni þá, hvar komið sè, og að hún sè í góðra manna höndum. Verður hún þá glöð, þegar hún vissi sig sloppna úr öllum háska. Flytja þeir Ásmundur nú alt úr koti karlsins í þenna bæ, og eru þar um veturinn. Líkaði Ásmundi vel við karlinn, og þær stúlkurnar, einkum karlsdóttur. Nam hún ýmsar iðnir að eyfirzku stúlkunni. Um vorið segir karlinn við Ásmund, að nú skuli hann fara heim til sín, en að hausti skuli hann aptur koma í dal þenna; því þá segist hann verða dauður. Segist hann þá biðja hann að taka að sèr dóttur sína, og systur, ef hún lifi þá, og eyfirzku stúlkuna. Segir hann, að hann skuli taka það með þeim, sem hann finni hèr fèmætt. Síðan fer Ásmundur burtu, norður í Skagafjörð. Þóktust menn hann úr helju heimtan hafa, en eingum sagði hann þá, hvar hann hefði verið um veturinn. — Um haustið fór hann aptur burtu, og kom í dalinn til stúlknanna. Urðu þær honum mjög fegnar; því þá var bæði karl og kerlíng önduð, og höfðu þær dysjað þau á hól einum, þar í hlíðinni. Er nú Ásmundur þar hjá þeim um veturinn. En um vorið tekur hann sig upp, og fer með alt lausafè úr kotinu norður í Skagafjörð. Þar settist hann að búi, og átti karlsdóttur, en eyfirzku stúlkuna gipti hann manni þar í sveitinni. Og lýkur hèr sögn Suðurferða-Ásmundar.

**Saga af Ásmundi á Fjalli.** (Eyfirzk sögn.) Maður hèt Ásmundur, bóndason frá Fjalli i Kolbeinsdal í Skagafirði. Sterkur var hann og fríður sýnum, og virtist hverjum manni vel. Opt gekk hann til Hóla og fèkk að skoða bækur hjá skólapiltum; njósnaði hann um marga hluti, er fróðleikur var í, og lærði mikið í skólalærdómi, þótt ekki væri hann reglulegur lærisveinn talinn. Það bar til eitthvert sinn, að biskup þurfti að senda penínga til Skálholts; fèkk hann til þess skólapilt, er Sigurður hèt. Þetta

var um vetur, og þókti ílt, að einn maður legði á fjöll. Sagði biskup Sigurði að kjósa sèr mann til fylgdar, hvern er hann vildi. Sigurður kaus Ásmund. Var leitað við hann um þetta, og vildi hann gjöra það, ef faðir hans leyfði. Var nú þetta borið upp við hann, en hann var mjög tregur. En af því Ásmundur vildi fara, varð það um síðir, að faðir hans leyfði það. Búast þeir til ferðarinnar, hèldu af stað og gekk greitt suður. Luku erindum sínum í Skálholti, sneru síðan heim aptur. Á fjöllunum dimdi veður; kom á þá drífa svo mikil, að þeir viltust. Spyr þá Ásmundur, hvað til ráða væri. Sigurður mælti: „Þar eru ráðin, sem þú ert, en eingin að öðrum kosti.“ „Þá er mitt ráð, að við skiljum,“ mælti Ásmundur, „og mun hríð þessi af manna völdum, en ekki af náttúrunnar, og muntu brátt komast á rètta leið, er við erum skildir, því mèr mun önnur leið ætluð.“ Sigurður var næsta tregur til þessa, en þó varð að vera, sem Ásmundur vildi. Bað Ásmundur hann flytja kveðju sína í bygðina og skildu síðan. Ekki hafði Sigurður leingi geingið þá veður birti. Komst hann á rètta leið, og hèlt heim síðan. Sagði tíðindin. Þegar faðir Ásmundar heyrði þau, lagðist hann í rekkju af sorg eptir son sinn, og taldi hann af.

Ásmundur hèlt á fram ferðinni, en ekki birti hríðin og ekki vissi hann, hvert hann hèlt. Um síðir kom hann í dal einn, gekk eptir honum nokkra stund. Þá kom hann að bæ einum reisulegum. Þetta var um kvöld. Sèr hann koma fram í dyr börn tvö stálpuð. Hann heilsar þeim. Þau tóku því. Biður hann þau skila til húsbónda, að hann beiðist húsa um nóttina, hlupu þau inn. Brátt kom út aldraður maður og ekki ófríður. Hann geingur að Ásmundi þegjandi, tekur hann glímutökum. Ásmundur var þreyttur, en verður þó að taka móti karli, þó örðugt væri, þar hann var í öllum vosklæðum. Sviptast þeir fast og leingi. Þóktist Ásmundur hafa nóg að verjast. Þó lauk svo glímunni, að karl fèll. Ásmundur gaf honum líf og lèt hann upp standa. Þá þrífur karl hann í annað sinn, og heldur fastara, en fyrr. Varð þeirra aðgángur bæði harðari og leingri, en áður, og þó fèll karl um síðir. Enn gaf Ásmundur honum líf og leyfði upp að standa. Karl lèt ekki bíða að taka til hans í þriðja sinn; var hann nú hinn ákafasti og þókti Ásmundi óvænlega horfa fyrir sèr. Í þessu bili kom stúlka fram í dyrnar með ljós. Ásmundur leit á hana, og þókti hún svo fögur, að hann hugsaði meir um hana, en glímuna. Neytti karl þess og feldi hann, en mælti síðan: „Nú mun eg láta þig njóta sjálfs þín og gefa þèr líf, ef þú vilt þiggja.“ Ásmundur kvaðst það þiggja mundi, „en falli mínu olli hin fagra mær, er með ljósið kom.“ Stendur þá Ásmundur upp, og leiðir karl hann í baðstofu, og er nú hinn kátasti, svo sem ekkert hefði í skorizt. Alt þókti Ásmundi þar lýsa þrifnaði og kurteisi. Hann sá gamla konu fríða sitja á palli og börnin, er til dyranna geingu. Hann heilsar konunni. Hún tók því vel. Er honum síðan vísað til sætis, og var hin fagra mey látin draga af honum klæðin. Síðan færði konan honum

mat. Borðaði hann með góðri matarlyst, fèkk síðan gott rúm að sofa í og þjónaði meyan honum til sængur; litu þau hýrlega hvort til annars. Nú leggst Ásmundur til svefns, og svaf hann vel um nóttina. Um morguninn er karl snemma á fótum og býður Ásmundi góðan dag. Klæðir hann sig og gánga þeir síðan út báðir; var þá bjart veður. Karl mælti þá: „Vita skaltu, að eg er föðurbróðir þinn, en kona mín er biskupsdóttir; varð hún þúnguð eptir mig, þá hún var heima. Sá eg því mitt óvænna, og flúði með hana í dal þenna. Litlu síðar ól hún dóttur, og er það sú sama, er ljósið bar í dyrnar. Hin börnin höfum við eignazt síðan. Við gátum flutt með okkur eldsgögn og fáar kindur átti eg, er eg náði seinna. Einga höfum við rænt, eða illa með farið á nokkurn hátt og hafa eingir fundið oss. Nú veit eg, hvað líður í sveitinni, því eg átti einn trúan vin, er mig fræddi um slíkt og líka hefi eg lítið eitt kunnað, og hríðinni olli eg, því eg vildi finna þig, en því tók eg svo illa móti þèr í gærkvöldi, að eg vildi reyna styrkleik þinn, og þykir mèr hann ærinn orðið hafa, því vel vissi eg, að þú varst þreyttur. Nú vildi eg, að þú værir hèr í vetur okkur til skemtunar.“ Ásmundur þáði boðið og var þar um veturinn. Skemti hann sèr við bóndadóttur; var þar ekki um talað af neinum. Um vorið bjóst Ásmundur til heimferðar. Þá mælti karl: „Nú munum við hjónin eiga skamt eptir ólifað, en eg vildi biðja þig að sjá til, að við yrðum greptruð, eins og kristnir menn. Þá vil eg, að þú gángir að eiga dóttur mína, og mun ykkur það ekki fjarri skapi. Enn vil eg biðja þig að taka börn mín og útvega þeim fóstur og kennslu. En dóttir mín vona eg sè vel að sèr í andlegum efnum og hin líka, að því leyti sem aldur leyfir. Sjálfur mun eg smíða utan um líkami okkar.“ Að svo mæltu kvöddust þeir innilega, og skildi Ásmundur við það fólk alt með harmi, hèlt síðan heim eptir leiðsögn gamla mannsins. Kemur nú að Fjalli, hitti móður sína; varð hún stórglöð við að sjá hann lifandi, en segir, að faðir hans lá í sorg eptir hann, og kveðst vilja fara og bera sig að hressa hann með von um komu hans, því verða mætti, hann dæi af svo snöggum umskiptum sorgar og gleði. Hún fer inn og finnur hann að máli og spyr, hvernig heilsu hans er varið. Hann segir hana ekki betri, en áður. „Nú get eg fært þèr góð tíðindi, sem eru, að eg hefi von um, að sonur okkar lifi. Vildi eg, að þú gætir orðið hressari, ef verða mætti hann heimsækti okkur bráðum.“ Við orð þessi lifnaði karl mikið, og svo gat hún talið um fyrir honum, að hann settist upp, og er hann var svo hress, sem henni líkaði, sókti hún Ásmund. Kom hann inn og heilsar föður sínum. Varð þar óumræðilegur fagnaðarfundur. Eptir þetta segir hann þeim alt af ferðum sínum, og þókti föður hans mikið að heyra slíkt; hèlt hann bróður sinn fyrir laungu dauðan. Batnaði honum skjótt veikin og varð heill heilsu. Ásmundur fór nú heim til Hóla; var honum þar vel fagnað af Sigurði og öllum. Er hann síðan heima um hríð. Eina nótt dreymir hann, að frændi

hans kom að honum, og mælti: „Nú er mál, að þú búir þig af stað og finnir mig, og fá þèr góða menn til fylgdar og fararskjóta, sem nægja.“ Þegar Ásmundur vaknar, segir hann föður sínum drauminn, fær sèr menn og hesta og ríður í dalinn. Voru þá hjónin nýlega önduð; höfðu börnin kistulagt þau. Tóku þeir líkin, börnin öll, og alt, er þeir máttu með komast úr bænum, og fluttu heim að Fjalli; var það þó mjög laung leið. Líkin voru greptruð að Hólum, og drakk Ásmundur erfi eptir hjónin. Eptir þetta átti hann meyuna, er honum leizt bezt á; voru þeirra samfarir góðar. Börnin lèt hann fá gott uppeldi, og urðu þau bæði vænir menn, en ei er þeirra hèr framar getið. Ásmundur bjó að Fjalli eptir föður sinn, en ekki vitum vèr að segja frá afkvæmi hans. Sumir segja, að Sigurður ætti ýngri systurina, en bróðir þeirra ætti systur Sigurðar. Lúkum vèr svo þessari sögu.

**Dalbúinn.** (Eptir sögn gamallar konu í Borgarfirði M. G.) Svo bar við eitt haust, að framúrskarandi illar heimtur urðu í sveitinni, og fýstu margir, að gjörðar væru eptirleitir. Einkum fýsti þessa vinnumaður einn, sem við skulum kalla Kára. Hann skoraði á ýmsa til samferðar með sèr, og varð einn maður til, sem lèzt vildi fara með honum. Þó dró maðurinn alt af úr ferðinni og leið svo fram á jólaföstu. Herti þá Kári á honum; en hann sagðist þá ekki fara eitt fet, úr því svona væri áliðið, en færðin slæm og allra veðra von. Fer þá Kári og biður húsbónda sinn um það, sem hann þurfti til ferðarinnar. Tjáði nú ekki að letja Kára, og fór hann, hvað sem hver sagði. Ekki vissi hann samt, hvert halda skyldi, og er hann var úr bygð kominn, fann hann fyrir sèr hæðir og hálsa, og tók hver hæðin við af annari. Gekk hann eptir hæðum þessum leingi og varð eingrar nýlundu var. Loksins kemur hann fram á hamra nokkra háa og þverhnýpta. Þar sèr hann dal stóran fyrir neðan og rann á eptir dalnum. Sèr hann að mikill fjöldi sauða gekk í dalnum, og með ánni sá hann ullarbreiður miklar. Lángar hann mjög til að komast ofan í dalinn, en getur ekki, því hamrarnir voru svo voðalega háir og brattir. Leitar hann þá fyrir sèr og finnur loks einstigi eitt; þar ræðst hann til og kemst með lagi ofan, og var það þó hættuferð mikil. En er hann var kominn niður í dalinn, sèr hann þar bæ í honum miðjum. Bærinn var ekki stór, en snotur. Húskorn stóð eitt sèr, laust við bæinn. Kári fer nú heim að bænum og ber að dyrum. Kemur þar út úngleg stúlka. Kári heilsar henni, og tók hún kveðju hans kurteislega. Kári segist vera ferðlúinn mjög, og beiðist þar gistíngar. Stúlkan segir, að hann muni fá að vera, og geingur inn. Út kom hún aptur bráðlega, og biður hann gánga í bæinn. En þegar hann kom inn, sá hann þar karl einn gamlan, en eingan mann annan, fyrir utan stúlkuna. Er honum þá boðið að draga af sèr vosklæði, en hann þiggur það ekki að svo komnu. Fara þau nú bæði frá honum,

karlinn og stúlkan. Heldur hafði honum sýnzt þau döpur í bragði, eins og illa lægi á þeim. Þegar hann var nú einn orðinn inni, fer hann að þreifa fyrir sèr, því myrkt var í húsinu, til að vita hvers hann yrði var. Finnur hann þá rúm nokkur, og að í einu þeirra liggur dauður maður. Getur hann sèr þá til, að þar muni einhver hafa komið á undan sèr, sem þar hafi drepinn verið, og muni sèr vera ætlað hið sama. En þegar lítil stund var liðin, komu þau aptur, karlinn og stúlkan, og hafa þá ljós með sèr. Er þá settur fyrir hann matur, og var það sauðaspað. Hann segir þá við þau, að ef sèr sè ætlað nokkurt grand hjá þeim, muni bezt að framkvæma það undir eins Karl grunaði, að Kári mundi hafa orðið var við líkið, og segir að hann megi vera óhræddur um sig; „því eingum ferðamanni, sem híngað hefir komið, hefi eg mein gjört,“ segir karlinn, „enda hafa hèr fáir komið. En svo stendur á líki því, sem hèr liggur, að það er lík systur minnar. Þegar við vorum úng, vorum við í sveit; unnumst við mikið. Var eg þá látinn fara í skóla, en um þær mundir varð systir mín þúnguð af mínum völdum. Flúðum við þá híngað, og áttum hèr þrjú börn saman, en öll eru þau nú dáin, nema þessi stúlka, sem hèr er hjá okkur. Vil eg nú biðja þig á morgun að hjálpa mèr til að grafa líkið. Það, sem eg lærði í skóla, kendi eg börnunum mínum, og vona því, að dóttir mín sè ekki illa að sèr, eða miður að sèr, en hver önnur sveitastúlka.“ Kára þókti saga þessi merkileg. Sefur hann nú af um nóttina, en daginn eptir jarða þeir líkið við einstaka húsið, en það var bænhús dalbúans. Karlinn spyr þá Kára, hvaða ferð hann sè á. Kári segist vera í eptirleit, og hafa enn einga sauði fundið, nema þá, sem þar væru í dalnum, sem honum þækti vera býsna margir. Dalbúinn segir að það sè von; „því í haust sigraði eg híngað margt fè af afrètti, og nú hefi eg sigrað þig híngað. Var það tilgángur minn að ná híngað einhverjum þeim manni, sem tæki að sèr dóttur mína eptir minn dag. Eg á nú eptir tvö ár ólifuð, og vildi eg, að þú settir nú svo vel á þig leiðina híngað að þú rataðir hana aptur, og kæmir þá híngað, og tækir að þèr dóttur mína, en jarðaðir lík mitt hjá þessu líki“. Dvaldi nú Kári nokkra stund hjá dalbúanum. En þegar hann ætlaði burtu, segir karlinn að hann skuli taka það af sauðfènu með sèr, sem hann gæti rekið. „Geingur það hèr sjálfala,“ segir hann, „og hefir þar einginn nein not af. Ullin, sem þú sèrð liggja um dalinn, eru reifi, sem eg hefi ekki komizt yfir að hirða. Nú veit eg að þú átt örðugt með að reka margt fè einn, og skal eg því ljá þèr hundinn minn. Hann mun reka fyrir þig, og fara rètta leið, og skaltu einúngis halda brautina á eptir. Þar sem hundurinn staldrar við, þar skaltu hafa náttstaði. Þegar þú kemur að efsta bæ í bygð mun rakkinn snúa aptur og fara til mín.“ Síðan kveður Kári stúlkuna og hèt henni að koma aptur á ákveðnum tíma. Tekur hann nú fjölda fjár með sèr og rekur á burtu. Karlinn fylgdi honum upp úr dalnum. Þar fær hann

honum hund sinn, og skilja þeir síðan með blíðu. Þegar þeir voru skildir, fer hundurinn og rekur allan fjárhópinn, svo ekki þarf Kári að líta við honum, og hafði hann nóg með að geta fylgt. Fór alt eins og karl hafði sagt. Þegar hann kom að efsta bæ í bygð, hljóp rakkinn til baka, og ætlaði þó Kári að reyna til að halda honum. Kári fèkk nú mannhjálp til að reka fjárhópinn, en það voru sex hundruð sauða. Var þeim skipt milli þeirra, sem vantað hafði um haustið, og bætti það í búi hjá mörgum. Þókti ferð Kára mjög góð orðin, og vildu margir vita um hana. En hann sagði fátt af ferð sinni, og var opt hljóður. Líða nú tvö ár. Þá fer Kári enn í óbygðir, og er hann kemur í dalinn finnur hann stúlkuna úti. Var hún stúrin mjög, og sagði þá föður sinn nýdáinn. Kári fer með henni inn í bæinn. Dvaldist hann þar nokkra stund í dalnum. Gróf Kári dalbúann, þar sem hann hafði fyrir mælt. Eptir það býst Kári til burtfarar; tók hann alt það fèmætt, sem hann gat með sèr haft, og svo stúlkuna, karlsdóttur. Þegar heim kom í sveitina, lèt hann reyna karlsdóttur, hvernig hún væri að sèr, og reyndist hún vel. Sagði hann þá upp alla sögu. Síðan átti hann karlsdóttur, og unnust þau mjög, og voru samfarir þeirra góðar.

**Sagan af Hóla-Þorsteini.** (Skagfirzk sögn.) Það var einn tíma, þá er biskup var á Hólum í Hjaltadal, að þar voru margir skólapiltar. Meðal hverra var einn, er Þorsteinn hèt. Var hann mikill og sterkur, og hinn mesti listamaður til hvervetna. Einnig var á Hólum systir hans; lærði hún þar allskonar kvennlegar íþróttir. Var mjög kært millum þeirra systkinanna; unnu og Þorsteini bæði biskup og flestir, er til þektu. Fola átti Þorsteinn rauðan. Bar það til einn vetur, að Þorsteinn biður bóndann á Kálfstöðum í sömu sveit, að taka þann rauða af sèr til eldis frá jólum, og ala hann vel, það eptir væri vetrar, einnig skyldi hann ríða honum, svo hann yrði ekki stirður, þegar Þorsteinn þyrfti til hans að taka. Hafði Þorsteinn ærið fè, því foreldrar þeirra systkina voru dánir, og höfðu látið eptir sig ærna fjarmuni. Vetur þenna hinn sama seldi Þorsteinn ýmsa hluti sína fyrir penínga. Var vetur sá og vor hið blíðasta. Var um veturinn haft í flimtíngum, að systir Þorsteins mundi fara með barni. En að liðnum sumarmálum, þegar komið var á fætur á Hólum, voru þau systkin horfin. Lèt þá biskup leita hans, og var þá komið að Kálfstöðum, og hafði hina sömu nótt horfið hestur Þorsteins. Lèt þá biskup vitja hesta sinna, og voru 2 af þeim horfnir. Sendir þá biskup menn bæði í Kolbeinsdal og víðar. En einginn vissi til ferða þeirra Þorsteins. Lèt þá biskup fara fram Blönduhlíð. Komu leitarmenn að Flugumýri. Hafði þar verið vakað um nætur. Sagði vökumaður, að þá fyrir skömmu hefði karlmaður og kvennmaður riðið fram fyrir Rèttarholt, og mundu þau hafa farið yfir á Grundarferju, því öll vötn voru

orðin íslaus. Fóru Hólamenn þá fram til Mælifellsdals. A dalnum fundu þeir hesta biskups. Hèldu þeir þá fram og vestur til Blöndu. Sáu þeir þorsteinn og systur hans lángt á undan. Herða þeir nú reiðina, og litlu áður, en þeir koma að Blöndu, sáu þeir, að þorsteinn bindur systur sína, og það þau höfðu meðferðis ofan á hestinn, rekur síðan hestinn í ána og hèlt sèr í tagl hans, en annari hendi hèlt hann á staf sínum. Skolaði þessu öllu upp hinu megin. Leysir þorsteinn þá af hestinum og tekur systur sína af baki. Hefir hann þar fataskipti. Taka þau systkin þá til matar. Komu þá Hólamenn á nyrðri bakka árinnar. Kallar þorsteinn til þeirra og spyr, hvort þeir vilji ekki yfir ána. En segir þeim, að meðan sèr endist fjör, muni hann verja þeim landið. Og með því þeir sáu sèr eingan kost að komast yfir ána, sneru þeir aptur, og fóru heim til Hóla. þókti biskupi linlega eptir leitað. Lögðu og margir þeim til ámælis, að þeir skyldu sjá þau, og hverfa aptur við svo búið. Varð nú svo að vera, sem komið var. Komst það þá í hámæli, að þorsteinn mundi vera valdur að þúnga systur sinnar. Skrifar nú biskup, og sendir um alt land lýsíngar þeirra. En að áliðnu sumri kom lýsíng þessi austur í Hreppa. Var þar á bæ einum kona, er sagði, að um vorið hefði komið til sín karlmaður og kvennmaður og hefðu haft ferðaskrínur á einum hesti rauðum. Hefði maðurinn beðið fyrir stúlkuna í 2 vikur. En verið sjálfur þann tíma í burtu. Að hálfum mánuði liðnum sókti hann stúlkuna, og fór með hana og það, sem þau höfðu meðferðis. Vissi einginn, hvaðan þau voru, eða hvert þau fóru. En það þóktust menn vita, að stúlkan hefði með barni verið. Spurðist ekki framar til þeirra, þó lýsíngar geingju. Leiddu menn ýmsar getur um, hvað hefði orðið af þeim. Hèldu sumir, að þau hefðu lagzt út, aðrir, að þau hefðu komið sèr í skip. Biskupi fèllst mikið um hvarf þorsteins því hann unni honum mikið. Liðu svo 18 ár, þángað til biskup sendi eitt sinn mann suður að Skálholti. Er ekki getið um ferðir hans, fyrr en hann á heimleiðinni fór villur vegar í illviðri. Hitti hann þá í kafaldinu mann. Spyr hann ferðamann, hvaðan og hver hann sè. Segir hann hið sanna frá. Hólamaður spyr hinn, hvaðan hann sè. Segist hann vera austan úr Hreppum og sè ekki lángt til bæar síns. Býður hann Hólamanni að fara með sèr. Vill hinn því að eins þiggja það, að hann fái loforð um fylgd næsta dag, og því lofar hinn. Fara þeir síðan, til þess þeir koma að laglegum, en litlum bæ. Leiðir bóndi komumann þar inn. Sèr komumaður þar konu roskinlega og mey únga og únga sveina tvo. Ekki sèr hann annað fólk. Biður bóndi að veita gesti góðan greiða, segir hann það sendimann frá Hólabiskupi. Fèkk gestur þar hinn bezta beina. Spurði bóndi margra tíðinda, einkum frá Hólum og úr Skagafirði. Leysti hinn vel úr öllu. Spyr þá bóndi, hvort hann hafi ekki heyrt getið um, að maður hafi horfið frá Hólum, þorsteinn að nafni, og systir hans. Sagði komumaður, að sagnir einar

hefði hann af því, því hann kveðst hafa verið barn, þegar það bar við. Spyr bóndi, hverjar getur sèu á, hvað af þeim hafi orðið. Segir komumaður slíkt, sem áður er ritað. Var svo sendimanni fylgt til hvílu. En um morguninn var veður fagurt, og fylgir bóndi honum, þar til þeir eru komnir á rèttan veg. Biður bóndi Hólamann að taka nákvæmlega eptir vegum þeim. Þykir honum það undarlegt, að hann þurfi þess, en lætur svo vera, og að skilnaði fær bóndi honum brèf, sem hann biður hann færa biskupi. Hvarf bóndi heim síðan. Segir nú af ferðamanni, að hann kemur heim til Hóla. Afhendir hann biskupi þau brèf, er hann tók í Skálholti, og síðan afhendir hann brèf það, sem hann tók á leiðinni. Les biskup það. Sá einginn honum bregða, utan menn heyrðu hann segja: „Þó fyrri hefði verið.“ Vissu menn ekki, hvernig á því stóð. En um vorið sendi biskup þann hinn sama með 12 hesta og 2 menn með honum; átti einn þeirra að fara suður að Skálholti. En þegar þeir koma suður á fjöllin, fer sá, sem sendur var að Skálholti, leiðar sinnar, en hinir fara, þángað til þeir finna bónda þann, sem Hólamenn voru til sendir. Varð þá bert, að biskup hafði sent þá eptir Þorsteini og fjölskyldu hans, sem áður er getið. Taka þeir þá upp alla fjármuni þeirra. Spyrja Hólamenn, hvort Þorsteinn vilji ekki rífa bæinn. Neitar hann því, og segir, að gott hefði sèr þókt fyrrum að hafa skýli, til að dveljast í og kunni líkt til að bera fyrir öðrum síðar. Er ekki getið ferða þeirra, fyrr en þau komu öll heim á Hóla. Fagnar biskup þeim með hinni mestu blíðu. Segir Þorsteinn biskupi, að hin únga mær sè barn það, sem systir sín hafi verið þúnguð að og sveinarnir sèu tvíburar. Yfirheyrir biskup börnin, og voru eingin, er jöfnuðust við þau að mentun eptir aldri. Lèt biskup þá sveina ná svo mikilli mentun, sem auðið var. Fóru þeir báðir til útlanda, og er þeirra ekki framar getið. Bauð biskup Þorsteini, hvort hann vildi vera hjá sèr á staðnum, eða láta hann fá jörð til ábúðar. Kaus Þorsteinn að vera hjá biskupi. Mentaði Þorsteinn fyrr umgetinn sendimann biskups, og gaf honum síðan dóttur sína. Var Þorsteinn hjá biskupi og systir hans vel metin. Og lýkur hèr að segja frá Þorsteini á Hólum, útlegð hans og apturkomu.

**Systkinin.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Einu sinni var bóndi á bæ fyrir norðan; hann átti tvö börn, son og dóttur. Þegar börn þessi voru um tvítugsaldur, mistu þau bæði föður sinn og móður, og rèðust þá í vist til bónda eins þar í sveitinni. Þau voru í vist þessari í nokkur ár. Eitt sinn verða menn þess varir, að bóndadóttir þessi er með barni og grunar alla, að bróðir hennar muni vera valdur að því. Systkinin fastsetja það með sèr að fara úr bygð og strjúka. Þau áttu fjármuni nokkra, sem þau höfðu erft eptir foreldra sína, og þar á meðal voru 3 hestar. Eitt kvöld lögðu þau af stað og riðu tveimur hestunum, en höfðu áburð á

einum. þau hèldu til fjalla alla nóttina, en undir daginn tóku þau hvíld í dalverpi nokkru. Var nú leitað að þeim úr bygðinni þenna dag, en fundust ekki. þegar systkinin höfðu hvílt sig litla stund, halda þau á fram ferð sinni, sem þau geta, og stefna altaf til óbygða. Loksins koma þau að dal nokkrum. þeim virðist hann fagur mjög og grasgefinn og rennur á eptir dalnum. Í þessum dal fastsetja þau að taka sèr bólfestu. Grafa þau jarðhús hjá ánni og búa um sig í því. Hefir bróðirinn það starf um daga, að hann veiðir silúng í ánni, og var mikil gnægð af honum. Hafa þau nú lítið annað að lifa á, en silúng, en af honum hafa þau nóg. Nú kemur að því, að bróðirinn fer kaupstaðarferð; er systirin ein í jarðhúsinu á meðan. þá fæðir hún barn, og geingur það vonum betur, og er það falleg stúlka. Nú er það af bróðurnum að segja, að hann hefir litla kaupstaðarvöru, og fyrir vöru þá, sem hann hefir, kaupir hann ekki annað, en við; kemur hann nú heim aptur og finnur systur sína heilbrigða og barnið. Býr hann nú til dálítið hús, og flytja þau sig í það úr jarðhúsinu. Um sumarið starfar bróðirinn ekki annað, en að veiða silúng úr ánni og veiðir hann ágætlega vel, svo að þau hafa ekki einúngis nóg sèr til fæðis, heldur afgáng mikinn af silúng, sem hann herðir. Um haustið geingur hann á fjöll, þángað til hann finnur kindur. Hann tekur eina á, einn hrút og eitt lamb, skrifar mörkin hjá sèr á kindum þessum og rekur síðan heim í dalinn, og setur þær á vetur. Nú líður veturinn, og sumarið kemur. þá fer hann í kaupstað, og hefir ekki aðra vöru, en hertan silúng. Hann kaupir ekki annað en við, eins og fyrra árið; þetta geingur nú svona nokkur ár. Hann kaupir leingi ekkert annað, en við í kaupstaðnum og hýsir nú fallegan og lítinn bæ. Hann hefir þil á hverju húsi og lætur öll þilin vera í röð, en innangeingt hefir hann í öll húsin að innan. Hann byggir og fjárhús mörg, væn og lagleg; þurfti hann þess nú með, því undan hrútnum og ánni var hann búinn að koma upp mörgu fè, sem seinna skipti hundruðum. Var honum því hægra að koma fènu upp, sem hann gat látið það gánga gjafarlaust á dalnum allan veturinn. það er mælt, að þegar hann var búinn að koma upp nokkrum kindum, þá tók hann úr fè sínu einn hrút, eina á og eitt lamb og markaði undir sama mark, og á þeim kindum var, er hann í fyrstu tók af fjallinu, og rak svo kindur þessar heim undir bygð. Líða nú mörg ár svo, að ekki ber til tíðinda. Víkur nú sögunni í bygðina. Eitt haust eru heimtur svo slæmar, að menn muna ekki þvílíkar, og þó leitað sè víða, finnst ekki fèð. Maður er nefndur Sigurður; hann var vinnumaður á bæ einum í bygðinni; hann var ofláti mikill og þóktist flestum mönnum meiri. Hann kveðst nú ekki þola leingur yfir þessum slæmu heimtum manna, og segist muni gánga á fjöll og leita; kveðst hann varla trúa því, að hann fari ónýtisferð. Geingur hann síðan til fjalla og leitar leingi. Loksins lendir hann í kafaldi og þoku, svo hann veit ekki, hvert hann

fer. Eptir lánga gaungu kemur hann að dal nokkrum; sèr hann, að klettabelti umgirðir dalinn, svo hann kemst ekki ofan í hann, þó kemst hann loksins ofan einstig eitt. Þá sèr hann bæ einn fallegan í dalnum. Hann geingur að bænum, kemur þá úng stúlka og falleg til dyra. Hann biður hana skila til húsráðanda, að hann biðjist gistíngar. Fer hún þá inn, en kemur jafnskjótt, og segir, hann fái að vera; hún vísar honum í hús, sem er afsíðis í bænum; hún sækir handa honum mat og færir úr vosklæðum, vísar honum á rúm, og háttar hann þar og sofnar. Um morguninn kemur til hans gamall maður og heilsast þeir. Gamli maðurinn segir, að það sè sèr að kenna, að hann sè híngað kominn, segist hann hafa vilt hann híngað í þokunni, því sig hafi lángað til að fá frèttir úr bygðinni; „vildi eg, að þú yrðir nú hèr í vetur," segir hann, „því eg treysti mèr ekki að koma þèr til bygða í haust." Tekur Sigurður því nokkuð dauflega, en þó verður það úr, að hann verður þarna um veturinn. Gamli maðurinn er úti alla daga um veturinn að gegna fè sínu, og verður Sigurði aldrei að vegi að hjálpa honum til, og ekkert handarvik gjörir hann allan veturinn. Þegar líður að sumarmálum, fer Sigurður að hafa orð á, að nú vilji hann komast heim, sèr sè nú farið að leiðast hèr. Gamli maðurinn segir honum, að nú geti hann farið, þegar hann vilji, og kveðst skuli sjá um, að hann komist klaklaust til bygða. Leggur Sigurður nú af stað og upp úr dalnum og á fjöllin. Hann fær þoku mikla, og veit ekkert, á hvaða vegi hann er. Þegar hann hefir geingið nokkra daga, kemur hann þó í bygð og þar í bygðina, sem hann átti heima. Hèldu allir hann laungu dauðan. Menn spyrja hann tíðinda, en hann kvaðst hafa verið hjá fjallaþjófum í vetur, og fè því, sem menn hafi vantað í haust eð var, hafi líklegast fjallaþjófar stolið. Menn biðja hann að vísa sèr til fjallaþjófanna, en það kveðst hann ómögulega geta. Er nú ekki frá sagt, þángað til líður að næsta hausti, þá verða jafnslæmar heimtur, ef ekki verri, en hið fyrra haustið. Eru opt leitir gjörðar, en það kemur fyrir ekki. Bóndason er nefndur til sögunnar, Jón að nafni. Hann er stiltur maður og vinsæll, fáskiptinn og þrautgóður. Hann vill nú gjöra lánga leit á fjöllin, en þó ráða foreldrar hans honum frá því. Verður það þó úr, að hann fær sèr nesti og nýa skó, og leggur af stað; leitar hann leingi um fjöll og heiðar, en finnar ekkert fè. Einn dag fær hann þoku mikla og kemur að áliðnum degi að fallegum dal; hann finnur einstig ofan í dalinn, og fer hann þar ofan. Þá lèttir frá þokunni, og sèr hann sólskin bjart í dalnum. Hann sèr, að dalurinn er vafinn í grasi, og að á rennur eptir miðjum dalnum, og að vel hýstur bær stendur við ána. Hann geingur að bænum, og ber að dyrum. Þar kemur stúlka til dyra, og lízt honum vel á stúlkuna. Hann biður hana skila til húsbónda, að hann biðjist húsa; fer stúlkan þá inn, kemur þegar aptur, og segir, að hann fái að vera. Hún vísar honum inn og í hús eitt lítið, og fer

síðan út. Um kvöldið færir stúlkan honum mat, lætur hann hátta og tekur sokka hans og skó. Sefur nú Jón allvel um nóttina. Um morguninn kemur til hans gamall maður; hann spyr, á hvaða ferð hann sè. Jón kveðst vera að leita að fjallafè, því í haust hafi verið slæmar heimtur í sinni sveit. Gamli maðurinn segir, að það sè sèr að kenna, að hann sè híngað kominn, segist hann hafa vilt hann híngað, ekki af því að hèr sè afrèttarfè bænda, heldur af því, að sig hafi lángað til að fá til viðtals vænan mann úr sveit. „Vil eg nú helzt, að þú sèrt hèr í vetur, því örðugur er nú vegur til bygða og misjafnra veðra von.“ Það kveðst Jón ekki þora, því foreldrar sínir muni undrast um sig. „Það mun eg sjá um að ekki verði til muna,“ segir hinn gamli maður. Þeim talast þá svo til, að Jón verður þarna um veturinn. Kann hann vel við sig, og hjálpar gamla manninum allan veturinn við inni- og úti-störf. Líður svo veturinn og að sumarmálum fram. Kemur þá gamli maðurinn eitt sinn að máli við Jón og mælti: „Hefirðu heyrt getið um, að systkin 2 hafi nokkurn tíma horfið úr sveit þinni?“ „Jú,“ mælti Jón, „heyrt hef eg um það talað, en lángt er síðan; það mun líklega hafa verið fyrir mitt minni.“ Gamli maðurinn spyr, hvað menn hafi haldið, að af þeim hafi orðið. „Um það eru ýmsar getur,“ mælti Jón; „halda sumir, að þau hafi dáið, en sumir, að þau hafi lent hjá útilegumönnum.“ Gamli maðurinn mælti: „Eg og kvennmaður sá fullorðni, sem hjá mèr er, erum nú systkin þau, er þá struku úr bygð; höfum við lifað hèr síðan góðu lífi, og er stúlka sú, sem þú hefir hèr sèð, dóttir okkar. Eg er nú kominn að fótum fram og mun skamt eiga eptir ólifað; skaltu nú vita, að dóttir mín er þúnguð af þínum völdum, og vil eg, að þú farir nú heim, en bið þig að koma aptur í haust og eiga þá dóttur mína, og alt það fèmætt, dautt og lifandi, sem hèr er; kalla eg þá dóttur minni vel borgið, enda hefir mig lángað til að útvega henni vænan mann, áður en eg dæi. En þess bið eg þig, að sjá um systur mína, og útvega mèr góðan legstað, þegar eg dey.“ Skildu þeir nú talið, og fer Jón heimleiðis; segir gamli maðurinn honum vel til vegar. Finnur Jón foreldra sína, og höfðu þau ekki orðið nærri eins hrædd um hann, og hann hafði hugsað. Hann segir þeim ráðagjörð sína, og líkar þeim allvel. Um haustið fer hann í dalinn, og er honum þá einkar vel fagnað; er nú ekki öðruvísi frá sagt, en að Jón flytur alt, sem í dalnum var, dautt og lifandi, til bygðar. Hann heldur brúðkaup sitt til stúlkunnar, tekur sèr jörð og fer að búa. Fram af þessu deyr hinn gamli maður, og lætur Jón jarða hann í kirkjugarði, og gjörði heiðarlega útför hans. Jón og kona hans unnu hvort öðru hugástum til elli, áttu börn mörg og bezta bú, og lúkum vèr svo sögu þessari.

**Sögubrot af Árna á Hlaðhamri.** (Úr Húnavatnssýslu.) Fyrir laungu síðan er þess getið, að maður nokkur bjó á Hlaðhamri við Hrútafjörð

vestanverðan. Hann hèt Árni. Ekki er nefnd kona hans, nè hvers son hann var. Gildur bóndi þókti hann í þeirri sveit, stórlyndur og heiptrækinn, og kunni lítt skap að stilla, ef honum var á móti gjört. Hann átti dóttur eina barna, er Guðrún hèt. Þókti hún snemma sköruleg. Harðgerð var hún, sem faðir hennar. Ekki var allra að ná hylli hennar, en trygg var hún og vinföst, þar sem hún tók því. Á bæ einum þar skamt frá bjó kona ein eða ekkja; ekki er getið um nafn hennar. Son átti hún, er Jón hèt; var hann snemma gjörvulegur; blíður var hann og hógvær við hvern mann, hvort sem hann átti að sèr mikið eða lítið og spakmenni hið mesta. Þau Guðrún á Hlaðhamri áttu opt barnleika saman og fèll vel á með þeim. Þegar Jón var 16 vetra, fór hann til vistar að Hlaðhamri til Árna bónda. Þá var Guðrún bóndadóttir 12 vetra; geðjaðist hann þar hverjum manni vel, og unnu allir honum hugástum. Þegar Jón hafði verið 2 ár á Hlaðhamri, kom hann að máli við bónda og bað dóttur hans. En Árni þverneitaði, og bað hann að nefna slíkt aldrei framar. Það þóktust menn vita, að þeim Guðrúnu fèlli þetta allþúngt, því jafnan var ástúðlegt milli þeirra, en lètu þó lítið á bera. Liðu nú enn fram tímar og var hann kyr á Hlaðhamri. Þegar Jón var tvítugur, bar svo til um haustið, að Árna var vant margs fjár af fjalli, og svo vantaði fleiri bændur venju fremur af fè sínu. Bjóst þá Jón á fjöll upp að leita fjárins; var hann viku í burtu, og kom heim aptur með fjölda fjár. Var nú alt kyrt og tíðindalaust til annars hausts. Bar þá eins við, og fyrra haustið, að margt fè vantaði. Fór Jón þá enn af stað, og var hálfan mánuð í burtu. Kom hann heim seint á degi og gekk til rúms síns; hafði hann komið með flest fè það, er vantað hafði. Guðrún bóndadóttir átti eina kind, og var það sauður svartflekkóttur. En er Jón hafði tekið til matar, segir hann við bóndadóttur: „Guðrún, ætlar þú ekki að koma upp á kvíarnar og sjá hann Flekk þinn?“ Hún kvað já við, og fór þegar fram, og greip stóran fataböggul undir hönd sína, og gaf einginn gaum að því. En er Jón hafði matazt, gekk hann út og vissu menn ekki um þau Guðrúnu framar. Lèt nú Árni bóndi spyrja eptir þeim á næstu bæum, og svo um allar næstu sveitir, og kom fyrir ekki. Einskis var saknað frá Hlaðhamri, nema kinda þeirra allra, er Jón átti, Flekks Guðrúnar og fatnaðar þeirra. Um sömu mundir hvarf og kýr eða kvíga frá móður Jóns; talaði hún fátt um það, og lèt lítið leita. Árni bóndi þóktist nú vita, að Jón hefði strokið með dóttur sína, og varð hann ákaflega reiður, og lèt hann leita, hvar sem hann kunni; það kom fyrir ekki, enda gekk nú vetur í garð og varð ekki að hafzt. Lagði nú bóndi fè til höfuðs Jóni; lofaði hann hverjum þeim 20 hundraða jörð, sem gæti fært sèr Jón dauðan, eða lifandi, og Guðrúnu, dóttur sinni, til konu, ef hann vildi. Sumarið eptir fèkk Árni marga menn að leita um fjöll og óbygðir, hvar sem mönnum gat til hugar komið, en alt varð það árángurslaust. Enda var það þá,

sem opt kann verða, að sitt vill hver. Vildu allir hinir betri menn helzt ekki finna Jón, og því síður segja til hans, þó þeir fyndu hann, en hinir lakari menn og fègjarnari vildu vinna til fjárins. Leið nú svo þetta sumar og veturinn eptir, að ekkert spurðist til Jóns. Annað sumar fèkk Árni enn menn til leitar, og skyldu þeir nú fara leingra, en áður. Og er þeir voru sem leingst komnir, þóktust sumir finna reykjarlykt, en aðrir börðu það niður; og varð því ekki af, að leingra væri farið. En þegar heim kom, fèkk Árni pata af þessu. Og þó hinir flestu og beztu leitarmenn segðu þetta tilhæfulaust, þá vildi hann ekki trúa því, og bjóst síðan sjálfur að heiman með mönnum þeim, er þóktust hafa fundið reykjarlyktina. Og er þeir komu á þær sömu stöðvar og höfðu litazt um, sáu þeir, að reykjargufu lagði út úr hól einum litlum. Þar sáu þeir og hrísköst mikinn. Þeir geingu upp á hólinn og sáu þar glugga opinn; var þar Jón undir í rúmi, og lá aptur á bak, og las í bók, en meðannar i hendi vaggaði hann barni, er lá í vöggu fyrir framan rúmið. Árni fór nú ofan af hólnum, og fann dyr litlar á einhverjum stað. Þar gekk hann inn, og sá hann þá Guðrúnu, dóttur sína, í kofa einum litlum; hafði hún þar pott lítinn á hlóðum, og eldaði eitthvað. Árni gekk nú leingra inn, og kom í kofa þann, er Jón lá í og barnið í vögguni. Hljóp hann þá að Jóni og stakk hann með hnífi 18 stýngi, og skildi síðan við hann, og var hann þó ekki með öllu dauður. Lèt hann þar eptir hnífinn. Ekki urðu þeir varir við neina lifandi skepnu, nema eina kú sáu þeir þar; hún var nýborin. Ekki er þess getið, að þeir hefðust þar fleira að, og fóru nú burt og heim til sín. Að viku liðinni komu þeir aptur til hólsins. Sat þá Guðrún fyrir framan Jón, og hèlt á barni, og lèt það sjúga brjóst sín. Potturinn stóð á hlóðum, sem áður, og eldurinn fyrir laungu dauður. Aldrei hafði kýrin mjólkuð verið, og hafði runnið mjólk mikil úr spenum hennar, og var hún að bana komin úr húngri. Árni tók nú dóttur sína og barnið; það var meybarn; flutti hann þær mæðgur heim að Hlaðhamri. Guðrún hafði áður sofið á lopti litlu uppi í baðstofu, og var þar nú kvennmaður annar. Þángað gekk Guðrún, rak þá burtu, sem fyrir var, háttaði þegar, og fór ekki á fætur aptur, meðan faðir hennar var þar; talaði ekki heldur orð við nokkurn mann. Nú frèttir móðir Jóns, hvar komið er; fær hún þá menn, til að sækja lík Jóns og það, sem fèmætt var í híbýlum þeirra; og var það mjög lítið, og ekki annað, en það, sem hún hafði feingið honum; höfðu þau mest lifað á veiðum. En hólinn hafði Jón grafið innan haustin, sem hann var í fjárleitunum. Líki Jóns var nú veittur gröptur, og búið um, sem vani var til. Eptir þetta lèt móðir Jóns búa mál á hendur Árna, og sókti hann um morð sonar síns. Var það mál prófað og sagt til dóms; varð málið mjög ófrægt, og var Árni settur í hald og dæmdur til að höggvast. Þessi dómur þókti Guðrúnu, dóttur hans, oflinur. Reis hún nú úr rekkju, og byrjaði mál að nýu. Krafði hún hegníngar yfir föður sínum fyrir með-

ferð á sèr, og banaráð, og níðslega meðferð á sèr og dóttur sinni árs gamalli, þar sem hann hefði skilið sig eina eptir á fjöllum uppi með barnið hjá líki bónda síns, svívirðilega myrtu. Skýrði hún nú sem greinilegast frá öllum atburðum við morðið, og kom svo orðum sínum, að alt varð sem hryllilegast og föður hennar til enn meira sakfellis. Þar eptir afhenti hún dómendum hníf þann alblóðugan, sem Árni skildist við í síðasta stýngnum á Jóni, og krafði harðlega, að faðir sinn væri líflátinn með sama hætti, og hann hefði myrt Jón, og síðan skyldi brenna kroppinn til ösku; og kvað hún sárara hafa brunnið hjarta sitt, er hún sat yfir Jóni dauðum. En svo mikill kraptur og alvara fylgdi orðum hennar, að dómendur hertu nú dóminn og dæmdu beint eptir kröfu hennar. Var síðan dóminum fullnægja gjörð. Eptir það tók Guðrún við búi á Hlaðhamri og bjó þar leingi; var hún aldrei síðan við karlmann kend. Dóttir hennar hèt Guðrún, og giptist hún síðar og bjó á Hlaðhamri eptir móður sína. Og er ekki frekara af þeim sagt.

**Jón frá Geitaskarði.** (Jón prestur Þórðarson á Auðkúlu eptir Salomon nokkrum, Jónssyni.) Á Geitaskarði bjó fyrir eina tíð bóndi nokkur fremur fátækur; hann átti son þann, er Jón hèt; var hann allra manna hraustastur og glímnastur. Eitt haust fór Jón í Eyvindarstaðarètt, eins og hann var vanur, og sèr hann þá í almenníngnum sauð einn mórauðan, vanin hyrndan, og ber hann af öllum öðrum. Jón handleikur sauð þenna, og lízt vel á, en í því heyrir hann, að maður kveður á almenníngs veggnum:

„Mórauður, með mikin lagð,
Mænir yfir sauðakrans;
Hófur, netnál, biti, bragð
Á báðum eyrum mark er hans.“

Maður þessi bað Jón hirða fyrir sig sauðinn, og geyma, þángað til hann vitjaði hans, og hvarf eptir það á burt. Jón hafði sauðinn heim með sèr og geymdi um veturinn, en um vorið hvarf Móri, og allir sauðir bóndans með honum; dreymdi þá Jón nóttina eptir, að maður sá koma til hans, sem hann áður sá á rèttar veggnum, og sagði honum, að sauðir hans væru komnir til föður síns, og mundi hann þá ekki lausa láta, nema hann rækti þá sjálfur, og væri honum það í hug, þá skyldi hann að haustinn halda með gángnamönnum suður í Hvítárnes, og halda svo þaðan í norður með jöklunum, en ekki skyldi hann vera einsamall, því allþúngt mundi veitast. Síðan leit af sumarið, og um haustið var Jóni, eins og vant var, skipað í undanleit, og ríður hann þá 2 dögum fyrr en vant var suður í Hvítárnes, og skilur þar við samferðamenn sína, og heldur einsamall norður með jöklum, þángað til hann kemur að þröskuldi einum, og þegar hann er kominn yfir hann, sèr hann útilegumann standa yfir stórum lambahóp, og undir eins og útilegumaðurinn sèr hann, hleypur hann á móti honum, og ræðst á hann. Líður ekki á laungu, áður Jón kemur honum undir

og ætlar að drepa hann; biður þá útilegumaður sèr griða og lofar að reynast honum trúr í öllu. Lætur Jón hann þá uppstanda, og spyr, hvaðan hann sè. Þessi segist vera sonur þess, er tekið hefði sauði föður hans, og biður Jón nú aptur hverfa, því honum sè dauðinn vís, ef hann komist í hendur föður sínum. Jón vildi þó ekki hætta við óreynt, og heldur enn á fram, þángað til hann hittir annan mann, er sat yfir ám mörgum; hann rèðst líka á Jón, en svo fór, að Jón átti ráð á lífi hans, og leyfði hann honum þó upp að standa. Þetta var bróðir hins, og rèð hann honum á sama veg að snúa aptur. Enn þá heldur þó Jón áfram, þángað til hann hittir 3. bróðurinn, sem geymdi sauðanna; það var sá sami, sem hann haustið áður hafði sèð á rèttar veggnum. Þessi ræðst og á Jón, en það finnur Jón, að hann var þeirra lángsterkastur, en jafnframt finnur hann, að þessi leyfir af afli sínu, og vildi ekki neyta sín, og loksins fèll hann, fremur af því, að hann datt sjálfur, en að Jón feldi hann. Útilegumaður bað hann þá griða, og var það auðfeingið; sagði hann, að hann af látalátum hefði orðið að glíma við hann eptir vilja föður síns, þar hann vildi Jón feigan „og muntu nú", segir hann, „fá við ofurefli þitt að eiga, ef þú ferð heim á bæinn, því faðir minn er svo sterkur, að við þrír stöndumst honum ekki. En taka skaltu sax mitt til merkis um það, að þú hafir unnið mig, en komist þú í nauðir, mun eg reyna til að hjálpa þèr". Síðan ríður Jón heim að bænum, og ber á dyr; kemur þá stúlka til dyranna, og spyr Jón að húsbóndanum. Hún geingur inn aptur, og litlu síður kemur karlinn út, og hefir reidda öxi um öxl sèr, en þegar hann sèr Jón með sax sonar síns, verður hann afarreiður, kastar öxinni, og hleypur að Jóni. Jón kastar þá og saxinu, og tekur á móti; karlinn gekk að með afli miklu, en Jón hugsaði ekki um annað en verjast, en karl kom honum ekki af fótunum; varð þá karlinn því æfari og hamaðist, en vegna ellinnar tók hann fljótt að mæðast, og að lokunum gat Jón brugðið honum, svo hann fèll; bað þá karlinn hann að ráða sig sem fljótast af dögum, þar sig fýsti nú ekki að lifa. Jón kvaðst vilja gefa honum líf, ef hann vildi reynast sèr trúr. Karl kvaðst ekki framar mundi sitja um líf hans, en sagði, að sèr mundi nú lítið betra líf, en hel. Lèt Jón hann þá uppstanda, og bauð karl honum í bæinn, og segir honum síðan frá vandræðum sínum, að þángað hafi komið 2 galdramenn fyrir nokkrum árum, og verið hjá sèr kaupamenn á sumrin, sem beðið hafi eldri dóttur sinnar, en af því hann hafi synjað þeim hennar, hafi þeir gjört henni gjörnínga, svo nú sè hún vitstola, og svo hafi þeir verið fjölkunnugir, að þeir hafi látið amboðin vinna, en sjálfir setið inni á palli. Þeim hefði verið mjög illa til Jóns á Geitaskarði, og staðið af honum einhver geigur, og því hefðu þeir sett það upp í kaup, að karl fyrirkæmi honum, en það væri nú svo komið, að hann hefði átt ráð á lífi þeirra. Jón kvað bezt mundi, að bíða, og rjá hverju fram yndi. Dvaldist hann nú þar um veturinn og drógust saman hugir hans og ýngri

bóndadóttur, svo hann mátti ekki af henni sjá. Sumarið eptir komu galdramennirnir, og var þá Jóni leynt, en með kænsku sinni gat hann um sumarið náð frá þeim galdraskruddum þeirra; en er þeir urðu þess varir, varð annar þeirra svo reiður, að hann rak vitskertu stúlkuna ígegn, þá er hann áður hafði viljað eiga, og síðan stallbróður sinn í einhverskonar fáti, en í því kom Jón að, og er galdramaðurinn sá hann, þekti hann hann og segir: „þar ertu kominn, Jón frá Geitaskarði, mæli eg um og legg eg á, að þú aldrei hèðanaf festir yndi í sveit, fyrr en þú ert áttræður orðinn, ef þú annars verður svo gamall." En þegar hann hafði þetta mælt, hjó Jón af honum höfuðið. Haustið eptir gekk Jón að eiga karlsdóttur, og fèll vel á með þeim. En vorið eptir fýsti hann að vitja norður og vitja um foreldra sína. Reið hann þá norður Kjöl og Kúluheiði, og kom ofan í Lángadal, og ríður heim að Skarði. Spyr hann þá heimafólk, hver þar búi, segir það honum, að það sè ekkja; ræður hann af því, að faðir sinn muni dauður. Gerir hann boð fyrir ekkjuna, og kemur hún fram í bæardyrnar, en þekkir hann ekki. Hún býður honum inn, en hann finnur, að sèr er svo brugðið, að hann getur ekki inngeingið. Fer hann þá ofan í tösku sína, og fær henni brèf og stóra peníngapýngju og segir: „þannig mundi Jón frá Geitaskarði hafa viljað kveðja móður sína." Kveður hann hana síðan, og ríður á burt. Í brèfi þessu var saga Jóns, og það með, að hann mundi ekki framar vitja í sveitir, og í pýngjunni voru peníngar svo miklir, að móður hans skorti ekki til dauðadægurs.

**Sendisveinn Skálholtsbiskups.** (Eptir þorvarði Ólafssyni á Staðarfelli.) það var einu sinni bóndi á bæ fyrir austan; hann átti 12 börn; hið elzta var 12 ára gamall dreingur. Dreingurinn tók það fyrir að fara á næstu bæi, til að fá sèr að borða; því faðir hans var fátækur. þegar hann einu sinni, sem optar, ætlaði að fara heim, kom að honum þoka, svo hann viltist. Hann hugsar með sèr að gánga nú ekki leingra, og leggur sig fyrir í brekku nokkra. þegar hann hefir legið þar litla stund, kemur til hans dreingur, og spyr, því hann liggi þar. Hann segist hafa hætt að gánga, svo hann viltist ekki í þokunni. Aðkomudreingur spyr, hvort hann vilji ekki koma með sèr heim í Skálholt, og gjörðist það í milli þeirra, að þeir fara báðir þángað heim. þar biðjast þeir húsa og fá að vera. þeir eru látnir sofa saman um nóttina. En um morguninn fara þeir að tala saman í rúmi sínu og segir þá bóndason, að sig lángi til að vera hèr í dag og vinna fyrir því, sem hann borði. Aðkomudreingur kveðst ekkert kæra sig um það, hann fái það betra á hinum bænum. Biskupinn heyrir á þetta tal þeirra, og þegar dreingirnir eru komnir á fætur, lætur hann kalla þá í stofu til sín, og spyr bóndason, hvort hann lángi til að vera hèrna í dag. Hann segir já. En við hinn dreinginn segir hann, að hann skuli fara í burtu, hann fái betra á hinum bænum.

Bóndason verður þá kyr, en hinn fer í burtu. Að 3 dögum liðnum fer bóndason í burtu, og lætur þá biskup gefa honum mat á 3 hesta handa foreldrum hans, og segir, að hann megi koma aptur, ef hann vilji. Dreingur kemur svo aptur, og verður nú smali hjá biskupi. Nú líður og bíður, þángað til hann verður 15 ára. Biskup var vanur að senda norður að Hólum, en sjaldan komu þeir menn aptur, sem hann sendi. Dreingurinn heyrði á þetta tal um norðurferðina og beiddi biskup að lofa sèr norður, en hann vildi ekki gjöra það, því honum þókti vænt um bóndason. Af því verður bóndason samt svo ángurvær, að hann legst í rúmið, og liggur nú í rúminu í viku. Þá kemur biskup til hans, og kveðst muni lofa honum að fara, fyrst hann vilji það svo mikið, hann eigi þó mest í hættunni sjálfur. Nú fer bóndason að klæðast. Biskup biður hann sækja hafur, hann er skorinn og bóndason alinn á honum í viku. Nú kallar biskup bóndason einn morgun til sín í stofu, gefur honum hressíngu og segir honum að glíma við karl þann, sem sè úti á hlaðinu, og ef hann geti ekki felt hann, fái hann ekki að fara norður. Nú taka þeir til glímunnar, og þeytir karlinn honum þá út í loptið. Nú frèttir biskup, hvernig geingið hafi, en bóndasyni þykir mjög sárt. Þetta geingur í 3 morgna, svo að annan morguninn getur hann komið karli á annað knè, og verður bóndason þá mjög glaður, og segir biskupi. En hann segir, að hann verði að fella karlinn hæglega. Þriðja morguninn getur hann fleygt eins karlinum, eins og hann fleygði bóndasyni fyrsta daginn og verður hann nú mjög kátur, og segir biskupi. Biskup spyr, hvernig honum lítist á þenna karl. Bóndason segir: „Illa, hann er ljótur og leiður.“ „En ef eg er það sjálfur?“ segir biskup. Þá skammaðist bóndason sín, er hann komst að raunum, að þetta hefði verið biskup sjálfur. Nú kemur næsti morgun og segir biskup, að nú skuli hann fara af stað norður. Hann fer og biskup fylgir honum á leið, gefur honum flösku, og segir, að á henni skuli hann súpa, ef honum liggi líf við, fær honum svartan hund, og segir, að hann skuli láta hann ráða ferðinni, og hafa þar náttstað, sem hann leggist niður og breyta nú ekki út af. Þeir skilja nú, en bóndason heldur á fram. Þegar kvöld er komið, leggst hundurinn undir stein og bóndason hjá honum, og eru þar um nóttina. Næsta dag halda þeir á fram, þángað til þeir koma að hæð nokkurri, og var þá komin kafaldsmugga. Þá vildi hundurinn fara að sunnanverðu, en bóndason að norðanverðu við hæðina. Hann klappaði þá rakkanum og fór á móti vilja hans að norðanverðu. Nú heldur hann á fram, þángað til hann rekur sig á kofadyr í bylnum. Hann ber að dyrum, en einginn kemur til dyra. Svo ber hann aptur, en það fer á sömu leið. Síðan fer hann upp á kofann, ólmast þar og ætlar að brjóta hann niður. Þá lýkur karl upp hurðinni í hálfa gátt, spyr, hver úti sè, og hvað á gángi. Bóndason segir til sín og biður að lofa sèr að vera. Það vill karl ekki

og ætlar að þrýsta aptur hurðinni. En bóndason ýtir á móti og þreingir sèr inn um dyrnar og eltir karlinn inn í baðstofu. Þar sèr hann í öðrum endanum kerlíngu, sem situr uppi í rúmi, og er að lyppa og hefir öxi undir lærinu. Í hinum endanum 2 dreingi og stúlku. En þegar stúlkan sèr hann, fer hún að gráta. Bóndason geingur leingi um gólf, þángað til hann segir við karlinn, sem situr í dyrunum: „Við erum óvanir því Skálholtsmenn að fá ekkert að jeta.“ Karlinn hleypur fram, kemur aptur með fulla skyrskál og rèttir að honum. Hann borðar 1 spón og fær honum síðan aptur. Nú líður lángur tími, þángað til bóndason segir: „Við erum óvanir því Skálholtsmenn að hafa ekkert að gjöra.“ Þá fer karl fram; en á meðan losar bóndason um poka sinn og sýpur á flöskunni. Í því kemur karl með húðarskinn og biður hann að elta. Hann eltir, en þegar hann fer að teggja upp skinnið, rífur hann það sundur í miðjunni, fleygir því í karlinn og segir: „Við erum óvanir því Skálholtsmenn að elta þessa horbjóra.“ Bóndason sýpur á flöskunni aptur. Karlinn kemur með annað skinn og biður bóndason að elta, og fer það alt á sömu leið. Bóndason sýpur enn þá á flösku sinni. Karl kemur með 3. skinnið, biður hann að elta, og fer það enn sem fyrri. Nú fer kerlíng fram og stúlkan með aska. Litlu síðar kemur karlinn með spaðskál og fær bóndasyni, en hann borðar 1 spaðbita og 1 spón af súpu, og fær síðan karlinum aptur. Nú fara allir að hátta. Hann gefur því auga, hvar stúlkan háttar. Þegar hann heldur, að allir sèu háttaðir, fer hann til hennar í rúmið. Hann frèttir um fólk þetta og segir hún honum, að karlinn sè faðir sinn. Hann hafi stolizt með sig úr sveit og hitt fyrir þessa kerlíngu. Hún hafi komið honum til að drepa menn, sem hèr hafi komið. Hann hafi átt með henni þessa dreingi, sem sèu hálfbræður sínir. „Og fari svo,“ segir hún, „að þú hafir vald yfir þeim, þá bið eg þig að drepa ekki dreingi þessa.“ Nú heyra þau, að kerlíng vaknar og segir við karl sinn, hvort nú sè ekki mál að vakna, en hann segir, það sè ofsnemt. „Þetta er nú,“ segir kerlíng, „sá tuttugasti af Skálholtsmönnum, og lízt mèr harðlegast á hann af þeim öllum.“ Þau sofna nú aptur, en bóndason og stúlkan fara nú á fætur og fram í eldhús og kveykja ljós. Stúlkan fær honum öxi. Þau laumast nú með ljósið til baðstofu og heggur hann af karli hausinn, en kerlíng hleypur ofan. Nú vakna dreingirnir og ráðast á bóndason. Stúlkan lèzt hjálpa hálfbræðrum sínum, en hjálpar þó bóndasyni. Hann kemur þeim undir og biðja þeir hann um líf. Hann gefur þeim það. Nú fer fólk fram og finnur kerlíngu rifna á hol í gaungunum, og hafði hundurinn drepið hana. Þau taka nú karl og kerlíngu og brenna í eldi. Dreingirnir sýna honum nú fènaðinn, og var hann 600 fjár og 3 hestar, einn af þeim brúnn að lit, sem stúlkan átti, og hafði hann aldrei sèð stærri hest. Bóndason biður dreingina að vísa sèr á rètta leið, og ríður hann brúna hestinum. Hann ríður norður og geingur ferðin vel, og kemur

nú í kotið aptur, og er þar í viku. Síðan leggur hann á stað suður, fer með stúlkuna, en biður dreingina fyrir búið. Þau koma í Skálholt og fagnar biskup þeim vel. Bóndason biður biskup að kenna henni kristin fræði, því hún var heiðin, og lofar hann því. Næsta vor áttust þau. Bóndason heyrir það á biskupi, að hann lángar mikið til að eiga hinn brúna hest, svo hann gefur honum hann. Biskupinn gefur honum í staðinn 3 jarðir fyrir norðan og er ein stærst. Nú flytur bóndason sig norður, og tekur með sèr 2 systur sínar, tekur dreingina og alla fjármunina úr kotinu á leiðinni. Dreingina lætur hann kristna og gefur þeim systur sínar, og sína minni jörðina hvorum. Á jörðum þessum fara þessi þrenn hjón að búa, unnast vel til ellidaga, og kann eg ekki þessa sögu leingri.

**Glímumaðurinn.** (Norðan úr Eyafirði.) Bóndi nokkur bjó í Skagafirði; hann átti 2 börn; var það piltur og stúlka. Þau voru snemma efnileg. Þegar pilturinn fór að stálpast, var hann svo glíminn, að einginn gat komið honum af fótunum; streingdi hann þess heit að gipta eingum systur sína, nema þeim, sem feldi sig í glímu; fór hann nú að ferðast víða, til að reyna glímni sína við menn. Það var einhverju sinni, að hann fór suður á land, þó fann hann eingan, sem bæri hann ofurliði. Þaðan fór hann austur í Skálholt; kom hann þar að kvöldi dags; voru þar 12 skólapiltar. Hann baðst þar gistíngar, og stóð honum það frítt fyrir; hjöluðu skólapiltarnir margt við hann um kvöldið; buðu þeir honum í glímu. Hann kvaðst ekki vera vanur glímum, en þó glímdi hann við einn þeirra og stóð hann ekki leingi. Þá gekk til annar, og fór á sömu leið, og svo hver eptir annan, og fèllu allir, þar til ekki voru eptir, nema 2; hlupu þeir báðir á hann, en hann hefir annan á lopt, og kastar honum niður svo hart, að hann fèll í óvit, en keyrir hinn undir sig; eptir það var hann þar um nóttina. Um morguninn spyr hann þá, hvort þeir viti ekki af neinum miklum glímumönnum. En þeir sögðu, að ekki mundu vera þar eins miklir menn, sem hann, nema þeir sögðu, þar væri karl í koti, sem ætti 2 syni; sögðu þeir, að þeir vildu aldrei glíma, en þó hugðu þeir, að ekki mundu þar meiri menn vera. Hann biður þá fylgja sèr þángað. Þeir gjöra nú svo; gjöra þeir boð eptir karlinum. Karlinn kom út. Þeir biðja hann að lofa sonum sínum að glíma við sig um daginn. Hann segir, að ekki muni vera hent fyrir börn að glíma við slíka menn, og gekk snúðugt inn aptur. Þeir fóru eptir honum og lögðu sína spesíuna hver þeirra í lófa hans. Hann fór þá til sona sinna og bað þá glíma við þá, sem komnir væru. Þeir fóru út; tóku þeir til að glíma á dagmálum; glímdi eldri karlssonur við skólapiltana, en sá ýngri við Norðlendínginn. En á hádegi var eldri karlssonurinn búinn að fella alla skólapiltana, en Norðlendíngurinn búinn að fella þann ýngri. Þá fóru þeir að glíma, sem eptir stóðu, og glímdu svo leingi, að hvorugur fèll; hættu

þeir nú um stund. þá mælti karlssonur: „Kantu nú ekki fleiri brögð?“ „Nei,“ sagði Norðlendíngurinn. Glímdu þeir nú enn leingi, þar til karlssonurinn hóf hinn á lopt, og brá honum, þegar hann kom niður, svo hann fèll flatur. þá sagði Norðlendíngurinn þeim frá ferðum sínum og svo heiti sínu og bauð þeim bræðrum báðum að fara með sèr norður. þeir taka nú það ráð að fara með honum að leyfi föður síns. Fóru þeir Kjalveg. Mörgum þókti það óráð, að fara þessa leið, því það var seint um haust, er þeir fóru og var snjór kominn á fjöllin. Hèldu þeir nú á fram leiðar sinnar; hesta höfðu þeir til reiðar. þegar þeir eru komnir upp á fjöllin, kom á þá hríð mikil; hèldu þeir nú á fram, og vissu ekki, hvert þeir fóru, þar til þeir sáu í dal nokkurn. þeir komust einhverstaðar ofan í dalinn. Einn bæ sáu þeir í dalnum og margt fè. þá var liðið að kvöldi; sjá þeir nú, hvar stúlka kemur frá bænum, og hóar saman fènu. þeir finna hana; sýnist þeim hún vera þrekleg, en þó rètt fríð. þeir heilsa henni. Hún tekur því vel. Norðlendíngurinn sló upp í spaug við hana og bauð henni í glímu. Hún var til í það og glímdu þau nú leingi og gat hann ekki komið henni niður, þar til hún fèll á einu bragði, er hún varaðist ekki. þeir spurðu hana, hver byggi þar. Hún sagði, það væri faðir sinn. þeir spurðu, hvort þeir mundu ekki fá að vera þar um nóttina. En hún sagði, þeir skyldu ekki þar heim koma, ef þeir vildu lífi halda, en fara upp úr dalnum sem fljótast. þeir sögðu, að hestar sínir væru svo þreyttir, að þeir yrðu að vera þar, á meðan þeir væru að af lýast, þó þeir biðu bana af því. Stúlkan sá, að það var satt, og fann það ráð, að hún klórar sig í framan, svo hún varð alblóðug og slítur af sèr hárið og segir einn þeirra skuli reiða sig heim. þeir gjöra nú svo. þegar þeir koma að bænum er karlinn úti heldur ófrýnilegur. þá mælti stúlkan: „Líklegt þykir mèr, að þú reynist þeim vel faðir minn, því þeir hafa bjargað mèr. Eg var hröpuð hèr í fjallinu og komst ekki neitt þaðan.“ þá mælti karlinn: „þú mátt sjá um þá, þegar piltarnir koma heim í kvöld.“ Hún leiðir þá í einn skála; þar voru 12 rúm og hvert þeirra var nóg fyrir 2. Svo sækir hún þeim mat og þur föt. En þegar þeir eru búnir að jeta o. s. frv., tekur hún hlemm upp úr gólfinu og lætur þá fara þar niður. þar var stigi ofan að gánga og jarðhús undir. Nú voru þeir þar leingi, áður þeir heyrðu hark og mannamál í skálanum; heyrðu þeir, að stúlkan var þar og þjónaði þeim, er komnir voru. þeir spurðu hana, hvort nokkrir hefðu þar komið um daginn. Hún sagði, eingir hefðu þar komið. þeir trúðu henni ekki og leituðu um allan bæinn, en fundu þá þó ekki. Nú fóru þeir að hátta, en til allrar ógæfu hóstaði einn þeirra, er í jarðhúsinu voru. þá stukku hinir upp allir og þrifu hlemminn úr gólfinu og fóru hver eptir annan niður í húsið, en ei gat nema einn í einu farið niður, en þeir, sem í húsinu voru, lögðu þá alla í gegn, um leið og þeir hlupu niður, en þegar þeir voru allir drepnir, hlupu

hinir upp og svo út. Þá kom karlinn og þreif til Norðlendíngsins og ætlaði að nísta hann sundur. Þá kom eldri karlssonurinn og feldu þeir svo karlinn báðir og skáru hann á háls. En þá var kerlíngin búin að tæta ýngri karlssoninn og leggja hann niður og vildi bíta hann á barkann. Þeir tóku hana og ætluðu að brjóta hana úr hálsliðunum, en í því bili kom stúlkan og sagði þeir skyldu gefa móður sinni líf og svo gjörðu þeir; voru þeir nú þar, það sem eptir var næturinnar. En um morguninn bjuggu þeir sig á stað; tóku þeir hesta sína og marga aðra, er þar voru og bundu klyfjar á þá af því, er þar var fèmætast til. Síðan tóku þeir stúlkuna og alt sauðfè, er til var, nema 24 ær, er þeir skildu eptir hjá kerlíngunni, því hún vildi ekki fara. Nú halda þeir af stað og reka fèð, en stúlkan rak lestina. Nú vildu þeir fara eptir endilaungum dalnum, en stúlkan sagði, að þeim væri dauðinn vís. Þeir spurðu hana, hvernig á því stæði. En hún sagði, að 12 menn mundu koma um daginn með fè úr gaungum, sem hefðu verið vinnumenn hjá föður sínum og væru miklu meiri fyrir sèr, en hinir fyrri. Þeir sögðust ekki vera hræddir við dreingi þessa. Hún ráðlagði þeim að fara upp í skarð nokkurt, er var í fjallið. Þeir kváðu, það væri verra fyrir hestana og fóru eins og þeim þókti bezt. Nú halda þeir eptir dalnum. En er þeir komu þángað, sem dalinn þraut, sjá þeir koma menn móti sèr með fè, og eru þeir 12 saman; en er þeir nálægjast, þekkja þeir fèð og hestana og sleppa fènu, en hlaupa heldur ófriðlega að þeim. En hinir fara í brekku eina, bera saman grjót mikið og búast við, sem þeir gátu bezt; koma nú hinir og sækja að þeim allrösklega, en þeir verjast með grjótinu, og fèllu nú hinir fljótt margir, en einginn af þeim þremur, því þeir áttu hægra með að verjast; voru þeir þángað til að, að hinir voru allir dauðir og fóru síðan af stað, og tóku hesta alla og sauðfè og var fèð þá orðið 600; gekk þeim nú vel á leiðinni og komu að stuttum tíma liðnum í Skagafjörð og sögðu alt, eins og farið hafði. Gipti Skagfirðíngurinn eldri karlssyninum systur sína, en hinn ýngri átti einhverja stúlku þar í sveitinni. En sjálfur átti hann stúlkuna, sem þeir feingu á fjöllunum og fóru að búa sinn á hverri jörð þar í sveitinni nálægt hver öðrum, og hèldu vináttu sína til dauðadags.

**Kaupamaðurinn.** (Eptir handriti sèra Jóns Kristjánssonar frá Yztafelli.) Í Biskupstúngum bjó ríkur bóndi. Hann var kvongaður, og átti son einn barna með konu sinni. Hann var snemma efnilegur. Þeim hjónum þókti mjög vænt um son sinn, og tímdu þau ekki að sjá af honum, og óx hann upp í foreldrahúsum, þángað til hann var 16 ára. Það var eitt sumar, að tveir menn þar í nágrenninu, sem vanir voru að fara í kaupavinnu norður í land, koma að máli við bónda, að hann lèti son sinn fara með þeim og framast þannig. Var bóndi tregur til í fyrstu, en lèt þó tilleiðast, af því dreinginn lángaði mjög til að fara. Þegar liðnar voru fráfærur og kaupa-

menn vildu byrja ferðina, bjó bóndi son sinn; fèkk hann honum gott fararnesti, og fall af gömlum sauð. Kvaddi dreingur foreldra sína, en þau hjón báðu honum allra heilla; lagði hann síðan á stað með kaupamönnum norður á fjöll. Þeir áðu fyrir ofan Þjórsá, og höfðu þá farið tvo áfánga. Þá var það, að kaupamennirnir tóku sig saman um, þegar þeir höfðu tjaldað, að taka alt nesti dreingsins undir sig, og skildu honum að eins eptir mjaðmirnar af sauðarfallinu. Hann undi þessu mjög illa, en varð þó að hafa það svo búið. Þegar fèlagar hans höfðu matazt, lögðust þeir til svefns, en dreingurinn gat hvorki neytt svefns nè matar, því honum var svo þúngt í skapi við stallbræður sína. Þegar stundarkorn var liðið, kom mórauður hundur þar að tjaldinu, snuðraði kríng um það, og lypti loksins upp tjaldskörinni með trýninu; kastaði þá dreingurinn mjaðmarstykkinu, sem hann átti eptir af fallinu, að hundinum, en rakkinn greip það og hvarf á burt. Þegar dreingur hafði setið í tjaldinu enn þá nokkra stund í þúngu skapi, svo hann gat ekki sofið, fór hann út og til hesta sinna, sem voru á beit þar skamt frá. Sèr hann þá, hvar maður fer, heldur stórvaxinn, og stefnir þángað, sem hann var, og fylgir honum mórauður hundur. Komumaður kvaddi dreing vingjarnlega og spurði hann ýmsra tíðinda, og leysti dreingur úr því með greind og stillíngu. Loksins sagði dreingur komumanni alt um hagi sína, eins og þá var komið. Bauð þá karlinn honum að fara í kaupavinnu með sèr um sumarið, og þáði dreingur það. Tók hann þá hesta sína og lagði á þá, og fór með komumanni, en ekki kvaddi hann samferðamenn sína, sem sváfu eptir í tjaldinu. Hèldu þeir allan þann dag á fram og fram á nótt, þvert frá alfaravegi, og var karlinn mjög sporadrjúgur, uns þeir komu að litlum bæ í dal einum; voru þar fögur slèttlendi umhverfis bæinn, en eins var og þoka feldi alla útsjón í fjarlægð. Þegar þeir komu að bænum, stóð kvennmaður úti fyrir dyrum; hún heilsaði föður sínum og gekk til hans; var hún bæði úngleg og fríð. Karlinn vísaði nú bóndasyni til gistíngar í skemmu einni og sagði dóttur sinni, að bera honum mat og þjóna honum til sængur. Svaf hann vært það eptir var nætur. Um morguninn kom karlinn til hans og kvaðst þegar hafa hugsað honum fyrir verki. Reis þá bóndason úr rekkju hið bráðasta, og fór út; sýndi karlinn honum þá eingjateiga allmikla, en slètta og grösuga, og sagði að bóndason ætli að vera búinn að slá þá um fjallgaungur. Leizt bóndasyni svo á, að þetta mundi sèr óvinnandi. Karlinn fèkk honum síðan orf og ljá; voru það hvorttveggja góð verkfæri; en karlsdóttir átti að raka eptir honum. Karlinn lagði ríkt á við hann um að forvitnast ekkert um heimilishagi sína. Þarna var nú bóndasonur, og gekk til sláttar á hverjum degi, nema á sunnudögum, og svaf í skemmunni um nætur. Sá hann allan þann tíma eingan, nema feðginin, og ekki heldur varð hann nokkurs peníngs eða kvikfènaðar var. Hann sló, en hún rakaði, en það þókti honum undarlegt, að heyið hvarf jafnóðum og

það var slegið og rakað. þókti honum einvera sín kynleg, en þó mjög skemtileg. það var viku fyrir fjallgaungur, að hann hafði lokið ætlunarverki sínu. Kom þá karl að máli við hann, þakkaði honum fyrir sumarvinnuna og var glaður í bragði. Kvað hann honum mundi einnig mál að komast heim til sín, svo hann yrði ekki eptir af þeim fèlögum sínum. Sagði hann, að þeir hefðu sofið í tjaldinu, þar sem þeir skildu, þángað til nú fyrir 2 vikum, að þeir hefðu vaknað og farið norður um Spreingisand, en einga kaupavinnu feingið, af því svo var á liðið sumars, í norðurlandi, og væru því á suðurleið aptur. Fèkk karl bóndasyni þá sumarkaupið; voru það tveir belgir stórir og 24 fjórðúngar smjörs í hvorum. Hann gaf honum, auk smjörsins, tvo sauði gamla og gott ferðanesti. Síðan kom hann með hesta hans og einn hest gráan, sem var mesta gripsval; sagði hann, að þessi klár mundi bera bagga hans; kvaðst hann og sjálfur mundi fylgja honum þángað, sem þeir hittust í fyrstu. þegar þeir voru búnir til burtferðar, kom karlinn með stórt dýrshorn, og rètti bóndasyni, og bað hann súpa á; drakk þá bóndason einn teyg af því, og þókti honum sèr aukast afl við það. þá bauð karlinn honum til glímu, en ekki leið á laungu, áður bóndason fèll. Bauð karlinn honum þá að taka hornið og drekka annan teyg, og skyldu þeir svo reyna glímu aptur. Bóndason gjörði, eins og karlinn sagði honum; tóku þeir síðan saman og stóð hann nokkuð leingur, en áður. Lèt þá karlinn hann drekka í þriðja sinn af horninu, og glímdi svo við hann í þriðja sinn, og varðist þá bóndasonur leingi. Sagði karlinn honum þá, að hann mundi ekki verða borinn ofurliða, þó hann mætti tveimur fullröskum mönnum á leið sinni. Nú kvaddi bóndason karlsdóttur og myntist við hana, steig síðan á bak hesti sínum, en teymdi hinn og gráa hestinn, sem var með klyfjunum; gekk karlinn með honum, en hundurinn mórauði rak sauðina á undan þeim. Fylgdi karl honum, þángað til þeir komu á veginn sunnan undir Spreingisandi. þá kvaðst karl ekki mundi fara leingra, en lèði bóndasyni hestinn og hundinn heim til sín; en áður en þeir kvöddust, bað hann bóndason að verða kaupamaður hjá sèr næsta sumar, og hèt hann því; mæltu þeir mót með sèr, þar sem þeir nú skildu, og kvöddust síðan. þegar bóndason hafði haldið á fram um hríð, urðu tveir menn fyrir honum á leiðinni, áður en hann kom í áfángastað; voru það fèlagar hans, og höfðu lítinn fararcyri; þeir köstuðu á hann kveðju, og tók hann því. þókti þeim hann ekki fara tómhentur úr kaupavinnunni, og spurðu, hvar hann hefði verið um sumarið; en hann kvað þá það eingu skipta. þeir sögðu, að hann yrði nú að skipta með þeim kaupi sínu, en hann neitaði; sögðu þeir þá, að afl mundi ráða, og kvaðst hann þess albúinn, og ætti hann að muna þeim fornan fjandskap. Stigu þeir nú allir af hestum sínum, og hugðu þeir fèlagar að taka allan flutníng hans, en hann greip sinni hendi hvorn þeirra, og sveiflaði þeim lángar leiðir frá sèr, svo þeir meiddust, og varð

þeim ekki greitt að komast á fætur aptur, enda vildu þeir ekki framar eiga við heljarmennið, og hèlt svo bóndason á fram ferðinni. Þegar hann kom heim til foreldra sinna, slepti hann hestinum, og fór hann þegar tilbaka, og mórauði rakkinn með honum. Þau hjónin fögnuðu syni sínum vel, og þókti honum hafa farnazt vel kaupavinnan, undruðust og allir sauði þá, sem hann rak heim, og þvílíkir höfðu aldrei sèzt í sveit, hvorki að stærð nè gæðum. Fátt vildi hann segja um ferðir sínar, eða hvar hann hefði dvalið um sumarið. Næsta vetur var hann heima hjá foreldrum sínum og fram á fráfærur um vorið og þókti hann afbragð annara manna þar í sveit að afli og atgjörvi. Bjóst hann síðan í kaupavinnuna. Hitti hann húsbónda sinn á ákveðnum stað, og urðu kærar kveðjur með þeim. Fór hann með honum til bæar; var þar alt, eins og hið fyrra sumar; sá hann þar eingan mann, nema karlsdóttur eina, og fagnaði hún honum mjög vel. Þegar bóndason var búinn að hvíla sig, fèkk karl honum orf og ljá og vísaði honum á eingjateiga, sem hann átti að vera búinn að slá fyrir gaungur; voru þeir sýnu stærri, en hið fyrra sumar. Tók bóndason þá til verka, og gekk svo um sumarið, að hann sló, en karlsdóttir rakaði, en heyið hvarf jafnskjótt af einginu; var hann búinn með teigana, þegar hálfur mánuður var til gángna. Kom þá karlinn til bóndasonar, þar sem hann sat í skemmunni, og þakkaði honum fyrir sumarvinnuna; kvað hann sèr þykja honum hafa geingið verkið greitt, svo mjög sem sèr hefði sýnzt honum þó dveljast við að standa á tali við dóttur sína; sagðist hann og sjá, að þeim fèlli vel samvinnan, og bar bóndason ekki á móti því. Karlinn kvað honum hafa vel farið, þar sem hann einga hnýsni hefði sýnt um hagi hans, svo undarlegt sem honum mætti sýnast um hætti hans. Sagði hann nú og bóndasyni greinilega frá, að hann hèldi mikið bú á bæ sínum og margt vinnufólk; sagðist hann hafa átt 12 dætur með konu sinni, og væru 11 þeirra giptar og konur þar í dalnum, því svo margir bæir væru þar, en hin tólfta dóttir sín, sem hann hefði sèð, væri ýngst og ógipt, og mundi hann gefa honum hana, þar eð þau vildu það bæði; tók bóndason þessum kosti með fagnaði. Til að sanna sögu sína, tók karlinn upp hjá sèr gler eitt og sagði bóndasyni að líta í; sá hann þá víða um dalinn, sem bæði var mikill og fagur; voru þar og tólf bæir, og fólk víða við heyvinnu. Þar sá hann og víða um hagann fjölda af nautum og hestum og miklar sauðahjarðir í hlíðunum á dalnum; einnig sá hann, að margt fólk starfaði að heyvinnu á jörð karlsins sjálfs, en þegar hann tók glerið frá augum sèr, sá hann ekki, nema eins og fyrri. Daginn eptir bjóst bóndasonur til ferðar með unnustu sína, og bjó karlinn ferð þeirra. Gaf hann þeim sextán sauði, alla afbragðsvæna; átti Móri að reka þá heim til bóndasonar. Enn fremur fèkk hann þeim margt í góðum gripum, sem grái hesturinn, sem áður er getið um, átti að bera, og var hann fullklyfjaður. Sjálfur kvaðst karlinn mundi fylgja þeim á veg, jafnlángt og

hið fyrra sumar. Lögðu þau nú þrjú á stað úr dalnum, og hèldu á fram, þángað til þau komu í áfángastað fyrir norðan þjórsá, þá sagðist karlinn mundi snúa aptur, en hestinn og hundinn skyldu þau hafa með sèr, og mundu þeir rata til sín aptur. Bað karlinn bóndasyni og dóttur sinni alls velfarnaðar og myntist við þau með hinni mestu blíðu og sneri síðan heimleiðis, en bóndason hèlt heim til sín með unnustu sína; bar hesturinn klyfjarnar, og hundurinn rak sauðina þángað, en hurfu síðan. Var þeim bóndasyni og unnustu hans fagnað vel hjá foreldrum hans. þókti hún afbragð flestra kvenna, og bezti kostur þar í sveit; líka þókti heimanmundurinn fagur. þegar eitt missiri var liðið, átti bóndason karlsdóttur, og byrjuðu þau búskap á jörð foreldra hans; unnust þau vel og leingi, og voru kölluð göfug í því hèraði, er og mikil ætt frá þeim komin.

**Jón bóndason frá Möðrudal.** (Eptir handriti sèra Jóns Kristjánssonar frá Yztafelli.) Einhverju sinni var ríkur bóndi á Möðrudalsfjöllum; hann átti son, sem Jón hèt. Hann var snemma mesti atgjörvismaður og vel að sèr í öllu. Bóndi hèlt 3 vinnumenn; átti hann fjölda fjár, og gætti bóndason geldsauða um vetur, en einn af vinnumönnunum gætti ánna. Einu sinni bar svo við einn vetur, að bóndason lèt út sauði og vinnumaður ærnar undir eins og ráku þeir hvoru tveggja til haga. þenna dag var þykkviðri og leit hríðarlega út og þorðu þeir því ekki að yfirgefa fèð, heldur stóðu yfir því. þegar kom fram á miðjan dag, brast á stórhríð með svo miklu veðri, að þeir rèðu ekki við neitt, og mistu fèð út í hríðina. Var hríðin svo dimm, að þeir rötuðu ekki, en urðu að kalla sig saman, og ætluðu að halda til bæar. En þeir viltust þegar, og vissu ekki, hvað þeir fóru; hèldu þeir samt á fram þann dag allan og svo nóttina eptir og fram á dag aptur. Rofaði þá til í hríðinni, og fundu þeir að þeir voru staddir undir einni fjallshlíð; var vinnumaður þá uppgefinn, og gat ekki leingur geingið. Bóndason tók þá það ráð, að hann bjó til snjóhús með rekunni,[1]) sem hann hèlt á, og lèt vinnumann fara þar inn; sjálfur gekk hann um gólf úti fyrir snjóhúsinu, og gekk svo um hríð. En bráðum leiddist honum, og kom að máli við vinnumann um að fara og vita, hvort hann fyndi ekki neinar manna bygðir. Hann kvaðst þó bráðum mundi finna hann aptur. Vinnumaður fèllst á þetta; fór Jón á stað og gekk leingi, og kom loksins á gamlan harðspora, og gekk eptir honum um tíma, þángað til hann kom að fjárhúsum; var þá komið fram á kvöld. Rofaði þá enn til, svo hann sá nokkuð frá sèr, en eingan bæ sá hann. Hann hugsar með sèr, að hann

---

1. Fjármenn á norðurlandi hafa opt litlar rekur og handhægar, sem þeir gánga við, í staðinn fyrir staf. Með þeim lètta þeir fyrir fènu, að krafsa, þar sem þeir moka ofan af fyrir því. Í harðveðurs byljum bera þeir veðrið af andlitinu með rekunni, og grafa sig í snjó með henni, ef svo ber að, að þeir komist ekki til bygða.

skuli bíða þángað til fjármaður komi heim með fèð, og gekk hann um gólf úti fyrir húsunum, en fór ekki inn. Í hálfrökkri var orðið hríðarlítið; sá hann þá, hvar kvennmaður kom með stóran fjárhóp, og þókti Jóni það undrum gegna, því hann átti ekki því að venjast í sinni sveit, að konur stæðu yfir fè um vetur. Hún rekur fèð að húsunum, og ætlaði að láta það inn, en Jón varnaði henni þess. Hún spyr hann þá, hvers vegna hann varni sèr að láta fèð inn, og hver hann sè. Hann sagði til nafns síns. Hún spyr, hvaðan hann sè að kominn, og því hann sè staddur hèr. Hann segir henni, að hann sè af Möðrudalsfjöllum, og hafi vilzt þángað, sem hann nú var, en viti ekki, hvar hann sè staddur. Hún segir, að honum sè betra að fara inn í húsið, og sè þar rúm, en standa úti í hríðinni, og varna sèr dyranna. Fór hann þá frá dyrunum og lætur fèð inn með henni í húsin, sem voru tvö og bæði stór. Þegar þau voru búin að láta fèð inn, fór hann að tala fleira við hana, og spyr, hvar hún eigi heima. Sagði hún honum þá, að bær sinn stæði þar allskamt frá fjárhúsunum í dal einum. „Er þar margt manna fyrir?“ segir Jón. Hún segir að þar sèu foreldrar sínir, bræður sínir tveir, og vinnumaður einn, og vilji hann eiga sig; en hún vilji hann ekki, og faðir sinn ekki heldur; sè hann vondur maður og hafi spilt bræðrum sínum svo, að þeir sèu orðnir íllir, eins og hann. Hann biður hana ásjár, og að koma sèr til bæar, en hún vill það ekki. Sagði hún, að það mundi ríða á lífi hans, og mundu þeir eða sjálfsagt vinnumaður drepa hann, ef hann vissi af komu hans. Kvaðst hún ekki sjá annað betra ráð fyrir hann, en að hafast við þar í húsunum fyrst þá nótt, og segist hún muni koma þángað aptur á morgun, og hafa með sèr bæði mat og klæðnað handa honum. Jón tók þessum kosti vel, en kvaðst vilja vitja samferðamanns síns, sem eptir hefði orðið af sèr, og bað hana að fylgjast með sèr. Hún gerir það. Fara þau nú bæði; var þá stytt upp hríðinni, en dimt af nótt, en þó túnglsljós dálítið. Fór Jón á undan, þángað til hann kom að snjóhúsinu, þar sem vinnumaður var. Hann talar til vinnumanns, en hann var mjög máttfarinn, og þjáði kuldinn hann mest, svo hann gat ekki geingið. Hlutu þau að bera hann til skiptis, þángað til þau náðu aptur fjárhúsunum. Bjó kvennmaðurinn vel um þá, eptir því sem faung voru á og hlúði að þeim, og kvaðst mundi vitja þeirra að morgni, en leingur mundi hún ekki standa yfir fènu, því það væri ekki sitt verk, heldur þeirra karlmannanna, og hefði hún að eins feingið að hafa þenna starfa þann dag sèr til skemtunar. Síðan skilur hún við þá og fer heim. Morguninn eptir kemur hún snemma, geingur inn í húsið til Jóns og kvaddi hann, og spyr, hvernig þeim fèlögum líði. Jón lèt vel yfir vellíðan sinni, en af fèlaga sínum væri það að segja, sagði hann, að hann væri örendur. Kom hún þá með stóran ketbelg og tvenn föt og fær Jóni, og segir að hann skuli njóta hvorstveggja, þar eð hinn þurfi hvorugs við. Hefir Jón nú fataskipti og jetur eptir þörf sinni úr belgnum,

svo hann hrestist við, og varð frískur. Biður hann hana að fylgja sèr á rètta leið heim. Hún tók því vel, en kvaðst mundi reka fèð á beit um leið. Rak hún nú fèð og skilur við það, og fylgir Jóni nokkuð á veg, og var þá mjög liðið á dag. Veður var hríðarlaust, og nokkurn veginn bjart. Þá sagðist hún ekki mega fara leingra, og þyrfti hún að vitja fjárins aptur, en sýnir honum, hvert hann skuli halda. Jón þakkar henni fylgdina og skiljast þau með blíðu. Fór Jón leiðar sinnar og gekk til kvölds, eins hart og hann gat, gekk þá að með hríð, og um dagseturs bil var hann staddur hjá einum steini, og treysti sèr ekki til að halda leingra á fram, og settist þar að; gerði hann sèr snjóhús, fór inn í það, og tók belginn og át úr honum. Að því búnu ætlaði hann að fara að sofa, en hafði eingan frið til þess, því vinnumaðurinn dauði ásókti hann svo mjög, og kom honum ekki dúr á auga alla þá nótt, og áður en lýsti af degi stè hann á fætur, og fór úr snjóhúsinu; hafði snjór mikill fallið um nóttina, en bjart var og hríðarlaust. Hèlt hann nú af stað, og gekk hratt, og ætlaði, að hann væri á rèttri leið. En þegar kom fram á miðjan dag, brast á stórhríð; viltist hann þá, og vissi ekki, hvað hann fór. Seinast um kvöldið, vissi hann ekki fyrr til en hann var kominn að sömu fjárhúsunum aptur; þóktist hann þá illa staddur, og vissi ekki, hvaða brögðum hann var beittur, en þó rèð hann það af, að bíða stúlkunar. Um dagseturs bil kom hún heim með fèð, og var þá hríðarlítið. Þegar hún kom, sá hún Jón, og var þá, eins og henni brygði við, og spyr hún hann, því hann væri kominn þángað aptur, og hvað kæmi til, að hann gæti ekki ratað. Hann sagði, að ekki mundi sjálfrátt með villu sína, að hann kæmist ekkert, nema að þessum sömu húsum aptur. Hún sagði, að það mundi einúngis vera að kenna vangæzlu hans. Láta þau nú fèð inn. Biður Jón hana nú liðsinna sèr, eða fylgja sèr heim til bæarins; en hún kvaðst aldrei mundi fylgja honum heim, en í húsunum mætti hann vera, þó kvaðst hún ekki mundi koma aptur að morgni, því hún feingi ekki að gæta fjárins leingur. Sagði hún, að nú mundi vinnumaður koma að morgni, til að standa yfir fènu, og yrði hann að verja sig fyrir honum, alt hvað hann gæti, og skilja þau síðan. Hún fer heim til bæar, en hann lagðist til svefns þar í fjárhúsinu, og svaf af um nóttina og fram til dags. Vaknar hann snemma, klæðist og geingur út; var þá hríðarlítið; fór hann upp á fjárhúsin, og skygndist um, hvort hann sæi eingan. Eptir nokkurn tíma sá hann, hvar maður kom; hann var bæði hár og digur. Þegar hann kom nær, sá Jón, að hann gekk við stóran atgeirsstaf. Hljóp Jón þá inn í húsið og lèt aptur eptir sèr, og lèt ekkert á sèr bera. Hinn kom að dyrunum, lèt opið, kallaði inn og spurði, hvort nokkur væri þar; en Jón annsar eingu. Ætlar hinn þá að gánga inn, og rak atgeirsstafinn á undan sèr. Jón sèr þetta, og ræður það af, að hann greip um stafinn og tók fast á móti; hèldust þeir leingi á um stafinn; en þó lauk svo, að Jón kipti af honum stafnum.

þegar dalbúinn misti stafinn, varð hann hræddur, og hljóp á stað frá húsunum, en Jón á eptir, þángað til hann náði dalbúanum, og var þá ekki að sökum að spyrja, að Jón lagði hann ígegn með atgeirnum, og fèll hann dauður niður. Jón tekur hinn dauða og dysjar hann undir húsveggnum. Síðan lèt hann fèð út, rak það í haga, og stóð yfir því um daginn. Var því nær hríðarlaust um daginn. Seint um kvöldið rak hann fèð heim til húsa, og lèt það inn; geingur hann síðan til rúms síns, og fer að sofa. Morguninn eptir vaknar hann snemma, klæðist skjótt og fer út, sèst þá að eins dagur, og er bjart veður. Hann geingur upp á fjárhúsið, og gætir að, hvort hann ekki sjái til manna, og sèr hann þá, hvar kemur maður, hár og digur; hann var enn stærri en hinn fyrri, og hafði staf í hendi. Jón fer eins að og áður, að hann hleypur í húsið, og lætur aptur eptir sèr. Kemur þá aðkomumaður að dyrunum, tekur opið, og kallar inn, hvort þar sè nokkur; en Jón annsar eingu. Hinn ætlar þá að gánga inn og rekur stafinn á undan sèr, en það var atgeirsstafur. Jón greip um og tók sterklega á móti, og verða þegar harðar sviptíngar; finnur hann, að þessi var miklu sterkari, en hinn, þó kom þar að, að Jón náði af honum stafnum. Dalbúinn tók þegar á rás frá fjárhúsunum, þegar hann hafði mist staf sinn; en Jón elti hann, og náði honum bráðum, leggur hann í gegn með atgeirnum, og var hann þegar dauður. Jón tekur hann og dysjar hjá hinum. Hleypir hann síðan fènu út, rekur það til beitar, og stendur yfir; var allgott veður um daginn, og nokkurn veginn bjart. Um dagseturs bil rekur hann fèð heim og lætur það inn. Neytti hann af því nesti, sem stúlkan hafði gefið honum, og fór síðan að sofa. Hann vaknar snemma um morguninn. þegar hann er klæddur, kemur hann út og skoðar til veðurs; er þá vel bjart. Geingur hann síðan upp á húsið, eins og hann var vanur, og sèr hann þá, hvar stór maður kemur, og sýnist honum hann vera láng-stærstur; hann gekk og við stóran atgeirsstaf. Jón fer inn í húsið, lætur hurðina falla aptur, og ekkert bera á sèr. Kemur þá dalbúi að húsdyrunum, lýkur upp og kallar inn, hvort nokkur sè þar; en Jón annsar eingu. Ætlar hinn þá að gánga inn, og rekur stafinn á undan sèr; en Jón gerir eins og fyrr, að hann grípur um stafinn, og tekur á móti; finnur hann þá undir eins, að þessi er lángtum sterkari, en hinir. Verður Jón nú að neyta allrar orku. þó nær Jón um síðir af honum stafnum, en dalbúinn tekur þá til fótanna, og flýr sem skjótast; en Jón hleypur á eptir honum með stafinn í hendinni, og eltir hann leingi, áður en hann nær honum. Ver dalbúinn sig karlmannlega; þó getur Jón að lokunum unnið á honum. Jón tekur hann, eins og hina, og dysjar hann hjá húsinu, eins og lagsbræður hans. Eptir það hleypir Jón fènu út, heldur því til beitar, og stendur yfir því alt til kvölds. þenna dag var veður hið bjartasta. Um dagsetur rekur hann fèð heim að húsunum, og lætur það inn, eins og hann var vanur; fer síðan að sofa. Um morguninn

vaknar hann snemma og geingur út, og er þá dimt veður, en þó hríðarlítið. Jón geingur upp á fjárhúsið, og sèr hann þá, hvar kvennmaður kemur, og veit hann, að það muni vera sú sama, sem hann hefir áður fundið; geingur hann þá að húsdyrunum og stendur úti. Stúlkan kemur og kastar á hann kveðju, en þó heldur þurlega. Jón tekur vel kveðjunni. Hún spyr hann eptir bræðrum sínum og vinnumanninum, en hann segir henni satt frá, að hann hafi drepið þá alla, því hann hefði átt hendur sínar að verja. Hún varð heldur stygg við, og kvað hann íls verðan fyrir það, að hann hefði drepið bræður hennar, en um vinnumann sagðist hún ekkert hirða. Hann segir, að það hafi hlotið að vera svo, og biður hann hana nú að nýu að fylgja sèr, en hún segir, að það muni koma fyrir sama, eins og áður. Segir hún honum samt að koma með sèr, um leið og hún reki fèð í hagann. Láta þau nú út úr húsunum, og reka fèð á beið með leingra móti. Nú yfirgefur hún fèð og fer með Jóni. Fer hún á undan, en Jón á eptir, og talast þau ekkert við á leiðinni, þángað til degi er farið að halla. Hafði hún þá fylgt honum leingra, en í fyrra skiptið; leit þá út fyrir stórhríð. Segist hún þá ekki fara leingra, hvað sem um hann verði, því hún verði að vitja fjárins aptur. Síðan segir hún honum, að ef stórhríð verði, þegar hann komi að steininum, þar sem hann var nóttina áður, skuli hann setjast þar að; síðan skilja þau, og þakkar hann henni alla hjálp við sig. Fer hún nú heim á leið, en hann áleiðis, svo hart sem honum var unt, alt þángað til hann kom að steininum. Var þá komið að nótt og stórhríð, og treysti hann sèr þess vegna ekki til að fara leingra. Bjó hann nú vel um sig í snjóhúsinu, tekur upp mat sinn og fer að borða, en þegar hann er orðinn saddur, ætlar hann að fara að sofa. Tók þá ekki betra við, því allir hinir dauðu ásóktu hann þá. Hafði hann eingan frið nè ró í snjóhúsi sínu, og undir eins um morguninn, þegar hann sá, að dagur var runninn, hafði hann sig til ferðar; var þá nokkurn veginn bjart, en snjór mikill var kominn, svo hann átti örðugt með að átta sig, og vita, hvert hann ætti að halda. Þó hèlt hann á fram þángað, sem hann ætlaði að stefna ætti í bygð. Gekk hann svo allan daginn, þángað til um kvöldið í lítilli skímu, að hann kom heim að sömu húsunum. Hann verður nú ráðalaus, og veit ekki, hvernig hann á nú að fara; þó ræður hann það af, að bíða stúlkunnar. Litlu síðar sèr hann, hvar hún kemur með fjárhópinn. Þegar hún kemur að húsunum, og sèr hann, heilsar hún honum, og spyr hann, hvort hann sè enn þá kominn þar. Hann játar því, og kveðst ekki framar muni halda heim á leið til sín, því sèr sè með einhverju móti fyrirmunað, að ná heim til sín; biður hann hana nú enn að hjálpa sèr, og fylgja sèr heim til bæar. Hún kvað þess heldur von nú, en áður, og biður hún hann, að hýsa með sèr kindurnar, og þegar þau eru búin að því, segir hún honum að koma með sèr. Gánga þau nú bæði tímakorn, og hún á undan, þángað til hann sèr reisulegan bæ. Þar geingur hún heim

með hann; hún geingur inn og leiðir hann með sèr og í hús eitt, og er þar dimt inni. Hún setur hann þar á rúm og segir, að hann verði að vera þarna, þángað til hans verði vitjað. Stúlkan geingur síðan burt, og læsir á eptir sèr húsinu. Jón situr þarna eptir aleinn í myrkrinu, og kann illa við sig, enda var hann hálfhræddur fyrir karlinum. Þegar hann hafði setið nokkra stund, heyrir hann að geingið er að húsdyrunum, og lokið upp. Sèr hann þá, hvar aldraður kvennmaður kemur; var hún bæði há og gild, en ekki ljót að sjá. Kemur hún með ljós í annari hendi, en fat í hinni fult með ket og brauð. Hún geingur þegjandi inn, setur fatið á borð, sem var í húsinu nálægt rúminu, sem Jón sat á, og segir um leið: „Þú nýtur dóttur minnar, en ekki sona.“ Gekk hún síðan burt með ljósið og læsti húsinu. Jón þorir ekki að jeta matinn, því hann hugsar, að eitthvað sè í honum, sem sèr sè meinlegt. Situr hann nú tímakorn kyr á rúminu. Heyrir hann þá, að geingið er hljótt að dyrunum, lokið upp húsinu og geingið inn, og veit hann ekki fyrri til, en þrifið er til hans, annari hendi í brjóstið, en hinni milli fóta honum, og hann keyrður í lopt upp, og færður flatur á gólfið og lagst ofan á hann; þykist Jón nú illa kominn, þar sem hann gat eingri vörn komið fyrir sig og segir: „Hver sem þú ert, þá dreptu mig undir eins, en kveldu mig ekki.“ Er honum þá svarað með dimmri rödd: „Það áttu skilið, að eg drepi þig fyrir syni mína og vinnumann; en þú nýtur dóttur minnar, að eg gef þèr líf.“ Veit Jón nú, að þetta muni vera karlinn. Karl segir þá að hann skuli standa upp og koma inn með sèr, og leiðir hann síðan með sèr inn í baðstofu. Þar logaði ljós og sá Jón um alla baðstofuna, og sá þar tvo kvennmenn, var önnur þeirra sú, sem færði honum ketfatið, en hin var stúlkan hans. Ekki sá hann þar fleira manna. Báðar konurnar tóku honum þá blíðlega, og setur karl hann nú á rúmið hjá dóttur sinni, og er þegar hinn kátasti. Karl segir við Jón, að hann yrði að vera hjá sèr í vetur og standa yfir fènu, í staðinn fyrir menn þá, sem hann hefði drepið. Sagði hann, að hann gæti ekki mælzt eptir minna í sonabætur. Segir hann að dóttir sín skuli þjóna honum og annast nauðsynjar hans að öllu leyti, en matur sè honum heimill frá sèr. Jón tekur þessu vel og þykir vænlega áhorfast, eptir því sem komið var, og þakkar karli fyrir. Þarna sat hann nú um veturinn í sóma og eptirlæti, og var mesti blíðleiki milli hans og karlsdóttur. Leið nú veturinn alt að sumarmálum, og stóð Jón yfir fènu á hverjum degi, og líkaði karli vel við hann, og þókti hann vera nýtur dreingur. Þegar sumarið kom, og snjó leysti og vegir bötnuðu, fýsti Jón að halda heimleiðis. Þegar karl verður þess var, að í Jón væri komin heimfýsi, segir hann einu sinni við hann, að hann hafi nú þjónað sèr í vetur með trú og dygð; síðan kallar hann hann með sèr fram í eitt hús í bænum. Þar geingur karl inn og Jón með honum. Tekur karl þar kistil upp úr kistu; lýkur upp kistlinum, og er hann fullur með

penínga; síðan segir hann við Jón: „Kistil þenna vil eg gefa þèr fyrir vinnu þína í vetur, og ætla eg nú að segja þèr, að þegar þú viltist í vetur, þá var það mèr að kenna, því eg vissi, hvert afbragð þú varst úngra manna í sveitinni, og því vildi eg ná þèr híngað, og ætlaði að gefa þèr dóttur mína, því eg unni henni mest barna minna, og til þess að hún þyrfti ekki að eiga vinnumanninn, og vann það til, að láta þig drepa hann og báða syni mína.“ Jón tók vel á öllu og kvaðst vilja eiga stúlkuna, og þakkaði karli fyrir peníngana, en þó sèr í lagi fyrir það, að hann vildi gefa honum dóttur sína. „Nú skaltu,“ segir karl, „fara heim til foreldra þinna og vera þar í sumar, og láta ekkert bera á, hvar þú hefir verið í vetur, en í seinasta sinni munum við nú sjást lifandi; því eg á skamt eptir ólifað, en eg dey rólegur, þar eð eg veit, að dóttir mín fær góða giptíngu, en það vona eg, að þú vitjir stúlkunnar híngað að hausti, og hafðu þá líkkistu með þèr, og mun eg þá verða látinn; en þess bið eg þig, að þú flytjir mig til mannabygða og látir grafa mig í kristinna manna reit.“ Nú býr Jón sig til heimferðar, kvaddi karl með kærleikum, og konu hans og dóttur. Segir ekki af ferðum hans, fyr, en hann kom heim til foreldra sinna; fögnuðu þau honum vel, og þóktust hafa heimt hann úr helju. Ekki gat hann þess, hvar hann hafði verið um veturinn, en vinnumann sagði hann hafa látizt af sèr, en sjálfum sèr hefði liðið vel. Fènaður hafði einginn farizt um veturinn. Hann var heima um sumarið. En um haustið lèt hann smíða líkkistu, útvegaði sèr 6 hesta með reiðíng, og tvo með söðlum; hèlt hann síðan í dalinn. En þegar hann kom þángað, var karlinn dauður fyrir fáum dögum. Mæðgurnar tóku honum vel og förunautum hans. Bjó nú Jón svo vel, sem hann gat, um líkið, og tók sig upp með mæðgunum og öllu, sem nýtilegt var í kotinu, og flutti heim til foreldra sinna. Lèt hann síðan jarða karlinn og fórst honum vel við útför hans. Síðan gekk hann að eiga stúlkuna, reisti bú á Fjöllum og varð bezti bóndi.

**Grímur biskupsfóstri.** (Frá Skúla presti Gíslasyni, eptir sögn að norðan.) Einhvern tíma var harðæri mikið fyrir norðan land. Tókst þá umferð svo mikil af snauðum mönnum, að til vandræða horfði. Helztu menn gjörðu það því til lögvenju á þíngi nokkru, að hver bóndi, sem gæti, skyldi veita snauðum mönnum húsaskjól og gefa þeim mat næturlángt, en svo skyldu þeir brott fara, og ekkert fá með sèr. Í þessu harðæri kom fjöldi manna að Hólum í Hjaltadal og var þar fylgt sömu reglu, sem annarstaðar. Eitt kvöld kom þar piltur einn, sem Grímur hèt og fèkk gistíngu. Daginn eptir hugði hann ekki á brottferð. Gekk hann þá á fund biskups og sagði honum, að síðan hann hefði komizt á að vera eina nótt, lángaði sig enn meira til að vera aðra. Lauk svo tali þeirra, að biskup lèt eptir honum að vera enn þá nótt. En daginn eptir bjóst Grímur ekki

til brottferðar að heldur, og gekk enn til biskups og skoraði á hann með hina þriðju nótt. Biskup vitnaði þá til samníngs þess, er hinir helztu menn hefðu gjört með sèr, en Grímur kvað þann samníng þegar rofinn, fyrst hann hefði verið þar 2 nætur. Biskup nenti þá ekki að reka Grím burt með hörðu. Varð það úr, að hann ílentist á Hólum og ólst þar upp. Gjörðist hann smiður mikill, og varð staðarsmiður. Mjög þókti hann harður og óþýður og einrænn í skapi, og vildu allir eiga sem fæst við hann. Liðu nú nokkur ár, svo Grímur var orðinn fulltíða; var hann hraustur að afli. Einn jóladag fèkk biskupinn á Hólum brèf frá biskupinum í Skálholti; voru áríðandi leyndarmál í því, en þó hafði það legið leingur, en til var ætlazt, því biskup kvað sèr alt við liggja, að vera búinn að koma svari í Skálholt fyrir nýárið. Leitaði hann á ýmsa að bera brèf þángað suður, en einginn treystist um það leyti að fara skemsta veg yfir fjöll og vera kominn svo snemma í Skálholt. Að síðustu skoraði biskup á Grím, og kvaðst því heldur ætla upp á liðsinni hans, sem hann hafði fyrr sýnt honum liðsinni. Grímur kvað biskup ekki heldur þurfa að telja mat eptir sèr, en sig vinnu eptir biskupi; „en fyrst þèr er þetta svo mikið kappsmál, þá hafðu brèf þín tilbúin annað kvöld, en leðurskó mína og nesti í kvöld.“ Biskup gjörði nú svo. Grímur sló þunt járn neðan á skóna, og hafði smágadda neðaní; líka hafði hann skauta og skíði til ferðarinnar. Hvarf Grímur af staðnum þegar um nóttina, er hann hafði tekið við brèfinu um kvöldið. Fór hann, sem leiðir lágu skemst, neytti skautanna á ísum en skíðanna á fönnum, og sóktist leiðin honum furðanlega fljótt. Kom hann á vatn eitt mikið, er sumir ætla að hafi verið Hvítárvatn og fór eptir því á skautum. Þegar hann var nærri kominn yfir vatnið, sá hann mann vera að veiða á dorg á ísnum, en þegar hann sá Grím, hljóp hann í veg fyrir hann. Grímur staðnæmdist þar, sem ísinn var glærastur og hálastur, og beið þar komumanns, og leysti af sèr skautana. Rèðst maðurinn á Grím, án þess nokkuð yrði af kveðjum. Sókti hann fast að honum, en varð óhægra að standa á ísnum, en Grími járnuðum. Feldi Grímur útilegumanninn að lyktum, brá skálm undan stakki sínum, er hann hafði smíðað til ferðarinnar og drap hann. Síðan hèlt hann á fram og fór þá að styttast suður af. Lètti hann ekki, fyrr en hann kom í Skálholt og var það degi fyrir gamlaársdag. Grímur gjörði orð fyrir biskup, að hann vildi finna hann, en fèkk þau orð aptur, að biskup sæti yfir borðum, og að hann væri beðinn að bíða á meðan. Grímur gjörði honum þau orð aptur, að hann vildi ekki bíða, því sín væri ekki meiri þágan, en hans. Biskup var óvanur þessum svörum, stígur þó undan borðum, strýkur skeggið og finnur Grím. Skilaði hann brèfinu, og kvaðst vilja fá svar degi síðar. Seinna um daginn lèt biskup kalla Grím fyrir sig og mælti: „Eg sè það af dagsetníngu brèfanna, að þú ert maður fljótur í ferðum, og sýnist mèr þú mega hvílast hèr fram yfir nýár.“

því tók Grímur fjarri. Biskup kvað hann þá ráða skyldi. Morguninn eptir afhenti biskup sjálfur Grími brèf, og spurði, hvort hann ætlaði sömu leið norður aptur; hann játti því. „Þá verður þú drepinn,“ segir biskup. „Eg á það þá á hættu,“ segir Grímur. Biskup mælti: „Þigðu þá hund þenna.“ „Það vil eg gjarna,“ segir Grímur. Skipaði þá biskup mórauðum rakka einum miklum, er fylgði honum, að fylgja Grími. Hundurinn nam staðar og starði á biskup, en hann ítrekaði skipun sína harðar, en fyrr. Stundi rakkinn þá við, og lagði sig að fótum Gríms. Grímur þakkaði biskupi greiðann, og hèlt af stað. En þegar hann kom að vatninu aptur, sá hann hvar 3 menn komu hlaupandi; fór einn lángharðast og einn seinast. Grímur náði þó vatninu og hljóp eptir því um stund, til að toga þá enn meira hvern frá öðrum. Þó sá hann, að hann mundi ekki draga undan, og staðnæmdist hann á ísnum, þar sem hann var hálastur. Var þá hinn fyrsti kominn og mælti: „Þú hefir drepið bróður minn, og skal nú hefna þess.“ Grímur kvað það hæfilegt. Það fann Grímur, að ekki hafði hann afl við þessum manni, en hundurinn hljóp líka á hann og reif hann á hol. Hinn bróðirinn kom þá að, og fóru leikar eins með hann og hinum fyrri. Seinast kom gamall maður, er var faðir þeirra bræðra. Hann bauð Grími sættaboð, og kvað hann skyldi koma með sèr og eiga dóttur sína. Grímur kvað honum sæmra, að fylgja sonum sínum, kvað hann mundi sitja á svikráðum við sig, og vilja sæta færi. Þessi orð stóðst karl ekki, og rèðst á Grím; hafði hann sig lausan við og varðist Grími með annari hendi, en hundinum með hinni, og þóktist Grímur í fyrstu hafa ærið að vinna að verjast. En þar kom, að karl mæddist, og gat Grímur loks unnið á honum með styrk hundsins. Síðan fór Grímur norður að Hólum, var hann þar svo harður í skapi um veturinn, að fáum þókti viðvært. Um vorið eptir sumarmál urðu menn þess varir, að biskup og Grímur sátu leingi á eintali; vissu og fáir, hvað Grímur smíðaði um veturinn, nema hvað öxi nýsmíðuð sást hjá honum, mikil og biturleg. En eptir fardaga fór hann að heiman frá Hólum, ríðandi með hest í taumi, og reiddi kistur á honum; vissu menn ekki, hvert hann ætlaði, en aldrei hefir hann sèzt síðan. Á elliárum sagði Hólabiskup vinum sínum, hvernig staðið hefði á hvarfi Gríms, og að sèr hefði þókt það bezt, úr því sem komið var, að láta hann sjálfráðan og sleppa honum. Nokkrum árum eptir þetta og hvarf Gríms, var það eitt haust, að biskupinn í Skálholti lá í sæng sinni milli svefns og vöku. Þókti honum þá maður koma á herbergisgluggann og segja: „Gaktu í dag til sauðahúsanna þinna; þar er lítilfjörlegt þakklæti fyrir hundinn þinn.“ Biskup var að velta því fyrir sèr, hvort þetta hefði verið í vöku, en stundum lá við, hann hlægi að grun sínum, og hèldi þetta hefðu verið draumaórar. Þó gat hann ekki stilt sig um að gánga til fjárhúsanna eptir hádegið. Fann hann þar þá stórt hundrað sauði, er voru blóðmarkaðir marki biskups, og allir gamlir.

Sauði þessa lèt biskup skera, og er mælt, að hálfur þriðju fjórðúngur hafi verið í hverjum sauð og síðan þverhandar þykk.

**Sveinn flóafífl.** (Eptir Jón Bjarnason í Breiðuvík í Múlasýslu.) Undir Tvídægruheiði bjó ókvæntur maður, er Sveinn hèt; hann var heimskur, en mesta karlmenni; var hann kallaður Sveinn flóafífl. Foreldrar hans voru hjá honum, og einn vinnumaður. Sveinn hafði þá sýslu, að fylgja skólasveinum yfir heiðina á haustin, þegar þeir fóru í skóla. Einu sinni sagðist Sveinn ekki fylgja þeim, ef þeir kæmu ekki fyrir veturnætur, en þeir klöguðu það, svo að það var ályktað, að Sveinn væri eins skyldugur að fylgja þeim eptir veturnætur, eins og fyrir, þegar hann feingi fulla borgun fyrir, svo að Sveinn fylgdi þeim orðalaust eptir það. Eitt haust komu allir sveinarnir nema einn. Fylgði Sveinn þeim tafarlaust; en um veturnæturnar kom hinn, sem eptir var og beiddist fylgdar af Sveini. Veður var tvísýnt. Sveinn sagði við skólapiltinn, að hann mætti eiga það upp á sjálfan sig, ef hann gæti ekki fylgt sèr eptir, ef geingi í veður. Hinn sagðist ekki skyldi honum um kenna, þó hann gæfist upp að gánga. Bjó Sveinn sig þá til að fylgja piltinum, og hèldu þeir síðan af stað. En er þeir voru ekki lángt komnir á leiðina, fór að dimma með snjókomu, síðan gjörði glórulaust dimmviðri, svo þeir viltust; en um kvöldið grófu þeir sig í fönn, og voru í henni um nóttina. Morguninn eptir fóru þeir að gánga, og vissu ekki, hvert halda skyldi. Geingu þeir svo leingi um daginn, þar til pilturinn gafst upp að gánga; gróf Sveinn hann þá í fönn, og vildi nú vita, ef hann kynni að finna bygðir; yfirgefur hann nú piltinn og geingur leingi, þar til hann finnur, að hann er farinn að gánga ofan hlíðar. Þá fer að birta, og sèr hann þá, að hann er kominn í ókendan dal. Á rann eptir miðjum dalnum, og sinn bær stóð hvoru megin árinnar. Annar bærinn var stór og reisulegur, en hinn lítill. Sveinn hugsar með sèr, að ekki muni það vera verra fyrir sig, að fara heim að hinum minni bænum, og geingur hann heim að húsunum, og ber að dyrum, því ekki sá hann neinn úti. Stúlka kom til dyra. Sveinn heilsar henni og spyr, hvort hann muni fá að vera þar um nóttina, en hún kvaðst ekki vita það. Hann spyr, hvað því valdi, að hún skuli ekki vita það. Hún sagði, að það bæri til þess, að hún væri þar eingu ráðandi. Hann biður hana að útvega sèr að drekka. Fer hún þá inn, og hann leynilega á eptir. En þegar stúlkan kemur inn, heyrir hann, að hún er spurð, hvort nokkur sè kominn, en hún segir, að úti sè maður, og hafi hann beiðzt gistíngar. Þá segir einn, að hann skuli fá að vera, því hann skuli ekki lifa, nema þángað til hann komi út til hans. Fór Sveinn þá út, og samstundis kom út roskinn maður og flýgur á Svein, en Sveinn setur broddinn á stafnum upp undir hökuna á manninum, svo þegar gekk upp í höfuð; fèll hann þá dauður niður. Í því kom únglíngsmaður og flaug á Svein, en Sveinn

kom eingri vörn fyrir sig. Fleygir hann þá stafnum og tekst á við piltinn. Berast þeir þá víða, áður en pilturinn fèll. Ætlar þá Sveinn að bíta hann á barkann, en hann biður Svein að gefa sèr líf. Sveinn sagði, að ekki hefði átt að gefa sèr líf, svo mundi hann ekki gefa honum líf. Lèt Sveinn þó piltinn standa upp með því skilyrði, að þau skyldu ekkert gjöra honum ílt. Leiddi pilturinn Svein þá til baðstofu; þar sá hann karl í öðrum enda baðstofunnar. Pilturinn vísar Sveini til sætis. Sveinn geingur til karls og heilsar honum; en karl tekur því mikið stutt. Sezt Sveinn þá niður, en stúlkan færir honum mat; en þegar hann er mettur orðinn, fer hann að taka upp í sig, því hann var tóbaksmaður, og hafði búið sig vel út með það. Sèr hann þá, að karl er mjög vonarlegur. En þegar Sveinn lèt tóbakið aptur niður, verður karl illilegur. Kemur þá stúlkan til hans og biður hann að gefa sèr eina tóbakstölu handa föður sínum, því hann sè orðin tóbakslaus. Sveinn gaf henni kvartil af tóbaki. Þá spyr pilturinn, hvort hann vilji ekki koma út, áður en hann fari að sofa. Fara þeir þá ofan og út. Pilturinn spyr, hvort hann viti, hvaða maður það hafi verið, sem hann hafi drepið. „Nei,“ segir Sveinn, „líka stendur mèr það á sama, þó það hefði verið bróðir þinn, því hann ætlaði að drepa mig, en eg varði hendur mínar.“ Pilturinn segir, að það hafi verið vinnumaður föður síns, faðir sinn sè maðurinn, sem hann hafi sèð inni og þau tvö systkin, sem hann hafi sèð þar; fleira sè þar ekki af fólki. Fara þeir þá inn aptur, og geingur Sveinn til karls, til að þakka honum fyrir matinn. Rèttir hann höndina að karli. Karl tekur í hönd Sveins og kreistir svo fast, að öll höndin dofnaði. Sveinn ætlar þá að draga að sèr höndina, en hún er föst. Hnekkir hann þá fast, svo karl mátti sleppa. Þá segir karl: „Einhvern tíma hefðu verið þeir dagar mínir, að þú skyldir ekki hafa dregið úr höndum mèr.“ Sveinn segir, að hann megi nú gjalda ellinnar; gánga menn þá til svefns. Morguninn eptir var dimt veður, og biður Sveinn karl að lofa sèr að vera þar, á meðan ekki birti upp veðrið. Karl sagði, að svo skyldi vera, og kvaðst mundi skipa honum verk; hann skyldi fara yfir á bæinn. Þar byggju þrír bræður. Þeir hefðu leingi verið sèr til baráttu; þeir hefðu 4 vinnumenn. Karl segir, að hann skuli drepa þá alla. Sveinn kvaðst ekki geta það, einn ámóti sjö. Karl segist skuli ljá honum son sinn, til að fara með honum, fær honum síðan buddu og segir, að hann skuli dufta úr henni framan í þá, þegar þeir komi út. Sveinn dregur að fara yfir á bæinn, þar til komið var húm. Fara þeir þá yfir á bæinn; einginn var úti. Sveinn sèr þar stóra heyhlöðu og segir hann við piltinn, að hann skuli nú fela sig, þángað til hann kalli til hans, og gjörir dreingurinn svo; en Sveinn leggur eld í hlöðuna, og geingur síðan ofan að bæardyrum, og klappar uppá. Kemur einn þegar til dyra. Sveinn heilsar honum og beiðist gistíngar. Hinn segir, að það skuli í tè. Sveinn segir við mann-

inn, að það muni kominn eldur í hús þar á bænum. Hann svipar sèr upp á bæinn og sèr, að hlaðan er í ljósum loga. Snýr hann þá að Sveini, enn Sveinn höggur til hans með öxi, er karl fèkk honum. Það högg kom á háls manninum, svo af tók höfuðið. Í því komu hinir 6 og sækja að honum, en hann hafði ekki tóm til að dufta úr buddunni framan í þá, og fer hann því að kalla á dreinginn, þar til loks hann kemur. Er Sveinn þá búinn að fella 3 af 6, og er ekki að orðleingja það, að hinir 3 fèllu, því þeir voru verjulitlir. Sveinn spyr piltinn, hvort þar væri ekki fleira fólk; dreingurinn segir ekki, svo hann viti. Sveinn kvaðst vilja kanna bæinn. Fara þeir þá inn og finna 7 kvennmenn, og er svo sagt, að þær hafi orðið þeim torsóktari en þeir. Þó varð það um síðir, að þeir yfirunnu þær og bundu og lètu þær sverja sèr trúnað, því Sveinn vildi ekki drepa þær. Að því búnu fara þeir heim til karls og segja honum tíðindin, og þakkar karl Sveini fyrir starfann. Ekki er getið um, að þeir hafi rænt stúlkurnar neinu. Morguninn eptir var bjart veður og gott, og vill Sveinn fara að leita heim til sín. Karl segist skuli láta son sinn til fylgdar. En þess kvaðst karl ætla að biðja hann, að koma aptur í dalinn og taka að sèr dóttur sína og við búi, og lofar Sveinn því. Skiljast þau svo með vináttu, og er ei sagt af ferðum þeirra, fyrr en þeir koma á miðja heiðina. Þar skilst pilturinn við hann, og snýr heim aptur. En Sveinn kemur heim til foreldra sinna, og verða þeir honum fegnir, og spyrja hann á marga vegu, hvar hann hefði verið í veðrunum, en hann sagðist hafa legið úti. Litlu eptir þetta tekur hann vinnumann sinn á eintal, og segir við hann, að hann ætli að gefa honum búið, en það verði hann að gjöra fyrir sig, að taka að sèr foreldra sína og annast þau til dauða. Segir hann honum þá upp alla sögu, hvar hann hefði verið, og að hann ætli aptur í dalinn, og biður hann að vera sèr trúan, og segja þetta eingum manni, fyrri en hann sè orðinn gamall. Það bað Sveinn vinnumann sinn um, að fara fyrir sig í kaupstað, og flytja upp á heiðina á tilgreindan stað. Þessu lofaði vinnumaðurinn öllu staðfastlega. Eptir þetta hvarf Sveinn, svo einginn vissi, hvort hann fór, nema vinnumaðurinn, og vildu foreldrar hans láta leita hans, og gjörði vinnumaður það til málamyndar; en Sveinn fannst hvergi. Vinnumaður segir við foreldra Sveins, að hann hefði gefið sèr alt eptir sig, og trúðu þeir því. Því hann var vandaður maður, og Sveini hafði verið vel við hann. Alt, sem Sveinn bað vinnumanninn, efndi hann rækilega. En þegar hann var orðinn fjörgamall, sagði hann frá þessari sögu, en einginn vissi, hvar dalurinn var, og lýkur hèr svo sögunni af Sveini flóafífli.

**Sauðamaðurinn á Grímsstöðum.** (Eptir handriti sèra Jóns Kristjánssonar á Yztafelli.) Á Grímsstöðum hinum eystri bjó ríkur bóndi, sem átti fjölda sauða. Hèlt hann sauðamann, sem gætti alls fjárins um vetur. Einu sinni

eitt haust var það, þegar sauðamaður var geinginn til beitarhúsa, og hafði rekið fènað til beitar í haga, að kafald mikið kom, og kom ekki sauðamaður heim um kvöldið. Daginn eptir var hríð dimm og svo hinn þriðja daginn. Fjórða daginn birti upp; var þá hafin leit eptir sauðamanni og fènaði bónda. Gekk svo í hálfan mánuð og fannst ekki, og var leitinni hætt við svo búið. Á þorláksdags kvöld um veturinn, þegar myrkt var orðið, kom sauðamaður heim, og var eins og hann hefði ekkert hent, en þó fálátur. Ekki vildi hann segja neinum, hvar hann hefði dvalið um veturinn þángað til, en fènað bónda kvað hann allan vera vísan og hafast vel við. Var sauðamaður heima um jólin, en á þriðjadags kvöld hvarf hann , og vissi einginn hvort hann fór. Leið svo veturinn og vorið til fardaga, að ekki kom sauðamaður og ekki spurðist til hans. Þá var það einn dag, að hann rak alt fè bónda heim að túni, sauði gemlínga og ær, allar með lömbum. Hafði fènaður bónda aldrei verið eins vel til fara. Um sumarið var sauðamaður heima og gekk að vinnu, eins og vant var. Þegar á haustið leið tók hann við öllum fènaði bónda, sem á vetur átti að setja, og fór þá sem hið fyrra haustið, áður lángt leið, að hann hvarf og allir sauðirnir, en eingin leit var gerð að honum. Kom hann á Þorláksmessu kvöld, eins og hinn fyrri vetur og var heima um jólin, en ekkert vildi hann segja af högum sínum. Ætlaði nú bóndi að gæta að ferðum hans og var honum mjög fylgisamur; gekk svo þángað til á fjórða dag í jólum, en þegar myrkt var orðið hvarf sauðamaður, og vissi bóndi ekki, heldur en fyrr, hvað af honum var orðið. Leið nú þessi vetur og fram á vor. Um fardaga kom sauðamaður aptur, eins og í fyrra skiptið, og rak heim alt fè bónda; var það þriflegt vel og lamb undir hverri á. Gekk hann til vinnu um sumarið eins og að undan förnu. Um haustið seint fór alt eins og hin fyrri haustin, að sauðamaður hvarf og allir sauðir bónda. Á Þorláksdag eptir dagsetur kom sauðamaður enn heim, og var heima um jólin, eins og áður. Bóndinn, sem fyrir hvern mun vildi vita, hvar sauðamaður dveldi í fjærveru sinni, fylgdi honum svo nákvæmlega um jólin, að sauðamaður gat ekki leynzt á burt, og gekk svo um hríð. Annan viðbúnað hafði bóndi líka. Hann átti gæðíng, sem hann ól á heyi þenna vetur og hafði á járnum. Það var á þrettándadagskvöld, að sauðamaður tók á rás frá heimilinu, og vissi bóndi, í hverja átt hann fór. Þá var bóndi ekki seinn á sèr, greip beizli og söðul og fór til hesthúss síns. Þegar hann hafði lagt á hest sinn, hleypti hann eptir sauðamanni, uns hann sá, hvar hann fór. Fóru þeir þannig þá nótt alla og daginn eptir og svo næstu nótt, og dró hvorki sundur nè saman. En að morgni annars dags voru þeir komnir undir fjall nokkurt all hátt. Þar nam sauðamaður staðar og beið bónda, og bað hann nú að hverfa heim aptur og hætta ekki lífi sínu, en bóndi kvað þess eingan kost. Sauðamaður segir honum þá, að handan við fjall það, sem þeir voru komnir undir, sè dalur einn fagur og víð-

lendur; sèu hlíðar allar grasi vaxnar, og festi aldrei snjó leingra niður, en til miðs, en niðri í dalnum sèu slèttir vellir og allmikil bygð, og gángi sauðir hans í þessum dal gjafarlausir allan vetur, en líf hans liggi við, ef dalbúar sjái hann. Lèt hann það og eptir bónda, að hann fylgdi sèr uppá fjallseggina og liti augum dalinn fagra; kvað hann stein einn standa efst á fjallsriðinu, en það var mjótt, og gæti hann dulizt undir honum, og sèð þaðan inn allan dalinn, en hestinn skyldi hann láta eptir þar við fjallið. Þegar þeir komu á fjallið, sáu þeir fjölda fènaðar alstaðar um dalinn, og á völlunum voru margir menn saman komnir og glímdu. Bóndi fór undir stein þann, sem sauðamaður vísaði honum til, og litaðist um það-an, en sauðamaður fór leiðar sinnar ofan í dalinn, og þegar hann kom til fèlaga sinna, tók hann til glímu með þeim. Þókti bónda mikil unun að horfa á þetta, og gætti hann sín ekki, og gekk aptur og fram þarna á fjallinu um hríð og horfði á. Þegar minnst varði, hljóp einn þeirra, sem voru að glíma, rakleiðis á stað, og stefndi þángað, sem bóndi var, og jafn snemma tók bóndi á rás niður til hests síns. Reið hann þá ákaflega heimleiðis, því hann vissi þegar að sèr var gerð eptirför. Gekk þetta alla leið til Grímsstaða, og dró heldur saman. Undir bæ á Grímsstöðum er gil eitt og er í bratt upp að fara og heim. En þegar bóndi reið uppá gilbarminn, kom sá, sem elti hann, á gilbarminn hinu megin; greip hann þá upp snjó, hnoðaði og kastaði eptir bónda. Kom kökkurinn milli herða honum, og varð hann laus við hestinn. Útilegumaðurinn mælti: „Hafðu þetta fyrir forvitnina,“ og sneri síðan við. Bóndi náði bæ sínum, lagðist í rúmið, sagði frá, hvað fyrir sig hefði borið og dó eptir þrjár nætur. Næsta vor kom sauðamaðurinn með alt fè bónda og afhenti ekkjunni, en hvarf síðan og spurðist aldrei til hans framar.

**Hellismannasaga.** (Tekin eptir almennri sögn í Borgarfirði, með leiðrèttíngum Þórðar bónda Árnasonar á Bjarnastöðum í Hvítársíðu.) Það er sögn manna, að á fyrri tímum hafi 18 skólapiltar frá Hólum lagzt út. Segja sumir, að sú hafi verið orsökin, að þeir hafi drepið kerlíngu eina á staðnum. Þeir gjörðu þá fèlag með sèr, og hètu hver öðrum tryggri fylgd, og tóku sèr bólfestu í Surtshelli hjá Kalmannstúngu. Tvo kvennmenn höfðu þeir hjá sèr. Þeir voru frá Kalmannstúngu. Stúlkur þessar hurfu um kvöld, þegar þær lètust ætla út til að taka inn þvott. Var þeirra fyrst leingi og mikið leitað, en þegar aðgætt var um eigur þeirra, vantaði margt það, sem þær máttu sízt án vera, svo sem fatnað, nálar, skæri, hnífa, og þar fram eptir. Þóktust menn þá vita, hvað um stúlkur þessar hefði orðið, og var þá hætt að leita þeirra. Sagt er, að Hellismenn hafi átt börn með stúlkum sínum, en þeim hafi þeir drekt, jafnóðum og þau fæddust, í tjörn þeirri, sem er í hellinum. Þeir rændu sauðfè manna um heiðarnar í kríng um hellinn, og ráku það heim til sín á haustin, svo hundruðum skipti. Ráku þeir það fram að gati

því hinu mikla, sem er á hellisþakinu, skamt fyrir innan dyrnar, og hrundu því þar fram af, svo þeir þyrftu ekki að vera að skera það; því það þókti þeim of mikil fyrirhöfn og umstáng. En stúlkurnar tóku á móti fènu rotuðu, þegar það kom niður, og hirtu það og matreiddu. Af þessum aðförum Hellismanna urðu slæmar heimtur hjá bændum, og báru þeir sig illa yfir því, en gátu ekki að gjört; því einginn vildi hætta sèr í hendur Hellisbúa. Ekki ræntu þeir bæi, nè drápu menn, en jafnan voru þeir með vopnum, og margir saman. Ekki fóru þeir dult, og það var siður þeirra, að sækja kirkju að Kalmannstúngu. Stóðu þeir þá í röð á miðju gólfi, og sneru bökum saman. Vopn höfðu þeir á hlíð, svo ekki var aðgeingilegt fyrir bændur, að sækja þá þar, þó þeir hefðu viljað. Þó gátu Hellismenn að lyktum ekki varazt svik sveitabúa.

Hvítsíðíngar urðu fyrir hvað mestum skaða af sauðaránum Hellismanna. Þeir tóku því saman ráð sín um það, hvernig þessum óaldarflokki yrði stökt úr nágrenninu, eða bani ráðinn. Gekkst þá bóndasonurinn í Kalmannstúngu undir það, að svíkja Hellismenn, en áskildi sèr, að bændur lètu sig einan ráða aðferðinni, og veittu sèr trausta fylgd, hve nær, sem hann vildi. Var nú þetta að ráði gjört, og er þess ekki getið, að bóndasonurinn hafi áskilið sèr laun af bændum fyrir starfa sinn.

Eptir þetta fór nú bóndasonurinn á fund Hellismanna, beiddi þá ásjár, og kvaðst vilja gánga í fèlag með þeim. Hellismenn voru ófúsir á, að taka við honum, og sögðu, að þar mundu svik búa undir. Hann neitaði því, og vann þeim fúslega hina dýrustu trúnaðareiða. Tóku þeir þá við honum; því þeim leizt röskloga á manninn, og þókti ódreingilegt, að reka þann frá sèr, sem flýði á náðir þeirra, og þeir ættu alls kostar við. Nú var þá bóndason kominn í fèlag Hellismanna, og vann það, sem þeir vildu. Samt höfðu þeir jafnan gæzlu á honum. Leið svo hið fyrsta ár, að hann sá sèr ekkert færi á, að komast burtu frá þeim, eða vinna þá. Kunni hann þá illa við sig niðri í, þó hann lèti Hellismenn ekki verða þess vara.

Þegar haustið kom, og vika var til gángna, fóru Hellismenn að vana sínum að leita sauða. Allir fóru þeir í för þessa, nema einn var eptir í hellinum hjá konunum. Þeir tóku og bóndason með sèr. Geingu þeir vítt, sem vegir liggja um heiðarnar, og komu með ógrynni fjár aptur. Ráku þeir fèð heim í Vopnalág, og bjuggust þar um nóttina, áður en þeir rækju fèð heim að hellinum til slátrunar. Lögðust þeir allir í röð á lágarbarminn, og stúngu vopnum sínum niður í kríng um sig. Er mælt, að lágin dragi nafnið af þessum sið Hellismanna. Morguninn eptir risu þeir upp, ráku saman fèð, og fóru með það heim að hellinum. Hrundu þeir því ofan af gatbrúninni, og gekk það fljótt. Bóndason gekk og að þessu starfi með þeim, og mátti hann hafa það svo búið, hvort sem honum líkaði það betur eða ver. Eptir þetta settust Hellismenn um kyrt, og lifðu, eins og þeim líkaði bezt, um veturinn. Nú fór bóndasyni að gjörast órótt í

huga, að hann gat hvorki komizt í burtu, eða sèð ráð til að vinna Hellismenn. Leið svo veturinn og sumarið fram að hausti. Gjörði þá bóndason sèr upp veiki, og lèzt ekki geta farið í sauðaleitina með þeim, og kaus sèr að vera heldur heima, og gæta kvennanna. Ekki þókti Hellisbúum þetta tryggilegt, en lètu þó loksins til leiðast. Átti þá bóndason að geyma hellisins með konunum. En til þess að vera vissir um, að hann stryki ekki, á meðan þeir væru að heiman, skáru Hellisbúar að mestu í sundur á honum hásinarnar á báðum fótum, og lètu hann enn vinna sèr eiða að því, að hann skyldi ekki svíkja þá. Að því búnu fóru Hellismenn burtu í sauðaleitina, en bóndason lá eptir í sárum. Gættu konurnar hans, og græddu sár hans.

Nú þókti bóndasyni vænlegast, að reyna að vinna á Hellismönnum, þegar þeir kæmu úr leitinni aptur. Hann skreið því einhverja nótt burtu úr hellinum, og vildi þá svo vel til, að hann fann hest skamt þaðan á eyrunum við fljótið. Hann tók hann, og reið nú til bygða. Lèt hann þá boð gánga um sveitirnar, og stefndi að sèr öllum vopnfærum mönnum. Varð það skjótt margmenni, sem hann fèkk, og allir sæmilega vel búnir að vopnum, eptir því, sem auðið var. Sagði þá bóndason þeim ráð sitt, og skoraði á þá, að fylgja sèr ódeiglega. Þeir riðu því næst á stað, kvöldið sem bóndason vissi að Hellismenn voru vanir að koma í Vopnalág. Hafði hann margfalt meira lið, en Hellisbúar. Þeir riðu að öðrum enda lágarinnar; þar stigu þeir af hestum sínum, og skyldu nokkrir af flokknum gæta þeirra, svo Hellisbúar gætu ekki náð þeim, og komizt undan á þann hátt. Gjörir nú bóndason þá skipun á, sem honum þókti bezt. Sagði hann, að nú skyldu þeir gánga hljóðlega eptir láginni, og taka vopn öll frá Hellismönnum sofandi. Síðan skyldi sá maður, sem hann til tók, gánga að þeim Hellisbúa, sem lægi í miðjum hópnum, og hefði yfir sèr valnastakk, og höggva af honum höfuðið. „Ríður oss mikið á því,“ segir hann, „því sá maður verður oss skæður, ef hann nær að komast á fæturna. Hann er lánghraustastur allra Hellismanna, og hafa þeir mikið traust á honum. Hann hefir búið sèr til stakk úr sauðarvölum, sem eingin járn bíta.“ Þegar hann hafði þetta mælt, geingu þeir allir samt eptir láginni, og sjá nú, hvar Hellismenn liggja og sofa. Fara þá bændur að þeim hljóðlega, og taka vopn þeirra öll. Síðan vegur sá, sem til var nefndur, að manninum í valnastakknum, en náði ekki til, svo höggið kom á annan mann, sem næstur honum lá, og tók af honum höfuðið. Vöknuðu þá Hellisbúar við illan draum, og stukku á fætur. Þá segir einn þeirra: „Varaðu þig, Valnastakkur, fallinn er hann Fjögramaki!“ Varð nú aðgángur allharður. En af því Hellisbúa vantaði vopn sín, gátu þeir ekki staðizt mannfjöldann. Fèllu þeir hver um annan þveran. Þó gátu bændur ekki drepið nema fáa af þeim þar í láginni, og hlupu þeir víðsvegar, en hinir eltu þá, og drápu þá, hvar sem þeir náðu þeim. Þorvaldur var drepinn á Þorvaldshálsi;

Geiraldur við Geiraldargnípu norður á Arnarvatnsheiði. [Atli var drepinn við Atlalæk; Ásgeir við Ásgeirsbrunn.[1] Þiðrik var drepinn við Þiðrikstjörn, Þórir við Þórishól, og Böðvar við Böðvarshaug á Tvídægru. Vilmundur var drepinn hjá Vilmundarsteini fyrir utan Húsafell; Gunnlaugur á Gunnlaugshöfða við Hvítá. Sveinn fèll á Sveinsstíg, en Þormóður við Þormóðslæk fyrir ofan Hallkelsstaði. Krákur var drepinn í Krákslág fyrir utan Hallkelsstaði. Gísli var drepinn í Gíslabrekkum, og Mundi eða Guðmundur á Mundaflöt fyrir framan Haukagil. Einn af Hellismönnum hèt Eiríkur. Honum er viðbrugðið fyrir hreysti og frækleik. Hann fór á handahlaupi upp undir jökulinn, sem síðan er við hann kendur, og kallaður Eiríksjökull. Eiríkur hljóp upp gnýpu eina norðan í jöklinum, sem síðan er kölluð Eiríksgnýpa. Voru þá sveitamenn svo nærri honum, að einn þeirra hjó til hans, svo af tók fótinn í öklalið. En Eiríkur komst samt úr höndum þeirra, og upp á gnýpuna. Þá kvað hann:

„Hjartað mitt er hlaðið kurt,
hvergi náir að skeika;
með *fótinn annan fór* eg á burt,
fáir munu' eptir leika."

Bændur urðu þá frá að hverfa; því einginn treystist til að renna upp gnýpuna, enda var þeim dauðinn vís, sem það hefði reynt.

Þegar búið var að vinna á Hellismönnum fóru bændur heim að hellinum, og ætluðu að taka konurnar, og það, sem þar væri fèmætt. En konurnar vörðust vel, og báru bæði eld og vatn sjóðandi á þá. Er það sagt, að sveitamenn þóktust hèr hafa komizt í mesta hættu, og þeim hafi þókt verra að vinna konurnar, en alla Hellisbúa. En þó fór svo, að þær urðu unnar, eins og við var að búast af slíkum mannfjölda; því einginn má við margnum. Ekki er þess getið, hvort þær voru drepnar eða ekki; þó er það líklegast. Þess er ekki heldur getið, að mikið fèmætt hafi fundizt í hellinum, en það, sem þar var, tóku sveitamenn með sèr. Þeir tóku og sauðfè það alt, sem þeir fundu, og Hellismenn höfðu rekið saman, og fóru heim með það.

Sumir segja, að bóndasonurinn frá Kalmannstúngu hafi með tímanum orðið albata af sárum sínum, og sezt að búi í Kalmannstúngu eptir föður sinn, og hafi dáið þar í góðri elli. Aðrir segja,að hann hafi sýkzt stuttu eptir dráp Hellismanna, og hafi einginn getað læknað hann. Hafi hann lifað mörg ár við örkuml, og seinast rotnað lifandi, eða visnað upp, áður hann dó.

Enn aðrir segja öðruvísi frá. Þeir segja, að Eiríkur hafi farið af gnýpunni, þegar sveitamenn voru heim komnir. Fór hann þá til sjávar (segja þeir) og kom sèr í skip með farmönnum. Komst hann fljótt í vinfeingi við skipverja, og varð uppgángsmaður mikill, og siglíngamaður.

---

1. Frá [sleppa sumir.

Nokkrum árum eptir þenna atburð kom skip að landi við Reykjavík. það var kaupskip mikið og frítt, og hafði mikinn varníng og góðan. Keyptu landsmenn fúslega af skipverjum, og barst það út um landið, að þessir kaupmenn gæfu, en seldu ekki. Flyktust þá sveitamenn að þeim hópum saman. þángað fór og bóndinn frá Kalmannstúngu, en það var sá, sem fyrrum sveik Hellismenn. En þegar hann var kominn út á skipið, kom maður upp á þilfarið, sem landsmenn þóktust ekki fyrri sèð hafa. Hann var hár vexti, þreklegur og að öllu hinn knálegasti maður. Hann var á rauðum kyrtli, og gekk á trèfæti. þessi maður gekk að bóndanum, tók í hann með hendinni, og sagði, að landsmenn skyldu allir í burtu fara, ef þeir vildu halda lífi og limum. Er þá sagt, að landsmenn yrðu hræddir, og hrukku þeir ofan af skipinu, og fóru í land. Sáu þeir þá, að kaupmenn lèttu akkerum þegar í stað, undu upp segl og lètu í haf með sama. þóktust menn vita, að hèr mundi verið hafa Eiríkur, og hefði ætlað, að launa bóndanum svikin. Hann átti og að hafa heitið því, þegar hann stóð á gnýpunni forðum, að hann skyldi grimmilega hefna Hellismanna, hve nær sem hann kæmi því við. Ekki vissu menn neitt framar um kaupskipið, nè Eirík, nè Kalmannstúngubóndann, eða hverja hegníngu hann fèkk. Og lýkur hèr sögu Hellismanna.

# 8. FLOKKUR.

## ÆFINTÝRI.

Af því, sem áður er sagt í inngánginum fyrir sjöunda flokki, er auðráðið, að æfintýrunum[1] er svo sem sjálfskipaður bás útilegumannasögunum til annarar handar, sem þeim svipar víða til. Af því æfintýrin segja nálega öll frá „kóngi og drottníngu í ríki sínu, og karli og kerlíngu í koti sínu (garðshorni)", eða þá frá börnum þeirra, kynni í fljótu bragði að virðast, sem þetta væru eintómar útlendar sögur, því aldrei hefði verið kóngur og drottníng í ríki sínu á Íslandi. En þess er þó að gæta, að þessar sögur eru eingu síður skáldskapur þjóðarinnar, en allar hinar, og eingan veginn er þeim snúið úr útlendum æfintýrum á íslenzka túngu.[2] Mèr liggur nærri við að segja, að æfintýrin sèu elzt allra munnmælasagna hèr á landi, já að þau sèu jafngömul landnámi og bygð landsins. Eg ímynda mèr sumsè, að þeir, sem fyrstir komu út híngað frá Noregi og námu hèr land, hafi verið því kunnugastir, hvernig smákóngum, nesjakóngum og fylkiskóngum var þar varið, af því landnámsmenn fóru einmitt úr Noregi um það bil, sem Haraldur hárfagri var að brjóta slíka smáherra undir sig, og að með þeim hafi þessar sagnir komið út híngað. Það er einkennilegt við þessar sagnir, að þær eru svo auðveldar, barnalegar og óbrotnar, þó að á hína hliðina komi fram í þeim nógur nornaskapur og álög, ýmiss konar illþýði og óþjóð, og svipar þeim í þessu mjög til eddusagnanna og annara fornsagna. Þó víst megi telja, að ekki sèu öllu færri æfintýri til á Íslandi, en útilegumannasögur, varður að tjalda því sem til er af hinum fyrnefndu, svo úr garði gerðum, sem mèr hafa borizt þau að höndum.

**a)** Það er fljótsèð, þegar maður les æfintýri, að þau greinast af sjálfsdáðum í fimm atriði. Fyrsta atriðið er yfirgripsmest og þær sögur einna tíðastar; en það eru stjúpusögur. Í þeim kemur víða fram tröllskapur bæði í líkamlegri og andlegri merkíngu; því seinni konur kónganna eru

---

1. Það getur verið, að orðið æfintýri þyki hèr tekið í of þraungri merkíngu, þar sem það grípi ekki yfir nema sögur af kóngi og drottníngu, karli og kerlíngu; því eptir uppruna sínum þýði það sèrhverja skáldsögu, sem að sögnum fer. Þetta getur verið; en mèr finnst æfintýri samsvari bezt þýzka orðinu Märchen, og að þessar sögur sèu líkastar þeim, sem Þjóðverjar kalla því nafni.

2. Eg undantek „Mjallhvít", sem var íslenzkuð hèrna um árið eptir dönsku þýðíngunni úr: „Grimms Kinder- und Hausmärchen", og prentuð í Kaupmannahöfn 1852.

flestar tröllauknar, stórskornar og svipillar mannætur, þegar þær eru í essinu sínu, en gera sig að fögrum drottníngum í tignarbúníngi, og þykjast nálega allar hafa mist kónga sína fyrir áhlaupi víkínga. Þegar einhver kóngur hefir svo glæpzt á þeim og geingið að eiga þær, sannast það laungum, að „opt er flagð undir fögru skinni;“ því þá jeta þær opt hirðmenn kóngs í muddum, og kippir í því til tröllakynsins, og eru þau orðatiltæki jafnaðarlega höfð um það, að hirðmennirnir hverfi. Þó er ekki þar með búið; því þær gerast stórráðar og skipa kóngum sínum burt úr ríkinu, „að heimta skatta af löndum sínum,“ eða ef kóngarnir fara sjálfir í þær eða aðrar erindagjörðir, en eiga börn eptir fyrri konuna heima, leggjast stjúpurnar jafnan á þau, og annaðhvort stofna þeim í óhæfu, eða leggja á þau að öðrum kosti, og sýna í því andlegan tröllskap. En eptirtektavert er það, að jafnan leggst börnum þessum eitthvað til, að komast úr þeim háska eða ánauðum, sem stjúpur þeirra hafa stofnað þeim í, eða lagt á þau. Stundum eru kóngsbörnin svo andrík, eða hvað eg á að kalla það, að þau hefna sín á stjúpum sínum, með því að leggja aptur á þær, og verða þá ummæli þeirra alt eins að áhrínsorðum, og ummæli stjúpanna, þó aldrei sjáist þess nokkur deili fyrr nè síðar, að börnin sèu fjölkunnug. Stundum verða dvergar eða aðrar bjargvættir börnunum að liði, og koma þeim úr kröggum þeirra. Auk þessa vill kóngsbörnum það einatt til, að þau eiga kostgripi, sem hafa þá og þá náttúru, og þeim gripum er það opt að þakka, að þau komast úr nauðum þeim, sem þau eru stödd í, en þó einnig öðrum atvikum og snjallræði sjálfra þeirra.

**Sagan af Mjaðveigu Mánadóttur.** (Eptir sögn úr Lundareykjadal. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 281—2. bls.) Svo er sagt, að í fornöld hafi ráðið fyrir ríkjum kóngur sá, er Máni hèt, og hafi átt við drottníngu sinni dóttur, er hèt Mjaðveig; var hún snemma prýdd kvennlegum listum. Kóngur lætur reisa henni skrautlega skemmu, og lèt hana hafa fjölda af þjónustumeyum. En sá hryggilegi atburður kom fyrir, að drottníngin, móðir Mjaðveigar, tók sótt, er leiddi hana til bana. Eptir andlát hennar hryggist kóngur svo mjög, að hann leggst nálega í rekkju, og var hann með öllu afskiptalaus. En með því ráðgjöfum hans þókti til óefnis horfa, rèðu þeir honum, að leita sèr sæmilegs kvonfángs, svo kóngur ræður það af, að hann sendir tvo æðstu ráðgjafa sína með fríðu föruneyti í bónorðsför, og sigla þeir frá landi. En þeir komust í hafvillu og vissu ekki, hvar þeir fóru, eða hvað halda skyldi. Um síðir sáu þeir land, og hèldu skipum sínum þángað. Þeir þektu það ekki en stigu þó á land; varð þá fyrir þeim eyðimörk; þeir geingu eptir henni, því þeir voru að leita að manna-bygðum, en fundu ekki. Loksins heyra þeir hörpuslátt svo fagran, að þeir þóktust ekki fyrr jafnfagran heyrt hafa, og gánga þeir á hljóðið, þar til þeir sjá lítið tjald silkiofið; þángað hraða þeir ferð sinni. Sjá

þeir þá, að í tjaldinu sat kona ein á stóli; hún stilti hinn fagra hörpusaung, sem hafði vísað þeim þángað, og var stúlkubarn hjá henni. þegar hún sèr mannaflokkinn, verður henni svo bylt við, að hún missir hörpuna, og fellur því nær í ómegin. En þegar hún kom til sjálfrar sinnar, spyr hún þá, á hvaða ferð þeir sèu, eða hvers vegna þeir sèu þar komnir. þeir kváðust hafa ratað í hafvillur, en hafa verið sendimenn Mána kóngs, því drottníng hans sè önduð, en hann beri sig illa af missinum. þess vegna óska ráðgjafarnir, að hún vildi segja þeim, hvernig á högum hennar stæði, því þeir kváðust hafa feingið góðan þokka á henni. Konan gerði, sem þeir báðu, og kvaðst hafa verið drottníng göfugs konúngs þar í landinu, og hefði óflýandi her eytt landið en drepið kónginn, og hefði það verið tilgángur foríngjans, að leggja undir sig ríkið, og eiga sig; en það kvaðst hún ekki hafa viljað, og þess vegna hafa flúið með dóttur sína þángað í eyðimörkina, og ætlað, að láta þar fyrir berast. Ráðgjöfunum þókti vel standa á öllu þessu, því þeim þókti Máni kóngur vel sæmdur af slíkum kosti, og biðja þeir nú konunnar Mána til handa. Hún tekur því seinlega, og kvaðst ekki hafa verið að hugsa um giptíngar, en lætur þó tilleiðast fyrir orð þeirra. Stíga þeir nú á skip, og hún með þeim, og höfðu þeir bezta byr heim í ríki Mána kóngs. En þegar sèst til skipanna, lætur kóngur aka sèr í vagni ofan til strandar, og þegar hann sèr festarkonu sína, hverfur honum öll sorg; heldur hann síðan heim til borgar og lætur efna til mikillar brúðkaupsveizlu, og stóð hún í hálfan mánuð. Að henni endaðri fer kóngur í leiðángur, að taka skatt af löndum sínum. En nú víkur sögunni til Mjaðveigar kóngsdóttur, þar sem hún sat í skemmu sinni. Stjúpa hennar kemur að máli við hana, og segir, að sèr leiðist heima í fámenni þessu, og kvaðst því vilja gánga út úr borginni, að skemta sèr, og biður Mjaðveigu, að fara með sèr, og gerði hún það. Drottníng lætur stúlku þá, er hún nefndi dóttur sína, fara með sèr. Gánga þær nú þrjár saman, og er drottníng mjög vingjarnleg við stjupdóttur sína. En þegar þær eru komnar lángt frá borginni, biður drottníng Mjaðveigu, að lofa dóttur sinni að hafa stakkaskipti við hana, svo Mjaðveig lofar stúlkunni, að fara í kyrtil sinn, en fer sjálf í búníng hennar. Þá segir drottníng: „Nú mæli eg um og legg eg á, að dóttir mín fái allan svip og yfirlit Mjaðveigar, svo hana þekki einginn fyrir aðra." En þær mæðgur binda höndur og fætur Mjaðveigar, og skilja hana svo þar eptir, en fara sjálfar heim til borgar, og setur drottníng dóttur sína í kastala Mjaðveigar, og hèldu allir, að hún væri það sjálf, en skemmumeyum þókti hún heldur hafa skipt geðslagi við skemtigaunguna með drottníngunni; en þær grunaði ekkert, og ekkert vissu þær um hina útlendu stúlku, sem kom þángað með drottníngu, og gerðu sèr heldur ekkert far um það. En frá Mjaðveigu kóngsdóttur er það að segja, að hún liggur nú eins útleikin, eins og fyrr var sagt, og sofnaði af hrygð

og örvæntíngu. Þá dreymdi hana, að móðir hennar sáluga kæmi til hennar, talaði til hennar aumkunarorðum, leysti af henni fjötrana og feingi henni dúk, sem henni sýndist matur vera á, en sagði, að hún skyldi aldrei úr honum ljúka, og varast, að láta nokkurn sjá hann, en gæta að sèr fyrir stjúpu sinni og dóttur hennar. Þá vaknar Mjaðveig og var alt, eins og hana dreymdi. En frá drottníngu er það að segja, að hana grunar, að Mjaðveig muni enn vera á lífi. Þess vegna sendir hún dóttur sína leynilega, að gæta að högum hennar. Hún fann Mjaðveigu, og sá, að nokkur umskipti eru orðin á högum hennar. Hún beitir þá flærðarbrögðum, til að vita, hvernig á þeirri umbreytíngu standi, og segir við Mjaðveigu, að illa hafi móðir sín gert, er hún hafi þannig svíkið hana, og segist nú vilja vera með Mjaðveigu í útlegðinni, og kvað þær mundu geta rètt hluta sinn, þegar kóngur kæmi heim aptur, og að nú skyldi hið sama yfir þær báðar drífa. En Mjaðveigu líkar illa þessi ræða stúlkunnar, en verður þó að láta það svo vera. Eptir nokkurn tíma leggur stúlkan sig niður og þykist fara að sofa. En þegar Mjaðveig heldur, að hún sè sofnuð, snýr hún lítið afleiðis, tekur dúkinn og fer að borða; en nú hafði dóttir drottníngar náð áformi sínu; hún sprettur upp, rífur dúkinn af Mjaðveigu, og snýr heim á leið; sagði hún, að aldrei skyldi þessi matur Mjaðveigu að gagni koma. Nú var Mjaðveig lítið betur komin, en fyrr, og ráfar hèr og hvar, þángað til hún sofnar af þreytu og leiðindum. Þá dreymir hana, að móðir hennar kæmi til sín, sem fyrr, og segði, að óvarlega hafi hún farið; en fyrst nú sè svo komið, skuli hún ganga beina leið til sjávar; þá muni hún sjá tánga út í sjóinn, og einstíg út í hann, og finna þar hús eitt lítið, sem sè læst, en lykillinn standi í hurðinni. Þá skuli hún gánga þrisvar rèttsælis og þrisvar rángsælis kríng um húsið, og taka í hvert sinn í lykilinn. Þá muni húsið opnast; þar skuli hún fyrst um sinn vera, og muni henni þar ekki leiðast, og enn sagði hún henni:

„Þar gala gaukar,
þar spretta laukar,
og þar fara hrútar úr reifi sínu.“

Nú vaknar Mjaðveig, og geingur þá leið, sem henni var vísað á í drauminum; alt fór, eins og henni hafði verið fyrir sagt, og þókti henni þar hver dagurinn öðrum skemtilegri. En svo bar við einu sinni, þegar hún gekk upp á land, að skemta sèr, að hún sá skipaflota sigla þar nálægt landi, og stefndu skipin til hafna. Við þessa sjón verður hún hrædd mjög, og hleypur sem ákafast í skála sinn, en þá losnaði á henni annar skórinn, og týndi hún honum á hlaupunum; skór þessi var úr gulli. Fyrir skipaflotanum rèð kóngsson nokkur, sem sigldi þar að landi þess erindis að biðja Mjaðveigar Mánadóttur. En þegar hann geingur frá skipum sínum til borgar, finnur hann kvennskó úr gulli, svo liðlegan, að hann hèt því, að eiga þá stúlku, er þessi skór væri af. Hann heldur nú til

borgar, og biður Mjaðveigar kóngsdóttur sèr til handa, en segist þó hafa heitið því, að eiga einga nema þá, er ætti skó þann, sem hann hefði fundið, þá er hann hafði geingið til borgarinnar. Drottníngin biður hann um, að lofa sèr að sjá skóinn; kóngsson fær henni hann. Hún kvaðst gjörla þekkja hann, og sagði, að Mjaðveig, dóttir sín hafi týnt honum einu sinni, þegar hún hefði verið á skemtigaungu, og fari svo laungum fyrir únglíngum. Síðan geingur hún til dóttur sinnar, og segir henni, hvernig komið sè, og fer með hana í afhús eitt, til að láta á hana gullskóinn; en hann komst ekki uppá hálfan fótinn á henni. Þá nemur drottníng af bæði tærnar og hælinn, og setur svo upp skóinn. Stúlkunni þykir móðir sín heldur harðleikin; en drottníng sagði, að til mikils væri að vinna, að eiga kóngssoninn. Býr hún hana síðan í bezta skart, og leiðir inn í höll, og sýnir kóngssyni, að skórinn er mátulegur, og sýnist honum þá svo vera. Hefur þá kóngsson bónorð sitt að nýu til Mjaðveigar Mánadóttur, og er því máli vel tekið. Kóngsson kvaðst vilja sigla með hana heim í ríki sitt, og koma svo seinna og bjóða til veizlu sinnar, og fer nú svo. En þegar hann siglir þar nálægt, sem hús Mjaðveigar kóngsdóttur er, heyrir hann fuglakvak svo mikið, að hann fer að veita því eptirtekt, því hann skildi fuglamál, og heyrðist honum þeir segja:

„Í stafni situr Höggvinhæla,
fullur skór með blóð;
hèr á landi er Mjaðveig
Mánadóttir,
miklu betra
brúðarefni.[1]

Snúðu aptur kóngsson.“ I fyrstu ætlaði hann ekki að trúa þessu fuglafleipri. Þó fer hann að gæta að því, og sèr, að alt er, eins og þeir sögðu, hvað stúlkunni viðvèk. Þá tekur hann mælispjald, og leggur á herðar henni, og varð hún þá að stórvaxinni og ljótri tröllkonu, og varð hún þá að segja alt um sig og drottnínguna móður sína. Að því búnu

---

1. Dr. Maurer hefir vísuna svo eptir frú Brynjúlfsson í Kaupmannahöfn:

„Situr í stafni
Höggvinhæla,
fullur er skór af blóði;
heima situr hún Mjaðveig
Mánadóttir,
hálfu betra
brúðarefni.“

Og enn eru fleiri breytíngar á þessari vísu; mèr er hún þannig í barnsminni:

„Situr í stafni Höggvinhæla,
fullur skór með dreyra;
skömm er að brúði.“

drepur hann hana, og saltar hana niður, en ketið af henni fylti 12 tunnur, og lætur kóngsson það alt á skip eitt, sem ekkert var á nema töluvert af púðri. Síðan skýtur hann báti, rær til lands og finnur húsið. Eptir tilsögn fuglanna getur hann opnað það; þar sèr hann stúlku forkunnar fagra, og spyr hana að nafni. Hún kvaðst heita Mjaðveig og vera dóttir Mána kóngs, og sagðist hún vera þar í leyni sökum vonzku stjúpmóður sinnar. Kóngsson segir henni, hvernig komið sè, sýnir henni gullskóinn, og setti hann sjálfur upp á hana, og sèr, að hún hefir annan á móti honum. Nú þýkir kóngssyni þessi stúlka vera sèr föstnuð, þó hann hafi verið leyndur sannleikanum, og eptir vilja hennar tekur hann hana og flytur á skip með sèr, og fer nú af kænsku með skipin í leynivog einn, og dvelur þar um stund. Síðan siglir hann öllum flotanum á höfn borgarinnar, fer heim til hallar kóngs, og býður honum ásamt drottníngu til brúðkaupsveizlu sinnar, og er kóngur fús til þess, en drottníng ekki; kvaðst hún ekki vön siglíngum, og vilja heldur vera heima, en fara slíka lángferð. Kóngsson sagði, að dóttir hennar mundi kunna betur við, að hún neitaði ekki boði þessu, og taldi um fyrir drottníngu, þángað til hún lèt tilleiðast. Var þeim svo öllum ekið í vagni ofan til strandar. Síðan stíga þau á skip og láta í haf. En á leiðinni verður drottníng svo hugsjúk, að hún sinnir eingum manni; en kóngsson bað hana einslega að segja sèr hrygðarefnið, og var hún mjög treg að gera það, en leiðist þó til um síðir, og segir hún, að svo sè heilsu sinni varið á þessari ferð, að hún hafi ekki lyst á að borða, þegar aðrir geri það, og sè það helzt af sjósótt. Hún biður kóngsson að ráða bót á því; en hann kvaðst ekki geta það, og sagðist ekkert hafa svo lagað, er hún gæti haft not af. Hann sagði, að á einu skipi væri nokkuð af saltketi, en það væri hrátt, og hefði hún af því eingin not. Hún kvaðst sjálf geta soðið það handa sèr, og varð nú glöð í bragði, en bað kóngsson að þegja yfir þessum smámunum. Sagt er, að drottníng hafi jetið eina tunnu á degi hverjum, og hafi jafnan verið hin ljótasta tröllkona, á meðan hún neytti matarins, en tekið hamaskipti á eptir; gekk þetta í 11 daga, en á hinum 12. degi, þegar hún er að jeta tólftu tunnuna, sýnir kóngsson Mána kóngi aðgáng hennar, og segir honum, hversu opt hún hafi verið þannig á þeirri ferð. En kóngur verður hissa, þegar hann sèr, að hann er hyltur af slíkum óvættum. Hleypa þeir nú eldi í púðrið á kjötskipinu, sem áður er um getið, og flaug það í lopt upp, og fèkk drottníng, eða tröllkona þessi, þar bráðan bana. Loksins biður Máni kóngur kóngsson ab segja sèr, hvernig á ósköpum þessum standi. Hann gerir svo, og leiðir hann síðan til Mjaðveigar, og segir hún honum ljóslega frá öllu athæfi og svikum þeirra mæðgna; en kóngur undrast það mjög. Nú var siglt heim í ríki kóngssonar, og var þar drukkin bæði fagnaðar- og brúðkaupsveizla, og stóð hún yfir í heilan mánuð. Að henni endaðri er Máni kóngur útleiddur með góðum gjöfum. Síðan sigldi hann í ríki sitt,

og ríkti þar til ellidaga, og er hann svo úr sögunni. En af kóngssyni er það að segja, að hann tekur kóngdóm eptir föður sinn, og líður þannig eitt ár, að ekkert ber til sögunnar, nema Mjaðveig drottníng elur fagurt sveinbarn. Eptir þann tíma gekk hún til lauga með einni af þjónustumeyum sínum. En þegar hún er komin þángað, vantar hana sápu, svo hún sendir þernu sína að sækja hana, en bíður ein við laugar. Þá kemur til hennar kona og heilsar henni virðulega. Drottníng tekur kveðju hennar. Konan biður drottníngu að hafa við sig stakkaskipti, og gerir Mjaðveig það. Þá mælir konan um og leggur á, að hún fái allan svip drottníngar, en Mjaðveig fari til bróður síns, og hvarf hún á þeirri sömu stundu. Eingin vissi um drottnínga-skiptin, en eptir þetta fellur öllum illa við drottníngu, sem von var. Svo er sagt, að þegar kóngur tók Mjaðveigu úr skálanum, hafi honum þókt húsið svo yndislegt, að hann hafi með kunnáttu sinni numið það á burt, hafi það síðan verið hjá sal drottníngar, og hafi hin sama náttúra fylgt því, sem fyr, meðan alt fór vel fram:

„Þar spruttu laukar,
þar göluðu gaukar,
og þar fór hrútur úr reifi sínu.“

En nú skipti svo um:

„að ekki gala gaukar,
ekki spretta laukar,
og ekki fer hrútur úr reifi sínu,
og aldrei þegir sá úngi sveinn,
sem í vöggu liggur,“

og alt sýndist nú fara aflaga í ríkinu. En svo bar við einhvern dag, að fjárhirðir kóngs geingur nálægt sjó. Sèr hann þá, hvar undan hömrum nokkrum kemur upp glersalur, og í honum einn kvennmaður, svo líkur Mjaðveigu drottníngu, að hann hugðist ekki mundi þekkja þær að; en um salinn var festi ein úr járni, og í hana hèlt ljótur þussi, og kipti hann salnum niður aptur. Maðurinn varð hissa við sjón þessa, og nemur staðar hjá læk einum. En þegar hann stendur þar hugsandi, sèr hann barn taka vatn úr læknum. Hann gefur barninu fíngurgull, og verður það glatt við gjöfina; síðan hverfur það inn í stein, er þar var skamt frá. Að vörmu spori kemur út dvergur og heilsar manninum, og þakkar honum fyrir barn sitt, og spyr hann, hvað hann vilji þiggja af sèr í staðinn. En maðurinn biður hann að segja sèr, hvernig á því standi, er hann hafi sèð koma undan sjávarhömrunum. Dvergurinn sagði, að það væri Mjaðveig drottníng, sem sè í glersalnum, og sè hún hylt af óvættum, en í hennar stað sè komin tröllskessa og sè hún systir risa þess, er hann hafi sèð halda í festina. Enn fremur segir dvergurinn honum, að þussinn hafi látið það að orðum Mjaðveigar, að lofa henni að koma fjórum sinnum á land, með þeim hætti, sem hann hefði sèð, og skyldi það vera henni

til frelsis, ef nokkur væri svo heppinn, að geta á þessum tíma leyst hana úr klóm hans; en nú væri hún búin að koma þrisvar á land, og væri það í síðasta sinni, sem hún kæmi upp daginn eptir. Maðurinn biður nú dverginn, að leggja sèr góð ráð, til að ná drottníngu úr ánauðinni. Dvergurinn fær honum öxi eina, og sagði honum, að hann skyldi höggva á festina, þegar salurinn kæmi upp daginn eptir. Maðurinn bíður í steininum um nóttina. Daginn eptir fer hann þángað, sem salurinn var vanur að koma upp. Eptir lítinn tíma kemur salurinn upp á hamrana; maðurinn er nú ekki seinn á sèr og heggur á festina, og gekk honum það vel. En nú kemur risinn upp og vill drepa þann, sem hefir höggvið á festina; en dvergurinn kemur með lítinn poka, og sáir úr honum yfir risann. Verður hann þá blindur, svo hann hrapar niður fyrir klettana, og lætur þegar líf sitt. En þeir fara með Mjaðveigu í steininn til dvergsins og bíður hún þar. Nú fara þeir heim til borgar, og leggja mælispjald á drottnínguna, sem menn ætluðu að væri; en hún varð að ljótri tröllkonu, og neydda þeir hana til að segja æfisögu sína. Segir hún þá, hvernig hún hafi farið með Mjaðveigu, og hvar bróðir sinn hafi bústað; einnig segir hún, að síðari drottníng Mána kóngs hafi verið systir þeirra. Þess vegna segist hún hafa gert þetta í hefndaskyni við Mjaðveigu drottníngu. En kóngur verður nú reiður mjög, og lætur velja ófreskju þessari háðuglegan dauða. Nú spyr smalamaður kóng, með hverju hann mundi vilja launa, ef nokkur væri svo fær, að leysa drottníngu úr ánauðum þessum, en kóngur kvaðst mundi sæma hann stórum fègjöfum, jarls-nafni og lands-forráðum. En smalamaðurinn var ekki leingi að sækja drottníngu, og færir hana kónginum; verður þar meiri fagnaðarfundur, en frá megi segja. Þegar drottníng komst aptur í næði,

„Þá gala gaukar,
þá spretta laukar,
þá fer hrútur úr reifi sínu,
þá þegir úngur sveinn,
sem í vöggu liggur.“

Upp frá þessum tíma lifði drottníng í farsæld til ellidaga, og endar hèr sagan af Mjaðveigu Mánadóttur.

**Stjúpusaga.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu. Þau áttu sèr eina dóttur, sem hèt Mjaðveig. Var hún bráðþroska mjög. Hún ólst upp hjá foreldrum sínum, þángað til hún var orðin fulltíða. Þá tók drottníngin sótt og andaðist. Konúngur syrgði hana mjög, og vildi ekki huggast láta, og sama var að segja um dóttur hans, Mjaðveigu. Geingu þau feðginin opt og tíðum til leiðis drottníngar, og sátu þar heilum stundum; þókti þeim sèr helzt vera það hugfróun. En þegar þetta hafði leingi geingið, sáu menn, að ekki

mátti svo búið standa; því ríkisstjórnin fór öll út um þúfur, og varð svo gott sem eingin. Var konúngi leitt þetta fyrir sjónir, og honum ráðið til að leita sèr nýs kvonfángs. Kóngur gat fyrst leingi vel ekki til þess hugsað, en þó fór svo á endanum, að hann lèt til leiðast. Fór hann þá að ferðast um ríki sitt, og ætlaði að taka sèr hverja þá konu fyrir drottníngu, sem sèr litist bezt á, án tillits til ættgöfgis, eða auðæfa. Eptir að hann hafði leingi og víða farið, kom hann loks á fjölmennan mannfund. Þar sá hann konu eina mjög harmsfulla, og dóttur hennar hjá henni. Kóngur spurði hana, hvers vegna hún væri svo stúrin. En hún bað hann, að auka ekki á harma sína með því, að vera að spyrja sig um orsök þeirra. En kóngur inti því betur eptir þessu. Sagði þá konan, að fyrst honum væri það svo hugarhaldið, þá skyldi hún segja honum það. Sagði hún, að orsök harma sinna væri sú, að hún væri ekki alls fyrir laungu búin að missa mann sinn. Kóngur segir þá, að það standi þá líkt á fyrir henni og sèr, og með því hann bæði aumkaðist yfir ekkju þessa, og leizt vel á hana, þá spurði hann hana, hvort hún mundi ekki vilja taka sèr, ef henni byðist sá kostur. Er ekki að orðleingja um það framar; svo talaðist þeim til, að konan fór með kóngi heim til borgarinnar, og varð drottníng hans. Dóttir drottníngar þessarar, sem Króka hèt, var látin taka sèr aðsetur hjá Mjaðveigu kóngsdóttur í skemmu hennar.

En þegar þær mæðgur höfðu verið þarna um hríð, fóru menn að taka eptir því, að þegar þær vissu ekki af neinum nærri sèr, þá breyttust þær í tröllalíki, og olli það kóngi mikillar ógleði, þó hann gæti ekki að því gert. En Mjaðveig var verst farin af öllum; því Króka reif alt frá henni, sem hún vildi, og þar að auki var hún ekki óhrædd um sjálfa sig. Fèkk þá Mjaðveig einu sinni draumvitran. Þókti henni móðir sín koma til sín og segja henni, að taka það og hirða, sem lægi hjá leiðinu sínu, en sem hún hefði aldrei tekið eptir, þó hún hefði verið þar dögum optar. Þetta sagði hún að hún skyldi hafa á milli brjósta sèr, og mundi hana þá ekki saka. Mjaðveig fór nú til leiðisins og skyggndist um, og fann þar brjóstadúk, og fór hún með hann, eins og fyrir hana hafði verið lagt. En Króka komst að þessu, og reif dúkinn af Mjaðveigu. En skömmu síðar dreymdi Mjaðveigu aptur, að móðir sín byði sèr, að taka í það, sem lægi nálægt leiði sínu. Þegar nú Mjaðveig kom til leiðisins, litaðist hún um; fann hún þar þá hnoða, og tók í endann lausa, sem út úr því lá. Rann þá hnoðað á undan henni þángað til hún kom að skemmu einni. Vissi hún, að þar mundi sèr vera bústaður ætlaður. Var þar alt vel um vandað, og alls nægtir. Gat hún sèð úr skemmunni alt, hvað gerðist umhverfis í borginni, en einginn maður sá hana nè skemmu hennar. Á leiðinni til skemmunnar hafði Mjaðveig mist annan skóinn sinn, og hèt hún því, að ef karlmaður fyndi skóinn, þá skyldi hún eiga

þann mann. þegar hún hafði skamma stund búið í skemmunni, kom skip eitt mjög fagurt að landi. Var þar á fallegur og fríður kóngssonur; hann gekk á land og upp til borgarinnar; því kóngur var svo utan við sig af öllu því, sem honum hafði mætt, að hann sinti varla gestum sínum, auk heldur geingi til móts við þá, og því bauð hann ekki heldur kóngssyninum til sín. En á leiðinni heim til borgarinnar fann kóngssonur skóinn Mjaðveigar. Drottníng tók báðum höndum við kóngssyninum, og töluðust þau margt við. Meðal annars spyr hann drottníngu, hvort hún viti til, að nokkur gripur hafi týnzt í kóngsgarðinum, ekki alls fyrir laungu. Hún sagði það vera. Sagði hún, að hún dóttir sín hefði kvartað yfir því við sig um daginn, að hún hefði týnt nokkru, en hefði ekki viljað segja sèr, hvað það hefði verið. Bað hún þá kóngsson að segja sèr, hvað hann hefði fundið. Lèt hann það eptir henni, og sýndi henni skóinn. Drottníng lèzt undir eins þekkja skó dóttur sinnar, og sagðist ætla að færa henni hann. Kóngssonur lèt það eptir, en bað hana, að lofa sèr að sjá dóttur sína með skóinn á. Drottníng fer þá og kemur bráðum aptur með dóttur sína, og hefir hún skóinn á fætinum. Bað þá kóngssonur mærinnar, og var hún honum heitin. Skyldi hann fara með hana heim í ríki sitt, og halda þar brúðkaup sitt til hennar. Bað drottníngin dóttur sína að láta sig vita nær brúðkaupið skyldi fram fara; því hún sagði sig lángaði til að vera þar við. þegar þessu var lokið, lagði kóngssonur á stað, og sigldi undan landi með festarmey sína. En er hann var skamt á leið kominn, komu tveir fuglar fljúgandi, settust í reiðann og sögðu:

„Í stafni situr Höggvinhæla,
fullur skór með blóð.
Heima situr Mjaðveig
í gullskemmu sinni.
Snú þú aptur kóngsson.“

þegar kóngssonur hafði heyrt þetta, lèt hann skoða fót festarmeyjar sinnar, og kom það þá upp, að skórinn hafði verið henni oflítill, og höfðu því verið höggnar af henni tærnar og hællinn, svo hún kæmi skónum upp. það sást nú og, að hún hafði ósamkynja skó á hinum fætinum. Skipaði þá kóngssonur mönnum sínum, að halda til lands aptur, og svo var gert. Gekk hann fámennur á land upp, og var nú eins og honum væri vísað á skemmu Mjaðveigar. Fèkk hann hana í tal, og leizt betur á þessa mær en hina. Sá hann, að hún hafði á öðrum fæti skó samkynja þeim fundna. Kom hann þá með fundna skóinn, og bað hana setja hann upp, og var hann henni mátulegur. Sagði þá Mjaðveig honum, hvernig á öllu stóð fyrir henni, og frá tröllskap þeirra mæðgna, og bágindum föður síns. Kom þeim það loksins ásamt, að hún færi með honum. Fóru þau nú til skips, og hèlt kóngssonur þegar frá landi, og var hinn glaðasti yfir hinni nýu heitmey sinni. En ekki lèt hann á öðru bera, en að hann

ætlaði að eiga Króku. Þegar hann hafði skamma stund heima verið í ríki sínu, lèt hann fara skip til að sækja drottnínguna, stjúpu Mjaðveigar. En þegar skipið var farið, lèt hann stytta Króku aldur, og brenna síðan líkið. Öskunni var safnað saman, og hún höfð í graut, sem gefa skyldi drottníngunni, þegar hún kæmi. Drottníng kom, og var þá borinn fyrir hana grauturinn. En þegar hún smakkaði hann, þá sagði hún: „Góður er grauturinn hjá henni Króku dóttur minni, en þyrstir mig af honum." Þegar hún hafði þetta sagt, kom rödd neðan úr kverkum hennar, sem sagði: „Èttu mig ekki, móðir mín." Ætlaði þá drottníng að bregðast í tröllshaminn, en í því var henni veitt atlaga og drepin. Var hún svo brend. Að því búnu settust þau Mjaðveig og kóngsson á brúðarbekkinn, og var brúðkaup þeirra drukkið með miklum veg og viðhöfn, og var faðir Mjaðveigar þar líka. Unnust þau Mjaðveig síðan leingi og vel, áttu börn og buru, grófu rætur og muru. Og nú er sagan úti.

Athugasemd. Það, sem fuglarnir sögðu, hafa aðrir þannig:

„Situr í stafni<br>
Höggvin-hæla,<br>
fullur skór með dreyra.[1]<br>
Heima situr Mjaðveig<br>
Mánadóttir,<br>
hálfu[2] betra brúðarefni[3]."

Eptir þessari vísu hefði faðir Mjaðveigar átt að heitta Máni.

**Sagan af Fertram og Ísól björtu.** (Eptir húsfrú Ragnheiði Eggertsdóttur á Fitjum í Skorradal.) Formáli. Hvorki bar til titla nè tíðinda, frètta nè frásagna, nema logið væri og stolið væri, vildi eg ei minni sögu svo færi, þó mundi eg ei spara, ef á lægi, því lýgin kom ekki fyrr, en 7 árum seinna, en þetta var.[4]

Svo er sagt, að kóngur rèð fyrir landi nokkru, en ekki er getið um nafn hans eða í hverju landi hann var. Hann var kvongaður og átti eina dóttur, sem Ísól hèt; var hún fríð sýnum. Hertogi einn var þar í ríkinu; hann átti einn son, er Fertram hèt; hann ólst upp með hirðinni og var opt hjá kóngsdóttur að leikum, meðan þau voru úng, og höfðu mikið yndi hvort af öðru. En þegar þau eltust, trúlofuðust þau með leyfi foreldra

---

1. aðrir: blóð.
2. aðrir: miklu.
3. aðrir: fljóð.
4. þenna formála hefir konan, sem söguna sagði, heyrt hafðan við allar sögur af kóngi og drottníngu, og hafa sumir þessi orð þar enn við: „Út frá garði og suður frá garði, og svo er enn á vorum dögum, og sjaldan lýgur sá, sem fram ber." En hvergi hefi eg orðið formálans fyrr var.

sinna. En nú varð sá atburður, sem öllum þókti mikið mein að, að drottníngin tók sótt og andaðist. Kóngur sá eptir henni mikið og sat leingi á haugi hennar. Loks geingu ráðherrarnir til hans og sögðu, að þetta tjáði ekki fyrir hann og yrði hann að gæta ríkisstjórnar; annars færi alt aflaga í ríkinu; buðu þeir honum að fara og leita honum konu þar, sem hann tiltæki. Gátu þeir loks unnið hann með fortölum sínum, svo hann bað þá fara af stað og búa skip til ferðarinnar, og hafa svo marga menn sem þeim líkaði, og gjörðu þeir það, eins fljótt og þeir gátu; lögðu síðan af stað og gaf vel byr fyrsta daginn; svo hreptu þeir þokur miklar og viltust víða um sumarið, þángað til þeir sáu sorta fyrir stafni; þeir hèldu þar að og geingu af skipi á land upp. Þeir fóru víða um það og sáu, að það var eyland nokkurt. Loks sáu þeir fagran skála; þar var maður í dyrum og klauf skíði. Konur 2 sátu þar á stólum; önnur þeirra var öldruð, en hin úngleg. Hin eldri var að greiða sèr með gullkambi og var hárið samlitt kambinum. Hún greiddi hárið frá augunum, þegar hún heyrði til þeirra. Þeir heilsa þeim, og kveðja þau vel, og spyrja, hvernig á því standi, að þau voru þar svo fá. Eldri konan gegndi þeim blíðlega, og spurði, hvað þeir væru að fara. Þeir sögðu frá öllu eins og var. „Það er þá líkt á komið með okkur," mælti konan, „því eg hefi nýlega mist kóng minn; það komu víkíngar í landið og drápu hann; en eg flúði híngað með dóttur minni og þræl þessum, sem þèr sjáið hèr." Þeir báðu hana að fara með sèr og verða drottníng kóngsins síns; hún sagði sèr þækti mikið fyrir því, „þar eð hann er ekki nema einn smá-kóngur, en sá, sem eg átti fyrri, var kóngur yfir 20 kóngum kórónuðum, og þykir mèr niðrun fyrir mig að eiga hann". Þeir báðu hana því betur að fara með sèr. Loks lèt hún tilleiðast að fara með þeim, en gaf þrælnum skálann með öllu því, sem í honum var. Hèldu kóngsmenn síðan af stað með hana og dóttur hennar; gaf þeim vel byr, og voru fáa daga á leiðinni. Þegar kóngur sá ferð þeirra, lèt hann aka sèr í gullvagni til strandar, og var drottníng sett í vagninn hjá honum, og fèkk hann þegar ástar-hug á henni, og var þá ekið heim aptur til borgarinnar, og stofnað til ágætrar veizlu og boðið öllu stórmenni í nærliggjandi löndum og ríkjum; var þar vel drukkið og gjafir mönnum gefnar; þeir fóru þaðan fullríkir, sem þangað komu fátækir. Nú fóru allir heim aptur, en drottníng tók við ráðum þeim, sem henni bar. Dóttir hennar hèt Ísól, eins og kóngsdóttir, en mönnum þókti hún ekki eins fríð, eins og hin, og aðgreindu þær með því, að þeir kölluðu hana Ísól blökku, en kóngsdóttir Ísól björtu. Hún var í kastala einum, og hafði þernur; en eigi eru hèr nafngreindar nema 2 þeirra, Eya og Meya; þær geingu næst kóngsdóttur, og fylgdu henni jafnan, þegar hún fór út að skemta sèr á lystigaungu um einn aldingarð. Einu sinni, skömmu eptir, þurfti kóngur að fara að friða land sitt, og fór með mörg skip, svo að fátt manna var eptir heima. Þegar hann var farinn af stað, kom drottn-

íng á fund kóngsdóttur, og spurði hana, hvort hún vildi ekki gánga út á skóg, að skemta sèr. Hún játti því, og fór af stað og þernur hennar 2 með henni, Eya og Meya; Ísól blakka fór með þeim. Þær geingu víða um skóginn, þángað til þær komu að gryfju einni; þær námu staðar á bakkanum; en þegar minnst varði, hrundu þær mæðgur hinum niður í gryfjuna öllum þremur, og var hún býsna djúp. Þá mælti drottníng til kóngsdóttur, að nú skyldi hún eiga hann Fertram. Geingu þær mæðgur síðan heim aptur til borgarinnar, og lèt drottníng dóttur sína fara í klæði hinnar, og setjast í kastalann, svo allir hèldu það væri kóngsdóttir sjálf, en fáir töluðu um, þó hin sæist ekki, því fáum þókti hún bæta fyrir mönnum. Leið nú svo, að eingin tíðindi urðu, þángað til kóngur kom heim úr leiðángri; fór þá drottníng að tala um, að bezt mundi vera, að fresta eigi leingur giptíngu Fertrams og Ísólar kóngsdóttur. Kóngur tekur því vel, og lætur þegar stofna til ágætrar veizlu, og var þángað boðið mörgu stórmenni. En þann sama morgun, sem veizlan átti að vera, kom dóttir drottníngar til móður sinnar, og sagði, að nú væri komið í óefni fyrir sèr, því nú væri komið að þeirri stund, að hún skyldi ala barn það, er hún geingi með, og hinn gamli þræll þeirra, Kolur, ætti. „Eg kann gott ráð við því," sagði drottníng, „hèrna í koti skamt frá er stelpa, sem Næfrakolla heitir; farðu og biddu hana að setjast á brúðarbekkinn fyrir þig." „Ætli hún sè ekki kjöptug?" segir Ísól. Drottníng kvaðst skyldi sjá um það, að hún talaði ekki meira, en hún vildi. Fór hún síðan af stað og í kotið, og fann þar Næfrakollu og bað hana fara fyrir sig og sitja brúðkaupið, því hún gæti það ekki sjálf. Næfrakolla hèt því og fór heim til borgarinnar og fann drottníngu. Fór hún þá að færa hana í brúðarskrautið; en þegar hún fór að draga á hana reiðermarnar, mælti Næfrakolla:

„Vel sóma ermar
eiganda armi."

Drottníng sagði, að það vissu allir, að hún hefði saumað þær sjálf. Þvínæst voru henni feingnir hanzkar; þá sagði hún:

„Þekta eg fíngur
þá forðum gjörðu."

Sagði drottníng enn, sem fyrri, og að hún þyrfti ekki að vera að klifa á því sama. Síðan var riðið út á skóg, að skemta sèr. En þegar fólkið kom að læk nokkrum, mælti Næfrakolla:

„Nú er eg komin að þeirri lind,
sem þau Fertram og Ísól bjarta
bundu sína trú
og vel mun hann halda hana nú."

Riðu menn þá leingra, þángað til komið var að gryfjunni; þá mælti Næfrakolla aptur:

„Hèr liggja Eya og Meya
báðar mínar skemmumeyar
gekk eg upp á gullskærum móður minnar.“

Nú sneri það heim aptur; hestur brúðarinnar hljóp þá á undan; hún mælti þá:

„Skaktu þig, skaktu þig, Skurbeinn,
einn muntu sofa í nótt
og svo mun úngi kóngurinn verða.“

Síðan hèldu menn til borgar. Ísól var þá komin heim; höfðu þær klæðaskipti, Næfrakolla og hún, og vissi einginn af því, nema drottníng sjálf. Hún spurði dóttur sína, hvað hún hefði gert af barninu. „Eg át það, móðir mín,“ mælti hún. „Það var rètt, dóttir mín,“ mælti drottníng. En er kvöld var komið, fóru menn að hátta; brúðguminn var háttaður, og brúðurin ætlaði að fara að afklæða sig. Brúðguminn spurði hana þá, hvað hún hefði sagt, þegar ermarnar hefðu verið dregnar á hana. „Eg held eg hafi ekki sagt mikið, og man eg ekki eptir því,“ segir Ísól; „en eg get spurt drottnínguna, hvað það hafi verið“. Nú fór hún og spurði, hvað stelpuskömmin hefði sagt, þegar ermarnar voru dregnar á hana, þegar hún reið út. Drottníng sagði henni, að hún hefði sagt:

„Vel sóma ermar
eiganda armi.“

Fór hún þá inn með þetta, og sagði brúðgumanum. Hún fór smá saman að reita af sèr fötin. Hann spurði hana enn, hvað hún hefði sagt, þegar hún tók við hönzkunum. „Það man eg ekki, það hefir fráleitt verið svo merkilegt,“ segir hún. „Þú verður samt að segja mèr það,“ mælti hann, „annars færðu ekki að fara upp í“. Hún fór þá og spurði móður sína, hvað það hefði verið, sem stelpan hefði sagt, þegar hún tók við hönzkunum. Hún sagði henni það:

„Þekta eg fíngur,
þá forðum gjörðu.“

Nú fór hún með þetta til hans, og sagði honum það Þá fór hún úr meiru; hann spurði hana þá í þriðja sinn, hvað hún hefði sagt, þegar hún kom að lindinni og gryfjunni, og í þriðja lagi, þegar hestur hennar hljóp á undan heim. „Það man eg ekki,“ sagði hún; „eg held það hafi ekki verið mikið“. „Þú verður samt að segja mèr það,“ mælti hann. Hún hljóp enn til móður sinnar og spurði hana að því. Hún sagði henni það; þegar hún kom að lindinni sagði hún:

„Nú er eg komin að þeirri lind,
sem þau Fertram og Ísól bjarta bundu sína trú,
og vel mun hann halda hana nú.“

þegar hún kom að gryfjunni, sagði hún:

„Hèr liggja Eya og Meya,
báðar mínar skemmumeyar,
gekk eg upp á gullskærum móður minnar.“

þriðja var, þegar hesturinn hljóp á undan, þá sagði hún:

„Skaktu þig, skaktu þig, Skurbeinn,
einn muntu sofa í nótt,
og svo mun úngi kóngurinn verða.“

Nú fór hún með þetta og sagði honum það alt, og ætlaði upp í. Hann tók þá sverð upp hjá stokknum, og lagði hana í gegn, og sagði, að það skyldi verða, að hann svæfi einn þá nótt. Í því kom drottníng og sá, hvað um var að vera; varð hún þá að flagði, en hann lagði hana jafnskjótt með sverðinu, og fèkk hún af því bana. Var þá sent eptir Næfrakollu, og varð hún að segja hið sanna frá öllu þessu. Gladdist kóngur þá mjög, er hann var frelsaður frá flagði þessu. Veizlan var þá aukin að nýu:

„Þar var á bórðum
pipraðir páfuglar,
saltaðir sjófiskar,
mimjam og timjam,
og multum salve.
Þar var drukkið:
Primet og Klaret
og vínið Garganus,
gullkistur um gólf dregnar
og gjafir mönnum gefnar;
þeir fóru þaðan fullríkir,
sem þángað komu fátækir.
Svo varð Fertram kóngur þegar hann dó;
þau áttu börn og burur,
grófu rætur og murur,
og svo kan eg ekki þessa sögu leingri[1].“

---

1. þessi ljóð eru nokkurs konar eptirmáli, sem vant er að hafa við niðurlag margra slíkra sagna, og þó ýmislega; er sumt í eptirmálanum tekið eptir niðurlaginu á Kríngilnefju-kvæði, en sumu þó hèr slept, sem vant er að hafa, til dæmis þessu:

„Köttur úti' í mýri
setti' upp á sèr stýri,
úti er æfintýri.
Smèrið rann,
roðið brann;
sagan upp á hvern mann,
sem hlýða.
Brenni þeim í kolli baun,
sem ekki gjalda mèr sögulaun
fyrri í dag, en á morgun.“

Margar missagnir eru til af þessari sögu, og mismuna þær talsvert bæði að frásögn, orða tiltækjum, fyrirsögn og nöfnum; því ýmist er hún kölluð, eins og hèr, eða sagan af Ísól björtu og Ísól svörtu, eða af Fertram og Ísoddu, eða Tístram og Ísól björtu, eða Tístram og Isoddu, og mun það alt vera sama sagan.

**Sagan af Tístram og Ísól björtu.** (Eptir sögn í Dala sýslu.) Eitt sinn rèð kóngur og drottníng fyrir landi einu. Þeim varð ei barna auðið, fèll kóngi það þúngt og sakaði drottníngu um það. Eitt sinn fór kóngur í leiðángur; sagði hann þá við drottníngu, að yrði hún ekki barnshafandi, er hann kæmi aptur, yrði það hennar bani. Drottníng varð mjög hrygg af orðum hans og grèt beisklega. Eitt kvöld var hún úti stödd; kom þá kona ein til hennar og spurði, því hún grèti. Drottníng sagði, sem var. Aðkomukonan bað hana gánga með sèr. Hún gjörir það, og geingu þær til sjávar. Þar var bátur einn lítill; setur aðkomukonan hann fram og biður drottníngu að stíga á hann; rær hún síðan, uns þær sjá land. Þar voru mörg silkitjöld á landi. Hin ókunna kona fær drottníngu rauðan og bláan silkiskrúða, en sjálf er hún í svörtum. Þetta var kóngurinn, eiginmaður drottníngar, er landtjöldin átti. Geingu þær nú gagnvart herbúðunum. Þetta sáu sveinar kóngs og sögðu honum, að þar geingu fagrar meyar. Kóngur mælti: „Færið mèr mærina þá fagrari.“ Þeir gerðu svo, og fóru með hana til kóngs; gekk hann í sæng með henni um kvöldið og samrekti henni um nóttina. En er undir morgun leið, tók gamla konan í hönd drottníngar, og fór með hana sömu leið til bátsins; reri hún, sem fyrri. Þegar þær komu til lands, fylgir hún drottníngu til hallar, og biður hana vera glaða, því að nú sè hún orðin barnshafandi. Nokkru síðar kom kóngurinn heim og var hann hinn sami við drottníngu sína; ól hún barnið og dó síðan. Ólst nú barnið upp hjá föður sínum; var það stúlka og fyrir fegurðar sakir var hún kölluð Ísól bjarta. Það var snemma iðja hennar að vera opt hjá veikum. Með sjónum voru græðsluhús, þángað gekk hún einatt. Einu sinni, þegar hún reikaði með sjó fram, sá hún stórt skrín og rak í það fótinn; heyrðist henni þá, sem barn grèti í skríninu. Kóngsdóttir átti kastala einn fagurbúinn, og hafði hún sèr 2 þernur, er hètu Eya og Freya; þessum bauð hún að taka skrínið, en þær hlógu og sögðu, að það sæmdi henni ekki, er væri kóngborin, að bera kuðúnga skrínu úr fjörunni heim til sín. Kom þá þykkja í Ísól, og kvaðst sjálf geta borið skrínið, og tók hún það undir hönd sèr. Fer hún nú með skrínið í kastala sinn og lauk því þar upp; sá hún þar sveinbarnsandlit undur fagurt, og var ritað í skrínislokið með gyltum stöfum: „Tístram kallaði hún sveininn sama.“ Epli lá í munni barnsins, og hafði það hrokkið út úr því, þegar Ísól setti fótinn í skrínið. Hún varð glöð við þetta, en þernurnar urðu hljóðar við. Hún gekk til föður síns, og bað hann lofa sèr að ala barnið upp, uns það yrði 12 ára. Svo hafði staðið á sveini þessum, að hann var kóngborinn. Ljósu hans þókti hann svo fagur, er hann fæddist, að hún fór þannig með barnið af hatri til drottníngar, og lèt dauðan hvolp hjá henni í staðinn; varð kóngurinn þá svo reiður, að hann myrti drottníngu sína, en fám dögum síðar beið hann ósigur fyrir ræníngjum, og drápu þeir hann. Einu sinni, þegar kóngur (ɔ: faðir Ísólar)

gekk með sjó fram, sá hann fyrir sèr konu eina fagra, og gekk á fund hennar. Hún var að greiða hár sitt með gullkambi. Hann gekk að henni, myntist við hana, og bað hana með sèr fara. En hún grèt og bar sig aumkunarlega. Hann huggaði hana, sem hann kunni, og kvaðst skyldi gera hana að eigin drottníngu sinni. Þá brosti konan og hugsaði sèr gott til glóðarinnar. Dóttur átti hún, er Ísóta svarta hèt, en ekki lèt hún kóng af því vita, og giptist hann henni þann sama dag.[1] Ísól var þar ekki við; því hún var ávalt í kastala sínum, nema hvað hún gekk sèr til skemtunar út á skóg. Þegar kóngur og drottníng höfðu eitt ár saman verið, kastaði hún fæð á hann; gekk hann fast á hana, að segja sèr, hvað fákæti hennar ylli. Hún sagði, sèr þækti hann hirða lítið um lönd sín og ríki. Við þessi orð brá honum mjög, og bjó þegar mikinn skipaflota; hèlt síðan af stað og tók Tístram með sèr; var hann þá 12 ára. Ísól saknaði hans mjög, en trygðir bundu þau sín á milli; skildi hún við hann grátandi og skemmumeyar hennar. Sigldu þeir svo burt. Drottníng var nú ekki aðgjörðalaus; rak hún þræla sína út á skóg, og sagði þeim að gera stóra

1. Aðrir segja svo frá byrjun þessarar sögu, að Tístram hafi verið sonur kóngsins og drottníngarinnar. En kóngurinn hafi haft þann vana að láta jafnan gánga á fjörur, og vita hvað að landi bæri, hafi þá menn hans einu sinni komið heim með bikaðan stokk ekki mjög lítinn; lèt kóngur opna hann og var í honum meybarn undurfrítt, og var epli í munni þess. Kóngi þókti vænt um þenna fund, og lèt hressa barnið við og fóstra það með syni sínum og kallaði það Ísoddu. Þau kóngur og drottníng unnu jafnmikið Ísoddu sem Tístram, og kölluðu hana dóttur sína. Þegar börnin eltust og voru fram undir það fullvaxta, hètu þau hvort öðru trygðum, svo ekki vissu foreldrar þeirra nè aðrir, því þau voru alt af saman, og allir álitu þau sem skilgetin systkin. Eptir þetta tók drottníng sótt, og gerði þá boð eptir börnum sínum, til að blessa þau, biðja fyrir þeim og mynnast við þau. Um leið gaf hún Ísoddu lynda, gullskæri og gullhríng, og sagði hún skyldi aldrei skilja þetta við sig, og hver sem hefði lyndann um sig, fyndi aldrei til sveingdar. Eptir þetta andast drottníng, og varð þá harmur mikill í borginni, en mest hörmuðu þau kóngur og börn hans lát hennar. Þau Tístram og Ísodda áttu kastala einn bæði saman, skamt frá kóngsborginni; sátu þau þar inni laungum, hann með sveinum sínum, og hún með meyum sínum; af þeim eru 2 nefndar, sem næst geingu kóngsdóttir um alla hluti, og henni voru kærastar; þær hètu Ey og Mey (Þey). Kóngur hafði ofan af fyrir sèr með útreiðum og útgaungum, og fór þá opt einmana. Á einni þeirri ferð fór hann leingra, en hann var vanur; kom hann þá fram í skógar rjóður eitt, þar sá hann konur tvær fríðar, aðra nokkuð við aldur, en hina únga, þær voru daprar í bragði, og gekk kóngur til þeirra og heilsaði þeim. Eldri konan greiddi sèr með gullkambi, þegar kóngur kom að þeim, og sveiflaði hárinu til hliðar, þegar hún varð mannsins vör og tók kveðju kóngs. Þau spyrja hvort annað um ástand þeirra, og lèzt eldri konan vera nýbúin að missa kóng sinn fyrir víkíngum, sem á hann hefðu herjað, og hefði hún þá farið úr landi með dóttur sína, og geingið hèr á land af skipunum, því sèr hefði þókt svo fagurt, hèr á land að líta. En þegar hún hefði komið aptur þángað, sem skipin voru, hefðu þau verið öll á burtu, og því hefðu þær mæðgur orðið þar eptir. Bað hún nú kóng að lofa að hafast við með hirð hans, og lèt hann það eptir henni. En skamt leið um, að eldri konan kom sèr svo í mjúkinn við kóng, að hann átti hana (síðan fer líkt fram, og segir í hinni sögunni).

gröf og djúpa, og byrgja hana síðan með neti, hálmi og skógargreinum. Þrælarnir gerðu, eins og hún lagði fyrir, og þegar þeir höfðu lokið starfa sínum, sögðu þeir drottníngu til. Daginn eptir var ágætt veður, og gekk stjúpa Ísólar til kastala hennar. Ísól býður hana velkomna, en þó var hún fákát mjög; vildi stjúpa hennar ræta af henni með öllu, er gæti verið henni til gleði. Hún bað hana gánga á skóg með sèr og þernur hennar og það gerði hún; gekk drottníng við hægri hlið Ísólar og Ísóta við hlið Freyu; töluðu þær margt saman, uns þær duttu í einu í gryfju eina allar þrjár, kóngsdóttir og þernur hennar; hlógu þær mæðgur þá hlátur stóran, sem flögð. Þá mælti stjúpan: „Nú er mátulega komið, í stað þess að þú, Ísól bjarta, áttir að eiga Tístram, skal nú Ísóta svarta eiga hann." Byrgja þær nú gryfjuna, og gánga heim í glöðum hug og þykjast vel hafa komið ár sinni fyrir borð; hótaði drottníng að drepa hvern þann, er nefndi Ísól björtu á nafn. Ísóta svarta sat nú í kastala hennar.[1] Nú er frá því að segja, að kóngur kemur heim úr leiðángri og Tístram með honum; geingu þær til strandar á móti þeim, drottníng og dóttir hennar; er þeim ekið í gulllegum vögnum heim til borgar. Tístram spyr að Ísól, en í stað þess að svara, ber drottníng honum drykk og biður hann drekka.[2] Tístram gerir það; en þegar hann hefir drukkið, bregður honum undarlega við, því hann man þá alls ekki eptir Ísól, heitmey sinni. Situr hann nú hjá kóngi í góðu yfirlæti, og er drottníng ávalt að hvetja hann til að eiga Ísótu, og lofar hann því; því hann mundi ekki eptir heitmey sinni. Ísóta sókti mjög fast á, að hann ætti sig heldur fyrr, en síðar. Nú er að segja frá Ísól og þernum hennar, að þær sátu inni byrgðar í gröfinni, og eptir lángan tíma deya þær Eya og Freya; en Ísól[3] tekur skæri upp úr vasa sínum, er móðir hennar hafði gefið henni í tannfè, og skyldi hún þau aldrei við sig skilja. Með þeim býr hún til tröppur upp úr gröfinni, og kemst hún svo upp, en missir skærin ofan í gryfjuna;[4] getur hún nú ekki unnið það fyrir að fara niður, til þess að ná þeim, heldur geingur hún af stað, uns hún kemur í eitt rjóður. Þar nemur hún staðar og veltir fyrir sèr, hvernig hún eigi að fara; þykir henni tiltækilegast að fara heim til

---

1. Hin sögnin segir, að þær drottníng og dóttir hennar hafi ekki komið heim, fyrr en nóttina eptir að þær geingu með Ísoddu og meyum hennar, hafi þær þá lagt eld í kastalann og brent hann upp.

2. Kóngur spurði sjálfur að því, þegar drottníng kom til strandar á móti honum, því Ísodda væri ekki með henni. En drottníng sagði, sem fyrir segir, að eina nótt skömmu eptir að kóngur var farinn burtu, hefði kastali hennar brunnið upp, og hefðu þær stallsystur líklega farið eitthvað ógætilega með eld eða ljós. Af þessu varð Tístram óhuggandi, og þá bar stjúpa hans honum drykkinn, en hann drakk, og fór þá, sem hèr segir.

3. Hún dó ekki, af því lyndinn forðaði henni húngurmorði.

4. og fíngurgullið, segir hin sögnin.

borgar,[1] en fara þó huldu höfði, svo hún þekkist ekki. Tekur hún því það ráð, að hún gerir sèr klæðnað úr skógarlaufum og fer í hann. Síðan geingur hún af stað til hallar kóngs, kemst í eldaskála og hittir eldabusku; var hún svaung mjög, og biður eldabusku að gefa sèr matarbita, en býður henni að bæta fyrir hana í staðinn og gera að fötum hennar; þáði kerlíng það. Ísól bætti og saumaði svo vel, að eigi þóktust menn hafa sèð slíkt handbragð. Nú líður að brúðkaupi Tístrams og Ísótu, og skal brúðarefnið sauma þeim föt; er hún nú í standandi vandræðum stödd, því ekki gat hún saumað klæðin, og var það þó ekki af því, að ekki væri nóg lagt til, heldur af hinu, að hún var vanari að leggjast með þrælum, en stunda hannyrðir. Út úr vandræðum fer hún nú til eldabuskunnar, og biður hana að hafa einhver góð ráð. Hún segist hafa kerlíngu í fórum sínum, sem sè vel fallin til að sauma klæðin. Ísóta verður mjög fegin og fær henni efnið í klæðin, en hún fer til Ísólar, og biður hana að sauma þau. Ísól saumar nú klæðin á þann hátt, að hún leggur alla sauma á klæðum brúðgumans með gulli, en hvergi brúðarklæðin. Fær hún nú kerlíngu fötin, þegar þau eru búin, og fer hún með þau til Ísótu. Ísóta tekur við þeim, og líkar henni stórilla, þegar hún sèr föt hans svo dýrleg, en sín óvönduð, en svo búið varð að standa, því ekki mátti fresta brúðkaupinu, þareð brúðurin var komin að falli. En þó dróst brúðkaupið of leingi, því nóttina fyrir varð hún lèttari, og var það barn þrælborið. Nú tekur hún það til bragðs, að hún sendir eptir konunni ókunnugu, sem saumaði klæðin, og biður hana að bera klæði sín og gánga í sinn stað einúngis þann daginn, því það sè heiðursdagur sinn, biður hún hana gera þetta fyrir sig, því hún liggi í blóðböndum eptir barnburð, en þess biður hún hana leingstra orða að tala ekki orð, því hún var hrædd um, að alt mundi þá komast upp, og Tístram mundi yfirgefa sig. Ísól gerir, sem hún beiddi. Fer nú veizlan fram og gánga brúðhjónin með mikilli fylgd á skóg sèr til skemtunar.[2] Vill þá svo til, að þau gánga hjá tóptarrúst einni. Þá segir brúðurin:

---

1. í garðshorn, sem var hjá borginni, og kallaði sig Næfrakollu; þar hafðist hún við hjá karli og kerlíngu, gerði alt fyrir þau, sem gera þurfti, var þeim trú og hlýðin; en þeim þókti vænt um hana, því bæði var hún hannyrðasteinka hin mesta, og kunni vel til matgerðar. Karl sagði drottníngu frá kvennmanni þessum, hældi henni á hvert reipi, og bauðst til að ljá drottníngu hana, þegar hún vildi.

2. Hin sögnin getur hvorki um klæðasauminn nè barneign Ísótu, en að það hafi verið venja brúðgumans, að ríða út við fámenni 3 daga á undan brúðkaupi sínu á afvikna staði, til að biðjast fyrir. Drottníng valdi þá Tístram til fylgdar Næfrakollu, því hún hugsaði, að hann mundi ekki verða ástfánginn af henni, en beiddi hana þess þó leingstra orða, að tala sem fæst við Tístram. Fyrsta daginn riðu þau hjá rústum þeim, sem eptir voru af kastala þeirra. Þá segir Næfrakolla:

„Áður varstu björt á fold,
nú ertu orðin svört af mold,

skemma mín.“ Tístram spurði, hvað hún segði, en hún þagði. Síðan geingu þau leingra, og hjá læk einum, þá mælti hún:

„Hèr rennur lækur sá,
er Tístram og Ísól bjarta
bundu sína ást og trú,
hann gaf mèr hrínginn,
eg gaf honum glófana,
og vel máttu muna það nú.“

---

„Hèr uxu laukar
og hèr göluðu gaukar.“*)

„Hvað sagðirðu núna?“ segir Tístram. „Eg sagði ekki neitt,“ svaraði Næfrakolla; „rídd þú, og rídd þú.“ Annan daginn riðu þau út á skóg hjá gryfjunni, sem drottníng hafði steypt þeim stallsystrum í. Þá segir Næfrakolla:

„Hèr liggur mitt fíngurgull og skæragull,
Hèr liggur mín Ey og Mey.“

Eptir það fóru þeim sömu orð á milli og fyrri daginn. Þriðja daginn ríðu þau yfir læk einn á skóginum, þá segir Næfrakolla:

„Hèr er nú sá lækur,
sem Tístram og Ísodda bundu sína ást og trú,
og vel skyldirðu halda hana nú.“

Þeim fara enn hin sömu orð á milli og fyrsta daginn, og vill Ísodda ekkert segja honum meira. Daginn eptir var búizt við brúðkaupi Tístrams og dóttur drottníngar, en Næfrakolla var feingin hjá karli og kerlíngu, til að gánga mönnum fyrir beina, og fór það alt í sniðum. Um kvöldið lèt Tístram kalla hana fyrir sig, inn í höllina, þar sem allir heyrðu á orð þeirra, og spurði hana, hvað hún hefði átt við með því, sem hún hefði sagt fyrsta daginn hjá kastalarústunum. Hún sagðist hafa sagt það eitt, sem satt var; því hún hefði átt laukagarð hjá kastalanum, en hann hauka (gauka?) marga, og hefðu þau skemt með hvorutveggja. Þá spyr hann hana, hvað það hafi átt að þýða, sem hún hefði sagt hjá gryfjunni. Hún segist hafa sagt söguna, eins og hún gekk, að þeim stallsystrum hefði verið steypt 3 í gryfjunna, og þar hefðu þær Ey og Mey orðið húngurmorða, en lyndinn hefði hlíft sèr, og hún hefði getað komizt upp úr gryfjunni með aðstoð skæranna, en mist þau aptur ofan í og fíngurgullið. „Hvernig stendur á þessu?“ segir kóngsson; „mèr finnst þetta svo undarlegt.“ Þá spyr hann hana enn, hvað hún hafi verið að tala um síðasta daginn. Hún segist hafa verið að rifja upp fyrir honum og minna hann á, að þau hafi heitið hvort öðru trygðum hjá læknum á skóginum. „Hvernig er þessu varið?“ segir kóngsson; „mèr finnst, eins og þú sèrt Ísodda, eða því fórust þèr þannig orð?“ Næfrakolla segir: „Af því eg er Ísodda.“ Þá hnykti öllum við, sem í höllinni voru; en þær mæðgur færðust í tröllshamina, og urðu margir til að gánga, áður en þeim varð komið í bönd og í dýflissu. Eptir það sagði Ísodda upp alla sögu, eins og hún hafði geingið. Settist hún svo á brúðarbekkinn hjá Tístram, en þær mæðgur voru settar aptan í ótemjur, sem slitu þær sundur. Tístram tók við ríkisstjórn af föður sínum, og unnu þau Ísodda hvort öðru mikið.

---

*) Sbr. vísuna, sem optast kemur fyrir í sögunni af Mjaðveig Mánadóttur.

Hann spurði hana, hvað hún segði svo opt, en hún þagði. Gánga þau nú leingra og hjá gryfju stórri, þá sagði hún og leit á gryfjuna:

„Hèr liggur Eya og Freya,
báðar mínar skemmumeyar.
Skæri mín þeim skildi eg hjá,
og dauðum gekk svo báðum frá.“[1]

Enn spyr hann hana, hvað hún tali og vilji ekki segja sèr. En hún þegir. Geingu þau síðan heim. Um kvöldið fer Ísól til Ísótu, og segist hafa lokið þessu fyrir hana, sè nú kominn tími til að gánga til rekkju. Ísóta dregst nú með veikan mátt í brúðarföt sín og geingur til sængur. Er Tístram þá kominn upp í, en hún ætlar þegar eptir. Hann mælti: „Bíddu við, þú ferð ekki upp í hvílu mína, fyrr en þú segir mèr orð þín hjá rústunum.“ Henni varð bylt við, en áttaði sig þó bráðum, og kvaðst hafa gleymt fíngurgulli sínu, og yrði hún að sækja það fyrst. Fer hún síðan út, og finnur Ísól, og spyr hana, því hún hafi ekki þagað, eins og hún hafi beðið hana, og hvað hún hafi sagt hjá rústinni. En hún hafði upp hin sömu orð. Hún fer nú inn, hafði upp orðin, og mælti síðan: „Nú vil eg fara upp í.“ Hann svarar: „Nei; þú bíður við. Hvað sagðirðu hjá læknum?“ Hún læzt hafa gleymt einhverju og fer aptur fram, og er hin reiðasta; talar hún þá þessum móðgunarorðum til Ísólar: „Hvern þremilinn kjaptaðirðu hjá læknum?“ Ísól sagði henni orð sín, og varð hún að hafa þau fjórum sinnum upp fyrir Ísótu, þángað til hún lærði þau. Geingur hún nú inn með fasi miklu, og segist ekki hafa talað stórt, og segir honum orðin. Er henni nú orðið mjög kalt, og segist hún verða að fara upp í, því sèr sè ílt. Hann svarar: „Ekki fyrr en þú segir, hvað þú talaðir hjá gryfjunni;“ fer hún nú fram í þriðja sinn. En hann fer að gruna margt, og læðist á eptir henni, og hefir sverð sitt í hendi. Heyrir hann þá, að hún atyrðir einhvern og gætir nákvæmar að og hlustar á talið. Heyrir hann nú, að hún segir, að hún megi þola þetta af honum í blóðböndunum, einúngis vegna kjaptæðisins í henni. Ísól segir henni orðin, og ætlar hún inn aptur með það. En Tístram hafði brugðið sverðinu í dyrunum og lagði hana ígegn. Síðan geingur hann að rúmi drottníngar og drap hana. Fer hann svo til Ísólar, en þekkir hana þó ekki, kallar hana inn til sín og setur sverðið fyrir brjóst henni og segist muni drepa hana, nema hún segi sèr satt. Ísól gjörir

---

1. þessa vísu hefir Herra Gísli Brynjúlfsson þannig (sjá athugasemd við næstu sögu á undan):

„Hèr liggur Ey og þey,
báðar mínar skemmu-mey;
skildi' eg eptir skærin hjá,
gekk eg báðum dauðum frá.“

það. Þá þekkir Tístram hana, og verður þar fagnaðarfundur. Þau gánga nú að hvílu kóngs og verður hann mjög feginn dóttur sinni. Síðan giptust þau og tók Tístram við kóngdómi eptir teingdaföður sinn og ríkti til dauðadags.[1]

**Sagan af Líneik og Laufey.** (Eptir handriti frá Jóni Sigurðssyni á Gautlöndum). Í fyrndinni rèð kóngur og drottníng fyrir einu voldugu og víðlendu ríki. Ekki er getið um nöfn þeirra, en frá hinu er sagt, að þau áttu tvö börn, son og dóttur, bæði frumvaxta, þegar saga þessi gerðist. Hèt kóngssonurinn Sigurður, en dóttirin Líneik; voru þau bæði vel að sèr bæði til munns og handa; svo varla fundust þeirra líkar, þó víða væri leitað. Þau unnust svo heitt, að hvorugt mátti af öðru sjá, og lèt kóngur byggja þeim skemmu eina mjög vandaða og velgjörða og fèkk þeim þjónustufólk eptir þörfum. Liðu svo fram tímar, að ekkert bar til tíðinda, þángað til að því kemur, að drottníng tekur sótt mikla. Lætur hún þá kalla kóng á sinn fund og segir honum ætlun sína, að þessi sótt muni leiða sig til bana. „Eru það tvær bænir, sem eg vil biðja þig,“ segir drottníng, „áður en eg dey, og vona eg, að þú munir hafa þær hugfastar; sú fyrri er, að ef þú leitar þèr kvonfángs aptur, þá leita þú ekki eptir því í smábæum eða úteyum, heldur í stórborgum eða þjóðlöndum, mun þèr það vel gefast. Hin bænin er sú, að þú leggir allan hug á að ala önn fyrir börnum okkar. Grunar mig að þèr verði að þeim mest gleði allra manna hèr eptir.“ Þegar drottníng hafði þetta mælt, andaðist hún; bar hann sig mjög aumlega eptir fráfall hennar, og sinti lítið ríkisstjórn. Eptir nokkurn tíma var það einn dag, að hinn æðsti ráðgjafi gekk fyrir kóng, og bar upp þau vankvæði lýðsins að ríkisstjórnin færi öll í ólestri, og að hann sinti ekki stjórnar störfum sökum harms og trega eptir drottníngu sína, og „er hitt konúnglegra,“ segir ráðgjafi, „að herða upp hugann og hyggja af hörmum sínum, en leita þess ráðs, sem þèr væri sæmd og virðíng í.“ „Slíkt er allmikið vandamál,“ segir kóngur, „en fyrst þú hefir hèr orði á komið, þá er bezt þú fáir virðínguna og vandann af þessu; vil eg fela þèr að leita mèr þess kvonfángs, sem mèr sè sæmd í, en það vil eg áskilja að þú kjósir mèr ekki konu úr smábæum eða úteyum.“ Er nú ferð ráðgjafans þegar búin með hinum beztu faungum og fögru föruneyti. Siglir hann svo frá landi, og þegar hann hefir nokkra stund farið leiðar sinnar, gerir á hann svo mikla þoku, að hann veit ekkert, hvar hann er. Hrekst hann í þessum hafvillum heilan mánuð, svo hann finnur hvergi land, en þegar hann varir sízt verður

---

1. Margt er svipað í þessum sögum báðum því, sem er í svensku sögunni „Prinsessan i Jord-kulan“ i Svenska Folk-sagor och Äfventyr. Samlade och utgifna af Gunnar Olaf Hyltén-Cavallius och George Stephens. Forsta Delen. Stockholm 1844. 8. 264—276. bls.

fyrir honum land nokkurt, sem hann þekkir ekki. Hittir hann á góða höfn, og setur tjöld á land. Verða þeir þar eingra manna varir og ætla því, að þetta sè eyðieya. Þegar menn höfðu tekið á sig náðir, geingur ráðgjafinn einn á land upp; hefir hann skamt geingið, þegar hann heyrir hljóðfæra slátt, svo fagran, að hann þykist aldrei hafa heyrt því líkan. Geingur hann nú á hljóðið, þángað til hann kemur í skógarrjóður eitt; þar sèr hann konu sitja á stóli svo fagra og tígulega, að hann þykist aldrei þvílíka fegurð sèð hafa; hún lèk svo vel á hörpu, að unun var að heyra, en við fótskör hennar sat mær ein forkunnar fögur og saung undir. Ráðgjafinn heilsar konunni mjög kurteislega, en hún stendur upp á móti honum og tekur kveðju hans mjög blíðlega. Konan spyr ráðgjafann, hvernig á ferðum hans standi, og hverra erinda hann fari, en hann segir henni hið ljósasta, hvernig standi á högum kóngs, og hver erindi sín sèu. „Það er þá líkt á komið með mèr og kóngi," segir konan; „eg var gipt einum ágætum kóngi, sem rèð fyrir þessu landi, en víkíngar komu og drápu hann, og lögðu landið undir sig, en eg flúði á laun með mey þessa, og er hún dóttir mín." En þegar mærin heyrði þessi orð, segir hún: „Segirðu nú satt?" en konan rak henni löðrúng og mælti: „Mundu hverju þú lofaðir." Ráðgjafinn spyr konuna að heiti, en hún kvaðst heita Blávör, en dóttir sín sagði hún hèti Laufey. Ráðgjafinn talar nú nokkra stund við konuna, og finnur hann þá, að hún er vitur og vel að sèr og hugsar með sèr, að hann muni aldrei komast í betra færi með að fá kóngi sínum kvonfáng, en hèr. Hefur hann þá bónorðið og biður Blávarar til handa kóngi; er það auðsókt, og kveðst hún þegar vera ferðbúin að fara með honum; „því eg hefi," segir hún, „alla mína góðgripi með mèr, en föruneyti hirði eg ekki um að hafa nema Laufey, dóttur mína." Er það ekki að orðleingja, að Blávör fer með ráðgjafanum til strandar og þær báðar; lætur hann þegar svipta tjöldum, halda til skipa og vinda upp segl í snatri. Er nú þokunni aflètt og sjá þeir, að þetta er eyðisker eitt lítið með hömrum alt í kríng, en þeir gefa því eingan gaum. Rennur þegar á blásandi byr. Þegar þeir hafa siglt í sex daga, sjá þeir land fyrir stafni, og þekkja, að þeir eru komnir fyrir höfuðborg kóngs síns. Varpa þeir þegar akkerum og gánga á land. Sendir ráðgjafinn þá heim til borgarinnar að boða komu sína. Verður kóngur harla glaður, og býr sig hinum bezta tignarskrúða sínum, til þess að taka á móti festarkonu sinni með fríðu föruneyti. En þegar hann er kominn á miðja leið til skipanna, mætir ráðgjafinn honum, og leiðir sína konuna við hverja hönd sèr; voru þær búnar fögrum klæðum og hinu mesta skrauti. Þegar kóngur lítur alt þetta skraut og ljóma, verður hann frá sèr numinn af gleði; þykist hann himin höndum tekið hafa, þegar hann veit, að eldri konan er honum föstnuð, því hún var enn álitlegri. Fagnar hann ráðgjafanum og þeim mæðgum með hinni mestu blíðu, og gáir þess ekki fyrir gleði

sakir að spyrja, hvaðan af landi þær sèu. Fylgir hann þeim til borgarinnar og lætur búa hin ágætustu herbergi handa þeim. Er síðan búizt við brúðkaupi og boðið til þess öllu stórmenni; en ekki er þess getið, að kóngsbörnunum, Sigurði og Líneik væri boðið, enda höfðu þau ekki enn komið á fund Blávarar, en kóngur sinti þeim lítið, og gáði einkis annars, en að sitja á tali við drottníngarefnið. Fór svo brúðkaupið fram með hinni mestu prýði og viðhöfn, og þegar það var á enda, voru allir útleystir með ágætum gjöfum, en kóngur settist að ríkjum í náðum. Líða svo fram nokkrir tímar, að ekki ber til tíðinda; tekur drottníng við ríkisstjórn ásamt kóngi, og þykir hún þá brátt öllu spilla. Gerist hún mjög einráð og drottnunargjörn, og fer kóngur að sjá, að sèr muni vera minni feingur í kvonfánginu, en hann hèlt í fyrstu. Ekki skipti drottníng sèr af þeim systkinum, Sigurði og Líneik, enda komu þau ekki á hennar fund, heldur hèldu til í skemmunni nætur og daga. Ekki mjög laungu eptir að drottníng hafði tekið við ríkisstjórn með manni sínum, verða menn þess varir, að hirðmenn hverfa, einn og einn, og veit einginn, hvað af þeim verður. Gefur kóngur þessu eingan gaum, en tekur sèr nýa hirðmenn; fer svo fram um hríð. Einhverju sinni kemur drottníng að máli við kóng og segir, að honum muni mál að heimta saman skatta af ríki sínu. „Mun eg gæta ríkisins, ámeðan þú ert burtu,“ segir hún. Kóngur varð fár við, en þorði þó varla annað, en hlýða drottníngu sinni; svo var hún þá orðin ráðrík, og ill viðskiptis. Býr nú kóngur ferð sína úr landi á fáeinum skipum, og er mjög dapur í bragði, en þegar hann er albúinn, geingur hann í skemmu barna sinna og heilsar hann þeim, en þau taka honum blíðlega. Hann varpar öndinni mæðilega og segir: „Ef svo fer, að eg komi ekki aptur úr ferð þessari, grunar mig, að ykkur muni hèr ekki leingi vært; vil eg svo fyrir mæla, að þið flýið burt á laun, þegar þið eruð orðin vonlaus um mína apturkomu. Skuluð þið halda í austur, og munuð þið þá innan skamms koma að fjalli einu háu og bröttu. Þið skuluð reyna að klifra upp á fjallið, og þegar þið eruð komin yfir það, mun lángur fjörður verða fyrir ykkur. Við botninn á firðinum standa tvö trè, annað grænt, en hitt rautt. Trèn eru hol innan, og er svo umbúið, að loka má aptur, svo eingin merki sèu að utan. Þið skuluð fara inn í trèn, sitt í hvort, og mun þá ekkert geta grandað ykkur.“ Eptir það kveður kóngur börn sín og snýr á burt og er mjög hryggur. Heldur hann nú til skipa, vindur upp segl, og siglir úr landi. En þegar hann hefir siglt skamma stund, lýstur á svo miklu ofviðri, að eingu verður við ráðið; fylgdu þessum stormi eldíngar og reiðarþrumur, og svo mikil býsn og undur, að einginn hafði slíkt sèð. Er þar fljótast frá að segja, að öll skipin brotnuðu í spón, og fórst kóngur þar með öllu liði sínu. Þá sömu nótt, sem kóngur týndist, dreymir Sigurð kóngsson, að honum þykir faðir sinn koma alvotur inn í skemmuna, taka kórónuna af höfði

sèr og leggja hana fyrir fætur sèr, og gánga síðan þegjandi út aptur. Sigurður segir Líneik drauminn, og þykjast þau nú vita, hvar komið sè; búa þau sig sem hraðast til burtferðar með gripi sína og klæði, en eingan fylgdarmann taka þau. Síðan halda þau á laun út úr borginni eptir tilvísun föður síns. En þegar þau eru komin að fjallinu verður þeim litið aptur; sjá þau þá, hvar stjúpa þeirra kemur á eptir þeim og er heldur ófrýnleg í bragði. Sýnist þeim hún líkari trölli en mönnum. Skógur mikill var undir fjallshlíðinni, sem þau höfðu farið í gegnum, og taka þau það ráð, að þau kveiktu í skóginum, svo hann stóð í björtu báli, og kemst Blávör ekki leingra, en að bálinu, og skilur þar með þeim. Klifra þau systkin upp á fjallið, og geingur þeim það næsta ervitt. En þó fer svo um ferðir þeirra, sem faðir þeirra hafði sagt fyrir, þau finna trèn og fara sitt í hvort. Var svo umbúið, að þau gátu bæði sèð hvort til annars og talað saman sèr til skemtunar. Víkur nú sögunni til annara atburða. Fyrir Grikklandi rèð þenna tíma einn voldugur og ágætur kóngur. Ekki er getið um nafn hans. Hann átti tvö börn við drottníngu sinni, son og dóttur, og eru þau ekki heldur nefnd. Þau voru bæði væn og vel gefin, og um fram aðra menn á þeim tímum að fríðleik og atgjörvi. Þegar kóngsson er því nær frumvaxta, heldur hann í hernað til að afla sèr fjár og mannvirðíngar; rekur hann hernað nokkra stund á sumrum, en situr heima í Grikklandi um vetur. Í þessum herferðum sínum heyrir hann opt getið um Líneik kóngsdóttur, að hún sè afbragð allra annara kvenna að fríðleik og atgjörvi. Ræður hann það þá einhverju sinni af, að hann siglir í bónorðsför til Líneikar. Þegar hann kemur að landi, veit Blávör af fjölkynngi sinni fyrir komu hans; býr hún sig því og dóttur sína hinu fegursta skrauti, og geingur til strandar móti kóngssyni. Kóngsson tekur þeim mæðgum blíðlega og spyr tíðinda. Drottníng segir honum með miklum harmi frá því, að maðurinn sinn hafi farizt með öllu liði sínu, þegar hann hafi verið að heimta skatta af löndum sínum, og er hún mjög sorgbitin og áhyggjufull. Kóngsson spyr eptir Líneik kóngsdóttur. En drottníng segir, að það sè þessi mær, sem hún leiði við hönd sèr. Kóngsson lætur sèr fátt um finnast, og segist hafa ætlað, að hún mundi vera miklu fríðari. Drottníng segir, að það sè eðlilegt, hún sè döpur í bragði og fölleit af svo miklum harmi, sem hún hafi beðið í missi bróður síns og föður. Kóngssyni þykir það og alllíklegt; fer þá svo, að hann hefur upp bónorðið, og er það auðsókt hjá þeim mæðgum. Býr svo kóngsson aptur ferð sína heim sem bráðast með meyna, og ætlar að það sè Líneik. Vill drottníng fara með, en kóngsson vill það ekki, og verður svo að vera, sem hann vildi. Þegar hann er skamt kominn frá landi, gerir á hann hafvillu, svo hann veit ekki fyrri til, en hann er kominn inn á einn fjörð lángan. Kóngsson skýtur báti fyrir borð, og heldur á land; sèr hann standa tvö trè við fjarðarbotninn svo fögur, að hann

þykist aldrei hafa sèð jafnfögur trè. Hann lætur höggva upp trèn og flytja þau til skipa, og með því þokunni er þá aflètt, vindur hann upp segl, og siglir sem hraðast heim til Grikklands. Leiðir hann festarmey sína heim til borgar, og lætur veita henni alla sæmd; fær hann henni sitt eigið svefnherbergi til íbúðar, og skal hún sitja þar á daginn en vera í skemmu kóngsdóttur um nætur. Kóngsson hefir svo miklar mætur á trjánum fögru, að hann lætur flytja þau í svefnherbergi sitt, og reisa annað upp til höfðalags við rekkju sína, en annað til fóta. Þegar hann hefir komið öllu þessu til leiðar, er búizt við brúðkaupi. Fær hann Líneik, sem reyndar var Laufey, efni í þrennan klæðnað handa sèr, bláan, rauðan og grænan, og mælir svo fyrir, að öll klæðin skuli albúin, áður en brúðkaup þeirra væri haldið. Fyrst átti hún að gera bláu klæðin, þvínæst hin rauðu, og seinast hin grænu, enda áttu þau að vera bezt gerð af þeim öllum; „mun eg sjálfur bera þau á brúðkaupsdegi okkar“ mælti kóngsson. Laufey tekur við klæðinn, en kóngsson geingur á burt. Setur nú að henni grát mikinn, því Blávör kerlíng hafði ekki kent henni hannyrðir; hafði hún aldrei setið við sauma á æfi sinni, og allra sízt svo vandaða, sem þessir voru, svo hún þykist vita það fyrir víst, að þegar hún getur ekki lokið klæðagerðinni, muni kóngsson reka sig í burt með smán og fyrirlitníngu, og jafnvel drepa sig, og fær það henni mikillar hrygðar. Þau systkin, Sigurður og Líneik, sátu nú í trjánum, eins og áður er sagt; sjá þau alt hvað gerist í svefnherbergi kóngssonar og heyra harmatölur Laufeyar; kemst Sigurður kóngsson mjög við af þeim og segir til systur sinnar:

„Líneik systir,<br>
Laufey grætur.<br>
Bættu um borða,<br>
ef betur þèr lætur.“

Líneik svarar: „Manstu ekki<br>
fjallið háva,<br>
brekkuna bröttu<br>
og bálið undir.“

En svo fær Sigurður talið um fyrir Líneik, að hún fer út úr trènu og sezt að saumum með Laufey. Ljúka þær nú við fyrsta klæðnaðinn, og er Laufey næsta glöð yfir, hvað hann er vandaður og vel gerður. Fer þá Líneik inn í trèð aptur, en Laufey færir kóngssyni klæðnaðinn; hann lítur á og mælti: „Aldrei hefi eg sèð jafngóð klæði og velgjör, sem þessi, og far þú nú til með rauðu klæðin, og lát þau vera að því skapi betur gerð, en þessi, sem efnið er kostulegra.“ Fer nú Laufey aptur til herbergisins, sezt niður og fer að gráta. Sigurður kóngsson kallar þá til systur sinnar hinum sömu orðum, og fyr, og segir:

„Líneik systir,
Laufey grætur.
Bættu um borða
ef betur þèr lætur.“

En hún svarar:

„Manstu ekki
fjallið háva,
brekkuna bröttu
og bálið undir.“

En svo fór, sem fyrri, að Líneik fer úr trènu og sezt að saumum. Gerir hún nú þessi klæðin miklu vandlegar, en hin; voru þau öll gulli saumuð og sett gimsteinum, og þegar þeim var lokið, fær hún Laufey klæðin og segir, að hún skuli færa kóngssyni þau, en fer sjálf inn í trèð. Laufey geingur á fund kóngssonar með klæðin og færir honum; hann lítur á þau og segir: „Miklu eru þessi klæði betur gerð, en líkindi sè til, að þú hafir ein fjatlað um þau; grunar mig, að fleiri, en eg veit, muni hafa lagt hönd á þau. Farðu nú og gerðu hin þriðju klæðin, og vertu búin á þriggja nátta fresti; skulu þau bera af hinum, eins og gull ber af eiri; mun eg og bera þau á okkar brúðkaups degi.“ Geingur Laufey til herbergis síns, sezt niður og grætur. Sigurður kóngsson kemst mjög við af harmatölum hennar, og talar við systur sína, eins og fyr. Er ekki að orðleingja það, að Líneik fer út úr trènu, þó hún sè nauðug, og tekur til sauma með Laufey, og er nú miklu meir borið í klæðin, en fyr, og má svo að orði kveða, að hvergi sæi í klæðið fyrir gullrásum og gimsteinum. En á hinum þriðja degi vita þær Líneik og Laufey ekki fyrr en kóngssyni vindur þar inn. Verður Líneik mjög hverft við, og ætlar að komast inn í trèð, en kóngsson verður fyrri til, þrífur í klæði hennar, setur hana hjá sèr, og segir: „Það hefir mig leingi grunað, að hèr væri brögð í tafli, og seg mèr nafn þitt.“ Líneik sagði honum hið sanna og einnig, hverrar ættar hún væri. Kóngsson leit þá mjög reiðuglega til Laufeyar, og sagði, að hún væri þess makleg, að hún væri kvalin hinum verstu kvölum fyrir gabb sitt og lygi. Laufey fèll til fóta kóngssyni og bað hann vægðar: „Hefi eg,“ segir hún, „í eingu öðru gabbað þig, en í klæðagjörðinni, af því Líneik lagði svo ríkt á við mig, að leyna því, hver þau hefði gert. Máttu muna það, að eg hefi aldrei sagt þèr, að eg væri Líneik kóngsdóttir, heldur var það móðir mín, sem svo er kölluð, sem hefir gabbað þig.“ Meðan þau voru að ræða um þetta kemur Sigurður kóngsson út úr trènu. Verður þar fagnaðarfundur með þeim öllum saman, og er það fljótt frá að segja, að kóngsson hefur bónorð að nýu og biður Líneikar handa sèr, en hún svarar því, að hún muni eingum lofast, fyrr en stjúpa sín sè af dögum ráðin. Segir nú Laufey upp alla sögu, að Blávör

sè hið argasta tröll, og hafi ráðið fyrir ey þeirri, sem hún var í, þegar ráðgjafinn kom til hennar. Átti hún bygð í stórum helli þar, og fjöldi annara trölla. „En eg er,“ mælti hún, „kóngsdóttir úr nágrenninu; nam Blávör mig á burt á laun, og kvaðst mundi drepa mig, nema eg sannaði öll orð hennar; hlaut eg að lofa þessu, heldur en að missa lífið. Kallaði hún mig dóttur sína, og ætlaði að gera það líklegt með því, að hún væri kóngborin. Hefir Blávör valdið dauða kóngsins föður ykkar; olli hún og því hinu mikla mannahvarfi í borg föður ykkar, tók hún þá og át á nóttunni, og er það eðli trölla. Er það ætlan hennar að eyða öllu fólki af ættjörð ykkar og byggja hana síðan trölla hyski sínu“. Þeir kóngsson og Sigurður safna mönnum sem skjótast og búast á burtu. Segir ekki af ferðum þeirra, fyrr en þeir koma að höfuðborg þeirri, sem Blávör rèð fyrir; koma þeir öllum á óvart og var fátt manna fyrir, því allan fjöldann hafði Blávör drepið, en sumir voru flúnir úr borginni sökum tröllskapar hennar. Verður þá ekki af vörn, og er Blávör tekin höndum; verður hún þá mjög illileg, en þeir gefa henni eingin grið, lemja hana grjóti til bana, og brenna hana síðan á björtu báli. Snúa þeir síðan heim til Grikklands, og þegar þeir koma þángað, er búizt við brúðkaupi, og boðið öllu stórmenni. Í þeirri veizlu hefur Sigurður bónorð sitt til kóngsdótturinnar frá Grikklandi, og er það auðsókt, og eru þannig bæði brúðkaupin haldin í einu. Þegar veizlunni var lokið, eru gestirnir leystir út með ágætum gjöfum. Sezt nú Sigurður að ríkjum þar í Grikklandi, en kóngsson og þau Líneik hèldu til föðurleifðar hennar, og tóku þar við ríkisstjórn. Urðu allir menn því fegnir, að afspreingur hins fyrra kóngs var kominn þar til valda. Laufey fór með Líneik og var henni útvegað sæmilegt gjaforð, og tók hún síðan við föðurleifð sinni, því faðir hennar hafði látizt af harmi eptir hana. Stýrðu allir þessir kóngar ríkjum sínum leingi og vel í náðum, og lýkur svo þessari sögu.

**Ásmundur kóngsson og Signý systir hans.** (Eptir sögn úr Dalasýslu.) Eitt sinn rèð konúngur nokkur löndum; hann var kvæntur og átti 2 börn við konu sinni, son og dóttur; hèt sonur hans Ásmundur, en Signý dóttir; þau voru mannvænlegust kóngabarna, er menn höfðu spurn af á þeim tíma, og voru þeim kendar allar listir, sem konúngbornum hæfði að kunna; ólust þau upp hjá föður sínum í miklu eptirlæti. Kóngur gaf Ásmundi syni sínum eikur 2, sem stóðu úti á skógi, og hafði hann það að skemtun að hola þær innan og búa til í þeim allskonar herbergi; gekk Signý opt með honum og dáðist að eikunum, og vildi hún eiga þær með honum. Það lèt hann eptir henni og bar hún þángað allskonar gimsteina og dýrgripi, sem móðir hennar gaf henni. Eitthvert sinn bar svo við, að faðir þeirra fór í hernað, en á meðan tók drottníng sótt og andaðist. Þá fóru systkinin út á skóg og settust í eikurnar; höfðu þau með sèr nægan árs forða handa sèr. Nú er frá því að segja, að í öðru landi ríkti kóngur

einn; hann átti son, er Hríngur hèt. Hríngur hafði heyrt um vænleik Signýar og ásetti sèr að biðja hennar sèr til handa; fær hann hjá föður sínum eitt skip til ferðar; gaf honum vel byri og kom við land, þar sem Signý átti heima. En sem hann ætlaði að gánga til hallar, sèr hann konu koma á móti sèr forkunnar fríða, og þóttist hann aldrei slíka sèð hafa. Hann spurði, hver þar færi, en hún kvaðst vera Signý kóngsdóttir. Hann spurði hana, því hún færi ein. Hún sagði, að það væri af sorg eptir móður sína, faðir sinn væri ekki heldur heima. Kóngsson kvaðst hafa erindi til hennar, fyrst svona væri komið, og væri það á þá leið, að leita ráðahags við hana. Hún tók því vel, en bað hann til skipa gánga, því hún kvaðst ætla leingra inn í skóginn; geingur hún nú til eikanna og rífur þær upp með rótum, leggur síðan aðra í bak, en aðra í fyrir og ber þær til sjávar og veður með þær á skip út; gjörir hún sig fagra, sem fyrri og segir kóngssyni, að farángur sinn sè kominn; segist hún ekki annað fè eiga. Sigla þau nú heim og fagna foreldrar hans og systir honum vel. Hann fær Signýu fagran kastala og lætur setja eikurnar fyrir framan gluggana. Eptir hálfan mánuð kemur hann út til hennar og segist innan 14 daga vilja gipta sig henni og fær henni um leið mjög vandað efni til brúðfata handa þeim báðum og skyldi hún sauma þau. En er hann var burtu geinginn, kastar hún klæðunum á gólfið, ólmast svo og umsnýst, er hún þá orðin að versta flagði og segist ekki vita, hvað hún eigi að gjöra við slíkt skart, sem aldrei hafi á neinu snert, nema að jeta mannakjöt og bryðja hrossabein; ólmast hún nú enn meir, og segist mega úr húngri deya, því aldrei komi Járnhaus bróðir sinn með kisturnar eins og hann hafi lofað sèr. En í sama bili spretta 3 fjalir upp úr kastalagólfinu og kemur þar upp jötun með afarstóra kistu. Þau rífa bæði upp kistuna og er hún full með mannabúka; rífa þau það í sig og fer svo bróðir hennar niður aptur sama veg og sèr eingin vegsummerki á gólfinu. Þegar hún er búin að setja sig, ólmast hún enn meira, en áður og þrífur klæðin og ætlar að rífa þau í sundur. Nú er að segja frá kóngsbörnunum, að þau eru í eikunum og hafa sèð allar þessar aðfarir; biður þá Ásmundur Signýu að gánga út úr eikinni og ná klæðunum, heldur en að heyra þessi óargalæti dag og nótt. Signý gjörir það; saumar hún nú fötin á sex dögum, sem bezt hún má; geingur síðan út með þau og kastar þeim á borðið. Skessan verður glöð við það. Nú kemur kóngsson til hennar og fær hún honum fötin; dáðist hann að handbragði hennar og skildu þau með blíðu. Skessan aðhefst nú alt hið sama, sem fyrri, þángað til Járnhaus kemur; sèr nú Ásmundur allan þennan aðgáng og geingur til fundar við kóngsson og biður hann að horfa um daginn á leik einn, sem gjörist í kastala hinnar nýkomnu kóngsdóttur; verður honum flent við, að heyra þetta um unnustu sína. Þeir gánga nú báðir og fela sig á milli þilja, þar sem þeir geta sèð inn til hennar. Hamast hún nú, sem fyrr, og segir við Járnhaus,

þegar hann kemur: „þegar eg er búin að eiga kóngsson, skal eg lifa betur, en nú, þá skal eg drepa alt pakkið í höllinni og koma með ætt mína, og þá held eg tröllin gleðji sig við mig og mann minn.“ Verður kóngsson svo reiður við þetta, að hann kveykir í kastalanum og brennir hann til kaldra kola. Ásmundur segir honum nú alt um eikurnar og undrast hann mjög fegurð Signýar og þess sem þar inni var. Biður hann nú Signýar systur Ásmundar, en Ásmundur systur Hríngs; fara þau brúðkaup bæði fram. Ásmundur fer nú heim og til föður síns. Tóku þeir mágar ríki eptir feður sína og ríktu til elli daga. Og lýkur svo þessari sögu.

**Sigurður kóngsson.** (Eptir handriti Jóns prests Kristjánssonar frá Yztafelli.) Einu sinni var kóngur og drottníng, sem rèðu fyrir ríki. Þau áttu fjórar dætur; allar voru þær vænar, en þó unni kóngur mest ýngstu dóttur sinni. Einn dag reið kóngur á dýraveiðar með mönnum sínum, og varð fyrir þeim hjartarkolla ein, sem þeir eltu; gekk svo leingi fram eptir deginum, og urðu allir menn kóngs eptir af honum, því hann hafði fljótastan hest. Elti kóngur einn dýrið, þángað til hann var kominn leingst inn í skóg; missir hann þá sjónar á dýrinu, og fór nú villur vegar í skóginum. Þegar kvöld var komið, kom hann loks að húsi einu; þar var hurð í hálfa gátt. Kóngur gekk þar inn og hitti fyrir sèr eitt herbergi; var þar ljós á borði og vistir og vín. Rúm var þar upp búið, en eingan mann sá hann. Hundur einn mórauður lá á gólfinu. Kóngur gekk út aptur, og hittir fyrir sèr opið hesthús fyrir einn hest, og nóg fóður í stalli; lèt hann þar inn hest sinn, og gekk aptur til herbergisins og beið þess, að húsráðandinn kæmi. En þegar leið undir miðnætti, og einginn kom, gerir kóngur sig heima kominn, tók til kvöldverðar og háttaði. Kóngur sofnaði fljótt og vaknaði ekki, fyrr en dagur var kominn; reis hann þá úr rekkju, en eingan mann sá hann enn, en nógar voru vistir og vín á borði, og mórauði hundurinn lá á gólfinu. Kóngur gekk út og vitjaði um hest sinn; hafði hann og nóg fóður. Fór kóngur þá og tók sèr morgunverð, tók síðan hest sinn og reið leiðar sinnar. Þegar hann hafði riðið um stund, kom hann á einn hól; kom mórauði hundurinn eptir honum og náði honum þar og var mjög grimmilegur. Hundurinn segir, að kóngur sè mjög óþakklátur; kveðst hann hafa hýst kóng í nótt, veitt honum vistir og vín og rúm, til að sofa í og gefið hesti hans fóður, en kóngur hafi farið á stað, að hann hafi ekki svo mikið sem þakkað sèr fyrir; segist hann nú þegar í stað muni rífa hann í hel, nema því að eins, að hann heiti sèr því, sem fyrst mætti honum, þegar hann komi heim. Kóngur lofar þessu, til að leysa líf sitt, og kvaðst Móri mundi vitja þess á þriggja daga fresti.[1] Hèlt kóngur síðan heimleiðis. Nú er að segja frá því, að allir

1. Þessum hluta sögunnar svipar nokkuð til sögunnar af Skrýmslinu góða í Kvöldvökunum 1794. Önnur útgáfa. Reykjavík, 1848. bindi, 120—138. bls.

urðu mjög áhyggjufullir í höll kóngs, þegar hann kom ekki heim um kvöldið, en mest fèllst þó ýngstu dóttur hans um það. Hún fór um morguninn upp í turn einn í borginni, og horfði þaðan, hvort hún sæi ekki föður sinn koma, og þegar hún sá hann koma, hljóp hún út í móti honum, til að fagna honum. Kóngur varð hryggur við, þegar hann mætti dóttur sinni; fóru þau svo heim til hallar, og urðu allir honum fegnir. Þegar kóngur var seztur undir borð, segir hann frá ferðum sínum, og hvert heit honum var á hendi, en að hann mundi það aldrei gera, að láta dóttur sína. Nú leið til þriðja dags, þá er drepið á dyr hallarinnar. Maður er sendur til dyra, og þegar hann kemur aptur, kvaðst hann eingan hafa sèð, nema mórauðan hund. Vissu menn þá, hvað vera mundi, og vill kóngsdóttir fara, en kóngur sagði, að það skyldi aldrei verða. Var þá þerna send til dyra, og þegar hún kom mælti hundurinn: „Ertu mèr send?" Þernan þagði, en hundurinn lèt hana fara þegar á bak sèr, og hljóp burt út á skóg. Hann nam staðar á hól einum, og lèt hana fara af hrygg sèr. Þá segir hann: „Hvað mun nú fram orðið?" Hún segist ekki vita það, en það muni vera í sama mund, sem hún sè vön að sópa höll kóngs. „Ertu þá ekki kóngsdóttir?" segir hann; hún kvað nei við. Þá reif hundurinn hana til bana. Daginn eptir var enn drepið á hallardyr, og gekk maður til dyra. Þegar hann kemur aptur, segir hann, að úti sè mórauði hundurinn, og sè hann mjög illúðlegur. Skilja menn þá, hvað í efni muni vera, og vill kóngsdóttir fara, en kóngur bannar það; er þá önnur þerna send út. Þegar hún kemur að hundinum spyr hann, hvort hún sè sèr send, en hún þegir. Móri lèt hana fara á bak sèr, og hljóp á stað, en þegar hann kom á hólinn, hristir hann hana af sèr, og spyr, hvað muni nú fram orðið. Hún segir, að það muni vera í það mund, sem hún sè vön, að bera á borð kóngs. „Ertu þá ekki kóngsdóttir?" segir hann. Hún neitar því, og rífur hann hana þá til bana. Daginn eptir var enn drepið á hallardyr, og var maður sendur út; hann kemur þegar aptur og segir, að úti sè enn þá hundurinn mórauði, og sè hann nú hvað grimmilegastur. Vill kóngsdóttir þá enn fara, en kóngur vill ekki. Hún kvað sèr ekki annað kærara, en leysa líf hans, og fór samt. Þegar hún kemur út fyrir hallardyr, þar sem hundurinn var, þá segir hann: „Ertu mèr send?" Hún segir: „Já." Hann lætur hana setjast á hrygg sèr, og hljóp á stað. Þegar hann er kominn út á skóg og að hól þeim, sem áður er nefndur, hristi hann hana af sèr og mælti: „Hvað mun nú fram orðið?" Hún kvaðst ætla, að nú væri í það mund, sem hún væri vön að gánga í höll föður síns. „Þú ert þá kóngsdóttir" segir hann. Hún játar því. Lætur hann hana þá aptur fara á hrygg sèr, og ber hana, þángað til þau koma að húsi einu. Þar fer hundurinn inn með kóngsdóttur; segir hann, að þar eigi hún að búa; var þar inni borð og rúm og stóll, og allir hlutir voru þar, sem hún þurfti með og það, sem henni gat orðið til skemtunar. Átti hún þar

ein öllu að ráða. Liðu nú fram stundir; sá hún aldrei neinn mann, en á hverri nóttu svaf maður í rúminu hjá henni. Hundurinn Móri hèlt þar til kvöld og morgna, en opt var hann burtu um daga. Nú verður kóngsdóttir þúnguð. Einu sinni segir Móri við hana, að nú sè þar komið, að hún muni fæða, og muni barnið verða tekið frá henni. Hann biður hana bera sig svo vel, sem hún geti, og tárfella ekki; því sig varði það miklu; en fari svo, að hún tárfelli, þá skuli hún láta tárin í dúk, sem hann fèkk henni. Gekk hann síðan burt. Elur nú kóngsdóttir barn. Það var meybarn dáfrítt; hún laugar það og reifar, leggur það síðan hjá sèr í rúmið, og hallast ofan að því biðjandi; ber þá skugga á glugga hússins, og í því flýgur inn gammur einn, og tekur barnið í klær sèr og flýgur á burt. Sárt fèll kóngsdóttur missir þessi, þó grèt hún ekki. Móri kom nú til hennar, og var vingjarnlegur. Hann færði henni gullkamb, og sagði, að hún skyldi eiga hann fyrir stöðuglyndi sitt. Nú líður enn leingi, þá segir Móri einu sinni, að nú sè kóngsson einn kominn til föður hennar, og hafi beðið elztu systur hennar, og sè nú brúðkaup þeirra fyrir hendi. Hann spyr hana, hvort hún vilji vera í brúðkaupi systur sinnar, og vill hún það. Ber hann hana þá á hól þann, sem fyrr er nefndur, og vísar henni leið heim til hallar föður hennar. Hann gefur henni tvennan kvennskrúða, og segir, að hún muni gefa systur sinni annan, til að vera í á sínum heiðursdegi, en annan skuli hún sjálf eiga. Að skilnaði biður hann hana, að segja ekkert um hagi sína, og vera ekki í burtu nema þrjá daga, og koma þá aptur á þenna sama hól. Nú kemur kóngsdóttir heim, og er henni vel fagnað. Sat hún þar í brúðkaupi systur sinnar, og gaf henni skrúðann, og þókti mönnum mikið varið í hann. Ekki vildi hún segja neitt um hagi sína, þó hún væri opt spurð, nema það, að sèr liði vel. Fór hún svo heim aptur á þriðja degi, og þegar hún kom á hólinn, var hundurinn Móri þar fyrir. Flutti hann hana heim til húss síns. Liðu nú tímar, og verður kóngsdóttir þúnguð í annað sinn; segir þá hundurinn Móri enn við hana, að nú muni hún fæða og barnið verða, sem fyr, tekið frá henni; biður hann hana, að bera sig svo vel, sem henni sè unt, og tárfella ekki; því sèr ríði það á miklu. Þó skuli hún hafa dúkinn við, segir hann, því henni muni nú finnast meir um barna missinn. Síðan gekk hann burt. Kóngsdóttir elur barnið; það var meybarn dáfrítt. Hún laugar það og reifar og leggur það svo í rúmið fyrir framan sig, og hallast að því með viðkvæmri móðurást. Í því bili sèr hún, að skugga ber á húsgluggann, og þykist vita, hvað valda muni. Snýr hún sèr þá til veggjar; því hún treysti sèr ekki til, að horfa á, þegar barnið væri tekið. Gammurinn kom inn og þreif barnið í klær sèr, og flaug með það í burtu; ekki tárfeldi kóngsdóttir enn. Þegar Móri kom var hann mjög vingjarnlegur, og færir kóngsdóttur hálsfesti úr gulli, setta með gimsteinum, og segir, að hún skuli eiga hana fyrir staðfestu sína. Líða nú enn tímar, þá segir Móri

henni, að nú sè kominn til föður hennar annar kóngsson og ætli að eiga hina systur hennar, og megi hún fara í brúðkaup hennar, ef hún vilji það, og þáði hún það. Hann gefur henni og skrúða góðan handa þessari systur sinni, og henni sjálfri annan, og fylgir henni á hólinn, og biður hana að vera ekki leingur, en 3 daga burtu, og ekki segja neitt um hagi sína. Kóngsdóttir fer nú heim, og er henni fagnað, eins og fyrri. Hún er í brúðkaupi systur sinnar og gefur henni skrúðann. Ekkert segir hún af högum sínum, nema sèr líði vel, og að þrem dögum liðnum fer hún aptur á hólinn; er Móri þar þá fyrir og fagnar henni, og flytur hana heim í hús sitt. Líða nú enn tímar, og verður kóngsdóttir þúnguð í þriðja sinn, og þegar að því var komið, að hún skyldi fæða, segir hundurinn Móri, að nú komi að því, að hún muni verða lèttari, og enn verði þetta barn tekið frá henni. Biður hann hana, eins og fyrr, að berast vel af og æðrast ekki, en nú muni henni samt mest um finnast, og skuli hún gæta þess vel, ef hún tárfelli, að láta tárin falla í klútinn, því sèr ríði það á miklu. Hann geingur síðan burtu. Ól nú kóngsdóttir barnið, og var það fagurt sveinbarn. Hún laugar það og reifar og leggur í rúmið hjá sèr, og sýnir því mikla ást; þá sèr hún, að skugga ber fyrir gluggann, og snýr hún sèr þá frá barninu, og heldur klútnum fyrir andlit sèr; í því kemur sami gammurinn, og grípur barnið í klær sèr, og flýgur burtu. Hraut þá kóngsdóttur eitt tár, og fèll það í horn klútsins, en hún hnýtti að. Eptir það kom Móri inn vinalegur, eins og fyrr, en þó eins og óglaðari. Hann segir, að nú hafi tekizt miður til, en hann vildi. Hann gefur henni nú spegil einn, greiptan í gulli, og segir, að hún skuli eiga hann fyrir þolgæði sitt. Nokkru seinna segir hann henni, að nú ætli kóngsson einn að giptast þriðju systur hennar, og megi hún einnig fara í brúðkaup hennar, og gefur hann henni enn 2 kvennskrúða, annan handa systur hennar, en hinn handa henni sjálfri; fylgir henni síðan á hólinn og bað hana enn að muna sig um að segja ekkert um hagi sína, og koma aptur eptir 3 daga. Hún fer heim, og er henni fagnað vel; gefur hún systur sinni skrúðann, til að klæðast í á heiðursdegi hennar; í hinn fór hún sjálf. Dvaldi hún þar í 3 daga, en ekki sagði hún annað af högum sínum, en að sèr liði vel. Þegar hún fór af stað, gekk drottníngin móðir hennar á veg með henni, og leitar hún þá fyrst á hana um það, hvernig högum hennar væri varið. Hún sagði henni það eitt, að maður svæfi hjá sèr hverja nótt, en hún hefði aldrei sèð hann. Drottníng gaf henni þá stein einn, og sagði, að þegar maður sá væri sofnaður hjá henni, skyldi hún bregða steininum yfir andlit honum og mundi hún þá geta sèð hann. Síðan kvöddust þær. Þegar kóngsdóttir kom að hólnum var Móri þar, og tók við henni, og flutti hana heim með sèr. Nóttina eptir, þegar maður sá var sofnaður, sem hvíldi hjá henni, brá hún yfir hann steininum og sá, að hann var úngur og mjög fríður sýnum, en í sama bili vaknaði hann og varð mjög hryggur við;

segir hann, að þetta hafi verið hið mesta óhapp, og muni þau þess seint bætur bíða, því nú hljóti þau að skilja, og muni þau að líkindum aldrei sjást framar. Segir hann henni þá, að hann sè kongssonur, og heiti Sigurður, að móðir sín hafi dáið, og faðir sinn borið þúngan harm eptir hana. Einu sinni hafi hann geingið með föður sínum út á skóg honum til skemtunar, og þar hafi þeir hitt eitt silkitjald, sem 2 konur sátu inn í, önnur roskin, en hin úng, og sú eldri mjög sorgbitin. Hann segir, að báðar hafi verið dáfríðar að sjá, og hafi faðir sinn spurt um hagi þeirra, og að sú eldri hafi þá sagt, að hún væri drottníng kóngs nokkurs, og þetta væri dóttir sín; hefðu óvinir herjað á ríki manns síns, og hann fallið í bardaga, en hún þá flúið úr landi með dóttur sinni, og væru þær nú hèr komnar. Nú segir hann, að faðir sinn hafi sèð aumur á þeim, og boðið þeim heim til hallar, og litlu síðar hafi hann geingið að eiga eldri konuna. Kveðst hann hafa haft viðbjóð á stjúpu sinni, og aldrei getað aðhyllzt hana, en hún haldið því fast fram, að hann ætti dóttur sína. Segir hann, að um þær mundir hafi faðir sinn farið að heiman, til að heimta skatta af öðrum löndum sínum, og þá hafi stjúpa sín komið til sín, og skorað fast á sig um að eiga dóttur hennar; hann hafa neitað því þverlega. Segir hann að hún hafi reiðzt þessu ákaflega, og lagt á sig, að hann skyldi hverfa út á skóga og verða að mórauðum hundi hvern dag, en halda sinni mynd á nóttunni, og skyldi þessi álög vera í 10 ár; þá skyldi hann hljóta að hverfa heim aptur og eiga dóttur sína, ef honum þækti það þá betra, en að eiga hana nú viljugur, nema hann feingi einhverja hina vænstu kóngsdóttur, til að vera hjá sèr og ætti með henni 3 börn, án þess hún nokkurn tíma sæi hann, eða reyndi til að hlaupa burt frá honum, og skyldi þó öll börn hennar verða tekin frá henni eptir fæðínguna; en ef hún þá feldi tár, skyldi það verða vagl á auga barna hennar, sem ekki yrði náð af, nema í tárum þeim, sem hún feldi. Eptir þetta segist hann hafa horfið í hús þetta, sem hann sè nú staddur í, og hafi að eins verið eptir einn mánuður, þángað til að hann hefði getað losnað úr þessum þúngu álögum, en nú hljóti hann að yfirgefa hana, og hverfa heim í borg föður síns, og það sem hræðilegast væri, gánga að eiga dóttur stjúpu sinnar; segir hann, að nú sè þess einginn kostur að hún geti frelsað sig frá þessum bágindum, hvað fegin sem hún vilji. Þó segir hann henni, að hann eigi 3 föðurbræður, sem allir hafi lagt sín vegna í sölurnar bústað sinn, auð og metorð og hafi tveir þeirra flutt sig nær sèr og búi í fátæklegum kofum; hafi þeir tekið þetta upp, til að forðast stjúpu sína, en veita sèr lið, og þeir hafi lagt sèr alt það til, sem hann hafi haft sèr til uppeldis og ánægju, meðan á þessum álögum hafi staðið. Sá þeirra, sem nær sèr búi, hafi og einmitt, segir hann, verið í líki hjartarkollu þeirrar, sem teygði föður hennar út í skóginn til hans; þeir einir muni og helzt geta leyst vandræði hennar nú, og skuli hún fara frá húsinu fram með læk þeim, sem renni þar, og þá verði fyrir

henni kofi annars föðurbróður síns. Hann biður hana að geyma vandlega dúk þann, sem tárið fèll í, og skilja hann ekki við sig, og ekki skuli hún láta gripi þá, sem hann gaf henni, nema henni liggi mikið á. Síðan gaf hann henni gullsjóð mikinn, og bað hana vera örláta á fènu við föðurbræður sína, ef hún hitti þá, því þeir væru fátækir mjög. Síðan hvarf hann, en hún var ein eptir í húsinu með miklum harmi. Hún býr sig svo undir eins á stað, og geingur með fram læknum, sem hann vísaði henni til, og að kvöldi kom hún að koti einu. Karl einn fátæklega búinn með síðan hatt á höfði stóð úti fyrir dyrum. Hún heilsaði honum, enn hann tók dauflega kveðju hennar; hún bað hann gistíngar, en hann sagði að sèr væri lítið um gesti, enda mundu lítil höpp af henni standa. Hún bað hann því betur og gaf honum allmikið fè úr sjóð sínum; varð hann þá lèttbrýnni og lèt gistínguna heimila; var síðan kóngsdóttir þar um nóttina. Hún segir nú karlinum alt um hagi sína, og biður hann leggja sèr lið, að hún gæti náð aptur fundi kóngssonar, en hann kvað það torvelt mundi veita, og ekki gæti hann það, en nær væri um að bróðir sinn gæti það, og byggi hann þar allángt í burtu undir þessari sömu fjallshlíð, og bauðst hann til að vísa henni leið þángað. Morguninn eptir fór hún af stað frá kotinu, og hèlt með fram fjallshlíðinni; sagði karlinn henni, að þá hitti hún fyrir sèr kot bróður síns. Að kvöldi kom hún að koti einu, og barði á dyr; þar kom út karl einn svipmikill og ófríður; hann var á svörtum kufli og hafði barðastóran hatt á höfði. Kóngsdóttir bað hann gistíngar; en hann sagði, að það mundi ekki verða hagur fyrir neinn að ljá henni hús, því henni mundi lítið lán fylgja. Hún bað hann þó ljá sèr húsaskjól næturlángt og gaf honum ómælt gull úr sjóði sínum; blíðkaðist þá karlinn og fylgdi henni inn. Þar sat kona á palli og hèlt á barni í reifum, en tvö börn önnur lèku sèr á gólfinu. Hún tók vel móti kóngsdóttur, bauð henni sæti og var málhreif við hana. Fóru þær að minnast á börnin, sem kóngsdóttur þóktu yfrið fríð. Þókti konunni það mein, að sveinn sá, sem hún hèlt á, hafði vagl á öðru auganu, en hún vissi ekki, hvort bót yrði ráðin á því. Kóngsdóttir kvað það mikið mein um svo frítt barn. Þær lètu síðan tal sitt detta niður, og bað konan kóngsdóttur að gæta sveinsins, meðan hún færi ofan að gæta niðriverka sinna, og varð það svo; konan fór ofan að matreiða handa gesti sínum. Þegar kóngsdóttir var orðin ein og hèlt á sveininum, hugkvæmdist henni, hvort ekki mundi sú náttúra fylgja tári sínu, sem væri geymt í klútnum, að það eyddi vagli af augum annara barna, en sinna. Leysti hún þá hnútinn og brá klútshorninu á auga barnsins, og rann vaglið þegar af. Þegar konan kom inn og sá þenna atburð, varð hún mjög glöð og þakkaði kóngsdóttur fyrir góðverk hennar. Síðan bar hún henni mat. Var kóngsdóttir þar þá nótt; sagði hún þá karlinum upp alla raunasögu sína, eins og þá var komið. Karlinn var henni nú blíður í ávarpi, og sagði sèr rynni mjög

til rifja raunir hennar, en torvelt mundi verða að bæta úr þeim, því nú væri svo naumur tíminn, að kóngsson ætlaði að halda brúðkaup á morgun með dóttur stjúpu hans, en þángað væri laung lęið kríngum fjall eitt mikið, og mundi hún koma ofseint, ef sá vegur væri farin, en til væri þó skemri leið yfir fjallið, og mætti þá komast þángað á einum degi, en það mætti heita ófært sökum töfra drottníngarinnar, sem vildi tefja komu hennar. Þó kvaðst hann mundi reyna til að hjálpa henni, svo hún kæmist styttri leiðina yfir fjallið. Fylgir hann henni nú að fjallinu, og áður en hún ræðst til uppgaungu, býr hann hana út með broddfærum, svo hún gæti skriðið upp brattan veg, sem einnig var háll, eins og gler. Hann vafði dúki um höfuð henni, svo hún skyldi ekki heyra og ærast af undrum þeim, sem henni mundu mæta vegna töfranna. Hann segir og, að aldrei megi hún aptur líta. Hinu megin við fjallið sagði hann, að byggi vinur sinn, þar skyldi hún gista, og fá hjá honum fylgd til kóngsgarðs, en hann kvaðst mundi sjá svo um, að drottníng ekki þekti hana. Nú kveður kóngsdóttir karlinn, og fer yfir fjallið, eins og hann segir henni; leit hún aldrei aptur á allri leiðinni, og æðraðist ekki, þó hún heyrði undur og óhljóð, enda hlífði höfuðdúkurinn henni. Að kvöldi kom hún að koti vinar karlsins; var það snotur bær en lítill; fèkk hún þar góðan beina og gisti þar um nóttina. Hún bað bónda fylgja sèr til kóngshallar, og sagði hann, að sèr væri það hægt, því hann færi þángað sjálfur til að vera við brúðkaup kóngssonar. Þegar þau komu heim til kóngshallar, var þar mikið um dýrðir, þar sem kóngsson var að halda brúðkaup sitt. Kóngsdóttir gekk til hallardyra; sá hún þar þá, kóng og drottníngu og kóngsson og dóttur stjúpmoður hans í öðru lagi; þar var gleðibragð mikið á öllum nema kóngssyni, hann var dapur mjög. Einginn þekti kóngsdóttur, og ekki kóngssonurinn. Var hún þar allan daginn og horfði á, þángað til brúðhjónin voru leidd í svefnkastala. Var nú kóngsdóttir mjög hugsjúk og örvænti þegar um sitt mál, þó datt henni ráð í hug, að aldrei mundi sèr eins liggja á að nota gripi sína. Túnglskin var á, og fór hún nú að kemba hár sitt með gullkambinum úti fyrir glugganum á svefnherbergi brúðhjónanna, og varð brúðurinni litið þángað, sem hún var og sá hún þá gullkambinn, og bað hana skipta við sig á sínum, því hún sá, að hinn var meiri gersemi. Kóngsdóttir neitaði því. Brúðurin bað hana þá selja sèr, því hann sæmdi sèr betur, en kotastelpu. Kóngsdóttir kvaðst ekki mundi selja hann. Brúðurin spyr, hvort hún geri hann ekki falan fyrir neitt; hin kvað hann aðeins falan, ef hún mætti sofa hjá brúðgumanum þá nótt, og keyptu þær því. Brúðurin gaf kóngssyni svefndrykk og lèt síðan kóngsdóttur fara inn til hans; var hún hjá honum alla þá nótt, og gat aldrei vakið hann. Hafði hún margar harmatölur við hann, en hann hreifðist ekki í rúminu, þángað til brúðurin kom um morguninn, og sagði henni að hafa sig á burt, og vakti hann síðan. Kóngsdóttir var þenna dag

öllu hryggari, en áður, en hèlt þó opt til í höllinni, en ekki þektist hún. Þegar brúðhjónin voru geingin til svefnhúss þetta kvöld, gerði hún enn tilraun að ginna brúðurina með hálsmeni sínu, og fór alt á millum þeirra, eins og hið fyrra sinn, og var nú kóngsdóttir búin að láta tvo gripina af hendi, en gat ekki vakið kóngsson um nóttina; bar hún sig nú hörmulega, og barmaði sèr á alla vegu yfir mótlæti sínu, og varð að skilja við hann við svo búið um morguninn. En brúðurin gekk inn til kóngssonar, og fóru þau til hallarinnar. Um daginn var kóngsdóttur hin mesta raun að, að sjá, hvernig alt fram fór. Þenna dag einu sinni var það, að hinn þriðji föðurbróðir kóngssonar, sem áður er nefndur, kom einslega að máli við hann. Hann bjó í þessari borg og átti svefnherbergi næst við svefnhús brúðhjóna. Hann spyr bróðurson sinn, hver sú kona sè, sem hjá honum vaki um nætur, og harmi sèr svo ákaflega; segir hann, að það sè einhvern veginn með undarlegu móti. Kóngsson segir, að hann viti þar einga konu aðra, en sína. Hinn spyr, hversvegna hún harmi svo; kóngsson kvaðst ekki vita það, því hann svæfi alla nóttina. Hinn spyr, hvað því muni valda, að hann sofi svo fast, eða hvort kona hans gæfi honum drykk nokkurn á kvöldin; hann kvað svo vera. Föðurbróðir kóngssonar segir, að hann skuli nú í kvöld láta þann drykk falla í klæði sín og láta svo, eins og hann sofi og vita, hvort hann yrði nokkurs vísari. Leið nú dagur til kvölds, og barst kóngsdóttir illa af fyrir hrygð, þó hún leyndi sèr, og um kvöldið, þegar brúðhjón voru komin í svefnhús, var hún enn úti fyrir glugganum og hèlt þar spegli sínum og fór um það eins og fyrr, að brúðurin ágirntist hann mjög, og keyptu þær því loksins, að kóngsdóttir mætti sofa hjá brúðgumanum þá nótt fyrir spegilinn. Gaf brúðurin þá kóngssyni svefndrykkinn, en hann lèt sem hann drykki, en reyndar feldi hann drykkinn niður, og lèzt svo sofna. Kóngsdóttir fór þá í rúmið hjá honum og reyndi að vekja hann, en hann lèzt enn sofa; telur hún honum nú upp allar æfi raunir sínar, og barmaði sèr mjög; bað hún hann muna samveru þeirra og heyra sig, þar sem hún leitaði hans svo harmþrúngin. Sagðist hún nú hafa látið alla gripi þá, sem hann gaf henni, til að ná fundi hans. Sakir töfra stjúpu sinnar var kóngsson, eins og hann dreymdi vakandi þessa viðburði, en loksins kom að því, að hann kannaðist við kóngsdóttur, og varð þá fögnuður þeirra óumræðilegur. Huggaði hann nú kóngsdóttur, eins og hann gat, og sagði að nú mundi raunum þeirra vera bráðum lokið; skyldi hún nú, segir hann, fara um morguninn, þegar brúðurin kæmi, og í hús föðurbróður síns, sem væri þar rètt hjá, en hann kvaðst mundi láta sem hann svæfi. Þegar brúðurin kom um morguninn, rak hún hana á burt, og fór síðan að vekja brúðguma sinn, og síðan geingu þau til hallar. Þegar mest var gleði í höllinni þenna dag, og allir sátu við drykkju kóngur og drottníng í hásæti og brúðhjónin í öðru, geingu þrír menn í höllina; voru þar komnir allir 3 bræður konúngs. Einn þeirra bar tvö

stúlkubörn á handlegg sèr og leiddi konu við aðra hönd; hún hèlt á úngbarni, en hinir tveir hvor á kefli. Þeir námu staðar fyrir hásæti kóngssonar. Sá, sem konuna leiddi spyr þá kóngsson, hvort hann kannist ekki við þessa konu, og börn þau þrjú, sem henni fylgdu. Hann kvaðst þekkja hana. Skiptu þær mæðgur þá mjög litum, og urðu þegar heldur stórvaxnar, og ætluðu að mæla eitthvað; en þeir kóngsbræðurnir, sem hèldu á keflunum, brugðu þeim þegar í gin þeim, en 16 menn, sem þeir höfðu látið leynast undir borðum, hlupu jafnsnemma upp og gripu 8 hvora þeirra, og lögðu í bönd. Kóngi fannst mjög um þenna atburð; en þegar hann sá, hverrar ættar þær mæðgur voru, þókti honum alt vel fara, og fagnaði nú syni sínum og kóngsdóttur. Var þá þegar sent eptir kónginum föður hennar og drottníngu hans, og drukkið brúðkaup þeirra kóngssonar og kóngsdóttur með miklum fögnuði. Skömmu seinna andaðist kóngurinn, faðir hans, og var þá kóngssonur tekinn til kóngs yfir alt landið. Ríkti hann með drottníngu sinni vel og leingi og unnust þau hugástum. Föðurbræður sína gerði hann alla að jörlum í ríki sínu, og voru þeir stjórnsamir og góðir höfðíngjar, og efldu mjög ríki kóngs, og hèldu vináttu við hann, meðan þeir lifðu.

**Sagan af Sigurði kóngssyni.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar í Móum.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu. Þau áttu son, sem hèt Sigurður; hann var heldur úngur og þó mannvænn, er þessi saga gjörðist. Átti hann kastala út af fyrir sig nálægt konúngshöllinni, og sat þar með sveinum sínum. Svo bar við, að drottníng tók sótt og andaðist. Fráfall hennar olli kóngi svo mikillar sorgar, að hann var fyrst varla mönnum sinnandi. Þegar frá leið, fór heldur að rètta af honum, svo hann fór að ræða við menn. Einu sinni kom hann að máli við hirðmenn sína, og kvað sèr vera í hug, að kvongast að nýu. Þeir tóku því vel, og fýstu hann þess í alla staði. Kjöri svo kóngur þá af hirðmönnum sínum, er hann þekti að hyggindum, og trúleik við sig, og bað þá fara í land nokkurt, er hann tók til, og biðja sèr til handa dóttur kóngs þess, er þar rèð fyrir, og ef hann vildi gipta sèr dóttur sína, skyldu þeir hafa hana heim með sèr. Hirðmenn tóku glaðir við erindi þessu, og bjuggu sig til ferðar á einu skipi. Þegar þeir voru komnir lángt frá landi, laust á þoku svo myrkri, að þeir vissu ógjörla, hvert þeir fóru. Sigldu þeir þó alt að einu uns þokunni fór að lètta af. Voru þeir þá komnir nærri landi nokkru, er þeim virtist þó fremur eya en meginland. Með því þeir voru bæði fegnir landssýn, og vissu ekki, hvar þeir voru við komnir, rèðu þeir það af, að stíga á land, og hafa fregnir af eyarbúum. Þegar þeir voru komnir á land, og höfðu geingið kippkorn frá sjónum, heyrðu þeir hörpuhljóm svo fagran, að þeir þóktust aldrei hafa heyrt slíkan. Kom hann frá tjaldi einu, er stóð á víðum velli, er

varð fyrir þeim á eynni. Þeir geingu nú að tjaldinu, og þagnaði þá hörpuslátturinn, er þeir áttu skamt þángað. Þeir geingu að tjaldinu eigi að síður, því þar þóktust þeir þó eiga víst, að hitta menn fyrir, er gætu sagt þeim, hvar þeir væru við land komnir. Þegar þeir komu í tjaldið, sáu þeir þar konu svo fríða, að þeir þóktust aldrei hafa slíka sèð. Hún hafði þá lagt frá sèr hörpuna og greiddi sèr með gullkambi, er þeir geingu í tjaldið; eingir voru þar menn hjá henni. Hirðmenn kvöddu konu þessa virðulega, og tók hún kveðjum þeirra hæversklega. Þeir spurðu hana, hvar þeir væru við land komnir, og sagði hún þeim af því hið ljósasta, og það með, að þetta væri eyði-eya. Það þóktust þeir finna á svörum hennar, að hún var heldur döpur í bragði. Þeir intu hana eptir, hvernig stæði á því, að hún væri þar ein á eyði-eyu. Hún kvaðst hafa mist nýgipt kóng sinn í styrjöld, er hann hefði átt við víkínga, sem á land hans sóktu, og hefði hún látið trúnaðarmann sinn flytja sig út í ey þessa, með því, er hún mátti komast með í bráð af eigum sínum, er hún hefði frètt fall kóngs í orrustunni; væri hún nú búin að vera þarna einmana um hríð. Þegar hirðmenn heyrðu þetta, litu þeir hver til annars, geingu úr tjaldinu um sinn, og báru saman ráð sín. Kom þeim það öllum ásamt, að kona þessi væri svo fögur, vel viti borin og kurteys, að hverjum kóngi væri þar fullkosta, er hún væri. Þeir rèðu það því með sèr að biðja hennar kóngi sínum til handa, þó hann hefði ætlazt til, að þeir vektu annarstaðar til ráðahags. Eptir það geingu þeir í tjaldið aptur, og vöktu máls á um ráðahag sinn. Konan tók því seinlega og þó hæversklega; sagði hún, að sèr hefði ekki verið það í hug, að giptast aptur, er hún hefði mist mann sinn, þó sèr væri kóngur þeirra lítt kunnur, mundi hún ekki teljast undan, þar sem líkt stæði á fyrir báðum, ef þessi ráðahagur mætti verða þeim til unaðsbóta. Erindisrekar kóngs glöddust við þessi ummæli drottníngar, og fluttu hana síðan út á skip sitt með öllu því, er hún hafði þar umleikis.

Eingin tíðindi urðu í ferðum þeirra, fyrr en þeir tóku höfn í landi kóngs; var þá sèn ferð þeirra frá kóngsaðsetrinu, og bjóst hann að fara í móti þeim og heitmey sinni, er hann taldi víst að væri í för með þeim. Lèt hann því beita fyrir tvo vagna, steig sjálfur í annan, en hinum var ekið tómum til sjávar. Þegar kóngur sá drottníngarefni sitt, varð hann þegar gagntekinn af ást til hennar, og þókti hirðmenn sínir heppilega hafa rekið erindi sitt, þótt ekki hefðu þeir hitt þá konu, sem hann hafði vísað þeim á. Því næst bauð hann henni til hallar, og þeim öllum, og ók hún í öðrum vagninum, en hann í hinum.

Eptir þetta lèt kóngur búa til veizlu ágætrar, og stóð sá undirbúníngur í hálfan mánuð; enda var þar boðið til öllu stórmenni úr ríki hans. Áður en veizlan átti að vera gekk kóngur til fundar við son sinn, tjáði honum, að nú hefði hann aptur fastnað sèr konu, og bað hann sitja

brúðkaup sitt. Sigurður bað hann ekki orða það við sig, því sèr væri ekki móður missirinn enn úr minni liðinn, og við svo búið gekk kóngur þaðan. Síðan fór brúðkaup kóngs fram, og voru menn þar útleystir með góðum gjöfum. Eptir það sat kóngur um kyrt í ríki sínu um hríð, og er ekki annars getið, en hann yndi vel hag sínum. Einhverju sinni kemur drottníng að máli við kóng, og spyr hann, hversu víðlent ríki hann eigi. Hann segir henni af því hið sannasta. Hún spyr hann þvínæst um skattheimtu af löndum hans, og segist hann ekki um sinn hafa hugsað um það mál, enda hafi annað fyrir sig snúizt. Leiðir drottníng honum þá fyrir sjónir, að svo búið meigi ekki standa og hljóti hann að heimta skatta af þegnum sínum, sem aðrir kóngar. Kóngur fann, að mikið var satt í því, og bjóst þegar til skattheimtu-farar.

Einhvern góðan veðurdag, er kóngur var farinn í skattheimtu, fór drottníng að breiða út og viðra skrúðklæðnað ýmis konar. Var þar og með skikkja ein, afbragðs falleg og vönduð að sjá. Sigurður kóngsson hafði enn ekki heilsað stjúpu sinni, og ekki sèð hana; hann sat jafnan í kastala sínum, þreyði alla jafna móður sína, og hafði sem minnsta samblendni við hirðmenn, en talaði fátt um stjúpu sína, er um hana var rætt í eyru hans. Þenna sama dag, er nú var getið, kemur Sigurður auga á skikkjuna góðu úr kastala sínum, og finnst honum, sem öðrum mikið um svo kostulegan grip. Líður nú svo nokkur stund, að klæðin eru úti, og fara menn hans allir úr kastalanum. Verður hann þá ekki fyrr var við, en komið er að kastalanum og barið að dyrum, hann lýkur upp, og er þar þá komin stjúpa hans. Hún kastar kveðju á hann og mælti af nokkrum móði: „Þó þú leggir fáþykkju á mig, Sigurður, sem þú hefir sýnt í því, að þú hefir hvorki heilsað mèr, nè viljað sitja brúðkaup mitt, vil eg þó ekki láta það í ríkja með okkur; vil eg nú gefa þèr skikkju þessa hina góðu, er öllum þykir gersemi í vera; en ger þú það til skaps í móti, að þú far í hana, og lát mig sjá, hversu hún sæmir þèr.“ Sigurður svaraði eingu, en tók við skikkju sinni, virti hana vandlega fyrir sèr, og með því honum þókti hún, sem fleirum girndargripur hinn mesti, fór hann í hana. Þegar Sigurður er kominn í skikkjuna, geingur stjúpa hans að honum með svo tröllslegu útliti, að hann þóktist hvorki fyrr nè síðar hafa sèð slíkt, og mælti: „Nú legg eg það á þig, að þú skalt vella allur grár í lúsum, meðan þú ert í skikkjunni; skaltu því skipta um nafn og heita Lúsahöttur; aldrei skaltu úr þessum álögum komast, nè úr skikkjunni fara, fyrr en þú hefir sofið hjá kóngsdóttur í 3 nætur, en það mun seint verða.“ Við þessi orð drottníngar brá Sigurði, svo sem hún hafði fyrirmælt; en svo var hann hugsjúkur af þessu, að hann fèkk eingu áhrínsorði komið upp, enda dvaldi drottníng ekki leingi í kastalanum eptir þetta.

Sigurður fann ofglöggt til óskapa sinna til þess að hann gæti haldizt við í kastalanum, enda sá hann, að sèr mundi þar hvorki fært að vera.

nè nokkur undanlausnarvon frá ánauð sinni. Hann safnar því saman, er hann á eigulegast og dýrmætast, en það var gullstóll, er gjöra mátti svo lítinn, að hafa mátti hann í vasa sínum; annað var gullkambur undur fallegur; fíngurgull var hinn þriðji gripur, og var af lýsigulli; þurfti þar ekkert ljós, er gullið var borið á mannshendi, svo lýsti af því, þó níðamyrkur væri, og var það hin mesta gersemi. Þá tók hann og skrúðklæði sín með sèr. Alt þetta lætur hann í poka einn, og ber hann á bakinu, er hann fer úr kastalanum, og leggur svo búinn burt frá kóngsaðsetrinu. Nú fer hann svo um hríð, að ekkert segir af ferðum hans, fyrr en hann kemur á kotbæ í skógi einum. Þar barði hann að dyrum og kom þar út kona öldruð. Hann heilsar henni, og biður hana að lofa sèr að vera. Hún kvaðst vera treg á, að taka slíka óþverra, sem hann væri, á heimili sitt; en þó verður það af, að hún lofar honum að liggja inni. Síðan spyr hún hann að nafni, og segist hann heita Lúsahöttur. „Þar fylgir nafn rentu," kvað kerlíng, „og er það vel á komið." Um morguninn tók Höttur upp hjá sèr gullpeníng mikinn og gaf kerlíngu. Varð hún þá lèttbrýn við, og kvað honum heimilt gistíng hjá sèr, meðan hann vildi. Lúsahöttur var svo hjá kerlíngu um hríð, svo ekki bar til tíðinda. Hann frètti kerlíngu um marga hluti, og leysti hún vel úr öllu. Hún sagði honum, að kóngur í því landi væri þar skamt frá; hann ætti dóttur eina fríða og væna, og vissi hún engan hennar löst, nema þann einn, að hún væri heldur ágjörn, svo að hún vildi nálega eiga alt, er hún sæi. Lúsahöttur kvað hana ekki vera verri fyrir það, og þókti nú heldur vænkast um hag sinn, er hann heyrði þetta; biður hann nú kerlíngu vera sèr til liðsinnis með fregnir frá kóngi og dóttur hans, og hèt hún því.

Eitt sinn kemur kerlíng að máli við Lúsahött, og kveðst hafa komizt að því, að kóngsdóttir ætli út í skóg að skemta sèr þann dag. Lúsahöttur kvað henni vel fara, og bað hana stilla svo til, að fundum þeirra bæri saman. Kerlíng sagði, að hann skyldi halda sig í skógarrjóðri einu, er hún tók til, þar sem hann yrði á vegi fyrir kóngsdóttur. Lúsahöttur fer þángað, sem kerlíng hafði tilvísað, og hefir með sèr gullstólinn. Lúsahöttur sezt nú á stólinn, og bíður svo þess, að kóngsdóttir kemur með skemmumeyum sínum í rjóðrið. Hann situr þar grafkyr, er þær koma, og lætur sem hann sjái þær ekki. Kóngsdóttir hnykkir fyrst við, er hún sèr mann í rjóðrinu. En er hún fer betur að líta eptir, kemur hún auga á stólinn. Verður henni þá allstarsýnt á hann, og getur ekki skilið í því, að slíkur óþverri, sem moraði allur í lúsum, skyldi eiga svo góðan grip. Hana lángar og mjög að eiga stólinn, og er svo annars hugar af því, að hún gáir ekki að skemta sèr. Loksins kallar hún á meyar sínar, og biður þær fara til manns þessa og fala að honum stólinn, eða láta sèr hann eptir. Meyarnar hlupu til Lúsahattar, og skilduðu til hans kveðju kóngsdóttur og vinfeingi, ef hann vilji láta hana fá stólinn. Lúsa-

höttur kvað þess einga von, að hann fargaði stólnum, hvað sem í boði væri, nema hún vildi lofa sèr að sofa í sama herbergi og hún um nóttina. Við það fóru þær aptur á fund kóngsdóttur, og sögðu henni af förum sínum. Kóngsdóttir rèðst þá um við meyar sínar, hvort sèr mundi ekki hættulaust, að leyfa Lúsahetti það, og þókti þeim það vera. Fóru svo meyar kóngsdóttur til Hattar, og sögðu honum, að hann mætti liggja í skemmunni, ef hann kæmi ekki fyrr, en dimmt væri orðið, og færi áður burt að morgni, en birti, svo einginn sæi hann. Hann heitir henni góðu um það, og fær þeim nú stólinn, og þykir kóngsdóttur allvænt um hann. Um kvöldið kemur Lúsahöttur í skemmu kóngsdóttur, og liggur í herbergi hennar um nóttina; en fyrir dag fór hann aptur burt þaðan. Nú hugsar hann með sèr, að hann skuli æsa ágirnd hennar aptur þann dag með gullkambinum, og vera að kemba af sèr varginn með honum, er hún komi út á skóginn. Fer hann svo heim í kot til kerlíngar, og sækir kambinn, og fer svo alt sem hinn fyrra dag, að kóngsdóttir ágyrnist kambinn ekki síður en stólinn. En Lúsahöttur lætur hann ekki fyrr falann, en hún lofar honum, að hann meigi liggja á skörinni fyrir framan rúmið sitt, en þó með þeim skildaga, að hann komi í skemmuna og fari þaðan aptur, eins og áður. Heitir Höttur henni því, og fær henni kambinn; sefur hann svo þá nótt á skörinni fyrir framan rúmstokkinn hjá kóngsdóttur. Þegar leið að degi, fór hann burtu úr skemmunni, og hugsar nú mest um að verða laus við álög sín, ef hann mætti, og verja til þess hríngnum góða, er hann átti nú einn eptir kostgripa sinna. Fer hann þá og sækir hrínginn og er að leika sèr að honum um daginn, er kóngsdóttir kemur í skógarrjóðrið sama. Vaknar þá skjótt laungun hennar til hríngsins, og lætur skemmumeyar sínar leggja fölur á hann. Lúsahöttur kvað þess eingan kost, að hann lógaði hríngnum, slíkum grip, nema kóngsdóttir lofaði sèr, að sofa hjá sèr. Fóru skemmumeyar við þetta aptur til kóngsdóttur; áttu þær svo það að tala, hvort það mundi takandi í mál, að leyfa Hetti það, og varð það ofan á, að þeim þókti það ótækt, því bæði var það svívirða fyrir kóngsdóttur, og svo þókti þeim Lúsahöttur svo ófètislegur, að slíkt væri ekki takandi í mál. En þó blóðlángaði kóngsdóttur til að eiga hrínginn, og mundi hún hafa leyft honum að liggja til fóta sinna, ef hún hefði þorað að eiga það undir trúmennsku skemmumeyanna. Nú líður til þess, er kóngur stefnir á fund öllum tíginna manna sonum úr ríki sínu; er sú tilætlun hans með því, að dóttir hans skuli sèr mann kjósa; því annaðhvort var, að fáir höfðu orðið til að biðja hennar, eða hún hafði eingum tekið, er þess leitaði. Nú var það þenna dag, er allir skyldu komnir til kóngs, er sækja vildu fundinn, að þar var fjölmenni fríðra dreingja og mannval hið bezta, og bauð kóngur þeim öllum til veizlu um kvöldið. Að þeirri veizlu skyldi dóttir hans kjósa sèr mann. Lúsahöttur hafði sig þá og á kreik, og fór heim að

kóngshöll, er húma tók og hafði með sèr hrínginn góða. Hann kom þar í það mund, er mönnum var skipað í sæti þar í höllinni. Hann leitar þá lags að komast inn, svo lítið bæri á, og þegar hann er þar kominn, skríður hann undir hallarbekkjunum, þar til hann kemst undir sæti kóngsdóttur; en hún sat í hásæti hjá kónginum, föður sínum. Verður hún hans þá skjótt vör, og heyrir, að hann er að stagast á þessu: „Kjóstu þann, sem skríður með skörunum, eða jeg skal uppljósta allri þinni skömm.“ Byrjar nú veizlan, og skorar kóngur á dóttur sína, svo allir heyrðu, að kjósa þann af hinum tignu úngu mönnum, er henni sè mest að skapi; því til þess hefði hann þeim þángað stefnt, og bað hana veita skýr svör máli sínu, áður en veizlunni sliti. Kóngsdóttir var mjög fálát, meðan hinir mötuðust, og snæddi lítið; því hún þóktist vita fyrir víst, að ef hún kysi einhvern af boðsmönnum, mundi Lúsahöttur ekki svífast við að gera uppvísa þá skömm sína, að hún hefði haft karlmann 2 nætur í herbergi sínu, og sá þá í hendi að miður mætti fara, en þó hún yrði mannlaus eptir sem áður. En á hinn bóginn hrylti hana við Lúsahetti, þó einginn af þeim, er inni voru þekti hann, nè hefði veitt því eptirtekt, að hann var þar. Þá kemur henni og í hug hríngurinn góði, svo hún ræður það með sjálfri sèr, úr því vondu væri úr að ráða, að hún skuli meta virðíngu sína mest af öllu, því þá fái hún hrínginn um leið, og kjósa þann, sem Höttur til tók. Þegar lángt var liðið á nótt fram, býður kóngur dóttur sinni, að gjöra bert fyrir öllum, hvern hún kjósi sèr fyrir mann. Hún sagði þá með skjálfandi röddu: „Eg kýs þann, sem skríður á skörunum.“ Kóngur hèlt fyrst hún væri ekki með öllu viti; því meðan menn sátu undir borðum, hafði hann orðið var við lurfu þá, er lá undir hásætinu. Hann inti því til hins sama við dóttur sína. En þá var hún einurðarbetri, og tók skýrt upp aptur sömu orð sem fyrr: „Eg kýs þann, sem skríður með skörunum.“ Varð þá kóngur svo æfur, að hann hótaði að láta drepa hana að morgni, þar sem hún hefði gabbað sig, en gjört gys að öllum gestum sínum. Skipar hann henni svo í skemmu sína, svo að hún geti hugsað um mál sitt til morguns. Fer kóngsdóttir svo þángað. Nú er að segja af Lúsahetti, að þegar þetta uppnám varð í höllinni, hefir hann sig þaðan á burt og geingur til skemmu kóngsdóttur. Kemur hann þángað jafnsnemma og hún, og skýzt hann svo inn. Kemst hann þá í svefnherbergi kóngsdóttur, og fær það nú af henni, með því hann gefur henni hrínginn, að hún lofar honum að hýrast til fóta sinna um nóttina, því hún kvaðst hèðan af ekki hafa til fríðs að vanda, þar sem hún mundi verða drepin að morgni, og gefur hann henni þá hrínginn góða. Um morguninn vaknar kóngsdóttir snemma, til að hugsa um hagi sína. En þá bregður henni heldur í brún, er hún sá mann undur fríðan og tígulegan liggja til fóta sinna, en lúsahaminn allan á gólfinu fyrir framan rúmið. Klæðist hún þá skjótt og kallar á skemmumeyar sínar, og skipar þeim að

brenna haminn hið skjótasta, en hún vekur manninn sjálf. Segir hann henni þá upp alla sögu, hverra manna hann sè, og að álög stjúpu sinnar hafi valdið öllum þessum ósköpum, og þakkar henni með fögrum orðum fyrir lausn sína, enn segir hann þá, að ekki sè víst, að hún þurfi illa að una, þó hún hafi kosið sig, því hann segist vera albúinn að reyna hverja íþrótt til kapps við þá alla, er kóngur hafi til sín boðað. Við það verður kóngsdóttir allglöð. Síðan lætur hann sækja poka sína í kotið til kerlíngar, og tekur hann þar úr kónglegan skrúða og klæðist í, kveður síðan kóngsdóttur og biður hana vera áhyggjulausa um hag sinn; geingur hann svo fyrir kóng. Kóngur tekur honum vel, og spyr, hverra manna hann væri. Hann sagði til hið sanna. Kvaðst hann vera þar kominn til að reyna íþróttir sínar við tignarmenn kóngs, og lèt kóngur það eptir honum. Fór þá svo um daginn, er hinir úngu menn reyndu afl sitt og íþróttir, að Sigurður kóngsson bar hvorutveggja lángt af þeim öllum. Kóngi þókti þetta hin mesta skemtun og öllum, er horfðu á leiki þeirra. Að leikunum enduðum hóf Sigurður bónorð sitt víð kóng til dóttur hans, og var það auðsókt við hann sjálfan; en hann kvaðst bera nokkurn kviðboga fyrir því, hvernig dóttir sín tæki þeim málum. Sigurður kvaðst ekki óttast það, því hún hefði sjálf kosið sig til manns kvöldinu áður. Varð þá kóngur harðla glaður og lèt sækja dóttur sína. Sagði hann henni þá, að hún ætti þar enn biðli að svara, sem Sigurður var. Kóngsdóttir tók því allshugar fegin. og fóru svo festar fram. Jók þá kóngur veizluna, og hèlt Sigurður brúðkaup sitt til kóngsdóttur, og voru allir að veizlunni lokinni leystir út með góðum gjöfum. Eptir það fór Sigurður heim til föður síns með konu sína, og hafði með sèr herlið mikið og fjárhlut nógan. Þegar hann kom að kóngsaðsetunni, þekti hann þar ekki þriðja hvern mann, en það frètti hann, að faðir sinn væri dauður; hafði seinni kona hans ráðið honum bana, og drepið alla þá, er hans máli fylgðu, en skipað aptur í borgina illþýði einu tröllauknu, eins og hún var. Lèt Sigurður þá veita aðgáng að borginni, og tók hana með herskildi. Þar með náði hann drottníngu og mörgu af óþjóðalýð þeim, er hún hafði dregið þángað, og lèt hann drepa það alt eða stegla, en stjúpu sína lèt hann berja grjóti í hel. Eptir það settist hann að ríkjum með drottníngu sinni.

„Unnust þau bæði vel og leingi,
áttu börn og buru“ o. sv. fr.

**Sagan af Sigurði kóngssyni og Íngibjörgu systur hans.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar, nú í Móum á Kjalarnesi.) Eins og tíðum gjörðist rèð konúngur ríki í landi nokkru; hann átti sèr drottníngu, og með henni tvö börn, sem hètu Sigurður og Íngibjörg. Áður en börnin voru fullvaxin, en þó stálpuð nokkuð, dó drottníngin, móðir þeirra. Varð konúngur þar af hryggur mjög, svo hann sinti eingu, en var alt af að

trega konu sína, og sat laungum hjá legstað hennar. Þegar þannig hafði til geingið nokkra stund, leiddi ráðaneyti hans honum fyrir sjónir, að hann hlyti að ráða bót á hörmum sínum, og mundi það helzt takast með því, að hann leitaði sèr kvonfángs að nýu, annaðhvort sjálfur, eða með sendimönnum. Sýndu þeir konúngi fram á, hversu mjög að öll ríkisstjórn hans færi í ólestri fyrir sakir ofurharms þess, sem hann bæri, og mætti það ekki leingur við gángast. Konúngur sá, að þetta var dagsatt, og fèllst á að senda. Gjörði hann þá út skip og menn. En þegar sendimenn voru komnir út á rúmsjó, gjörði á þá veður mikið; komust þeir þá í hafvillur, og vissu ekki, hvert þeir hèldu; lètu þeir þá veðrið ráða. Loksins komust þeir með heilu og höldnu að landi einu, sem þeir þektu ekki. Geingu foríngjarnir upp til að vita, hvers þeir kynnu að verða vísari, en lètu hina geyma skipsins. Þeir sem á land geingu, sáu þar eingi líkindi til mannabygða fyrir sèr, og hèldu landið væri óbygt, þángað til þeir sáu fyrir sèr bæ einn, og fremur kotúngslegan á að sjá. Geingu þeir að bænum til að vita, hvort þar ætti nokkur maður heima, eða ekki. Fundu þeir þar konu eina heldur roskinlega, en þokkalega. Hún spurði þá, hvaðan þeir væru, og hvaðan þeir kæmu. Þeir leystu úr öllu greiðlega, og sögðu henni alt af lètta um erindi sitt. Feingu þeir þá einnig að vita, hvar þeir voru á land komnir, þó þess sè hèr ekki getið. Lèt konan mikið yfir því, hvað sèr þækti það illa farið þeirra vegna, að þeir skyldu vera þángað á land komnir, sem eingin von væri um, að erindi þeirra yrði framgeingt. Af því dagur var kominn að kvöldi, og veðrið fór vesnandi, báðu konúngsmenn konuna gistíngar. Tók hún fjarri því í fyrstu, og sagði, að kofarnir sínir væru öldúngis ekki boðlegir þeim mönnum, sem vanir væru að sitja í kóngahöllum. En fyrir þrábeiðni þeirra, lèt hún þó loksins til leiðast. Leiddi hún kóngsmenn inn í bæinn, og gaf þeim þá á að líta; því herbergin þóktu þeim líkari kónglegum sölum, en kotúngahreysum. Þegar lítil stund var liðin setti hún fyrir þá borð, og bar þeim krásir, sem vel máttu sæma kóngum, hvað þá óæðri mönnum. Undir borðum spurðu þeir konuna meðal annars, hvort hún hefðist alein við í bæ þessum. Hún sagði, að það mætti heita svo, þó hún hefði dóttur sína hjá sèr, sèr til skemtunar. Báðu þá kóngsmenn um, að mega sjá stúlkuna. Með tregðu og eptirgángsmunum gjörði hún það á endanum, og kom með mærina til þeirra. En þegar kóngsmenn sáu stúlkuna, urðu þeir frá sèr numdir af feginleika; því þeim þókti hún svo fríð, að þeir töldu víst, að ekki gæti hjá því farið, að kóngi sínum geðjaðist vel að henni, ef þeir feingi hana með sèr. Hófu þeir því tafarlaust bónorð til hennar fyrir hönd konúngs síns. Hin roskna kona tók máli þeirra, sem gamni, og svaraði á þá leið, að það væri líklegt, eða hitt þó heldur, að konúngi geðjaðist vel að karlsdóttir. Sagði hún, að slíkum og þvílíkum kotúngakvendum væri hentara að komast ekki til

slíkrar tignar, þar sem þær mættu búast við, að missa fljótt aptur sæmdina með ósæmd, fyrir sakir vankunnáttu sinnar, og kotúngsskapar. En kóngsmenn sóktu því fastar sitt mál, og þegar konan sá, að þeim var full alvara, hèt hún þeim á endanum að gefa konúngi dóttur sína, og skyldi hún fara með þeim, þó með því skilyrði, að ef kóngur ekki vildi hana, þá skyldu þeir færa sèr hana aptur. Þessu hètu þeir, og sváfu nú af um nóttina. En að morgni beiddust kóngsmenn, að mærin kæmi með sèr til skips, og sagði konan að svo skyldi vera, þegar þeir væru búnir að flytja til sjáfar reitur þær, sem hún hefði meðferðis. Var nú farángur mærinnar fram borinn, og urðu kóngsmenn nú að kalla til alla skipverja sína til að bera dót hennar niður að sjónum; svo var það fè mikið, sem hún hafði með sèr. Þegar það var búið, fylgdust þær mæðgur með kóngsmönnum niður til sjávar, og voru um eitthvað að ræða sín á milli í hálfum hljóðum. Gátu konúngsmenn ekki komizt að hvað þær töluðu, nema einhver heyrði, að gamla konan sagðist skyldi senda henni steininn. Þegar þeir voru komnir til skips, sagðist gamla konan ætla þar staðar að nema, mintist við dóttur sína, og bað þeim öllum heilla. Að því búnu lèttu þeir akkerum, og lètu í haf. Gekk þeim ferðin vel, og lentu skamt frá borginni. Varð kóngur þess bráðum vísari, að sendimenn sínir væru komnir. Gekk hann með sveit manna móti þeim, og fagnaði þeim vel. En einkum varð hann glaður, þegar hann sá drottníngarefni það, sem þeir höfðu útvegað honum, því hún var fríðari og kurteysari, en nokkur mær önnur, sem hann hafði augum litið. Geingur nú kóngur með flokkinn allan til hallarinnar, og var nú slegið upp fagnaðarveizlu móti komendum. Skömmu síðar gekk konúngur að eiga mærina, og unni hann henni mikið.

Litlu eptir að konúngur hafði eignast þessa nýu drottníngu, varð hann nauðsynja vegna að fara burtu í annað konúngsríki til að semja um áríðandi ríkismálefni. Lèt hann þá búa skip sín til fararinnar, og með því hann bjóst við að vera leingi í burtu, bað hann drottníngu sína leingstra orða, að fara vel með börnin sín, og vera þeim góð. Hèt hún því fúslega. Þegar byr gaf lagði kóngur frá landi, og er hann nú fyrst úr sögunni.

Nú víkur sögunni aptur heim í kóngsríkið til nýu drottníngarinnar. Einn góðan veðurdag geingur hún til kóngsbarnanna, Sigurðar og Íngibjargar, og biður þau gánga með sèr til skemtunar með sjávarströndinni. En þau vildu ekki fara; því þau höfðu illan grun á þessari stjúpu sinni. Hún lèt þá, sem sèr þækti fyrir, og sagðist hafa vald til að heimta það af þeim, ef þau vildu ekki gjöra það með góðu. Þorðu þá börnin ekki annað, en fara með henni. Geingu þau síðan öll þrjú niður að sjó, og spölkorn með fram ströndinni. Komu þau þar að steini einum stórum í fjörunni, eða einhverju því, sem líktist steini, en var þó ólíkt öllu grjóti

öðru þar umhverfis. Drottníng staðnæmist við steininn, og segir: „Ljúktu þèr upp.“ Lýkst þá steinninn upp, og í sama bili hrindir drottníng báðum kóngsbörnunum ofan í hann, skellir honum aptur, og veltir honum ofan í sjó. Snýr drottníng svo heim aptur til borgarinnar, og er hún úr sögunni fyrst.

Nú er að segja frá kóngsbörnunum. Þau finna það, að steinninn hreifist drjúgum, og það býsna leingi, þángað til loks að hann stendur kyr með öllu. Grunar þá Sigurð, að steinninn muni vera kominn að landi einhverstaðar. Dettur honum þá í hug, að fara að eins og drottníng hafði gjört, og segir: „Ljúktu þèr upp.“ Opnast þá steinninn, og lá hann uppi í fjöru við eitthvert land. Geingu þá börnin á land úr steininum, og virtist þeim það vera óbygt. Gátu þau ekki fundið sèr þar neitt skjól eða kofa. Þau fóru þá, og bjuggu sèr til dálítinn kofa, til þess að geta haldizt við í. Áður heima hafði Sigurður verið vanur við dýraveiðar. En áður þau systkinin lögðu á stað með drottníngunni, stjúpu sinni, hafði Sigurður stúngið leynilega á sig skotvopni nokkru, og hníf og hljóðpípu. Þegar þarna var komið, kom þetta í góðar þarfir. Fór nú Sigurður að reyna að skjóta dýr og fugla til matar þeim systkinum, og gekk það allvel, en nú vantaði eld til að sjóða veiðina við, eða steikja, og voru þau í vandræðum með það.

Einu sinni gekk Sigurður á land upp, sem optar, til að veiða dýr og fugla, en fór lángt um leingra en hann var vanur. Varð hann þá var við dálítinn bæ, og geingur þángað. Hann sèr þar eingan mann, og ekkert kvikindi. Klifrar hann þá upp á eldhúss-strompinn, og horfir niður um hann, til að vita, hvort hann yrði einkis vísari. Sèr hann þá kerlíngu, sem er að skara öskunni fram úr hlóðunum, og mokar hún henni aptur milli fóta sèr. Fór hún fremur sóðalega að því, enda var hún sjálf bæði stórhrykaleg og ljót. Það þóktist Sigurður samt sjá af öllu látbragði kerlíngar, að hún mundi vera sjónlaus. Lízt honum þá að reyna að læðast inn, og vita, hvort hann geti ekki náð í laumi dálitlum eldneista frá kerlu. Þetta gjörir hann, og tókst það greiðlega; varð kerlíng hans ekki vör, en að því þóktist hann komast, að kerlíng mundi vera alein í bænum. Leggur hann nú á stað með eldinn til systur sinnar, og varð hún honum fegin. Biður hann hana þess leingstra orða, að passa eldinn vel, og láta hann ekki deya. En kóngsdóttir var óvön að fela eld, og drapst hann því hjá henni á hverri einustu nóttu, svo Sigurður varð á hverjum einasta degi að sækja nýan eld, og hafði hann alt af sömu aðferð til þess. Lifðu systkinin þarna nokkra daga af því, sem Sigurður skaut þeim til matar. En einlægt var eldurinn hjá þeim að drepast, og einlægt gat þó Sigurður náð honum aptur. Heyrði hann þá, að kerlíngin í kotinu var stundum að tauta þetta fyrir munni sèr, þegar hann var að ná eldinum: „Seint koma hansvítis kögurbörnin.“ Grunaði Sigurð, að þetta myndi talað til sín og

systur sinnar, sem þángað væru komin á svo kynlegan hátt. Var hann því jafnan lafhræddur við kerlu, og hèlt niðri í sèr andanum í hvert sinn, sem hann sókti eldinn. En þó þókti honum það allralakast, að systir hans var alt af að biðja hann um, að lofa sèr að koma þángað, sem hann sækti eldinn; því hann vissi, að hún var svo aðhlæin, að hún flissaði að öllu, en átti þó bágt með að neita henni um neitt, sem hann gat veitt henni. Og þángað til var hún að nauða um þetta við hann, að hann leyfði henni að fara með sèr. Aptur á móti lofaði hún honum því, að láta ekkert í sèr krymta, hvað sem hún sæi, eða heyrði; því þar við sagði hann, að lægi líf þeirra beggja. Nú lögðu bæði systkinin á stað. Þegar þau komu að kotinu, læddust þau bæði upp á strompinn, eins og Sigurður var altènd vanur að gjöra. Það gekk nú vel. En þegar þau litu ofan í strompinn, stóð eins á og vant var. Kerlíngarófreskjan stóð fyrir framan hlóðirnar, og glenti fæturna yfir öskustóna, sem var æði stór, svo hún stóð sínum fæti hvoru megin. Var hún öll öskug; því hún var að róta öskunni fram úr hlóðunum aptur á milli fóta sèr, og geingu gusurnar upp í loptið. Nú þoldi kóngsdóttir ekki leingur mátið, heldur skellihló hún upp yfir sig uppi á strompinum. Þá segir kerlíngin: „Hæ, hæ, þar eru þau þá komin, hansans kögurbörnin!“ Rèttist þá kerla upp, og þaut út. Var hún þá svo tindilfætt, að systkinin gátu ekki komizt undan, og hertu þau sig þó að hlaupa, enda var kóngsdóttir alt af að smáskríkja; því henni þókti kerlíngin svo afkáraleg, ekki sízt, þegar hún fór að hlaupa. Nær nú kerlíng báðum systkinunum, og teymir þau, eða dregur, inn í kofa sína. Lætur hún þau inn í krá eina, eða kompu, en það var svínastía hennar, og bindur þau þar rammlega, sitt við hvorn stólpa. Gaf kerlíngin systkinunum bæði mikin mat og nógan, en samt þókti þeim æfi sín daufleg, með því líka, að bæði var hálfdimt og daunílt í kofanum. Þar á ofan bættist og það, að kerlíng var að smábíta í fíngurna á systkinunum, og segja: „Ekki eru þau nógu feit enn.“ Leituðu þau nú allra bragða til að losa sig, en það var ekki hægt. Eptir lánga mæðu tókst þó Sigurði loksins að naga í sundur bandið á annari hendinni á sèr; gat hann þá náð upp hnífnum sínum, og skar síðan böndin bæði af sèr og systur sinni. Þar næst tóku þau systkinin tvö svín kerlíngar, og skáru þau, flógu belgi af þeim og fóru í belgina. Um morguninn hleypti kerla svínunum út, eins og hún var vön, og taldi þau, og fóru þau þar með, konúngsbörnin. En þegar þau voru sloppin úr krummum kerlíngar, smokruðu þau í snatri af sèr svínabelgjunum, og sáu nú að kerlíng fór að fálma um stíuna, þegar þau gegndu henni ekki. Þá skellihló Íngibjörg upp yfir sig, svo kerlíng heyrði, að þau systkin voru komin út. Hlupu nú systkinin, eins og fætur toguðu, þegar þau heyrðu og sáu kerlínguna koma farandi á eptir sèr. Systkinin komu þá að gjá einni, sem þau gátu stokkið yfir. Kerlíng æddi þar að á eptir þeim, en af því hún var blind, sá hún ekki gjána, og mundi ekki eptir henni fyrir

æðinum, sem í henni var, svo hún steig fætinum öðrum of framarlega, og stakkst á hausinn ofan í gjána, og hálsbrotnaði. Lèt hún þar líf sitt, og varð fáum harmdauð, að minnsta kosti ekki systkinunum.

þegar systkinin sáu þetta, urðu þau harla fegin; því nú gátu þau þó verið í næði fyrir kerlíngunni. það eina, sem þau ángraði, var það, að verða að gista þarna tvö ein á þessu eyðilandi. þau gjörðu sèr því alt til skemtunar, sem þau gátu, og þess vegna sat Sigurður og blès í hljóðpípuna sína laungum og laungum, á milli þess hann var að veiða.

Einu sinni bar svo til, að konúngsbörnin sáu skip koma af hafi, og fara ekki mjög fjarri landi. Herti Sigurður sig þá, sem mest hann gat, að blása í hljóðpípuna sína. Sneru þá skipin að landi, og glaðnaði nú heldur en ekki yfir systkinunum, svo Sigurður herti sig því meira að blása í pípuna. Eitt af skipunum lagði upp að ströndinni, en hin lágu nokkuð fjær. Varð þar ekki lítill fögnuður, því á þessu skipi var faðir þeirra Sigurðar, og Íngibjargar, og gekk hann á land með fáum mönnum. þektu börnin undir eins pápa sinn, og hann þau. þau hlupu á móti honum með allra mestu gleðilátum, og hann, sem ekki vissi þeirra hèr neina von, varð öldúngis forviða að finna börnin sín á þessu eyðilandi. En einginn af mönnum konúngs hafði viljað fara með honum undir land þetta, sökum óvætta, og hèldu þeir að pípuhljóðið væri eins konar hafgýgjusaungur, sem mundi draga flota konúngs út í einhverja ófæru, ef hann drægist að hljóðinu. Af því var það, að kóngskipið eitt lagði að landi, en hin lágu utan fyrir. En kóngur hafði endilega viljað halda að landinu, og rèð hann því, eins og áður er sagt. þegar hann mætti nú börnunum sínum þarna, þóktist hann ekki hafa farið þángað til ónýtis. Hann kom þá úr ferðinni, sem hann hafði farið í, og fyrr er sagt frá. Kóngur spurði nú börnin, hvernig á því stæði, að þau væru híngað komin; en þau sögðu honum alt, sem þau vissu um það, og um æfi sína, síðan þau komu á þetta land. Konúngur tók þá börnin með sèr á skip út, og bannaði mönnum sínum að láta vita nokkurn skapaðan hlut af atburði þessum. Lèt hann síðan frá landi, og sigldi flotanum öllum heim í ríki sitt, og tók þar lendíngu, sem hann myndi helzt kjósa.

Nú kom konúngur heim. Gekk þá drottníng á móti honum, og fagnaði honum með mestu blíðlátum. Kóngur tók því heldur seint, og spyr, hverssvegna að börnin sín komi ekki út á móti sèr, að fagna sèr, eins og þau sèu æfinlega vön að gjöra. Drottníng biður hann að minnast ekki á það, og kjökrar við. Segir hún að í ríki hans hafi komið sýki mikil, og úr henni hafi blessuð börnin hans dáið, þrátt fyrir tilraunir sín og annara. En einginn þorði að bera á móti orðum drottníngar, svo vel hafði hún búið um hnútana áður. Kóngur lèzt verða hryggur við fregn þessa, en þeir, sem hann þektu, sáu, að harmur hans var ekki af neinni alvöru. Hann spurði drottníngu, hvort búið væri að jarðsetja börnin. Hálfgrátandi

sagði hún svo vera. Hann vildi þá gánga til leiða þeirra undir eins, til að sjá þau, en drottníng reyndi til á alla vegu að hamla því, og sagði, að sú sjón væri ekki til annars, en auka á harma hans. Var hún þá svo blíðmál og góð við hann, sem hún gat, svo öllum rann til rifja, hversu harðbrjósta kóngur var, að hann skyldi ekki taka blíðlátum drottníngar sinnar, og ekki láta að orðum hennar, heldur þvert á móti heimta, að sèr yrðu sýnd leiðin barnanna, áður en hann geingi heim til hallarinnar. Loksins voru þá konúngi sýndir legstaðir barna sinna. En þegar hann kom þángað, dáðist hann raunar að fegurð þeirra, en gat þó ómögulega grátið; það sagði hann að sèr þækti kynlegt. Fór hann heim síðan með fylgjurum sínum, og lèt drottníng reisa fagnaðaröl í móti honum. Nú fór svo nokkurn tíma, að konúngur gekk á hverjum degi til leiða barna sinna, en gat aldrei tárast yfir þeim, og það undraði hann. Krafðist hann þess þá á endanum, að börnin væru grafin upp aptur, svo hann sæi líkin og umbúnað þeirra. Drottníng setti sig á móti því með allri þeirri blíðu, sem hún gat. En þó kom svo, að hún rèð ekki við, og lèt kóngur grafa upp leiðin. Voru þá upp teknar líkkisturnar; þær voru skrautlegar. Kóngur heimtar þá að þeim sè upp lokið. Drottníng letur þess, og margir með henni, því það myndi verða ærinn sorgarauki fyrir kóng, að sjá börn sín, eða lík þeirra, eptir svo lángan tíma. En konúngur sókti því fastar á, og voru nú kisturnar opnaðar. En þá voru í kistunum, sinn hvolpurinn í hvorri, en eingin börn. Sagðist þá kóngur sjá, að hèr væru brögð í tafli, og það hefði hann fyrr vitað. Vildi hann nú undir eins láta ráða drottnínguna af dögum. Gekk hún þá við öllu ódæði sínu, og bað sèr griða; því hún sagðist eiga fáa daga ólifaða eptir. Voru þá börn konúngs leidd fram, og sögðu þau sína sögu, og konúngur og hans menn sína. En kóngur gaf drottníngu andlátsfrest, þrátt fyrir tillögur ráðunauta sinna, og tók hún bráðum sótt þá, sem hana leiddi til bana. En áður en hún dó beiddist hún þess, að Sigurður kóngsson vekti yfir líki sínu á meðan hún lægi á börunum.

Drottníng lá ekki leingi áður hún andaðist, og átti nú Sigurður kóngsson að vaka yfir líki hennar. En við hirð konúngs var karl einn gamall, margfróður og fjölkunnugur, sem hèt Bangsemon. Hann sagði það óráðlegt, að láta Sigurð vaka yfir líki drottníngar, og bauðst til, að gjöra það fyrir hann. Tóku allir því boði vel, því nú var kominn illur grunur á drottnínguna. Fyrstu nóttina, þegar karlinn kom, og lauk upp hurðinni á húsinu, þar sem lík drottníngar stóð inni, þá segir hún: „Eru fölar fætur mínar?“ Hann svarar: „Já, sem heystrá, Hettugríma.“ „Komum við þá að glíma,“ segir hún, og rauk á fætur og á karlinn, en hann stóð fastur fyrir henni, og kom hún honum ekki undir. Sagðist hún þá vita, að þetta væri ekki Sigurður kóngsson, og hún væri svikin. Bað hún þá karl fyrir alla muni, að sjá svo um að Sigurður vekti næstu nótt yfir líki sínu, og

lèt karl, sem það mundi verða. En að morgni sagði hann frá hvað gjörzt hafði, og bauðst til að vaka yfir líkinu á hverri nóttu, meðan það stæði uppi, og þókti það vel boðið og launa fyrir vert, enda var það og þegið. En drottníng var í rauninni ekki dauð, heldur hafði hún með fjölkynngi sínu látið það sýnast svo, og af þessu vissi karlinn, Bangsemon, af vizku sinni. En þegar svona var komið, þókti drottníngu hèr ekki leingur við vært. Fór hún því burtu af líkbörunum, og stökk í annað kóngsríki. Gjörði hún sig þar að barni, og var úti í skógi, þar sem kóngurinn í því ríki var vanur að vera á dýraveiðum. Fann kóngur þar þessa fríðu mey, og flutti hana heim til sín, til hallarinnar, og varð hún þar óskabarn kóngs og drottníngar. En Bangsemon gamli hafði gát á ferðum drottníngar, og var því líka þar fyrir. Var hann henni ekki vel góður; því þegar hún bað hann gefa sèr mat, lèt hann hana musla upp roðarusl, sem þar var geymt í tunnum, og sem voru afgángsleifar, og þegar hún var þyrst, lèt hann hana þamba blátt vatn. En drottníng þorði ekki að èta mikið inni í kóngshöllinni; því hún var þá hrædd um, að hún kæmi því upp um sig, að hún væri ekki barn, eins og hún lèzt vera. Var hún því nauðbeygð til að snýkja á Bangsemon gamla, sem hún þekti hèr ekki, en var hèr ruðukarl og roða. En drottníngu gramdist þetta mjög, og barnið kvartaði sífeldlega yfir karlinum. Á endanum gat hún rægt hann við kóng, svo að nú átti að brenna hann á báli.

Á leiðinni til bálsins, sem vera átti fyrir utan borgina, bað karlinn um, að hann mætti segja æfisögu sína. En kóngur neitaði því, og sagði, að það væri ekki til annars en tefja tímann. Þá sagði karlinn, að kóngur skyldi líta heim til borgar sinnar, en hafa ekki allan hugann á lífláti sínu. Kóngur leit við, og sá, að borgin stóð í ljósum loga; sneri hann þá aptur, og allir, sem með voru, og karlinn líka. Komst það þá upp að óskabarnið kóngsins hafði kveykt bálið, og fèkk Bangsemon því til leiðar komið, að króginn var neyddur til, að segja æfisögu sína. Þá sagði Bangsemon sína, og bar þeim saman. Var þá stelpukróganum hrundið á bálið, og fèkk hann það í sögulaun, en í sama bili kleip mærin í brjóst drottníngar og reif þar flyksu úr. Ætlaði hún að drepa hana með því, en verða sjálf drottníng, en nú var það heldur seint, því Bangsemon hratt henni á bálið. En svo var hún trylt, að hún vildi ekki brenna, en þó fór svo, að sumt brann, en fyrir hinu, sem ekki brann, sá Bangsemon gamli, svo ekki hefir síðan mein orðið að drottníngu þessari. Og ekki kann eg þessa sögu leingur.

**Sagan af Surtlu í Blálandseyum.** (Eptir húsfrú Hólmfríði Þorvaldsdóttur.) Einu sinni var kóngur og drottníng; þau áttu einn son, sem Sigurður hèt og dóttur, sem Íngibjörg hèt. Börn þessi voru enn úng, þegar þessi saga gerðist, en þó komin vel á legg. Nokkru síðar tók drottníng þúnga sótt, og af því hana grunaði, að sú mundi verða sín síðasta, kallar hún börn

sín fyrir sig; gefur hún þá Íngibjörgu belti, og segir, að því fylgi sú náttúra, að hún verði aldrei svaung, meðan hún hafi beltið utan um sig. En Sigurði gefur hún hníf og segir, að hann bíti bæði stál og steina, og hvað sem hann beiti honum á. Síðan kveður hún börnin og biður þeim virta. Skömmu seinna deyr drottníng, og verður öllum mikið um það, en mest kóngi og börnum þeirra. Var hún svo grafin, og búið vel um leiði hennar, og sat kóngur þar laungum á daginn og syrgði hana. Einn dag, þegar hann sat á leiði drottníngar, kemur til hans maður og kona, skrautleg mjög, og var konan nokkuð alvarleg ásýndar. Þau heilsa kóngi kurteislega, og tekur hann því og spyr þau að heiti. Hún segist heita Goðrún, en hann Rauður, og sèu þau systkin. Þau spyrja, hvað hann hafist þar að svo einmana. Kóngur segir, sem var. Goðrún segir, að það sè ráðlegast fyrir hann að hyggja af hörmum sínum, hún hafi og ekki alls fyrir laungu mist mann sinn og kóng, og hafi sèr ekki hent hugarvílið. Það finnur kóngur, að kona þessi er greind og stillileg og hugsar, að sèr væri það mikil unaðsbót, ef hann feingi hennar; hann ræður það því af að biðja hennar, og tók hún því ekki mjög fjarri, en vèk þó þeim málum til Rauðs bróður síns. En Rauður fýsti hana að taka bónorði kóngs. Tekst svo sá ráðahagur, og drekkur kóngur brullaup sitt til hennar, en gerir Rauð að ráðgjafa sínum. Lítið var þeim Sigurði og Íngibjörgu um þessa ráðabreytni föður síns og ekki sátu þau brúðkaup hans, en minnst var þeim þó um stjúpu sína. Skömmu síðar býst kóngur í burtu, að heimta skatta af löndum sínum; þau urðu þess áskynja, Sigurður og Íngibjörg, og beiddu hann að lofa sèr með honum, og var rètt komið að honum að leyfa þeim það, þegar Goðrún kemst að því, og segir við kóng, að því sè ekki gegnandi að hafa börnin með sèr í þá ferð, allra sízt Íngibjörgu, en það sè lítill vegur með Sigurð, og þó lítt fært. Verður það svo af, að kóngur lofar hvorugu barninu með sèr; en Rauður fer með honum. Þegar kóngur er ferðbúinn, fylgir drottníng honum til skips og börnin með henni. Þegar skipið leggur frá landi, horfa þau drottníng leingi á eptir því, og þegar það var nærri horfið sjónum, segir Goðrún við þau Sigurð, að þau skuli gánga upp á höfða, sem þar lá fram í sjóinn skamt frá, því þaðan sjái þau leingur til skipsins. Þau gera nú svo, og þegar skipið er horfið alveg, gánga þau ofan að sjó og með honum, þángað til þau komu í vík eina, og var þar fyrir kista; hún var úr steini og opin. Drottníng segir þeim að skoða, hvað í kistunni sè; en hún var há og stór, og sýndist börnunum gull glóa á kistubotninum.[1] Þegar börnin fóru að leggja sig ofan í hana, vita þau ekki fyrri til, en stjúpa þeirra hrindir þeim ofan í kistuna, skellir henni aptur, ýtir henni á flot og segir: „Sigldu nú til Surtlu, systur minnar

1. Sbr. Völundarkviðu 19. og 22. erindi.

í Blálandseyar.“ Kistan tekur þá til rásar, og finna systkinin það, að hún fer óðfluga. Skiptast þau þá um beltið, að spenna því um sig, svo að þau yrðu ekki húngurmorða. Loksins finna þau, að kistan staðnæmist; fer þá Sigurður til, og tálgar svo stórt gat á hana með hníf sínum, að hann gat sèð út, og að þau eru komin að landi á slèttri sjávarströnd undir hömrum nokkrum. Hann víkkar nú gatið, þángað til hann kemst út, en Íngibjörg ekki, því það stóð á herðunum á henni. Sigurður skilur systur sína eptir í kistunni, á meðan hann fer að reyna, hvort hann kæmist ekki fyrir hamrana, svo hann gæti kynt sèr land þetta. Hann geingur nú leingi, þángað til hann kemst upp á hamrana; sèr hann þá helli stóran og í honum skessu. Hún reri fram í gráðið og fálmaði fram höndunum á víxl, og var að tauta fyrir munni sèr, að senn kæmu kóngsbörnin, sem hún Goðrún systir sín hefði heitið sèr. Hún sat flötum beinum beggja vegna við hlóðin, og hafði hóbandið upp um hálsinn og pott fullan milli fótanna, og sauð ket í honum. Það þóktist Sigurður sjá, að skessan væri blind; því fór hann inn í hellinn, laumaðist að pottinum, og færði upp nokkur stykki. Sá hann þá, að sumt var sauðaket, en sumt manna, og því hleypti hann aptur ofan í pottinn, en sauðaketið færði hann systur sinni, og borðuðu þau það með góðri lyst, enda voru þau orðin matar þurfar. Íngibjörg spurði Sigurð, hvar hann hefði feingið ketið; en hann sagðist ekki mega segja henni það. Hún fór því betur að honum, þángað til hann sagði henni það, en þó með því skilyrði, að hún beiddi sig ekki um neitt meira, og hèt Íngibjörg því. En þegar hann hafði sagt henni frá skessunni og öllu háttalagi hennar, bað hún Sigurð enn betur og jarganlegar að lofa sèr að fara með honum, og sjá skessuna svona á sig komna. Sigurður sagðist ekki bera það við, því undir eins og hún sæi hana, mundi hún flissa og skella upp yfir sig; því Íngibjörg var fram úr öllu lagi hláturmild. En hún lofaði Sigurði öllu fögru, og þar með því, að sèr skyldi ekki stökkva bros, ef hann vildi nú gera þetta fyrir sig. Fór þá svo fyrir lángt nauð úr Íngibjörgu, að hann lofaði henni með sèr daginn eptir og víkkaði nú opið á kistunni, svo að hún komst út. Síðan fara þau til hellisins, og var Surtla þá eins á sig komin, og daginn áður, og var að telja sèr tölur yfir kóngsbörnunum, sem henni þókti seinka. Ekki voru þau systkin fyrr komin á hellis gluggann, og búin að koma auga á kerlíngu, en Íngibjörg skellir upp úr, og skessan rýkur upp til handa og fóta, og segir, að það hafi altènd legið að, að Goðrún systir sín mundi ekki gleyma sèr; því nú sèu kóngsbörnin komin, óræstin þau arna. Hleypur hún svo út úr hellinum og fálmar þau uppi. Tekur hún þau nú og setur bæði í einn afhelli, og byrgir traustlega aptur, svo ekki var að hugsa til, að þau kæmist þar út. Skessan ætlaði að ala þau þar nokkra stund, áður en hún slátraði þeim; gaf hún þeim því bæði nóg og gott viðurværi inn um gat á hurðinni, en skipaði þeim að rètta út um gatið

litlu fíngurnar, og beit hún í þá, til að vita, hvort þau fitnuðu. En Sigurður tálgaði til leggi úr sauðarbeinum þeim, sem þau borðuðu, og smeygði þeim upp á fíngurna, svo að skessan beit í þá, og þókti þau seint fitna. Sigurð grunaði, að einhvern tíma mundi þó koma að því, að skessan trènaðist upp á að ala þau, og mundi hún, þegar minnst varði, taka þau til slátrunar. Hann tók sig því til og tálgaði hellisbergið uppi yfir afhellinum með hnífnum sínum, og ætlaði að gera þar gat á. Losaði hann þá stundum stór stykki úr berginu, svo skessan heyrði fallið, þegar þau duttu niður á hellisgólfið. Kom hún þá að gatinu, og spurði, hvern þremilinn þau væru nú að hafast að. En þau svöruðu: „Við vorum að brjóta beinin úr ketinu, sem þú gafst okkur, fóstra.“ Lèt Surtla sèr þar með sagt og fèkkst ekki um, þó hún heyrði lítinn skruðníng eða hark til þeirra í afhellinum. Loksins kom að því, að þau komu gatinu á hellisbergið og komust þar út. En Surtla heyrði þá venju meira þrusk þar inni, svo hún fór inn í afhellinn og fálmaði fyrir sèr; strauk hún þá um iljarnar á Íngibjörgu, þegar hún var að hverfa upp úr gatinu. Þá varð kerlu heldur ílt við, æddi út og fór að leita, og stefndi í áttina, þángað sem hún heyrði skóhljóð þeirra systkina; þau geingu sem tæpast á hömrunum, og á einum stað, þar sem sjór fèll í berg, veltu þau ofan stórum steini, svo af því varð dýnkur mikill, en þau viku sèr heldur til hliðar, og hèldu niður í sèr andanum. Þegar Surtla heyrði dýnkinn, hugsaði hún, að þau hefðu fleygt sèr fram af og drepið sig, og skyldi hún þá hafa þau dauð í soðið, þó hún hefði ekki feingið þau lifandi. Fór hún því fram af björgunum, þar sem hún heyrði, að dýnkurinn varð; en þar var hærra niður og verra undir, en hún hugði, því þar var heingiflug og urðargrjót undir, þar sem sjórinn gekk upp í bergið, svo að hún marði sig til dauðs, þegar hún kom niður. Kóngsbörnin þökkuðu þá sínum sæla lífgjöf sína, þegar skessan var dauð, fóru heim í hellinn og könnuðu hann. Fundu þau þar bæði nógar vistir og margt fèmætt, og í afhelli einum stúlku, komna í opinn dauðann af hor og húngri. Hún sat á stóli með krásadisk í keltu sinni, en stóð með fætur í vatni, og hárið bundið um stólbrúðirnar. Sigurður losar hana sem fljótast, og var svo af henni dregið, að hún gat varla svarað þeim. Hún sagðist heita Hildur og vera kóngsdóttir; hefði Rauður, bróðir þeirra systra numið sig þángað, og ætlað að þraungva sèr, til að eiga sig, en hún hefði ekki viljað það með nokkru móti, og því hefðu þau lagt þessar pintíngar á sig. Hrestu nú kóngsbörnin hana við, og dvöldu svo þar í hellinum nokkra stund. Á hverjum degi voru þau á vaðbergi, að vita, hvort þau sæu ekki skip sigla þar fyrir. En leingi áttu þau þess að bíða; þó kom að því um síðir, að þau sáu skip, gerðu þau þá bál mikið, svo að sást af skipinu. En svo vildi heppilega til, að á þessu skipi var kóngurinn, faðir þeirra Sigurðar og Íngibjargar. Kóngur segir, þegar hann sèr vitann kyntan á landi, að þar muni einhverjir vera nauðulega staddir, sem vilji

hafa tal af þeim, og sè bezt að beita undir landið og skjóta báti. Rauður ráðgjafi aftók það, og bað kóng ekki gera þá heimsku, því þar væri eingin mannabygð og hefðu þó fáir aptur komið, sem lent hefðu við Blálandseyar til þessa. Kóngur rèð þó meira, en Rauður; var svo skotið báti og fór kóngur í hann með nokkra menn og til lands. Þar urðu heldur en ekki fagnaðarfundir, þegar kóngur hitti þar börn sín, og sögðu systkinin honum alt af lètta, hvernig stjúpu sinni hefði farizt við þau, og hvernig þeim hefði vegnað síðan, og eins um Hildi. Kóngur tók þau öll með sèr og það, sem fèmætt var í hellinum. Þegar hann kom út til skipsins aptur, breiddi hann rautt klæði yfir Hildi og börn sín í bátnum, svo eingum sást ofaukið í honum, og kom þeim, svo ekkert bar á, í afvikið herbergi í skipinu og lèt Rauð ekkert vita af þeim; en þegar kóngur hitti Rauð, kvaðst hann einkis hafa orðið vísari á landi, svo líkt hefði farið, og hann hefði sagt, nema hann væri heill aptur kominn. Síðan siglir kóngur heim. Það er nú af Goðrúnu drottníngu að segja, að hún kom ekki heim, fyrr en um nóttina, eptir að hún hafði fylgt kónginum til skips; sagði hún, að dýr hefðu ráðizt á sig og kóngsbörnin á leiðinni, og hefðu þau drepið börnin, en hún hefði getað forðað sèr og náð líkömum þeirra öllum rifnum og tættum um nóttina, og hefði hún svo lagt þau til og líkbúið þau. Bað hún nú þá beztu smiði, sem faung voru á að fá, að búa til kistur að þeim, svo prýðilegar, sem auðið væri; því sèr væri ant um, að þau feingi kónglega greptrun, þó svona mæðulega hefði tiltekizt. Voru smíðaðar kistur að þeim, allar greiptar með gulli og silfri, svo einginn þóktist hafa sèð slíka viðhöfn. Drottníng baukaði ein við að kistuleggja börnin, og síðan voru þau grafin með kónglegri viðhöfn. Nú líður og bíður, þángað til menn sjá siglíng kóngs; fer þá drottníng til strandar og fagnar honum, en var þó mjög sorgbitin. Kóngur tekur henni vel og spyr, hvað að henni gángi, og hvar börnin sín sèu. Hún segir, að það sè saga að segja frá því, og segir honum svo frá öllu hinu sama, og hún hafði fyrr sagt borgarmönnum um barnamissinn, og sagði hún, að það eitt gleddi sig, að þau hefðu feingið svo heiðarlegan gröpt, sem kóngsbörnum hæfði, eins og borgarlýðurinn gæti borið sèr vitni um. Kóngur lèzt verða hryggur við þessa fregn, en sagðist þó vilja sjá líkin; en Goðrún latti þess á allar lundir, því þau væru nú orðin öll afskræmd og rotin og lítil huggun í því fyrir kóng.[1] Þegar þau komu heim, lèt kóngur þegar grafa upp líkin og sá, að vel hafði verið um þau búið. Síðan lèt hann opna kisturnar, og fann í annari hund, en í hinni tík, vafin í dýrðlegustu líkblæum. Kóngur spurði, hvort þetta væru börnin sín. En við það fóru þau systkin, Goðrún og Rauður, að sortna í framan, en hún svaraði eingu. Sagðist kóngur

1. Sbr. Fas. I, 527—8. bls.

þá skyldi sýna henni börn sín, og liti þau öðruvísi út; lèt hann svo sækja þau Sigurð, Íngibjörgu og Hildi til skipsins, og lèt þau segja frá öllum aðförum drottníngar við þau, og Rauðs við Hildi, svo allur borgarmúgurinn heyrði. Færðust þau Goðrún og Rauður þá í tröllshaminn og urðu ógurlega stór og illileg. Lèt kóngur svo taka þau, og urðu margir að ráðast á þau, áður en þeim varð komið í bönd. Síðan voru þau sett aptan í ótemjur, sem slitu þau sundur lim frá lim. Gekk svo Sigurður að eiga Hildi, og varð kóngur eptir föður sinn; en Íngibjörg giptist kóngssyni úr öðru landi. Og lýkur svo þessari sögu.

**Sagan af Hríngi kóngssyni.** (Eptir Branþrúði Benónísdóttur úr Múlasýslu.) Það var einu sinni kóngur og drottníng í ríki sínu; þau áttu sèr eina dóttur, sem Íngibjörg hèt, og einn son, er Hríngur hèt; hann var hugdirfskuminni, en tignir menn gerðust á þeim tíma, og einginn var hann íþróttamaður. Þegar hann var tólf ára, reið hann á skóg með mönnum sínum einn góðan veðurdag að skemta sèr. Þeir ríða leingi, þar til þeir sjá hind eina með gullhríng um hornin. Kóngsson vill ná hindinni, ef kostur væri. Þeir veita henni eptirför og ríða hvíldarlaust, þángað til allir eru búnir að spreingja hesta sína, og loks springur hestur kóngssonar líka. Þá laust yfir þoku svo svartri, að þeir gátu ekki sèð hindina; voru þeir þá komnir mjög lángt frá öllum mannabygðum, og vildu fara að halda heim á leið aptur, en voru farnir að villast; geingu þeir nú allir samt, það sem horfði, þángað til hverjum fór að þykja sinn vegur rèttur; skildu þeir þá og fór sinn í hverja áttina. Nú er að segja frá kóngssyni, að hann er viltur, eins og hinir, og ráfar eitthvað í ráðleysu, þángað til hann kemur í dálítið rjóður skamt frá sjó. Þar sèr hann, hvar kona situr á stóli og tunna mikil stendur þar hjá henni. Kóngsson geingur til konunnar og heilsar henni kurteislega; hún tekur þægilega kveðju hans. Þá verður honum litið ofan í tunnuna og sèr, hvar óvenjulega fallegur gullhríngur liggur á tunnubotninum; kviknar þá hjá honum ágirnd á hríngnum, og getur ekki haft af honum augun. Þetta sèr konan, og segist sjá, að hann hafi hug á gullinu, sem sè í tunnunni. Hann segir svo vera. Hún segir, að hann megi eiga það, ef hann vilji vinna til að ná því. Hann þakkar henni fyrir, og segir, að það sè nú minnst vert að ná því; fer hann þá að teygja sig ofan í tunnuna, er honum virtist ekki djúp, og ætlar að verða fljótur að taka hrínginn, en tunnan dýpkaði, eptir því sem hann seildist leingra. Þegar hann var kominn hálfur inn af barminum, stendur konan upp, stíngur honum á höfuðið ofan í tunnuna og segir, að hann skuli þá gista þarna. Síðan slær hún botn í tunnuna, og veltir henni fram á sjó. Kóngssyni þykir nú illa komið fyrir sèr, hann finnur, að tunnan flýtur eitthvað frá landi og veltist leingi í öldunum, en ekki vissi hann, hvað marga daga, þángað til hann finnur, að hún

naggrar við klöpp. Glaðnar þá dálítið yfir kóngssyni, því hann hugsar, að þetta muni vera land, heldur en sker; honum kemur nú til hugar að reyna að spyrna botninum úr tunnunni, því hann var dálítið syndur. Hann ræður þetta af, þó hann hins vegar væri hræddur um slæma landtöku, en það var öðru nær, því sléttar klappir voru þar við sjóinn, svo honum gekk vel að komast á land, en há björg voru fyrir ofan; vill hann nú komast eitthvað upp frá sjónum, þótt torsókt sýndist, og geingur stundarkorn fram með björgunum, þar til hann fer að reyna að klifra upp og tekst honum það um síðir. Þegar hann var kominn upp, litast hann um, og sèr, að það er ey, sem hann er í kominn; hún var skógi vaxin og frjóvsöm, og sá hann þar vaxa epli góð átu; þókti honum þarna skemtilegt, að því er landið snerti. Þegar hann hafði verið þar nokkra daga, heyrði hann eitt sinn hark mikið í skóginum; varð hann þá ákaflega hræddur og hljóp í skóginn, til að reyna að fela sig. Hann sèr nú, hvar risi kemur með viðar sleða og stefnir á hann. Hann hafði þá eingin önnur ráð, en að fleygja sèr niður, þar sem hann stóð. Þegar risinn fann hann, stóð hann dálitla stund kyrr og horfði á kóngsson, síðan tók hann hann í fáng sèr, bar hann heim til sín, og var honum óvenjulega góður; gefur hann nú sveininn kerlíngu sinni, er nær því var karlæg; kvaðst hann hafa fundið barn þetta í skógnum og skyldi hún hafa það til vika í kríng um sig. Kerlíngu þókti ósköp vænt um þetta, og fór að klappa kóngssyni með miklum blíðmælum. Hann dvelur nú þarna hjá þeim og er þeim mjög þægur og eptirlátur í öllu, er þau beiddu hann, enda voru þau honum hvern daginn öðrum betri. Einn dag fer risinn með hann og sýnir honum í allar hirzlur sínar nema í eldaskálann; af þessu kom forvitni í kóngsson, til að sjá í eldaskálann, því hann hugsaði þar væri einhver fásèn gersemi inni. Einn dag, þegar risinn var farinn á skóg, fer kóngsson og ber sig að ná upp eldaskálanum, og kemur hurðinni í hálfa gátt; sèr hann þá, að eitthvert kvikindi hristir sig, hleypur fram eptir gólfinu, og talar eitthvað. Kóngsson hrekkur nú öfugur frá hurðinni, skellir henni aptur og pissar í buxurnar af hræðslu. Þegar heldur fór að renna af honum hræðslan, ræður hann til aptur, því hann hafði gaman af að heyra, hvað það segði, en það fór á sömu leið fyrir honum, sem fyr. Honum sárnar nú við sjálfan sig og harkur af sèr, sem hann kann. Hann ræður þá til í þriðja sinn, lýkur upp skálanum, og ber sig að standa við; sèr hann þá, að þetta er lóbaggahundur, sem talar enn til hans og segir: „Kjóstu mig, Hríngur kóngsson.“ Hann flýtir sèr nú burtu lafhræddur og hugsar með sèr: „Ekki er hèrna mikil gersemi,“ en annars vegar varð honum það minnisstætt, sem hann heyrði í skálanum. Þess er ekki getið, hvað leingi hann var þarna hjá risanum, en einn dag kemur risinn til hans, og segist nú vilja koma honum til lands úr eynni, því hann kveðst eiga skamt eptir ólifað; þakkar hann nú kóngssyni fyrir

góða þjónustu og segir, að hann skuli kjósa sèr einhvern hlut úr eigu sinni, því hann skuli eflaust fá það sem hann girnist. Hríngur þakkar honum kærlega, og seigist ekki eiga hjá honum borgun fyrir viðvik sín, þar þau væru þess ekki verð, en fyrst hann vilji gefa sèr nokkuð, þá kjósi hann, það sem sè í eldaskálanum. Risanum varð bylt við og mælti: „þar kaustu hægri hönd af dyrgju minni, en þó má eg eigi brigða orð mín.“ Síðan fer hann og sækir hundinn. þegar hundurinn kemur með mikilli ferð og feiginleika, verður kóngsson svo hræddur, að hann átti nóg með að harka af sèr, að eigi bæri á því. Síðan fer risinn með hann til sjávar; þar sá hann steinnökkva, sem ekki var stærri en svo, að hann naumast bar þá báða og hundinn. En er þeir eru komnir til lands, kveður risinn Hríng vinsamlega og segir, að hann megi eiga það, sem sè í eynni, eptir sinn dag, og vitja þess að liðnum hálfum mánuði, því þau verði þá dauð. Kóngsson þakkar honum vinsamlega bæði fyrir þetta og annað gott undanfarið. Risinn fór nú heimleiðis, en kóngsson gekk eitthvað upp frá sjónum; hann þekti ekki landið, sem hann var staddur á, en þorði ekki að tala neitt til hundsins. þegar hann er búinn að gánga þeigjandi um hríð, þá talar hundurinn til hans og segir: „Ekki þykir mèr þú vera forvitinn, að þú skulir ekki spyrja mig að nafni.“ Kóngsson ber sig þá að segja: „Hvað heitirðu?“ Hundurinn segir: „þèr er bezt að kalla mig Snata-Snata. En nú komum við heim að einu kóngsríki, og skaltu biðja kóng veturvistar, og að hann ljái þèr lítið herbergi fyrir okkur báða.“ Kóngssyni fer nú að minka hræðslan við hundinn. Hann kemur heim að kóngsríki og biður kóng veturvistar. Kóngur tók því vel þegar kóngsmenn sáu hundinn, tóku þeir að hlæa og gera sig líklega til að erta hann. þegar kóngsson sá það, sagði hann: „Eg vil ráðleggja ykkur að glettast ekki við hundinn minn, þið kunnið að hafa ílt af því.“ þeir sögðu, að sèr virtist hann jafn líklegur til hvorstveggja. Hríngur fær nú herbergi sèr hjá kóngi, eins og ráð var fyrir gert á leiðinni. þegar hann hefir verið með kóngi nokkra daga, fer honum að þykja mikið til hans koma, og virðir hann öðrum fremur. Ráðgjafi einn var með kóngi, sem Rauður hèt. þegar hann sá, að kóngur tók að virða Hríng öðrum fremur, kom í hann öfund. Einn dag kemur Rauður að máli við kóng, og segist ekki vita, hvernig því dálæti sè varið, sem hann hafi á manni þessum, hinum nýkomna, hann hafi þá eingar íþróttir sýnt þar frekar, en aðrir. Kóngur segir skamt síðan, að hann hafi komið. Rauður segir, að hann skuli nú á morgun láta þá fara báða og höggva skóg, og vita hvor þeirra verði mikilvirkari. þetta heyrði Snati Snati, og sagði Hríngi; ræður hann nú Hríngi til að biðja kóng að ljá sèr tvær axir, svo að hann hefði aðra til taks, ef hin kynni að brotna. Morguninn eptir biður kóngur þá Hríng og Rauð að höggva fyrir sig skóg. þeir taka því vel. Hríngur fær tvær axir og svo fer sinn í hvora

áttina. Þegar Hríngur er kominn út á skóginn, tekur Snati öxina, og fer að höggva með kóngssyni. Um kvöldið kom kóngur að líta yfir dagsverk þeirra, eins og Rauður hafði lagt fyrir; var þá viðarköstur Hríngs meira en helmíngi stærri. Kóngur mælti þá: „Þetta grunaði mig, að Hríngur mundi eingin mannleysa vera, og hefi eg aldrei sèð þvílíkt dagsverk.“ Varð nú Hríngur í miklu meiri metum hjá kóngi eptir, en áður. Rauður þoldi mjög illa yfir þessu. Einn dag kemur hann til kóngs og segir: „Fyrst Hríngur þessi er slíkur íþróttamaður, sem hann er, þykir mèr þú mega biðja hann að drepa blótneytin hèrna á skógnum og flá þau sama dag, en færa þèr hornin og húðirnar að kvöldi.“ Kóngur mælti: „Sýnist þèr slíkt ekki forsendíng? Þar eð þau eru mannskæð, og einginn hefir enn komið, er þorað hafi að gánga á móti þeim.“ Rauður segir, hann hafi þá ekki, nema eitt líf að missa, það sè gaman að reyna karlmennsku hans, og kóngur hafi þá heldur orsök til að tigna hann, ef hann vinni þau. Kóngur lætur nú tilleiðast fyrir þrámælgi Rauðs, þótt honum væri nauðugt og einn dag biður hann Hríng að fara og drepa fyrir sig nautin, sem þar sèu á skógnum, og færa sèr af þeim hornin og húðirnar að kvöldi. Hríngur vissi ekki, hvað ill nautin voru viðureignar, og tekur vel máli kóngs; fer hann nú þegar af stað. Rauður verður nú glaður við, því hann taldi Hríng þegar dauðan. Þegar Hríngur kemur í augsýn nautanna, koma þau öskrandi á móti honum; var annað hræðilega stórt, en hitt minna. Hríngur verður ákaflega hræddur. Þá segir Snati: „Hvernig lízt þèr nú á?“ „Illa,“ segir kóngsson. Snati segir: „Ekki er um annað að gera fyrir okkur, en að ráðast að þeim, ef vel á að fara, og skaltu gánga móti litla nautinu, en eg á móti hinu.“ Í sama bili hleypur Snati að stóra bola og er ekki leingi að vinna hann. Kóngsson geingur skjálfandi móti hinum, og þegar Snati kemur, þá var nautið búið að leggja Hríng undir; var hann nú ekki seinn að hjálpa húsbónda sínum. Síðan flógu þeir sitt nautið hvor; en þegar Snati var búinn að flá stóra nautið, var Hríngur vart búinn að hálf-flá hitt. Um kvöldið, þegar þeir voru búnir að þessu, treysti kóngsson sèr ekki til að bera hornin öll og báðar húðirnar, svo Snati segir honum að fleygja því á hrygg sèr heim undir borgar hliðið. Kóngsson þiggur þetta, og lætur alt á hundinn, nema húðina af minna nautinu, hana rogast hann sjálfur með; skilur hann þar alt eptir við borgar hliðið, geingur fyrir kóng og biður hann gánga með sèr þángað, afhendir hann honum nú húðirnar og hornin af nautunum. Kóngur undrast mikillega hetjuskap hans og segir, eingan hans líka vera munu; þakkar hann honum innilega fyrir verkið. Eptir þetta setur kóngur hann hið næsta sèr; virtu allir hann mikils og hèldu hann hina mestu hetju, og jafnvel gat nú ekki Rauður mótmælt því, en fór þó alt af versnandi í þeim ásetníngi að ráða hann af dögum. Eitt sinn kemur honum gott ráð í hug; geingur hann því fyrir kóng og kveðst þurfa að

tala nokkuð við hann. Kóngur spyr, hvað það sè. Rauður segir, að sèr hafi nú dottið í hug gullskikkjan góða, gulltaflið góða og lýsigullið góða, sem kóngur hafi mist hèrna um árið. Kóngur biður hann að minnast ekki á það. Rauður spyr, hvort kóngi muni ekki lítast sama og sèr. Kóngur spyr, hvað það sè. Rauður segist sjá, að Hríngur sè afbragðsmaður og halda, að honum vinnist alt; hafi sèr því komið til hugar að ráða kóngi að biðja hann að leita upp þessa dýrgripi, og vera kominn með þá fyrir jólin; skuli hann lofa honum dóttur sinni í staðinn. Kóngur segir sèr þyki í alla staði ósæmilegt fyrir sig að inna að slíku við Hríng, þegar hann geti þá ekki vísað honum til þeirra. Rauður lætur sem hann heyri ekki undanfærslu kóngs, en telur sífelt um fyrir honum, þángað til kóngur lætur að orðum hans. Þegar mánuður var til jóla, þá var það einn dag, að kóngur kemur að máli við Hríng, og segist ætla að biðja hann stórrar bónar. Hríngur spyr, hver hún sè. Kóngur segir: „Hún er sú, að sækja fyrir mig gullskikkjuna mína góðu, gulltaflið mitt góða og lýsigullið mitt góða, sem stolið var frá mèr hèrna um árið. Ef þú getur fært mèr þetta fyrir jólin, skal eg gefa þèr dóttur mína.“ Hríngur mælti: „Hvar ætti eg helzt að leita?“ Kóngur mælti: „Þú verður að segja þèr það sjálfur, því eg veit það ekki.“ Hríngur geingur nú burt frá kóngi og er hljóður í skapi, því hann þóktist í vanda staddur, en þókti þó á hinn bóginn ágætt að eiga von á kóngsdóttur. Snati sèr nú, að húsbóndi hans er ráðafár, og segir því við hann, að hann skuli ekki leggjast það undir höfuð, sem kóngur hafi beðið hann, en sínum ráðum skuli hann fylgja, því ella muni hann verða í vandræðum staddur. Kóngsson hlýðir þessu, og fer að búast til ferða. Síðan geingur hann inn fyrir kóng og kveður hann. Þegar Hríngur er geinginn út aptur frá kóngi, þá segir Snati: „Nú skaltu fyrst fara hèr um sveitina í kríng og fá þèr svo mikið salt, sem þú getur.“ Kóngsson gerir þetta og fær svo mikið af salti, að hann getur ekki borið. Snati segir, að hann skuli fleygja pokanum á hrygg sèr. Hríngur gerir það. Nú var komið að jólum. Hundurinn rennur alt af á undan kóngssyni, þángað til þeir koma undir ein björg. „Hèr verðum við að fara upp,“ segir Snati. „Ekki held eg það verði neinn hægðarleikur,“ segir kóngsson. „Haltu fast í róu mína,“ segir Snati. Síðan stekkur Snati með Hríng í róunni upp á neðsta stallinn, og fær Hríngur þá svima. Svo stekkur Snati með hann upp á annan stallinn; er þá nærri því liðið yfir Hríng. Í þriðja sinn stekkur hann með hann upp á björgin; er þá alveg liðið yfir Hríng. Eptir litla stund raknar hann við; gánga þeir stundarkorn eptir slèttum völlum, þar til þeir koma að einum helli. Þá var aðfángadagskvöld jóla. Þeir geingu upp á hellinn og fundu þar glugga, sáu þeir þar inn um fjögur flögð liggja sofandi við eld og stóran grautarpott upp yfir. „Nú skaltu sá öllu saltinu ofan í grautarpottinn,“ segir Snati. Hríngur gerir

það, og að því búnu vakna flögðin. Gamla kerlíngin, er var óttalegust þeirra allra, fer nú fyrst að smakka á grautnum og segir: „Nú er grauturinn saltur, hvernig stendur á því? eg sem seiddi mjólkina úr fjórum kónga ríkjum í gær, og nú er hann þó saltur.“ Samt fara nú flögðin að sleikja grautinn, og þykir gott, en þegar þau eru búin, þyrstir kerlíngu svo mjög, að hún þolir ekki við; biður hún þá dóttur sína að fara út og sækja sèr vatn í móðuna, sem þar var skamt frá. „Eg fer ekki,“ segir hún, „nema þú ljáir mèr lýsigullið góða.“ „Þó eg drepist, færðu það ekki,“ segir kerlíng. „Drepstu þá,“ segir stelpan. „Farðu þá stelpan þín, og taktu það, og flýttu þèr svo með vatnið,“ segir kerlíng. Stelpan tekur gullið og hleypur út með það; glampar þá af því um völlinn. Þegar hún kemur að móðunni, leggur hún sig ofan að vatninu og fer að drekka. En á meðan hlaupa þeir ofan af glugganum og stínga henni á hausinn ofan í móðuna. Kerlíngu tekur nú að leiðast eptir drykknum og segir, að stelpan hafi nú farið að hoppa með lýsigullið um völlinn; segir hún þá við son sinn: „Farðu og sæktu mèr vatnssopa.“ „Eg fer ekki,“ segir hann, „nema eg fái gullskikkjuna góðu.“ „Þó eg drepist, þá færðu hana ekki,“ segir kerlíng. „Drepstu þá,“ segir hann. „Farðu þá strákur, og taktu hana, en flýta máttu þèr með vatnið,“ segir kerlíng. Hann fer nú í skikkjuna, og þegar hann kemur út, glampaði af henni, svo hann sá til að gánga. Hann kemur nú að móðunni og fer að drekka, sem systir hans. Í því hlupu þeir Hríngur að honum, færðu hann úr skikkjunni og fleygðu honum í móðuna. Kerlíng þolir nú ekki við fyrir þorsta og biður karl sinn að sækja sèr að drekka; segir hún, að krakkarnir hafi sjálfsagt farið að hoppa og leika sèr úti, eins og sig hafi grunað, þó hún hefði farið að gegna kvabbinu úr þeim, óhræsunum þessum. „Eg fer ekki,“ segir karlinn, „nema þú ljáir mèr gulltaflið góða.“ „Þó eg drepist, þá færðu það aldrei,“ segir kerlíng. „Eg held þú megir þá fara,“ segir karlinn, „fyrst þú vilt ekki vinna til að gera svona litla bón fyrir mig.“ „Taktu það þá, afmánin þín, fyrst þú ert eins og krakkarnir,“ segir kerlíng. Karl fer nú út með gulltaflið, geingur að móðunni og fer að drekka, með það koma þeir, taka af honum taflið og stínga honum í móðuna, en áður en þeir eru komnir upp á hellinn aptur, kemur karl tötrið apturgeinginn úr móðunni. Snati hleypur þegar móti honum, og Hríngur ræðst á hann líka, þó með hálfum huga, og eptir harða glímu geta þeir unnið hann í annað sinn. En þegar þeir koma upp á gluggann, þá sjá þeir, að kerlíng er farin að akast fram eptir gólfinu. Þá segir Snati: „Nú er okkur annaðhvort að gera að fara inn og reyna til að vinna á henni, því ef hún kemst út, þá verður hún óvinnandi, því þetta er hið versta flagð, sem til er, og á hana bítur ekkert járn; skal nú annar okkar ausa á hana sjóðandi graut úr pottinum, en hinn skal klípa hana með glóandi járni.“ Þeir fara nú inn. Þegar

kerlíng sá Snata, talar hún til hans og segir: „þú ert þá kominn, Hríngur kóngsson, þú munt hafa sèð fyrir bónda mínum og börnum.“ þykist Snati nú vita, að kerlíng muni ætla að fara að leggja á þá, og veður að henni með glóandi járnið úr eldinum, en hinn eys hvíldarlaust á hana grautnum, og með þessum hætti gátu þeir um síðir banað henni. Síðan brendu þeir karlinn og hana til ösku. Eptir það könnuðu þeir hellinn og fundu nóg gull og gersemar. það dýrmætasta af þessu fluttu þeir með sèr fram á björgin, og geingu þar frá því. Síðan hröðuðu þeir ferð sinni heim til kóngs með dýrgripi hans. Seint á jólanóttina geingur nú Hríngur í höllina, og afhendir kóngi dýrgripi hans. Kóngur varð frá sèr numinn af gleði og undrast, hversu ágætur Hríngur er í öllum íþróttum og vizku; hefir hann nú miklu meira við hann, en áður, fastnar hann honum nú dóttur sína, og skyldi veizlan fara fram um hátíðina. Hríngur þakkar kóngi kurteislega bæði fyrir þetta og annað gott. þegar hann hefir borðað og drukkið í höllinni, geingur hann til hvíldar í herbergi sínu. Snati segist nú ætla að biðja hann að lofa sèr að liggja í sænginni í nótt, en hann skuli aptur vera í bælinu sínu. Hríngur segir það velkomið, og að hann eigi meira skilið af sèr, en því nemi. Snati fer nú upp í sængina. Eptir stundu liðna kemur hann aptur, og segir kóngssyni að fara upp í, en hann skuli muna sig um að hræra við eingu í sænginni. Nú víkur sögunni til Rauðs; hann kemur inn í höllina og sýnir kóngi hægri handlegg sinn handarlausan og segir, að hann skuli sjá, hvaða mannkosti teingdasonur hans tilvonandi hafi til að bera og þetta hafi hann gert sèr öldúngis saklausum. Kóngur varð afarreiður, og segist bráðum skuli komast að því sanna, og ef Hríngur hafi höggvið af honum saklausum höndina, þá skuli hann heingjast, en sè það ekki, þá hljóti Rauður að deya. Kóngur kallar nú Hríng fyrir sig og spyr, hvað til þess hafi komið, að hann skyldi höggva af Rauð höndina, eða hvert Rauður hefði eigi verið saklaus. Snati var búinn að segja Hríngi, hver valdur mundi vera að því, er við bar um nóttina; hann biður því kóng að gánga með sèr, og segist skuli sýna honum nokkuð vegsummerki. Geingur kóngur nú með Hríngi í svefnherbergi hans, sèr hann þá, hvar mannshönd með sverði í liggur á sænginni. Hríngur segir, að þessi hönd hafi komið þar inn um þilið um nóttina og ætlað að leggja sig í gegn í sænginni; hafi hann þá brugðið vopni sèr til varnar. Kóngur segist eigi lá honum það, fyrst svona hefði staðið á, þótt hann hefði leitast við að verja líf sitt, og eigi Rauður sökina að sjálfum sèr, og sè hann dauðaverður; var Rauður síðan heingdur, en Hríngur drakk brúðkaup sitt til kóngsdóttur. Fyrstu nóttina, sem þau hvíldu saman, biður Snati Hríng að lofa sèr að liggja á fótum þeirra. Hríngur veitir honum það. Nú gánga brúðhjónin í eina sæng og Snati fer upp í til fóta þeirra. Um nóttina heyrir Hríngur eitthvert ýl og ólæti þar hjá þeim. Hann kveykir með flýti ljós, og sèr þá,

hvar óvenjulega ljótur hundshamur liggur á þiljunni, en fríður kóngsson í sænginni. Hann tekur þegar haminn og brennir hann, en dreypir á kóngsson, sem lá í óviti, svo hann raknar við. Brúðguminn spyr hann að heiti, en hann segist heita Hríngur, og vera kóngsson; kveðst hann á æskuárum hafa mist móður sína, en faðir sinn hefði í hennar stað feingið flagð fyrir drottníngu; hefði hún lagt á sig, að hann skyldi verða að hundi og ekki komast úr þeim álögum, nema kóngsson, sem hèti sama nafni og hann, lofaði sèr að liggja á fótum sínum fyrstu nóttina, sem hann svæfi hjá konunni. Enn fremur sagði hann: „Þegar hún vissi, að eg eignaðist þig fyrir nafna, þá vildi hún reyna til að ráða þig af dögum, svo þú yrðir ekki til að frelsa mig úr álögunum; hún var hindin, sem þú og fèlagar þínir eltu forðum, konan, sem þú fannst í rjóðrinu hjá tunnunni og flagðið, sem við drápum í hellinum núna fyrir skemstu.“ Eptir að veizlutíminn var liðinn, fara þeir nafnar og fleiri á björgin og flytja alt þaðan heim til borgarinnar. Einnig fóru þeir í eyna og tóku það, sem þar var fèmætt. Hríngur gaf nafna sínum, er fór úr álögunum, systur sína Íngibjörgu og föðurleifð sína til umráða. En sjálfur var hann með kóngi, teingdaföður sínum og hafði hálft ríkið, meðan kóngur lifði, en alt eptir hans dag.

**Sagan af þrem kóngssonum.** (Eptir handriti Jóns alþíngismanns á Gautlöndum.) Frá því er sagt, að í fyrndinni hafi verið einn auðugur og ágætur konúngur; hann rèð fyrir víðlendu og voldugu ríki, en ekki er þess getið, hvar í heiminum þetta hafi verið, eða hvað konúngurinn hafi heitið. Hann átti við drottníngu sinni 3 sonu; voru þeir allir hinir efnilegustu menn og unni konúngur þeim mjög. Konúngurinn hafði tekið til fósturs eina kóngsdóttur úr nágrenninu og ól hana upp með sonum sínum; var hún mjög á rek við þá að aldri, og hin fegursta og kurteysasta mær, sem þá hafði sèzt; unni konúngur henni að eingu minna, en sonum sínum. Þegar kóngsdóttir var orðin gjafvaxta, feldu allir kóngssynirnir ástarhug til hennar og rak svo lángt, að þeir báðu hennar allir, hver í sínu nafni. Konúngurinn, faðir þeirra, átti að ráða gjaforði kóngsdóttur, því faðir hennar var dauður, og með því honum var jafnkært til allra sona sinna, þá gaf hann þeim það svar, að kóngsdóttir skyldi sjálf kjósa sèr fyrir brúðguma, hvern þeirra, er henni geðjaðist bezt að. Lèt hann því að ákveðnum degi kalla kóngsdóttur fyrir sig og auglýsir fyrir henni sinn vilja, að hún kjósi einhvern sona sinna sèr til manns. Kóngsdóttir mælti: „Skyldug er eg að hlýða því, er þú fyrir mælir, en eigi eg að kjósa einn sona þinna, þá er eg í hinum mesta vanda stödd, því eg verð að játa það, að mèr eru þeir allir jafnkærir, og að eg get ekki tekið þann eina fram yfir þann annan.“ Þegar konúngur heyrði þessi svör kóngsdóttur, þókti honum vandast málið, og hugsar nú fyrir sèr, hvert ráð hann skuli upp taka, sem öllum gegndi

bezt, og að lyktum kveður hann upp þann úrskurð, að þeir synir sínir skuli að ári liðnu verða komnir með sinn dýrgripinn hver, og skyldi sá fá kóngsdóttur, sem beztan hefði dýrgripinn. Lètu kóngssynir sèr þetta vel líka og ákváðu, að þeir skyldu allir finnast að ári liðnu á einum kastala úti á landsbygðinni, hvaðan þeir skyldu halda heim til borgarinnar, til að framleggja gripina; er nú búin ferð þeirra kóngssona burt úr landi með hinum beztu faungum.

Segir fyrst af hinum elzta, að hann heldur land úr landi og borg úr borg, og fær þó hvergi þann dýrgrip, er honum þykir nokkurs um vert. Loksins frèttir hann til einnar kóngsdóttur, og að hún á eina sjónpípu, sem að er hin mesta gersemi. Í henni má sjá um allan heiminn, hvern stað, hvern mann og hvert kvikindi, og hvað hver ein lifandi skepna hefst að. Hugsar nú kóngssonur, að aldrei fáist slíkur gripur, sem þessi sjónpípa, og heldur hann því áleiðis til kóngsdóttur þess erindis, að fala pípuna. En kóngsdóttir vill ekki fyrir nokkurn mun farga pípunni. En fyrir þrásamlegan bænastað kóngssonar, og að heyrðum öllum málavöxtum, lèt þó kóngsdóttir til leiðast að selja honum pípuna. Og er ekki annars getið, en að kóngsson hafi borgað hana vel. Heldur hann nú heimleiðis aptur ánægður yfir feing sínum, og vongóður um að fá kóngsdóttur. Og víkur því næst sögunni til hins annars kóngssonar.

Honum gekk líkt, og hinum elzta bróðurnum, að hann fær hvergi þann grip, sem í nokkru sè nýtur, og hefir hann svo ferðazt leingi, að hann hefir einga von um, að fá uppfyllíng óskar sinnar. Einhverju sinni kemur hann í stóra og fjölmenna borg, og falar hann þar, sem annarsstaðar gripi að mönnum, og fær eingan, þann er honum leikur hugur á. Hann frèttir, að skamt frá borginni býr dvergur einn, hinn mesti völundur að hagleik. Dettur honum í hug að finna dverginn og freista, ef hann feingist til að smíða honum einhvern dýrgrip. Fær hann sèr leiðarvísi til dvergsins, finnur hann heima að inni sínu og ber upp fyrir honum erindið. Dvergurinn kvaðst að mestu hættur smíðum og gæti hann ekki aðstaðið þetta fyrir kóngsson. En klæði eitt kvaðst hann eiga, sem hann hefði gjört sèr á ýngri árum, og kvaðst hann trauður til að láta. Kóngsson spyr, hver sè náttúra klæðisins, eða hver not megi af því hafa. Dvergur segir, að á klæðinu geti maður farið um allan heim og jafnt lopt, sem lög; „eru á það ristar rúnir, sem sá verður að nema, er stýra vill klæðinu.“ Skynjar nú kóngsson, að vart megi fá betri dýrgrip, og biður því dverginn fyrir hvern mun að selja sèr klæðið, og þó dvergurinn væri tregur til þessa, þá, þegar hann heyrir, hvað við liggur, ef kóngsson fær ekki klæðið, lætur hann til leiðast, og selur kóngssyni klæðið fyrir afarmikið fè. Sèr kóngsson, að klæðið er hinn bezti gripur, víða gullsaumað og gimsteinum sett. Heldur hann svo heimleiðis, vongóður um sigur sinn í meyarmálunum.

Hinn ýngsti kóngssonur hèlt seinastur af stað, og fór hann fyrst innan lands frá einu þorpi til annars; falar hann gripi, að hverjum kaupmanni, sem hann hittir, og hvar annarsstaðar, sem nokkur von er til þeir fáist. En allar hans tilraunir verða árángurslausar, og líður svo meginhluti ársins, að honum verður hvergi viðrent; gjörist hann nú mjög hugsjúkur um sitt mál. Loksins kemur hann í eina fjölmenna borg; er þar kaupstefna mikil og menn samankomnir úr öllum álfum heimsins. Geingur hann á milli allra kaupmanna í borginni, og finnur loksins einn, sem hefir eplasölu á hendi. þessi kaupmaður kvaðst eiga eitt epli, sem hefði þá náttúru, „að þegar það er lagt í hægra handholið á þeim manni, sem að dauða er kominn, þá lifnar hún jafnskjótt við aptur.“ Sagði kaupmaður, að eplið væri lángfeðga eign sín, og hefði jafnan verið haft í staðinu fyrir læknis lýf. En er kóngsson heyrði þetta, vill hann fyrir hvern mun fá eplið, og hyggur, að hann muni trautt fá þann hlut, er betur geðjist kóngsdóttur. Biður hann kaupmann því að selja sèr eplið og segir honum frá öllum málavöxtum, og að undir því sè eingaungu komin sín tímanlega velferð, að hann verði ekki eptirbátur bræðra sinna í gripa útvegunum. Rann kaupmanni svo til rifja sögusögn kóngssonar, að hann selur honum eplið og heldur svo kóngsson aptur heimleiðis glaður og ánægður.

Segir svo ekki af þeim bræðrum, fyrr en þeir eru allir komnir saman á þann áður ákveðna stað; segja þeir hver öðrum af ferðum sínum alt hið markverðasta. Hugsar nú hinn elzti bróðirinn sèr til hreifis, að hann skuli þó verða fyrstur til að sjá kóngsdóttur, og hvernig henni líði. Tekur hann því upp sjónpípuna og stefnir henni heim til borgarinnar. En hvað sèr hann? Hans elskaða kóngsdóttir liggur í sæng sinni, náföl og að dauða komin. Konúngurinn, faðir hans, og hinir æðstu höfðíngjar við hirðina standa í kríng um sængina í svörtum sorgarbúníngi og hryggir í huga, reiðubúnir til að taka á móti hinu síðasta andvarpi hinnar fögru kóngsdóttur. þegar kóngsson sá þessa sorgarsjón, varð hann frá sèr numinn af sorg. Segir hann bræðrum sínum, hvers hann hefir var orðið, og aflar það þeim ómetanlegrar hrygðar. Segjast þeir hafa viljað gefa til þess alla eigu sína, að þeir hefðu aldrei farið þessa ferð, því þá hefðu þeir þó getað veitt hinni fögru kóngsdóttur nábjargirnar. En mitt í þessum harmatölum dettur þó miðlúngs bróðurnum klæðið sitt í hug, og að á því geti hann þó komizt á einu vetfángi til borgarinnar. Segir hann þeim bræðrum sínum þetta og verða þeir næsta glaðir af svo góðu, en óvæntu ráði. Breiða þeir nú í sundur klæðið, og stíga á það allir samt. Líður það þegar í lopt upp með þá og á örstuttum tíma til borgarinnar. Flýta þeir bræður sèr, sem mest mega þeir, til herbergja kóngsdóttur, og er þar hin mesta hrygð á öllum. Er bræðrum sagt, að hvert andartakið sè hið síðasta fyrir kóngsdóttur. þá dettur ýngsta bróðurnum í hug eplið góða, og veit hann fyrir víst, að aldrei muni meiri þörf á, að reyna krapt þess,

en nú. Geingur hann því tafarlaust inn að sæng kóngsdóttur, og leggur eplið undir hægri hönd hennar. En á samri stundu var, eins og nýtt líf færðist í allan líkama kóngsdóttur, augu hennar lukust upp, og að litlum tíma liðnum tók hún að mæla við menn. Varð af þessu öllu saman óumræðilegur fögnuður við konúngs hirðina, heimkomu bræðranna og endurlífgun kóngsdótturinnar. Líða svo fram nokkrar stundir, til þess er konúngsdóttir er orðin fullfrísk, að þá er stefnt fjölment þíng, og á því þíngi eiga þeir bræður að framleggja gripi sína. Geingur fyrst fram sá elzti og sýnir sjónpípu sína, og segir hann og sýnir, hvert gersemi hún var, og að fyrir hana hafi lífi hinnar fögru kóngsdóttur orðið bjargað, því að hann hafi í henni sèð, hvernig á stóð í borginni. Þykist hann því vel að kominn að fá kóngsdóttur. Þarnæst geingur fram hinn annar, og sýnir klæðið, og til hvers það er nytsamlegt. Segir hann lítið gagn mundu hafa orðið af því, þó bróðir sinn hefði fyrstur sèð veikindi kóngsdóttur, ef klæðið hefði ekki verið, „því að á því komumst við til borgarinnar til að bjarga kóngsdóttur, og tel eg, að klæðinu sè það mest að þakka, að kóngsdóttirin ekki deyði til fulls,“ segir kóngsson. Nú lagði ýngsti bróðirinn fram eplið, og mælti: „Fyrir lítið hefði komið sjónpípan og klæðið, ef eplið mitt hefði ekki verið til að frelsa líf kóngsdóttur. Því hvert gagn var oss bræðrum í því að vera sjónarvottar að dauða hinnar fögru kóngsdóttur? og hvað gat það annað, en vakið hrygð vora og söknuð? Eplinu er það einasta að þakka, að kóngsdóttir er enn á lífi, og þykist eg því maklegastur að njóta hennar.“ Var nú rætt og ráðslagað um þetta á þínginu, og kom mönnum á samt, að allir gripirnir hefðu jafnt verkað til að frelsa líf kóngsdóttur, því ef nokkurn þeirra hefði vantað, þá hefðu hinir ekki getað komið að liði. Var því dæmt, að allir gripirnir væru jafnir, svo að einginn endir gat enn feingizt á um það, hver bræðranna skyldi eignast kóngsdóttur.

Konúngurinn tók það því enn til ráðs, að hann segir þeir bræður skuli allir þreyta skot um kóngsdóttur, og að hver þeirra, sem reynist frægastur skotmaður, skuli fá hennar. Er nú mark uppreist, og geingur elzti bróðirinn fyrst fram með boga og örvamæli. Skýtur hann, og vantar allmikið til, að skeytið nái markinu. Því næst geingur til hinn annar og nær hans skeyti því nær markinu. Og seinast geingur til hinn þriðji og ýngsti bróðirinn, og sýndist sem hans skeyti færi láng leingst, en til allrar ógæfu gat skeytið ekki fundizt, þó leitað væri í fleiri daga. Lagði því konúngurinn að lyktum þann úrskurð á málið, að miðlúngs bróðirinn skyldi fá kóngsdóttur. Voru þau síðan saman vígð, og með því konúngurinn, faðir kóngsdóttur, var þá fyrir nokkru dauður, þá fóru þau þángað, og tók kóngssonur við ríkisstjórn. Er þeirra ekki framar getið í þessari sögu. Elzti bróðirinn fór og svo úr landi og fèkk sèr staðfestu; kemur hann því ekki við þessa sögu.

En ýngsti bróðirinn var eptir heima hjá föður sínum; undi hann mjög illa þeim málalokum, er á urðu um kóngsdóttur. Var hann á hverjum

degi að ráfa um þá staði, er hann hèlt skeyti sitt mundi vera, og að lyktum finnur hann það og hafði það farið lángt yfir markið, og stóð fast í einni skógar eik; leiðir hann nú votta að, hvar skeytið var, og hyggur að fá uppreisn þessa máls, en þess er eigi kostur, því konúngur kveðst eigi geta raskað þeim úrskurði, er hann hafi þar á lagt. Unir nú kóngsson hálfu ver hag sínum eptir, en áður, og er hann varla mönnum sinnandi. Ræður hann það af einn dag, að hann býst til burtferðar með því áformi, að stíga aldrei meir fæti á þetta land. Hefir hann með sèr það fèmætasta, er hann átti, og veit einginn þessa ráðagjörð, og ekki konúngurinn, faðir hans. Leggur hann út á skóg einn mikinn og heldur á fram marga daga, svo hann veit ekki, hvert hann fer. Sækir á hann bæði húngur og þreyta, og þar kemur loks, að hann treystist ekki að halda á fram leingur; sezt hann að undir steini einum miklum og hyggur, að hèr muni enda sitt auma og sorgfulla líf. En er hann hefir hèr setið og hvílt sig um stund, sèr hann, hvar 10 menn koma, allir vel búnir að vopnum og klæðum. Þeir eru allir ríðandi. Stefna þeir beint á steininn. Og er þeir koma að honum, stíga þeir af baki og heilsa upp á kóngsson. Þeir bjóða honum með sèr að fara, og hafa þeir haft meðferðis lausan hest handa honum með tígulegum reiðtýgjum. Hann þekkist boð þeirra og stígur á bak hestinum. Fara þeir svo sem leið liggur, til þess þeir koma að stórri og skrautlegri borg. Stíga riddararnir af baki hestum sínum og leiða kóngsson inn í borgina. Fyrir henni rèð einn úngur og ágætur meykóngur. Leiða riddararnir kóngsson tafarlaust inn fyrir meykónginn, og tekur hún kóngssyni með hinni mestu blíðu. Segir hún honum, að hún hafi frètt um alt hið mótdræga, er á daga hans hafi drifið, og um það, er hann strauk frá föður sínum. „Kviknaði þá hjá mèr heitasta ást á þèr og laungun til að bæta úr böli þínu. Skaltu vita, að eg sendi þá 10 riddara, til að leita þig uppi og hafa þig híngað. Vil eg nú bjóða þèr hèr að vera, og alt mitt ríki til forráða, og skal eg leitast við að bæta úr böli þínu, það eg megna.“ Og þó kóngsson væri mjög daufur og áhyggjufullur, þá sèr hann þó ekki annað ráð, en þekkjast boð þetta, og taka ráðahagnum við meykónginn. Er því stofnað til veizlu mikillar, og þau saman vígð að þess lands siðvenju. Tekur hinn úngi kóngur þegar við ríkisstjórn allri og ferst það vel úr hendi. Líða svo fram nokkrir tímar.

Nú víkur sögunni heim aptur til hins gamla kóngs, að eptir hvarf kóngssonar gjörðist hann mjög mæddur, með því hann var líka hníginn á efra aldur. Drottníng hans var og fyrir nokkru önduð. Það var einn dag, að förukona nokkur kom til hallarinnar. Hún var fróð mjög um marga hluti og kunni frá mörgu að segja. Henti kóngur mikið gaman að sögum hennar, og kom hún sèr mjög í mjúkinn hjá honum. Liðu svo fram nokkrir tímar. En þar kemur, að konúngur fær ást mikla á konu

þessari og að lyktum tekur hann hana sèr fyrir drottníngu; var það þó mjög á móti hirðinni. Eigi líður á laungu, áður en hin nýa drottníng gjörðist mjög hlutsöm um ríkisstjórnina, og þókti hún öllu spilla, því er hún mátti.

Það var einhverju sinni, að *drottníng kemur að máli við konúng og* mælti: „Undarlegt þykir mèr, að þú gjörir eingan rekstur að um burthlaup sonar þíns, og er þó opt minni sökum hegnt; muntu hafa heyrt, að hann er orðinn konúngur yfir einu af þeim ríkjum, sem hèr eru í kríng og er í almæli, hann ætli með her á hendur þèr, þegar hann sèr færi á, til að hefna þess órèttar, er hann mun þykjast hafa beðið í meyarmálunum. Nú vil eg, að þú verðir fyrri að bragði, til að ráða þennan voða af höndum þèr." Konúngur lèt sèr fátt um finnast, og tók þessu hjali lítið, en svo fèkk drottníng um talið fyrir honum, að hann lagði trúnað á orð hennar. Bað hann hana ráð tilleggja, hvernig þessu yrði svo hagað, að sem minnst bæri á. Drottníng mælti: „Þú skalt gjöra menn með gjöfum á hans fund og bið hann finna þig til skrafs og ráðagjörða um ríkisstjórn eptir þinn dag, og til að treysta milli ykkur vináttu með frændsemi. Mun eg þá ráð til gefa, hvernig með skal fara." Konúngur lætur sèr þetta vel líka, og er nú búin sendiförin af góðum kostum. Koma sendimenn fyrir hinn únga konúng með gjafirnar frá föður hans, og *skýr jarteikn um það, að hann biður hann koma sem skjótast á sinn* fund. Tekur konúngur þessu vel og býr ferð sína sem skjótast. En er drottníng hans verður þessa vör, lætur hún sèr fátt um finnast og segir hann muni mest iðrast eptir þessa för. Konúngur fór eigi að síður, og segir ekki af för hans, fyrr en hann kemur til borgar föður síns. Tekur hann við honum heldur þurlega, og furðar hinn únga kóng það mjög. Og er hann hefir verið þar skamma stund, kallar faðir hans hann fyrir sig og átelur hann harðlega fyrir burthlaupið. Segir að hann hafi í því sýnt sèr óvirðíng og aflað sèr þeirra sorga, er mundu hafa leitt sig í gröfina. „Værirðu þar fyrir dauðasekur að rèttum lögum, en með því, að þú hefir geingið á mitt vald, og þess annars, að þú ert minn son, þá nenni eg ekki að láta drepa þig, en þrjár þrautir mun eg leggja fyrir þig, er þú skalt hafa unnið að ári liðnu, annars gildir það líf þitt. Hin fyrsta er, að þú skalt færa mèr tjald það, er rúmi 100 manns, en megi þó fela í lófa sínum. Hin önnur er, að þú skalt færa mèr vatn það, er læknar öll mein. Hið þriðja er, að þú skalt koma híngað þeim manni, og sýna mèr, er ólíkur sè öllum öðrum mönnum í heiminum." „Hvert vísar þú mèr til að vinna þrautir þessar?" segir hinn úngi kóngur. „Það skaltu segja þèr sjálfur," mælti hinn. Snýr hinn gamli kóngur þá á braut, en úngi kónguriun býr sig strax til heimferðar og varð ekki af kveðjum. Segir ekki af ferðum hins únga kóngs, fyrr en hann kemur heim í ríki sitt. Er hann þá mjög daufur og þúngt í skapi, og geingur drottníng hans freklega

á hann, hvað að honum gángi. En hann segir hana það eingu skipta. Drottníng mælti: „Veit eg, að fyrir þig munu hafa verið lagðar þrautir þær, er ekki mun auðvelt að vinna. En hvað dugir þèr að vera hrygginn af slíku? nema berast af karlmannlega, og freista, hvort þrautirnar mega ekki vinnast. Má og vera eg geti beint að með þèr, og seg mèr, hvað þig sturlar.“ Sèr konúngur þann kost beztan að segja drottníngu alt hið sanna, og hvernig hans máli er komið. „Þetta munu alt ráð stjúpu þinnar,“ segir drottníng, „og væri vel hún kæmi ekki fleirum fram við þig eða aðra. Mun hún svo hafa til ætlazt, að ekki yrði auðvelt að ráða úr vandræðum þessum, en þó mun eg nokkuð geta að gjört. Tjaldið á eg sjálf, og er því sú þraut leyst. Vatnið, sem þèr er til vísað, er hèr skamt á burt, en ekki er auðvelt að ná því. Það er í brunni nokkrum, og er brunnurinn í helli mjög dimmum. Brunninn vakta 7 ljón og 3 höggormar, og kemst einginn maður með lífi frá þeim ókindum. En sú er náttúra vatnsins, að það hefir eingan lækníngakrapt, nema þessi kvikindi sèu öll vakandi. Mun eg nú freista að ná vatninu.“ Býr nú drottníng ferð sína til hellisins og hefir með sèr 7 naut og 3 svín. Þegar hún kemur að hellinum, lætur hún drepa nautin og svínin, og snara nautunum að ljónunum, en svínunum að höggormunum. En meðan ókindur þessar eru að rífa í sig skrokkana, stígur drottníng ofan í brunninn og tekur vatnið, sem hana lystir. Stóð það heima, að drottníng komst úr hellinum, og dýrin voru búin með mötuna. Heldur drottníng svo heim til borgar, og er nú hin önnur þrautin unnin. Drottníng kemur því næst að máli við kóng og mælti: „Nú eru tvær þrautirnar unnar, en sú seinasta er eptir, og er hún verst, enda muntu hljóta að vinna hana sjálfur, og get eg nokkuð vísað þèr á, hvar hana skal vinna. Eg á hálfbróður, og ræður hann fyrir einni ey, sem hèr er skamt undan landi. Hann er 3 fet á hæð með 1 auga í miðju enni. Hann hefur 30 álna lángt skegg, og svo hart, sem svínsbursta. Hann er og með hundstrýni og kattareyrum, og tel eg ólíklegt, að hann líkist nokkrum manni í heiminum. Þegar hann fer eitthvað, hendist hann á fram á 50 álna lángri staung, og fer svo hart, sem fugl fljúgi. Eitt sinn þegar faðir minn var á dýraveiðum, var hann heillaður af gýgi einni, sem bjó í helli undir fossi og með henni átti hann þessa ófreskju. Þessi ey er þriðjúngur ríkis föður míns, og þykir honum það helzt til lítið handa sèr. Hríng einn átti faðir minn, hinn bezta grip, sem við vildum bæði eiga, og varð eg hlutskarpari. Hefir hann síðan lagt á mig fæð og fjandskap. Nú mun eg freista að skrifa honum brèf og senda honum hrínginn, ef hann kynni heldur að mýkjast til að gjöra vorn vilja. Skaltu nú búast með fríðu föruneyti að finna hann, og þegar þú kemur að hallardyrum, skaltu taka af þèr kórónuna, og skríða berhöfðaður inn að hásætinu. Skaltu þá kyssa á hægra fót hans, og rètta honum brèfið og hrínginn. Segi hann þèr að

standa upp, hefirðu feingið fram þitt erindi, annars ekki.“ Fer nú konúngur að öllu, sem drottníng hafði fyrir lagt. Og er hann kemur fyrir hinn eineygða kóng, blöskrar honum, hvað hann er ljótur og ófrýnlegur, en herðir þó upp hugann og rèttir honum brèfið og hrínginn. Hírnar fljótt yfir karli, þegar hann sèr hrínginn, og mælti: „Eitthvað þykir systur minni nú við liggja, er hún sendir mèr grip þennan.“ Og er hann hefir lesið brèfið, segir hann kóngi að standa á fætur. Kvaðst hann vera albúinn að fara eptir orðsendíng systur sinnar, og ekki vilja tefja. Tekur hann nú staung sína, og er þegar horfinn. Bíður hann eptir þeim öðru hvoru og svívirðir kóng fyrir seinlætið. Halda þeir svo á fram til hallar konúngsins. En er þeir eru þar komnir, hrópar hinn eineygði karl á systur sína, og spyr, hvers hún oski, er hún hefir ómakað hann svo lánga leið. Segir hún honum þá alla málavexti, og biður hann leysa kóng sinn af þeim vandræðum, sem fyrir hann voru lögð. Hann kveðst þess albúinn og þá ekki vilja tefja. Halda þeir nú strax af stað, og segir ekki af ferðinni, fyrr en þeir koma til hins gamla konúngs. Boðar úngi kóngurinn föður sínum komu sína, og að hann hafi með að fara, það er hann hefði krafizt hið fyrra árið. Óskar hann, að þíngs sè kvatt, svo hann geti þar af hendi int þrautirnar. Er nú svo gjört, og er þar komin drottníng og margt annað stórmenni ásamt konúngi. Er nú tjaldið fyrst framlagt, og finnur einginn maður að því. Því næst afhendir hinn úngi kóngur föður sínum hið góða lækníngavatn, og er drottníng látin bergja á því, til að dæma um, hvort það sè hið rètta lækníngavatn, eða ekki, og hvort það sè tekið á rèttum tíma. Segir drottníng, að svo sè. Þá segir hinn gamli kóngur: „Nú er eptir hin þriðja og þýngsta þrautin, og greið hana fljótt af hendi.“ Sendir þá úngi kóngurinn eptir hinum eineygða karli. Og er hann kemur á þíngið, verður hann svo ferlegur, að allir verða gagnteknir af ótta og skelfíngu, og mest hinn gamli kóngur. Og er hann hefir sýnt sig þar um hríð, setur hann staungina fyrir brjóst drottníngar og vegur hana upp á henni. Keyrir hann drottníngu niður aptur svo hart, að lamdist sundur í henni hvert bein, og varð hún þá að hinu versta flagði. Stekkur eineygði karl burt af þínginu eptir þetta. En menn taka að hjúkra hinum gamla kóngi, sem var að dauða kominn af hræðslu. Er nú dreypt á hann hinu heilnæma lækníngavatni, og hressist hann. Og eptir dauða drottníngar ránkar hann við sèr og kannast við, að allar þær þrautir, er hann hefir lagt fyrir son sinn, eru ómaklegar, og að hann hefir gjört það alt fyrir áeggjan drottníngar. Lætur hann kalla son sinn fyrir sig og biður hann auðmjúklega fyrirgefníngar á því, er hann hefði honum á móti gjört. Kveðst hann nú vilja það alt bæta, með því að gefa upp við hann ríki þetta, en sjálfur kvaðst hann vilja lifa hjá honum í ró og næði, það eptir væri lífdaganna. Sendir nú hinn úngi konúngur eptir drottníngu sinni og öllu þeirra vildasta liði. Er þar

skjótast af að segja, að þau gefa upp ríki það, er þau höfðu fyrir ráðið, við hinn eineygða karl til launa fyrir liðveizlu hans. En stýrðu sjálf ríki hins gamla konúngs til ellidaga.

**Gorvömb.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu; þau áttu einn son og eina dóttur. Dóttir þeirra var væn stúlka og vel að sèr, en sonur þeirra var illur í skapi og hinn mesti óþokki. Nú liðu tímar og fer konúngur að eldast, en syni hans leiðist, hvað hann lifir leingi og loksins tekur hann það fyrir, að hann drepur foreldra sína og systur sína. Kóngssonur fær nú ríkið eptir föður sinn og vill kvongast, en það geingur honum illa, sökum orðstýrs þess, er af honum fór. Þó fer svo á endanum, að hann fær sèr konu, þegar lángur tími er fráliðinn. Um samfarir þeirra er ekki getið annað, en það, að þau áttu dóttur eina barna, sem Íngibjörg er nefnd; hún var afbragð annara kvenna fyrir sakir fríðleiks og fegurðar. Svo er frá sagt, að móðir hennar leggst eitt sinn mjög veik. Þá kallar hún Íngibjörgu, dóttur sína, fyrir sig og mælti: „Svo segir mèr hugur um, að eg muni nú deya. Ekkert get eg hjálpað þèr, þó eg vildi, en hèr er lindi, sem þú skalt jafnan hafa yfir um þig, og meðan þú hefir hann, mun þig ekki mat bresta. Hèr er einnig tík, sem eg gef þèr, því þegar eg er dauð, mun faðir þinn vilja sofa hjá þèr og mun hann þá hafa á þèr taug, og skaltu þá hafa einhver ráð að koma tíkinni í taugina, en forða sjálfri þèr.“ Nú deyr drottníng. En hið næsta kvöld skipar konúngur dóttur sinni að sofa hjá sèr. Hún færist undan, en hann hótar að drepa hana, ef hún ekki hlýði, þá þorir hún ekki að færast undan leingur. Íngibjörg kvaðst samt þurfa að læsa höllinni, áður en hún gángi til sængur. „Þetta eru ósannindi,“ mælti konúngur, „og þú ætlar þèr að sýna mèr pretti.“ Íngibjörg lætur ekki af svari sínu að heldur. Konúngur mælti: „Með því einu móti sleppi eg þèr frá mèr, að eg hafi á þèr taug,“ og það gjörir hann. Nú fer Íngibjörg til hallardyra og hnýtir þar tíkinni í taugina, sem kóngur dregur að sèr, en hún forðar sèr út úr höllinni. Myrkur var á úti og geingur hún í myrkrinu alla nóttina. Um morguninn kemur hún á sjóvarkletta, þar liggur kaupskip undir. Hún biður kaupmenn hjálpar þannig, að hún biður þá að flytja sig í land nokkurt, er hún tiltekur. Það gjöra þeir. Nú stígur hún á skip og skipið siglir leið sína, og byrjar kaupmönnum vel. Þeir koma við land, þar sem Íngibjörg hafði tiltekið og skilja hana þar eptir. Hún geingur á land og kemur að litlum bóndabæ; þar biður hún að lofa sèr að vera og fær hún það. Í landi þessu var úngur konúngur og ókvæntur og bjó nærri bóndabæ þeim, sem Íngibjörg var á. Bóndi þessi hafði það starf á hendi, að hann varðveitti föt og skrúða konúngs, og lèt þvo klæðnað hans og lín. Konúngur veitti því athygli, að klæðnaður hans var betur varðveittur, en áður, og það

svo, að hann undraðist þá breytíng, sem á því var orðin. Einhverju sinni gjörir hann sèr ferð til bónda. Þar sèr hann Íngibjörgu og finst mikið um fegurð hennar og atgjörvi. Og loksins fer hann þess á leit, að fá hana fyrir konu, og tekur Íngibjörg því vel og kurteyslega. Síðan er veizla til reidd og brúðkaup þeirra haldið með miklum sóma. Einhverju sinni mælti Íngibjörg drottníng við konúng: „Eg bið þig einnar bónar konúngur, að taka eingan mann til veturvistar, áður en eg veit af." Konúngur lofar henni því. Nú líða nokkur ár, svo að ekki ber til tíðinda. Einu sinni kemur aldraður maður til konúngs, og biður hann veturvistar. „Því vil eg ekki lofa," segir konúngur, „fyrr en eg hefi talað við drottníngu mína." „Það er þó ætlan mín," segir aðkomumaður, „að þú megir svo miklu ráða í ríki þínu, sem að taka mann til veturvistar, og enda má þykja lítilmótlegt fyrir kóng, að þurfa að spyrja drottníngu sína um því líkt; var eg og einu sinni konúngur og get því borið um slíka hluti." Hann er þángað til að tala um fyrir konúngi, að hann lofar aðkomumanni veturvist. Konúngur segir drottníngu frá þessu, en hún kvað það miður hafa orðið og tekur því þúnglega. Nú kemur að því, að drottníng verður ólètt, og svo er sagt, að þegar hún legst á sæng, þá getur hún ekki fætt. Konúngur lætur kalla til sín alla hina beztu lækna, en alt verður það árángurslaust. Konúngur leitar ráða til vetrarsetumanns síns, og kveðst hann muni reyna að hjálpa drottníngu, með því móti, að einginn sè viðstaddur, meðan hann sè hjá henni. Það lætur konúngur eptir honum. Vetrarsetumaður hjálpar drottníngu og geingur það fljótt. En þegar barnið er fætt, sem var fallegur sveinn, þá tekur hann það og kastar því út um hallar gluggann, og tekur hvolp og sýnir konúngi og segir, að þetta hafi hún fætt af sèr. Drottníng verður bráðum ólètt í annað sinn og atvikast alt á sömu leið með fæðínguna og barnið, eins og sagt var um fyrsta barnið. Nú líður nokkur tími og verður drottníng ólètt í þriðja sinn. Þá vill svo til, að konúngur fær boð frá Herrauði konúngi, bróður sínum svolátandi, að hann biður konúng að koma sèr til hjálpar og hafa með sèr herlið, svo mikið, sem hann geti, því óvina her sè kominn í ríki sitt. Konúngur vill nauðugur fara og því síður vill drottníng, að hann fari, en þó verður það úr, að hann fer að hjálpa bróður sínum, sem var hættlega staddur, en biður hinn gamla vetrarsetumann fyrir drottníngu sína. Þegar konúngur er fyrir litlum tíma úr landi farinn, fær drottníng jóðsótt og elur fagurt meybarn. Vetrarsetumaður kastar barninu út um hallargluggann að vanda. Vonum bráðar kemur konúngur úr herferðinni heim í ríki sitt. Er drottníng þá orðin heilbrigð og fagnar vel konúngi. Vetrarsetumaður kemur eitt sinn að máli við konúng, færir honum ótugtarlegan hálfblindan ketlíng og mælti: „Hèr sèrð þú, konúngur, afkvæmi það, sem drottníng þín hefir nú fætt í heiminn, og sýnist mèr það ekki samboðið veldi yðar og tign að eiga þá drottníngu, sem samlagar sig við

auðvirðilegustu kvikindi.“ Við þetta verður konúngur óglaður mjög og þúngbúinn í skapi. Hann tekur það fyrir, að hann lætur smíða trèstokk, og er drottníng lögð í hann. Síðan eru um stokkinn spentar 3 járngjarðir, borið á hann hunáng og borinn síðan út á skóg. Þar er stokkurinn lagður á meðal trjánna með drottníngu í. Nú koma villudýr, og sleikja þau stokkinn, hrekkur þá ein járngjörðin í sundur, svo að dýrin fælast. Dýrin koma bráðum að sleikja stokkinn aptur, en þá hrekkur önnur járngjörðin, svo þau hlaupa frá. Þegar lítill tími er liðinn, koma dýrin enn að sleikja stokkinn; hrekkur þá þriðja járngjörðin með svo miklum bresti, að dýrin fælast og hlaupa lángt frá út á skóg. Nú opnast stokkurinn og rís drottníng upp og litast um; tekur hún það þá fyrir að gánga um skóginn. Hún geingur leingi, þángað til hún kemur að litlu húsi nokkru. Þar sezt hún niður. Að lítilli stundu liðinni kemur þar út kona. Hún mælti: „Illa ertu komin Ingibjörg kóngsdóttir.“ Konan býður drottníngu að koma í húsið, og það þiggur hún. Þar er upp búið rúm í húsinu, sem konan býður henni að hvílast í, og þegar konan hefir smurt allan líkama hennar, legst hún fyrir og sofnar fljótt. Hún sefur vært, en þegar hún vaknar aptur, er bjart í húsinu og sólskin fagurt inn um gluggana. Konan talar við drottníngu og segist nú ekki geta hjálpað henni, eins og hún vildi, „en hvern þann hlut, sem þú sèrð hèr í húsinu, máttu kjósa þèr, ef þú vilt,“ segir hún. Þá veltur þar fram nokkurs konar ófreskja, eingum hlut líkari, en gorvömb og mælti: „Kjóstu mig, kjóstu mig, kjóstu mig.“ „Á eg að kjósa þetta?“ mælti drottníng. „Eigi mun þèr það lakara,“ mælti konan, og þá kýs hún sèr gorvömb þessa. En í sama vetfángi hverfur rúmið, húsið og konan, en drottníng er þar ein eptir hjá Gorvömb. „Nú skaltu elta mig, drottníng,“ mælti Gorvömb. Hún veltur þá á stað og veltur leingi og lángan veg, þángað til þær koma að sjóvarströnd. Þá mælti Gorvömb: „Komdu nú á bak mitt, drottníng, því hèr ætla eg yfir um.“ Það gjörir drottníng. Síðan botnveltist Gorvömb yfir sjóinn, þángað til þær koma við eyu eina. Þar var fjárhús og bú konúngs þess, er drottníng átti. Þær fara á land og koma að einu fallegu húsi. Þar fer Gorvömb inn og drottníng líka. „Í þessu húsi verðurðu nú að vera fyrst um sinn,“ mælti Gorvömb við drottníngu; „eg á það sjálf.“ Er drottníng þar um nokkurn tíma og lifir í alsnægtum hjá Gorvömb. Einn dag safnar Gorvömb saman miklum eldiviði og gjörir bál mikið. Bálið sást frá höll konúngs. Þá mælti vetrarsetumaður til konúngs: „Nú eru óvildarmenn komnir í eyu þína konúngur, og þarf að reka þá á burt.“ Konúngur fellst á það, og leggur vetrarsetumaður af stað á skipi til eyarinnar. En þá verður stormur og sjógángur svo mikill, að hann má hverfa til sama lands aptur. Gorvömb safnar eldsneyti og gjörir bál mikið næsta dag, og fer þá vetrarsetumaður af stað aptur, en alt fer eins og fyrri daginn, að hann má vegna ofsa-

veðurs hverfa heim við svo búið. Hinn þriðja dag gjörir Gorvömb bál mikið að nýu, og það svo, að hirð konúngs og sjálfum honum ofbýður. Gjörir þá konúngur út stórt skip og fer sjálfur með vetrarsetumanni sínum til eyarinnar. Þeim geingur ferðin vel, og þegar þeir koma til eyarinnar, kemur Gorvömb til sjóvar. Þá mælti vetrarsetumaður konúngs: „Það mun vera þú, sem ert að ræna og spilla hèr í eyu konúngsins.“ „Við skulum seinna tala um það,“ mælti Gorvömb. Gorvömb býður konúngi heim til sín og það þiggur hann. Gorvömb hafði herbergi afsíðis í húsi sínu. Þar lætur hún konúng og vetrarsetumann fara inn, og setur konúng á gullstól, en vetrarsetumann á járnstól með hespu, sem hún spennir um bríngspalir hans. „Nú bið eg þig bónar, konúngur,“ mælti Gorvömb, „að þú látir nú þennan vetrarsetumann þinn segja æfisögu sína.“ „Það vil eg gjöra,“ mælti konúngur. En þegar konúngur skipar honum það, færist hann undan. Þó byrjar hann loksins að segja frá. Þá mælti Gorvömb: „Þú segir ekki rètt frá,“ og herðir á hespunni, sem var svo tilbúin, að í henni voru járnbroddar, sem stúngust inn í brjóst karlsins. Vetrarsetumaður byrjar í annað sinn. Þá mælti Gorvömb: „Þú sleppir undan og segir ósatt,“ og herðir á hespunni, svo karlinn hljóðar. Vetrarsetumaður byrjar í þriðja sinn og segir lángan kafla. Þá mælti Gorvömb: „Þú bæði skilur eptir og lýgur,“ og herðir hún þá járngjörðina, svo karlinn emjar hástöfum; hugsar hann þá, að hún muni ætla að kreysta úr sèr lífið. Hann byrjar þá söguna að nýu og segir hana til enda. „Nú er rètt frá sagt,“ mælti Gorvömb, „og þykir þèr ekki konúngur, að þessi maður sè búinn að lifa nógu leingi? „Jú,“ sagði konúngur og grèt. Þá dró Gorvömb hellu undan járnstólnum; var þar undir sjóðandi bikketill og fèll þar vetrarsetumaðurinn niður í og endaði þar líf sitt. „Hvað viltu nú borga mèr, konúngur,“ mælti Gorvömb, „ef eg gæti komið með drottníngu þína og börnin ykkar öll?“ „Þá mundi eg vilja gjöra fyrir þig alt hvað eg gæti,“ sagði hann. Gorvömb sækir þá drottníngu, og verður þar sá fagnaðafundur, að þau föðmuðu hvort annað og grètu gleðitárum. Síðan sækir Gorvömb börnin 3 og eykst þá enn meir gleði þeirra. „Þess bið eg þig nú, konúngur,“ mælti Gorvömb, „að þú giptir mig Herrauði, bróður þínum.“ „Það er þýngri þrautin,“ mælti konúngur, „en þó skal eg leggja mitt bezta til.“ Nú fer konúngur og drottníng og Gorvömb með þeim heim í ríkið; gjörir þá konúngur boð eptir Herrauði, bróður sínum, og þegar hann kemur, ber hann upp erindið, og geingur alt mjög tregt, en þó verður það fyrir fylgi konúngs og drottníngar, að Herrauður lofar að eiga Gorvömb. Nú er Gorvömb leidd fyrir unnusta sinn, og bregður honum þá mjög við. Þó er nú veizla til reidd og brúðkaup haldið, og fer alt fram með mikilli viðhöfn; er brúðguminn mjög dapur, en Gorvömb hin kátasta og ræður hún sèr varla fyrir gleði. Nú kemur að því, að þau brúðhjón eiga að gánga í eina sæng bæði, og sjá menn

þá, að brúðguminn kvíðir fyrir því mjög. Þó sænga þau bæði saman, eins og siður er til. Líður nú nóttin. Um morguninn vaknar Herrauður, og sèr fyrir ofan sig fagra mær, en hamurinn af henni er fyrir framan rúmið. Herrauður brennir haminn og er nú hinn glaðasti. Var mær þessi kóngsdóttir í álögum, og hafði stjúpa hennar lagt á hana. Eptir þetta fer Herrauður og drottníng hans heim í ríki sitt, og sátu síðan báðir konúngar að ríkjum alla æfi eptir þetta, og fór vel ríkisstjórn þeirra. Endar svo saga þessi.

**Sagan af Geirlaugu og Græðara.** (Eptir sögn úr Dalasýslu.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu; ekki er getið um nöfn þeirra, en son áttu þau, er Græðari hèt; var hann þá úngur og í vöggu, er þessi saga gjörðist; var mjög vandaður umbúníngur um hann, sem dæmi þess, er sagt, að á reifalindann, sem bundinn var yfir vögguna, var ritað með gyltum stöfum: „Græðari Græðara kóngsson.“ Eitthvert sinn, er veður var mjög blítt, var kóngur og drottníng í lystigarði sínum og höfðu þau vögguna í milli sín; voru þau að dázt að fegurð barnsins. Þau vissu þá eigi fyrr til, en alt í einu kom þytur mikill, og fylgdi honum níðsvart myrkur. En þegar myrkvanum lètti, var vaggan horfin. Þau urðu frá sèr numin af sorg og ekka yfir óláni sínu og neyttu hvorki svefns nè matar. En það var dreki einn, er vögguna tók. Nú er að segja frá öðru. Í öðru landi ríkti kóngur og drottníng; þau áttu dóttur eina únga, sem Geirlaug hèt. Þennan sama dag voru þau með barn sitt úti í garði sínum. Kóngur sá þá, hvar skýflóki mikill kom eptir loptinu, og er þetta færðist nær, sá hann, að það stefndi beint á vögguna; var þar kominn hinn sami dreki, því hann hafði vögguna í klónum, en ætlaði að ná hinni með kjaptinum, en kóngur stóð eigi kyrr fyrir, heldur þreif til sverðs síns og hjó í auga drekans; var það högg svo mikið, að drekinn lèt lausa vögguna. Hjónin sáu nú óhamíngju barns þessa og aumkuðu það; tóku þau það þá til sín og ólu önn fyrir því, eins og dóttur sinni. Börnunum var nú feingin fóstra, og voru þau sett í kastala skamt frá svefnherbergi kóngs og drottníngar. Þegar þau voru 12 ára, dó drottníng og varð hún harmdauð öllum borgarlýð, en þó einkum börnunum, því að Græðari elskaði hana eins og sonur. Eptir nokkurn tíma fèkk kóngur sèr aðra konu. Ekki leið lángur tími, að hatur óx í henni til barnanna, af ást, er var þeirra í milli. Drottníng var haldin fjölkunnug og sömuleiðis fóstra barnanna. Nú liðu fram stundir, þar til kóngur fór eitt sinn, til að heimta skatta af ríkjum sínum; þókti honum mikið fyrir að skilja við börnin, en stjúpa þeirra sýndi sig þá mjög blíða við þau ofan á. En er kóngur var brott farinn, tók hún til sinna ráða, og ætlaði að heimsækja börnin, en þau voru þá horfin. Hún kallaði þá til sín 30 manna, og sagði sig hefði dreymt draum þann, er boðaði ófrið og kvaðst nú vilja búa í haginn fyrir mann sinn,

og bauð þeim að fara og safna saman öllum dýrum og hestum, er þeir fyndu og drepa þau. Þeir fara nú eptir boði hennar; leita þeir dag allan, en finna ekkert, nema 2 trippi svo fögur, að þeim þókti þau einkar vel fallin til reiðskjóta handa kóngi og drottníngu, fóru þeir nú heim um kvöldið og sögðu drottníngu ekkert frá þessu. Hún hèlt þeim þá veizlu og gaf þeim drykk, er hafði þá náttúru, að þeir sögðu alt sem var. Þá varð drottníng afar reið og drap þá alla, því þegar hún heyrði, að þeir hefðu ekki drepið fallegu trippin, sagði hún, að það hefðu verið þau skrattahjú. Alt til þess tíma hafði einn maður horfið á hverri nóttu og þókti undarlegt, hèldu margir, að drottníng væri völd af því. Leið nú vika og kemur kóngur heim. Drottníng fagnaði honum vel og sagði honum frá hugarburði sínum um ófriðinn, er áður var nefndur; kvaðst hún vilja, að hann færi sjálfur á morgun við 30 menn og dræpi alt, er hann findi lífs, gjörir nú kóngur sem hún biður. Nú víkur sögunni til Geirlaugar, að hún hafði vitað alt um ráðagjörðir stjúpu sinnar; hafði hún sagt Græðara, að þau skyldu úr kastalanum fara, og verða að trippum. En er faðir hennar var riðinn á skóg til veiða, sagði hún við Græðara: „Nú kemur faðir minn sjálfur, og læt eg hann ekki leita í dag, því skamt á hann eptir ólifað, þar eð stjúpa mín gefur honum óminnis öl í kvöld; skulum við nú setjast hèr á eikur þessar og verða að beztu saungfuglum.“ Sýngja þau nú svo fagurt, að faðir Geirlaugar geingur á saunginn og segist ætla að hvíla sig og hlusta á saung þennan, en þeir skuli leita. Um kvöldið koma þeir aptur og segjast ekki hafa sèð neitt, nema þessa fugla, er á eikunum sitji. Kóngur kveðst eigi láta drepa þá, er hafi skemt sèr allan daginn. Fara þeir nú heim; fagnar drottníng þeim með blíðu, setur upp veizlu og biður þá drekka óspart; gefur hún þeim nú hinn sama drykk, og hinum. Þeir segja henni þá alt sem var. Hún segir, að þau (ɔ. kóngsbörnin) hafi það verið; drepur hún síðan mann sinn og alla þá, er með honum voru. Nú segir Geirlaug við Græðara: „Nú kemur stjúpa mín sjálf og mun hún ekki frá gánga, fyrr en í fulla hnefana.“ Hann spyr hana, hvað hún ætli nú að ráða af. Hún segir, að hann skuli verða uggi á sèr, en hún ætli að verða hvalur. Nú er að segja frá drottníngu, að hún tryllist mjög og heimtir 30 menn til fylgdar við sig; geingur hún nú leingi, þar til hún segir, að þau sèu ekki á landi. Hún geingur þá til sjávar. Þegar hún er þar komin, verður hún að stórum fiski og leggur að hvalnum; lýkur svo þeirra skiptum, að Geirlaug drepur kerlínguna; er þá svo af henni dregið, að getur hvorki hrært legg nè lim; liggur hún þannig í 3 dægur, og tók síðan að hressast. Þá mælti hún við Græðara, (er ávalt var hjá henni og höfðu þau bundist ástarheitum): „Ef eg megna mèr nokkurs, vildi eg, að við værum nú horfin undir skíðgarð föður þíns, ef hann er nokkursstaðar til í heimi,“ og er hún sagði þetta, eru þau þángað komin. Þá sagði Geirlaug: „Far þú nú heim til borgar föður þíns,

bind reifalinda þínum um þig og gakk fyrir föður þinn og seg honum alt hið sanna.“ En hún tók honum vara fyrir að drekka, hversu mjög sem hann þyrsti, fyrr en hann findi föður sinn. Skildu þau nú með kærleikum. Geingur hann nú leiðar sinnar, en er hann gekk eptir strætinu að höllinni, brendi hann svo mikill þorsti, að hann þoldi ekki við; sá hann þá hvar gullbikar fullur með vatn stóð á silfurfati; hann tekur hann og drekkur í hugsunarleysi. En er hann hefir drukkið, man hann ekkert eptir sínu fyrra lífi, nema hann sè fæddur á þessari stundu; ráfar hann nú, þar til hann finnur skósvein drottníngar. Hann geingur til Græðara og segir: „Heill kóngsson.“ Græðari stendur forviða og heldur svein þennan gabba sig. Skósveinninn biður hann nú með sèr koma, og það gjörir hann; gánga þeir nú til drottníngar. En er hún sèr hann, þekti hún þegar son sinn og fèll um háls honum. Græðari segir: „Hvernig er því varið, að þú ert móðir mín?“ Drottníngin mælti: „því vilt þú ekki vera sonur minn? Eg misti þig missiris gamlan, en heimti þig nú aptur tvítugan.“ Hann mælti: „Ekki þekki eg þig, og eigi veit eg, hvar eg hefi verið til þessa tíma.“ Drottníng mælti: „Lindi sá, er þú hefir yfir um þig, segir mèr, að þú sèrt sonur minn, því einginn á nafn föður þíns eða þitt, nema þið feðgar. Kom þú nú með mèr og gleð föður þinn, ekki síður en mig.“ Gánga þau nú bæði til Græðara kóngs. Hann verður forviða við og segir: „Þótt þú værir mèr vandalaus, skaltu samt vera sonur minn.“ Lifir hann nú við allskonar gleði og glaum, honum eru kendar allar mannlegar listir, er hann ekki kunni áður, og smíðaður prýðilegur kastali. Hann hafði sveina tvo, er voru honum svo kærir, að þeir eru 3 sem einn og fylgdu þeir honum jafnan, hvert sem hann fór; sat hann nú um kyrt um hríð. Nú er að segja frá Geirlaugu, að þegar 3 tímar dags eru liðnir og Græðari kemur ekki aptur, sèr hún, að hann muni vera búin að gleyma sèr; hugsaði hún sèr þá að launa honum með tímanum vitleysu sína. Hún geingur nú, þar til hún kemur að garði einum, er ríkur bóndi átti; hann átti sèr 2 dætur barna. Hún fer til bóndans, og biður hann að lofa sèr að vera um tíma, og það fær hún. Ekki var hún búin að vera þar leingi, áður hún hafði mentað dætur bónda svo vel, að þeirra lof barst út um kóngsríkið, og það með, að það væri hinni ókunnu konu að þakka; barst það og til Græðara og sveina hans. Hugði nú kóngsson sèr gott til glóðarinnar og segir, að þeir skuli í 3 kvöld, sinn hvert kveldið, fara til þeirra; skuli þeir fara fyrst til bóndadætranna, en hann kvaðst sjálfur fara til Lauphöfðu, (því það nefndi hún sig, á meðan hún bjó hjá systrum þessum). Einnig er þess að geta, að þegar hún kom þángað, varð hún þeim svo samrýmd, að hún kom þeim til að biðja föður sinn að láta gjöra þeim kastala eins vandaðan, og Græðara. Þetta kvöld, er hinn fyrsti ætlaði að koma, sagði Lauphöfða við þá sem síður var, að hún skyldi búa vel um sig, og prýða herbergi sitt svo vel, sem hún gæti, því gesta von væri til hennar

í kvöld. Lauphöfða hafði um haustið látið ala nautkálf og gaf honum ávalt sjálf; var hann orðinn stór, þegar þetta gjörðist. Þegar kvöld var komið, var barið á herbergisdyr þeirrar, er fyrr var getið. Fer hún nú inn til Lauphöfðu og biður hana að hafa nú góð ráð, því mannfýla þessi vilji hjá sèr sænga. Hún segir, að hún skuli hátta með góðu og segir henni, hvernig hún skuli að fara. Þegar hann er háttaður og hún ætlar upp í, segir hún: „Æ, eg gleymdi hreint að binda kálfinn hennar Lauphöfðu og má eg til að fara ofan og gjöra það.“ Hann kveðst vilja gjöra það fyrir hana. Hún segir, að það sè vont að binda hann. En hann vill gjöra það samt. Hún segir, að hann vilji eigi gánga á básinn, *nema með því móti*, að *hala* hans sè *vafið um hægri hönd* sèr, en vinstri hendinni sè tekið um púng hans. Hann gjörir nú þetta og getur varla bisað honum; brýzt kálfurinn svo um, að þeir reka sig á hurð eina; lýkst hún upp og eru þeir þá út komnir. En er kálfurinn er út kominn, hleypur hann og ærist, sem mest hann getur. Er hann nú orðinn fastur við kálfinn og þykist illa kominn. Ólmast nú kálfurinn með hann alt til morguns; verður hann þá laus og kemst með veikum burðum heim. Hann lætur eigi á neinu bera, nema hann sè veikur; fer nú á sömu leið fyrir hinum næsta. Nú kvaðst Græðari ætla í kvöld. Þann sama dag segir Lauphöfða, að í kvöld muni gestur til sín koma og biður þær gánga snemma til hvílu; prýðir hún nú alt, sem bezt hún getur inni hjá sèr. Um kvöldið er að dyrum barið og þekkir hún Græðara, en hann þekkir hana ekki. Hún leiðir hann til sætis og kveður sèr vera fremd að slíkum gestum. Hann kveðst vera kominn, til þess að vera næturgestur og tekur hún því máli vel; þiggur hann nú bæði vín og vistir. Síðan geingur hún til rekkju og hann á eptir; er hann nú kominn úr öllu, nema línklæðum einum og ætlar að stíga í hvíluna upp. Þá hrópar hún, að óbundinn sè kálfurinn, en þær háttaðar; ætlar hún nú upp að standa. Hann bað hana kyrra vera, því hann skuli sjálfur fara og binda kálfinn. Hún segist halda, að hann geti það eigi, því annari hendinni verði að halda um hala hans, en annari um púnginn, og lypta honum svo á básinn. Fer hann nú, og er hann finnur kálfinn, gjörir hann, eins og hún sagði fyrir; lætur hann svo illa, að jörðin geingur upp fyrir þeim, en þeir komast út; verður hann þá fastur við hala og púng kálfsins og hleypur hann með hann berfættan og því nær klæðlausan. Veður var svo úti, að ýmist var kafald með frosti, eða rigníng. Þetta geingur til dags, og er hann losnaði, var hann nær dauða, en lífi; lá hann í viku eptir máttlaus og marinn. Einginn þeirra vissi af annars hrakföllum. Að nokkrum tíma liðnum segir kóngur við Græðara, að hann skuli fara og biðja sèr til konu kóngsdóttur einnar í næsta ríki, er Áslaug heiti. Hann hlítir þessu ráði og geingur bónorðsförin vel. En er hann leggur að landi með unnustu sína, er farið til móts við þau með vagna; sezt Græðari og Áslaug í annan, en sveinar

hans í hinn. En er heim á að halda geingur vagninn Græðara hvergi, hvernig sem hestarnir eru keyrðir og eru nú allir í ráðaleysi. Sveinar Græðara segja þá sín á milli: „En hvað við segjum eigi kóngssyni að fá griðúnginn hennar Lauphöfðu.“ Tala þeir nú um þetta við hann og þykir honum það vel fallið; segir hann þeim báðum að fara og hvað sem hún biðji um, megi þeir veita henni. Þeir fara nú til hennar og bera henni orðsendíng Græðara. Hún segir, að þeim sè nautið heimilt, ef hún fái að sitja að baki brúðhjónanna á giptíngardegi þeirra. Þeir játa því. Fara þeir nú með griðúnginn, og er þeir eru geingnir frá vagninum og kálfi Lauphöfðu, hleypur hann með vagninn svo hart, að alt ætlar af göflum að gánga, en Áslaug verður hrædd um líf sitt. Svona hleypur hann heim til borgar, slítur þar af sèr öll bönd og hleypur svo leið sína. Líður nú að brúðkaupi þeirra; eru settir fram bekkir og að baki brúðhjónanna lítill bekkur handa Lauphöfðu og karlsdætrum. Lauphöfða var svo búin, að hún var í rauðum silkiskrúða með kórónu á höfði og þar utan yfir hefir hún klæði úr næfrum; undruðust allir fegurð hennar og spurðu sín á milli, hvaðan hún mundi að vera og kusu allir henni að þjóna. Fara þær nú heim til hallar og eru með fýlu settar á þennan bakbekk. Lauphöfða hafði körfu á handlegg sèr og er alt er sezt, tekur hún upp úr körfunni hana og hænu, og lætur þau að baki Græðara. Er nú alt kátt í höllinni, nema Lauphöfða er mjög áhyggjufull; er nú borðað og fuglunum matur gefinn. En er þeir eru búnir, tekur haninn að reyta alt fiður af hænunni, þángað til eptir er einúngis vængurinn sá hinn hægri. Þá mælti hænan hátt: „Ætlar þú að fara með mig, eins og Græðari Græðarason fór með Geirlaugu kóngsdóttur?“ Þetta mælir hænan svo hátt, að Græðari verður hryggur við þessi orð og segir: „Ósköp eru til þess að vita, að eg skuli svo hafa kvalið Geirlaugu mína, sem eg elskaði mest í öllum heimi.“ Þá rèttir Geirlaug honum hríng með nafni hans í, en um leið stendur hún upp, kastar næfrunum og stendur í hinum fagra skrúða. Verður nú fagnaðarfundur með þeim og biður kóngsson hana fyrirgefníngar fyrir hjartasorg þá, er hann af óaðgæzlu hafi bakað henni. Segja þau nú gamla kónginum æfisögu sína. Er nú skipt um, stígur Geirlaug á brúðarbekkinn og giptist Græðara, en sveinar hans giptast bóndadætrunum. Eru nú öll þessi brúðkaup haldin undir eins. En að endaðri veizlunni gefur Græðari Áslaugu erfðaland sitt fyrir gabbið, en hann fer með konu sína í hennar erfðaríki og ríktu þau þar til dauðadags. Lýkur svo þessari sögu.

**Sagan af Finnu forvitnu.** (Eptir Nr. 602. c. 4., pappírshandriti í safni Árna Magnússonar.) Maður er nefndur Þrándur; hann var lögmaður. Kona hans var önduð, er þessi saga gjörðist, og var hann þá orðinn gamall; hann var mesti spekíngur; hann átti tvö börn, son þann, er Sigurður hèt,

og dóttur, sem hèt Finna. Hún var hin vitrasta kona, og var mál manna að hún vissi fleira en fólk sagði henni. Eitt sinn þá faðir hennar reið til þíngs, sagði hún: „Mig grunar, faðir, að í þessarri ferð muni mín beðið verða, en eg bið þig, að þú giptir mig eigi, nema líf þitt liggi við.“ Hann hèt henni því, og reið síðan til þíngsins. Þar báðu Finnu margir göfugir menn, en hann sagði þeim öllum nei. En er lokið var þínginu reið Þrándur lögmaður heim á leið, og eitt kvöld, þá hann reið einnsaman undan öllum sínum sveinum, kom til hans maður á jörpum hesti, heldur vígmannlegur; hann stè af baki, og tók í taumana á hesti Þrándar, og mælti: „Heill vertu, Þrándur lögmaður.“ Þrándur tók kveðju hans, og spurði hann að nafni. Hann kveðst heita Geir, og kvað það vera erindi sitt, að biðja Finnu, dóttur Þrándar. Þrándur mælti: „eigi mun eg gipta þèr hana, mun hún sjálf högum sínum ráða.“ Þá brá Geir sverði og setti fyrir brjóst Þrándi, og bað hann annaðhvort gjöra, gipta honum konuna, eða hann mundi drepa hann strax. Sá þá Þrándur eigi annan kost, en lofa honum konunni, og skyldi hann koma að hálfsmánaðarfresti, og sækja hana. Síðan reið Þrándur heim, en Geir fór sína leið. Þegar Þrándur kom heim, stóð Finna úti, og heilsar föður sínum og sagði: „Er sem mèr boðar hugur, að þú hafir mig manni gipt?“ Hann kvað svo vera, og sagði, að líf sitt hefði við legið. Hún sagði það yrði svo að vera; þó boðaði sèr hugur, að sèr mundi eigi mikil gleði af því verða. Að tilsettum tíma kom Geir að vitja konunnar; var þá við honum vel tekið; hann kvaðst ekki leingi bíða mega; bað Finnu búa sig snarlega, því á morgun vildi hann burt. Hún gjörði svo. Hún tók ekkert manna burt með sèr frá föður sínum, nema bróður sinn Sigurð. Kvöddu þau svo Þránd, og riðu sína leið þrjú saman, þar til þau komu að afrètt einni, og voru naut í afrèttinni. Finna spurði Geir, hver það ætti; hann kvað það eingan eiga nema sig og hana. Annan dag komu þau að annarri afrètt, og var að eins geldfè í henni. Finna spurði Geir, hver það ætti; hann svarar, að einginn eigi það, nema hann og hún. Hinn þriðja dag komu þau að þriðju afrèttinni, og voru hestar einir í henni. Finna spurði Geir, hver þá ætti; hann segir, að einginn eigi þá, nema hann og hún. Riðu þau svo þann dag allan. Að kvöldi komu þau að húsabæ miklum, þar stè Geir af baki, og bað Finnu koma með sèr, og kvað þar vera húsakynni sín. Finnu var þar vel fagnað og tók hún þegar við öllum ráðum. Geir var við hana fár mjög, en hún lèt ekki á sèr festa. Sigurður bróðir hennar var þar og vel haldinn. Aðfangadagskvöld jóla vildi Finna láta þvo Geir um höfuðið; var hans þá leitað og fannst hann hvergi. Finna spurði fóstru Geirs, sem þar var og, hvort það væri vandi hans; hún sagði, að lángan tíma hefði hann eingin jól heima verið, og grèt þá stórum. Finna bað fólk hans eigi leita og sagði hann mundi skila sèr sjálfur, þá hans tími væri kominn. Hún bjó til veizlu eptir vanda, og

lèt ekkert á sèr festa um burtveru Geirs. Þá er lokið var veizlunni, og fólk var alt til svefns geingið, stóð Finna upp, og tók Sigurð bróður sinn með sèr; þau geingu til sjávar, og hrundu fram bát, og reru til einnar eyar, ekki lángt frá. Finna bað Sigurð gæta skipsins, meðan hún geingi á land, og gjörði hann það. Síðan gekk Finna á land, og þar til hún kom að einu litlu húsi þó vel bygðu; þar stóð hurð á hálfa gátt, ljós brann í húsinu, og rekkja var þar vel búin. Þar sá hún Geir bónda sinn liggja í rekkjunni, og hafa konu í faðmi. Finna setti sig á gólfið fyrir neðan rúmstokkinn, og kvað vísu.

(Eyða fyrir vísuna.)

Síðan gekk hún út og til bróður síns, og bað hann róa í land, og segja eingum, hvar þau hefðu verið. Hann hèt henni því; reru þau síðan heim, og lètu, sem ekkert hefði verið. Þá er lokið var jólunum, fór Finna snemma morguns á fætur, og gekk til skála þess, sem Geir og hún sváfu í, þegar hann var heima. Þá var Geir þar og gekk um gólf; barn lá þar í sænginni. Geir spurði Finnu, hver það barn ætti. Hún kvað eingan eiga það, nema sig og hann; hún tók barnið, og fèkk til fósturs fóstru Geirs; leið svo það ár út, og varð ekkert til tíðinda. Næstu jól fór alt á sömu leið, og fyr, nema þá setti Finna sig á skörina fyrir rúminu og kvað vísu þessa.

(Eyða fyrir vísuna.)

Hin þriðju jól var og búið til veizlu, og var Geirs leitað og fannst hann ekki. Finna bað fólk hans ekki leita. Þá lokið var veizlunni, og fólk til sængur geingið, reru þau Sigurður og Finna enn út til eyarinnar. Þá bað Sigurður Finnu, að hann mætti ganga með henni á land. Hún lèt það eptir honum, en bað hann að tala eigi orð. Þau geingu til hússins. Þar bað Finna Sigurð bíða sín meðan hún geingi inn. Hann gjörði svo. Finna gekk inn, setti sig á rekkjustokkinn og kvað vísu:

„Hèr sit eg ein á stokki,
af mèr er gleðinnar þokki,
tapað hefir seggurinn svinni
sumarlangt gleðinni minni.
Önnur hlaut þann er eg unna;
opt fellur sjór yfir hlunna.“

Geir reis þá upp og mælti: „Það skal nú ekki leingur vera,“ en konan, sem hjá honum lá í sænginni, fell í aungvit. Finna tók vín og dreypti á varir henni; raknaði hún þá við, og var hin fríðasta mær. Sagði þá Geir til Finnu: „Nú hefur þú mig úr stórum nauðum leyst, því þetta var nú hið síðasta ár, sem eg kynni leystur að verða. Faðir minn var kóngur og rèð fyrir Garðaríki. Þá er móðir mín var dauð, giptist faðir minn einni ókendri konu. Þá þau höfðu skamma stund saman verið, drap hún föður minn á eitri, en með því eg og þessi systir mín sem

Íngibjörg heitir vildum ekki fara að ráðum hennar, lagði hún á mig, að eg skyldi eiga þrjú börn við systur minni, og ef eg feingi ekki þá konu, sem þetta alt vissi, og yfir því þegði, skyldi eg verða að ormi, en systir mín að ótömdu trippi, og ganga í afrètt með öðrum stóðhrossum; en nú hefir þú leyst mig úr þessum nauðum, og vil eg nú gipta þessa systur mína Sigurði bróður þínum, þar með gefa honum alt það ríki, sem fyr átti faðir minn.“ Fóru þau öll í land og til bæar Geirs. Var þá stofnað til nýrrar veizlu, og sent eptir Þrándi föður Finnu, og drukkið festaröl Sigurðar og Íngibjargar. Fór hann svo til Garðaríkis, og vann það undir sig. Var þá stjúpa Geirs tekin, og bundin milli tveggja hrossa, og tók sinn helmíngin hvort. Rèðu þau Sigurður og Íngibjörg fyrir Garðaríki leingi, en Geir varð lögmaður eptir Þránd. Þau áttu börn og buru.[1]

**Sagan af Hermóði og Háðvöru.** (*Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar.*) Það var einu sinni kóngur og drottníng í ríki sínu; þau áttu eina dóttur, sem Háðvör hèt. Hún var bæði fríð og fögur, og af því hún var einbirni, var hún rèttborin til ríkis. Kóngur og drottníng áttu og fósturson, sem Hermóður hèt; hann var hèr um bil jafnaldri Háðvarar, fríður sýnum og vel að sèr um alla hluti. Hermóður og Háðvör lèku sèr tíðum saman, meðan þau voru í æsku, og fèll svo vel á með þeim, að þau þegar á únga aldri hètu hvort öðru trygðum í kyrþey. Nú leið og beið, þángað til drottníng tekur sótt, og af því hana grunaði, að þetta mundi verða sótt til dauða, gerir hún boð eptir kóngi. Þegar hann kemur, segir hún, að hún muni eiga skamt eptir ólifað, og því ætli hún að biðja hann einnar bænar, og sè hún sú, að ef hann fái sèr aðra konu, láti hann það að sínum orðum, að eiga einga aðra, en drottnínguna af Hetlandi hinu góða. Kóngur lofar henni því, og svo deyr drottníngin. En þegar framliðu stundir, fór kóngi að leiðast einlífið, býr skip sitt og leggur í haf. Á ferð þessari kemur yfir hann mikil þoka, svo hann kemst í hafvillur. Eptir lánga mæðu hittir hann land, leggur þar að skipi sínu, og geingur einn á land. Þegar hann hafði geingið nokkra stund, verður fyrir honum skógur, fer hann lítið eitt inn í hann, og staðnæmist þar. Heyrir hann þá fagran hljóðfæraslátt, og geingur á hljóðið, þángað til hann er kominn að rjóðri einu; sèr hann þá, hvar þrjár konur eru í rjóðrinu, situr ein þeirra á gullstóli í ljómandi fögrum búníngi, heldur á hörpu og er sorgbitin mjög. Önnur var tígulega búin, en únglegri að sjá, og sat hún einnig á stóli, en ekki var hann jafn-kostulegur og hinnar. Þriðja konan stóð hjá þeim, og var hún rètt hreinleg á að líta; í græn-

---

1. „Þórður Magnússon skrifaði þetta í Kaupinhafn 1726,“ stóð á handritinu með hendi Árna Magnússonar. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 282—284. bls.

um möttli var hún yztum fata, og var auðsèð á öllu, að hún var þerna hinna tveggja. Þegar kóngur hafði virt þær fyrir sèr um stund, geingur hann til þeirra, og heilsar þeim. Sú, sem sat á gullstólnum, spyr hann, hver hann sè, og hvert hann ætli. Segir hann henni þar upp alla sögu, að hann sè kóngur, og hafi mist drottníngu sína; hafi hann nú ætlað að sigla til Hetlands hins góða, og biðja drottníngarinnar þar sèr til handa. Hún segir, að forlögin hafi hagað þessu furðanlega; það hafi verið herjað á Hetland, víkíngarnir hafi felt kónginn sinn í orrustu, og þá hafi hún stokkið úr landi hrygg í huga, og eptir lánga mæðu hafi hún komizt híngað, svo hún sè einmitt sú, sem hann leiti að, en með sèr sè dóttir sín og þerna. Kóngur lætur þá ekki bið á verða, og hefur upp bónorð sitt við hana. Hún tekur þeim málum blíðlega, verður glöð í bragði og játast honum þegar í stað. Eptir stutta dvöl leggja þau öll á stað og halda til skipsins. Segir svo ekki af ferðum þeirra, fyrr en kóngur kemur heim í ríki sitt; stofnar hann þá til mikillar veizlu, og heldur brúðkaup sitt til konu þessarar. Er nú alt kyrt um stund. Þau Hermóður og Háðvör gefa sig lítið við drottníngu og þeim mæðgum; aptur á móti voru þær Háðvör og þerna drottníngar, sem hèt Ólöf, mjög samrýndar, og kom Ólöf opt í kastala Háðvarar. Áður lángir tímar liðu, fer kóngur í hernað; en þegar hann er burtu farinn, kemur drottníng að máli við Hermóð, og segir honum, að hún hafi svo til ætlazt, að hann ætti dóttur sína. Hermóður segir henni hreint og beint, að það muni ekki verða af því. Af þessu verður drottníng reið og segir, að þau skuli þá ekki heldur fá að njótast að sinni, Hermóður og Háðvör, því nú leggi hún það á hann, að hann skuli fara út í eyðiey, og verða ljón á daginn en maður um nætur,[1] svo hann muni einlægt til Háðvarar, og kveljist því meir; úr þessum álögum skuli hann ekki komast, fyrr en Háðvör brenni ljónshaminn, sem seint muni verða. Þegar drottníng var búin að rausa, segir Hermóður, að hann mæli það um, að þegar hann komist úr sínum álögum, skuli þær mæðgur verða önnur að völsku, en önnur að mús, og rífast í höllinni, þángað til hann drepi þær með sverði sínu. Eptir þetta hverfur Hermóður, og veit einginn, hvað um hann er orðið. Drottníng lætur leita að honum; en hann finnst hvergi. Einhverju sinni, þegar Ólöf var í kastalanum hjá Háðvöru, spyr hún kóngsdóttur, hvort hún viti, hvar Hermóður sè niðurkominn. Við þessi orð verður Háðvör hrygg og segir, að því sè miður, hún viti það ekki. Ólöf segist þá skuli segja henni það, því sèr sè það fullkunnugt. Hún segir, að Hermóður sè horfinn burtu fyrir tilstilli drottníngar; því hún sè tröllskessa og alt eins dóttir hennar, og hafi hún breytt þannig útliti þeirra mæðgna. En þegar Hermóður hafi ekki viljað fara að ráðum drottníngar, og eiga dóttur hennar, hafi hún

1. Sbr. Fas. I, 51. bls.

lagt á hann, að hann skyldi fara út í eina ey, og verða þar ljón á daginn, en maður á nóttu, og aldrei úr þeim álögum komast, fyrr en Háðvör brendi ljónshaminn. Hún segir, að Háðvöru sè fyrirhugaður ráðahagur, því drottníng eigi bróður í undirheimum, þríhöfðaðan þussa, ætli hún að gera hann að fögrum kóngssyni, og láta hann svo gánga að eiga Háðvöru. Hún segir, að þetta bragðalag sè ekki spánýtt fyrir drottníngu, og hafi hún numið sig burt úr húsi foreldra sinna, og neytt sig til að þjóna sèr; en hún hafi aldrei getað gert sèr mein, því að græni möttullinn, sem hún hafi yfir sèr, geri það að verkum, að sig saki ekki, þó eitthvað eigi að gera sèr. Háðvör verður nú hrygg og áhyggjufull af hinni fyrirhuguðu giptíng sinni, og biður Ólöfu fyrir alla muni, að leggja sèr einhver góð ráð. Ólöf segist ímynda sèr, að biðillinn muni koma upp um kastalagólfið hjá henni, og skuli hún þá vera viðbúin, þegar undirgángurinn fari að koma, og gólfið taki að springa í sundur, og hafa við hendina logandi stálbik, og hella ótæpt ofan í sprúnguna, og muni það vinna á honum. Um þetta leyti kemur kóngur heim úr hernaði, og þykir svart í brotið, að vita ekki, hvað af Hermóði er orðið. En drottníng huggar hann, sem bezt hún getur, og gerir kóngur sèr minna far um burthvarf Hermóðs eptir það. Nú víkur sögunni aptur til Háðvarar, að hún situr í kastala sínum og hefir viðbúnað að taka á móti biðlinum. Ekki laungu síðar er það eina nótt, að mikill undirgángur og skruðníngur kemur undir kastalann; þykist Háðvör þá vita, hvað valda muni, og biður þjónustumeyar sínar að vera viðbúnar að duga sèr. Skruðníngurinn og dýnkirnir fara æ vaxandi, þángað til gólfið fer að springa; lætur Háðvör nú taka bikkatlana, og hella óspart í sprúnguna. Við það fara dunurnar smáminkandi, og verða loksins eingar. Næsta morgun vaknar drottníng snemma, og segist þurfa að fara á fætur, og lætur kóngur það eptir henni. Þegar hún er klædd, fer hún út fyrir borgarhliðið, og er þar þá dauður þussinn bróðir hennar. Drottníng geingur að honum og segir: „Mæli eg um og legg eg á, að þú verðir að hinum fríðasta kóngssyni, og að Háðvör geti ekkert haft á móti þeim ákærum, sem eg ber á hana.“ Verður nú lík þussans að líki hins fríðasta kóngssonar. Eptir það fer drottníng heim aptur, hittir kóng og segir, að ekki þyki sèr dóttir hans vera það góðkvendi, sem vera bæri. Segir hún, að bróðir sinn hafi komið og beðið hennar, en hún hafi ráðið honum bana, og hafi hún orðið þess vör, að lík hans lægi fyrir utan borgina. Kóngur fer þá með drottníngu að skoða líkið, og þykir þetta alt furðu gegna, og segir, að svo fagur sveinn hafi verið fullboðinn Háðvöru, og að hann mundi hafa samþykt það gjaforð. Drottníng biður nú kóng að lofa sèr að ráða, hverja hegníngu Háðvör skuli fá, og er hann fús til þess, því hann segist ekki geta ákveðið hegníng dóttur sinnar. Er það úrskurður drottníngar á þessu máli, að kóngur skuli láta verpa haug mikinn eptir bróður sinn, og skuli láta Háðvöru

þángað lifandi í hauginn til hans. Þetta þykir kóngi óskaráð og hæfilegur dómsúrskurður. Nú víkur sögunni til Olafar; hún vissi alla þessa ráðagjörð drottníngar, fer í kastalann til kóngsdóttur og segir henni, hvað nú sè í ráði. Háðvör biður hana þá í öllum bænum að kenna sèr nú einhver sköpuð ráð. Ólöf segir, að fyrst og fremst skuli hún láta búa sèr til víðan stakk, til að hafa yztan fata, þegar hún gángi í hauginn. Þussinn, segir hún, muni gánga aptur, þegar þau sèu komin bæði saman í hauginn, og muni hann hafa þar 2 hunda hjá sèr; hann muni biðja hana að skera stykki úr kálfunum á sèr, til að gefa hundunum, en það skuli hún ekki lofa að gera, nema hann segi henni, hvar Hermóður sè niður kominn, og kenni henni ráð til þess, að geta fundið hann. En þegar hún ætli að fara burt úr haugnum, og þussinn láti hana fara upp á herðarnar á sèr, til þess að koma henni upp úr haugnum, muni hann vilja svíkja hana, og grípa í stakkinn, til þess að kippa henni ofan í aptur, og skuli hún þá gæta þess, að hafa stakkinn lausan á öxlum sèr, svo að þussinn haldi honum einum eptir.

Nú er haugurinn fullbúinn, þussinn lagður í hann, og verður Háðvör einnig að fara þángað, án þess að geta komið fyrir sig nokkurri vörn. Þegar þau eru bæði komin í hauginn, fer alt, eins og Háðvör hafði sagt. Þessi kóngssonur geingur aptur, og verður þussi, eins og hann var; hundar tveir voru hjá honum, og biður hann Háðvöru að skera bita úr kálfum sínum handa þeim; en hún aftekur það í alla staði, nema hann segi sèr, hvar Hermóður sè, og leggi sèr ráð, til þess að geta komizt til hans. Þussinn segir, að hann sè í eyðiey einni, sem hann tiltekur, en þángað geti hún ekki komizt, nema hún flái iljaskinnið af fótum sèr, og geri sèr skó úr því, en á þeim geti hún geingið láð og lög. Síðan gerði Háðvör það, sem þussinn beiddi, skar stykkin og gaf þau hundunum; að því búnu fer hún að flá iljaskinnið, býr til skó úr því, og segir svo þussanum, að hún vilji nú fara. Þussinn segir, að hún verði þá að fara upp á herðar sèr, og það gerir hún, og kemst með því úr haugnum. En í því hún stekkur upp, er gripið heldur óþyrmilega aptan í stakk hennar; en hún hafði gætt þess, að láta hann liggja lausan á herðum sèr, svo þussinn hèlt honum eptir, en Háðvör slapp. Hèlt hún svo leiðar sinnar til sjávar, þángað sem hún vissi, að skemmst var út í eyna til Hermóðar. Komst hún vel yfir sundið, því skórnir hèldu henni uppi. Þegar hún var komin á land í eynni, sá hún, að sandur var með öllum sjónum, en háir hamrar fyrir ofan, svo hún sá sèr eingan veg að komast upp, og bæði vegna þess að hún var hrygg í huga og orðin þreytt af ferðalaginu, leggur hún sig fyrir og sofnar. Henni þykir kona stórvaxin koma til sín og segja við sig: „Eg veit, að þú ert Háðvör kóngsdóttir, og ert að leita að Hermóði; hann er hèr á eynni, en torvelt mun þèr verða að ná fundi hans, ef þú ert ein í ráðum; því þú getur ekki af eigin rammleik komizt upp á hamrana,

og því hefi eg lagt festi ofan fyrir björgin, og mun hún halda, þó þú lesir þig upp eptir henni, til að komast upp á eyna. Af því eyan er stór, getur vel verið, að þú finnir ekki svo fljótt heimkynni Hermóðar, og því legg eg hèr hjá þèr hnoða; þarftu ekki annað en halda í endann á bandinu, sem er við það, en hnoðað mun renna á undan þèr og vísa þèr leið. Enn legg eg hjá þèr belti, og skaltu spenna því um þig, þegar þú vaknar, og muntu þá ekki örmagnast af húngri.“ Eptir þetta hverfur konan, en Háðvör vaknar og sèr, að hún hefir orðið sanndreym að öllu, sem fyrir hana bar í svefninum; festin lá niður fyrir hamrana, en hnoðað hjá henni og beltið; spennir hún þá beltinu um sig, geingur að festinni og kemst upp á björgin. Tekur hún svo í taug þá, sem lá úr hnoðanu, en það fer á stað, og nemur ekki staðar, fyrr en hún kemur að hellisdyrum ekki allstórum. Hún geingur inn í hellinn, og sèr þar eitt flet lítilfjörlegt, smýgur undir það og leggst þar fyrir. Þegar kvöld er komið, heyrir hún undirgáng úti og þar næst fótatak; verður hún þess þá vör, að ljónið er komið að hellisdyrunum og hristir sig þar; eptir það heyrir hún, að maður geingur inn að fletinu. Dylst það þá ekki fyrir henni, að þessi maður er Hermóður, því hann er að tala við sjálfan sig um ástand sitt, minnist á Háðvöru og fleira að fornu fari. Háðvör lætur ekkert á sèr, og bíður þess, að hann er sofnaður, og þegar hún heldur, að hann sè búinn að festa svefninn, fer hún á stjá, tekur eld og brennir upp ljónshaminn, sem hann hafði skilið við sig úti. Síðan geingur hún inn í hellinn og vekur Hermóð, og verða þá fagnaðarfundir með þeim. Um morguninn fara þau að hugsa til ferða og kvíða því mest, hvernig þau geti komizt úr eynni. Segir Háðvör Hermóði frá draum sínum, og að sig gruni, að hèr sè einhver sá í eynni, sem muni geta hjálpað þeim. Hermóður segist vita þar af einni skessu, og sè hún mesta trygðatröll og bezta bjargvættur, og sèu það einu úrræðin, að finna hana. Síðan leita þau að helli skessunnar og finna hann. Er þar fyrir ógnastór tröllkona og 15 synir hennar úngir, og biðja þau hana að hjálpa sèr til lands. Hún segir, að annað sè auðveldara, því haugbúinn, sem Háðvör hafi verið hjá, muni ætla sèr að verða á vegi fyrir þeim, sè hann orðinn að illhveli miklu, og ætli að ráðast á þau, þegar þau fari til lands. Skessan sagðist þó skyldi ljá þeim skip, og ef þau yrðu vör við hvalinn, og þeim þækti sèr liggja lífið við, mættu þau nefna nafn sitt. Þau þakka henni með mörgum fögrum orðum hjálp sína og ummæli, og leggja svo frá eynni. Á leiðinni í land sjá þau stórfisk með miklu busli, og stefnir hann að þeim með stórum boðaföllum. Þau þykjast vita, hvað vera muni, og halda, að sèr muni aldrei liggja meir á að nefna nafn skessunnar, en nú, og það gera þau. Rètt á eptir sjá þau, hvar kemur á eptir þeim ógurlega stór steypireyður, og fylgja henni 15 smærri reyðarfiskar. Allur þessi hópur rennur fram hjá bátnum, sem þau Hermóður voru á, og á móti illhvelinu. Verður þar hörð aðsókn, og

sjórinn ókyrrist, svo að varla er kostur að verja bátinn fyrir áföllum. Þegar þessi aðgángur hafði staðið góða stund, sjá þau Hermóður og Háðvör, að sjórinn verður blóðugur, og eptir það hverfur steypireyðurin og reyðarfiskarnir, en þau komust að landi með heilu og höldnu. Nú víkur sögunni til kóngshallar; þar hafði orðið undarlegur atburður: drottníng hvarf og dóttir hennar, en valska og mús voru einlægt að fljúgast þar á. Margir vildu stökkva burtu þessum ófögnuði; en þess var ekki kostur. Líður svo nokkur tími, að kóngur verður eins og frá sèr numinn af sorg og áhyggju vegna missis drottníngar sinnar, og af því að ókindur þessar skuli tálma allri gleði í höllinni. Eitt kvöld, þegar allir sátu höggdofa í höllinni, kemur Hermóður þar inn, girtur sverði, og heilsar kóngi. Kóngur tekur honum með mestu blíðu og þykist hafa heimt hann úr helju. En áður en Hermóður tók sèr sæti, geingur hann þar að, sem valskan og músin áttust við, og heggur þær í sundur með sverðinu. Verða þá allir hissa, þegar þeir sjá, að þar liggja tvö flögð dauð á hallargólfinu, og brenna þegar hamina til kaldra kola. Síðan segir Hermóður kóngi upp alla söguna, og fagnar kóngur því fegins huga, að hann er laus við þessar óvættir. Biður Hermóður svo Háðvarar, og var það mál auðsókt við kóng, geingur Hermóður nú að eiga Háðvöru, og af því kóngur var orðinn gamall, gaf hann upp ríkið við Hermóð, og var hann kjörinn til kóngs. Ólöf giptist vænum tignarmanni, og lýkur svo þessari sögu.

**Sagan af Hildi góðu stjúpu.** (Eptir jómfrú Kristínu Jónsdóttur í Reykjavík.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu. Þeim var það eitt til ángurs, að þeim varð ekki barna auðið. Kóngur átti ráðgjafa þann, sem Rauður hèt; hvumleiður var hann flestum öðrum, en kóngi og drottníngu, sem hann var mjög fylgisamur, og var jafnan með henni, hvert sem hún fór. Einn góðan veðurdag, sem snjór var á jörð, ók drottníng í sleða og Rauður með henni. Drottníngu var heitt í sleðanum, svo hún fèkk blóðnasir, og lèt blæða í snjóinn. Segir hún þá við Rauð, að hún vildi hún ætti dóttur, sem skipti eins fallega litum, eins og blóðið og snjórinn. Rauður sagði, að hún skyldi fá þá ósk sína uppfylta, en þó skyldi hún ekki geta sèð svo þessa dóttur sína í fyrsta sinni, að hún legði ekki á hana, að hún skyldi brenna borgina hans föður síns, eiga barn í föðurgarði og drepa mann. Drottníng vildi alt til vinna að eignast dóttur, og þegar stundir liðu, fór að bera á því, að drottníng var barnshafandi. Líður svo að þeim tíma, að hún leggst á gólf, og geingur það alt vel; en þegar hún heyrir á yfirsetukonunum, að hún hefir fætt undur frítt meybarn, biður hún þær í öllum bænum að bera það frá sèr sem fljótast, því hún vilji ekki sjá það. Yfirsetukonunum þykir þetta undarlegt, en fara þó með barnið til kóngs, og segja honum orð drottníngar. Kóngi þykir undur vænt um dóttur sína, lætur skíra hana og kalla Íngibjörgu; síðan fær

hann henni fóstru á öðrum stað í ríkinu, lángt frá borginni. Nú frískast drottníng aptur eðlilega, og ber ekki neitt á neinu. Kóngur býður henni opt að koma með sèr, að sjá dóttur þeirra, eða láta hana koma heim til þeirra. En drottníng vill hvorugt, og segist ekki mega sjá dóttur sína, en gat ekki um, hvernig því væri varið að öðru leyti. Leið nú og beið, þángað til Íngibjörg var 10 vetra, og var mjög orð á gert, hversu fríð hún væri og efnileg. Um það leyti tekur drottníng þúnga sótt, sem hún heldur að muni leiða sig til dauða; lætur hún þá sækja Íngibjörgu, því hún segist þó verða að sjá hana, áður en hún deyi. Þegar Íngibjörg kemur, lætur drottníng alla fara úr herbergi því, sem hún lá í, svo hún gæti talað við dóttur sína í einrúmi. Þegar Íngibjörg kemur þar inn, og lýtur niður að móður sinni, og ætlar að faðma hana að sèr, hrindir drottníng henni frá sèr, og leggur það á hana, sem henni var áskapað, og áður er sagt. Eptir það dó drottníng, en Íngibjörg leið í aungvit og lá í því, þegar komið var í herbergið, og hnykti öllum við þá aðkomu. Raknaði Íngibjörg þó bráðum við aptur með góðri aðhjúkrun, en var ósköp harmþrúngin og áhyggjufull um sinn hag, og hugsuðu allir, að það væri af missi móður hennar. Kóngur var og leingi harmsfullur og syrgði mjög drottníngu, en sinti lítið ríkisstjórn. Vin átti hann einn í ríki sínu, sem hann trúði bezt allra manna, enda hafði hann laungum reynzt kóngi hollráður og góðráður. Þegar hann heyrir afskiptaleysi kóngs af ríkismálum, tekst hann ferð á hendur, og heimsækir hann. Kóngur tekur vel við honum og verður feginn komu hans. Vinur hans leggur þá niður fyrir honum, að honum tjái ekki sífeld sorg og afskiptaleysi af ríkisháttum, og sè honum miklu nær að leita sèr kvonfángs aptur, og megi hann svo helzt hyggja af hörmum sínum, ef hann fái sèr aðra drottníngu í staðinn, þó hann hafi mikils mist. Kóngur var tregur til þess fyrst, vildi eyða þeim málum og sagði, að seinni konan gæfist sjaldan vel. Vinur hans var því fastari á sínu máli, og bauðst til að fara sjálfur að leita honum þeirrar konu, sem mætti verða honum til unaðsbóta, og sagðist ekki síður vilja vanda honum konu en sjálfum sèr. Af því kóngur trúði vin sínum bezt allra manna, lèt hann tilleiðast fyrir fortölur hans. Fer svo sendimaðurinn úr landi, og leitar víða, kemur í mörg kóngaríki og sèr dætur þeirra og kvennalið, en lízt hvergi svo á, að hann vilji bera upp bónorðið fyrir kónginn vin sinn. Loksins frèttir hann til kóngsdóttur einnar, sem Hildur hèt, og var honum sagt, að hún væri mjög sviplík Íngibjörgu kóngsdóttur, og rèð faðir hennar fyrir eylandi einu. Sendimaður kóngs siglir nú þángað, geingur á land og fyrir kóng, og segir honum, hverra erinda hann sè þángað kominn. Kóngur segist ekkert af ráða um þau mál, fyrr en hann viti vilja dóttur sinnar; segir hann sendimanni að bíða þess þar í höllinni, að dóttir sín komi, svo að hann viti, að hann hafi eingin launmæli við hana á meðan, og skuli hann svo sjálfur bera upp við hana bónorðið,

þegar hún komi. Sendimaður gerir svo, og bíður nú þess, að borð eru reist um höllina; sprettur þá upp hurð í hallarveggnum, og kemur fram kóngsdóttir með meyum sínum, geingur fyrir föður sinn og lýtur honum. Sendimaður gefur henni auga, og lízt hún bæði fögur og kurteis og mjög áþekk Íngibjörgu. Geingur hann þá fyrir þau kóng og dóttur hans, hefur upp orð sín og biður hennar til handa kóngi sínum. Kóngur segir, að sèr sè kóngur hans kunnur að góðu einu, en dóttir sín skuli sjálf ráða, hvort hún vilji takast þann vanda á hendur að lofast honum. Kóngsdóttir lýsti því yfir, að hún mundi fúslega taka þeim kosti, sem sèr byðist, og skyldi hún fara heim með sendimanni til kóngs, en sitja í festum hjá honum í 3 ár; því hún væri enn úng og óráðin í flestu. Því sagðist sendimaður vilja lofa fyrir hönd kóngsins; var það svo að ráði gert, að hann fastnaði kóngi sínum kóngsdóttur með fyrnefndum skilmála. Var svo búin ferð hennar á öðru skipi, en sendimannsins, og höfðu þau samflot heim. Þegar kóngur sá siglíng þeirra, gekk hann til strandar með dóttur sinni og hirðinni, og tók á móti drottníngarefni sínu, og leizt honum svo vel á hana, að hann varð þegar fánginn af fegurð hennar, en alla furðaði, hversu líkar þær voru, Íngibjörg kóngsdóttir og Hildur, svo fjærskyldar sem þær voru, enda var það fljótt auðfundið, að þær mundu eiga vel lund saman. Var nú geingið til hallarinnar, og vildi kóngur þegar halda brúðkaup sitt til Hildar. Vinur hans segir, að það megi hann ekki, því Hildur sè föstnuð honum með því einu móti, að hún sæti í festum hjá honum í 3 ár. Lèt þá kóngur svo vera. Ekki hafði Hildur verið þar leingi, áður hún biður kóng að láta búa þeim báðum, Íngibjörgu og sèr, kastala út af fyrir sig; segist hún líta svo til, að þær muni verða brátt samríndar, og muni það báðum bezt gegna, að þær sèu sem næst hvor annari. Kóngur gerir svo, og setjast þær báðar í kastalann. Þeim stallsystrum kom undur vel saman, svo að jafnan vildu það báðar, sem önnur vildi. Þegar nokkuð leið frá, fór Íngibjörg að verða fálátari, en áður. Hildur gekk á hana og spurði, hvað ógleddi hana. Íngibjörg vildi ekki segja henni það. Hildur sagðist þá ekki heldur þurfa að spyrja hana um það, því hún vissi, að henni væri áskapað, að brenna borgina hans föður síns. Íngibjörg sagði það satt vera, og væri hún í standandi vandræðum af því. Hildur bað hana ekki láta hugfallast, þær mundu hafa einhver ráð. Eptir þetta fer kóngur að heiman á áliðnu sumri, til að heimta skatta af löndum sínum, og um sama leyti fer alt fólk úr borginni í eplaleit víðs vegar. En á meðan eru þær tvær einar heima Hildur og Íngibjörg; þá segir Hildur, að nú skuli þær bera alt fèmætt burt úr borginni, meðan þar sè mannlaust, og brenna hana svo upp. Þetta gera þær, og kveykja víða í borginni, svo að eldurinn læsir sig um hana alla á svipstundu. Þá sjá borgarmenn úr eplaleitinni bál mikið til borgarinnar, snúa heim og ætla að bjarga. En þegar þær Hildur sjá til ferða þeirra, taka þær

skjólur og bera á meðan tjöru sem mest í logann, svo einginn kostur var að stökkva eldinn, þó allir borgarmenn kæmu til. Fer þá svo, að borgin brann öll upp til kaldra kola, svo ekki varð við gert. Hildur segir, fyrst að þetta slys hafi viljað til, dugi nú ekki aðgerðaleysið, og skuli menn taka til borgarsmíðis á öðrum stað, enda hefði ekki skaðinn verið svo mikill, þó borgin brynni, því hún hefði verið svo óálitleg, að aldrei hefði hún unað sèr í henni lángvistum. Var nú alt á ferð og flugi, tóku menn til borgarsmíðis og vönduðu hana sem mest, og var hún albúin, þegar kóngur kom heim, og miklu skrautlegri, en hin forna. Kóngur undrast þessa breytíngu, og segir Hildur honum frá slysi því, sem viljað hafi til gömlu borginni, og biður hann að misvirða ekki tiltekjur sínar, að hún hafi látið gera þessa borg í staðinn, því hún hefði svo aldrei getað átt hann í gömlu borginni. Kóngi þókti borgin svo fögur, að hann þakkaði Hildi þá búníngsbót, sem orðin var á híbýlum hans. Þegar leið fram á 2. árið, fákættist Íngibjörg aptur, og vildi ekki segja Hildi, því síður öðrum frá hörmum sínum. Fór þá sem fyrri, að Hildur gat í kollinn, að nú mundi líða að því, að Íngibjörg skyldi eiga barn í föðurgarði. Íngibjörg sagði svo vera, og væri hún nú alsendis úrræðalaus. „Ekki skulum við deya ráðalausar," segir Hildur; „skaltu fara út á skóg, þar er hús eitt, og skaltu vera í því 3 nætur; þar mun koma til þín maður, og skaltu taka tilmælum hans. Eptir það skaltu koma heim aptur, og mun eg sjá svo um, að þèr verði eingin hneysa að þessu." Síðan fer Íngibjörg, og er í burtu þann tíma, sem tiltekinn var. Þegar frá líður, kemur Rauður að máli við kóng, og segist hafa vandamál við hann að tala. Kóngur spyr, hvað það sè; Rauður segir, að þó honum þyki það ólíklegt, þá sè dóttir hans með barni. Kóngur biður hann ekki fara með þá lokleysu, því það taki eingu tali. Rauður segist hafa búizt við því, að hann mundi ekki trúa sèr, en hann skuli reyna það með því, að leggja höfuðið á sèr í keltuna á Íngibjörgu, þegar hann komi á laugardaginn í kastala þeirra stallsystra, og vita hvort hann finni þá eingin missmíði. Föstudaginn næstan áður, en kóngs var von í kastalann í þessum erindum, segir Hildur Íngibjörgu, að nú hafi Rauður sagt föður hennar, að hún væri ólètt, og ráðið honum til að reyna það, sem nú var sagt. Við þetta varð Íngibjörgu svo bylt, að það leið yfir hana. Hildur hressir hana við og segir: „Þú skalt taka hvolpana undan tíkinni okkar, binda þá í dúk og hafa undir svuntu þinni, og þegar kóngur verður var við spriklið í hvolpunum, mun hann hugsa, að Rauður segi satt. Skaltu þá standa upp og láta hvolpana falla, svo hann sjái, undan svuntu þinni." Nú kemur laugardagur, og geingur kóngur í kastalann til stallsystranna, eins og hann var vanur á hverjum laugardegi. Íngibjörg fór að öllu, sem Hildur hafði kent henni ráð til; leggur kóngur svo höfuð sitt í keltu dóttur sinnar, en sprettur skjótt upp aptur heldur snúðugur, þegar hann finnur kvikið við kollinn á

sèr, og spyr, hvort hún sè vanfær. Íngibjörg svarar honum eingu, en stendur upp og lætur hvolpana falla undan svuntu sinni. Þykist kóngur þá skilja, hvers kyns er; fer hann svo til Rauðs og átelur hann harðlega fyrir illgirni og álygar við dóttur sína, og segir, að hann sè þess maklegastur, að hann væri drepinn, ef hann hlífðist ekki við hann, af því drottníngu sinni hefði þókt svo vænt um hann. Rauður sagðist hafa satt að mæla alt að einu, en hèr væru brögð í tafli, sem kóngur væri dulinn að. Datt nú það tal niður um sinn, en þó vakti Rauður máls á því seinna við kóng, að hann skyldi láta lækni skoða blóðið úr Íngibjörgu, til að vita, hvort hún væri heilbrigð; skyldi kóngur blóðga hana lítið á hendi, og láta sem sèr yrði það óvart, ná svo blóðinu og bera það undir læknis úrskurð. Kóngur sagðist ekki þurfa að reyna þetta, því hann tryði svo vel dóttur sinni, en þó gæti hann gert það. Nú fór eins og áður, að Hildur vissi erindi kóngs í kastalann næsta laugardag, og segir Íngibjörgu. Henni varð eins ílt við það, og áður; en Hildur segir: „Við skulum ekki deya ráðalausar; við skulum nú sitja hvor hjá annari og haldast höndum saman, þegar kóngur kemur; en þegar kóngur blóðgar þig, mun eg bregða hönd minni fyrir hnífseggina, og láta drjúpa í keltu þèr nokkra dropa, og bregða svo dúki um höndina. Skaltu svo fá föður þínum svuntuna með mínu blóði í, en varast að láta drjúpa í hana nokkurn dropa af þínu blóði.“ Nú fer alt fram eptir þessari ráðagerð, þegar kóngur kemur, að Hildur bregður hönd sinni fyrir hnífseggina, um leið og kóngur særir Íngibjörgu, lætur blóðið drjúpa í keltu hennar, og sveipar svo dúki um höndina á sèr. Kóngur biður svo Íngibjörgu, að taka af sèr svuntuna með blóðinu, og fá sèr; hún gerir svo, og fer hann með hana til læknis og lætur hann rannsaka blóðið; sannaðist þá, að það var úr hreinni mey. Kóngur varð nú en reiðari, en áður, við Rauð, og lætur þó kyrt að sinni. Nú líður að afmælisdegi kóngs, þá segir Rauður við hann, að nú muni það sannast, sem hann hafi sagt; því Íngibjörg sè þá ætíð vön að dansa alla liðlánga nóttina, en það muni hún ekki gera í þetta sinn, og skuli hann hafa það að marki. Nú veit Hildur þessa ráðagjörð Rauðs, og segir við Íngibjörgu, að það hafi laungum verið sagt, að þær væri líkar, og nú skyldi þær skipta um hlutverk og klæðum; skuli Íngibjörg sitja hjá kóngi um nóttina, og látast vera Hildur, en hún segist muni dansa í stað Íngibjargar. Þetta fer svo, eins og í sögu segir, að þær taka hvor sitt hlutverk, og dansar Íngibjörg, sem raunar var Hildur, alla nóttina, og undir morguninn er hún búin að dansa alla af sèr og orðin ein eptir á gólfinu; segir hún þá, að hún vildi, að nú ætti dansinn fyrst að byrja. En kóngur sat hjá Íngibjörgu, sem hann ætlaði að væri unnusta sín, og þókti vænt um, að enn hefði Rauður orðið lygari. Eptir þetta atyrti kóngur Rauð og segir, að hann nyti einskis hjá sèr, nema fyrri drottníngar sinnar, að hann væri ekki drepinn fyrir róg og lygar. Rauður sagði, að sín orð mundu

sannast, þó seinna væri. Nú leið að þeim tíma, sem Ingibjörg skyldi verða lèttari; bjó þá Hildur þeim báðum herbergi uppi á hæsta lopti í kastala þeirra, sat sjálf yfir Íngibjörgu, og hleypti þar eingum inn öðrum, reifaði svo barnið og lèt um hálsinn á því þríbrotna gullfesti, sem hún átti, og lagði barnið út á kastalaveggiun. Eptir það var Hildur alt af hjá Íngibjörgu, og leyfði eingum að koma inn til þeirra, og ekki föður hennar, því Íngibjörgu væri ílt, svo hún þyldi eingan umgáng eða skvaldur. Eptir hálfan mánuð fór Íngibjórg á fætur aptur, og var þá nokkuð fölari, en áður; kendi Hildur það legunni, og var því trúað. Nokkru eptir þetta, þegar Íngibjörg hafði náð sèr aptur, kom enn að henni óhugur svo mikill, að hún varð varla mönnum sinnandi. Fór þá, sem vant var, að Hildur gat í kollinn, hvað hana hrygði, að nú mundi hún eiga að drepa mann. Íngibjörg sagði, að það olli, og var nú óhuggandi og úrræðalaus af þessari tilhugsun. Hildur bað hana harka af sèr; því enn mundi þeim eitthvað verða til úrræða. Leið nú bráðum að þeim tíma, sem fara átti í eplaleit. Á einum stað háttaði svo til, að stórt og mikið eplatrè stóð framan í sjávarhömrum; á því voru eplin bæði fegurst og mest, og varð að síga þángað í festi. Það þorði einginn að gera nema Rauður. Nú leggur Hildur það til, að þær skuli fara með kóngi, þegar Rauður sigi í bjargið, og skyldi Íngibjörg biðja kóng að lofa sèr að halda festinni, en hún skyldi svo látast missa handastjórn á henni, svo Rauður hrapaði til dauðs, og væri það maklegast, að honum kæmi illska sín í koll. Íngibjörg sagðist þó ekki geta feingið það af sèr; en Hildur segist skuli taka fyrst við festinni með henni. Þetta ræðst nú með þeim, og biður Íngibjörg föður sinn, að lofa sèr að halda festinni, þegar Rauður var siginn í bjargið, og vita, hversu sterk hún væri. Kóngur lèt það eptir henni, og tóku þær báðar, Hildur og Íngibjörg, við festinni; en Hildur slepti skjótt og Íngibjörg litlu síðar, og var það bráður bani Rauðs. Þær stallsystur lètu, sem sèr fèlli þetta slys óvenju illa, svo kóngur vítti þær ekki fyrir það, en flestir undu vel óförum Rauðs, því allir höfðu horn í síðu hans. Leið nú veturinn næsti af höndum, bjóst kóngur þá við brúðkaupi sínu og gekk að eiga Hildi. Sat hún honum til hægri handar, en Íngibjörg til vinstri. Þegar kvöld var komið, var barið að dyrum, og segir Hildur, að hún skuli mæta gestum, og geingur til dyra, en gesturinn í höllina á móti henni, og hleypur hún þegar um hálsinn á honum og kyssir hann. Fór þá heldur að fara um kóng. En Hildur leiðir komumann fyrir kóng, og segir, að þessi maður sè bróðir sinn, síðan leiður hún hann fyrir Íngibjörgu, og segir henni, að þetta sè maðurinn, sem hún hafi sofið hjá í skálanum á skóginum, og sè hann faðir að barni hennar. Kóngi hnykkir illa við þessi tíðindi, en Hildur geingur úr höllinni, og kemur aptur að lítilli stundu liðinni með árs gamalt barn, á að geta, á handleggnum, færir Íngibjörgu það og segir, að það sè barnið hennar. Íngibjörg þekkir á því gullfestina,

og getur ekki rekið sjálfa sig úr vitni, að þetta muni satt vera, sem Hildur segir. Síðan segir Hildur kóngi upp alla sögu um ósköp þau, sem á Íngibjörgu höfðu legið, og hvernig hún hefði komizt úr þeim, og þar næst, að það hefði verið lagt á bróður sinn, að hann skyldi verða skrýmsli á daginn, en maður á nóttu, og geta aldrei úr þeim ánauðum komizt, fyrr en einhver kóngsdóttir vildi vinna það til, að sofa hjá honum 3 nætur í beit. Nú hefði Íngibjörg leyst hann undan þeim álögum, og átt við honum barn þetta, en hún hefði aptur hjálpað Íngibjörgu. Eptir það biður bróðir Hildar drottníngar Íngibjargar, og var það mál auðsókt bæði við kóng og hana; var þá aukin veizlan, og bæði brúðkaupin drukkin í einu. Lýkur svo sögunni af Hildi góðu stjúpu.[1]

**Íngibjörg kóngsdóttir.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Það var einu sinni kóngur og drottníng í ríki sínu og voru barnlaus. Þau lángaði þó mjög að eignast barn. Einu sinni var drottníng að gánga úti og var lausamjöll mikil. Henni blæddu mjög blóðnasir og óskaði hún sèr þá, að hún ætti eins fallega dóttur, eins og blóðið og snjórinn væri að sjá saman. Hjá kóngi var þræll, sem Surtur hèt. Hann heyrði orð drottníngar og bætti við ósk hennar þessum orðum: „Og þú hefðir dauðlegt hatur á henni.“ Nú liðu tímar fram og ekkert er til frásagnar fært. Eitt sinn finnur drottníng á sèr, að hún muni vera með barni. Þegar líður á meðgaungutímann, biður hún mann sinn þeirrar bónar, að láta þegar fyrirfara barninu, þegar það fæðist. „Því skaltu aldrei fá að ráða,“ segir hann. Nú kemur að því, að drottníng fæðir barn, og er það fríð og fögur mey, sem nefnd er Íngibjörg. Kóngur lætur smíða skemmu, fær sèr fóstru og lætur barnið þángað með henni, en þetta mislíkar drottníngu mjög. Meyan vex upp og verður svo fögur, að menn höfðu ekki sèð hennar líka. Einu sinni verður drottníng veik og er mjög þúngt haldin. Þá lætur hún kalla til sín dóttur sína og hvíslar einhverju að henni, sem einginn heyrir. Eptir það deyr drottníng, og er hún heygð og syrgir kóngur hana mjög. En Íngibjörg fer til skemmu sinnar og er aldrei ógrátandi. Nú víkur sögunni að jarli einum; hann bjó í eyu skamt frá konúngi og átti dóttur eina, er Hildur hèt. Kóngur biðlar til þessarar jarlsdóttur, fær hana og er brullaup þeirra haldið í höll konúngs, og er þá mikið um dýrðir, en eingu getur Íngibjörg sint vegna óánægju; hún situr í skemmu sinni og grætur. Einu sinni fer hin únga drottníng til skemmu Íngibjargar, ber á dyr og biður hana að ljúka upp. Það gjörir hún. Drottníng biður hana gánga með sèr út á skóg í dag. Íngibjörg

---

1. Þó sögu þessari sè gagnstætt farið öllum hinum undan geingnu set eg hana hèr, og er hún nálega hið eina dæmi, sem eg þekki í munnmælasögum, að stjúpur hafi reynzt vel stjúpbörnum sínum.

færist mjög undan því, en þó verður það úr eptir lánga nauð, að þær fara báðar af stað. „Nú bið eg þig,“ segir drottníng, „að segja mèr, hvað að þèr geingur og hvað ollir þínum mikla harmi.“ Íngibjörg færist undan að segja frá því, og þó drottníng spyrji hana hvað eptir annað, vill hún ekkert segja. Loksins koma þær að móðu einni. Þá segir drottníng: „Annaðhvort skal eg nú steypa þèr í móðu þessa, eða þú skalt verða að segja mèr, af hverju þú grætur.“ En Íngibjörg kaus heldur líf og sagði henni frá, að þegar móðir sín hefði talað við sig, þá hefði hún lagt það á sig, að hún skyldi eiga barn í föðurgarði, drepa mann og brenna borgina hans föður síns. „Þetta skaltu ekki láta fá á þig,“ mælti drottníng, „og skal eg hjálpa þèr úr þessum kröggum. Þú skalt segja þræli Surt, að þú hafir sèð fagurt gras í sjávarklettum í dag og biddu hann að síga eptir því, og þegar hann er kominn svo lángt í klettana, að hann kemst ekki upp aptur, þá skaltu sleppa bjargfestinni, svo hann falli í sjóinn.“ Þessu hlýddi Íngibjörg og drap hún Surt með þessu móti. Síðan fór Íngibjörg heim. Nú kemur drottníng eitt sinn að máli við konúng og mælti: „Þú situr mikið kyr heima í borg þinni, konúngur, og aldrei ferð þú út á skóg að skemta þèr eins og aðrir konúngar gjöra.“ Konúngur kvaðst fara skyldi út á skóg, þegar hún vildi og tók sig til og fór einn dag með alla hirð sína. Gjörði drottníng þá Íngibjörgu vara við, lèt hana hjálpa sèr að bera alla dýrgripi út úr höllinni og lagði síðan eld í hana. Síðan fèkk hún Íngibjörgu knýtilskauta og sagði henni að elta hann út á skóginn, og mundi hann staðnæmast við skáladyr nokkrar, og þegar hún kæmi þángað, riði henni á, að sjá skálabúann, áður en hann sæi hana. „En fari svo, að þig dreymi mig,“ mælti drottníng, „þá skaltu koma til mín svo fljótt, sem þú getur.“ Nú fer Íngibjörg á skóginn og kemur loksins að skáladyrum; þar geingur hún inn og stendur bakvið hurðina. Að góðum tíma liðnum kemur risi mikill í skálann; hann heldur á bjarndýri á bakinu og kastar því á gólfið. Þá sèr hann Íngibjörgu, en hún var búin að sjá hann áður. Íngibjörg biður risann frá stjúpu sinni að lofa sèr að vera nokkrar nætur. Hann tekur því vel og segir henni að koma leingra inn í skálann. Hún sèr þar stórt rúm uppbúið og annað lítið undir hinu og var það rúm kringlótt. Risinn spyr, hvort hún vilji heldur sofa hjá sèr, eða hundinum sínum, en hún kaus heldur að sofa hjá hundinum. Nú er Íngibjörg í skála þessum nokkrar nætur. Eina nóttina vaknar hún og heyrir drunur miklar, og þær svo ógurlegar, að eins er og jörðin ætli að bresta í sundur. Síðan sèr hún, að ófreskja mikil kemur inn í skálann í mannslíki; hann hafði húu úr uxahemíngum, var í hrossskinnsbuxum, skrápvesti og reiðíngskjól. Hausinn var herfilega ljótur; hann var króknefjaður og nasaflár, kolsvartur á hár og hörund. Kjapturinn var allur skakkur og stóð skögultönn mikil fram úr honum. Við þessa ógurlegu sýn varð Íngibjörg svo hrædd, að hún

stökk upp fyrir risann. Fram af þessu dreymir hana drottníngu og vekur þá risinn hana; stekkur hún þá af stað og flýtir sèr mjög til borgarinnar. Þegar hún kemur þar, sèr hún bál mikið og drottníngu sitja á silkiserk við bálið. Hún geingur að bálinu, hryndir nokkrum þrælum á bálið, tekur síðan í hönd drottníngar og leiðir hana til borgarinnar. Hún atyrðir föður sinn og kveður hann launa drottníngu illa, þegar hún hafi ætlað að hjálpa sèr úr álögunum. En það segist kónginum ekki hafa vitað, heldur hafa haldið, að drottníngin mundi hafa brent hana inni í borginni. Nú líður nokkur tími og þykjast menn sjá, að Íngibjörg þyknar undir belti. Eitt sinn kemur skrautbúinn maður ríðandi rauðum hesti til borgarinnar. Hann biður Íngibjargar, og er hún lofuð honum. Síðan er brúðkaup þeirra haldið með miklum veg. Eptir þetta fæðir hún barn, og veit hún þá, að þessi maður hennar er faðir að því, og að það er risinn úr skálanum, sem var í álögum og bróðir drottníngar. Það er sagt, að þau ynnu hvort öðru til elli og feingju á endanum ríkið eptir konúng og öll auðæfi.

**b)** Ekki eru það þó stjúpurnar einar, sem ofsækja stjúpbörn sín, því við hefir það borið, að aðrir, sem næstir standa börnunum, og jafnvel foreldrarnir sjálfir, hafa leitazt við að fyrirkoma börnum sínum, eða gera þeim lífið svo leitt, að börnunum hefir varla eða ekki verið við vært. Það eykur þá ávalt á eymdir barnanna, ef slíkir foreldrar eða náúngar eru fjölkunnugir eða eiga kostgripi þá, sem þeir beita börnum sínum til ills, eða ef tröll snúast með í móti þeim, sem ofsóktir eru.[1] En þó leggst jafnan slíkum einstæðíngum eitthvað til líknar.

**Sagan af Vilfríði Völufegri.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 280—281. bls.) Á bæ einum bjuggu einu sinni hjón; er ekki að sinni getið um, hvað bóndinn hèt, en konan nefndist Vala. Hún var fögur ásýndum, en ekkert góðkvendi. Hjón þessi eignuðust eina dóttur, er kölluð var Vilfríður, og vegna þess hún þókti fríðari, en móðir hennar, var hún auknefnd Völufegri. Þetta sveið móðurinni sárlega, og lagði því hatur á dóttur sína. Fór hún nú að hugsa upp ráð, hvernig hún feingi henni í hel komið. Í því skyni leggur hún með hana út á skóg; var hún þá hèr um bil 14 vetra gömul, og ætlast hún til, að villudýr skuli rífa hana í sundur. Aumíngja stúlkan ráfar nú ráðalaus um skóginn allan daginn. En þegar kvöld var komið, sezt hún þreytt og mædd undir stein nokkurn. Þegar hún hafði verið þar litla stund, koma þángað dvergar tveir, og spyrja, hversvegna hún sè þángað komin. Hún segir alt hið sanna, og þeir segjast þá líka vita það. Síðan segja þeir henni, að steinninn sè híbýli sitt og bjóða henni inn með sèr.

---

1. Sbr. söguna af **Helgu karlsdóttur.**

Verður hún sárfegin, og þiggur boð þeirra. Þeir gera henni það gott, er þeir geta. Þegar þeir ætla að taka á sig náðir, gera þeir ráð fyrir því, að þá kunni ekki að dreyma vel, svo þeir kunni að láta illa í svefni. Biðja þeir hana þess þá leingstra orða, að vekja sig ekki, hvað sem á gángi, og heitir hún því. Þeir láta nú illa í svefninum um nóttina, og hún gætir þess, að vekja þá ekki. Að morgni, þegar þeir vöknuðu, þakka þeir henni fyrir það, að hún hefði ekki vakið þá, og þeir hefðu því feingið að njóta draums síns. Segja þeir henni, að hún megi búast við því, að einhver muni koma að steininum um daginn, og biðja hana að ljúka upp, en hver sem það svo verði, og hvað fagurlega sem hann tali, þá skuli hún ekki upp ljúka; því það geti orðið, ef til vill, bani þeirra allra. Hún lofar þessu, og síðan leggja dvergar af stað á dýraveiðar. Nú víkur sögunni aptur til Völu. Hún átti gler,[1] sem fræddi hana um það, er hún spurði. Þenna morgun finnur hún glerið sitt og segir:

„Segðu mèr nú glerið mitt búna
hvernig líður Vilfríði Völufegri núna?"

Glerið svarar:

„Ekki er henni margt að meini,
ala hana dvergar tveir í steini."

Þá varð kvendið öldúngis frá sèr numið af heipt og bræði, því hún vildi fyrir hvern mun dóttur sína dauða. Býr hún sig nú út, og leggur af stað til steinsins, þar sem dvergarnir áttu heima. Þegar hún kemur, er steinninn lokaður. En af því hún vissi af Vilfríði inni, og af því hún að eins gat litið hana gegnum ofur litla smugu, þá heilsar hún blíðlega dóttur sinni og biður hana með mörgum fögrum orðum að ljúka upp, segist vera með hríng, sem amma hennar hafi átt, og vilji hún fyrir hvern mun, að hún fái hann. Vilfríður kom auga á hrínginn gegnum smuguna, þykir hann fagur og rèttir út einn fíngur sinn. Vala lætur þegar hrínginn upp á fíngurinn og segir svo: „Mæli eg um og legg eg á, að hríngurinn kreppi að þèr fastar og fastar, svo hann verði þèr að bana, nema samkynja gull finnist, sem seint mun verða." Undir eins, og hríngurinn var kominn á höndina, tók hún að blása upp, og Vilfríður fèkk óþolandi kvöl í líkama sinn. Þegar undir kvöld var komið, komu dvergarnir heim, og segja hún hafi illa gert, að víkja af boðum sínum. Fara þeir fljótt að leita í gulli sínu, og finna loksins gull, samkynja því, sem var í hríngnum, og þegar það var lagt við, sprakk hann í sundur, og Vilfríði fór að batna. Næstu nótt dreymir dvergana illa, en hún gætir þess að vekja þá ekki, og þykir þeim vænt um það. En að morgni biðja þeir hana að muna sig um það, að ljúka ekki upp, þó móðir hennar

---

1. Þegar eg heyrði sögu þessa fyrst, 7 eða 8 vetra gamall, var glerið kallað skuggsjá.

komi, og hvað sem hún hafi meðferðis að bjóða henni. Síðan leggja þeir af stað, eins og áður. Enn þá kemur Vala til glers síns, og segir:

„Segðu mèr glerið mitt gullinu búna,
hvernig líður Vilfríði Völufegri núna?“

En hún fær aptur það svar:

„Ekki er henni margt að meini,
ala hana dvergar tveir í steini.“

Nú verður Vala öldúngis æf í skapi, hugsar sèr ráð og leggur af stað að nýu. Þegar hún kemur til steinsins, finnur hún hann lokaðan, en kallar samt með miklum blíðlátum til dóttur sinnar, og biður hana að ljúka upp; kveðst hún vera með hina mestu gersemi, sem hún ætli að færa henni, það sè gullskór, sem lángamma hennar hafi átt. Vilfríður er næsta treg og viljalítil. En þegar komið er fram yfir miðjan dag, gerir hún það fyrir orð móður sinnar, að hún lætur fótinn útum smugu. Vala setur þá skóinn upp á fótinn, mælir síðan um og leggur á, að hann verði henni að bana, nema samkynja gull verði viðlagt, sem ekki muni auðfundið. Eptir þetta leggur hún af stað, en skórinn tekur að kreppa að Vilfríði; blæs upp allur fótur hennar, svo hún hefir eingan frið. Þegar dvergarnir koma nú heim, verða þeir mjög armæddir út af gáleysi Vilfríðar, fara að leita að gullinu í rusli sínu, og finna það eptir lánga mæðu, og þegar það er lagt við, springur skórinn. Nú var Vilfríður mjög eptir sig, en batnar þó vegna þeirrar góðu hjálpar og hjúkrunar, sem dvergarnir veittu henni. Þegar alt var komið í lag, fóru dvergarnir að hvíla sig; sofna þeir skjótt og láta nú ógurlega í svefni, svo aldrei höfðu þeir látið eins illa. Þeir brjótast um á hæl og hnakka, en Vilfríður gætir þess að vekja þá ekki. Þegar þeir vöknuðu að morgni, segja þeir Vilfríði, að koma muni móðir hennar enn þá. En þess biðja þeir hana leingstra orða, hvernig sem Vala láti, þá ljúki hún ekki upp, því að öllum líkindum verði það bani þeirra allra. Eptir þetta fara þeir af stað til veiða sinna. Þenna morgun kemur Vala, eins og fyrr, að máli við glerið sitt, og segir eins og áður:

„Segðu mèr glerið mitt gullinu búna,
hvernig líður Vilfríði Völufegri núna?“

Glerið svarar:

„Ekki er henni margt að meini,
ala hana dvergar tveir í steini.“

Nú þykist hún illa brögðum beitt, verður öldúngis hamslaus og býr sig til ferðar. Segir ekki af ferðum hennar, fyrr en hún kemur að steininum; er hún þá grátandi, kveðst mjög iðrast eptir það, sem hún sè nú búin að gera dóttur sinni á móti, biður fyrirgefníngar á því, og segist

fegin vilja bæta úr því öllu. Hún segist nú koma með þá dýrmætustu gjöf, til að færa henni, það sè belti, sannur kjörgripur ættarinnar, og hafi fylgt henni mann af manni; biður hún nú elskudóttur sína að ljúka upp, svo hún geti sèð, hvað vel það fari henni og Vilfríður einnig komist að raunum, að hún eigi góða móður. Þegar undir kvöld var komið, lætur Vilfríður til leiðast, fyrir bænastað móður sinnar, að hún lýkur upp, og spennir Vala þegar beltinu um mitti Vilfríðar. Undir eins og það er búið, segir hún: „Mæli eg um og legg eg á, að belti þetta herði svo að lífi þínu, að það verði þinn bani og það losni aldrei, nema kóngurinn af Saxlandi leitist við að losa það.“ Þykist Vala nú hafa gert góða ferð, og heldur heimleiðis. En Vilfríði bregður svo við, að hún ætlar ekkert viðþol að hafa, herðir einlægt að henni meir og meir, og þegar dvergarnir komu heim, sýndist hún vera nær dauða, en lífi. Hún gat einúngis sagt frá því, sem móðir hennar hafði á hana lagt. Dvergarnir urðu nú hryggir af öllu þessu. Taka þeir í skyndi það ráð, að þeir fara með Vilfríði ofan að sjó, og leggja hana á fagran blett við sjávarströndina, og er hún þá orðin svo af sèr komin, að hún má ekki mæla. Síðan taka þeir pípur, og fara að blása í þær. Herða þeir svo blásturinn, að mikið veður gerði og sjórinn gerðist næsta ókyr. Þetta tóku dvergarnir til bragðs, vegna þess þeir vissu, að kóngurinn í Saxlandi var á siglíngu eigi alllángt frá landi, og þegar veðrið skall á, tók hann það ráð, að halda þar að landi, sem Vilfríður var fyrir. Þegar hann var kominn inn í höfnina, geingur hann í blíðviðri á land upp og lítið eitt með fram sjónum. Sèr hann þá þessa fögru stúlku liggja þar afmyndaða og mállausa. Honum kemur til hugar, að þörf muni vera á því, að losa eitthvað um hana. Reynir hann til að losa beltið, og tekst það fljótlega. Og þegar hann var nokkra stund búinn að stumra yfir henni, þá tekur hún að lifna við og hressast. Undir eins, og hún gat talað, spyr hún, hvar dvergarnir muni vera; en kóngur veit ekkert um þá. Nú geingur hann eptir beiðni Vilfríðar dálítið eptir ströndinni; finnur hann þá báða dvergana dauða með pípur uppi í sèr og var þá augljóst, að þeir höfðu ekki þolað blásturinn, eða reynt of mikið á sig við þann starfa. Vilfríði sárnaði mjög, að þeir skyldu vera dauðir, en þegar kóngur bauð henni að fara heim með sèr, tók hún því mjög þakklátlega, gerði ráðstöfun fyrir því, að gull og dýrgripir dverganna væru sóktir í steininn, og fór með þetta út á skip kóngs. Og svo hèlt hann leiðar sinnar með hana heim í ríki sitt.

Það leið ekki á laungu, þángað til kóngi tók að lítast svo vel á Vilfríði, að hann hóf bónorð sitt til hennar. Vilfríði sýndist, sem hún neitaði gæfu sinni, ef hún hafnaði þessum ráðahag, en þó kvaðst hún verða að setja einn skilmála, og hann væri sá, að hann tæki aldrei nokkurn mann til veturvistar, nema með ráði sínu og vilja. Kóngur segir, að þetta sè ekki, nema bón, og lofar því fúslega. Síðan eru þau

saman vígð. Nú víkur sögunni enn þá til Völu. Hún er ekki enn búin að gleyma dóttur sinni, fer því til glersins og segir:

„Segðu mèr nú glerið mitt gullinu búna,
hvernig líður Vilfríði Völufegri núna?“

Glerið svarar:

„Eingum framar er hún stödd í vanda.
Kallast drottníng konúngs Saxalanda.“

Af þessu verður Vala öldúngis frá sèr numin og veit ekki, hvað til bragðs skal taka. Verður það þó helzt að ráði, að hún fer til bónda síns, og biður hann að fara til Saxlands, gerast vetursetumaður hjá kóngi og hætta ekki, fyrr en hann nái lífi dóttur sinnar. Og til sannindamerkis verði hann að koma með, eða senda sèr hárlokk úr hári hennar, túnguna og nokkuð af blóðinu. Karl tekst þessa ferð á hendur, og segir ekki af ferðum hans, fyrr en hann kemur að höll kóngs og hittir kóng úti. Beiðist hann þegar veturvistar. En kóngur segist ekki vilja taka við honum, eða leyfa honum veturvist, fyrr en hann hafi talað við drottníngu. Maður þessi, er Rauður nefndist, tekur nú að hlægja dátt, og kveðst ekki vilja þiggja vetursetu hjá honum, ef hann sè ekki einráður um svo lítið, heldur skuli hann fara til annara kónga og ófrægja hann um öll lönd, ef hann áræði ekki að taka sig, án þess að fást um það við fleiri. Fyrir þessar áskoranir lætur kóngur tilleiðast. Áður lángt um leið kemur kóngur að máli við drottníngu, og segir henni frá, að nú sè hann búinn að brjóta á móti skilmála hennar og vilja, því nú sè hann búinn að taka vetursetumann. Henni líkar þetta illa. En segir, að ekki tjái að tala um það, fyrst það sè búið, og hljóti það svo búið að standa, en svo segi sèr hugur um, að hann muni einhvern tíma iðrast þessa. Þegar fram liðu stundir, varð það augljóst, að drottníng er ekki kona einsömul. Og þegar að því kom, að hún skyldi fæða, er ekki látinn vera skortur á yfirsetukonum, en fæðíngin geingur þó ógreiðlega, og það svo, að yfirsetukonurnar gefast upp og segjast ekki geta bjargað. Kóngur verður nú mjög hryggur, og ásamt öðrum verður Rauður þessa var; býðst hann þá til, að leitast við að hjálpa drottníngu, og þiggur kóngur það. Undir eins, og Rauður er kominn inn til drottníngar, lætur hann yfirsetukonurnar fara í burt og alla þá, sem nálægir voru. Síðan stíngur hann henni svefnþorn, nær barninu og var það piltur. Rauður hefir nú einga snúnínga á því, að hann sker eyrað af sveininum, stíngur því í munn móðurinnar sofandi, lýkur upp glugga og fleygir barninu út um hann; hleypur hann síðan til kóngs og biður hann koma. Þegar þeir koma, læzt Rauður verða öldúngis hissa, að barnið skuli ekki sjást, bendir kóngi á eyrað í munni móðurinnar, sem nú var við það að vakna, og vissi ekki neitt af neinu. Kóngi verður, eins og nærri má geta, bylt við. En þegar Rauður lætur það í ljósi, að hún muni hafa etið

barnið, og ætti því að líflátast, þá kveðst kóngur ekki eiga nokkurn kost á því, sakir elsku sinnar til hennar. Rauði sýnist bezt að fara ekki leingra fram á það, og er nú í hávegum hjá kóngi fyrir það, að hann bjargaði drottníngu. Í annað sinn verður drottníng þúnguð og fer alt á sömu leið, og áður. Hún getur ekki fætt, Rauður er kallaður til hjálpar, hann svæfir drottníngu, nær barninu, sem var stúlkubarn, tekur af því litlu tána, varpar út barninu, lætur tána í munn drottníngar, kallar á kóng, ákærir hana harðlega og segir dauðaseka. En við það er ekki komandi við kóng, að hann dæmi hana til dauða, og kveðst hann ekki mega af henni sjá; því hann geti ekki annað, en elskað hana. Í þriðja sinn verður drottníng með barni, og þegar að því kemur, að hún skal fæða, fer alt eins, og fyrr. Barnið er sveinbarn og Rauður tekur nú fíngur af því og lætur í munn drottníngar. Nú segir Rauður, að það sè augljóst, að hún sè mannæta, konúngur hafi mestu smán af henni og hún megi ekki lifa. Kóngur segist ekki eiga nokkurn kost á því að dæma hana, svo Rauður, sem var orðinn æðsti ráðgjafi, hlýtur að verða til þess. Verður það dómur hans, að 2 þrælar skuli fara með hana út á skóg og myrða hana þar, og á þetta leggur kóngur samþykki sitt. Rauður áskilur það við þrælana, að þeir komi með lokk úr hári drottníngar, túnguna úr henni og blóð í horni til jarteikna. Þótt þrælarnir skoruðust ekki undan þessum starfa, þá fóru þeir nú nauðugir, því Vilfríður hafði áunnið sèr ást allra. Þegar þeir voru komnir nokkuð út í skóginn, fara þeir að ráðgast um, hvernig þeir geti komizt hjá því að deyða drottníngu. Drottníng gefur þau ráð, að þeir skuli taka hárlokk úr hári sínu, drepa tík, sem fylgdi þeim, taka túnguna úr henni og láta nokkuð af blóði hennar í hornið, svo Rauður feingi að sjá alt það, sem hann hefði tiltekið. Að því búnu sleppa þeir henni í skóginn, en fara sjálfir heim til hallar kóngs, og er ekki annars getið, en þeir hafi feingið góðar viðtökur. Þegar drottníng hafði skilið við þrælana, geingur hún allan daginn um skóginn, og getur hvergi fundið hæli, svo hún fer að óttast fyrir, að hún muni láta lífið með harmkvælum. Þegar mikið var tekið að rökkva, hittir hún kofa einn, ekki alllítinn og heldur þokkalegan. Hún ber að dyrum, og kemur út karl, heldur stórkostlegur; segir hann það sè ekki venjulegt, að slíkir gestir heimsæki sig, og býður drottníngu vel komna, sem lýsti því, að hann vissi, hver á ferðinni var. Vilfríður drottníng geingur nú inn með karli; sèr hún, að alt er mjög þokkalegt og þrifalegt, fær nægar og góðar vistir, til að slökkva með húngur sitt og hvílist um nóttina í hægu og hlýu hvílurúmi. Að morgni þegar hún er komin á fætur, fær karl henni ýmislegt, er heyrði til fata á börn og biður hana sèr til afþreyíngar að sníða og sauma föt handa börnum, en sjálfur fer hann heiman að og fer að afla þess, er þau þurftu á að halda. Þannig er drottníng lánga stund hjá karli, og unir hag sínum, eptir því sem orðið gat. Nokkru eptir burtför drottníngar er farið að kvarta yfir því, að

einlægt sè að týnast og hverfa af hjörð kóngs. En þar eð kóngi leiddist lífið eptir burtför og ímyndaðan dauða drottníngar, svo hann skemti sèr tíðum með dýraveiðum, þá vekur hann máls á því við Rauð, að þeir skuli nú fara og vita, hvort þeir hitti ekki eitthvert óarga dýrið, er grandi hjörðinni. Þeir fara síðan tveir einir út á skóg og komast lángt inn í hann, svo þeir villast, og vita ekkert, hvert þeir eiga að fara, til þess að komast úr honum. Þeir gánga og þeir hlaupa, og komast samt ekki út úr skógnum. Þegar á daginn tekur að líða, verða þeir bæði þreyttir og mæddir, nóttin fer í hönd og húngrið er farið að kreppa að, og þeir vita nú ekkert, hvað til bragðs skal taka. En í þessum svifununn grilla þeir í eitthvert hús ekki allángt frá, og halda þeir þángað. Þeir þykjast vissir um, að þar muni menn búa og verða allshugar fegnir. Þegar þeir koma að húsinu, berja þeir að dyrum. Áður en lángt um líður kemur út karl, heldur stórkostlegur. Þeir kasta á hann kveðju, og tekur hann því. Því næst biðja þeir hann að lofa sèr að vera um nóttina, því þeir sèu yfirkomnir af þreytu. Hann segir, að konúngi sèu velkomin hús hjá sèr, og beini sá, er hann fái í tè látið, en Rauður fái ekki inngaungu með öðrum skilmála, en þeim, að hann segi æfisögu sína, og því lofar hann. Karl lætur þá síðan fara inn með sèr; er það allþokkalegt hús, er þeir koma inn í, en þó er þar stór pottur, fullur af vatni, yfir eldsglæðum. Karlinn biður konúng að taka sèr sæti, þar sem honum þóknist, en kemur með stól handa Rauð og lætur hann setjast. Því næst lætur hann stóran hríng á hönd Rauði, og segir honum nú þegar að byrja æfisöguna. Rauður byrjar hana og heldur vel áfram, en þegar fór að líða á hana, og hann ætlar að fara að segja frá breytni sinni við drottníngu, þá vill hann halla til sögunni, segja frá sumu öðruvísi, en var, og sleppa sumu. En þa segir karlinn:

„Hertu nú á, og stíngi þig broddar,
hríngurinn rauði, svo satt þú segir.“

Við þessi orð herti hríngurinn að hendinni og broddar upp úr stólnum stúngu hann svo fast, að honum sýndist ekki annað henta, en segja það, sem satt var, því þá slakaði hríngurinn á og broddarnir hættu að stínga. Þó að Rauður ætlaði aptur og aptur að skrökva, þá gat hann það ekki, því karlinn píndi hann með áður sögðum hætti, þángað til Rauður sagði það, sem satt var. Meðan á sögunni stóð, fór kóngur að verða heldur órólegur. En þegar æfisagan var á enda, þá spyr karl, hvaða dóm kóngur leggi á Rauð, því nú sè það orðið augljóst, hvílíkan mann hann hafi að geyma, og hvað hann hafi aðhafzt. Kóngur var fyrir laungu orðinn frá sèr numinn af hrygð og reiði, og segist ekki geta dæmt Rauð, eins og hann eigi skilið, því sín lög geri ekki ráð fyrir þvílíkum glæpamanni. Karl spyr, hvort hann eigi að segja sitt álit. Kóngur kveðst feginn vilja heyra álit hans. Karl segir sèr sýnist það bezt eiga við, að honum verði samstundis steypt á höfuðið ofan í pottinn, sem sè á hlóðunum, og því er

kóngur samþykkur. það verða þá ekki miklir snúníngar á því, að karlinn keyrir Rauð í pottinn, svo hann lætur þar líf sitt. Eptir þetta biður karlinn kóng að koma inn í annað herbergi, og sèr kóngur þar mjög fríða mey. Segir karl, að þar sjái hann drottníngu sína, þó hann hafi ekki vænt þess að sjá hana, og því ekki þekt hana. Verða þar miklir fagnaðarfundir. Síðan víkur karl sèr afsíðis, fer í eitt afhús og leiðir þaðan fram þrjú börn, 2 pilta og 1 stúlku. Kemur það þá í ljós, að það eru börn kóngsins; vantar annað eyrað á annan dreinginn, en fíngur á hinn, og stúlkuna vantar litlu tána. Foreldrarnir verða öldúngis frá sèr numin og skilja ekki, hvernig á þessu getur staðið. En karl segist hafa verið nálægur, þegar Rauður hafi fleygt þeim út um gluggan, og sèð um, að þau sakaði ekki. Kóngur spyr karl, hvað hann vilji hafa að launum fyrir alt þetta. En hann kveðst ekkert vilja, nema dóttur þeirra. þótt ekki væri árennilegt fyrir únga stúlku að eiga að lifa með honum, og kóngur og drottníng hefðu kosið mörg önnur laun fremur, þá segja þau, að þetta sè sjálfsagt, fyrst það sè vilji hans. þegar þau höfðu verið í kofa karls svo leingi, að kóngur var orðinn afþreyttur, og hafði endurnært krapta sína, þá fer hann með drottníngu og syni sína báða heim til hallar, en dóttir þeirra varð eptir hjá fóstra sínum. Nú liðu nokkur ár, þángað til kóngsdóttir var orðin gjafvaxta, þá kemur karl einu sinni að máli við hana, og biður hana að sofa hjá sèr í rekkju sinni. Hún gerir það fúslega, því hún unni honum mjög. En að morgni, þegar hún vaknar, sèr hún, að fríður kóngssonur er hjá henni. Segir hann þá, að hún skuli ekki bregðast ókunnuglega við, hann hafi verið í álögum. Eptir þetta taka þau sig upp úr kofanum og halda til hallar. þarf ekki að spyrja um, hvort þeim hafi verið fagnað, eða efast um það, að kóngur og drottníng hafi þókzt gæfusöm, þegar þau vissu, hvernig á öllu stóð, og, eins og allir geta skilið, var slegið upp dýrlegri veizlu. Kóngur og Vilfríður lifðu vel og leingi í allskonar gæfu og kóngssonur fór með konu sína heim til átthaga sinna. þau eignuðust börn og allra handa gæði, og þá er sagan búin.[1]

---

1. Af þessari sögu eru til fjarska margar missagnir, og vísunum breytt og bilt á ýmsa vegu. Fyrst er á því að taka, að sumir nefna stúlkuna, sem sagan er af, Valfinnu, og svo er hún nefnd í drögum þeim, sem til eru af henni í safni Árna Magnússonar í Kaupmannahöfn (Nr. 602. b., hèr um bil frá 1720); en Árni álítur þó Viðfinnu rèttara, enda nefna sumar sagnir hana Virfinnu. Annað er það, að allstaðar, nema í þessari frásögn hèr, er Vilfríður látin vera kóngsdóttir. Árni hefir sagt eins frá, og hèr, að Vala væri móðir, en ekki stjúpa Vilfríðar, eins og flestir segja, og alt eins þýzka æfintýrið Sneewittchen (sbr. Mjallhvít. Kh. 1852). Árni hefir og hitt þá sögu, að kóngsson nokkur (= kóngurinn af Saxlandi, sem hèr segir) hafi frelsað Vilfríði úr ey einni (því eptir sumum sögnum og vísum áttu dvergarnir eða Finnarnir, sem sumir segja, að vera í steini úti í eyu) og úr þeim vandræðum, sem hún var í stödd fyrir tilstilli móður sinnar, en að Vala hafi elt þau fyrst á öðru skipi, og þegar hana þraut býr, til að ná skipi Vilfríðar, hafi Vala steypt sèr í sjóinn, og orðið hvalfiskur neðan til, en

**Sagan af Birni bragðastakk.** (Eptir húsfrú Hólmfríði Þorvaldsdóttur.) Maður hèt Björn; hann var mikill fyrir sèr og vígamaður og fyrir því lagðist hann út á merkur og skóga. Þegar fram í sókti, þókti honum þar einsleg æfi sín og dauf; fór hann því og nam til sín kóngsdóttur úr næsta kóngsríki. Hún hèt Íngibjörg. Hún varð nú að þýðast Björn, hvort sem henni var það ljúft eða leitt og vera hjá honum í skála hans á skóginum. Liðu svo fram tímar, að ekki bar til tíðinda, fyrr en Íngibjörg varð lèttari að meybarni, undur fögru; hana kölluðu þau Helgu. Hún óx upp með foreldrum sínum, og kendi Íngibjörg henni bæði matartilbúníng og allskonar saumaskap og hannyrðir, svo það þókti afbragð. Björn átti lítið við uppeldi dóttur sinnar, því hann var laungum úti á

---

haldið kvennmannsmynd ofan til, og synt svo það, sem aftók. Þegar hún kom nærri skipi því, sem Vilfríður var á, lagði hún það á móður sína, að hún skyldi aldrei úr þessum ham komast. Það varð að áhrínsorðum, og er svo af Völu alt meyfiska kyn komið. Fróður maður hefir sagt mèr, að Jón Guðmundsson lærði geti þess í riti sínu um alla hvali stóra og smáa í Íslands höfum og um öll smáfiska kyn, að seinast hafi verið lagt á kerlíngarnornina, stjúpu Vilfríðar, að hún skyldi verða að ljótasta fiski í sjó, og sè það blágóman. Þessarar sögu getur Jón sem gamallar á sinni tíð; en eingan hefi eg vitað kunna að segja frá því, að faðir Vilfríðar hafi ásókt hana nokkurn tíma, og líkist þessi frásögn hèr að því leyti mest sögunni af Birni bragðastakk. Vísurnar eru mjög ýmislega hafðar, alt eins og frásögnin, og set eg hèr þær breytíngar, sem eg hefi alment orðið var við af þeim.

Spurnarvísan til glersins:
„Segðu mèr það, glerið mitt,[1]
gullinu búna:
[hvernig líður Vilfríði[2]
Völu-fegri núna?"

1. svar glersins:
„Hún er út á[3] einni ey,
inn' í[4] einum steini;
fæða hana Finnar tveir,
fátt er henni að meini."

Eða svo 1. svar:
„Það seg' eg þèr, glerið þitt góða,
gullinu búna:
[víst lifir[5] Vilfríður
Völu-fegri núna.
Ala hana dvergar tveir í steini,
verður henni þar flest að gleði,
en fátt að meini."[6]

2. svar glersins:
„Vel líður Vilfríði;
fátt er henni að meini,
grætt hafa hana dvergar í steini."

---

1. Sèra Jón Yngvaldsson bætir hèr við: góða.
2. frá [hefir J. Y.: hve lifir (má) hún Vilfríður.
3. fram í, A. M.
4. þar í, A. M. undir, aðrir.
5. frá [hafa aðrir svo: Vel má hún.
6. Þessi vísa er tekin eptir sèra Jóni Yngvaldssyni, en Dr. Maurer hefir einnig heyrt vísuna hafða þannig í Eyafirði:

„Vel líður Vilfríði;
fátt er henni að meini,
geyma hana dvergar í steini,
eða: hana ala dvergar í steini."

skógi að veiða dýr og fugla. þegar Helga var orðin 15 eða 16 vetra, tók móðir hennar sótt og andaðist; var það mikill harmur fyrir Helgu, því hvorki undi hún sèr eptir fráfall móður sinnar ein heima í skálanum á daginn og þegar Björn var heima, fann hún brátt, að hann hafði óleyfilega ást á henni og vildi taka hana sèr fyrir konu. þetta líf varð Helgu með öllu óbærilegt, svo hún leitaði sèr tags að komast burt úr skálanum til mannabygða. Björn grunaði það, að ekki mundi vera að trúa Helgu þaðan af, og lagði því á hana taug og hnýtti öðrum endanum um rúmmarann sinn, en hinum utan um dóttur sína, svo hún gat ekki leyst hann, nè losað sig. þó hafði hún svo mikið svigrúm, að hún gat gegnt öllu, sem gera þurfti innan um skálann. Einu sinni þegar Björn var háttaður eitt kvöld, lèzt Helga hafa gleymt þvotti úti og fór eptir honum. þegar hún kemur út, rekur hún þoll í skálaveggin, hnýtir um hann festar endanum, sem utan um hana var, og segir: „Svaraðu fyrir mig orði, ef mèr liggur á.“ Síðan tekur hún til fótanna og hleypur sinn blóðspreing í dauðans ofboði útí náttmyrkrið. En það er af Birni að segja, að þegar honum fór að leingja eptir dóttur sinni kallar hann til hennar, og skipar henni að koma inn. þá gegnir þollurinn fyrir hana og segir: „Eg kem senn.“ En þó dróst það, þángað til Björn varð óþolinmóður og kallar aptur, en einginn gegndi. Fer hann þá á fætur og fylgir tauginni út og sèr, hvernig í öllu liggur, en ekki leitar hann dóttur sinnar að heldur, af því myrkrið var svo mikið og hann vissi ekkert, hvert hún hafði haldið. Nú víkur sögunni til Helgu, að hún hleypur, eins og fætur toga alla nóttina til morguns. Er hún þá stödd undir háum skíðgarði og svo af sèr komin af þreytu, að hún fleygir sèr þar niður, sem hún stóð, og vaknaði ekki, fyrr en komið var fram á dag. Síðan geingur hún inn í skíðgarðinn og verður þess áskynja, að hún var komin í kóngsríki eitt. Hún þekkir þar eingan mann; en af tilviljun verður henni geingið þar inn, sem matsveinn kóngsins var fyrir. Hún fær að vera hjá honum, en hjálpar honum aptur við eldastörf. þegar hún hafði sèð um matinn einn dag, og kóngur hafði bragðað hann, fannst honum maturinn miklu ljúffeingari og betri, en hann hafði nokkurn tíma áður bragðað og spyr, hver hafi matbúið fyrir sig í dag. Honum var sagt, að matsveinn hans hefði gert það. Kóngur vildi ekki trúa því, en lèt þó svo vera. Í annað sinn vildi kóngur ekki með nokkru móti trúa því, að sami matsveinn hefði búið til matinn, sem því væri vanur, og fór hann nú sjálfur að grennslast eptir því. þó tókst matsveininum að fela Helgu, svo að kóngur varð hennar ekki var, því hún vildi ekki verða uppvís fyrir honum. Eptir það fór Helga úr kóngsaðsetunni og kom sèr í þjónustu hjá skraddara kóngsins. Svo bar við litlu síðar, að kóngur stofnaði til stórveizlu, og ætlaði að hafa við ógnirnar allar, og bjóða til sín öllu stórmenni í ríkinu; þar með lagði hann fyrir skraddarann að sauma handa sèr þann dýrðlegasta

klæðnað, sem hann gæti. Skraddarinn tekur þá til klæðagjörðarinnar, og af því hann hafði orðið þess var, að Helga var einginn bögubósi með nálinni, lèt hann hana sauma kóngsklæðin. Þegar þau voru búin, þóktu þau þvílíkt afbragð, að einginn þóktist hafa sèð önnur slík, gulldregin með hverjum saum. Þegar kóngi voru færð klæðin, furðar hann stórlega á öllum frágángi þeirra og segir, að það komi ekki til nokkurra mála, að þetta sè eptir skraddarann sinn einsamlan, það þurfi einginn að segja sèr, þessi klæði hafi einginn annar saumað, en sá, sem hafi matbúið áður handa sèr rètti þá, sem sèr hafi þókt gómsætastir. Tjáði nú ekki að telja kóngi hughvarf með það, svo að hann gekk sjálfur rakleiðis til skraddarans, og bauð honum að sýna sèr þann, sem hefði saumað klæðin sín seinustu, því ekki hefði hann verið þar einn í ráðum. Skraddarinn þorði þá ekki annað, en hlýða boði kóngs, sækir Helgu og sýnir kóngi hana. Kóngur verður forviða, þegar hann sèr hana, og fellir þegar ástarhug til hennar. Hann spyr hana, hvernig á henni standi, og af hvaða bergi hún sè brotin. Hún svaraði honum fáu um það, en sagði, að móðir sín hefði verið kóngsdóttir. Kóngur hóf þá bónorð sitt til hennar, og tók Helga því ekki fjarri, en þó með því skilyrði, að hann tæki eingan vetursetumann án síns vilja. Kóngur hèt því. Síðan sneri kóngur veizlunni í brúðkaupsdrykkju og jók það ekki lítið fögnuð kóngs og boðsmanna. Að veizlunni lokinni voru allir út leystir með góðum gjöfum, og fór hver heim til sín. Með kóngi og drottníngu tókust góðar ástir, og þegar framliðu stundir, fór drottníng að gildna undir belti. Var það þá einn dag, að kóngur og hirðmenn hans flestir fóru út á skóg, að skemta sèr, en drottníng var heima, því hún var ófrísk. Kemur þá stór maður vexti, heldur skuggalegur með síðan hatt á höfði til kóngs og biður hann veturvistar. Kóngur færist undan því, en hinn herti að því fastar. Þá segir kóngur honum, að hann taki einga veturvistarmenn, að drottníngu sinni fornspurðri. Komumaður sagði það væri lítilfjörlegt fyrir kóng, að hafa svo mikið konuríki, að hann væri ekki bær að ráða fyrir henni eins manns vist vetrarlángt. Kóngur þoldi þá ekki frýuorð komumanns, og tók við honum til hirðvistar. Þegar kóngur kom heim og menn voru komnir undir borð um kvöldið í höllinni, kemur drottníng þar, og þekkir, að þar er kominn Björn faðir sinn, í því hún geingur til sætis síns. Henni hnykti heldur en ekki við, en talaði þó fátt um. Leið svo að þeim tíma, sem hún skyldi verða lèttari; voru þá feingnar til ljósmæður að vera hjá drottníngu og fæðir hún tvö sveinbörn; og reifa ljósmæðurnar tvíburana, leggja þá upp í sængina hjá drottníngu og halla sèr svo út af. Um nóttina kemur Björn inn í sama herbergið, sem drottníng lá í; stíngur hann ljósmæðrunum svefnþorn, en lætur þagnargull undir túngurætur drottníngar, síðan tekur hann báða reifastrángana, og sker þá á háls, en lætur hnífinn alblóðugan í hendurnar á dóttur sinni, og mælir svo um, að hún skuli ekki geta slept honum.

Gat svo drottníng hvorki tekið til höndunum, nè gefið neitt hljóð af sèr. Síðan fer Björn úr herbergi drottníngar og þángað, sem kóngur lá í fasta svefni. Af því Björn hafði komið sèr í mjúkinn hjá kóngi, frá því hann kom til hirðarinnar, dirfðist hann að vekja kóng, og biður hann að koma með sèr. Kóngur var tregur til þess, og spyr, hvað um væri að vera. Björn sagði, að honum mundi betra að vita, hvað drottníngu liði, því sèr hefði heyrzt ófagur forgángur í herbergi hennar í nótt. Fór svo kóngur þángað með Birni. Þegar þeir koma þar inn, var sami frágángur þar á öllu, sem fyrr er frá sagt, og varð kóngi svo ílt við þessa aðkomu, að ekki verður orði að komið; enda sýndu merkin verkin, þar sem drottníng hèlt á blóðugum hnífnum, en bæði börnin skorin á háls í sænginni hjá henni. Björn vakti nú ljósmæðurnar og spurði þær, hvernig þetta hefði að borið; en þær vissu ekki af neinu að segja, en drottníng gat ekki talað vegna gullsins, því síður sagt frá framferði Bjarnar. Björn rèð nú kóngi til að láta drepa drottníngu, þegar hún frískaðist aptur, og sagði, að þetta væri ekki mannlegt æði, og mætti kóngur ekki láta það viðgángast óhegnt. Kóngi þókti mikið fyrir þessu fyrir ástar sakir, sem hann hafði á drottníngu, en lèt þó tilleiðast að úrskurða hana dauðaseka fyrir fortölur Bjarnar. Var þá farið að fá menn, til að drepa drottníngu, en einginn vildi verða til þess; svo var hún vinsæl orðin. Loksins keypti Björn til þess 8 þræla, að fara með hana út á skóg og brenna hana þar á björtu báli og lík beggja sveinanna með henni, en bað þá að taka gullið undan túngurótum hennar og færa sèr. Síðan fóru þrælarnir með drottníngu, eins og fyrir þá var lagt, viðuðu til bálsins og kveyktu í því. En þegar þeir ætluðu að taka drottníngu og bera hana á bálið, kom til þeirra kona; hún gekk á einum fæti og hafði járnlaup á höfði; hún setur af sèr laupinn, geingur til þrælanna og spyr, hvað þeir hafi fyrir stafni. Þeir segja, sem var. Kona þessi hefir eingin orð við þá, en grípur hvern þeirra á fætur öðrum og fleygir þeim út á bálið og alt eins báðum reifastraungunum, og brennir þá alla til kaldra kola. Síðan geingur hún að drottníngu, tekur þagnargullið undan túngurótum hennar og stíngur hjá sèr, en lætur Helgu sjálfa í laupinn og fer með hann burt með drottníngu í á höfðinu til sjávar. Hún nemur þar ekki staðar, heldur leggur hún eins með laupinn á höfðinu á sjóinn, og geingur lánga leið, þángað til hún kemur í ey eina, sem var lángt undan landi; þar hafði kóngur sauðfè sitt alt. Einfætla (svo hèt kerlíngin) gekk kippkorn upp á eyna, þángað til hún kom að jarðhúsi, þar gekk hún inn með laupinn og Helgu í, fyrst í gegnum heldur myrkt herbergi og ekki fagurt, og síðan gegnum annað bjart og skrautbúið alt innan, og enn inn í hið þriðja; þar var og vel umbúið og rekkja skrautleg mjög. Þar setur Einfætla af sèr laupinn, og segir við drottníngu, að hèr verði hún nú að hýrast fyrst um sinn, og skuli hún nú hvíla sig og gánga til sængur. Helga gerir svo. Síðan kemur Einfætla með tvo reifastránga,

og segir: „Hèr eru nú báðir synir þínir heilir á hófi. Það er ekki sèð, að eg hafi sofið fastara um nóttina, sem þú áttir sveina þessa, en hann Björn bragðastakkur; því eg skipti um sveinana og lèt í staðinn fyrir þá tvo hvolpa, sem Björn skar á háls og öllum sýndust vera reifastrángar. Hefi eg nefnt annan sveininn Sigmund, en hinn Sigurð. Munuð þið nú dveljast hèr um stund, en ekki þarf kóngur að kippa sèr upp við það, þó fè hans týni tölunni, því einhverju verður hann til að kosta." Helga fèll í stafi af feginleika yfir öllum þessum aðgjörðum Einfætlu, og þakkaði henni með mörgum fögrum orðum frelsi sitt og sona sinna, og vafði sig að sveinunum báðum. Eptir þetta voru þau mæðgin í eynni hjá Einfætlu, þángað til sveinarnir voru orðnir 15 ára og lifðu þau á hjörð kóngsins, og var hún smátt og smátt að týna tölunni, enda lèt kóngur sækja þángað sjálfur slátursfè eptir þörfum. Björn varð, eptir að drottníng var frá, æðsti ráðgjafi kóngs, og vasaði mjög í völdum eptir vild sinni, enda var kóngur æði talhlýðinn við hann. Þegar 15. árið var að líða eptir hvarf drottníngar, þóktist Björn stundum sjá úr landi reyk úti í eynni, og kom á tal við kóng, að það mundi vera betra að grennslast eptir, hvort ekki væru komnir þjófar á eyna, því auk reykjarins, sem sèr sýndist þar úti á stundum, gæti ekki hjá því farið, að hjörð kóngsins fækkaði óðum og ósjálfrátt, eptir því sem sèr litizt til. Kóngur bað hann senda þángað skip og menn, að rannsaka eyna, og svo gerði Björn. En þegar skipið var komið á leiðina, rak á storm svo mikinn, að það týndist og allir, sem á voru. Gerði Björn þá út annað skip og mannaði það vel; en alt fór á sömu leið. Gekk Björn nú enn til kóngs og sagði honum, hvernig farið hefði, og að ekki mundi annað tjá, en að þeir færu báðir með marga menn út þángað. Kóngur bað hann ráða, og svo varð, sem Björn vildi, að þeir kóngur fóru þángað með margmenni á vænu skipi og stóru. Feingu þeir þá enn volk mikið og ágjöf, en gátu þó komizt slysalaust á land í eynni, en mjög hraktir og kaldir. Þegar þeir voru komnir af skipi, kemur þar Einfætla til þeirra ofan af eyu, og býður kóngi með föruneyti sínu til heimkynna hennar. Kóngur þiggur það. Fer Einfætla svo á undan, en þeir á eptir, og geingur Björn næst kóngi. Síðan lætur Einfætla þá fara inn í herbergið skuggalega, sem fyrr er nefnt; þar setur hún kóng á fagran stól. Síðan tekur hún svartan stól og ljótan, setur hann á aðra hlið kóngi og segir: „Komdu hèrna, Björn bragðastakkur, og tyltu þèr hjá kónginum, þú geingur næstur honum, hvort sem er." Björn leit óhýrt til Einfætlu, og settist þó. Síðan settust aðrir fylgdarmenn kóngs þar utar frá. Einfætla var hin gestbeinlegasta heima að hitta, og veitti þeim af vild, og gerði eld fyrir þeim. Hlýnaði þeim nú í hamsi, og gerðist kóngur kátur af viðtökum þessum. Einfætla hófst þá upp úr eins manns hljóði, og kvaðst vilja hafa þau laun af kóngi, að hann segði henni æfisögu sína. Kóngur sagði það vel komið, og sagði sögu sína til enda, en viknaði

við, þegar hann sagði frá óförum drottníngar sinnar. Þegar kóngur hafði lokið sinni sögu, sagði Einfætla: „Segðu nú þína æfisögu, Björn bragðastakkur, næst kóngi; þú geingur næstur honum, hvert sem er.“ Björn ýgldist við þessa skipun, en þorði þó ekki annað, en hlýða. Byrjadi hann svo sína sögu, en hallaði mjög til um frásögnina, þegar hann var kominn að því, sem hann vildi taka Helgu dóttur sína fyrir konu. Þá segir Einfætla: „Nú lýgur þú Björn. Lyptu þèr þá stóll.“ Stóllinn, sem Björn sat á, fór þá allur að kvika og yptast frá gólfinu, svo Björn þorði ekki annað, en segja satt frá. Aptur ætlaði hann að halla til um sagnirnar, þegar hann kom þar að, sem Helga átti tvíburana. En Einfætla hafði þá enn hinn sama formála, sem áður, og þorði hann þá ekki annað, en segja satt frá öllu, þegar fór að lopta undir stólinn. Þegar hann hafði lokið sögu sinni, segir Einfætla: „Lyptu þèr nú stóll til fulls.“ Færðist þá stóllinn á lopt, sem Björn sat á; en þar var undir ketill með vellandi biki, og steyptist Björn á höfuðið niður í ketilinn. Sagði Einfætla, að hann hefði lifað ærið leingi öðrum til ills. Við þetta urðu allir hvumsa. En Einfætla biður kóng að koma með sèr í næsta herbergi. Kóngur gerði svo; leiðir hún hann svo inn þángað, sem Helga er með báðum sonum sínum, og segir honum þar upp alla sögu. Kóngur varð frá sèr numinn af fögnuði og faðmar nú Helgu og syni sína. En þau þakka öll Einfætlu frelsi og lífgjöf drottníngar og sona þeirra. Býður svo kóngur henni heim til hirðvistar hjá sèr, að lifa þar í sóma og eptirlæti. Einfætla þakkar honum gott boð, þó hún ekki geti þáð það nú þegar, en biður kóng og drottníngu að lofa sèr að halda eptir hjá sèr Sigmundi syni þeirra, og láta þau það eptir henni. Eptir það skilur kóngur, drottníng og Sigurður við þau Einfætlu og Sigmund, og fara heim með föruneyti þeirra. Sigmundur undi vel við að verða eptir hjá Einfætlu og lèt hún hann sofa hjá sèr nóttina eptir. Sofnar þá Einfætla fljótt, en Sigmundur vakir nokkuð leingur; heyrir hann þá brest mikinn, og fer að gá að, hvað því valdi. Rís hann upp og sèr, að við brestinn hefir hamurinn færst niður af Einfætlu til fóta, og að hjá sèr liggur fríð og fögur mey. Hann fer þá á fætur aptur, kveykir upp eld og brennir haminn, en stekkur vatni á þessa nýu lagskonu sína, svo hún raknar við. Þakkar hún honum frelsi sitt, þar sem hann hafi leyst sig frá þeim álögum stjúpu sinnar, að hún skyldi hafa Einfætluhaminn, og aldrei geta úr honum komizt, fyrr en einhver frumgetinn kóngsson yrði til að sofa hjá henni; segist hún vera kóngsdóttir, og heita Svanborg. Eptir það hètu þau hvort öðru trygðum sín á milli, og morguninn eptir kyntu þau bál mikið á eynni. Sást það úr landi, og lèt kóngur þegar fara til eyarinnar; voru þau svo flutt til lands. Kóngur og drottníng fögnuðu þeim fegins hugar og gerðu veizlu á móti þeim. Að þeirri veizlu gekk Sigmundur að eiga heitmey sína; fóru þau svo í það kóngsríki, sem

Svanborg var borin og barnfædd í, og lifðu þar bæði vel og leingi. En Sigurður fèkk sèr kóngsdóttur annarstaðar og varð kóngur eptir föður sinn, og lýkur hèr svo sögunni af Birni bragðastakk, sem sumir kalla söguna af Einfætlu eða Lauphöfðu, og enn aðrir söguna af Grástakk, af því Björn hafði verið í gráum stakki, þegar hann kom fyrst til kóngs á skóginum.

**Helga karlsdóttir.** (Eptir handriti Þorvarðar Ólafssonar.) Einu sinni voru karl og kerlíng; þau bjuggu í garðshorni. Þau áttu dóttur eina barna, er Helga hèt; hún var kvenna fríðust. Nú kemur að því, að kerlíng heldur, að hún muni deya. Kallar hún þá dóttur sína til sín og segir henni, að mæðusöm muni æfi hennar verða með köflum, en lítið gæti hún aðstoðað hana. „Þó vil eg gefa þèr al þenna“, segir kerlíng, „og muntu geta látið hann segja já, ef þèr liggur á.“ Síðan deyr kerlíng. Eitt kvöld biður karlinn Helgu dóttur sína, að sofa hjá sèr; það vill hún ekki, en hann leitar á því fastara. Hún kveðst hafa gleymt að fela eldinn og segist þurfa að gera það. Nú fer hún til eldhúss, stíngur alnum í vegginn, og segir honum að segja já, en sjálf hleypur hún út í myrkrið. Karlinn kallar á Helgu, dóttur sína, en alurinn gegnir, og segir alt af já. Þessi játan leiðist karlinum, hleypur ofan og út og leitar að dóttur sinni, en finnur ekki, fer síðan heim og er hann nú úr sögu þessari. Það er af Helgu að segja, að hún hljóp út á skóg og geingur alla nóttina. Þegar birtir af degi, kemur hún að húsi einu litlu og laglegu. Þar geingur hún inn og sèr mann, sem er að tefla við sjálfan sig. Maðurinn býður henni að koma inn og segir, að það sè rèttast fyrir hana að vera hèr hjá sèr og þjóna sèr, því að hann sè einn. Helga þiggur þetta. Hún spyr hann að nafni, en hann kvaðst Herrauður heita. Nú líður nokkur tími, og verður Helga barnshafandi. Herrauður var á veiðum um daga, en heima um nætur. Þegar líður á með gaungutímann, kemur Herrauður alt af seinna og seinna heim, og eitt kvöldið kemur hann ekki. Þá er Helga lasin og sofnar. Þá dreymir hana móður sína; þykir henni hún koma til sín og segja við sig: „Nú er Herrauður búinn að svíkja þig, hefir tröllskessa tælt hann til þess, sem hann ætlar að eiga, skaltu nú fara úr húsinu, setja á þig öfuga skó og fara í jarðhús, sem hèr er skamt frá; því skessan mun sitja um líf þitt.“ Eptir þetta vaknar Helga, bindur á sig öfuga skóna og fer í jarðhúsið. Að litlum tíma liðnum kemur hundur og leitar eptir Helgu, nasar um förin fram og aptur, en finnur ekki, og fer við það burt. Síðan heyrir hún dynki mikla og dunur. Sèr Helga út um glufu á jarðhúsinu, að þetta er tröllskessa. Hún leitar fram og aptur eptir sporunum, og þegar hún finnur ekkert, fer hún burtu. Fram af þessu fer Helga úr jarðhúsinu og geingur út á skóg. Hún geingur leingi, þángað til hún kemur að læk; þar kemur barn að læknum

og sækir vatn. Helga lætur gullhríng í vatnsfötuna hjá barninu. Að lítilli stundu liðinni kemur dvergur til Helgu. Hann þakkar henni fyrir barnið sitt, og býður henni heim til sín. Þau koma að steini miklum; lýkst steininn upp og gánga þau þar inn. Þar situr kona dvergsins og þakkar Helgu fyrir barnið sitt. Í steininum fæðir Helga fagurt sveinbarn. Dvergurinn mælti til Helgu; „Nú er Herrauður að gipta sig í dag; ætlar hann að eiga skessu, og ef þú vilt horfa á brúðkaupið, þá skal eg hjálpa þèr að komast þangað.“ Helga kvað sig lánga til að fara. Dvergurinn fer þá með henni, þángað til þau koma að helli nokkrum; þá bregður hann yfir hana skikkju, svo einginn sjái hana; segir hann henni, að hún skuli taka eptir, hvað brúðurin hafist að á hverju kvöldi, þegar hún gángi út, en seinasta kvöldið skuli hún sýna Herrauði, hvað hún hafist að, því veizlan muni standa yfir í þrjá daga. Seinast segir dvergurinn, að hún skuli nefna sig, ef henni liggi á, og við þessi orð hverfur hann. Nú horfir Helga á veizluna og fer hún fram með stórkostlegri gleði og glaum. Brúður situr nett og fögur á brúðarbekk og er ekki stærri, en meðalkvennmaður, og Herrauður er hinn kátasti. Um kvöldið geingur brúðurin út og vill eingan mann hafa með sèr. Hún geingur skamt frá hellinum, snýr sèr þrisvar í hríng og segir: „Verði eg, eins og eg á að mèr.“ Þa verður hún að stórri tröllskessu. Hún mælti þa: „Komi hèr þríhöfðaður þussi, bróðir minn, með fullan stóra sáinn með hrossakjöt og manna.“ Þá kemur þussinn með sáinn og taka þau bæði til snæðíngs. Að þessu búnu snýr skessan sèr þrisvar í hríng og mælti: „Verði eg, eins og eg var,“ og verður hún þá aptur nett stúlka. Annað kvöldið fer brúðurin eins að. Þriðja kvöldið sækir Helga Herrauð, og þekkir hann hana þó ekki, og leiðir hann til skessunnar, meðan hún er að snæða; bregður honum þá mjög við, hnýtir snöru í hellisdyrnar og geingur inn. Þegar brúðurin kemur, festist hún í snörunni; kallar hún á bróður sinn, og kemur þá hinn ógurlegi þríhöfðaði þussi. Nefnir nú Helga dverginn, og sèr hún þá fugl koma og kljúfa alla hausana á þussanum, svo hann er þegar dauður, en brúðurin heingdi sig í snörunni, og þókti Herrauði hún þá ekki vera fríð sýnum, þar sem hún lá fallin. Nú sèr Herrauður Helgu, og verður glaður við, biður hana fyrirgefníngar og segir, að skessan hafi með kukli tælt sig til að svíkja hana. Flytja þau Herrauður og Helga í húsið á skógnum og hèldu síðan brúðkaup sitt. En dvergurinn kom með son þeirra og lagði í kjöltu Helgu á brúðkaupsdegi, og launaði Herrauður dvergnum vel alla hjálp hans. Herrauður og Helga unnu hvort öðru til elli, og lýkur svo sögu þessari.

**Sagan af Gríshildi góðu.** (Eptir sögn vestan úr Dölum [R. G.]) Einu sinni var kóngur í ríki sínu og átti hvorki konu nè börn. Vildarmönnum hans þókti það miður fara, að hann hugsaði ekki betur fyrir ríkinu, en

svo, að ætt hans dæi út með honum og að hann ætti eingan rèttborinn ríkis erfíngja. Þeir töluðu opt um þetta við kóng; en hann eyddi því jafnan fyrir þeim. Einn góðan veðurdag lèt kóngur söðla 20 hesta, 10 handa karlmönnum og 10 handa konum, og á einn þeirra lèt hann leggja kvennsöðul allan logagyltan. Fóru þá hirðmeyar kóngs að tala um það, hver þeirra mundi nú njóta þeirrar upphefðar að fá að ríða í gullna söðlinum, og vildu allar verða fyrir því, og þóktist hver um sig vera þess maklegust. En þetta fór öðru vísi, en þær ætluðu, kóngur lèt einga þeirra ríða þeim hesti, sem gylti söðullinn var á, en 9 þeirra lèt hann ríða hinum söðulhestunum, og 9 valdi hann af vildismönnum sínum, og lèt þá ríða með sèr og hirðmeyunum, en hesturinn með gylta söðlinum var teymdur laus með reiðmönnunum. Einginn vissi, hvert kóngur ætlaði og einginn vildi spyrja hann þess. Þegar reiðfólkið kom nokkuð frá borginni, sá það, að kóngur stefndi út á skóg. Reið það svo leingi og rèð kóngur ferðinni. Loksins kom hann að húsabæ einum, þar nam hann og öll fylgd hans staðar. Kóngur drap á dyr og kom þar út stúlka óvenju fríð og fögur. Hann spurði hana að heiti og hverra manna hún væri; sagðist hún heita Gríshildur og vera dóttir hjónanna þar í kotinu; væri faðir sinn karlægur, en móðir sín nokkru ernari. Kóngur sagðist hafa erindi við þau, og bað Gríshildur hann þá gánga inn. Kóngur gerði svo, heilsaði þeim karli og kerlíngu, og sagðist vera kominn þess erindis að biðja dóttur þeirra. Þau tóku því mjög fjarri og þó einkum karlinn; og sagði, að kóngur vildi gabba sig hruman og karlægan, og víst mundi hann finna aðrar konur, sem honum fyndist sèr meira jafnræði í annarstaðar, en dóttur sína, kotkarlsins, og sagði, að þess væri ekki leitandi við sig, því þó hann vildi gefa honum dóttur sina, mundi honum innan skamms þykja lítið til hennar koma og líklega reka hana frá sèr með skömm. Kóngur firtist þessum ummælum karls, og lèzt mundi hafa vald til að taka dóttur hans að honum fornspurðum, ef hann kynni sèr ekki betur hóf í svörum, en svo. Kerlíng var öll auðunnari, og vildi mýkja málin fyrir karlinn, og bað kóng að erfa ekki ummæli manns síns, því hann væri armæddur af elliburðum, sem legðust svo þúngt á hann og gætti þess vegna ekki ávalt að stýra túngu sinni. Kerlíng lagði á að karli að taka öllum málum kóngs vel og blíðlega og sagði, að þeim væri það til vegs og sóma, ef kóngur ætti dóttur þeirra, þó hann aldrei nema ræki hana bráðum frá sèr aptur eptir nokkurn tíma liðinn. Fór þá svo fyrir umtölur kerlíngar, að þau karl föstnuðu kóngi Gríshildi. Meðan þetta gerðist inni, var Gríshildur úti; en þegar kóngur kom út, bað hann hana stíga á bak hestinum með gylta söðlinum. Hún spyr, hvað það eigi að þýða, og sagði kóngur henni þá, hvernig komið var. Það datt ofan yfir Gríshildi og þókti þessu heldur fljótráðið, en kóngur sagði, að hèr væri ekkert orð framar um að ræða, því ef hún vildi ekki fara með

góðu, mundi hann láta hafa hana burtu með sèr með valdi. Siðan fór Gríshildur inn og kvaddi foreldra sína grátandi, og báðu þau vel fyrir henni, og fór hún svo heim með kóngi og hirðfólki hans. Eptir það hèlt kóngur brúðkaup sitt til hennar, og tókust með þeim góðar ástir. Hirðmenn kóngs undu því illa, að hann hafði tekið sèr drottníngu af svo lágum stigum, og reyndu til með öllu móti að spilla kóngi við hana; en annað gátu þeir ekki fundið henni til, því hún virtist hverjum manni vel. Af þessum umtölum hirðmanna sinna varð kóngur fálátari við drottníngu, enda var hann einrænn í lund. Liðu nú fram tímar til jafnleingdar; tekur þá drottníng jóðsótt og elur barn; það var meya undur fríð og eptir myndin hennar móður sinnar. Kóngur segir, að drottníng skuli hafa barnið hjá sèr, sèr til ánægju og gæta þess vel. En eptir nokkurn tíma sendir hann einn af vildismönnum sínum til drottníngar, og skipar honum að taka frá henni barnið og gá að, hvort henni bregði nokkuð. Maðurin fer og þó nauðugur, og tekur barnið. Drottníng bað hann að láta barnið vera. En hann sagði að kóngur hefði boðið sèr að taka það. Urðu það þá úrræði drottníngar, að hún grèt hástöfum; en maðurinn fór með barnið til kóngs og kom hann því í fóstur hjá frænda sínum einum, eða föðurbróður. Ekki þorði drottníng að kvarta um þessa meðferð við kóng, enda spurði hann aldrei eptir barninu, en að því spurði hann vildismann sinn, hvernig drottníngu hefði orðið við barnsmissinn. Að ári liðnu hèr frá fæddi drottníng son, frítt barn og gæfulegt, og sagði kóngur þá eins og áður, að hún skyldi hafa hann hjá sèr, sèr til ánægju. En skamt leið frá því hún varð frísk, þángað til kóngur sendi mann eptir sveininum og lèt taka hann frá drottníngu, eins og dóttur þeirra áður. En svo illa sem drottníng barst af áður eptir dótturmissinn, undi hún þó enn ver sonarmissinum, og grèt sáran, þegar hann var borinn burtu. Alt þetta var sagt kóngi, en hann gaf sig ekkert að því, og lèt skömmu síðar kalla drottníngu fyrir sig. Þegar hún kom, sagði hann henni, að sýna sèr börn þeirra. Við það ýfðust enn upp harmar hennar, svo hún flóði öll í tárum og sagði, að börnin hefðu verið tekin frá sèr eptir hans undirlagi, svo hún gæti ekki sýnt honum þau, og mætti hann bezt vita, hvað um þau væri orðið. Kóngur brást reiður við þetta og spurði, hvort hún dirfðist að bæta því ofan á barnamorðið, því myrt hefði hún þau, að ljúga því upp á sig, að hann hefði hlutazt til, að börnin væru tekin frá henni og frelsa sig með því. Varð hann þá hamslaus af bræði og skipaði drottníngu að snauta burtu og koma aldrei fyrir augu sín optar, sagði, að hún hefði unnið til þess, að hún væri drepin. Síðan fór Gríshildur úr kóngsríki, óhuggandi af harmi og sorg, og heim til foreldra sinna í húsabæinn á skógnum, og jók það ekki lítið á harma hennar, að karlinn, faðir hennar, tók henni illa, og sagði, að hún hefði átt erindið til kóngsins, eins og sig hefði grunað, að búa saman við hann í 2 ár, og verða svo

rekin burt með skömm. Kerlíng var öll mildari við Gríshildi og hafði af fyrir henni með öllu, sem hún gat. Var svo Gríshildur hjá karli og kerlíngu hin næstu sextán ár og þjónaði þeim af trú og dygð. Þegar þau ár voru liðin, gerði kóngur það bert, að hann ætlaði að kvongast í annað sinn, og hafði feingið sèr undur fríða mey fyrir drottníngarefni. Einn dag sendi hann menn út á skóg í húsabæinn til þeirra Gríshildar. Báru þeir henni kveðju kóngs og þá orðsendíng, að hann beiddi hana, að gera það fyrir sig að koma heim í kóngsríki, og vera forgángskona með matreiðslu í brúðkaupi sínu, sem hann ætlaði að halda sama daginn. Hún var leingi treg til þess, en foreldrar hennar þó enn tregari. En þó fór svo, að hún fór heim í kóngsríki; var svo haldið brúðkaupið og gekk Gríshildur fyrir beina, og þókti henni fara það af mikilli snild og skörúngskap, en ekki sinti hún neinu öðru, en því, sem hún átti að vinna. Um kvöldið þegar menn geingu til náða, og kóngur vill til hvílu sinnar með nýu drottníngunni, segir hann Gríshildi, að taka lítið kertisskar, kveykja á því, halda því á gómum sèr og fylgja þeim hjónum til hvílu. Gríshildur gerir svo, og lýsir þeim, meðan þau hátta; fer svo hin nýa drottníng fyrst upp í hvíluna, en kóngur var að hátta. Var þá skarið, sem Gríshildur hèlt á, svo brunnið, að það logaði á berum gómunum, svo kóngur spyr, hvort hún brenni sig ekki. Gríshildur segir: „Sárt brenna gómarnir, en sárara brennur hjartað,“ og tárfeldi um leið. Þá þoldi kóngur ekki leingur að horfa á hana, svo hann stendur upp og segir: „Nú mun eg leingja nafn þitt hèðan af, og kalla þig Gríshildi g ó ð u. Eg hefi nú reynt góðlyndi þitt og þolinmæði til hlitar með öllu því, sem fram við þig hefir komið; en þessi kona, sem eg lèzt ætla að taka mèr fyrir drottníngu, er raunar dóttir okkar; er hún ígildi þitt og eptirmyndin í öllu, og sonur okkar er hèr einnig kominn, mannvænlegasti maður og líklegur til góðs höfðíngja. Sè það nú jafnt þinn vilji, sem minn, þá ertu ein drottníng mín og eingin önnur.“ Eptir það umföðmuðu þau hvort annað, og bað kóngur Gríshildi drottníngu með mörgum orðum fyrirgefníngar. Síðan settist hún að ríkjum með honum, og var mjög ástúðlegt með þeim til dauðadags. Sonur þeirra tók ríkið eptir föður sinn og varð þar kóngur yfir, en gipti systur sína kóngssyni úr öðru landi, og lýkur hèr að segja af Gríshildi góðu.

**Sagan af Jónídes kóngssyni, og Hildi kóngsdóttur.** (Eptir handriti sèra Jóns Þórðarsonar.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu, og áttu sèr eina dóttur, er Hildur hèt; hún var nýfædd þegar þessi saga gerðist. Kóngur reið opt á dýraveiðar og skemti sèr. Það var einhverju sinni, þegar hann var staddur út á skógi, að hann sá dreka mikinn á flugi, sem hafði barn í klónum. Kóngur skaut til drekans, og var svo heppinn, að hæfa hann í hjartað, svo drekinn datt dauður niður,

en barninu gat kóngur náð lifandi; var það sveinn harla fríður sýnum og hèr um bil ársgamall. Kóngur hafði sveininn með sèr, og kallaði Jónídes, lèt hann fóstra hann með Hildi dóttur sinni, og gerði vel til hans í alla staði. Þau uxu nú upp saman og var mjög vel, hvoru til annars, þegar þau eltust. Amma Hildar var mjög fjölkunnug, og kendi hún Hildi margt í þeim fræðum; var Hildur svo auðnæm á þetta, að hún gat þegar í æsku mörgum brögðum beitt. Amma hennar tók eptir því, að þeim Hildi og Jónídes var vel saman, en ekki vildi hún fyrir nokkurn mun, að hann feingi hennar, og því ásetti hún sèr, að drepa hann á eitri; kemur hún því einhverju sinni inn til þeirra, og bar mat fram fyrir þau, og bað þau snæða, en Hildur sá, að maturinn var eitraður, og varaði Jónídes við, að smakka á honum. Aðra tilraun gerði hún þá, að hún vildi myrða þau í sænginni, en Hildur hafði sèð við því, og lagt trèdrumba í sængurnar; hjó kerlíng í þá, en saxið varð fast í drumbinum, og hendur hennar fastar við saxið, og sat hún svo, til þess að morgnaði. Hildur sá nú, að þeim mundi ekki leingur verða vært í borg föður síns sökum ríkis ömmu sinnar, og geingu þau þá út úr borginni, og að læk einum, sem rann þar skamt frá. Brá hún þeim þá báðum í silúngslíki, og stukku þau í lækinn. Amma hennar fèkk njósn af þessu, kom þar og reyndi með öllu móti, að ná silúngunum, en gat ekki. Nóttina eptir tóku þau aptur mynd sína; segir þá Hildur, að ekki muni þeim þetta tjá, því nú sitji amma sín við að búa til net, til að veiða þau í, og skuli þau nú gánga á skóginn. Amma hennar fèkk njósn af þessu, og sendir 2 þræla á skóginn, og skipar þeim, að drepa alt, sem þeir sjái þar lifandi. Þeir fara út á skóginn, og sjá eingin dýr, fyrr en undir kvöld, þá sáu þeir 2 hunda svo fríða, að þeir þóktust aldrei hafa sèð þvílíka. Þeir lètu vinalega að þrælunum, en ekki feingu þeir náð þeim. Fóru síðan heim og sögðu frá ferðum sínum. Kerlíng sagði, að þar hefði þau Hildur verið, og hefði þrælunum farið ómannlega, og lèt drepa þá báða.

Hildur sá nú, að þetta mundi ekki heldur tjá þeim; tók hun þá upp grænt klæði, skipaði honum, að stíga á það með sèr, og hóf sig upp í loptið; liðu þau svo á fram leingi dags, uns hún lèt klæðið síga til jarðar aptur; komu þau þá niður á völlu fríða, og var þar landslag hið fegursta. „Þetta er nú ættjörð þín,“ segir Hildur, „og ertu son kóngs þess, sem hèr ríkti; en nú er hann látin fyrir nokkrum árum. Þegar þú varst á fyrsta ári, gekk móðir þín með þig út í aldingarð nokkurn; kom þá að henni drekinn og hremdi þig úr faðmi hennar; olli það föður þínum mikillar sorgar, því hann átti ekki annað barn, og dró það hann að lokunum til dauða. Ríkið er nú forstöðulaust, því móðir þín er lögzt í rúmið af gremju og harmi. Skaltu nú gánga til borgarinnar, og segja móður þinni sögu þína; mun hún þá kannast við þig, og fá þèr ríkisstjórnina í hendur. Sjálf ætla eg fyrst um sinn að vista mig hèr í kotbæ einum,

en þess bið eg þig, að gleyma mèr ekki.“ Jónídes sagði, að slíkt mundi ekki fyrir koma, því hann elskaði hana, eins og sjálfan sig; um það sagðist hún þó hræddust vera. Smurði hún hann síðan úr smyrslakrukku nokkurri, og kvaddi hann grátandi. Jónídes heldur nú til borgarinnar; en þegar hann er kominn miðja vega, kemur til hans tík, og sleikir öll smyrslin utan af honum; gleymdi hann þá jafnskjótt Hildi, og mintist hennar ekki framar. Þegar hann kemur til borgarinnar, biður hann um að ná fundi drottníngar, og fær það. Segir hann henni þá upp alla sögu, að hann sè sonur hennar. Kannaðist hún skjótt við sögu hans, og sagðist nú þekkja hann af föður hans sælum. Varð hann svo kóngur í ríkinu, og þókti vel fara. Skömmu eptir að hann var orðinn kóngur, kom fríð stúlka til borgarinnar; einginn vissi hvaðan hún kom, og einginn þóktist hafa sèð aðra fegurri. Kóngur leit til hennar ástaraugum, og gerði brúðkaup til hennar, en ekki þókti hún væn eptir fríðleika.

Einhverju sinni bar svo til, að einn af þrælum svínahirðis kóngsins viltist á skógum úti og kom að kotbæ einum; þar voru fyrir karl og kerlíng og Hildur, og kölluðu þau hana dóttur sína. Þrællinn baðst gistíngar í kotinu, og fèkk hana. En þegar fólkið fór að hátta, sagði karl, að ekkert rúm væri handa honum, nema ef hann vildi sofa hjá Hildi dóttur sinni; þrællinn sagði, að sèr mundi ekki þykja mikið að því, því hann þóktist aldrei hafa sèð fegurri meyu. Fór hann síðan og háttaði í rúmi Hildar, en hún þóktist þá ætla fram, og sagðist eiga ófalinn eldinn. Þrællinn sagðist skyldi gera það fyrir hana, en bað hana að hátta á meðan. Fór hann síðan fram, og fór að fela eldinn, en hendur hans urðu þá fastar við hlóðasteinana, og var hann að stimpast við þá til morguns; en þá losnaði hann og fór á burt. Þegar þrællinn kom heim, spurði svínahirðirinn hann, hvar hann hefði verið um nóttina, sagði þrællinn það, og þar með, að hann hefði sofið hjá dóttur karls. Vaknaði þá laungun svínahirðisins að koma og vera þar nætur sakir; gerir sig síðan út, og kemur þar að kvöldi, og beiðist gistíngar. Karl leyfði honum það, og bauð honum að gánga inn. Svínahirðinum leizt vel á karlsdóttur, og hlakkaði til næturinnar. Þegar farið var að hátta, sagði karl, að honum yrði hvergi lofað að hvíla sig, nema ef hann vildi sofa hjá dóttur þeirra. Svínahirðirinn hèlt, að það mundi nú mega verra vera, og háttaði; en er Hildur ætlar að fara að hátta, segir hún: „Nú, þá átti eg ólokað bænum“ og ætlar fram; en svínahirðirinn segir: „Nei, það skal ekki vera, að þú farir, eg skal fara og loka bænum.“ Hleypur hann síðan fram og hleypur í lokunni, en verður fastur við hana, og fær ekki losað sig, fyrr en með morgni, og heldur þá sneyptur á stað.

Nokkru eptir þetta vildi svo til, að kóngur var á veiðum; kom þá yfir hann þoka mikil, svo hann viltist frá mönnum sínum, og varð einsamall; fór hann þá leingi villur vegar, þángað til hann kemur að

koti einu, og ber þar að dyrum. Karl kemur út, og býður honum inn; þekkir hann kóng, og biður hann virða vel, þó húsakynni sèu lítilfjörleg. Hann gerir kóngi gott eptir efnum, og þegar karl fór að hátta, segir hann kóngi, að hann geti ekki boðið honum að hvíla sig, nema ef hann vilji sofa hjá dóttur sinni; kóngur kvaðst mundi láta sèr það vel líka, því honum leizt vel á stúlkuna, og háttaði í rúmi hennar. En þegar Hildur ætlaði að fara að hátta, segir hún: „Æ, þá átti eg eptir að láta inn kálfana.“ „Eg skal hlaupa ofan,“ segir kóngur, „og stínga þeim inn,“ og hleypur út. Fór hann síðan að eltast við kálfana; en þeir voru mjög óþekkir. Loksins nær hann í halann á einum, og verður jafnskjótt fastur við hann, og hèkk aptan við kálfinn til þess um morguninn, að Hildur kom út. Hlær hún þá upp yfir sig og segir: „Tarna er ekki kónglegt, að hánga aptan í tarfkálfinum.“ Kóngur bað hana auðmjúkur að leysa sig, og gerði hún það. Spurði hún þá kóng, hvort hann þekti sig ekki, og neitaði hann því. Hún spurði hann þá aptur, hvort hann myndi eptir Hildi kóngsdóttur, sem hefði flutt hann í ríki sitt; hann kvaðst ekki heldur muna hana. Sókti þá Hildur krukkuna með smyrslunum í og smurði hann, og mundi hann þá jafnskjótt eptir Hildi, þekti hana og faðmaði að sèr. Hildur segir honum þá, að drottníng sú, sem hann eigi nú, sè amma sín gamla, hafi hún brugðið sèr í meyarlíki, og ætlað að drepa hann, en til þessa sagðist Hildur hafa getað hamlað því, og bað hann, að leingja nú ekki líf hennar, eptir að hann væri heim kominn. Kveðjast þau nú með miklum kærleikum, og heldur Jónídes kóngur heim í ríki sitt, og jafnskjótt og hann er heim kominn, lætur hann grípa drottníngu sína, draga belg á höfuð henni og drekkja. Þar á eptir sendir hann frítt föruneyti eptir Hildi, og drekkur brúðkaup til hennar. Lifðu þau síðan leingi, áttu börn og buru, og önduðust í góðri elli.

**Bóndadæturnar.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar, nú í Móum á Kjalarnesi.) Ekki alllángt frá konúngsborg nokkurri bjó einu sinni bóndi einn vel efnaður. Hann átti þrjár dætur. Var elzta dóttirin tvítug, en hinar yngri; báðar þó gjafvaxta. Einu sinni þegar þær voru allar á gángi fyrir utan bæ föður síns, sjá þær hvar konúngurinn kom með tveimur fylgdarmönnum. Kóngurinn var ókvæntur; fylgdarmenn hans líka. Var annar þeirra skrifari hans, en hinn skósmiður konúngs. Þá segir elzta bóndadóttirin: „Eg vildi ekki óska mèr meira, en að eg ætti skóarann kóngsins.“ „En eg skrifarann hans,“ segir næsta systirin. Þá segir sú yngsta: „Eg vildi þá, að eg ætti konúnginn sjálfan.“ Kóngurinn heyrði nú undir væng, að systurnar voru eitthvað að masa saman. Hann segir þá við fylgdarmenn sína: „Eg vil fara til stúlknanna þarna, og vita hvað það var, sem þær voru að tala um; mèr heyrðist ein þeirra segja: „konúnginn sjálfan.“ Fylgdarmenn kóngs sögðu, að það mundi ekki hafa verið

neitt merkilegt, sem þær hefðu verið að masa um. Kóngur fèkkst ekki um það, heldur segir, að þeir skuli samt allir fara til stúlknanna, og hafa tal af þeim. Þeir gjöra nú þetta. Kóngur spyr þá stúlkurnar, um hvað þær hafi verið að tala áðan, þegar þær voru komnar í nánd við þá. Þær *voru tregar til að segja hið sanna, en þó gjörðu þær það á endanum fyrir* eptirgángsmuni konúngs. En með því konúngi fèllu stúlkurnar vel í geð, og hann sá, að þær voru bæði fríðar og vel máli farnar, einkum hin ýngsta, þá segir hann, að svo skuli vera, sem þær hafi óskað sèr, hver um sig. Urðu þær systur mjög forviða við þetta, en svo varð að vera, sem kóngur vildi. Giptust nú systurnar, og feingu hver þann mann, sem þær höfðu óskað sèr.

En þegar ýngsta systirin var orðin drottníng, þá fóru hinar að líta óvildar og öfundar auga til hennar, og vildu fyrir hvern mun hrinda henni úr tigninni. Tóku þær nú saman ráð sín um það, hvernig þessu yrði bezt komið fram. Þegar drottníng var komin að falli hið fyrsta sinn, þá feingu systur hennar, þær eldri, leyfi til að mega sitja yfir henni. En undir eins og barnið var fætt, komu þær því undan, og skipuðu svo fyrir, að því skyldi verða kastað í díki eitt fyrir utan borgina, sem haft var til að kasta í alls konar saur og óþverra. Sá, sem þetta átti að gjöra, fèkk það ekki af sèr, og lagði barnið á díkisbarminn í þeirri von, að einhver kynni að finna það, og bjarga því. Þetta varð og; því karl einn bar þar að, sem barnið lá. Hann undraðist yfir fundinum, tók barnið, fór með það heim til sín, og ól það upp svo vel, sem hann gat. En systur drottníngar tóku hvolp einn, ötuðu hann í blóði, og sögðu, að drottníng hefði átt hann. Konúngur varð mjög hryggur við þessa sögu, en af því hann elskaði drottnínguna út af lífinu, stilti hann þó harm sinn, og refsaði henni ekki. Í annað og þriðja sinn varð drottníngin þúnguð, og feingu systur hennar alt af leyfi til að sitja yfir henni. Höfðu þær í öll skiptin pretti við, og lètu bera út börn drottníngar, og ætluðust til, að þau væru kæfð í díkinu. En sendimaðurinn lagði þau á díkisbarminn, og vildi svo til, að sami karlinn fann þau öll, flutti þau heim með sèr, ól þau upp, sem bezt hann kunni og skírði þau. Kallaði hann elzta barnið, sem var sveinbarn, Vilhjálm; annað barnið, sem líka var sveinbarn, kallaði hann Sigurð. Þriðja barnið var stúlkubarn, og er nafn hennar óvíst. Í annað sinn, sem drottníngin lá á sæng, sögðu þær systur hennar, að hún hefði eignazt ketlíng, en í þriðja sinni trèbút. Varð konúngur þá afarreiður, og skipaði að varpa drottníngunni í hús eitt, þar sem hann átti ljón inni, af því hann vildi ekki að óvættur þessi skyldi fylla upp alt ríkið sitt með ófreskjur. Þóktust nú systurnar vel hafa komið ár sinni fyrir borð, og voru hinar hróðugustu með sjálfum sèr. En það er frá drottníngunni að segja, að ljónið reif hana ekki í sig, eins og til var ætlað, heldur lèt vel að henni, og gaf henni af mat þeim, sem því var færður. Lifði

drottníng svo þarna hjá ljóninu, þó vesaldarlíf væri, án þess nokkur vissi af því.

Nú víkur sögunni aptur til karlsins, sem fóstraði konúngsbörnin. Hvern, sem hann hitti, eða til hans kom, spurði hann, hvort þeir vissi ekkert um börn þessi, sem hann hefði fundið á díkisbarminum. En einginn vissi neitt um þau, uppruna þeirra nè ætt. Uxu nú börnin upp og voru mjög efnileg. Fór nú karlinn mjög að eldast; rèð hann þá börnunum til að halda sama vana eptir sinn dag og hann hefði haft, að reyna til að komast eptir ætt sinni; fræddi hann þau um alt það, sem hann vissi þar að lútandi. Eptir þetta andaðist karlinn, og fóru börnin þá í öllu að ráðum hans. Einu sinni kom til þeirra gamall maður, og frèttu þau hann hins sama og aðra. Hann sagðist sjálfur ekki geta sagt þeim neitt um það, en hann mundi geta vísað þeim á þann, sem það vissi. Sagði hann að skamt frá bæ þeirra væri stór steinn, og uppi á honum sæti fugl, sem bæði skildi mannamál, og talaði það líka. Sagði hann þeim væri bezt að finna hann, en þar væri nokkurt vandhæfi á; því margur hefði farið þángað, en einginn komið þaðan aptur. Sagði hann, að mörg kóngabörn hefðu farið á fund fuglsins til þess að vita forlög sín hjá honum, en þau hefðu ekki haft það til að bera, sem þurfti. Svo sagði hann að á stæði, að sá, sem upp vildi komast á steininn, yrði að vera svo settur í sèr, að líta ekki aptur, hvað sem hann heyrði, eða hvað sem á geingi í kríngum hann; því hver sem það gjörði, yrði að steini, og alt sem hann hefði meðferðis. Þenna setníng sagði gamli maðurinn, að einginn hefði enn haft, en hver sem hann hefði, hann gæti hæglega komizt upp. En hver sem kæmist upp á steininn, sagði karlinn, að gæti lífgað alla hina, sem orðnir væri þar áður að steinum; því uppi á klettinum væri pallur einn með loki yfir, og þar sæti fuglinn á. En fuglinn leyfði hverjum sem upp kæmist til hans að taka sèr nokkuð af vatninu, og dreifa því yfir þá, sem orðið hefðu að steinum, og við það lifnuðu þeir aptur, og yrðu eins og þeir hefðu áður verið. Þetta virtist kóngsbörnunum ekki mikil þraut; lètu þó bræðurnir drýgilegast, og þökkuðu karli innilega fyrir sögu sína.

Litlu síðar leggur eldri bróðirinn, Vilhjálmur, á stað til steinsins. En áður hann fór, segir hann bróður sínum, að ef þrír blóðdropar komi á hnífinn hans, þegar hann borði einhvern tíma, þá megi hann koma; því þá hafi farið eins fyrir sèr og öðrum. Heldur nú Vilhjálmur á stað, eptir leiðsögn hins gamla manns, og segir ekki af honum meira. En eptir svo sem þrjá daga, eða þegar hann átti að vera kominn að steininum, þá komu þrír blóðdropar á hníf Sigurðar., þegar hann var að borða. Brá honum mjög í brún við þetta, og segir systur sinni, að hann verði að leggja á stað, og vitja bróður síns. Gjörir hann sama ráð við hana, og Vilhjálmur hafði fyrr gjört við hann. Síðan fer hann, og er ekki að orðleingja um það, að alt fer á sömu leið og fyrr; blóðdroparnir komu á hníf systur-

innar um það leyti, sem Sigurður átti að hafa komið til steinsins. Verður henni mjög um þetta, og fer líka á stað til að reyna, hvernig sèr gángi. Geingur henni vel ferðin, og kemur að steininum. Sèr hún þar í kríng ótölulegan grúa af steinum, alla vega löguðum; sumir voru eins og kistlar, sumir í alls konar dýramyndum, og sumir enn öðruvísi. Hún skiptir sèr ekki af þessu, heldur leggur að hinum stóra steini, og fer að klifrast upp. Heyrir hún þá mannamál mikið á bak við sig, og háreysti, og þar á meðal þekkir hún málróm bræðra sinna. En hún gaf því ekki gaum, og passaði að líta aldrei við, hvað sem tautaði. Komst hún svo á endanum upp á steininn. Fær hún þá allramesta hrós hjá fuglinum fyrir setuíng sinn og staðfestu, og lofaði hann að fræða hana um alt, sem hún vildi vita, og gjöra fyrir hana alt, sem hann gæti. Varð henni það fyrst fyrir, að vilja lífga steinana, og gefa þeim sínar upphaflegu myndir. Veitti fuglinn henni það undir eins, en bendir henni um leið á einn steininn, og segir að hún myndi vilja taka álögin af þeim, sem þar væri, ef hún vissi hver hann væri. Þarf nú ekki að orðleingja það, að kongsdóttirin skvettir vatni á steinana alla, og missa þeir þá steinhamina, sem á þeim voru, og þakka henni lífgjöfina með mörgum og fögrum orðum. Því næst spyr hún fuglinn til hverra þau systkin eigi ætt sína að rekja, eða hverjir sèu foreldrar þeirra. Fuglinn segir, að þau sèu börn kóngsins í landinu, og greinir frá, hvernig systurnar hafi farið að þegar þau fæddust. Inti hann frá öllu, sem glöggvast, og segir þeim systkinum, að móðir þeirra sè enn á lífi hjá ljóninu. Segir hann, að hún sè nú nær dauða en lífi, bæði af hrygð og hugarángri, og skorti á öllu góðu. Í steini þeim, sem fuglinn benti stúlkunni á, var hinn tígulegasti og fríðasti kóngssonur. Leit hann undir eins ástaraugum til lífgjafa síns, og leizt þeim vel hvoru á annað. Hafði hann einkum haft með sèr hina kistlamynduðu steina, og voru það skrínur fullar með alls konar dýrgripi, gull og gersemar. Eptir að fuglinn hafði nú frætt hvern einn á því, sem hann fýsti að vita, leggja systkinin öll á stað, og hinn auðugi kóngssonur með þeim. Þegar heim kom var það þeirra fyrsta verk, að þau fóru til hússins, sem ljónið var í, og brjóta það upp. Fundu þau systkinin þar móður sína í aungviti; því það hafði liðið yfir hana af hræðslu, þegar hún heyrði, að verið var að brjóta upp húsið. Tóku þau hana, og lifnaði hún bráðum við aptur. Færðu þau hana þá í almennileg föt, og hèldu síðan til kóngshallarinnar, og báðu sèr orlofs að tala við kónginn. Var þeim það veitt. Segja þá systkinin til sín, hver þau sèu, og að þau, börnin hans, sèu nú hèr komin með móður sína úr ljónshúsinu. Inna þau honum nú greinilega frá öllu því, sem fuglinn hafði sagt þeim. Varð kóngur forviða við sögu þeirra, og alla þessa atburði. Voru þá systur drottníngarinnar teknar og rannsakaðar. Urðu þær fyrst tvísaga, og játuðu loks öllu ódæðinu upp á sig, eins og það var, og sögðu rètt frá öllu. Var þeim þá kastað inn til sama ljónsins og áður drottn-

íngunni, en það reif þær óðar í sundur, og át þær hið bráðasta upp með holdi og hári.

Drottníngin komst nú aptur í tign sína, og var drukkið fagnaðaröl móti henni og börnum hennar. Stóð veizlan marga daga í kóngshöllinni. En í veizlulokin hefir hinn ókunnugi kóngsson upp bónorð sitt til kóngsdóttur, og var það auðsókt. Var þá veizlan aukin að nýu, og drukkið brúðkaup þeirra. Vita menn slíkan fögnuð aldrei verið hafa í nokkru kóngsríki. Að veizlunni endaðri fór hinn ókunnugi kóngssonur heim til sín, og varð þar kóngur eptir föður sinn. Vilhjálmur kvæntist líka, og tók við ríkinu eptir föður sinn látinn. Sigurður fèkk kóngsdóttur úr öðru ríki, og komst þar að ríki eptir föður drottníngar sinnar. Lifðu þau síðan öll í lukku og velgeingni. Og nú er sagan úti.

**Mærþallar-saga.** (Eptir Nr. 602. a. 4ta, pappírshandriti (um ár 1700) í safni Árna Magnússonar.) Það var einhverju sinni hertogi, og átti hann únga frú. Þau unnust vel, en áttu þó leingi eingin börn, og undu þau því illa. Eitt sinn gekk frúin að skemta sèr með þernum sínum í fagran lund. Sigraði hana þá svo mikill svefn, að hún gat eigi hrært sig úr stað þaðan, og er hún var sofnuð, dreymdi hana, að þrjár konur í bláum klæðum kæmu til sín og segðu: „Við vitum, að það eykur þèr ógleði, að þú átt eingin börn; nú erum við komnar hèr, að ráðleggja þèr, hvað þú skalt gjöra, er þú vaknar; gakk þú að læk einum, er rennur skamt hèðan; í honum muntu sjá silúng. Þú skalt leggja þig niður að læknum, þar sem silúngurinn er, og drekka úr honum, og sjá svo til, að hann renni um leið í munn þèr, og muntu strax eptir fá getnað með manni þínum; við munum heimsækja þig um þann tíma, er þú fæðir barnið, því við viljum ráða því, hvað það skal heita." Síðan hurfu þær burtu. Þegar hún vaknaði, íhugaði hún drauminn, gekk að læknum og sá silúnginn; hún fór að öllu, eins og henni var sagt, og fór síðan heim. Þegar fram liðu stundir, fann hún, að hún var orðin þýngri, og urðu þau bæði glöð mjög við það. Skamt þar frá var lítill húsabær; þar bjuggu karl og kerlíng og áttu dóttur eina únga og efnilega, sem hèt Helga. Þegar frú hertogans fann, að leið að þeim tíma, að hún skyldi verða lèttari, gjörði hún boð til kerlíngar að koma til sín, og gjörði hún það þegar. Þá mælti hún til hennar: „Þú skalt þjóna mèr og sitja yfir mèr, meðan eg er veik; eg á von á 3 konum, og skaltu taka á móti þeim, sem bezt þú getur; hefi eg haft tilbúið handa þeim ölfaung og annað." Skömmu síðar fæddi hún mjög fagra mey, og sama daginn, sem hún fæddi hana, komu þar að húsunum 3 konur, og nefndu sig allar Blákápur. Kerlíng gekk fyrir þær, og bauð þeim til borðs, og bar fyrir tvær, eins og frúin hafði sagt henni, en það, sem hinni ýngstu var ætlað, dró hún undir sig. En er hún sá, að hún var óvirt hjá hinum, fyltist hún reiði. Þær báðu um, að lofa sèr að sjá barnið, og

var þeim þegar leyft það. Hin elzta tók fyrst við barninu og mælti: „Þú skalt heita Mærþöll, eptir móður minni; mæli eg það um, að þú verðir afbragð allra kvenna að áliti og vitsmunum; legg eg það á þig, að hvert það skipti, er þú grætur, verði tár þín öll að gulli; skaltu hafa það yfir allar konur, sem verið hafa.“ Síðan fèkk hún barnið systur sinni, sem sat hjá henni, og mælti hún: „Eg er því samþykk, að þú heitir Mærþöll eptir móður minni, og óska eg, að þú hreppir alt það gott, er systir mín hefir mælt fyrir þèr, og að þú sèr prýdd öllum kvenndygðum; mæli eg það um, að þú eignist ágætan kóngsson, og unnið hvort öðru vel, svo þèr verði alt til sóma og virðíngar um æfi þína; kann eg ekki framar að mæla fyrir þèr.“ Síðan fær hún meyna ýngstu systur sinni; hún tók við henni og mælti: „Þú skalt þess af mèr njóta, að þú heitir Mærþöll eptir móður minni, að eg vil eigi rjúfa hin góðu ummæli, er systur mínar hafa fyrir þèr mælt, þó móðir þín hafi gjört mèr óvirðíngu saklausri. Skaltu nú þó hennar gjalda að nokkru, því það legg eg á þig, að hina fyrstu nótt, sem þú sefur hjá kóngssyninum, sem þú átt að eignast, verðir þú að titlíngi, og fljúgir út um gluggann. Skaltu aldrei úr þeim álögum komast, ef þèr leggst það eigi til, að nokkur geti brent titlíngshaminn hina þriðju nótt. Skaltu þær þrjár nætur geta farið úr hamnum litla stund, en aldrei síðan.“ Þegar systur hennar heyrðu þetta, urðu þær mjög reiðar við hana, er hún mælti svo illa fyrir barninu, og stukku á fætur í burtu, og sáust aldrei síðan. Barnið óx upp hjá föður og móður; varð það að sönnu, að í hvert skipti sem það grèt, urðu tár þess að gulli. Af þessu varð hertoginn ríkur mjög, því öll borg hans var þakin gulli, og þókti honum vænt um dóttur sína. Lèt hann gjöra henni skemmu, og lèt Helgu karlsdóttur vera þar hjá henni. Þeim fèll hvorri við aðra mjög vel. Frèttist það um öll lönd, að hertoga-dóttir ein grèti ávalt gulli. Þetta spurði voldugur kóngsson nokkur, sem aðrir; hann streingdi þess heit, að hann skyldi eignast hana, eða að öðrum kosti enga konu. Hann bjó ferð sína sem skjótast og sigldi land úr landi, uns hann kom til hertogans. Sá hann þá, að þar var alt gulli þakið. Hann sendi frá skipi sínu til hans, og lèt segja honum, hvað erindi sitt væri þángað. Hann tók því vel og bauð honum heim með mönnum sínum, en var þó hugsjúkur, að hann skyldi missa dóttur sína. Hann lèt kalla hana ásamt með Helgu fyrir sig og mælti: „Þið skuluð hafa klæðaskipti; skaltu, Helga, gánga fyrr en Mærþöll, þegar kóngsson kemur.“ Þær lofuðu að gjöra svo, sem hann sagði fyrir. Þegar kóngsson kom til borgarinnar, bað hann um, að lofa sèr að sjá Mærþöll. Hertoginn kvað svo skyldi vera. Helga gekk fyrir kóngsson; hann horfði leingi á þær báðar, og þókti sú vænni, er síðar gekk. Hann mælti: „Eg vil reyna, hvort það er satt, er eg hefi heyrt af dóttur þinni,“ og sló þær báðar kinnhest. Þá grèt sú, sem fyrr gekk, sem aðrar konur, en gull hrundi ofan um hina. Þá mælti kóngsson: „Nú sè eg, að hertog-

inn hefir ætlað að pretta mig, og er það Mærþöll, sem síðar gengur.“ Hann sagði henni, að hún þyrfti eigi leingur að dyljast, og að hún skyldi skipta um klæði aptur, og setti hana í knè sèr. Síðan sigldi hann burt með hana. Hún hafði í heimanmund mest alt það gull, er þar var. Helga karlsdóttir fór með henni. Þau feingu góðan byr heim til ríkis föður hans. Hann tók við þeim báðum höndum, og lèt þegar búa til hins veglegasta brúðkaups; veizlan fór vel fram. En er brúðirin var leidd til sængur, beiddi hún leyfis, að hún mætti einslega gánga út, og Helga karlsdóttir með sèr. Henni var leyft það. Hún mælti þá við Helgu: „Þú hefir mèr leingi verið trú; og bið eg þig nú, að reynast mèr holl, og sofa 3 nætur í armi kóngssonar, því það mun verða að koma fram á mèr, sem á mig er lagt; skulum við nú skipta um liti og klæði.“ Helga mælti: „Eg vil gjöra alt, sem eg get, þèr til vilja, en eitt óttast eg mest; þú veist, að kóngsson fær þèr klút á hverju kveldi, sem þú fyllir af gulli með tárum þínum, og færð honum á hverjum morgni. Nú veit eg, að það gildir líf mitt, er eg get ei skilað honum gullinu.“ Hún mælti: „Þú skalt stínga honum svefnþorn, er þið eruð háttuð saman, svo hann sofni brátt. Far síðan heimuglega út frá honum og gakk á þann hól, sem er skamt hèðan, og kalla til mín, svo eg geti heyrt. Er mèr leyft, að fara úr honum 3 nætur, og kann eg að gráta fyrir þig, meðan við tölum saman.“ Helga kvaðst fúslega vilja gjöra hið bezta, sem hún gæti, til að hjálpa henni. Síðan skiptu þær klæðum og urðu báðar mjög harmþrúngnar. Helga háttaði hjá kóngssyni, en Mærþöll breiddi á þau klæði; varð hún þegar að titlíngi og flaug burt. Kóngsson hugði, að Mærþöll svæfi hjá sèr og fèkk henni klút sinn að gráta í. Helga stakk honum svefnþorn og fór síðan leynilega á fætur. Hún gekk upp á hól þann, er þær höfðu talað um og kallaði:

„Komi, komi Mærþöll,  
komi mín vina,  
komi ljósa mær  
á lýng götu;  
eg á gull að gjalda  
en gráta ekki má.“

Þar kom titlíngur og settist hjá henni. Gekk Mærþöll þá úr hamnum og grèt klútinn fullan. Hún hvarf síðan undir eins í haminn aptur, en Helga lagðist í rekkju hjá kóngssyni, og fèkk honum gullið að morgni. Fór alt á sömu leið hina aðra nótt. Þriðju nóttina stakk Helga kóngssyni nokkuð lausara en fyrr með vilja, fór síðan á fætur, gekk upp á hólinn og kallaði sem fyrr; þá kom titlíngurinn. Mærþöll sagði þá til Helgu: „Nú munum við aldrei sjást framar, því nú hefi eg enga von um að komast úr þessum álögum. Þakka eg þèr nú alla trygð, er þú hefir sýnt mèr, og farðu alt af vel; vildi eg helzt, að þú nytir kóngssonar, ef eg mætti ráða.“ Lágu þær nú leingi í faðmlögum, því þeim þókti mikið fyrir að skilja. Nú er þess að geta, að kóngsson vaknaði, því svefnþorninn datt úr höfði hans. Varð honum bilt við, er brúðirin var burtu,

hljóp á fætur og út. Hann litaðist um og sá 2 konur á hól einum. Hann gekk þángað leynilega, og heyrði hvað þær sögðu. Hann sá þar titlíngshaminn og greip hann. Urðu þær þá báðar svo hræddar, að þær fèllu í aungvit. Hljóp hann með haminn og brendi hann sem skjótast, kom síðan til þeirra aptur og dreypti á þær víni og leiddi heim með sèr. Mærþöll sagði þá æfisögu sína. Þótti öllum hún hafa verið heppin, er kóngsson náði hamnum. Var nú á ný drukkið brúðkaup, og bar ekki neitt á neinu eptir það. Kóngsson unni Mærþöllu mjög, áttu börn saman og lifðu með góðu yndi. Helga giptist hinum æðsta höfðíngja í ríkinu, og var hún jafnan haldin ágæt, sökum trygðar við Mærþöll, og lýkur hèr sögunni um Mærþöll.

**Skessan á steinnökkvanum.** (Úr Reykjavík.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu. Þau áttu son þann, er Sigurður hèt. Hann var snemma frábær, ramur að afli, fimur við alla leika og fríður sýnum. Þegar faðir hans var farinn að þýngjast fyrir elli sakir, kom hann að máli við son sinn, og sagði, að honum væri nú orðið mál að sjá sèr fyrir sæmilegu kvonfangi, því ekki væri víst, hvað sín nyti leingi við úr þessu, en tign hans þækti sèr þá vera með fullum blóma, ef hann feingi kvonfang samboðið sèr. Sigurður tók þessu ekki fjarri, og spurði föður sinn, hvar hann liti helzt til um konuefnið. Kóngur sagði honum, að úti í löndum, þar sem hann til tók, væri kóngur, sem ætti dóttur væna og fríða, og ef Sigurður feingi hennar, þækti sèr sá ráðahagur ákjósanlegastur. Eptir það skildu þeir feðgar, og bjó Sigurður kóngsson sig til ferðar, og fór þángað, sem faðir hans hafði honum til vísað. Geingur svo fyrir kóng, og biður dóttur hans sèr til handa. Verður það mál auðsókt við kóng, en þó með því skilyrði, að Sigurður dvelji þar svo leingi, sem hann má, því kóngur var mjög vanheill, og lítt fær til að stjórna ríki sínu. Sigurður gekk að þessum kostum, en til skildi þó, að hann feingi fararleifi heim í ríki sitt, þegar sèr kæmi fregn um lát föður síns, er hann kvað vera kominn að fótum fram. Eptir þetta drakk Sigurður brúðkaup sitt til kóngsdóttur, og tók til ríkisstjórnar með kónginum teingdaföður sínum. Sigurður og kona hans unni hvort öðru hugástum, og því alúðlegri urðu samfarir þeirra, er hún að ári liðnu fæddi honum son, fríðan og fagran. Eptir það liðu fram tímar, uns dreingur sá var kominn á 2. árið; komu þá Sigurði þau orð, að faðir hans væri dáinn. Bjó Sigurður sig nú til burtferðar með konu sinni og syni, og fór á einu skipi.

Þegar þau höfðu siglt nokkra daga, tók byrinn af fyrir þeim, og gjörði blæa logn, er þau áttu ekki leingra heim, en eins dags siglíng; lá þá skipið kyrt og morraði í byrleysunni. Þau hjónin voru þá stödd ein uppi á þilfari, því flestir aðrir voru geingnir til svefns á skipinu. Sátu þau þar og töluðust við um stund, og höfðu son sinn hjá sèr. Að nokkr-

um tíma liðnum sigraði Sigurð svo mikill svefn, að hann mátti ekki vaka. Gekk hann þá niður undir þiljur og leggst fyrir. Var drottníng þá ein eptir uppi á þiljum með son þeirra, og lèk sèr að honum. Þegar góður tími var liðinn frá því, Sigurður kóngur var ofan farinn, sèr drottníng sorta nokkurn á einum stað á sjónum, og sèr, að hann þokast heldur nær. Eptir því, sem hann nálgast skipið betur, getur hún deilt, að það muni bátur vera, og er honum róið, þar með sèr hún einhverja mannsmynd í bátnum. Kemur svo um síðir, að bátur þessi leggur að skipinu, og sèr drottníng, að það er steinnökkvi, og því næst kemur upp á skipið ógurleg tröllkona, og illúðleg. Drottníng varð hræddari, en frá megi segja, en kemur ekki upp neinu orði, nè heldur gat hún hreift sig úr stað, til að vekja kóng eða skipverja. Tröllkonan geingur þá að drottníngu, og tekur af henni sveininn, og setur hann á þilfarið; síðan tekur hún drottníngu, og færir hana úr öllum skrúðklæðum hennar, svo hún stendur eptir í línklæðum einum. Fer svo tröllkonan í föt drottníngar, og verður þá nokkurt mennskumót að henni. Loksins tekur hún drottníngu, og setur hana á nökkvann, og segir: „Mæli eg um og legg eg á, lintu hvorki ferð nè flugi, fyrr en þú kemur til bróður míns í undirheimum.“ Sat drottníng þá sem höggdofa og aðgjörðarlaus; en nökkvinn undir henni sveif þegar frá skipinu, og leið ekki á laungu, áður hann var kominn úr augsýn frá skipinu. Þegar ekki sást leingur til nökkvans, fór sveinninn kóngsson að hrína, og var það hvort sem annað, að tröllkonan lagði sig litt til að hugga hann, enda tjáði það ekki. Gekk hún þá með sveininn á handlegg sèr niður undir þiljur, þar sem kóngur svaf, og vekur hann með hörðum átölum, að hann hirði ekki um, hvernig um sig fari, þar sem hún megi vera ein með son þeirra á þiljum uppi, en hann sofi og hrjóti og öll skipshöfnin með honum; telur hún það mikla ónærgætni og ofætlun af honum, að láta eingan annan vaka hjá sèr á skipinu; því fátt segi af einum. Enda sè nú svo komið, að hún fái með eingu móti huggað sveininn, og kysi því helzt, að komast þángað með sveininn, sem hann ætti að vera, og væri þess nú kostur, ef nokkur dugur eða dáð væri sýnd, þar sem kominn væri blásandi byr. Sigurði kóngi kemur það mjög á óvart, að drottníng hans er svo fasmikil og harðorð, er aldrei hafði eitt móðsyrði til hans talað. Hann tekur þó ávarpi hennar með blíðu, op þykir henni mikil vorkun, þó hún sè ömruleg. Hann leitaðist við að hugga með henni sveininn; en það tjáir ekki. Fer hann þá til og vekur skipverja, og biður þá taka til segla, því nógur var byr kominn og beinn til hafna. Því næst var siglt, sem mest mátti, og segir ekki frá ferðum þeirra, fyrr en þeir komu við land, þar sem Sigurður átti fyrir að ráða; fór hann þá til hirðar sinnar, og voru þar allir hryggir yfir fráfalli föður hans, en glöddust, er þeir höfðu hann aptur heimt heilan á hófi, og var honum gefið kóngs nafn, og tók hann við ríkjum. Sveinninn kóngsson

numdi nálega aldrei af hljóðum hjá móður sinni, frá því hann var skilinn eptir einn hjá henni á þilfarinu, sem áður er sagt, þótt hann væri áður mesta spektarbarn, svo að kóngur varð að fá honum fóstru, eina af hirðmeyunum. Þegar sveinninn var til hennar kominn, tók hann skjótt spekt sína aptur og hina fyrri værð.

Nú er frá því að segja, að eptir sjóförina fannst kóngi, sem drottníng væri mjög breitt orðin í mörgum háttum, og það ekki til batnaðar. Einkum þókti honum hún mikilfeingari og stygglyndari, og óviðfeldnari, en hann átti von á. Þó virtist hún kurteys og látprúð; en fljótt bar að því, að fleiri kendu kaldlyndi hennar, en kóngur. Með kóngshirðinni voru dreingir tveir, annar 18, hinn 19 vetra. Þeir voru mjög gefnir fyrir tafl, og sátu því laungum inni yfir því. Herbergi þeirra var næst herbergi drottníngar, og var það opt, að þeir heyrðu eitthvað til drottníngar á sumum tímum dagsins. Einn dag veittu þeir því meiri eptirtekt, en áður, er þeir heyrðu til drottníngar. Lögðu þeir þá hlustirnar við rifu, er var á veggnum milli herbergjanna, og heyrðu glögt, að drottníng sagði: „Þegar eg geispa lítinn geispa, þá er eg lítil og nett jómfrú; þegar eg geispa hálfan geispa, þá er eg sem hálftröll; þegar eg geispa heilan geispa, þá er eg sem altröll.“ Í því drottníng sagði þetta, setti að henni ógleði svo mikla, að hún geispaði ógurlega. Við þetta brá henni svo, að hún varð alt í einu að illúðlegri tröllkonu; kom þá og upp úr gólfinu í herbergi drottníngar þríhöfðaður þussi með fult trog af keti; hann heilsar þar systur sinni, og setur fyrir hana trogið. En hún sezt að því, sem í því var, og lèttir ekki, fyrr en hún hefir lokið öllu úr troginu. Sveinarnir sáu allar þessar aðfarir, en ekki heyrðu þeir þau systkynin talazt neitt við. En það furðaði þá, hversu gráðulega drottníng hámaði í sig ketið, og hversu mikið hún rúmaði af því, og þá eigi leingur, að hún snæddi svo lítið, er hún sat með kóngi yfir borðum. Þegar hún var búin úr troginu, hvarf þussinn með það aptur sama veg niður, sem hann hafði komið, en drottníng tók á sig mennska mynd.

Nú víkur sögunni þángað, sem sveinninn kóngsson var fyrir nokkru kominn til fóstrunnar. Bar það við eitt kvöld, er hún hafði kveykt ljós, og hèlt á kóngssyni, að nokkrar fjalir spruttu upp úr gólfinu á herbergi hennar. Þar næst kom þar upp undur fríð kona á línklæðum einum, þeim er konur hafa næst sèr, með járnspaung um sig miðja, og lá þar úr hlekkjafesti svo lángt niður, sem til sást. Kona þessi gekk að barnfóstrunni, og tók af henni barnið, faðmaði það að sèr, og rètti það aptur að fóstrunni. Síðan fór hún niður sömu leið, sem hún kom, og luktist gólfið yfir höfði hennar. Þó kona þessi talaði ekki orð frá munni, varð fóstran mjög hrædd, en lèt ekki á neinu bera. Kom svo annar dagur og fór alt á sömu leið, og áður, að hin hvítklædda kona kom í sama mund, sem hinn fyrra dag, tók barnið, lèt að því, sem bezt, og fèkk það

svo aptur fóstru þess. En er hún ætlaði að fara burt aptur, sagði hún með sorgarsvip: „Af eru tveir, og ekki eptir nema einn;“ síðan fór hún hina sömu leið niður aptur, og gólfið í samt lag. Nú varð barnfóstran enn miklu hræddari, en áður, er hún hafði heyrt konuna mæla þessi orð. Hugði hún, að barninu mundi, ef til vildi, vera einhver hætta búin, þó henni bæði litist í alla staði góðlega á konuna ókendu, er komið hafði, og hún hafði látið að barninu, sem það væri frá henni skorið. Henni þókti það ískyggilegast, er kona þessi hafði sagt: „Og ekki eptir nema einn;“ hún því hèlt, að með því mundi hún skilja, að nú væri einn eptir af þremur dögum, er hún hefði komið til sín í 2 daga. Fóstran rèð það því af, að hún fór til kóngs og sagði honum upp alla sögu, og bað hann fyrir alla muni að vera sjálfur viðstaddur í herbergi sínu, um sama leyti daginn eptir, og kona þessi væri vön að koma, og hèt kóngur henni góðu um það. Daginn eptir kom kóngur í herbergi barnfóstrunnar litlu fyrir þennan tíma, sem ákveðinn var, og settist þar á stól með brugðið sverð í hendi. Því næst spruttu upp fjalirnar í gólfinu, sem fyrri, og kom konan þar upp hin hvítklædda með járnspaungina og hlekkjafestina, sem áður er getið. Kóngur þekkir þar þegar konu sína, og verður honum það fyrst fyrir, að hann heggur sundur hlekkjafestina, sem niður lá úr járnspaunginni. En við það urðu dunur svo miklar og dýnkir að heyra niðri í jörðinni, að kóngshöllin lèk öll á reiðiskjálfi, og hugði eingum annað, en hvert hús mundi hrapa í borginni, og um koll keyra. Loksins leið þessi ókyrleiki og undirgángur af, svo menn koma til sjálfs sín. Fèllu þau kóngur og drottníng í faðma. Síðan sagði hún honum upp alla sögu, hvernig tröllkonan kom að skipinu á nökkvanum, er allir sváfu, og færði sig úr drottníngar skrúðanum, og frá ummælum hennar og álögum. Hún sagði frá því, er hún var komin svo lángt á nökkvanum, er leið sjálfkrafa áfram undir henni, að hún sá ekki skipið leingur, hefði sèr fundizt hún fara gegn um svo sem myrkva nokkurn, uns nökkvinn lenti hjá þríhöfðuðum þussa; og viljað þegar sofa hjá sèr. En hún kvaðst hafa aftekið það í alla staði. Hún sagði, að þussinn hefði sett sig þá í einhýsi um hríð, og hótað sèr, að hún skyldi þaðan aldrei út fara, nema hún hèti sèr blíðu sinni, en vitjað hefði hann um sig öðru hverju degi. Þegar nokkuð leið frá, kvaðst hún hafa farið að hugsa sig um, hvað hún skyldi nú til bragðs taka, til að losna úr trölla höndum. Sagðist hún þá hafa gefið honum kost á að sofa hjá sèr, ef hún mætti áður sjá son sinn ofanjarðar, 3 daga í beit; hefði hann lofað sèr því, en látið þó um sig járnspaung þessa, með hlekkjafestinni úr, og hefði hann bundið öðrum enda festarinnar um sig miðjan, og því mundu hinir miklu dýnkir hafa orðið, er kóngur hjó á festina, að risinn hefði hlúnkað niður allan undirgánginn, er svo snögglega slaknaði á festinni, því bústaður risans væri rètt undir borginni, og því hefði ókyrleikinn orðið svo mikill, er hann

hlúnkaði niður, og að öllum líkindum mundi hann hafa rotazt, er hann kom niður, og hefðu þetta vist verið fjörbrot hans, er borgin skalf. En því kvaðst drottníng hafa áskilið sèr að sjá son sinn 3 daga í röð, að með því móti mundi sèr leggjast eitthvað til líknar og lausnar, eins og nú væri fram komið. Nú þóktist kóngur sjá, hversu það vissi við, að kona sú, er hann hafði búið við um stund, hefði verið svo óþýð, og lèt hann þegar draga belg á höfuð henni, og berja hana í hel með grjóti; síðan lèt hann festa hana aptan í ótemjur, er tættu hana sundur. Eptir það sögðu og sveinar þeir, er fyrr var getið, að heyrðu og sáu til drottníngar, frá því, er fyrir þá hafði borið; því áður þorðu þeir það ekki fyrir ríki hennar. Að þessu búnu sezt drottníng í tign sína, og hugnast öllum vel að henni. En það er frá barnfóstrunni að segja, að kóngur og drottníng giptu hana stórhöfðíngja einum, og gjörðu hana að heiman með mikilli rausn.

c) Þá eru og margar sögur, sem sýna það og sanna, að „opt er það í koti karls, sem kóngs er ekki í ranni", eða að kotúngabörn eru úrræðabetri og dáðmeiri til framkvæmda og stórræða, en kóngsbörn, og alt eins hitt, að olbogabörnin verða jafnan þrautbetri og heilla-drýgri, en eptirlætisbörnin, og sannast hèr einnig hið fornkveðna: „á misjöfnu þrífast börnin bezt."

**Sagan af Hlini kóngssyni.** (Eptir frásögn Ebenezers snikkara í Flatey). [1] Það var einu sinni kóngur og drottníng í ríki sínu. Hann hèt Hríngur, en ekki er þess getið, hvað drottníng hans hèt; þau áttu einn son, sem Hlini er nefndur. Snemma var hann efnilegur og þókti hinn mesti kappi. Sagan segir, að karl og kerlíng voru í garðshorni; þau áttu eina dóttur, er Signý hèt.

Eitt sinn fór kóngsson á dýraveiðar með hirðmönnum föður síns. Þegar þeir höfðu veitt nokkur dýr og fugla, og ætluðu heim aptur, sló yfir svo dimmri þoku, að þeir mistu sjónar á kóngssyni. Leituðu þeir hans þá leingi, en fundu ekki, og sneru við það heimleiðis. Þegar þeir komu til kóngshallar, sögðu þeir, að þeir hefðu mist Hlini frá sèr, og hvergi getað fundið hann. Kóngur varð mjög hryggur við þessa fregn, og sendi margt manna daginn eptir að leita að syni sínum. Þeir leituðu allan dag til kvölds, en fundu ekki, og fór svo í 3 daga samfleytt, sem leitað var, að Hlini fannst ekki. Við þetta varð kóngur svo harmfullur, að hann lagðist í rekkju, sem veikur maður. Hann lèt og lýsa því yfir, að hver, sem fyndi son sinn og kæmi með hann heim aptur, skyldi eignast hálft ríki sitt.

---

1. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 277—280. bls.

Signý karlsdóttir frèttir hvarf kóngssonar, og hverjum launum faðir hans hafi heitið, ef Hlini fyndist; fer hún því til foreldra sinna og biður þá um nesti og nýa skó, og heldur síðan á stað, að leita kóngssonar. En það er af ferðum Signýar að segja, að þegar hún hefir geingið meiri hluta dagsins, kemur hún að áliðnu að helli einum; hún geingur inn í hann, og sèr þar tvær rekkjur, var silfurofin ábreiða yfir annari, en gullofin yfir hinni. Litast hún þar betur um, og sèr að kóngsson liggur í þeirri rekkjunni, sem gullofna ábreiðan var yfir; vill hún vekja hann, en getur ekki. Hún tekur þá eptir því, að einhverjar rúnir voru ritaðar á rekkjuna, sem hún skilur ekki. Eptir það geingur hún fram að hellisdyrum, og felur sig þar á hurðarbaki. En þegar hún er komin í þetta fylgsni, heyrir hún litlu síðar úti dunur miklar, og sèr, að tvær skessur stórskornar mjög koma inn í hellinn. Segir þá önnur þeirra, þegar þær eru inn komnar: „Fuss um fei; mannaþefur í helli okkar.“ En hin segir, að það sè af honum Hlini kóngssyni. Síðan gánga þær inn að rekkju þeirri, sem kóngsson svaf í, og segja svo:

„Sýngi, sýngi svanir mínir,
svo hann Hlini vakni.“

Síðan sýngja svanirnir, og Hlini vaknar. Ýngri skessan spyr hann þá að, hvort hann vilji ekki borða. En hann neitar því. Þá spyr hún hann, hvort hann vilji ekki eiga sig. Hann neitar því þverlega. Þá kallar hún upp og segir:

„Sýngi, sýngi svanir mínir,
svo hann Hlini sofni.“

Svanirnir súngu, og hann sofnar. Eptir það fara þær að sofa í rekkju þeirri, sem silfurofna ábreiðan var yfir. Um morguninn þegar þær vakna, vekja þær Hlini, og bjóða honum að borða; en hann vildi ekki; því næst spyr hin ýngri hann, hvort hann vilji ekki eiga sig; en hann neitar því sem áður. Þá svæfa þær hann á sama hátt og fyrri, og fara síðan burtu úr hellinum.

Þegar þær eru farnar fyrir lítilli stundu, fer Signý úr fylgsni sínu, og vekur kóngsson, eins og skessurnar höfðu að farið; síðan heilsar hún honum, en hann tekur kveðju hennar vingjarnlega, og spyr hana frètta. Hún segir honum alt af lètta, og um harm þann, sem faðir hans beri eptir hann. Síðan spyr hún hann um hagi hans. En hann segir, að þegar hann hafi orðið viðskila við hirðmenn föður síns, hafi hann hitt tvær skessur, og hafi þær farið með sig þángað; önnur þeirra hafi ætlað að neyða sig til að eiga sig, eins og hún hafi heyrt, en hann hafi ávalt aftekið það. „Nú skaltu“, segir Signý, „þegar skessan spyr þig í kvöld, hvort þú viljir ekki eiga sig, játast henni með því móti, að hún segi þèr, hvað ritað sè að rekkjurnar, og hvað þær sèu að gera á daginn.“ Þetta þykir kóngssyni óskaráð. Eptir það tók hann tafl, og bauð henni að tefla

við sig, og tefldu þau til kvölds. En þegar rökkva tók, svæfði hún hann og fór í fylgsni sitt. Litlu síðan heyrir hún, að skessurnar koma og ösla inn í hellinn með fuglakippu. Kveykja þær upp eld, og fer hin eldri að matreiða, en sú ýngri fer yfir að rekkjunni, og vekur Hlini, og spyr hann, hvort hann vilji borða. Hann þiggur það. Þegar hann er búinn að því, spyr hún hann, hvort hann vilji ekki eiga sig. Hann segist vilja það, ef hún segi sèr, hvað rúnirnar þýði, sem sèu á rekkjunum. Hún segir, að á þeim standi:

„Renni, renni rekkja mín
hvert sem maður vill.“

Hann lætur vel yfir því, en segir að hún verði að vinna meira til, og segja sèr, hvað þær hafist að úti á skóginum á daginn. Hún segir, að þær sèu að veiða dýr og fugla; en þegar þeim verði á milli með það, setjist þær undir eik eina, og hendi á milli sín fjöregginu sínu. Hann spyr, hvort nokkuð sè vanfarið með það. Skessan segir, að það megi ekki brotna; því þá sèu þær báðar dauðar. Kóngsson segir, að nú hafi hún gert vel, að segja sèr frá þessu, en hann vilji nú hvílast til morguns; hún biður hann ráða því og svæfir hann síðan. Um morguninn vekur hún hann, til að borða, og þiggur hann það. Þa spyr skessan hann, hvort hann vilji ekki koma með þeim út á skóg í dag; en hann segist heldur vilja vera heima. Síðan kveður skessan hann og svæfir, og fara þær að því búnu báðar burtu.

En þegar þær voru farnar fyrir góðum tíma, fer Signý og vekur kóngsson, biður hann að fara á fætur, „og skulum við“, segir hún, „fara út á skóg, þángað sem skessurnar eru. Þú skalt hafa spjót þitt með þèr, og þegar þær fara að kasta fjöregginu á milli sín, skaltu skjóta spjótinu í eggið; en líf þitt liggur við, ef þú hittir ekki.“ Kóngssyni þókti þetta óskaráð, og stíga þau síðan bæði upp í rekkjuna og mæla fyrir munni sèr: „Renni, renni rekkja mín út á skóg.“ Fer þá rekkjan á stað með þau bæði, og nemur ekki staðar, fyrr en úti á skógi við eik eina. Þar heyra þau hlátur mikinn. Signý segir þá við kóngsson, að hann skuli fara upp í eikina, og gjörir hann svo. Sèr hann þá báðar skessurnar undir eikinni, og heldur önnur þeirra á gulleggi, og snarar því að hinni. Í sama vetfángi skaut kóngsson spjótinu, og kom það í eggið á fluginu, svo það brotnaði. Við það brá skessunum svo, að þær ultu út af með froðufalli. Fer þá kóngsson ofan úr eikinni, og þau Signý heim í hellinn í rekkjunni á sama hátt, og áður. Tóku þau nú alt, sem fèmætt var í hellinum, og fyltu með því rekkjurnar báðar. Síðan stigu þau sitt í hvora og þuldu rekkjurúnirnar. En þær runnu heim í garðshorn með þau og allar gersemarnar. Karl og kerlíng fögnuðu þeim vel, og báðu þau þar að vera; þau þáðu það, og voru þar um nóttina. Snemma morguns daginn eptir fór Signý heim í kóngsríki, geingur fyrir kóng og kveður

hann. Kóngur spyr, hver hún sè. Hún segist vera karlsdóttir úr garðshorni, og spyr, hverju hann vilji launa sèr, ef hún geti fært honum son hans heilan á hófi. Kóngur segir að það bíði eingra svara, hún muni varla finna hann, þar sem eingum af sínum mönnum hafi tekizt það. Signý spyr, hvort hann vilji ekki leyfa sèr að taka sömu laun fyrir það, og hann hafi heitið öðrum, ef hún geti fundið son hans. Hann segir, að svo skuli vera. Signý fer þá aptur heim í garðshorn, og biður kóngsson að fylgja sèr heim í kóngshöll, og það gerir hann. Leiðir hún hann svo inn í höllina og fyrir kóng. Kóngur fagnar vel syni sínum, og biður hann að setjast sèr til hægri handar, og segja, hvað á dagana hafi drifið, frá því hann viltist frá mönnum sínum. Kóngsson sezt þá í hásæti hjá föður sínum, og býður Signýu að sitja á aðra hlið sèr, og segir svo frá sögunni, eins og hún hafði geingið, og að þessi kvennmaður sè lífgjafi sinn, sem hafi leyst sig úr trölla höndum. Síðan stendur Hlini upp, geingur fyrir föður sinn, og biður hann að leyfa sèr að taka þessa stúlku sèr fyrir konu. Kóngur leyfir það gjarnan, og lætur þegar stofna til veizlu, og býður til hennar öllum höfðíngjum ríkis síns. Stóð brúðkaupið í viku, og að því enduðu fór hver heim til sín, og lofuðu allir örlæti kóngs, er hafði leyst þá út með góðum gjöfum. En kóngsson og Signý unnust vel og leingi. Þar með endast þessi saga.

**Sagan af Hlinik kóngssyni og Þóru karlsdóttur.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu, og karl og kerlíng í garðshorni, eins og í flestum sögum segir. Kóngur átti sèr þrjá syni, Hlinik, Ásmund og Sigurð. Hlinik var elztur þeirra bræðra. Þegar þeir fóru að þroskast voru bræðurnir opt að leika sèr á hinum blómvöxnu grundum, og í hinum inndælu skemtigörðum, sem voru þar skamt frá höll konúngsins, föður þeirra. Karl og kerlíng í garðshorni áttu sèr eina dóttur barna, sem hèt Þóra. Var hún snemmindis bæði væn og sköruleg, þó hún væri af kotúnga kyni. En af því, að ekkert úngmenni var í kotinu, nema hún ein, þókti henni þar heldur dauflegt, og hyltist því til að vera þar á gángi, sem kóngssynirnir voru nálægt að leika sèr, og gaf sig stundum í flokk þeirra. En samt gætti hún þess ætíð, að vera kurteis og hæversk; líka sýndi hún af sèr þá stökustu geðprýði; því aldrei sást, að henni þækti sèrlega fyrir þó hún yrði fyrir einhverju skakkafalli eða halla hjá kóngssonunum, þegar þau voru öll að leika sèr. Þvert á móti miðlaði hún æfinlega málum, þegar eitthvað skarst í milli barnanna. Í fyrstunni fanst þeim kóngi og drottníngu ekki til, að karlsdóttir væri að leika sèr með sonum sínum, en þegar þau fóru að sjá hvílíkum kostum hún var búin, hættu þau öldúngis að skipta sèr neitt af því. Var karlsdóttir því ætíð með kóngssonum, þegar hún gat komizt höndum undir, en af því leiddi það, að Hlinik kóngssyni fór að

verða hlýtt til hennar, og henni ekki síður til hans; því hún fann, að hann var afbragðsmaður í öllu. Fór þessi vinátta þeirra svo í vöxt, að þau hètu á endanum hvort öðru trygð sinni, en ekki er þess getið, að þau lètu foreldra sína vita neitt af því. Uxu þau nú upp þángað til þau voru orðin fulltíða. Þá bar við sá atburður, sem öllum þókti undrum sæta, og öllum fèkk mikils harms og sorgar, en það var hvarf Hliniks kóngssonar. Fèkk það foreldrum hans þó mestrar hrygðar, og lètu þau leita hans leingi og víða, en hann fanst hvergi nokkurstaðar.

Þóra karlsdóttir var nú öldúngis óhuggandi, og vissi ekki hvað hún skyldi taka til bragðs. Hún átti fóstru eina, sem var fróð í fornum fræðum og fjölkunnug. Til hennar flúði Þóra, og biður hana nú duga sèr, og lofa sèr að vita, hvar Hlinik kóngssonur sè niður kominn, og ef unt væri, að koma sèr á fund hans. Kerlíng stundi þúngan, og sagði, að það væri einginn hægðarleikur að veita hið fyrra, en því síður að koma hinu síðara til leiðar; því kóngssonur mundi vera þar niður kominn, sem ekki væri hægt að komast. Samt sagði hún, að hún mætti finna sig næsta dag, ef hún vildi, og skyldi hún þá reyna til að gera henni einhverja úrlausn, eða láta hana verða einhvers vísari um þetta. Þessu varð Þóra allshugar fegin, og lèt ekki bíða leingi hinn næsta dag að heimsækja kerlu. Sagði þá fóstran, að tröll hefðu numið Hlinik burtu og flutt hann til undirheima. Sagði hún, að þar væri skessa ein, sem vildi þraungva honum til að eiga sig. Þegar Þóra heyrði þetta, varð hún frá sèr numin með öllu af hrygð og ángist. Fèll hún þá um háls fóstru sinni, og biður hana, að hafa einhver úrræði, til að koma sèr þángað, sem Hlinik væri; því hún sagðist vilja reyna, hvort einginn vegur væri til, að frelsa hann úr klóm óvættar þessarar. Við þessa kveinstafi og sárbeiðni Þóru viknaði fóstran mjög, og sagði, að fyrst hún gæti gert þetta fyrir hana, þá yrði nú líka svo að vera, þó sèr þækti það sárt, að verða að skilja við hana, helzt af því að sig grunaði, að þær mundu aldrei framar sjást. Sagðist kerlíng eiga til mórauða tík, sem hún skyldi hafa með sèr. „Skaltu fara á eptir tíkinni, hvert sem hún fer,“ segir kerlíng, „og ef myrkt verður á leiðinni, þá skaltu halda í rófuna á henni, svo þú skiljir ekki við hana, hvað dimt sem verður.“ Þegar þessari samræðu var lokið, tók Þóra við tíkinni. Síðan kvöddust þær fóstrur rækilega. Að því búnu fer Þóra á stað á eptir tíkinni. Kemur þá alt í einu yfir þær kolsvarta-myrkur, og tekur karlsdóttir í rófuna á tíkinni, og fer svo á eptir henni. Þær geingu nú leingi leingi á fram, svo að ekki sást neitt fyrir niðamyrkri. En á endanum komu þær þó þángað, sem lýsa fór, og loksins varð albjart kríng um þær. Komu þær þá brátt að helli, furðulega stórum. Þar fóru þær inn, og inn eptir honum, þángað til þær komu að læstri hurð innarlega í hellinum. Hurðin laukst sjálf upp fyrir þeim, og þóktist Þóra vita, að það myndi hún eiga fóstru sinni að þakka.

Komu þær þá inn í hús, ekki óþokkalegt. Ekkert var þar inni, nema dýrgripir nokkrir. Hèldu þær þá á fram, og varð þá önnur hurð fyrir þeim. Hún laukst upp fyrir þeim, eins og hin. Komu þær þá inn í ljómandi fallegt herbergi, alsett gulli og gimsteinum og margs konar fásènum gripum. Sá hún þar Hlinik sofandi í ljómandi rúmi, og var svo kostuleg ábreiða yfir, að hún þóktist aldrei slíka gersemi fyrri sèð hafa. Fyrir ofan rúmið hèkk mjög fagurt sverð, og leizt karlsdóttur, að það mundi vera ágætur gripur. Þar sá hún og þrjá steina, einn rauðan, einn svartan og einn hvítan, sem hún þóktist vita, að mundu vera náttúrusteinar. Einn fugl sat hjá rúminu. Þegar Þóra var búin að virða alt þetta fyrir sèr, fór hún að reyna til að vekja Hlinik. En hvernig sem hún reyndi til að vekja hann gat hún það þó ekki. Sèr hún þá, að hèr muni vera einhver brögð í tafli, og hættir nú að reyna til að vekja Hlinik. Fer hún þá að litast um, hvort hún sjái ekkert fylgsni fyrir sig og tíkina, sem þær gæti leynzt í. Finnur hún þá loksins afkima dálítinn, og legst í hann, en hefir tíkina hjá sèr. Að litilli stundu liðinni heyrir hún dunur miklar, og því næst háreysti. Var þá sagt frammi í hellinum: „Systir mín, nú ætla eg að biðja þig, að fara að matreiða, en eg ætla til Hliniks kóngssonar, og vita, hvort hann vill nú ekki eiga mig.“ Síðan kemur þessi ófreskja inn, og geingur að rúminu, sem Hlinik svaf í, og segir: „Sýngi, sýngi svanir mínir. Vakni Hlinik kóngsson.“ Og þegar hún hafði sagt þetta, fór fuglinn að sýngja, en við það vaknaði kóngsson. Fer nú skessan við hann mörgum fögrum orðum, og spyr hann að lyktum, hvort hann vilji sig ekki. En hann neitar því. Var hún þar samt kyr, þángað til hin skessan kom með matinn, og þó fæðan væri ekki sem mest krydduð, var hún þó svo, að kóngsson gat vel neytt hennar. Þegar máltíðinni var lokið, hafði skessan sömu aðferð og segir: „Sýngi, sýngi svanir mínir. Sofni Hlinik kóngsson.“ Sofnaði þá kóngsson undir eins, en skessurnar hlupu út, og skeldu aptur hurðinni. Komu þær aptur um morguninn, vöktu Hlinik með sama hætti og fyrri. Spurði hin mikla skessan hann sömu orðum og kvöldinu fyrir, hvort hann vildi ekki eiga sig, en hann neitaði því. Báru þær honum þá mat, eins og fyrri. Síðan svæfði skessan hann með sömu orðum og áður. Að því búnu geingu skessurnar út, og skeldu hurðinni í lás á eptir sèr.

Nú víkur sögunni til Þóru karlsdóttur, þar sem hún lá með tíkina í afkimanum. Þóktist hún vita, að skessurnar mundu vera á veiðum um daga, og reis nú upp. Gekk hún þá að rúminu, og hefir upp sömu orð, sem hún hafði heyrt skessuna hafa til að vekja Hlinik með. Vaknar kóngsson undir eins, og sèr hver komin er. Verður þar mesti fagnaðarfundur, eins og nærri má geta. Þegar þau voru búin að heilsast, fara þau nú að tala um raunir sínar, og taka saman ráð sín, hvað til bragðs skuli taka. Segir hann nú Þóru, að eldri skessan vilji neyða sig til að

eiga sig, og sè hún hèr húsmóðir. Hún hafi sókt sig hamfari og flutt sig híngað, en sèr þyki hèr ill æfi sín, en sjái eingin ráð til að komast burtu. Fór þá þóra að hressa hann, og sagði: „þú skalt í kvöld gefa skessunni kost á að eiga hana, með því skilyrði, að hún segi þèr, hverjir sèu kostir og náttúra ábreiðunnar yfir rúminu þínu, sverðsins og steinanna, en vilji hún ekki gánga að þessu, þá skaltu segja þessum málum lokið með öllu.“ Hlinik fèllst á ráðið, og þókti gott. þegar þau þóra höfðu nú talað saman fram undir kvöld, og hughreyst hvort annað, þá svæfir þóra hann aptur, og fer út í afkimann sinn með tíkina.

Um kvöldið þegar systurnar komu heim, kom sú sama fyrr inn, eins og vant var, vekur Hlinik á sama hátt og áður. Spyr hún hann þá enn sem fyrri, hvort hann vilji ekki eiga sig. Hlinik svarar seint, en segir þó á endanum, eptir að hann lèzt hafa hugsað sig um, að hann mundi gera það, ef hún segi sèr náttúru ábreiðunnar á rúminu sínu, sverðsins og steinanna. Skessunni varð bylt við þetta, og lèzt mundi segja honum sumar náttúrur gripanna. En hann krefst að vita annaðhvort allar, eða einga. En vegna þess að skessunni var nauðugur einn kostur, þá segir hún, að ábreiðunni fylgi sú náttúra, að á henni megi lesa sig upp á jarðríki, og hvert sem maður annars vill fara. „En sú náttúra fylgir sverðinu, að það eitt bítur á mig og hann Járnhaus bróður minn, en okkur má ekkert járn annað granda,“ segir skessan. „En sú er náttúra steinanna,“ segir hún, „að þegar pjakkað er í rauða steininn, þá kemur eldur, sem alt brennir, en ef pjakkað er í þann hvíta, þá kemur snjór, en regn, ef pjakkað er í þann svarta“.[1] Sagði hún, að hver maður dæi, sem þetta kæmi á, sem úr steinunum hryti, en helzt þó af eldíngunum úr rauða steininum, nema þau Járnhaus bróðir sinn, og þeir, sem undir ábreiðunni sèu. þegar skessan hafði sagt þetta, segir Hlinik, að þær systurnar skuli undir eins í bítið daginn eptir fara að bjóða til brúðkaupsins; því hann vilji hraða því sem allra mest. Skessunni þókti þetta óskaráð, og sagðist mundi gjöra alt það, sem kóngsson vildi. Hleypur hún síðan fram í hellinn með skellihlátrum af fögnuði, og tröllalátum, til að segja systur sinni, hvar komið var. Ætlaði þá hellirinn að hrynja niður við feginslæti systranna; því þó þá ýngri lángaði líka til að eiga kóngsson, varð hún samt að samfagna eldri systurinni. Að svo búnu var Hlinik gefinn matur, eins og vant var. Síðan tóku þær systur á sig náðir, en um morguninn í dögun fóru þær á stað til að bjóða í veizluna.

þegar þóra varð þess vör, að skessurnar voru farnar úr hellinum, lèt hún ekki bíða að vekja Hlinik. Taka þau nú svo mikið með sèr af dýrgripum, sem þau máttu bera, og náttúrugripina alla. Halda þau nú öll á stað, Hlinik, þóra og tíkin. Sjá þau þá hvar boðsfólkið kom í hópum,

---

1. Sbr. Fms. III, 193. bls.

og voru það alt tómir risar, tröll og jötnar. Lízt nú Hlinik ekki á að mæta þessum körlum, og fer að pjakka í steinana. Sèr hann þá, að það er satt, sem kerlíngin hafði sagt; því þar fèll hvor hópurinn um annan þveran, sem hann var kominn. Herti hann sig þá því meir að pjakka í steinana, þángað til hann sá eingan koma framar. Að því búnu hèldu þau Hlinik á fram ferð sinni. Er ekki getið um, hvað þau voru leingi á leiðinni. En þar kom, að þau náðu heim til hallar kóngsins, föður Hliniks. Varð þar meiri fagnaðarfundur, en frá megi segja. Sagði Hlinik nú frá öllu, sem við hafði borið, og hvernig Þóra hefði frelsað sig úr tröllа höndum. Urðu foreldrar Hliniks þessu svo fegnir, að þau ákváðu þegar, nær þau Hlinik og Þóra skyldu halda brúðkaup sitt; því það var nú svo sem sjálfsagt, að Þóra skyldi eiga kóngsson í bjarglaun. Daginn fyrir brúðkaupið voru hjónaefnin á gángi hjá borginni, en hún var skamt frá sjó. Sáu þau þá skip koma siglandi af hafi. Var það alt logagylt, og skein, sem á sólu sæi. Þá varð Hlinik eins og tryltur og vildi fara niður til strandar og skoða skipið, og vita, hverjir á því væru. En Þóra leitaðist við á allar lundir að aptra honum frá því, og sagði, að þetta væru alt missýníngar, en ekkert annað. Hann bað hana að fara ekki með slíkan hègóma. Sleit hann sig af henni og fór einsamall til strandar; því Þóra vildi ekki verða samferða. Þegar hann kom til strandar, þókti honum ekki koma eins mikið til skipsins, eins og til stúlku þeirrar, sem á því var. Án þess að spyrja, hvaðan hún kæmi, eða hver hún væri, býður hann hinni ókunnu mey heim til hallar; því hann hafði undir eins feingið ást á henni. Hún þáði boðið, og gekk heim til hallarinnar með kóngssyni. Er þar stutt af að segja, að Hlinik gleymdi nú öldúngis Þóru sinni, og ásetti sèr að gánga að eiga hina fríðu mey innan fárra daga. Þessu undi Þóra mjög illa, og það því heldur, sem hún sá, að þetta var ekki einleikið; því eptir að mærin var komin til hallarinnar, þá fóru að smáhverfa menn úr hirðinni, og vissi einginn hvað af þeim varð. Þóra tók nú það til bragðs, að hún fèkk sèr karlmannsbúníng, og fer á fund Ásmundar kóngssonar. Fær hún hann undir eins í tal. Spyr hún hann þá hve nær brúðkaup kóngssonar eigi fram að fara; því hún þóktist þá vissust í sinni sök, að ekki mundi verða logið að sèr, ef hún spyrði einhvern kóngssonanna að þessu. Hann sagði brúðkaupið ætti að verða að morgni. Fer hún þá til Sigurðar og spurði hann hins sama, og fèkk sömu svör. Síðan biður hún hann að koma sèr á framfæri við Hlinik kóngsson, og heitir hann því. Fara þau síðan, Sigurður og Þóra í karlmannsfötunum á fund Hliniks, en hann spyr, hvað karl þessi vilji sèr, og segist ekki hafa lángan tíma til að gegna slíkum gestum. Karlinn segir, að lítið muni virðast erindi sitt; því það sè ekki annað, en spyrja hann, hve nær hann ætli að gánga að eiga festarmeyu sína. Segir hann sèr þyki mikið við liggja, að hann fái að vita það uppá víst. Hlinik lá við að firtast af þessari dælsku

karlsins, en segir honum þó hið sanna. Þá spyr karlinn hann, hvort hann hafi nokkurn tíma skoðað þessa heitmey sína í einrúmi, eða sèð hana, þegar hún hafi ímyndað sèr, að einginn sæi til sín. Hlinik segist varla muni sjá hana betur hèr eptir, en híngað til, þó ekki hafi hann sèð hana, þegar svona hafi staðið á. Karlinn biður hann þá um, að mega koma þángað með honum, sem þeir geti dálitla stund horft á hana í einrúmi. Hlinik leyfir það, þó honum þækti þessi bón karlsins æði skrýtin og nærgaungul. Fara þeir síðan að herbergi því, sem mærin var inni í, og finna á því rifu, eða smugu, sem þeir gátu sèð í gegn um. Sjá þeir þá í herberginu einga fríða mey, heldur herfilega ófreskju, sem nú kallaði: „Járnhaus bróðir, gef mèr nokkuð að jeta.“ En þegar hún var búin að segja þetta, kemur þríhöfðaður þussi upp úr gólfinu með einn af hirðmönnum konúngs. En ófreskjan tók við manninum og reif hann í sig, eins og rakki hross-skrokk. Gánga þeir Hlinik nú burt, og spyr karlinn hann, hvernig honum lítist á, og hvort honum þyki ekki heitmey sín furðu drottníngarleg, eða hvort hann vildi nú ekki öllu heldur hafa haldið trygð við Þóru karlsdóttur, sem nú sè óvíst hvar sè niður komin; því hún muni hafa tekið sig frá öllum öðrum mönnum, vegna mæðu þeirrar, sem henni hafi borið að höndum, þar eð honum hafi farizt svo illa við hana.

Hlinik hafði verið nóg boðið að sjá drottníngarefni sitt jeta hirðmanninn, svo hann gat nú ekki látið sèr þykja fyrir við karlinn, þó hann rausaði, heldur varð hann mjög ángurvær út úr öllu saman. Þegar karlinn sèr það, spyr hann Hlinik að, hvort hann eigi ekki að reyna til að leita Þóru karlsdóttur uppi. Kóngsson varð feginn boðinu, og bað karlinn blessaðan að gera það. Er nú karlinn ekki leingi á sèr, heldur skundar hann þángað, sem föt Þóru voru geymd, fer í þau, og verður nú Þóra sjálf. Geingur hún síðan aptur til Hliniks, og verður hann henni allshugar feginn. Segir hann henni, hvernig komið sè, að hann hafi verið töfraður, og sèr hafi verið viltar sjónir, og spyr hana, hvað hún haldi sèr ráðlegast til bragðs að taka. Hún ræður honum, að látast ætla að halda brúðkaup sitt til hennar á þeim tíma, sem ákveðinn var, en segist hafa hjá sèr sverðið góða; því hún hafi aldrei skilið það við sig, af því sig hafi leingi grunað, að það myndi einhvern tíma koma í góðar þarfir. Biður nú Þóra Hlinik að taka við því, og vega skessuna með því; því það verði hann að gjöra sjálfur, af því að einginn annar muni bera til þess þrek nè gæfu. Segir hún, að sèr þyki líklegt að hann muni geta það sökum fríðleikans, ef hann lofi sèr að koma inn í brúðarsalinn, og setjast honum til annarar handar. Hlinik tekur nú við sverðinu, og lofar að fara svo að öllu, sem hún hefði lagt ráðin á.

Daginn eptir var stofnuð veizla í höllinni og drottníngarefnið leitt til sætis hjá Hlinik kóngssyni. En skömmu síðar kemur inn í höllina Þóra karlsdóttir í skrúðklæðum sínum. Geingur hún inn eptir brúðarsalnum, og sezt á aðra hönd brúðgumanum. Við það varð öllum nokkuð kynlega

í höllinni, en brúðinni brá svo við, að hún skipti litum; en fyrr en nokkurn varði, rekur Hlinik hana í gegn með sverðinu. Rak hún þá upp org mikið, og fèll í sama bili á fram úr sætinu á gólfið. En í sama augnabragði brast hallargólfið upp, og ryðst þar upp þríhöfðaður þussi. Það var Járnhaus, bróðir skessunnar. Steypti hann um öllum borðunum, og óð fram í jötunmóði. En Hlinik fer móti honum, og hjó hann banahögg með sverðinu. Var þá ræst til í höllinni, og veizlan að nýu hafin. Sagði þá Þóra frá, hvernig hún hefði leyst kóngsson af töfravaldi skessunnar, systur Járnhauss jötuns. Settist Þóra síðan á brúðarbekk hjá Hlinik, og var nú brúðkaup þeirra drukkið bæði vel og leingi, með alls konar glaðværð. Að föður Hliniks látnum tók hann við ríkinu, og lifðu þau Þóra bæði leingi og vel, og ekki kann eg þessa sögu leingri.

**Bángsímon.** (Eptir húsfrú Ragnheiði Eggertsdóttur á Fitjum í Skoradal.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu. Þau áttu son, sem Sigurður hèt. Í garðshorni, skamt þaðan, bjó karl og kerlíng; hann hèt Bángsímon. Þau áttu eina dóttur, sem Helga hèt. Hún var jafngömul Sigurði kóngssyni, og lèku þau sèr opt saman í æsku. Svo bar við, að kóngur misti drottníngu sína; syrgði hann hana mjög og sat opt á haugi hennar, og sinti ekki ríkisstjórn. Ráðgjöfum hans og hirðmönnum þókti svo mikið mein í þessu, að þeir geingu fyrir kóng, og báðu hann hætta harmatölum sínum, og buðust til að fara og leita honum kvonfángs. Honum líkaði þetta ráð vel, en bað þá um að taka hvorki eyafífl, annesjafljóð nè skógarkonu. Þeir hètu honum góðu um það, og bjuggust síðan til ferðar. Feingu þeir svo hafvillur miklar og sjóvolk, og gekk þeim seint ferðin. Loksins sáu þeir sorta mikinn fyrir stafni, og það með, að þetta var eyland. Þeir geingu á land, og fóru, þángað til þeir komu að tjaldi einu. Sáu þeir þar fríða konu, sem sat á stóli, og var að greiða hár sitt með gullkambi. Hún spurði þá, hvert þeir væru að fara, og hvert erindi þeirra væri. En þeir sögðu til hið sanna. Hún sagði: „Það er þá líkt á komið með kóngi yðar og mèr; því fyrir stuttu hefi eg mist mann minn. Hann var yfirkóngur 20 smákónga; víkíngar rèðust á ríkið, kóngur fèll, en eg flýði híngað.“ Báðu þeir hennar svo til handa kóngi sínum, og tók hún þeim málum vel. Síðan stigu þau öll á skip, og gekk þeim ferðin vel heim. Þegar kóngur sá til ferða þeirra, lèt hann aka sèr í vagni til strandar, og bauð hann drottníngu að stíga í vagninn hjá sèr, og var þeim svo báðum ekið heim. Með því kóngi geðjaðist vel að drottníngu þessari, hóf hann bónorð sitt til hennar, og tók hún því vel. Lèt hann þá efna til mikillar veizlu, og drakk brúðkaup sitt til hennar. Sigurður kóngsson skipti sèr lítið af stjúpu sinni, og vildi sem minnst eiga saman við hana að sælda. Nú líður og bíður, þángað til drottníng verður veik, og þókti kóngi það ílt. Spurði hann þá drottníngu, hvort þetta mundi verða helsótt eða skrópasótt. En

hún lèzt ætla, að það mundi verða helsótt, og bað hún kóng að gera það fyrir sig, að láta Sigurð son sinn vaka yfir sèr 3 fyrstu næturnar í herbergi því, sem hún tók til, þegar hún væri dáin. Fór nú svo, sem drottníng gat til, að þetta var helsótt, og lèt kóngur flytja lík hennar í herbergi það, sem hún hafði tiltekið, og búa um það, eins og hún hafði sagt fyrir. Síðan bað kóngur son sinn að vaka yfir líkinu; en hann mæltist undan því í fyrstu. Kóngur varð þá bistur við hann, og skipaði honum það, svo Sigurður þorði ekki annað en lofa að gera það. En af því hann var bæði myrkfælinn og líkhræddur, fór hann til Helgu karlsdóttur, og bað hana að fá Bángsímon föður sinn, til að vaka fyrir sig. Karl var tregur til þess í fyrstu, en lèt þó til leiðast, og hèt að vaka fyrstu nóttina; fór hann svo heim í herbergi það, sem líkið lá í um kvöldið. En þegar hann kom þar inn, spyr drottníng: „Hver er þar?“ „Bángsímon karl í garðshorni,“ segir hann. „Svei þèr, skömmin þín; ekki átt þú að vaka yfir mèr; Sigurður kóngsson á að vaka yfir mèr. Eru fölir fætur mínir?“ segir hún. „Fölir svo sem grasstrá,“ segir hann. „Þá er bezt að bera sig til,“ segir hún. Með það reis hún upp af líkbörunum, og rèðst á Bángsímon, og áttust þau við alt til dags. Þegar dagur rann, lagðist hún fyrir, eins og áður, en karl fór heim í kot sitt. Alt eins fór aðra nóttina, og eptir það neitaði karl með öllu að vaka hjá henni þriðju nóttina, en gerði það þó fyrir bænastað dóttur sinnar, að vera þar þá einu nóttina, sem eptir var. En áður en hann fór, sagði hann þeim Sigurði og Helgu, að þau mættu giptast að þremur árum liðnum, ef hann yrði ekki kominn aptur innan þess tíma. Fór karl svo heim í kóngsríki, og í herbergi það, sem líkið var í, og fórust þeim drottníngu og honum sömu orð í milli, og áður, og glímdu síðan til dags. Þegar dagur rann, varð hún að gammi, en hann að flugdreka; flugust þeir á í loptinu, og flugu yfir láð og lög, uns þau komu að landi einu, þar varð drottníng undir í skiptunum, og ætlaði karl að bíta hana á barkann. Baðst hún þá friðar, og hèt karli að launa honum lífgjöfina, þegar hún væri orðin kóngsdóttir í því ríki. „Hvernig ætlar þú að fara að því?“ segir karl. „Eg ætla að gera mig að dálitlu barni, og láta kónginn finna mig, þegar hann fer á dýraveiðar,“ segir hún. Karl lèt hana þá lausa, og fór hún í skóg einn mikinn skamt þaðan. Næsta dag eptir fór kóngurinn í ríkinu á veiðar, og fann í skóginum frítt meybarn; tók hann það heim með sèr og ól það upp, sem eigin dóttur sína; því þau kóngur og drottníng voru áður barnlaus. Mær þessi dafnaði svo fljótt, að furðu gegndi. Karlinn Bángsímon hafði komið til kóngshallar og dvaldist þar; var hann látinn berja fisk og gera annað slíkt. Þegar fram liðu stundir, tók fósturdóttir kóngsins upp á því, að bíta sig í fíngurnar, svo blæddi úr; sagði hún, að karlinn, sem hèrna væri, færi svona með sig. Þókti kóngi og drottníngu mjög fyrir við karl; en þó var hann ekki rekinn burtu að heldur. Einu sinni, þegar kóngsdóttir þessi

var á gángi ein sèr, spurði Bángsímon hana, nær hún ætlaði að launa sèr lífgjöfina. Hún lèzt mundi gera það, þegar hún væri orðin kóngsdrottníng þar í ríkinu. „Hvernig ætlarðu að fara að því?“ segir karl. „Eg ætla,“ segir hún, „að biðja drottnínguna að sýna mèr gripasafnið, því hún lætur alt eptir mèr. Eg ætla að láta hana fara upp stigann á undan mèr, sem þángað liggur upp; en sjálf ætla eg á eptir, og þegar hún er komin í efstu stigarimina, ætla eg að kippa stiganum undan henni, svo hún hálsbrotni, dysja hana þar undir stiganum, fara í fötin hennar, og svo ímyndar kóngurinn sèr, að eg sè konan hans.“ Síðan skildu þau karl. Fám dögum síðar saknaði kóngur dóttur sinnar, og sagði drottníng, að líkast væri, að fiskakarlinn, sem hefði einlægt verið að hrekkja hana, hefði sèð fyrir henni. Var karl þá tekinn fastur, og átti að leiða hann á bál og brenna, hvernig sem hann bar það af sèr, að hann hefði drepið kóngsdóttur. Var hann síðan leiddur að bálinu, og voru þau kóngur og drottníng þar við einnig. En áður en karli væri hrundið á bálið, baðst hann þess, að kóngur veitti sèr eina bæn, og þó ekki líf. Kóngur hèt honum því. Bað karl þá drottníngu að segja æfisögu sína. Hún sagði það væri fljótgert; því hún hefði verið kóngsdóttir, og síðan hefði hún gipzt kónginum, sem hún ætti nú, og síðan vissu allir um framferði sitt. Karl sagði þá upp hátt alla æfi hennar, frá því hún kom þar á land. Brást hún þá í flugdreka líki, og flaug á karlinn. En hann tók belg undan skikkju sinni, og kastaði yfir höfuð henni, svo hún lenti á bálinu og brann. Rèð karl þá kóngi til að láta grafa upp hjá stiganum, sem lá upp í gripasafnið. Var það svo gert, og fanst alt, eins og karl hafði frá sagt; þakkaði kóngur karli með mörgum fögrum orðum, að hann hefði frelsað sig frá þessari ókind, gaf honum skip og menn á, og sigldi karl síðan heimleiðis. En af Sigurði er það að segja, að hann hafði mist föður sinn meðan Bángsímon var erlendis, og hafði tekið við ríkisstjórn. Þegar karl kom heim, var Sigurður að halda brúðkaup sitt til Helgu; því þá voru liðin 3 ár frá því karl fór að heiman; varð þar því hinn mesti fagnafundur. Lifðu þau hjón síðan leingi saman með veg og virðíngu, og lýkur svo sögunni af Bángsímon.

**Sagan af Þorsteini karlssyni.** (Eptir sögn vestan úr Dölum.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu. Þau áttu sèr tólf sonu; ekki er getið um nöfn þeirra. Skamt þar frá var karl og kerlíng í garðshorni. Þau áttu einn son, sem Þorsteinn hèt. Allir þessir menn voru frumvaxta, þegar hèr var komið. Einu sinni fóru kóngssynir allir út á skóg einn góðan veðurdag og ætluðu að skjóta dýr og fugla. En þegar kom fram á daginn, gerði allra mesta óveður með húðar rigníngu. Þeir voru komnir lángt inn í skóginn frá hestum sínum og rötuðu ekki til þeirra aptur, en viltust æ leingra, því leingur sem þeir geingu. Loksins komu þeir að helli í háum björgum, þar sáu þeir skessu stóra, svarta og illilega, og

11 flagðkonur ýngri og hina tólftu, sem þeim sýndist vera með mennsku móti. Skessan tók þeim kóngssonum vel og bauð þeim þar að vera, og urðu þeir því fegnir, því veður var ílt, en þeir bæði þreyttir, húngraðir og syfjaðir. Síðan bar skessan gamla mat fyrir þá og snæddu þeir lyst sína. Þegar þeir höfðu matazt, og flagðkonurnar voru allar úti, sagði hin mennska stúlka þeim, að þeir væru, sem þeir sæu, komnir í trölla hendur og væru þeir ekki hinir fyrstu, sem skessan hefði seitt þángað og drepið til fjár. Sagði hún þeim, að skessan mundi láta þá sofa sinn hjá hverri dóttur hennar, en einn þeirra hjá sèr, og svæfi hún innst. En þegar hún hèldi þeir væru sofnaðir, mundi kerlíng fara ofan, sækja ljós og hafa skálm með sèr og höggva þá alla fram af rúmstokknum. Skyldu þeir því hafa það bragðalag á, að þeir skyldu raka hárið af flagðkonunum, þegar þær væru sofnaðar, fara upp fyrir þær í rúmunum og setja sjálfir upp húfurnar þeirra; mundi skessan ekki vara sig á þeim umskiptum í rúmunum og höggva allar dætur sínar í stað þeirra. En ef þeim þækti nokkurs um þetta vert, yrðu þeir að stökkva á fætur, þegar skessan ætlaði að innsta rúminu, og fyrirkoma henni. Hún sagði og, að skessan hefði numið sig úr öðru kóngsríki, til að þjóna henni og dætrum hennar, og væri hún kóngsdóttir. Síðan komu skessurnar inn í hellinn, og bauð gamla skessan kóngssonunum að gánga til rekkna, en svo væri nú sængum varið hjá sèr, að sinn yrði að sofa hjá hverri dóttur sinni. Þeir þektust það og lögðust fyrir. Síðan háttuðu flagðkonurnar og mennska stúlkan með hálfum huga hjá kóngssonunum. Flagðkonurnar sofnuðu skjótt og tóku þá kóngssynirnir til starfa og skubbuðu af þeim strýið sofandi, settu upp á sig húfurnar af þeim og lögðust fyrir ofan þær, en höfðu andvara á sèr og sofnuðu ekki. Þegar leið leingra fram á nóttina, fer skessan gamla á fætur og fram, en kemur aptur með ljós í annari hendi, og skálm mikla í hinni. Hún setur af sèr ljósið á hellisgólfið, en geingur með reidda skálmina að fremsta rúminu, kippir flagðkonunni fram á stokkinn, og heggur þar af henni hausinn, svo hann hrýtur fram á hellisgólfið. Síðan hjó hún á sama hátt hverja af annarri dætra sinna, því þær lágu allar nær stokki, uns hún var komin að innsta rúminu. Þá spruttu kóngssynirnir allir á fætur, rèðust á skessuna og feldu hana. Sá hún þá, að þeir höfðu gabbað sig skemmilega, og að hún hafði drepið allar dætur sínar í stað þeirra og þóktist vita, að þetta mundu saman tekin ráð mennsku stúlkunnar og kóngssona. Þegar svona var komið fyrir henni, og hún gat eingri vörn leingur við komið, lagði hún það á þá bræður, að þeir skyldu verða að nautum og skyldu þeir koma í þessum nautsham heim að höll föður síns á hverjum degi og aldrei úr honum komast, nema einu sinni í sólarhríng, meðan þeir mötuðust, en það skyldu þeir gera í hólma einum í stóru vatni, lángt frá öllum mannavegum; aldrei skyldu þeir úr þeim álögum komast, fyrr en einhver væri svo vaskur

maður, að hann gæti fært þeim sama mat að borða heima í kóngsríki, sem þeir borðuðu sjálfir í hólmanum. En á stúlkuna lagði hún það, að hún skyldi þaðan í frá ausa vatni milli tveggja brunna, úr einum í annan, ekki lángt frá vatninu, og sinna eingu öðru. Aldrei skyldi hún úr þeim álögum komast, fyrr en einhver gæti laumast svo aptan að henni, að hún vissi ekki fyrri til, en sá hinn sami feldi hana; en hvorttveggja sagði hún að seint mundi verða. Eptir það drápu kóngssynir hana og brendu upp til kaldra kola, og hurfu svo undir ánauð sína og stúlkan með þeim. Nú er þar til að taka, að kóngur fer að undrast um burtuveru sona sinna, þegar þeir koma ekki heim um kvöldið eða nóttina, eptir að þeir hurfu. Safnar hann þá múg og margmenni og lætur leita þeirra leingi og vel; en það varð alt árángurslaust, og var svo hætt leitinni, þó kóngur bærist illa af. Þegar frá leið, tóku menn eptir því, að 12 naut komu á hverjum degi heim í kóngsríki, og voru að dunsna þar. Þau lögðu til einkis manns og einginn heldur til þeirra. Kóngi aflaði þessi venjubrigði nokkurrar áhyggju, og lèt færa nautum þessum alls konar fóður, en þau vildu í ekkert taka, og fóru æfinlega burt aptur í sama mund eptir litla viðdvöl. Það er þessu næst frá Þorsteini í garðshorni að segja, að hann heyrir, eins og aðrir, um hvarf kóngssona og að þau venjubrigði eru orðin heima í kóngsríki, að þángað koma 12 naut á hverjum degi, og lángar hann til að komast betur eptir þessu. Hann biður því foreldra sína að lofa sèr að fara til veturvistar heim í kóngsríki, og þyki sèr dauflegt í kotinu hjá þeim. Þau veita honum það, og svo fer Þorsteinn heim, geingur fyrir kóng og biður hann veturvistar. Kóngur spyr, því hann beiðist þess. Þorsteinn segir, að sig lángi til að sjá mannasiði og mannast sjálfur, en æfi sín sè dauflegt í garðshorni. Kóngur leyfði honum þá veturvist hjá sèr, og settist Þorsteinn svo þar að. Hann talaði opt við kóng um hvarf sona hans, og hvað af þeim væri orðið. Rann þá jafnan út í fyrir kóngi, og vèk því tali hjá sèr. Þorsteinn inti þá til við hann um þessi 12 naut, sem þar kæmu, hvernig á þeim stæði, og lèzt kóngur ekki vita það, en þó þækti sèr undarlegt, að þau legðu þángað leiðir sínar á hverjum degi, og vænt mundi sèr þykja um þann, sem gæti orðið þess vísari, hvaðan þau væri. Þorsteinn einsetti sèr nú að grenslast betur eptir um nautin, og fór því einn dag og fylgdi þeim, þegar þau fóru burt aptur frá höllinni; en svo fóru þau hart, að hann varð að hlaupa blóðspreing sinn, til þess að missa ekki sjónar á þeim, og fleygði af sèr öllum þeim klæðum, sem hann gat við sig losað. Loksins komu nautin að vatni einu og lögðu þegar á sund út í það öll, nema hið aptasta, það biðlokaði lítið eitt við landið, eins og það væri að bíða eptir Þorsteini, en hin syntu af til hólmans í vatninu. Þegar Þorsteinn kom að vatninu, benti nautið honum að fara sèr á bak, og það gerði hann; en nautið synti með hann útí hólmann, tók síðan undir sig stökk heim að skála, sem þar var í hólmanum. Þegar Þorsteinn kom

að skálanum, sá hann, að þar lágu 12 nautshamir úti fyrir, en inni í skálanum sátu 12 menn að máltíð. Þorsteinn þóktist nú vita, að þetta væru kóngssynir og hefðu þeir orðið fyrir álögum; hann gekk svo í skálann, en yrti hvorki á þá, nè þeir á hann, nè heldur töluðust þeir við sín á milli. Þeir gáfu honum af mat sínum bæði brauð og vín, og tók hann við því, og geymdi, en neytti þess ekki. Þegar þeir höfðu matazt, fóru þeir út aptur og í nautshamina og lögðust enn til sunds yfir vatnið. Þó varð eitt nautið eptir, og fór Þorsteinn því á bak, og synti það með hann til lands. Þegar hann var orðinn landfastur, stukku nautin frá honum, svo hann sá hvorki veður nè reyk eptir af þeim; gekk hann svo um stund, þángað til hann sá konu nokkra; hún var í óða önn að ausa vatn úr einum brunni í annan og var ekki öðru líkara athæfi hennar, en að hún væri ær og örvita; ekki gætti hún neitt ferða Þorsteins, fyrri en hann kom aptan að henni og feldi hana. Þá var eins og rynni á hana ómegin, svo hún hreifði hvorki legg nè lið. Þorsteinn tók þá vatn úr brunninum öðrum og dreypti á hana. Raknaði hún skjótt við, og þakkaði Þorsteini með mörgum fögrum orðum lausn sína frá þessari ánauð, og sagði honum allan aðdragandann, og eins hvernig nautunum væri varið, og að þau mundu aldrei komast úr sínum álögum, fyrr en þeim væri gefin sama fæða hjá mennskum mönnum, sem þau væru vön að neyta í hólmanum, þegar þau færu úr nautshömunum. Eptir þetta fara þau Þorsteinn heimleiðis, og fer hann með hana í garðshorn, og biður karl og kerlíngu að geyma hana fyrir sig um sinn, og láta ekkert að henni gánga. Síðan fer hann heim í kóngsríki og segir fátt af ferðum sínum. Daginn eptir, þegar nautin koma heim, er Þorsteinn á vakki, og býður þeim bæði brauðið og vínið, sem hann hafði þegið af þeim daginn áður í skálanum, og neyta þau öll af hvorutveggja. En þegar þau höfðu neytt, leggjast þau fyrir, og detta af þeim nautshamirnir. Þorsteinn lætur þá kalla á kóng, og biður hann að gá að, hvort hann þekki þessa menn, sem þar lágu, og þykist kóngur þekkja þar syni sína; er nú dreypt á þá og þeir lífgaðir. Verður þar fagnaðarfundur með kóngi og sonum hans. Síðan sækir Þorsteinn kóngsdóttur þá, sem hann hafði komið fyrir í garðshorni, og segir hún svo og kóngssynirnir frá öllum raunum sínum, og hvernig Þorsteinn hafði frelsað þau úr þessum álögum. Eptir það heldur kóngur veizlu, til að fagna sonum sínum og kóngsdóttur, og að þeirri veizlu hefur Þorsteinn bónorð sitt og biður kóngsdóttur. Það mál var auðsókt við hana. Sneri þá kóngur fagnaðarölinu upp í brúðkaupsveizlu þeirra Þorsteins og kóngsdóttur, og bauð þeim að vera hjá sèr, svo leingi sem þau vildu, því hann þóktist eiga þeim að launa líf og lausn sona sinna. Kóngssynirnir lýstu því þá yfir, að þeir vildu gefa Þorsteini alla þá von, sem þeir ættu til ríkisins eptir dag föður þeirra, og launa honum svo og kóngsdóttur lífgjöf þeirra og lausn. Þessu varð kóngur

samþykkur og tók svo Þorsteinn við ríki eptir lát kóngs og settist að því með drottníngu sinni. Síðan hafa fáar sögur frá þeim geingið.

**Karlssonur, Lítill, Trítill og fuglarnir.** (Eptir sögn manna í Kjalarnessþíngi. M. G.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu, og karl og kerlíng í koti sínu. Kóngurinn átti sèr eina dóttur, sem hann hèlt ósköp mikið upp á. En honum vildi sú mæða til, að dóttir hans hvarf, og fanst hvergi nokkursstaðar, hvernig sem hennar var leitað. Kóngur vann þá það heit, að hver sem fyndi hana, og færði sèr hana, skyldi fá hana fyrir konu. En þó margir reyndu til að vinna til svo góðs kvonfángs, fanst kóngsdóttir þó ekki, og komu leitarmenn æfinlega jafnnærir aptur. Það er frá karlinum að segja, að hann átti þrjá syni, og hèlt hann ósköp mikið upp á tvo þá eldri, en sá ýngsti var hafður út undan hjá foreldrum sínum og bræðrum. Þegar þeir voru upp komnir, karlssynirnir, þá sagðist elzti bróðirinn einu sinni vilja fara, og leita sèr fjár og frægðar. Foreldrar hans leyfðu það. Lagði hann nú á stað með nesti og nýa skó, og gekk nú leingi leingi. Loksins kom hann að hóli einum. Þar settist hann niður til að hvíla sig. Tók hann þá nesti sitt og fór að èta. Kemur þar þá til hans dálítill karl, og biður hann að gefa sèr bita. Karlsson neitaði því, rak hann burtu frá sèr, og lèt hann fara svo búinn. Síðan gekk hann enn leingi leingi á fram, þángað til hann kemur að öðrum hól. Þar sezt hann niður og fer að èta. En á meðan kemur þar til hans ofurlítill og skrýtilegur karl, sem biður hann að gefa sèr bita. En karlsson neitaði honum um bænina, og sneypti hann burtu frá sèr mèð illyrðum. Enn gekk karlsson leingi leingi á fram, þángað til hann kom í rjóður. Þar sezt hann niður að èta. En á meðan hann er að því, kemur þar til hans fuglahópur, og mjög nærri honum. Hann reiðist fuglunum, og ber þá frá sèr. Karlsson heldur nú enn á fram, og geingur, þángað til hann kemur á endanum að stórum helli. Hann geingur þar inn, og verður þar eingrar lifandi skepnu var. Ætlar hann þá að bíða þess, að hellisbúinn komi. Á áliðnum degi kemur ósköp stór skessa inn í hellinn. Hann biður hana að lofa sèr að vera. Hún segist skuli gjöra það, ef hann vinni það fyrir sig á morgun, sem hún segi honum. Hann játar því. Er hann svo í hellinum um nóttina. Um morguninn skipar skessan honum að moka hellinn, og vera búinn að því um kvöldið; því annars skuli hún drepa hann. Síðan fer hún burtu. Karlsson þrífur nú rekuna, og ætlar að fara að moka, en undir eins og hann stakk rekunni niður, festist hún við hellisgólfið, svo hann gat ekki bifað henni. Um kvöldið, þegar skessan kom heim, var hellirinn ómokaður, eins og nærri má geta. Hafði hún þá eingar veltur á því, nema hún tók karlsson og drap hann, og er hann úr sögunni.

Nú víkur sögunni heim í kotið til karls og kerlíngar. Miðsonurinn biður þau nú, að lofa sèr að fara burtu, til að leita sèr fjár og frægðar. Segist hann ekki una þar heima leingur, þar sem eldri bróðir sinn sè þá efalaust orðinn að einhverjum hefðarmanni hjá einhverjum kónginum. Foreldrar hans leyfa honum að fara, og búa hann út með nesti og nýa skó. Er ekki annað af honum að segja, en að alt fór á sömu leið fyrir honum, eins og elzta bróðurnum.

Nú var ýngsti karlssonurinn eptir, og átti hann ekki betra fyrir það hjá karli og kerlíngu, þó hann væri einn orðinn. Hann biður þá foreldra sína að lofa sèr líka burtu. „Eg ætla ekki að leita mèr fjár og frægðar," segir hann, „heldur reyna til að hafa ofan af fyrir mèr einhvern veginn, svo eg sè ykkur ekki til þýngsla leingur, eins og eg er nú." Karl og kerlíng lètu það eptir honum, og feingu honum sæmilegt nesti og skó, þó það væri alt óríflegra en það, sem hinir bræðurnir feingu. Karlsson fer nú á stað, og vill svo til, að hann fer sömu leið, og bræður hans höfðu fyr haldið. Kemur hann nú að fyrra hólnum; þá segir hann: „Hèr hafa þeir bræður mínir hvílt sig; eg ætla að gjöra það líka." Sezt hann þá niður og fer að èta. Kemur þá litli karlinn til hans, og biður hann að gefa sèr bita. Karlsson tekur því vel, og býður honum að setjast hjá sèr og èta með sèr, eins og hann vilji. Þegar þeir höfðu ètið nægju sína, segir litli karlinn: „Nefndu mig, ef þèr liggur lítið á. Eg heiti Trítill." Síðan trítlaði hann í burtu, og hvarf. Karlsson heldur nú enn á fram, þángað til hann kemur að hinum hólnum. Þá segir hann: „Hèr hafa þeir bræður mínir hvílt sig; eg ætla að gjöra það líka." Fer hann nú að èta; en á meðan hann er að því, kemur dálítill karl til hans og biður hann um bita. Karlsson tekur því vel, biður hann að setjast hjá sèr og èta með sèr, eins og hann vilji. Þegar þeir eru búnir að èta nægju sína, segir karlinn: „Nefndu mig, ef þèr liggur lítið á. Eg heiti Lítill." Síðan skondraði hann í burtu og hvarf. — Nú hèlt karlsson á fram leiðar sinnar, og kom í rjóðrið, sem fyrr var nefnt. Þá segir hann: „Hèr hafa þeir bræður mínir hvílt sig; eg ætla að gjöra það líka." Settist hann nú niður og fór að èta. Þá kom til hans ógnastór fuglahópur, og lèt æði sultarlega. Hann molaði þá niður brauð milli handanna, og kastaði ögnunum fyrir fuglana, en þeir tíndu þær upp og átu þær. Þegar þeir voru búnir með brauðkornin, segir einhver af fuglunum: „Nefndu okkur, ef þèr liggur lítið á, og kallaðu okkur fuglana þína." Síðan flugu þeir burtu, og hurfu. En karlsson hèlt á fram leiðar sinnar, þángað til hann kom loksins að hellinum, eins og bræður hans höfðu gjört. Hann gekk þar inn, og sá ekkert kvikt í hellinum, en lík bræðra sinna sá hann, og voru þau heingd upp í hellisrjáfrið, skamt fyrir innan dyrnar. Ekki þókti honum sjónin góð, en rèð þó af að bíða hellisbúans. Leið og skamt þángað til skessan stóra kom, sem átti hellinn, og fyrr er

um getið. Karlsson biður hana að lofa sèr að vera. Hún segir, að það skuli hann fá, ef hann gjöri það, sem hún segi honum. Hann játar því, og er nú í hellinum um nóttina. Morguninn eptir segir skessan honum, að moka hellinn, en verði hann ekki búinn að því að kvöldi, þegar hún komi heim, þá segist hún drepa hann. Síðan fór hún burt. Karlsson þrífur nú rekuna, og ætlar að fara að moka hellinn, en óðar en hann stíngur rekunni niður, verður hún blýföst við hellisgólfið, svo hann getur ekki bifað henni. Sèr nú karlsson sitt óvænna, og kallar nú upp í ángist sinni: „Trítill minn, komdu hèr.“ Í sama bili kemur Trítill, og spyr karlsson, hvað hann vilji. Hinn segir honum, hvar komið væri fyrir sèr. Þá segir Trítill: „Stíng þú, páll, og moka þú, reka.“ Fór þá pállinn að stínga, en rekan að moka, og var hellirinn á litlum tíma vel mokaður og tandurhreinn orðinn. Þá fór Trítill burt. En um kvöldið kom skessan heim, og þegar hún sá, hvar komið var, segir hún við karlsson: „Ekki ertu einn í ráðum, karl, karl. Eg læt það svona vera.“ Sváfu þau nú af um nóttina. En um morguninn, segir skessan honum að viðra rúmfötin sín, taka úr sængunum alt fiðrið, og sóla það, og láta það svo í sængurnar aptur. En vanti hann nokkra fjöður að kvöldi, þá segist hún skuli drepa hann. Svo fór hún. Karlsson breiðir nú rúmfötin út. Voru þrjár sængur í rúmi skessunnar, og af því að blæalogn var og sólskin, þá sprettir hann frá þeim, og breiðir fiðrið sundur. En þegar hann varði minst, rak á hvirfilbyl svo mikinn, að fiðrið þyrlaðist alt upp í loptið, svo hann sá einga fjöður eptir. Nú leizt karlssyni illa á blikuna. Í þessum vandræðum kallar hann nú upp: „Trítill minn, Lítill minn, og fuglar mínir allir, komið þið hèr.“ Þá komu þeir Trítill og Lítill, og allur fuglahópurinn með alt saman fiðrið með sèr. Hjálpuðu þeir Trítill og Lítill nú karlssyni til að láta fiðrið í sængurnar, og sauma fyrir þær. Þeir tóku sína fjöður úr hverri sæng, og bundu þær saman í knippi, og sögðu karlssyni, að ef skessan saknaði þeirra, þá skyldi hann stínga því upp í nösina á henni. Síðan fóru þeir Trítill, Lítill og fuglarnir. Þegar skessan kom heim um kvöldið, hlammaði hún sèr ofan á rúmið sitt; svo fast, að brakaði í öllum hellinum. Fer hún þá höndum um sængurnar, og segir við karlsson, að nú drepi hún hann, því það vanti sína fjöður í hverja sæng. Tekur hann þá upp fjaðrirnar úr vasa sínum, og rekur þær upp í nös kerlíngar, og segir henni að taka þá við þeim. Skessan gjörði það, og segir: „Ekki ertu einn í ráðum, karl, karl. Eg læt það svona vera.“ Leið nú þessi nótt, og var karlsson í hellinum hjá skessunni. Um morguninn segir hún karlssyni, að í dag eigi hann að slátra uxa sínum, sjóða slængið, raka húðina, og smíða spæni úr hornunum, og vera búinn að því öllu um kvöldið. Segist hún eiga fimmtíu uxa, en einn af þeim vilji hún láta drepa, og hann verði sjálfur að segja sèr, hver hann sè. „Ef þú verður búinn að öllu þessu í kvöld,“ segir kerlíng,

„þá máttu fara hvert á land, sem þú vilt á morgun fyrir mèr, og þar að auki kjósa þèr í kaup hverja þá þrjá hluti, sem þú vilt, ur eigu minni. En verði nokkuð ógjört, eða ef þú tekur rángan uxa, þá drep eg þig.“ þegar skessan var búin að segja karlssyni þetta, fór hún í burtu, eins og hún var vön. En karlsson stóð nú eptir öldúngis ráðalaus. þá kallar hann upp: „Trítill minn, Lítill minn, komið þið nú báðir.“ Sèr hann þá, hvar karlarnir koma, og leiða á milli sín ógnastóran uxa. Slátra þeir honum nú undir eins. Að því búnu fer karlsson að sjóða slængið, Trítill sezt við að raka skinnið, en Lítill að smíða spæni úr hornunum. Gekk verkið fljótt, og var alt búið í tæka tíð. Karlsson sagði þeim körlunum, hverju skessan hefði lofað sèr, ef hann yrði búinn með verk sitt um kvöldið. Sögðu þá karlarnir að hann skyldi kjósa sèr það, sem væri fyrir ofan rúmið hennar, kistilinn, sem hún hefði fyrir framan stokkinn hjá sèr, og það, sem undir hellisveggnum stæði. Karlsson lofar því. Fara nú karlarnir burt sinn veg, og kvaddi karlsson þá með mestu virtum. Um kvöldið þegar skessan kom heim, og sá, að karlsson hafði gjört alt, eins og vera átti, þá sagði hún: „Ekki ertu einn í ráðum, karl, karl. Eg læt það svona vera.“ Sváfu þau nú um nóttina.

Um morguninn biður skessan nú karlsson að kjósa sèr launin, sem hún hafi heitið honum; því nú sè honum frjálst að fara frá sèr, hvert sem hann vilji. „þá kýs eg,“ segir karlsson, „það, sem er fyrir ofan rúmið þitt, kistilinn fyrir framan stokkinn hjá þèr, og það, sem stendur undir hellisveggnum.“ „Ekki ertu einn í ráðum, karl, karl,“ segir kerlíng. „Eg læt það svona vera.“ Síðan greiðir hún honum kaupið. En það, sem var fyrir ofan rúm skessunnar, var týnda kóngsdóttirin. Kistillin við stokkinn var geysistór kista full af gulli og gersemum. En það, sem stóð undir hellisveggnum, var haffært skip með rá og reiða, og hafði það þá náttúru, að það fór sjálft, hvert sem maður vildi. þegar skessan hafði afhent karlssyni kaupið, kvaddi hún hann, og sagði hann mundi verða allramesti lánsmaður. Síðan fór hún burtu, eins og hún var vön. Karlsson bar nú kistuna á skipið, og steig síðan sjálfur á það með kóngsdóttur. Vatt hann því næst segl upp, og sigldi heim í ríki kóngsins, föður júngfrúarinnar. Færði hann kónginum dóttur sína, og sagði honum alt af ferðum sínum. Undraðist kóngur mikillega æfintýri karlssonar, en fagnaði dóttur sinni, svo sem von var. Sló hann nú upp fagnaðarveizlu móti dóttur sinni og frelsara hennar, og lyktaðist veizlan með brúðkaupi þeirra kóngsdóttur og karlssonar. Gjörðist karlsson fyrst landvarnarmaður og ráðanautur konúngs; en eptir andlát teingdaföður síns erfði hann alt kóngsríkið, og stýrði hann því síðan bæði leingi og vel til dánardægurs. Og svo er sagan úti.

**Olbogabarnið.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar, nú í Móum á Kjalarnesi.) Einu sinni var karl og kerlíng; þau bjuggu í koti sínu, skamt frá sjó, en lángt frá öllum annara manna bygðum. Þau áttu sèr þrjár dætur, sem hètu: Íngibjörg, sú elzta, Sigríður, sú næsta, og Helga, sú ýngsta. Voru eldri dæturnar í allra mesta uppáhaldi, en Helga var höfð út undan, og var hún þó í öllu fremur, en systur hennar. Helgu var ekki trúað fyrir nokkrum hlut; því hún átti ekki að vera til neins nýt, og var hún höfð til þess að stjana undir öllu hinu hyskinu.

Einu sinni vildi svo til, að eldurinn í kotinu slokknaði, en lángt var að sækja eld. Var þá Íngibjörg send á stað eptir eldi. Hún fór. Gekk hún þá fram hjá hól einum, og heyrði, að inni í honum var sagt: „Hvort viltu heldur eiga mig með þèr eða móti?" Íngibjörg hèlt, að þetta væri talað til sín, og sagði, að sèr stæði öldúngis á sama, hvort væri. Hèlt hún svo leingi á fram, þángað til hún kom að helli einum. Þar sá hún nógan eld. Ketill stóð á hlóðum, og var kjöt í honum, og ekki fullsoðið. Hún sá þar og kökur óbakaðar í trogi rètt hjá hlóðunum. En eingan mann sá hún í hellinum, og ekkert lifandi kvikindi. Íngibjörg var nú orðin æði matlystug eptir gánginn, svo hún kyndir sem mest má hún undir katlinum til að flýta suðunni á kjötinu, og bakar kökurnar. Eina bakar hún vel, handa sjálfri sèr, en brendi hinar, svo þær urðu óætar. Síðan neytti hún matarins hæverskulaust. Kom þá inn til hennar rakki ógurlega stór, og flaðrar upp á hana. En hún lemur hann og vill reka hann frá sèr. Espast þá rakkinn, og bítur af henni aðra höndina. Varð Íngibjörg þá svo hrædd, að hún þorði ekki að taka eldinn, heldur hljóp í ofboði heim til sín í kotið til karls og kerlíngar, og sagði ferðir sínar eigi slèttar, og þókti þetta undrum sæta.

Þó það þæktu nú eingar gamanferðir, eða neinn hægðarleikur, að sækja eldinn, var það samt af ráðið í kotinu, að senda hitt óskabarnið, hana Sigríði, á stað. Allir voru sumsè hræddir um, að ef ýngsta systirin væri látin fara, þá myndi hún strjúka burtu og aldrei sjást framar, þar sem hún hefði við svo lítinn heim að skilja, en þá væri einginn eptir, hvorki til að skeyta á skapi sínu, nè þræla undir eldri systrunum og karli og kerlíngu. Þessa vegna var Helga ekki send, heldur Sigríður. Þarf ekki að orðleingja það meir. Henni fórst öldúngis eins og Íngibjörgu, nema að stóri hundurinn í hellinum skildi svo við hana, að hann beit af henni nefið. Kom hún svo heim aptur í kotið eldlaus og neflaus.

Nú urðu þau karl og kerlíng öldúngis frá sèr, og í bræði sinni skipuðu þau ótætinu henni Helgu að snauta á stað; þeim væri svo ekki annað en kvöl í að sjá hana. Skipuðu þau henni, að koma með eldinn. Helga fór nú, og kemur hún að hólnum, eins og systur hennar höfðu gjört. Heyrði hún, eins og þær, að spurt var í hólnum: „Hvort viltu heldur eiga mig með þèr eða móti?" Helga segir: „Það er algeingt orðtak, að

ekkert sè svo vesalt, að ekki sè betra, að eiga það með sèr en móti. En nú veit eg ekki, hvort það er svo vesalt, sem spyr mig, og því vil eg feginn eiga það að.“ Hèlt hún svo leið sína, þángað til hún kemur í sama hellinn, og hinar systurnar höfðu áður komið í. Þegar hún kom þángað, stóð þar eins á og fyrri. En Helga fór alt öðruvísi að ráði sínu, en systur hennar höfðu gjört. Hún sauð kjötið í katlinum og bakaði kökurnar vel og rækilega, en neytti einkis af matnum, og var hún þó harðla svaung; því ruðurnar og skolin heima voru nú farin að gánga úr henni. Ekki vildi hún heldur taka eldinn fyrr en með leyfi hellisráðandans. Og með því hún var af sèr komin af þreytu, ásetti hún sèr að hvílast þar, og bíða eptir húsbóndanum, og þókti henni þó alt vera hèr fremur svipmikið og ógurlegt í kríng um sig. En á meðan hún var að hugsa sig um, hvar hún ætti að fleygja sèr niður, heyrir hún dunur miklar, eins og hellirinn ætli að hrynja niður. Sèr hún þá hvar kemur ógnastór risi, fjarskalega ljótur, og með honum gríðarlega stór og grimmilegur hundur. Varð hún þá skelfilega hrædd. En henni jókst hugur við það, að jötuninn talaði blíðlega til hennar, og sagði: „Þú hefir vel og dyggilega starfað það, sem þörf var á, og er því skylt, að þú fáir laun verka þinna, og þiggir mat með mèr, og hvílir þig hèr í nótt, hvort sem þú þá vilt heldur lúra hjá hundinum mínum, eða sjálfum mèr.“ Að svo mæltu bar jötuninn mat fyrir Helgu, og neytti hún hans, eptir því sem hún hafði lystina til. Þar eptir lagðist hún í fletið hjá hundinum; því svo ógurlegur sem rakkinn var, þá var þó jötuninn miklu hræðilegri. Þegar lítil stund var liðin, frá því Helga lagðist út af, heyrði hún dýnk mikinn, eða hlúnk, svo hellirinn titraði við. Varð hún þá ákaflega hrædd. Þá kallaði jötuninn til hennar, og sagði: „Ef þú ert hrædd, Helga karlsdóttir, þá máttu skríða upp á skörina við rúmið mitt.“ Hún gjörði það. En skömmu eptir kom annar hlúnkurinn miklu stærri. Bauð jötuninn þá Helgu að setjast upp á rúmið sitt, og það þáði hún. Nú kom þriðji dýnkurinn, miklu stærri en hinir, og þá leyfði jötuninn Helgu að skríða upp í rúmið, og setjast til fóta sèr. En þá kom hinn fjórði dýnkur og ætlaði þá alt ofan að ríða með braki og brestum. Þá bauð jötuninn Helgu, að fara upp í rúmið upp fyrir sig, og í dauðans fátinu, sem á hana var komið, tók hún því með þökkum. En í sama bili fèll jötunshamurinn af hellisbúanum, og sá Helga úngan og fríðan kóngsson liggja fyrir framan sig í rúminu. Var hún þá ekki sein á sèr, heldur greip tröllshaminn undir eins, og brendi hann til ösku. Fagnaði kóngssonur þá Helgu með mestu blíðu, og þakkaði henni innilega fyrir það, að hún hefði leyst sig úr álögum. Sváfu þau svo af um nóttina í allrabezta næði og makindum. Um morguninn sagði kóngssonur Helgu alt um hagi sína, álög þau, sem á sèr hefði verið, auð sinn, ætt og ríki. Bauðst hann til að vitja hennar seinna, ef hún vildi eiga sig, og má nærri geta, hversu fúslega vesalíngs karlsdóttirin tók boði kóngssonar. Fræddi

29*

hún hann þá um sig og sína hagi alla, erindi sitt og ferð systra sinna. Kóngssonur gaf Helgu að skilnaði kyrtil, og bað hana vera í honum innan undir lörfum sínum, og láta eingan sjá hann. Hann gaf henni og kistil með allskonar dýrgripum í og tvennum kvennbúníngi mjög skrautlegum. Sagði hann að kistlinum skyldi hún ekki leyna, og lofa honum að fara; því hann mundi víst verða tekinn af henni, þegar heim kæmi. Þegar Helga var ferðbúin, kom hundurinn, og rètti að henni hægri framlöppina; tók hún í hana, og var þar á gullhríngur, sem hún líka hirti. Kvöddust þau síðan með mestu blíðu, kóngssonur og karlsdóttir, og skundaði hún heimleiðis með kyrtilinn, kistilinn og eldinn, og var henni nú heldur en ekki lètt um hjartaræturnar. Kom hún nú heim í kotið með eldinn, og urðu þau karl og kerlíng honum næsta fegin. En þegar Helga sýndi þeim kistilinn og gripina, var hún svipt því öllu, og hlökkuðu foreldrar hennar og systur mjög yfir gersemum þessum. En af kyrtlinum lèt hún eingan vita.

Nú leið og beið um hríð, svo ekkert bar til tíðinda í kotinu, og alt gekk sinn vanalega gáng, þángað til einu sinni sèst koma skip af hafi, fagurt og vel búið, og lendir fram undan kotinu. Karl geingur til strandar til að forvitnast um, hver fyrir skipinu rèði. Hann talaði við fyrirráðanda skipsins, en hvorki þekti hann hann, og hinn sagði ekki heldur til sín. Aðkomandi var spurull mjög; meðal annars bað hann karl segja sèr, hversu margt manna væri í kotinu, og hvað mörg börn karlinn ætti. Hann sagði, að þar væru ekki fleiri menn, en hann og kerlíng sín og dætur þeirra tvær. Hinn beiddist að sjá dætur hans, og var karli það ljúft. Fór hann og sókti báðar eldri systurnar, og komu þær í skrúða þeim, sem verið hafði í kistlinum forðum. Komumaður sagði sèr litizt dável á stúlkurnar, en spurði, hversvegna önnur hefði hendina í barminum, en hin klút um nefið. Máttu þær nú til nauðugar viljugar að sýna hvorttveggja. Þókti þá komumanni þær ófríðka talsvert, en fèkk ekki að vita orsökina hjá þeim. Hann spurði þá karlinn, hvort það væri öldúngis víst, að hann ætti ekki fleiri dætur. Karl neitaði því þverlega í fyrstu, en þegar hinn fór að gánga á hann um það, sagðist hann eiga ókind eina, sem hann vissi varla, hvort heldur væri maður, eða kvikindi. Hinn krafðist að fá að sjá hana, svo karlinn fór, og kom með Helgu; var hún óhrein og illa búin. En þegar hún kom, reif komumaður af henni tötrana. Var hún þá í skínandi fallegum kyrtli, sem mikið bar af fötum þeirra systra. Urðu nú allir forviða, sem við voru. En komumaður snýr nú við blaðinu, og atyrti karlinn og systurnar fyrir meðferðina á Helgu. Tók hann alt skrautið af eldri systrunum, og sagði þeim væri það ekki frjálst, en fleygði í þær lörfunum af Helgu. Sagði hann síðan upp alla sögu, og svo, hver hann væri. Skildi hann síðan við karlinn og eldri systurnar, en tók Helgu með sèr, vatt upp segl og sigldi heim í ríki sitt. Átti hann síðan Helgu, unnust

þau bæði vel og leingi, áttu börn og buru, grófu rætur og muru. Og ekki kann eg þessa sögu leingri.

**Missagnir.** Eptir annari sögu borgfirzkri, eru þær breytíngar á sögu þessari, sem hèr segir:

Þegar Íngibjörg karlsdóttir fór að sækja eldinn, kom hún að fjalli einu ógnarlega stóru. Hún settist þar undir stein, hálfuppgefin og hugsandi út úr því, hvernig hún eigi að ná eldinum. Þá heyrir hún, að sagt er í fjallinu yfir sèr: „Einbúi í fjalli. Einbúi í fjalli." Hún svarar: „Búðu allra manna armastur, einbúi í fjalli." Þá kom að henni geysistór hundur, og beit af karlsdóttur hendina. Hljóp hún þá heim í ofboði, eldlaus og einhent, og sagði sínar farir eigi slèttar.

Nú var Sigríður send. Hún komst að fjallinu, settist undir steininn, og heyrði sama kall yfir sèr í fjallinu, og svaraði því á sömu leið og hin fyrri. Þá kom stóri hundurinn og beit af henni nefið. Hljóp hún svo heim í ofboði, eldlaus og neflaus.

Þá var Helga rekin á stað í bræði, og skipað að sækja eldinn. Hún kemur að fjallinu eins og hinar systurnar, sezt undir sama stein og þær til að hvíla sig. Heyrir hún þá, að kallað er í fjallinu uppi yfir sèr: „Einbúi í fjalli. Einbúi í fjalli." Hún svarar: „Sittu allra manna heilastur, einbúi í fjalli!" Þá kemur stóri hundurinn, og flaðrar upp á Helgu, og teygir hana með sèr inn í helli í fjallinu. Er hún þar um nóttina, og liggur í fleti hjá hundinum. Þá fellur af honum hamurinn, og brennir Helga hann um morguninn. En í staðinn fyrir hund, er í fletinu fríður og fallegur kóngsson.

Nú fer alt eins fram í sögunni, og að framan segir. Og þegar kóngssonur kemur að vitja Helgu unnustu sinnar, þá sýnir karl honum tvær eldri dæturnar, en kóngur fann þann galla á þeim, að önnur hafði trèhönd en hin trènef. En þegar hann spurði, hvernig á því stæði, svaraði karlinn: „Minnstu ekki á það, herra, eg setti á hana trèhönd" — og um hina: „Minnstu ekki á það, herra, eg setti á hana trènef." Eptir það fer alt eins og fyrr er sagt.

Eptir þessari sögn er kóngssonurinn í hundslíki, og koma ekki nein önnur kvikindi fyrir í henni.

Enn er sú breytíng eða viðauki þessarar sögu til í Borgarfirði, að sá, sem talaði í hólnum við karlsdæturnar, hafi verið kóngssonur sjálfur. Hundurinn hafi verið veiðihundur hans, og í eingum álögum, og eingan hríng gefið Helgu. En sumar sagnir láta hundinn gefa Helgu hrínginn, og um leið og hún þiggur hann, fellur hamurinn af honum, og verður þá fóstri, eða trúnaðarmaður kóngssonar.

**Kiðuvaldi.** (*Eptir húsfrú Hólmfríði þorvaldsdóttur.*) Einu sinni var karl og kerlíng, sem áttu sèr 3 dætur; hèt ein Signý, önnur Oddný og Helga hin þriðja. Voru þær Signý og Oddný eptirlætisgoð foreldra sinna, en Helga var olbogabarn, lá í öskustónni og var ekkert um hana hirt. Einu sinni bar svo við í karlskoti, að eldurinn slokknaði, og bað karl Signýu dóttur sína að fara og sækja eld. Hún spyr, hvert hún eigi að sækja hann. Hann segir: „Þú skalt gánga yfir fjöll og firnindi, hálsa og hæðir, og svo lángt sem þínir vegir liggja, og það veit einginn.“ Síðan fer Signý á stað og geingur leingi leingi, þángað til hún fer fram hjá einstöku fjalli, þá heyrir hún sagt í fjallinu með dimmri rödd: „Kiðuvaldi býr í fjallinu.“ Hún svarar: „Svei þèr, búandi í fjallinu,“ og heldur enn á fram, þángað til hún kemur í helli. Þar sá hún, að eldur logaði á skíðum og var pottur yfir fullur af keti, og skamt þar frá voru kökur óbakaðar í trogi. Hún tekur kökurnar, bakur þær og jetur síðan; svo stelur hún keti úr pottinum og eldi undan honum; en áður en hún gekk út, gerði hún öll sín stykki í eitt eldhúshornið. Þegar hún var komin á móts við fjall Kiðuvalda, kom til hennar hundur svo grimmur og illur að hann beit af henni hægri hendina, tók frá henni ketstykkið, sem hún hafði stolið og drap fyrir henni eldinn. Kom hún svo heim allslaus og verri en allslaus. Daginn eptir sendi karl Oddnýu eptir eldi, og fór það alt á sömu leið, sem fyrir Signýu; hún hafði sömu svör við Kiðuvalda, og hegðaði sèr eins í hellinum, og Signý, en það eitt skakkaði, að hundurinn beit af henni nefið, en ekki hendina. Kom hún svo heim slypp og verri en slypp, þar sem hún hafði mist af sèr nefið. Þriðja daginn skipar karl Helgu að fara, og hefir öll sömu ummæli við hana, sem hinar, nema hvað hann bætti því við, að sig gilti einu, þó hann sæi hana aldrei aptur. Helga fór, og þegar hún kemur á móts við fjallið einstaka, heyrir hún, að sagt er með dimmri rödd: „Kiðuvaldi býr í fjallinu.“ Hún svarar: „Búðu heill í fjalli, heilla karlinn.“ Svo heldur hún á fram og kemur í hellinn. Er þar eins ástatt og áður, eldur logar á skíðum og pottur uppi yfir með keti, og óbakaðar kökur í trogi. Helga hagræðir þá undir pottinum, bakar kökurnar, leggur þær svo á trogið og færir upp ketið, þegar það var fullsoðið. Síðan hreinsar hún og sópar út alt eldhúsið. Þegar hún er búin að þessu öllu saman, tekur hún með sèr eldinn og fer á stað með hann. Þegar hún fer fram hjá fjalli Kiðuvalda, kemur til hennar hundur ósköp vinalegur og færir henni kistil og segir, að hún eigi kistilinn og það sem í honum sè, en hún skuli ekki ljúka honum upp, nema henni liggi mikið á. Svo fer Helga heim með eldinn, og geymir vandlega kistilinn, og lýkur honum aldrei upp. Nú líður heilt ár þángað til kóngsson kemur þar við land og í karlskot, finnur karl og spyr hann, hvort hann eigi ekki dætur. Karl segist eiga 2. Kóngsson biður annarar þeirra. Karl tók því vel og skipar Signýu að koma út og fagna biðli

sínum. Hún gerir svo, kemur út og hefir vetlíng á hægri hendi. Kóngsson ætlar að taka í hendina á henni; en þá verður ekkert fyrir honum, nema vetlíngurinn. Kóngsson segir, að hann geti ekki átt handarlausa konu, og segist vilja sjá hina dóttur karls. Karl kallar þá á Oddnýu, að koma út og fagna biðli sínum. Hún gjörir svo, en hefir strút upp undir augu. Kóngsson ætlar að lúta að henni og kyssa hana, svo hún verður að ýta neðar strútnum. Sèr kóngsson þá, að hún er neflaus og segir, að svo ílt sem það sè, að eiga handarlausa konu, sè það þó enn verra að eiga hana neflausa. Spyr hann þá karl, hvort hann ætti ekki fleiri dætur. Karl segist ekki geta talið það, hèr sè reyndar *ófètis-stelpa*, sem alt af hafi legið í öskustónni, en hún sè eingum manni boðleg. Kóngsson biður hann að lofa sèr að sjá hana. Karl gerir svo og skipar Helgu að snauta út, hún muni eiga erindið. Helga rís þá upp úr öskustónni, hreinsar af sèr öskuna og kolahrímið, lýkur upp kistlinum og finnur í honum fallegasta drottníngar skrúða. Í hann fer hún og kemur svo út til kóngssonar. Hann heilsar henni kurteislega, og hefir hana í burt með sèr, siglir heim í land sitt, geingur að eiga hana og verður kóngur eptir föður sinn, en Helga drottníng. Svo kann eg ekki þessa sögu leingri.

**Sagan af Kolrössu krókríðandi.** (Eptir húsfrú Guðnýu Einarsdóttur, nú á Akureyri.) Einu sinni var karl og kerlíng í koti sínu. Þau áttu sèr þrjár dætur; hèt hin elzta Signý, önnur Ása, og hin þriðja Helga. Eldri systurnar, Signý og Ása, áttu sældardaga hjá því, sem Helga átti; því karl og kerlíng unnu þeim mjög, og mæltu alt eptir þeim hvort við annað. En Helga átti litlu ástfóstri að fagna hjá foreldrum sínum, og varð að gjöra alt sem verst var, og kerlíng kendi sig vanfæra fyrir, gánga að slitverkum, vera í eldhúsi, annast matseld með móður sinni, þrifa til og hreinsa alt, sem hreinsa þurfti í kotinu; eldri systurnar komu þar hvergi nærri, sátu eins og hofróður inni á palli á vetrum, en sleiktu sólskinið á sumrin, og geingu skrúðbúnar, og gjörðu ekki annað en tensa sig til. Þær höfðu öfund á Helgu; því þó hún væri klædd í larfa, yrði að gánga í því versta, og hefði ekkert flet nema öskustóna að liggja í, þókti öllum hún fríðust þeirra systra, en það sveið þeim sárast. Einu sinni kom maður vel búinn, fríður sýnum og bað Signýar. Karli og kerlíngu leizt vel á manninn og Signýu ekki síður; og með því þeim þókti þessi ráðahagur álitlegur, gáfu öll sitt jáyrði til gjaforðsins. Síðan fór maðurinn með Signýu með sèr þegar í stað; en skamt voru þau komin frá karlskoti, fyrr en maðurinn breytti ham sínum og varð að þríhöfðuðum risa. Segir hann þá við Signýu: „Hvort viltu heldur að eg beri þig eða dragi.“ Signý kaus það, sem vildara var, að hann bæri sig. Lèt hann hana þá setjast á einn hausinn, og bar hana svo heim í helli sinn. Lèt

hann hana þar í jarðhús eitt, batt hendurnar fyrir aptan bakið, en hár hennar við stólbrúðir, gekk svo frá henni og lokaði jarðhúsinu. Litlu síðar kemur maður til karls og kerlíngar, og biður Ásu; hann var álitlega búinn og vel á sig kominn, að þeim hjónum þókti, og fèll einnig Ásu vel í geð. Varð það því að ráði, að maðurinn fèkk hennar og fór með hana þegar úr föðurgarði. Þegar þau voru skamt komin frá kotinu, skipti maður þessi hömum og varð að ógurlegum risa þríhöfðuðum og gjörði Ásu sömu kosti, sem hann hafði áður gjört Signýu, systur hennar, og fóru öll þeirra viðskipti á sömu leið, sem áður er sagt. Í þriðja sinn kom maður í karlskot og bað dóttur þeirra. Hann var efnilegur og mannsmót að honum mikið. Karl og kerlíng báðu hann ei fara fram á slíkt við sig, „því nú eigum vèr einga dóttir ógefna framar. Við höfum áður gipt þær burtu, er við áttum.“ Maðurinn leitaði því fastar á um ráðahaginn, og kvaðst ætla, að þau mundu enn eiga eina dóttur ógefna. Karl og kerlíng kváðust að vísu eiga eina dóttir, en sèr komi ekki til hugar, að nokkur maður feldi ástarþokka til hennar; því hún væri mesta herfa að ásýndum, og argasti veraldar ódámur. Maðurinn sókti því meir á um ráðahaginn, og bað, að hann mætti þó sjá hana. Var þá Helga kölluð fram úr eldhúsinu og sýnd komumanni; hann bað þau nú ekki synja sèr leingur ráðahags við dóttur þeirra. Karl og kerlíng kváðu honum heimilt að eiga dóttur þeirra fyrir sèr, ef hann vildi; en ekki var leitað um það neinna svara hjá Helgu. Fór hann svo burtu með Helgu; þegar hann var kominn skamt á leið með hana, brást hann í risalíki sem fyrri, og gjörði henni sömu kosti, og systrum hennar, og kaus hún að hann drægi sig, og segir ekki af ferðum þeirra, fyrr en hann kemur heim í hellinn með hana. Þá segir risinn við Helgu: „Nú skaltu taka við búsýslu hèr innan stokks, hirða um hellinn, sópa hann og hreinsa, matreiða fyrir mig og standa mèr fyrir öllum beina, og búa um rúm mitt.“ Fór þessu svo fram um hríð, að hún annaðist um öll heimastörf í hellinum á daginn, en stóð risanum fyrir beina kvöld og morgna; því á daginn var hann ávalt úti á veiðum og bar heim afla sinn á kvöldin, fisk og annað fáng, og tók hann þá ósleikjulega til matar síns. Áður en hann fór heiman á morgnana tók hann alt til handa henni, það er hafa þurfti. Sá hún að risinn gekk um hirzlur sínar og híbýli, og lèt hana aldrei sjá í neitt af því, og bar jafnan á sèr lyklana, er hann fór burtu úr hellinum. Sú eina lifandi skepna sem var í hellinum, svo Helga af vissi, var lítill hundur, sem hún átti, og var hann henni til afþreyíngar. Hún tók samt eptir því, þegar hún var eitthvað að vinna, og skipti sèr ekki af honum, að hann hvarf frá henni, en kom þegar hún kallaði á hann, og þó ekki undir eins; af því rèð hún að hann færi lángt til í hellinum. Einhverju sinni fer hún og kannar hellin, og finnur hún þá fyrir sèr hurð læsta, og þar liggur rakkinn fyrir framan; gægist hún inn með hurðinni og um

skráargatið; virtist henni þá, að hún sæi þar 2 stúlkur inni sína á hvorum stóli. Kemur henni þá í hug, að þetta muni vera systur sínar, og þykir henni allílt, að þær sèu svo sárt leiknar, þó þær hefðu ekki látið hana betur, en fyrr var frá sagt.

Um kvöldið, er risinn kom heim, var Helga málhreif við hann og tasvíg, meðan hann situr að snæðíngi. Meðal annars spyr hún hann, hvernig honum geðjist umsýslun sín og hirðíng á hellinum, og lèt hann vel yfir því, og þar kemur, að hún spyr hann að, hvernig honum hugnist að sèr. Risinn lèt og vel yfir því, enda kvaðst hann hafa sókt hana, af því hann hefði vitað, hver kvennkostur hún væri. Helga mælti: „Ef þèr hefði verið nokkuð meira í hug með mig en að eg væri ambátt þín, þá mundir þú ekki hafa tortrygt mig um að gánga frjálslega um allan helli þinn, híbýli og hirzlur, svo að eg mætti njóta yndis af auðlegð þinni með þèr; en þú hefir lokað öllu fyrir mèr, og skamtað mèr í hendurnar, og ekki leyft mèr umgaungu um eigur þínar.“ Risinn kvað það satt vera, að hann hefði ekki feingið henni lykla sína; „en það gjörði eg, af því að eg vildi reyna þig. Nú skal eg ekki draga leingur dul á það, að eg ætla bráðum að halda brúðkaup okkar, og því skaltu nú taka við lyklum að öllum hirzlum mínum og híbýlum, og geyma alls þess, er eg á. Þó er það ein hirzla er þú mátt ekki upp ljúka, þótt einn lykillinn í kippunni gángi að henni, og býð eg þèr þar sterkan varnað á.“ Helga tók við lyklakippunni og mælti: „Vel hefir þú nú gjört, að þú vilt ekki gjöra neina svívirðíngu til mín, og það annað, að þú trúir mèr fyrir að gánga frjálslega um alt þitt; enda nálgast sá tími, að betra mun, að eg kynnist híbýla háttum þínum, fremur en orðið er. En með því þú segist bráðum munir gjöra brúðkaup til mín, held eg mèr veiti ekki af að þrifa til og koma betur fyrir í hellinum, en nú er, og skal eg byrja það starf þegar á morgun.“ Síðan leggjast þau til svefns og sofa af um nóttina. Daginn eptir fer risinn burt, sem hann var vanur, en Helga að skoða í hirzlur hans. Þegar hún hefir lokið því, fer hún að dyrum þeim, sem fyrr er frásagt að hundurinn lá opt við, og ber að þeim lykil þann, sem einn var eptir á lyklakippu karls, og sem hann hafði bannað henni að beita, og lýkur þeim þegar upp, með honum. Þegar hún kemur inn, finnur hún þar báðar systur sínar húngraðar, horaðar og mjög að þrotum komnar. Hún leysir þær og hressir við, sem hún hefir bezt faung á. Síðan segja þær henni af sinni æfi hjá risanum, og það með, að hann hafi viljað þraungva þeim til að eiga sig, og af því þær hafi ei viljað það, hafi hann sett þær í afhelli þenna, og pírt í sig mat, einúngis til að treina í sèr lífið. Eptir það mælti Helga: „Nú verður skjótt ráða að leita, og er það mitt ráð, að eg ætla að koma ykkur hèðan, hvað sem um mig verður á eptir, og ætla eg að láta risann bera yður í belg einum heim til karls og kerlíngar, en láta þar utan með og ofan á roðarusl og matleifar risans.“

Síðan tekur hún belg einn mikinn og lætur þær fara þar ofan í, en treður í kríngum þær matarúrgángi risans; reisir svo belginn upp við hellisvegginn.

Um kveldið, er risinn kom heim, var Helga mjög ángráð og armædd. Gekk risinn þá á hana, hvað að henni geingi; en hún sagði, að til þess bæri það, að hún væri þreytt eptir dagserviðið, og annað hitt, að hún vissi, að foreldrar sínir mundu ekki eiga nokkra matbjörg í húsi sínu, en hún hefði alls nægtir. Karli gekst hugur við kveinstafi hennar, og hèlt, að úr því mundi mega ráða. Helga sagði: „Eg hefi hugsað um það í dag, hvernig þú gætir með minnstum skaða þínum bætt úr nauðþurft foreldra minna, og held eg að þèr væri minnst eptirsjá í afgángsleifum af mat þínum á málum, því þær hafa legið hèr og hvar um hellinn, eins og hráviði, þángað til nú, að eg hefi tínt þær saman, og látið nokkuð af þeim í belg þenna, og væri foreldrum mínum það mikill forði, væri það laglega til þeirra komið. En svo er nú belgurinn orðinn þúngur, að eg veld honum ekki, og þó rúmar hann ekki helmínginn af leifum þínum. Nú væntir mig, að þú virðir til orð mín, og berir belg þenna heim í karlskot á morgun, til þess að þú bæði byrgir nauðþurft foreldra minna að nokkru, og losir mig við það amstur, sem eg hefi af matarfrágángi þínum. En þar legg eg blátt bann við, að þú hreifir á nokkru í belgnum eða rífir upp úr honum; og ekki skaltu hugsa þèr að eg muni ekki verða þess vísari, því eg sè í gegnum holt og hæðir og helli minn, enda ertu af ráðahagnum við mig, ef þú bregður af boði mínu.“ Risinn kvaðst skyldi gjöra það, sem henni væri mest að skapi og í eingu af bregða, og segir: „Nú skaltu búast við brúðkaupi okkar á morgun“, og vísar henni á alt, sem hafa þurfti til veizlunnar og þókti henni hann heldur stórtækur um tillögurnar. Þar með kom hann fram með bindin nokkurt, leysti það til, og tók úr því brúðklæði handa henni, og bað hana fara í þau, þegar hún væri búin að búa til veizlunnar; því ekki mætti á neinu standa, er boðsfólkið kæmi, því úr þeirri sömu för og hann færi með belginn ætlaði hann að fara að bjóða til brúðkaupsins. Helga hèt honum góðu um, að alt skyldi verða til búið, er boðsmennirnir kæmi, og lèt sem sèr væri mjög ant til brúðkaupsins. Eptir það hætta þau talinu og leggjast til svefns.

Morguninn eptir er risinn snemma á fótum, tekur belginn á bak sèr og heldur með hann heim að karlskoti. Þegar hann var kominn æði kipp frá hellinum, þykir honum belgurinn furðu þúngur, setur hann því af sèr og hvílir sig. Þegar hann er búinn að setja af sèr baggann, segir önnur þeirra systra: „Eg sè í gegnum holt og hæðir og helli minn“. Þykist nú risinn vita, að Helga sjái til ferða sinna og segir:

„Aldrei skal eg í belginn bauka,
þó brotni í mèr hryggurinn;

[glögt er auga í Helgu minni,
hún sèr í gegnum holt og hæðir og helli sinn.“[1]

Síðan snarar hann belgnum á bak sèr aptur; en þó kemur þar, að hann lýist í annað sinn, og finnst belgurinn kynja þúngur, setur hann af sèr, og er hann heyrir: „Eg sè í gegnum holt og hæðir og helli minn“, mælir hann sömu orðum og fyrr, og heldur enn á fram. Þannig gekk og hið þriðja sinn, er hann hvíldi sig, að bæði heyrir hann hin sömu orð og hefir sömu ummæli sjálfur, sem hið fyrsta sinn. Síðan kemst hann heim í kot og selur belginn í hendur karli og kerlíngu.

Nú er þar til máls að taka, að Helga fer að þrifa til í hellinum og undirbúa alt til brúðkaupsveizlunnar, eins og risinn hafði fyrir mælt. Hraðar hún sèr nú að öllu, sem mest hún má, og ber á borð. Þegar hún hefir lokið öllu, sem hún átti að gjöra, tekur hún staur, sem lá í hellinum, og færir hann í brúðarskart sitt, og setur þar, sem hún bjóst við, að sèr mundi ætlað sæti. Eptir það nýr hún framan í sig alla pottahrími og atar klæði sín í kolum og ösku, tekur eldhússkörúnginn, sezt á bak og ríður, og stefnir í gagnstæða átt frá hellinum, því, sem heim vissi að karlskoti. Skamma stund hafði hún farið, áður en hún mætti risanum með miklum flokki boðsmanna; voru þar í fylgd með honum jötnar og bergrisar, en brúðguminn var í fararbroddi. Hann yrti á Helgu, og spurði, hvað hún hèti. Hún kvaðst heita Kolrassa krókríðandi. Hann ávarpar hana enn á þessa leið:

„Komstu að Melshöfða,
kolskörin þín?“

Hún mælti: „Kom eg þar;
breitt var á bekki,
brúður sat á stól,
full voru öll ker,
svo út úr fló.“

Þá mælti risinn: „Hó, hó, ríðum hart, brúðurin bíður“ og boðsmenn hans tóku undir og sögðu: „Hó, hó, ríðum hart, sveinar“. Síðan skildist Helga við þá, og mætti öðrum flokki boðsmannanna; voru þar í skessur einar og tröllkonur. Þær yrtu á hana sem risinn:

„Komstu að Melshöfða,
kolskörin þín?“

Hún svaraði: „Kom eg þar;
breitt var á bekki,
brúður sat á stól,
full voru öll ker,
svo út úr fló.“

---

1. „því augað hennar Helgu minnar heima
sèr í gegnum holt og steina“, segja sumir.

þá mæltu skessurnar: „Hó, hó, ríðum hart, meyar.“ Eptir það skildu þær. Hèldu skessurnar til hellisins að Melshöfða, en Helga sneri við, þegar leiti bar á milli, og heim í karlskot, og sagði foreldrum sínum og systrum frá, hvernig komið væri. Dvaldi hún heima litla stund, því hún fór á stað aptur, að vita, hvers hún yrði vör á Melshöfða.

Nú víkur sögunni til risans og boðsmanna hans: þegar þeir komu í hellinn, sjá þeir borð reist og bekki setta, og alt fyrirbúið til fagnaðar; þar með sáu þeir brúðurina komna í sæti; geingu þeir því fyrir hana og heilsuðu henni; en hún leit hvorki við þeim nè laut, og þókti þeim það kynlegt, og ekki sízt brúðgumanum. Fóru þeir þá og gættu betur að, og sáu, hver umbúníngur þar hafði verið veittur. Fann risinn nú, að hann hafði verið gabbaður og sumir gestirnir með honum, og hörmuðu hrakfall hans. Sumum gestunum þókti aptur risinn hafa gabbað sig, er hann hafði boðið þeim til brúðkaups, en ætlað að villa fyrir þeim sjónir með trèdrumb einum. Slóst þar þegar í áflog, og því næst drápu hvorir aðra, risinn og þeir, sem honum fylgdu, og hinir, er þóktu hann hafa gabbað sig. Er það skjótast frá að segja, að þar stóð einginn lífs uppi, og sá Helga á allan þeirra ófagra forgáng. Þegar tröllin voru fallin, hljóp Helga heim í kot hið hraðasta og sókti alt hyski sitt. Drógu þau síðan búkana út úr hellinum, báru þar að viðu og kyntu bál mikið, og brendu upp allan þenna óþjóðalýð til kaldra kola. Að því búnu tóku þau alt, sem fèmætt var í hellinum og fluttu heim í karlskot. Síðan fær Helga sèr smiði marga og smíðaefni, og lætur gjöra sèr hús mikið og fagurt, og settist þar að. Systur hennar urðu ekki að manni; því þær voru úrræðalausar, öllu óvanar, og kunnu ekkert, sem nokkru var nýtt. En Helga giptist síðan vænum manni og unnust þau bæði vel og leingi,

„áttu börn og buru,  
grófu rætur og murur;  
smèrið rann,  
roðið brann,  
sagan upp á hvern mann,  
sem hlýða kann;  
brenni [þeim í kolli baun,[1]  
sem ekki gjalda mèr sögulaun  
fyrr í dag en á morgun.  
Köttur út í mýri,  
setti upp á sèr stýri,  
út' er æfintýri.[2]“

1. frá [hafa aðrir þannig: strá í kolli þeim.
2. þetta niðurlag í ljóðum er helzt haft við sögur þær, sem enda með giptíngar.

**Koltrýnu saga.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar á Móum.) Það var einu sinni karl og kerlíng í koti sínu; þau áttu þrjár dætur, er hètu Sigríður, Signý og Helga. Karl hèlt mjög af tveimur dætrum sínum, Signýu og Sigríði, en Helga var olbogabarnið og lá í öskustónni. Einu sinni var barið að dyrum í kotinu; fer karl til dyra, og sèr fagran konúngsson standa úti fyrir. Konúngssonur spyr, hvort karl eigi ekki dætur ógiptar, og segir karl svo vera. Hefur konúngsson þá upp bónorð, og biður þeirrar, er föðurnum þyki sèr helzt samboðin. Karl býður konúngssyni að vera um nóttina, og þiggur hann það. En að morgni kemur karl með Signýu, er hann hèlt mest upp á, og afhendir hana konúngssyni. Leggja þau nú á stað, en þegar þau eru komin út fyrir túngarð, breyttist konúngsson í tröllkarlslíki og spyr, hvort heldur hún vilji að hann beri hana eða dragi. Hún kveðst miklu heldur kjósa að hann dragi sig. Þetta gjörir hann líka þángað til hann kemur að helli allmiklum. Þegar hann er þángað kominn með hana, spyr hann hana, hvort hún vilji eiga sig. Hún fussar og sveiar og segir það sè öldúngis frá. Og þegar eingin von var framar til þess, þá fer hann með hana inn í afhelli einn, bindur hana þar upp á hárinu, höndurnur á bak aptur, en í knè henni setur hann disk, fullan af allrahanda krásum, og yfir gefur hana síðan.

Í annað sinn skömmu eptir þetta er barið að dyrum í koti karls. Og þegar hann kemur til dyranna, sèr hann enn þá tígulegan kóngsson heimsækja sig, og á hann sama erindi, sem hinn fyrri. Í þetta sinn lætur hann Sigríði af hendi og fór alt eins og um var getið viðvíkjandi Signýu. Hún komst eins í hellinn og hlaut samfèlag með systur sinni.

Í þriðja sinn kemur mikill og voldugur kóngsson til karls í koti hans, og spyr, hvort hann eigi ekki ógipta dóttur. Það segist karl ekki geta sagt; hann eigi stelpu, sem einlægt liggi í öskustó og sè ekki mönnum sinnandi. Kóngsson segist ekki hirða um það og sækir fast að geta feingið hana, svo karl lætur það eptir honum, fer til Helgu og færir henni tíðindin. Rís þá Helga upp og rýkur askan mjög úr henni. Þegar hún var búin að dusta sig, fer hún til hins tígulega kóngssonar, og leggur af stað með honum. Eins og vant var, breyttist hann í tröllkarlslíki fyrir utan túnið, og spyr, hvort hún vilji hann beri hana eða dragi. Hún kvaðst fegin vilja, að hann bæri sig. Heldur karl síðan á Helgu, þángað til þau koma í hellinn. Þá spyr karl, hvort hún vilji eiga sig, og játar hún því fúslega. Er hann nú í burtu á hverjum degi, til þess að útvega veizlukost, en kemur þó heim á kvöldi hverju. Einn dag þegar Helga litast um í hellinum, finnur hún leynidyr og lýkur upp, þó örðugt veitti; finnur hún þar systur sínar báðar nær dauða, en lífi. Hún leysir þær í skyndi og veitir þeim betri samastað. Nú fer hún að hugsa upp ráð, hvernig hún geti bjargað þeim og komið til föðurhúsa. Dettur henni þá í hug að búa um þær í pokum og vita, hvort henni heppnist ekki að villa karlinn með þeim hætti.

Einhverju sinni þegar karl kemur heim, þá segist Helga ekki giptast honum, fyrr en hann hafi fært föður sínum lítilfjörlegar sendíngar frá sèr; hún segist hafa safnað saman smávegis ruðum í poka, og verði hann að halda á honum fyrir sig til föður síns, en hann megi ómögulega hnýsast neitt í það, hvað í pokanum muni vera, og ef hann gjöri það, þá muni hún kalla til hans og láta hann vita, að sèr sè ekki ókunnugt, hvað hann sè að hafast að. Karl kveðst muni gjöra þessa bón hennar. En hún segir um nóttina systrum sínum, hvernig þær skuli fara að, ef hann ætli að fara að leysa frá pokanum. Að morgni leggur karl af stað með poka sinn. Þegar hann er kominn spölkorn frá hellinum, fer hann að hvíla sig, og vaknar þá hjá honum mikil laungun eptir að vita, hvað pokinn hafi að geyma. En undireins og hann ætlar að fara að leysa frá pokanum, þá heyrir hann sagt: „Sè eg og heyri eg.“ Við þessi orð brá karlinum, svo að hann hætti við áform sitt og mælti: „Glögt er auga í Helgu minni, sèr hún gegnum hellisaugað.“ Nú heldur hann leingra á fram, lèttir á sèr byrðinni og ætlar aptur að skoða í pokann; fór þá á sömu leið, og áður. Hann heyrir sagt: „Sè eg og heyri eg“, og hann segir aptur: „Glögt er auga í Helgu minni, sèr hún gegnum hellis augað.“ Síðan heldur hann á fram heim undir tún á karlskoti, og ímyndar hann sèr, að nú muni ekki Helga sjá til sín. En undir eins og hann fer að fipla á fyrirbandinu, þá heyrir hann sagt: „Sè eg og heyri eg til þín, og veit eg, ef þú vitjar um,“ og segir sjálfur, eins og fyrr. Kemst hann loksins með pokann heim, finnur karl, færir honum kveðju og sendínguna, og fer síðan leiðar sinnar. Karlinn í kotinu fór bráðum að gæta að pokanum, leysir frá honum, og þá kemur Signý úr honum, segir frá öllu, er gjörzt hafði, og að hún ætti Helgu lífgjöf að þakka. Næsta dag þar eptir fer hann með hinn pokann og fór alt á sömu leið, en í þessari ferðinni komst Sigríður heim. Eptir þetta fer tröllkarlinn í helli sinn og kemur að máli við Helgu, að nú hljóti hún að fara að matreiða í veizluna, skipar hann henni nú að hafa tilbúin borð og bekki, bera bæði mat og vín á borð og vera sezt í sæti að kvöldi hins 3. dags, því nú ætli hann að fara að bjóða vinum sínum og vandamönnum. Síðan leggur hann af stað, en Helga fer að matbúa; flýtir hún sèr mjög að því, ber vistir og vín á borð, byrlar einhverju óheilnæmu saman við vínið, og þegar þetta er búið, tekur hún staur, málar á hann andlitsmynd, færir hann í fagran búníng og setur hann við borðið í sæti það, sem hún vissi, að hún átti að sitja í. Eptir þetta fer Helga í förukerlíngar flíkur, makar sig alla í framan með ösku-kolum, svo að á henni verður eingin mannsmynd. Að því búnu tekur hún staf í hönd og leggur af stað burt úr hellinum. Þegar hún er komin nokkuð töluvert í burt, þá fer hún að mæta boðsfólkinu, þussum og allrahanda óaldarlýð; reið það á gandreið, sumir hrossleggjum og

sumir hrossbausum. þar á meðal var sjálfur brúðguminn. Hann spyr kerlíngu:

„Kemur þú frá helli mín,
koltrýnan þín?"

Hún svarar:

„Já kom eg til þín.
Skeinkt var á skálar,
brúður sat á bekk."

þá segir hann: „Kukk, kukk, og ríðum við sem harðast." Eptir þetta heldur Helga á fram, þángað til hún kemur að koti foreldra sinna. En hinir stórkostlegu veizlugestir halda til hellisins, gánga inn í skyndi og án þess að hugsa mikið um kveðjur fara þeir að hressa sig á vistum og víni. þó ei sè auðgjört að vita, hver frá hafi sagt, þá segir sagan, að brúðguminn tók að ávarpa brúði sína, en hún var næsta þegjandaleg. þegar hann ásamt öðrum gestum sínum hafði gjört sig glaðan, og ætlaði að hafa gleðilæti við brúðina, en hún ansaði ekki blíðlátum hans, eða jók fögnuð hans; þá gefur hann henni kinnhest og sèr, hvernig öllu er háttað, þegar hún kollsteypist af högginu. Verður þá mesti þys og órói í hellinum. Allir stóðu upp og tóku að berjast hvor við annan, vitlausir af víni og eitri. Urðu þau endalokin, að allir láu dauðir í hellinum. Nokkru eptir þetta fór Helga í hellinn, safnaði saman öllu fèmætu og færði heim að koti karls. Lifði síðan í alls nægtum, og ekki kann eg þessa sögu leingri.

**Sagan af Hordíngul.** (Eptir sögn húsfrú Hólmfríðar þorvaldsdóttur.) Einu sinni var karl og kerlíng í koti sínu. þau áttu sèr 3 dætur; þær hètu Signý, Oddný og Helga. Signý og Oddný voru augasteinar karls og kerlíngar; en Helgu höfðu þau út undan. Hún fèkk ekki annað, en ruður að jeta eða leifar hinna, og ekki annað rúm en öskustóna að liggja í; en alt varð hún að gera, sem verst var. Karl og kerlíng lifðu með dætrum sínum á sjófángi eingaungu, og því reri karl einn á báti hvern þann dag, sem fært var. Einu sinni rak á hann ofsaveður svo mikið, að hann gat við ekkert ráðið, og þá bætti það ekki úr skák, að þegar hann er staddur í þessum lífsháska, kemur grá loppa og loðin upp á borðstokkinn hjá honum [1], og er sagt um leið, að þetta skuli verða hans síðasta, ef hann gefi sèr ekki dóttur sína. þykist nú karl skilja, að þetta muni vera risi, og vinnur það til, þó honum þækti það þúngt, að lofa honum dóttur sinni, með því líf hans lá við. Kyrrir þá sjó, svo karl kemst að landi með heilu og höldnu. Síðan kemur hann heim, dapur í bragði, og fer að jeta. þegar hann er nýkominn inn, heyrir hann, að

1. Sbr. Ísl. Fornkvæði I. 26—28. bls.

regndropar koma á skjáinn; kallar hann þá til Signýar og biður hana að bregða sèr út og taka inn færið sitt. Signý fer; en þegar hún kemur út, er þar fyrir tröllkarl ógurlega stór og ljótur í skinnstakki skósíðum að framan, en uppi á herðarblöðum að aptan, með hordíngul ofan á bríngu. Hann biður Signýu að kyssa sig; en hún fussar honum og sveiar. Tekur þá risinn hana og fer burt með. Daginn eptir reri karl, og er ekki að orðleingja það, að hann kemst í sama lífsháskann, og daginn fyrir, og vinnur það sèr til fjörlausnar, að heita risanum annari dóttur sinni. Þegar karl kemur heim og er farinn að jeta, fer alt á sömu leið, og áður, svo hann sendir Oddnýu eptir skinnbrókinni sinni, sem hann hafði skilið eptir úti. Hún fer og hittir risann, eins og Signý, og fara svo öll þeirra viðskipti, eins og fyrri er sagt. Þriðja daginn rær karl enn, og fer alt á sömu leið, að hann heitir risanum dóttur sinni. Þegar hann kemur heim og heyrir hrjóta úr honum á gluggann, skipar hann Helgu að fara út eptir skinnstakknum sínum, og sagði, að farið hefði fè betra, en hún, þó hún færi sömu leið og systur hennar. Helga fór, og sá risann. Hann bað hana að kyssa sig, og það gerði hún. Síðan tók hann hana og bar hana burt í helli sinn; hann var í Dumbúngsdal. Þar var Helga um stund hjá risanum og matbjó fyrir hann. Risinn lèt hana ekki illa. Helga fann þar í afhelli einum systur sínar báðar horaðar og hart leiknar. Hún hresti þær, eins og hún gat, og hjörnuðu þær bráðum. Eptir þetta fer risinn að mánga til við Helgu að eiga sig, og hafði hún einginn aftök um það. Þegar risinn hafði feingið vilyrði hennar, fór hann að búast við brullaupi þeirra, og drepur stóran uxa, sem hann átti. Þá bað Helga hann að aumkvast yfir foreldra sína og gefa þeim nokkuð af uxanum, og tók hann vel undir það. Hún sagðist þá ætla að taka vömbina úr uxanum og láta þar í mat handa karli og kerlíngu, en bað hann svo að halda heim á vömbinni; og hèt risinn henni því. Daginn eptir lèt Helga báðar systur sínar fara í vömbina, og lèt ofan á þær ýmsan mat, meðan risinn var ekki við. Þegar hann kemur heim, biður Helga hann að halda nú á vömbinni heim í karlskot, og láta hana síga inn um eldhússtrompinn í kotinu, en leggur ríkt á við hann að skoða ekki í vömbina, því hún sæi í gegnum fjöll og steina. Lofar hann henni góðu um það og fer svo á stað með vömbina. Þegar hann er búinn að bera hana býsna leingi, setur hann af sèr byrðina og hvílir síg; þykir honum vömbin æði þúng og er rètt kominn á flugstig með að fara að rífa upp úr henni. En þá koma honum í hug ummæli Helgu og segir:

„Aldrei skal eg í belginn bauka,  
þó brotni í mèr hryggurinn;  
glögt er auga í Helgu minni,  
hún sèr í gegnum fjöll og steina.“[1]

1. Sama vísan, og í sögunni af Kolrössu krókríðandi.

Heldur risinn svo á fram og kemur vömbinni heim í karlskot, lætur hana síga niður um eldhússtrompinn og fer svo heim aptur. Daginn eptir segir risinn við Helgu, að hún skuli nú undirbúa alt til brúðkaupsins um daginn, og vera búin að bera mat á borð, klæða sig og vera sezt á bekkinn um kvöldið, þegar hann komi heim, því nú ætli hann út að bjóða.

Fer svo risinn, en Helga verður eptir og býr alt undir til veizlunnar. Þegar hún er búin að ljúka öllu af, sem hún átti að gera, tekur hún trèdrumb, klæðir hann í brúðarfötin sín og setur í bekkinn, þar sem brúðarsætið var og segir við hann: „Svaraðu fyrir mig orði, ef mèr liggur á.“ Síðan fór hún í einhverja ræfla og nýr sig sóti í framan, tekur poka og lætur í hann það sem fèmætast var í hellinum og ber hann á bakinu. Þegar hún var komin skamt frá hellinum, mætir hún risanum með fjölda boðsmanna, voru það þussar og ýmislegt illþýði og reið það gandreið á hrosshausum og hrosskjálkum. Brúðguminn var í fararbroddi og segir, þegar hann mætir Helgu:

„Komstu í Dumbúngsdal,
þar drekka skal?
var matur kominn á borð
og brúðurin sezt í bekkinn?“

Helga kvað já við. Þá segir risinn: „Ríðum við, skellum við.“ Síðan heldur þessi óþjóðalýður til hellisins og heilsar upp á brúðina. Hún tók því, en heldur dræmt. Risinn segir: „Er nú alt til reiðu?“ Hún segir já. Ætlar þá risinn að fara að tala meira við hana; en hún gegnir eingu. Blakar nú risinn hana hendi, þegar hún gegnir ekki. En drumburinn valt um koll. Ærðust þá tröllin, að risinn hefði drepið brúðina, en sum tóku hans taum og sögðu að honum hefði verið það vorkun, þar sem hún hefði ekki viljað ansa honum. Af þessu urðu áflog og ryskíngar í hellinum, og lauk svo, að tröllin drápu hvort annað, svo ekki stóð eitt uppi. Eptir þetta afstaðið fór Helga heim í karlskot og eignaðist allar eigur risans; síðan kom kóngssonur utan úr löndum og átti hana. Unnust þau bæði vel og leingi, og búin er sagan.

**Sagan af Loðinbarða.** (Eptir sögnum í Árnessýslu.) Einu sinni voru 3 systur í föðurgarði; hètu þær Ása, Signý og Helga. Eitt sinn fór Ása út í skóg, að sækja viðarbagga til eldsneytis. Þegar hún ætlaði að lypta á sig byrðinni, var hún svo þúng, að hún gat ekki hreift hana úr stað; fann hún, að eitthvað kvikt var sezt á byrðina. Hún sagði þá: „Hver liggur á byrði minni, svo þúngur?“ en þetta var tröllkarl, og svaraði hann með dimmri rödd: „Loðinbarði heitir hann.“ Síðan þreif hann til Ásu og sagði: „Hvort viltu heldur eg beri þig eða dragi?“ Hún svaraði heldur fálega: „Eg vil lángtum heldur, þú dragir mig.“ Síðan dró hann

hana í helli einn mikinn, og sagði: „Hvort viltu heldur sofa fyrir ofan mig, eða undir rúmi mínu?" Hún kaus heldur, að liggja undir rúmi hans. Daginn eptir reyndi hún til að strjúka heim; en þá náði tröllkarlinn henni og drap hana. Öldúngis eins fór með Signýu. Seinast tók hann Helgu, og fór hún svo að ráði sínu, að hún kaus heldur, að hann bæri sig, en drægi, og vildi heldur sofa fyrir ofan hann, en undir rúmi hans. Fór þá svo, að Loðinbarði trúði Helgu, og skildi hana eina eptir heima, til að búa til veizlu, sem hann hafði lagt til nóg faung; en sjálfur fór hann að bjóða tröllum. Helga átti að hafa aflokið öllu innan þriggja daga; henni tókst það, og bar hún alla vist á borð og vín mikið; en í einum stað, þar sem skugga bar á, reisti hún trèstubba upp við vegg og klæddi hann í föt sín, en festi blöðru með blóði í á vegginn hjá trèbrúðunni. Síðan settist hún á skörúnginn, og reið honum burtu í gandreið, því hún var fjölkunnug. En áður en hún fór á stað, neri hún ösku og pottahrími í andlit sèr, til að gera sig torkennilegri. Var þetta, þegar líða tók að kvöldi hins þriðja dags. Hún mætti þá fyrst stórum tröllahóp, og voru í honum einhöfðaðir þussar, og þar var Loðinbarði með. Tröllin spurðu: „Komstu ekki að Gnýpufjalli, kolkjaptan þín?" Helga svaraði: „Kom eg þar." Tröllin spurðu: „Hvernig var þar umhorfs?" Helga svaraði:

„Breitt var á bekki,
brúður sat á stóli;
full voru ker,
svo flóði út af."

Tröllin mæltu: „Ríðum, og ríðum, og skellum undir nára, og látum ekki brúðurina bíða." Síðan mætti Helga öðrum hóp og voru þar tvíhöfðaðir þussar, og enn hinum þriðja, og voru í honum þríhöfðaðir þussar. Allir sóktu þeir til boðsins, og fóru þeim Helgu sömu orð á milli sem áður er sagt. Þegar til hellisins kom, ruddust tröllin að mat og víni, án þess að skipta sèr af brúðinni, sem sat í skugganum afsíðis. Gerðust tröllin þá brátt ölvuð, og sendust hnútum á. Ein hnútan lenti í blóðblöðrunni á veggnum, og spreingdi hana, og dreif blóðið í allar áttir, en trèstubbinn fèll. Kendu þá tröllin hvort öðru um, að þau hefðu drepið brúðurina. Tókst nú harður bardagi og lauk svo, að þau drápu hvort annað. Þetta sá Helga af fjölkýngi sinni, fór svo aptur til hellisins, og hafði alt með sèr burt þaðan, sem fémætt var.[1]

---

1. Fleiri sögur eru mjög líkar þessari með þeim mismun, að bæði heita karlsdæturnar öðruvísi, en hèr, og eins hitt, að þegar þær sofa fyrir ofan risann, sem tekur þær, vakna þær við það, að fyrir framan þær liggur kóngssonur, en tröllshamurinn fyrir framan stokkinn, og brenna þær hann þá, og eignast síðan kóngssoninn, sem ekki hefir getað losnað fyrr úr ánauðum sínum, en mennsk kona verður til að hvíla fyrir ofan hann í tröllshamnum.

**Búkolla. 1.** (Eptir handriti þorvarðar Ólafssonar.) Einu sinni var karl og kerlíng í garðshorni; þau áttu 3 dætur; þær hètu Sigríður, Signý og Helga. Karli og kerlíngu þókti vænt um Sigríði og Signýu, en ekkert þókti þeim vænt um Helgu og lá hún ávalt í öskustó. það er mælt, að karl og kerlíng ættu eingan grip í eigu sinni, nema kú eina, sem Búkolla hèt. Hún var sá dánumannsgripur, að þó hún væri mjólkuð þrisvar á dag, þá mjólkaði hún ekki minna, en 40 merkur í hvert sinn. Karl reri til fiskjar á degi hverjum og reri altaf á keraldi, og á hverjum degi flutti Sigríður dóttir hans honum mat á fiskimið, og flutti hann einnig á keraldi. það bar einu sinni til í garðshorni, að kýrin Búkolla hvarf, svo einginn vissi, hvað af henni varð. Ræða þau nú um það karl og kerlíng, hvað úr skuli ráða, og verður það, að Sigríður er send á stað að leita og látin hafa nesti og nýa skó. Hún geingur leingi, þar til hún kemur á einn hól; þar borðar hún og mælti: „Baulaðu, kýrin Búkolla, ef eg á að finna þig."[1] En ekki baular kýrin. Nú geingur hún á annan hól, borðar þar og mælti: „Baulaðu, kýrin Búkolla, ef eg á að finna þig." En ekki baular hún að heldur. Hún geingur á þriðja hólinn, borðar þar og mælti síðan: „Baulaðu, kýrin Búkolla, ef eg á að finna þig." þá baular kýrin lángt frá uppi í fjalli. Sigríður geingur upp í fjallið, þar til hún kemur að hellisdyrum. Hún geingur í hellinn. þar sèr hún að eldur logar á skíðum, kjötpottur er yfir eldi og kökur á glóðum. þar er og Búkolla og stendur við töðustall og er bundin með járnhlekkjum. Sigríður tekur köku af eldi og kjötbita úr pottinum og snæðir. Hún ætlar að leysa Búkollu, en getur ekki, og sezt hún þá undir kverk hennar og klórar henni. Að litlum tíma liðnum fer hellirinn að skjálfa og kemur tröllskessa mikil í hellinn. Hún mælti: „þú ert þá komin hèr, Sigríður karlsdóttir, þú skalt ekki lifa leingi, þú hefir stolið frá mèr." Skessan tekur hana þá, snýr úr hálsliðnum, og hendir búknum í gjótu í hellinum. Víkur nú sögunni heim í garðshorn. Karl og kerlíngu fer að leingja eptir Sigríði og ætla hún muni nú dauð. þau ráða þá af að senda Signýu að leita að Búkollu og fer hún af stað. Verða nú forlög hennar, eins og Sigríðar að öllu leyti, og seinast drepur skessan hana í hellinum. Nú biður Helga karl og kerlíngu að lofa sèr að leita að Búkollu. En þau halda það verði til lítils, þegar hinar góðu gulldætur sínar hafi ekki getað fundið hana, og sèu nú líklegast dauðar. það verður þó, að Helga fær að fara. Hún fær skrápskinnsskó á fæturna og í nestið fær hún bræðíng, roð, ugga og skófir. Hún geingur nú leingi, þángað til hún kemur á hól nokkurn. þá mælti hún: „Hèr hafa systur mínar borðað, hèr skal eg borða líka." Fer hún nú að naga úr nesti sínu. Síðan mælti hún: „Baulaðu, kýrin

1. Fyrir norðan eru þessi orð höfð þannig: „Baulaðu nú, Búkolla mín, ef að þú ert hèrna."

Búkolla, ef eg á að finna þig.“ En ekki baular kýrin. Nú geingur hún á annan hól og fór eins að og á fyrra hólnum. Hún geingur á þriðja hólinn. Þá mælti hún: „Hèr hafa systur mínar borðað, hèr skal eg borða líka.“ Þegar hún hefir borðað, mælti hún: „Baulaðu kýrin Búkolla, ef eg á að finna þig.“ Þá heyrir hún, að Búkolla baular uppi í fjalli. Hún geingur upp í fjallið á hljóðið. Loksins kemur hún að hellisdyrum. Hún geingur í hellinn. Þar stendur kjötpottur yfir eldi og kökur eru á glóðum. Hún hagræðir kökunum, snerpir á undir pottinum, en tekur ekkert, og sezt síðan hjá Búkollu, sem þar stendur við töðustall. Litlu síðar heyrir hún hark úti og hellirinn fer að skjálfa. Síðan kemur tröllskessa í hellinn, mikil vexti og ærið fasmikil. Hún mælti til Helgu: „Þú ert þá komin hèr, Helga karlsdóttir; þú skalt nú lifa, því þú hefir eingu stolið frá mèr.“ Líður nú nóttin og gefur skessan Helgu mat. Nú ætlar skessa út á skóg til veiða um daginn; þá mælti hún til Helgu: „Þú skalt nú vinna nokkuð í dag, þú skalt sækja brjóstnál, sem eg átti, þegar eg var heimasæta, hjá Daladrottníngu, systur minni.“ Helga spurði, hvar hún væri. „Það máttu segja þèr sjálf,“ mælti skessan, „og ef þú verður ekki komin með hana í kvöld, þá drep eg þig.“ Fer nú skessan, en Helga er ráðalaus og sezt nú fram í hellisdyr og grætur. Þá kemur til hennar maður æði ófrýnilegur á að líta. Hann var í skorpnum skinnstakki, sem náði á ristar að framan, en á herðarblöð að aptan. Horinn náði úr nefinu og niður á tær. Hann spyr, af hverju hún gráti. Hún kvað það vera til lítils að segja honum það, hann mundi lítið geta úr því bætt. „Eg veit, hvað að þèr geingur,“ segir hann, „og ef þú vilt kyssa mig í kvöld, þá skal eg hjálpa þèr að ná nálinni.“ Hún kveðst skuli gera það. Helga spyr hann að nafni, en hann kvaðst heita Dordíngull. Þau gánga nú bæði frá hellinum, þángað til þau koma að litlu húsi. Við dyrnar á húsinu er páll og reka. Þá segir Dordíngull: „Páll, stíng þú; reka, moka þú.“ Þá taka þau páll og reka til starfa, þángað til þau koma niður að nálinni. Tekur þá Dordíngull hana upp og segir, að hèr sè nú nálin og spyr Helgu, hvort hún vilji nú ekki kyssa sig; en það segist hún ekki geta. Fer nú Helga heim í hellinn og leggur brjóstnálina í rúm skessu. Um kvöldið kemur skessa heim, og spyr, hvar nálin sè. „Hún er í rúmi þínu,“ segir Helga. „Vel er unnið,“ mælti skessa, „en varla muntu hafa verið ein í ráðum.“ Næsta morgun segir skessa: „Verk hef eg ætlað þèr í dag, Helga, þú skalt sækja tafl, sem eg á hjá Daladrottníngu, systur minni; hefi eg leingi viljað fá það, en ekki feingið.“ Helga spyr, hvar Daladrottníng sè. „Það máttu segja þèr sjálf,“ mælti skessa, „og ef þú kemur ekki með taflið, skal eg drepa þig.“ Fer nú skessa burt, en Helga situr eptir ráðalaus og sezt í hellisdyrnar og grætur. Þá kemur þar Dordíngull og kveðst muni hjálpa henni, ef hún kyssi sig i kvöld. Helga kveðst fegin vilja gánga að þeim

kostum og þó meira væri. Síðan gánga þau frá hellinum og gánga nú leingi, þángað til þau sjá höll mikla nokkuð lángt frá. „Í þessari höll,“ segir Dordíngull, „býr nú Daladrottníng. Skaltu nú fara þángað, og mun hún taka þèr vel og fá þèr taflið. Hún mun bera fyrir þig mat, en þú skalt eingan bita borða, en 3 bita skaltu taka og stínga í vasa þinn, og vel skaltu signa borðbúnaðinn, þegar þú ert sezt undir borð. Þegar þú ert komin á stað, mun hún senda á eptir þèr 3 varga, og skaltu þá fleygja sínum bitanum í hvern.“ Fer nú Helga til hallarinnar. Daladrottníng tekur henni vel og ber fyrir hana mat á borð. Kveðst hún vita, í hvaða erindum hún sè. En þegar alt er á borð borið, segir Daladrottníng: „Skerðu hana, gaffall; stíng þú hana, hnífur, og gleiptu hana, dúkur.“ Þá svaraði hnífurinn, gaffallinn og dúkurinn: „Við getum það ekki, hún Helga signdi okkur svo vel.“ Nú fór Daladrottníng frá Helgu um stund; tekur hún þá 3 bita og stíngur í vasa sinn, en ekkert borðaði hún sjálf. Daladrottníng fær nú Helgu taflið, og fer hún síðan af stað. Þegar hún er komin nokkuð frá höllinni, koma 3 vargar á eptir henni og telur hún víst, að þeir muni eiga að ráða sèr bana. Helga tekur bitana og kastar fyrir þá, en vargarnir èta sinn hver og detta þegar dauðir niður. Helga fer nú leiðar sinnar og í hellinn og leggur taflið í rúm skessunnar. Um kvöldið kemur skessan heim, og spyr Helgu, hvar taflið sè. Hún segir, það sè í rúminu. „Vel er unnið,“ mælti skessan, „en það grunar mig, að þú sèrt ekki ein í ráðum.“ Næsta morgun kveðst skessan hafa ætlað Helgu starf í dag. „Þú skalt,“ segir hún, „elda fyrir mig, búa um rúmið mitt, og hella úr koppnum mínum og vera búin í kvöld, ella mun eg drepa þig.“ Helga kvað þetta hægt verk vera. En þegar skessan er farin, ætlar Helga að fara að búa um rúmið, en þá eru fötin föst, og þegar hún ætlar að taka pottinn, þá er hann fastur, og koppurinn er líka fastur. Nú sezt hún í skáladyrnar og grætur. Þá kemur Dordíngull og bauð henni hjálp, ef hún kysti sig í kvöld. Hún lofar því. Fer Dordíngull að búa um og elda, og er alt laust fyrir honum. Hann lætur sjóðandi bikketil undir rúm hennar og segir Helgu, að í ketilinn muni hún detta, þegar hún setjist á rúmið, því í kvöld muni hún verða þreytt, og èta mikið, en undir kodda hennar sè fjöregg, sem hún skuli brjóta á ásjónu hennar, í því hún falli í ketilinn og þá skuli hún nefna sig, ef hún vilji. Dordíngull fer nú burt. Þegar skessan kemur heim um kvöldið, segir hún, að vel sè unnið, en undarlegt sè, ef hún sè ein í ráðum. Hún sezt á rúmið og fellur í ketilinn. Helga spreingir þá eggið á ásjónu hennar og nefnir Dordíngul. Hann kemur þegar. Skessan lætur þar líf sitt og brenna þau hana upp. Verða þá dýnkir miklir, svo Helga verður hrædd, og kyssir Dordíngul 3 kossa; segir hann, að Daladrottníng sè nú að drepast líka, því þær hafi átt sama fjöreggið báðar. Dordíngull og Helga sváfu nú saman um nóttina,

en um morguninn varð Helga þess vör að friður kóngsson var fyrir ofan hana í rúminu, en hamurinn þar hjá. Hún dreypir á kóngsson, en brennir haminn; hafði Dordíngull verið kóngsson í álögum. Hann átti nú Helgu fyrir konu. Þau tóku það, sem fèmætt var í hellinum og þar á meðal Búkollu, svo tóku þau líka alt fè úr höll Daladrottníngar, sem var býsna mikið. Þau fóru síðan utan, Dordíngull og Helga, og settust að í ríki föður hans, en að honum önduðum, erfðu þau ríkið. Þau lifðu leingi eptir þetta, og var sambúð þeirra hin bezta, og lýkur svo þessari sögu.

**Búkolla. 2.** (Eptir sögn konu einnar á Seltjarnarnesi. M. G.) Einu sinni var karl og kerlíng í koti sínu. Þau áttu einn son, en þókti ekkert vænt um hann. Ekki voru fleiri menn, en þau þrjú í kotinu. Eina kú áttu þau karl og kerlíng; það voru allar skepnurnar. Kýrin hèt Búkolla. Einu sinni bar kýrin, og sat kerlíngin sjálf yfir henni. En þegar kýrin var borin, og heil orðin, hljóp kerlíng inn í bæinn. Skömmu seinna kom hún út aptur, til að vitja um kúna. En þá var hún horfin. Fara þau nú bæði, karlinn og kerlíngin, að leita kýrinnar, og leituðu víða og leingi, en komu jafnnær aptur. Voru þau þá stygg í skapi, og skipuðu stráknum að fara, og koma ekki fyrir sín augu aptur, fyrr en hann kæmi með kúna. Bjuggu þá strák út með nesti og nýa skó, og nú lagði hann á stað, eitthvað út í bláinn. Hann gekk leingi leingi, þángað til hann settist niður og fór að jeta. Þá segir hann: „Baulaðu nú, Búkolla mín, ef þú ert nokkurstaðar á lífi.“ Þá heyrir hann, að kýrin baular lángt lángt í burtu. Geingur karlsson enn leingi leingi. Sezt hann þá enn niður til að jeta, og segir: „Baulaðu nú, Búkolla mín, ef þú ert nokkurstaðar á lífi.“ Heyrir hann þá, að Búkolla baular, dálítið nær en í fyrra sinn. Enn geingur karlsson leingi leingi, þángað til hann kemur fram á fjarskalega háa hamra. Þar sezt hann niður til að jeta, og segir um leið: „Baulaðu nú, Búkolla mín, ef þú ert nokkurstaðar á lífi.“ Þá heyrir hann, að kýrin baular undir fótum sèr. Hann klifrast þá ofan hamrana, og sèr í þeim helli mjög stóran. Þar geingur hann inn, og sèr Búkollu bundna undir bálki í hellinum. Hann leysir hana undir eins, og leiðir hana út á eptir sèr, og heldur heimleiðis. Þegar hann er kominn nokkuð á veg, sèr hann hvar kemur ógnastór tröllskessa á eptir sèr, og önnur minni með henni. Hann sèr, að stóra skessan er svo stórstíg, að hún muni undir eins ná sèr. Þá segir hann: „Hvað eigum við nú að gera, Búkolla mín?“ Hún segir: „Taktu hár úr hala mínum, og legðu það á jörðina.“ Hann gjörir það. Þá segir kýrin við hárið: „Legg eg á, og mæli eg um, að þú verðir að svo stórri móðu, að ekki komist yfir, nema fuglinn fljúgandi.“ Í sama bili varð hárið að ógnastórri móðu. Þegar skessan kom að móðunni, segir hún: „Ekki skal þèr þetta duga, strákur.“ „Skreptu heim, stelpa,“ segir hún við minni skessuna, „og sæktu stóra nautið hans föður míns.“ Stelpan fer, og kemur

með ógnastórt naut. Nautið drakk undir eins upp alla móðuna. þá sèr karlsson, að skessan muni þegar ná sèr, því hún var svo stórstíg. þá segir hann: „Hvað eigum við nú að gera, Búkolla mín?“ „Taktu hár úr hala mínum, og legðu það á jörðina,“ segir hún. Hann gerir það. þá segir Búkolla við hárið: *„Legg eg á, og mæli eg um, að þú verðir að svo stóru báli, að einginn komizt yfir, nema fuglinn fljúgandi.“* Og undir eins varð hárið að báli. þegar skessan kom að bálinu, segir hún: „Ekki skal þèr þetta duga, strákur.“ „Farðu og sæktu stóra nautið hans föður míns, stelpa,“ segir hún við minni skessuna. Hún fer, og kemur með nautið. En nautið meig þá öllu vatninu, sem það drakk úr móðunni, og slökti bálið. Nú sèr karlsson, að skessan muni strax ná sèr; því hún var svo stórstíg. þá segir hann: „Hvað eigum við nú að gera, Búkolla mín?“ „Taktu hár úr hala mínum, og legðu það á jörðina,“ segir hún. Síðan segir hún við hárið: „Legg eg á, og mæli eg um, að þú verðir að svo stóru fjalli, sem einginn kemst yfir, nema fuglinn fljúgandi.“ Varð þá hárið að svo háu fjalli, að karlsson sá ekki nema upp í heiðan himininn. þegar skessan kemur að fjallinu, segir hún: „Ekki skal þèr þetta duga, strákur.“ „Sæktu stóra borjárnið hans föður míns, stelpa!“ segir hún við minni skessuna. Stelpan fer og kemur með borjárnið. Borar þá skessan gat á fjallið,[1] en varð ofbráð á sèr, þegar hún sá í gegn, og tróð sèr inn í gatið, en það var of þraungt, svo hún stóð þar föst, og varð loks að steini í gatinu, og þar er hún enn. En karlsson komst heim með Búkollu sína, og urðu karl og kerlíng því ósköp fegin.

**d)** Einkenni þessa flokks er það hið helzta, að dauðir menn eður lifandi, karl eður kona, sýna þakklátsemi sína við hetju sögunnar fyrir velgjörðir eður huglátsemi, sem hann hefir sýnt þeim, og duga honum til að leysa þrautir þær sem fyrir hann hafa verið lagðar, og leggja honum til hamíngju og meiri atgjörfi en menskir menn hafa.

**Velvakandi og bræður hans.** (Eptir sögn bóndamanns úr Biskupstúngum. M. G.) Einu sinni var karl og kerlíng. þau áttu 5 syni, sinn á hverju ári. Ekki var fleira manna í kotinu en þau hjónin og synir þeirra. Einu sinni sem optar fóru hjónin út á eingjar að slá, en skildu bræðurna eina eptir heima; því þeir voru þá svo stálpaðir orðnir, að óhætt var að fara frá þeim. Veður var gott um daginn, og voru bræðurnir að leika sèr úti í kríng um bæinn. þá kom til þeirra gömul og hrum kerlíng. Hún bað sveinana að gefa sèr að drekka. þeir gjöra það. þegar kerlíng var búin að svala sèr, þakkaði hún þeim kærlega fyrir sig, og spurði,

1. Sbr. Snorra-eddu I, 220—222. bls.

hvað þeir hètu. Bræðurnir segjast ekki heita neitt. Þá segir kerlíng: „Fegin varð eg að fá að drekka hjá ykkur, því eg var að þrotum komin af þorsta; en nú er eg svo fátæk, að eg get ekki launað ykkur sem skyldi. Þó ætla eg að gefa ykkur sitt nafnið hverjum, og skal hinn elzti heita Velvakandi, sá annar Velhaldandi, sá þriðji Velhöggvandi, sá fjórði Velsporrekjandi, og sá fimti Velbergklifrandi. Heiti þessi gef eg ykkur fyrir svaladrykkinn, og vona eg, að renta fylgi nafni.“ Síðan kvaddi kerlíng bræðurna, og bað þá að muna vel nöfnin. Fór hún svo leið sína. Um kvöldið þegar foreldrar bræðranna komu heim, spurðu þau þá, hvort nokkur hefði komið um daginn. Þeir sögðu eins og var, og svo um nöfnin, sem kerlíng hefði gefið sèr. Þau lètu vel yfir því, karlinn og kerlíngin.

Uxu nú bræðurnir upp hjá foreldrum sínum, þángað til þeir voru upp komnir. Þá sögðust þeir vilja fara burtu úr kotinu og reyna til að framast á öðrum stöðum. Foreldrar þeirra leyfðu þeim það. Lögðu þeir nú á stað, og segir ekki af ferðum þeirra, fyrr en þeir koma til kóngsins. Þeir biðja kónginn veturvistar, en segjast vilja fá hana annaðhvort allir, eða einginn. Kóngur sagði, að þeir skyldu fá að vera hjá sèr um veturinn, ef þeir vilji vaka yfir og gæta dætra sinna á jólanóttina. Þeir játa því, og verða nú allir hjá kóngi. En svo stóð á, að kóngur hafði átt fimm dætur. En tvær seinustu jólanæturnar höfðu tvær þeirra horfið, sín hvora nótt, úr meyaskemmunni, og var þó vakað yfir þeim. Einginn vissi, hvernig þær hefðu horfið, og hvergi fundust þær, þrátt fyrir allar leitir og rannsóknir, sem kóngur hafði látið gjöra. Þegar bræðurnir vissu, hvernig ástatt var, lètu þeir konúng láta smíða nýa meyaskemmu, einstaka sèr, og mjög rammgjörva. Nú komu jólin. Fóru þá kóngsdæturnar þrjár, sem eptir voru, í skemmuna, og bræðurnir allir fimm. Ætluðu þeir nú að vaka á jólanóttina yfir kóngsdætrunum. En þeir sofnuðu allir, nema hann Velvakandi. Ljós var í skemmunni, og hún harðlæst. Fyrri part nætur sèr Velvakandi, að skugga ber á einn skemmugluggann, og því næst seilist inn hönd ógnarlega stór og hrikaleg, og yfir rúm einnar kóngsdótturinnar. Þá vekur Velvakandi bræður sína í snatri, og þrífur Velhaldandi í loppuna, sem inn seildist, svo sá gat ekki dregið hana að sèr, sem átti, þó hann streittist við. Kom þá Velhöggvandi og hjó af hendina við gluggann. Hljóp þá sá frá, sem úti var, og eltu bræðurnir hann. Gat Velsporrekjandi rakið förin. Komu þeir loks að afarbröttum hömrum, sem einginn komst upp, nema Velbergklifrandi. Hann klifraði upp hamarinn, og kastaði festi niður til bræðranna. Dró hann þá svo upp alla. Voru þeir þá staddir við hellismunna stóran. Þeir geingu inn í hann. Þar sáu þeir skessu; hún var grátandi. Þeir spurðu, hvað að henni geingi. Hún var treg til að segja þeim það, en þó gjörði hún það á endanum. Sagði hún, að karlinn sinn hefði í nótt mist aðra höndina, og því lægi svo illa á sèr. Þeir báðu hana, að huggast, og bera sig vel; því þeir gætu læknað

karlinn. „En það má einginn horfa á okkur,“ segja þeir, „á meðan við erum að lækna, og erum við svo varkárir með leyndardóm okkar, að við bindum alla, sem nærri eru, svo einginn geti komið að okkur á meðan á lækníngunni stendur; því þar liggur mikið við.“ Buðu þeir nú skessunni að lækna karl hennar undir eins, ef hún leyfði þeim að binda sig. Ekki var henni um það, en lèt þó til leiðast á endanum. Bundu þeir skessuna nú rammlega, og geingu svo inn í hellinn til karlsins. Var hann hið ferlegasta tröll, og höfðu þeir eingar sveiflur á því, nema drápu hann undir eins. Að því búnu fóru þeir til skessunnar, og drápu hana. Síðan rannsökuðu þeir hellinn, og fundu þar ekkert fèmætt, sem þeir vildu hafa á burtu með sèr. Ekki urðu þeir þar heldur fleiri trölla varir. En þegar þeir voru að rannsaka hellinn, komu þeir að afhelli dálitlum, og þegar þeir komu inn í hann, sáu þeir þar báðar hinar týndu kóngsdætur. Voru þær þar fjötraðar inni. Var önnur þeirra dável feit, en hin skinhoruð. Voru þær að barma sèr yfir forlögum sínum, og sagðist sú feitari nú eiga að deya í dag; því það ætti að hafa sig til jólanna. En í þessu geingu bræðurnir inn til þeirra, leystu þær, og sögðu þeim, hvar komið var. Glaðnaði þá yfir systrunum, sem von var, og höfðu bræðurnir þær heim með sèr til hallarinnar, og lètu þær fara inn í skemmuna til systra sinna. Var þá enn ekki kominn dagur. En með degi kemur kóngur út þángað, til að vita, hvernig þeim bræðrum hefði tekizt að gæta systranna. En þegar hann heyrði alt, sem við hafði borið um nóttina, og sá allar dætur sínar þar saman komnar, varð hann svo glaður, að hann rèð sèr varla fyrir fögnuði. Efldi hann þá til stóreflisveizlu, og lyktaði sú veizla með því, að bræðurnir drukku brúðkaup sitt til sinnar kóngsdótturinnar hver. Urðu þeir bræður síðan allir hinir mestu menn, og lifðu bæði vel og leingi, í mesta geingi. Og nú er þessi saga úti.

**Þorsteinn kóngsson.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar, nú í Móum á Kjalarnesi.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu. Þau áttu einn son, sem Þorsteinn hèt. Hann var snemma stór maður vexti og gjörfulegur. Unni hver maður honum hugástum vegna góðsemi hans og örlyndis. En þó þókti rausn hans keyra fram úr öllu hófi, og ávítaði móðir hans hann iðulega fyrir útbruðlunarsemi. Reisti hún sem sterkastar skorður við þessari sóunarsemi sonar síns, sem hún kallaði svo, en hann hèlt samt uppteknum hætti, að svo miklu leyti sem hann gat. Þegar móðir hans dó, hugsaði hann, að nú væri sèr óhætt að gefa, og þókti vænt um það, að vera nú sjálfráður fyrir nöldri hennar. Hèlt Þorsteinn fyrir fult og fast, að faðir sinn myndi vera sèr samþykkur í ráðlagi sínu, af því hann hefði aldrei fundið neitt að því við sig. En það fór öðruvísi; því kóngur tók þar nú við, sem drottníng hafði hætt með umvöndunina. Leitaðist kóngur við, að leiða syni sínum fyrir sjónir, hvað slík bruðlunar-

semi væri ósæmileg, og að með henni hlyti hann að verða öreigi, fyrr en hann verði, þar sem honum yrði einginn hlutur við höndur fastur. En hèr dugðu eingar fortölur. Þorsteinn var samur eptir sem áður, og gaf burtu hvern hlut, jafnóðum og hann eignaðist nokkuð. Nú kom þar að, að faðir hans andaðist. Hugsaði hann sèr þá til hreifíngs, þegar hann var orðinn einn um hituna. Gaf hann nú hverjum fè, sem hafa vildi, og urðu þeir æði margir, svo þó að auðurinn væri mikill, sem hann hafði erft eptir foreldra sína, varð hann samt undan að láta. Það þarf ekki að orðleingja þetta framar; svo fór, að allar eigur Þorsteins eyddust, svo ekki varð annað eptir á endanum, en snögt og snautt kóngsríkið. Vildi Þorsteinn þá útvega sèr kaupanda að ríkinu, til þess að geta feingið annað handhægra fè til að gefa. Loksins tókst honum það líka, og fèkk hann klyfjaðan hest af gulli og silfri fyrir ríkið.

Þegar Þorsteinn var búinn að fullgjöra kaupin, þá fóru nú vinirnir að smáfækka. Sneru þeir þá allir við honum bakinu, þegar þeir sáu, að hèr var ekki feitan gölt að flá leingur. Sá nú Þorsteinn í hvert óefni komið var, og hugsaði sèr nú að yfirgefa þessa pilta. Leggur hann á stað með alt, sem hann átti, og flutti það á einum hesti; en Rauð sínum reið hann. En þeim hesti hafði hann aldrei viljað farga, sökum kosta hans, þó þeirra sè hèr ekki getið í þessari sögu. Ferðaðist nú Þorsteinn leingi leingi um eyðimerkur og heiðar, án þess að vita neitt, hvað hann fór, eða kæra sig um, hvert hann stefndi. Lèt hann hestana grípa niður, hvar sem hann fann grastó, á eyðimörkum þessum, en hafði þar ekki aðrar viðtafir. Einu sinni, þegar hann áði, var hann mjög hryggur; fannst honum þá, eins og hann ætti það víst að týna lífinu í þessari ferð. Samt sá hann, að ekki stoðaði annað, en halda á fram, hvað sem fyrir kynni að koma, úr því hann væri kominn út í það. Á þessum áfánga hittir hann bæ einn, og varð hann því næsta feginn, þar eð hann hafði svo ógnarleingi eingan mann fundíð. Biður hann nú að lofa sèr að vera á bænum, og fær það tafarlaust. Sefur hann þar af um nóttina. En þegar hann vaknar um morguninn er hvert mannsbarn burt úr bænum. Bregður honum heldur í brún við það, og ætlar sjálfsagt, að hèr muni einhver svik búa undir. Flýtir hann sèr þá á fætur, og hleypur út. Sèr hann þá, hvar bóndi er með hyski sínu öllu í allramesta óðakappi að berja utan hól einn skamt frá bænum. Þorsteinn spyr bónda, hvers vegna hann láti svona heimskulega, og varð hálfhissa að sjá þetta fargan. Bóndi segir, að hann gjöri þetta ekki vonum framar; því í hólnum sè grafinn maður, sem sèr hafi verið skuldugur um 200 ríkisdala,.og hafi hann aldrei borgað þá. Kóngsson leitast þá við, að sýna honum fram á, að hann muni aldrei ná skuld sinni fyrir þetta, heldur eyði hann enn meiru með bjánalátum þessum í tímatöfinni. Bóndi segist ekkert hirða um það; hann sè ánægður, ef sá dauði hafi eingan frið nè ró í gröfinni, og sagðist því aldrei mundi hætta

uppteknum hætti, svo leingi sem hann lifði. Þá spyr kóngssonur bónda, hvort hann taki það ekki gilt, ef einhver yrði til að borga honum skuld hins dauða manns. Hinn játar því. Greiðir þá kóngssonur honum alla peníngana. Hætti bóndi þá að lemja hólinn, og lofaði að gjöra það aldrei framar. Að því búnu biður kóngsson bónda að vísa sèr veg til mannabygða, þar sem nokkurt fjölmenni sè fyrir. Bóndi gjörir það, og segir, að þegar hann hafi um tíma haldið á fram þann veg, sem beint liggi frá bænum sínum, þá muni hann koma á vegamót, og skuli hann muna sig um, að fara ekki þá götuna, sem til austurs liggi, heldur hina. Þessu játar kóngsson, og leggur nú á stað. Kemur hann þar að, sem vegirnir skilja, og heldur nú þá götuna, sem til vesturs liggur. En þegar hann hafði farið hana stundarkorn, hugsar hann með sèr, að gaman væri að vita, hvort nokkur háski væri á ferðum á hinni götunni. Snýr hann þá aptur, og heldur fyrst á vegamótin, en síðan á fram austureptir, þángað til hann kemur að stórkostlegum bæ, sem var rammlega umgirtur á alla vegu, bæði af landslaginu og mannavöldum. Fann hann þar einstigi eitt, sem að bænum lá. Skilur kóngsson þar eptir hestana, og geingur að bænum. Var hann reisulegur mjög. Kemur Þorsteinn þar að einhverju húsi, og geingur þar inn; því það var ólæst, en einginn maður úti. Sèr Þorsteinn þar 7 rúm, öll mjög stórkostleg, en þó var eitt þeirra lángstærst. Borð stóð eptir endilaungu húsinu á miðju gólfi, og voru diskar að borðinu. Ekki varð Þorsteinn var við neinn mann í bænum. Fer hann þá að vitja um hestana sína, því hann ætlaði að hafa hèr náttstað, þó honum virtist það æði voðalegt. Spretti hann þá af hestunum, og lèt þá á haga; kom síðan fyrir farángrinum þar sem honum sýndist. En sverðið sitt tók hann með sèr; var það átrúnargoð hans annað mest, en hitt klárinn Rauður. Þegar hann var búinn að þessu öllu, sneri hann heim aptur til bæarins, og geingur inn í hann; fer hann nú inn í hvert hús, sem hann gat komizt inn í. Hann finnur matvæli í einu herberginu. Tekur hann þá nokkuð af þeim, og lætur ríflegan skamt á hvern disk á borðinu, og býr síðan um öll rúmin með skjald og skyn. Þó hann þæktist nú vera búinn að gjöra vel fyrir sèr, þorði hann samt ekki að vera á almanna færi, heldur leitar sèr að einhverju skúmaskoti til að vera í, og getur loks troðið sèr inn á milli stafs og veggjar í gætt eina.

Að litlum tíma liðnum heyrir Þorsteinn undirgáng mikinn. Var húshurðinni hrundið upp og geingið inn tafarlaust. Heyrir hann þá einhvern segja: „Hèr er einhver kominn. Honum skulum við stytta stundir.“ Þá segir einn: „Ekki skal það vera; eg tek hann í mína vernd. Eg á svo mikið með hèrna, að eg get ráðið lífi eins manns; hann hefir að fyrra bragði gjört okkur greiða, búið um rúmin okkar, borið mat á borð, og farið vel að öllu. Ef hann kemur í ljós, þá skal honum ekki verða gjört

neitt til myska.“ Við þessi orð hrestist upp hugur kóngssonar, og gaf hann sig þá fram. Þóktu honum piltar þessir heldur en ekki stórvaxnir, og líkari tröllum en mönnum, einkum var fyrirliðinn frábærlega stór og mikill jötun. Var Þorsteinn þar hjá þeim um nóttina. Morguninn eptir biðja þeir hann, að vera þar hjá sèr eina viku. Sögðu þeir, að hann skyldi ekki hafa annað að sýsla, en að matreiða fyrir þá, og búa um rúmin. Lofaði kóngsson því. Var hann þar vikuna, og líkaði hvorum vel við aðra. Þrábændu þá bæarbúarnir hann um að vera hjá sèr eitt ár, og lofaði kóngsson því, þó honum þækti þar heldur dauflegt. Lofaði hinn stóri rumur Þorsteini ærnu kaupi í staðinn. Því næst fèkk hann kóngssyni alla lykla, nema einn. Bar stóri karlinn þann lykil jafnan á sèr í festi um hálsinn. Gekk nú kóngssonur um öll herbergi í bænum á daginn, nema það eina, sem karlinn geymdi lykilinn að; því að því gekk einginn af lyklunum, sem kóngsson hafði undir höndum. Hann reyndi þá til að stínga upp herbergið, en gat ekki. En eptir því tók Þorsteinn, að stóri rumurinn gekk inn í herbergi þetta á hverju kvöldi og hverjum morgni. Þegar hann hafði verið þarna leingi nokkuð, spurði hann stóra jötuninn að, hvers vegna hann hefði feingið sèr lykla að öllum herbergjunum, nema þessu eina. Segir hann, að eins og hann sè trúr yfir því, sem hann hafi umsjón yfir, eins muni sèr og vera trúandi fyrir þessu eina herbergi og því, sem í því sè. Hinn svarar, að þar sè ekkert í, og megi hann vita það, því hann sjái, að hann hafi trúað honum fyrir því, sem mikið sè í varið. Hættu þeir svo talinu.

Er þar stutt af að segja, að kóngsson var þarna kyr í bænum í samfleytt 4 ár, og fèkk ærnakaup fyrir. Var hann þá með öllu hættur að minnast á herbergið góða, og studdi það medal annars að því, að risunum líkaði hverjum degi öðrum betur við hann. En það sem helzt dró kóngsson til að vera hèr svo leingi, var það, að hann var einatt að sitja um tækifæri til að komast eptir, hvort alls ekkert væri inni í herberginu góða. Einu sinni að morgni dags er hann að hugsa um þetta, sem optar; tekur hann þá upp á því, að hann bar á dyr á bænum, hleypur síðan inn með öndina í hálsinum, og lèzt vera lafhræddur. Var hann með kökudeig í hendinni, sem hann var að hnoða. Hann spyr risana, hvort þeir hafi ekki heyrt neitt. Þeir sögðu það vera, og sögðust hafa haldið, að það hefði verið eitthvert þrusk í honum frammi við. Hann sagði því fjarri fara, og sagðist ekki hafa þorað að fara til dyranna, en víst hefði einhver barið. Þeir sögðu, hann hefði gjört rètt í því, að fara ekki út. Ruddust þeir nú upp úr rúmum sínum, því þeir voru ekki komnir á fætur, risarnir, og hlupu til dyranna hálfklæddir. Hafði þá stóri jötuninn óvart skilið eptir lykilinn að herberginu við höfðalagið sitt, og markaði kóngsson hann í snatri á kökudeigið. Komu nú risarnir inn aptur verri en sneyptir; því þeir höfðu eingan sèð, sem ekki var heldur

von til. Báru þeir það á Þorstein, að hann hefði gjört þetta til að gabba sig, en hann bar það af sèr, og sagði, að það hefði þá hlotið að vera einhver andi. Var svo því máli slept.

Eptir þetta fór nú kóngsson að reyna til þess á daginn að smíða sèr lykil eptir mótinu á kökudeiginu. Gekk það leingi mjög stirt, en tókst þó á endanum eptir lánga mæðu. Komst hann þá inn í herbergið, en þar var niðamyrkur. Kveykir hann þá ljós, og litast nú um. Sèr hann þar þá mey eina festa upp á hárinu. Verður honum það fyrst fyrir, að hann leysir hana ofan, og spyr hana síðan um ætt hennar og uppruna. Fær hann þá að vita, að hún er kóngsdóttir, sem jötuninn mikli hafði stolið, og vildi neyða til að eiga sig. En hún vildi það fyrir eingan mun, og því pintaði hann hana svona. Var hún nú varla orðin neitt annað en beinin tóm; því jötuninn svelti hana líka. Kóngssonur gefur henni nú mat, en áður en kvöld kom, festi hann hana eins upp aptur á hárinu svo ekki bar neitt á neinu. Eptir þetta vitjaði Þorsteinn mærinnar á hverjum degi, og gaf henni nóg að èta, en festi hana upp aptur á hverju kvöldi, áður en risarnir komu heim, svo ekki bar neitt á neinu, og eingan grunaði neitt um þetta. Þegar nú fimta árið var liðið, sagðist hann endilega ætla burtu, en risarnir vildu alt til vinna, að hann væri kyr. Segir hann þá stóra jötninum, að ef þeir vilji alt til vinna að halda sèr eitt árið enn, þá hljóti hann að gefa sèr það í kaup, sem í læsta herberginu sè, sem hann komi aldrei inn í, hvað svo sem það kunni að vera. Jötuninn ræður honum frá, að biðja um það, sem ekkert sè, og segir, að honum sè mikið betra að fá kaup sitt, eins og hann sè vanur. Ekki er kóngsson á því, heldur sækir því fastar á, og segir, að það verði að verða sinn skaði eða ábati, úr því hann vilji nú ekki annað, og þángað til eru þeir að karpa um þetta, að jötuninn heitir honum kaupinu. Hvernig Þorsteinn fór með kóngsdóttur þetta árið, þarf ekki að lýsa. En þegar árið var liðið, lýkur risinn upp herberginu; því kóngsson var þá ófáanlegur til að vera leingur. Kemur þá jötuninn út með meyuna, og undrast, hversu feit hún er og sælleg; fæst hann þó ekki um það, og afhendir nú Þorsteini hana. Býst nú Þorsteinn til burtferðar, tekur hesta sína, sem hann hafði alt af haft gætur á, og farángur sinn allan. En með kaupinu var nú flutníngur hans orðinn svo mikill, að hann ætlaði ekki að komast með hann allan. Segir kóngsdóttir, að hann skuli vera var um sig; því risarnir ætli að drepa hann á leiðinni. Hefir hann því við hendina sverðið góða, og hertygi sín. Svo fór, sem kóngsdóttir sagði. Þegar þau voru skamt á veg komin, komu 3 af risunum til þeirra, og óðu að Þorsteini, en hann varðist dreingilega, og svo lauk, að hann feldi þá alla. Því næst kastar hann mæðinni. En innan skamms komu 2 af risunum, og tókst Þorsteini að drepa þá báða. Voru þá 2 eptir, stóri jötuninn og bróðir hans. Koma þeir nú óðir og uppvægir, og sóktu að

þorsteini í ákafa. Gat hann þá drepið bróður stóra risans. Verður þá jötuninn hamslaus, kastar vopnunum, veður að kóngssyni, og takast þeir fángbrögðum. Hafði kóngsson þá ekkert við, og fèll hann, og varð jötuninn ofan á. þegar kóngsdóttir sá nú, að í óefni var komið fyrir þorsteini, þrífur hún sax, sem einhver risanna hafði haft, og leggur jötuninn í gegn með því. Hjálpar hún þorsteini síðan til að velta skrokknum ofan af sèr. Eptir alt þetta treystir hann sèr nú ekki til að halda áfram að sinni. Snúa þau þá heim aptur í risabæinn, og þó þau kynnu þar ekki við sig, ætluðu þau þó að bíða þar nokkra stund til að vita hvort þar bæri ekki skip að landi, því bærinn stóð fram við sjó. En þau lángaði til að koma sem mestu með sèr af fjármunum risanna. Eptir nokkurn tíma liðinn sáu þau skip koma að landi. Hittu þau menn að máli. Sá hèt Rauður, sem fyrir skipinu rèð, og var ráðgjafi kóngsins, föður mærinnar. Hafði kóngur heitið honum dóttur sinni, ef hann næði henni, og kæmi með hana til sín. Tóku skipverjar vel við þeim þorsteini og kóngsdóttur, og báru allan fjárhlut þeirra á skip, en það var mikið fè. Síðan stigu þau á skip, og lètu frá landi. En þegar út á rúmsjó var komið, lèt Rauður skjóta út báti, og setja kóngsson þar aleinan í. Lèt hann skipverja síðan vinna sèr eið að því, að geta ekki þorsteins, en segja, að hann hefði drepið risana sjálfur, og frelsað kóngsdóttur, en hana fèkk hann ekki til að vinna eiðinn, hvernig sem hann reyndi þó til þess með góðu og illu. þóktist Rauður nú vel hafa komið ár sinni fyrir borð, og sigldi heim síðan.

En það er frá þorsteini að segja, að báturinn fór að veltast með hann á öldunum, svona áralaus og allslaus, eins og hann var, þá varð hann hræddur mjög. þá heyrði hann sagt: „Vertu óhræddur, þó þú hrekist um hafið, eg skal hjálpa þèr.“ Rann báturinn svo áfram með hraðri ferð, eins og hann væri teymdur, og varð eins fljótur að landi, eins og skipið, en lenti annarstaðar en það. En sá, sem kom bátnum að landi, var dauði maðurinn, sem þorsteinn borgaði fyrir skuldina forðum. Hann sagði þorsteini, að hann væri nú kominn þángað, sem faðir mærinnar ríkti, og mundi hann verða hestamaður hans. Skyldi hann gæta rauðu hestanna kóngsins, og eiga það, sem væri undir stalli þeirra. Síðan skildu þeir. Gekk þorsteinn til borgar, og varð þar hestavörður kóngsins. Hann hafði látið flytja Rauð sinn á skipinu, og komst hann nú í tölu hinna rauðu konúngshesta. Gat einginn náð honum, nema kóngsdóttirin og hestavörðurinn. þegar kóngur sá dóttur sína, varð hann glaðari en frá megi segja, og stofnaði til fagnaðarveizlu mikillar móti henni, og átti þá Rauður ráðgjafi að eignast kóngsdóttur um leið. En hún vildi hann ekki, heldur baðst þess, að hestavörðurinn mætti segja æfisögu sína. Leyfði kóngur það, og kom þá upp alt hið sanna. Var þá Rauður ráðgjafi drepinn, en skipverjar pintaðir. Síðan gaf kóngurinn þorsteini dóttur

sína, og fèkk honum hálft ríkið móti sèr. En undir hestastallinum fann þorsteinn ósköp mikið af alls konar gersemum. Eptir lát kóngsins eignaðist þorsteinn alt ríkið. Lifði hann bæði leingi og vel, og þókti hinn ágætasti konúngur. Unnu honum allir hugástum til ellidaga.

e) Enn eru í fimta lagi nokkrar sögur, sem mjög líkjast kýmnisögum, enn þótt þær sèu æfintýri í eðli sínu. þær segja frá ýmsum brögðum, sem kotúngar hafa beitt við kónga og þeirra menn, og sýna, hversu kotúngar eru slægvitrir, en kóngar og hirðmenn þeirra fíflskir og fáráðir, og sanna fyllilega það, sem Jónas heitinn Hallgrímsson kvað, að

„Kotkarl hafði kyrtla tvo,
en kraki á hurðarbaki.“

þar til eru þessi dæmi auk annara.

**þorsteinn karlsson.** (Eptir húsfrú Hólmfríði þorvaldsdóttur í Reykjavík.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu; þau áttu sèr eina dóttur, sem Íngibjörg hèt. Karl og kerlíng voru í koti sínu þar nálægt; þau áttu sèr einn son, sem þorsteinn hèt. þegar börn þessi voru komin nokkuð á fót, lèku þau sèr saman barnleikum. Fór því fram um stund, uns Íngibjörg stálpaðist betur; lèt kóngur þá búa til handa henni kastala, og fèkk henni margar þernur; skyldi hún leika sèr við þær, en hætta öllum leikum við þorstein, af því kóngi þókti það ekki hæfa. Leið nú og beið um lángan tíma, að ekkert bar til tíðinda. þegar Íngibjörg varo rðin gjafvaxta, urðu margir til að biðja hennar, kóngar og kóngasynir, jarlar og höfðíngjar, því hún var orðlögð á hvert land fyrir fegurð, kurteisi og kvennlegar listir. En þeir feingu allir hryggbrot, ekki af því að kóngi þækti ekki dóttur sinni neinn þeirra fullkosta, heldur af hinu, að hann hafði tekið það í sig, að gefa eingum dóttur sína, nema þeim, sem gæti fylt gráan nautsbelg af orðum, sem hèkk uppi yfir hásæti kóngs í höllinni; það var kallaður orðabelgur. En það gat einginn biðlanna. þegar þetta barst út, vildi einginn leggja virðíng sína í hættu að reyna sig á orðabelgnum, því öllum þóktu endalokin auðsèn, og því minkaði brátt aptur biðlagángurinn. Nú verður að geta þess, að kóngur átti laug skamt frá borginni; þángað gekk hann þriðja hvern laugardag í bað, en drottníng hans og dóttir hina laugardagana tvo, sín hvorn. þorsteinn karlsson vissi, hver háttur var á með baðgaungur þeirra kóngs, og einn laugardag, sem hann vissi, að kóngur mundi lauga sig, fór hann til karls og kerlíngar, og bað þau að ljá sèr gulltaflið góða; því þau áttu þrjá kjörgripi, gulltafl, gullhlað og gullmen[1], og fundust hvergi jafngóðir gripir. Karl

1. Aðrir segja, að gripirnir hafi verið gullkóróna, gullofið handklæði og gullhárgreiða; hafi kóngurinn feingið hjá karlssyni kórónuna, drottníngin handklæðið, en kóngsdóttirin hárgreiðuna. þeir sem segja svona frá (Norðlendíngar sumir) segja að karlsson hafi heitið Rennandi.

og kerlíng voru treg til þess, sögðust leingur hafa átt taflið óeytt, en hann mundi sólunda því, ef það kæmist í hendurnar á honum. Þorsteinn sagði, að þau skyldu ekki vera hrædd um það, þau skyldu fá taflið aptur og margfalt meira. Fór þá svo, að þau lèðu honum taflið, og fór hann með það til kóngslaugarinnar, og var þar fyrir þegar kóngur kom, og ætlaði að gánga í baðið. Þegar kóngur sèr Þorsteinn, segir hann: „Hvað að hefst þú hèr, Þorsteinn karlsson? snautaðu burtu, svo eg geti geingið í baðið.“ Þorsteinn svarar:

„Hvar eg stend um hæstan dag,
og hefst ekki neitt ílt að,

þar má eg vera.“ Kóngur fer þá að týgja sig til baðsins, en Þorsteinn slær sundur gulltaflinu, og fer að tefla við sjálfan sig. Kóngi verður litið á taflið, og spyr, hvað Þorsteinn hafi þar meðferðis. Þorsteinn segir það sè tafl; kóngi þykir taflið firna fagurt og falar það af honum. Þorsteinn kveður nei við og segir, að þarna sè hann kominn með bannsetta ágirndina, að vilja komast yfir eina góðgripinn, sem foreldrar sínir eigi. Kóng lángar því meir til að eiga taflið, og býður honum fyrir það fult verð; en það var ekki við það komandi. Kóngur reiðist og segist skuli láta drepa hann, ef hann vilji ekki selja sèr taflið. Það segist Þorsteinn vita að hann geti, en það sè ekki konúnglegt, að myrða einn karlsson sèr til fjár. Mýkti þá kóngur málið, og bauð Þorsteini tífalt og hundraðfalt verð fyrir taflið, og að taka foreldra hans og hann sjálfan með heim í kóngsríki, og annast alt saman. En Þorsteinn vildi eingum þeim kostum taka. „Er þá taflið ekki falt fyrir neina muni?“ segir kóngur. „Jú“ segir Þorsteinn; „ef þú vilt kyssa á rassinn á mèr, skal eg gera þèr kost á því.“ Kóngur bað hann dragast burtu, áður en hann lèti drepa hann fyrir háðúngaryrði og frumtaskap sinn. Þorsteinn sagði, að hann rèði sínum orðum um það, en sèr væri ekki taflið útbært; leggur hann nú saman taflið og gerir sig líklegan til að gánga burt. Kóngur segir þá við þjónustumann sinn, að hann skuli gánga eitthvað afsíðis frá lauginni litla stund, en kallar til Þorsteins, og segist vilja tala við hann; segist kóngur þá muni vinna það til taflsins, sem hann hafi sett upp við sig, úr því þeir sèu þar tveir einir, en biður Þorstein þó að hafa það ekki á orði við nokkurn mann. Síðan vinnur kóngur skildagann og fær svo taflið, en Þorsteinn fer heim í karlskot. Þegar hann hittir karl og kerlíngu, og þau sjá hvergi taflið, snupra þau hann og segja, að svo hafi farið, sem þau varði. Hann hughreysti þau aptur með því, að þau mundu fá fult fyrir taflið, þó seinna væri. Næsta laugardag átti drottníngin að gánga í bað, og var þá kóngur ekki heima. Þorsteinn fer til foreldra sinna, og fèkk hjá þeim fyrir mikla eptirgángsmuni gullhlaðið; fer hann svo með það til laugarinnar, og bíður þar þess, að drottníng kemur og ein hirðmey með henni. Þeim drottníngu og Þorsteini fara að öllu sömu svör á milli,

og áður eru greind, nema drottníng hèt honum ekki afarkostum, til að ná gullhlaðinu; en þorsteinn lèt það ekki falt fyrir neitt, nema hann feingi að sofa hjá henni. Drottníng bað hann aldrei til slíks ætla; en þorsteinn lèt sem sèr væri ekki gullhlaðið útfalt, og lézt ætla heim með það. Drottníng segir þá, að hún haldi hún verði að vinna það til, að hann sofi hjá sèr í nótt, fyrst kóngurinn væri ekki heima, heldur en verða af gullhlaði, og segir honum að koma um kvöldið í ljósaskiptunum. Fær hún svo gullhlaðið, en þorsteinn fer og sefur hjá drottníngu um nóttina. þau karl og kerlíng undu hálfu ver við að missa gullhlaðið en taflið, og kölluðu hann óspilunarmann, sem ekkert verði við hendur fast. þorsteinn leið það með þögn og þolinmæði, og hughreysti þau sem áður. Nú leið næsta vika og kom laugardagur; þá biður þorsteinn foreldra sína um gullmenið, og voru þau alltreg á því. þó segir kerlíng, að það sè mátulegt, að það fari líka, hann sè svo búinn að fara með hina gripina þeirra, hvort sem sè, svo þeir sjáist aldrei aptur. Fær svo þorsteinn menið og fer með það til laugarinnar, og beið, þángað til kóngsdóttir kom. þegar hún kom að lauginni, segir hún, hvað karlsson sè þar að snudda, og skuli hann hypja sig í burtu, svo hún geti laugað sig. þorsteinn segir, að hún hafi ekki látíð svona drembilega við sig meðan þau voru ýngri, og lèkust við barnleikum. Hún biður hann hafa eingin orð, en dragast burtu. þorsteinn segir þá sem áður:

„Hvar eg stend um hæstan dag
og hefst ekki neitt ílt að,

þar má eg vera.“ Fer hann þá og dregur upp hjá sèr menið, og lætzt vera að skoða það. Kóngsdóttir kemur auga á menið, þykir það góður gripur, og vill gjarnan eiga. Fara þeim svo öll hin sömu orð á milli, sem fyrr segir. En hvað sem hún býður honum fyrir menið, vill hann ekkert þiggja. Loksins gerir hann það falt fyrir sömu þóknun, sem hann setti upp á fyrir gullhlaðið við drottníngu. Íngibjörg fyrtist við þá frekju hans; en hann sagði, að sèr væri einginn otunareyrir í meninu, og ætlaði að leggja á stað með það heim. Fer þá svo, að Íngibjörgu mæðir huggæði, og fær hún menið með því móti, að hann sofi hjá henni nóttina eptir, og það varð úr. þegar þorsteinn kom með tvær hendur tómar heim í karlskot, og var búinn að lóga öllum góðgripum karls og kerlíngar, urðu þau stæk við hann. En hann bar það vel, og sagði, að þau skyldu ekki leingi þurfa að sjá eptir gripum sínum. Skömmu síðar býst þorsteinn því bezta, sem hann átti til, og segir við karl og kerlíngu, að nú ætli hann heim í kóngsríki; en þau sögðu, að hann mundi eiga þángað erindi, eða hitt þó heldur. þorsteinn geingur svo fyrir kóng, þar sem hann situr yfir borðum með drottníngu sinni og dóttur og allri hirðinni; liggur gulltaflið á borðinu fyrir kóngi, en drottníng hefir gullhlaðið á höfðinu og Íngibjörg gullmenið um hálsinn. þegar þorsteinn kemur fyrir hásæti

kóngs, heilsar hann þeim kurteislega, hefur upp orð sín og biður Íngibjargar. Kóngur segir hvorki af nè á um það, en spyr, hvort hann hafi ekki heyrt þann skildaga, sem hann hafi sett öllum biðlum dóttur sinnar. Þorsteinn segir sèr sè ekki ókunnugt um það, og sè hann nú kominn þess eríndis, að reyna að fylla orðabelginn. Lætur svo kóngur taka ofan belginn og fá Þorsteini. Hann tekur við og byrjar á því, að hann segir: „Nú er vika, síðan Íngibjörg kóngsdóttir fèkk hjá mèr gullmenið, sem hún hefir um hálsinn, fyrir það, að eg svaf hjá henni.“ Roðnaði þá Íngibjörg af sneypu, og vissi ekki, hvað hún átti af sèr að gera. Þorsteinn heldur svo á fram, að þylja í belginn og segir: „Nú er hálfur mánuður, síðan drottníngin fèkk hjá mèr gullhlaðið, sem hún hefir, fyrir það, að eg svaf hjá henni eina nótt, meðan kóngurinn var ekki heima.“ Drottníng skipti litum, en tjáði þó ekki að bera af sèr, því Þorsteinn þuldi enn og sagði: „Fyrir 3 vikum fèkk kóngurinn hjá mèr gulltaflið góða, sem liggur á borðinu hjá honum, fyrir það að hann kysti á“ — Þá kallar kóngur upp og segir: „Sussu, sussu, fyrri er fult en út úr flói; fullur er orðinn orðabelgur og lángt fram yfir það. Skaltu eiga dóttur mína, og hálft ríkið, meðan eg lifi, og alt eptir minn dag.“ Hèlt svo kóngur brúðkaup Þorsteins og dóttur sinnar; en þau tóku karl og kerlíngu heim í kóngsríki, og fóru vel með þau meðan þau lifðu. Og búin er sagan.

**Sagan af Ullarvindli.** (Eptir Branþrúði Benónisdóttur úr Múlasýslu.) Það var einu sinni kóngur og drottníng í ríki sínu; þau áttu sèr eina dóttur, sem Íngibjörg hèt, og karl og kerlíng í garðshorni; þau áttu einn son, sem hèt Ullarvindill. Kóngi þókti ákaflega vænt um dóttur sína og þóktist hvergi vita þann mann, sem henni væri fullboðinn, og til að fæla menn frá að biðja hennar, lèt hann það berast, að hann gæfi eingum manni dóttur sína, nema þeim, sem gæti fylt belg af orðum. Einginn þorði að biðja kóngsdóttur, þegar þeir heyrðu þetta, því þeir þóktust ekki vita, hvernig fylla ætti belg af orðum. Karlsson í garðshorni heyrði nú orð kóngsins, eins og fleiri. Einu sinni fór hann til kerlíngarinnar móður sinnar, og bað hana ljá sèr skærin sín og nálina. Hún spyr, hvað hann ætli að gera við það. Hann segist ætla að fara með það heim í kóngsríki og vita, hvort drottníngin og kóngsdóttir vilji ekki eiga það. Kerlíng brosir að syni sínum, og fær honum það. Síðan kemur hann til föður síns, og biður hann ljá sèr öxina sína. Karl spurði, hvað hann ætlaði að gera við hana. Hann segist ætla að færa kónginum hana. Karl fær honum þá öxina. Ullarvindill fer nú með þetta heim í kóngsríki, og kemur að kastala kóngsdóttur og sèr, að hún er að sauma. Hann horfir dálitla stund á hana, þángað til hann segir: „Ekki fer hún móðir mín svona að sauma.“ „Hvernig fer hún þá að sauma?“ segir hún. „Hún leggur nálina við, og svo saumar hún sjálfkrafa,“ segir hann. „Veslíngskindin, útvegaðu

mèr þá nál,“ segir hún. „Hvað fæ eg fyrir það?“ segir hann. „Hvað viltu?“ segir hún. „Sofa hjá þèr,“ segir hann. „Farðu þá burtu,“ segir hún. „Jæja,“ segir Ullarvindill, „eg skal hafa mína nál sjálfur, mèr er ekki otunareyrir í henni“. „Ekki seint og illa,“ segir hún, „komdu þá hèrna.“ Hann fèkk henni þá nálina. Síðan fór hann þángað, sem drottníng var að skera klæði. „Ekki fer hún móðir mín svona að sníða,“ segir hann. „Hvernig fer hún þá að?“ segir drottníng. „Hún leggur skærin á og svo sníða þau sjálf,“ segir hann. „Veslíngskindin, útvegaðu mèr þau skæri,“ segir drottníng. „Hvað fæ eg þá í staðinn?“ segir Ullarvindill. „Hvað sem þú setur upp,“ segir drottníng. Hann segist ekki vilja neitt, nema sofa hjá henni. Hún segir, hann fái það aldrei. „Eg skal hafa mín skæri sjálfur,“ segir hann, „mèr er einginn otunareyrir í þeim.“ „Ekki seint og illa,“ segir drottníng, „það þarf einginn að vita það, þó eg láti þetta eptir þèr, óhræsið þitt.“ Svo fèkk hann henni skærin. Síðan fer hann þángað, sem kóngur er að höggva skóg. Hann horfði dálitla stund á kóng, þángað til hann segir. „Ekki fer hann faðir minn svona að höggva.“ „Hvernig fer hann þá að?“ segir kóngur. „Hann leggur öxina við, og svo heggur hún sjálf,“ segir Ullarvindill. „Útvegaðu mèr þá öxi,“ segir kóngur. „Hvað fæ eg þá fyrir hana?“ segir hinn. „Segðu mèr, hvað þú vilt,“ segir kóngur. „Eg vil ekki annað, en að þú takir af þèr kórónuna og kyssir á beran rassinn á mèr,“ segir Ullarvindill. „Það get eg ekki unnið til,“ segir kóngur. „Jæja,“ segir hinn, „það er ekki fyrir mig, eg skal hafa mína öxi sjálfur.“ Gerir hann sig þá líklegan til að gánga burtu frá kóngi. Þá talar kóngur til hans og segir: „Heyrðu strákur, jafngóður er eg fyrir það, þó eg geri það, sem þú sagðir, ef þú lætur mig þá hafa öxina, við erum hèrna tveir einir, og einginn þarf að vita af því.“ Síðan gerir kóngur þetta, og karlsson fær honum öxina. Síðan fer hann heim í garðshorn, og segir foreldrum sínum frá öllu, eins og farið hafði um daginn, og biður þau að fara með sèr heim í kóngsríki á morgun, og leggur þeim orð í munn, sem þau áttu að segja við hann, þegar þángað var komið, en hann sagðist mundi svara því, sem hann vildi. Daginn eptir geingu þau öll þrjú heim í kóngsríki, og þegar allir kóngsmenn voru komnir saman og sátu yfir borðum í höllinni, komu þau þar inn. Þau stóðu dálitla stund utar við þegjandi, þángað til kerlíng hefst máls og segir: „Ullarvindill, sonur minn, hvað gerðirðu af nálinni minni? hèr legg eg orð í belg.“ „Eg gaf hana kóngsdótturinni,“ segir hann. „Og hvað gaf hún þèr fyrir hana?“ segir kerlíng, „hèr legg eg orð í belg.“ „Eg lá hjá henni,“ segir hann. „En hvað gerðirðu af skærunum mínum?“ segir hún, „hèr legg eg orð í belg.“ „Eg gaf þau drottníngunni,“ segir hann. „Hvað gaf hún þèr fyrir þau?“ segir kerlíng, „hèr legg eg orð í belg.“ „Eg lá hjá henni,“ segir hann. Þetta þókti kóngi ljótt að heyra, en þær sátu sneyptar. „Ullarvindill, sonur minn,“ segir karl, „hvað gerð-

irðu af öxinni minni? hèr legg eg orð í belg.“ „Eg gaf hana kónginum,“ segir Ullarvindill. „Og hvað gaf hann þèr fyrir hana?“ segir karl, „hèr legg eg orð í belg.“ „Hann tók ofan kórónuna, og —“ „Sussu, sussu, belgurinn er fullur, belgurinn er fullur,“ segir kóngur. Og þó honum yrði misjafnt í geði við Ullarvindil, hugsaði hann með sèr, að eigi væri annað til, en gefa honum dóttur sína, þar eð svona mínkunarlega hefði farið fyrir henni, en strákur mundi vera óheimskur, og raunar gæti hann ekki með rèttu tekið hart á mæðgunum fyrir þetta, því sig hefði og hent sneypuefni, sem legið hefði við að komast í hámæli, eins og hitt. Kóngur tók nú Ullarvindil heim til sín og fór að kenna honum, og þó hann væri harðorður við hann fyrst, þá varaði það ekki leingi, því Ullarvindill náði brátt vinfeingi hans vegna skarpleika síns og hlýðni með fleiri mannkostum, sem hann hafði. Síðan eignaðist hann kóngsdóttur og hálft ríkið, meðan kóngur lifði, en alt eptir hans dag, og stjórnaði viturlega. En karl og kerlíng í garðshorni höfðu allsnægtir, og lifðu þar alla æfi ánægð.

**Karlsdæturnar.** (Eptir handriti sèra Finns þorsteinssonar á þaunglabakka.) Einu sinni fyrri á tímum var karl og kerlíng í koti sínu, og kóngur og drottníng í ríki sínu. Drottníng tók sótt og andaðist, og stýrði kóngur ríkinu eptir það með einum ráðgjafa og syni sínum, en var ókvæntur. Karl og kerlíng áttu 3 dætur, en eingan son. þær ólust upp hjá karli og kerlíngu um hríð, en þegar þær fóru að þroskast, urðu þær svo latar, að þær nentu eingu. Karli og kerlíngu líkaði það illa, en máttu þó hafa það svo búið. Uxu þær þannig upp í leti og ómennsku, en að lokunum tóku þær ráð sín saman um það, að drepa karl og kerlíngu, svo þær gætu lifað og látið, eins og þær vildu eptir það. þær komu þessum illa ásetníngi fram, með því þær lètu svo megnar eiturjurtir í mat karls og kerlíngar eitt kvöld, að þau sofnuðu, en vöknuðu ekki framar til þessa lífs. Nú gátu þær setið einar í náðum að því, sem var í kotinu, og átu þær vel, og gerðu sèr hæverskulaust til góða; lètu þær þetta gánga, þángað til þær voru búnar að eyða öllum þeim matvælum, sem voru í kotinu; gerðist þeim þá ráðafátt með lífsbjörg. þær höfðu heyrt, að kóngur ætti mörg naut, og meðal þeirra var uxi, sem bar af öllum nautunum. Nú leggja þær á stað allar leynilega, geta náð uxanum, og fara með hann heim í kotið, og slátra honum. Nú víkur sögunni heim í kóngsríki; hirðmenn kóngs sakna bráðum uxans góða, og segja þeir kóngi frá. Kóngur segir ráðgjafa sínum að fara í kotið, og grennslast þar eptir um uxann, því honum var grunsamt um, að dætur karls hefðu tekið hann. Ráðgjafinn fer á stað, og kemur að kotinu, og sèr allar karlsdæturnar standa úti hlæandi; þær skipa hinni ýngstu að fara inn og gæta að, hvort nú sè soðið í pottinum; hún kemur út aptur og segir, það sè búið. Nú bjóða þær ráðgjafa inn með sèr í eldhús, og láta hann setjast á hlóðarstein, og

varð hann að gera sèr það að góðu. Hann sèr að tóm ísubein eru í pottinum. Þær setjast niður og fara að borða og bjóða honum með sèr, en hann vildi ekki; samt bíður hann, þángað til þær hafa matazt; þá kveður hann þær, og geingur út. En þegar hann fer út í dyrnar, sèr hann, að brostinn er á dimmur snjóhríðarbylur, svo ekki er ratandi. Þá komu þær til hans og sögðu honum, að nú væri um tvo kosti að velja; annaðhvort skyldu þær hrinda honum út, eða hann yrði að sofa hjá hinni elztu. Honum þókti hvorugt gott, en hann sá sèr bana búinn, ef hann færi út úr dyrunum, og því kaus hann heldur, að sofa hjá karlsdóttur um nóttina, einkum þar eð einginn vissi af því, nema þær og hann. Nú líður að kvöldi, og er farið að hátta, og legst ráðgjafinn niður hjá karlsdóttur. Ekki fer mörgum sögum um, hvað þau áttu saman, en ekki vaknaði hann, fyrr en undir dag; verður hann þess þá var, að þær eru á burtu, og eins sú, sem svaf hjá honum. Hann staulast fram og geingur leingi, þángað til hann sèr glytta í eitthvað, eins og byttu eða bát; því næst sèr hann vatnsfall, og tekur hann bátinn og ætlar að setja hann fram, til að komast yfir vatnið á honum; þá eru stúlkurnar alt í einu komnar þar að hlæandi með ljós; spyrja þær hann, því hann sè að gaufast með öskutrogið á bæarlæknum. Honum bregður mjög í brún, þegar hann sèr þessa áleikni; en þær hæða hann ákaflega. Þær segjast nú skuli drepa hann, ef hann lofi því ekki, að eiga þá, sem hann hafi sofið hjá í nótt, og þorir hann ekki annað, en lofa því. Fer hann síðan heim, og segir kóngi, að hann hafi legið úti í hríðinni, og ekki komizt í kotið karlsdætranna. Kóngi þykir hann hafa farið mikla smánarför, og segir, að svo megi þó ekki standa, og skuli nú, segir hann, sonur sinn fara, til að njósna um uxann, því hann uni illa hvarfi hans, og fer þá kóngsson á stað. Hann kemur að kotinu, og hittir stúlkurnar hlæandi á hlaðinu; þær skipa hinni ýngstu inn að vita, hvað soðníngunni líði; hún kemur út aptur og segir, að soðið sè í pottinum. Láta þær kóngsson síðan koma inn með sèr, og bjóða honum sess á hlóðarsteininum; og sezt hann þar. Sèr hann þá, að tóm ísubein eru í pottinum. Þær bjóða honum að borða með sèr, en hann færist undan; síðan snæða þær. En þegar þær höfðu borðað, geingur kóngsson út og ætlar heim, en þá er komin haglhríð. Þær koma út og segja honum að annaðhvort sè honum að gera, að fara út í hríðina, og muni hann þá fljótt deya, eða að sofa hjá hinni næstýngstu. Hann sá sèr bana búinn, ef hann færi, og kýs því að sofa hjá stúlkunni. Alt fer nú á sömu leið sem fyrri; þær hverfa, hann vaknar, fer á fætur og geingur þángað til báturinn verður fyrir honum og vatnsfallið. Hann ætlar að komast yfir það á bátnum; en í því koma stúlkurnar með ljós hlæandi og segja: „Það er ekki fyrir kóngsson að vera að díngla með öskutrog á bæarlæknum.“ Hann furðar mjög á þessu, en sèr þó, að satt er sem þær segja. Þá segja þær við hann: „Nú skaltu verða drepinn, ef þú lofar

ekki staðfastlega að eiga þá stúlku, sem þú svafst hjá í nótt.“ Hann þorir ekki annað, en lofa því, og fer síðan heim til hallar föður síns, og segist hafa legið úti, en ekki komið í kotið. Kóngur segir, að illa gángi ferðir þessar, en samt megi ekki svo búið standa, og verði þeir að fara á stað aptur; en þeir vildu það með eingu móti, og varð ekki af því. Loksins hlýtur kóngur að fara sjálfur, og kemur að kotinu; sèr hann þá stúlkurnar standa hlæandi fyrir utan bæardyrnar. Þær skipa hinni ýngstu, að fara inn, og vita, hvort soðið sè í pottinum; hún segir, að soðið sè. Gánga þær þá inn og bjóða kóngi inn með sèr og vísa honum til sætis á hlóðarsteini; hann lætur svo vera, og sezt þar hjá þeim. Sèr hann nú, að alt eru ísubein í pottinum, þarsem hann þó bjóst við, að það mundi vera ketið af uxa sínum. Þær bjóða honum að borða með sèr; en hann þáði það ekki, og sat, þángað til þær voru búnar að borða. Kastar hann þá á þær kveðju og geingur til dyra, en bregður mjög í brún, því ógurleg hríð var komin með þrumum og eldíngum, svo hann varð að hörfa inn fyrir dyrnar aptur. Þær koma þá fram, og segja honum að nú sè um tvo kosti að velja fyrir hann, annaðhvort verði hann að fara út í hríðina, og týna svo lífinu, eða sofa hjá hinni ýngstu af þeim í nótt. Honum þókti betra á að fá að lifa, og kaus að sofa hjá stúlkunni. Nú kemur kvöldið, og gánga þær til rekkju, og kóngur leggst niður hjá stúlkunni. Ekki er neins getið, fyrr en hann vaknar; eru þær þá horfnar í burtu og einnig sú, sem svaf hjá honum. Hann klæðir sig og geingur fram; sýnist honum þá glóra í stöðuvatn, með gljúfrum umhverfis, en ekki þó hærri, en honum taki í geirvörtur; þar sèr hann staf; hann tekur hann og fer út í vatnið, og ætlaði þannig að komast yfir það; en það dýpkar mjög, og skvampar hann og svamlar ákaflega. Í þessu bili koma stúlkurnar með ljós og ákaflegum hlátri, og segja: „Nú þykir oss kóngurinn gera lítið úr sèr, og mun hann eiga skamt eptir, þar sem hann er orðinn búrsnati hjá oss; hann er nú kominn með flautaþyril vorn ofan í sýrukeraldið, og stendur hann í því upp til axla; hverjum hefði getað dottið slíkt í hug?“ En hann varð frá sèr numinn af undrun og blygðun, því hann sá nú, að svo var, sem þær sögðu. Síðan sögðu þær við hann: „Ef þèr viljið nú ekki lofa því, að taka ýngstu systur vora, sem svaf hjá yður í nótt, yður fyrir drottníngu, þá munum við vinna til fulls á yður og drekkja yður hèr í sýrusánum.“ Kóngur þorði ekki annað, en lofa þessu; fèkk hann þá lausn hjá þeim. Fer hann síðan heim til hallar sinnar. Sögðu þeir þá hverjir öðrum, hvernig farið hefði fyrir hverjum fyrir sig; varð það álit þeirra, að ísubeinin mundu hafa verið ket uxans, en að þær með missýníngum og fjölkynngi hefðu getað vilt fyrir þeim sjónir. Þeir ráða það nú af, að þeir sækja þær í kotið, og fara heim í höllina með þær. Var síðan búið til brúðkaups, og gekk hver að eiga þá, sem hann hafði sofið hjá. Kom öllum vel saman. Tók kóngsson ríkið eptir föður sinn og andaðist loks í góðri elli.

**Karlssonur og yfirhirðir kóngs.** (Eptir handriti séra Finns þorsteinssonar á þaunglabakka.) Einu sinni var karl og kerlíng í koti sínu, nálægt kóngshöll einni. Karl og kerlíng áttu sèr einn son, og unnu þau honum mjög, en hann var svo óþægur og latur að hann vildi ekkert gera. þau áttu eina kú, og átti hann að gæta hennar, en svo lauk, að hann hætti að gæta hennar; þá urðu þau svo reið, að þau ráku hann burt. þegar hann var farinn á stað, gekk hann leingi, þángað til hann kom að einum bæ, og barði að dyrum. þar kom út maður, og spurði, hvað hann væri að fara. Hann kvaðst hafa verið rekinn burt frá foreldrum sínum vegna óþægðar og leti. „Nú ætla eg að biðja þig gistíngar,“ segir dreingur. „það skaltu fá“ segir hinn, „en skipa mun eg þèr verk á morgun; því vita skaltu, að eg er yfirhirðir kóngs.“ Dreingur verður hljóður í fyrstu, en játar því eptir nokkurn tíma. Síðan leiðir húsráðandinn dreinginn. þegar dreingur kemur inn, sèr hann þar tvær stúlkur og konu húsráðandans. þegar hann hefir setið um hríð, er honum færður matur; var það kjöt og brauð. Fátt var um viðræður um kvöldið, og ekkert verk var lagt fyrir hann. Síðan fer hann að sofa og sefur til morguns. þegar hann er klæddur, kemur húsráðandi til hans og segir: „Verk hefi eg ætlað þèr.“ „Hvert er það“ segir dreingur. „Að gæta hundrað svína“ segir húsráðandi. „því er eg óvanur,“ segir dreingur. „það hlýtur þú þó að gera“ segir húsráðandi. Síðan tekur dreingur við svínunum og rekur þau í haga, en þegar þau hafa litla stund verið í haganum, verða þau svo ólm og ókyr, að hann ræður eingu við þau, og vildu þau hlaupa til fjalls, en hann sætir lagi, þar sem þreyngsli voru fyrir og hneppir þau þar og keyrir þau viðstöðulaust heim að koti karls og kerlíngar. Karl verður hissa, og spyr hann, hvar hann hafi feingið þessa hjörð, en dreingur segir: „Yfirhirðir kóngs á þessi svín, og fèkk hann mèr þau til geymslu; en þau urðu mèr svo erfið, að eg tók það ráð, að reka þau heim til þín, og skaltu nú nota þèr veiðina og skera þau öll þegar í stað.“ „það geri eg ekki,“ segir karl, „því það verður bráður bani þinn.“ „Nei,“ segir dreingur, „eg mun finna ráð til að komast út af þessu.“ Skar svo karlinn öll svínin, og komu þeir þeim sem fljótast undan. Síðan biður dreingur karl að gefa sèr góðan spotta, og gerir karl það. Nú tekur dreingur spottann og allar svínarófurnar og festir þær upp á spottann. Síðan fer hann á stað og geingur, þángað til hann kemur að dýi, þar nálægt, sem hann átti að gæta svínanna. Hann hleypir rófukippunni ofan í dýið og lætur alla rófubroddana standa upp með litlu bili á milli. þar var stór steinn á dýbakkanum; dreingur streytist við og veltir steininum í dýið, svo hann lendir á tauginni milli rófnanna, en ekki sást hann, og geingu rófurnar ekki upp, þó tekið væri í þær. þegar dreingur var búinn að búa þannig um, hleypur hann heim til húsráðanda, og er mjög hryggur í bragði. þegar hann kemur, spyr húsráðandi, hvernig standi á þessu, og

hvar svínin sèu. Dreingur mælti: „Æ minnist þèr ekki á það; það er saga að segja frá þeim. Þegar eg var kominn með þau í hagann, urðu þau svo ólm, að þau stukku sitt í hverja áttina, en jeg hljóp fyrir þau í allar áttir, og lá við spreing, og þegar eg var búinn að hlaupa í kríngum þau, kom það undur fyrir, sem eg hèlt aldrei mundi verða, að þau þyrptust öll saman að einu dýi, og stukku öll útí og á kaf, svo eg sá ekki nema á rófurnar.“ „Þessu lýgur þú,“ mælti húsráðandinn. „Nei, eg segi það satt,“ segir dreingur. „Þú verður að sýna mèr einhver merki þess,“ segir húsráðandi, „svo eg trúi þèr.“ „Komið þèr þá sjálfir og sjáið,“ mælti dreingur. Síðan hlupu þeir báðir til dýsins, og sá þá húsráðandi, að alt var eins og dreingur hafði sagt; fer hann þá að toga í rófurnar, en ekkert gekk. Síðan tóku þeir báðir á, en það fór á sömu leið, að ekki gekk að heldur. „Þetta eru mikil undir, en eg sè, að þú getur ekki gert að þessu, og því vil eg ekki átelja þig, en hlýt að hafa skaða minn óbættan,“ segir húsráðandi. Gánga þeir nú heim, og sefur dreingur af um nóttina. Um morguninn kemur húsráðandi til dreingsins og segir: „Verk hefi eg ætlað þèr enn; eg á hundrað sauði og skaltu gæta þeirra, og láta eingan týnast.“ „Eg vil reyna það“ segir dreingur. Því næst tekur dreingur við sauðunum og rekur þá í haga. Stendur hann yfir þeim í hnapp, og ætlar að varna þeim að dreifa sèr, en eptir lítinn tíma verða þeir svo óspakir, að þeir hlaupa út úr greipum honum; þá verður hann hryggur og reiður, og segir: „Þetta kemur mèr maklega, því eg var svo ótrúr, þegar eg átti að gæta kúa föður míns, og vildi ekkert vinna fyrir hann.“ Síðan tekur hann til fóta og hleypur kríng um alla sauðina, rekur þá saman í harðan hnapp, og heim að koti karls, föður síns. Karl verður öldúngis hissa, þegar hann sèr sauðahópinn, og spyr dreinginn, hverju þetta sæti, eða hvar hann hafi fundið þá, og hver eigi. Dreingur segir honum satt frá öllu, en þá segir karl: „Gerðu ei slíka fíflsku, farðu heldur þegar í stað heim með sauðina til yfirhirðisins. „Nei,“ segir dreingur, „við skulum skera þá og skaltu hafa í bú þitt slátur þeirra.“ „Nei,“ segir karl, „því það verður bráður bani þinn.“ „Ekki er það víst“, segir dreingur, „en hvernig sem fer, vil eg nú einn ráða þessu.“ Síðan verður það fyrir fortölur dreings, að þeir skera sauðina, og koma slátri þeirra undan, gærum og höfðum, en dreingur biður karl að gefa sèr höfuðið af forustusauðnum; það hafði bjöllur í hornunum. Dreingur hleypur til skógar með það, og þángað, sem hann átti að gæta sauðanna. Þar var hár hóll; uppá þeim hól var drángi, en efst á dránganum var grastó; á þeirri tó stóð hrísla hávaxin með viðarlimum, sem slógu sèr víðsvegar út. Upp eptir þessum dránga klifrar dreingur með höfuðið, les sig upp eptir kvistum og aungum á hríslunum, þángað til hann nær til greinarinnar, sem var í miðið; við hana festir dreingur höfuðið, þannig um búið, að hann hafði dregið taug í gegnum það, en hornin voru laus við greinina, og hríngladi í bjöllunum, því hvass-

viðri var. Síðan fer hann niður af dránganum, en gat ekki sèð höfuðið að neðan, því dránginn var svo hár, og runnurinn svo þèttur. Nú hleypur dreingur heim á leið til húsbónda síns; er þá bæði sveittur, þrúnginn og sorglegur í útliti. Húsráðandi spyr, hvað valdi ógleði hans, eða hvar sauðirnir sèu. Þá segir dreingur: „Minnist þèr ekki á það; eg veit ekki, hvaða undur ætla að koma fyrir mig.“ Þá segir húsráðandi: „Segðu fljótt, hvar eru sauðirnir?“ Þá segir dreingur hálfkjökrandi: „Eg, eg — get ekki sagt yður frá því; þeir lètu svo illa, að eg rèði eingu við þá; eg hljóp, þangað til eg var nærri því sprúnginn og með mestu þraut komst eg fyrir þá; en, en — eg gat varla trúað mínum eigin augum; alt í einn heyrði eg mikinn þyt, og hugsaði eg, að vindbylur væri í nánd, en sjá, sauðirnir liðu allir upp í loptið frá augum mèr. Eg varð frá mèr numinn, stóð og horfði á eptir þeim lángan tíma, og alt af heyrði eg hrínglið í bjöllunum í hornunum á forustusauðnum. Þeir hafa orðið uppnumdir til himna.“ „Hvílíka feiknalygi fer þú með, strákur“, segir húsráðandi. „Nei eg segi þetta dagsatt“, segir dreingur og grèt mjög. „Þú verður að sýna mèr merki þess, ef eg á að trúa þèr“, segir húsráðandi. „Komið þèr þá með mèr“, segir dreingur. Síðan fara þeir báðir á stað, en dagur var kominn að kvöldi og orðið skuggsýnt. Dreingur fer á undan, þángað til hann kemur að dránganum, sem hríslan stóð á, og sást hann varla, því óðum dimdi af nótt. Nú heyrði bóndi bjölluglamrið upp yfir sèr í loptinu. Þa segir dreingur: „Herra minn sæll, heyrið þèr nú hrínglið í bjöllunum í hornunum á forustusauðnum yðar.“ „Já“ segir hinn, og lítur upp í loptið: „Eg heyri, að þú segir satt. Þeir eru uppnumdir, og get eg ekki gefið þèr þetta að sök, og skaltu vera óásakaður af mèr, en eg hlýt að sitja með tjón það, sem eg hefi beðið.“ Síðan geingu þeir heim og sváfu af um nóttina. Um morguninn kemur húsráðandi til dreingsins og segir: „Það er von, að þú sèrt orðinn þreyttur á þessu starfi, en nú hefi eg enn þá einu sinni hugsað þèr fyrir verki í dag, og hygg eg, að þèr muni veita hægt að leysa það af hendi: Þú skalt geyma 40 nauta, sem eg á, eða þó rèttara sagt, kóngur, og verður þú vandlega að gæta þeirra, svo ekkert týnist, þvi einn uxinn er með gullrendum hornum og klaufum og er hin mesta gersemi kóngs.“ Dreingur lætur lítið yfir, en tekur þó við nautunum og fer á stað með þau hálfnauðugur. En þegar hann kemur með þau í hagann, gerast þau þegar ókyr, og hleypur uxinn góði á undan með öskri og ólátum. Dreingur vissi gjörla, hvar karl faðir hans var vanur að hafa kú sína; gerir hann nú hark að nautunum, svo þau hlupu í þá átt, sem kýr karlsins var. Rekur uxi kóngs upp öskur, og tekur þá kýrin undir, og hlaupa þau hvort til annars og hin nautin á eptir uxanum. Dreingur herðir á, svo öllu slær saman. Hleypur dreingur þá að kú karls og teymir hana heim á stöðul. Karl er þá heima við bæinn

og sèr hann, hvar nautaflokkur mikill steðjar heim á stöðulinn, og son sinn teyma kú hans í bandi á undan. Karl verður hálfhræddur, fer þó upp á stöðul og spyr son sinn, hverju þetta valdi. Dreingur segir sem var. Karl segir: „Farðu sem fljótast með nautin heim aptur til húsráðanda.“ „Nei“, segir dreingur, „þú skalt hafa þau, og færðu góða steik af þeim, því þau eru vel feit.“ Karl færist undan á allar lundir; en dreingur leggur fast að honum, svo hann að lokunum kom karli til að leggja bönd á þau. Síðan slátra þeir þeim, hverju af öðru; var karl stórvirkur, enda þurfti hann nú að halda á karlmennsku. Þeir hættu ekki, fyrr en þeir höfðu lagt öll að velli og afhöfðað þau. Nú koma þeir að uxa kóngs; þeir leggja á hann bönd og gátu felt hann. Dreingur átti að halda í taugina, sem vant er, en uxinn kippir þá svo hart í, að böndin hrökkva af honum; hann sprettur á fætur, hleypur yfir blóðvöllinn, verður óður og hleypur á stað, en dreingur eltir hann. Þeir hlupu yfir holt og hæðir og út á skóg, en hvorki dregur sundur nè saman með þeim, þángað til uxinn kemur að klettagili einu í landi húsráðanda; í því gili voru margar gjár og sprúngur. Uxinn hleypur í eina af þessum gjám, og var lángt þángað til dreingur heyrði hann koma niður, og heyrði hann eiminn af öskri hans, þegar hann kom niður. Dreingur hafði á sèr brennisteinskyndla. Hann hugsar sèr það ráð, að hann kveikir í þessum kyndlum og lætur þá síga niður á gjáarbotninn; síðan finnur hann viðarolíu og lætur hana síga niður í næfurberki; í þetta læsir eldurinn sig á gjáarbotninum. Síðan verður dreingur þess var, að það fer að kvikna í hári uxans, og hleypur þá, sem mest hann má heim til húsbónda síns. „Nú hefir þú verið leingi“ segir húsráðandi, „eða hvar eru nautin?“ Dreingur gat varla komið upp orði fyrir ekka, en síðan segir hann: „Alt, alt fer á sömu leið, nautin eru farin.“ „Hvað“ segir húsráðandi, „farin? Þú skrökvar, þrjóturinn þinn.“ „Eg segi satt“, segir dreingur. „Þegar eg hafði rekið þau i hagann, urðu þau svo vitlaus, að eg rèð eingu við þau; uxinn góði hljóp á undan, og hin nautin á eptir honum, þángað til þau hurfu niður; ó, herra minn, þau hafa víst sokkið, því eg kom að einni gljúfurholu; þar virtist mèr eg heyra óminn af öskri þeirra, einkum hins horngylta uxa; svo sýndist mèr eldur loga þar niðri, og ætla eg það hafa verið af völdum gamla karlsins, því brennisteinsfýluna lagði upp á móti mèr. Eg varð hræddur og hljóp heim.“ Þá segir húsráðandi: „Þó þú hafir aldrei fyrr logið, þá lýgur þú nú.“ „Nei, segir dreingur, „þèr skuluð bráðum sjá merki þessa.“ „Ef þú ekki segir satt, þá verður það þinn bani“, segir húsráðandi. Síðan hlaupa þeir á stað og dreingur á undan, þángað til þeir komu að holunni, sem áður er talað um, þá segir dreingur: „Sjáið þèr nú.“ Húsráðandinn skygnist um, og sèr þá bráðum mikinn eld brenna niðri í holunni, og fann mikla brennisteins-fýlu leggja upp úr henni. „Hvílík býsn“, segir húsráðandi;

„eg sè þú segir satt, og get eg því ekki átalið þig, en eg má sitja með skaða minn óbættan, og hefi eg þó beðið mikið tjón. Nú skulum við fara heim, og skaltu nú ekki framar þurfa að gæta hjarða, heldur vinna það eitt, sem náðugra er.“ Síðan geingu þeir heim. Þá kemur húsráðandi að máli við dreing og segir: „Nú hefi eg enn þá hugsað þèr fyrir starfa að morgni; þú skalt smíða tíu ljái, sinn handa hverjum vinnumanna minna, því eg ætla að því búnu að láta þá fara að slá á eingi.“ Dreing brá mjög við þetta, því hann vissi, að hann kunni ekkert til smíða, en þorði þó ekki að teljast undan. Síðan háttar hann um kvöldið, en um nóttina, þegar allir eru sofnaðir, rís dreingur úr rekkju og leitar til dyra, og tekst honum að komast út. Síðan hleypur hann heim til karls og kerlíngar, og segir þeim upp alla sögu. Þau tóku við honum og hèldu hann á laun; leitaði húsbóndi hans víða að honum, en hann fannst hvergi. Verður hann nú þægur og trúr foreldrum sínum. Liðu nú fram tímar, og var dreingur í kotinu. Einu sinni kemur hann að máli við föður sinn, og kveðst vilja fá sèr kvonfáng. „Ekki sýnist mèr það ráðlegt“, segir karl. „Jú“, segir dreingur, „þegar eg var hjá yfirhirði kóngs, sá eg dætur hans, og lèk mèr þegar hugur á hinni ýngri, og vil eg nú reyna að fá hennar.“ Þá segir karl, að hann skuli ekki vera svo fífldjarfur, því það muni verða bráður bani hans; en dreingur kveðst þó muni hætta á það, og biður föður sinn að gefa gott sverð til fararinnar. Karl telst undan því í fyrstu, en svo lýkur, að hann verður að láta það. Síðan fer dreingur á stað, og kemur síðla dags að bæ yfirhirðisins; hann ber að dyrum, kemur þá út lítill piltur. Karlssonur gerir boð fyrir húsbóndann, og kemur hann út og segir: „Ertu nú kominn? Þú fórst skyndilega burt síðast; en þó skaltu fá að vera í nótt.“ „Annað er nú þó erindi mitt fyrst“ segir dreingur; bregður hann síðan sverðinu og segir: „Með þessu sverði mun eg reka þig ígegn, ef þú ekki þegar í stað lofar með eiði, að gefa mèr ýngri dóttur þína.“ Bóndi þorir ekki annað, en sverja honum þetta. Síðan fer hann þessa á leit við stúlkuna og fer svo að hún lofast honum. Eptir það fer hann heim og sækir karl og kerlíngu og fara þau með honum til húsráðanda. Síðan er haldið brúðkaup þeirra, og að því enduðu segir karlssonur bónda upp alla sögu; barst þessi saga síðan fyrir kóng og drottníngu. Kóngur kallar karlsson fyrir sig, og lætur hann segja sèr söguna, og þegar hann hafði heyrt hana, gerir kóngur hann að æðsta ráðgjafa sínum, og gefur honum mikið fè. Fóru karl og kerlíng síðan til hans; en hann lifði með konu sinni til ellidaga í velsælu og auðlegð.

**Grautardalls saga.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar.) Það var einu sinni karl og kerlíng í koti sínu. Þau voru bláfátæk, og höfðu ekkert sèr til lífsbjargar, nema þau áttu dall einn, sem aldrei þraut

grautur í. Son áttu þau einn, en sagan getur ekki um nafn hans. Í kotinu voru því þau þrjú lifandi, og eingin önnur kvik skepna. Þó að kotbúum þækti leiðinlegur grauturinn, sá karlinn, að dallurinn var öldúngis ómissandi, því hann var það eina, sem hèlt lífinu í öllu hyskinu. Einhverju sinni bar svo til, að prestur kom að húsvitja í kotinu. Þegar prestur hafði lokið þar skyldustörfum, fer hann að ræða um hitt og þetta við karlinn, og meðal annars spyr hann karlinn, hvernig hann geti lifað í þessu koti. Karl biður prest að minnast ekki á það, það sè aumt líf, sem þau eigi. Af því karli þókti vænt um prestinn sinn, gat hann ekki stilt sig um að bjóða honum graut úr dalli sínum, og segir um leið við prest, að það sè einúngis dallurinn svarna, sem haldi í þeim lífinu; hann hafi þá náttúru, að það þverri aldrei grautur í honum, hvað mikið sem úr honum sè jetið. Þegar prestur heyrir þetta, leggur hann fölur á dallinn, og segir, að karl skuli ekki hafa skaðann á skiptunum. Karl segir, að þó þessi sífeldi grautur sè leiðigjarn, vilji hann alt um það ekki farga dallinum. En af því prestur gekk fast að, lofar karlinn að hann skuli senda dreinginn sinn með dallinn til hans. Prestur fer svo burtu, en þau karl og kerlíng eru mjög áhyggjufull út af þessu loforði, eigi að síður senda þau dreinginn með dallinn að fáum dögum liðnum. Í leiðinni á milli kotsins og prestssetursins var kóngsborg, fer nú dreingur þar fram hjá, og heldur beina leið til prestsins, og afhendir honum dallinn. Prestur fær honum aptur dúk, og segir, að ekki þurfi annað en breiða hann á borð og segja: „Hans dúk, Hans dúk, fult með bezta mat", þá komi hver rètturinn á borðið eptir annan. Prestur segir sendisveininum, að hann verði að fara rakleiðis heim til sín, en megi með eingu móti koma við í kóngsborginni. Pilturinn lofar því, kveður prest og heldur á stað. En þegar hann kemur nálægt kóngsborginni, grípur hann áköf laungun að koma þar við, og heldur, að það muni lítið saka, þó hann skoði sig þar um dálítið, og fer nú inn í borgina. Þegar hann er þángað kominn, verður kóngsdóttirin á vegi fyrir honum, og spyr hann, hvað hann sè að fara. Dreingur verður þá laus á leyndarmálum, og segir henni upp alla sögu. Þegar kóngsdóttir heyrir nefndan dúkinn, stríðfalar hún hann af dreingnum, og biður hann fyrir alla muni að selja sèr hann, og segist skuli margborga hann. Við þessar fortölur hennar lætur dreingur tilleiðast, og afhendir henni dúkinn, en fær í staðinn skæra skildínga; þykja honum þeir bæði margir og fallegir, og þykist nú vel hafa veitt, og hleypur síðan, sem fætur toga, heim í karlskot. Karl fagnar ekki mjög yfir þessari ferð, og heldur, að þetta muni eyðast einhvern tíma. Þetta varð orð og að sönnu; því áður en lángir tímar liðu, verður hann uppiskroppa, sendir nú son sinn í annað sinn til prestsins, og biður hann í öllum bænum að hjálpa upp á sig, því nú hafi hann ekkert að lifa af. Dreingur fer, sem áður, og finnur prest. Prestur

verður bistur við dreinginn, og segir, að hann hafi prettað sig, og farið inn í borgina. Dreingur segir honum þá hið sanna. Prestur segist þá verða að gera þeim úrlausn, fer í burtu, og kemur aptur að lítilli stundu liðinni, teymir eptir sèr tryppi og segir, að ekki þurfi annað en segja: „Hryss-tryppa, hryss-tryppa", þá hristi tryppið sig, og hrynji þá peníngarnir út úr því. Prestur biður dreing að varast, að koma við í kóngsborginni, og heitir dreingur honum góðu um það. Nú heldur hann á stað; en þegar hann nálgast borgina, getur hann ekki á sèr setið að fara inn í hana, og þykist nú muni geta betur staðið af sèr, þó einhver freistíng komi fyrir sig, en áður. Í þessu trausti beygir hann inn í borgina, og teymir tryppið eptir sèr. Kóngsdóttir kemur þá enn í móti honum, heilsar honum vingjarnlega, og spyr, hvað hann sè nú að fara. Dreingur gleymir nærri því sjálfum sèr, og segir, að það, sem hann hafi feingið hjá henni fyrir dúkinn, hafi orðið æði endaslept, svo að hann hafi orðið að fara að finna prestinn sinn aptur, og hafi hann hjálpað föður sínum um tryppið að tarna, og þurfi ekki annað en segja við það: „Hryss-tryppa, hryss-tryppa", og þá hrynji peníngar út úr því á allar hliðar. Kóngsdóttir verður nú öldúngis óð og uppvæg, þegar hún heyrir þetta, og biður dreing með mörgum blíðum orðum og fagurgala að selja sèr tryppið, hvað sem það eigi að kosta, og lofar honum miklu meira og betra gjaldi, en hið fyrra sinn. Dreingur lætur þá loksins til leiðast, tekur við gjaldinu, og fer heim í kot til foreldra sinna, og lætur ekki neitt á neinu bera. Karl þykist nú að vísu hafa feingið mikið fè hjá presti; en þó fer, sem fyrri, að peníngarnir verða uppgángssamir; enda hafði karlinn keypt þeim nýan og þokkalegan klæðnað, því hann hugsaði, að þessir peníngar mundu leingi duga þeim. Þó fór svo, þegar fram liðu stundir, að karl varð fèlaus, og sendi því son sinn í þriðja sinn til prestsins. Dreingur varð nú mjög smeykur, af því hann vissi, hvernig alt var í garð búið, og óttaðist að prestur mundi verða þúngorður við sig, og snupra sig fyrir alla frammistöðuna. Hann herðir þó upp hugann og fer rakleiðis til prests, kveður hann svo kurteislega, sem hann getur, biður hann fyrir alla muni, að reiðast sèr ekki, og greiða eitthvað úr vandræðum sínum; segist hann hafa brugðið út af boðum hans, farið inn í borgina, og ekki getað komizt undan kóngsdóttur, að selja henni tryppið. Prestur atyrðir nú ekki dreing, en fer frá honum, og kemur aptur með kylfu ekki alllitla, og fær dreingnum. Prestur getur ekkert um, til hvers kylfan eigi að vera; en til þess hún geri, það sem henni sè ætlað að vinna, eigi að segja: „Upp, upp kylfa, upp, upp, þegar þú mátt." Prestur varar dreing ekkert við að koma í kóngsborg, en biður hann vel fara. Dreingur er nú hreykinn og fer, sem leið lá, beint inn í kóngsborg, og hugsar, að nú skuli hann finna kóngsdóttur, og fara í borgina, fyrst hann hafi ekki verið varaður við því. Þegar hann kemur í borgina,

þarf hann ekki leingi að leita að kóngsdóttur; því hún hafði haft augastað á honum, geingur til hans og spyr hann, sem fyrri, hvað hann sè að fara. Hann segir henni, eins og var, að hann hafi farið í nauðsyn föður síns, til að finna prestinn sinn, og hafi hann hjálpað sèr um kylfuna þá arna, og þurfi ekki annað, en segja við hana þegar hún eigi að taka til starfa: „Upp, upp kylfa, upp, upp, þegar þú mátt.“ Kóngsdóttir ímyndar sèr, að það muni vera tákn og stórmerki, sem kylfan geri eptir þessum ummælum, og falar í ósköpum kylfuna. Fóru nú skipti þeirra á eina leið, og fyrri, að hann selur kóngsdóttur kylfuna, og fer með andvirðið heim í kot til karlsins, föður síns. Þegar kóngsdóttir er búin að komast yfir alla þessa gripi, kemur hún að máli við föður sinn, og biður hann að lofa sèr að stofna til voldugrar veizlu; segist hún vilja reyna þar gripi sína, og sýna öðrum, hversu ágætir þeir sèu. Kóngur lætur þetta eptir henni, og býður til veizlunnar svo mörgu stórmenni, að höll hans er alskipuð. Þegar boðsmenn eru komnir í sæti, kemur kóngsdóttir á settum tíma með dúkinn, og óskar á hann sínum rèttinum í hvort sinn, og svo koll af kolli, bæði vín og vistir, þángað til einginn þykist geta neytt meir matar nè drykkjar. En þegar máltiðinni var lokið og fara átti að skemta boðsmönnunum, sækir kóngsdóttir tryppið, og leiðir það inn í höllina og segir: „Hryss-tryppa, hryss-tryppa.“ Þá hristir tryppið sig, og peníngarnir velta út úr því á allar hliðar. Þykir mönnum mikilsvert um þetta, og eru mjög kátir. En kóngsdóttir ætlaði sèr þó enn að auka fögnuðinn, og því sækir hún kylfuna, ber hana inn í höllina og segir við hana: „Upp, upp kylfa, upp, upp, þegar þú mátt.“ Á sömu stundu hefst kylfan á lopt, og rotar á svipstundu hvert mannsbarn, sem var í höllinni, nema kóngsdóttur. En það er frá karlssyni að segja, að hann hafði komið heim í kóngsríki, til að ná í eitthvað af veizluleifunum, og stóð við hallardyrnar. Þegar hann sèr, hverju fram fer, og hvað kylfan gerir að verkum, hleypur hann inn í höllina, þrífur kylfuna og segir við kóngsdóttur, að hún skuli eiga um tvo kosti að velja, annaðhvort að hún eigi sig, eða hann skipi kylfunni að rota hana, eins og hina. Kóngsdóttir segist muni taka hinn fyrri kostinn, og fastnar karlssonur sèr hana. Eptir það lætur hann prestinn sinn gefa sig saman við hana í hjónaband, og varð kóngur í ríkinu. Tók hann svo karl og kerlíngu úr kotinu heim í kóngsríki, og veitti þeim marga ánægju og gleðidaga; ríkti hann síðan vel og leingi, og svo kann eg ekki þessa sögu leingri.

**Sagan af Hans karlssyni.** (Eptir handriti sèra Sveinbjarnar Guðmundssonar.) Það var einu sinni karl og kerlíng í koti sínu; þau áttu 3 sonu. Saga þessi segir ekki frá nöfnum tveggja hinna elztu, en ýngsti sonur þeirra hèt Hans. Faðir þeirra unni mjög eldri bræðrunum, lèt alt eptir þeim, sem hann gat; en Hans var í öllu út undan hjá karlinum, föður

sínum. Hans fèkk aldrei neitt að leika sèr að, og mátti ekkert fèlag eiga við föður sinn eða bræður. Hann lá því laungum í eldaskála, og var hjá móður sinni, enda var hún sú eina, sem nokkuð hèlt í hönd með honum. Af því Hans varð opt að vera einn, leiddist honum það, og fór að hæna að sèr köttinn í kotinu. Þetta tókst honum svo vel, að kisa fór að elta hann og fylgdi honum, hvert sem hann fór. Nú líður og bíður, til þess að þeir bræður eru orðnir fulltíða menn; þykjast báðir eldri bræðurnir miklir menn, og voru mestu oflátúngar, enda hældi faðir þeirra þeim á hvert reipi, en þókti Hans nálega til einkis nýtur. Bræður hans gerðu og æði lítið úr honum, svo allir höfðu horn í síðu hans, nema móðir hans ein; hún gat litið hann rèttu auga, og gleymdi því ekki, að hún var móðir hans, enda bar Hans sig að því, að koma sèr ekki út úr húsi hjá henni. Þess er getið, að lángt í burtu frá karlskoti var kóngsríki eitt, og sjóleið nokkuð laung í milli. Eldri bræðurnir komu einu sinni að máli við föður sinn, og beiddu hann að lofa sèr að fara í kóngsríkið, til að leita sèr fjár og frægðar. Karl tók vel undir það, og segir, að það sè hugboð sitt, að þeir muni verða lukkudrjúgir. Einhverju sinni eptir þetta, þegar karl vissi, að kaupskip eitt var komið þar við land, segir hann konu sinni, að nú verði hún að fá eldri bræðrunum nesti og nýa skó, því hann ætli að láta þá fara í kóngsríki, til að leita sèr fjár og frama. Kerlíng þorir ekki annað en hlýða boði bónda síns, og býr þessa syni úr garði. Þegar Hans verður þessa var, hefir hann ekki frið í sínum beinum, svo mikið lángaði hann til að fara með þeim; kemur hann þá að máli við föður sinn, og biður hann að lofa sèr að fara. Karl lèzt ekki geta látið hann fara, en af því sèr leiðist að horfa á hann hjá sèr, þegar hinir bræðurnir sèu farnir, þá verði hann að láta það eptir með því skilyrði, að hann verði ekki samferða bræðrum sínum, svo að þeir hafi einga vanvirðu af honum. Hans þykja þetta góð málalok, fer svo til móður sinnar, og biður hana að láta sig fá eitthvað til ferðarinnar. Hinir bræðurnir flýta sèr nú á stað; því þeim var alt um æði, að Hans kæmist ekki í för með þeim. En Hans hefir og hraðann á borði, og fær sèr eintóm roð í nestið hjá móður sinni. En þegar hann kveður hana, fær hún honum skörúnginn sinn, og segir, að hann skuli hafa hann fyrir gaungustaf, og muni hann ekki villast, á meðan hann gángi við hann, einnig segir hún, að hann verði að hafa hann fyrir vopn, meðan hann hafi ekki annað. Síðan kveður Hans móður sína með mestu virktum og svo föður sinn. Fer hann svo sem fætur toguðu þángað á leið, sem hann hugði, að skip mundi vera við sjávarströndina. Vildi hann nú feginn geta komið auga á bræður sína; en þeir höfðu flýtt sèr svo mikið, að hann sá þá hvergi. Hans heldur eigi að síður á fram; en þegar farið er að rökkva, er hann kominn á hæð nokkra, sèr hann þá, hvar kemur fljúgandi ógurlega stór fugl, og hyggur hann, að það muni vera flugdreki, sem hann

hafði að eins heyrt nefndan. Sendir Hans þá skörúnginum á eptir honum og hæfir hann, svo hann dettur niður, grípur hann þá skörúnginn aptur og vinnur á drekanum. Nú fer Hans að hyggja að því, sem drekinn hafði haldið í klónum, og var það barn háhljóðandi. Leitast Hans við að hugga það, en getur ekki, og er nú öldúngis ráðalaus. Í þessum svifum sèr hann, hvar kemur dálítill maður, hlaupandi og lafmóður; heilsar hann Hans blíðlega og segist sjá, að hann hafi gert sèr mikið góðverk, þar sem hann hafi bjargað barni sínu. Tekur hann nú við barninu og huggar það. Þessi litli maður, sem raunar var dvergur, spyr Hans, hvort hann vilji ekki koma heim með sèr, og vera hjá sèr í nótt. En af því Hans var farinn að verða hræddur um, að hann mundi verða að liggja úti, tók hann boði þessu fegins hendi, og fór með dverginum. Þeir gánga nú lánga leið, uns Hans sèr stóran stein, sem hann mundi eptir að hann hafði geingið fram hjá um daginn. Að þessum steini fara þeir, og lýkur dvergurinn honum upp, og gánga þeir þar inn. Hans fær þar beztu viðtökur, en ekki er þess getið, hvort hann hafi sèð þar fleira fólk. Um kvöldið háttar Hans og sefur vel; þó verður hann þess var, að dvergurinn var í einhverju smíðabjástri um nóttina. Um morguninn fer Hans á fætur, og þegar hann er ferðbúinn, segist dvergur hafa í hyggju að gefa honum 3 gripi, þó þeir sèu lítilsvirði hjá lífgjöf barnsins síns. Fyrst fær hann Hans lítinn stein, sem hann segir að fylgi sú náttúra, að þegar hann beri hann í lófa sínum, þá sjái hann einginn. Því næst gefur hann Hans sverð, og segir að það muni bíta, og megi það verða svo lítið, að hann geti stúngið því í vasa sinn, og látið það svo verða aptur fullstórt.[1] Seinast gefur dvergurinn honum skip, sem hann segir hann geti borið í vasa sínum, en þegar hann vilji, geti hann látið það verða svo stórt, sem honum þyki henta, og jafnvel eins stórt, og haffært skip, einnig sè það kostur á því skipi, að það fari leiðar sinnar jafnt móti vindi sem undan.[2] Hans tekur við gripum þessum, og þakkar dverginum mikillega gjafirnar; síðan kveður hann dverginn, tekur skörúnginn í hönd sèr, og leggur á stað. Nú fer Hans, þar sem hann heldur, að skemst sè til sjávar, og þegar hann kemur að sjó, tekur hann skip sitt og segir: „Stækki skip!“ setur á flot og fer sjálfur upp í. Tekur skipið til rásar, en hann stýrir því á leið til kóngsríkis. Þegar hann er kominn út á rúmsjó, brestur á veður; sèr hann þá, hvar önnur skip hrekjast fyrir öldum og stórsjóum, en skip hans fer leiðar sinnar alt að einu, og nemur ekki staðar fyrri en við kóngsríkið. Stígur Hans þar á land, og segir: „Minki skip“; tekur skip sitt og stíngur því í vasa sinn; heldur hann svo upp í landið, en fer nokkuð huldu höfði, meðan hann er að kynnast mannaháttum og nema siði landsbúa. En það

1. Sbr. Fas. III. 620., 625—6. bls.
2. Sbr. um skipið Skíðblaðni, Snorra-edda. I. 140. bls., og Fas. III. 488. bls.

er að segja af bræðrum hans, að þeir komust og til kóngsríkis, fóru þegar á fund kóngs og beiddust af honum veturvistar, og veitti hann þeim það; eru þeir nú með kóngshirðinni hinir kátustu, og láta mikið yfir sèr. Eptir það kemur Hans til kóngshallar; geingur hann þar fyrst um nokkra stund milli hirðmanna og annarstaðar, svo að einginn sèr hann, en hann tekur eptir öllu, án þess nokkur verði var við. Þegar þetta hefir geingið um stund, geingur hann fyrir kóng, og kveður hann kurteislega, biður hann veturvistar og fær hana; en bræður hans láta, sem þeir sjái hann aldrei. Kóngur átti eina dóttur barna, og var hún þá þegar orðin gjafvaxta, enda var kóngur farinn að gerast gamall. Einhverju sinni, þegar skamt var liðið frá veturnóttum, og allir hirðmenn voru í höllinni, kveður kóngur sèr hljóðs, og gerir það kunnugt, að hann vilji gefa hverjum þeim manni dóttur sína og hálft ríkið, meðan hann lifi, en alt eptir sinn dag, sem geti náð og fært sèr á jóladagskvöldið þá þrjá hluti, sem kostulegastir sèu í heimi, sè það tafl úr skæra gulli, sverð mjög fagurt og gulli búið, og fugl gyltur og með gullvængjum í glerhulstri, og sýngi hann svo hátt, þegar við hann sè komið, að heyra megi öræfa-lángan veg. Þessa gripi segir hann að tröllskessa ein geymi, sem sè í eyu einni ekki allángt þaðan, og hafi hún þá fyrir ofan rúmið sitt. Hirðmenn kóngs gefa þessu lítinn gaum, en eldri karlssynirnir tveir segjast halda, að þetta sè reynandi og varla óvinnandi. Annar þeirra biður kóng að fá sèr þegar skip og menn, svo hann komist til eyarinnar. Kóngur segir, að það skuli til reiðu, og er svo ekki getið um ferð þeirra, fyrr en þeir koma til eyarinnar. Geingur karlsson þar á land um bjartan dag, þorir hann því ekki að gánga um eyna, legst svo í leyni og bíður þess, að rökkva tók, og ætlast á, að skessan muni vera farin að sofa. Stendur hann þá upp og fer til hellisins, og verður þess áskynja, að hún er háttuð og sofnuð. Hugsar hann sèr, að nú skuli hann fara hægt og varlega, og lízt það ráðlegast að byrja á því torveldasta, að taka fuglinn, en óvart kom hann lítið eitt við fuglinn, og brá honum þá heldur en ekki í brún, því fuglinn rak upp svo hátt hljóð, að í öllu glumdi. Skessan vaknar þá við vondan draum, rýkur upp, og þrífur til karlssonar, og segir, að það sè vel, að hann sè þángað kominn, því hún skuli nú hafa hann fyrir jólaref. Eptir það fer hún með hann í afhelli einn, bindur fætur hans og hendur á bak aptur, þuklar síðan um hann, og segir, að hann þurfi að eiga gott, því ekki sè bitastætt í honum, eins og hann sè nú. Síðan þýtur skessan út úr hellinum og niður að sjó; því nú vissi hún, að kóngsmenn höfðu komið til eyarinnar, og hugsaði sèr að fá meiri veiði. En þegar þeir sjá flagðið æða ofan að skipinu, leystu þeir landfestar í skyndi, og lá þó við sjálft, að þeir kæmust ekki svo fljótt frá landi, að hún næði ekki í þá; en þó varð hún svo búin frá að hverfa. Kóngsmenn koma nú aptur heim, og segja hið ljósasta af sínum förum, og

telja það víst, að varla muni þessi karlsson koma með gripina. Nú verður hinn karlssonurinn óður og uppvægur, og biður kóng að láta sig fá skip og menn. Kóngur gerir svo, og leggur karlssonur svo á stað, og segir ekki af ferðum hans annað en það, að fyrir honum fór öldúngis eins og hinum fyrri. Skömmu eptir að þessir kóngsmenn komu aptur, hverfur Hans, svo einginn veit hvað af honum er orðið. En hann fór ofan til sjávar, og hugsar sér að hitta skessuna, eins og bræður sínir. Hann fer á skipi sínu yfir sundið, stíngur því síðan í vasa sinn og geingur upp á eyna; gætir hann nú þess, að hafa steininn í lófa sínum, svo hann sjáist ekki, og heldur svo á fram, þángað til hann kemur að hellinum. Var skessan þá ekki komin heim, svo hann felur sig þar í krók einum. Nokkru síðar kemur skessan inn í hellinn, og þefar í allar áttir og segir: „Fussum svei, mannaþefur í helli mínum.“ Eigi að síður leggst hún fyrir í bæli sitt, en getur þó ekki farið að sofa, og stagast aptur og aptur á þessu: „Fussum svei, mannaþefur í helli mínum“, rýkur upp og fer að fálma innan um hellinn. Hans sèr nú, að hún muni finna sig, tekur upp hjá sèr sverðið dvergsnaut, lætur það verða vopnhæft að stærð, og þegar skessan er komin í höggfæri, bregður hann því á háls henni, svo höfuðið fauk af. Flagðið dettur þar niður, en Hans kveykir eld og brennir skrokkinn. Síðan kannar hann hellinn, og finnur þar fjöldamargar gersemar auk kjörgripanna, sem fyrr voru nefndir. Á einum stað í hellinum varð hann var við afhelli einn; hann fer þar inn, og finnur bræður sína báða. Þegar þeir sjá hann, verða þeir bæði furðufullir og auðmjúkir, og biðja hann nú, bróður sinn góðan, að minnast þess ekki meir, hvernig þeir hafi áður verið honum, og leysa af sèr böndin. Hans segist muni gefa þeim frelsi, ef þeir breyti bróðurlega við sig upp frá þessu, og því lofa þeir. Síðan leysir Hans þá. Taka þeir nú byrðar sínar af gripum og gersemum, og bera til sjávar, og þegar þeir höfðu tekið alt fèmætt úr hellinum, ferma þeir skipið og fara heim í kóngsríki, en gera þó ekki vart við sig í borginni, fyrr en á jóladagskvöldið, þá geingur Hans fyrir kóng með bræðrum sínum, og heilsa þeir honum hæversklega. Kónginn og hirðina alla rekur í rogastanz á þessu, og þó undruðust allir enn meir, þegar Hans jafnframt færði kóngi kjörgripi þá, sem hann hafði til tekið. Segir kóngur, að þá sè sjálfsagt, að Hans sè rètt kominn að ráðahag við dóttur sína, eins og hann hafi heitið. Er svo Hans látinn taka tignarklæði, og kóngsdóttir sókt, svo er borið inn sterkt vín og ágætt, hátíðargleðin aukin og drukkið brúðkaup þeirra Hans og kóngsdóttur. Eptir þetta sækir Hans foreldra sína, og lifa þau hjá honum í kóngsríkinu í sælli elli, en hann tekur sjálfur þátt í ríkisstjórninni með teingdaföður sínum, og eptir hann látinn verður Hans kóngur, og gerir bræður sína að ráðgjöfum; ríkir hann svo bæði vel og leingi, og svo kann eg ekki þessa sögu leingri.

**Karlssonur og kötturinn hans.** (Eptir handriti sèra Finns þorsteinssonar á þaunglabakka.) Einu sinni var karl og kerlíng í koti sínu og kóngur og drottníng í ríki sínu. Sögunni víkur fyrst til karls og kerlíngar. Karlinn var svo ágjarn, að hann græddi feikna mikla penínga; höfðu menn það fyrir orðtak, að hann feingi jafnan tvo penínga fyrir einn. Loks kemur þar að, að karl tekur sótt og legst í rekkju; leiddi sú sótt hann til bana. Karl og kerlíng áttu að eins einn son. Fyrstu nóttina eptir lát karlsins dreymdi son hans, að honum þókti maður ókendur koma til sín og segja við sig: „Hèr liggur þú, karl, faðir þinn er nú látinn og allur hans auður orðinn þín eign, því móðir þín deyr bráðum. Nú er þessi auður að hálfu leyti rángfeinginn, þess vegna skaltu gefa fátækum helmínginn, en hinu skaltu kasta í sjóinn; en fljóti nokkuð ofan á sjónum, þegar hitt er sokkið, annaðhvort blað eða brèf, þá skaltu taka það, og geyma vandlega.“ Síðan hverfur maðurinn, en dreingurinn vaknaði. Hann verður nú mjög áhyggjufullur út af draumnum, og er að velta fyrir sèr, hvernig hann skuli fara að, og þykir honum ísjárvert, að glata auðnum; þó ræður hann það af, að gefa fátækum helmínginn, en hinu fleygir hann í sjóinn. Þá fer, eins og draummaðurinn sagði, að hann sèr eitthvað fljóta ofan á sjónum; hann fer til og nær því, og sèr það er blað; síðan flettir hann því í sundur og finnur 6 skildínga innan í því. Hann hugsar með sèr: „Hvað á eg að gera með þessa sex skildínga, þar eg er búinn að glata svo miklum auði.“ Samt stíngur hann þeim niður hjá sèr. Hann gerist nú harmandi og þúngbúinn út af missi auðsins, og legst fyrst í rekkju, en síðan fer hann þó á fætur. Hann ráfar nú burt í þúngu skapi, þegar hann var búinn að fylgja móður sinni til grafarinnar. Hann fer út á skóg, og ráfar leingi, þángað til hann kemur að kotbæ einum; hann ber þar að dyrum, og kemur þar út gömul kona. Hann biður hana að lofa sèr að vera, en segir um leið, að hann hafi ekkert, til að borga næturgreiðann með; hún segir, að honum muni ekki verða úthýst fyrir það. Fer hann þá inn og er honum þegar borinn matur. Ekki sèr hann þar aðra menn, en 2 konur og 3 karlmenn. Ekki er mikið um viðræður, og þykir honum þar þurlegt. Meðal annars sèr hann þar dýr eitt, grátt á lit, en ekki stórt. Þvílíkt kvikindi hefir hann aldrei sèð áður; spyr hann, hvað menn kalli þetta dýr, og er honum þá svarað, að það heiti köttur. Síðan spyr hann, hvort kötturinn sè falur, og hvað hann kosti; honum er sagt, að hann fáist fyrir 6 skildínga, og kaupir hann köttinn fyrir skildíngana sína, og sefur síðan af um nóttina. En að morgni kveður hann, stíngur kettinum undir hempulaf sitt, og fer síðan á stað. Hann geingur nú allan daginn yfir skóga og eyðimerkur, þángað til hann að kvöldi kemur að bæ einum; hann ber að dyrum, og kemur þar út gamall maður; sem segist vera þar húsráðandi. Dreingur biður hann gistíngar, en segir honum jafnframt, að hann hafi ekkert, til að borga honum greiðann með. „Það verður þá að gefa þèr

næturgreiðann," segir karl. Síðan leiðir karlinn hann inn í baðstofu; þar sèr hann 2 konur og 2 karlmenn; var önnur kona karls, en hin dóttir þeirra; hann lætur síðan köttinn spretta undan kápulafi sínu, og bregður þá öllum í brún, því einginn af þeim hafði sèð þess konar dýr áður; er hann nú þarna um nóttina. En um morguninn er honum sagt, að hann skuli gánga til hallar konúngs, sem sè þar skamt frá. Kóngur sá sè góður maður, og muni hann eflaust gera honum einhvern greiða. Síðan fer dreingur á stað, og geingur þángað til hann kemur til hallar kóngs; hann gerir boð fyrir kóng, að hann vilji finna hann, en kóngur lætur segja honum, að honum sè leyfilegt að gánga inn í höllina á sinn fund, og gerir dreingur svo. Þegar hann kemur inn í höllina, sitja menn yfir borðum; hann heilsar kóngi og hirðmönnum hans, en eitt þykir honum furðu gegna, og það er það, að hann sèr heilmikinn grúa af smákvikindum í höllinni, og eru þau svo nærgaungul kóngi og hirðmönnum hans, að þau hlaupa um borð og diska kóngs og jeta krásirnar með honum, og bíta jafnvel á honum hendurnar, svo hann hefir eingan frið fyrir þeim; voru hendur kóngs og ýmsra hirðmanna blóðugar, og eru menn að reyna að verjast fyrir þeim og ágángi þeirra, en veitir það mjög þúngt. Dreingur spyr, hverju þessi ófagnaður gegni, og hvaða kvikindi þetta sèu. Kóngur segir honum, að þau heiti völskur, og hafi þær í mörg ár veitt sèr árásir, en hann viti ekkert ráð, til að afmá þær. Í þessu hleypur kötturinn fram undan kápulafi dreingsins og að rottunum; drepur hann þegar hverja af annari, en fælir hinar burt úr höllinni. Kóngur og hirðmenn hans undrast þetta, og spyr kóngur, hvaða dýr þetta sè; dreingur segir, að það heiti köttur, og hafi hann keypt það fyrir 6 skildínga. Þá segir kóngur: „Fyrir híngaðkomu þína, og heill þá, sem mèr hefir staðið af þèr, skaltu mega kjósa af mèr það, sem þú vilt helzt, hvort þú vilt heldur verða æðsti ráðgjafi minn eða eignast dóttur mína, og fá ríkið eptir mig." Dreingur kvaðst mundi kjósa sèr dóttur hans og ríkið, fyrst hann mætti velja. Síðan er haldið brúðkaupið, og að því enduðu, sendir dreingur eptir bændum þeim, sem höfðu hýst hann, og gerir þá að ráðgjöfum sínum, þegar hann var kominn til ríkis, eptir lát kóngs.

**Sagan af Sigurði slagbelg.** (Eptir Brynjólfi Jónssyni á Minnanúpi í Eystrahrepp.) Einu sinni var ríkur kóngur, sem átti 2 sonu og 1 dóttur. Þeir feðgar voru allir fávitrir og fègjarnir, en kóngsdóttir bæði vitur og vel að sèr, Kóngur var orðinn gamall, þegar þessi saga gerðist, og börn hans þroskuð. Karl og kerlíng bjuggu í koti einu hjá kóngshöllinni, fátæk og aldurhnigin; sonur þeirra hèt Sigurður. Hann var snemma efnilegur, manna vitrastur og smiður góður; hann átti sèr smiðju, smíðaði þar ýmsa hluti og græddi fè á því. Eptir lát föður síns bjó hann með móður sinni, og eignaðist brátt mikið fè. Kóngssynir öfunduðu hann, að hann var

feingisælli en þeir. Þeir höfðu áður lagt leika saman og Sigurður, því þeir voru svo að segja jafnaldra; en þegar kóngssonum óx meir fiskur um hrygg, urðu þeir bæði óvægnir við Sigurð og dramblátir; en hann lèk aptur á þá með brögðum og nýtti sèr heimsku þeirra. Einu sinni brendu kóngssynir um nótt smiðju Sigurðar, þegar hann var ekki heima, til að hnekkja gróða hans. Þegar hann kom heim, þókti honum svart í brotið, því hann sá ekki eptir nema öskuna; hann frèttir og, hverjir verk þetta hafi unnið, og ætlar þeim þegjandi þörfina síðar. Hann tekur nú 2 sekki og fyllir af öskunni, bindur þá í bagga, leggur á hest og fer með alt út á skóg. Um kvöldið kemur hann á bæ, þar sem kóngur átti ráðsmann á búi sínu og ráðskonu; þau geymdu mikið af gulli og gripum kóngs, sem hann vildi ekki að aðrir vissi af. Sigurður biður þar gistíngar, og fær hana, því hann lèzt vera sendimaður kóngs, og hafa meðferðis þá gripi, sem eingir væru slíkir í öllum heimi, og bað ráðsmanninn sjá svo um, að einginn snerti baggana, og hètu allir því, sem inni voru. Ráðskonan var í eldhúsinu og heyrði á tal Sigurðar; hún var forvitin, geingur til bagganna, leysir annan og hvolfir úr sekknum; en askan rauk jafnóðum út í buskann, því hvast var úti. Hún reiddist þessu, rauk í hinn baggann og hvolfir úr honum, og fór alt á sömu leið. Ráðskonan kallar nú á ráðsmanninn, og segir honum slys sitt. Hann sagði, að þetta væri illa orðið, „og munum við lífinu týna fyrir tiltektir þínar.“ Hún fann þá það ráð, að þau fyltu aptur sekkina báða af góðgripum kóngs og gullpeníngum, og geingu frá þeim, eins og áður. Morguninn eptir fór Sigurður heimleiðis með baggana, og lèt, sem hann vissi ekki, hvað í hafði skorizt. Kemur hann sèr þá upp smiðjunni aptur og græðir svo enn fè. Kóngssynir verða þess vísari, að Sigurður hefir komið upp aptur smiðju sinni, og er orðinn auðugri en áður; fara þeir þá til hans og spyrja, hvernig honum hafi græðst svo mikið fè. Hann sagðist hafa selt öskuna úr gömlu smiðjunni, og feingið í staðinn jafnvægi hennar af gulli. Kóngssynir þakka honum þá sögn og snúa heimleiðis kátir í huga; kom þeim svo saman um, að þeir skyldu brenna smiðjuna fyrir gullsmið kóngsins, til að ná í sömu happakaup, sem Sigurður hefði orðið fyrir. Síðan gera þeir þetta að ráði, og fara með öskuna þángað, sem Sigurður lèzt hafa selt sína ösku, og buðu hana. En þeir feingu ekki á aðra hönd nema gys og gabb, sneru heim aptur við svívirðíng, og undu illa sinni ferð. Þegar þeir komu heim aptur, ætluðu þeir að klekkja á Sigurði fyrir gabbið. En hann sá ferð þeirra, tekur pýngju með gullpeníngum í og geingur til hesthúss; þar var í hryssa, sem hann átti, og stráir hann þar peníngunum um gólfið, og fer síðan að tína þá saman í tómi. Koma þá kóngssynir þar, og verða stuttar kveðjur; þeir segja, að Sigurður hafi gabbað sig, og sè það hefndavert. Sigurður segir, að þeir hafi sagt frá því, að það væri aska, sem þeir seldu, og játuðu þeir því. „Þá var ekki von, að vel færi,“

segir Sigurður, „nema þið hefðuð sagt, að askan væri frá goðunum, og gjaldið þið maklega heimsku ykkar.“ Kóngssynir spurðu nú Sigurð, hvað hann væri að gera, eða hvort hann tíndi gull úr taðinu, sem merin teddi, og sagði hann svo vera. Þeir leggja þá fölur á færleikinn; en hann var ófús að láta hann falan. Þó buðu þeir honum svo mikið fè fyrir hann, að hann lèt tilleiðast um síðir. Spyrja þeir hann nú, hvernig þeir eigi að fara með hryssuna, og segir hann þeim, að þeir skuli láta hana inn í hesthús, en gefa henni ekkert hey, og vitja svo um eptir hálfan mánuð, og muni þá verða hjá henni mikil hrúga. Síðan fara þeir með merina, og fara að öllu, sem Sigurður hafði fyrir þá lagt, og sendu honum andvirði merarinnar um kvöldið. Þegar vikan var liðin, gægðust kóngssynir inn um hesthússdyrnar, og sáu, að merin lá, og að annari viku liðinni, fóru þeir að vitja um hana, og hugsa nú gott til glóðarinnar, að fá alt gullið; en þá var merin dauð og mikil taðhrúga hjá henni, en ekkert gull. Þykjast þeir nú enn ver gabbaðir en áður, og ætla sèr að finna Sigurð í fjöru fyrir svikin. Þegar hann sèr ferð þeirra bræðra, tekur hann smèrsköku og hnall í hönd sèr, og geingur út í tún, að þúfu einni, og slær smèrið út um þúfuna með hnallinum. Þá koma kóngssynir til hans, og átöldu hann, að hann hefði svikið þá á hryssunni. Sigurður segir: „Þið hafið þá gætt að merinni, áður en hálfur mánuður var liðinn.“ Þeir játuðu því, og sagði Sigurður, að þá hefði ekki verið kyn, þó náttúran hyrfi frá henni, og mættu þeir sjálfum sèr um kenna. Þá spurðu þeir hann, því þúfan væri öll löðrandi í smèri; en Sigurður sagði, að sú náttúra fylgdi hnallinum, að þúfur yrðu að smèri, ef þær voru barðar með honum. Þeir báðu hann þá að selja sèr hnallinn. Sigurður lèzt þess ófús og sagði, að þeim mundi ekki verða meira úr hnallinum, en hryssunni, fyrir sakir heimsku þeirra. En þeir leggja því meir að honum að selja sèr hnallinn, og verður það úr, að þeir kaupa hann fyrir ærna verð, fara svo heim með hann og fara að lemja með honum þúfurnar; en þær urðu allar að flögum, en ekki að smèri. Þegar þeir fundu Sigurð næst, sögðu þeir, að hnallurinn hefði verið svikinn, og báðu hann að skila aptur peníngunum. Sigurður segir, að þeir muni hafa farið með hvíldum að berja, og játuðu þeir. Þá segir Sigurður: „Von var, að náttúran hyrfi frá hnallinum, og fór þetta, sem mig varði.“ Eptir það fóru kóngssynir heim og fundu fóstru sína að máli, og segja henni alt af viðskiptum þeirra og Sigurðar. Hún var vitur kona, og sagði, að þeim væri hentast að eiga sem minnst við Sigurð, því þeir mundu ekki sækja sigur í hendur honum. Þeir bræður voru ekki ánægðir með þetta, geingu fyrir föður sinn, og báðu hann að láta drepa Sigurð. Kóngur tók vel undir það, og fór með alla hirðmenn sína út í karlskot. Sigurður sèr mannaförina, geingur inn til móður sinnar og segir: „Nú kemur kóngur híngað; skaltu nú búa þig sem bezt, og setjast á mitt gólfið, en eg mun hlaða tötrum utan að þèr, og þegar kóngur

kemur að glugganum, mun eg segja við þig, að nú ætli eg að láta þig kasta ellibelgnum; mun eg þá taka belg, fullan með vind, og slá þig með, en þú skalt láta fallast út af á gólfið. Síðan mun eg segja þèr að standa upp og hrista þig. Það skaltu gera, og munu þá tötrarnir falla utan af þèr, og muntu þá sýnast únglegri en áður í augum kóngs.“ Þegar kóngur kemur að glugganum á svefnhúsi Sigurðar, heyrir hann, að sagt er inni: „Nú ætla eg að láta þig kasta ellibelgnum, móðir mín.“ Kóngur geingur þegar í bæinn og segir við Sigurð, að það vilji hann sjá, hvernig að því sè farið, „og skaltu hafa líf, ef þú sýnir mèr það, þó áður ætlaði eg að drepa þig.“ Sigurður lèzt ekki vita, hvað hann hefði til þess unnið, en sagði kóngi væri velkomið að sjá, hvernig hann færi að, og fór svo að öllu, sem áður er frá sagt. Kóngi þókti mikils um vert, og sagði, að Sigurður skyldi hèðan af heita slagbelgur, og hafa höfuð sitt í nafnfesti. Eptir þetta fer kóngur til manna sinna, segir þeim frá, hvað hann hafði heyrt og sèð, og að sèr sè forvitni á að reyna þetta sjálfur á öðrum. Synir hans unnu mikið fóstru sinni, og báðu því föður sinn að láta hana kasta ellibelgnum fyrsta allra manna. Kóngur hèt þeim því; eptir það gánga þeir heim, og er kerlíng látin setjast á mitt gólf, en kóngur fyllir belg af grjóti og slær honum á vánga kerlíngar mikið högg, og fellur hún þegar í rot. Kóng uggir það ekki og segir: „Stattu upp, kerlíng, og hristu þig;“ en kerlíng bærði hvergi á sèr, og lèt kóngur taka hana upp, en hún var þá steindauð. Sá þá kóngur, að Sigurður hafði gabbað sig og sagðist mundi láta drepa hann, áður lángt liði. Litlu síðar lætur kóngur slátra nauti og stóð þar yfir sjálfur. Sigurður kom þar að, en kóngur hrakyrti hann fyrir svikin, því kerlíng sú, sem hann hefði viljað láta kasta ellibelgnum, hefði rotazt. Sigurður sagði, að kóngur hefði þá haft grjót í belgnum, og sagði kóngur svo hafa verið. Sigurður sagðist hafa haft eintómis vind, og ætlað, að kóngur tæki eptir því, „og má því ekki skulda mig um slíkt.“ Kóngur sá, að Sigurður hafði satt að mæla. Síðan segir Sigurður við kóng: „Það var erindi mitt híngað, herra, að biðja yður að gefa mèr garnirnar úr uxanum.“ Kóngur spyr, hvað hann ætli að gera við þær. Sigurður segir: „Eg heingi þær í eldhús hálfan mánuð, annan hálfan mánuð heingi eg þær yfir rekkju mína, síðan sker eg gat á lykkjuna, sem niður snýr, set þar í pípu, og drekk svo fastandi úr görnunum á morgni dags. Eptir það veit eg alla hluti bæði í jörð og á.“ Kóngur bauð að gefa honum hálfar garnirnar, en hálfar sagðist hann mundi hafa handa sjálfum sèr. Sigurður varð að láta sèr þetta lynda, fór burt með helmínginn, og gerði af honum það, sem honum sýndist. En kóngur fór með sinn hluta, eins og Sigurður hafði ráð fyrir gert. Að mánuði liðnum drekkur kóngur úr görnunum einn morgun fastandi, og þó honum þækti það ekki gómsætt, þókti honum það til vinnandi, svo hann feingi að vita alla hluti. En svo brá kóngi við þenna drykk, að hann

varð eingu vitrari, en varð svo íllt af öllu saman, að hann lagðist í rekkju og dó skömmu síðar, og var heygður að fornum sið. Synir hans tóku ríkið undir sig, og lètu systur sína ekkert af því hafa; en hún undi því illa og varð fálynd við þá. Þeir bræður kendu Sigurði um dauða föður síns, og vildu hefna þess. Þeir fóru því einn dag til kotsins í hefndar hug; en Sigurður var þá ekki heima, og móðir hans vildi ekki segja þeim til hans. Tóku þeir hana þá og hálsbrutu, fóru svo heim og undu vel við sína ferð. Nú kemur Sigurður heim, og finnur móður sína dauða; þykist hann vita, hverjir því valdi, tekur líkið, þvær það og smyr, og býr í skrautlegan búníng, söðlar hest og setur hana þar upp á, og teymir undir henni út á skóg. Þar mætir hann nautahirði þeirra bræðra, og flykkjast nautin utan að hestinum, að skoða hann og nasa af honum. En hesturinn fældist við aðgánginn í nautunum, og fèll kerlíng þá úr söðlinum. Sigurður gekk að henni, lèt sem sèr yrði bylt við, þegar hann sá, að hún var dauð, hljóðaði upp yfir sig og sagði: „Mikið slys hefir þig hent, þegar þú rakst nautin að mèr, sem fældu hestinn undir kóngsdóttur, en hún hefir dottið af baki og hálsbrotnað. Er það nú einka-úrræðið fyrir þig, að þú flýir sem skjótast út í buskann, ef þú vilt halda lífinu.“ Hirðirinn brá fótum undir sig, og var þegar úr augsýn; en Sigurður gróf þar móður sína, og rak nautin svo heim til sín. Þeir bræður frètta, að Sigurður hefir feingið mörg naut, finna hann því að máli, og spyrja, hvernig hann hafi komizt að þeim. Sigurður lèzt hafa keypt þau fyrir lík móður sinnar af kóngi þeim, sem næstur var ríki þeirra bræðra. Við það snúa þeir heim aptur, og gera þau ráð sín á leiðinni, að þeir mundu fyrir fara móður sinni og selja líkama hennar látinnar fyrir naut, því hún væri orðin öldruð, og ekki til frambúðar. Þeir kæfa hana svo í laug, og fara með lík hennar til kóngs þess, sem Sigurður nefndi fyrir þeim, og bjóða honum líkið fyrir naut. Þegar kóngur þessi heyrði, hvernig á stóð, varð hann ákaflega reiður bræðrunum, og sagði: „Ætlið þið, níðíngarnir ykkar, að eg muni vera mannæta, og bæta því á glæp ykkar að smána mig? Væri það maklegast, að eg lèti drepa ykkur; en fyrir vináttu sakir við föður ykkar mun eg þó skirrast við það, og verðið á burt sem skjótast, illmennin.“ Þeir gera nú svo, komu heim aptur og undu hið versta við sína ferð. Meðan þeir bræður voru erlendis, hafði Sigurður komið að máli við kóngsdóttur og tjáð henni af illsku og ójöfnuði bræðra hennar. Hún bað hann ekki lýsa athæfi þeirra fyrir sèr, en leggja sèr heldur ráð til að rètta hluta sinn á þeim; en hann bað hana fara hægt að öllu og hyggilega, því vart mundu þeir bræður verða lánggæðir hèðan af. Skilja þau svo tal sitt, og fellur hvort öðru vel í geð. Þegar kóngssynir komu heim, fóru þeir að Sigurði, tóku hann höndum og lètu í sekk, báru hann fram á sjávarhamra, ráku niður hæl og heingdu sekkinn fram af berginu, og sögðu, að þar skyldi kveljast úr honum lífið, sem maklegt væri. Síðan

fóru þeir heimleiðis, og skildu þar við Sigurð í sekknum. Þó naumur væri tíminn, hafði Sigurður svo mikið ráðrúm, áður en þeir gripu hann, að hann gat náð hörpu sinni og komið henni í vasa sinn og þannig með sèr í sekkinn; en þegar þeir bræður voru burtu farnir, tekur hann hörpuna og slær hana í sekknum. Þá bar þar að sauðahirðir kóngssona; hann kallar til Sigurðar og spyr, hvað hann hafist þar að. Sigurður segir; „Lát mig vera; eg sýng hèr, til að draga að mèr gull úr hamrinum.“ En hirðirinn dró hann upp og rak hann úr sekknum, hvað sem Sigurður sagði, enda varðist hann þess ekki mjög. Tekur hirðirinn af honum hörpuna, og fer sjálfur í sekkinn, veltist fram af bjarginu og fer að sýngja. En þegar gullið dróst ekki eins að honum, og hann ætlaði, iðraðist hann eptir flumusaæði sínu, en gat nú ekki komizt upp aptur. Sigurður tekur aptur á móti alla sauði hirðisins og rekur þá heim á leið; sèr hann þá til ferða þeirra bræðra; höfðu þeir snúið aptur, og ætlað að draga upp hælinn og láta sekkinn svo falla ofan fyrir alla leið, því þeim hafði dottið í hug, að Sigurður kynni að finna ráð til að komast upp. Þeir gera nú það, sem þeir ætluðu, og hèldu svo heim glaðir í huga. Sigurður sèr alt til ferða þeirra, legst í læk einn og alvætir sig, rekur svo sauðina á leið fyrir kóngssyni, og hnykkir þeim nú heldur við, að sjá hann þar lífs. Sigurður segir við þá: „Vel gerðuð þið, að kasta mèr fram af hömrunum; er þar undir hellir mikill, fullur af sauðfè, og þaðan rek eg þenna hóp; en þess galt eg, að eg var einn, því þar er miklu meira eptir.“ Þeir bræður báðu hann að fylgja sèr fram á hamrana, og sögðust vilja sækja það, sem eptir væri. En Sigurður bað þá ekki gera það, því fèð væri sín eign, og mundi hann sækja það jáfnóðum. Þeir urðu æ því ákafari, og sögðu, að hann skyldi fylgja sèr fram á hamrana, hvort hann vildi eða ekki, og hètu honum annars vegar afkostum. Lèzt hann þá fara nauðugur með þeim; en þegar kom fram á bergið, sagði ýngri bróðirinn við hinn eldra: „Eg mun fara fyrst ofan og kalla til þín, ef þar er jafnmargt fè fyrir, og Sigurður segir frá.“ Hinum þókti það óskaráð, og hrinti bróður sínum fram af. Þegar hann kom á flugið, varð hann hræddur og öskraði ógurlega. Sigurður segir þá, að hann sè að kalla á bróður sinn, þegar hljóðin heyrðust upp, svo eldri bróðirinn hleypur þegar fram af bjarginu á eptir honum, og lètu þeir svo báðir líf sitt. Eptir þetta fer Sigurður heim til kóngsdóttur, og segir henni hvar komið sè, og lèt hún ekki illa yfir því. Sigurður hefur þá upp orð sín og bað hennar; en hún tók því vel; var síðan haldið brúðkaup þeirra með miklum sóma, og Sigurður tekinn til kóngs yfir alt ríkið; ríkti hann síðan vel og leingi, og lýkur svo sögu þessari.

**Brjáms-saga.** (Eptir A. M. 602. e. 4to, eptir Hildi Arngrímsdóttur lærða.) Það var einu sinni, að kóngur og drottníng rèðu fyrir ríki sínu; þau voru

rík og voldug og vissu varla aura sinna tal. Þau áttu eina dóttur; hún ólst upp sem flest önnur sögubörn. Þar bar hvorki til titla nè tíðinda, frètta nè frásagna, um þann tíma, nema logið væri. Karl og kerlíng bjuggu í garðshorni, þau áttu sjö syni og eina kú til bjargar; hún var svo væn, að hana þurfti að mjólka þrysvar á dag, og gekk hún sjálf heim úr haganum um miðdegið. Það var einu sinni, að kóngur reið á dýraveiðar með sveina sína. Þeir riðu hjá nautaflokki kóngs, og var kýr karls þar saman við. Kóngur mælti til þeirra: „Væna kú á eg þarna." „Ekki er það yðar kýr, herra", sögðu sveinarnir, „það er kýr karls í kotinu." Kóngur mælti: „Hún skal verða mín." Síðan reið kóngur heim; en er hann var seztur til drykkju, mintist hann á kúna, og vildi senda menn til karls að fala hana fyrir aðra. Drottníng bað hann að gjöra það ekki, því þau hefðu ekki neitt annað til bjargar. Hann hlýddi því ekki og sendi 3 menn að fala kú karls. Karl var úti og börn hans öll. Þeir skiluðu frá kónginum, að hann vildi kaupa kú karls fyrir aðra. Karl mælti: „Mèr er ekki mætari kýr kóngs, en mín." Þeir leituðu fast á, en hann lèt ekki af, þángað til þeir drápu hann. Tóku þá öll börnin að gráta, nema elzti sonurinn, er hèt Brjám. Þeir spurðu börnin, hvar þau hefði tekið sárast. Þau klöppuðu öll á brjóstið, nema Brjám, sem klappaði á rass sèr og glotti. Drápu þeir þá öll börnin, er á brjóstið klöppuðu, en kváðu það gilda einu, þó hitt greyið lifði, því hann væri vitlaus. Kóngsmenn geingu heim, og leiddu með sèr kúna, en Brjám gekk inn til móður sinnar og sagði henni tíðindin, og bar hún sig illa. Hann bað hana að gráta ekki, því þau tæku ekki mikið upp á því; hann skyldi bera sig að gjöra svo sem hann gæti. Það var einu sinni, að kóngur var að láta smíða skemmu handa dóttur sinni, og hafði hann feingið smiðnum gull, að gylla hana innan og utan. Brjám kom þar með fánahátt sinn. Þá mæltu kóngsmenn: „Hvað leggur þú hèr gott til, Brjám?" Hann svaraði: „Mínki um mælir mikinn, piltar mínir", og gekk síðan burt. En gullið, sem þeim var feingið til að gylla með, mínkaði, svo það dugði ekki meir en til helmínga. Þeir sögðu kóngi til. Hann hèlt, að þeir hefðu stolið því og lèt hengja þá. Þá fór Brjám og sagði móður sinni. „Ekki áttirðu svo að segja, sonur minn", segir hún. Hann mælti: „Hvað átti eg þá að segja, móðir mín?" Hún svarar: „Vaxi það um þrjá þriðjúnga, áttirðu að segja." Eg skal segja það á morgun, móðir mín", svaraði Brjám. Hann fór svo heim. Morguninn eptir mætti hann þeim, er báru lík til grafar. Þeir sögðu: „Hvað leggur þú gott hèr til, Brjám?" „Vaxi um þrjá þriðjúnga, piltar mínir", sagði hann. Líkið óx svo, að þeir mistu það niður. Brjám fór heim og sagði henni frá. Hún mælti: „Ekki áttir þú að segja það, sonur minn." Hann svarar: „Hvað átti eg þá að segja, móðir mín?" „Guð friði sál þína, þinn dauði, áttir þú að segja", mælti hún. „Eg skal segja það á

morgun, móðir mín," mælti hann. Hann fór um morguninn heim að kóngshöll, og sá hvar rakkari einn var að hengja hund. Hann gekk til hans. Rakkarinn mælti: „Hvað leggur þú gott hèr til, Brjám?" Hann svaraði: „Guð friði sál þína, hinn dauði." Rakkarinn hló að þessu, en Brjám hljóp heim til móður sinnar og sagði henni. Hún mælti: „Ekki áttir þú að segja svo." „Hvað átti eg þá að segja?" sagði hann? Hún svaraði: „Hvert er þetta þjófsgreyið kóngsins, er þú ferð nú með, áttir þú að segja." „Eg skal segja það á morgun, móðir mín", segir hann. Fer hann þángað morguninn eptir, og var þá verið að aka drottníngu kríngum borgina. Brjám gekk til þeirra. „Hvað leggur þú hèr til gott?" sögðu þeir. „Er þetta nokkuð þjófsgreyið kóngsins, er þið farið núna með, piltar mínir?" þeir atyrtu hann. Drottníng bannaði þeim það, og sagði, að þeir skyldu ekki leggja neitt til dreingsins. Hann hljóp heim til móður sinnar og sagði henni frá. Ekki áttir þú að segja svo, sonur minn", sagði hún. „Hvernig átti eg þá að segja?" sagði hann. „Er þetta nokkuð heiðurslífið kóngsins, sem þið núna farið með, áttir þú að segja." „Eg skal segja það á morgun, móðir mín", mælti hann. Fór hann þángað um morguninn, og sá tvo menn vera að birkja kapal; hann gekk til þeirra. „Hvað leggur þú hèr til gott, Brjám?" sögðu þeir. „Er þetta nokkuð heiðurslífið kóngsins, sem þið farið nú með, piltar mínir?" mælti hann. Þeir sveinðu honum. Hann hljóp heim til móður sinnar og sagði henni frá. Hún mælti: „Farðu ekki leingur þángað, því eg veit aldrei nær þeir drepa þig." „Ekki drepa þeir mig, móðir mín", sagði hann. Það bar svo við einhverju sinni, að kóngur bauð mönnum sínum að róa til fiskjar, og ætluðu þeir að róa á tveimur skipum. Brjám kom til þeirra, og bað þá flytja sig. Þeir hæddu hann, og skipuðu honum burt; þó spurðu þeir hann, hvernig hann ætlaði, að veður mundi verða í dag. Hann horfði ýmist upp í loptið eða niður á jörðina og mælti: „Vind og ei vindi, vind og ei vindi, vind og ei vindi"; en þeir hlóu að honum. Reru þeir svo á mið og hlóðu bæði skipin. En er þeir fóru í land, gjörði storm, og fórust bæði skipin. Bar nú ekkert til tíðinda, fyrr en kóngur hèlt veizlu öllum vinum sínum og vildarmönnum. Brjám bað móður sína, að lofa sèr heim, að vita, hvað fram færi í veizlunni. Þegar allir voru seztir, gekk Brjám út í smiðju og fór að smíða spýtur. Þeir, sem komu þar, spurðu, hvað hann ætlaði að gjöra við þær. Hann svaraði: „Hefna pápa, ekki hefna pápa." Þeir mæltu: „Þú ert ekki óþesslegur." Síðan fóru þeir burt. Hann stálsetti spýturnar allar í oddinn, læddist inn í stofuna, og negldi niður föt allra þeirra, sem við borðin sátu, og fór svo burt. En þegar þeir ætluðu að standa upp um kveldið, voru allir fastir, og kendu hver öðrum um, þángað til hver drap annan, svo einginn varð eptir. Þegar drottníng heyrði það, varð hún mjög hrygg, og lèt grafa hina dauðu. Brjám kom heim um morguninn og bauð sig til að verða þjónn drottníngar. Varð

hún því fegin, því hún átti ekki mörgum á að skipa. Fórst honum það vel, og svo kom, að hann átti kóngsdóttur, varð síðan kóngur og settist þar að ríkjum, og lagði af allan gapahátt. Lýkur svo sögu þessari.[1]

**„Kerlíng vill hafa nokkuð fyrir snúð sinn.“** (Eptir Sigurði málara Guðmundssyni.) Einu sinni var karl og kerlíng í koti sínu; þau voru svo snauð, að þau áttu ekkert fèmætt til í eigu sinni, nema snúð einn af gulli á snældu kerlíngar. Það var siður karls, að hann fór dag hvern á veiðar, eða til fiskifánga, til að afla þeim lífsbjargar. Skamt frá koti karls var hóll einn mikill; það var trú manna, að þar byggi huldumaður sá, er kallaður var Kiðhús, og þókti hann nokkur viðsjálsgripur.

Einu sinni, sem optar, bar svo við, að karl fór á veiðar, en kerlíng sat heima eins og hún var vön. Af því gott veður var um daginn, settist hún út með snældu sína, og spann á hana um hríð. Brá þá svo við, að gullsnúðurinn datt af snældunni, og valt nokkuð til, svo að kerlíng misti sjónar á honum. Hún undi þessu allilla, og leitaði dyrum og dýngjum; en alt kom fyrir ekki; hún fann hvergi snúðinn. Eptir það kom karl heim, og sagði hún honum ófall sitt. Karl kvað Kiðhús hafa tekið snúðinn, og væri það rètt eptir honum. Bjóst karl enn að heiman, og segir kerlíngu, að hann ætlaði að fara og krefja Kiðhús um snúðinn, eða eitthvað fyrir hann. Við það brá heldur af kellu. Karlinn geingur nú, sem leið lá, að hólnum Kiðhúss, og ber þar leingi á og óþyrmilega með lurk. Loksins svarar Kiðhús.

„Hver bukkar mín hús?“

Karl segir:

„Karl er þetta, Kiðhús minn,
kerlíng vill hafa nokkuð fyrir snúð sinn.“

Kiðhús spurði, hvað hann vildi hafa fyrir snúðinn. Karl bað hann um kú, sem mjólkaði fjórðúngsfötu í mál; og veitti Kiðhús honum þá bæn. Fór svo karl heim með kúna til kerlíngar. Daginn eptir, er hún hafði mjólkað kúna um kvöldið og morguninn, og hafði fylt alla dalla sína með mjólk, kom henni til hugar, að búa til graut, en þá man hún eptir því, að hún á ekkert ákast á grautinn. Fer hún þá til karls og biður finna Kiðhús, og biðja hann um ákast. Karl fer til Kiðhús, ber á hólinn með lurknum, sem fyrr. Þá segir Kiðhús:

„Hver bukkar mín hús?“

Karl segir:

„Karl er þetta, Kiðhús minn,
kerlíng vill hafa nokkuð fyrir snúð sinn.“

---

1. „Þessi skröksaga er uppskrífuð eptir Hildi Arngrímsdóttur í Hvammi Anno 1707“ stóð á handritinu með hendi Árna Magnússonar. Sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 287—290.

Kiðhús spyr hann, hvað hann vilji. Karl biður hann, að gefa sèr út á pottinn, því þau kerlíng sín ætli að elda sèr graut. Kiðhús gaf karli mèltunnu. Fór svo karl heim með tunnuna og gerir kerlíng grautinn. Þegar grauturinn var soðinn, settust þau að honum, karl og kerlíng, og átu, eins og í þeim lá. Þegar þau höfðu ètið sig mett, áttu þau enn mikið eptir í pottinum. Fóru þau þá að hugsa sig um, hvað þau ættu að gjöra við leifarnar; þókti þeim það tiltækilegast, að færa þær sánkti Máríu sinni. En fljótt sáu þau það, að ekki var auðhlaupið upp þángað, sem hún var. Þeim kom því ásamt um að biðja Kiðhús um stiga, sem næði upp til himna, og hèldu, að snúðurinn væri ekki ofborgaður fyrir því. Karl fer og ber á hólinn hjá Kiðhús. Kiðhús spyr, sem fyrr:

„Hver bukkar mín hús?"

Karl svarar enn:

„Karl er þetta, Kiðhús minn,
kerlíng vill hafa nokkuð fyrir snúð sinn."

Við það bistist Kiðhús og segir: „Er þá snúðskömmin aldrei borgaður?" Karl bað hann því meir, og kvaðst ætla að færa Máríu sinni grautarleifarnar í skjólum. Kiðhús lèt þá tilleiðast, gaf honum stigann, og reisti hann upp fyrir karl. Varð þá karl glaður við, og sneri heim til kerlíngar. Bjuggu þau sig svo til ferðar og höfðu með sèr grautarskjólurnar. En er þau voru komin æði hátt upp í stigann, tók þau að sundla. Brá þeim þá svo við, að þau duttu bæði ofan og spreingðu sundur í sèr höfuðskeljarnar. Flugu þá heilasletturnar og grautarkleimurnar um allan heim. En þar sem heilaslettur karls og kerlíngar komu á steina, urðu úr þeim hvítar dröfnur, en úr grautarkleimunum urðu hinar gulu, og sjást hvorartveggju enn í dag á grjóti.

**„Neyttu, á meðan á nefinu stendur."** (Eptir vanalegri sögn manna í Borgarfirði M. G.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu, og karl og kerlíng í koti sínu. Einu sinni keypti karlinn og kerlíngin sèr tunnu fulla af smjöri, sem þau ætluðu að hafa til vetrarins. En nú urðu þau í vandræðum með það, hvar þau ættu að geyma tunnuna, svo ekki yrði stolið úr henni. Loksins kom þeim saman um, að fá hana geymda í kóngsgarðinum. Gekk þeim vel að fá það, og tók kóngur hana til geymslu. Geingu þau sjálf frá tunnunni og bundu yfir. Leið nú fram undir haustið; fór þá kerlínguna að lánga í smjörið, og hugsar hún sèr undir eins upp ráð til þess. Einn góðan veðurdag er hún snemma á fótum; kemur hún þá inn og segir karli sínum, að það sè kallað á sig í kóngsríkinu til að halda þar barni undir skírn, og verði hún því að fara burtu þángað. Karl segir, að það sè svo sem sjálfsagt. Býr nú kerlíng sig í allramesta snatri og fer í kóngsríkið. Segir hún þar, að hún eigi að sækja smjörögn í tunnuna, og var því trúað, svo henni var hleypt þar inn, sem tunnan stóð.

Tók kerlíng nú gott borð af tunnunni. Síðan fór hún heim. Þá spyr karlinn, hvað barnið hefði heitið í kóngsríkinu. Kerlíng segir: „Borða heitir burðug mær.“ Þegar kerlíng var nú búin með það, sem hún hafði tekið, segir hún einu sinni við karlinn: „Kallað er í kóngsríkinu enn.“ Karl spurði á hvern og til hvers. „Á mig, til að halda barni undir skírn,“ segir hún. „Far þú þá,“ segir karl. Kerlíng fer, og segir sem fyrr, að hún eigi að sækja smjör í tunnuna. Tekur nú kerlíng ofan í miðja tunnu. En þegar hún kom heim, spurði karlinn, hvað barnið hèti. Kerlíng segir: „Miðja heitir mikil snót.“ Þegar kerlíng er búin með þetta smjör, segir hún karlinum: „Kallað er í kóngsríkinu enn, og er eg enn beðin að koma og halda þar barni undir skírn.“ „Far þú þá,“ segir karl. Kerlíng fer, og segist eiga að sækja smjör. Tók hún nú svo mikið, að hún sá í löggina. Þegar heim kom, spyr karl, hvað barnið heiti. Kerlíng segir: „Lögg heitir ljót mær.“ Nú leið og beið, þángað til kerlíng var enn orðin smjörlaus. Þá segir hún við karlinn: „Kallað er í kóngsríkinu enn.“ „Á hvern, og til hvers?“ spyr karl. „Á mig til að halda barni undir skírn,“ segir kerlíng. „Far þú þá,“ segir karlinn. Kerlíng fer, og segir sem fyrr í kóngsríkinu, að hún eigi að sækja smjör. Tekur hún þá alt, sem eptir var í tunnunni. Þegar hún kom heim, spurði karlinn, hvað barnið hèti. „Botni heitir burðugur sveinn,“ segir kerlíng.

Nú líður og bíður fram á útmánuði. Þá fór að verða hart í búi hjá karli og kerlíngu. Þá segir karlinn við kerlíngu sína, að nú sè bezt að sækja smjörtunnuna í kóngsríkið. Kerlíng fellst á það, og fara þau nú bæði, og segjast ætla að sækja tunnuna sína. Þeim var feingin tunnan, og sáu þau, að umbúðirnar voru óhaggaðar. Veltu þau nú tunnunni heim til sín og inn í kotið. Opnaði karlinn nú tunnuna, en þá var hún galtóm. Karli bregður heldur en ekki í brún, og spyr kerlíngu sína, hvernig á þessu muni standa. Hún lèzt nú ekki verða síður hissa á þessu en hann, og þóktist ekkert skilja í, hverjum brögðum þau væru beitt. En í sama bili sèr kerlíng stóra flugu, sem hafði flogið ofan í tunnuna. „Þarna kemur rækalls þjófurinn,“ segir hún, og sýnir karlinum fluguna. „Nei, skoðaðu, ótætis flugan sú arna, hún hefir sjálfsagt ètið alt smjörið okkar úr tunnunni,“ segir kerlíng. Karlinn sèr, að það muni satt vera. Sækir hann nú fiskasleggjuna sína, og ætlar að rota fluguna. Læsir hann þá kotinu svo flugan komizt ekki út. Ofsækir karlinn nú fluguna, og slær til hennar hart og tíðum, og brýtur alt og bramlar; því aldrei hæfði hann fluguna. Loksins varð karlinn uppgefinn, og settist niður í bræði. En þá kemur flugan og sèzt á nefið á honum. Karl biður þá kerlíngu að rota fluguna, og segir: „Neyttu, á meðan á nefinu stendur,“ og er það máltak síðan. Kerlíng reiðir upp sleggjuna af alefli, rekur hana á nefið á karlinum, og dauðrotar hann, en flugan slapp, og er órotuð enn. En kerlíngin stumrar enn yfir karlinum.

**Grámann.** (Eptir sögn eyfirzks manns. M. G.) Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu, og karl og kerlíng í koti sínu. Kóngur var auðugur mjög að gángandi fè, en ekki átti hann nema eina dóttur barna, og bjó hún sèr í veglegri skemmu með meyum sínum. Karlinn var fátækur; hann átti ekkert barn, en hafði viðurværi sitt og kerlu sinnar af einni kú, sem þau áttu. Einu sinni, sem optar fór karlinn til kirkju, og lagði presturinn út af gjafmildinni og fyrirheiti hennar. Þegar karlinn kom heim frá kirkjunni, spurði kerlíng, hvað hann segði sèr gott úr messunni. Karlinn lèt rífiega yfir því, og var hinn glaðasti, sagði, að í dag hefði verið gott að heyra til prestsins; því hann hefði sagt, að sá, sem gæfi, honum mundi gefast þúsundfalt aptur. Kerlíngu þókti þetta æði djúpt tekið í árinni, og hèlt að karl sinn hefði ekki tekið rètt eptir orðum prests. En karl var fastur á því, og körpuðu þau um það stundarkorn, en hvort hèlt þó sinni ætlan um þetta. Daginn eptir tekur karlinn sig til, fær sèr fjölda manna, og byggir sèr fjós fyrir eina þúsund kúa. Kerlíng amaðist mjög við heimsku þessari, sem hún kallaði svo, en fèkk eingu tauti við ráðið. Að fjósbyggíngunni endaðri fer nú karlinn að hugsa um hverjum hann eigi að gefa kúna sína. Vissi hann nú eingan nógu ríkan til þess að gefa sèr fyrir hana þúsund kýr, nema ef það væri kóngurinn sjálfur, en hann kom sèr ekki að því, að fara til hans. Hann rèð þá loksins af að fara til prestsins; því hann vissi af honum vel efnuðum, og hèlt að hann mundi og sízt láta orð sín til skammar verða. Fer nú karlinn, og teymir kúna sína til prestsins, hvernig sem kerlíngin setti sig á móti því. Finnur hann prest, og gefur honum kúna. Prestur undrast það, og spyr hverju þetta sæti. Karl segir honum allan aðdraganda og orsök gjafarinnar. Prestur brást þurlega við, og sneypir karlinn fyrir ránga eptirtekt og hártogun orða sinna, og rekur hann heimleiðis aptur með kúna. Fer karl þá, og teymir eptir sèr kúna, og þykir ferðin orðin ill. En á leiðinni gjörir á hann niðmyrkan norðanbyl með frosti, svo hann villist, og sèr nú ekki annað, en hann muni sjálfsagt missa kúna, og líklegast verða úti sjálfur. En í því hann er að hugsa um þessi bágindi sín, kemur að honum gángandi maður með stóran sekk á bakinu. Maðurinn spyr karlinn hvernig á því standi, að hann sè þar í slíku veðri með kú á ferð. Karl segir honum þá alt, hvernig á standi. Hinn segir, að hann megi vera viss um að missa kúna, og óvíst, að hann komist lífs af sjálfur. „Er þèr miklu betra, karl minn", segir hann, „að láta mig fá kúna fyrir sekkinn, sem eg ber; því þú getur vel komizt á fram leiðar þinnar með hann, en í honum er kjöt og bein." Og hvort sem þeir töluðu um þetta leingur eða skemur, þá höfðu þeir kaupin. Tók maðurinn kúna, og fór burt með hana, en karl vasaði á stað með sekkinn, og þókti hann fyrna þúngur. Komst nú karl heim, og sagði kerlíngu sinni, hvernig farið hefði um kúna, en lèt drýgilega yfir sekknum. Bistist

þá kerlíng, en karl bað hana hið skjótasta, að setja upp pott með vatni. Setti hún upp stærsta pottinn í kotinu, og fylti hann með vatni. Þegar vatnið sauð, fór karlinn að leysa frá sekknum, og var nú heldur en ekki hreifíngur í honum. En þegar hann var búinn að leysa frá sekknum, hljóp upp úr honum lifandi maður fulltíða í gráum fötum frá hvirfli til ilja, og sagði, að þau mundu verða að sjóða eitthvað annað en sig. Varð nú karlinn hissa, en kerlíngin bálvond, og sagði, að þarna væri hann kominn með flónskuna. „Fyrst hefir þú skilið okkur“, segir hún, „við þann eina bjargargrip, sem við áttum, svo nú erum við bjargarlaus með öllu, og þar á ofan bætt á okkur heilum manni til að fæða.“ Jöguðust þau karl og kerlíng nú góðan tíma út úr þessu, þángað til Grámann segir að ekki tjái þetta, hann skuli fara á stúfana, og vita, hvort hann geti ekki útvegað þeim og sèr eitthvað að èta; því skamma stund muni þau þrífast á nöldrinu. Stökk þá Grámann burt út í myrkrið, og kom bráðum aptur með gamlan og feitan sauð, og bað þau skera hann og matreiða. Voru þau fyrst treg til þess; því þau þóktust vita, að sauðurinn væri stolinn. En þó gjörðu þau það á endanum. Lifðu þau nú glatt í kotinu á meðan sauðurinn entist, og undir eins og hann var búinn, sókti Grámann annan, og svo hinn þriðja, fjórða og fimta. Þókti nú karli og kerlíngu mjög vænt um Grámann fyrir aðdrætti hans, og lifðu í allsnægtum á tómu sauðakjöti.

Nú víkur sögunni heim í kóngsgarð. Sauðamaður konúngs fór að taka eptir því, að honum voru smátt og smátt að hverfa sauðir úr hjörðinni. Hann kunni ekki lag á því, og segir nú kóngi frá, að sig vanti fimm sauði, sem hafi verið að smáhverfa, og hann skilji ekkert í, hvernig farizt hafi; þar hljóti að vera þjófar í nágrenninu. Fór þá kóngur að rannsaka, hvort nokkur maður væri nýfluttur inn í sveitina, og komst að því á endanum, að maður væri nýkominn til karls og kerlíngar í garðshorni, sem einginn vissi nein deili á. Gjörði hann þá boð eptir manninum, að finna sig upp í kóngsgarðinum. Grámann brá við og fór, en karl og kerlíng urðu dauðhrædd um, að nú mundu þau missa þenna bjargvætt sinn; því hann mundi nú verða heingdur fyrir þjófnað. Þegar Grámann kemur í kóngsgarð, spyr kóngur hann, hvort hann hafi stolið frá sèr fimm sauðum gömlum, sem sèr hafi horfið. Grámann segir: „Já, herra, það hefi eg gjört.“ Kóngur spurði þá, hvers vegna hann hefði gjört það. Þá segir Grámann: „Eg gjörði það af því, að karl og kerlíng í garðshorni eru vita bjargarlaus, og hafa ekkert til að èta, og eiga ekki neitt til af neinu, en þú, konúngur, hefir allsnægtir, og átt miklu meira til, en þú þarft á að halda, og kemur ekki mat þínum í lóg. Nú þókti mèr þetta miklu jafnara, að karl og kerlíng hefðu nokkuð af því, sem þú þurfti ekki á að halda, en að þau brysti, en þú hefðir ofnóg.“ Kóngur varð hálfhissa við orð Grámanns, og spyr, hvort það sè

hans eina, eða hans bezta list að stela. Grámann lætur lítið yfir því. Þá segir kóngur, að hann skuli gefa honum upp sökina, ef hann geti á morgun stolið uxa sínum fimm vetra, sem hann ætli að senda menn sína með út á skóginn. En geti hann það ekki, þá skuli hann verða heingdur. Grámann segir, að þetta sè ómögulegt; því hann muni láta passa uxann. Kóngur segir, að fyrir því verði hann sjálfur að sjá. Fer nú Grámann heim, og fagna þau honum vel, karlinn og kerlíngin. Grámann segir karlinum að taka til handa sèr reiptagl, því hann þurfi að halda á því í bítið á morgun. Karl gjörir það. Sofa þau nú öll um nóttina. Snemma um morguninn fer Grámann á fætur, tekur reiptaglið, og geingur í burtu. Geingur hann út á skóg, þar sem hann vissi, að leið kóngsmanna með uxann lá um. Snýr hann þar að eik einni stórri, skamt frá veginum, bregður reipinu um háls sèr, og heingir sig upp í eikina. Skömmu síðar koma kóngsmenn með uxann. Þeim verður litið við, og sjá hvar Grámann hángir í eikinni. Þá segja þeir, að við einhverja hafi Grámann gletzt fleiri, en kónginn; því þarna hafi þeir nú einhverir heingt hann, og muni þeir ekki þurfa að óttast piltinn, að hann taki af þeim uxann hèðan af. Veittu þeir svo þessu ekki meiri gaum, og hèldu á fram sína leið. Þegar kóngsmenn voru komnir í hvarf, fer Grámann niður úr eikinni, og hleypur eptir leynistig um skóginn fram fyrir kóngsmenn, og heingir sig þar aptur upp í eik eina spottakorn frá veginum. Þegar kóngsmenn koma þar, verður þeim litið á, hvar Grámann hángir í eikinni. Kynjar þá nú á þessu, og skilja ekki í, hverjum brögðum þeir sèu beittir. „Ætli þeir sèu þa tveir til, óræstis Grámennirnir þeir arna?“ segja þeir. „Það væri gaman að forvitnast um það, og skulum við snöggvast skreppa til baka, og sjá hvað hinum Grámanninum líður, og vita svo, hvort þetta er sá sami“, segja þeir. Binda þeir nú uxann við eik, og snúa aptur. En er leiti bar á milli, þaut Grámann niður úr eikinni, leysti uxann, og leiddi hann hið skjótasta heim til sín í garðshorn. Skipaði hann karli og kerlíngu að slátra uxanum í snatri, lèt flá belg af honum, og steypa tóm kerti úr tólginni. Var nú heldur en ekki glatt á hjalla í kotinu. Nú er að segja frá kóngsmönnum. Þegar þeir koma að eikinni, sem hinn fyrri Grámann hèkk í, var þar einginn Grámann; hlupu þeir þá að hinni eikinni, en gripu þar eins í tómt; því þar var einginn Grámann, og uxinn var horfinn frá eikinni, sem hann átti að vera við. Nú sáu kóngsmenn fyrst, hverjum brögðum þeir voru beittir, og fóru heim og sögðu kónginum frá, hvar komið var. Lætur þá kóngur undir eins boða Grámann á sinn fund, og verða þau karl og kerlíng dauðhrædd; því nú töldu þau víst, að Grámann sinn yrði miskunarlaust heingdur. En Grámann kærði sig hvergi, og fór þegar á kóngsfund. Þá segir kóngur: „Stalstu uxanum mínum, Grámann?“ „Já, herra“, segir hann, „eg mátti til, til að bjarga lífinu.“ Þa segir kóngur:

„Eg skal enn gefa þèr þessa sök upp, ef þú stelur í nótt rekkjóðunum úr rúminu undan okkur, mèr og drottníngunni minni!“ „Það getur einginn“, segir Grámann, „eða hvernig á eg að komast inn í kóngsgarðinn, og *fara að því?*“ „*Það máttu segja þèr sjálfur*“, segir kóngur, „en líf þitt liggur við.“ Skilja þeir nú, og fer Grámann heim í garðshorn; þykjast þau karl og kerlíng hafa heimt hann úr helju, og fagna honum vel. Hann tekur þá nokkrar merkur af mjöli, og biður kerlíngu sjóða graut, og hafa hann í þykkara lagi. Hún gjörir það, og þegar grauturinn var búinn, lætur Grámann hann í dálitla skjólu, og hefir lok yfir skjólunni, svo grauturinn kólni ekki mikið. Síðan labbar hann með skjóluna heim í kóngsgarðinn, og getur laumazt inn í hann um kvöldið, svo einginn varð var við, og felur sig síðan inni í einhverju skúmaskoti. Síðan var kóngsgarðinum rammlega lokað; því nú átti ekki að láta Grámann komast inn í hann. En þegar Grámann vissi, að allir voru sofnaðir inni í kóngsgarðinum, og kóngur og drottníng í fasta svefni, þá geingur hann inn að rúminu þeirra mjög hljóðlega, og lyptir ofan af þeim fötunum, ofan að miðju. Síðan lætur hann grautinn drjúpa með hægð úr skjólunni niður í rúmið milli kóngs og drottníngar, og hverfur svo frá rúminu út í horn á herberginu. Drottníng vaknar við, þegar grauturinn draup á hana. Henni verður bilt við, vekur kóng og segir: „Hvað er þetta? Þú hefir gjört í rúmið, elskan mín.“ Kóngur vildi ekki kannast við það, og kendi drottníngu um, og kíttu þau um það dálítið. Á endanum rèðu þau það af, að þau tóku rekkjuvoðirnar úr rúminu, og fleygðu þeim með öllu saman fram á gólf. Síðan sofnuðu þau aptur. Tekur þá Grámann rekkjuvoðirnar, vefur þær saman, stíngur undir handkrika sèr, og labbar með þær heim í kot til karls og kerlíngar. Fær hann þeim rekkjuvoðirnar, segir þeim, að hreinsa úr þeim grautarvelluna, og reyna svo að nota þær í bólið sitt. Morguninn eptir, þegar kóngur og drottníng vakna, sjá þau, að rekkjuvoðirnar eru horfnar. Skilur þá kóngur, hvernig á öllu muni standa, að Grámann muni hafa stolið þeim. Gjörir hann nú boð fyrir Grámann, og nú telja þau karl og kerlíng víst, að hann muni verða heingdur, og kveðja hann vandlega. Grámann geingur tafarlaust upp í garðinn, og kóngur spyr: „Stalstu rekkjóðunum úr rúminu í nótt undan okkur drottníngu minni?“ „Já, herra“, segir Grámann, „það gjörði eg; því eg mátti til að leysa líf mitt.“ Þá segir kóngur: „Eg skal gefa þèr upp allar þínar sakir við mig, ef þú stelur nú í nótt okkur báðum, mèr og drottníngunni minni, úr rúminu okkar. En ef þèr mistekst það, skaltu vægðarlaust verða heingdur“, segir hann. „Það getur einginn maður“, segir Grámann. „Sjá þú fyrir því“, segir kóngur. Skilja þeir nú, og fer Grámann heim í garðshorn. Fagna þau honum alúðlega, karl og kerlíng, og þykjast nú hafa heimt hann úr helju, hann Grámann sinn. Um kvöldið, þegar myrkt var orðið, tekur Grámann feykilega kollháan

hatt og barðamikinn, sem karlinn átti; stíngur á kollinn á honum gat við gat og raðar þar i nautstólgarkertunum, og svo um börðin öll alt í kríng. Síðan festir hann ótal kerti utan um sig, um allan kroppinn hátt og lágt. Í þessum búníngi, með hattinn á höfðinu, og uxabelginn í hendinni labbar hann nú heim í kóngsgarðinn, og inn í kirkju; þar leggur hann belginn af sèr í kórnum. Síðan kveykir hann á öllum kertunum á sèr, og geingur svo til klukknanna og hríngir. Vakna þau við klukknahljóðið, kóngur og drottníng, og líta út um gluggann til að sjá, hvað um væri að vera. Þau sjá þá ljómandi mannsmynd standa við kirkjudyrnar, og geislaði út af henni á alla vegu. Kóngur og drottníng urðu hissa við sjón þessa, og þóktust vita, að hèr væri kominn eingill af himnum til að boða einhver stórtíðindi á jörðu. Kom þeim ásamt að fagna slíkum gesti vel, biðja hann miskunar, og veita honum sæmilega lotníngu. Klæðast þau nú skjótt í kónglegan skrúða, og gánga út til eingilsins. Ávarpa þau hann knèkrjúpandi, og biðja sèr miskunar, og fyrirgefníngar á syndum sínum. En hann sagðist ekki veita þeim bæn þeirra annarstaðar, en fyrir altarinu í kirkjunni. Fylgja þau nú einglinum þángað, og þegar þar var komið, segist hann skuli fyrirgefa þeim allar þeirra syndir, en þó með vissu skilyrði. Þau spyrja, hvert það skilyrði sè. Hann segir það sè það, að þau fari bæði ofan í belginn, sem liggi þarna hjá þeim á kórgólfinu. Þeim þókti kosturinn góður, og skriðu undir eins bæði ofan í belginn. En óðar en þau voru komin það, greip eingillinn fyrir opið á belgnum, og batt rammlega fyrir. Kóngur spurði, hvernig á þessu stæði. Eingillinn segir þá, og hristir um leið af sèr öll ljósin: „Eg er einginn eingill, kóngur minn“, og um leið dregur hann belginn óþyrmilega fram eptir kirkjugólfinu, „heldur er eg kunníngi þinn, Grámann í garðshorni. Er eg nú búinn að stela þèr og drottníngu þinni, eins og þú skipaðir mèr í gærkvöldi, og ætla nú að fyrirgefa þèr syndirnar, með því að drepa ykkur bæði, nema þú veitir mèr undir eins eina bón, sem eg ætla að biðja þig um, og vinnir mèr eið að því, áður en eg hleypi þèr upp úr belgnum.“ Kóngur sá sèr nú ekki annað fært, en gjöra alt, sem Grámann vildi, og sór þegar, að hann skyldi veita honum hverja bæn, sem hann beiddi sig um. Leysti þá Grámann frá belgnum, og hleypti þeim út, kóngi og drottníngu. Segir þá Grámann kónginum, að hann ætli að biðja hann að gefa sèr dóttur sína og hálft kóngsríkið með, og leyfa sèr, að hafa karlinn og kerlínguna í garðshorni hjá sèr. Kóngur játti þessu, og bundu þeir það fastmælum. Síðan fer Grámann niður í garðshorn, og hittir karl og kerlíngu. Er hann nú drjúgur yfir sèr við þau, og biður þau að dubba sig dálítið upp, því þau eigi nú að flytja búferlum. Það datt ofan yfir karl og kerlíngu, að heyra þetta, og þó gekk enn meira yfir þau, þegar Grámann sagði þeim alt, sem til stóð. Um daginn fór Grámann með karl og kerlíngu upp í kóngsgarðinn, og

var honum þar vel tekið. Gekk hann þá að eiga kóngsdóttur, og tók við hálfu ríkinu. En til skemtunar í brúðarveizlu sinni, sagði Grámann frá því, að hann væri sonur nágrannakóngsins. Hefði hann orðið áskynja um ráðabrugg karlsins í garðshorni, og tekið sig saman við prestinn kóngsins, að láta orð hans, sem karlinn bygði alt á, rætast, og segist hann nú vona, að karlinn sè búinn að fá kúna sína þúsundfalt borgaða.

Lifði Grámann síðan leingi og vel með drottníngu sinni, og tók við ríkinu öllu eptir kóngsins daga, og stýrði því með snild og prýði til elli. En karl og kerlíng voru hjá honum til dauðadags í góðu yfirlæti. Og lýkur hèr sögu Grámanns.

# 9. FLOKKUR.

## KÝMNISÖGUR.

Víða má sjá þess vott í undanfarandi flokkum, að ekki skortir heldur fyndni í íslenzkum munnmælasögum, en annara landa, þar sem bæði kemur fram í þeim hið öflga lífsfjör og einart glaðlyndi, sem sèrhvert heilbrigt þjóðlíf er vant að hafa í sèr fólgið í fullum mæli. En þessari fyndni bregður þá að eins fyrir, þegar tekin eru fram einhver merkisatriði við einhverja sögu, eða hún liggur í blænum á frásögninni og orðatiltækjunum. Eitt af þessu er þula sú, sem opt er höfð fyrir niðurlag á æfintýrum hèr á landi, þegar sagan endar á brúðkaupi, eða sagt er frá velfarnan einhverra hjóna.[1] Í öðrum sögum kemur fyndnin glöggar fram, þar sem hún er einmitt undirrót sögunnar, eða samtvinnuð allri frásögninni; slíkar sögur þykir rètt að kalla kýmnisögur eða skrýtlur. Það er ekki ætíð auðvelt að segja, hverjar sögur heyri undir þenna flokk, þar sem alt er undir því komið, hvort sögurnar eru að meira hlut eða minna fyndilegar; en eins víst er hitt fyrir því, að umtalsefni kýmnisagnanna er eitthvert hið fjölbreyttasta.

**a)** Stundum eru kýmnisögur bundnar við einhverja staði og örnefni. Þannig er saga til um Hrútafjarðarháls. Sagt er, að einu sinni hafi 2 kerlíngar hitzt í Reykjavík, og komizt í hár saman; var önnur þeirra borin og barnfædd á suðurlandi, en hin á norðurlandi. Eptir mörg fáryrði og skammir, sem þeim fóru á milli, segir hin sunnlenzka: „Farðu til helvítis.“ En norðlenzka kerlíngin vildi ekki velja hinni betri samastað, en gat ekki beðið henni verri bölbæna, en að hún segir: „Farðu yfir Hrútafjarðarháls.“[2] Sama hugsunin kemur enn opt fram í mæltu máli, þegar menn skilja í styttíngi og gefa þeim, sem burtu fer, vegabrèf með þessum ummælum: „Farðu til fjandans og þaðan í verri stað;“ og enn eru slíkar bænir hafðar með ýmsu öðru móti, t. d.: „Farðu norður og niður,“ eða:

„Far vel, Frans;
og kom aldrei til Íslands.“

Eða enn þannig:

„Farðu í rass og róu,
ríddu grárri tóu,
hafðu köttinn fyrir keyri,
komdu aldrei að Eyri.“

---

1. Sbr. Eptirmálann og athugasemdirnar við söguna af Fertram og Ísól björtu.
2. Dr. Maurers Isl. Volkss. 292—293. bls.

**Farðu norður og niður.** (Eptir Pètur Eggerz á Borðeyri.) Til þess er sú saga, að einhverju sinni sem optar, reri maður fyrir norðan, en þegar hann ætlaði í land, kom vindur á móti honum sunnan, og rak hann undan landi, æ lengra og lengra, svo hann hèlt að sig mundi reka út í hafsauga; og fór honum ekki að verða um sel, því einlagt dimdi og dimdi sem hann rak lengra, og loksins sá varla út úr augunum fyrir þoku og sorta. Loksins bar hann að landi, festi bátinn og gekk á land, en þegar hann greip höndum í fjöruna, því ekkert sá hann, þá var mölin tóm aska og kol. Nú fór honum ekki að lítast á. Hèlt þó á fram, í norður, og var snarbratt ofan í móti, og niðamyrkur. Svona gekk hann langa lengi, blindandi, þangað til hann grillti í eitthvað rautt, hann gekk á skímuna, og kom loksins að miklu báli, sem ekki sá út yfir. En það undraði hann, að í bálinu úði og grúði af einhverju lifandi eins og mor eður mý. En fyrir framan bálið stóð hræðilegur jötunn með óttalegan járngogg í hendinni, skaraði í bálið, og sópaði til, að ekkert kvikt kæmist út. Þó skrapp ein flugan út, og þangað sem maðurinn var. Hann spyr hana að heiti, og hvað þetta sè, en hún segir, að bálið sem hann sjái, sè helvíti; en jötuninn sè andskotinn sjálfur, en það sem mori í eldinum, sè sálir fordæmdra, og segist hún vera ein af þeim, og hrósar happi að hún slapp. En óðar en hún hafði talað, saknaði jötuninn eins, — því djöfullinn hirðir sína —, sá hvar sálin var, hremdi hana með gogginum, og þeytti henni langar leiðir inn í mitt bálið. Þá varð maðurinn hræddur, og hljóp aptur, svo sem fætur toguðu, og átti hann þó lángt, því snarbratt var upp á móti, og birti nú smátt og smátt. Fór hann nú aptur alla sömu leið. Því er það sagt, þegar menn óska ílls, að sá og sá, eða það og það skuli fara norður og niður, að menn þykjast vita af þessari ferðasögu að þar sè víti. Þessari sögu til styrkíngar telja menn enn versið í Passíusálmum: „Andskotinn bíður búinn þar, í bálið vill draga sálirnar.“

**b)** Miklu fleiri eru þó aðrar sögur sömu tegundar, en yfirgripsmeiri og almennari. Margar þeirra snerta klerka og kirkjur og þá hluti, sem þar eru um hönd hafðir, og eru þær þeim mun hlægilegri, sem fyndni á ver við alt, sem heilagt er og háleitt. Það mun fremur vera málsháttur en fyndni, þegar sagt er: „Það er ekki (lítill) matur í messunni;“ en við þenna málshátt eiga þau munnmæli skylt, að aldrei sèu menn jáfn-sársvángir, sem úr kirkju. Sumar þessar sögur segja frá úrræðum þeim, sem prestar hafa átt að grípa til, þegar þeim fataðist eitthvað við messugjörð, en sumar frá hraparlegum misskilníngi á guðsorði.

**„Hafi þær það þá báðar.“** Einu sinni var prestur á Stóruvöllum á Landi. Hann átti að leiða tvær konur í kirkju einn sunnudag, sína frá hvorum bæ, Vatnagarði og Stampi; þeir bæir eru skamt hvor frá öðrum, og hinn

síðarnefndi er hjáleiga frá Galtalæk. Presturinn var vanur að prèdika blaðalaust, og lagði alt á minnið. Þegar ræðunni var lokið og hann ætlar að fara að leiða konurnar í kirkju, gleymir hann því fyrst, að þær voru tvær, og þar næst ruglast hann í fyrnefndum bæanöfnum, en byrjar þó og segir: „Konan frá Vatna-Galta-Stampi, hún N. N. mín, sem við allir þekkjum, er í dag inngeingin“ o. s. frv., og heldur svo á fram með kirkju-innleiðsluna. Þegar meðhjálparinn heyrir, að presturinn muni ekki ætla að minnast hinnar konunnar, geingur hann fram að prèdikunarstólnum og kallar upp: „Konurnar voru tvær.“ Þá gegnir prestur og segir: „Nú, hafi þær það þá báðar.“

**„Beiskur ertu nú, drottinn minn.“** Einu sinni varð kerlíng til altaris. Presturinn hafði ekki góðan augastað á kerlíngu, og er sagt hann gjörði það af hrekk, en sumir segja hann gjörði það af ógáti, að hann gaf kerlíngu brennivín í kaleiknum. En kerlíng lèt sèr ekki bilt við verða, og sagði það sem síðan er að orðtaki haft: „Og beiskur ertú nú, drottinn minn.“ Kerlíngin hèlt það væri fyrir sinna synda sakir, að messuvínið væri svo beiskt.

**„Hvað hèt hún móðir hans Jesús?“** Einu sinni vóru tvær kerlíngar á bæ, og hófst önnur þeirra upp úr eins manns hljóði um jólaleitið eptir lestur, og sagði við hina kerlínguna: „Hvað hèt hún móðir hans Jesús?“ „Og hún hèt Máríá,“ sagði hin. „Og ekki hèt hún Máríá.“ „Og hvað hèt hún þá?“ sagði hin „Og veiztu ekki hvað hún móðir hans Jesús hèt; hún hèt Finna.“ „Finna?“ sagði hin. „Víst hèt hún Finna, heyrðirðú ekki hvað súngið var í sálminum:

Í því húsi úngan svein
og hans móðir finna;

hèt hún þá ekki Finna?“ Kerlíngin lèt aldrei af sínu máli, að hún hefði heitið Finna, og sèu þær ekki dauðar, eru þær að deila um þetta enn í dag.

**„Ekki er gaman að guðspjöllunum.“** „Ekki er gaman að guðspjöllunum, enginn er í þeim bardaginn“, sagði kerlíngin. „Og verri eru þó helvízkir pistlarnir“ gall við önnur kerlíng. Þaðan er það orðtak dregið að ekki sè gaman að guðspjöllunum, þegar manni ofbýður eitthvað, að kerlíngunni þótti ekkert til þeirra koma hjá tröllasögum og lygasögum, sem hún var vanari að heyra og þótti meiri mergur í.

**„Mjólkin, flotið og áin Fjórtán.“** Einu sinni áttu karlar þrír tal með sèr um ýmsa hluti; þar kom og, að þeir fóru að tala um, hvaða matur þeim fèlli vel. Segir þá einn þeirra: „Góð er mjólkin, guð var í

henni skírður.“ „Ósatt er það,“ segir annar, „í flotinu var hann skírður, blessaður.“ „Ekki er það heldur sannara,“ sagði hinn þriðji. „hann var skírður í ánni Fjórtán.“

**„Sálin má ei fyrir utan Kross.“** Einu sinni var niðursetukerlíng á Skarðsströnd innanverðri, en á miðri Ströndinni heitir bær á Krossi; en tveim bæjarleiðum utar er Ballará. Nú kom, sem lög gera ráð fyrir, að hreppaskilum um haustið, og þá er sveitarómögum skipt niður á bæi, og hlauzt svo til, að setja átti kerlínguna niður á Ballará. En þegar kerlíng heyrði þetta, varð hún hamslaus, svo engu varð við hana tætt, og sagðist aldrei skyldi þangað fara ódregin og lifandi. Var þá gengið á kerlíngu, hvað að henni gengi, og því hana hryllti svo við að fara á þenna bæ, grandlaus og meinlaus kerlíngarkind, sem aldrei hafði látið í sèr krimta hvernig sem með hana var farið. Þá kom upp úr kafinu hjá kerlíngu, að hún hafði einhvern tíma heyrt súngið í Hallgríms sálmum:

„Sálin má ei fyrir utan kross
öðlast á himnum dýrðar hnoss.“

Þetta skildi kerlíng svo að hljóðaði upp á Skarðsströnd og yrði eínginn sæll sem þar byggi fyrir utan Kross, en fyrir innan Kross þóttist hún óhult um sálu sína.

**Fuglinn Sút.** Það var einhvern tíma, að kerlíng var að biðja fyrir sèr, og beiddi meðal annars drottinn að varðveita sig fyrir illum öndum og fyrir fuglinum Sút. Þegar gengið var á kerlíngu, sagði hún, að hún væri ekki eins hrædd við neina skepnu sem við fuglinn Sút, sem flygi í gegnum hjartað á manni, og dræpi hvern mann. Kom þá upp að kerlíngin hafði heyrt súngið í Hallgríms sálmum: „Sút flaug í brjóstið inn“ þar sem talað er um iðran Pèturs, og hèlt kerlíngin að þetta væri fugl. Er því þar um kveðið, að ekki sè skaðsamara dýr á jörðu en fuglinn Sút:

„Í brjóst flýgur voða vestur
vís til að drepa mann.“

**„Aldrei skal eg stela.“** Einu sinni var þjófgefin kerlíng á kirkjustað; hún lèk það að list og vana, að stela ull úr kistu úti á kirkjulopti. Einu sinni, er hún fór út í þeim vændum, var henni veitt eptirför, og heyrðu menn þá, að hún sagði, þegar hún gekk inn í kirkjugarðinn:

„Jesús gekk inn í grasgarð þann.“[1]

Þegar hún kom að kirkjudyrunum, sagði hún:

„Að luktum dyrum kom lausnarinn.“[2]

---

1. 1. vers í 2. Passíusálmi.
2. Sbr. Upprisusaltara. Hólum 1780. 23. sálm. 1. v.

þegar hún kom inn á kirkjugólfið, sagði hún:

„Inngáng bæði og útgáng minn.“[1]

þegar hún fer uppi kirkjuloptsstigann, sagði hún;

„Upp á fjallið Jesús vendi.“[2]

þegar hún var komin upp á loptið, og lauk upp kistunni, sagði hún:

„Opnaði sjóðinn sinn.“[3]

þegar hún var búin að ljúka upp kistunni, segja sumir, að hún hafi signt sig og sagt: „Aldrei skal eg stela.“[4] En þegar hún var búin að taka viskarkorn úr kistunni, heyrði hún tóu gagga. þá segir kerla: „Og eina viskuna, segir hann enn, blessaður.“ þegar hún var komin ofan af loptinu aptur, segir hún:

„Ofan af himnum hèr kom eg.“[5]

Síðan fer kerlíng út og segir um leið:

„Út geing eg ætíð síðan.“[6]

**„Frá Jerúsalem þeir senda.“** Einu sinni var kerlíng að sópa sorp úr bæ og fyrir dyrum á jólaföstu. En svo vildi til, áður en hún var búin að sópa, að farið var að lesa. þetta var á helgum degi, og var byrjaður þessi sálmur í grallaranum: Sá vitnisburðurinn valdi. Kerlíng heyrði saunginn og tók undir, en hèlt þó á fram verki sínu; flýtti hún sèr þá, og tók upp sorpið á herðarblaði, þeytti því fram af haugnum, og saung um leið:

„Frá Jerúsalem þeir senda.“

Í annað sinn þeytti hún af öðru, og saung þá:

„Syni Levi vel kenda.“

Og í því hún kastaði af því þriðja, saung hún:

„Með höfuðprestanna her.“[7]

**„Sturlinn stærsti.“** Einu sinni mætti maður kerlíngu á gángi, og hafði hún sturla sinn á höfðinu. Hann átelur hana fyrir það, að hún skuli aðhafast þá ósvinnu, að vera á almanna færi með ófètis koppinn fyrir höfuðfat. Kerlíng sagði: „Ætli mèr þyki skömm að því, að bera

---

1. 4. vers í 255. sálmi í Messusaungsbókinni.
2. Vísnabók, Hólum 1748, 59. bls.
3. 15. vers í 17. Passíusálmi.
4. Aðrir segja, að önnur kerlíng hafi sagt það, er óð yfir á með þjófstolið fè, en hèt þessu fyrir sèr, er hún hèlt hún mundi drukkna. En þegar hún komst að landi, hafi hún átt að bæta þessu við: „Vænt' eg, vænt' eg.“
5. Grallarinn. XV. Edition Hólum, 1749, 189. bls.
6. 10. vers í 25. Passíusálmi.
7. þetta eru 3 síðustu hendíngarnar af 1. versi í sálminum: Sá vitnisburður hinn valdi, sbr. Grallarann, 21. bls.

koppinn minn? Þar sem postulunum þókti eingin óvirðíng að því, eða manstu ekki 4. versið í 11. Passíusálminum:

Pètur með sturlan stærsta?“

**Guð straffar þagmælskuna.** Einu sinni var ógnarlega kjöptugur karl, sem alt af var eitthvað að mærða. Veðjuðu piltar nokkrir við hann eitt sinn um það, að hann gæti ekki þagað heilan dag, og hètu honum spesíu, ef hann gæti það. Karli gekk öllum vonum betur að þegja, svo hinir fóru að verða hræddir um, að hann mundi vinna, og leituðu því ýmsra bragða, til að koma honum til að tala. Seinast fóru þeir að segja hvor öðrum sögur um það, að þeir, sem leingi þegðu, mistu stundum málið. Þá rauf karlinn þögnina, og sagði: „Ekki þori eg að þegja leingur; eg veit ekki, nema guð minn góður straffi mig þá, og taki af mèr málið.“ Varð hann svo af veðfènu, en hèlt málinu.

**„Opt er ljótur draumur fyrir litlu efni.“** Einu sinni vaknaði kerlíng í rúmi sínu fyrir ofan karlinn sinn með gráti miklum. Karl leitaðist við að hugga hana, og spurði hana, hvað að henni geingi. Kerlíng sagði sig hefði dreymt ógnarlega ljótan draum. „Hvað dreymdi þig, skepnan mín?“ segir karlinn. „Minnstu ekki á það,“ sagði kerlíng, og fór að snökta; „mig dreymdi, að guð ætlaði að taka mig til sín.“ Þá segir karl: „Settu það ekki fyrir þig, kelli mín; opt er ljótur draumur fyrir litlu efni.“

**Drykkjurúturinn í helvíti.** Einu sinni voru tveir menn að smíða stórsmíði í smiðju. Að áliðnum degi kom drykkjumaður nokkur á sama bæinn; hann var svo illa til reika, að hann valt sofandi af hestbaki og ofan í hlaðbleytuna. Tóku smiðirnir hann þá, báru hann inn í smiðju, og lögðu hann þar á viðarkolabýng; svaf hann þar, til þess dimt var orðið. En um það bil, sem smiðirnir hættu að smíða, en höfðu þó ekki slökt eldinn, fór drykkjurúturinn að rumskast; fóru þeir þá út í horn og lètu ekkert til sín heyra. Drykkjurúturinn þreifar þá alt í kríng um sig, finnur kolin undir sèr og sèr í eldsglæðurnar hálfslokknar; hugðist hann þá vera dauður og vaknaður upp í helvíti; hann reis upp við olboga og hlustaði um stund. En þegar hann heyrði ekkert, leiddist honum og kallaði hátt: „Getur nú einginn af öllum þeim djöflum, sem hèr eru samankomnir, gefið mèr í staupinu?“ Við það gáfu smiðirnir sig fram, og endar svo sagan.

**„Allan skrattann vígja þeir.“** Það er í munnmæli, að þegar sèra Hallgrímur Pètursson kom frá vígslu, kom hann seint um kveld á bæ, guðaði á glugga, en inni fyrir var kerlíng, sem spurði tíðinda. Þá svarar gesturinn: „Og ekki nema það, að þeir eru nýbúnir að vígja hann Hallgrím.“ „Og allan skrattann vígja þeir“, svaraði kerlíng. En Hallgrímur hafði gaman af svarinu; og er það síðan haft fyrir máltæki.

**„Þú nýtur þess, guð, eg næ ekki til þín.“** Karl og kerlíng bjuggu á einum bæ. Eitt sinn um sumar áttu þau undir mikið hey hálfþurt eða meir, en rigníngarlega leit út, og fóru þau til með fólki sínu að taka saman, áður en skúr kæmi ofan í flatt heyið. Þó hver keptist við, sem betur gat, að ná saman heyinu, dugði það ekki, svo að rigníngunni dembdi yfir, þegar nokkrir flekkir voru eptir, svo hætt var við að taka saman. Kerlíng reiddist þá bæði rigníngunni og þeim, sem rignínguna gefur, tók um hrífuhausinn eða neðarlega um hrífuskaptið, otar hrífuhalanum, svo lángt sem hún nær til, upp í loptið og segir: „Þú nýtur þess, guð, eg næ ekki til þín.“ Karlinn hafði reyndar eingin stóryrði í það sinn, en þó fannst það á daginn eptir, að honum hafði þókt fyrir við rignínguna. Daginn eptir var sumsè glaðasólskin, og þegar hann kom heim um morguninn, að borða litlaskattinn, skein sólin beint framan í hann í baðstofunni. Karl gerir sèr þá lítið fyrir, fer úr brókinni, stíngur henni upp í gluggann og segir: „Þú skeinst ekki svona glatt á heytugguna mína í gær.“

c) Þá hafa tíðum farið skoplegar sögur af kvonbónaferðum, þar sem annaðhvort biðillinn eða brúðarefnið haga sèr svo heimskulega eða hjárænulega, að þau verða fyrir það sama af ráðahagnum. Hèr eru þess fáein dæmi.

**„Þegiðu, hún móðir mín gaf mèr hann.“** Einu sinni var öldruð kona; hún átti son einn, sem var mathákur mikill. Þegar hann var vel upp kominn, og orðinn fulltíða maður, fór kerlíngin að fara þess á leit við hann, að hann skyldi staðfesta ráð sitt. Sonur hennar tók því ekki fjarri, og spurði, hvar hún hygði sèr helzt reynandi, að biðja sèr konu. Hún vísaði honum þar á, sem henni þókti líklegast, en segir við hann, að hann skuli nú bera sig að sitja á sèr, að borða mikið, því hún ætlaði honum að vera hjá brúðarefninu um nóttina; en til vonar og vara fær hún honum hálfan ost til að gripa í í muddum, þegar einginn sæi, ef hann þæktist ekki hafa borðað nóg. Nú fer maðurinn á bæinn, sem móðir hans hafði til tekið, ber upp bónorð sitt, og er honum heitið stúlkunni. Síðan er hann þar um nóttina, og er hann látinn sofa einn í herbergi. Um nóttina rís hann upp, og hleypur í ostinn,, því hann hafði borðað lítið um kvöldið, og var því orðinn glorhúngraður. Síðan legst hann út af aptur, en stíngur því, sem hann átti eptir af ostinum, undir koddabrúnina sína. Þegar hann vaknar um morguninn, verður hann þess var, að kafaldsbylur er úti; hugsar hann þá með sèr, að hann skuli borða við ókomnu húngri, því þarna muni hann mega hýrast í dag. Fer hann þá til og nagar ostinn slíkt sem af tekur. En á meðan hann er að því, kemur heitmey hans inn til hans og býður honum góðan daginn. Hún hafði verið snemma á fótum um morguninn við úti-gegníngar, og segir

því við hann: „Hart bítur hann núna, hann Hvítur.“[1] Maðurinn hèlt, að hún hefði sèð ostinn, er hann stakk niður undir hjá sèr, þegar hún kom inn, og hefði verið að skensa sig fyrir það, og segir því: „Þegiðu, hún móðir mín gaf mèr hann“,[2] og sýnir henni ostbitann um leið, sem eptir var, svo hún skyldi ekki halda, að hann væri að fela hann, eins og hann væri sèr ófrjáls. En stúlkan fyrtist svo við þessar aðfarir hans allar, að hún bað hann að hugsa ekki til ráðahags við sig.

**„Ekki bregður mær vana sínum.“** Einu sinni voru hjón, sem áttu sèr eina dóttur barna. Hún var ekki eins ómyndarleg í sjón, eins og hún var í flestu því, sem hún átti að sèr að hafa. Þegar hún var orðin gjafvaxta, fór þó það að kvisast, að manni í sömu sveitinni litist á hana, svo að það var í mæli, að hann mundi þá og þegar koma og biðja hennar, enda voru foreldrar hennar efnaðir. Einn dag kemur og maður þessi þángað, og lætur húsfreya dóttur sína fara til dyra að taka á móti gestinum og bjóða honum til stofu. En frá því sást til mannsins og þángað til hann var kominn heim á hlað, sátu þær mæðgur við að næla nálum með alla vega litum endum í húfu heimasætunnar, svo það liti svo út sem hún sæti bíspert við ísaum. Nú hagaði svo til, að örskamt var að gánga frá baðstofu, þar sem þau karl og kerlíng sátu, til dyra, svo þegar stúlkan var komin fram í dyrnar, rètt að manninum, segir móðir hennar, svo maðurinn heyrði fram í dyr, inni við bónda sinn, er var orðin afhuga um, að dóttir sín yrði að manni, því síður að hún giptist nokkurn tíma: „Ekki bregður mær vana sínum“, því hún átti við ísaum dóttur sinnar, og bandendana í húfu hennar; en bóndi svarar jafn-hátt: „Á, mýgur hún undir enn?“ Þegar komumaður heyrði það, sem hjónin höfðu sagt, leizt honum ekki á blikuna, og fór burt, án þess að bera upp bónorðið.

**„Rata skærin götu sína.“** Einu sinni voru hjónaefni, sitt á hvorum bæ; var brúðarefnið heimasæta hjá foreldrum sínum, en brúðgumaefnið á öðrum bæ. Hann fór svo einu sinni að hitta unnustu sína, og færði henni grænt klæði í samfellu, sem hún átti að hafa á brúðarbekknum. Þegar maðurinn kom, var komið undir rökkur, og var svo setið góða stund í rökkrinu; maðurinn sat í sama húsi og unnusta hans og foreldrar hennar, og verður hann þess var, að hún tekur klæðið og fer að klippa það sundur, og lætur sem hún sè að sníða. Segir þá maðurinn við hana: „Sèrðu að tarna, heillin mín, í dimmunni?“ Hún svarar, og lèt skærin gánga sem áður: „Rata skærin götu sína.“ En þegar komið var með

1. Aðrir hafa: „Sárt bítur sá hvíti.“ Hún átti við kafaldsbylinn og harðviðrið úti.
2. Aðrir hafa: „Þig varðar ekki um það, bölvaður gikkurinn; móðir mín gaf mèr hann, er eg fór út.“ Sjá Dr. Maurers Isl. Volkss. 295—296. bls.

ljósið, var eingin pjatlan svo stór eptir af klæðinu, að hún yrði notuð í íleppa. Tók þá maðurinn hatt sinn og kvaddi, og sagði, að hún skyldi ekki ónýta fleiri fataefnin fyrir sèr.

**„Skyldu bátar mínir róa í dag?“** (Eptir Pètur Eggerz á Borðeyri.) Argasta kot í Helgafellssveit heitir í Botni, þar sèr hvorki sól nè sumar. Þar var einhverju sinni maður, allra sveita kvikindi, og hèt Árni og var kallaður Árni í Botni. Einhverju sinni bjó hann sig út með nesti og nýja skó, lagði á drógar sínar og hèlt suður á land, svo langt að einginn þekti Árna í Botni. Hann kom loksins að stóru og reisulegu prestsetri og var þar um nótt. Prestrinn átti únga og fríða dóttur. En þegar Árni vaknaði, og skygndist til veðurs, sagði hann við sjálfan sig: „Og skyldu þá bátar mínir róa í dag?“ Þetta sagði hann, eður annað því líkt, þrjá morgna í rennu. Presturinn og dóttir hans tóku eptir þessu, og grunaði að hèr mundi kominn stórhöfðíngi af Vesturlandi. Það er ekki að orðlengja, að Arni bað prestsdóttur, og fèkk, og voru nú settir undir þau gæðíngar, og þau hèldu vestur um land. En við hvern stórbæ, sem fyrir þeim varð á leiðinni, sagði hún við bónda sinn: „Og er þetta bærinn þinn, elskan“? „Og ekki enn“, sagði hann. Ríða þau nú lengi, lengi, þángað til eitt kveld í niðamyrkri að þau koma að koti einu, alt grafið í jörð niður. Hèr fer Árni af baki og tekur af baki konu sína. „Er það bærinn þinn að tarna, elskan?“ segir hún. „Já“ segir Árni. Nú ber Árni að dyrum, og kemur kerlíngarskrukka, móðir Árna, til dyranna, og spyr hver komin sè, og segir Árni til sín, og kallar inn, því ekki sá handaskil í niðamyrkrinu: „Kveyktu á gullstjakanum.“ „Og ekki get eg það“ sagði kerlíng. „Kveyktú þá á silfurhjálminum“ sagði Árni. „Og ekki get eg það“, sagði kerlíng. „Og kveyktu þá á helvízkri kolskörunni“, sagði hann. „Og það skal eg gera“ sagði kerlíng, og hljóp til og kveykti. Um sambúð þeirra Árna og prestsdóttur er ekki getið. Um Árna í Botni er þetta kveðið:

„Árni í Botni allur rotni,<br>
ekki er dygðin fín;<br>
þjófabæli, það er hans hæli<br>
þar sem aldrei sólin skín.“

**d)** Enn er sægur til af sögnum um ýmsan fíflaskap heimskíngja, bæði orðalag og athæfi. Lýsa sumar þeirra sannkölluðum flónum, en sumar sýnast sprottnar af misskilníngi, rángri eptirtekt, eða mismælum, og enn öðrum álfaraskap, sem kemur því ver við, sem hann virðist koma fram af hjartans einfeldni. Fernar flónssagnir eru til á Íslandi, sem gánga næst Molbyggjasögum[1] í Danmörku, en Dr. Maurer telur ekki

1. Herra Pètur Guðjónsson hefir snúið þeim á íslenzku og látið prenta í Stafrofskveri sínu. Reykjavík, 1844. 31—38. bls,

færri en 6 slíka söguflokka á þýzkalandi.[1] þessar sagnir eru um Bakkabræður fyrir norðan, Flóafífl fyrir sunnan, Öxneyínga fyrir vestan en Hornfirðínga fyrir austan. Sumar þessar sagnir eru svo líkar, að ekki er allstaðar auðið að greina hvorar frá öðrum, og lítur opt svo út, sem sagnirnar væru þýddar af einu málinu á annað, ef menn vissu ekki, að sumar munnmælasögur eru mörgum þjóðum sameiginlegar.

**Bakkabræður.** Á bæ þeim, sem á Bakka heitir í Svarfaðardal,[2] bjó bóndi einn fyrir laungu. Hann átti 3 sonu: Gísla, Eirík og Helga; voru þeir orðlagðir fyrir heimsku, og heimskupör þeirra mjög í frásögur færð, þó fæst þeirra verði hèr talin. — Einu sinni, þegar þeir bræður voru vel á legg komnir, reru þeir á sjó með föður sínum til fiskidráttar. Varð þá karli svo snögglega ílt, að hann lagðist fyrir. þeir höfðu haft með sèr blöndukút á sjóinn, og kallaði karl til sona sinna, þegar stund var liðin, og bað þá um kútinn. þá segir einn þeirra: „Gísli-Eiríkur-Helgi“ (því svo voru þeir allajafna vanir að segja, þegar einhver þeirra talaði til annars, af því þeir vissu að eins, að þessi voru nöfn þeirra allra), „faðir vor kallar kútinn.“ þá segir annar: „Gísli-Eiríkur-Helgi, faðir vor kallar kútinn“; alt eins sagði hinn þriðji, og á þessu voru þeir að stagast, þángað til karlinn var dauður; því einginn þeirra skildi, hvað karlinn vildi kútnum. Síðan er það haft fyrir máltæki, að sá „kalli kútinn“, sem er að deya. Eptir þetta hèldu þeir bræður til lands, bjuggu um lík karls, og bundu það upp á brúna meri, sem hann átti, ráku hana síðan á stað, og lètu hana ráða, hvert hún færi; því þeir sögðu hún gamla Brúnka mundi rata. Seinna fundu þeir Brúnku berbakaða og bandlausa í högum sínum, og vissu þá, að hún hafði ratað, en ekki skygndust þeir neitt eptir því, hvað hún hefði gert af karlinum. þeir bræður bjuggu eptir föður sinn á Bakka, og voru kendir við bæinn, og kallaðir ýmist Bakkabræður eða Bakkaflón. þeir erfðu Brúnku eptir karlinn, og lètu sèr mjög ant um hana. Einu sinni kom hvassviðri mikið, og urðu þeir þá hræddir um, að Brúnka mundi fjúka, báru því á hana, og hlóðu upp með henni svo miklu grjóti, sem á henni toldi; eptir það fauk hún hvorki nè stóð upp framar. — Meðan þeir Bakkabræður áttu

---

1. Hann nefnir þá Lallenburger Streiche, Krähwinkliaden, Hirschauer, Schildburger, Schöppenstädter eða Weilheimer Stücklein.

2. Mun eiga að vera Bakki í Fljótum, sem ráða má af Ármanni á Alþíngi. Baldvin Einarsson, sem sjálfur var úr Fljótum, segir þar um Sighvat sveitúnga sinn: „Einginn getur sagt það um hann Sighvat, að hann sè heimskíngi, og þó er sagt að hann sè ættaður úr Fljótum í Skagafirði, sem ætíð hefir verið í munnmælum jafnað saman við Flóa, að aulahætti, eins og stefið sannar:

Tvær eru sveitir, Flói og Fljót.
sem flestir saman jafna o. s. fr.“

Brúnku sína, voru þeir allir einu sinni á ferð í túnglsljósi um vetur á ísum, og reið einn þeirra merinni, en hinir geingu með hesti hans. Þeir tóku eptir því, að maður reið alt af á hlið til við reiðmanninn, en það þókti þeim þó undarlegast, að honum fór ekki orð frá munni, nema þeim heyrðist hann segja við hvert fótmál, sem merin tók: „Kári, Kári.“ Þetta þókti þeim því kynlegra, sem þeir vissu, að einginn þeirra hèt því nafni. Hugsaði þá reiðmaðurinn með sèr, að ríða þenna pilt af sèr. En því harðara sem hann reið, því tíðar heyrðist honum sagt: „Kári, Kári“, og hinir bræðurnir sáu, að fylgdarmaðurinn reið alt af á hlið við bróður sinn, hvort hann fór hægt eða hart. Loksins komust þeir heim og sáu, að þegar sá þeirra fór af baki, sem reið, fór fylgdarmaður hans eins af baki, og lèt inn hestinn sinn um leið, og þeir bræður; en hann hvarf þeim með öllu, þegar þeir fóru inn úr túnglsljósinu. — Ef einn þeirra bræðra þurfti að fara eitthvað, fóru þeir æfinlega allir. Einu sinni fóru þeir í lángferð, hèr um bil 3 þíngmannaleiðir. Þegar þeir voru komnir tvo þriðjúnga vegarins, mundu þeir eptir því, að þeir höfðu ætlað að fá lèðan hest til ferðarinnar. Sneru þeir svo heim aptur, feingu hestinn og fóru svo ferðar sinnar. — Einu sinni, sem optar, fóru þeir bræður að færa landsdrottni sínum landskuldir af Bakka. En það var ekkja, sem jörðina átti; þeir greiddu henni skuldirnar, og voru svo hjá henni um nóttina. Morguninn eptir hèldu þeir heimleiðis, og áttu lánga leið að fara. Þegar þeir voru komnir meir en á miðja leið, tekur einn þeirra til orða og segir: „Já, Gísli-Eiríkur-Helgi, þá man eg það, að við báðum ekki konuna að gefa okkur í guðsfriði.“ [1] Hina ránkaði og við, að hann segði satt; sneru þeir því aptur til ekkjunnar, gerðu boð fyrir hana og sögðu: „Gefðu okkur í guðsfriði.“ Hèldu þeir svo heimleiðis; en þegar þeir voru komnir víst á miðja leið, mundu þeir enn eptir því, að þeir höfðu ekki þakkað ekkjunni fyrir sig, og svo að einginn skyldi hlæa að þeim fyrir það, að þeir kynnu ekki manna siði, sneru þeir enn aptur, hittu ekkjunna, þökkuðu henni með mestu virtum fyrir sig, og fóru svo heim. — Einu sinni voru þeir bræður enn á ferð, og mættu manni, sem hafði dýr í barmi sínum, sem þeir höfðu aldrei sèð. Þeir spurðu, hvað þetta dýr hèti, og til hvers það væri haft. Maðurinn segir, að það sè köttur, og drepi hann mýs og eyði þeim úr húsum. Það þykir þeim bræðrum mikil gersemi og spyrja, hvort kötturinn sè ekki falur. Maðurinn segir, að svo megi þeir mikið bjóða, að hann selji þeim hann, og varð það úr, að þeir keyptu köttinn fyrir geipiverð. Fara þeir svo heim með kisu og láta vel

1. Í sveitum er það góð og gömul venja hèr á landi, eða hefir verið, þegar einhverjum er gefið að borða, hvort heldur er gestur eða heimamaður: að hann segir við þann eða þá, sem veita honum, áður en hann tekur til matarins: „Gefðu (gefið þið) mèr í guðsfriði matinn“, en á eptir máltíð er sagt: „Guð laun'“, eða: „Guð laun' matinn“; eða: „Guðsást fyrir matinn.“

yfir sèr. þegar heim kom, mundu þeir eptir því, að þeim hafði láðzt eptir að spyrja um, hvað kötturinn æti; fara þeir svo þángað, sem maðurinn átti heima, sem seldi þeim köttinn. Var þá komið kvöld, og fór einn þeirra upp á glugga og kallaði inn: „Hvað jetur kötturinn?“ Maðurinn svarar í grannleysi: „Bölvaður kötturinn jetur alt.“ Með það fóru þeir bræður heim, en fóru að hugsa um þetta betur, að kötturinn æti alt. þá segir einn þeirra: „Bölvaður kötturinn jetur alt, og hann bróður minn líka“, og svo sagði hver þeirra um sig. þókti þeim þá ráðlegast að eiga ekki kisu leingi yfir höfði sèr, feingu mann til að stúta henni, og græddu lítið á kattarkaupunum. — þá keyptu þeir bræður einu sinni stórkerald suður í Borgarfirði, og slógu það sundur, svo það væri því hægra í vöfunum að flytja það. þegar heim kom, var keraldið sett saman, og farið að safna í það; en það vildi leka. Fóru þá bræðurnir að skoða, hvað til þess kæmi. Segir svo einn þeirra: „Gísli-Eiríkur-Helgi, ekki er kyn, þó keraldið leki, botninn er suður í Borgarfirði.“ Síðan er það haft fyrir máltæki: „Ekki er kyn, þó keraldið leki.“ — Einu sinni kom Hólabiskup á vísitazíuferð að Bakka. þeir bræður voru heima, vildu buga einhverju að biskupi, og buðu honum að drekka. Biskup þáði það; en af því þeir bræður áttu ekkert sèlegra ílát til í eigu sinni, en nýtt næturgagn, færðu þeir biskupi í því rjóma að drekka. Biskup vildi hvorki taka við ílátinu nè drekka úr því; þeir bræður litu þá hvor upp á annan og sögðu: „Gísli-Eiríkur-Helgi, hann vill ekki drekka rjómann hèr á Bakka; drekki hann þá hland.“ — Bakkabræður höfðu tekið eptir því, að veðurlag var kaldara á vetrum en sumrum, og eins hinu, að því kaldara var í hverju húsi, sem fleiri og stærri voru á því gluggarnir. þeir þóktust því vita, að alt frost og bitra væri af því komið, að hús væri með gluggum. þeir tóku sig því til, og gerðu sèr hús með nýu lagi, að því leyti sem þeir höfðu eingan glugga á því, enda var þar kolníðamyrkur inni, sem nærri má geta. þeir sáu reyndar, að þetta var dálítill galli á húsinu, en bæði hugguðu þeir sig við það, að hlýtt mundi verða í því á vetrum, og eins hèldu þeir, að mætti bæta úr því með góðum ráðum. þeir tóku sig því til einn góðan veðurdag, þegar glaðast var sólskin um hásumarið, og fóru að bera út myrkrið úr húsinu í húfum sínum, sumir segja í trogum, hvolfdu úr þeim myrkrinu, en báru aptur inn í þeim sólskin í húsið, og hugðu nú gott til birtunnar eptirleiðis. En þegar þeir hættu um kvöldið og settust að í húsinu, sáu þeir ekki heldur en áður handa sinna skil. — Eitt sumar áttu þeir bræður kálflausa kú; þókti þeim það mikið mein, og vildu fá sèr naut, til að kelfa[1] hana. Einu sinni, þegar kýrin var yxna, fóru þeir með hana til bónda eins, sem átti naut, og báðu hann um það. Bóndi leyfði nautið, og vísaði þeim til þess út í haga.

---

1. Venjulega er nú sagt: að kefla kú, eins og að kefla tröf.

Fóru þeir bræður svo með kussu[1] til bola, og voru að bauka við þetta leingi dags. Loksins komu þeir heim aptur til bónda, og sögðu honum, að nautið hans væri ekki kúneytt. Bóndi innir þá eptir, hvernig þeir hafi haldið kúnni, og lætur þá skilja á sèr, að þeir muni hafa farið að því, eins og flón, sem þeirra sè von og vísa. „O nei" segja þeir; „við lögðum kúna á hrygginn, og hèldum henni svo upp í lopt." „það grunaði mig", segir bóndi; ,,þið eruð ekki meðalflón." — þeim Bakkabræðrum hafði verið sagt, að það væri ósköp holt fyrir þá, að gera sèr endrum og sinnum heitar fótlaugar. En af því jafnan var þraungt um eldivið hjá þeim, tímdu þeir ekki að hita vatn til þess. Einu sinni vildi svo vel til, að þeir hittu fyrir sèr laug eða hver á ferð sinni. Nú hugsuðu þeir sèr gott til glóðarinnar, að þeir skyldu fá sèr heitar fótlaugar fyrir ekki neitt, tóku því af sèr skó og sokka, og settust hver hjá öðrum í kríng um hverinn, og höfðu fæturna ofan í. þegar þeir fóru að gæta að, þekti einginn þeirra sína fætur frá hinna. Með þetta voru þeir leingi í stöku ráðaleysi; þeir þorðu ekki að hreifa sig, því þeir vissu ekki nema þeir kynnu að taka skakt til, og taka hver annars fætur, og sátu svona, þángað til þar bar að ferðamann. þeir kölluðu til hans og báðu hann í öllum bænum að þekkja í sundur á þeim fæturna. Maðurinn gekk til þeirra, og sló með stafnum sínum á lappirnar á þeim, og kannaðist þá hver við sínar.[2] — Eitt sinn fóru Bakkabræður í viðarmó; var það hátt uppi í brattri fjallshlíð. Nú rifu þeir viðinn og bundu byrðar, til að velta ofan brekkuna. þá hugsaðist þeim, að hvorki gætu þeir sèð, hvað byrðunum liði á leiðinni, nè heldur vitað, hvað af þeim yrði, þegar ofan kæmi. Kom þeim þá það ráð í hug, að binda einn þeirra bræðra innan í eina byrðina, og skyldi hann hafa auga á byrðunum. Tóku þeir svo Gísla, bundu hann í eina byrðina og lètu höfuðið standa út úr. Síðan veltu þeir byrðunum á stað, og ultu þær ofan á jafnslèttu. En þegar þeir Eiríkur og Helgi komu ofan, fóru þeir að hyggja að bróður sínum, og vantaði þá á hann höfuðið, svo hann gat ekkert sagt þeim, hvernig byrðunum hafði liðið, nè hvar þær höfðu lent. þó þeir Eiríkur og Helgi væru ekki orðnir nema 2 eptir, sögðu þeir ávalt, eins og áður, þegar annar talaði til hins: ,,Gísli-Eiríkur-Helgi." — það hefi eg seinast frètt af þeim bræðrum Eiríki og Helga, að þeir sáu túngl í fyllíngu koma upp úr hafi, og gátu sízt skilið í, hvað það væri. Fóru þeir þá til næsta bæar, og spurðu bóndann þar, hvað þessi hræðilega skepna væri. Maðurinn sagði þeim, að það væri herskip. Við það urðu þeir svo

1. Svo er kýr kölluð alment fyrir norðan Skagafjörð, í Eyafirði, þingeyarsýslu og Múlasýslum, en annarstaðar kýr eða kusa, baula eða belja.

2. Sbr. aðra söguna í Molbyggjasögum í Stafrofskveri P. Guðjónssonar, 32—33. bls.

hræddir, að þeir hlupu inn í fjós, og byrgðu bæði dyr og glugga, svo eingin skíma næði inn til þeirra, og þar er sagt þeir hafi svelt sig í hel af ótta fyrir herskipinu.[1]

Af Öxneyíngum, eða Öxneyarbræðrum, á vesturlandi hafa farið viðlíkar sögur, og af Bakkabræðrum á norðurlandi. Einu sinni fóru Öxneyíngar til meginlands og ætluðu í kaupstað (Stykkishólm). þeir lentu býsnaspotta frá kaupstaðnum, og feingu sèr hross eitt, til að ríða í kaupstaðinn. Öxneyíngar voru óvanir reiðum, og settust því allir 6 upp á hrossið í einu, og ríðu svo þángað til þeir voru nærri komnir í Stykkishólm. þá urðu þeir í ráðaleysi með það, hvernig þeir ættu að geyma hrossið, á meðan þeir væru í kaupstaðnum; loksins urðu þeir allir á því, að þeir skyldu stjóra aptur af því og fram af, og bundu hausinn og taglið sitt við hvorn klettinn, og röðuðu stórum steinum eptir endilaungu bakinu á því. þegar þeir komu aptur, og ætluðu að taka hrossið, var það dautt, sem von var, af þessari meðferð, svo að þeir urðu nú að labba til skipsins. Á leiðinni í kaupstaðinn hafði gömul kona verið með þeim, en orðið ílt, svo að þeir hleyptu henni upp í flæðisker eitt, og ætluðu að láta hana bíða sín þar, þángað til þeir kæmu aptur, og hefðu hana heim með sèr. En á meðan þeir voru burtu, hafði orðið fallaskipti, og komið flóð, en fjara var, þegar kerlíng fór upp í skerið. þetta höfðu Öxneyíngar ekki athugað, að sjór geingi yfir skerið, sem hafði skolað kerlíngunni burtu.[2]

Austanlands ganga margar sögur af Hornfirðíngum, og leggja Austfirðíngar þeim á bak öll heimskupör og álfaskap. Sèra Stefán Olafsson kvað háð um þá, sem kunnigt er, Hornfirðíngabrag: Brúðkaupsreið þeirra og Hornafjarðar messugjörð.[3] Er þá í mæli, að Hornfirðíngar hafi reiðst kveðskap hans, og gjört honum sjúkdóm þann, sem var geðveyki, sem þjáði hann á efri árum sínum. Ein saga af Hornfirðíngum er þessi:

Hornafjarðarmáninn. Einu sinni komu Hornfirðíngar í kaupstað, sem ekki var vant; og þótti þar flest dýrðlegt umhorfs, og ólíkt því sem þeir voru vanir í Hornafirðinum. Meðal annars varð þeim litið upp í túnglið, sem skein í heiði. „Tarna er almennilegt túngl,“ sögðu þeir, „það er munur eða helvízkur Hornafjarðarmáninn.“

**Fjórar skónálar fyrir gullkamb.** Einu sinni var karl og kerlíng í koti sínu; þeim hafði fargazt svo fè, að þau áttu ekki annað eptir, en einn gullkamb, sem kerlíngin hafði lumað á. þegar alt var þrotið annað, fær hún karlinum kambinn, og segir honum að kaupa þeim fyrir hann

1. Allar þessar sagnir um Bakkabræður eru norðan úr Eyafirði og þíngeyarsýslu.
2. Dr. Maurers Isl. Volkss. 296--7. bls. eptir Egli Sveinbjarnarsyni í Stykkishólmi
3. Ljóðmæli sèra Stefáns bls. 101. og 156.

eitthvert bjargræði, sem þau geti leingi búið að. Karlinn fer á stað með kambinn og geingur, þángað til hann mætir manni, sem leiðir kú. „Falleg er kýrin þín, kunníngi," segir karl. „Fallegur er og kambur þinn," segir komumaður. „Viltu skipta?" segir karl. Komumaður lèzt þess albúinn; fær svo karlinn kúna, en komumaður kambinn. Heldur nú karl á fram, þángað til hann mætir öðrum manni, sem rak tvo sauði. „Fallegir eru sauðirnir þínir, kunníngi," segir karl. „Já, en falleg er og kýr þín, karl minn," segir komumaður. „Viltu skipta?" segir karl. „Já", segir komumaður, og fóru þau kaup svo fram. Karl var hróðugur af þessum kaupum, og hèlt, að nú gæti hann klætt sig og kerlíngu sína. Enn heldur hann þó á fram, og mætir manni, sem hefir með sèr 4 hunda; fara eins svör þeirra og skipti, sem áður er frásagt; þóktist karl hafa vel veitt, að hann fèkk hundana, og hèlt, að nú gæti hann rekið frá túninu. Enn heldur karl á fram, þángað til hann kemur að bæ einum; var bóndinn í smiðju að smíða skónálar. „Fallegar eru skónálar þínar, bóndi," segir karl. „Fallegir eru og hundar þínir," segir bóndi. „Viltu skipta?" segir karl. Bóndi var fús til þess og lèt fjórar skónálar fyrir hundana. Karl varð glaður af þessu happakaupi, og hèlt, að nú gæti kerlíng nælt undir skóna sína. Heldur hann svo heim á leið; var þá lækur á leið hans, og stekkur karl yfir hann, en um leið duttu nálarnar úr barmi hans ofan í lækinn, svo karl kom tómhentur heim til kerlíngar. Segir hann henni nú alt af sínum förum, og þókti henni þó þýngst að missa nálarnar. Lögðu þau því bæði á stað að leita og börn þeirra með þeim; fóru þau svo til lækjarins og kom það ásamt, að bezt mundi vera, að þau stíngju höfðunum ofan í lækinn og lituðust svo um eptir nálunum. Þau gerðu svo, en drukknuðu öll í læknum.

**Rauðskjöldóttur bolakálfur.** Einu sinni í fyrndinni var veizla haldin mjög ríkulega, og var maður einn boðinn til veizlunnar, sem var kunníngi brúðgumans. Maður þessi gat ekki borðað neitt af því, sem á borð var borið. Brúðguminn spurði, hverju þetta sæti; en gesturinn svaraði eingu til þess. Brúðguminn spurði hann þá, hvort hann væri veikur; hinn sagði það satt vera. En þegar brúðkaupinu var lokið, fór maðurinn heim til sín og komst með veikum burðum í rúmið. Foreldrar hans vildu vita, hvað að honum geingi; en hann var dulur á því og sagði, að það kæmi eingum við. Foreldrum hans sárnaði þetta og sendu mann til læknis að leita syni sínum hjálpar. Þegar hann kom til læknisins, spurði hann eptir veikleika sjúklíngsins, en sendimaðurinn gat ekki frætt hann á því. Læknirinn þóktist í mesta vanda staddur, að frètta ekkert um sjúkdóminn, og skipaði sendimanni að fara heim aptur, og sækja þvag sjúklíngsins og sýna sèr. Maðurinn gerði eptir því, sem honum var boðið, helti þvaginu á flösku, og fór svo á stað með það til læknisins. En á miðri leið vildi

svo óheppilega til, að þegar sendimaðurinn stökk yfir læk eða skurð, þá datt hann, braut flöskuna og misti niður alt, sem á henni var. Nú varð hann alveg ráðalaus, þorði ekki heim aptur, en þókti minkun að koma til læknisins við svo búið. En til allrar hamíngju voru margar kýr þar í haganum. Kemur honum þá til hugar, að bíða þess, að einhver kýrin pissaði. Lokins tókst honum það með stakri þolinmæði. Einni kúnni varð mál, og lèt sendimaður þar undir stórt drykkjarhorn, fór síðan með það til læknisins og færði honum. Læknirinn helti úr því á glas og skoðaði vandlega. Síðan segir hann: „Eg sè eingan sjúkleika á skepnunni, sem þvagið er úr, nema það að hún geingur með rauðskjöldóttan bolakálf, og get eg ekki sent nein meðöl við því.“ Sendimaður fór á stað við svo búið og sagði húsbændum sínum frá þessu, svo sjúklíngurinn heyrði. Þau urðu ókvæða við, og sögðust ekki skilja í því, hvernig á því stæði, þegar sjúklíngurinn væri karl en ekki kona, en það mundi þó vera satt, sem læknirinn segði. Sjúklíngurinn trúði því líka, og eina nótt, þegar lángir tímar voru liðnir, en fólk í svefni, strauk hann í burtu, og hugsaði sèr að ala kálfinn úti á víðavángi, þar sem einginn maður yrði var við. Hann fór nokkra daga huldu höfði, uns hann var orðinn skólaus, og gekk því nær á berum fótunum. Vildi þá svo heppilega til, að hann fann dauðan mann freðinn, sem var í stígvèlum. Sjúklíngurinn þóktist vel hafa veitt og braut fæturna af dauða manninum í knjáliðunum, því hann vantaði hníf, og bar þá í poka sínum, og hèlt heim til næsta bæar, því nú þektist hann ekki, vegna þess hann var kominn svo lángt frá átthögum sínum, og þar að auki þrýsti nauðin honum til að þíða fæturna úr stígvèlunum. Þegar hann kom á bæinn, beiddist hann gistíngar, og fèkk það. En hann vildi hvergi sofa, nema undir palli og lagði stígvèlin með fótunum í til fóta sinna, svo einginn maður á bænum skyldi sjá þau. En svo stóð á, að á bænum bar kýr um nóttina, og vakti alt fólkið yfir henni; hún átti rauðflekkóttan bola, sem var borinn inn á baðstofugólfið; en fólkið fór út í fjós að gæta kýrinnar. Nú víkur sögunni til gestsins; kálfurinn gaulaði, en gesturinn vaknaði við vondan draum. Honum datt ekki annað í hug, en hann væri nú búinn að fæða kálfinn, og þóktist sjá, að hann væri rauðflekkóttur. Stekkur hann þá af stað og skildi eptir fæturna í ógáti, og vita menn ekki um hann framar. Síðan kom einhver af heimilisfólkinu inn í bæinn, og sèr, að kálfurinn er á gólfinu, og gesturinn horfinn, en fótastúfarnir liggja til fóta í rúminu; verður hann þá hræddur mjög, hleypur út til fólksins í fjósinu, og segir, hvað fyrir sig hafi borið, og kom mönnum þá saman um, að kálfurinn hefði jetið gestinn, og væru fæturnir til merkis um það í rúminu. Síðan ræðir það um, hvernig skuli ráða kálfinn af dögum, og kom mönnum saman um að rífa gat á baðstofuhliðina, þegar birti af degi, og bera grjót inn á pallinn og freista, hvort ekki mætti grýta kálfinn í hel ofan um stigagatið. Þegar birti af degi, var farið að framkvæma

þetta, og rifu nokkrir gatið á hliðina, en aðrir báru að grjótið á meðan; síðan voru valdir til þrír menn, sem hæfnastir voru, að grýta kálfinn til dauðs, og veitti þeim það mjög hægt, því kálfurinn var rètt við stigann. En þegar hann var fallinn að velli, hljóp hver með sinn hníf og pikkaði hann, uns allir voru samdóma í því, að kálfurinn væri án efa dauður. Síðan var kálfurinn dreginn til sjávar og brendur til ösku, þegar vindur stóð af landi, og öskunni kastað út á sjó.

Þegar sèra Jón Vídalín, faðir Geirs biskups, var prestur í Laufási (1755—1767), var þar karl einn skrýtinn í sókninni, sem Þorsteinn hèt. Einn sunnudag kemur Þorsteinn til kirkju með barn, sem hann ætlaði að biðja prest að skíra, og leggur hànn reifastrángann úti upp á bæarvegginn, geingur svo inn til prests, og fer að tala við hann út í alla heima og geima. Þángað til prestur segir: „Áttirðu ekkert sèrlegt erindi við mig núna, Þorsteinn minn?“ Þá ránkar karl við sèr og segir: „Jú, jú; eg ætlaði að biðja yður að skíra fyrir mig í dag.“ Prestur spyr, hvar barnið sè. „Eg lagði það hèrna úti,“ segir karl, „upp á bæarvegginn; eg hèlt það væri óhætt.“ „Ósköp eru á þèr, maður,“ segir prestur, „og farðu strax út eptir því“. Þorsteinn fer út og ætlar að gánga að barninu vísu á bæarveggnum; en þá var það horfið, og hafði fólkið tekið barnið, borið það inn og veitt því aðhjúkrun. Karl leitar nú og leitar alstaðar í kríngum bæinn, og finnur ekki; loksins sèr hann, hvar liggur laungu-hryggur. Þorsteinn tekur upp hrygginn og hugsar með sèr, að þetta sè hryggurinn úr barninu, fer með hann inn til prests og segir: „Bölvaður fari hundurinn yðar, prestur minn; hann hefir fundið barnið og jetið það upp til agna, nema hrygginn, og er hann hèr til sýnis.“

**Álúti biskupinn.** Einu sinni voru tvær kerlíngar á ferð þar nálægt sem lestamenn áðu hestum sínum. Svo stóð á, að þeir höfðu í lestinni meri álægja og graðhest. En þegar kerlíngarnar fóru fram hjá hestunum og tjaldinu, stóðu lestamennirnir úti, og graðfolinn var einmitt að fylja merina. Heyra mennirnir þá, að önnur kerlíngin segir: „Álútur ríður hann núna í söðlinum, blessaður.“ Þá svarar hin: „Eg held það sè ekki tiltökumál um jafn-háaldraðan mann, sem blessaður biskupinn okkar er orðinn;“ því þær ímynduðu sèr, að biskupinn væri þar á ferð, en vissu að hann var orðinn gamall maður.

**„Hèr hafa þeir hitann úr.“** Einu sinni var kerlíng í koti við sjó. Hún hafði opt heyrt sjómenn segja, að þeim væri ekki kalt, þó þeir væru á sjó í kalsaveðri; einhver hafði og sagt henni, hvernig á því stæði, og að þeir hefðu hitann úr árarhlumminum. Einu sinni þegar henni var sem kaldast og þoldi ekki við í kotinu sínu, tekur hún sig til og eigrar ofan að sjó, bröltir þar upp í eitt skipið, sem uppi stóð með

árum, sezt á eina þóptuna, tekur sèr ár í hönd og leggur í ræði. Þar situr hún við og heldur um árarhlumminn; en þeir, sem fram hjá geingu, heyra, að hún er að staglast á þessu: „Hèr hafa þeir hitann úr.“ En morguninn eptir fannst hún steindauð og beinfrosin við árarhlumminn, og er ekki búin enn í dag að fá hitann úr honum.

**Kerlíngin, sem fór fyrir ofan garð eða neðan á himnum.** Tvær förukerlíngar tóku sig einu sinni saman um, að fara beiníngaför í sameiníngu. Önnur þeirra lagðist fársjúk á ferðinni, og þegar lagskona hennar sèr, að hún mundi eiga skamt eptir ólifað, bað hún hana að bera sánkti Pètri kæra kveðju sína, þegar hún kæmi til himna. Kerlíngin, sem lá í andarslitrunum, svaraði: „Þess er ekki að biðja; því eg er ætíð vön að fara þar fyrir ofan garð eða neðan“,[1] og þá var svo sem auðvitað, að henni var töf að því, að koma við hjá Pètri.

**„Eg ætlaði ofan hvort sem var.“** Einu sinni ætlaði kerlíng ofan lúkugatið og fram í baðstofu. En í stiganum skriðnaði henni fótur, stakst á höfuðið og hálsbrotnaði. En í fluginu heyrðu menn til kerlíngar: „Eg ætlaði ofan hvert sem var.“ Þetta er síðan haft að máltæki, ef einhverjum ferst hrapallega, og lætur sèr ekki bilt við verða: „Eg ætlaði ofan hvert sem var.“

**„Það heyrist ekki hundsins mál.“** Einu sinni komst hundur inn í kirkju, þegar presturinn var kominn upp í stólinn. Tekur þá hundurinn að gelta svo hátt, að söfnuðurinn truflast og heyrir ekkert til prestsins. Meðhjálparinn hleypur þá til og ætlar að reka hundinn út úr kirkjunni; en af því honum var svo mikið í hug, mismælir hann sig svo háskalega, að hann segir: „Það heyrist ekki hundsins mál fyrir helvítiskjaptinum á prestinum.“

**„Sælir og blessaðir, heykrókur góður.“** Einu sinni hafði biskup gert boð um biskupsdæmi sitt, að hann ætlaði að ríða á útlíðandi vetri í vísitazíu. Var nú komið að þeim tíma, sem hans var von í hèrað eitt, en bóndi var þar einn, sem bjóst við, að biskup mundi koma til sín, af því ekki varð annarstaðar farið, en um hlaðið hjá honum, og bjó hann sig því undir að taka á móti biskupi, sem bezt hann gat. Einn dag um sumarmála leytið, þegar bondi var að taka til hey í meisana, kemur honum til hugar, að hann þurfi að búa sig undir að geta heilsað biskupinum sæmilega. Hann hefir þar ekkert annað hendi leingra hjá sèr, til að láta tákna biskupinn, en heykrókinn, og stíngur honum því í heystálið, tekur ofan tóptarhettuna, geingur að heykróknum og segir: „Sæll og

1. Aðrir bæta við: Öskuhaug, sbr. Dr. Maurers Isl. Volkss. 295. bls.

blessaður, heykrókur góður. — Já eitthvað mun honum þykja að því arna, blessuðum", segir hann við sjálfan sig, fer svo til aptur og segir; „Sælir og blessaðir, heykrókur góður. — Já, ekki mun honum líka að tarna heldur; eg skal hafa það enn fullkomnara: Alla tíma sælir og blessaðir, heykrókur góður. — Já, nú held eg hann geti ekki fundið að því." Í þessu bili man bóndi eptir því, að hann á eptir að láta í ábætinn hennar Skjöldu, og stekkur eptir honum fram á fjóskamp úr tóptinni. En í því hann kemur fram á kampinn, ríður biskup í hlaðið. Hugsar nú bóndi sèr til hreifíngs, að heilsa biskupinum virðulega, rýkur að honum og segir: „Alla tíma sælir og blessaðir, heykrókur góður." Biskup brosti við og sagði: „Allir eiga leiðrètting orða sinna", kvaddi bónda og reið í burt.

**Barnkind en ekki sauðkind.** Það er sagt, að einhvern tíma hlotnaðist íslenzkum manni sú vegtylla, að hann var leiddur fyrir drottnínguna sjálfa. Segja sumir að það hafi verið Jón biskup Teitsson, en aðrir nefna aðra til. En nokkuð er það, að drottníngin var þýzk, en biskup hefir verið linur í þýzkunni, sem sagan sýnir. Drottníngin vèk sèr mildilega að biskupi og spurði hann að högum sínum, konu, og öðru slíku, og varð biskupi fátt til svara. Loksins spurði drottníng hann: „En hvað mörg börn (kinder) eigið þèr?" „Fimmtigi kindur, yðar Hátign", svaraði hinn. „Fimtigi kinder; en hvað gerið þèr, veslíngur, við allan þenna kinda-(barna) grúa?" svaraði drottníng. „Já, og það er ekki neitt, eg er kindafár, en sumir eiga 2 og 3 hundruð kindur. En á hverju hausti skerum við hèrumbil helmínginn af kindum okkar, og ètum þær á veturnar." „Guð vorðveiti mig", sagði drottníng. Þa fóru að renna tvær grímur á biskup, að hann mundi hafa svarað drottníngu út í hött, og kom þá upp, að biskup hafði í huganum sauðkindina, en drottníngin spurði um blessaðar barnkindur biskups.

Til eru margar kerlíngasögur, eður karlasögur sem kvennfólkið kallar það, til varúðar þeim sem deila útúr eingu efni, og sagt, að þeir sè eins og kerlíngarnar. Sú er ein saga, að einu sinni voru tvær kerlíngar á bæ, og bar svo til, að önnur kerlíngin tók ullarlagð og fleygði óvart í hina. Þá varð hin kerlíngin æf og sagði: „Og svei þèr, hefði það verið steinn, þá hefði það drepið mig." „Og hefði það verið, hefði sem aldrei var", sagði hin. „Það er ekki þèr að þakka" sagði hin; „hefði það verið steinn, þá hefði það drepið mig." Þángað til vóru kerlíngarnar að rífast um það, að hefði það verið steinn þá hefði það drepið hana, þángað til þær flugust á. Því segja menn við þá sem gjöra getsakir, og gera ráð fyrir því sem aldrei var, en ekki því sem er: „Hefði það verið, sem aldrei var, sagði kerlíngin," segja menn.

Það er kallað k e r l í n g a r a u p og k a r l a r a u p, og sagt að maður sè kominn á raupsaldrinn þegar maður fer að eldast. Einkum er kerlíng-

unum við brugðið, að þær segi að alt hafi verið dýrðlegra í æsku sinni en nú sè. „Það var öðruvísi í úngdæmi mínu,“ segja kerlíngarnar. Kvennfólkið eignar körlum allar slíkar sögur, og kalla karlasögur og karlaraup, en við köllum það kerlíngasögur og kerlíngabækur. Ein af mörgum slíkum sögum er sögð á Breiðafirði, að kerlíng hafi sagt undir Jökli. „Það var öðruvísi í mínu úngdæmi en nú,“ sagði hún „þegar þeir rèru á daginn, þá rumdi í árunum: umrum, glumrum, en nú tístir í þeim: urrum, smurrum. Þegar þeir komu í land á kveldin, og fóru úr skinnklæðunum, sögðu þeir við okkur: erðum, serðum, en nú veina þeir og segja: kútinn, kútinn. Þá var allur Breiðifjörður í ljá.[1] Þá lá andskotinn í vöggu, löngu fyrir guðs minni.“ Því er það máltak, að það hafi verið löngu fyrir guðs minni, eða þegar skollin lá í vöggu, sem aldrei hefir verið, og ekki er nema karlaraup eður kerlíngabók.

**Klipt eða skorið.** Einu sinni komu tvær kerlíngar að þúfu nýsleginni. „Tarna er fallega skorið,“ sagði önnur kerlíngin. „Og þú lýgur því,“ sagði hin. „Hvað er það þá?“ sagði hin. „Það er klipt,“ sagði hún. „Og hvaða vitleysa er í þèr, það er skorið.“ „Ekki er það skorið, það er klypt.“ Þarna voru kerlíngar að hnakkrífast, hvort grasið sè klypt eða skorið, þangað til þær flugust á, og ultu báðar á kaf ofan í tvíbytnu pitt sem þar var. Það sást síðast til þeirra, að ekki stóðu upp úr nema fíngurnir. Myndaði hin kerlíngin þá til með fíngrunum að það væri klipt en ekki skorið. Þarna drápu kerlíngarnar hvor aðra. Því segja menn þegar menn eru þrákelknir og stagast á hinu sama einlægt, „klipt eða skorið, sögðu kerlíngarnar, og svo fer þèr.“

**„Hólkið þèr í yður, herra minn.“** Einu sinni kom biskupinn með lókát sinn á bæ til kerlíngar, einn góðan sólskinsdag. Kerlíngin setti þá biskup út í skemmu og bar fyrir þá trog fullt af skyri og rjóma. En meðan biskup var að borða dró yfir skúr, en taðan lá flöt á túninu. Þá fer kerlíngu að verða órótt, og þótti hinir vera lengi að signa matinn, og sagði þá það sem síðan er haft að máltæki: „Og hólkið þèr í yður, herra minn, og flýttu þèr, lókur!“ Á Íslandi er það siður að kalla biskupinn einn herra, en prestinn sèra. Því varð kerlíngunni mismælið, sem kallaði biskupinn sèra sem vísan sýnir:

„Sælir verið þèr, sèra minn!
sagði eg við biskupinn,
ansaði mèr þá aptur hinn:
þú áttir að kalla hann herra þinn.“

---

1. Sbr. Ný Fèlagsrit 20. ár 101. bls.: þar segir: eitt starcingi.

e) Að lyktum set eg hèr nokkrar sögur af sama tægi, sem sýna menn, sem annaðhvort hafa orðið ginníngarfífl fyrir áleikni annara, eða að athlægi fyrir eigin nápínuskap og nirfilshætti, og kveður þó stundum svo ramt að alvörunni í þeim sögum, að varla er að hlæandi.

**„Þjófur er hann Dalamann.“** Einu sinni kom dreingur vestan úr Dölum í Skálholt (Norðlendíngar segja, að hann hafi komið að Hólum í Hjaltadal framan úr Skagafjarðardölum) á laugardaginn fyrir páska, og bað að lofa sèr að vera þar fram yfir hátíðina, og var honum heitið því. Það orð hafði leikið á um dreing þenna, að hann væri ekki vandaður til handanna, og væri jafnvel sauða-þjófur; þó fór það ekki í hámælum, og aldrei hafði hann orðið uppvís að stuldi. Þetta vissu skólapiltar þeir, er voru úr sama bygðarlagi og hann, og ásettu þeir sèr að gera honum einhverjar glettur, eða kinnroða, ef verða mætti. Þegar farið var að hríngja til hámessu á páskadaginn, var, eins og lög gera ráð fyrir, hríngt þremur klukkum, einni ákaflega stórri og hljóðdimmri, einni nokkuð minni og hljómhvellari, og hinni þriðju, lítilli bjöllu, en ákaflega hljómskærri. Þegar hríngíngarnar byrjuðu, fóru skólapiltar út fyrir staðinn, og höfðu dreinginn með sèr, og voru að tala við hann á víð og dreif, meðan á hríngíngunum stóð. En þegar farið var að samhríngja með öllum klukkunum í einu, beiddu þeir hann að taka vel eptir, hvað klukkurnar segðu. Strákur gerir svo og hlerar til, en þykist ekki heyra neitt annað, en venjulegt klukknahljóð. Þá sagði einn af skólapiltum: „Gáðu að þèr, maður; heyrirðu ekki, að stóra klukkan drynur með dimmri rödd:

Þjófur er hann, Dalamann<br>
Dalamann, Dalamann.

Miðklukkan tiltekur, hvað mörgu fè þú hefir stolið:

Tólf tók hann lömbin,<br>
tólf tók hann lömbin,<br>
tólf tók hann lömbin.

En þó er litla hljómhvellasta klukkan verst; því hún segir í mjóa rómnum:

Takið 'ann,<br>
takið 'ann,<br>
takið 'ann.“

Þá beið strákurinn ekki leingur boðanna, hljóp úr páskaveizlunni, og þorði aldrei að koma á staðinn upp frá því.

**„Hann bjó.“** Einu sinni var maður nokkur, er grobbaði fram úr hófi af því, hver búmaður hann væri. Oflátúngur þessi hafði átt konu, og búið saman við hana eitt ár með íllan leik, hafði flosnað upp vorið

eptir, og var ný-skilinn við konuna, er hann kom til bónda eins þar í nágrenninu. Þegar hann reið í hlaðið, var bóndi staddur úti, og hjá honum þrír hundar mjög misjafnir að stærð og aldri. Hundarnir stukku allir upp með gelti miklu, er maðurinn kom í hlaðið. En bóndi sveiaði þeim og atyrti, en tók blíðlega á móti gesti sínum, er bar sig vel og var mikill á lopti, eins og hann átti að sèr. Þegar gesturinn er kominn af baki, spyr bóndi hann, hvort hann hafi tekið eptir því, sem hundaskammirnar hefðu sagt um hann. Hinn kvað nei við, því hann hefði verið að hugsa um, hvað mikinn peníng hann gæti haft á annari eins jörð, og bóndi hefði. En bóndi segir honum þá, að stóri hundurinn hefði sagt með digra rómnum:

„Hann bjó,
hann bjó."

Þá hefði miðlúngshundurinn sagt með nokkuð mjórri róm:

„Eitt ár,
eitt ár."

En svo hefði minnsti hundurinn bætt því við með hvella geltinu, sem út yfir hefði tekið, og sagt:

„Með skömm,
með skömm."

Kvaðst þá bóndi ekki hafa getað stilt sig leingur, og sneypt hundana fyrir svo ósæmilega frekju og slettirekuskap í því, sem þeim kæmi ekkert við. Oflátúngurinn beið ekki þess, að bóndi byði honum inn, og reið svo búinn burtu aptur, og er þess ekki getið, að þar hafi orðið mikið um kveðjur.

**Gott er að gera vel, og hitta sjálfan sig fyrir.** Einu sinni var prestur að prèdika fyrir söfnuði sínum. Hann lagði út af því í ræðu sinni, hversu gott væri að gefa, því menn feingju það aptur sjöfalt launað. Dreingur einn var við kirkjuna úr koti nálægt staðnum; hann var fyrirvinna hjá móður sinni bláfátækri, og átti hún ekki nema eina kú, en prestur átti sex kýr. Þegar dreingurinn kemur heim, segir hann móður sinni, hversu gott væri að gefa, og vill fyrir hvern mun fara með þessa eina kú til prestsins, og gefa honum. Móðir hans vildi það ekki, en hvað sem hún segir, fer hann á stað með kúna heim á staðinn, og gefur prestinum. Prestur þakkar gjöfina og þykir vænt um. Nú bar svo til nokkru seinna, að kýr prestsins koma heim að kotinu, og þegar dreingurinn sèr þær, lætur hann þær inn í fjós, og segir móður sinni, að satt hafi prestur sagt, að gott væri að gefa, því nú væru komnar 7 kýr í staðinn fyrir eina, sem hún hefði gefið. Nú er frá því að segja, að nautahirðir prestsins kemur við í kotinu og spyr eptir kúnum. Dreingurinn kvaðst ekkert vita um þær; en 7 kýr hafi komið, sem móður sinni

hefði gefizt fyrir kúna, sem hún hafi sent prestinum, og sleppi hún þeim ekki við nokkurn mann, svo að hann má fara við svo búið heim aptur. Þegar prestur frètti þetta, sendi hann hvern manninn á fætur öðrum, til að sækja kýrnar, og komu allir svo búnir heim aptur. Loksins fór prestur á stað sjálfur til kotsins, kom að máli við dreinginn og innir hann eptir kúnum. Dreingurinn sagði, að þar hefðu komið 7 kýr, sem móður sinni hefðu verið sendar fyrir kú þá, sem hún gaf honum. Presturinn spurði að lit kúnna; dreingurinn sagði honum það. Prestur kvað þetta vera kýr sínar. Dreingurinn segir, að það geti ekki verið, því hann hafi sagt um daginn, að sá, sem gæfi, feingi sjöfalt aptur. Prestur hættir tali þessu, en segir, að hvor þeirra, sem yrði fyrri til að bjóða hinum góðan dag að morgni, skyldi hafa kýrnar, og fer síðan heim til sín. Um kvöldið nálægt háttatíma fer dreingurinn heim að staðnum, og upp á gluggann, sem prestur svaf undir, og liggur þar um nóttina. Þegar líður undir dögun, heyrði dreingurinn, að prestur kallaði til ráðskonu sinnar og spurði hana, hvert nú væri mál að ríða ofan til Jerúsalem. Hún kvað það ekki fjarri. Prestur fer á fætur og nokkru síðar kemur hann út. Í því bili hleypur dreingurinn fram á bæarbustina og bauð presti góðan dag. Prestur mælti: „Komstu hingað snemma?“ „Þegar þèr riðuð ofan til Jerúsalem“, sagði dreingurinn. Prestur bað hann eiga kýrnar, en þegja yfir því, sem hann hefði heyrt.

**„Nú skyldi eg hlæa, væri eg ekki dauður.“** Einu sinni voru tvær konur að þrætast á um það, hvor þeirra ætti heimskari mann. Loksins kom þeim saman um, að þær skyldu nú reyna, hvort þeir væru eins heimskir og þeir sýndust vera. Tók þá önnur konan það til bragðs, þegar maður hennar kom frá vinnu sinni, að hún tók kamba og rokk, sezt niður og fer að kemba og spinna, en þó sá hvorki bóndi nè aðrir, að hún hefði neina ull handa á milli. Þegar maðurinn sèr þetta, spyr hann konu sína, hvert hún sè geingin frá vitinu, að vera að arga kömbunum og þeyta rokkinn, án þess að hafa ull, og biður hana að segja sèr, hvað þetta eigi að þýða. Hún segir, að það sè varla von, að hann sjái það, sem hún sè að spinna, því það sè híalín, og eigi að vera í föt handa honum. Hann lætur það þá svo vera, og er einlægt að furða sig á, hvað kona sín sè vel að sèr, og hlakkar mjög til að fá þessi föt, sem verði svo afbragðs smágjör og falleg. Þegar konan lætzt vera búin að spinna nóg í fötin, fer hún og festir voðar-efnið upp í vefstólinn og þykist svo fara að vefa. Maðurinn er að smávitja um hana, og dázt að kunnáttu hennar. Hún hefir mikið gaman af þessu og flýtir sèr að koma öllu þessu laglega í kríng. Nú þykist hún taka voðina úr vefstólnum, og fer fyrst að þvo það og þæfa, og seinast fer hún að sníða og sauma. Þegar hún er búin að öllu þessu, biður hún mann sinn að koma og fara

í fötin, en segist ekki þora að láta hann fara einsamlan í, og skuli hún hjálpa honum. Nú læzt hún færa hann í þau; og þó manntetrið væri reyndar nakinn, hafði hann þá ímyndun, að konan sín hefði búið sèr til svona smágjör föt, og var svo hjartans-feginn yfir þessu, að hann rèð sèr ekki fyrir gleði. — Nú er að segja frá hinni konunni, að þegar maður hennar kemur heim, spyr hún hann, því hann sè á fótum. Manninum þykir þetta undarleg spurníng, og spyr hana, hvers vegna hún tali svona. Hún telur honum trú um, að hann sè sárveikur, og honum sè lángbezt að fara upp í rúm. Hann trúir öllu þessu, og fer sem fljótast að hátta. Þegar nokkur tími er liðinn, segist hún ætla að fara að leggja hann til. Hann spyr, hvernig standi á því, og biður hana blessaða að gera það ekki. Hún spyr, hvernig hann láti sèr, sem hafi dáið í morgun, og það eigi að fara að smíða utan um hann. Svona liggur þá mannskepnan, þángað til hann er kistulagður. Síðan ákveður hún greptrunar daginn, og tekur til 6 líkmenn, og biður nú hin hjónin að fylgja manni sínum til grafarinnar. Kona dauða mannsins hafði látið gera glugga á aðra hliðina á kistunni, þar sem hann gæti sèð það, er bæri við. Þegar á að fara að hefja líkið út, kemur þar bóndinn nakti, og hèlt, að allir mundu dázt að smáunnu fötum sínum, en það varð nokkuð á annan veg; því þó líkmönnum væri annað í hug, gat einginn stilt sig fyrir hlátri, er sáu hann, og þegar sá, sem í kistunni var, kom auga á hann, kallaði hann upp svo hátt sem hann gat og segir: „Nú skyldi eg hlæa, væri eg ekki dauður.“ Var nú hætt við greptrunina, og manninum hleypt út úr kistunni. Komst það þá upp, að konurnar höfðu gabbað og gint menn sína þannig, og voru báðar hýddar á þíngi fyrir tiltækið.

**Presturinn og djákninn.** (Eptir sögn konu einnar á Seltjarnarnesi. M. G.) Einu sinni var ríkur prestur, en fjarskalega kvikinzkur; hann átti sèr gamla móður. Í nágrenni við hann bjó djákni hans, sárfátækur maður; hann átti sèr son frumvaxta. Honum var heldur í nöp við prestinn, fyrir sakir nízku hans. Nú vill svo til að móðir prestsins deyr. Var lík hennar sett út í kirkju, og átti þar að bíða greptrunar. Um nóttina fara þeir, djákninn og sonur hans, og taka lík kerlíngarinnar, og setja það inn í skreiðarhjall prestsins, og róta um allri skreiðinni; setja þeir kerlínguna í miðjan skreiðarhlaðann og láta hana halda á hálfrifnum og nöguðum fiski. Morguninn eptir kemur prestur í skreiðarhjallinn, og sèr, hvað um er að vera. Verður honum bylt við þetta, með því samvizkan sló hann líka; því hann hafði ekki betur tímt að gefa kerlíngunni að borða en öðrum. Hugsar hann sèr nú ráð, og af því hann vissi af djáknanum fátækum, fer hann til hans, og segir honum, að kerlíngin hún móðir sín sè apturgeingin, og segir honum upp alla sögu. Segist hann skuli gefa honum alla skreiðina til þess, að grafa kerlínguna svo vel, að

hún gángi ekki aptur, enda bjóði sèr við að jeta skreiðina úr því svona sè komið. Djákninn geingur að þessu, og þó heldur treglega. Hirðir hann samt skreiðina, og grefur síðan kerlínguna vel og vandlega í viðurvist prests. Næstu nótt taka þeir feðgar kerlínguna upp aptur, og setja hana í smèrklefa prestsins, róta til smèrbelgjunum, stínga smèri upp í kerlínguna, og láta hana vera kámuga um fíngurna. Daginn eptir kom prestur inn í smèrklefann, og verður nú hálfu hræddari, en hið fyrra sinn, þegar hann sèr, hvað um er að vera. Býður hann djáknanum nú alt smèrið úr klefanum til þess að grafa kerlínguna svo, að hún gángi ekki aptur framar. Djákninn geingur með nokkurri tregðu að kaupunum; hirðir smèrið, og grefur kerlíngu hálfu dýpra en fyrr. — Næstu nótt taka þeir feðgar upp líkama kerlíngar, og setja hana nú í kornbúr prestsins. Róta þeir til kornbýngjunum, og setja kerlu ofan í þá, og láta hana hafa ausu í hendinni. Daginn eptir kemur prestur inn í kornbúrið og sèr, hvað um er að vera. Verður hann nú öldúngis frá sèr, og biður djáknann, að losa sig við kerlínguna; hann skuli fá alt kornið sitt í staðinn. Eptir lánga undanfærslu geingur djákninn að kaupunum, tekur kornið, og grefur kerlíngu miklu dýpra en fyrr. — Næstu nótt grafa þeir feðgar kerlínguna enn upp, og skauta henni og búa, og geyma hana svo hjá sèr. En svo ber við um daginn, að prestur reið eitthvað frá bænum, og reið merhrossi. Þá taka feðgarnir graðfola ótaminn, setja kerlíngu á hann, og binda hana niður, og hleypa svo graðfolanum á stað á eptir merinni, sem presturinn reið. Prestur sá eptirförina, og þókti ekki góð; því folinn náði honum fljótt, og fór að viðra sig upp við merina, sem prestur reið. Reið þá prestur í ofboði heim til djáknans, en folinn hljóp hvíandi með kerlínguna á eptir. Bað prestur nú djáknann í öllum hamíngju-bænum að duga sèr. Eptir mikla eptirgángsmuni tókst djákninn það á hendur, fyrir klyfjaðan hest af peníngum. Greiddi prestur peníngana með ánægju, en djákninn tók við þeim, og gróf nú kerlínguna miklu dýpra, en nokkru sinni fyrr, enda kom hún aldrei á kreik framar. Eptir þetta varð prestur hinn mesti bjargvættur djáknans; því hann þóktist aldrei geta launað honum, eins og vert væri fyrir það, að hann sá fyrir kerlíngunni.

**„Af hverju er þá rifið?“** Einu sinni voru hjón á bæ; þau áttu mörg börn, en fátt höfðu þau vinnufólk og þurftu litlu til þess að kosta, enda voru þau vel við álnir, en bóndinn þókti í meira lagi aðsjáll. Hann hafði þann sið, að hann tók til allan mat og skamtaði konu sinni út á pottinn í það og það sinnið; þar eptir var annað, og var konunni mikil raun að nirfilskap hans. Einhverju sinni bar svo við, að bóndi lèzt þurfa að fara að heiman, og vera burtu tvo daga. Þegar hann er farinn burtu, segir húsfreya smalanum að reka heim fèð; segist hún ætla að

taka úr því bezta sauðinn, slátra honum, og taka með því húngursmál úr börnunum og fólkinu. Smalinn gerir svo, og er sauðurinn skorinn og lagður í pottinn, og borðaður um kvöldið með góðri matarlyst. Þegar búið er að borða og koma öllu fyrir, er barið. Konan veit ekki, hvaðan á sig stendur veðrið, að þar skuli vera kominn næturgestur; því það var ekki vani. Hún hugsar, að það muni vera bezt, að hún fari til dyranna. En áður en hún lýkur upp, hefir hún þó þá varúð við, að hún spyr, hver úti sè.[1] Segir þá bóndi til sín heldur dræmt. Lýkur hún þá upp bæarhurðinni og segir, að hann hafi verið fljótari í ferðum, en hann hafi ætlað sèr. Bóndi gegndi því eingu, en snarast innar hjá henni, og þegar hann kemur inn í baðstofu, gætir hann nákvæmlega að öllu, en finnur einga nýlundu á neinu. Barn þeirra hjóna gekk með hjá rúmi þeirra; það hèlt á kroppuðu sauðarrifi. Bóndi tekur rifið af barninu, skoðar það í krók og í kríng og segir: „Af hverju er rifið að tarna?“ Konan segist ekki vita það, hvar barnið hafi fundið það, undir rúminu eða á bak við það. Bóndi segir, að það sè frá um það, að rifið hafi ekki legið leingi í sorpi, það sè glænýtt. Ekkert segist konan vita um það; býður hún svo manni sínum að borða. Hann sinnir því ekki, en segir: „Af hverju er þá rifið?“ En konan bað hann að stagast ekki leingur á rifinu, því hann stríddi sjálfum sèr mest með því að vilja einkis neyta; býður hún honum þá að fara og hvíla sig. En hann hefir alt á hornum sèr, og alt af sama viðkvæðið við alt, sem hún býður honum: „Af hverju er þá rifið?“ Þó drattast hann til að hátta um síðir. Morguninn eptir fer hann ekki á fætur, liggur með háhljóðum nokkra daga og deyr svo. Sendir þá húsfreya smalann eptir presti og hreppstjóra og fleiri nefndarbændum í sveitinni, að segja þeim, að bóndi sinn sè látinn, og biðja þá að koma til hennar, því hún þurfi að tala við þá um útförina. Smalinn fór, og mennirnir komu, sem hún hafði sent eptir. Húsfreya bauð þeim inn í baðstofu, þángað sem líkið var, og sagði, að hún yrði nú að biðja þá að gera svo vel, að hjálpa sèr, að koma manninum sínum sem fyrst í jörðina; því þar væru lítil húsakynni, svo hún ætti örðugt með að hafa líkið leingi í bænum. Hún bað þá og að standa fyrir allri útförinni og spara ekkert til hennar, svo að maðurinn sinn yrði sómasamlega grafinn, og sjálfir skyldu þeir setja fult upp á fyrir ómak sitt; því svo væri fyrir þakkandi, að þau hefðu nóg efni til þess. Komumennirnir hètu henni liðsemd sinni, og höfðu nú hraðann á borði, svo að

1. Það þykir ósvinna í sveitum, ef barið er að dyrum eptir dagsetur á kvöldum, heldur skal þá fara upp á baðstofuglugga og guða. En ef barið er, spyr sá, sem til dyranna fer, hver úti sè, áður en upp er lokið, svo að hann hleypi eingum ómildum inn í bæinn. Þegar barið er að dyrum, eru barin 3 högg, en draugar berja að eins 1 högg eða 2, og þekkjast á því.

bóndi yrði kistulagður og líkið flutt til kirkju. Prestur hèlt yfir honum ræðu, og svo var líkið borið til grafarinnar. En þegar kistan er komin niður í gröfina, geingur húsfreya að gröfinni, hefst upp úr eins manns hljóði og segir: „Hvern andskotann hugsarðu, maður, að láta kviksetja þig lifandi?“ Gegnir þá bóndi úr kistunni og segir: „Af hverju er þá rifið?“ Var kistan svo dregin upp aptur og opnuð, og bóndi hrestur við, því æðimikið var af honum dregið. Taldi svo prestur og aðrir nefndarmenn um fyrir honum, að hann skyldi ekki láta nápínuskapinn ráða svo fyrir sig, að hann gerði bæði sèr og þeim, sem hann ætti bezt upp að inna, lífið leitt. Við þessa skráveifu tók bóndi stakkaskipti, og varð allur annar maður, og bar aldrei konu sína ofurráða um nokkurn hlut. Eptir það lifðu þau saman glöð og ánægð og þóktu mestu sómahjón. Bóndi spurði aldrei um rifið framar, þángað til hann dó í annað sinn skaplega og skikkanlega.[1]

**„Hver rífur svo lángan fisk úr roði?“** (Eptir Sigurði málara Guðmundssyni.) Einu sinni voru hjón á bæ mjög aðsjál, og urðu þó að halda vinnufólk nokkurt. Þeim blæddi í augum hversu mikið fólkið borðaði, og þó helzt bóndanum, einkum um miðjan daginn, enda var bóndinn vanur að taka til fisk handa því til miðdegisverðar. En málamatinn skamtaði konan, og fèkkst minna um hann en bóndi um fiskætið, enda er það sumra manna sögn, að hún væri vinnufólkinu hliðhollari, en bóndi hennar. Til þess að losa sig við þá hörmúng, að þurfa að taka fiskinn til handa fólkinu daglega, eða fyrir vikuna, tók bóndi upp á því, að vega því út í einu fisk fyrir alt árið. En með því honum ofbauð, hvað til þess þurfti, lèt hann vanta til fyrir einn dag. Nú afhendir hann hverjum fiskætið, og segir konu sinni frá, að hann hafi látið vanta upp á fiskinn fyrir einn dag, og segist hann þá ætla að látast deya um þær mundir, og liggja á börunum þenna seinasta dag af útvigtartímanum, og muni þá fólkið fyrir hrygðar sakir gleyma að borða þann daginn. Nú líða tímar fram, og þegar hinn ákveðni tími kemur, læzt bóndi deya, og er hann lagður til á fjöl, sumir segja inni í baðstofu, en aðrir úti í skemmu. Ekki er þess getið, hvað hið annað vinnufólkið hafi til bragðs tekið um át þann daginn. En þegar smalinn kemur heim og ætlar að fara að snarka fiskbitann sinn, sèr hann, að útvigtin er þrotin. Hleypur hann þá út úr baðstofunni fram í bæ til konunnar, og segist vera búinn með útvigtina sína. Konan kvaðst nú hafa annað að hugsa, en standa honum fyrir beina, þar sem maðurinn sinn lægi á börunum. Smalinn sagði: „Eg vil alt að einu hafa mat minn, en eingar refjar.“ Konan segir, hann skuli þá fara út

1. Eptir frásögn húsfrú Margrètar Höskuldsdóttur í Reykjavík.

í skemmu, og fá sèr fisksnarl. Smali gerir svo, tekur þar laungu eða veginn þorsk, sezt með hana inn á rúm andspænis líkinu, og rífur þar úr allan hnakkann, eptir endilaungum fiskinum, í einni rífu. Bóndi heyrir þetta, rís upp undir blæunni við dogg og segir: „Hver rífur svo lángan fisk úr roði?" Smali hèlt, að bóndi væri apturgeinginn, og rekur því sjálfskeiðínginn á hol í hann. Eptir það blæddu bónda aldrei í augum laungu fiskrifurnar; því hann þurfti ekki meira.

---

# 10. FLOKKUR.

## KREDDUR.

Margt er það, sem menn hafa tekið mark á bæði fyrri og síðar, og ætlað að af mætti ráða ókomna hluti. Þeir sem hafa verið nàtnir að taka eptir slíku, hafa stundum verið kallaðir forspáir menn, þó þeir hafi ekki rent grun í hið ókomna af neinni náttúrugáfu, heldur getið sèr til þess, sem verða mundi af eintómum fyrirburðum fyrir utan sig. Þessi ímyndun, að ætla, að hið óorðna verði ráðið af sýnilegum fyrirburðum, og sagnir þær, sem um það hljóða, hvað fyrirburðirnir tákni, hefir verið kallað ýmsum nöfnum, t. d. bábiljur, hègiljur, hindurvitni, hjátrú, kerlíngabækur og kreddur. Að vísu eru nöfn þessi öll fögur; en af því síðasta nafnið á bæði bezt við, og er komið í beinan karllegg frá Þrándi heitnum í Götu, þykir hæfilegast að velja flokki þessum það nafn og kalla hann Kreddur. Þó margar sèu kreddurnar, eins og Þrándur gamli sagði,[1] og margvíslegar, ætla eg þær greini sig eptir eðli sínu í tvent, nefnilega, þá fyrirburði, sem maður er sjálfur að nokkru leyti valdur að, og koma manni því í koll á eptir; en það heita víti, og þá fyrirburði, sem manni verða ósjálfrátt, og annaðhvort boða ílt eða gott, hvorttveggja eða hvorugt. Enn er þó hin þriðja tegund fyrirburða til; er hún reyndar náskyld hinum fyrnefndu, en lýtur þó mestmegnis að veðráttufari og árferði.

### 1. GREIN.

### VÍTI.

Eins og nú var sagt, er margt af því illa, sem fram við mann kemur, kallað víti, ef menn ímynda sèr, að manni sè sjálfum um það að kenna, þessvegna eru og nefnd „sjálfskaparvíti" (sjálfsköpuð eður sjálfvalin víti); því svo lítur út, sem Íslendíngar hafi álitið, eins og fleiri þjóðir, að „hver væri sinnar lukku smiður," þó annað sannmæli sýnist vera því gagnstætt, svo hljóðandi:

„Gefur sèr einginn gæfu
gildur þó feginn vildi."

En svo hyggnir hafa Íslendíngar þó verið, að þeir ætluðust ekki til, að vítin hrini á öðrum en þeim, sem gerði sig vísvitandi sekan í þeim, og fylgdu í því fast þessari reglu: „Ekki varast, nema víti." Nú eru hèr nokkur víti.

1. Sjá Færeyíngasögu. Kh. 1832, 257—258. bls.

Ef borin er út sæng hjóna á sunnudagsmorgni, til að viðra hana, þá verður hjónaskilnaður.

Ef reiðhestur er járnaður á sunnudegi, þá heltist hann.

*Ef stagað er að sjóklæðum manna á sunnudegi*, þá farast þeir í hinum sömu klæðum. Einu sinni var sjómaður í Nesi við Seltjörn, sem Magnús hèt; en þjónusta hans hèt Guðrún. Hún lèk það að list og vana, að hún stagaði aldrei að sjóklæðum Magnúsar, nema á sunnudögum, þótt hann vandaði opt um þetta við hana. Leið svo nokkuð fram eptir vertíðinni, að ekki bar til tíðinda. Einn dag reri Magnús, sem optar, og gerði þá hvassviðri mikið, þó komust allir með heilu og höldnu til lands, en ekkert sást nè spurðist til Magnúsar, þann dag út. En um nóttina eptir vaknaði Guðrún við það, að Magnús kom upp á gluggan yfir henni, og sagði: „Nálsporin þín í vetur hafa komið mèr í sjóinn, Guðrún mín." Guðrúnu brá svo við þetta, að hún varð vitstola nokkra stund eptir. En þegar af henni bráði, sagði hún, að orð Magnúsar hefðu valdið sèr þessarar vitfirríngar.

Ekki skal taka undir stálma kú á föstudegi nè þriðjudegi, því þá stendur hún í stað til næsta föstudags eða þriðjudags.

Aldrei má viðra föt eða breiða til þerris á sólstöðudag, því þá drafna þau öll í sundur, (sumir segja einúngis sauðsvört).

Ef maður gefur heitmey sinni fyrst hníf eða skæri eða nálar, eða nokkurt það járn, sem hefir egg eða odd, verður ást þeirra endaslepp, því hún stíngst þá út, (sama er að segja um allan kunníngskap).

Ef bóndinn ferðast eitthvað, má konan ekki búa um rúm hans hið fyrsta kvöld, sem hann fer að heiman, því þá koma þau aldrei framar í eina sæng.

Ef maður kveður í rúmi sínu, þá tekur maður fram hjá.

Ef kona, sem er með barni, horfir á norðurljós, þá tinar barnið, sem hún geingur með.

Ef þúnguð kona borðar gómfillu (úr sel), þá verður barnið holgóma.

Ef vanfær kona stígur yfir um breyma kött, verður barnið viðrini, (aðrir segja vitfirríngur.)

Ef ólètt kona hleypur mikið, þá verður barnið lopthrætt.

Ef þúnguð kona geingur undir hálfrept hús, (sem verið er að reisa), getur hún ekki fætt, nema rept sè yfir hana (eða barnið getur ekki dáið, nema krosstrè sè reist yfir því).

Ef þúnguð kona geingur milli bols og höfuðs á einhverri skepnu, getur hún ekki fætt, fyrr en hún er látin gánga aptur með jóðsóttinni milli bols og höfuðs á einhverri skepnu.

Ef ólètt kona situr á móti túngli, svo það skíni á brjóst henni, þá verður fóstur hennar túnglsjúkt.

Ef ólètt kona borðar steinbíts-óþola, verður barnið, sem hún fæðir, aldrei kyrt.

Ef ólètt kona borðar rjúpuegg, verður barnið freknótt.

Ef vanfær kona borðar valslegna rjúpu, eða annan fugl, verður barnið með valbrá.

Ef þúnguð kona drekkur vatnsleifar jórturdýra, þá jótrar barnið.

Ef kona barnshafandi setur pott á hlóðir, svo annað eyrað snúi upp, en hitt fram, verður barnið annaðhvort með fjórum eyrum, eða það hefir annað eyrað á enninu, en hitt á hnakkanum.

Ef ólètt kona borðar selshöku, verður skarð í hökuna á barninu (Pèturs spor?).

Ef vanfær kona borðar með spæni eða skel, sem skarð er í, verður skarð í vör barnsins, sem hún geingur með.

Ekki má sverfa í bæ, þar sem kona liggur á gólfi, því þá fæðist barnið andvana.

Ef gaungumaður geingur með poka, bundinn á sig, inn í bæardyr, án þess að leysa hann af sèr, hefir barn það herðakistil, sem kona geingur með á bænum.

Ef geingið er á mannbroddum, eða stúngið niður broddstaf inni í húsum, svo að ólètt kona gángi yfir broddholurnar, verða holur upp í íljarnar á barninu, sem hún geingur með.

Ekki má bera sauðaband í bæ, þar sem þúnguð kona er, því þá verður gul rák á barninu um brjóst þess og handleggi.

Ekki má bera hrafnsfjöður ósærða í bæ, nema áður sè bitið á broddi hennar, annars getur barn það ekki talað, sem kona geingur með.

Ekki má fleygja málbeini fyrir hunda, eða í sorp, þar sem ómálga barn er á bæ, eða í móðurkviði, því þá fær barnið aldrei mál sitt, heldur skal stínga beininu í veggjarholu, eða geyma vel á annan hátt, og fær barnið þá því fljótara málið.

Ekki má gefa úngbarni lifur, nema það geti nefnt „lifur,“ annars getur það aldrei nefnt „l“ (ellið).

Ekki má brjóta fótlegg úr kind, því þá fótbrotnar sauðkind, sem maður á eða eignast.

Ekki má jeta eyrnamark af kindarhöfðum, þá verður maður sauðaþjófur.

Ekki má jeta smèr við hángiketi, því þá verða menn aldrei jarðeigendur.

Ekki má drepa sauðalús (færilús), þá verður maður aldrei heppinn með sauðfè.

Ekki má slíta niður dordíngul, nè rífa viljandi kóngulóar vef, því það er ólánsmerki.

Þegar dordíngull hángir niður í húsum, skal ekki slíta hann niður, sem hèr segir, heldur skal bregða undir hann handarbaki, og segja: „Upp, upp, fiskikarl, kona þín liggur veik á sæng (kona þín liggur á gólfi), 18

börn í fángi;“ eða: „Róðu neðan fiskikarl, upp, ef þú veizt á gott, niður, ef þú veizt á ílt.“

Ekki má kveða eða sýngja í búri, því þá kveður maður sult í búrið, eða „sýngur óblessun í búrið.“

Ekki mega fiskimenn kveða eða sýngja við færi sitt eða vörpur, eða vararruðníng, því fylgir óblessun.

Ekki má hundur koma nærri veiðarfærum, það gerir veiðiglöp, eins ef hundur er hafður í skipi.

*Ætíð er sultur og seyra í því búi, sem mikið er veitt af rjúpum.*

Ekki má kemba sèr í rúmi sínu, því þá verður maður karlægur, nema maður segi: „kasta eg frá mèr kör, en ekki kambi.“ Ef kona kembir sèr þannig, kemst hún hart niður að börnum sínum, eða hún missir mann sinn.

Ef snældu er snúið eða spunnið niður í höfuð á barni, vex það ekki úr því.

Ef börn klippa mat sinn með skærum, í stað þess að skera hann með hníf, þá vaxa þau ekki meira.

Ef menn skera matarbita frá sèr, í staðinn fyrir að skera hann að sèr, sker maður bita handa skollanum.

Ef maður spreingir líknabelg í bæarhúsum, þá skemtir maður skollanum.

Ekki má ólæs (aðrir segja óskrifandi) maður skrifa eða pára á þil eða svell eða snjó, þá skrifar hann sig til skollans. Sagt er, að einu sinni hafi maður verið að pára á svell með stafbroddi, og þegar hann hafði verið að því lánga stund, kom til hans maður, og spyr hann, hvað hann sè að gera. Hann segist vera að pára út svellglottann þann arna að gamni sínu. Hinn bað hann bíða, meðan hann að gætti, hvað mikið væri komið, og gerði skrifarinn svo; en komumaður fer að hyggja að párinu og segir: „Nú vantar að eins fáa stafi, til þess þú skrifir þig til skollans.“ Komumaður var raunar eingill, sendur af himni.

Ef maður brennir viljandi af sèr hárið, brennir maður af sèr auðinn.

Ef berfættur maður færir sig í alt fyrst á annan fótinn, færir hann sig í ógæfuna, (tekur framhjá), og færi hann sig úr öllu á öðrum fætinum, færir hann sig úr gæfunni (skemtir hann skrattanum).

Ef maður slítur gras það, sem vex inn um glugga, eða niður um húsþekju, (húsheigul) þá missir maður einhvern ættíngja sinn.

Ef maður faðmar dyr (heldur sinni hendi á eða um hvorn dyrastaf), vill maður að minnsta kosti einhvern feigan af þeim, sem inni eru.

Ekki má bera hrafntinnu í bæ, hún vekur ósamlyndi milli fólksins (hjónanna).

Ekki má bera eld í bæ, þar sem eldur er fyrir, því það á að auka ósamlyndi.

Ef maður (barn) geingur aptur á bak, geingur það móður sína ofan í jörðina.

Ef óstaðfest barn tekur undir stálma kú, flýgur undir hana.

Ef börn blóta, kemur svartur blettur á túnguna á þeim.

Ef barn kveykir á hríslukvisti eða spýtu, og veifar því til og frá, eða með eldinum í, þá pissar það undir nóttina eptir.

Ef barn er látið út um glugga, á ekki að láta það inn um dyr aptur, því það vex þá ekki framar, heldur skal láta það inn um gluggann aptur.

Ef börn sýngja eða kveða yfir mat sínum, blessast þeim hann ekki (verða jafnsvaung eptir sem áður).

Ef maður hristir hóbandið með ketilkrókunum, þá skemtir maður skrattanum.

Ef tveir kveða í einu, sína vísuna hver, þá skemtir maður skrattanum.

Ef maður situr auðum höndum, situr maður undir sjö djöflum, en hampar þeim áttunda.

Ef maður geingur með hendurnar fyrir aptan bakið, þá teymir maður djöfulinn, og er það íllt verk.

Ef ræðari lætur nokkuð af árarhlumunum standa aptur úr hendi sinni, þá rær djöfullinn með honum.

Ef maður skilur eptir orf sitt, og brýnir ekki ljáinn áður, þá skítur skrattinn á eggina á meðan, svo ljárinn bítur aldrei á því deingsli.

Ef maður lætur sèr vaxa stórar neglur, og sker þær af allar í einu, óhlutaðar, þá skæðir maður skrattann.

Þegar maður sker neglur sínar eða klippir, skal æfinlega skera hverja nögl, klippa eða bíta í þrent, því annars eykur fjandinn saman úr þeim heilt umfar í náskipið. Þó er enn sú sögn um neglur, ef þær eru skornar heilar, að fjandinn auki þær saman, og gjöri úr þeim fögur skip eða róðrarferjur. Aðrir segja, að hann negli að eins skipið saman með þeim. Eitt sinn bar svo við undir Jökli, að skipshöfn ein gekk til sjávar. nokkru seinna en aðrar, og að skipi því, er hún ætlaði að væri sitt, því það stóð á sama stað; skipverjar hrundu fram skipinu í ákafa, því þeir þóktust hafa helzt til leingi sofið. En þegar þeir voru komnir skamt frá landi, sökk skipið undir þeim, og týndust allir, sem á því voru. En það sögðu þeir, sem fyrr reru þennan morgun úr sömu vör, að þeim hefði virzt skip þetta samsett af eintómum mannsnöglum, og þó furðu fagurt. Þessar sagnir um naglaskurð og um sól í úlfakreppu[1] eru auk þeirrar venju, sem enn er algeing, að skera bjóra úr skó fyrir tá og hæl[2] nálega þær einu leifar, sem eg veit til að loði eptir af goðasögunum hèr á landi.

Ef maður lætur skera hár sitt með þverrandi túngli, þá þverrar hárið, eða rotnar af, en vex, ef það er skorið með vaxanda túngli.

---

1. Sbr. IV, 4. úlfur og gill.
2. Sbr. Snorra-Eddu 1. Hafnarútg. 192. bls. Reykjavíkur útg. 42. bls.

Ef maður snýr sèr til norðurs, meðan hár manns er skorið og neglur, verður maður skammlífur.

Ef maður veifar í kríngum sig staf, eða keyri eða tág, eða einhverju því, sem þytur kemur af, þá fælir maður frá sèr heilagan anda; aðrir segja: „það má ekki, því einginn veit, hvað í loptinu býr.“

Ekki má benda á himintúngl eða tala óvirðulega til þeirra, því þá kemur manni einhver hefnd.[1]

Ef steini er kastað í sjó, reiðist hann og kemur hafrót, sem mörg skip farast í.

Ef steini er kastað yfir skip, þegar það leggur frá landi, þá ferst það, og kemur ekki að aptur.

Ef bent er á skip á sjó, eða þau eru talin, þá farast þau.

Ef sorpi er sópað af bæarhlaði, þá kemur ofsahríð.

Ekki má gretta sig í spegil, því þá verða menn afskræmdir í andlitinu.

Einginn mundi gefa öðrum sonarfisk, og ekki góð móðir barni sínu, ef hún vissi, hvað við lægi.[2]

Ef hundur stígur ofan í ílát, sem borðað er úr, fær sá hundspör (útbrot) á hendur og andlit, sem borðar úr ílátinu.

Ef prestur rær á sjó, skal hafa kirkjuna opna á meðan, og kemst hann þá heill á hófi að landi, en annars ekki; ekki má heldur viðra bækur, meðan prestur er á sjó.

Ef maður borðar selsnýra, og gefur vini sínum með sèr, svo báðir neyta, verða þeir óvinir alla æfi upp þaðan.

Ef maður borðar hríngorm í fiski, fær maður hríngorma (útbrot) á útlimi

Ef skar af ljósi logar, þegar því er kastað á gólfið, skal ekki slökkva það, heldur láta það deya sjálft. Er það hið mesta miskunarverk; en hver, sem út af því bregður, verður stakur ólánsmaður. Þessu er svo varið, að austur í heimi er þjóð ein, sem hvorki hefir frið nè viðþol, leingur en slík skör lifa. Aðrir segja, að álfar kveyki ljós hjá sèr við skör þessi.

Ef maður lætur ljós smá-drepast, og kvelur það, þá berst maður leingi við öndina.

Ekki má drekka af pottbarmi eða stíga yfir pott, því þá getur maður ekki skilið við, nema potti sè hvolft yfir höfuð manns í andlátinu.

Ef maður lætur sokka sína undir höfuð sèr, getur maður ekki dáið, nema sokkar sèu látnir undir höfuð manns deyandi.

Ef rjúpnafiður er eingaungu í sæng manns, þá getur maður ekki dáið.

---

1. Sbr. IV, 4. grein.
2. Þetta er haft eptir tröllkonu.

## 2. GREIN.

### FYRIRBURÐIR.

Það er, eins og áður var sagt, einkennilegt við þessa grein, að allir þeir fyrirburðir, sem hèr lúta undir, verða manni ósjálfrátt, og eiga að því leyti að koma fram við hann, án þess hann sè að þeim valdur, og lítur það svo út, sem æðri stjórn eigi að gefa manninum slíkar bendíngar fyrir fram. Þegar eg hefi fyrst tiltínt þá illsvita, sem eg hefi heyrt, hnýti eg þar aptan í nokkrum greinum, sem lagðar eru til varnanar og úrræða úr illsvitum.

Ef maður tekur heima í kirkjugarði, þá er maður feigur.

Ef fjörfiskur spriklar í hvirfli manns og iljum undir eins, þá er maður feigur.

Ef tveimur dettur sama í hug í einu, þá er sá feigur, sem seinni verður til að segja hugsun sína, nema hann segi um leið: „Eg er ekki bráðfeigari en guð vill"; þá er hvorugur feigur. (Aðrir segja, að sá sè feigur, er fyrr segir, eða hann fái nýtt fat.)

Ef brothljóð eða brestur heyrist í máttarviðum í bæarhúsum, þá er húsbóndinn feigur.

Ef eldur deyr á bæ milli fardaga og Jónsmessu, er húsmóðirin feig.

Ef ljós deyr á jólanótt, þá er einhver feigur á bænum.

Ef maður heyrir hljóm fyrir eyrum sèr, öðru eða báðum líkt því, sem klukkum væri hríngt í fjarska, boðar það, að maður heyri mannslát innan skamms. (Hljómurinn heitir klukkna-hljóð.)

Ef maður sèr stjörnuhrap, heyrir maður innan skamms mannslát úr þeirri átt, sem stjarnan hrapaði í.

Ef hrafn situr á þekju yfir sjúkum manni, og krúnkar mjög, eða heggur í þekjuna, þá er hinn sjúki maður feigur.

Ef grös eða brèfa-afklippur leggjast af sjálfsdáðum í kross á baðstofugólfi, þá er einhver feigur í bænum.

Ef heilbrigður maður finnur snögglega til ólystar, þegar hann smakkar matarleifar annars manns, er sá feigur, er fyrr borðaði.

Ef rignir í opna gröf, á undan, eða meðan verið er að taka gröfina, eða grafa, er sagt, „að rigni í moldirnar," og merkir það, að ekki líði á laungu, að grafið verði aptur. Bezt þykja þurviðri við greptrun, og er þá sagt, að „þeim dauða gefi vel í moldina."

Ef maður fer í öfugan sokk að morgni dags, svo að hællinn verður fyrir tánni, á manni að gánga eitthvað á móti þann dag.

Ef manni er heitt á öðrum fæti, en kalt á hinum, öfundar mann einhver.

Ef maður blóðgar sig við líkkistusmíði, er einhver feigur í nánd.

Sjaldan geispar einn, þegar tveir eru, nema feigur sè, eða fátt í milli (sbr. sjaldan er geispi af góðu hjarta, nè hixti af huga góðum).

Ef sokkaband dettur af trúlofaðri mey, eða manni, verður það þeirra svikið í trygðum, sem bandið losnaði af.

Ef tveir menn deya á einu missiri á sama bæ, þá er hinn þriðji feigur.

Ef kirkjuklukkur hríngja sèr sjálfar, þá er sóknarpresturinn feigur.

Ef hrafnar fljúga í kross yfir kirkju, þá er einhver feigur í sveitinni.

Ef margar kindur ásækja eina í húsi, þá drepst hún bráðum.

Ef hæna galar, galar hún óhamíngju yfir heimilið.

Ef snæljós fer fyrir glugga, þar sem ljós logar inni fyrir, rètt við gluggann, hleypur snæljósið saman við logljósið, og brennir svo bæinn. Það bál verður ekki slökt með öðru, en blóði sjö skilgetinna bræðra, þeirra er eingin stúlka hefir fæðzt á milli.

Sagt er, að sá, sem fæðist tveimur nóttum fyrir Pálsmessu (25. Janúar) eða næsta dag fyrir Agnesarmessu (21. Janúar), eða átta nóttum fyrir Brígitarmessu (1. Febrúar), að þess manns líkami fúni ekki nè rotni til dómsdags.

---

Aldrei má opna glugga á næturtíma, aðrir segja vetrartíma, nema áður sè krossað fyrir; annars koma óhreinir andar inn um gluggann.

Ef bönd eru á líkkistu, skal skera þau af, áður en kistunni er hleypt niður, svo hinn framliðni geti risið upp á dómsdegi.

Þegar maður deyr í baðstofu, getur sálin ekki komizt út, nema skjárinn sè tekinn úr. Þegar menn ætla, að sálin sè komin út, skal láta skjáinn í öfugan, svo hún komizt ekki inn aptur.

Ef maður mætir líkfylgd, má ekki gánga beint á móti líkinu, því þá verður fyrir manni íllur andi, sem fer á undan líkinu (mætir þá óvinurinn manni, eða svipur mannsins).

Ef maður situr á bæarþröskuldi, sækja að manni reimleikar.

Það er við sjósótt, að skera grassvörð úr kirkjugarði, og láta í skó sína, áður en á sjó er farið.

Ef maður ber á sèr tönn úr einlitum svörtum hundi, þá gelta ekki hundar að manni.

Ef maður hefir upp í sèr tönn úr dauðum manni, fær maður ekki tannverk og batnar hann af því.

Ef maður þjáist af hlustarverk, skal taka nagla úr höfðagafli á líkkistu, sama megin og maður hefir hlustarverkinn, og halda honum í hlustinni; mun þá fljótt taka úr allan verkinn.

Ef maður finnur dauðan mann, sem úti hefir orðið á víðavángi, skal maður hagræða honum eitthvað, eða breiða eitthvað yfir andlit honum, því annars fylgir hann manni.

Ef maður kemur þar, sem lík liggur í húsi, skal maður bregða

krossmarki yfir það með hægri hendi, um leið og maður heilsar öðrum heimamönnum.

Einginn draugur er svo magnaður, að hann ráðist framan að alsberum karlmanni; því er það bezta ráð, að fara úr öllum fötum, þegar maður á draugs von.

Ef maður er í fötum sínum úthverfum, getur aldrei um mann vilt. Úthverfur vetlíngur vísar á dyr í dimmu húsi.

Ef maður leggur skyrtu sína úthverfa ofan á sig, áður en maður fer að sofa, þá sækir ekki að manni.

Ef maður þykist hafa oflítinn byr á siglíngu, skal maður fara úr skyrtunni, og týna úr henni lýsnar í seglið, og mun byrinn þá brátt vaxa.

Ef maður hefir vörtu á sèr, og vill ná henni af, skal núa um hana mold þeirri, sem næst liggur beinum rotins manns úr kirkjugarði, og mun hún þá detta af.

Ef kona eða skepna getur ekki komizt frá fóstri sínu, þarf ekki annað en hnýta sigurhnút og sigurlykkju upp yfir henni; það skal gera þrysvar sinnum. Fæðir þá móðirin fljótt og þjáníngalítið.

Ef maður getur ekki skilið við, skal breiða messuhökul yfir andlit manni, og mun hann þá andast.

Ef maður getur ekki sofið, skal leggja hökul undir höfuðið á honum, svo hann viti ekki af, eða nöfn hinna sjö sofenda, skrifuð á blað, eða Davíðs-saltara.

Ef maður fær áblástur á varir, þarf ekki annað en fara í eldhús, og kyssa hóinn þrisvar, og kveða þetta í milli:

„Heill og sæll, hór minn;
er húsbóndinn heima?
Eg skal kyssa snös þína,
ef þú græðir vör mína.“

Ef maður fær bólu á túnguna, skal maður segja: „Ein bóla á túngu minni, eingin á morgun“ o. sv. fr. Þángað til 20 eru komnir; þá skal aptur telja öfugt og byrja svo: „Tuttugu bólur á túngu minni, eingin á morgun, nítján bólur“, o. sv. fr. þángað til maður hefir aptur talið „ein bóla.“ Skal lesa þessar runur rètt og öfugt sjö sinnum, aðrir segja þrysvar, á kvöldin, áður en maður sofnar; er þá bólan horfin að morgni.

Þegar maður stíngur sig á nál, skal stínga henni í trè; þá batnar sviðinn.

Ef maður missir tönn, skal stínga henni í veggjarholu, eða láta hana í leiði í kirkjugarði; annars kemur aldrei tönn í skarðið.

„Guð hjálpi mèr“, segja menn, þegar menn hnerra, eða: „Guð hjálpi þèr“, þegar annar hnerrar. Þessi siður er fyrst kominn upp i Svartadauða; hann gekk í hèraði einu, sem annarstaðar hèr á landi, og strádrap alt fólk. Loksins kom hann á einn bæ, þar sem tvö systkin

voru; þau tóku eptir því, að þeir, sem dóu á bænum, feingu fyrst geysilega hnerra; af þessu tóku þau upp á því, að biðja guð fyrir sèr, og hvort fyrir öðru, þegar þau feingu hnerrana; og lifðu þau tvö ein eptir í öllu hèraðinu. Af þessu skal jafnan biðja guð fyrir sèr, þegar maður hnerrar, og deyr þá einginn af hnerrum.

Ef maður lýsir veikindum annars manns, eða talar um þau, skal maður æ bæta þessu við: „Á honum (henni), en ekki mèr." Annars fær maðurinn sama sjúkdóminn.

Ekki skal segja óvin sínum, hvar fjörfiskur spriklar í manni, því ekki þarf annað en berja á fjörfiskinn; þá er maðurinn dauður.

Ef karlmaður eða kona deyr, svo þau hafi ekki átt neitt barn, er það þeirra hegníng í Valhöll, að maðurinn á að þæfa hæru, en konan að skaka handstrokk til dómsdags.

Ef maður drepur jötunuxa með litla fíngri á vinstri hendinni, verður maður laus við sjö stórsyndir.

Alt það, sem menn óska sèr, og fá ekki, fær kellíngin í Valhöll, nema sagt sè, um leið og maður óskar:

„Vatn og salt í Valhöll,
en óskin öll til *mín*."

Ekki skal mæla nýbæru mjólk í fyrsta sinni, sem undir hana er farið, því þá græðir hún sig ekki meir. Ekki skal heldur bera mjólkina í baðstofu, nè undir bert lopt; varlegra er og að krossa kúna, ofan og neðan, þegar hún er mjólkuð í fyrsta sinni, annað og þriðja; á hún þá að græðast betur.

Alla smèrvali (smèrvalsuga) eða smèrvalsigla (sbr. gleypibein) skal grafa svo djúpt í jörð, sem verður, og lesa þetta yfir: „Verðu mig eins vítis-kjapti, sem eg ver þig hunds-kjapti."

Smèrvalsigillinn er bein í sauða og gripalærum, þar sem mætist bóndahnúta og lángleggur; hann heitir gleypibein; má ekki fleyga honum fyrir hunda, því það er fríður kóngsson í álögum, og forðar manni fjárdauða, ef maður annaðhvort gleypir hann (og þaðan er nafn hans dregið) eða stíngur honum í veggjarholu; og segir um leið: „Eg stíng þèr í veggjarholu; forðaðu mèr fjárdauða, fyrst eg forða þèr hunds-kjapti." Ef allir gerðu svo, kæmist hinn fríði kóngsson úr álögum.

Þokan er kóngsdóttir í álögum, og leysist úr þeim, þegar allir smalar taka sig saman um og blessa hana.

Aldrei tjáir að leggja lagvað í sjó, nema grár hrútur, tarfur eða hestur sè áður leiddur yfir vaðinn; annars á ekki að aflast í hann.

Hákarlinn væri óætur sjóormur, ef hið helgaða þorskroð bætti hann ekki; (það mun eiga að borða saman hákarl og þorskroð?)

Alt er matur, sem í magann kemst, nema óskafið gedduroð og ósoðnar holtarætur.

Þegar fènaður er fluttur af einni jörð á aðra, skal gæta þess, að koma með hann í þá landareign, sem hann á að vera í, með aðfalli; því þá unir hann; en ef hann kemur þángað með útfalli, vill hann æ strjúka þaðan.

Þegar settir eru strompar (reykháfar) í nýbygð eldhús, eða lagðar hlóðir, skal gæta þess, að gera það með útfalli; annars verður eldhúsið reykjarrass mesti.

Þegar hlaðin er stekkjarkví, skal þess gæta, að hlaða kampana með aðfalli, svo fèð gángi vel inn.

Þegar fènaður er skorinn til slátrunar, skal gæta þess æfinlega, að skera með flóði, því þá verður blóðið þriðjúngi meira í skepnunni.

b) Þessu næst eru aðrir fyrirburðir, sem boða mönnum eitthvað gott, heill eða höpp, og eiga að hlotnast hverjum einum án alls tilverknaðar. Skoðun manna á uppruna þessara fyrirburða, sem kallaðir eru góðsvitar, hefir að öllu leyti verið hin sama, sem á íllsvitunum. Hèr eru nú fáeinir góðsvitar.

Ef ókvæntur maður er góður við ketti, boðar það, að hann verði á síðan góður við konu sína.

Ef maður hefir vörtu, svo hvorki hylji hár nè klæði, nè maður sjái hana sjálfur, þá er það auðsmerki.

Ef maður er neðarlega hærður á hálsinum, verður hann auðmaður.

Mikil undirhár eru auðsmerki.

Ef maður sker sig á fíngri, meðan maður er að borða, á manni að gefast nýr matur.

Ef hnútur hleypur á sokkaband manns, heitir hann lukkuhnútur, og á manni þá að gefast eitthvað (sumir segja þann dag), en ekki skal leysa hnútinn, fyrr en eptir 3 daga.

Ef skór manns nýr er aukinn, á manni að gefast eitthvað, áður en skórinn er slitinn.

Ef maður hnerrar í rúmi sínu á sunnudagsmorgni, á manni að gefast eitthvað þá viku.

Betra en ekki er að hnerra á mánudagsmorgni; því svo sagði tröllkonan: „Betri er mánudags-hnerri, en móðurkoss“, og má ætla á það, því eins og tröll eru trúlynd, eins eru þau sannorð.

Ef maður hnerrar á nýársmorgun í rúmi sínu, þá lifir maður það ár.

Ef maður kemur á bæ, meðan verið er að borða, er sá hinn sami ekki feigur.

Ef maður finnur ryðjárn milli krossmessu og fardaga, á manni að gefast eitthvað úr kaupstað það sumar.

Ef maður er saursæll, verður maður auðsæll.

Ef mann klæar hökuna, á hann að smakka nýnæmi.

Ef mann klæar lófana, á manni að bætast eitthvað. Ef mann klæar hægra lófann, á maður að láta úti, en taka inn, ef mann klæar vinstri lófann.

Ef hnútur rennur á vindíngar (teingsli) þær, sem sjómenn hafa í skinnklæðum sínum, eða ef lykkja hleypur á færi þeirra, heitir hún fiskilykkja, og boðar það stórhöpp. Þegar happið er feingið, skal leysa hnútana eða lykkjuna. Af því, þegar slíkir hnútar eða lykkjur renna á, er komið orðtækið: „þar hljóp á snærið fyrir þèr."

Ef karlmaður finnur ryðgaða skeifu, á hann vís jafn-mörg hundruð til hlutar næstu vertíð, sem hann rær eptir, sem götin eru á skeifunni, og hundrað fyrir hvern nagla.

Ef maður hnerrar í net sín, meðan hann ríður þau eða bætir, verða þau fiskin.

Losni karlmanni skóþveingur, er hann kominn að giptíngu.

Til giptíngar vilja menn helzt gott veður, en þó þykir það meir bæta en spilla, ef hæg dögg eða hjúfur-skúrir koma upp úr hjónavígslu, því það boðar frjóvsemi og búsæld og samlyndi hjóna; en stórrigníng og steypihvolfur þykja ofviða.

c) Í þriðja lagi eru enn nokkrir fyrirburðir, sem mætti kalla fyrirboða, þó bæði orðin sèu jafnast höfð í sömu merkíngu. Þessir fyrirburðir boða hvorki gott nè íllt, svo maður geti sagt, eða þá hvorttveggja jafnframt, eptir því sem í kreddunni liggur. Þeir eru, eins og hitt, sem áður er talið, teknir af ýmsum hlutum í náttúrunni og af manni sjálfum, en eru manni þó öldúngis ósjálfráðir. Hèr eru þá nokkrir slíkir fyrirboðar.

Ef íleppur geingst upp úr skó manns að utanverðu, þykist þjónustan manni ofgóð; en gángist íleppurinn upp úr skónum innanfótar, þykist maðurinn henni ofgóður. Aðrir segja, að þá þykist konan manni ofgóð.

Ef stóra tá og næsta tá við hana eru jafn-lángar, þá eignast maður eða kona jafnræði sitt; en sè næsta tá leingri, tekur maður upp fyrir sig, en sè hún minni, tekur maður niður fyrir sig.

Ef mann klæar vinstri augabrúnina, geingur manni eitthvað í vil, en á móti, ef mann klæar hina hægri. En sumir segja þvert á móti.

Ef mann klæar augun, er það fyrir gráti.

Ef mann klæar nefið, veit það á, að maður reiðist innan skamms.

Ef mann klæar hlustina innan, er það kallað, að mann bori í eyrun, og er fyrir tíðindum.

Ef mann hitar í hægri kinn, er illa talað um mann, en vel, ef mann hitar í hina vinstri. Hin vinstri er vina-kinn.

Ef mann klæar munninn, á maður að smakka nýnæmi.

Ef konu klæar greipar, verður hún bráðum sókt til að sitja yfir.

Ef maður hixtar, er maður þar á orði, sem maður er ekki að borði.[1]

Ef mannshár er mjúkt átaks, grant og línlegt, er það vottur þess, að maðurinn sè geðgóður, en gagnstætt háralag boðar gagnstætt lundarlag.

Ef maður eða kona eru hársár, veit það á, að hann verði hræddur um konu sína, en hún um mann sinn.

Ef mann kitlar í iljum, verður maður hræddur um konu sína.

Þegar mann eða mey hættir að kitla, eru þau ekki leingur hreinn sveinn eða hrein mey (sbr.: „þú ert búinn að taka af þèr kitlurnar“).

Ef einn lætur húfu á annan, og fari hún svo vel, að hinn þurfi ekki að hagræða henni á eptir, á sá, sem lèt húfuna á hinn, að ráða giptíngu hans.

Ef kona eða stúlka slær sandi á fætur ókvæntum manni, kvongast hann ekki það ár til jafnleingdar. Aðrir segja, að þá ráði sú kona ráðahag mannsins.

Ef barn fæðist með tönnum (tveimur), verður því bæði fljótt til máls og skáld. Þær tennur heita skáldagemlur.

Ef börn taka snemma tennur, verða þau skammlíf, en lánglíf, ef þau fá seint tennur. Ef maður nær með túngunni upp í nefið á sèr, er það víst að vænta, að sá hinn sami er skáld; sbr. þátt af Þorleifi jarlaskáld, er hann togar túnguna á Hallbirni hala, og gerir hann svo skáld.[2]

Ef maður þolir vel þraungan skó, þolir hann síðar vel konuríki, og eins gagnstætt.

Ef mann klæar iljarnar, á maður að stíga í feigs manns för.

Ef elzti maður á heimili hnerrar, meðan farið er með matfaung, á einhver svángur að koma og borða af þeim mat. Það er kallað að hnerra öðrum gest; en hnerri ýngsti maður, hnerrar hann meiri mat í húsið.

Ef manni svelgist á, meðan maður er að borða eða drekka, lángar einhvern, sem nærstaddur er, í það, sem borðað er. Aðrir segja, að þá komi einhver svángur. Þegar einhverjum svelgist á, er kallað að „sæki í hálsinn á honum“, og sagt: „Njóttu betur, en niður geingur.“

Ef saumakona stíngur sig á nál, meðan hún er að sauma fat, á einhver að fá ást á þeim, sem fatið á, fyrr en það er slitið.

Ef lús skríður á nýu fati manns eða meyar, meðan það er í saumum, eða meðan verið er að prjóna það, á sá að eignast barn, sem fatið á, áður en fatið er fullslitið.

Ef hrækt er á föt manns, á manni að gefast nýtt fat aptur af þeim, sem hrækti, en hræki maður á sig sjálfur, á að verða logið upp á mann.

Ef maður kemur inn aptur á bæ eða í hús, þar sem maður er búinn að kveðja, á maður að eiga þángað apturkvæmt í annað sinn, eins ef maður skilur eitthvað eptir, hvort maður kemur í það sinn eða ekki.

---

1. Ísl. Árb. IV. 41. bls.
2. Fms. III. 103. bls.

Ef maður leggur í ógáti af sèr hrífu á sumardag, svo að tindarnir snúi upp, veit það á regn, og er kallað, að „hrífan spái regni", eða „kalli ofan regn."

Þegar maður finnur hreiður í fyrsta sinni á æfi sinni, skal hafa tölu á eggjunum, og ekki brjóta neitt þeirra; því svo mörg börn á maður að eiga, sem eggin eru mörg, og svo mörg að missa, sem maður brýtur mörg eggin. En ef fúlegg eru, á maður að eiga jafn-mörg lausaleiksbörn.

Ef maður geispar í rúmi sínu á þeim bæ, sem maður er nýkominn að, áður en maður sofnar, verður maður þar ekki leingi.

Ef tveir þvo sèr úr sama vatni, rífast þeir, áður lángt um líður. Aðrir segja, að börn þeirra eigi að verða lík.

Kallað er, að köttur setji upp gestaspjót, þegar hann sleikir sig eða þvær sèr liggjandi, svo að önnur frammlöppin, aðrir segja apturlöppin, stendur upp í loptið, og boðar það gestakomu.

Melflugur heita gestaflugur, þegar þær fljúga opt um hús manna og híbýli, er þá jafnan gesta von.

Menn kalla, að hundur bjóði gestum, ef hann liggur fram á lappir sínar, og snýr hausnum móti dyrum. Ef hann leggur hausinn ofan á hægri löppina, á einhver meiri maður að koma; en snúi hundur rassi að dyrum, en horfir þó til dyra og liggur í kríng, þá kemur einhver ófrómur. Aðrir segja, að hundurinn bjóði frómum, ef hann leggur trýnið beint fram á lappirnar, en ófrómum, ef trýnið stendur út af öðru hvoru megin.

Ef hnífur eða skæri eða önnur tól, sem oddur er á, dettur úr hendi manns, og standi á oddinn í gólfinu, veit það á, að einhver komi kjöptugur. Aðrir segja, að þá sè maður ekki feigur.

Ef lykt finnst í húsum áþekk súrsmèrslykt, er hún ýmist kölluð fylgju-lykt eða loka-lykt; þegar hún er kölluð fylgju-lykt, er gesta von, því það er lyktin af fylgju þess, sem kemur, þó maður sjái ekki fylgjuna sjálfa; en þeir, sem kalla hana loka-lykt, segja, að óhreinn andi sè í nánd, eða að eiturormur liggi þar ofarlega í jörðu, sem hún finnst; hvort heldur sem er, er ætíð varlegra, að skirpa í allar áttir, því sú lykt er af illum toga spunnin.

Ef maður dettur, þegar maður fer að heiman, boðar það heill, en óheill, ef maður dettur á leiðinni heim; því „fall er farar heill frá bæ, en ekki að."

Ef hundar gelta ekki að komumanni, þá er hann ófrómur.

Sagt er, að sá, sem fæddur er á sunnudegi, sè fæddur til sigurs, á mánudag til mæðu, á þriðjudag til þrifa (þrautar), á miðvikudag til moldar, á fimmtudag til frama, á föstudag til fjár, á laugardag til lukku. Ekki er trútt um, að menn hafi ekki haft hliðsjón af þessari kreddu, þegar eitthvert fyrirtæki hefir verið byrjað.

Ef þrjár arnir fljúga hver á eptir annari, er það fyrir stórtíðindum.

Ef hár manns logar, þá er maður ekki feigur, en feigur, ef það sviðnar.

Ef kona setur upp karlmanns hatt, er það merki um, að henni lízt vel á manninn.

**Varðrispur.** (Eptir sögn manna í Borgarfirði.) Það er altítt að menn finna á sèr rispur, sem þeir vita ekki hvernig sèu undir komnar. Liggja sumar eptir manni endilaungum, en sumar þversum. En svo stendur á, að hverjum manni fylgir ein vættur góð, og kalla menn hana „varðeingil" þess manns, sem hún fylgir. Nú vita menn og, að hinir illu andar, sem jafnan eru til alls íls búnir, ásækja mennina. Þessir illu andar rispa þá á mann ógæfurispur, og liggja þær lángs eptir manni. Þá kemur varðeingill mannsins, og bætir úr hinum illu rispum með því að rispa þvert yfir þær. Þessar þverrispur varðeinglanna heita „varðrispur." Hinar, sem lángs liggja, eru óheillarispur, en þverrispurnar heillarispur.

---

## 3. GREIN.

### FYRIRBOÐAR UM VEÐRÁTTUFAR OG ÁRFERÐI.

Þó ýmsir fyrirboðar um veðráttufar hafi ef til vill slæðzt hèr og hvar inní að framan, veitir ekki af að gera hèr glöggari grein, en áður hefir verið kostur á, fyrir nokkrum slíkum fyrirboðum, sem enn er talsvert eptir af hèr á landi, og sem fyllilega benda til þess, að mönnum hafi ekki verið allir tímar jafntrúir, heldur hafi þeir tekið mark bæði á ýmsum atburðum í náttúrunni, dögum og jafnvel leingri tímabilum, og ætlað að af því mætti ráða veðráttufar og árferði um skemmri eða leingri tíma, og jafnvel árið um kríng. Hèr eru þá nokkur dæmi til þessa, þó sum þeirra sèu í ljóðum.

**a) Almennar kreddur um veðráttufar.**[1]

Köttur spáir hláku (góðu veðri), ef hann þvær sèr aptur fyrir hægra eyrað á vetrardag.

Ef köttur teygir sig, svo klærnar standi mjög fram af framlöppunum, veit það á hvassviðri (er það kallað, að kötturinn hvessi klærnar, eða að hann taki í klærnar, ef hann teygir sig).

Ef gamlir kettir leika sèr á vetrum, veit það á illviðri.

Spá skal áttum á vetrardag eptir því, í hverja átt kötturinn klórar trè.

Trú þú aldrei vetrarþoku, þó ekki sè nema ein nótt til sumars.

Það veit á harðan vetur, ef hestar liggja í haga fyrir miðjan vetur.

1. Mörg önnur merki um veðráttufar eru talin í „Atla." Kh. 1834. 26. kap. 152.—166. bls.

Þegar mikið sèst dökt í jökulhúfunni á Herðubreið, veit á vondan vetur, og gagnstætt.

Þegar fönnina tekur alveg upp úr Sellandafjalli (við Mývatn), er von á fellivetri.

Eins og vetrarkvíðinn er hár á haustin, eins djúpur verður snjór á veturinn.

Það veit á góðan vetur, ef þrysvar snjóar á fjöll fyrir lok Augustmánaðar, þeir snjóar heita „vetrarkálfar“. Aðrir segja, að ef snjói á fjöll í hverjum sumarmánuði, verði góður vetur.

Það þykir vita á góðan vetur, ef áin Blanda ryður sig þrysvar fyrir miðjan vetur.

Ef ár ryðja sig í gaddfrosti á vetrardag, er von á lini.

Það þykir góðsviti, ef vötn og ár leggur á haustum, án þess að bólgna upp.

Aldrei er svo mikill gaddur um vetrarsólstöður, að ekki verði frostlaust sólstöðustundina.

Þur skyldi Þorri, þeysöm (þeysin) Góa, votur Einmánuður, þá mun vel vora.

Eptir úrfellum á Góu þykja jafnan fara úrfelli á sumrum.

Lognsnjór mikill á Góu veit á góðan grasvöxt á sumrum.

„Grimmur (góður) skyldi Góu dagurinn fyrsti, annar og hinn þriðji, þá mun hún Góa góð verða.“

„En ef hún Góa öll er góð,
öldin má það muna,
þá mun Harpa hennar jóð
herða veðráttuna.“

Sólbráðir á vetrum borgast aptur, fe þær koma fyrir þriðja fimtudag í Góu.

Það þykir sannreynt, að ís liggi á Svínavatni í Húnavatnssýslu heilt missiri, og eptir því, sem það leggur að haustinu eða vetrinum, má marka, hvenær muni taka upp af því að vorinu.

Ef Reykjavíkurtjörn er íslaus fyrir sumarmál, þá er von á íkasti eptir þau.

Ef Hörgá ryður sig öll fjalls og fjöru á milli fyrir sumarmál, leggur hana eptir sumarmálin.

Vetrarkvöldið síðasta settu gamlar búkonur út skel með vatni í. Ef frosið var á skelinni um morguninn, sögðu þær að „frysi saman sumar og vetur,“ og þókti það fyrirboði þess, að gott mundi verða undir bú það sumar.

Eldiviðarþerrir fer eptir því, hvernig viðrar fyrsta laugardag í sumri, en heyþerrir eptir því, hvort rigníng er eða þerrir fyrsta sunnudag í sumri.

Eptir því fer veðrátta um sauðburð, sem viðrar um feingitíma veturinn fyrir.

Þá eru úti allar stórhríðar, þegar lóan kemur.

Þá eru úti allar vorhörkur, þegar spóinn langvellir.

Sagt er, að ætla megi á, að sex íhlaup verði á hverju vori: sumarmála-rumba, kóngsbænadags-íhlaup, krossmessukast, uppstigníngardags-hret, hvítasunnu-snas og fardagaflan; en gott er alt, hvað betur skipast. þegar þessir dagar eru nánir, verða íhlaupin stundum eitt fyrir tvo daga, og standa þá þeim mun leingur. Spóahret og kríuhret eru kölluð sumstaðar á norðurlandi, sem þeir fuglar færi með sèr.

þegar þoka beltar sig í Bláfjalli (við Mývatn), er von á góðviðri.

þegar sól skín á kvöldum í Bláfjalli, veit á þurk næsta dag. En þegar sól skín í (Reykja-) Hlíðarfjalli á kvöldum, veit á vott næsta dag.

b) Nokkuð um merkidaga.

Merkidagar eru 2 dagar fyrir jafndægur, jafndægra-dagurinn og 2 dagar eptir jafndægur haust og vor. þessir 5 dagar kallast prophetici (critici, þ. e. merkidagar). Sèrhver þessara daga hefir undir sèr 35 daga, það er 175 bæði haust og vor. Fyrri hluti ársins byrjar 18. Marz, og nær til 20. September. Af þessum 5 dögum vor og haust má marka veðurlagið eptirfarandi hálft ár, svo að eptir því sem viðrar sèrhvern þessara 5 daga, svo viðrar á 35 dögum, sem hverjum jafndægra-degi eru tileinkaðir, frá jafndægrum á haust til 19. Marz, og frá 19. Marz til 20. September.[1]

c) Jólaskrá Beda prests.

Ef fyrsti dagur Januarii fellur á sunnudag, þá verður spakur vetur staðvindasamur, þurt sumar, heyskapur ríkulegur, vöxtur í nautum, kerlínga-dauði, nægð og friður. Falli hann upp á mánudag, verður blandinn vetur og hvorkynlegur, gott vor, þurt sumar, veðrátta vindsöm, heyskapur torsóktur, heilsa manna ýmisleg, býflugur deya, tilburðir ske og sjást víða. Á þriðjudag, þá verður vetur hríðviðrasamur, vorið regnasamt og stórviðrasamt, sumar þurt, grasávöxtur meiri, en í fyrstu sýndist áhorfast, krank(samt), höfðíngja dauði, skipskaðar. Á miðvikudag, verður vetur harður og óhollur, vorið þurt og vindasamt, sumar hagkvæmt, heyskapur mikill og erviður, ávöxtur jarðar góður, úngra manna dauði, erviðar sjóferðir. Á fimtudag, verður vetur breytilegur, vorið gott, sumar þurt, heyskapur í góðri vægð, höfðíngjar og voldugir deya. Á föstudag, þá verður vetur breytilegur, vorið gott, sumar þurt og gott, ríkulegur heyskapur, nægð korns og ávaxtar . . . . . . fjárdauði. Falli hann á laugardag, verður vetur . . . . . . . . . . . . . . . . . . . svo að sauðfè farast. . . . . þá deya gamlir menn . . . .[2]

---

1. Tekið eptir handriti Jóns bónda Sigurðssonar í Njarðvík í Múlasýslu.

2. Jólaskrá Beda prests er tekin eptir rotnum blöðum, sem eg fèkk vestan frá Ísafjarðardjúpi.

d) Merkidagar í hverjum mánuði.

Í Januarius. Gott veðráttufar fyrst og síðast í Januarius. Eins og viðrar næsta dag fyrir og eptir, og alt eins næturnar fyrir og eptir að sól geingur í vatnsmannsmerki, svo mun viðra, eða líkt, mestan part sumars. Svo sem viðrar til miðdegis á nýársdag, mun optast viðra í Januarius, en fra miðdegi skal Februarius marka. Merk 6 daga fyrir 2 mánuði eptir fyrsta dag í árinu. Ef morgunroði er á nýársdag, er gott merki. Fiskiafli næsta sumar fer eptir stjörnusýni á nýársnótt. Sömu nótt er sagt að alt vatn verði snöggvast að víni, einnig sè þá óskastund. Ef sólskin er á Víncentiusmessu (22. Jan.), er það merki til gróðurs og góðs árferðis. Sólskin og heiðríkt veður á Pálsmessu (25. Jan.) boðar frjóvsama tíma; en sè þá dögg og þykkviðri eða snjókoma, boðar það harða veðráttu. Um Pálsmessu er þetta kveðið:

„Ef heiðbjart er og himin klár
á helga Pálusmessu,
mun þá verða mjög gott ár;
mark skalt hafa á þessu.

Ef að þoka Óðins kvon
á þeim degi byrgir,
fjármissi og fellisvon
forsjáll bóndinn syrgir."

Í Februarius. Ef Februarius er heitur, þá verður kalt um páska. Ef sólskin er á Kyndilmessu (2. Febr.), er von meiri snjóa, en verið hefir fyrri part vetrar, sem kveðið er:

„Ef í heiði sólin sèst
á sjálfa Kyndilmessu,
snjóa vænta máttu mest,
maður, upp frá þessu."

Eins og viðrar Matthíasmessunótt (milli 23. og 24. Febr.), ætla menn að viðri 14 daga eptir. Sjái ekki sól þriðjudag í föstuinngáng, mun opt heiðríkja um föstuna. Eptir því sem viðrar á öskudaginn, mun opt viðra 14 (aðrir segja 18) daga aðra af föstunni; þeir dagar heita „öskudags-bræður." Lítið frost og snjór í Januarius og Februarius boðar frost, og kulda í Martius og Aprilis. Hiti um jól boðar kalda páska.

Í Martius. Það er trú, að heiðríkt veður í Martius boði gott ár. Svo margir þokuhríngar sem verða í Martius, svo mörg ofanföll verða á árinu, og svo margar hríngdaggir sem verða í Martius, svo margar verða þær eptir páska með hreggi. Fyrir hundrað árum hafa menn veitt því eptirtekt, að ef á boðunardag Maríu (25. Mart.), fyrir solar uppkomu, væri heiðríkt og stjörnuljós, þá væri von á góðu árferði og veðráttufari. Sagt er, að sjaldan sè sama veður á passíónssunnudag (Judica), pálmasunnudag og páska.

Í Aprilis. Votviðri mikil í Aprilis merkja frjóvsamt sumar, og hvað lítið sem rignir á uppstigníngardag, merkir hart veður eptirleiðis. Ef veður er hreint og klárt, er það góðs árs viti.

Í Maius. Ef gróðasamt er í Maius, er góðsviti. Liggi þoka til leingdar yfir sjónum í þessum mánuði, er góðsviti. Sèu kaldir dagar um hvítasunnu, og þó heitir með köflum, hèldu gamlir menn góðsvita.

Í Junius. Eins og viðrar Medardusdag (8. Jun.), vill viðra 4 vikur. Eins og viðrar sjö sofenda dag (27. Jun.), eins viðrar næstu sjö vikur.

Í Julius. Klárt veður á þíngmáríumessu (2. Jul.) merkir góða veðráttu fram úr. Um hana og Margrètarmessu (13. Jul.) er þetta kveðið:

„Ef að Máríumessa er vot,
sem miðju sumri er næsta,
muntu hafa í nánd afnot
nokkra daga hið fæsta.

Ef á Margrètarmessu er dögg,
mun það lítið bæta,
þá mun haustið hey og plögg
í húsum inni væta.“

Ef Jakobsmessa (25. Jul.) hefir sólskin til miðdegis, þá veit á kaldan vetur, ef döggfall er, veit á votsaman vetur. Fyrri partur Jakobsmessu merkir veður fyrra part vetrar, og síðara part dags viðrar, sem síðara part vetrar. Regn og dimmviðri merkir ótíð. Sè sólskin þann dag, sem sól geingur í ljónsmerki, og næsta dag fyrir og eptir, líkt því mun viðra December, Januarius og Februarius. Sè þurviðri á þessum merkidögum, verður frost og kuldi þessa mánuði; en viðri hvorki vott nè þurt, verða umhleypíngar. Ef fult túngl er á Ólafsmessu (29. Jul.), má vænta eptir hörðum vetri.

Í Augustus. Klárt veður á Laurentiusmessu (10. Jul.) merkir kaldan vetur; en ef þykkviðri er, boðar það vetur votsaman. Ef sólskin er á Máríumessu hina fyrri (15. Aug.), boðar það góðviðri eptirleiðis. Eins og viðrar Bartholomeusmessu (24. Aug.), vill haustið viðra.

Í September. Ægidiusmessa er þann 1.; ef fagurt er veðu þann dag, eptir því mun mánuðurinn verða, ef veður er þurt, boðar gott haust. Ef frost eru mikil fyrir Mikaelismessu (29. Sept.), munu þau koma eins mikil eptir hana. Ef skógarlauf falla seint í þessum mánuði, veit á hart. Eins og viðrar þann dag, sem sól geingur fyrir metaskálum (Libra), og næsta dag og nótt eptir, svo mun optast viðra í Martius, Aprilis og Maius. Svo sem viðrar frá krossmessu á haust (14. Sept.) til allra heilagra messu, svo mun viðra það eptir er það ár til enda. Smátt og krínglótt hagl í þessum mánuði, merkir lángvaranlegan kulda; bleikihagl merkir lin.

Í October. Klárt veður á Galli dag (16. Oct.) er gott vetrarmerki. Svo margir dagar sem eru frá fyrsta snjó til næsta túnglkvartils, svo marga daga vill snjór koma á vetrinum. Opt verða höstug íhlaup með snjókomum og frosti fyrir vetur, í September og October; þau íhlaup heita „haustkálfar“, og boða gott haust jafnvel alt til jóla.

Í November. Ef gott er allra heilagra messu (1. Nov.), boðar góðan vetur. Ef rignir þann tíma, sem sjöstjörnur gánga undir morguninn um Marteinsmessu (11. Nov.), kemur vor seint. En rigni ekki, veit á gróðursamt og gott vor. Þann 11. þ. m. gánga Hyadesstjörnur undir; sè sá dagur votsamur og þykt lopt, verður veturinn óstöðugur; sè heiðríkt lopt og sólskin, verður harður vetur og frostamikill.

Í December. Svo sem viðrar þann dag, sem sólhvörf verða, og 3 daga fyrir og eptir, svo mun veturinn verða. Sè sólskin fagurt á jóladag, verður gott ár; sè sólskin annan dag jóla, verður hart ár. Þegar jóladagur kemur með vaxandi túngli, veit á gott ár, og sè hann góður, veit á því betra. Jóladagurinn fyrsti merkir Januarius, annar merkir Februarius, þriðji merkir Martius, fjórði Aprilis. Þegar hreinviðri er og regnlaust aðfángadag jóla og jólanótt, ætla menn það boði frostasamt ár; en viðri öðruvísi, veit á betra. Ef stilt viðrar seinasta dag ársins, mun gott ár verða, sem í hönd fer. Blási 4. jólanótt, veit á hart, en blási 5. jólanótt, veit á slæmt sumar; blási 6., verður grasvöxtur lítill; blási 7., verður gott ár; blási 13. nótt jóla vestanvindur, veit það á frostasumar. Ef jól eru rauð, verða hvítir páskar, en rauðir, ef jólin voru hvít.[1]

### 1. Gamlar vísur um jóladaga.

1. Sè þann morgun sólarljómi,
sýnir, ávaxtarár komi;
ef skírviðri allan daginn,
auðnu tími fèll í haginn.

2. Tólf dagar, sem jól títt falla,
teikna þess árs mánuði alla,
samlíkan hvern mánuð segi,
sem viðrar á hvers þess degi.

3. Jóladagur Janus þýðir,
jafna svo við hvern, sem hlýðir;
tólf vill December teikna
til náðar, svo átta ár reikna
af sólskini á sex dögum.

. . . . . . . . . . . .

4. Ef sól skín vel á Krists degi,
árgæði leingst bregzt þá eigi;
annan dag ef eins vill ljóma,
árgróði mun heldur koma;
þriðja dag ef þægt vill skína,
þras og villur kristnir sýna.

5. Fjórða dag ef fagurt lýsir,
fást kránkleikar börnum vísir;
fimta dag ef fult skin veitir,
frjóvgun þiggja víða sveitir.

6. Sjötta dag ef sólskin bíður,
sætum gróður fagnar lýður;
sjöunda skín, sult, hallæri,
samt aflagáng minnst að bæri;
áttunda dag ef sól birtir,
aflanægð ei kvíða þyrftir.

7. Níunda dags ljóminn ljósa
ljær fjárheill, svo margir hrósa;
tíunda dags skinið skæra
skæð sterkviðri opt mun færa;
ellefta skín, öll dimmveður,
alment plága varð þar meður;
tólfta dags skin vill stríð teikna,
tökur og rán vinnst reikna.

---

1. Þetta atriði um merkidaga í hverjum mánuði hefir sèra Guðmundur Einarsson á Kvennabrekku útvegað mèr vestur í Dölum; er það tekið hèr orðrètt eptir handritinu, en bætt í það munnmælum á einstöku stað, þar sem þau áttu heima.

Af Krists hátíðum árgæði
ávísun sè ljós í kvæði,
í túnglhöfnum árbót sýna:
ótíð sè, þá túngl vill dvína;
þess ýngra túngl sem hún ratar,
því meir aukast ára-batar;
þeim mun eldra túngl þá hittir
þýngra ár komandi kvittir.

### 2. Vísur um vindinn.

1. Á jólanótt ef blæs veður,
andlát valdsmanna þá skeður;
aðra nótt ef verður vindur,
vill gróður lítt gleðja kindur;
þriðju nótt ef veður þylja,
þá kóngar við heiminn skilja;
fjórðu nótt ef fram gýs andi,
ferlegt húngur varð í landi.
2. Fimtu nótt ef fram hljóp þytur,
fram stè margur í mentum vitur;
sjöttu nótt ef sendist bylur,
sælu gæða jörð ei hylur;
sjöundu nótt með gust metur
meðalár, ... var ei betur;
áttundu nótt ef geingur gola,
gamalmenni andlát þola;
3. Níundu þá nótt vill blása
nóg mun landfarsótt rása;
tíundu nótt teikna stormar,
tjón á gripum ár það formar;
elleftu nótt ef varð glaður,
undri niður deyr fènaður;
tólftu nótt hver tèr með kvíða
takist stríð í löndum víða.

### 3. Vísur um 6 daga næst tólf dögum jóla.

Eptir tólf daga talda
tvenna þrjá næstu útvalda
sex þá við ljós sumar kenna,
því sèrhver birtir mánuði tvenna;
fyrsta dag, en frá miðdegi,
Februari líkan segi,
til miðdegis Junius teikna,
við tíu hina fimm svo reikna.

### 4. Um merkidaga í 12 mánuðum.

1. Nýársdags megn morgunroði,
minnzt hann stríð í illviðrum boði;
vænst skín sól (á) Vintensdegi,[1]
vit friðsamt ár fyrir segi.
2. Skær Pálsdagur beztur bíður,
blási vindur, strítt hèlt lýður
meðalár, er fèlli, brugga
ótíð með sótt þoka og mugga.
3. Skín frekt sól á föstu-inngángi,
föstu-tíð eins ljómar leingi,
skær þann dag í ár upp rennir,
yrkja jarðar lukkast kennir.
4. Tíma þann má trè upp höggva,
traust smíði má með þeim brúka;
oss tjá fróðir, ef ei villast,
aldrei kunni það að spillast.
5. Þá marga þoku Martius hefir,
minnzt, eins stór regnár það gefur;
daga-tal í Marti merka
mjög varð fyrst frá páskum sterka;
í August munt eingu minna
af þokum fjölda finna.
6. Á Pálmadag ófrítt veður,
eingan mann þess þýðíng gleður;
á páskadag ef lítt daggar,
ei verða stórir heyabaggar.
7. (Ef) stirt viðrar á þeim degi
ávaxtarvon bilar eigi;

1. Þannig handritið; á ef til vill að vera Vincentiusmessa, 22. Jan.

börn skal þá af brjósti venja,
bið of laung þeim orkar kenja.

8. Hvítasunnu regn mun sjaldan
sýna nema ávöxt kaldan;
(á) Urbanus ef sól ljómar,
eikur prýða ber og blómar.

9. Á sagðan dag ef að rignir,
ávaxtar tjón halda hyggnir.
Um þrot Mai blómgast eikur,
af þess móti vert ei bleikur.

10. Skín klárt veður á dag dýra,
dulið gott mun eptir skýra;
ef mjög rignir á Jónsmessu,
minkun gróða gegnir þessu.

11. Rigni dag, þann móðir meya
með flýti kom drótt að segja
já, fram dregst í veðrátta
alt til fjörutíu nátta.

12. Á Jakobsmessudag ef sól lýsir,
eptir koma kuldar vísir;
ef sá dagur votur væri,
veðrátta hrá eptir færi.

13. Var þá sólskin varmt með skúrum,
verður ekki þörf á stúrum,
kemur þá kyrlátt veður;
kendu oss svo forfeður.

14. Sunnudagar þrír svo klárir,
samt fyrir Jakob frjóvsamt ár er,
varð regn þann dag, vel oss nægi,
vex gróður í meira lagi.

15. Jakobsmessu að miðjum degi
merk tíma til jóla, segi;
eptir jól ber um árgángur,
eptir miðmunda dagur er lángur;
ef skín glatt, þá upphefst meya,
árgæði mun fyrir segja.

## 5. Vísur af sólarháttum.

1. Ársól gáruð og ský undir,
öll stór regn þann dag, þær stundir;
sè skýin þúng og svört að morni,
sèst norðanstormur af horni.

2. Ef ár-sól geisla greiðir,
geyst regn og vind brátt innleiðir;
mikið regn býr morgunroða,
minnzt, stríð og illviðri boða.

3. Af sólsetri upp ef kunna
á loptið ský rauð að renna,
næsta dag blíðviðri boða,
ber það til eins af kvöldroða.

4. Á vetur, þá frost úr dregur,
opt gýs snjór drjúglegur,
utan svört ský sè þar meður,
þá varð dögg, eður krapaveður.

## 6. Um merki á komandi túngli.

1. Nýtt túngl þegar nokkuð sjáið,
nýtri forsögn glögt að gáið:
sèst það hvítt á lopti ljóma,
logn björt niðri af því koma;
rautt ef þykir það tilsýndar,
þá blása opt á því vindar.

2. Fölt og bleikt ef finnst það vera,
fjúkskemd vill það opinbera;
primet (?) dökt um horn ef hittir,
hreggviðri þú nærri kvittir.

3. Fárnætt glæst, sem gull, ef ljómar,
geysiveður í nánd rómar;
svart um mittið ef það skoðar,
alla tíð þess bezta boðar;
mánuð fyrsta fjúk ef sendir,
fylgir fram, til þess það endir.

4. Túnglið rauða vottar vind,
vætan bleikju þýðir,
skín(i) nýtt með skærri mynd,
skírviðri það þýðir.

5. Með túnglkomu trúðu það,
og tem þèr gætni slíka:
veðrabrigða von er að,
víst með fullu líka.

7. **Fyrirsögn daggar.**

Þá fuglar vatn í flokkum vaða,
framkom saltið nýblotnaða,
. . . . . . . . . eykur,
ekki vill úr húsum reykur;
sólarskin mun sárheitt finna,
syfjar drósir mjög, þá spinna,
mjög heitt gesti mjöð (ef) bítur,
mikið regn um skamt ei þýtur.[1]

---

## 4. GREIN.

### VENJUR.

Ýmsar venjur hafa tíðkazt, og haldast enn hèr á landi sumar hverjar, sem ekki eru ómerkilegar, og ættu því ekki að gleymast, og því vil eg minnast þeirra hèr, sem eg þekki, af því þeim svipar talsvert til kreddanna, sem á undan eru komnar. Þessar venjur, eða rèttara sagt venjubrigði, hafa verið viðhafðar, og eru það enn sumar, einkum í mataræði og annari háttsemi á hátíðum og tyllidögum,[2] og ýmsum glaðníngum endrarnær. Mest hefir kveðið að þeim og kveður enn, eins og flestri annari viðhöfn, fyrir og um jólin, og því þykir mèr rèttast að segja frá þeim í þeirri röð, sem þær fylgja á kirkjuárinu.

**Kvöldskattur.**[3] Það er enn siður sumstaðar fyrir norðan (í Eyafjarðar og Þíngeyarsýslum að minnsta kosti), að húsbændur veita hjúum sínum eitt kvöld ótiltekið, öndverðlega á jólaföstunni, svo mikið sælgæti í mat, sem þeir eiga fjölbreyttast og bezt til á heimilinu, og ber öllum saman, sem það þekkja, að það sè mesta kethátíð[4] á árinu, og keppast jafnvel öreigar við að veita hjúum sínum þenna kvöldskatt, og kljúfa til þess þrítugan hamarinn, hvað litla björg sem þeir eiga í húsum sínum. Fyrmeir var það og sumstaðar siður, að hver heimamaður veitti kvöldskatt öllum á heimilinu, og keptist hver við annan, að verða ekki minni, en

---

1. Þessir 7 vísnaflokkar eru vestan úr Dölum, og hefir sèra Guðmundur Einarsson útvegað mèr afskriptina, eins og af Merkidögum í hverjum mánuði. Neðan undir afskriptinni stóð þetta meðal annars: „Þessar vísur eru skrifaðar eptir handriti, sem er skrifað 1790 eptir gömlu handriti . . . þetta er nú skrifað 1854.“ Auðsjáanlega eru vísurnar sumstaðar viltar, og vantar í þær bæði heilar hendíngar og atkvæði. En af því vísurnar eru líklega ekki almennar og eiga vel við efnið, hefi eg fært þær hèr til.

2. Eg undan skil hèr þó alla veizlusiði og brúðkaupssiði að fornu og nýu, sem yrði of lángt mál, þar sem um þá eina sèr eru til lángar og merkilegar ritgjörðir, bæði eptir Eggert lögmann Ólafsson og aðra fornfróða menn, sem því miður liggja óprentaðar.

3. Orðið kvöldskattur bendir þegar á eitthvað óvanalegt, því skattur er almenna orðið yfir morgunmat, og er því óeiginlega haft um kvöldmat.

4. Alment hafa jól og páskar verið taldar mestu kethátíðir, og því sagði kerlíngin: „Ef jóladaginn bæri upp á páskadaginn, þá yrði mikil kethátíð.“ „En nú verður það aldrei,“ sagði önnur. Út úr þessu hnakkrifust þærþví leingi, önnur otaði fram skilyrðinu, en hin stóð á reynslunni.

hinir, svo að það urðu eins margir kvöldskattar á jólaföstunni, og margir voru menn á heimilinu. Þessi venja, að hver heimilismaður veiti kvöldskatt, er nú aflögð, en þó ber það við enn, að nokkrir heimamenn, 3 eða 4, taka sig saman um að standa öllum hinum fyrir beina eitt kvöld, og hinir taka sig þá saman aptur, að endurgjalda þegnar velgjörðir annað kvöld, en bóndinn og húsfreyan gera það ávalt í fyrnefndum sýslum. Þessu til sönnunar set eg hèr brag um kvöldskattinn eptir Árna Jónsson á Stóra-Hamri í Eyafirði, sem sýnir, hversu fjölbreyttur skatturinn var.

1. Kvöldskatt fèkk eg, kær og þekk
konan gekk um beina:
magáls þekkja mundi eg smekk;
má því ekki leyna.

2. Lángur þar hjá leggur var,
laukinn bar hann gæða;
bónda skar eg bitann snar,
brátt því fara að snæða.

3. Stykki hèr með hryggjar er,
huppsneið skerast mundi,
flot og smèrið baugsól ber
blossa hvera lundi.

4. Rifið breitt mèr var og veitt,
varla sneitt af skorti;
það var feitt og fleira en eitt,
frá er, neitt eg gorti.

5. Af barni rollu bríngukoll
baugs lèt tolla lína
á mínum bolla, mæt og holl;
mátti eg hrolli týna.

6. Hákarls sniðið hafði kvið
hrundin iðu glansa,
og lagði niður á leirfatið;
lá mèr við að stanza.

7. Efst lá kaka, eins og þak,
sem eldsins bakan herti;
barðið spraka meður mak
í munninn rak og skerti.

8. Þakkir fáðu, þakin dáð
þorna láðin kæra,
fyrir þáða þessa bráð
og þægð, sem náðir færa.[1]

**Staurvika og staurbiti.** Næstu vikuna fyrir jólin eru vökur hafðar leingstar á Íslandi, og vakan miðuð við sjöstjörnuna til sveita, þar sem ekki eru stundaklukkur; er svo vakað, þángað til stjarnan er komin í nónstað eða miðaptan. Þessi vika er bæði kölluð „augnavika“ og „staurvika“. Augnavika heitir hún af því, að þá „vaka menn öll augu úr höfði sèr“, þreytast við ljósbirtuna og verða dapureygðir; en staurvika af því, að til þess að halda vöku fyrir fólkinu, lètu húsbændur „vökustaura“ á augu þess, þegar það fór að dotta á kvöldin; það kalla aðrir „augnateprur.“ Í vökustaura, eða augnateprur voru hafðar smáspýtur, lítið gildari en brennispýtur og ámóta lángar, baulubein eða gelgjubein úr þorskhöfði; var spýtan brotin eða baulubeinið til hálfs, svo það gapti sundur öðru megin, en var heilt hinu megin með litilli brotalöm á. Upp í brestinn, sem varð á spýtunni, var látið augnalokið, og hèlt spýtan (eða beinið) sèr svo

4. Um kvöldskattinn er tekið eptir frásögn alþíngismannanna Stefáns Jónssonar á Steinstöðum og Jóns Sigurðssonar á Gautlöndum, en kvæðið um skattinn er tekið eptir minni Stefáns.

fastri á augnalokinu, með því ángarnir úr henni geingu á víxl inn í lokið, svo það gat ekki dregizt niður fyrir augað, og urðu þeir svo að sitja bíspertir með vökustaurana, sem ekki gátu vakað öðruvísi. En af því húsbændur á Íslandi vita, að allir vilja hafa nokkuð fyrir snúð sinn, var það venja, að hver húsmóðir gæfi hjúum sínum í vökulokin, meðan staurvikan stóð yfir, góðan bita af einhverju sjaldfeingnu bæði í sárabætur og fyrir það, að þau legðu svo hart að sèr með vökur og vinnu. Sá glaðníngur, sem gefinn var í því skyni, var kallaður „staurbiti.“[1]

**Jólanóttin.** Það er nú svo sem sjálfsagt, að allir halda til jólanna, sem er móðir allra hátíða annara; þá er ekki lítið um dýrðir fyrir börnunum, sem hlakka til að sjá svo mörg ljós, sem kostur er á að sjá bæði í kirkjum og heimahúsum. Þessi ljós-hátíð er þó ekki að eins hjá mennskum mönnum, heldur einnig hjá álfum, því þá voru híbýli þeirra öll ljósum prýdd, og alt lèk þá hjá þeim á alsoddi af dansi og hljóðfæraslætti. Hvort sem nú mennskir menn hafa tekið það upp eptir dansferð álfa, að hafa vikivakana helzt um jólaleytið, sem síðar mun sagt, þá er það þó víst, að jólin voru og eru sannkölluð ljós-hátíð einnig hjá mönnum; því til forna var það siður, að húsmæður sópuðu allan bæinn horna og enda á milli bæði á aðfángadagskvöld og gamlárs kvöld, síðan settu þær ljós í hvern krók og kima, svo hvergi bæri skugga á, og fögnuðu með því álfum þeim, sem á ferð kynnu að vera, eða flyttu sig búferlum á nýársnótt. Þegar þær höfðu sópað bæinn og sett ljós í hann, geingu þær út og í kríng um hann, sumir segja þrisvar, og „buðu álfum heima“, svo mælandi: „Komi þeir, sem koma vilja, veri þeir, sem vera vilja, og fari þeir, sem fara vilja, mèr og mínum að meinlausu.“[2] Þessum formála fylgdi það og, að konur báru stundum víst og vín á borð í bæum fyrir álfa, og segir sagan, að vistin væri jafnan horfin að morgni. Vera má, að meir hafi það tíðkazt að bjóða álfum heima á gamlárskvöld, og að bera mat á borð fyrir þá, en á aðfángadagkvöldið, en ljósagángurinn var eingu minni á jólanóttina, en nýársnótt, og þegar fólkið fór að hátta þessi kvöld, hafði húsfreya jafnan gát á því, að ekkert ljós væri slökt, og setti þá upp ný ljós í hverju horni, þegar hin voru farin að loga út, eða lèt á lampana aptur, svo ljósin skyldu endast alla nóttina, þángað til kominn var bjartur dagur daginn eptir. Það er enn sumstaðar siður hèr á landi, að láta ljós loga í baðstofum yfir fólkinu, þó það sè sofandi, báðar þessar nætur, og þó ekki sè leingur kveykt ljós í hverju horni, eldir það enn eptir af ljósagánginum forna, að víða er hverju mannsbarni á heimilinu gefið kerti bæði þessi kvöld, en einkum á aðfángadagskvöldið, og kallað

1. Bezt hefir hèr frásagt húsfrú Hólmfríður Þorvaldsdóttir.
2. Sbr. I, 1. gr.; 105. bls.

jólakerti og nýárskerti. Þó gátu menn ekki notið jólagleðinnar með öllu áhyggjulausir, því auk jólasveinanna, sem fyrr eru nefndir,[1] var það trú, að sú óvættur væri þá á ferð, sem var kallaður jólaköttur. Hann gerði reyndar eingum þeim mein, sem eignuðust einhverja nýa flík að fara í á aðfángadagskvöldið; en hinir, sem ekkert nýtt fat feingu, „fóru allir í jólaköttinn,"[2] svo hann tók (át?) þá, eða að minnsta kosti jólarefinn þeirra, og þókti þá góðu fyrir goldið, ef kötturinn gerði sig ánægðan með hann. En jólarefur hèt það, sem hverjum heimilismanni var skamtað til jólanna (ket og flot o. s. frv.) á aðfángadagskvöldið.[3] Af þessu keptust allir við, bæði börn og hjú, að vinna til þess af húsbændum sínum fyrir jólin, að fá eitthvert nýtt fat, svo þeir færu ekki í ólukkans jólaköttinn, nè að hann tæki jólarefinn þeirra; og þegar börnum og hjúum tókst bæði að fá nýa flík, nógan jólaref og þar á ofan jólakerti, og það, sem mest var í varið, að þurfa ekki að fara í jólaköttinn, var ekki kyn, þó kátt væri um jólin til forna. Um jólagleði barna er þetta kveðið:

„Það skal gefa börnum brauð,
að bíta í á jólunum,
kertaljós og klæðin rauð,
svo komist þau úr bólunum,

---

1. Sbr. I, 3. gr., 219. bls. Missagnir eru um það, hvort jólasveinar færu að koma til bygða 13 eða 9 nóttum fyrir jól, og hafa sumir fært þetta erindi sem sönnun fyrir því síðara, sem þeir eigi að kveða:

„Upp á stól
stendur mín kanna;
níu nóttum fyrir jól,
þá kem eg til manna."

En seinna hefi eg heyrt, að það væri sumstaðar trú nyrðra, að jólasveinar ættu að koma að landi (af sjó?) með norðanátt á jólaföstu eða með henni, en færu aptur með sunnanátt um þrettánda, og er sú sögn um leið auðsjáanlega fyrirspá um veðráttufar, að það geri norðanátt með jólaföstu, en sunnanátt eða hláku með þrettánda.

2. Eða „klæddu jólaköttinn", sem sumir kalla fyrir norðan. Sumstaðar (í Borgarfirði) er sú sögn, að þeir, sem einga nýa spjör feingu fyrir jólin, ættu þar að auki að hafa þá skript, að fara á aðfángadagskvöldið með fult hrútshorn af hlandi í hendinni, þángað sem þeir væru fæddir, og skvetta úr horninu í rúmið, sem þeir voru fæddir í. Hvernig sem á þetta er litið, lítur svo út, sem þessar skriptir hafi verið hafðar fyrir keyri á börn, sem voru löt að læra og ljúka við það, sem þau áttu að vera búin með fyrir jólin.

3. Hvergi hefi eg orðið þess var, að bændur skamti sjálfir miðdegismat á jóladaginn hjúum sínum og húsfreyunni með, sem Eggert Ólafsson getur um í ferðabók sinni 454. bls. að hafi tíðkazt norðan (vestan) til í Barðastrandarsýslu, en vitað hefi eg, að húsmæður hafa aflokið miðdegismatarskamti til jólanna á aðfángadagskvöldið. Eins er það víða enn siður, sem Eggert getur um, að bændur slátri kind til jólanna; er það kölluð jólaær, hvort sem það er ær eða önnur kind.

væna flís af feitum sauð,
sem fjalla gekk á hólunum.
Nú er hún gamla Grýla dauð;
gafst hún upp á rólunum.“

Enn má telja það jólanóttinni til gildis, að þá voru útisetur á krossgötum einna tíðastar, og vikivakar almennast haldnir.

**Nýársnótt** urðu margir hlutir undarlegir, og mikið um dýrðir, þar sem álfar fluttu þá búferlum, sóktu tíðir og heimboð hverjir til annara; þá var hvað bezt að sitja úti á krossgötum; þá töluðu kýr að sumra sögn, þó aðrir segi það væri á þrettándanótt; þá var trú, að „kirkjugarður risi“, og að alt vatn yrði þá snöggvast að víni.[1] Það verður að hafa það hugfast, að „hátíð er til heilla bezt“, og því hafa sumir ætlað, að óskastundin væri þessa merkisnótt. Menn hafa á marga vegu viljað leita sèr láns og heilla, og þess vegna grafizt mikið eptir því, nær óskastundin væri, svo að þeir gætu óskað sèr hvers sem þeir vildu. Sagt er, að Sæmundur fróði hafi orðið einna drjúgastur í því, og sagt, sem fyrr er getið, að óskastund væri einu sinni á hverjum degi. Þó fer nokkrum missögnum um þetta, því sumir segja, að óskastundin sè ekki optar en einu sinni á hverjum laugardegi, sumir, að hún sè að eins einn laugardag á árinu, og enn nokkrir að hún sè á nýársnótt. Svo er sagt, að piltur einn ætlaði að reyna að hitta óskastundina. Hann tók sig til einn laugardag, en aðrir segja á gamlárskvöld, settist upp á bæarbustina, hèlt húfunni sinni opinni milli handa sèr, og bað í sífellu og hástöfum með þessum orðum: „Full, full húfan mín með rauða gull.“ Þarna sat pilturinn alla nýársnóttina (eða laugardaginn) og var að óska, þángað til um morguninn, að einn af heimamönnum gekk út, og heyrði, hvers dreingurinn óskaði, og sagði, um leið og hann gekk út: „Eg vildi hún væri orðin full af skít.“ Þetta varð að áhrínsorðum; því maðurinn hitti óskastundina, en dreingurinn þagði, á meðan hinn óskaði.[2] Þá er sögnin um búrdrífuna allmerkileg, en svo hèt hrím það, sem forðum fèll á nýársnótt á búrgólfið hjá húsfreyum; því þær lètu þá standa opna búrgluggana. Hrím þetta var líkast lausamjöll, hvítt á lit, smágert og bragðsætt, en sást hvorki nè náðist nema í myrkri, og var alt horfið, þegar dagur rann á nýársmorgun. Húsfreyur þær, sem vildu safna búrdrífunni, fóru svo að því, að þær settu pott úr brynjumálmi á mitt búrgólfið, lètu yfir hann sígjugrind með krossspelum yfir, og gat þá búrdrífan ekki komizt út aptur um opið, sem var krossmyndað. Sumir segja, að húsmæðurnar væru sjálfar í búrinu alla nýárs-

---

1. Eggert Ólafsson segir, að það hafi átt að verða á þrettándanótt, sjá Kvæði hans 220. bls. 3. neðanmálsgr.

2. Almenn sögn.

nótt, meðan búrdrífan fèll; en þegar potturinn væri orðinn fullur, hafi þær látið yfir hann krosstrèð, svo drífan gæti ekki komizt upp úr honum, og er sú sögusögn öll líklegri. En búrdrífunni átti að fylgja einstök búsæla og búdrýgindi.[1]

**Þrettándanótt** er og í mörgu merkileg, sem fyrr er sagt. Þá segja flestir, að kýr tali, og að lið Faraós fari þá úr selshömunum og gángi á land, þó aðrir segi, það sè á nýársnótt. Þá heppnuðust og vel útisetur á krossgötum og alt eins miðsvetrarnóttina. Þrettándanótt var og haldin helg í Grímsey og víðar, alt fram um 1849, hvað sem síðan er, af því hún samsvaraði jólanóttinni gömlu. Hún hefir og verið kölluð „draumnóttin mikla“, af því þá átti austurvegskónga að hafa dreymt um fæðíng Krists, og því eru allir þeir draumar merkilegastir og þýðíngarfyllstir, sem mann dreymir þrettándanótt.

**Þorri og Góa, Einmánuður og Harpa.** Næsti mánuður eptir miðjan vetur heitir enn, sem kunnugt er, Þorri, næsti mánuður eptir hann Góa, seinasti vetrarmánuðurinn Einmánuður, og fyrsti sumarmánuðurinn Harpa. Fornsögur segja frá því, hvernig 2 fyrstnefndu mánuðirnir feingu nöfn sín,[2] en ekki er mèr kunnugt, af hverju Einmánuður og Harpa dragi nafn. Reyndar hefir dálítið boðorðaslángur komizt á munnmælin, því þau gera Þorra og Góu að hjónum, þar sem þau eru talin feðgin í fornum sögum; er Þorri húsbóndinn, en Góa húsfreyan; þeirra börn eru þau Einmánuður og Harpa. Þess vegna var það skylda bænda „að fagna Þorra“, eða „bjóða honum í garð,“ með því að þeir áttu að fara fyrstir á fætur allra manna á bænum, þann morgun sem Þorri gekk í garð. Áttu þeir að fara ofan og út í skyrtunni einni, vera bæði berlæraðir og berfættir, en fara í aðra brókarskálmina, og láta hina svo lafa eða draga hana eptir sèr á öðrum fæti, gánga svo til dyra, ljúka upp bæarhurðinni, hoppa á öðrum fæti í kríng um allan bæinn, draga eptir sèr brókina á hinum, og bjóða Þorra velkominn í garð, eða til húsa. Síðan áttu þeir að halda öðrum bændum úr bygðarlaginu veizlu fyrsta Þorradag; þetta hèt „að fagna Þorra“. Sumstaðar á norðurlandi er fyrsti Þorradagur enn í dag kallaður „bóndadagur“; á þá húsfreyan að halda vel til bónda síns, og heita þau hátíðabrigði enn „Þorrablót.“ Húsfreyur áttu að fagna Góu á líkan hátt, og bændur fögnuðu Þorra, fara fyrstar manna á fætur fáklæddar Góumorguninn fyrsta, gánga þrisvar í kríng um bæinn, og bjóða Góu í garða, svo mælandi:

---

1. Um búrdrífuna hefir Guðmundur stúdent Sigurðsson á Stað í Steingrímsfirði safnað þessu eptir sögnum í Strandasýslu; sbr. Búrdrífuvísur í kvæðum Eggerts Ólafssonar, 220.—221. bls.

2. Sjá Fas. II, 1. og 17. bls. og Flb. I, 21.—22. og 219. bls.

„Velkomin sèrtu, Góa mín, og gakktu inn í bæinn;
vertu ekki úti í vindinum vorlángan daginn.“

Fyrsta Góudag áttu og húsfreyur að halda grannkonum sínum heimboð. Ýngismenn áttu að fagna Einmánuði og ýngismeyar Hörpu á sama hátt, og húsbændur og húsfreyur fögnuðu þorra og Góu. Það er varla efamál, að þessi venja, að fagna þorra, Góu, Einmánuði og Hörpu, hefir verið eptirleifar hins forna þorrablóts, Góublóts, Einmánaðarblóts og sumarmálablóts, þó lítið sè nú orðið um þenna fagnað víðast hvar.

**Spreingikvöldið.** Það er hvorttveggja, að Ísland var pápiskt til forna, eins og önnur lönd í Norðurálfunni, enda hafa menjar þess haldizt í mörgu jafnvel til þessa dags. Þó hèr hafi, ef til vill, aldrei verið aðrar eins glaðværðir fyrir föstuna (lángaföstuna, eða sjöviknaföstuna), eins og í öðrum löndum um það leyti ársins, var þó til forna mikið haldið til þriðjudagsins í föstuinngáng, og er víða gert enn hèr á landi, en í útlöndum er mánudagurinn mestur tyllidagur. Þriðjudagskvöldið í föstuinngáng veittu húsbændur hjúum sínum hángiket og flot, eða ef það var ekki til, baunir og annan undirstöðumat, svo mikið sem í þeim lá og meira til. Því var kvöld þetta kallað spreingikvöld, eða spreingidagskvöld. Þó er önnur saga til þess, hvernig nafnið sè tilkomið, og er hún svo, að einu sinni bjó ekkja á búi sínu; hún hafði hjá sèr dóttur sína og fleira fólk, og hèlt til spreingikvöldsins eptir efnum. Þegar búið var að borða um kvöldið, segir húsfreya: „Guði sè lof; mett er eg og *mínir*.“ Dóttir hennar ímyndaði sèr, að móðir sín hefði borðað meir en hún og væri saddari, gellur því við og segir: „Spríngi sá, sem fyllstur er.“ En svo brá við, að stelpan sjálf sprakk við þessi ummæli, því hún var fyllst. Af þessu leiða sumir spreingikvöldsnafnið, en aðrir af því, að þá skyldi hver maður borða undir spreing; en öllum þeim ketleifum, sem afgeingu og heimamenn gátu ekki torgað um kvöldið, safnaði húsbóndinn saman á þriðjudagskvöldið, lèt þær í skinnbelg, batt hann upp í baðstofumæni, og lèt hann hánga þar fyrir augunum á heimamönnum sínum alla föstuna, þángað til á laugardaginn fyrir páska. Þá tók hann ofan belginn, og fèkk hverjum sínar leifar, sem „setið hafði í föstunni“, með því að nefna hvorki ket nè flot alla föstuna, heldur skyldi þá nefna það „klauflax“ og „afrás“; því síður mátti bragða ket allan þann tíma, og helzt sú venja enn í pápiskum löndum. Þó voru það ekki einu skriptirnar, sem þeir feingu, er „úr föstunni geingu“, að þeir mistu matleifa sinna frá spreingikvöldinu, heldur höfðu þeir og fyrirgert páskaketinu, sem Eggert Ólafsson kannast við,[1] og enn fleiri víti voru þeim sett. Sagt er, að pápisku biskuparnir hafi sett ríkismönnum njósnir, til að vita, hvort

1. Sjá Ferðabók Eggerts og Bjarna, 25. bls.

þeir ætu ekki ket eða nefndu það um föstutímann, og tóku þá af þeim heilar jarðir í föstuvíti,[1] en af fátækari mönnum voru teknir aðrir fjármunir, ef þeir áttu, eða þeir voru sjálfir teknir í bönd, sem erindið segir:

„Einginn mátti nefna ket
alla föstuna lánga;
hver það af sèr heyra lèt,
hann var tekinn til fánga.“

Hitt er almæli, að þeir, sem vildu „sitja í föstunni“, en varð það þó á, að gá ekki að sèr, grètu beizklega þá yfirsjón sína, sem Jónas heitinn Hallgrímsson hefir sýnt dæmi til með „Klauflaxinum.“ Þar segir svo: Sjö sinnum sjö eru 49, sagði Hallur á Skollafit; það er föstutíminn, og þá má einginn nefna ket — varaðu þig maður á að syndga. Eg hefi komið að honum í túnglsljósi, þar sem hann sat á eldhússglugga og seildist inn á rárnar, og talaði við sjálfan sig í hálfum hljóðum. Hann sagðist liggja á dorg, og vera að veiða, og hèlt það væri hverjum manni heimilt. Og þegar hann kom á þíngið og sýslumaðurinn sagði, hann hefði stolið, þá bar hann ekki á móti því, nema hvað hann neitaði, það hefði verið ket. „Eg hefi tekið klauflax“, sagði þjófurinn, „og býst við að verða hýddur; en það er bezt að bera sig karlmannlega.“ Það bar ekki heldur á honum, að hann væri sèrlega daufur. En þegar honum var lesin upp þíngbókin, og hann heyrði þar stóð „fimm fjórðúngar af keti“, þá fór hann að gráta og sagði við dómarann: „Krofið var fimm fjórðúngar; en hitt voru ekki mín orð; skrifið þèr heldur 6 fjórðúnga og setjið þèr klauflax.“[2] Annað merkisatriði er það um þriðjudaginn í föstuinngáng, sem tíðkazt hefir til forna, að þá áttu þjónustumenn að greiða þjónustum sínum þjónustukaupið fyrir árið frá næsta þriðjudegi í föstuinngáng, eða vorkrossmessu vorið fyrir, eptir því sem á stóð. Þó lítur svo út, sem meira hafi fylgt með kaupgjaldinu, sem þessi vísa bendir á, sem kveðin er um þá venju:

„Þriðjudaginn í föstuinngáng,
það er mèr í minni,
þá á hver að falla í fáng
þjónustunni sinni.“

---

1. Það er sagt, að njósnarmenn biskups nokkurs hafi einu sinni komið um kvöld á föstunni upp á glugga hjá ríkisbónda einum, í því hann var að skera sundur ærsíðu, og sagði um leið: „Og mögur er hún, ærsíðan svarna.“ Njósnarmenn báru biskupi þessi orð og athöfn bónda, og tók biskup af honum fyrir tiltækið jörð þá, sem síðan er sagt að heiti Ægissíða; þó fer missögnum um það, hvernig það bæarnafn sè undirkomið, sbr. VI, 3. a., 99. bls. Eptir öðrum ríkismanni, sem biskup hafði vítt stórum fyrir viðlíka synd og yfirtroðslu föstunnar, er haft að hann hafi sagt: „Gott er flot og ket; en fullkaupa má það.“

2. Klauflaxinn er tekin úr 9. ári Fjölnis. Kh. 1847, 35. bls.

**Oskudagurinn** er fyrsti *miðvikudagur í föstu*. Hann hefir verið haldinn á annan hátt á Íslandi eptir siðabótina, en pápiskir halda hann, sem setjast þá í sekk og ösku. Íslendíngar hafa haldið upp minníngu hans með glensi og gamni síðan, með því kvennfólk hefir heingt á karlmenn smápoka með ösku í, eða komið henni á þá öðruvísi; það heita öskupokar.[1] En karlmenn hefna sín með því aptur á kvennfólkinu, að þeir koma á þær smásteinum ýmist í pokum eða á annan hátt. Opt hefir orðið þrætni úr því, hvort það ætti að metast gilt, ef karl eða kona bæri ösku eða stein öðruvísi en í poka, sem kræktur væri á með títuprjóni, svo hitt vissi ekki af, og eins úr því, hversu lángt skuli gánga með öskuna eða steininn, til þess að burðurinn sè lögmætur, því þeim, sem koma ösku eða steini á aðra, þykir nægja, ef geingið er með hvort um sig 3 fet, en hinir, sem bera, kalla það ómark, ef skemmra er geingið, en yfir 3 þröskulda. Um þetta eru enn mjög deildar meiníngar.

**Um páskavikuna og páskana** kann eg fátt að segja, en hnausþykkum grjónagraut man eg gjörla eptir bæði á Skírdagsmorgun og páskadagsmorguninn, og voru þeir kendir við dagana, og kallaður Skírdagsgrautur og páskagrautur; því er sagt um Hvítárvalla-Skottu, að menn sáu, er hún var að þvo sèr upp úr páskagrautnum. Aptur voru þau tíðabrigði á föstudaginn lánga, að gamlir menn hýddu þá börn sín fyrir allar þær ávirðíngar, sem þeim hafði orðið á um föstuna, en blökuðu þau ekki hendi þann tíma, en mintu þau að eins á föstudaginn lánga, að sagt er. Af þessum sið eimdi enn eptir í þeirra manna minnum, sem nú lifa, og er það eitt til dæmis um það, að gömul kona átti dóttur manni gefna og gipta, og var kerlíng komin í hornið til þeirra, en henni brá til gamla vanans og ætlaði að taka dóttur sinni tak á föstudaginn lánga, og hýða hana. En maðurinn konunnar meinaði teingdamóður sinni, að hirta konu sína, svo kerlíng varð að hætta við svo búið, fór að skæla sig og bað guð að fyrirgefa honum, að hann vildi ala slíkt óstýrilæti upp í konunni. — Á páskadagsmorguninn verða þau venjubrigði, að sólin kvikar til nokkur augnablik, í því hún kemur upp. Það er kallaður „sólardans“ og sagt, að svo hafi hún gert hvern páskamorgun um það leyti í Krists upprisu minníng, því Kristur hafi risið upp um sjálfa sólaruppkomuna.

**Sumardagurinn fyrsti** hefir leingi verið talinn með hátíðum hèr á landi, enda var messað á hann, þángað til tilskipunin 29. Mai 1744 afskipaði þá alla messugjörð, eins og fyrsta vetrardag, heitdag Eyfirðínga (fyrsta þriðjudag í Einmánuði) og á jólanóttina.[2] En sumardagurinn fyrsti hefir verið og er enn mikill tyllidagur fyrir því; því þó lítið sè nú orðið

---

1. Sbr. „Iceland; or the Journal of a Residence in that island during the years 1814 and 1815. By Ebenezer Henderson. Vol. II. Edinburgh, 1818.“ 257. bls.

2. Sjá Lovsamling for Island. II., 516—17. bls. 23. gr.

eptir af þeirri venju, að ýngismeyar fagni Hörpu, sem áður er sagt, gera húsbændur það því dyggilegar, með því að þeir bæði halda svo ríflega til hjúa sinna í mataræði þann dag, sem þeim er auðið,[1] og eins tíðkast það enn víða, að þeir gefa öllum heimamönnum gjafir, og heimamenn einnig opt hvor öðrum, og jafnvel húsbændunum aptur. Það heita „sumargjafir.“

**Kóngsbænadagurinn**, eða hinn almenni bænadagur, var lögskipaður 11. April 1702.[2] Um hann er fátt í frásögur fært, nema hvað mörgum mathák stóð fyrst í stað illur stuggur af föstunni, sem kóngsbrèfið tiltók um bænadagshaldið, enda er sagt, að það hafi leingi viðgeingizt hèr, sem enn kvað vera siður í Danmörk, að ekki væri tekinn upp eldur á kóngsbænadaginn. En eins og menn misskildu tilgáng bænadagsins, og kölluðu hann kóngsbænadag, af því þá ætti einúngis að biðja fyrir kónginum, eins misskildu þeir föstuhaldið þann dag, sem sjá má af vísu þessari, sem þar um er kveðin:

„Um Ísalönd aukast nú vandræðin,
fer í hönd föstudagssulturinn:
fyrir því kvíða margur má mátbráður dóni,
að ekki skuli þeir fæðu fá frá fimtudags nóni
til laugardags, lifandi nauða,
eg sè það strax, þeir svelta til dauða;
annars lags má leitast við kauða:
að skamta þeim fullan skattinn sinn,
áður en kirkju fara á fund, svo fullur sè maginn,
og kreiki þeir svo með káta lund á kóngsbænadaginn.“

Að öðru leyti hafa menn haft horn í síðu kóngsbænadagsins vegna íhlaupsins, sem honum fylgir, og áður er áminnzt.[3]

**Jónsmessa** hefir leingi verið höfð í hávegum, en úr helgidagatölu var hún tekin með kóngsbrèfi 26. October 1770.[4] Þó var Jónsmessunóttin í öllu meiri metum til forna, en dagurinn á eptir, því hún þókti bezt fallin til að fá sèr bæði kraptagrös og náttúrusteina.[5] Þá nótt er og döggin svo heilnæm, að hver sá, sem veltir sèr ber í henni, verður alheill sjúkleika síns, hvað sem að honum geingur. Sömu nótt hafa og heppnazt vel útisetur á krossgötum.

---

1. Sbr. Ferðabók Eggerts og Bjarna. 26. bls.
2. Sjá Lovsamling for Island. I., 575—77. bls.
3. Sjá X., 3. gr., 561. bls.
4. Sama kóngsbrèfið aftók og helgihald á 8 dögum öðrum, sem þángað til hafði verið messað á. Sjá Lovsamling for Island. III., 689—90. bls
5. Sjá t. d. um mjaðurt og lásagras, IV., 2. gr. b., 645. og 646. bls. og um náttúrusteina, IV., 3. gr. inngánginn, 648. bls.

**Þorláksmessa á sumar** var haldin í Skálholti með mikilli viðhöfn alt fram um siðaskiptin, og þókti einhver merkasta hátíð á árinu. Safnaðist þá saman mikill mannfjöldi úr ýmsum áttum að staðnum með hjátrú og áheitum. Mest var þá viðhaft, þegar Þorláksskrín, sem var ágætlega prýtt, og geymdur í helgur dómur (bein) Þorláks biskups í Skálholtskirkju, var borið út og í kríng um kirkjuna og kirkjugarðinn í helgigaungu, með hríngíngum, logandi vaxljósum, kertum og öðrum ceremoníum. Biskupinn og kennilýður allur skrýddist þá hinum bezta messuskrúða, og geingu á undan, og þar á eptir allur mannfjöldinn með saungvum og talnalestrum, og keptist hver við annan að fá að bera skrínið; það kölluðu þeir að „styðja Þorláks hönd.“ Þeir, sem náðu að bera skrínið, eða að gánga undir það, töldu sig þess sælasta og kvitta allra sinna synda. Þegar processíunni var lokið, hèlt Skálholtsbiskup öllum veglegustu veizlu. Við þetta gáfust til staðarins stór fè í heitgáfum og offrum. Það þókti hin mesta nauðsyn, að biskup væri jafnan heima í Skálholti á Þorláksmessu, og fremdi alla biskupsþjónustu þann dag, var hann því svo gott sem lögskyldur til að ríða ekki að heiman í vísitazíu, fyrr en Þorláksmessa var liðin, sem nú er sett 20. Juli í almanökum, í minníng þess, að þá var upptekinn helgur dómur Þorláks biskups úr jörðu 1198, en messan lögtekin ári síðar.[1] Þegar Gissur biskup Einarsson kom til stóls í Skálholti, afnam hann þetta helgihald, bannaði mönnum að koma þar saman í því skyni, lèt þá ekki ná til skrínisins og geymdi það á afviknum stað í kirkjunni.[2] Af þessari pápisku spratt upp aptur annar siður hjá almúgafólki á austursveitum, sem kallaðist „smalabúsreið“. Henni var svo háttað, að ef smalinn, hvort heldur var karl eða kona, geymdi svo vel málnytu á búi, að ekkert af henni misti máls fram til Þorláksmessu á sumri, þóktust smalar eiga sjálfskyldu á að vera sjálfráðir og óháðir húsbændum sínum á Þorláksmessu, og eiga þar á ofan í þokkabót málsmjólkina undan beztu kúnni á hverju búi. Af kýrnytinni gerðu þeir osta, grauta eða vellínga, eptir því sem hver vildi; þetta kölluðu þeir „smalabú“. Síðan riðu smalarnir, dreingir og stúlkur, með smalabú sín um sveitina, fundust hópum saman á ýmsum stöðum, hèldu átveizlur, og höfðu í frammi ósiði og ill læti, og sá sem frakkastur var í þessu, þóktist rækilegast halda Þorláksmessu. Þessi ósiður, segir Jón prófastur fróði Haldórsson, að hafi haldizt fram á daga Odds biskups Einarssonar; því á prestastefnunni á Kýraugastöðum á Landi, 9. Mai 1592, bannaði hann þessar smalabúsreiðir með

1. Íslenzkir annalar. Hafniae, 1847, 80. bls.

2. Eg hefi ánægjanlega vissu fyrir því, að Þorlákskrín var selt á uppboðsþingi (í Skálholti) 1802, og um leið „krossmarkið stóra og Maríubrík.“

annari ósiðsemi og hègiljum.[1] óþ tókust smalabúsreiðar ekki af að heldur með öllu, því þær haldast við enn í dag í Skaptafellssýslu og undir Eyafjöllum, *og eru nú nefndar „smalareiðar“. Að vísu er nú alveg gleymt* samband þeirra við þorlákshelgina, nema að því leyti, að smalareiðin er um sama leyti sumars, sem þorláksmessan forna var, æfinlega 15. sunnudag í sumri, enda heitir sá sunnudagur enn „smaladagur“. Nú hafa smalareiðarmenn eingin smalabú með sèr, en aptur ríða miklu fleiri, og jafnvel alt vinnufólkið af heimilunum, laugardagskvöldið fyrir smaladaginn, og í aðrar sóknir, er á bæum hópum saman um nóttina og við aðrar kirkjur daginn eptir, koma svo heim á hvern bæ í leiðinni, og er þeim jafnan tekið með kostum og kynjum, þar sem þeir koma. Ef ekki er til handa þeim hángið ket („fornket“), er skorin kind fyrir smaladaginn, til að fagna með smalareiðarmönnum. Sumum bændum þykir það jafnvel óvirðíng, ef smalareiðarmenn koma ekki við og þiggja hjá þeim veitíngar, en þótt nokkrum þyki niðrí nóg um yfirferð þeirra og átroðníng; en einginn vill þó verða til að synja þeim gistíngar eða góðs beina. Ekki hafast smalareiðarmenn neitt ósiðlegt að, nema ef það ber við, að þeir verði ölvaðir; en ósvinna þykir það, ef þeir verða svo á vegi staddir, að þeir geti ekki verið við messu smaladaginn sjálfan.

Hèr hnýti eg nú aptan í nokkrum einstökum glaðníngum, sem húsbændur veita hjúum sínum fyrir vel aflokin störf, og „goldnir eru í bitum og sopum“, sem kallað er. þessir glaðníngar eru ekki bundnir við neinn ákveðinn dag, en fylgja þó vissum tímum og verkum, hvenær sem því er aflokið. þrír þeirra fylgja slættinum. Sá fyrsti af þeim er í því fólginn, að þegar búið er „að losa bæinn úr grasinu“, þ. e. búið að slá allstaðar í kríng um bæinn á sumrin, þá á húsfreya að færa þeim, sem það gerir, heilt r j ó m a t r o g með skyri niðrí út í slægjuna, í aukagetu fyrir þetta viðvik. þessi aukageta heitir og „rjómatrog“. Annar glaðníngurinn eru t ö ð u g j ö l d i n, sem húsbændur veita hjúum sínum í minníngu þess, að búið er að alhirða töðu af túnum á sumrin, nær sem það er, ýmist sama daginn sem túnin eru hirt, eða næsta sunnudagsmorgun þar á eptir. þessi glaðníngur er eins konar umbun handa hjúunum fyrir aðstoð þeirra og atorku við vallarsláttinn, og er víðast hvar í því fólginn, að gerður er hnausþykkur grjónagrautur og gefinn öllum heimamönnum með smèri útí, eða síropsmjólk útá, sem sumum þykir enn meira hnossgæti. Grauturinn heitir „töðugjaldagrautur“. Sumir hafa þó hángið ket til töðugjaldanna. Tödugjöld eru enn almenn hèr á landi. þá er hinn þriðji glaðníngur, og

---

1. Eg hefi tekið þetta atriði híngað að eptir Biskupasögum Jóns prófasts Haldórssonar, eins og J. Espólín hefir einnig gert, sbr Árb. Ísl. IV., 24.—25. bls. og V, 66. bls. En það, sem hèr segir á eptir um smalareiðar, er tekið eptir sögn herra Jóns Guðmundssonar og húsfrú Hólmfríðar þorvaldsdóttur.

heitir hann slægjur. Svo stendur á þeim, að þegar bóndinn er búinn að ná inn öllu heyi sínu á haustin, eða alhirða útengi, og er hættur við slátt það sumar, sker hann kind heldur væna, en þó fer það eptir því, hvað margt fólk hann heldur, því sumstaðar nægir til þess lamb, og því er kallað „slægnalamb“,[1] þar sem sumstaðar veitir ekki af 2 kindum vænum;[2] lætur hann svo sjóða kindina upp úr skinni, en þó er það sumstaðar siður, að hvorki er til þess hafður innmatur nè svið, sem er þá nýtt og neytt seinna, og skamta ketið öllu fólkinu í minníngu þess, að slættinum er aflokið. Slægjur held eg hafi verið miklu tíðari á suðurlandi en norðurlandi, og víst er um það, að þær eru hvergi nærri orðnar eins almennar nú, og töðugjöldin, en ná þó til allra heimamanna, þar sem þær tíðkast á annað borð.[3]

**Smalagollur.** Víða er það enn siður, að gera smölunum einhverja minníngu fyrir trúa geymslu sauðfjárins á sumrin, og hefi eg heyrt, að það væri með þrennu móti, síðan smalabúin hættu. Það er víða siður enn, að gefa smölunum „stekklamb“ á vorin, sem bóndinn tekur af smalanum á haustin, og fóðrar fyrir hann fyrir ekkert veturinn eptir; þetta geingur svo koll af kolli, og opt eru þessi stekklömb eða „smalalömb“[4] fóturinn undir bústofni smalans á síðan, ef hann er samhaldssamur. Í Múlasýslum hefi eg heyrt, að það væri siður, að smalar mættu eiga málsmjólk allra ánna á Mikaelsmessu, og gera það við, sem þeir vilja;[5] en mjög víða er það siður að gefa þeim gollurinn úr vænstu kindinni, hrútnum eða sauðnum, sem skorinn er að haustinu. Íslendíngar þekkja að vísu allir, hvað gollur er, en þó skal eg skýra glöggar frá því. Í gollurinn er haft bæði gott ket og mör af kindinni, og er hvorttveggja látið í „gollurshúsið“, sem er himna sú, með allri fitunni á, sem er utan um hjartað; gollurshúsinu er snúið um, áður en þetta er í það látið, sem nú var sagt, síðan er saumað fyrir það og soðið með öllu saman. Þessa glaðníngs nýtur smalinn einn, en einginn annar; því er það kallaður „smalagollur“.

---

1. Sjá Ferðabók Eggerts og Bjarna, 25. bls. sbr. slagasauð í Ólafs sögu helga, c. 195 (F. M S., V., 62. bls.)

2. Heyrt hefi eg, að Magnús konferenzráð Stephensen í Viðey hafi jafnan látið skera 2 vænar kindur í slægjurnar.

3. Ýmislegt er það fleira, sem tína mætti til um sláttinn ekki ómerkilegt. Það er til dæmis haft eptir tröllkonu einni. minnir mig, að hún hafi sagt: „Láttu ekki á ljá þína lánga, en láttu lánghalann (hrífuna?) gánga,“ og: „Seint geingur á hólmalausan völl og oddalausa gæru.“ Við þenna sannleika kannast bændur fyllilega, og því gera þeir það sumir, sem ekki mæla hverjum sláttumanni út völl sèr, að setja þá í einlæga hólma, til að láta þá reyna sig. En fari svo, að sláttumaður eigi nokkuð eptir óslegið af hólmanum, þegar hann fer heim að sofa, „verður hann hólmaskítur“. Ef alhirt er, hvort heldur er á túni eða eingjum. svo ekkert strá sè eptir úti óhirt, eða með öðrum orðum, ef „hirt er að orfum“, er það kallað að „Loki skíti í teiginn“.

4. Sbr. Ferðabók Eggerts og Bjarna, 25. bls.

5. Svo hefir Björn alþíngismaður Pètursson frá Valþjófstað sagt mèr.

**Þófarabiti.** Þar sem tóvinna er mikil til sveita, og unnar bæði voðir og prjónles, þarf opt á því að halda, að þæft sè. Ef lítið er þæft í einu, til dæmis vetlíngar eða sokkar, er það þæft milli handanna; ef það er nokkru stærra en svo, að því verði komið milli handanna, er þæft annaðhvert í trogi eða undir bríngunni.[1] Sè það enn stærri voð, sem þæfa á, er hún þæfd undir fótunum, og sú aðferð er algeingust á norðurlandi, og gerir alt þetta einn maður, eða kona, ef ekki er mjög stór voðin. En á suðurlandi er optar þæft í tunnu, og gera það ekki færri en tveir.[2] Sá, sem þæfir, heitir þófari, og fær hann, eða þeir, ef tveir eru, æfinlega einhvern glaðníng auk matar síns fyrir þófið; sá glaðníngur heitir „þófarabiti". Þenna formála skal þófari iðulega hafa yfir í hálfum hljóðum, á meðan hann er að þæfa, svo að honum gángi þófið:

„Bárður minn á Jökli,[3]
leggstu á þófið mitt.
Eg skal gefa þèr lóna
[og íleppana[4] í skóna,
vetlíng á klóna,
þegar eg kann að prjóna,
nagla-brot í bátinn þinn,
hálfskeifu undir hestinn þinn,
mórautt lamb og gimburskel,
og meira, ef þú þæfir vel."

Þá eru enn vefjarbiti og húsbiti. Vefjarbitinn er gefinn vefaranum, þegar hann hefir felt af hverja voð; en húsbitinn er sá glaðníngur, sem þeim er gefinn, sem stínga og bera tað úr fjárhúsum út á tún, hvort heldur er á vetrum eða vori. Hvortveggja er aukageta, sem gefin er auk matar, þeim sem verkið vinna.

Loksins er þá eptir að minnast vistarbitans og velferðarbitans. Svo stendur á með hinn fyrra, að hann er gefinn hjúi því, sem ræðst til húsbænda af öðrum bæ, en ekki þeim hjúum, sem árinu áður hafa verið í sömu vistinni, þó þau sèu ráðin heima. Sumir húsbændur hafa haft það bragðalag, að gefa því hjúi, sem þeir hafa viljað ná í vist til sín, ósnikilega að borða, þegar það hefir komið gestkomandi á bæ þeirra, helzt ef þeir hafa haft grun á að hjúið mundi gángast fyrir slíku. Síðan hafa þeir borið upp við það vistarráðin, og ráðist þá hjúið til þeirra, gefa þeir því drjúgan bita með sèr, þegar það fer aptur heimleiðis. Dæmi eru til þess, að þeir húsbændur, sem ekki skera alt upp á nöglurnar á sèr, hafa þá lagðað hjúið með heilu sauðarfalli. Það heitir „vistarbiti", sem hjúinu er gefið með sèr.

---

1. Brínguþóf held eg nú sè að mestu aflagt.
2. Sjá myndina af tunnuþófi í Olavii Reise og lýsínguna á þófaðferðum þar, 634.—37. bls.
3. Það er sjálfsagt Bárður Snæfellsás, sbr. Fornrit XXVII, 16. bls.
4. frá [ hafa aðrir: „innan".

Á velferðarbitanum stendur öðruvísi, en á öllum hinum glaðníngunum, sem áður eru taldir; því hann gefa vermenn þeir, sem fara til vers, af útgerð sinni, og ekki húsbændurnir. En útgerð heitir það, sem vermönnum er feingið með sèr að heiman í matvælum til vertíðarinnar, t. d. sauðarkrof eitt eða meir af hángiketi, 4 eða 5 fjórðúngar smèrs, og kökur og brauð að því skapi. Vermenn láta jafnan sjóða nokkuð af ketinu í nestið handa sèr, áður en þeir fara að heiman, og eptir því meira eða minna, sem þeir eiga leingri eða skemmri leið fyrir höndum. Þegar búið er að sjóða fyrir þá, gefa þeir, áður enn þeir fara af stað, hverju mannsbarni á heimilinu bita af nesti sínu, ket og köku og við henni. Þetta er kallaður „velferðarbiti“, og mun hafa verið og vera enn gefinn, þar sem hann annars tíðkast, í því skyni, að þeir, sem heima væru eptir, óskuðu vermanninum velförnunar, og árnuðu honum alls góðs, meðan hann væri burtu í verinu, svo að í þessari venju liggi lík hugsun, og því sem Glúmur sagði við Þjóstólf: „Án er illt gengi, nema heiman hafi.“[1]

1. Sjá Njálu, Cap. XVII, 27. bls.

